„*krisma*" (135, 1); „konur ok kennimenn" les „*kór* ok kennimenn" (140, 7). Það mun mega fullyrða, að 205 og 384 sè frá einni skinnbók komin; munrinn er enginn í frásögn, og mun allr vera sprottinn af gálausum lestri[1], einkum hafi skinnbókin verið forn og óljós, sem út lítr fyrir, því stundum finnast fornar orðamyndir: „*of*" f. „*um*" o. s. frv., enda er og ekki víst um hvorugt handritið, hvort það er á fyrstu hönd frá skinnbókinni; 384 mun naumast vera á fyrstu hönd ritað, en gæti verið skyndiskript af annarri góðri afskript, sem nú væri glötuð. Frumbókin mun hafa verið fyrir vestan og í höndum Jóns Gizurarsonar, og mun hún snemma hafa glatazt. Þorlákr biskup hefir aldrei orðið hennar handhafi, og hefir hún því ekki verið á sömu bók og Húngrvaka, en sira Jón Ólafsson á Rauðasandi hefir tvíritað hana eptir afskript Jóns Gizurarsonar (AM. 206, 210), um leið og hann ritaði Húngrvöku, sem er á sömu bókinni. Frá 205 eru enn fremr komin handritin 204 folio, og 389 í 4to. — Um Pálssögu er sama að segja og Húngrvöku, að frumbókin hefir víða verið röng, og veldr því einkum hinn fábreytilegi sögublær, og að orðfærið er stundum torskilið. Að færa allt til rètts máls ætlum vèr nú varla unnt, því afskriptir vorar eru ekki svo góðar sem óskanda væri. Sagan hefir áðr verið útgefin ásamt Húngrvöku, sem áðr er greint (Kmh. 1778. 8vo), og er Pálssaga þar miklu síðr úr garði gjör en Húngrvaka; það lítr svo út, sem óvaldir menn hafi unnið að Pálssögu, en ekki Hannes biskup eðr hans makar; sagan er þar gefin út eins og hèr, eptir 205, en án þess að leiðrètt sè eptir 384.

Þorlákssaga hin elzta er, sem hinar áðrnefndu sögur, til vor komin frá einu handriti, en það skilr, að þessi skinnbók er enn til í heilu líki, en það er stór bók í folio, sem nú finnst í Stokkhólmi Nr. 5 folio í hinu íslenzka handritasafni, ágæt bók;

---

1) Til dæmis má nefna bls. 142 athgr. 3 og bls. 141 athgr. 5 (ótta ifa), að frumritið sè eitt fyrir báðum; ritarinn hefir af vangá fyrst ritað *ótta* en síðan *ifa*, en gleymt að strika fyrra orðið út.

þessi bók er alls 71 blað, í tveim dálkum ritin og 40 línur í dálki; á bókinni eru tvær handir, hin fyrri höndin, sem fyrri helmíngr bókarinnar er ritaðr með, endar neðst á bls. 96, en hin höndin nær síðan bókina út. Á bókinni er: 1) Guðmundar saga biskups eptir Arngrím ábóta (blað 1—47); 2) Jóns Hólabiskups á 11 blöðum; 3) Biskupatal, ábótatal o. s. fr. (sjá bls. 254, athgr. 1) á 2 blöðum; 4) þorlákssaga á 8½ bl. 5) Játvarðarsaga á 2¼ blöðum; síðustu 3 dálkarnir í bókinni eru auðir, og svo fyrsta síðan, og eru á hana dregnar tvær biskupamyndir (Guðmundar skript og Jóns skript helga, eða þorláks?). Um aldr bókar þessarar ber biskupa og ábóta talið beztan vott. Af biskupum í Skálholti nefnir hann síðastan Gyrð, sem var biskup 11 ár (1349—60), og segir að hann væri biskup IX ár; sè nú þetta ekki ritvilla fyrir XI, þá ætti bókin að vera rituð 1359. Af ábótum er enginn síðar nefndr en Eyjólfr Pálsson í þykkvabæ, er var ábóti 1352—77. Bókin mun því vera rituð um 1360, og hönd og stafsetníng hennar er því og að öllu samkvæm, að hún væri frá þeim tíma; bókin er vel rituð; stafsetníngin rèttgóð, en í stöku hlut kynleg, t. d. val fyrir vel, o. s. fr. Bók þessi mun um miðja 17. öld hafa komið frá Íslandi til Stokkhólms (um 1660), en hvaðan af landi hún sè komin, af því höfum vèr engar spurnir; en af líkum getum vèr þó ráðið, að hún sè að vestan komin, því Jón Gizurarson hefir um 1640 haft bókina milli handa, og ritað upp úr henni þorlákssögu og Jónssögu, og finnast báðar þessar afskriptir í hinni áðrnefndu miklu sögubók Jóns, AM. 205 í folio. Ábóta og biskupa tal, sem og Játvarðarsaga, finnst einnig með hendi Jóns ritað upp úr Stokkhólmsbók, og hefir það í öndverðu staðið í sömu bók og Nr. 205, en Árni hefir síðan skilið það að. Að þorlákssaga í 205 sè rituð eptir Stokkhólmsbók, um það ber og textinn ljósan vott, t. d. bls. 104 athgr. 5—6 og bls. 112 athgr. 2, og þar sem nú Jón þaraðauki hefir ritað ábótatal og Játvarðarsögu, þá dregr allan efa af því, að bókin hefir í hans höndum verið. Jón Gizurarson er sá eini, sem ritað hefir eptir Stokkhólmsbók; ætlum vèr því auðsætt, að bókin hafi fyrir vestan verið, og snemma

komizt til Svíþjóðar. Eptir 205 er nú rituð þorlákssaga sira Jóns Ólafssonar í 206, sem að framan er getið við Húngrvöku; 209 folio er með hendi sira Jóns í Villíngaholti, og er rituð eptir 205, nema hvað hann hefir sett inn Oddaverja þátt. Pappírshandritin eru því með öllu einskis virði, og var ekki annað fyrir en prenta söguna eptir Stokkhólmsbók einni; það eina sem haft verðr til stuðníngs er þorlákssaga síðasta í AM. 379, því þar er sagan mjög lík hinni elztu.

þar geta naumast leikið tvímæli á, að allar þessar þrjár sögur sè ritaðar af einum og sama manni; Pálssaga og Húngrvaka eru að orðfæri og öllum sögublæ einsog sambornar systr, og sögublærinn og orðfærið er jafnan í þeim efnum hinn ólýgnasti vottr; hinir fornu útgefendr Húngrvöku hafa og hiklaust sagt, að báðar sè eptir sama mann, enda getr og enginn dulizt þess, sem hvoratveggju söguna les. Fágæt orð finnast í báðum, t. d. „at ganga at sölu" (Húngrv. kap. 7 og Páls. kap. 12), „atföng" (Húngrv. kap. 14 og Páls. kap. 5); og ótal eru önnur dæmi; orðið „auðræði" fyrir „auðæfi" er einkennilegt fyrir þessar þrjár sögur (þar sem í þorlákssögu stundum stendr auðæfi, þá mun það vera afskrifaranum að kenna). En hvað þorlákssögu viðvíkr, þá sýnir niðrlag Húngrvöku að hún er eptir sama manninn, þar sem stendr: „Nú er komit at frásögn þeirri, sem segja skal frá hinum sæla þorláki biskupi, ok er þessi saga (þ. e. þorláks saga) hèr samin til skemtunar góðum mönnum." Af þessum orðum má sjá, að þessar tvær sögur eru að kalla má samfastar; Húngrvaka er svo sem inngangr til þorlákssögu. Hvað sögublænum á þorlákssögu viðvíkr, þá verðr að gæta þess, að sú saga er um helgan mann, en allt fyrir það dylst þó ekki ættarmótið. Í Húngrvöku og Pálssögu bregðr opt fyrir spakmælum og orðskviðum, og er þetta eitt kennimark á þessum sögum. Í þorlákssögu er nú hið sama, nema þar eru, sem von er, flestir orðskviðir teknir úr heilagri ritníngu, og hefir höfundrinn verið maðr mjög biblíufastr. þorlákssaga ber hinn sama hógværðar og rósemdar blæ sem

Húngrvaka og Pálssaga, og þó hún sè um helgan mann, þá er hún laus við allan ofsa og frekju[1], og því að öllu samboðin hinum hóglynda og milda höfundi Pálssögu.

Höfundrinn hefir lifað í Skálholti í tíð þeirra Þorláks og Páls biskupa, og það er líklegt að hann hafi og munað Klæng biskup. Húngrvöku ritaði hann, sem hann sjálfr segir, eptir því sem hann hafði heyrt segja Gizur Hallsson, á líkan hátt og Ari fróði hafði fyrrum ritað kristnisöguna í Íslendíngabók sinni eptir sögn Teits, afa Gizurar. Gizuri var kunnast allra manna um staðinn í Skálholti, og biskupa þá sem þar höfðu setið, því bæði var hann manna vitrastr og fróðastr, og mundi 5 biskupa í Skálholti (alla nema Ísleif og Gizur); hann kom í Skálholt í tíð Þorláks biskups Runólfssonar og fóstraði biskup hann, en síðan lifði Gizur langa æfi, og andaðist í hárri elli á dögum Páls biskups (1206; sjá bls. 137 athgr. 1.); hann stóð, sem hann sjálfr segir, yfir grepti fimm biskupa í Skálholti, því var ekki völ á betra sögumanni en honum. Höfundrinn fer um þetta svofelldum orðum: „hefi ek af því þenna bækling saman settan, at ei falli mèr með öllu ór minni þat er ek heyrða af þessu máli segja hinn fróða mann Gizor Hallsson, ok enn nokkura menn aðra merkiliga hafa í frásögur fært (Húngrv. kap. 1.). Að höfundrinn hafi átt heima í Skálholti, og verið handgenginn Skálholts biskupum, má sjá á sama stað: „ok vita síðan, hverir merkismenn biskuparnir hafa verit, er hèr hafa verit... En þat skyldar mik til at rita, hversu staðrinn hefir eflzt ok magnazt í Skálaholti, eðr um þeirra manna ráð, er hann hafa varðveittan; en (er?) ek hefi með guðs miskun alla gæfu af þeim hlotið þessa heims". Á þessu er að sjá, sem höfundrinn hafi klerkr verið, enda ber og Þorlákssaga þess ljósastan vottinn. Að hann hafi verið á hendi Þorláki biskupi helga sýnir kap. 3 í Þorláks sögu: „ok heyrðum vèr hinn sæla Þorlák þat vitni bera honum, at hann þóttist trautt

---

1) Niðrlag sögunnar, frá: „Páll biskup lèt gjöra skrín" (bls. 124), er sett aptanvið síðar; það má sjá af samanburði við *B* og *C*.

þvílíkan dýrðarmann reynt hafa . . . af því at svá bar opt til, þá er vèr hældum hans háttum góðum, at hann kvað þat vera siðvenjur Eyjólfs fóstra síns, Sæmundarsonar". Í kap. 19 segir einnig: „ok vil ek nú geta nokkurra þeirra orða, er hann (Gizur Hallsson) talaði, ok mèr ganga sízt or minni[1]. Af Pálssögu má sjá, að hann hefir verið mesti ástvinr Páls biskups, og verið heimamaðr í Skálholti um hans daga, t. d. kap. 12: „en ef þat ætla nokkurir menn, at fyrir ástar sakir hafi ek meira af tekit um frásögn æfi ok lífs Páls biskups, en efni sè til seld", o. s. frv.; kap. 14: „en því get ek slíkra hluta við . . . ok þat er mest gæði þeim er eptir lifa"; og kap. 18: „en guðs miskunn fól nú þessa sína hjörð á hendr Pètri postula, áðr vor faðir ok gætandi var frá oss kallaðr"; kap. 19: „en við þat er oss at una, hans ástmönnum er eptir lifum, at hann hefir náliga öll þau gæði eptir sik leift, er menn megu eptir hafa góðs manns ok göfugs: börn virðulig . . . auðr gnógr ok allskyns staðarprýði, flest framkomin, en sum stofnut með góðum efnum", o. s. frv.; kap. 13: „var þat margra manna skylda, lærðra ok ólærðra, at minnast hennar (Herdísar konu biskups) svá rækiliga ok ástsamliga, sem hinna skyldustu náúnga, fyrir sakir margra hennar dýrligra matráða". Á þessum síðustu orðum er að sjá, sem Herdís hafi verið matmóðir höfundarins.

Vèr höfum eitt sinn getið þess, að Þorlákssaga kynni að vera rituð árið 1198 (bls. 331 athgr. 1) en hitt mun þó rèttara, að hún sè litlu síðar rituð. Um Húngrvöku má með vissu segja, að hún muni rituð eptir dauða Gizurar Hallssonar, til þess benda orðin í formálanum, en líklega er sagan þó rituð fyrir andlát Páls biskups, og mun hún vera rituð á árunum 1206—1211. En Þorlákssaga, sem er áframhald hennar, hlýtr þá að vera rituð um sama leyti. Pálssaga mun þar á móti vera síðast rituð, líklega svo sem 1216—20. Þetta sèst á niðrlagi 7. kap. í Pálssögu:

---

[1]) Þessi orð finnast nú reyndar ekki í *St.*, en hafa þó líklega, sem af ýngstu sögunni (*C*) má sjá, staðið í sögunni í öndverðu (sjá bls. 113 athgr. 1.).

„ok var þá síðan tekinn upp ór jörðu heilagr dómr hins sæla þorláks biskups . . . ok fylgðu jarteinir þá þegar þar stórar, sem sagt verðr í sögu hans". það sýna og orðin í niðrlagi 9. kap., að sagan er ekki fyr rituð en um *1216—20*: „eptir því sem ávallt hefir haldizt síðan" (sjá bls. 135 athgr. 6), en það sýna þó orðin í 19. kap.: „oss . . . hans ástmönnum, er eptir lifum", að ekki var langt liðið frá andláti biskups þegar sagan var rituð.

Ekki ætlum vèr að það sè nú unnt að nafngreina höfundinn; í *Pálss. kap. 14 eru nefndir* 5 klerkar, er þjónuðu Páli biskupi, en um sèrhvern þeirra er eitthvað til fyrirstöðu ef vel er að gáð, að hann geti verið höfundrinn, nema ef vera skyldi Ketill Hermundarson, sem var Gilsbekkíngr, og andaðist 1220 sem ábóti á Helgafelli. Ekki getr heldr Ormr Eyjólfsson, kapalín þorláks biskups, verið höfundr sögu hans, því hann andaðist á Hólum 1204. það mun og standa tæpt, sem hinir fyrri útgefendr Húngrvöku geta til, að Magnús Gizurarson, fóstri þorláks biskups, sè höfundrinn. Líkast þykir oss, að höfundrinn hafi hvergi nefnt sig.

þess er enn ógetið, að í þessum sögum þremr er haft einkennilegt tímatal: allt talið 7 árum fyr en vera á. Í Jóns sögu helga eptir Gunnlaug múnk, og í prestssögu Guðmundar góða, er haft sama tímatal, svo og í hinum elztu lesbókabrotum. Í Sverrissögu er og sama tímatal (sjá síðasta kapítula hennar, sbr. það sem hèr er sagt bls. 414 athgr. 5). þetta er reiknúngr, en ekki vangá. Í prestssögu Guðmundar (sjá bls. 415) er þetta tal eignað Beda presti, en eigi höfum vèr getað fundið hvar þetta stendr hjá Beda. þetta tímatal er byggt á því, að sköpun veraldar er talin 7 árum síðar en vanalegt er, og er það hvergi við haft, það kunnugt sè, nema í þessum sögum er nú vóru nefndar, en þær eru allar ritaðar á árunum 1200—1220.

VII-VIII. JÓNS SAGA HELGA hin elzta (bls. 149—202) og Jóns saga helga eptir Gunnlaug múnk (bls. 213—260).

Af Jóni biskupi helga eru þrjár sögur, er vèr merkjum *A*, *B*, *C*. Hin elzta (*A*) virðist vera frumrituð á íslenzku, en mið-

söguna (*B*) hefir í öndverðu ritað á latínu Gunnlaugr múnkr, og er frumritið latínska glatað, en þýðíng hennar íslenzk er til.

Saga Jóns biskups hin elzta (*A*) finnst í þessum handritum: 1) í hinni miklu skinnbók frá Skálholti, í safni Árna Magnússonar Nr. 234 í geysi stóru folio; sú er rituð í tveim dálkum, og 44 línur á dálki, spázíurnar afar miklar, bókfellið er enn hvítt sem traf og mjúkt, og hefir bók þessi verið mjög vönduð að hvívetna, og mun hún í öndverðu hafa verið rituð fyrir Skálholtskirkju, en stafagjörð og stafsetníng sýnir þó, að bókin getr varla verið öllu eldri en frá miðri 14. öld. þar er ritað t. d. *fu* (f), ꜳ (á), *d* og *ð* er ekki ætíð aðgreint, o. s. frv. Bók þessi er nú ekki nema 71 blað í samfellu, og að auk hèrumbil 10 blaðaslitr sundrlaus framan og aptan af bókinni, úr Augustinussögu og *Vitæ patrum*, en í öndverðu mun hún hafa verið miklu stærri. Um bók þessa hefir Árni Magnússon ritað langt mál, enda hafði hann og í úngdæmi sínu hjá Bartholin haft þessa bók milli handa. Árni fer um bókina svo felldum orðum:

„þetta volumen inniheldr:

Antonii sögu, cui principium deest.

Páls sögu postula.

Maríu sögu.

Jóns sögu Hólabiskups.

Augustini sögu.

Fyrrum hafa óefað í þessu sama volumine verið Hieronymi vitas patrum (*ut vocant*) og Thomas saga erkibiskups; hefi eg úr þessum tvennum sögum fengið nokkur fragmenta á Íslandi, og er auðsèð af forminu, kjölgötunum og skriptarlaginu, að þessar sögur hafa nefndu volumini fylgt. það sem nú vantar framan við þetta volumen sýnist ekki muni verið hafa nema eitt kver (ark), og hefir það þá verið upphafið á Antonii sögu; það er auðsèð af köppunum framan til, og enn betr sá eg það þá er eg rakti úr köppunum þráðinn til að festa inn hið fyrsta kverið, sem laust var orðið, að ekki hafa þessar sögur, Vitæ patrum og Thomas saga, verið þar framanvið festar, því þar hefir ekki framan-

við verið nema eitt kver, sem áðr er sagt, og að vísu ekki meira en tvö, ef það svo skyldi vera, og hafa þá þessar sögur verið aptanvið volumen. Að Vitæ patrum og Thomassaga hafi verið aptanvið þetta volumen getr ekki heldr staðizt, þvíað kapparnir sýna þar, einsog framanvið, að þær hafa þar ekki rúm fengið; er svo líkast til að geta, að bókin hafi á ný uppbundin verið, og þessar tvær sögur þá fráskildar, en víst er það, sem áðr er sagt, að þær hafa einhverntíma í þessu volumine verið. Framan á *Vitis patrum* er sú fyrsta síðan auð, hvar af ráðast kann, að til hefir ætlað verið það hún skyldi standa fyrst í volumine. Annars hefir þormóðr Torfason um þetta volumen mèr sagt, að það hafi til forna (eg trúi þegar hann var í skóla, heldr en síðar þá hann á Íslandi var) verið hèrum þverhandar þykkt, og minnir mig hann legði það til, að um það leyti hefði skólapiltar, og kannske aðrir, kippt úr því blöðum til að hafa utanum bækr; kannske hann hafi og sagt, að það hafi verið *initio mutilum* það fyrsta hann það sá, þó man eg það eigi glöggt. . . . . . — þegar eg var hjá Bartholino, nokkrum árum fyrir hans dauða, hafði hann þetta volumen til láns frá Mag. þórði þorlákssyni, las eg það þá í gegnum, og excerperaði úr öllum sögunum, sem þar inni standa, *vetustiores et rariores voculas.* þá var Augustini saga heil og vantaði ekki í. Nú síðar, þá eg fèkk bókina til láns frá Skálholti og hún í annað sinn fór til Danmerkr, þá vantaði eitt blað í Augustini sögu, sem þess í milli hafði úr henni rifið verið á Íslandi. þar eptir barst mèr í hendr helftin af þessu blaði, sem er neðri partrinn, en efri helmíngrinn var af skorinn og burtu. þenna helmíng hefi eg lagt á sinn stað innaní bókina, og til allrar lukku er þessi hin sama Augustini saga heil í öðrum *codice Scalholtensi* í litlu folio (þ. e. AM. 235 folio), hvaðan þessar *lacunæ* kunna að heilu að fyllast, og hefi eg *in altero illo codice* annoterað *in margine* hvar þessar *lacunæ* eru í þessum *codice*." — Á öðrum stað segir Árni um þessa sömu bók: „þessi bók hefir heyrt Skálholts kirkju til fyrir löngu, og verið svo smámsaman rifin í sundr; eg hefi mörg blöð úr henni fengið úr

mörgum stöðum á Íslandi úr ymsum landshornum." Árni Magnússon hefir búið til latínska þýðíngu Jónssögu eptir þessari bók, og finnst sú þýðíng í safni hans, sýnir það að honum hefir sagan þótt merkileg, enda er hún all-fornyrð, og mun trauðlega vera ýngri en frá öndverðri 13. öld, t. d. eyfit = ekki, sem víða finnst í þessari bók.

2) Í safni Árna Nr. 221 folio finnast enn 5 skinnblöð, 4 úr niðrlagi Jónssögu og eitt úr Augustinus sögu. þessi blöð eru með gamalli hendi, líklega frá lokum 13. aldar, og það verðr ekki betr sèð, en að sú bók, sem þessi blöð eru úr, sè einmitt frumrit fyrir 234, orðfærið á Jónssögu er násvipað, og í báðum kemr Augustinus saga næst á eptir Jónssögu (sjá bls. 202 athgr. 2), eru því þessi skinnblöð merkileg, og eru þau höfð til samanburðar það sem þau ná.

3) Í AM. 235 í folio finnst og Jónssaga, en ekki nema tvö fremstu blöðin, því hitt vantar. Bók þessi inniheldr margar helgra manna sögur. Árni Magnússon lýsir svo innihaldi hennar: „1) Af Maria Ægyptiaca hinni bersyndugu, def.; 2) Magnússaga Eyjajarls, stutt; 3) Jóns saga Hólabiskups, vantar mestan hlut aptan af; 4) Pètrs saga postula, vantar framan við; 5) Margrètu meyjar saga; 6) af Martha og Maria Magdalena; 7) *Sancti Olai miracula quædam*, tekin úr sögu hans; 8) Af *Fide, Spe et Charitate*; 9) St. Laurentii píslarvotts saga; 10) Maríu saga meyjar, stutt; 11) Augustini saga (samhljóða og í 234); 12) Mauritii saga; 13) Páls saga *apostoli*, stutt; 14) *Flagellatio crucis in Berytho*; 15) St. Theodori saga; 16) Martini saga Turonensis; 17) Cecilíu meyjar saga". — Á öðrum stað segir Árni: „Bókin er í litlu folio, bandlaus, hefir fyrrum verið eign Skálholtskirkju, *ut puto*". — Bókin er nú 68 blöð, eða rèttara 64, því 4 fyrstu blöðin, með Johannis sögu baptistæ o. s. frv., eru úr annari miklu ýngri bók. Bók þessi er rituð í tveim dálkum, líklega um 1380. þessar tvær bækr, Nr. 234 og 235 í folio, eru einhverjar hinar helztu helgra manna sögubækr í safni Árna.

4) Í ríkisskjalasafninu í Kristjania finnst og eitt blað í 4to úr Jónssögu, en skorið sundr í miðju, og neðan af því. þetta

blað byrjar bls. 153[8] („scipat hia drotnigv") og nær fram á bls. 156, samhljóða Skálholtsbók, en skýtr þar inn þættinum um Sæmund og meistarann, orðrètt sem í sögu Gunnlaugs, og endar þar á orðunum: „ef hann lætr af at leita ockar" (sjá bls. 228[25]). Lector Unger í Kristjania hefir góðfúslega sent oss stafrètta afskript af þessu blaði. Jóns saga hin elzta er því í heilu líki til að eins í einu handriti, en þrjú brot að auk. Hèr er því sagan prentuð eptir Nr. 234, og hin brotin borin saman það sem þau hrökkva.

Jóns saga helga eptir Gunnlaug (*B*) er: 1) í Stokkhólmsbók, sem að framan er lýst (bls. XXIX—XXX), og fyllir hún þar 11 blöð, en þá hættir sagan í miðju kafli og á miðri blaðsíðu, þegar komið er lítið skeið fram í jarteinaþáttinn; byrjar þá biskupatal, o. s. frv. — Að þar vanti aptan við söguna sèst á því, að jarteinir eru ósagðar, sem sagt er framar í sögunni að síðar skuli koma (sjá t. d. bls. 239, sbr. bls. 254 athgr. 1). — 2) Skarð þetta, sem er aptan við söguna, fyllir að nokkru leyti brot það af sögu Gunnlaugs, sem finnst í safni Árna Nr. 219 folio. þessi bók hefir á 17. öld verið rifin í sundr fyrir norðan land, og blöð úr henni fèkk Árni víðsvegar að. Árni segir svo frá:

„Úr Jóns sögu Hóla biskups 3 blöð.
úr þorlákssögu 6 blöð
úr Guðmundarsögu 6 blöð; . . . .

tvö af þessum blöðum fèkk eg 1705 af sira Jóni Torfasyni, vóru komin frá Stórahóli í Eyjafirði og vóru úr þorláks sögu og Jóns sögu; þrjú fèkk eg 1705 frá Mr. Nikulási Einarssyni; vóru öll úr þorlákssögu; tvö blöð úr þorlákssögu fèkk eg *ante annum* 1702 frá Íslandi, sitt úr hverjum stað, norðan frá landinu ef mig rètt minnir; tvö blöð úr Guðmundarsögu hefi eg fengið af Guðmundi Ólafssyni, lögrèttumanni, í Hleiðargarði í Saurbæjarsókn í Eyjafirði, en hann fèkk hjá sira þorsteini Ólafssyni í Miklagarði í Eyjafirði, sem þau fengið hefir, *si recte meminit*, eptir föður sinn sira Ólaf í Grímstúngum. Eitt blað úr Guðmundarsögu fèkk eg 1708 frá sira þorláki Grímssyni, en hann hafði það fengið

hjá nefndum sira þorsteini Ólafssyni í Miklagarði. Eitt af þessum blöðum fèkk eg frá Íslandi *ante annum* 1702. Hin blöðin, sem fleiri eru, hefi eg eigi annoterað, hvaðan til mín komin sè. það ætla eg annars sè víst, að þessi *codex* hafi norðr í landi verið í sundr rifinn". — Enn fremr er til blað úr Jónssögu, sem áðr lá í Nr. 220 folio, en er fært síðan í Nr. 219, þar sem það á heima; um þetta blað segir Árni: „úr sögu Jóns Hólabiskups, komið til mín 1727 frá próf. sira þorsteini Ketilssyni að Hrafnagili í Eyjafirði". — Úr bók þessari eru því nú alls til 16 blöð, og þar af 4 úr Jónssögu; um 2 þeirra vill nú svo vel til, að þau eru einmitt úr jarteinaþættinum, sem vantar í Stokkhólmsbók, og eru þessi 2 blöð því prentuð aptanvið söguna, bls. 254—60. Öll pappírshandrit af Jónssögu eptir Gunnlaug, þau sem vèr þekkjum, eru rituð eptir Stokkhólmsbók.

Um höfund sögunnar má ganga úr öllum skugga hver sè; þegar í formálanum segir svo: „höfum vèr þessa frásögn [segir Gunnlaugr múnkr] . . af oss ellrum mönnum ok meirháttar numit, ok eigi af einni saman vorri ofdirfð ok hvatvísi þetta verk upp byrjat, heldr at boði ok áeggjan verðligs herra Guðmundar biskups". Til þessara orða lítr Arngrímr ábóti í Guðmundarsögu sinni (um 1350), er hann segir svo: „þessi Gunnlaugr componeraði meðr latínu líf hins sæla Johannis fyrsta Holensis; váttar hann þat í *prologo* þess sama verks, at þat efni tók hann upp í fyrstu fyrir bæn eðr boð virðuligs herra Guðmundar Hólabiskups". Enn fremr er á tveim stöðum talað um Gunnlaug, „er latínusöguna (þessa sögu) hefir saman sett (bls. 235, 257). Frumritið latínska er nú glatað, og er að eins til þýðíng sögunnar, en ekki verðr betr sèð, en að þýðíng þessi muni vera nokkuð nákvæm; latínu-blærinn og latínsk setníngaskipan skín í gegnum alla þýðínguna, og opt nefnir höfundrinn sig í fyrstu persónu (e k, v è r), en þá skýtr þýðandinn opt inn: „segir bróðir Gunnlaugr" (bls. 240), „segir Gunnlaugr múnkr" (bls. 215, 235), til að sýna, að það er hann sem talar, en ekki þýðandinn; þetta er mjög siðr í fornum þýðíngum ís-

lenzkum (sjá bls. 235 athgr. 2). Gunnlaugr múnkr minnist þannig á sjálfan sig: „lèt hann (Jón biskup) setja skóla heima þar á staðnum, vestr frá kirkjudyrum ..... hvern vèr sám með vorum augum" (bls. 235), og þar sem segir um lærisveina Jóns biskups (bls. 240—41) segir hann svo: „Allir hinir sæmiligstu kennimenn í Norðlendínga fjórðúngi vóru nokkura hríð til náms at Hólum, þá sem vorr aldr.... mátti muna.... Margir af sagðra meistara lærisveinum önduðust á vorum dögum .... En at ek nefna nokkura sagðra lærisveina, þá er ek sá mínum augum" (síðan nefnir hann Klæng biskup, Vilmund og Hrein ábóta o. s. frv.). Gunnlaugr mun hafa ritað þessa sögu sína á árunum 1203—1208, því eptir það kom hatr milli Guðmundar biskups og hans; en hitt er vandara að segja, nær sögunni muni hafa verið snarað, en vèr ætlum þó að það sè varla fyr en um 1250, og það mætti vera að það væri ekki gjört fyr en á 14. öld; þó er málið allgott. Vèr höfum talið sögu Gunnlaugs ýngri fyrir þessa skuld, heldr en hina söguna um Jón biskup, sem er í skinnbókinni Nr. 234 (*A*), og vèr höfum kallað „hina elztu". —

Um höfund þeirrar sögu (*A*) er tæpt að segja nokkuð með vissu; fyrr en 1200 er hún ekki skrifuð, því þá var Jón biskup helgr gjörr, en varla heldr miklu síðar. Gunnlaugr múnkr hefir ekki ritað hana, því hans tímatal er ekki í henni (Gunnlaugr hefir Húngrvöku tímatal), enda vantar og allt það í söguna, sem er einkennilegt við sögu Gunnlaugs, t. d. um lærisveina Jóns biskups, er Gunnlaugr mundi, söguna um Gils Illugason og um Sæmund og meistarann, en þó er auðsèð að sá, sem síðar ritaði, hefir þekkt sögu hins og lagt hana til grundvallar; mun sagan í Nr. 234 vera eldri, og mætti halda, að Brandr biskup Sæmundarson hefði látið rita hana (um 1200), en Guðmundr biskup síðan sent Gunnlaugi, til að dikta hana á latínu; enda er og mestr þorri að þær segja eins frá. Höfundr Jónssögu hinnar elztu hefir þekkt Íslendíngabók Ara, og ritað stundum orðrètt að kalla eptir henni, t. d. bls. 158; þar á móti verðr ekki sèð að hann hafi þekkt Húngrvöku, en

þorlákssögu elztu hefir hann annaðhvort þekkt, eðr höfundr þorlákssögu hefir þekkt Jónssögu (sbr. t. d. Jónssögu kap. 15 við þorlákssögu kap. 8); er þó hið síðara líkara, því ef þorlákssaga væri eldri, þá verðr ekki sèð hvers vegna höfundr Jónssögu ekki hefði þekkt einnig Húngrvöku, þar sem hún er eptir sama manninn og þorlákssaga, og hefir líklega í öndverðu verið áföst henni. Sögublærinn á Jónssögu hinni elztu er nokkuð svipaðr og á þorlákssögu; orðfærið er fornt og mjög vandað, svo að ekkert er af málsins hálfu því til fyrirstöðu, að sagan sè rituð um 1200, það er enda mjög líklegt að svo sè. Jarteinirnar eru flestar, ef ekki allar, frá árunum 1199—1201, og eru þær í sögu Gunnlaugs, og enda í báðum, sem þáttr sèr. Jarteinaþáttrinn byrjar í elztu sögunni með kap. 23, og í kap. 22 er nokkurskonar niðrlag sögunnar. Brandr biskup lèt þegar, er lýst var helgi Jóns biskups 1198, rita í eina bók á Hólum jarteinir Jóns biskups, jafnótt og þær urðu; og lèt lýsa þeim (lesa þær upp, líklega á þíngi). Eptir þessari bók munu nú flestar jarteinirnar vera teknar í hvorritveggja sögunni. þetta má sjá meðal annars á bls. 192, þar sem segir: „ok þá er Brandr biskup lèt l ý s a jartegnum Jóns biskups, þá vildi hann (Brandr djákn), eigi þessi jartegn lýsa láta" („rita", hefir *C*; sbr. 192, athgr. 4. 6). Til jarteinabókar þessarar er og skýrskotað í Guðmundarsögu á einum stað (sjá bls. 459 athgr. 3). þar segir: „margar ágætar jarteiknir birtust á þeim degi, fyrir verðleika signaðs Johannis, fyrsta í heilsugjöf Brands biskups . . . hvað fyllilega greinist í hans j a r t e i k n a b ó k". þetta lýtr til þess sem segir í Jónssögu hinni elztu, kap. 31—32 (bls. 185- 187). Til þessa mun og það lúta, sem segir í niðrlagi elztu sögunnar (bls. 201): „Nú höfum vèr yfirfarit nokkut af lífi ok jartegnum hins heilaga Jóns biskups, eptir því sem vèr höfum fundit á skynsamlegum bókum ritað, ok haft sumt af skynsömum mönnum ok rèttorðum". þessar „skynsamlegu bækr" geta ekki aðrar verið en jarteinabók Brands biskups, og ef til vill Íslendíngabók Ara, sem höfundrinn hefir ritað sumt eptir.

J ó n s s a g a h i n ý n g s t a (*C*) er og til í safni Árna Nr. 392

4to, og er úr bók þeirri, sem þorlákr biskup lèt rita 1641, og að framan er getið. Frumrit þessarar bókar, sem þorlákr biskup hefir haft, er nú glatað. Sagan er að orðfæri nokkuð ólík hvorri hinna, þó líkari sögu Gunnlaugs; er hún auðsjáanlega eptir henni samansett, tímatal sem í henni, og enda ritvillur finnast stundum hinar sömu sem í Stokkhólmsbók (bls. 158 athgr. 3: ártalið Miij fyrir Mlxxiij; bls. 173 athgr. 1: MCIX fyrir MCXI). því verðr ekki annað sèð, en að sá sem ritaði *C* hafi haft einmitt Stokkhólmsbók eða þá frumrit hennar fyrir sèr. Málið í *C* er á þá lund, að hún getr varla verið eldri en frá miðri 14. öld; en mörg mannanöfn eru fyllri eðr fleiri í henni en báðum hinum, og jarteinir fleiri. Allt þetta, sem einhverjum fróðleik nemr, er sett neðanmáls við *A* eða þá í Viðbæti aptan við *A* (bls. 203—212), en að prenta *C* alla upp þótti oss ógjöranda, því ávallt, er hún segir með öðrum orðum frá en hinar, þá er það lakara, og frásögnin í hinum liggr ætíð til grundvallar.

Af því sem nú er tínt má sjá, að í raun rèttri er ekki til nema ein frumrituð saga af Jóni helga, hinar tvær eru runnar af henni, sumu bætt við og aptr sumt fellt úr, en allr þorri er svo að þær hafa allar eins. Engin af þessum þremr sögum um Jón biskup helga hefir nokkru sinni áðr prentuð verið.

IX. þORLÁKS SAGA HIN ÝNGRI (merkt *B*; bls. 261—332) finnst að eins á skinnbókinni Nr. 382 í 4to í safni Árna Magnússonar. Um þessa bók fer Árni svofelldum orðum: „þessa þorlákssögu fèkk eg á Hlíðarenda af sál. Guðríði Gísladóttur; er það sú, sem eg var til forna að spyrja eptir, og ætlaði mundi tilheyrt hafa Skálholts dómkirkju[1], hvað eg nú sè að eigi hefir svo verið. þessi þorlákssaga var, þá mèr í hendr kom, innsaumuð með þveng í óhryssilegt ljótt leðr, hvað eg þar utanaf

1) Um þetta segir Árni á öðrum stað: „þorlákssögu helga fragment membr. á 18 blöðum skrifar Mag. Björn mèr að fylgi Skálholtskirkju." þessa þorlákssögu hefir Árni aldrei fengið, og 382 getr það ekki verið, því hún er 36 blöð og öll vel lesandi, og komin frá Hlíðarenda. Hætt er því við, að á þessum 18 blöðum hafi eitthvað annað staðið en þorlákssaga.

tók. þeir samanbundnu geirarnir eru *reliquiæ* tveggja arka, sem *barbará manu* eru skorin aptan af bókinni, og hèr fyrir utan var síðast í bókinni einn þvengr, sem haldið hafði einu arki, sem með heilu líki er nú burtrifið, en þvengrinn orðinn tilbaka. Eigi höfðu í þessu innsaumaða bandi nokkurntíma fleiri örk verið, hvað eð auðsèð var af götunum í hryggnum; vantar svo aptan við bókina:

1) síðara hlutann aptan af síðasta arkinu, sem heilt er framantil;
2) tvö örkin, hverra hryggir eru tilbaka, hèr samanbundnir;
3) það síðasta arkið, sem ekkert er tilbaka af."

Í bókinni liggja nú alls 8 arkir eða 36 blöð, því að annað og þriðja hvert blað vantar; en í heilu líki hefir sagan eptir sögn Árna þá verið 11 arkir eða um 86 blöð. þeir tveir samanbundnu geirar, sem Árni talar um, eru í annáls-handritinu AM. 420 í 4to, en þar verða ekki lesnir nema 2 stafir eða 3, sem víða standa eptir á jaðrinum, og verðr að eins sèð að þorlákssaga nær út báðar þessar arkir; vantar því aptanvið söguna: 5 síðustu blöðin af síðustu örkinni og 3 arkir heilar, eða undir 30 blöð, en af bók þessari finnst engin afskript, hvorki fyr nè síðar. Höndin á skinnbókinni er ágæt og sett, líklega frá fyrra hluta 14. aldar; 23 línur á síðu hverri. Upphafsstafr sögunnar er vel uppdreginn; við stafsetnínguna er það helzt að athuga, að ritað er ávallt: *ifir*, *mindi*, *skildi*, *firir*, *þikkir* (= yfir o. s. fr.); *d* og *ð* eru optast aðgreind; *ꜵ* finnst stundum. Fyrsta blaðið í fyrstu örkinni hefir líklega staðið autt, en á 3. blaðs. er latínska kvæðið: *Præsul Thorlace* o. s. frv.; — á 4. bls. byrjar sagan sjálf.

þessi þorlákssaga er að mestu bygð á hinni fornu sögu, en breytir þó orðfæri nokkuð að mun víða. Sagan er svo undir komin, að oflítið þótti sagt frá í hinni fornu sögu frá staðamálum þorláks biskups ok deilum hans við Jón Loptsson og þá Borgfirðínga. Höfundr hinnar fornu þorlákssögu var ástvinr Páls biskups, og ritaði söguna að honum lifanda, eptir því sem næst verðr komizt, og líklega að hans fyrirsögn. það var því að vonum, þó hann sneiddi hjá deilum þorláks biskups við Jón Loptsson, föður Páls biskups, og um samfarir þeirra Jóns og

Ragneiðar; hann getr þessa þar mjög hógliga með þessum orðum kap. 4 (bls. 92): „ok hafði hann mjök lánga skapraun af þeirra háttum, er eigi váru eptir hans skaplyndi; en þó kom þat til góðra lykta um síðir, með guðs miskunn ok góðu tilstilli þeirra manna, er lut áttu í, ok góðvilja þeirra sjálfra"; og kap. 15 (bls. 107): „Þorlákr biskup rauf þau ráð öll á sínum dögum, sem hann vissi at ólögum ráðin vera, hvárt sem lut áttu í meiri menn eðr minni. Eigi varð hann við suma menn nè höfðíngja með öllu samhuga" o. s. fr. En þegar nú á 13. öld óx klerka ríki, þá var von að þessi frásögn þætti mjög svo ónóg, og þótti sem af honum væri dregið hið mesta lof hans, er ekki var getið um staðadeilur hans. Þessa getr höfundr miðsögunnar sjálfr í formála sínum (bls. 264): „þat dregr oss mjök til at skrifa líf ok jarteignir þessa virðuligs herra ok andaligs föður, at í fornum framburði sögunnar virðist oss hann varla hafa verðuga minníng af þeim þrautum ok meingerðum, sem hann hefir þolat af sínum mótstöðumönnum, þeim sem upp vóru á kirkjunnar skaða í hans biskupsdómi, ok af þessu efni þikkir oss minna talat en vèr vildim. En sá góði maðr, sem í fyrstu hefir söguna setta" o. s. fr. Allr þorri sögunnar er þó sem í hinni fornu sögu, en orðfæri lítið eitt vikið við og svo skotið inn greinum hèr og hvar; hinar helztu eru: 1) Prologus sögunnar; 2) endir 10. kap.; 3) tvær smágreinir um staðamál, bls. 275 (sbr. athgr. 1—2); 4) lítil grein um skriptaboð, bls. 277 (sjá athgr. 2); 5) allr Oddaverjaþáttr með formála, bls. 280—293; 6) greinin bls. 300—1 (athgr. 1). — Í frásögninni eptir dauða Þorláks biskups, kap. 31 ff. (bls. 299 ff.) er frásögnin betri og fyllri en í gömlu sögunni, einsog hún stendr í Stokkhólmsbók, t. d. ræða Gizurar, og er illa að hèr vantar í 382, svo að fyrir það vantar upphaf ræðu Gizurar; þó er sagan hèr varla óbreytt, sem hún var í öndverðu, að vísu eru fallin út orðin: „ok vil ek geta nokkurra orða hans, þeirra er hann talaði, ok mèr ganga sízt ór minni," sem bls. 299 er vísað til að í gömlu sögunni hafi staðið. Jarteinirnar eru framantil miklu betri hèr, og skipulegri, og eptir rèttu tímatali, einsog þær hafa staðið í jarteinabókum þeim, sem Páll biskup lèt upp-

lesa. Síðan, þegar fram eptir dregr, er hèr ekki sett nema stutt ágrip af jarteinunum, og þegar þess er gætt, að aptanvið bókina vanta nærfellt 30 blöð, þá er líklegt að hèr á hafi verið ágrip af öllum jarteinum þeim, sem menn höfðu þá spurn af.

Ekki verðr með vissu sagt, nær sagan muni rituð, helzt af því að seinasta hlutann vantar. Þar sem segir bls. 281: „bjó þar (á Rauðalæk) Ormr hinn gamli", þá er það vottr þess, að sagan sè rituð um eða eptir daga Orms Svínfellíngs, því fyr gátu menn ekki nefnt Orm gamla. Ormr Svínfellíngr bjó á Svínafelli árið 1222 en var þá úngr, og hann andaðist 1241; sagan er því varla rituð fyr en um 1230. Orðfærið á Oddaverjaþætti er nokkuð svipað og á Árna biskups sögu, en þó þorum vèr ekki að segja, að báðar muni vera eptir sama mann, og líklega mun þáttrinn vera ritaðr áðr en Árni biskup af nýju hóf upp staðamál, því höfundrinn mundi varla hafa getað gjört að sèr að nefna það, en í þættinum finnst engin bendíng í þá átt, en líklegt er að höfundr Árna biskups sögu hafi þekkt Oddaverjaþátt; beri menn saman kap. 18 við kap. 6 í Árna biskups sögu, þá lítr út sem svo sè. Orðfærið á formálanum og svo ýms orðatiltæki, sem t. d.: „tala með e—n" (bls. 286) virðist sanna, að sagan sè varla eldri en 1250; getgáta vor bls. 113 athgr. 1, að sá sem *B* setti saman hafi munað Þorlák, mun því varla rètt vera.

Hinar mörgu eyður, sem eru í 382, eru fylltar eptir hinni ýngstu Þorlákssögu, sem vèr höfum svo kallað (merkt *C*), af henni eru til ekki allfá handritabrot, þar sem elzta sagan (*A*) og miðsagan (*B*) hvor fyrir sig finnst að eins á einu handriti. Þessi ýngsta saga er þó raunar ekki annað eðr meira, en hin gamla saga (*A*), heldr er hún að kalla orðrètt skrifuð upp, og hleypt úr klausum á stöku stað. Eptir kap. 17 (bls. 110, athgr. 1) er skotið inn Oddaverja þætti. Þegar aptr í jarteinirnar kemr, þá er alveg fylgt *B* að efni og röð, en miðr orðað þar sem þær skilr á, og sumum jarteinum sleppt úr. Eptir kap. 43 (bls. 315, sbr. bls. 332 athgr. 1) þar sem *A* endar, kemr nú í *C* jarteinabók Þorláks hin elzta, að mestu orðrètt sem hún er hèr prentuð

bls. 333—356 (sjá bls. 315 athgr. 4, og 333 athgr. 1); þar næst kemr nýr jarteinakafli, sem hèr er prentaðr í Viðbæti Nr. III (bls. 375—391). þessi síðasti jarteinakafli er það eina sem er nýtt í þessari sögu; hafa þessar jarteinir, sem í honum standa, 26 að tölu, flestar gjörzt um 1300, og hin síðasta árið 1325, og mun bókin það ár vera samansett; að því sama lýtr þar sem segir í *C* (sjá bls. 266): „var þá fyrr komit til þíngs en nú," og sýnir það að *C* er samansett eptir að Jónsbók var út gefin. því þótti oss ekki hlýða að prenta alla þessa sögu, að ekkert er nýtt í henni, fyrir utan þenna síðasta kafla hennar; vèr höfum frumritin sjálf fyrir hinu öllu, svo sem þorlákssögu elztu, jarteinabókina gömlu (Nr. 645) o. s. fr. — Af handritum þessarar sögu er ekkert heilt, nema skinnbókin í safni Árna Nr. 379 í 4to; það er sama bókin sem Húngrvaka er prentuð eptir, og getið er að framan. Skinnbók sú, sem þorlákr biskup hefir látið rita þessa bók eptir, er glötuð; pappírshandritin 380 í 4to (skrifuð 1641) og 204 folio eru alveg samhljóða henni. Enn fremr eru til 6 blöð af sögunni í AM. 219 folio, sem lýst er að framan bls. XXXVIII—XXXIX, og þar á meðal niðrlag sögunnar (sjá bls. 385 athgr. 2 og 391 athgr. 2). Sagan í 219 er samkynja og sú í 379, en þó af öðrum handritaflokki, og stundum lítið eitt frábrugðin í orðfæri, en sem þó nemr litlu. Ennfremr eru í Nr. 383 4to tvö smábrot (4 blöð), sín tvö úr hverri bók (merkt 383³⁻⁴); annað þeirra kom í góðar þarfir til að fá rètt mál úr greininni um Steina prest (bls. 285); svo er og til lítið skinnblað í 8vo í AM. 385 4to, er byrjar bls. 380, og er það ekki hagnýtt við útgáfuna, enda er þess helzt að geta um það, að það les „Runólfr" (fyrir „Örnólfr") í sögunni um jarteinina í Hítarnesi (Viðb. III, kap. 9, bls. 380). Öll þessi brot munu vera frá síðara hluta 14. aldar.

Af því sem nú er tínt má sjá, að af þorláki biskupi er ekki til nema ein frumrituð saga (*A*); hinar tvær eru gjörðar eptir henni, og *C* fylgir henni orðrètt allvíðast. Höfundr miðsögunnar, sem verið hefir orðfær maðr, víkr orðunum nokkuð svo við á ymsum stöðum, svo sagan fær í *B* nokkuð annan blæ en í *A*, þó efni og orð sè í raun hið sama. Að vèr nefn-

um þrjár sögur er því að eins gjört með tilliti til samsetníngar og viðauka, þó mestr þorri sè sagðr eins í öllum þremr.

Nú er komið að því, að segja frá jarteinabókum þorláks biskups, þeim sem enn eru til og prentaðar eru aptan við sögu hans (bls. 333—91). Af öllum helgum mönnum var enginn Íslendíngum ljúfari til áheita en þorlákr, og slíkr ástgoði varð hann mönnum til ákalls, að allir þóttust finna raunabót, er á hann hètu, ríkir menn og óríkir, í hverskonar vanda er þeir vóru staddir. Allar jarteinir þorláks bera góðmannlegan og hógværan blæ, og bera þess ljósan vott, að trúin á árnaðarorð hans var af heilum huga runnin, og grandaminni en vant er að vera í slíkum efnum. þorlákr biskup var hinn fyrsti maðr á Íslandi, er vart yrði við helgi hans, en Noregr, Danmörk, Svíþjóð og Orkneyjar höfðu um langa æfi haft sína helga menn. Hinir helgu menn kómu í stað landvættanna gömlu, og bænir þeirra trúðu menn að hèldi löndunum uppi. Á tólftu öld urðu Íslendíngar að bjargast við að ákalla Ólaf helga, Magnús Eyjajarl eða Hallvarð; vóru það því góð umskipti þegar biskupsstólarnir á Íslandi fengu sinn helgan mann hvor; tign stólanna og vegr landsins og frelsi kirkjunnar varð að aukast en ekki þverra við það, að nú þurftu menn ekki lengr að gjöra heit sín til erkistólsins í Niðarósi eðr erlendra dýrðlínga. Helgi þorláks kom fyrst upp norðanlands, en Páll biskup tók þessu máli seinlega í fyrstu, en fyrir eggjan og aðhald Brands biskups og Norðlendínga vóru þó leyfð áheit við þorlák biskup á alþíngi 1198. Á þessu sama þíngi urðu 9 jarteinir, og frá þínglausnum, á þremr vikum hinum næstu, fram að 20. Juli 1198, sem er upptökudagr þorláks biskups, urðu 26 jarteinir; lèt Páll biskup allt rita í eina bók jafnótt; en menn kómu nú í Skálholt svo ört af öllu landi, að hann hafði varla við að láta skrifa. Frá 20. Juli 1198 og þar til á þíngi næsta ár (1199) eru tilgreindar 40 jarteinir. Á þessu þíngi var lýst helgi þorláks, og lèt þá Páll biskup lesa upp jarteinabók þá er hann hafði jafnótt skrifa látið. þessi bók er enn til að mestu, og er það eitthvert hið elzta íslenzkt handrit, og finnst í safni Árna Nr. 645 í 4$^{to}$. þetta

sèst á 41. kap. í bók þessari (bls. 352) þar segir svo: „Á alþíngi þessu enu sama (1199) lèt Páll biskup ráða upp (at lesa) at bæn manna jarteinir ens sæla Þorláks biskups, þær er hèr eru skrifaðar á þessi bók". Árni Magnússon fèkk handrit þetta að norðan, og mun það fyrrum hafa verið eign Múnka-Þverár klaustrs. Árni lýsir því þannig og innihaldi þess, bæði á blöðum með handritinu sjálfu og í Nr. 435 í 4to fol. 17b:

„Miracula nonnulla sancti Thorlaci ([kannske] aptan af Þorláks sögu).
Acta sancti Clementis Romani.
Acta et passio sancti Petri apostoli.
Passio sancti Jacobi apostoli.
Passio sancti Bartholomæi apostoli.
Passio sancti Mathæi apostoli.
Passio sancti Andreæ apostoli.
Acta sancti Pauli.
Niðrstigníngarsaga Christi.
De sancto Martino.
[Qvarto minori; codex pervetustus, sed (quod dolendum) mutilus]. —

Postulasögur Qvarto, með æði gamla og vanda skript, segir Guðbrandr Björnsson verið hafa í sínu barndæmi á Múnka-Þverá, og hafi þær enginn lesið getað fyrir utan einn mann þar í Eyjafirði, það eru líklegast þær eg á: membrana majori 8vo. — Ari fróði ætla eg hafi verið með sama skriptarlag sem þessi bók"; — en Íslendíngabók Ara, sú er til var á 17. öld, ætluðu menn að væri eiginhandarrit Ara (frá hèrumbil 1135), og svo gömul er höndin á 645, að væri ekki jarteinir Þorláks þar á, mundu menn ætla þá bók vera frá 12. öld, en sökum þessa þá getr hún ekki eldri verið en 13. Marts 1200, því þann dag varð síðasta jarteinin, sem í bókinni er sögð, en vèr ætlum og að bókin sè það ár rituð. Mætti til geta, að Páll biskup hafi á þessum vetri látið gefa út jarteinabókina, en 6 síðustu kapp. (41—46) ber að álíta sem viðbæti. Sá sem árið 1325 hefir sett saman hina ýngstu Þorlákssögu (*C*) hefir haft fyrir sèr þessa

bók, þó ekki sjálfa 645, heldr systur hennar, sem sjá má af orðamun þeim sem er á milli þeirra. Af 645 eru nú eptir 56 blöð; á 11 fremstu blöðunum eru jarteinir Þorláks, og stendr á heilli örk að framan, svo framanvið vantar eina örk heila eða fleiri, og munu jarteinir Þorláks varla hafa staðið fremst, því framan við þær ætlum vèr að vanti eigi meira en 3—4 blöð; það getr verið, að í bókinni hafi staðið jarteinir þær 9, sem urðu á alþíngi 1198, og svo þær 26, sem urðu þrjár næstu vikurnar, og ef til vill sagan um upptöku Þorláks 20. Juli, en nú byrjar bókin í miðri jarteininni um Grím bónda og Holtavatn, en sú jartein varð um mitt sumar 1198, og er upphafið fyllt eptir *C* (sjá bls. 333 athgr. 1.). Hitt getr ekki verið, að Þorlákssaga hafi öll verið á þessari bók, það sýnir frásögnin, að þetta er jarteinabók en engin saga, og þar að lúta orðin í kap. 41, enda mundi og, væri það saga, einhver niðrlagskapituli standa við lok hennar, en svo er ekki. Þorlákssaga mun og heldr ekki hafa verið samin þegar 645 var rituð. 645 er hèr prentuð stafrètt í Viðbæti I. bls. 333—356, en þó leyst úr böndum. En bandstafi alla sem í bókinni eru (*af*, *Ns*, *ar*, *þs*, *nd* o. s. f.) höfðum vèr ekki letr til að sýna, fyrir utan ŋ. Um stafsetníng bókar þessarar þurfum vèr því fátt að tala, hún er forn í hvívetna; hún tíðkar mjög -iþ -aþ -uþ (hafiþ, segiþ); þetta mun frá öndverðu hafa verið framburðr á Íslandi, og finnst í elztu handritum, en síðar fóru menn að tíðka -it -at -ut. Þar sem nú í bókinni er band fyrir þessum samstöfum, þá höfum vèr leyst það upp í -it -at -ut, nema ef síðasta samstafa hefir að niðrlagi *t* (t. d. leitiþ). Bandið ʼ höfum vèr ætíð leyst upp -er, t. d. seger.

Önnur jarteinabók Þorláks biskups (Viðb. II., bls. 357—374) er hèr prentuð eptir AM. 379: skinnbók Þorláks biskups Skúlasonar, þeirri sem að framan er getið; þar standa þessar jarteinir aptan við Þorlákssögu hina ýngstu. Þessi kafli heyrir ekki sögunni til, heldr hefir Þorlákr biskup Skúlason fundið hann á einhverjum skinnblöðum, og látið rita hann hèr inn, en þetta frumrit er nú alveg glatað, og finnst þessi þáttr nú hvergi

nema í 379 og 387, sem er lèleg afskript af 379. þetta mun vera gömul jarteinabók, og jarteinir þær, sem hún hefir inni að halda, hafa gjörzt um daga Páls biskups, að vísu allar þær, sem eitthvað verðr tilgreint um (sjá bls. 357 athgr. 1.), og segir berlega við sumar af þeim, að Páll biskup hafi látið rita þær, t. d. kap. 6: „hann færði heit sitt Páli biskupi ok sagði greinilega þenna atburð, en hann lèt rita síðan"; og kap. 10: „Páll biskup lèt rita þessa jarteikn". Í kap. 16—19 standa jarteinir, sem gjörðust í öðru biskupsríki (fyrir norðan land), og síðast kap. 20—22 eru „vitranir þær, er Guðmundr prestr, er síðan var biskup, sendi Gunnlaugi múnk, at hann skyldi dikta". Kap. 23 er nokkurskonar niðrlag, sem sýnir, að þessar jarteinir hafa verið ætlaðar til lestrs á þorláksmessu.

Viðbætir III. (bls. 375—391) er, sem áður er getið, niðrlags-kafli þorlákssögu hinnar ýngstu (*C*). Allar þessar jarteinir, þær sem tilgreindar verða, hafa gjörzt um 1300, og hin síðasta árið 1325. það er að sjá, sem trúin á þorlák hafi lifnað á ný í byrjun 14. aldar, því eptir daga Páls biskups höfum vèr ekkert jarteinasafn af þorláki biskupi annað en þetta. þó hètu menn á 13. öld á þorlák biskup, t. d. fyrir þverárfund; en á Sturlúngaöld sinntu þó fæstir trúarefnum og gekk trúan afvega líkt og mart annað. þess er enn ógetið, að í íslenzkum annálum stendr ár 1388: „lýst jartegnum þorláks biskups." þessi jarteinabók er nú glötuð.

Viðbætir IV. (bls. 391—394) er lítið brot af þorlákssögu hinni elztu: tvö skinnblöð samföst, sem finnast í AM. 383 4^to^ (merkt 383[1]). þessi blöð eru hèr stafrètt prentuð, því höndin er ágæt, og bókin, sem þessi blöð eru úr, mun trautt vera ýngri en frá miðri 13. öld; fyrsta síðan er mjög máð. þessi blöð eru að mestu samhljóða hinni fornu þorlákssögu í Stokkhólmsbók, en eru þó sumstaðar fornyrtari, t. d. „vilgi mjök" (= mjök) og úvandblötr f. úvandlátr, sem líklega er breytt til úr hinu forna orði. Sagan um útkomu þorláks frá vígslu sinni er hèr og gjör sögð en í Stokkhólmsbók (sagan um Makan), en samhljóða *C*

og *B*; þar á mót er í lesbókinni gömlu (sjá bls. 399) sagt eins frá og í Stokkhólmsbók.

Í Viðbæti IV. (bls. 394—404) eru prentuð 4 lesbókabrot latínsk (*legendaria*) um Þorlák biskup. Þessi brot eru öll áðr prentuð í Langebeks Script. rer. Dan. IV, 624-36. Af Þorláki biskupi hefir verið til latínusaga, sem nú er glötuð, og er svo um alla helga menn, að til hefir verið latínsk saga af þeim jafnframt hinni íslenzku (Þorlákr, Jón helgi, Guðmundr, Ólafr helgi.). Tvö fyrstu lesbókabrotin (Nr. 1—2, bls. 394—401) finnast í Nr. 386 4to í safni Árna. Þrjú fremstu blöðin (lesbókarbrotið Nr. 1, bls. 394—396) eru úr bók fyrir sig, ákafa gamalli, og ritaðri með hinni ágætustu latínuhönd sem fundizt getr, og væri ekki talað þar um Þorlák, þá mátti telja höndina frá 11. eðr 12. öld. Þessi þrjú blöð eru nú sundrlaus. Þessi lesbók hefir verið í tveimr þáttum eðr bókum, og vill svo vel til, að fyrsta blaðið byrjar á enda 1. bókar, og kemr þar næst upphaf hinnar síðari. Í hinni fyrri bók hefir staðið stutt ágrip um biskupa, þá er í Skálholti vóru á undan Þorláki helga fram að dauða Klængs biskups, þar til Þorlákr var kosinn til biskups. Þetta sýna upphafsorð annarrar bókar (bls. 394) „sed qualiter beatus Thorlacus . . . sufficienter in superiore hujus operis libro expressimus. His igitur præsulibus et eximiis plebis sibi commissæ rectoribus Scalotensis ecclesia viguit, et usque ad sancti Thorlaci tempora, sicut modo comprobatur, magis ac magis in suo statu amplificata et dignanter confirmata convaluit" o. s. fr. Þetta hefir styrkt oss í þeirri trú, að Húngrvaka sè, einsog niðrlag hennar bendir til, samin eptir sama sniði og lesbók þessi; að hún og Þorlákssaga hafi í öndverðu verið ein bók, er síðan hafi verið skilin að, og sè Þorlákssaga hinn síðari partr hennar, en Húngrvaka hinn fyrri. Lesbókarbrotið Nr. 2 (bls. 396—401) er í sama kveri (AM. 386), er þetta brot alls 6 blöð, en er í stærra broti en Nr. 1. Árni Magnússon segir, að þetta sè „aptan af legendario frá Vallanesi í Fljótsdalshèraði 1) de sancto Thorlaco. 2) de sancto Edmundo. 3) de sancto Pantaleone." Á 4 fyrstu blöðunum er lesbók Þorláks, og nær hún nokkrar línur yfir

á 5. blaðið. Höndin er ágæt, en þó ýngri en á hinu fyrsta lesbókarbroti, og er hún líklega frá öndverðri 13. öld eða miðri (sjá bls. 396 athgr. 3.). Það virðist sem skipti um handir, og komi langtum nýrri hönd neðst á 4. blaði með orðunum *omnesque sibi cohabitantes* (bls. 400[29]). Lectiutalan er rituð með hinni gömlu hendi á spázíuna. Af síðasta (sjötta) blaðinu er mestr hlutinn skorinn burt, og síðasta síðan auð; sýnir það, að bókin hefir hèr endað.

Þriðja brotið (bls. 401—403), er í tvennum brotum, hið fyrsta hefir Árni ritað eptir gömlu skinnblaði í folio í tveim dálkum, og var efri helmíngr blaðsins skorinn burt; þetta blað finnst nú hvergi, og ætlum vèr það sè týnt, en afskript Árna finnst í AM. 670 *E* í 4^to^. Síðara brotið hefir Árni ritað eptir gömlu legendario á skinni, þar var og á les um Ólaf konúng. Þetta skinnbrot er og glatað (sjá bls. 402 athgr. 2). Í þessu broti er sagt frá upptöku Þorláks, og er frásagan mjög lík og í miðsögunni bls. 310—11.

Hið síðasta lesbrot Nr. 4 (bls. 403—404) er tekið úr *Breviarium Nidrosiense* (prentað 1519. 8^vo^) á blaði ffv.; hefir þessi lectia verið lesin á Þorláksmessu á vetr í Niðarósi. Vèr vitum af Laurentius sögu, að í byrjun 14. aldar var enn engin minníng gjör Þorláks biskups í Niðaróskirkju, og ætlum vèr að það hafi fyrst orðið um daga Jóns Halldórssonar, að það var gjört. Þetta les er ekki annað en ágrip af lesbrotinu Nr. 2, og það sýnist jafnvel, sem það sè samið eptir sjálfu handritinu 386, því hjá báðum stendr Parisius (fyrir Parisios; sjá bls. 403 athgr. 2).

Enn fremr eru til allar Þorlákstíðir með nótum á 11 blöðum á skinnbók gamalli í folio í safni Árna Magnússonar Nr. 241, og mun það verða prentað í öðru bindi sögusafns þessa. Kvæðið „Præsul Thorlace", og hvað annað sem finnast kann um Þorlák biskup, mun og þar verða prentað. Af íslenzkum kvæðum finnst nú ekkert er sè um Þorlák, en vèr vitum af Sturlúngu að vetrinn 1236 flutti Ólafr skáld Leggsson fyrir Magnúsi biskupi Gizurarsyni drápu um Þorlák, en því er miðr, að ekkert er til af því

kvæði svo vèr vitim. Þorlákssaga er opt nefnd í kirknamáldögum fornum; vèr munum geta hinna helztu dæma er vèr höfum fundið. Í máldaga Oddgeirs biskups (um 1370) er nefnd Þorlákssaga á Hlíðarenda, gæti þetta verið öll sama bókin og 382, sem Árni fèkk frá Hlíðarenda sem að framan er sagt, en Hlíðarendi var fæðíngarstaðr Þorláks, og er því ekki ólíklegt að saga hans hafi verið geymd þar. Í Görðum á Akranesi er nefndr „Þorláks söngr og *historia* Þorláks", sem líklega hefir verið á latínu (sjá máldagabókina AM. 263[58]). Enn á öðrum stað er, ef oss rètt minnir, nefnd Þorlákssaga á latínu. Á Hofi á Rangárvöllum er í Wilchins máldaga nefndr „Þorláks söngr og les með; *item* Þorlákssaga á norrænu". „Forn Þorlákssaga með legendu" er nefnd í máldaga Hólmskirkju á Rosmhvalanesi (AM. 263[61]). Ennfremr er nefnd Þorlákssaga í Klofa (263[26] um 1382), í Glæsibæ (í Petrsmáldaga 1394), og í Vetleifsholti (í Wilchinsmáldaga). Þorláksskript og Þorlákslíkneski eru í máldögum nefnd svo opt, að seint er að telja. Kirkjur vóru honum helgaðar um allt land; sýnir þetta nægilega, að hann var meir dýrkaðr en nokkurr annarr helgr maðr samlendr.

Þorlákssaga hefir aldrei fyr verið prentuð, fyrir utan lítið brot af ýngstu sögunni, sem prentað er (eptir AM. 379) í Grönl. hist. Mind. II. 767—72.

X. GUÐMUNDAR BISKUPS SAGA hin elzta (bls. 405—558) er prentuð hèr eptir hinni svo nefndu Resensbók. Þessi bók er Nr. 399 í 4[to] í safni Árna Magnússonar, dregr hún nafn sitt af Pètri Resenius etazráði, er fyrrum hafði átt hana; standa þessi orð með hans hendi framan á bókinni: *codex Islandicus Mss. in pergameno, agit de aliis atque aliis Islandiæ episcopis(!), præsertim de Gudmundo episcopo Ariæ filio. — Petri Resenii 1685*". Síðan komst hún, sem öll hans handrit önnur, á háskólasafnið; þetta safn allt brann, sem kunnugt er, 1728, en bók þessari varð það til fjörs, að hún var í láni hjá Árna Magnússyni, og sagan segir, að hún sè sú eina bók sem nú er til af háskólasafninu gamla; má hún því gersemi heita, þó ekki væri fyrir annað en þetta. Hjá Árna hefir bókin legið um 20 ár, því skýrteini hans er framan

á henni, ritað ár 1706, svo látanda: „Denne Bog haver *universitas Hafniensis* laant mig *ex Bibliotheca Reseniana 1706* og bör den af mig uskaddet at restitueres. A. Magnussen". þetta er allt og sumt, sem vèr um bókina vitum; hvaðan hún sè komin af Íslandi það lætr Resenius ósagt, á spázíum bókarinnar stendr og ekkert nafn nè annað, er líkur verði dregnar af[1]. Nú er Resensbók 11 arkir á þykkt, eða 74 blöð, vantar tvö blöðin innstu í fyrstu örkina (bls. 412. athgr. 4) og tvö blöð í hina níundu (bls. 547. athgr. 6); milli 7. og 8. arkar vantar og heila örk (bls. 513 athgr. 5), verðr þetta alls 12 blöð; af síðustu (11.) örkinni eru ekki eptir nema tvö fyrstu blöðin (bls. 558 athgr. 1), en sex hin síðustu vanta, og á þeim hefir staðið niðrlag sögunnar. Í heilu mun 399 því hafa verið 12 arkir, eða rúmlega 90 blöð á þykkt. Resensbók ætlum vèr sè frá enda 13. aldar, 1280—1300, því hún er að letrgjörð allri einhver hin ágætasta bók, höndin hrein og skýr, og stafirnir stærri en vant er að vera á skinnbókum; stafsetníngin er og hin bezta, og höfum vèr haldið því sem helzt var einkennilegt í henni: *é* fyrir *æ*, *o* fyrir *u*, og *e* fyrir *i* í niðrlagi orða, *þ* fyrir *ð* í miðjum orðum, o. s. frv., en allt fyrir þetta er bókin víða háskalega misrituð, helzt í nöfnum, og víða felld úr orð eða setníngar. Sá sem ritaði hefir ekki verið sagnafróðr, en að líkindum haft fyrir sèr skammstafað frumrit, helzt í nöfnum; vill optast svo til, að þó nöfnin í 399 sè röng, þá er þó upphafsstafrinn rèttr (þórarinn fyrir þórðr, Hallr fyrir Hrói, o. s. frv.).

Í safni Árna Nr. 394 í 4to er til skinnbók, sem auðsjáanlega er afskript af Resensbók. Um bók þessa segir Árni: „þessi Guðmundarsaga sýnist skrifuð vera eptir *codice Reseniano antiquo illo in 4to*, að vísu eru *errata* og *omissiones vocum* eins í báðum. Hvað milli bera kann, mun vera *libertas librarii*. Úr þess-

---

[1]) þó stendr þar á einum stað með hönd frá 16. öld: „Nú fór Bjarni og þorleifr fram í sel, og er dögg mikil úti; gjörð brú á ána; kerlíngin í Gröf deildi og prestrinn; hreinsað stekkjatún, og velgdr strjúgr, gjört blek, og gefin ólekja og . . ." —

um *codice* kunna bezt að fyllast *lacunæ codicis Reseniani*", og ennfremr segir hann um sömu bók: „Guðmundar biskups saga, vantar víða í, *recentior membrana* 4^to^ *oblongo*, fengin mèr af sira Páli Ketilssyni (í Hvammi 1668—1692, á Staðastað 1692—1720), en honum fèkk Jón Guðmundsson, sem var á Melum, og meinast Jón hana erft hafa eptir Guðmund föður sinn". — þessi bók hefir allar hinar sömu ritvillur og málvillur sem Resensbók, og er því enginn vafi á, að hún er afskript af henni, en eptir henni verðr fyllt sú 12 blaða eyða, sem er í 399. Aptan við 394 vantar nokkur blöð, svo endir sögunnar verðr ekki fylltr eptir henni. Á einum stað (bls. 434—35) er rifið horn af blaði í 399; þar vanta nokkur blöð í 394, og verðr þessi litla eyða því ekki fyllt nema að getgátu.

2. Miðsaga Guðmundar, hèr merkt *B* (bls. 559—618), finnst í skinnbókinni 657 *C* í stórum 4^to^; um bók þessa og innihald hennar segir Árni (í 435. 4^to^):

„Aptan af sögu hins heilaga Michaelis höfuðengils.
Af Mariâ Ægyptiacâ hinni bersyndugu.
Af Eireki víðförla.
Guðmundarsaga Hólabiskups, vantar nokkuð í. Bókina hefi eg fengið frá Mr. Jóni Einarssyni".

þessi bók er nú 51 blað á þykkt, og er Guðmundarsaga á 39 blöðunum hinum síðustu, (blað 13—51). Síðasta örkin (10 blöð) er með smærra broti og miklu þèttara rituð en hitt, kemr þetta til af bókfellseklu hjá ritaranum, því höndin er hin sama. Aptan við söguna vantar blað eða sem því svarar. Hönd og stafsetníng þessarar bókar er hvort um sig einkennilegt. Handarlagið hefir nokkurn keim af því, sem tíðkaðist um daga Hauks lögmanns, og margir fornir drættir og bandstafir finnast hèr og hvar; höndin er fremr smágjör, en á hinn bóginn eru ýmsir nýgjörvíngar í stafsetníngunni: *ur* fyrir *r* á stöku stað; *d* og *đ* er opt ekki aðgreint o. s. frv. Af þessum rökum ætlum vèr næst sanni, að setja aldr bókarinnar um miðja 14. öld (um 1350) og mun hún þó tæplega yngri vera. Bókin er rètt og vel rituð og eptir góðum frumritum, víða forn í framsögu sinni, og á

allar lundir teljandi með merkilegum skinnbókum. Í söguna miðja vanta alls 4 blöð, sbr. bls. 442 athgr. 9; 472 athgr. 1; 501 athgr. 1; verðr og fyrir þessa skuld lítil eyða, sem ekki verðr fyllt, í upphafi þáttarins um samtal þeirra Guðmundar biskups og Þóris erkibiskups (sjá bls. 571). Aptan við söguna vantar þar að auki um 2 blöð (sjá bls. 613 athgr. 4), en þetta niðrlag sögunnar höfum vèr getað fyllt eptir öðru handriti, sem nú skal greina.

Í safni Árna Nr. 122 *B* folio finnst sem kunnugt er blöð og blaðaslitr úr Sturlúngu; skal þessu handriti síðar lýst við Árna biskups sögu, en hèr skal þess að eins getið, að meðal blaða þessara finnast 2½ blað úr Guðmundarsögu. Blaðdálkrinn eða hálfa blaðið hefir fyrrum legið í AM. 220 folio, en þar það er með sömu hönd og í sama broti og blöðin tvö í Nr. 122 *B*, þá er það nú sett þangað. Um blaðhelmíng þenna hefir Árni skrifað: „þenna dálk úr Guðmundarsögu fèkk eg 1710 af Þórði Björnssyni Ásgeirssonar; er úr Guðmundarsögu, sem fyrrum átti sira Ásgeir Einarsson"[1]. Þessi 2½ blöð eru öll úr jarteinakaflanum aptanvið söguna. Þessi fáu skinnblöð mundu nú lítið hrökkva, ef ekki vildi svo vel til, að í AM. 204 folio, sem fyr er getið, er til afskript Guðmundarsögu eptir skinnbók þessari meðan hún var heil. Guðmundarsaga sjálf, sú er stendr í 204, er alveg samhljóða þeirri sem er í Sturlúngu (sjá bls. 436 athgr. 7), og mun vera skrifuð upp úr Sturlúngu, þeirri sem stóð í þessari sömu skinnbók AM. 122 *B*, og sem nú eru blöð ein eptir af, en jarteinakaflinn aptan við söguna er allr skrifaðr eptir Guðmundarsögu-blöðum þessum, sem áðr eru nefnd (sjá bls. 585 athgr. 1), ætlum vèr því, að Guðmundarsaga hafi aldrei staðið öll í skinnbókinni, heldr að eins jarteinaþáttrinn. Það er vitaskuld, að vèr höfum haft 204 til samanburðar við *B* (657) í jarteinunum, og skinnblöðin það sem þau náðu, og fyllt niðrlag sögunnar eptir 204 (sjá bls. 613 athgr. 4); þó ber þess að gæta, að 204 og 122 *B* er ekki af sama handritaflokki

1) Ásgeir Einarsson Sigurðarsonar Einarssonar frá Heydölum var 1633—1702 prestr í Tröllatúngu í Steingrímsfirði. Þessi Þórðr mun vera sonarsonr hans.

sem 657, og eru jarteinirnar í 204 nokkuð frábrugðnar í röð (sjá bls. 586 athgr. 2), og sumum sleppt (sjá bls. 593 athgr. 1); Selkollu þætti er og skotið þar inn, og finnst hann ekki í 657, (sjá bls. 604 athgr. 1).

Af Guðmundar sögu er enn til tvö lítil blöð í 4^to^ á skinni frá 16. öld í AM. 220 folio; fyrra blaðið nær frá bls. $410^{25}$—$414^{1}$ og síðara blaðið frá $423^{16}$—$428^{32}$. Á blöð þessi hefir Árni skrifað: „úr Guðmundar biskups sögu, fengið 1707 frá Þorvaldi Stephanssyni", og á hitt blaðið: „úr Guðmundar biskups sögu, úr Austfjörðum 1711". Ennfremr eru í AM. 220 önnur tvö blöð samföst í aflöngum litlum 4^to^, rituð snemma á 14. öld, sem annaðhvort eru úr Guðmundarsögu eða Sturlúngu; fyrra blaðið nær frá bls. $424^{24}$—$426^{25}$, en hið síðara frá $433^{8}$—$436^{7}$.

3. Í þriðja lagi er Guðmundarsaga sú er Arngrímr ábóti á Þíngeyrum ritaði um 1350; þessi saga er mjög löng og full af kvæðum; aðalhandrit hennar er í Stokkhólmsbók, sem að framan er lýst (bls. XXIX-XXX), en með því þessi saga fyrst verðr prentuð í næsta bindi, þá skal henni ekki hèr lýst framar, nè handritum hennar. Í ágætri skinnbók í folio, sem fyrrum átti Resenius, en síðan brann 1728, hefir meðal annars staðið latínsk lesbók Guðmundar biskups: „Breviarium vitæ Guðmundi episcopi Holensis in Islandia", sjá Resenii Bibliotheca. Havn. 1685 p. 371, þar sem skinnbók þessari er lýst. Bók þessi mun hafa verið rituð á öndverðri 14. öld, og var hinn svonefndi Resensannáll á henni, með mörgum öðrum ritum; af honum finnst afskript í safni Árna, en af lesbókinni hefir engin afskript fundizt. Í Resenii Bibliotheca eru nefndar allar þær bækr, sem Resenius gaf bókhlöðunni, en Guðmundarsaga Nr. 399 er þó ekki nefnd þar, líklega af því að hann fèkk hana sama ár og bókalistinn var prentaðr, og líklega eptir að búið var að prenta hann. Þar er að vísu nefnd ein Guðmundarsaga, en hún hefir eflaust á pappír verið.

Vèr höfum nefnt þrjár Guðmundarsögur, eptir því sem handritin nú eru á sig komin, en nú munum vèr sýna, að í raun og veru eru ekki til nema tvær frumritnar sögur af Guðmundi: ein

prestssaga, rituð litlu eptir 1200 um daga hans sjálfs, og svo biskupssaga hans, er Arngrímr ritaði 150 árum síðar. Í formála miðsögunnar segir svo (bls. 559): „Guðmundr biskup Arason, hverr er þoldi margar og stórar meingjörðir ..... svá sem heyrast má í hans eptirfarandi sögu, hver er skipt er í þrjá þriðjúnga. Í enum fysta þriðjúngi er greind ættartala hans ok frænda hans, ok uppruni hans ok lifnaðr, framan til þess er hann var vígðr til prests (kapp. 1-12). Í öðrum segir frá þeim tíðindum, er gjörðust meðan hann var prestr, ok heitir sá hluti sögunnar prestssaga hans (kap. 13-50. Í enum þriðja er sagt frá þeim þrautum ok ónáðum, er hann þoldi í sínum biskupsdómi .. ok frá lífláti hans, ok þar með at lyktum eru skrifaðar nokurar jartegnir ... Er ok þessi sögu því fullkominliga vel trúanda í alla staði, at hana hafa saman sett góðir ok skilríkir menn, þeir er kunnust vóru þau tíðindi, er hèr er á skrifuð". — Við niðrlag prestssögunnar hefir nú *B* enn fremr lítinn eptirmála (bls. 565): „Nú er sagt frá uppruna virðuligs herra Guðmundar biskups Arasonar, framan til þess er hann var biskup, ok mun svá at hyggjast þeim er þessa sögu lesa eða heyra, at fár munu prestasögur þvílíkar á bókum ritnar. ... Nú megu allir menn fyrir því efanarlausir at vera um þessa sögu, þvíat hana hafa saman setta góðir menn ok öfundarlausir, bæði vinum biskups ok óvinum, máttu þeir ok vita gjörla þessa atburði, er nú eru sagðir, er þeir fæddust upp jamfram Guðmundi biskupi ok vóru við þessi tíðindi er nú vóru sögð." — Hèr er það því sagt með berum orðum, að prestssöguna hafi ritað maðr, er lifði fyrir minni Sturlu lögmanns, sem fæddist 1214, því þau tíðindi, sem í sögunni eru sögð, gjörðust öll fyrir 1201, löngu áðr en Sturla var fæddr. Hèr er og sagt, að þeir sem söguna rituðu hafi fæðzt upp jafnfram Guðmundi biskupi, og verið við „þau tíðindi er nú vóru sögð". Þetta er raunar hið sama og að segja, að einn af djáknum hans, er hann uppfóstraði, hafi söguna ritað. En hvað segir nú sjálf sagan hèr um? Í Rannveigar leiðslu (bls. 452) standa þessi orð: „en vèr urðum þessa áheyrsla af þeim er

við vóru staddir [ok][1] af sjálfrar hennar orðum, þá er hún sagði Guðmundi presti Arasyni þessa vitran". Rannveigarleiðsla varð um vetrinn 1198. Hèr af má sjá, að höfundrinn hefir talað við menn í Austfjörðum, er við vóru staddir þá er Rannveig fèll í dáið, og í annan stað var hann við staddr, er Rannveig sagði Guðmundi presti þessa sögu. Þetta atvik er oss til leiðbeiningar, því sagan segir frá því nær Rannveig kom til Guðmundar, og hverir þá vóru í ferð með honum. Þetta gjörðist í ferð Guðmundar um Austfjörðu sumarið 1201; sjá kap. 40, bls. 471: „þar var þá í Fljótsdalshèraði Rannveig, kona sú er í dái hafði legit, ok hittir hon Guðmund prest, ok segir honum frá vitrun sinni með hræzlu mikilli ok ótta", en í næsta kap. eru nefndir allir þeir er vóru með biskupi í þessari ferð: djáknar hans þrír: Lambkárr, Sturla Bárðarson og Þorlákr Þorsteinsson, og þrír klerkar: Snorri Bárðarson, Grímr Hjaltason og Grímr gáli. Einhverr þessara er því höfundr sögunnar. Þetta má enn betr ákveða, því þar sem talar um utanferð biskups til vígslu, segir svo: „þeir menn sögðu svá, er þar höfðu verit" og „þat segir Thomas prestr Þórarinsson" (bls. 483—84); má af þessu sjá, að söguritarinn hefir ekki verið með í þessari siglíngu, en kap. 48 bls. 481-482 eru taldir upp þeir 15 Íslendíngar, er fóru utan með biskupi til vígslu, og tveir af þeim vóru þeir Grímr Hjaltason og Snorri Bárðarson, og getr því hvorigr þeirra verið höfundr sögunnar. Sturla Bárðarson, sá er fóthöggvinn var 1213, mun það varla heldr vera, og um hina tvo, Þorlák Þorsteinsson og Grím gála, vitum vèr ekkert, en öll drög og líkur sem nú má finna lúta að Lambkár einum, og hann ætlum vèr fyrir víst að muni vera höfundr sögunnar. Þorgils Gunnsteinsson, faðir Lambkárs, bjó á Stað á Reykjanesi, en fram í kyn ætlum vèr hann hafi verið úr Þíngeyjarþíngi kynjaðr. Guðmundr tók Lambkár til sín eptir beiðni föður hans, á ferð sinni um Vestfjörðu 1199—1200. Orðin í sögunni eru athugaverð, þar sem þessa er getið, þar segir svo: „En er hann kom á Reykjanes

---

1) þessu orði ok verðr að bæta inn svo að rètt mál verði.

til þorgils Gunnsteinssonar, þá ráða þeir þat með sèr, at [hann] skyli taka við syni hans, er Lambkárr heitir, til fóstrs ok kenna, ok staddr var við marga fundi og marga luti síðan, þá er eru í þessi sögu" (kap. 33 bls. 460—461); og skömmu síðar (kap. 34, bls. 463—464): „þar var ok Lambkárr, son þorgils prests Gunnsteinssonar, er enn var með honum lengi síðan". Sá djákn, sem getið er í kap. 35, er Guðmundr prestr hnè að og sofnaði, og hann elskaði mest (bls. 464 atbgr. 9) ætlum vèr og að sè enginn annarr en Lambkárr. Lambkárr hafði og brèfagjörðir biskups, eða að vísu Kolbeins Tumasonar, því eru og eptirtektarverð orðin í kap. 43 (bls. 475-76): „þá var þar fyrir Kygri-Björn at Hólum; en áðr þeir kæmi til Hóla, þá hafði Lambkárr, djákn biskupsefnis, ritagerðir Kolbeins allar, ávallt er hann var heima, en þegar er þeir komu til Hóla, þá var Lambkárr at viðsjá gerr um brèfagerðir allar, en Kygri-Björn var tekinn til brèfagerðar í staðinn, ok gjörði Kolbeinn sèr eigi þegar við annan mann kærra heldr en Björn" o. s. fr. Milli Kygri-Bjarnar og höfundarins hefir verið ekki lítill rígr, og er Birni illa borið vitni í sögunni, svo hann er sá eini maðr, er sjá má, að höfundrinn hefir hatað; er þetta þeim mun kynlegra, sem það má víst ætla, að Björn hafi verið allmætr klerkr á sinni tíð. Að höfundrinn hafi verið Vestfirðingr má sjá af því, hvað kunnliga hann talar um Vestrland og landslag þar (t. d. kap. 33, bls. 461), og um jarteinir þær, sem þar urðu (t. d. bls. 461—462). Kap. 30 segir og: „Sá atburðr varð út á Hvítstöðum"; þessi orð virðast að lúta að því, að höfundrinn hafi búið í Borgarfirði eða á Mýrum. Vèr vitum ekki hvar Lambkárr hefir dvalið, síðan hann skildi við Guðmund biskup, en í ábótatali Hauks lögmanns (AM. 415) er sagt hann hafi verið laus ábóti í Hítardal („en þessir vóru lausir hjá: þorsteinn, Lambkárr, Runólfr"). Í elli sinni var hann á Staðarhóli með Sturlu þórðarsyni. Í Sturlúngu II 258 (ár 1242) segir svo: „var þar kominn á Flugumýri Lambkárr ábóti, hann átti heima á Staðarhóli at búi Sturlu". Árið 1249 andaðist Lambkárr ábóti svo sem í annálum segir.

Enn er því ósvarað, nær prestssaga Guðmundar muni rituð; að því má leiða nokkrar líkur: í kap. 7 er skýrskotað til Víðinesbardaga 1208 (sjá bls. 419 athgr. 9) og í kap. 12 er nefndr Helgi, „er síðan var biskup á Grænlandi", en Helgi var vígðr 1212. Kap. 13 er og nefndr Jón biskup fyrri á Grænlandi, en Jón síðari andaðist 1209. Að sama lýtr kap. 35 (bls. 465), þar sem talar um ósátt þá sem síðan varð milli Guðmundar og þíngeyra. Má af öllu þessu ráða, að sagan er rituð eptir 1212, en líklega þó fyr en 1220, því hvergi er minnzt á Grímseyjarför, eða þau tíðindi sem gjörðust eptir 1220. Í þessu efni er enn eitt atvik sem svara verðr: þekkti höfundr prestssögunnar Rafnssögu eðr ei? því í kap. 48 hafa báðar sögurnar einn lítinn kafla alveg samhljóða („um síðir bar þá at Skotlandi — skipit mundi brjóta en menn týnast"), svo af þessu er auðsèð, að sá sem fyrr hefir ritað hefir þekkt sögu hins, en Rafnssaga er rituð, sem síðar mun sýnt verða, um 1220. Vèr ætlum það líkara, að höfundr prestssögunnar hafi ekki þekkt Rafnssögu, því hefði hann þekkt hana, þá mundi hann varla hafa bundizt, að setja og inn í sögu sína það sem stendr rètt á eptir í sama kapítula í Rafnssögu um fund og deilur biskups við Ólaf Suðreyja konúng. En hitt þykir oss sennilegt, að höfundr Rafnssögu hafi þekkt prestssögu Guðmundar[1].

Nú er enn ótalað um það, hvernig Resensbók eðr Guðmundar saga hin elzta er samsett, og er auðleyst úr þeirri spurníngu: Kap. 1—50 (bls. 407—486) er prestssaga Guðmundar, og er varla að efast um, að ritarinn hefir orðrètt skrifað hana upp eptir frumriti Lambkárs, þetta sýnir sögublærinn, og ennfremr má sjá það, ef borið er saman við ágrip prestssögunnar, sem sett er í Sturlúngu, eðr við prestssöguna í *B* (657 *C*). Kapítulinn 31 (bls. 458—459) er settr inn úr Sturlúngu, og sömuleiðis greinin „Guðmundr biskupsefni rèðst til Hóla — ok

1) Sveinn Skúlason hefir fyrstr tekið eptir því (Safn til sögu Íslands I, 591), að prestssaga Guðmundar geti ekki verið rituð af Sturlu, og að henni sè skotið síðar inn í Sturlúngu; hann hefir og tekið eptir samskeytunum í Sturlúngu, I bls. 106 og 192.

unnu allmikit" (kap. 43--44, bls. 476--477), þetta hvorttveggja vantar og í *B* (sbr. bls. 459 athgr. 2; 477 athgr. 1); orðfærið á þessum tveim greinum stíngr og alveg í stúf við það sem er að framan og aptan. En með kap. 50 endar prestssagan; en svo að nú ekki skyldi standa autt og ófullt allt um biskupsæfi Guðmundar, þá hefir ritarinn sett saman þá sundrlausu kapítula, sem í Sturlúngu standa um Guðmund biskup, og þar að auki hefir hann sett inn langt skeið úr Arons sögu Hjörleifssonar. það sem úr Aronssögu er tekið eru kapp. 74—90 (sjá bls. 515 athgr. 4), þó er allr 79. kap. og upphaf 80. kap. sett inn eptir Sturlúngu (sbr. bls. 523, athgr. 3 og 524, athgr. 3). Hitt allt, kap. 51—73 og 91—105, er orðrètt eptir Sturlúngu, og víða svo sundrlaust, að ekki verðr skilið nema menn hafi Sturlúngu fyrir sèr, t. d. upphafið á kap. 103 eða kap. 91 (sjá bls. 555 athgr. 3 og bls. 540 athgr. 3), svo ef vel hefði verið, þá hefði þurft að skeyta inn enn fleiri kapitula úr Sturlúngu, svo að efnið yrði samstætt. Guðmundarsaga hin elzta er því samsett af þessu þrennu: 1) Prestssögu Guðmundar, 2) Sturlúngu, 3) Arons sögu. Ritarinn hefir og út í gegn sett inn annálabrot við hvert ár, svo að sagan yrði samhljóða prestssögunni. Aronssaga er, sem vèr síðar munum sýna, rituð um 1270, og þar sem nú Resensbók varla er rituð síðar en um 1290, þá er líklegt að hún sè frumrit, svo undir komin, að sá sem ritaði hefir viljað setja saman í eina samstæðu það sem hann vissi ritað um æfi Guðmundar.

Vèr munum því næst tala um miðsögu Guðmundar. Hún er sett saman á öndverðri 14. öld, sem sjá má af niðrlagi sögunnar, þar segir (bls. 617) „*anno præcedenti*", en næst á undan var nefnt ár 1318; lætr því nærri að 1320 sè sagan samansett, í tíð Auðunnar biskups, en hann lèt, sem kunnigt er af Laurentius sögu, fyrstr manna taka upp úr jörðu bein Guðmundar biskups ár 1314. þessi saga er auðsjáanlega samansett fyrir norðan, líklega norðr í þíngeyjarþíngi, því þar er höfundrinn gagnkunnugastr (sbr. t. d. bls. 514 athgr. 1). Sagan er rituð af einhverjum ættíngja Guðmundar biskups þar nyrðra. Frumrit þau, sem hún er samansett eptir, eru: 1) Prestssaga Guðmundar,

2) Rafnssaga, 3) Sturlúnga, og 4) hefir höfundrinn af eigin forða aukið söguna á ymsar lundir, og hleypt víða inn greinum eðr þáttum eptir sjálfan sig. Hið helzta sem hann hefir við bætt er: 1) hinn langi jarteinaþáttr, sem settr er aptan við söguna og hèr er prentaðr kap. 14—51 (bls. 584—618); 2) þáttrinn um samtal Guðmundar og Þóris erkibiskups, kap. 9—13 (bls. 571—584); 3) formáli við prestssöguna kap. 1—2 (bls. 559—61); 4) eptirmáli við prestssöguna og inngangr eðr formáli til biskupssögunnar, kap. 5—6 (bls. 565—67); 5) Lítill kafli í frásögunni um Víðinesbardaga, kap. 7 (bls. 567—69), einnig sagan um Gyríði húsfreyju á fjallinu, kap. 8 (bls. 569—70). — Þetta allt er prentað í Viðbæti, bls. 559—618. En þar að auki eru enn 5 smágreinir, sem til eru greindar neðanmáls við elztu söguna: bls. 491 athgr. 2; 513 athgr. 1; 514 athgr. 1. 5; 518 athgr. 2; 533 athgr. 4. — Kapítuli 4 (bls. 562—565) er allr tekinn eptir Rafnssögu, en Arons sögu hefir höfundrinn þar á móti ekki þekkt. Í formálanum fyrir biskupssögunni (kap. 6, bls. 565—567) talar höfundrinn nokkuð um fyrirtæki sitt, og er auðsèð á orðum hans, að hann hefir enga sögu þekkt um æfi Guðmundar eptir að hann var biskup, annað en það sem stendr í Sturlúngu; hann segir svo: „Hèr hefju vèr upp sögu herra Guðmundar biskups Arasonar, til gamans þeim mönnum, er hana vilja heyra .... Nú biðjum vèr guð ok alla heilaga menn, at þessi frásögn verði öngum at ábyrgð, þeim er lesa eða rita ... því at hon þarf mjög góðra manna tillögu, því at hon hefir lengi í salti legit, ok eru nú allir dauðir, þeir er hana ætluðu langa at gjöra, ok gjörst vissu ok bezt mundu vilja, ef þeim hefði lífit til enzt. Bar og svá til um þat, er menn höfðu fjölda brèfa ritað ok í einn stað komit, í Laufáskirkju, ok brunnu þau þar inni öll í kirkjubruna einum, ok munu þau aldri síðan ritin verða". Á þessu má sjá, að vinir biskups norðanlands hafa á miðri 13. öld verið að safna brèfum og skilríkjum til sögu hans, en árið 1258 brann, sem í Annálum segir, Laufás kirkja, og þar brann safn þetta eptir sem hèr segir, og fórst það svo fyrir, að sagan yrði samin, þangað til á 14. öld. Að höfundrinn hafi verið

af ætt Guðmundar má ráða af því, er hann segir sjálfr í sama kapítula: „Munu vèr ok svá virða, vinir og frændr Guðmundar biskups, ok sannliga trúa, at" o. s. fr. Þykir oss líkast, að sagan sè samsett af afkomendum Einars klerks og Ögmundar sneis, og má næstum ráða það af kap. 20 í öndverðum jarteinaþættinum, þar segir: „þat er öllum mönnum kunnigt á Íslandi, at Guðmundr biskup átti mest traust ok trúnað þar sem var Þorvarðr föðurbróðir hans, ok Ögmundr sneis son hans, ok Einarr klerkr, ok Þorvarðr Ögmundarson, er átti Gró dóttur Einars klerks (en Einar klerkr er fæddr 1190, dó um 1305; sjá kap. 19), ok var þar af því sem einn maðr veri, þar sem þeir vóru allir, ok hverr unni öðrum hugástum. Nú hefir Guðmundr biskup þessum mönnum marga þá hluti sagða í trúnaði, er hann vildi eigi at aðrir menn vissi um hans daga. Hafa þessir menn marga þá hluti sagða frá Guðmundi biskupi, er hann vildi eigi segja láta meðan hann lifði". Aðrir sögumenn, sem höfundrinn tilfærir, eru: herra Þorlákr Narfason († 1303), Guðrún Bárðardóttir [Snorrasonar] (kap. 26), Lambkárr Gunnsteinsson (kap. 30). Höfundrinn vitnar og tvisvar til Íslendíngasögu Sturlu lögmanns (svo nefndu menn Sturlúngu langt fram á 17. öld), þannig kap. 18: „svá sem Sturla Þórðarson segir í Íslendíngasögu, at þá varð mart til frásagna í jarteinum ok spásögum" (sbr. Sturl. 4. 32), og kap. 22: „fór hann þá víða um sýslu sína, ok enn víða annarsstaðar um landit, svá sem Sturla sagði í Íslendíngasögu" (sbr. Sturl. 4. 47). Þar að auki hefir og höfundrinn, sem áðr er á vikið, tekið alla biskupssöguna, fyrir utan þá kafla sem áðr eru tilgreindir, eptir Sturlúngu, og þegar aptr eptir dregr (um Grímseyjarför og það sem eptir kemr), hefir hann dregið heldr saman orð Sturlúngu. Vèr höfum og sagt, að allr fyrsti hlutinn er ritaðr eptir prestssögunni; nú ber það merkilega við, að í Auðunnar máldaga er nefnd Guðmundarsaga á Múla í Reykjadal árið 1318, eða í sömu sveit og saga þessi mun vera samansett og tveim árum fyr; mætti vel geta þess, að þetta sè eitt og hið sama prestssögu handrit og það, sem

höfundr vor hefir fyrir sèr haft. Árið 1360 er og nefnd í máldögum Guðmundarsaga í Goðdölum.

Arngrímr ábóti, er sína löngu sögu ritaði á miðri 14. öld, virðist að hafa þekkt jarteinaþátt þenna, sem í miðsögunni stendr, sömuleiðis þáttinn um Þóri erkibiskup; er því miðsaga þessi svo sem milliliðr milli prestssögunnar gömlu og Sturlúngu annarsvegar, og sögu Arngríms hinsvegar. Tilgangr Arngríms ábóta mun hafa verið sá, að rita biskupsæfi Guðmundar, er væri samboðin prestssögu hans, fer hann því fljótt yfir prestssöguna, að hún var áðr fullrituð, en biskupssagan er geysilöng, og er hún frumrituð frá rótum, en ekki samsteypa orðrètt úr Sturlúngu, Aronssögu og Rafnssögu, sem hinar fyrri tilraunir.

Í sambandi við sögu Arngríms stendr eitt handrit af sögu Guðmundar, sem enn er ógetið, en það er pappírshandritið AM. 395 í 4to, og er það eitt hepti úr hinni optnefndu sögubók Þorláks biskups Skúlasonar, er hann lèt rita 1641. Frumritið er glatað. Prestssagan öll, og allt fram að árinu 1206, er í 395 að efni samhljóða prestssögunni, en þó mest eptir *B*, en síðan tekr við orðrètt saga Arngríms. Handritið hættir í Selkolluþætti (sbr. bls. 407 athgr. 1). Þessi saga ætlum vèr sè svo undir komin, að á ofanverðri 14. öld hefir einhver viljað tengja saman prestssöguna gömlu við biskupssögu Arngríms, því hvor fyllir aðra; hefir hann því í prestssögunni vikið orðfærinu við, hvað hann gat, svo hún yrði nokkurnveginn samstæð við orðfæri það, sem er á sögu Arngríms. Í sögumeðferð þessari bregðr á stöku stað fyrir ymsu nýju, mannanöfnum og ymsum atvikum; allt þetta er tilfært neðanmáls, ef það nam nokkru, t. d. bls. 407, athgr. 2; 415, athgr. 1 og 4; 418, athgr. 10; 429, athgr. 5; 440, athgr. 2; 447, athgr. 3-4; 448, athgr. 2; 457, athgr. 1; 459, athgr. 3; 470, athgr. 3; 485, athgr. 3. Af öllu þessu er einna merkilegust greinin bls. 486 í neðanmálsgreininni (við ár 1204): „mikit hallæri . . . svá at XX C manna var talt at dæi frá vetrnóttum til fardaga, flest af sulti ok harðrètti, um Norðlendíngafjórðúng". Þessa hallæris getr ekki í annálum.

Arons saga Hjörleifssonar (bls. 619—638) var á 17. öld að eins til á einni skinnbók; þaðan eru öll önnur handrit hennar komin. Bók þessi er Nr. 551 d. í 4^to^ í safni Árna, en nú er ekki nema 1 örk (8 blöð) til af henni; á fyrra hluta arkarinnar, 5½ blaði, er síðari helmíngr sögunnar, en á 2½ síðasta blaði er upphaf þórðar sögu hreðu. Bókin er allvel rituð, í lok 14. aldar á að gizka. Um bókarbrot þetta fer Árni þessum orðum: „Af Aroni Hjörleifssyni fragment, hefir verið eign Skálholtskirkju, eða Mag. Brynjólfs heldr." — Á miðri 17. öld hefir og bókin verið í Skálholti, og verið þá fyllri en nú; er til afskript sira Jóns í Villíngaholti af Aronssögu þessari (AM. 212, folio); reiknast nú svo til, að þegar sagan var í heilu líki, hefir hún byrjað með örk í 551 og verið því 13½ blað að stærð; nú er fyrri örkin alveg týnd, og í tíð Brynjólfs biskups hafa vantað 2 blöð í hana, sem sjá má af afskript sira Jóns (sjá bls. 517 athgr. 3 og 530 athgr. 4). þessi afskript sira Jóns er einhver hin lakasta, sem vèr þekkjum frá hans hendi, því skinnbókin hefir að framan verið mjög máð, og svo er enn fyrsta síðan af síðari örkinni, þar að auki er nú ekki svo vel að vèr hafim afskript sira Jóns heila, því mörg blöð hafa týnzt úr henni; verðum vèr því að bjargast við afskript á aðra hönd, ritaða í Vigr 1682 (Additam. Nr. 27 í folio). það má því teljast mesta happ, að höfundr Guðmundarsögu hinnar elztu í Resensbók hefir tekið allan þáttinn um Grímseyjarför og mikinn part af hrakníngum Arons inn í sögu sína; höfum vèr fyrir það þenna kafla af Aronssögu í handriti, sem er 100 árum eldra en 551, þó nú væri heil sú bók. Að vísu hefir nú ritari Resensbókar sett inn í þáttinn hèr og hvar annálabrot, og einn kapítula úr Sturlúngu, en orðum hefir hann varla neitt vikið við. Vísurnar í Resensbók eru og miklu betri en í 551, og úr Resensbók fyllist nú og sú tveggja blaða eyða, sem í tíð Brynjólfs biskups var í 551. Af Aronssögu höfum vèr því í Viðbæti prentað að eins upphafið, aptr að þar sem Grímseyjar þáttr hefst, og vísum svo til Guðmundarsögu; og þarnæst síðara helmíng sögunnar, frá eptri samskeytunum í

Guðmundarsögu. Að prenta Grímseyjarþátt upp aptr hálfbjagaðan, eptir hinum vondu handritum Aronssögu, þótti oss óþarfi, enda höfum vèr og prentað hèr sögu þessa, svo sem til að fylla og skýra Guðmundarsögu, því í raun rèttri heyrir hún ekki til safni þessu. Vèr höfum prentað eptir 551 það sem hún náði; kap. 1-2 (bls. 619—620) er prentaðr eptir afskript sira Jóns, en kap. 11-12 (bls. 621—623[16]) eptir Vigrbókinni.

Um höfund sögunnar og aldr hennar munum vèr nú geta hins helzta: það er varla efamál, að sagan sè rituð af vini Arons og líklega frænda, hún hefir fullan æfisögu blæ, og mun vera rituð ekki löngu eptir andlát Arons, en Aron andaðist um 1256—1257; þetta má þó enn betr ákveða: Í 1. kap. er nefndr Ólafr, bróðir Arons, „er síðan var ábóti at Helgafelli", en hann var vígðr til ábóta 1258, sem annálar segja; í kap. 15 er sagt: „ok Brandr, er síðan [var] biskup at Hólum" (þ. e. 1263—64), og í enda 16. kap. standa þessi orð um sundrlyndi Skúla hertoga og Hákonar konúngs: „verðr ok þess at geta, at þýngjast tók með konúnginum ok jarlinum, og hafði þó lengi at dregit, en þó kom þýngra eptir, sem ritað finnst". Þetta getr varla litið til annars en Hákonarsögu eptir Sturlu, en Sturla lauk við hana árið 1265; er því sagan rituð síðar en það ár. Það má ennfremr sjá, að Sturla hefir ekki þekkt Aronssögu þegar hann setti saman Íslendíngasögu sína (Sturlúngu), það sèst á frásögn Sturlu um Grímseyjarför og hrakninga Arons, sem ávallt er með öðrum orðum sagt hjá Sturlu en hinum, og ekki lítill atvikamunr. En það lítr og svo út, sem höfundr Aronssögu hafi ekki þekkt Sturlúngu, því sumum atvikum um hrakninga Arons sleppir hann, sem standa í Sturlúngu, er hann mundi varla hafa gjört, ef hann hefði þekkt þá bók; enda ætlum vèr og, að svo lítill aldrsmunr sè á þessum tveim sögum, að líkast er, að hvorugr hafi annan þekkt. Aronssaga mun og eigi vera síðar rituð en um 1270, eða um 50 árum síðar en þau tíðindi gjörðust, sem sagan mest segir frá (Grímseyjarför), og um 13—14 árum eptir andlát Arons,

því það er auðsèð, að allt er ritað eptir sögn manna, sem lifðu samtíða þeim tíðindum er gjörðust 1222 í Grímsey og á Valshamri, og síðar, t. d. kap. 14 (bls. 629): „hafa þeir menn þat sagt, er þar vóru" (á Valshamri), eða þar sem segir um Sturlu Sighvatsson, að hann var „mjök roskinn ok var hinn bráðgjörfasti maðr, sem allir hafa eitt um talat þeir er hann hafa sèt" (bls. 524 í kafla þeim sem stendr í Guðmundarsögu). En bezt má þó sjá þetta af blæ sögunnar, og ymsum orðum, t. d. í enda sögunnar, þar sem höfundrinn getr þess að sál Arons „hafi gott heimili fengið"; sýna þessi orð, að sagan er ekki rituð löngu eptir andlát Arons; orðfæri sögunnar, sem er í bezta lagi, og nákvæmni hennar og sannsögli, er og vottr þessa. Þess væri getanda, að sagan sè rituð að tilhlutun Ólafs ábóta, bróður Arons, er langa stund var ábóti að Helgafelli. Það er af þessu, sem nú er sagt um aldr sögunnar, auðsèð, að Þormóðr skáld Ólafsson, sá er ort hefir tvö kvæði um Aron, eina drápu hrynhenda og aðra dróttkvæða, getr með engu móti verið sá hinn sami, sem í annálum er nefndr ár 1338, en hitt er víst, að Þormóðr sá, er orti um Gunnar á Hlíðarenda, er hinn sami og skáld Arons; vísan í Njálu kap. 78 ber það með sèr.

Aronssaga hefir aldrei fyr verið prentuð í heilu líki. Lítið brot af henni er prentað í Antiqu. Russ. II, bls. 356—61, og í Skand. Selsk. Skrifter 1814, bls. 1—37, hefir P. E. Müller biskup snarað á dönsku þætti úr henni.

Rafns saga Sveinbjarnarsonar (bls. 639—676) var á 17. öld til á tveimr skinnbókum; önnur þeirra (hèr merkt *A*) var send til Danmerkr og varð fyrir því óláni að komast á háskólasafnið, og brann hún þar 1728. Bók þessi hefir um miðja 17. öld verið í Skálholti, og er til afskript af henni með hendi sira Jóns Erlendssonar, vönduð og góð, og finnst hún í safni Árna 155 í arkarbroti, er hún hèr lögð til grundvallar. Til eru ennfremr tvær afskriptir Ásgeirs Jónssonar eptir sömu skinnbók (AM. 154 folio og 487 4to), og eru þær hafðar til samanburðar, en báðar

eru þær lakari en afskript sira Jóns. Skinnbók þessi mun hafa verið frá miðri 14. öld, sem ættartalan aptanvið söguna sýnir; er líklegast, að bókin hafi verið rituð á Vestfjörðum, og líklega hefir Brynjólfr biskup fengið hana þaðan. Yfir Vestfjörðum rèðu langa æfi höfðíngjar og stórmenni af ætt Rafns; hefir einhver þessara látið rita söguna upp, og knýtt aptan við hana ættartölunni í kap. 20, því upphaflega hefir sagan endað með 19. kap. þess mætti geta, að Einarr Bergsson, sá sem síðast er nefndr, hafi látið rita söguna. Um þenna Einar vita menn nú ekki annað en ætt hans, sem hèr er sögð, en verið gæti, að í brèfum mætti finna eitthvað frekara um hann. Skinnbók þessi hefir að stafsetníngu verið góð, sem af afskript sira Jóns er að ráða; helzt er athuganda, að hann ritar: geyra, seyni, seynir, deykkr, reykja, beyggi o. s. fr., fyrir gjöra, syni, synir, dökkr, rekkja, bjöggi. þessu höfum vèr haldið í útgáfunni. þessi stafsetníng (ey fyrir ö og y) finnst í ymsum góðum fornbókum, t. d. konúngsbók af Sæmundar Eddu. Textinn í bók þessari og dætrum hennar er ágætr í hvívetna, og er það auðsjáanlega hinn sanni og ómeingaði frumtexti Rafnssögu.

Hin síðari skinnbók Rafnssögu (merkt *B*) er í safni Árna Nr. 557 4to. Á bók þessari eru margar sögur; Árni telr þær svo upp (Nr. 435. 4to, fol. 55 b):

„Aptan af Valdimarssögu.
Hrafns saga og Gunnlaugs ormstúngu, vantar endann.
Hallfreðar vandræðaskálds saga, vantar upphafið og víðar í.
Rafns saga Sveinbjarnarsonar.
Eireks rauða saga [og þorfinns karlsefnis].
Af Rögnvaldi í Ærvík og Rauð.
Damusta saga.
Af Slysa-Hróa, vantar upphafið.
Eireks saga víðförla.
Stúfs þáttr Kattarsonar.
þáttr af Karli vesala.
þáttr af Sveinka Steinarssyni, vantar aptan við. Quarto.

Bókina hefi eg fengið af Mag. Jóni Vídalín, hefir annaðhvort heyrt Skálholtskirkju til eða orðið þar eptir af Mag. Brynjólfs bókum." þessi gáta Árna, að Skálholtskirkja hafi bókina átt, er þó mjög óviss, því vera kynni að hún væri að norðan kynjuð. Björn á Skarðsá hafði hana langa stund milli handa á öndverðri 17. öld, og hefir ritað upp margar sögur þær, sem á henni standa. þá var bókin miklu heilli en nú, þó ekki full; meðal annars var Rafnssaga þá heil, og finnst afskript Bjarnar af henni í Nr. 552 *N* í 4to í safni Árna, en nú eru ekki nema 4 smáblöð eptir af Rafnssögu í skinnbókinni. Skinnbók þessi er ekki eldri en frá 15. öld; að bókfelli, riti og öllum frágangi er hún með lakari skinnbókum teljandi, og af mestu vanefnum gjör, því víða eru í bókinni skinnsneplar og geirar í stað heilla blaða. En hún virðist víða vera rituð eptir allfornum frumritum, en gálauslega; er bókin því ágæt til samanburðar, en lítt hæf til að prenta eptir henni, ef á öðru er völ. Í *B* vantar kap. 20, sem við er að búast, því hann heyrir ekki frumtexta sögunnar til, og mun aldrei hafa staðið nema í þessu eina handriti *A*, sem áðr er nefnt; en hitt er lakara, að formála sögunnar vantar í *B*.

Um aldr sögunnar bera ljósastan vott upphafsorð hennar: „Atburðir margir, þeir er verða, falla mönnum opt or minni, en sumir eru annan veg sagðir en verit hafa, ok trúa því margir, er logit er, en tortryggja þat satt er. En fyrir því, at aptr hverfr lygi þá er sönnu mætir, þá ætlu vær at rita nökkura atburði, þá er geyrzt hafa á vorum dögum, á meðal vor kunnra manna, sem vèr vitum sannleik til." Atburðir sögunnar lenda á árunum 1195—1213; sýna þessi orð ljóslega, að Sturla skáld (fæddr 1214) er ekki höfundr hennar, því sagan hefir öll gjörzt fyrir hans minni. Að höfundrinn hafi klerkr verið, sýna latínuorðin kap. 4 (bls. 645), og að hann hafi á Vestfjörðum verið, það sýna mörg orð og atvik, t. d. orðin „á meðal vor kunnra manna", eða þar sem talað er um steininn á Eyri, kap. 2: „síðan er hann [ok er nú, *B*] hafðr til þvottsteins, ok er svo höfugr at varla megu fjórir karlar hefja;" eða um bæinn á Eyri, kap. 4

(bls. 645): „ok geyrði þar (á Eyri) mörg hús ok stór ok marga aðra bæjarbót, þá er mikil merki má á sjá". Að höfundrinn hafi verið ástúðugr vinr Rafns, það ber sögublærinn með sèr, t. d. lýsíng Rafns kap. 3. Líklegast er að sagan sè rituð ekki alllöngu eptir líflát Rafns, meðan Þorvaldr Vatnsfirðíngr var enn á lífi, og hefnd sú og skapadómr, sem síðan kom fram á honum og ætt hans, var enn ekki yfir komið. Sagan virðist bera þann blæ, að hún sè rituð meðan yfirgangr Vatnsfirðínga var sem mestr, t. d. þar sem kap. 1 segir: „Í þeim atburðum mun sýnast mikil þolinmæði guðs almáttigs . . . ok sjálfræði þat, er hann gefr hverjum manni, at hverr má geyra þat sem vill, gott eðr illt;" eða kap. 4 (bls. 642): „því at vèr seám nakkvara menn, þá [er] meiri virðíng hafa af alþýðu, er minna unnu til virðíngarinnar". Það er og með öllu ótrúlegt, að höfundrinn ekki mundi minnast, eðr drepa á þau stórtíðindi er síðar gjörðust, eptir 1225, ef sagan væri rituð eptir brennu Þorvalds 1228. En sè þetta rètt, þá hljóta orðin „meðan hann lifði" um Þorvald í enda sögunnar (kap. 19, bls. 676) að vera seinni viðbætir, enda stendr og í Sturlúngu að eins: „ok bjó í Vatnsfirði" (Sturl. 4. 18.). Sagan ætlum vèr því muni vera rituð um 1220. Höfund hennar getum vèr ekki nafngreint, má þó vera að hann sè einhver af þeim bræðrum Seldælum, Ragnheiðarsonum, en ekki er það þó annað en getgáta.

Rafnssaga hefir aldrei fyr verið prentuð heil, en brot af henni er prentað í *Grönl. hist. Mind.* II, 725—749. Sögunni er lýst í Sagabibl. I, 336—43.

Prestssaga Guðmundar og Rafnssaga eru merkilegar fyrir þá skuld, að þær eru einar af þeim frumritum, sem settar hafa verið inn í Íslendíngasögu, en sem Sturla ekki er höfundr að. Fleiri sögur slíkar eru liðaðar inn í Sturlúngu: 1) Guðmundar saga dýra[1], rituð líklega um 1200—1210. 2) Þorgils saga skarða.

1) Hún var enn til sèrstök á öndverðri 14. öld, sjá Ól. s. helga, Christiania 1853, bls. xlvij, og er hún þar nefnd „Önundar brennu saga".

3) Saga þeirra Ormssona, Svínfellínga. 4) Upphaf og niðrlag Sturlúngu. Síðari helmíngr Rafnssögu, kap. 12—19, er settr inn í Sturlúngu 4. 12—18; ætlum vèr að Sturla hafi sjálfr gjört þetta um leið og hann skrifaði Íslendíngasögu sína, en öðru máli er að gegna um prestssögu Guðmundar og sögu Guðmundar dýra, sem aptr er liðuð inn í prestssöguna. Þetta mun gjört að Sturlu liðnum, sem formáli sá sýnir, sem settr er inn í Sturlúngu (2. 38) rètt á undan prestssögunni. Þessi formáli sýnir, að sá sem hann hefir ritað hefir munað Sturlu, og hann hefir ritað ekki löngu eptir andlát hans, þar segir svo: „því at hann (Sturlu) vissa ek alvitrastan ok hófsamastan; láti Guð honum nú raun lofi betri" (eptir AM. 122 *A*, fol. 14 [b]). Því getr það með engu móti staðizt, að þessi maðr hafi verið Þorsteinn ábóti böllóttr, sem sumir menn ætla, því: 1) andaðist hann nærfelt 70 árum eptir Sturlu (ár 1351), og gat því ekki munað hann; 2) standa orðin „móðurföður míns, einnig" (sjá Sturl. 3. 9. athgr. 1) alls ekki í skinnbókinni gömlu AM. 122 *A*. folio; þar stendr að eins: „móðurföður Narfasona." Orðin „móðurföður míns einnig" munu vera innskot; finnast þau að eins í einu pappírshandriti, sem og mun eiga kyn sitt að rekja til Þorsteins ábóta. 3) Allar ættir í byrjun á 1. þætti eru leiddar að Skarð-Snorra, föðurföður Narfasona, en engar að Mela-Snorra. Viljum vèr því heldr geta þess til, að einhverr af Narfasonum hafi gjört þetta. Líkastr til þess af þeim bræðrum þætti oss Þórðr Narfason († 1308); hann bjó að Skarði og hefir að líkindum verið lærisveinn Sturlu, og numið að honum margan fróðleik (sbr. Sturl. 10. 19), og líklegt er, að hann og þeir bræðr Narfasynir hafi komizt að bókum Sturlu eptir hann látinn. Þetta efni þarf enn mikillar rannsóknar við; bíðr það þeirrar stundar, að ný útgáfa yrði prentuð af Íslendíngasögu Sturlu.

XI. Árna biskups saga (bls. 677—786). Öll þau handrit, sem eru til af henni, eru komin af einni skinnbók, sem verið hefir til á Íslandi á 17. öld, en nú eru ekki eptir af henni nema 2½ blað, sem er að finna í safni Árna Nr. 122 *B*,

og eru þessi blöð þar saman við mikinn blaðafjölda og blaðaslitr, sem eru leifar úr ymsum Sturlúngu-handritum; þar eru og þau 2½ blöð úr jarteinum Guðmundar, sem að framan eru nefnd. Árni segir um Sturlúnga slitr þessi (435 í 4to, fol. 45 b): „Íslendínga sögunnar miklu (*alias* Sturlúnga sögu) *fragmenta varia*, komin til mín af Vestfjörðum, hvar bókin nýlega í sundr rifin er, *scilicet* hjá Árna Guðmundssyni í Bíldudal". Sum af þeim Sturlúngu-blöðum, sem í bókinni eru, eru með sömu hendi og Árna biskups saga, og er af því að ráða, að í bókinni hafi verið, þegar hún var heil, bæði Sturlúnga og Árna biskups saga, og jarteinir Guðmundar biskups. Að bók þessi hafi fyrir vestan verið sem Árni segir, þar að lúta og öll önnur rök. þegar sira Jón Egilsson árið 1601 ritaði Húngrvöku sína í Skálholti, þá vissi hann hvorki af Sturlúngu nè Árna biskups sögu að segja; hann segir um Árna biskup: „ekki er og heldr um hann grandið, það eg muni, hvorki sagt nè skrifað" (Safn til s. Ísl. I, 31). þetta væri furða, ef vèr ekki vissim, að Árna biskups saga og öll þau skinnbókabrot, sem af Sturlúngu eru til, eru af Vestfjörðum komin, og hafði hvorki sira Jón nè Oddr biskup enn fengið spurnir af bókum þessum. þessi 2½ skinnblöð úr Árna biskups sögu fèkk Árni að vestan; hann segir um þau: „hálft annað blað úr Árna biskups sögu þorlákssonar, fengið 1715 frá Monsieur Ormi Daðasyni með hans brèfi dateruðu 1714;" og á 3. blaðið er skrifað: „Frá Eggert Snæbjörnssyni á Múla 1708". Blöð þessi eru í folio, rituð í tveim dálkum, og um 40 línur á dálki; höndin er sett og góð, og má geta þess að bókin sè frá miðri eða ofanverðri 14. öld. Við stafsetninguna er helzt athuganda: *e* fyrir *æ*, t. d. ner, fera, veri = nær, færa, væri; *-o -or* er opt haft fyr *-u -ur* helzt ef *o*-kynjaðr hljóðstafr (*ö*, *o*, *ó*, *au*) er í stofninum (t. d. fóro, konor o. s. fr.); *va* er ætíð haft fyrir *vo* (t. d. sva, hvarr o. s. fr.); skildi, firir, þikkja = skyldi, fyrir, þykkja; gera = gjöra. þar sem nú öll handrit vor eru frá þessari einu skinnbók komin, þá er það vitaskuld, að skinnblöðin eru lögð til grundvallar það sem þau til endast, og stafsetníng útgáfunnar er löguð sem varð, og henta þótti, eptir

þeim, svo að útgáfan yrði að útliti eins og þó öll skinnbókin nú væri til. — Í safni Árna er til skinnbók með sömu hendi og í sama broti og þessi Árna biskups saga, og Sturlúngu-blöð þau sem henni fylgja, en það er Ólafs saga Tryggvasonar í AM. 62 folio, og er þar enginn efi á, að báðar þessar bækr muni ritaðar vera af sama manni, en úr sömu bók eru þær varla, því bæði er efnið ósamstætt, og svo mundi eigi svo mikið komast fyrir í einu bindi sem allar þessar sögur.

Nú er því næst að tala um þau handrit Árna biskups sögu sem komin eru frá 122 *B*, meðan hún var heil, og deilum vèr handritum þessum í flokka eptir ætterni sínu við frumbókina:

1) Hin fyrsta afskript af sögunni í 122 *B* er rituð á Vestfjörðum (um 1640) af Jóni Gizurarsyni á Núpi í Dýrafirði, og finnst hún í safni Árna Nr. 114 folio. Afskript sira Jóns Arasonar í Vatnsfirði (sem nú er týnd) hefir eflaust verið rituð eptir afskript Jóns Gizurarsonar, en ekki eptir skinnbókinni sjálfri, en frá þessum afskriptum þeirra Jóns Gizurarsonar og sira Jóns Arasonar eru komin öll þau handrit af Árna biskups sögu, sem nú finnast í safni Árna (fyrir utan Nr. 384 4^to^), nl. 115 með hendi sira Jóns í Villíngaholti, 116, 118, 119, 120, allar í folio. Ennfremr heyrir þessum flokki til eitt handrit, sem í hinni fornu útgáfu Árna biskups sögu er merkt *Gr.*, og enn að auk tvö handrit í Stokkhólmi. Afskript Jóns Gizurarsonar og sira Jóns í Vatnsfirði er móðir allra þessara handrita. Sjálf er afskript Jóns Gizurarsonar frí og lítt vönduð, víða sleppt úr orðum og greinum, eða þá dregið saman, vikið við orðum og sleppt úr heilum málsgreinum, þar sem honum bauð svo við að horfa, og textinn var torskilinn eða bjagaðr, og sett ný orð í stað gamalla; hann hefir og í kap. 72 og 73 skotið inn langri klausu af eigin brjósti; þar á móti eru nöfn og allt þesshàttar rètt ritað, því er afskript þessi ágæt að hafa til samanburðar, en óhæf til að leggja hana til grundvallar. Jón Gizurarson hefir og fyrstr skipt sögunni í 79 kapítula, en í skinnbókinni vóru öll önnur og miklu smærri kapítulaskipti.

2) Skinnbókin 122 *B* hefir síðan, eptir að Jón hafði skrifað hana upp, farið sömu boðleið og mörg önnur handrit að vestan, og komizt norðr í land og í hendr þorláki biskupi Skúlasyni. Hann lèt skrifa hana upp á bókfell. þessi skinnbók þorláks biskups finnst nú í bókhlöðu konúngs í Stokkhólmi, Nr. 12. 4to (merkt *S*), en því er miðr, að síðasta örk bókarinnar er glötuð, og endar hún nú í 66. kap. þessi bók er hin bezta af öllum vorum afskriptum, og þegar vèr nú berum hana saman við þau blöð af frumbókinni, sem enn eru til, þá má sjá, að hún er vönduð í alla staði og nákvæm, hún hefir og sama kapítulatal sem í skinnbókinni fornu stendr; það var því ekki efamál, að hana, og enga aðra, mátti leggja til grundvallar, og er svo gjört. *S* mun vera rituð um 1640—50; hún er með sömu hendi og hin skinnbókin þorláks biskups, sem Húngrvaka er á, og sem að framan er getið, en brotið er ekki alveg hið sama, og nokkru stærra á Árna biskups sögu en hinni, er hún því ekki úr sömu bók og Húngrvaka.

3) Hið þriðja handrit, sem vèr ætlum að annaðhvort sè á fyrstu hönd komið frá hinni fornu skinnbók, eða þá eptir pappírsbók sem nú er glötuð, og ritað er á fyrstu hönd, er bók sú, sem hin forna útgáfa sögunnar er eptir prentuð (hèr merkt *U*), og átti Magnús konferenzráð Stephensen í Viðey. þessa handrits var ekki við kostr, því það er nú líklega úti á Íslandi; varð því útgáfan að koma í stað þess, og eptir henni er prentað niðrlag sögunnar, eptir að Stokkhólmsbók þrýtr. þetta handrit er að setnínga-skipan og orðalagi miklu betra en sá flokkr, sem kominn er frá bók Jóns Gizurarsonar, en það er geysilega misritað, og rangt víða, og er að eins hafanda til samanburðar.

4) Hið fjórða handrit, er á fyrstu hönd mun vera ritað eptir 122, er pappírshandrit Nr. 8. 4to í bókhlöðu konúngs í Stokkhólmi; það mun vera ritað um miðja 17. öld og er áfast Sturlúngu. það endar í 79. kap., á orðunum „allr múgr leikmanna varð sinn munn fyrir honum at byrgja" (bls. 786). Lítt

merk afskript af þessari bók er í safni Árna Nr. 384 í 4^{to}, „grey exemplar", sem Árni Magnússon segir.

5) Hið fimta handrit á fyrstu hönd er hin optnefnda pappírsbók AM. 204 folio, þar er aptast Árna biskups saga, en nær þó ekki lengra en fram í 33. kap.

Öll handrit Árna biskups sögu deilast því í 5 kynkvíslir (*a*, *b*, *c*, *d*, *e*), og ótal dæmi má færa því til sönnunar, að skinnbókin gamla 122 *B*[1] sè frumbók þeirra allra. Vèr skulum tilgreina eitt dæmi: Á 17. öld, þegar farið var að skrifa upp 122, hefir á einum stað verið skorin sneið utan af einu blaði í bókinni; nú vill svo til, að af þeim $2\frac{1}{2}$ blöðum sem nú eru til, þá er hálfa blaðið einmitt það sama blað, sem sneiðin var burtu af á 17. öld. Nú er næstum allr ytri dálkrinn sneiddr af, en þó svo, að stúfr lítill er eptir af hverri línu (sjá bls. 714 athgr. 1 og 715 athgr. 2—6). Þegar nú þessir línustúfar eru bornir saman við afskriptina í Stokkhólmsbók, þá má nákvæmlega sjá, að sneiðin sem af var skorin í 122 nam 9 neðstu línurnar. Nú ef menn gæta að hinum handritunum á þessum stað, þá hleypa þau öll að mestu þessari grein úr, eða skeyta orðin svo illa saman, að meiníngin er verri en engin, en Stokkhólmsbók er eina handritið, sem skrifar línustúfana reglulega upp að mestu, og segir á spázíunni, að hèr vanti í. Sýnir þetta ljóslega, að öll handrit vor eru frá þessari einu skinnbók 122 komin, og að sneið þessi var skorin af blaðinu í henni þegar á öndverðri 17. öld, þegar fyrst var farið að skrifa hana upp. Það er og svo, hvar sem í söguna er litið, að sömu villur ganga í gegnum öll handrit, og þar sem hleypt var úr orði eða misritað nafn í skinnbókinni fornu, þá er engrar hjálpar að leita í hinum handritunum. Þar sem nú að málvillur standa í Stokkhólmsbók, þá er fyrst að athuga, hvort þessi villa hafi staðið í sjálfri frum-

1) ættin yrði þannig:

*A* (AM. 122 *B*.),

*a*. AM. 114 (Jón Giz.). — *b*. Sthb. Nr. 12. — *c*. Útg. — *d*. Sthb. Nr. 8. — *e*. AM. 204.

Vatnsfj. bókin AM. 115, 116, 118, 119, 120, 438. AM. 384. 4to.

bókinni, og má sjá það ef borið er saman við eitthvert handrit af hinum flokkunum, t. d. 114 eða 204, eða útgáfuna gömlu, því standi sama þar, þá er villan úr frumbókinni, en hún hefir víða verið misrituð, felld úr orð og setníngar, og nöfn röng; veldr því hinn einkennilegi blær sögunnar, að ritarinn hefir víða ekki skilið hvað hann ritaði, eða þá rangfært það sem skrifað stóð; en með því nú engin önnur skinnbók finnst til samanburðar (fyrir utan þau tvö skinnblöð, sem nú skulu nefnd), nè nokkur afskript, er sè annars kyns: þá er ekki í annað hús að venda, en geta sèr til hins sanna; má það víða takast, en þó er það ekki óvíða sem enginn kostr er leiðrèttíngar, nema ný handrit komi fram, sem þó varla er við að búast.

Það má því teljast mikill skaði, að glatazt hefir skinnbók ein af sögu þessari, áðr en nokkur varð til að skrifa hana upp, svo ekki eru til af henni nema tvö blöð (í 4to) í safni Árna Nr. 220 folio, en hvort meira hefir til verið af þessari bók á 17. öld, látum vèr ósagt; víst mun það lítið hafa verið, því enginn hefir orðið til að skrifa það upp. Árni hefir ekki skrifað hvaðan þessi blöð sè komin af Íslandi; höndin á þeim er auðsjáanlega hin sama og á Guðmundarsögu eptir Arngrím ábóta, þeirri, sem stendr í Stokkhólmsbók og sem getið er bls. XXIX-XXX. Nú með því að sú bók er að vestan komin, þá mætti vera, að þessi blöð væri og að vestan, þó þau sè úr allri annari bók. Hið fyrra skinnblað byrjar kap. 5 (sjá bls. 683 athgr. 2) og endar kap. 6 (bls. 686 athgr. 1); síðara blaðið byrjar kap. 10 (bls. 691 athgr. 1) og endar kap. 11 (bls. 694 athgr. 3). Sú skinnbók, sem þessi blöð eru úr, hefir að vísu verið að orðfæri alveg samhljóða hinni, en hún eykr inn ymsum málsgreinum, sem hin sleppir, t. d. bls. 691 athgr. 4; 684 athgr. 2; 685 athgr. 5. Greinina bls. 691 athgr. 2 þorðum vèr ekki að taka upp í textann, því það er ekki víst, nema hún sè innskot. Ymsar smærri málvillur verða og rèttar eptir þessum tveim blöðum, en hvað mundi ekki mega, ef vèr hefðim söguna heila í þessari bók? — Skinnbók þessi mun vera rituð á síðara hluta 14. aldar.

Einsog kunnugt er hættir Árna biskups saga í miðju kafi vorið 1291, en Árni biskup andaðist ekki fyr en 7 árum síðar (1298), en hver er sök til þessa? er það sú, að höfundrinn hafi ekki verið kominn lengra að rita, og hafi dáið frá sögu sinni, eða vantar aptan við söguna? Væri til tvenn handrit af sögunni og endaði á sama stað hvorttveggja, þá væri auðsætt að geta hins fyrra, en nú er allt frá einni skinnbók runnið, og hún sjálf að mestu týnd. Vèr höfum talið til eptir þeim blöðum, sem til eru af skinnbókinni 122 *B*, og telst oss svo til, að sagan (þ. e. kap. 79) hafi ekki endað þar neðst á blaði, heldr á þriðja dálki. Í heilu líki hefir Árna biskups saga verið um 20 blöð í 122; 2¼ blað í útgáfunni svarar til eins blaðs í skinnbókinni, en eptir síðasta blaðið, sem til er af 122 (bls. 766 athgr. 1) stendr heima að staðið hafi 4½ blað, eða 4¾ í mesta lagi, því þessi 10 blöð í útgáfunni eru oflítið á 5 blöð heil, en ofmikið á 4; er því annaðhvort, að fjórði dálkrinn hefir auðr staðið, og þá hefir sagan aldrei lengri verið í bókinni, eða þá, að hann hefir verið máðr og ólæsilegr, og vantar þá aptanvið söguna þann dálk, og að vísu meir en eitt blað að auk. Vèr ætlum hitt sennilegra, að sagan hafi hèr aldrei lengri verið, einmitt af því, að ekki stenzt á endir kap. 79 og blað í skinnbókinni, því væri það, þá þætti hið síðara óyggjanda; þó er varla unnt að fullyrða neitt í þessu efni.

Á 17. öld miðri var bætt við söguna 80. kapítulanum, til að setja einhverja endalykt á hana. Þessi kapítuli er eptir sira Jón Arason í Vatnsfirði. Hefir Brynjólfr biskup með eigin hendi skrifað á spázíuna í sinni bók AM. 115 folio við kapítula þenna þessi orð: „*Addita atque intersita sunt hæc et hujus generis omnia nuper a domino Joná Aræsonio, præposito et pastore Vatnsfjordio*". Þessi kapítuli finnst og hvorki í afskript Jóns Gizurarsonar nè í öðrum hinum elztu afskriptum, en í öllum hinum ýngri finnst hann, sem ritaðar eru eptir miðja 17. öld[1]. Það er segin saga, að vèr ekki höfum prentað þenna kapítula, því hann kemr hinum upphaflega texta sögunnar alls ekki við. Þeir sem vita

1) öll þau handrit sögunnar, sem hafa kap. 80, eru komin frá Vatnsfjarðarbók.

vilja lykt staðamála lesi „rèttarbót Eireks konúngs 2. Mai 1297, í Lagasafni handa Íslandi. I, 22-23.

En nær er sagan rituð? er hún rituð að Árna biskupi lifanda eða að honum önduðum? — Vèr ætlum það óyggjanda, að hún sè rituð að honum önduðum, þó hún ekki segi frá 7 síðustu æfiárum hans, og munu aðrar orsakir liggja til þess. Kap. 53 er minnzt á klaustr það, sem Jörundr biskup lèt setja á Möðruvöllum, en það var árið 1295—96, sem annálar votta. Kap. 74-75 er tvisvar nefndr Árni Helgason, „er síðan var biskup" (1304-1320), og í kap. 1, þar sem talin er ætt Lopts Svartssonar, afa hans, er enn nefndr, „Árni, er síðan varð biskup"; enn fremr er nefndr „Svartr þormóðarson", sem er í sama lið og Árni Helgason; svo er og nefndr „Ívarr hólmr", hans er í annálum getið árin 1307 og 1312; 1314 var hann gjörr kanzeler, en í sögunni er hann ekki nefndr nema herra. Í 12. kap., þar sem talin eru börn Egils í Reykjaholti Sölmundarsonar, þá er nefndr Kolbeinn jarl (Auðkýlíngr † 1309) og Finnbjörn Sigurðarson í Hvammi í Vatnsdal. Finnbjörn bjó í Hvammi í tíð Laurentius biskups og líklega í tíð Auðunar rauða, en í orðum sögunnar: „Finnbirni, syni Sigurðar í Hvammi í Vatnsdal" sýnist að vera fólgið, að Sigurðr faðir hans hafi þá enn verið á lífi er sagan var rituð, og búið í Hvammi, því ella mundi sagt „Sigurðar syni í Hvammi í Vatnsdal". En þar sem nú í þessum sama kapítula er nefndr þórðr lögmaðr Egilsson, þá hlýtr orðið lögmaðr að vera sett inn af afskrifara, því þórðr varð ekki lögmaðr fyr en 1341. Vèr *ætlum það því óyggjanda*, að sagan sè rituð *í tíð* Árna biskups Helgasonar, og ber hún sjálf með sèr, að höfundrinn hefir lifað í Skálholti eða sunnanlands; það sýna og orðin „niðri á Eyrarbakka", í kap. 26.

það sem einkum gjörir þessa sögu ágæta, er það, að höfundr hennar hefir þekkt öll brèf og skjöl áhrærandi landstjórn og lög á Íslandi um daga Árna biskups: brèf konúngs og erkibiskups til biskupa á Íslandi eðr lögmanna og alþíngis, og brèf biskupanna aptr til konúngs eðr erkibiskups. Hann hefir og þekkt

flest brèf Árna biskups, bæði opinber og heimugleg, brèf þau er fóru á milli þeirra Árna biskups og Runólfs ábóta í Veri, og brèf Lopts Helgasonar til biskups. Hann hefir og þekkt brèf herra Þorvarðar til Magnúss konúngs, sem þó var heimuglegt; hefir biskup á einhvern hátt komizt að brèfinu, eða konúngr hefir sýnt honum það, því þar var farið lofsorðum um biskup. Þar á móti hefir höfundrinn ekki þekkt neitt til brèfa þeirra, er fóru milli herra Rafns og konúngs, en á einum stað tilgreinir hann kafla lítinn úr brèfi Rafns til biskups. Á einum stað að eins (kap. 56) er nefnt brèf Rafns til biskups, er var svo heimuglegt að „þeir einir vissu hvat á var". Höfundrinn tilfærir og sem orðrèttar þíngræður herra Loðins og biskups á alþíngi 1281, er rædt var um Jónsbók, og ræður Árna biskups og herra Rafns á alþíngi 1284, er staðamál vóru kærð. Það er því á öllu auðsætt, að höfundrinn hefir verið handgenginu Árna biskupi, og ef vèr nú hyggjum að, hver hann muni vera, þá finnst oss að eins vera einn maðr, er er í tygi geti verið um þetta, en það er Árni biskup Helgason sjálfr, systurson Árna biskups. Í 1. kapítula eru talin öll börn Ásbjargar móður hans, en lítið sem ekki minnzt á ætt hinna systkinanna. Árni biskup lagði og mesta rækt við börn þeirra Helga og Ásbjargar. Árna systurson sinn tók hann að Skálholti og vígði, og gjörði hann kapelan sinn, og hafði hann með sèr í utanferð sinni 1288, og hefir að líkindum lagt við hann mikið ástfóstr. Árni Helgason varð og biskup eptir móðurbróður sinn, og var einhverr hinn stjórnsamasti og bezti biskup, sem verið hefir á Íslandi. Það er enn eitt athuganda, að þar sem Árni Helgason er nefndr í sögunni, þá er engu lofsorði vikið til hans, sem þó var von til, þar sem hann var systurson og fóstrson þess manns, sem sagan er af, en sjálfr ágætismaðr. Þess má enn geta, að svo er að sjá á kap. 18 að höfundrinn hafi munað til eða verið í veizlu þeirri, er Guðný Helgadóttir, systir Árna Helgasonar, giptist herra Þórði á Möðruvöllum 1274. Af þessum rökum samtöldum ætlum vèr því, að sagan sè rituð í Skálholti um daga Árna biskups Helgasonar, og að vorri ætlan er hún að vísu ritin

að hans fyrirsögn, eða öllu heldr af honum sjálfum, enda mundi og enginn óvalinn klerkr bera það skyn á landslög og kristinrètt, sem saga þessi ber með sèr að höfundr hennar hefir borið; þau brèf og skjöl, sem höfundrinn hefir þekkt og notað, getr og enginn hafa haft undir höndum, nema biskupinn í Skálholti, og það því að eins, að hann væri frændi Árna biskups og fóstri, svo hann hefði eigi síðr undir hendi heimugleg brèf hans en opinber. Árna biskups saga er einhver hin margfróðasta af öllum vorum sögum; án hennar væri það skarð í sögu landsins og kirkjusögu, eigi að eins vora heldr og Noregs, sem aldrei yrði fyllt. Þessi saga má með rèttu heita saga Íslands á þeim 20 árum sem hún helzt nær yfir (1270—90), en þessi 20 ára öld er einhver hin afdrifamesta í sögu landsins, og þeir tveir aðilar sögunnar, Árni biskup og Rafn Oddsson, voru hvor um sig hinir mestu ágætismenn og skörúngar til laga og landsstjórnar, sem uppi vóru á Íslandi alla 13. öld frá andláti Jóns Loptssonar; væri ekki þessir tveir menn, þá væri þjóðlíf og stjórnarlíf Íslendínga á 13. öld næsta daprt ásýndar. Menn hafa lastað Árna biskup fyrir ríki hans og hörku í staðamálum, en enginn hefir frýð honum um einurð og skörúngskap. Það er og sannast að segja, að af tvennu illu, allz ekki var á góðu völ, þá var það landinu hollara, að innlendir biskupar yrði höfðíngjar landsins, heldr en að útlent vald sæti yfir landslögum og rèttindum manna. Biskupavaldið deyfði og linaði konúngsvaldið. Þess ber og að gæta, að staðamál fengu hófleg úrslit, úr því sem ráða var, með rèttarbótinni 1296.

Árna biskups saga hefir áðr verið útgefin af hinu íslenzka bókmentafèlagi, Kmhöfn 1820, 4[to]; sagan er þar prentuð eptir því handriti er Magnús Stephensen í Viðey átti, og fyr var getið, en handritaflokkr Jóns Gizurarsonar hafðr til samanburðar; er textanum því í mörgu áfátt. Brot af sögunni er prentað 1838 í Grönl. hist. Mind. II. 786—91 og 1852 í Antiqu. Russ. II. 361—67.

XII. LAURENTIUS SAGA HÓLA BISKUPS (787—877). Þessi saga finnst á tveimr skinnbókum. Hin fyrri skinnbók er í safni

Árna Nr. 406 *A* í 4[to] (merkt *A*). Bók þessi er kynjuð norðan úr Skagafirði, og mun hafa verið langfeðga eign í hinni nafnkendu Hrólfsætt; Halldór þorbergsson á Seilu, Hrólfssonar, Bjarnasonar hins sterka, Skúlasonar, átti hana síðast; var bókin, þegar hún kom frá Halldóri, í trèspjöldum og skorið á spjöldin fangamark hans í rúnum (*H. þ.*), og svo föður hans, þorbergs Hrólfssonar (*þ. H.*); sýnir þetta, að bókin hefir verið eign beggja þeirra feðga. Halldór þorbergsson lèði bókina kaupamanni af Akranesi, þorvarði Hallssyni, en er hún kom ekki úr láninu, þá gaf Halldór hana þórði Pètrssyni, ef hann gæti náð henni, en í stað þess náði bókinni Jón þórðarson á Bakka í Melasveit, og gaf hana sira þórði á Staðastað, en sira þórðr gaf hana Árna Magnússyni. þessi er æfisaga bókarinnar, sem nú verðr rakin. Gjafabrèf Halldórs þorbergssonar finnst með hans eigin hendi (í AM. Nr. 435 í 4[to] við fol. 53-54) og er svo látanda: „það auglýsi eg undirskrifaðr, að eg fæ til fullkomlegrar eignar ehrusömum heiðrsmanni þórði Pètrssyni þá bók, er eg lèð hefi fyrir nokkrum árum kaupamanni er hjá mèr var á Hóli í Sæmundarhlíð, þorvarði Hallssyni, og þá sagðist að heimilisveru að Innra-Hólmi á Akranesi, hver sem upp kann að spyrja og ná; hefir tèð bók inni að halda Laurentii biskups sögu, á kálfskinn skrifuð, í trèspjöldum, hverja bók eg hefi aldrei fyr en nú gjöfum gefið eðr sölum selt. Til merkis mitt nafn undirskrifað. Seilu í Skagafirði d. 25. Augusti 1693. Halldór þorbergsson. eg. h." — „þórðr Pètrsson" (segir Árni Magnússon) „fèkk mèr þenna seðil 1707, og hefi eg hans heimild fyrir bókinni ofan á hina fyrri." Nú er bókin alls 39 blöð og 33 línur á blaðsíðu, en í hana vantar 4 innstu blöðin í fremstu örkinni, og þar að auki vantar aptan við söguna 1 blað. Bókin endar með heilli örk, hefir því síðasta blaðið staðið laust, og fyrir það sama hefir það týnzt. Árni hefir mjög haldið spurnum fyrir um þessi týndu blöð, og skrifaði hann í því skyni til Árna Hannessonar á Ytra-Hólmi svolátanda brèf: „Eg hefi eina Laurentius biskups sögu á kálfskinn í litlu 4[to], sem eg fengið hefi af sira þórði Jónssyni á Staðarstað, en hann hefir bókina öðlazt af Jóni þórðarsyni á Bakka í Melasveit, en Jón er sagt

að bókinni komizt hafi í Vík á Akranesi; nú vantar í þessa bók (í fyrsta arkið) fjögr blöð. Áhrærandi þessa Laurentius sögu og þann *defectum*, sem þar í nú er, vildi eg fá að vita: 1) Hvar Víkrfólk komizt hafi að þessari kálfskinnsbók, *item* hverir hennar eignarmenn hafi upp að verið, svo langt sem menn það tilbaka rekja kunna. 2) Hvort þessi blöð muni í bókina vantað hafa, þá Jón þórðarson hana eignaðist, og ef svo er, þá að gangast grandvarlega eptir, hvort þau blöð ei muni upp á einhvern máta í Vík eptir orðin, eða þar um kríng vera að finna. Hafi Jón ekki athugað, hvort þau vantað hafi eðr ei, þá að biðja hann rannsaka hjá sèr hèr eptir. 3) Að fornema hjá Jóni þórðarsyni, hvort ei hefir nefnda Laurentius sögu eptir þessari bók uppskrifað eðr uppskrifa látið, áðr en hann bókina af höndum lèt, og ef hann þar af copie hefir, þá að biðja hann einkanlega ljá mèr þá sömu copie, til að fylla þar úr það nú í bókina vantar (ef það þar í standa kynni), og sèrdeilis til eptirsjónar um ein og önnur orð, sem nú allvíða í kálfskinnsbókinni trosnuð eru og lítt læs, framar en þau munu verið hafa þá bókin var í hans höndum." Árni Hannesson svaraði þessu með svolátanda brèfi, dat. Ytra-Hólmi 17. Octbr. 1706: „Fyrir utan langyrði er það af Laurentius sögu hið fljótasta að segja, það mèr er með skilum fortalið, að hún komin sè fyrir nokkrum árum síðan frá Halldóri þorbergssyni að norðan til þorvarðs Hallssonar, sem verið hefir hjá Snæbirni sáluga Björnssyni, móðurbróður Víkrbræðra og kvinnu Jóns Böðvarssonar. þorvarðr segir, að sínir systursynir muni fengið hafa Jóni þórðarsyni þessa bók (sem satt reynist); heldr þorvarðr, að hún öldúngis full og óskert verið hafi nær í hans höndum var, en eigi finnst þar neitt af þess slags eptir orðið, nè heldr öðru gömlu, sem eg hefi rannsakað. Hann meinar að útskript þessarar bókar muni vera fyrir norðan hjá fólki Halldórs, eðr þar nálægt. Eg skrifaði til Jóni þórðarsyni, og beiddi hann um fyrirgreiðslu á þessu, eptir sem kynni; fann eg hann nú samstundis persónulega þarum, og kveðst hann ekkert til vita, hvort nokkuð hafi í bókina vantað, nær til hans kom eðr burt aptr fór, þar ei hafi hjá sèr verið mikið yfir eina

viku, og segir fullkomlega, að ekki hafi hjá sèr eptir orðið það í hana vantar, og enga þess slags sögu sè þar að finna. Fyrrnefndr þorvarðr Hallsson segir sig til ranki, að fangamark Halldórs þorbergssonar eðr hans föður sè skorið upp á spjöld bókarinnar, og ef það enn nú sèst, er það til nokkurrar bevísíngar. Eg veit ekki hvað eg kann meira að gjöra í þetta sinn hèr um, sem yðar eðlaheitum þènar." Af afskriptunum þykir mega ráða, að í bókinni hafi verið þessi fjögr blöð þegar þorvarðr fór með hana suðr, en niðrlag hennar mun þá hafa vantað, og kann vera að það hafi þá fyrir löngu verið týnt úr bókinni. Til þessa skulum vèr síðar leiða rök.

það er engin furða, þó Árni hafi haldið svo mjög spurnum fyrir um þessa bók, því án hennar hefðim vèr ekki þá rèttu upphaflegu Laurentius sögu. þó getr bókin varla verið eldri en frá öndverðri 16. öld eða í mesta lagi frá enda 15. aldar; höndin er smá, og alveg sem á brèfum frá 1500, þó hefir lærðr maðr ritað hana, það sýna latínsku orðin, sem optast eru rètt rituð. Fremstu tvö blöðin eru mjög máð, og svo munu einnig hafa verið þau 4 blöð sem vanta, þar af kemr það, að þær tvær afskriptir sem til eru af henni í safni Árna (frá hèrumbil 1700: Nr. 406, *B*, *C* í 4^to^) byrja hvorugar fyr en á 6. blaði hennar; verðr því á þeim ekki sèð, hvort þessi fjögr blöð hafi þá í bókinni verið. Aptr í bókinni er bókfellið á stöku stað rotið, og hafa stöku orð og stafir dottið úr af fúa. Á tveim eðr þrem stöðum höfum vèr orðið að sækja í þessar afskriptir orðin sem úr eru rotnuð.

Í Viðbæti (bls. 878—914) er prentaðr síðari hluti Laurentius sögu eptir annari skinnbók í safni Árna, Nr. 180 *B*. folio (merkt *B*). Um bók þessa og innihald hennar segir Árni (A. Magn. Nr. 435 í 4^to^, fol. 98^b^):

„1) Aptan af Konráðs sögu keisarasonar. 2) Dunstani saga (*authore fratre Arnone Laurentii filio*) vantar í. 3) Katrínar saga, vantar í. 4) Bærings saga fagra. 5) Úr Knytlínga sögu, um Knút helga, Ólaf, Eirek góða og Nikulás, vantar við endann. 6) Um Svein Úlfsson og Harald hein (úr Knytlíngasögu) vantar

upphafið[1]. 7) *Vitus saga píslarvotts*, vantar í. 8) *Laurentius* saga Hóla biskups, vantar í. *Folio majore.* þessi bók var komin í marga parta norðr í landi, og hefi eg hana fengið af ymsum, nokkurn part þar af hjá Skúla Ólafssyni, nokkurn part frá Magnúsi Jónssyni á Leirá, en Magnús hafði sitt fengið í ymsum stöðum. Nokkra smágeira og mutileruð blöð hefi eg fengið á Íslandi eptir 1702, sitt úr hverjum stað". Bók þessi er nú 52 blöð á þykkt, og 39—45 línur á blaðsíðu. Höndin er nokkuð stór og hrikaleg, blekið svart og gljáandi, og stendr sem upphleypt á blöðunum, eins og vant er að vera á handritum frá 15. öld. Stafsetníngin er misjöfn: *ur* ritað opt fyrir *r*; *i*, *ei* ekki allsjaldan fyrir *y*, *ey*, (t. d. birja, heira = byrja, heyra). Hönd og stafsetníng er í öllu hin sama sem tíðkaðist um miðja og ofanverða 15. öld, og sem finna má á sögubókum frá þeim tíma (t. d. AM. 152 folio). Laurentius saga er rituð á 17 síðustu blöðum bókarinnar, frá 36. blaði til 52. Í söguna vanta nú 3 blöð (sjá bls. 799 athgr. 1. og bls. 903) og 2 blöð að líkindum aptan við hana.

Fram að 22. kap. er sagan í Nr.180 *B* öldúngis samhljóða og í 406 *A*, og verðr fyllt eptir henni fjögra blaða eyðan sem er í fremstu örkinni í 406; en frá 22. kap. og út í gegn fer hún að verða styttri, og því fremr sem meir dregr aptr eptir, án þess að hafa nokkurt nýtt orð nè atvik, að efni til, sem teljanda sè. Er það af samanburði auðsèð, að þessi meðferð sögunnar er ekki nema ágrip, en vèr höfum þó prentað í Viðbæti allan þann hluta sögunnar, sem víkr frá 406, svo að menn hafi söguna fyrir sèr í báðum myndum (*A* og *B*) og geti svo dæmt um. Sagan í 180 á og skilið að hún sè útgefin, svo sem móðir nærfellt allra pappírshandrita, sem nú finnast af Laurentius sögu.

Árið 1641 hefir skinnbók þessi (*B*) verið á Hólum, og lèt þorlákr biskup þá skrifa Laurentiussögu eptir henni í sitt optnefnda safn af Biskupasögum. þessi afskript finnst í safni Árna

---

1) Eptir Nr. 5-6 í 180 *B* er prentuð Knytlinga í Fornm. ss. XI bindi; það er mishermt sem þar segir í formálanum, að bók þessi sè frá Skálholti.

Nr. 404 í 4to; þá hefir í bókina vantað endablöðin, eins og nú, og þau tvö blöð sem vanta í miðja söguna (sjá bls. 903), en það eina blað sem nú vantar framan til í bókinni (sjá bls. 799) var þá til allrar hamíngju til, en á þessum stað er fjögra blaða eyðan í 406 *A*, og væri nú því töpuð og týnd sagan um Jón flæmíngja, ef ekki væri til afskript af þessu blaði frá því áðr en það týndist; er nú afskript Þorláks biskups frumbók vor á þessum stað. Fyrir tveggja blaða eyðunni í miðri sögunni og svo fyrir eyðunni í niðrlagi sögunnar hefir Þorlákr biskup látið skilja eptir auð blöð í afskript sinni; þessi auðu blöð eru síðan með annari hendi fyllt eptir 406 *A*, og endar á orðunum: „hvat leið megin hans. Um", sem nú; sýnir þetta að 406 hefir þá ekki verið lengri en hún er nú. Utan á spázíurnar í 404 eru enn fremr víða ritaðar, þó með annari hendi, viðauka-greinir eða orðamunr úr *A* (406), sem víða er svo miklu orðfleiri en *B*. Í afskriptum á aðra og þriðju hönd eru nú þessar glósur teknar inn í textann, sem á þenna hátt verðr hálfblendíngr bæði af *A* og *B*. Það er athuganda, að á spázíuna í 404 er ritaðr orðamunr tvisvar fyrir víst í þeim fjögra blaða kafla sem nú vantar í 406, t. d. bls. 798 athgr. 1: „drakk konúngrinn til hans eitt stórt vínker", og bls. 801 (sbr. athgr. 1): „Danmörk í banni". Þessi orð geta ekki verið tekin annarstaðar að en úr *A* (406 *A*), og sýnir þetta, að þau 4 blöð, sem nú vanta í þá bók, hafa þá til verið, eða nokkur af þeim að minnsta kosti. Frá þessari afskript Þorláks biskups Skúlasonar, sem þannig er samsett úr tveim bókum (*A* og *B*), eru nú komin næstum öll þau handrit af Laurentius sögu, sem nú finnast víðsvegar á Íslandi og í safni Árna: 204 og 214 folio; 403 og 405 í 4to. Af þessum flokki má sjá að verið hefir handrit það, sem sira Jón Halldórsson í Hítardal hefir haft við Biskupasögur sínar, svo og hefir Finnr biskup Jónsson og Jón Espólín haft afskript af sama flokki; en hin upphaflega Laurentius saga, eins og hún stendr í 406, hefir lítt verið þekkt og lítt rituð fram á þenna dag.

Af Laurentius sögu eru enn til tvö skinnblöð í 4to samföst í AM. 406 *A*, en úr öllu öðru handriti en bókin sjálf. Sagan

er hèr alveg samhljóða þeirri sem stendr í 180 *B*, án þess þó að vera afskript af henni. Bók sú, sem blöð þessi eru úr, getr með engu móti verið eldri en frá 16. öld. Árni segir svo um blöð þessi: „er komið frá sira Auðunni á Borg, og hann hefir copie þar af, *dixit* á alþíngi 1707".

Í fyrirsögn sögunnar höfum vèr getið þess til, að sira Einar Hafliðason muni vera höfundr hennar; raunar er hann hvergi nefndr með nafni sem höfundr, en allt fyrir það mun fátt vera vissara en það, að enginn annar en hann hafi ritað Laurentius sögu, skulum vèr nú færa fram þau rök, sem oss virðast draga allan efa af í þessu máli: Í safni Árna Nr. 420 4to er til íslenzkr annáll, sem á 17. öld var kallaðr lögmanns annáll. Þegar á 17. öld eignuðu menn sira Einari annál þenna, enda er hann og vafalaust höfundrinn, því hann nafngreinir sig sjálfr við ár 1307; þegar vèr nú berum annál þenna saman við Laurentius sögu, þá er hann allvíða orðrètt samhljóða sögunni, svo sem við gos Heklu 1300, eða þar sem talar um Hafliða prest eða Laurentius. Nú er eitt af þrennu: annaðhvort hefir sira Einar ritað annál sinn eptir Laurentius sögu, eða höfundr Laurentius sögu hefir ritað eptir annál sira Einars, eða í þriðja lagi, þá er hvorttveggja, annáll og saga, eptir sama mann. Til hins fyrsta svörum vèr: hví mundi sira Einar rita inn í annál sinn um föður sinn eðr um Laurentius biskup eptir sögu annars manns þau tíðindi, er hann sjálfr hafði heyrt og sèð? og til hins síðara liggr hið sama svar: hví mundi höfundr Laurentius sögu rita eptir annál annars manns þau tíðindi, sem hann sjálfr hafði heyrt og sèð eigin augum? En hið síðasta þykir oss sennilegast, að bæði saga og annáll sè eptir sama mann. Orð þau sem standa í upphafi sögunnar sýna og, að höfundrinn hefir verið vinr og trúnaðarmaðr biskups; þar segir svo í kap. 1: „var ek áminntr af honum sjálfum í minni halda hverja hluti hann sjálfr fram sagði, hverju fram hafði farit um hans æfi áðr hann varð biskup á Hólum. En síðan var þeim kunnigt, [sem] dagliga var (vóru, *A*) í hans þjónustu ok herbergi nátt ok dag meðan hann var biskup á Íslandi, þar til hann andaðist". Þessi orð eiga við engan mann,

sem var í þjónustu biskups, nema sira Einar; Einar var 10 vetra þegar hann kom fyrst í kennslu hjá Laurentius (kap. 30), meðan hann var á þíngeyrum, en síðan var hann á Hólum og þjónaði biskupi ávallt, og var hans mestr trúnaðarmaðr. þess er *getið, að biskup vildi til eingis hlutast heima á Hólum nema* kjallara síns og fatabúrs, og mátti þar engi að koma nema hans vildustu vinir, en Einar setti hann þó geymslumann kjallara síns, og hann hafði lykla að öllum kistum í fatabúri, nema einni. þegar biskup var í studio sínu ritaði hann á vaxspjald það er hann vildi sèrlega hafa úr bókum: en „þar eptir skrifaði Einar djákni upp í kvaterne eðr bók, svo að biskupinum var tiltæk nær hann vildi á líta". þegar rökkva tók á vetrinn sagði Einar djákni biskupinum heilagra manna sögur á norrænu, eðr stundum las latínusögur (kap. 45); má ætla, að í þessum rökkrstundum hafi biskup þá og sagt Einari hvað drifið hafði á hans fyrri daga, *og áminnt hann í minni að halda æfisögu sína.* Einar djákni hafði og innsigli biskups og brèfagjörðir, ásamt Árna syni biskups (kap. 47). Hann þjónaði ennfremr biskupi ávallt í hámessu og hafði biskup aldrei annan messudjákn; því var ekki furða þó honum væri kunnugt um háttu biskups, enda segir og kap. 44: „höfum vèr þat eina um hans háttu ok siðferði hèr samsett, at vèr viljum fyrir guði svara, þvíat svo var þessi maðr stöðugr ok staðfastr í sínu framferði, at svo háttaði hann sèr í sínu siðferði allan tíma, sem þú mundir sjá hann tvö dægr, nótt ok dag, ef þú hefðir verit hjá honum". Um ástfóstr það, sem biskup hafði tekið við Einar, er opt getið í sögunni, mun biskup hafa látið hann njóta föður síns, síns kærasta og tryggasta vinar, sira Hafliða Steinssonar á Breiðabólstað. Um Einar djákna segir enn fremr kap. 44: „hvern hann (biskup) elskaði framast af öllum sínum klerkum, ok hèlt hann fyrir sinn sannan trúnaðarmann. Kap. 65 er hann kallaðr „heimuglegr vin" biskups. Í banalegu sinni ber biskup Einari þann vitnisburð: að hann hafi verið svo af sínum lærisveinum „at ekki hefir mèr í móti gjört, meðan hann hefir verit í minni þjónustu". Á banadægri sínu bað hann

þá lærisveina sína, Einar djákna og Egil, er síðan varð biskup, að halda við heilags anda tíðum sínum, er hann hafði sjálfr daglega lesið síðan hann dreymdi drauminn í Dal. þess er enn getanda, að í sögunni er hvað eptir annað vikið lofsorðum til allra annara lærisveina Laurentius biskups, þeirra er eitthvað kvað að: Egils, Bergs ábóta, bróður Árna og enn fleiri, fyrir lærdóm þeirra og klerklegar listir, og er þetta eitt nóg til að sýna, að enginn þeirra er höfundr sögunnar, en að Einari, sem biskup þó sjálfr elskaði framast, er aldrei vikið lofsorði, nema þar sem í kap. 33 eru taldir þeir sem Auðunn biskup dispenseraði með, og síðan sagt: „urðu þessir (allir, b. v. *B* og mun það vera innskot) framandi menn til klerkdóms ok framkvæmdar í Hóla biskupsdæmi". Af því Einar er einn af þeim sem upp er talinn, þá á hann sinn hlut í þessu lofi, þó mun það helzt lúta til þriggja hinna síðustu sem nefndir eru.

Allar aðrar líkur sem fundizt geta lúta og að sira Einari einum; hann var annálafróðr maðr, sem áðr er á vikið, en til þessa benda orðin í 1. kap.: „eru hèr ok margir hlutir samansettir af ýmissum atburðum, sem fram hafa farit á ymsum löndum, eptir því sem annálar til vísa, hverir mestan fróðleik sýna". Enn fremr hve opt höfundrinn talar um Hafliða prest Steinsson, sem varla væri væntanda, ef hann hefði verið vandalaus maðr, og opt er talað um hann með sömu orðum og í annálnum, t. d. í kap. 2, 3, 22, 28 (spámæli sira Hafliða: „þat munu muna synir mínir ok margir aðrir, at þessi króknefrinn, sem nú sitr hèr hjá mèr, Lafranz, þann sem allir fyrirlíta nú, hann mun verða biskup á Hólum), kap. 30, 33, 34, 38. Einar prestr var enn fremr mesti búhöldr, og var langa hríð ræðismaðr á Hólum. þessa ber sagan og ljósan vott; það er auðsèð hve höfundinum er hugleikið að lýsa fjárhag stólsins, og hvernig hann auðgaðist að gózi í tíð Laurentius biskups, og dylst ekki hyggindi og forsjálni hans í öllu því, er fjárforráðum og búskap viðvíkr. það kemr og heim við sira Einar, hve vel honum liggja orð til Jóns biskups Halldórssonar í Skálholti (sbr.

kap. 62) þó hann væri mótstöðumaðr Laurentius, því Jón Halldórsson var vígslufaðir sira Einars, og Laurentius sendi hann á banadægri til Jóns biskups, að hann skyldi vígja hann til prests.

það er ekki efamál, að sagan er rituð ekki allskömmu eptir andlát Laurentius biskups, og að hún er rituð eptir 1346 sýna orðin í kap. 40 um Árna vaða: „varð hann síðan erkibiskup eptir herra Pál erkibiskup", en Árni vaði var erkibiskup frá 1346—49; að hinu sama lúta og mörg orð í sögunni, t. d. kap. 32: „fyrir þá Hólabiskupa, sem síðan hafa verit allt til þessa dags" (hèr er talað um Auðunn biskup), eða kap. 50: „lèt hann (sira Jón Koðransson) upp smíða kirkjuna at Hrafnagili með dýrum kost, sem lengi mátti auðsýnast, ef henni væri haldit."

Um æfi sira Einars er það í stuttu máli að segja: hann er fæddr 1307, kom 10 vetra gamall í kennslu til Laurentius 1317, og litlu síðar til Hóla og var þar langa æfi síðan; 1331 var hann vígðr til prests af Jóni biskupi Halldórssyni; hann var tvisvar *officialis* og langa stund ráðsmaðr að Hólum í tíð Egils biskups. Hann var fimmtigi vetra, einum fátt í, prestr á Breiðabólstað í Vestrhópi, og andaðist þar ár 1393, er hann hafði fjóra vetr hins níunda tugar (sbr. Flateyjar annálar 1393). — Laurentius saga hefir aldrei verið prentuð fyr en nú, nema lítið brot í Oldnorsk Læsebog eptir Munch og Unger. Christiania 1847. 8vo, bls. 42—48.

Útgáfunni hefir þannig verið skipt, að forseti deildarinnar Jón Sigurðsson hefir skrifað upp og búið undir prentun Kristnisögu, og Guðbrandr Vigfússon borið saman aðra prófórk af henni við handritin, en hinar eptirfylgjandi sögur allar hefir Guðbrandr Vigfússon skrifað upp og búið til prentunar, og Jón Sigurðsson síðan borið saman eina prófórkina við aðalhandritin. Guðbrandr hefir einnig samið formálann, en registr yfir mannanöfn og örnefni hefir skrifari deildarinnar Sigurðr Hansen samið, en síðan hafa þeir Guðbrandr borið saman mannanöfnin.

---

# KRISTNI SAGA.

## HÈR HEFR KRISTNI SÖGU.

Nú hefr þat, hversu kristni kom á Ísland[1]: at maðr hèt Þorvaldr Koðránssun, bróðursun Atla hins ramma; þeir voru synir Eilífs arnar, Bárðarsunar or Ál, Ketilssunar refs, Skíðasunar hins gamla[2]. Koðrán bjó at Giljá í Vatnsdal, ok var ágætr maðr; Þorvaldr sun hans fór utan, ok var fyst í hernaði, en lutskifti þat er hann fèkk lagði hann til útlausnar herteknum mönnum, allt þat er hann þurfti ei at hafa til kostar sèr; af slíku varð hann ágætr ok vinsæll. Þorvaldr fór víða um Suðrlönd; hann fann í Saxlandi suðr biskup þann er Friðrekr hèt, ok tók af honum skírn ok trú rètta, ok var með honum um ríð. Þorvaldr bað biskup fara til Íslands með sèr, at skíra föður sinn ok móður, ok aðra frændr sína, þá er hans ráði vildu fylgja; biskup veitti honum þat. Þeir Friðrekr biskup ok Þorvaldr komu til Íslands sumar þat er landit hafði bygt verit tíutigu[3]

1) í athugagreinunum þýðir: *A*, skinnbókarbrot úr Hauksbók, með hendi Hauks lögmanns Erlendssonar, ritað nokkru eptir 1300, í safni Árna Magnússonar 371 í 4to. — *B*, pappírsbók með hendi Jóns prests Erlendssonar í Villíngaholti, í safni Árna Magnússonar Nr. 105 í Fol., rituð eptir Hauksbók (*A*) meðan hún var heil, nálægt 1650. — *S*, útgáfuna í Skálholti 1688 í 4to, og *K*, útgáfuna í Kaupmannahöfn 1773 í 8vo. Í skinnbókinni vantar nú framan af sögunni, þángað til seint í fimta kapitula.

2) í Landnámab. III, 6 er talið, að Eilífr örn, sem nam austrströnd Húnaskaga og Laxárdal, væri sonr Atla, *Skíða sonar hins gamla, Bárðarsonar í Ál*; en í Njálu cap. CXIV er talið eins og hèr, þegar rètt er lesið.

3) þannig hefir *K* (Kaupmannahafnar-útgáfan 1773), en sleppir þó orðunum sem eptir koma: „ok VII vetr", sem *B* hefir, og þessvegna hafa eflaust staðið í skinnbókinni. — Þegar talin eru 107 ár til þess Friðrekr biskup og Þorvaldr komu til Íslands, 981, kemur það saman við tímatal það, sem lætr Íslands bygð hefjast ár 874; og við það sem Landnámabók segir: „Land var alheiðit nær hundraði vetra"; sbr. Fornm. s. I, 276. Í *B* er eyða fyrir tölunni, því skrifarinn, síra Jón Erlendsson, hefir ekki getað lesið skinnbókina á þessum stað; en í *S* (Skálholts-útgáfunni) er sett „LX vetra", og ekkert talið framyfir.

vetra ok vij vetr, þá hafði þorkell máni lögsögu, en þersir voru þá stærstir höfðíngjar á landinu: Eyjólfr Valgerðarsun norðr, ok Víga-Glúmr, Arnórr kerlíngarnef, þorvarðr[1] Spakböðvarssun ok þeir Starri bræðr[2] í Guðdölum, þorkell krafla í Vatnsdal; — en vestr voru þá: Ari Márssun, Ásgeirr Knattarsun, Eyjólfr grái, Gestr hinn spaki, Ólafr pái, Víga-Styrr; Snorri goði var xviij vetra ok hafði tekit við búi at Hœlgafjalli; þorsteinn Egilssun, Illugi hinn rauði; — ok suðr[3]: þorkell máni ok þóroddr goði, Gizurr hinn hvíti, Ásgrímr Elliðagrímssun, Hjalti Skeggjasun, Valgarðr at Hofi, Runólfr Úlfssun, ok synir Örnólfs í Skógum[4]; en austr: synir þórðar Freysgoða[5], Síðu-Hallr, Hœlgi Ásbjarnarsun, Víga-Bjarni ok Geitir.

Svà er sagt, er þeir biskup ok þorvaldr fóru um Norðlendínga fjórðúng, ok talaði þorvaldr trú fyri mönnum, þvíat

1) nafn þetta er óvart fellt úr í *B*, og þar eptir í útgáfunum, en með því verðr Arnórr kerlíngarnef, sem var sonarson Höfða-þórðar, látinn vera sonr Spak-Böðvars, sem er öldúngis rángt. þorvarðr Spakböðvarsson, sem fyrstr lèt byggja kirkju á Íslandi, var ættstórr maðr (Landnámabók III, 9).

2) *B og útgáfurnar hafa „bróðir", en það getr ekki verið rètt mál,* og er án efa komið af því, að síra Jón Erlendsson hefir lesið rángt skinnbókina; á öðrum stöðum hefir fundizt, að þar sem hann hefir lesið „bróðir" hefir staðið „b." og átt að lesa „bóndi", samt er það ekki viðkunnanlegt að lesa svo hèr, og er líklegra að lesa „þeir Starri bræðr", þ. e. Hólmgaungu-Starri og þeir bræðr hans: þorkell, Hróaldr og þorgeirr, synir Eireks í Goðdölum landnámamanns, sbr. Landn. *III*, 7.

3) þetta orð vantar bæði í *B* og í útgáfurnar; þó er auðsætt að það þarf að vera.

4) Um þenna Örnólf í Skógum og sonu hans er allt nokkuð óvíst; þar sem *K* færir til Njálu cap. LVIII, þá er það auðsjáanlega af gáníngsleysi, því á þeim stað í Njálu er nefndr Önundr í Tröllaskógi og synir hans; en líklegt er, að sá „Arnórr Örnólfsson úr Forsárskógum", sem Njála í cap. CXVII lætr Hildigunni tala um að bræðr Flosa Kolbeinn og Egill hafi drepið á Skaptafells þíngi, hafi verið einn af sonum þessa Örnólfs, og að þessi Arnórr sè sá „Arnórr í Skógum", sem Annálar segja sè veginn 997 (Flateyjarannáll 996). Landnámab. IV, 13 nefnir tvo bræðr, Örnólfssyni, annan Halldór, „sem Mörðr órækja vâ undir Hömrum", og annan Arnór, „er þeir Flosi og Kolbeinn, synir þórðar Freysgoða, vâgu á Skaptafells þíngi" (sbr. Dropl. s. s. cap. 9).

5) þ. e. þeir Brennu-Flosi og bræðr hans: þorgeirr, Steinn, Kolbeinn og Egill, og hálfbróðir hans Starkaðr, sbr. Njálss. cap. XCVI.

biskup undirstóð þá ei Norrænu, en þorvaldr flutti djarfliga guðs erendi, en flestir menn vikust lítt undir af orðum þeirra; tók við trú Önundr hinn kristni, sun þorgils[1] or Reykjardal, Grenjaðarsunar[2], ok Hlenni hinn gamli, sun Orms töskubaks, ok þorvarðr Spakböðvarssun í Ási í Hjaltadal, en Eyjólfr Valgerðarsun lèt primsignast.

## Frá þorvaldi ok biskupi.

2. Biskup ok þorvaldr voru at Giljá með Koðráni hinn fysta vetr með xiij manna[3]. þorvaldr bað föður sinn skírast, en hann tók því seinliga. At Giljá stóð steinn, sá er þeir frændr höfðu blótað, ok kölluðu þar búa í ármann sinn; Koðrán lèzt ei mundu fyrri skírast láta, en hann vissi hvàrr meir mætti, biskup eða ármaðr í steininum. Eptir þat fór biskup til steinsins, ok söng yfir þar til er steinninn brast í sundr; þá þóttist Koðrán skilja, at ármaðr var sigraðr. Lèt Koðrán þá skíra sik, ok hjú hans öll, nema Ormr sun hans vildi eigi við trú taka; fór hann þá suðr í Borgarfjörð, ok kaupir land at Hvanneyri. Ormr átti þórvöru, dóttur Özurar[4] ok Beru Egilsdóttur, Skallagrímssunar; þeirra dóttir var Ýngvildr, er átti Hermundr Illugasun. Síðan átti Ormr Geirlaugu, dóttur Steinmóðs[5] or Djúpadal; þeirra dóttir var Bera, er átti Skúli þorsteinssun. þeir biskup ok þorvaldr gerðu bú at Lækjamóti í Víðidal, ok bjoggu þar iiij vetr. þeir fóru víða um Ísland at boða trú. þeir biskup ok þorvaldr voru at haustboði í Vatnsdal at Haukagili[6] með Ólafi; þar var þá kominn þorkell krafla, ok mart annarra manna; þar komu berserkir tveir, er Haukr hèt hvàrrtveggi, þeir buðu mönnum kúgan, ok gengu grenjandi, ok óðu elda. þá báðu menn biskup, at hann skyldi fyrikoma þeim. Eptir þat

1) Landn. III, 19 kallar hann þorgils vâmúla.

2) *B* hefir „Grenjaðarsun", en skinnbókin hefir án efa haft skammstafað: „s".

3) „xiij. m^a", mætti og lesa „með þrettánda mann", og þannig hafa Fornm. s. I, 260: „við þrettánda mann".

4) sbr. Landn. V, 13.

5) Steinmóðr var son Gunnars, sonar Úlfljóts, er lög hafði út til Íslands, og þóru, dóttur Helga hins magra.

6) þannig leiðrèttir *K*; en *B* og *S* hafa „Giljá". Frá þessu sama er sagt nokkuð öðruvísi í Ólafs sögu Tryggvas. (Fornm. s. I, 265) og í Vatnsdæla s. cap. 44; sbr. Landn. III, 4.

vígði biskup eldinn áðr þeir æði, ok brunnu þeir þá mjök; eptir þat gengu menn at þeim ok drápu þá, ok voru þeir færðir á fjall upp, hjá gilinu, því heitir þar Haukagil síðan. Eptir þat lèt þorkell krafla primsignast, en margir voru skírðir þeir er við þenna atburð voru. þeir þorvaldr ok biskup fóru í Vestfirðínga fjórðúng at boða trú; þeir komu í Hvamm um alþíngi til þórarins fýlsennis[1], og var hann þá á þíngi, en Friðgerðr kona hans var heima, ok sun þeirra Skeggi. þorvaldr talaði þar trú fyri mönnum, en Friðgerðr var meðan í hofinu, ok blótaði, ok heyrði hvárt þeirra orð annars, en sveinninn Skeggi hló at þeim. þá kvað þorvaldr þetta:

Fór ek með dóm inn dýra,
drengr lýddi mèr engi,
gátum háð at hreyti
hlautteins, goða sveini;
en við enga svinnu
aldin rýgr við skáldi,
þá kreppi guð gyðju!
gall um heiðnum stalla[2].

Ekki lètu menn skírast af þeirra orðum í Vestfirðínga fjórðúngi, svá at menn viti þat, en í Norðlendínga fjórðúngi höfnuðu margir menn blótum, ok brutu skurðguð sín, en sumir vildu ei gjalda hoftolla.

## Frá þorvarði.

3. þorvarðr Spakböðvarssun lèt gera kirkju á bæ sínum í Ási; þat líkaði mönnum stórilla, þeim er heiðnir voru. Maðr hèt Klaufi, sun þorvalds Refssunar frá Barði; hann var höfðíngi; honum líkar þetta stórilla við þorvarð, ok fór hann at finna Arngeir, bróður þorvarðs, ok bauð honum kost á, hvárt

---

1) þórarinn fýlsenni var son þórðar gellis, og átti Friðgerði, dóttur Höfða-þórðar.

2) Vísu þessa má þannig færa til máls: Ek fór með dóminn dýra; engi drengr lýddi (hlýddi) mèr; [vèr] gátum háð at sveini goða, hreyti hlautteins [þ. e. Skeggja; sonr goðans, blótmaðrinn — hlautteins hreytir — hæddi oss]; en aldin rýgr gall um heiðnum stalla við skáldi við enga svinnu [þ. e. en hin gamla blótkonan jafnkýtti skáldinu (mèr) harðla ósvinnlega við fórnarstall goðanna]. Guð kreppi þá gyðju! [kvelji þá hofgyðju eða blótkonu]. — Vísan er nokkuð öðruvísi í Fornm. s. 1, 267; sbr. þátt af þorvaldi víðförla hèr á eptir.

hann vildi heldr brenna kirkjuna, eða drepa prest þann, er biskup hafði þar til fengit. Þá svarar Arngeirr: let ek hvern minna vina at gera prestinum mein, þvíat bróðir minn hefir grimmliga hefnt smærri mótgerða, en gott ráð ætla ek þat at brenna kirkjuna, en þó vil ek mèr engu af skipta.

Litlu síðarr fór Klaufi til um nótt, ok vildi brenna kirkjuna; þeir voru saman x; en er þeir komu í kirkjugarðinn, sýndist þeim sem eldr fyki út um alla gluggana á kirkjunni, ok fóru því brott, at þeim sýndist öll kirkjan eldsfull. Ok er hann spurði, at kirkjan var eigi brunnin, fór hann til aðra nótt, ok Arngeirr, ok ætlaði að brenna kirkjuna; en er þeir höfðu upp brotið kirkjuna, þá kveykti hann eldinn með fjallrapa þurrum; eldr kviknaði seint; þá lagðist hann niðr, ok blès at innyfir þreskeldinn; þá kom ör í gólfit hjá yfir höfði honum, en önnur millim skyrtunnar ok síðu hans; þá ljóp hann upp, ok kallaðist eigi mundu bíða hinnar þriðju; fór Arngeirr þá heim; en kirkja sú var ger xvj vetrum áðr kristni var í lög tekin á Íslandi, en hún stóð þá er Bótólfr biskup[1] var at Hólum, svà at ekki var at gert utan at torfum.

## Frá Þorvaldi.

4. Þeir Friðrekr biskup ok Þorvaldr fóru til þíngs, ok bað biskup Þorvald telja trú fyri mönnum at lögbergi, svà at hann væri hjá, en Þorvaldr talaði; þá svaraði honum mörgum orðum ok illum göfugr maðr, Hèðinn frá Svalbarði or Eyjafirði[2]. Hèðinn var sun Þorbjarnar Skagasunar, hann átti Ragneiði, stjúpdóttor ok bróðurdóttor Eyjólfs Valgerðarsunar. Þá báðu þeir skáld níða þá Þorvald ok biskup. Þetta var þá kveðit:

Hefir börn borit
biskup níu,
þeirra er allra
Þorvaldr faðir.

Fyri níð þat và Þorvaldr ij menn. Biskup spurði, hví hann vægi þá. — „Þvíat þeir sögðu okkr eiga börn saman". Biskup svarar: „Þeir lugu á okkr, en þú færðir óorð þeirra afleiðis, því at ek mátta vel bera börn þín eptir mèr".

---

1) Bótólfr var biskup à Hólum 1238 - 1246.

2) sbr. Landn. III, 16.

En er þeir Þorvaldr ok biskup vildu ríða á Hegranes þíng, en heiðnir menn fóru í móti þeim ok börðu þá grjóti, svà at þeir náðu eigi fram at fara. Þareptir gerðu menn þá seka at heiðnum lögum. En þat sumar, eptir[1] alþíngi, sömnuðu höfðíngjar liði, ok riðu með CC manna, ok ætluðu at brenna þá biskup inni; þeir áðu rossum sínum áðr þeir riðu heim á bæinn at Lœkjamóti, en er þeir skyldu á bak laupa, flugu fuglar upp hjá þeim; við þat fældust hestar þeirra, ok fèllu menn af baki; sumir brutu hendr sínar, en sumir fœtr, eða skeindust á vàpnum sínum, frá sumum ljópu rossin, ok fóru þeir við þat heim aptr. Við þetta herlaup urðu þeir biskup ekki varir, fyrr en eptir; þá höfðu þeir iij vetr búit at Lœkjamóti; þeir bjoggu þar j[2] vetr síðan. Eptir þat fóru þeir utan. En er þeir komu til Noregs, lágu þeir í einni höfn, þá kom þar Hèðinn af Íslandi í þá sömu höfn, ok fór þegar upp í skóg at höggva við. En er Þorvaldr varð varr við þat, fór hann með þræl sinn, ok lèt vega hann þar. En er biskup vissi þat, þá sagði biskup, at þá mundi skilja fèlag þeirra, þat er hann var heiptrækr. Biskup fór þá suðr í Saxland ok andaðist þar, ok er hann maðr sannheilagr, en Þorvaldr var þá fyst í kaupferðum um ríð.

## Frá Þángbrandi[3].

5. Á dögum Haralds konúngs Gormssunar kom Albertus biskup af Brimum á Jótland til Áróss, ok settist þá á stóla; Þángbrandr hèt klerkr hans, sun Vilbaldus, greifa af Brimum. En þá er Þángbrandr var vaxinn, bauð Hugbertus, biskup af Kantaraborg, Albertus bróður sínum til sín. At þeirri veizlu gaf Hugbertus Alberto gjafir, ok öllum förunautum hans. Þá mælti biskup við Þángbrand: „Þú ert háttaðr sem riddarar, því gef ek þèr skjöld, ok er á markaðr kross með líkneski drottins vors, þat merkir lærdóm þinn". Litlu síðarr fann Þángbrandr

1) „á" bætir *B* við, líklega fyrir ritvillu.

2) þannig ætlum vèr rètt lesið, eptir því sem stendr fyr í sögunni og svo í Ólafs sögu (Fornm. s. II, 274) að þeir Friðrekr biskup og Þorvaldr hafi búið IV vetr á Lœkjamóti; en *B*, og útgáfurnar eptir því, lesa þannig: „þeir bjoggu þar v. vetr siþan epter þat foru þeir vtann" (*B*; en útgáfurnar *S* og *K*: „þeir bjoggu þar fimm vetur. Siðan epter þat foru þeir utan"), og er það sýnilega afbakað.

3) sbr. Ólafs sögu Tryggvasonar (Fornm. s. I, 134).

Ólaf Tryggvasun í Vindlandi. Ólafr spurði: „hvern dýrki þèr kristnir menn á krossi píndan?" — þángbrandr svarar: „drottinn vorn Jesúm Christum". — Konúngr spyrr: „fyri hvat var hann píndr, eða hvat sök gerði hann?" — þá sagði þángbrandr Ólafi konúngi innvirðiliga frá píníng drottins vàrs ok táknum krossins; konúngr falaði þá skjöldinn, en þángbrandr gaf honum skjöldinn, en konúngr gaf honum jamnvirði skjaldarins í brendu silfri, ok mælti: „ef þú þarft nokkors trausts eða halds, kom þá til mín, ok mun ek þá launa þèr skjöldinn".

Nokkoru *síðarr*[1] lèt *Ólafr konúngr skírast í Syllíngum á* Írlandi[2]. þángbrandr kaupir mey eina írska ok fagra með silfrinu, en er hann kom heim með hana, þá vildi sá maðr, er Ottó inn úngi keisari hafði gislat þángat, taka af honum meyna, en hann vildi eigi lausa láta; gislinn var kappi mikill, ok bauð þángbrandi á pataldr[3], en þángbrandr hafði sigr, ok drap hann, því mátti þángbrandr eigi vera í Danmörk, ok fór hann þá til Ólafs konúngs Tryggvasunar, ok tók hann vel við honum, ok var hann vígðr þar til prests, ok var hann hirðprestr hans um ríð.

## Frá Stefni.

6. Ólafr konúngr fór af Írlandi ok austr í Hólmgarð, en or Hólmgarði til Noregs, sem ritað er í sögu hans[4], ok bauð þar kristni allri alþýðu; hann lèt gera fystu kirkju í ey þeirri, er Mostr heitir, þar lèt hann þángbrand sýngja í eynni ok fèkk honum bú ok jarðir. Hann var eyðslumaðr mikill ok örr, ok gekk brátt upp fè hans; þá fèkk hann sèr lángskip, ok herjaði á heiðna menn, ok rænti víða, ok lagði þat fè fyri lið sitt. Ólafr konúngr kom í Noreg á andverðri gó[5]; með honum voru

1) á þessu orði „síðarr" (siþar) byrjar *A*, eða skinnbókarbrotið af Hauksbók, með hendi Hauks Erlendssonar sjálfs.

2) þess má geta, að Syllíngar eða „Scilly-eyjar" heyra ekki til Írlands, heldr til Bretlands (Fornm. 1, 145).

3) „patalldr" er án efa tekið eptir latínsku orði „batallia", (á frakknesku „bataille"), sem þýðir bardaga, eða „til einvígis".

4) þetta stendr einúngis í sögu Odds múnks, en allir aðrir segja að Ólafr hafi farið vestan um haf til Noregs.

5) *A*: „gœ"; eptir því sem hèr er talið í sögunni, kemr Ólafr konúngr til Noregs og sendir Stefni til Íslands 995; Stefnir fer utan aptr 996; þángbrandr til Íslands sama ár og er þar þrjá vetr (996-999); Hjalti og Gizur utan 999 og út aptr 1000 og það ár er kristni lögtekin á Íslandi.

margir íslenzkir menn; sá var einn er Stefnir hèt, hann var sun þorgils Eilífssunar, Hœlgasunar bjólu af Kjalarnesi[1]. Ólafr konúngr sendi Stefni til Íslands hit fysta sumar er hann kom í Noreg, at boða þar guðs erendi; en er hann kom til Íslands, þá tóku menn illa við honum, ok frændr hans verst, þvíat allr lýðr var þá heiðinn á landi hèr, en hann fór djarfliga bœði norðr ok suðr, ok kendi mönnum rètta trú, en menn skipuðust lítt við hans kenníngar; ok er hann sá, at þat hafði engan framgáng, þá tók hann at meiða hof ok hörga, en brjóta skurðgoð. þá sömnuðu heiðnir menn liði, ok komst hann þá á Kjalarnes nauðuliga, ok var þar með frændum sínum. Skip hans stóð uppi í Gufárósi; þat tók út um vetrinn í vatnavöxtum ok ofviðri; þar um kváðu heiðnir menn þetta:

Nú hefir stafnvalinn[2] Stefnis,
straumr ferr um hol knerri,
felliveðr af fjalli
fjallrænt brotið allan;
heldr getu vèr at valdi,
vera munu bönd í löndum,
geisar á með ísi,
ásríki gný slíkum[3].

Skip kom á land, ok lítt brotið[4], ok lèt Stefnir gera at því um vårit; þat sumar á alþíngi var þat í lög tekit, at frændr hinna kristnu manna skyldu sœkja um þá goðlöstun, nánari en[5] þriðja

---

1) sbr. Fornm. s. I, 276, 283—286.

2) þannig Ólafs s.; stafnvali, *A* (Hauksb.).

3) Útgáfurnar hafa seinna hluta vísunnar mjög öðruvísi, og mun það vera tekið í fyrstu eptir Flateyjarbók í Skálholts-útgáfunni, en komið úr henni í Kaupmannahafnar-útgáfuna, þannig:

Heldr kveð ek víst at valdi,
vindr sleit band á landi,
geisar á með ísi,
allríkr Freyr slíkum.

En einsog vísan er hèr, má fœra hana þannig til máls: „Nú hefir fjallrænt felliveðr af fjalli brotið allan stafnvalinn [þ. e. skip] Stefnis; straumr ferr um hol knerri [þ. e. sjórinn iðar innanum allt skipið]; á geisar með ísi; vèr getu at heldr valdi ásríki [þ. e. goðmögn, kraptr goðanna] slíkum gný; bönd [goðin] munu vera í löndum [og sýna mátt sinn].

4) bratiz eða bvatiz, *A*, misritað.

5) hèr er gat á skinninu í *A*, svo ekki sèst orðið „en"; í afskriptinni

brœðra, ok firnari en nesta brœðra. — Þat sumar var Stefnir sóttr um kristni; þá sök sóttu þeir frændr hans, því at kristnin var þá kölluð frænda skömm. Synir Úsvífrs hins spaka, Þórólfr ok Áskell, Vandráðr ok Torráðr, sóttu hann, en Úspakr vildi engan lut at eiga, en Stefnir mælti: „ekki mein mun mèr verða at sekt minni, en fyri þersa sök man yðr henda mikil úgifta á fára vetra fresti". Stefnir fór utan[1] um sumarit, ok tók Ólafr konúngr vel við honum.

## Frá Þángbrandi.

7. Þá er Ólafr konúngr spurði úspektir þær, er Þángbrandr gerði, stefndi hann honum til sín, ok bar sakir á hann, ok kvað hann ekki skyldu vera í sinni þjónustu, er hann var ránsmaðr. Þángbrandr bað konúng leggja á hendr sèr nokkora torvelda sendiferð; konúngr mælti: „sáttir skulu vit, ef þú ferr til Íslands, ok fær kristnað landit". Þángbrandr mælti: „til þers man ek hætta". Þat sumar fór Þángbrandr til Íslands; hann kom í Álftafjörð hinn nerðra, í Selvága, fyri norðan Melrakkanes. En er menn vissu at Þángbrandr var kristinn, ok hans menn, þá vildu þeir ekki við þá mæla landsmenninir, ok eigi vísa þeim til hafnar. Þá bjó Síðu-Hallr at Á; hann fór til Fljótsdals, en er hann kom heim, þá fór Þángbrandr at finna hann, ok sagði honum, at Ólafr konúngr hafði sendan hann til Halls, ef hann kvæmi í Austfjörðu, ok bað hann vísa þeim til hafnar, ok veita þeim annan dugnað, þann er þeir þurftu. Hallr lèt flytja þá til Álftafjarðar hins syðra, í Leiruvág, ok setti upp skip þeirra þar er nú heitir Þángbrands-róf, en Hallr fœrði skipfarminn heim á túnvöll sinn, ok gerði þar tjald, þat er þeir Þángbrandr voru í. Þar söng Þángbrandr messu. Hinn nesta dag fyri Mikjálsmessu þá lètu þeir Þángbrandr heilagt at nóni. Þá var Hallr þar í tjaldinu. Hann spurði: „hví lètti þèr nú verki?" — Þángbrandr segir: „á morgin er hátíð Mikhjáls höfuðengils". — Hallr spurði: „hversu er hann háttaðr?" —

---

*B* er rángt skrifað á þessum stað: „nánari en þriðja en næsta bræðra", og þannig stendr einnig í Skálholts-útgáfunni. — Næsta bræðra eru: fjórmenníngar; annarra bræðra: sexmenníngar; þriðja bræðra: áttmenníngar; í Ólafs sögu Tryggvasonar (I, 285) segir: „skyldu þær sakar sækja frændr þeirra ..... þrimenníngar ok fjórmenníngar, ok þar í milli".

1) þannig *A*; en *B*, *S*, og *K* lesa út, sem er rángt.

en allir aðrir þínir frændr; en ef þú hefir á honum litla elsku at sinni, þá fá þú honum kaupeyri ok lát hann lausan, ef nokkurr verðr til at sjá um með honum meðan hann er úngr". Koðran sá, at hún talaði slíkt af góðvilja, ok sagðist víst mundu fá honum nokkut silfr; lèt hann þá fram einn sjóð ok sýndi henni. Þórdís leit á silfrit ok mælti: „ekki skal hann hafa þetta fè, því at þetta fè hefir þú tekit með afli ok ofríki af mönnum í sakeyri". Hann bar þá fram annan[1] sjóðinn ok bað hana þar á líta; hún gerði svá, ok mælti síðan: „ekki tek ek þetta fè fyrir hans hönd". Koðran spyrr: „hvat finnr þú þessu silfri?" — Þórdís svarar: „þessa penínga hefir þú samandregit fyrir ágirndar sakir í landskyldum ok fjárleigum meirum en rèttligt er; fyrir því heyrir slíkt fè þeim manni eigi til meðferðar, er bæði mun verða rèttlátr ok mildr. Síðan sýndi Koðran henni digran fèsjóð, ok var fullr af silfri; vá Þórdís þar af iij merkr til handa Þorvaldi, en fèkk Koðrani aptr þat er meira var. Þá mælti Koðran: „fyrir hví vildir þú taka heldr af þessum peníngum fyrir hönd sonar míns, en af hinum, sem ek færða þèr fyrr?" — Hún svarar: „því at þú hefir at þessum vel komizt, er þú hefir tekit í arf eptir föður þinn". Eptir þat fór Þórdís brottu frá veizlunni, með sæmiligum gjöfum ok vináttu Koðrans; hafði hún Þorvald heim með sèr til Spákonufells, var hann með henni um hríð vel haldinn at klæðum ok öðrum lutum, þeim er hann þurfti, ok þroskaðist mikit. En er hann var vel frumvaxti, fór hann utan at ráði Þórdísar; lètti hann ekki fyrr en hann kom fram í Danmerku; þar fann hann Svein, er kallaðr var tjúguskegg. Sveinn var lítillar ættar í móðurkyn, en hann sagðist vera sonr Haralds Gormssonar Danakonúngs. Sveinn varð ekki ílendr í þann tíma í Danmerk, því at Haraldr konúngr vildi ekki gánga við faðerni hans; lá hann þá löngum í hernaði, ok var kallaðr konúngr af liðsmönnum, sem víkínga siðr var. En er Þorvaldr kom á fund Sveins, tók hann vel við honum, ok gerðist Þorvaldr hans maðr ok var með honum nokkur sumur í hernaði fyri vestan haf. Þorvaldr hafði eigi lengi verit með Sveini konúngi, áðr konúngr virði hann umfram aðra menn ok alla sína vini, því at Þorvaldr var mikill ráðagerðarmaðr, öllum auðsær at dygð ok skynsemd, styrkr at afli ok hugaðr vel, vígkænn ok snarpr í

1) Hèr vanta átta blöð í 53, og vantar þar því allan þáttinn nema upphafið.

orrostum, mildr ok örlyndr af peníngum, ok reyndr at fullkomnum trúleik ok lítillætis þjónostu, hugþekkr ok ástúðigr öllum liðsmönnum, ok eigi úmakliga, því at þá enn heiðinn sýndi hann rèttlæti umfram hátt annarra heiðinna manna, svá at lutskipti þat allt, er hann fèkk í hernaði, veitti hann þurfandum ok til útlausnar herteknum mönnum, ok hjálpaði mörgum, þeim er meinstaddir voru; en ef honum hlotnuðust herteknir menn, sendi hann þá aptr til feðra sinna eðr frænda, svá sem hina, er hann hafði með peníngum út leyst. Nú því at hann var fræknari í orrostum en aðrir liðsmenn, þá gerðu þeir lögtekit, at hann skyldi hafa kostgrip af hverri tekju; en hann neytti svá þeirrar frumtignar, at hann keyri ríkra manna sonu, eðr þá luti aðra, er þeim var mest eptirsjá at, er látið höfðu, en hans fèlögum þætti minnst fyrir at gefa upp, ok sendi síðan þeim er átt höfðu; þar fyrir elskaðu hann jafnvel þeir, er fyrir ránum vurðu af Sveins mönnum, ok víðfrægðu lof hans góðleika; þaðan af frelsti hann auðveldliga sína menn, þó at gripnir vyrði af sínum úvinum, ok eigi síðr en um sjálfan Svein konúng. Svá bar til, at einn tíma er Sveinn herjaði á Bretland, ok í furstu vann hann sigr ok fèkk mikit herfáng, en er hann sótti lángt á land upp frá skipunum, þá kom á móti honum svá mikit riddara lið, at hann hafði enga viðtöku; varð Sveinn konúngr þar fánginn, bundinn ok kastað inn, ok með honum Þorvaldr Koðransson ok margir aðrir göfgir menn ok mikils virðir. Á næsta degi kom einn ríkr hertogi til myrkvastofu með miklu liði, at taka Þorvald út af dýflizu, því at litlu áðr hafði hann hertekna sonu þessa sama hertoga leyst, ok sent heim frjálsa til föður síns. Hertoginn bað Þorvald út gánga og fara frjálsan á brott. Þorvaldr sór um, at hann skyldi fyrir engan mun þaðan lífs fara, nema Sveinn konungr veri útleystr ok frelstr með öllum sínum mönnum. Hertoginn gerði þetta þegar fyrir hans skyld, sem Sveinn konúngr váttaði síðan, þá er hann sat at einni ágætri veizlu með tveim konúngum öðrum. Ok er sendíngar komu inn, mælti einn dróttseti: sagði, at eigi mundi verða síðan einn skutill svá vegliga skipaðr sem þá, er iij svá voldugir konúngar snæddu af einum diski. Þá svarar Sveinn konúngr brosandi: „finna man ek þann útlendan bóndason, at einn hefir með sèr, ef rètt virðíng er á höfð, í engan stað minna göfugleik ok sómasemð en vèr allir iij konúngar". Nú varð af þessu gleði mikil í höll-

inni, ok spurðu hlæjandi allir: hvar eða hvílíkr þessi maðr veri, er hann segir svá mikla frægð af? — Hann svarar: „þessi maðr, er ek tala hèr til, er svá vitr sem spökum konúngi hæfði at vera, styrkr ok hugdjarfr sem hinn öruggasti berserkr, svá siðugr ok góðháttaðr sem hinn siðugasti spekíngr". Sagði hann síðan af Þorvaldi þenna atburð, sem nú var ritaðr, er hann frelsti konúnginn fyrir sína vinsæld ok fyrir marga ágæta luti ok lofsamliga.

2. Þessu næst sem Þorvaldr hafði farit víða um lönd, tók hann trú rètta ok var skírðr af saxlenzkum biskupi, þeim er Friðrekr hèt, ok eptir þat bað hann Friðrek biskup með öllu kostgæfi, at hann mundi fara til Íslands með honum, at prèdika guðs eyrendi, ok leita at snúa til guðs föður hans ok móður, ok öðrum náfrendum hans. Biskup játaði því gjarna, ok fór til Íslands síðan, ok greiddist vel þeirra ferð. Koðran tók vel við syni sínum; voru þeir Þorvaldr ok biskup hinn fursta vetr at Giljá með Koðrani við þrettánda mann; tók Þorvaldr þegar at boða guðs eyrendi frændum sínum, ok þeim öllum er hann kómu at finna, því at biskupi var úkunnig túnga landsmanna, ok snerust nokkurir menn til rèttrar trúar fyrir orð Þorvalds á þeim vetri. En nú skal furst segja, hversu hann leiddi til sanns átrúnaðar föður sinn ok hans heimamenn. Á nokkurri hátíð, þá er Friðrekr biskup með sínum klerkum framdi tíðagjörð ok guðligt embætti, var Koðran ner staddr, meirr sakir forvitni en hann ætlaði sèr at samþykkja at sinni þeirra siðferði. En er hann heyrði klokknahljóð ok fagran klerka saung ok kendi sætan reykelsis ilm, en sá biskup vegligum skrúða skrýddan, ok alla þá, er honum þjónuðu, klædda hvítum klæðum með björtu yfirbragði, ok þar með birti mikla um allt húsit af fögru vaxkerta ljósi, ok aðra þá luti sem til heyrðu því hátíðar haldi, þá þóknaðust honum allir þessir lutir heldr vel. En á þeim sama degi kom hann at Þorvaldi syni sínum og mælti: „nú hefi ek sèð ok nokkut hugleidt, hversu alvörusamliga þjónostu þèr veitið guði yðrum, en þó, eptir því sem mèr skilja[st], eru mjök sundrleitir siðir várir, því at mèr sýnist at guð yðvarr mon gleðjast af ljósi því, er várir guðar hræðast; en ef svá er sem ek ætla, þá er þessi maðr, sem þú kallar biskup yðvarn, spámaðr þinn, því at ek veit at þú nemr at honum alla þá luti, er þú boðar oss af guðs þíns hálfu; en ek á mèr annan spámann, þann

er mèr veitir mikla nytsemd; hann segir mèr fyrir marga úvorðna luti, hann varðveitir kvikfè mitt, ok minnir mik á hvat ek skal fram fara, eðr hvat ek skal varast, ok fyrir því á ek mikit traust undir honum, ok hefi ek hann dýrðkat lánga æfi, en misþokkast þú honum mjök ok svá spámaðr þinn, ok siðferði ykkart, ok *afletr hann mik at veita ykkr nokkura viðsæmíng*, ok einna mest at taka ykkarn sið". Þorvaldr mælti: „hvar byggir spámaðr þinn"? — Koðran svarar: „hèr býr hann skamt frá bæ mínum í einum miklum steini ok vegligum". Þorvaldr spur hversu lengi hann hefði þar búit. Koðran segir hann þar byggt hafa lánga æfi. — „Þá man ek", segir Þorvaldr, „setja hèr til máldaga með okkr, faðir: þú kallar þinn spámann mjök styrkan, ok segir þik á honum hafa mikit traust, en biskup, er þú kallar minn spámann, er auðgætligr ok ekki aflmikill, en ef hann má, fyrir krapt himnaguðs, þess er vèr trúum á, reka brottu spámann þinn af svá styrku herbergi, þá er rètt at þú fyrirlátir hann, ok snúist til þess hins styrkasta guðs, skapara þíns, sem er at sönnu guð ok engi styrkleikr má sigra; hann byggir í eilífu ljósi, þángat er hann leiðir alla á sik trúandi, ok sèr trúliga þjónandi, at þeir lifi þar með honum í óumræðiligri sælu utan enda; ok ef þú vill snúast til hins háleita himnakonúngs, þá mátt þú skjótt skilja, at þessi, er þik afletr at trúa á hann, er þinn fullkominn svikari, ok hann girnist at draga þik með sèr frá eilífu ljósi til úendiligra myrkra; en ef þèr sýnist sem hann geri þèr nokkura góða luti, þá gerir hann þat allt til þess, at hann megi því auðveldligar þik fá svikit, ef þú trúir hann þèr góðan ok nauðsynligan". Koðran svarar: „auðsèð er mèr þat, at sundrleit er skilníng ykkur biskups ok hans, ok eigi síðr skil ek þat, at með kappi miklu fylgja hvárir sínu máli; ok alla þá luti, sem þit segit af honum, slíkt hit sama flytr hann af ykkr; en hvat þarf hèr at tala mart um: þessi máldagi, sem þú hefir á sett, man prófa sannindi". Þorvaldr varð glaðr við ræðu föður síns, ok sagði biskupi allan þenna málavöxt ok samtal þeirra. Á næsta degi eptir vígði biskup vatn, fór síðan með bænum ok sálmasöng, ok dreifði vatninu umhverfis steininn, ok svá steypti hann því yfir ofan, at allr varð vátr steinninn. Um nóttina eptir kom spámaðr Koðrans at honum í svefni, ok með daprligri ásjónu ok skjálftafullr, sem af hrezlu, ok mælti til Koðrans: „illa hefir þú gert, er þú bauðt híngat mönnum þeim, er á svikum sitja

við þik, svá at þeir leita at reka mik brottu af bústað mínum, því at þeir steyptu vellanda vatni yfir mitt herbergi, svá at börn mín þola eigi litla kvöl af þeim brennandi dropum, er inna[n] renna um þekjuna; en þó at slíkt skaði sjálfan mik eigi mjök, þá er allt at einu þúngt at heyra þyt smábarna, er þau æpa af bruna". En at morni komanda sagði Koðran syni sínum eptir spyrjanda þessa alla luti. Þorvaldr gladdist við, ok eggjaði biskup, at hann skyldi halda fram uppteknu efni. Biskup fór til steinsins með sína menn, ok gerði allt sem furra dag, ok bað almáttkan guð kostgæfliga, at hann ræki fjandann á brottu ok leiddi manninn til hjálpar. Á næstu nótt eptir sýndist sá enn flærðarfulli spámaðr Koðrani mjök gagnstaðligr, því sem furr var hann vanr at birtast honum með björtu ok blíðligu yfirliti ok ágætliga búinn, en nú var hann í svörtum ok herfiligum skinnstakki, dökkr ok illiligr í ásjónu, ok mælti svá til bónda með sorgfullri ok skjálfandi raust: „þessir menn stunda fast á at ræna okkr báða okkrum gæðum ok nytsemdum, er þeir vilja elta mik á brottu af minni eiginligri erfð, en svipta þik várri elskuligri umhyggju ok framsýniligum forspám; nú gjör þú svá mannliga, at þú rek þá brottu, svá at vit þarfnimst eigi alla góða luti fyrir þeirra údygð, því at aldri skal ek flýja, en þó er þúngt at þola lengr allar þeirra illgerðir ok úhægindi". Alla þessa luti, ok marga aðra, er sá fjandi hafði talit fyrir Koðrani, sagði hann syni sínum um morgininn. Biskup fór til steinsins hinn þriðja dag, með því móti sem furr; en sá hinn illgjarni andi sýndist bónda um nóttina eptir hit þriðja sinn með hryggiligu yfirbragði, ok bar upp fyrir hann þessháttar kvein með snöktandi röddu, ok segir svá: „þessi vándr svikari, biskup kristinna manna, hefir afsett mik allri minni eign, herbergi mínu hefir hann spillt, steypt yfir mik vellanda vatni, vætt klæði mín, rifit ok únýtt með öllu, en mèr ok mínu hyski hefir hann veitt bótlausan bruna, ok hèr með rekit mik nauðgan lángt í brott í auðn ok útlegð. Nú hljótum vit at skilja bæði samvistu ok vinfengi, ok gerist þetta allt af einu saman þínu dygðarleysi. Hugsa þú nú, hverr þitt góz man hèðan af varðveita svá dyggiliga, sem ek hefi áðr varðveitt. Þú kallast maðr rèttátr ok trúlyndr, en þú hefir ömbunat mèr illu gott". Þá svarar Koðran: „ek hefi þik dýrkat svá sem nytsamligan ok styrkan guð, meðan ek var úvitandi ens sanna, en nú, með því at ek hefir

reynt þik flærðarfullan ok mjök úmeginn, þá er mèr nú rètt ok utan allan glæp at fyrirláta þik, en flýja undir skjól þess guðdóms, er miklu er betri ok styrkari en þú". — Við þetta skildu þeir, með stygð en engum blíðskap. Því næst var skírðr Koðran bóndi, ok kona hans Járngerðr, ok aðrir heimamenn, utan Ormr son hans vildi eigi skírast láta þat sinn[1].

3. Um várit eptir fóru þeir biskup ok Þorvaldr vestr til Víðidals með lið sitt, ok settu bú saman at Lækjamóti, ok bjöggu þar iiij vetr, ok fóru [á[2] þeim árum víða um Ísland at prèdika guðs orð. Á enum fyrstum[3] misserum er þeir voru at Lækjamóti bað Þorvaldr til handa sèr konu þeirrar er Vigdís hèt, hún var dóttir Ólafs, er bjó at Haukagili í Vatnsdal. En er þeir biskup ok Þorvaldr komu til veizlunnar, var þar fyrir fjöldi boðsmanna heiðinna. Þar var mikill skáli, sem þá var víða siðr til[4], ok fèll einn lítill lækr um þver[an] skálann ok búit um vel. En þeir hvárigir vildu öðrum samneyta, kristnir menn ok heiðnir; þá var þat ráð tekit, at tjaldat var um þveran skálann í milli þeirra, þar sem lækrinn var; skyldi biskup vera fram í skálann með kristna menn, en heiðíngjar fyrir innan tjaldit. At því sama brúðlaupi voru með öðrum heiðnum mönnum ij breðr, hinir rammastu berserkir ok mjök fjölkunnigir; hèt hvárrtveggi Haukr; en því at þeir stóðu með öllu afli einna mest í móti

---

1) Flb. og 62 hafa í stað þessara tveggja fyrstu kapitula: Maðr er nefndr Eilífr örn, hann var son Atla Skíðasonar, Bárðarsonar; son Eilífs arnar var Atli hinn rammi, hann átti Herdísi, dóttur Þórðar frá Höfða; annarr Sölmundr, faðir Guðmundar, föður Víga-Barða; þriði son Eilífs arnar hèt Koðran, hann bjó at Giljá í Vatnsdal. Járngerðr hèt kona hans, þeirra synir voru þeir Ormr ok Þorvaldr hinn víðförli; hann fæddist upp með Þórdísi spákonu, hún gerði vel til hans; en er hann var roskinn fór hann utan, ok var virðr vel hvar sem hann kom; hann fór víða um heim, ok vann mikit til frægðar. Þessi Þorvaldr kom fram í Saxlandi, ok var þar skírðr af biskupi þeim er Friðrekr hèt; þann sama biskup flutti Þorvaldr til Íslands með sèr at flytja þar guðs erendi; voru þeir at Giljá einn vetr, var þá Koðran skírðr, faðir Þorvalds, með húsfreyju sinni ok heimamönnum, utan Ormr son hans vildi eigi skírast láta í þann tíma, en þó fór þat fram, þá er guð vildi, sem síðar mun sagt verða.

2) hèr byrjar 54, en á þeim tveim blöðum sem vanta hefir staðið upphaf þáttarins. Þetta handrit er orðrètt sem 61.

3) „síðustum" Flb., og er það rángt.

4) á þessu má sjá, að sagan er nokkuð seint rituð, sbr. orðin: „sem í þann tíma var títt", hèr fyrir aptan.

rèttri trú, ok kostgæfðu at eyða kristiligu siðlæti, þá buðu þeir biskupi, ef hann hefði þoran til eðr nokkut traust á guði sínum, at hann skyldi reyna við þá íþróttir, þær sem þeir voru vanir at fremja, at vaða loganda eld með berum fótum, eðr láta fallast á vápn, svá at þá skaðaði ekki. En biskup, treystandi á guðs miskun, neitaði eigi, voru þá gjörvir eldar stórir eptir endilöngum skálanum, sem í þann tíma var títt, at drekka öl við eld. Biskup skrýddist öllum biskupsskrúða, ok vígði vatn, gekk þá at eldinum svá búinn, hafði mítr á höfði ok bagal í hendi; hann vígði eldinn ok dreifði vatninu yfir. Því næst gengu inn þessir tveir berserkir, grimmliga grenjandi, bitu í skjaldar rendr ok höfðu ber sverð í höndum, ætluðu nú at vaða eldinn; en þá bar skjótara at fram en þeir ætluðu, ok drápu fótum í eldstokkana, svá at þeir fèllu báðir áfram, en eldinn lagði at þeim ok brendi þá á lítilli stundu með svá mikilli ákefð at þeir voru þaðan dauðir dregnir. Þeir voru færðir upp með gilinu ok grafnir þar, því heitir þat síðan Haukagil. Friðrekr biskup gerði fyrir sèr krossmark ok gekk á eldinn miðjan ok svá fram eptir endilöngum skálanum, en logann lagði tvá vega frá honum, sem vindr blèsi, ok því síðr kendi hann meinsamligs hita af eldinum, at eigi með nokkuru móti sviðnaðu hinar minnstu trefr á skrúða hans. Snerust þá margir til guðs, er sá þetta hit háleita stórtákn. [Þenna atburð segir Gunnlaugr múnkr at hann heyrði segja[1] sannorðan mann, Glúm Þorgilsson, en Glúmr hafði numit at þeim manni er hèt Arnórr, ok var Arndísarson. Ólafr at Haukagili gerði síðan kirkju á bæ sínum, en Þorvaldr fèkk honum viðinn til[2].

4. Þeir biskup ok Þorvaldr lögðu á alla stund með hinu mesta kostgæfi at leiða sem flesta menn guði til handa, eigi at eins þar í næstum sveitum, heldr fóru þeir víða um Ísland at boða orð guðs. Þeir kómu vestr í Hvamm [í Breiðafjarðardölum um alþíngi[3]. Þórarinn bóndi var eigi heima, en Friðgerðr

---

1) á þessu og ýmsu öðru mætti ráða, sem Gunnlaugr múnkr væri höfundr þessarar sögu, og þykir mart benda til þess. Á þessum stað hefir að líkindum staðið: „Þenna atburð heyrðum vèr segja" o.s.frv., og orðunum að eins vikið við, sem opt er títt, af þeim er síðan hefir handleikið söguna.

2) frá [ vantar í Flb.

3) frá [: þar bjó Þórarinn nef, son Þórðar gellis, hann átti Friðgerði, dóttur Höfða-Þórðar. Flb. og 62.

húsfreyja, dóttir Þórðar frá Höfða, tók vel við þeim í furstu. Þorvaldr taldi þar trú fyrir mönnum, en Friðgerðr blótaði meðan inni, ok heyrði hvárt þeirra annars orð. Friðgerðr svaraði orðum Þorvalds fá, ok þó illa, en Skeggi, son þeirra Þórarins, hafði í spotti orð Þorvalds. Þar um orti Þorvaldr vísu þessa:

Fór ek með dóm enn dýra,
drengr hlýddi mèr engi,
gátum [hríngs frá hreyti
hróðr varliga góðan[1];
en með [enga svinnu[2]
aldin rýgr við[3] skaldi,
þá greypi[4] guð gyðju,
gall of[5] heiðnum stalli.

Ekki er þess getið, at nokkurir menn í Vestfirðínga fjórðúngi kristnaðist af þeirra orðum; en norðr í sveitum, er þeir fóru þar yfir, tóku rètta trú nokkurir göfgir menn: Önundr í Reykjadal, sonr Þorgils Grenjaðarsonar, ok Hlenni af Saurbæ í Eyjafirði ok Þorvarðr í Ási við Hjaltadal; [bróðir Þorvarðs hèt Arngeirr ok annarr Þórðr; hann var son Spak-Böðvars Öndótts sonar landnámamanns, er bjó í Viðvík[6]. Þessir ok enn fleiri menn vorðu fullkomliga kristnir í Norðlendínga fjórðúngi, en þeir voru margir, þó at þá lèti eigi skírast at sinni, at trúðu Kristi ok fyrirlètu skurðgoða blót ok allan heiðinn sið, ok vildu eigi gjalda hoftolla. Fyrir þat reiddust heiðíngjar Friðreki biskupi, ok lögðu fjandskap á alla þá, er honum samþyktu. Þorvarðr Spak-Böðvarsson lèt gera kirkju á bæ sínum í Ási, ok hafði með sèr prest, er biskup fèkk honum, at sýngja sèr tíðir, ok veita honum guðliga þjónostu. Við þat varð mjög reiðr Klaufi, son Þorvalds Refssonar frá Barði í Fljótum. Klaufi var mikilsháttar maðr; hann fór til fundar við bræðr Þorvarðs, Arngeir ok Þórð, þess eyrendis, at hann bauð þeim kost á, hvárt þeir vildi heldr drepa prestinn eðr brenna kirkjuna. Arngeirr svarar: „let ek þik þess, ok svá hvern annan minn vin, at drepa prestinn, því at Þorvarðr bróðir minn hefir fyrrum grimmliga hefnt smærri meingerða, en ek get at honum þiki þessi, en hins vil ek eggja, at þú brennir

1) frá [: háð af hreyti, hlautteins (hræteins, Flb.) goða sveini. Kristni saga og Flb., og er rèttara.
2) frá [: ógnar sennu, Flb. 3) at, Flb. 4) kreppi, Flb.
5) or, Flb. 6) frá [ vantar í Flb. og 62.

kirkjuna. Ekki vildi þórðr samþykkja þeim at þessu ráði. Litlu síðarr fór Klaufi til um nótt við tíunda mann at brenna kirkjuna; en er þeir nálgaðust ok gengu í kirkjugarðinn, kendu þeir ákafligan hita ok sá mikla gneistaflaug út í glugga kirkjunnar; fóru þeir brottu við þat, at þeim þótti kirkjan full af eldi. Annan tíma fór Arngeirr til við marga menn, ok ætlaði at brenna þessa sömu kirkju; en er þeir höfðu brotið upp hurðina, ætlaði hann at tendra eld á gólfinu við þurran fjallrapa; en því at eigi logaði svá skjótt sem hann vildi, þá lagðist hann inn yfir þreskjöldinn ok ætlaði at blása at, er glóðin var nóg, en eigi vildi festa í viðinum; þá kom ör, ok stóð föst í kirkjugólfinu rètt við höfut honum, ok þegar kom önnur, sú nísti klæði hans við gólfit, svá at örin flaug í millum síðu hans ok skyrtunnar, er hann var í; hann ljóp þá upp hart ok mælti: „svá flaug þessi örin nær síðu minni, at ek em ráðinn í at bíða eigi hèr hinnar þriðju". Nú hlífði guð svá húsi sínu. Fór Arngeirr á brottu með sína menn, ok leituðu heiðíngjar eigi optarr at brenna þá kirkju[1]. þessi kirkja var gjör xvj árum furr en kristni var lögtekin á Íslandi, [en hún stóð svá at ekki var at gert[2].

5. Eitt[3] sumar á alþíngi taldi þorvaldr Koðransson trú eptir bæn biskups opinberliga fyrir öllum lýð; en er hann hafði fram borit með mikilli snild mörg ok sönn stórmerki almáttigs guðs, þá svarar furstr kynstórr maðr ok göfugr, þó at heiðinn veri ok grimmr: Hèðinn frá Svalbarði af Eyjafjarðarströnd, sonr þorbjarnar Skagasonar, Skoptasonar. Hèðinn átti Ragneiði, stjúpdóttur ok bróðurdóttur Eyjólfs Valgerðarsonar. Hèðinn mælti

1) alla þessa sögu um þá Klaufa vantar i Flb.

2) orðunum frá [ sl. Flb. — þetta hefir án efa upphaflega verið þannig orðað: „en hún stendr svá at ekki er at gert", því þáttr þessi hefir verið saminn meðan kirkjan stóð; en sá sem ritað hefir skinnbókina 61 hefir breytt orðunum svo, að nú eru þau ógreinileg.

3) 61 hefir eyðu fyrir upphafsstafnum; 54 hefir „þitt", og er þar því settr rángr upphafsstafr framanvið orðið; rèttast er í Flb. og 62: „hit næsta sumar"; tímatalið í sögunni verðr því þannig: 981 komu þeir út og voru 1 vetr á Gilja (982), en 4 á Lækjamóti (983-986); á hinum fyrstu misserum sem þeir voru þar var brúðkaupið á Haukagili (982); næsta sumar um alþingi fór þorvaldr vestr í Hvamm (983); næsta sumar þar eptir fóru þeir til alþingis (984); það sumar hafði þorkell máni síðast lögsögu. Næsta sumar fóru þeir til vorþings á Hegranesi (985), en næsta sumar utan (986; sbr. Tímat. í Ísl. s. bls. 430).

mart illt við Þorvald, ok guðlastaði mjök í móti heilagri trú; ok svá gat hann með sinni illgirnd um talit fyrir fólkinu, at engi maðr lagði trúnat á þat er Þorvaldr hafði sagt, heldr tók þaðan af svá mjök at vaxa illviljafull ofsókn ok hatr heiðíngja við þá biskup ok Þorvald[1], at þeir gáfu skáldum fè til at yrkja níð um þá. Þar er þetta í:

Hefir börn borit
biskup níu,
þeirra er allra
Þorvaldr faðir.

Fyrir þat drap Þorvaldr tvá þá er ort höfðu kvæðit, en biskup þoldi allar meingerðir með hinni mestu hógveri; en er Þorvaldr hafði drepit skáldin, fór hann til biskups, at segja honum hvat hann hafði gert; biskup sat inni ok sá á bók; ok áðr Þorvaldr gekk inn, kómu tveir blóðdropar á bókina fyrir biskup; skildi biskup þegar, at þat var nokkur fyrirbendíng; en er Þorvaldr kom inn til hans, mælti biskup: „annathvárt hefir þú framit manndráp, ella hefir þú þat í hug þèr". Þorvaldr segir þá hvat hann hafði gert. Biskup mælti: „hví fórt þú svá með?" — Þorvaldr svarar: „ek þolda eigi er þeir kölluðu okkr raga". Biskup mælti: „þat var lítil þolraun, þóat þeir lygi þat, at þú ættir börn, en þú hefir fert orð þeirra á verra veg, því at vel mætta ek bera börn þín, ef þú ættir nokkur; eigi skyldi kristinn maðr sjálfr leita at hefna sín, þó at hann veri hatrliga smáðr, heldr þola fyrir guðs sakir brigzli ok meingerðir".

6. Nú þó at þeir þyldi mörg vandreði af vándum mönnum, þá lèttu þeir eigi því heldr af at fara um sveitir ok boða guðs erendi. Þeir kómu út í Laxárdal ok dvöldust um hríð undir Eilífsfelli hjá Atla enum ramma, föðurbróður Þorvalds; var Atli þá skírðr með heimamenn sína, ok margir aðrir menn, er þeir kómu til, því at heilags anda miskun nálgaðist af orðum þeirra. Þá flaug fræði af biskupi, með guðs gjöf, í eyru einum smásveini V vetra gömlum, er hèt Íngimundr, sonr Hafrs í Goðdali; hann var at fóstri á Reykjaströnd. Íngimundr kom at máli einn dag við smalamann fóstra síns, ok bað hann fylgja sèr leyniliga til Eilífsfjalls, at sjá biskupinn; þetta veitti sauða-

1) Hið næsta sumar á alþingi talaði Þorvaldr Koðransson trú fyrir mönnum, en heiðíngjar æptu í móti, ok sýndu svâ mikinn fjandskap. Flb. og 62, í stað þess sem hèr er frá upphafi 5. kapítula.

maðrinn honum. Þeir fóru yfir Kjartansgjá ok vestr yfir fjallit til Laxárdals. En þegar er þeir kómu til bæjar Atla at Eilífsfelli, þá tók sveinninn at biðja at hann veri skírðr. Atli tók í hönd sveininum ok leiddi hann fyrir biskup, svá segjandi: „sveinn þessi er son göfugs manns, ok þó heiðins, en sveinninn beiðir skírnar utan ráð ok vitorð föður síns ok fóstra; nú sjá fyrir hvat at er geranda, því at vís ván er at hvárumtveggja þeirra man mjök mislíka ef hann er skírðr". Biskup svarar hlæjandi: „sannliga", segir hann, „er úngum smásveini eigi neitanda svá heilagt embætti, allra helzt er hann hefir heilsamligra skilníng á sínu ráði, en frændr hans rosknir. Síðan skírði biskup Íngimund ok kendi honum, áðr hann fór í brott, hvat honum var einna skyldast at varðveita meðr kristninni.

7. Svá er sagt, at Friðrekr biskup hafi skírt þann mann er hèt Máni, ok fyrir því at hann hèlt helga trú með mörgum manndygðum ok góðlifnaði, var hann kallaðr Máni enn kristni; hann bjó í Holti á Kólgumýrum; hann gerði þar kirkju; í þeirri kirkju þjónaði hann guði bæði nætr ok daga með helgum bænum ok ölmosugerðum, er hann veitti margháttaðar fátækum mönnum. Hann átti veiðistöð í á þeirri, er þaðan var skammt í brottu, þar sem enn í dag heitir af hans nafni Mánafors, því at á nokkurum tíma, þá er hallæri var mikit ok sultr, hafði hann ekki til at fæða húngraða; þá fór hann til árinnar ok hafði þar nóga laxveiði í hylnum undir forsinum; þessa laxveiði gaf hann undir kirkjuna í Holti, ok segir Gunnlaugr múnkr, at sú veiðr hafi þar jafnan síðan til legit. Hjá þeirri kirkju sèr enn merki, at hann hefir byggt svá sem einsetumaðr, því at svá sem hann var fjarlægr flestum mönnum þann tíma í hugskotinu, svá vildi hann ok at líkamligri samvistu firrast alþýðu þys, því at við kirkjugarðinn sèr[1] at verit hefir garðhverfa nokkur, er segist at hann hafi vunnit á heyverk á sumrum til þess at fóðra við eina kú, þá er hann fæddist við, því at hann vildi afla sèr atvinnu með erfiði eiginligra handa, heldr en samneyta heiðíngjum, þeim er hann hataðu, ok heitir þar síðan[2] Mánagerði[3].

1) Þetta er eitt með öðru sönnun fyrir, at sagan sè ritin fyrir norðan og af gagnkunnigum manni þar í hèraði er sagan gjörðist.

2) Mánatóptir eða, b. v. 54.

3) báða þessa kapitula, 6. og 7., vantar í Flb. og 62.

8. En at segja fátt af mörgum meingerðum ok ofsóknum, er heiðnir menn veittu Friðreki biskupi ok Þorvaldi fyrir boðan rèttrar trúar: þá bar svá til, at þeir vildu ríða til várþíngs í Hegranes[1]; en er þeir nálguðust þíngstöðina, þá ljóp upp allr múgr heiðinna manna, ok runnu í móti þeim með miklu ópi; sumir börðu grjóti, sumir skóku at þeim vápn ok skjöldu með harki ok háreysti, báðu guðin steypa sínum úvinum, ok var engi ván at þeir mætti koma á þíngit. Þá mælti biskup: „nú kemr þat fram, er móður mína dreymði forðum daga: at hún þóttist finna vargshár í höfði mèr, því at nú eru vèr gjörvir rækir, ok reknir sem skæðir vargar með hræðiligu ópi ok sturjöld". Eptir þat fóru þeir biskup heim til Lækjamóts, ok dvöldust þar um sumarit. Á því sama sumri, eptir alþíngi, sömnuðu nokkurir heiðnir höfðíngjar liði, svá at þeir höfðu CC manna tólfræð; þeir ætluðu til Lækjamóts, at brenna biskup inni ok allt lið hans. En er þeir áttu skamt til bæjar at Lækjamóti, þá stigu þeir af hestum sínum ok ætluðu at æja, sem þeir gerðu; en í því er þeir voru á bak komnir, flugu hjá þeim fuglar margir váveifliga; við þat fældust hestar þeirra, ok vurðu svá óðir, at þeir fèllu allir ofan er á bak voru komnir ok meiddust; sumir fèllu á grjót ok brutu fætr sína eðr hendr, eðr fengu önnur mein; sumir fèllu á vápn sín ok fengu þar stór sár af; hestarnir ljópu á suma ok meiddu; þeim varð minnst til vandræða er hestarnir ljópu frá, ok vurðu þeir at gánga lánga leið til síns heima; hurfu þeir við þetta aptr; skýldi svá allsvaldanda guðs miskun sínum mönnum, at því síðr fengu þeir biskup þessu sinni nokkut mein af illvilja ok umsát heiðíngja, at þeir vurðu með engu móti varir við þessa atför ok ráðagerð; bjöggu þeir Þorvaldr þann hinn fjórða vetr at Lækjamóti[2]; en á næsta sumri eptir fóru þeir utan[3], furst til Noregs, ok lágu um hríð í höfn nokkurri; þá kom utan af Íslandi, ok lagði til þeirrar sömu hafnar, sá maðr er furr var nefndr, Hèðinn frá Svalbarði. Hèðinn gekk upp á land ok í skóg,

1) Þetta var um vorið 985, hið næsta sumar eptir að þeir höfðu verið á alþíngi, að þeir fóru á Hegranes þíng, því svo segir berlega, að þeir voru síðan einn vetr að Lækjamóti; í afskript Hauksbókar af Kristnisögu stendr reyndar v, en það er misritað (v fyrir j).

2) Það er vetrinn 986.

3) Þeir hafa því farið utan 986, rèttum 10 árum áðr en Stefnir kom til Íslands.

at höggva sèr húsavið. Þorvaldr varð þess varr; hann kallaði með sèr þræl sinn; þeir fóru í skóginn, þar sem Hèðinn var, lèt Þorvaldr þrælinn drepa Hèðinn. En er Þorvaldr kom til skips, [sagði hann þetta verk biskupi[1]. Biskup svarar: „fyrir þetta víg skulum vit skilja, því at þú vill seint láta af manndrápum". Eptir þat fór Friðrekr biskup til Saxlands, ok endi þar líf sitt með háleitligum heilagleik, takandi eilífa ömbun af allsvaldanda guði fyrir sinn góðvilja ok stundligt starf.

9. Þorvaldr lifði síðan mörg ár; en með því at hann var maðr mikill af sjálfum sèr, sterkr ok hugaðr vel, en í alla staði geyminn guðs boðorða með fullkominni ástarhygli, þá hugsaði hann þat, ef hann feri enn aptr til sinnar fóstrjarðar, at eigi veri víst, hvárt hann þyldi svá í alla staði, sem vera ætti fyrir guðs ást, mótgáng ok meingerðir sinna samlanda. Fyrir því tók hann þat ráð, at vitja eigi optarr út til Íslands; gerði hann þá ferð sína út í heim, ok allt til Jórsala, at kanna helga staði. Hann fór um allt Grikkjaríki ok kom til Miklagarðs; tók sjálfr stólkonúngrinn við honum með mikilli virðíng, ok veitti honum margar vingjafir ágætar, því at svá var guðs miskun honum nákvæm, ok flaug hans fregð fyrir alþýðu hvar sem hann kom, at hann var virðr ok vegsamaðr svá af minnum mönnum sem meirum, sem einn stólpi ok upphaldsmaðr rèttrar trúar, ok svá sæmðr, sem dýrðarfullr játari várs herra Jesú Kristí af sjálfum Miklagarðs keisara ok öllum hans höfðíngjum, ok eigi síðr af öllum biskupum ok ábótum um allt Grikkland ok Sýrland; allra mest var hann tignaðr um Austrveg, þángat sendr af keisaranum svá sem foríngi eðr valdsmaðr skipaðr yfir alla konúnga á Rúzlandi ok í öllu Garðaríki. Þorvaldr Koðransson reisti þar af grundvelli eitt ágætt múnklíf hjá þeirri höfuðkirkju er helgut er Jóhanne baptista, ok lagði þar til nógar eignir; hèt þar æ síðan af hans nafni Þorvalds klaustr[2]; í því múnklífi endi

1) þannig leiðrètt frá [; í handr. er ritað: „ok sagði þetta biskupi"; þar að auki er þar á spáziunni ritað smáorð, sem varla verðr lesið (verk?).

2) þessi saga er enn forneskjulegar sögð í Kristnisögu Cap. 12. og sagt að Þorvaldr sè þar grafinn „í fjalli einu". Það er án efa tilhæfa í því, að Þorvaldr hafi stofnað ágætt múnklífi, og orðið frægr í Austrlöndum. Rússland tók kristni frá Miklagarði, svo það er líklegt að Þorvaldr gæti hafa verið sendr til Rúslands frá stólkonúnginnm, nema hvað hèr mun nokkuð öfgað um dýrð hans og frægð. Það er merkilegt, að Flateyjarbók

hann sitt líf ok er þar grafinn. Þat klaustr stendr undir hábjargi, er heitir Dröfn[1].

---

sleppir þessari frásögn, en sagan mun vera höfð í öndverðu eptir Stefni, sem sjálfr varð Þorvaldi samferða um Austrlönd, en sagan um gröpt Þorvalds mun tekin eptir kvæði Brands víðförla; þar er kallað „í Drafni" fjall það, er Þorvaldr er grafinn í. Vèr höfum engar spurnir af, hvort það nafn finnist nú, eða hvort nokkrar sagnir sè í Rússlandi um Þorvalds klaustr, þar í nánd, í hèraðinu Polotz (Palteskju). Hver þessi Brandr hinn víðförli sè vitum vèr heldr ekki, eða nær hann hafi lifað. Eptir vísunni að dæma, þykir oss þó varla líklegt að hann hafi lifað fyr en á ofanverðri 12. öld.

1) Flb. og 62 hafa í stað hins 9. kap. þessa sögu: „Svo er sagt, at Þorvaldr hafi farit víða um heim síðan þeir biskup skildu; þess er ok fyr getið, at Otto keisari kristnaði Danmörk, fór Ólafr Tryggvason með honum í Austrveg, ok var mikill ráðagerðarmaðr keisaranum til at kristna fólkit, ok í þeirri ferð er svo sagt af nökkurum mönnum, at Ólafr hafi fundit Þorvald Koðransson, ok sakir þess er hvorr þeirra hafði mart af annars ráðum, frægð ok frama spurt, kvöddust þeir kunnliga, þó at þeir hefði eigi fyr sèzt; en er þeir tóku tal sín á milli, spurði Ólafr konúngr: ‚ertu Þorvaldr hinn víðförli?' — Hann svarar: ‚ek hefi enn ekki víða farit'. — Konúngr mælti: ‚þú ert góðmannligr maðr ok giptusamligr, eðr hverja trú hefir þú?' — Þorvaldr svarar: ‚þat vil ek gjarna segja yðr; ek hefi ok held kristinna manna trú'. — Konúngr mælti: ‚þat er líkligt, at þú þjónir vel þínum herra, ok kveikir margra manna hjörtu til ástar við hann; er mèr mikil forvitni á mörgum trúligum tíðendum, þeim er þú munt segja kunna fyrst af (á)gætum jarteignum Jesu Kristi, guðs þíns, ok síðan af ymsum löndum ok ókunnum þjóðum, þar næst af þínum athöfnum ok frækiligum framgöngum'. — Þorvaldr svarar: ‚með því at ek skil at þú girnist með góðfýsi af mèr at vita þá sanna hluti, at ek hefi sèt (ok) heyrt, vil ek gjarna gera þinn vilja, væntandi þar fyrir, at þú segir mèr því auðvelligar þat, er ek spyrr þik". Konúngr sagði svo vera skyldu; sagði Þorvaldr honum þá mörg tíðendi ok merkilig, bæði af guði ok góðum mönnum; fèllst konúngi þetta vel í skap, en öllum þeim er hjá voru þótti þat hin mesta skemtan; en þá er Þorvaldr sagði frá því, er á Íslandi hafði gerzt, þá er þeir Friðrekr biskup voru þar, frètti konúngr vandliga at hverju, eðr hversu margir þar hefði af þeirra orðum rètta trú tekit, eðr hverr maðr hefði auðveldligast játtað kristninni, eðr hverir mest hefði mótmælt; en Þorvaldr sagði þat allt greiniliga. En er konúngr hafði heyrt, hversu mikla ástundan þeir höfðu haft til fram at flytja kristniboðit, ok hversu margar ok miklar meingerðir þeir höfðu þolat fyrir guðs nafn, þá sagði hann svo: ‚þat gefr mèr at skilja, at þessir Íslendíngar, er þú hefir nú frá sagt, muni vera harðir menn ok hraustir, ok torvelt mun verða at koma

10. Þá er Friðrekr biskup ok Þorvaldr kómu til Íslands, voru liðin frá holdgan várs herra Jesu Kristi DCCCC ára ok eitt ár ens níunda tigar, en [C tírædt ok vj[1] vetr frá upphafi Íslands bygðar. Þrim vetrum síðarr gjörði Þorvarðr Spak-Böðvarsson kirkju í Ási.

---

þeim til kristni, en þó er þat mitt hugarboð, at þeim verði þess auðit, ok síðan, er þeir trúa á sannan guð, hygg ek at þeir haldi allir vel sína trú, hverr sem til verðr um síðir at koma þeim á rèttan veg'. Þorvaldr sagði þá: 'heyrt hefi ek flutt af nokkurum vísendamönnum, at þú munir verða konúngr at Noregi, ok er þá líkligt at guð gefi þèr giptu til at snúa Íslendíngum ok mörgum öðrum þjóðum í Norðrhálfunni til rèttrar trúar'. Þorvaldr spurði þá konúnginn margra hluta, en hann leysti allt vel ok vitrliga, þat er hann spurði, ok svo lángan tíma sem þeir voru báðir samt, var þeirra gleði, at hverr spurði eðr sagði nokkut spakligt öðrum; síðan skildu þeir með hinni mestu vináttu, fór Þorvaldr þá út í Miklagarð, ok fèkk stórar sæmdir af stólkonúnginum, en síðan lèt hann klaustr reisa ok gaf þar til auðæfi, ok í því sama klaustri endi hann sína æfi með hreinum ok háleitum lifnaði".

Þessi saga er allmerkilig, að íslenzkr maðr skuli fyrstr hafa boðað Ólafi konúngi trú, en sönn getr þessi saga þó varla verið. Þegar Þorvaldr kom af Íslandi, 986, var Ólafr 23 ára, en þá ætlum vèr víst að hann hafi verið kominn vestr til Írlands og fengið Gyðu drottníngar. Herferð Ottó keisara til Danmerkr varð og laungu fyr (975); en að keisari hafi kristnað fólk í Austrvegi höfum vèr engar sagnir um, og það mun og fara fjarri, að Þorvaldr hafi fundið Ólaf konúng þar. Það er að sjá af Flb. sem fundr þeirra hafi orðið um 990, eptir að Þorvaldr hafði ferðazt um Austrveg, og ef til vill í múnklífi Þorvalds í Drafni.

1) frá [ „LX" hefir Flb., og er rángt; Kristni saga hefir „tíutigi og vij", og munar það einum vetri, ef hèr er ekki ritvilla.

## ÞÁTTR AF ÍSLEIFI BISKUPI.

Ísleifr, son Gizorar hvíta[1], var vænn maðr ok tíguligr, ekki mikill vexti, manna vinsælastr; hann var úngr í skóla á Saxlandi. Þess er getið eitthvert sinn, er hann fór sunnan ok kom við Noreg, þá var með Ólafi konúngi (Haraldssyni) Brandr hinn örvi[2]; konúngr virði hann mikils, ok á einni hátíð mælti konúngr: „Brandr! þigg at mèr skikkju þessa"; þat var skarlaks möttull, ok undir grá skinn. Þeir Brandr ok Ísleifr fundust í bænum, ok varð þar fagnafundr. Ísleifr var þá prestr ok fèlítill, er hann kom sunnan ór löndum[3]; þá mælti Brandr: „þú skalt þiggja at mèr skikkju þessa, er konúngrinn gaf mèr". Hann svarar: „eigi hefir þú enn tapat örlyndinni, ok vil ek gjarna þiggja". Ok einn hátíðardag, er Brandr var at konúngsborði, þá mælti konúngr, ok leit til hans: „hví skal nú eigi hafa skikkjuna, Brandr, er ek gaf þèr?" — Hann svarar: „herra! gefit [hefi ek[4] hana presti einum". Konúngr mælti: „sjá vilda ek prestinn, ok vita hver vorkunn mèr þikir á, er þú lógaðir svá skjótt konúngsgjöfinni". Menn tóku ok svá undir, at hann færi undarliga með þvílíks manns gjöf. Ok at kirkjufundi talaði Brandr til konúngs: „herra! þar stendr hann nú prestrinn við kirkjuna, ok er í skikkjunni". Konúngr leit til hans ok mælti: „hinnveg munu vit nú breyta, Brandr, því at nú vil ek gefa honum skikkjuna, ok kalli hann til mín prestinn". Brandr kveðst þat

---

1) Þáttr þessi er hèr prentaðr eptir Flateyjarbók á 381. dálki. Í safni Árna Magnússonar 554 (4to) finnst hann einnig. — Flateyjarbók, sem hefir þáttinn á milli þáttarins af Sigurði Ákasyni og Egli Hallssyni, hefir þessa fyrirsögn: „Ísleifr feck döllv, er siþan vár biskup", og byrjar svo: „Þat er nú þessu næst að segja at Ísleifr, son G. hv." o. s. frv.; 554 byrjar þannig: „Þat er sagt at Ísleifr, son G. hv." o. s. frv.

2) son Vermundar í Vátnsfirði, b. v. 554.

3) Ísleifr getr ekki hafa haft nema svosem einn um tvítugt er þetta var, og þó svo, að það hafi verið á síðustu árum Ólafs helga (1027), enda hefir Ísleifr þá verið nývígðr til prests.

4) frá [ hafig, Flb., líklega ritvilla.

gjöra mundu. Síðan kom Ísleifr fyrir konúng ok kvaddi hann. Konúngr tók vel kveðju hans ok mælti: „skikkju þá, prestr! er Brandr gaf þèr, hana vil ek gefa þèr, ok mun ek gjalda Brandi verð fyrir, því at svá lízt mèr á þik, at ek vil fela mik undir bænum þínum". Hann svarar: „herra! allgóð þótti mèr áðr gjöfin Brands, en þó miklu meiri virðíng at þiggja af yðr [við þessi ummæli[1].

Síðan fór hann til Íslands, ok þótti frændum hans ráð at styrkja hann með kvánfángi; hann var maðr fèlítill, en átti staðfestu góða í Skálaholti ok goðorð. Síðan fór hann norðr í [Víðidal til Ásgeirsár[2]; þar bjó sá maðr er Þorvaldr hèt, hann átti dóttur er Dalla hèt. Þeir kómu þar snemma dags, ok kvaddi bóndi þá ok bauð þeim þar at vera. Ísleifr kvað þá talast mundu fyrst við, „því at svá stendst af, at ek ferr bónorðsför híngat, ok biðr ek dóttur þinnar". Hann mælti: „góðar frèttir gánga frá þèr, en svá vil ek þessu máli svara, að þú skalt ráðast norðr híngat, ef þú vill ráðahaginn." Hann svarar: „eigi get ek at mèr sýnist þat, at láta staðfestu mína ok mannaforráð ok sveit, ok munu vit heldr skilja". Síðan sneru þeir hestum sínum [ok riðu, en hon Dalla var uppi á heydes ok var hin vænligsta kona; gekk Þorvaldr þángat[3]. Hon mælti: „hverir kómu menn oss úkunnir?" — Hann sagði henni. Hon mælti: „hvert var eyrendi þeirra?" — Hann sagði, at bónorðsför var til hennar. Hon mælti: „hversu svaraðir þú?" Hann segir henni þat. Hon mælti: „eigi mundi þetta fyrir hafa staðit ráðahagnum, ef ek hefða ráðit". Hann svarar: „ertú þessa mjök fús?" Hon svarar: „fyrir þat mun gánga, því at ek hefi þá metnaðargirnd, at eiga hinn bezta manninn ok hinn göfgasta soninn með honum, er á Íslandi mun fæðast, þyki mèr eigi úráðligt at gera eptir þeim". Hann mælti: „ekki hafa þín ráð lítið mátt hèr til". Síðan var eptir þeim riðit. Nú segir Þorvaldr, at hann kveðst ætla, at eigi mundi þat viðnema ráðahagnum, þótt eigi rèðist hann norðr þángat. Ísleifr lèzt þessum málum vel kunna; síðan var hon gipt honum, ok bygðu síðan í Skálaholti, ok áttu at sonum Gizur ok Teit ok Þorvald, ok váru allir [göfgir

---

1) frá [ v. í 554.
2) frá [ Fnjóskadal 554, ok er það rángt.
3) frá [ áleiðis, en Þorvaldr gekk þángat er Dalla sat, dóttir hans, 554.

menn[1], þó at einn bæri af öllum. Gizurr var mikill maðr ok sterkr. Síðan var þat ráð landsmanna, at hafa biskup nokkurn yfir sèr, ok var til þess valinn Ísleifr, ok fór hann utan, ok kom út ok var í Skálaholti, en Dalla vildi búa á hálfu landi. Þá var um óhægindi at leika með mönnum, at skipta [fjám með þeim[2]. Tíundir voru þá öngar, en tollar váru þá til lagðir um land allt[3]. Ísleifr var hinn ágætasti maðr í sínum háttum; með honum var uppfæddr Jón Ögmundarson, er síðan var biskup á Hólum[4], ok mælti hann þeim lofsorðum til Ísleifs, at jafnan þá er menn

1) frá [ þjóðmenni, 554.

2) frá [ um fjárhagi, 554.

3) það er bágt að segja, til hvers litið er á þessum stað; það er víst, að tíund var ekki lögtekin fyr en 1096, um daga Gizurar, svo það er rètt, en tollar voru þá engir á Íslandi, svo vèr til vitum, nema svo sè kallað fè það, er menn gáfu, eðr hètu að gefa, um allt land til stólsins, þegar hann var stofnaðr. Í orðunum á þó að öllum líkindum að liggja það, að afvinnur voru miklar á staðnum, en tekjur bæði litlar og greiddust illa. Landsmenn voru og biskupi mjög erviðir að sögn Húngrvöku. Adam af Bremen segist þó öðruvísi frá; hann segir svo: „Biskup sinn hafa þeir (Íslendíngar) fyrir konúng, og fer allr lýðr að bendíngum hans, og halda það fyrir lög sem hann skipar af guðs hálfu, eðr eptir ritníngum, eðr eptir siðvenjum annarra þjóða". Þess þarf varla að geta, að þetta mun vera oflof. Um Ísleif segir Adam á sama stað: „Að bæn landsmanna vígði hann (Aðalbert erkibiskup) hinn helgasta mann, að nafni Ísleif; var hann sendr af því landi til páfa, og var honum haldið þar um hríð í mesta yfirlæti, og lærði á meðan það er hann mætti heilsusamliga kenna lýð þeim, er nýliga hafði snúizt til Krists". Adam af Br. IV, 35.

4) Í sögu Jóns biskups helga (A. M. 234 folio) segir frá þessu mjög svipað sem hèr, þannig: „Nú verðr ok skyldugt at segja nokkut frá því, hversu hinum helga Jóni biskupi hafði virzt Ísleifr biskup fóstri hans, því at svá segja hygnir menn ok fróðir, at þat varð Jóni biskupi á munni jafnan, þá er hann var staddr hjá því, er menn ræddu um sín á millum um þá menn, er bezt þættu at sèr vera: ‚Ísleifr biskup fóstri minn', kvað hann, ‚(var) allra manna vænstr, allra manna snjallastr, allra manna beztr'. Þá svöruðu þeir biskupi, er áðr höfðu við talazt: ‚hverr gat nú, herra, Ísleifs biskups?' Enn helgi Jón biskup svaraði: ‚hans skal ek ávallt geta, er ek heyri góðs manns getið'. Nú var þetta fagr vitnisburðr Ísleifi biskupi, er heilagr maðr skyldi svá ræða um hann, en virðing mikil Jóni biskupi, er slíkr maðr skyldi hafa fóstraðan hann".

Í sögu Gunnlaugs múnks, cap. 6., stendr svo: „Svá er ek skyldugr at segja nokkut frá því, hvílíkr maðr Jóni biskupi hafi vorðit Ísleifr fóstrfaðir hans, því at svá segja þeir menn í frá, sem kunnigt var um, at

ræddu um þá menn, er vænir voru eðr hagir[1], eðr at öðru vel[2]: „svá var Ísleifr fóstri minn, hann var manna vænastr, manna hagastr[3], allra manna beztr". Þá mæltu þeir: „hverr gat nú hans?" — Hann svarar: „þá kemr mèr hann í hug er ek heyri góðs manns getið, hann reynda ek svá at öllum hlutum".

---

Þat varð Jóni biskupi jafnan á munni, er hann var staddr hjá því, er menn ræddu sín á meðal um þá menn, er bezt þóttu vera at sèr gjörvir. ‚Ísleifr biskup meistari minn', sagði hann, ‚var allra manna vænstr, manna snjallastr ok bezt at sèr um alla luti'. Þeir svöruðu þá, sem hjá voru, eptir spyrjandi: hverr þá hefði getið Ísleifs biskups. Hinn heilagi Jóhannes svaraði: ‚hans skal ek í hvert sinn at góðu geta, þá er ek heyri góðs manns getið'. Má af þvílíku marka, hversu góðr ok mikilsháttar Ísleifr biskup hefir verit, er svá heilagr maðr bar honum svá sæmiligan vitnisburð".

1) hyggnir, 554.
2) um sik, b. v. 554.
3) hygnastr, 554.

## HÈR BYRJAR HÚNGRVÖKU.

Bækling þenna kalla ek Húngrvöku[1], af því at svá mun mörgum mönnum ófróðum, ok þó óvitrum, gefit vera, þeim er hann hafa yfir farit, at miklu[2] mundu gjör vilja vita upprás ok æfi þeirra merkismanna, er hèr[3] verðr fátt frá sagt í þessari skrá; en ek hefi þó náliga öllu við slegit, at rita þat sem ek hefi í minni fest; hefi ek af því þenna bækling saman settan, at ei falli mèr með öllu ór minni þat er ek heyrða af þessu máli segja hinn fróða mann Gizor Hallsson, ok enn nokkura menn aðra merkiliga hafa í frásögur fært. Þat ber ok annat til þessa rits: at teygja til þess únga menn, at kynnast várt mál, at ráða þat er á norrænu er ritað: lög, eðr sögur, eðr mannfræði. Set ek af því heldr þetta á skrá en annan fróðleik, þann er áðr er á skrá[4] settr, at mèr sýnist mínum börnum eðr öðrum úngmennum[5] vera í skyldasta lagi at vita, [hvernig framast eðr[6] með hverjum hætti at hèr hefir magnazt kristnin, ok biskupsstólar settir verit á Íslandi, ok vita síðan hverir merkismenn biskuparnir hafa verit, er hèr hafa verit, ok ek ætla nú frá at segja. En þat skyldar mik til at rita[7], hversu staðrinn hefir eflzt ok magnazt í Skálaholti, eðr um þeirra manna ráð, er hann hafa varðveittan; en ek hefi með guðs miskun alla gæfu af þeim hlotið þessa heims. En mik varir, at vitrum mönnum mun þikja bæklíngr þessi jafnlíkr sem hornspónar efni, af því at þat er ófimligast meðan vangjört er, [en þá[8] allfagrt, er tilgjört er. En þeir menn, er svá henda gaman at þessum bæklíngi, mega þat ánýta at skemta sèr við, ok þeim öðrum, er lítilátliga vilja til hlýða, heldr en at hætta til,

---

1) Handritin eru A. M. folio 204-211, og 372-381 (4to), öll á pappír, nema 379, sem er ritað á bókfell 1654, og er það hèr lagt til grundvallar nema að stafsetníngu til.

2) mr̄, b. v. 379, og er ofskrifað. 3) verit hafa, ok (fátt v. frá s.), b. v. 378.

4) skrár, 378. 5) úngum mönnum, 378.

6) frá [ þannig 205. 206. 209; það eður forminnast huorninn eður, 379, (rángt).

7) leiðrètt; vita, 379. 8) frá [ leiðrètt; þá er, 379.

hvat annat leggst fyrir þá, er áðr þikir daufligt; því at margr hefir þess raun, ef hann leitar sèr skammrar skemtanar, at þar kemr eptir á laung áhyggja. Sýnist mèr þar ráð, at sá hafi af þessum fróðleik, er ritaðr er, [þat er[1] bezt gegnir, ok hann hendi[2] svá gaman at, ok varðveiti þat eptir á, er sjálfum mun í geð falla, en felli þat niðr er honum fellr eigi í skap. En þeim sýnist mèr þat bezt sama, er bæta vilja um þat, er áðr þikir hèr ómerkiliga sagt vera, ok þeir vita annat sannara, heldr en þeir færi þetta eðr hafi at spotti, en vili eigi eðr hafi eigi faung á um at bæta. En því hefi ek jafnat þessu til hornspónsins, at mèr sýnist forkunnar efni í vera, en ek veit at mjök þarf um at fegra, ok skal ek þaðan at um vera, meðan ek em til fær, um at bæta. Verð ek ok af því skyldugr til, at þat mun af mínum völdum ok vanrækt, ef þat er nokkut í þessu máli, sem rángt reynist, þat er ritað er, en eigi þeirra manna, er ek þikjumst þenna fróðleik eptir hafa. En þat er forn orðskviðr, at „hús skal hjóna fá"[3]; segi ek af því fyrst hversu bærinn hefir byggzt í Skálaholti, en síðan frá þeim, er staðinn hafa varðveittan[4].

2. Ketilbjörn hinn gamli bjó á Mosfelli ok átti margt barna. Teitr hèt son Ketilbjarnar. Hann var sá gæfumaðr, at hann bygði þann bæ fyrstr, er í Skálaholti heitir, er nú er allgöfugastr bær á öllu Íslandi. Sú var önnur gæfa hans, at hann átti at syni Gizur hinn hvíta, er með kristni kom til Íslands, ok bjó í Skálaholti eptir Teit föður sinn. Gizurr hinn hvíti átti iij konur. Fyrst átti hann Halldóru, dóttur Hrólfs [or Geitlandi[5]; þeirra dóttir var Vilborg, er átti Hjalti Skeggjason. Gizurr átti síðan eyverska konu, er þórdís hèt, ok var þeirra son Ketill, er átti þorkötlu Skaptadóttur[6]. Gizurr átti síðan þórdísi, dóttur þórodds goða á Hjalla í Ölfusi, ok áttu þau margt barna[7]; þeirra son var Ísleifr; honum fylgdi Gizurr utan, ok seldi hann til læríngar abbadísi einni, í borg þeirri, er Her-

1) bætt við frá [ en því er óvart sleppt í 379.
2) leiðrètt; — hendir, 379, og rètt á eptir: varðveitir.
3) hjónum fá, 378, 205 og flest hin.
4) 204 – 211 hafa öll þenna prologum, nema 208.
5) þannig 210 (sbr. Landn. 1. 12); hin hafa: „Gautlandi".
6) þessarar miðkonu Gizurar er hvergi getið nema hèr, það vèr vitum.
7) sbr. Landn. (1843) bls. 318 athgr. 5.

furða heitir. Ísleifr kom svá til Íslands, at hann var prestr, ok vel lærðr; hann kvángaðist ok fèkk Döllu þorvaldsdóttur[1] or Ási[2]. þau gátu þrjá sonu: Gizurr hèt son þeirra, er síðan var biskup; annarr hèt Teitr, er bjó í Haukadal; þriði hèt þorvaldr, er bjó í Hraungerði, mikill höfðíngi. Gizurr hvíti lèt gjöra hina fyrstu kirkju í Skálaholti, ok var þar grafinn at þeirri kirkju; en Ísleifr bjó í Skálaholti eptir föður sinn. Ísleifr var vænn maðr at áliti ok vinsæll við alþýðu, ok alla æfi rèttlátr ok ráðvandr, gjöfull ok góðgjarn, en aldrei auðugr. En er Ísleifr var fimmtugr at aldri, ok Ísland hafði eigi fjarri[3] því at lengd verit kristið, þá var hann beðinn til utanferðar, ok valinn[4] til biskups af allri alþýðu á Íslandi. Síðan fór hann utan ok suðr til Saxlands, ok sótti heim Heinrek keisara Konráðsson, *ok gaf honum hvítabjörn, er kominn* var af *Grænlandi*, ok var þat dýr hin mesta gersemi; en keisarinn fèkk Ísleifi brèf sitt með innsigli um allt veldi sitt. Síðan fór hann til fundar við Leonem páfa[5]. En páfinn sendi brèf sitt Aðalberto erkibiskupi í Bremen[6], at hann skyldi gefa Ísleifi biskupsvígslu á

1) þannig hin handritin; þóroddsdóttur, 379.

2) þannig öll handrit Húngrvöku. Í þætti Ísleifs í Flateyjarbók segir að *þorvaldr byggi á Ásgeirsá í Víðidal, og þat vitum vèr af Grettlu og fleiri* sögum, að þeir bræðr Kálfr ok þorvaldr bjuggu þar (Grettis s. cap. 15); þó getr verið, að þorvaldr hafi síðan búið að Valdarási í Víðidal, en hitt er fjarri, að það hafi verið í Fnjóskadal (sbr. þátt Ísleifs að framan).

3) fyrri, 379, misskrifað. 4) vald², 379.

5) Leo níundi var páfi 1048 – 1054, en Victor annar þar næst 1055—1057. Á vígsluári Ísleifs getr varla leikið vafi. Ari þekti hann í barndómi sínum og ritaði æfi hans eptir sögu Teits sonar hans, og gat því ekki skjátlazt áratalan, hvað lengi hann var biskup, og að Ísleifr andaðist 1080 sýnir bæði messudagrinn, er hann andaðist, og svo aldr Ara, sem þá var 12 vetra, svo ekki er um að villast annað ár en 1056, en þá var Victor hinn annar páfi. En að Leo er tilnefndr mun koma til af því, að hann var páfi, eða lát hans hafði að minnsta kosti ekki frètzt til Íslands, þá er Ísleifr fór utan til vígslu. Að honum muni hafa dvalizt í ferðinni, má sjá af orðum Adams af Bremen IV, 35; „var hann (Ísleifr) sendr af því landi (Íslandi) til páfa, var honum haldið þar um hríð (aliquamdiu retentus est) í mesta yfirlæti". það er og líkligt, að hann hafi dvalizt við hirð keisara, sem hann hafði fært dýrgrip. Heinrekr keisari andaðist 1056. þess ber að geta, að það er rángminni Ara, er hann nefnir Leo sjöunda, því hann var þá laungu dauðr.

6) Aðalbert varð erkibiskup 1043. Til er brèf frá Victor ij. til Aðalberts frá 1055, þar sem hann selr honum vald yfir öllum

hvít-drottinsdag, ok kveðst páfinn þess vilja vænta með guðs miskun, at þá mundi lánggæðust tign vera at þeim biskupsdómi, ef hinn fyrsti biskup væri vígðr til Íslands á þeim degi, er guð prýddi alla veröld í gipt heilags anda; ok var Ísleifr vígðr til biskups á þeim degi, at boði páfa, af Aðalberto erkibiskupi í Bremen, xiiij[1] nóttum fyrir Columba messu; ok fèkk erkibiskup honum alla þá reiðu, er hann þurfti at hafa með biskupstign, eptir því sem páfinn sendi orð til, ok keisarinn. Síðan fór Ísleifr biskup þat sama sumar[2] til Íslands, ok setti biskupsstól sinn í Skálaholti. Hann hafði nauð mikla á marga vegu í sínum biskupsdómi, fyrir sakir óhlýðni manna; má þat af því merkja nokkut, í hverjum nauðum hann hefir verit fyrir sakir ótrú ok óhlýðni, ok ósiðu sinna undirmanna: at lögmaðrinn[3] átti mæðgur tvær; ok þá lögðust sumir menn út í víking ok á herskip, ok mörg endemi tóku menn þá[4] til önnur, þau er nú mundi ódæmi þikja, ef menn henti slíkt. Um daga Ísleifs biskups kómu út biskupar af öðrum löndum, ok buðu margt linara en Ísleifr biskup; urðu þeir því vinsælir við vonda menn, þar til at Aðalbertus erkibiskup sendi brèf til Íslands ok bann-

biskupum á Norðrlöndum, og er Ísland talið þar með; það má vel vera, að Ísleifr hafi haft þetta brèf með sèr, er hann kom sunnan. — Aðalbert andaðist 17. Marts 1072.

1) þannig leiðrètt, í öllum Húngrvöku handritum stendr iiij; árið 1055 var Hvítasunna 5 nóttum fyrir Columbamessu (Columbam. = 9. Juni) en það ár getr ekki komið til greina, því það kemr ekki heim við neinn reikníng, en árið 1056 bar Hvítasunnu 14 nóttum fyrir Columbamessu (þ. e. 26. Mai), en á fjórða dag fyrir Columbamessu hafði þá ekki Hvítasunnu borið síðan 1020, svo talan „iiij" er raung, og liggr þá næst af öllum tölum að það sè ritvilla fyrir xiiij, heldr en rángminni, svo að x-ið sè fallið framan af (iiij fyrir xiiij); áþekk ritvilla finnst síðar um Klæng biskup (ij fyrir vij); þetta hefir og verið hald Árna Magnússonar; á eitt Húngrvöku handrit hefir hann ritað á spázíuna á þessum stað: „lege (les) 14" og í 379 hefir hann einnig ritað „xiiij" á spázíu. Vèr höfum því fyrir víst, að Ísleifr hafi verið vígðr 14 nóttum fyrir Columbamessu 1056, á Hvítasunnu.

2) þetta er ekki rètt. Ari fróði segir, að hann væri í Noregi hinn næsta vetr eptir, og sama segir í Jóns sögu helga eptir Gunnlaug múnk, og kæmi hann út vetri eptir óaldarvetr hinn mikla, eðr 1057, var því Ísleifr 24 vetr biskup alls, en 23 svo, að hann væri hèr á landi. Sama er og í lögsögumannatali (Landnámab. í Íslend. sögum I, bls. 337).

3) það er að líkindum Gellir Bölverksson, sem hèr er vikið að.

4) þu, misskrifað, 379; þau, Kh. útgáfan.

aði mönnum alla þjónustu af þeim at þiggja, ok kvað þá suma vera bannsetta, en alla í óleyfi sínu farit hafa[1].

Um daga Ísleifs biskups kom út sá biskup[2], er Kolr[3] hèt, ok andaðist hann hèr. Hann var grafinn í Skálaholti, ok var sú kirkja hèr á landi fyrst prýdd í tigins manns grepti, er at rèttu kallast andlig móðir allra annarra vígðra húsa á Íslandi. Ísleifr biskup hafði ávallt óhægt bú fyrir penínga; voru faung lítil, en aðsókn mikil, ok var af því honum ervitt búit. Margir menn seldu honum sonu sína til læríngar, ok váru þeir síðan góðir kennimenn; en tveir urðu biskupar: Kolr[4] í Vík austr í Noregi, ok Jón biskup at Hólum. En er Ísleifr hafði biskup verit xxiiij vetr, þá tók hann sótt [um alþíngi[5], um messu, svá fast ok skjótt, at hann varð þegar at fara or messuklæðunum, ok fór þá í messuklæðin Guthormr prestr Finnólfsson ór Laugardal at ráði biskups, ok tók þar til messunnar er biskup hvarf frá, ok lauk messunni. Síðan var biskup færðr heim í Skálaholt, ok var gjört rúm hans í kirkju. Menn leituðu þá eptir heilræðum við hann, bæði um biskupskosníng, ok þá hluti aðra, er þeim þótti at skyldu þurfa um at tala; en hann lagði þau ráð til, at þeir skyldu biðja Guthorm prest til utanferðar, ok taldi hann bezt til fallinn af þeim mönnum, er þá váru samlendir; en sagði þó, at þeim mundi seint auðit biskups á Íslandi, ef þeir hèti eigi því, at vera við hann sæmiligar, er síðar kæmi til, en þeir hefði við hann verit.

Hinn efra hlut æfi Ísleifs biskups bar marga hluti honum til handa, þá er mjök birti gæzku hans fyrir þeim mönnum, er þat kunnu at skynja, af því at margir menn váru þeir óðir færðir honum til handa, er heilir gengu frá hans fundi. Mungát

---

1) þessara biskupa getr Ari í Íslendingab. cap. 8: „Enn kómu hèr aðrir v, þeir er biskupar kváðust vera: Örnólfr ok Goðiskálkr ok iij ermskir: Petrus ok Abraham ok Stephanus". þessir hafa allir komið út eptir 1050, því þá var Aðalbert orðinn legáti á Norðrlöndum.

2) þetta orð vantar í 379.

3) Kols biskups er getið í Víga-Glúmssögu; en varla eru neinar líkur til að það geti verið satt, að hann hafi biskupað Víga-Glúm, sem þá mun hafa verið andaðr fyrir laungu.

4) Ari fróði nefnir hann Koll; í Landn. 5. 12 segir, að þeir Gizur biskup væri skyldir að öðrum og fjórða. Í biskupatali í Stokkhólmsbók (Nr. 5. folio) eru ekki taldir Víkverjabiskupar.

5) á alþíngi, 378. 210. 380. 205.

blezaði hann, þat er skjaðak[1] var í, ok var þaðan frá vel drekkanda, ok margt annat þessu líkt bar honum til handa, þó ek greini nú eigi svá sèr hvat, sem hann gjörði, ok hinum vitrustum mönnum þóttu hinir mestu kraptar fylgja.

Ísleifr var vígðr til biskups, þá er hann var fimmtugr[2] at aldri; þá var Haraldr Sigurðarson konúngr yfir Noregi. Ísleifr biskup andaðist á drottinsdegi í kirkju at Skálaholti, at miðjum degi, iij[3] nóttum fyrir Seljumannamessu; þá hafði hann biskup verit xxiiij vetr, ok var hann grafinn hjá leiði Kols biskups. Þá var liðit frá híngatburði Christi MLXXIII ár[4].

3. Þess er getið, at biskupar kómu út híngat til Íslands um daga[5] Ísleifs biskups, en Friðrekr einn kom áðr út, sá er sögur sè frá görvar. En þessir hafa svá út komit, at menn hafa helzt skyn á vitað: Jón biskup hinn írski, ok hafa þat sumir menn fyrir satt, at hann færi síðan til Vindlands, ok sneri þar mörgum mönnum til guðs, og var síðan tekinn ok barðr, ok höggnar af bæði hendr ok fætr, ok höfuðit síðast, ok fór með þeim píníngum til guðs. Hinn þriði biskup kom

---

1) skjaðak, (af: að skaða) eitr, illgresi (K. skuggsjá og Þorlákss. helga og víðar, sbr. bjanak, krafak, eng. *crowd*, og fleiri orð, sem eru eins mynduð.

2) sama segir Ari, og er því Ísleifr fæddr 1006; en 7 ára villan í Húngrvöku mun vera komin af því, að þar telr svo til, sem Ísleifr væri fæddr sama ár og kristni var í lög tekin, en eptir reikníngi Ara var það 999, verðr eptir því vígsluár Ísleifs 1049, og liggr það ár til grundvallar fyrir öllu Húngrvöku tímatali.

3) þannig leiðrètt úr „iiij nóttum", sem handritin hafa, því Seljumannamessa er 8. Juli og andlátsdagr Ísleifs er talinn 5. Juli í ártíðarskrá íslenzkri; Ari fróði segir og, að hann andaðist á drottinsdag, vj nóttum eptir Pètrs messu og Páls, og verðr það 5. Juli; stendr það heima, að einmitt þetta ár (1080) bar þenna dag uppá sunnudag, en Seljumannamessu bar þá á miðvikudag.

4) á að vera 1080. — Það er merkilegt, að Húngrvaka telr allt 7 árum rèttum fyr en á að vera, og heldr því út í gegn, og verðr ávallt að hafa það í huganum. Þær sögur, sem telja eins og Húngrvaka, eru: 1. Þorláks saga hin eldri. 2. Pálssaga biskups, en báðar þessar sögur munu vera eptir sama mann og Húngrvaka. 3. Saga Jóns helga eptir Gunnlaug múnk. 4. Fornt brot af Þorlákssögu á latínu (3 blöð) ritað um 1200 eða litlu síðar í Skálholti að líkindum. Messudagarnir, sem ætíð ber saman við hið almenna tal, sýna, að þetta er ekki nema einber reikníngr, svo og sýna það viðburðirnir, sem urðu í tíð hvers biskups að sögn Húngrvöku sjálfrar.

5) „um daga" er hèr sama og „um æfi Ísleifs"; þessir útlendu biskupar eru nefndir í Íslendíngabók, og í biskupatali í Stokkhólmsbók.

til Íslands Bjarnvarðr Vilráðsson, er kallaðr var hinn bókvísi, ok sumir menn segja at af Englandi væri, ok hefði[1] fylgt Ólafi hinum helga, ok hafi síðan at[2] hans ráði farit til Íslands. Hinn fjórði var Rúðólfr biskup, er sumir segja Úlfr hèti, ok væri kynjaðr af Rúðu or Englandi[3]; hann var XIX vetr á Íslandi ok bjó á Bæ í Borgarfirði. Fimmti kom til Íslands Henrich biskup, ok var tvá vetr á Íslandi[4]. Hinn vj. var Bjarnharðr[5] biskup hinn saxlenzki, ok var með Magnúsi konúngi hinum góða, Ólafssyni. Hann fór síðan til Íslands ok var hèr XX vetr. Hann hafði tvá bústaði í Vatnsdal: at Giljá[6] ok Steinsstöðum. Hann vígði marga hluti, þá er mörg merki hafa á orðit, kirkjur ok klukkur, brúr ok brunna, vöð ok vötn, björg ok bjöllur, ok þikja þessir hlutir hafa birt sanna tign hans gæzku. Bjarnharðr var á Íslandi meðan Haraldr konúngr Sigurðarson var í Noregi, því at þeir váru eigi samsáttir. Síðan fór hann utan, ok til handa Ólafi konúngi kyrra, syni Haralds, ok síðan fór hann til Róms at bæn konúngs, ok friðaði fyrir önduðum. En er hann kom aptr, skipaði konúngr hann biskup í Selju[7], en síðan fór hann í Björgvin, ok andaðist þar, ok er einmælt[8] at hann hafi verit hinn mesti merkismaðr.

4. Á dögum Ísleifs biskups urðu mörg ok stór tíðindi. Þá var í Noregi fall hins helga Ólafs konúngs; þá varð ok andlát Magnús konúngs hins góða, sonar Ólafs konúngs, ok andaðist hann í Danmörk, en lík hans var fært norðr í Þrándheim til Niðaróss. Þeir önduðust báðir áðr en Ísleifr var biskup, en síðan hann var biskup fèll Haraldr konúngr Sigurðarson á Englandi, ok litlu síðar Haraldr Guðinason; þá andaðist Magnús konúngr, sonr Haralds Sigurðarsonar, ok Sveinn Úlfsson Dana-

1) bundið h˜fði í 379; sumir lesa: hafði.

2) þannig hafa sum handritin; af, 379.

3) Rúða (Rouen) er í Nordmandi; það er hætt við að þetta sè tilbúníngr úr nafninu Hróðúlfr (Rudolph). Nordmandi lá lengi undir Englands konúnga, en telst þó aldrei með Englandi.

4) allir þessir 5 biskupar vóru hèr áðr Ísleifr yrði biskup.

5) þannig Íslendíngabók; Húngrvaka hefir: Bjarnvarðr; hann hefir einn verið hèr út meðan Ísleifr var biskup.

6) leiðrètt eptir hinum; Gili, 379.

7) 379 ritar: Seilu; í biskupatali í Stokkhólmsbók er Bjarnardus talinn fyrsti biskup í Selju.

8) þannig í ágripi Húngrvöku í Skarðsárbók; eñ mælt, handritin.

konúngr ok þorkell Eyjúlfsson, Gellir Bölverksson, þorsteinn Kuggason, Snorri goði ok aðrir mikilsháttar menn[1].

5. Gizurr, son Ísleifs biskups, var fæddr í Skálaholti, en hann var lærðr á Saxlandi, ok vígðr til prests þegar á únga aldri. En er hann kom út til Íslands, þá kvángaðist hann, ok fèkk Steinunnar þorgrímsdóttur[2], er[3] áðr hafði átta þórir Broddason, ok bjuggu þau fyrst at Hofi í Vápnafirði. Gizurr var mikill maðr vexti ok vel bolsvexti, bjarteygðr ok nokkut opineygðr, tíguligr í yfirbragði ok allra manna góðgjarnastr, rammr at afli ok forvitr. Gizurr var algjörr at sèr um alla luti, þá er karlmaðr átti at sèr at hafa; hann var farmaðr mikill hinn fyrra hlut æfi sinnar, meðan Ísleifr lifði, ok var jafnan mikils virðr, hvar sem hann kom, ok var tignum mönnum á hendi, er hann var utanlands. Haraldr konúngr Sigurðarson var þá konúngr í Noregi, ok mælti hann þeim orðum við Gizur, at hánum kvaðst svá sýnast til, at hann mundi bezt til fallinn at bera hvert tignarnafn sem hann hlyti. Til Róms fóru þau bæði hjón, áðr þau færi til Íslands. Gizurr var eigi samlendr þá hans faðir andaðist, og kom hann út annat sumar[4] fyrir alþíngi í Rángár ósi, ok var á skipi nokkurar nætr, ok vildi eigi til þíngs ríða, meðan enginn var til biskups kjörinn á þínginu. En höfðíngjarnir báðu Guthorm prest til utanferðar, eptir því sem þeim þótti Ísleifr biskup hafa helzt ákveðit[5]; ok varð þat um síðir, at hann játaði því, ef eigi þætti önnur faung vildari á vera. En er Gizurr spurði þat, at Guthormr prestr var ráðinn til utanferðar, þá reið hann til þíngs. En er Gizurr kom til þíngs, þá gekk Guthormr prestr á hlaðit fyrir kirkju, ok lýsti því fyrir alþýðu manna, at enginn kostr væri á hans utanferð síðan Gizurar var við kostr. Sneri þá alþýðan at Gizuri

1) Dauða ár þessara eru: Ólafr helgi 1030; Magnús góði 1047 (25. Octbr.); Haraldr Sigurðarson 1066 (28. Sept.); Haraldr Guðinason 1066 (14. Octbr.); Sveinn Úlfsson 1076; þorsteinn Kuggason 1026 (haust); Snorri goði 1031 (vor); þorkell Eyjúlfsson 1026 (skírdag). Gellir Bölverksson tók fyrst lögsögu 1054, og hafði níu sumr; síðan Gunnar hinn spaki og þar eptir Kolbeinn Flosason; þá hafði Gellir aptr lögsögu þrjú sumr, 1072-1074, og mun hann hafa andazt á því ári, því tala Melabókar og eins annáls, að hann hafi verið lögsögumaðr 1080, kemr ekki saman við tölu Ara, og enda ekki við Melabók sjálfa, og mun því raung vera.

2) sbr. Landn. 4. 7. 3) leiðr.; og, 379. 4) þ. e. ár 1081.

5) þannig sum hinna handritanna; áformað, 379.

ok báðu hann utanferðar, en hann taldist undan á marga vegu; en þó kom þar um síðir, at hann játaði at gánga undir þann vanda; en allir höfðíngjarnir hètu honum, at halda hlýðni um öll guðs boðorð, þau er hann byði, ef honum yrði biskups vígslu auðit. Síðan fór hann utan þat sama sumar. En er hann kom til Saxlands, þá var allt embætti tekið af Liemaro[1] erkibiskupi. Fór hann þá á fund Gregori páfa[2] ok sagði honum allan málavöxt sinnar ferðar, ok svá vandræði þau, sem um var at vera á marga vega. En páfinn sendi þá Gizur til handa Harðvíg[3] erkibiskupi í Magaðaborg á Saxlandi, ok bauð at hann skyldi gefa honum biskupsvígslu, en hann tók við honum með mikilli sæmd ok virðíngu, ok vígði hann til biskups iiij nóttum fyrir Máríumessu hina síðari[4]. Hann var þá fertugr at aldri, ok fèkk erkibiskup honum þat allt, er hann þurfti bráðast til nauðsynja. Eptir þat fór Gizurr biskup út til Íslands, ok tók öll alþýða feginsamliga við honum. Hann tók tign ok virðíng svá mikla, þegar snemmendis biskupsdóms síns, ok svá vildi hverr maðr sitja ok standa, sem hann bauð, úngr ok gamall, sæll ok fátækr, konur ok karlar, ok var rètt at segja, at hann var bæði konúngr ok biskup yfir landinu meðan hann lifði. Hann hafði eigi allt land í Skálaholti til ábúðar fyrst nokkra stund, af því at Dalla móðir hans vildi búa á sínum hlut landsins meðan hon lifði. En er hon var önduð ok biskup hlaut allt land, þá lagði hann þat allt til kirkju þeirrar, sem þar er í Skálaholti, ok hann sjálfr hafði gjöra látið, þrítuga at lengd, ok vígði Pètri postula; ok mörg gæði önnur lagði Gizurr biskup til þeirrar kirkju, bæði í löndum ok lausafè, ok kvað á síðan, at þar skyldi ávallt biskupsstóll vera, meðan Ísland er byggt ok kristni má haldast. Gizurr biskup gaf til kirkju í Skálaholti purpurahökul hvítan, er þar hefir lengi síðan beztr verit, ok margar gersemar aðrar.

6. Þessir menn váru samtíða Gizuri biskupi: Sæmundr prestr í Odda, er bæði var forvitra ok lærðr allra manna bezt. Annarr

---

1) leiðrètt; Lienardo, 379.

2) Gregorius hinn sjöundi (Hildibrandr) var páfi 1073—1085.

3) Haddung, 378. 210.

4) Vígsludagr Gizurar er því 4. Septbr. Nú kemr það ágætliga við, að einmitt árið 1082 bar 4. sept. uppá sunnudag (hinn 12. eptir trinitatis). Vetrinn næsta eptir var Gizurr á Gautlandi, og kom út 1083.

Markús Skeggjason, lögsögumaðr[1], er var hinn mesti spekíngr ok skáld[2]. Þeir báru ráð til samans, ok sóttu at ráði höfðíngja, at þat yrði lögtekit, at menn tíunduðu fè sitt á hverjum misserum, ok allan lögvöxt fjár síns, svá sem í öðrum löndum er títt, þar sem kristnir menn byggja. En með ráðleitni þeirra ok fortölum spakligum urðu þau málalok, at menn[3] gengu undir tíundar gjaldit, ok skyldi síðan skipta í fjóra staði: einn hlut til handa biskupi, annan til kirkna, þriðja hlut skyldu hafa kennimenn en fjórða hlut fátækir; ok hefir eigi annarr slíkr grundvöllr verit auðráða ok hæginda í Skálaholti, sem tíundargjaldit, þat er tillagðist þá fyrir vinsæld ok skörúngskap Gizurar biskups[4]. Steinunn Þorgrímsdóttir hafði búsforráð í Skálaholti fyrir innan stokk, meðan Gizurr biskup rèð fyrir stólnum, en Dalla meðan Ísleifr biskup lifði. En er Gizurr biskup hafði setið at stólnum XX[5] vetr, eðr því nær, þá felldu Norðlendíngar bæn at honum, at þeir skyldi ná at hafa biskup einn sèr[6], ok setja þar biskupsstól annan í Norðlendínga fjórðúngi, allan at aftektum, og væri tveir biskupsstólar á Íslandi, ok töldu[7] þess ván, at annathvárt mundi ván vera, at sjaldan eðr aldrei mundi vera biskupslaust á landinu, ef tveir væri biskupsstólarnir; ok þá bæn veitti Gizurr biskup með guði Norðlendíngum; ok var síðan valinn[8] til biskups af guði ok góðum mönnum Jón

1) lögsagnarmaðr, 379.

2) Markús Skeggjason var vinr Ara fróða, og eptir hans fyrirsögn ritaði hann lögsögumannatal sitt, mátti því Ara vera kunnigt um hann, og dauða hans, en Ari segir, að hann tæki lögsögu vetri síðar en Gizur biskup kom út, eðr 1084, og hefði 24 ár lögsögu, eðr 1084—1107, þegar bæði árin eru meðtalin, en hann andaðist 14. octbr. 1107; sama segja og allir gamlir annálar, og kemr enn fremr öldúngis heim við aldr Gizurar biskups, því eptir Markús hafði Úlfhèðinn lögsögu 9 ár (1107—1116), en hið fyrsta ár Bergþórs var það þíng, er Gizurr biskup var veikr, og gat eigi komið til alþíngis, og Þorlákr var kosinn til biskups (1117). En í lögsögumannatali í Melabók og einum ómerkum pappírsannál er sagt, að Markús hafi andazt 1093, en þá kæmi Bergþórr (1093—99); þá er lögsögumannslaust eptir Melabók í 8 ár (1099—1107), þá Úlfheðinn (1107—1116), þá Bergþórr annað sinn. Tíundarlögin eru og beztr vottr þess, að Markús lifði framyfir 1093.

3) þeir, 379. 4) Tíund var lögtekin á Íslandi 1096.

5) á að vera 24 vetr, og svo segir Ari; þó er sjálfsagt, að Jón hefir farið utan sumarið 1105, því hann fór fyrst á fund páfa, áðr hann væri vígðr, og hefir vetrinn gengið til þess, og fram á vorið 1106.

6) leiðr.; so, 379. 7) töluðu, 379. 8) vald², 379.

prestr Ögmundarson, ok hann fór utan með brèfum Gizurar biskups, ok sótti síðan á fund Paschalis páfa[1], ok var hann vígðr til biskups af Özuri[2] erkibiskupi í Lundi í Skáney[3], ij nóttum fyrir Philippi messu ok Jacobi[4]. Jón fór síðan til Íslands ok setti biskupsstólinn at Hólum í Hjaltadal í Skagafirði.

Gizurr biskup hafði telja látið bændr á Íslandi, þá er þíngfararkaupi áttu at gegna, ok váru þá vij^c í Austfirðíngafjórðúngi, en x^c í Sunnlendíngafjórðúngi, ix^c í Vestfirðíngafjórðúngi, en í Norðlendíngafjórðúngi xii^c [5], ok var sá auðgastr at jöfnu manntali.

7. En er Gizurr biskup var orðinn hálfáttræðr[6], þá tók hann þýngd svá mikla, at hann [rètti ekki[7] or rekkju, ok hann var eigi þíngfærr. Hann sendi þá orð vinum sínum ok öllum höfðíngjum til alþíngis, at menn skyldu biðja Þorlák prest Runúlfsson til utanferðar. En hann taldist undan, bæði fyrir æsku sakir ok margra annarra hluta. En þó lauk svá því máli, at hann játaði at gánga undir þann vanda, ef þat væri biskups ráð. Síðan lèt Gizurr biskup búa ferð hans, unz hann var at öllu vel búinn, ok fèkk honum brèf sitt á fund Özurar erkibiskups. En sótt elnaði á hendr Gizuri biskupi, ok gjörðist hörð, ströng ok óhæg, ok fèllu stór sár á hörund hans allt at[8] beini, ok fylgðu stór óhægindi af verkjum. En er mjök tók at honum at sækja, ok menn þóttust heyra, at beinin gnötruðu við hræríngarnar, þá gekk Steinunn húsfreyja at sænginni, ok spurði, hversu þá skyldi mætti manns komit vera, er heita

1) Paschalis ij. var páfi 1099—1118.

2) Erkibiskupsstóll var settr í Lundi 1104, og var Özurr hinn fyrsti erkibiskup. Hann andaðist 1137.

3) Skaneyjum, 379.

4) í sögu Jóns helga eptir Gunnlaug múnk cap. 21. segir, að Jón væri vígðr á sunnudag, 2 nóttum fyrir Philippi messu og Jacobi (sem er 1. Mai). Árið 1106 bar einmitt messudag þeirra uppá þriðjudag, og vígsludag Jóns biskups (29. April) bar þá upp á 5. sunnudag eptir páska. Það er vitaskuld, að eptir tímatali Húngrvöku og Gunnlaugs ætti Jón að vera vígðr 1099, en messudeginum ber hèr, sem ávallt ella, saman við hið rètta tímatal.

5) sbr. Íslendíngab. cap. 10.

6) sumarið 1117, það sama sem Bergþórr tók lögsögu, hafði Gizurr fimm um sjötugt; kemr því aldr hans ágætliga heim við lögsögumannatal Ara; þetta sumar var lögtekið að rita lög að Hafliða Márssonar, og Þorlákr kosinn til utanferðar.

7) *frá [ reis ei, sum af handritunum og Kh. útgáfan.*

8) knè inn at, b. v. 378. 205.

skal fyrir manni. En biskup svarar: „því at eins skal[1] heita á guð, at aukist ávallt mín óbægindi, ef til þess er heitið meðan ek má standast; því at engin efni eru á því", segir hann, „at biðjast undan guðs bardaga, er náliga mun komit á enda æfi minnar, ok gengit áðr margt at sölu"[2]. Hann var ok þá atspurðr, hvar hann vildi láta grafa sik: en hann svaraði með viðrkenníngu ok miklu lítilæti: „grafi þèr mik hvergi í nándir föður mínum, því at ek em þess eigi verðr at hvíla honum nær". Síðan skipaði hann til alla hluti, eptir því sem hann vildi at væri, áðr en hann andaðist. Synir hans önduðust allir fyrr en hann, nema Böðvarr. Gróa, dóttir hans, lifði eptir hann, ok var gipt Katli Þorsteinssyni. Gizurr var vígðr til biskups þá [er] hann var fertugr at aldri; þá var Ólafr konúngr kyrri at Noregi, sonr Haralds Sigurðarsonar. Gizurr biskup andaðist þriðja dag viku, xij nóttum fyrir Columba messu[3]. Þá hafði hann verit biskup xxxvj vetr[4]. Hann var grafinn hjá föður sínum. Þá var liðit frá híngatburði Christi XI$^{c}$[5] ok XI ár[6]. Svá fèll mörgum manni nær andlát Gizurar biskups, at aldrei gekk or hug meðan þeir lifðu. En þat kom ásamt með öllum mönnum, at hans þóttust aldrei iðgjöld fá; þat hefir ok verit allra vitra manna mál, at hann hafi af guðs góðgipt ok sjálfs síns atgjörvi göfugastr maðr verit á Íslandi bæði lærðra [manna ok ólærðra[7].

8. Á því ári er Gizurr biskup andaðist þá andaðist ok Paschalis páfi, ok Baldvin Jórsalakonúngr; Arnhallr patriarchi í Jórsalaborg; Alexius Grikkjakonúngr; Philippus Svíakonúngr[8]. Þá

---

1) skyldu menn, 206. 210.

2) 205. 206. 210. 378 hafa „ösölu" (ósölu?), og mun þýða sama og: „að óhófi", sbr. *ödsel*; sbr. Páls s. cap. 12.

3) hinn 12. dag fyrir Kolumbamessu (5. kal. junii, sem Ari segir, eðr 28. Mai, bar einmitt árið 1118 uppá þriðjudag; í ártíðaskránni er og andlát Gizurar talið þenna dag.

4) þannig Ari fróði. Flest hin beztu handrit Húngrvöku hafa xxxv, og þannig hefir 379; sè það ekki ritvilla, þá kemr það til af því, at þar er talið frá útkomu Gizurar 1083.

5) x$^{c}$, 379; rángt, fyrir xi$^{c}$.

6) á að vera 1118, sem messudagrinn bezt vottar; í Jónssögu helga eptir Gunnlaug múnk stendr sem í Húngrvöku.

7) frá [ ok leikra, 210.

8) þannig Íslendingab. cap. 10; öll handrit Húngrvöku hafa hèr „Frakka-

gjörðist ok óveðrátta mikil. Þá var sú hríð um dimbildaga, at kennimenn máttu eigi flytja tíðir á kirkjum fyrir norðan land föstudaginn lánga, ok hóf upp knör[1] undir Eyjafjöllum, ok sneri á lopti[2] ok kom hvölfandi niðr, ok lítill hluti manna mátti taka corpus domini á páskadaginn, en sumir urðu úti. Önnur hríð kom þá menn riðu til alþíngis, ok drap fè manna fyrir norðan land; þá[3] braut ok kirkju á Þíngvelli, þá er Haraldr konúngr *Sigurðarson hafði við tilfengit. Þat sumar kom til Íslands* xxxv skipa, en viij komu til Noregs um haustið eptir Michaelis messu. Við þat óx svá mikill mannfjöldi á Íslandi, at þat var mikill óáransauki í mörgum hèruðum. Svá hugðist at hinum vitrustu mönnum, at svá þótti drjúpa Ísland eptir fráfall Gizurar biskups, sem Rómaborgarríki eptir fall Gregori páfa. En fráfall Gizurar biskups bendi [til ættar[4] um öll óhægindi á Íslandi af óáran, bæði í skipabrotum ok manntjóni, ok fjárskaða, er því fylgði, en eptir þat ófriðr ok lögleysur, ok á þat ofan manndauði sá um allt landit, at enginn hafði slíkr orðit síðan landit var byggt. Tveimr vetrum eptir lát Gizurar biskups varð *Hafliði Másson sárr á alþingi*[5], ok varð eigi um málit dæmt þat sumar.

9. Böðvarr einn lifði sona[6] Gizurar biskups, þá er hann andaðist; en áðr önduðust aðrir synir hans: Teitr, Ásgeirr, Þórðr ok Jón. Gróa lifði ok lengi síðan, ok varð nunna, ok andaðist í Skálaholti á dögum Klængs biskups. Í biskupsdómi Gizurar biskups urðu mörg stórtíðindi: lát hins helga Knúts konúngs á Fjóni ok Benedikts, bróður hans; Vilhjálms Englands konúngs; andlát Ólafs konúngs kyrra ok Hákonar Magnússonar

---

konúngr". Philippus Svíakonúngr, dótturmaðr Haralds Sigurðarsonar, andaðist 1118 (ísl. ann.; Hervarar s.); Philippus Frakkakonúngr andaðist 1108. Allir þessir höfðíngjar, sem hèr eru nefndir, önduðust einmitt 1118, sumir fyr en sumir síðar á ári en Gizur biskup, nema dauða ár Arnalds patriarcha vitum vèr eigi, en alls enginn af þessum andaðist 1111, sem eptir reikníngi Húngrvöku og Gunnlaugs sögu múnks er ritað sem dauða-ár Gizurar.

1) kraum, misskrifað, 379. 2) lopt upp, 379. 3) þat, 379.

4) frá [ tilætlan, sum handr. og Kh. útgáfan.

5) Hafliði Másson var særðr á alþingi 1120, og þá var manndauðinn mikli (ísl. ann. og Sturlúnga s. 1, 18), og á næsta sumri 1121 varð sætt þeirra Þorgils og Hafliða. Tveim vetrum eptir andlát Gizurar segir Ari enn fremr að væri aldamót; það er rètt, því 1120 er síðasta ár í túnglöld.

6) son, 379.

í Noregi; fall Magnús konúngs berbeins vestr á Írlandi, á Úlastin; færsla[1] hins helga Nicholai biskups í Bár; andlát Ólafs konúngs Magnússonar í Noregi; líflát Magnúsar jarls hins helga; andlát lögsögumanna: Markúsar [ok] Úlfhèðins; ok Teits Ísleifssonar ok annara sona Ísleifs biskups; elds uppkoma í Heklu, ok mörg önnur stórtíðindi, þó hèr sè eigi skrifut[2].

10. Þorlákr Runólfsson, Þorlákssonar[3], Þórarinssonar, Þorkelssonar skotakolls[4], ok sonr Hallfríðar Snorradóttur Karlsefnissonar[5], var fæddr upp með föður sínum í barnæsku, en hann var lærðr í Haukadal. Hann var snemmendis skynsamr ok siðlátr, ok hugþekkr hverjum góðum manni. Hann var bænahaldsmaðr mikill þegar á únga aldri, ok skjótr í skilníngum. Hann var lagðr til kennimannsskapar. Linr var hann ok lítilátr ok óafskiptasamr, heilráðr ok heilhugaðr við alla þá, er hjá honum váru, mjúklátr ok miskunsamr við þá er þess þurftu við, frændrækinn ok forsjáll í flestum hlutum, bæði fyrir sína hönd ok annarra. Þorlákr hafði þá tvá vetr hins fjórða tigar, er hann var til biskups kjörinn[6], ok má af því marka, hverr maðr hann var, er[7] sá maðr kaus hann til hins mesta vanda er vitrastr ok göfugastr var, en honum[8] kunnastr, er var Gizurr biskup. Þorlákr var meðalmaðr vexti, lángleitr og ljósjarpr á hár, þokkagóðr, en kallaðr ekki vænn maðr af alþýðunni, nè allskörugr at ávarpi velflestra manna. En er hann kom utanlands, var

---

1) klaustrafærsla, sum önnur handr. og Kh. útgáfan; færsla *(translatio)* er uppteknìng helgra manna beina.

2) Árin, sem þessir viðburðir urðu á, eru þessi: Andlát Knúts helga 1087; Vilhjálms bastarðar sama ár; Ólafs kyrra 1093; Hákonar Magnússonar 1094; Magnús berfætta 1103; Magnús Eyjajarls 1115; Ólafs konúngs Magnússonar sama ár; Markús lögsögumanns 1107, 14. Oktober; Úlfhèðins 1116. Teitr prestr Ísleifsson, fóstbróðir Ara, andaðist 1110. Elds uppkoma í Heklu hin fyrsta varð 1104 (ísl. ann.).

3) þannig Landnáma 5. 11 og 1. 20; Ari fróði nefnir hann Þorleik, og má vera að það sè rèttara, því hann var bróðir Halls í Haukadal, og má því Ara hafa verið kunnigt um hann.

4) leiðrètt; 379 hefir rángt: thorlaksson, Þorarinsson, Þorkelsson Skattakollzson.

5) þannig Landnáma; en 379. 378 og 205 hafa Karlssonar (rángt).

6) Þorlákr er því fæddr 1085, en í Haukadal hefir hann varla komið fyr en Ari var kominn þaðan. Fyrir þá Þorlák og Ketil biskupa ritaði Ari bók sína.

7) en, rángt, 379. 8) hann, rángt, 379.

þá svá á tekit, at lítið mundi mannval vera á landinu, ok þeim sýndist hann ósendiligr til slíkrar tignar; en hann svaraði sjálfr, at eigi kæmi þat til þess, ok kvað þat mest valda, at hann hefði meir leynt anmörkum fyrir mönnum en guði; ok af þessum svörum þóttust menn vita, at hann mundi vel til fallinn vera slíkrar tignar. En er hann kom á fund Özurar erkibiskups, þá sá hann brátt hverr Þorlákr var, ok tók við honum með sæmd ok virðíngu, en hafði í nokkura tregðu um vígslu hans, ok taldist eigi kunna at setja höfut á höfut ofan; en þó, at orðsendíngu Gizurar biskups, þá hèt hann honum vígslunni, ok vildi eigi til þess staðar vígja, er áðr var annarr biskup at, ok bað hann kjósa sèr stað, at hann væri til vígðr, en leyfði þó, at hann væri í Skálaholti, ef Gizurr biskup leyfði hánum þat, ef hann væri á lífi, er Þorlákr biskup kæmi út. Þorlákr var vígðr til biskups iij nóttum fyrir Philippi messu ok Jacobi, ok var hann vígðr til staðar í Reykjaholti í Borgarfirði. Hann var vígðr í Danmörk XXX dögum fyrr en Gizurr biskup andaðist í Skálaholti[1].

11. Þorlákr biskup fór til Íslands þat sama sumar, sem hann var vígðr, ok tóku menn feginsamliga við honum, sem verðugt var. Hann hèlt hinu sama lítilæti í biskupsdómi sínum, sem hann hafði áðr haft, ok alla lèt hann sína mannkosti í vöxt fara, en öngva þverra, meðan hann lifði. Hann tók marga menn til læríngar, ok urðu þeir síðan góðir kennimenn, ok í mörgu efldi hann kristnina á Íslandi. Þá er Þorlákr biskup hafði iij vetr setið at stóli í Skálaholti, þá andaðist Jón biskup Ögmundarson at Hólum, en síðan var kjörinn í staðinn Ketill Þorsteinsson, ok fór hann utan ok suðr til Danmerkr, ok var þar vígðr til biskups X nóttum eptir[2] Kyndilmessu, ok kom til Íslands hit sama sumar eptir. Þorlákr biskup ruddi til þess á sínum dögum, at þá var settr ok ritaðr kristinna laga þáttr, eptir hinna vitrustu manna forsjá á landinu, ok umráðum Özurar erkibiskups, ok váru þeir báðir viðstaddir til forráða Þorlákr biskup ok Ketill biskup; og margt var þat annat, sem þeir settu ok sömdu á sínum dögum til siðbótar landsmönnum. Þorlákr biskup bauð

1) Vígsludagr Þorláks biskups er því hinn 28. April (2. sunnudag eptir páska) 1118, en Gizur biskup andaðist á þriðjudag, 28. Mai.

2) þannig hefir 378 og 205; fyrir, 379; vígsludagr Ketils biskups verðr fyrsta sunnudag í föstu, 12. Febrúar 1122.

barnfóstr Halli Teitssyni í Haukadal, ok fór þá Gizurr, son Halls, í Skálaholt[1], ok var biskup við hann svá ástúðligr, sem hann væri hans son, ok spáði hann[2] þat er síðarr[3] gekk eptir, at slíkr merkismaðr mundi trautt finnast á Íslandi sem hann, ok varð á því raun síðan. Þorláki biskupi þjónaði hinn sami prestr ávallt, meðan hann lifði ok hann var biskup, er Tjörvi hèt, ok var Böðvarsson[4], mikill dýrðarmaðr, ok hann hafði áðr verit með Gizuri biskupi; ok mátti af slíku sjá, ok öðrum hans dagligum háttum prýðiligum, hversu jafnlyndr hann var at góðu í sínu lífi. Hann söng hvern dag þriðjúng af psaltara seint ok skynsamliga, en þess á milli kendi hann eðr ritaði, eðr las yfir helgar ritníngar, eðr læknaði[5] ráð þeirra manna, er þess þurftu ok á hans fund kómu; aldrei var hann iðjulauss. Örr var hann við aumíngja, en kallaðr[6] fèfastr við[7] alþýðu, ok sparði þó aldrei penninga at nauðsynjum til allra þarfligra hluta.

12. En er Þorlák biskup skorti iij vetr á fimtugan at aldri, þá tók hann sótt eptir þat, ok lá í svefnhúsi því, er hann var vanr at sofa í ok lærðir menn hans. En [er] sóttin tók at vaxa, þá bað hann lesa yfir sèr bók þá, er heitir *cura pastoralis;* þá bók hefir gjörva Gregoríus páfi, ok sagt frá greiniliga, hversu þeim manni skal farit vera at öllu, er stjórnarmaðr skal vera annarra manna; en þat þóttust menn á finna, at hann hugði síðan betr til síns andláts, en áðr en bókin væri lesin. Hann bjóst síðan við andláti sínu, sem hann kaus sjálfr, ok eigi vissi almúginn hvat fram fór í sóttinni allt til andláts.

Þorlákr var vígðr til biskups á dögum Gelasi[8] páfa; þá hafði hann iij vetr hins fjórða tugar. Hann andaðist næsta dag fyrir Brygittar messu[9], þá hafði hann biskup verit XV vetr,

---

1) Aldr Gizurar Hallssonar má marka hèr af. Hafi hann verið 7 vetra við andlát Þorláks biskups, og ýngri hefir hann varla verið, þá hefir hann *orðið áttræðr, því hann andaðist 1206, og lifði í tíð fimm biskupa í* Skálaholti.

2) honum, Kh. útg. 3) síðan, sum handr. og útg.

4) Böðólfsson, 378 hèr, en síðar Böðvarsson.

5) ræktaði, 378. 6) leiðr.; balldr, 379. 7) af, hin og útg.

8) Geladi, misskrifað, 379. Gelasius kom eptir Paschalis og var eitt ár páfi, og andaðist 1119, 29. Januar.

9) Brigiðar messa er 1. Febr., og ætti dauðadagr Þorláks því að vera 31. Jan., en í ártíðaskrá er hann settr 1. Febr., eðr á sjálfa Brigiðar messu, og vitum vèr eigi hvort sannara er.

ok var grafinn hjá hinum fyrrum biskupum. Þá váru konúngar í Noregi Eysteinn ok Sigurðr Jórsalafari. Þá var liðit frá híngatburð Christi XI^c vetra ok XXVI vetr[1].

Sá atburðr varð fyrir norðan land þann sama dag er Þorlákr biskup andaðist, at á þeirri sömu stundu fór leiðar sinnar prestr einn fróðr ok göfugr, er Árni hèt, sonr Bjarnar Kárleifssonar[2]; hann heyrði söng fagran upp í himininn yfir sik, ok var súngin *cantilena* Lambertus biskups þessi:

„*Sic animam claris cælorum reddidit astris*",

en þat var vitað, þá til var prófat, at engi maðr hafði þar í nánd verit. Þótti af því mörgum mönnum mikils vert um þenna atburð, ok lètu sèr eigi ór minni falla.

Margt er merkiligt ok gæzkusamligt at segja frá Þorláki biskupi Runólfssyni. Þau tíðindi urðu í hans biskupsdómi, at þá andaðist Jón biskup helgi á Hólum, ok [Eysteinn konúngr ok Sigurðr Jórsalafari[3]. Sæmundr prestr hinn fróði andaðist þat vor hit sama, er Þorlákr biskup andaðist áðr um vetrinn[4]; þá var ok víg Þorsteins Hallvarðssonar[5] og Þórarins Ívarssonar[6]. Þá andaðist Bergþórr lögsögumaðr. Þá var lögdeila þeirra Hafliða Márssonar ok Þorgils Oddasonar; þá var ok sætt þeirra[7]. Margir höfðíngjar váru Þorláki biskupi óhægir fyrir sakir sinnar óhlýðni, en sumir í óráðvendi ok lagabrotum, en [hann] hafði allt í höndum, sem bezt váru efni á.

13. Magnús var sonr Einars Magnússonar, Þorsteinssonar, Hallssonar af Síðu, ok Þuríðar Gilsdóttur, Hafrssonar, Svertíngssonar[8], Hafr-Bjarnarsonar, Molda-Gnúpssonar. Magnús var upp-

---

1) Þetta er eptir Húngrvöku tímatali, en að rèttu tali 1133 (sbr. Þorl. s. hins helga cap. 1.).

2) Kjarleifs s., 205. 206. 210; líkligt er að nafnið sè rángfært, og ætti að lesa „Karlsefnissonar".

3) frá [ Eysteinn konúngr Jorsala faðir, rángt, 379; Kh. útg. les: Eysteinn konúngr, bróðir Sigurðar Jórsalafara.

4) þannig hinir, sem er rètt; vorit, 379.

5) Hávarðssonar 205. 206. 210, mun vera rángt.

6) Einarssonar, 378. 205. 206. 210. Sumir annálar nefna víg Þórarins Eyjólfssonar 1130, og má vel vera, að það sè sami maðrinn.

7) þessi tíðindi urðu á þessum árum: andlát Jóns biskups 1121; Eysteins konúngs 1122; Sigurðar jórsalafara 1130; Sæmundar fróða 1133; víg Þorsteins Hallvarðssonar 1119; andlát Bergþórs lögsögumanns 1123.

8) v. í handr. en er hèr tekið eptir Landn.

fæddr með Einari föður sínum ok Oddnýju, stjúpmóður sinni, dóttur Magnúsar prests þórðarsonar or Reykjaholti. þessum kváðust þau mest unnat hafa af öllum sínum börnum. Magnús var til bækr settr, ok vígðr öllum vígslum, áðr hann var prestr. Magnús var vænn maðr at áliti ok heldr hár maðr vexti, fagreygðr ok vel limaðr, þýðr ok þekkiligr ok allra manna sköruligastr[1] í öllu yfirbragði ok látgæði. Hann var ljúfr ok lítilátr við alla, stórlyndr ok staðfastr í skapi, fullræðasamr, frændrækinn, margfróðr ok málsnjallr. Hann reyndist og vel brugðinn [við hvárttveggja[2], búnað ok farar, ok var ávallt alla menn sættandi, hvar sem hann var við mál manna staddr, ok sparði þess ekki, hvárki orð sín nè auðæfi. En þá er þorlákr biskup hafði andazt áðr um vetrinn, þá var Magnús kjörinn til biskups sumarit eptir, ok þat sumar[3] ætlaði hann til utanferðar, ok varð aptrreka í Blönduós[4], ok var þá í Skálaholti um vetrinn, ok fór til Noregs annat sumar eptir[5]. þat sumar fór hann utan, er þeir Magnús Sigurðarson ok Haraldr gilli börðust á Fýrileif, ok stökk þá Haraldr undan suðr til Danmerkr. Magnús biskupsefni fór til Danmerkr hit sama haust, ok gaf gjafir Haraldi konúngi ok tókst þá vinfengi þeirra mikit. Magnús fór á fund Özurar erkibiskups, ok tók hann við honum virðuliga, ok vígði hann til biskups á Simonis messudag[6]. þann vetr hinn næsta var Magnús biskup í Sarpsborg, þar til er Haraldr konúngr varð innlendr; þá fór hann til hans ok tók konúngr feginsamliga við honum, ok með hinni mestu sæmd ok virðíngu, ok var með honum þar til hann fór út aptr til Íslands, ok þá af konúngi virðuligar gjafir: borðker, er vá viij merkr, ok var þar síðarr kaleikr[7] or gjörr, ok margar gjafir aðrar, því at konúngr var örr ok stórlyndr við vini sína[8]. Magnús biskup kom til Ís-

1) skrautlegastr, 378. 205.

2) frá [ leiðr. eptir hinum; til hvorstveggia, 379.

3) 1133. 4) Blönduósi, 379 og hin. 5) 1134.

6) þ. e. Simon og Judas 28. Oktbr. (21. sunnud. eptir trinitatis) 1134, því af orðunum „næsta vetr" má sjá, að þetta hefir verið um haust og skömmu eptir að hann kom til Danmerkr.

7) „Skrjóðr, sem enn er í Skálholti", b. v. 205. 206. 210 á spáziu með hendi Jóns Gizurarsonar og Jóns Ólafssonar.

8) sbr. sögu Haralds gilla cap. 16 (Fornm. s. vii, 197); um sumarið 1135 fór biskup út til Íslands, en konúngr var veginn á öðrum vetri eptir (14. December) 1136.

lands um alþíngi, ok kom í Eyjafjörð ok reið til þíngs, ok kom þar þá menn váru at dómum, ok urðu eigi ásáttir um eitthvert mál, en þá kom maðr at dóminum, ok sagði at nú riði Magnús biskup á þíngit; en menn urðu svá fegnir þeirri sögu, at þegar gengu allir menn heim. En biskup gekk síðan út á hlaðit fyrir kirkju, ok sagði þá öllum mönnum þau tíðindi, er gjörzt höfðu í Noregi, meðan hann var utan, ok þótti öllum mönnum mikils um vert málsnilli hans ok skörúngskap. Þá reyndist ok brátt hverr ágætismaðr hann var í sínu stórlyndi ok forsjá, bæði fyrir sína hönd ok annarra, af því hann sparði aldrei fjárhlut til meðan hann var biskup, at sætta þá, sem áðr váru sundrþykkir, ok lagði þat jafnan af sínu til, er [þeirra var í[1] milli, ok urðu af því engar deildir með mönnum meðan hann var biskup. Hann hèlt hinu sömu lítilæti sínu við alþýðu sem áðr, þó [hann] væri biskup, ok var hann af því vinsælli en flestir menn aðrir, ok hafði þar marga stóra hluti til þess gjört.

14. Magnús biskup lèt mjök auka kirkju í Skálaholti, ok vígði síðan, ok var kirkjudagr settr á Seljumannamessu, en áðr hafði verit Krossmessa á vár, þá er Gizurr biskup hafði vígt. Magnús biskup lèt tjalda kirkju borða þeim, er hann hafði út haft, ok váru þat hinar mestu gersemar. Hann hafði [ok út[2] pell þat, er [hökull sá er or gjörr[3] er skarbendíngr[4] heitir. Hann efldi ok mjök staðinn í mörgum tillögum, þeim er lengi hafa mest gæði at verit, bæði staðnum ok svá þeim, sem hann hafa síðan varðveitt. Hann keypti til staðarins í Skálaholti Árnes og Sandártúngu[5], ok nær allar Vestmannaeyjar, áðr en hann andaðist, ok ætlaði þar at setja múklífi; en honum endist eigi til þess líf. En þá er Ketill biskup var nú orðinn vel sjötugr, þá fór hann til alþíngis ok fól sik undir bænahald allra lærðra manna á prestastefnu, ok þá bauð Magnús biskup honum heim með sèr í Skálaholt til kirkjudags síns, ok brullaups þess, er þá skyldi vera. Sú veizla var svá mjök vöndut, at slík eru sízt dæmi til á Íslandi; þar var mikill mjöðr blandinn, ok

1) þörf var þeirra í, 378. 2) frá [ út ok, 379.

3) frá [ er lagað eptir líkindum; hökull sá var úr gjörðr, 204. 207. 208. 211. 381 og útg.; haukr sá er á gjörður, 379; hauksnautr var úr gjörðr, 205. 206. 209. 375. 378.

4) þannig hafa flest hin og útg.; skarmendíng[2], 379.

5) Sandártúngur, 379.

[öll atföng[1] önnur sem bezt mátti verða. En föstudags aptan[2] fóru biskupar báðir til laugar í Laugarás eptir náttverð. En þar urðu þau tíðindi, at þar andaðist Ketill biskup, ok þóttu mönnum þat mikil tíðindi. Mikill hryggleiki var þar á mörgum mönnum í því heimboði, þartil er biskup var grafinn ok um hann búit. En með fortölum Magnús biskups ok drykk þeim hinum ágæta, er þar var veittr, þá urðu menn skjótara afhuga hörmum sínum. En eptir þat var kjörinn[3] til biskups at Hólum Björn Gilsson, ok fór hann utan með brèfum Magnús biskups til Áskels erkibiskups, ok var Björn vígðr til biskups næsta dag eptir Krossmessu á vár[4], ok fór út híngat hit sama sumar, ok var biskup at Hólum xv[5] vetr.

15. En þá xv vetr váru liðnir frá andláti Þorláks biskups Runólfssonar, en Magnús hafði biskup[6] verit xiiij vetr, þá brast[7] sú óhamíngja á Íslandi, at eigi hefir önnur þvílík verit at mannskaða, þá Magnús biskup hafði farit yfir Vestfjörðu ok var í Hítardal um Michaelismessu. En hinn næsta dag eptir messudaginn, þá kom þar eldr í bæinn um náttmál, ok varð biskup eigi fyr varr við, en honum þótti eigi óhætt út at gánga, og var sem hann vildi eigi bæði gjöra, at flýja ógn dauðans, er hann sá þá nálgast, en hafa þess áðr beðit jafnan almáttugan guð, at hann skyldi þat líflát spara honum til handa, er hánum þætti sèr í því laugar píníng[8]. Magnús biskup lèt þar sitt líf í húsbruna, ok

---

1) frá [ þannig hefir Páls biskups saga cap. 5; öll ölföng, útg. eptir nokkrum handritanna; öl áföng, 379.

2) Ártíð Ketils biskups er 6. Juli; ártíðaskráin hefir 7. Juli. Í prestatali (Íslendinga sögur I, 384) stendr „octabas apostolorum Petri ok Pauli", og kemr það í sama stað. Þar segir og, að hann hafi andazt föstudag í sólsetr. Þessa sögu sagði Magnús biskup sjálfr Ara fróða.

3) leiðrètt; handritin öll hafa „vígðr".

4) það getr ekki hafa verið fyr en á næsta alþíngi, 1146, að Björn var kosinn til utanferðar, en vígðr næsta vor, 4. Mai 1147, sem þá bar upp á 2. sunnud. e. páska; en hann var 15 vetr biskup, en annálar segja hann hafi andazt 1162, og kemr það allt í rèttan stað niðr.

5) þannig 378. 205; í sumum er misritað: xij, og þannig hefir Kh. útgáfan.

6) biskup hafði, 379.

7) bar til, hin handr. og Kh. útg.; „brast á Íslandi", þ. e. buldi á Íslandi, dundi yfir landið.

8) sín b. v. 378; 379: láung sín píníng.

með hánum ij menn ok LXXX[1]. Þar andaðist Tjörvi[2] prestr Böðvarsson, er ávallt hafði honum þjónat í hans biskupsdómi. Þar lètust vij prestar aðrir ok allir göfugir. Lík biskups ok Tjörva váru náliga óbrunnin, ok váru bæði færð í Skálaholt, ok þá váru sendir skynsamir menn í Fljótshlíð, Páll prestr Sölvason or Reykjaholti ok Guðmundr Koðransson, at segja þessi tíðindi Halli Teitssyni ok Eyjúlfi Sæmundarsyni, ok öðrum höfðíngjum, er at veizlu váru með honum. Þeir fóru strax í Skálaholt; en vestan kom með lík biskups ok Tjörva: Guðmundr prestr Brandsson, ok Snorri Svertíngsson, ok fleiri virðuligir menn, ok kómu í Skálaholt á Díonysius messu. En Gereonisdag[3] váru líkin niðrsett hjá grepti hinna fyrri biskupa, [ok hefir vætr[4] meir til óyndis hagat en þá, er menn urðu svá nauðskilja, at náliga varð hverr við sinn ástvin at skilja, í Hítardal.

Magnús var vígðr til biskups af Özuri erkibiskupi á dögum Anacleti páfa[5], á dögum Haralds konúngs gilla ok[6] Magnús Sigurðarsonar, Noregskonúnga. Þá var hann vetri meir en hálffertugr[7]. En hann andaðist í húsbruna í Hítardal fimta dag viku, einni nótt eptir Michaelismessu[8]. Þá var liðit frá híngatburði Christi XI[c] vetra XL ok einn vetr[9]; þá hafði hann xiiij vetr verit biskup.

16. Meðan Magnús var biskup, þá sviku bæjarmenn Harald gilla, ok þá fèllu þeir Magnús konúngr Sigurðarson ok Sigurðr slembidjákn. Þá varð víg Þóris Steinmóðssonar ok andlát Özurar erkibiskups, ok [Rafns] Úlfhèðins [sonar] lög-

---

1) LXXII í annálum og ártíðaskrá, svo öll líkindi eru til, að sú tala sè rèttari, en Húngrvaka fari hèr tugavillt. Þessar 6 brennur hafa verið mestar á Íslandi í fornöld: Blund-Ketilsbrenna 964; Njálsbrenna 1011; Hítardalsbrenna 1148; Lönguhlíðarbrenna 1196; Þorvaldarbrenna Vatnsfirðings 1228 og Flugumýrarbrenna 1253.

2) 378 og 205 nefna hann Torfa, og mun það rángt.

3) Dionysius messu (9. Okt.) bar þetta ár uppá laugardag, en Gereonis dag (10. Okt.) bar þá upp á drottinsdag, og því munu líkin hafa verið grafin þann dag. (Handritin hafa: Geronis, Gedeonis, Gregorius, allt rángt).

4) frá [: og hefir verit, 378; 205: ei hefir verit.

5) Anacletus ij. var páfi 1130-1138.

6) sonar, b. v. 379, rángt.

7) Magnús biskup er því fæddr 1098, og hefir andazt fimtugr (1098-1148).

8) árið 1148 bar og Michaelis messu (29. Septbr.) einmitt uppá miðvikudag.

9) á að vera 1148, sem messudagrinn vottar og öll frásögnin.

sögumanns[1] ok Finns lög[sögu]manns[2], ok Henriks Englandskonúngs, ok margt annat varð á hans dögum, þat er mikil tíðindi váru í[3]. Eptir andlát Magnús biskups, hit næsta sumar, varð at kjósa mann til biskups, ok fór utan Hallr Teitsson, ok mælti allstaðar þeirra máli, sem hann væri[4] allstaðar þar barnfæddr, sem þá kom hann. Hallr andaðist í Trekt, þá þeir fóru aptr, ok var eigi vígðr til biskups. En þá andlát hans spurðist til Íslands, ok menn mundu þurfa at kjósa biskup, þá váru þat allra manna kjör, sem ráða áttu, með forsjó Bjarnar biskups á Hólum, at menn kjöru til biskups norðlenzkan mann, þann er Klængr hèt, ok var Þorsteinsson ok Halldóru Eyjúlfsdóttur[5].

17. Klængr var vænn maðr at áliti, ok meðalmaðr at vexti, kvikligr ok sköruligr[6], ok hinn mesti lærdómsmaðr. Hann var málsnjallr ok öruggr at vinfesti, ok hit mesta skáld[7]. Hann hafði verit með Katli biskupi ok hafði hann í mörgu lagi hans háttu góða. Klængr fór utan hit sama sumar sem hann var til biskups kosinn, með brèfum Bjarnar biskups, á fund Áskels erkibiskups, ok vígði hann Klæng til biskups xij. nóttum eptir Máríumessu á vár, ok hit sama sumar eptir fór hann til Íslands[8],

1) Öll handrit hafa „Úlfhèðins", en það nafn hlýtr að fara milli mála. Að framan (cap. 9) er sagt, að Úlfhèðinn andaðist um daga Gizurar biskups, og víst er það, að hann lèt af lögsögu 1116 og er hans hvergi getið síðan í annálum. Hèr er því eflaust farið feðgavillt, og á að standa „Rafns Úlfhèðinssonar". Rafn hafði lögsögu 4 ár: 1135-1139.

2) Finnr prestr Hallsson hafði lögsögu 6 ár, 1139-1145 og andaðist 1145 (ísl. ann.). Í Melabók er lögsögumannatal allt úr lagi fært þessi árin.

3) Þessir viðburðir, sem nú eru taldir, urðu þessi ár: fall Haralds gilla 1136 (14. Decbr.); Sigurðar slembidjákns og Magnús blinda 1139; Þóris Steinmóðssonar 1136 (ísl. ann.); andlát Özurar erkibiskups 1137 og Rafns Úlfhèðinssonar 1139; Finns Hallssonar 1145; Heinreks I. Englakonúngs 1135.

4) ávallt, b. v. 379, líklega fyrir ritvillu.

5) ætt Klængs biskups er rakin í biskupa ættum (Íslend. s. I, bls. 361).

6) ok algjörr at sèr ok ritari góðr, b. v. 378. 205. 206.

7) Klængr biskup var höfuðskáld. Snorri tilfærir vísuhelmíng alhendan eptir hann í háttatali sínu; það er úr kvæði, er vèr ætlum að Klængr hafi ort um siglíng sína til biskupsvígslu („bað ek sveit á glað geitis". Snorra edda Svb. Egilss. bls. 132). Gunnlaugr múnkr getr með miklu lofi bókagjörða Klængs (sjá Jóns s. helga cap. 27).

8) Tímatalið er þannig: Hallr andaðist í Utrecht 1150 (ísl. ann.). 1151 var Klængr kjörinn til biskups og fór samsumars utan, og var vígðr

ok var þá kominn frá Róm sunnan, ok allt utan or Bár, Gizurr Hallsson, [ok] fór út með honum; ok áttu þá menn at fagna tveim senn hinum beztu manngersemum á Íslandi. Á tveim skipum kómu út stórviðir, þeir er Klængr biskup lèt höggva í Noregi til kirkju þeirrar, er hann lèt gjöra í Skálaholti, er at öllu var vöndut fram yfir hvert hús annat, þeirra er á Íslandi váru gjör, bæði at viðum ok smíði. En er biskup kom til stólsins í Skálaholti, þá varð hann þegar svá vinsæll við alþýðu, at jafnvel unnu honum þeir menn hugástum, er hann hafði skamma stund at stóli setið, er heldr höfðu við honum horft í sínum huga. Er þat eigi kynligt, þó at svá yrði, því at hann var stórlyndr ok stórgjöfull við vini sína, en örr ok ölmusugóðr við fátæka menn. Linr[1] ok lítilátr var hann við alla, kátr var hann ok keskifimr, ok jafnlyndr maðr við vini sína, svá at þángat var til allra úrlausna at sjá, er hann [var, meðan hann var at[2] stólnum, hverskyns er við þurfti. Hann lèt taka til kirkjusmíðar, er hann hafði einn vetr at stólnum setið. Svá sýndist öðrum mönnum tillög vera mikil til kirkjugjörðar at hverjum misserum, bæði í viðarföngum ok smíðakaupum ok mannhöfnum þeim, er þar fylgdu, at svá þótti skynsömum mönnum, sem öll lausafè þyrfti til at leggja, þau er til staðarins lágu í tíundum ok öðrum tillögum. Búit þurfti í annan stað svá mikilla tillaga við at hverjum misserum, fyrir sakir fólksfjölda ok gestrisni ok annarar atvinnu, [at] svá þótti, sem þar mundi þurfa til alla lausa aura, þá er staðr átti. Í þriðju grein hafði hann svá veizlur fjölmennar, ok stórar fègjafir við vini sína, er bæði váru margir ok göfugir, at þar þurfti náliga ógrynni fjár til at leggja. En almáttugr guð, er allt gott gefr af sèr, lèt öngvan þann [hlut skorta[3] er þurfti at hafa, bæði til kirkjugerðar ok annarar atvinnu, þeirrar er biskup vildi láta hafa meðan hann lifði. Þessir váru höfuðsmiðir at kirkjunni í Skálaholti: Árni er kallaðr var höfutsmiðr, ok Björn

---

6. April 1152, sem þá bar upp á 1. sunnudag eptir páska (Boðunardagr Maríu, *Annuntiatio Mariæ*, er 25. Marts).

1) ljúfr, 378.

2) frá [ vikið við eptir getg.; var með, hann var að, 379; var með, þar var á, 205.

3) þannig, 378; frá [ skort á, 379 og 205.

hinn hagi þorvaldsson; Illugi Leifsson telgdi ok viði. En þá kirkjan var algjör, orti Runólfr biskupsson[1] vísu þessa:

Hraust er[2] höll, sú er Kristi
hugblíðum lèt smíða,
góð er rót und ráðum,
ríkr stjórnari, slíkum.
Gipta var[3] þat, er gjörði
guðs rann Ígultanni[4];
Pètr hefir eignazt ítra
Árna smíð ok Bjarnar[5].

18. Klængr biskup var svá mikill málafylgismaðr, ef hann var at sóttr til ásjár, at hann var bæði höfðíngi mikill sakir vizku ok málsnilli; honum váru ok landslögin í kunnara lagi. Af því höfðu þeir höfðíngjar allan hlut mála, er biskup var í fylgi með; var ok engin sú gjörð um stórmál, at eigi væri Klængr biskup til hverrar tekinn. þeir váru ok hans vinir traustastir, er mest [váru virðir[6] á Íslandi: Jón Loptsson ok Gizurr Hallsson. Klængr biskup átti ok gjafavíxl við hina stærstu höfðíngja í öðrum löndum, þeim er í nánd váru; ok af slíkum hlutum varð hann vinsæll, bæði utanlands ok innan. En þá er kirkja var gjör í Skálaholti, svá biskupi þótti hún til vígslu fallin, þá gjörði biskup veizlu mikla ok ágæta vinum sínum, ok bauð þángat Birni biskupi ok Nichulási ábóta[7], ok mörgum höfðíngjum, ok var þar hinn mesti fjöldi boðsmanna; þeir vígðu báðir kirkju í Skálaholti, Klængr ok Björn, annarr utan, en annarr innan, ok helguðu báðir Pètri postula, svá sem áðr hafði verit, en Nichulaus ábóti hafði formæli. [þat var á degi[8] Viti píníngarvátts[9]. En

1) Runólfr, son Ketils biskups, er nefndr í prestatali norðanlands 1143. Hann andaðist 1186. 2) var, 378. 205. 3) varð, 378.

4) í flestum handritum er eyða fyrir þessu orði (205. 206. 209. 210. 375. 378); 204. 380. 381 hafa júgtanni; 207. 211. 377: „guðs rann hefir tignað". — Grettir kallar björninn ígultanna („ígultanna gat ek unnit"); þó er júgtanni algengara.

5) leiðrètt; handritin hafa „Bjarna". 6) frá [ var undir, 378. 205.

7) Nikulás Bergsson er í ábótatali í Stokkhólmsbók talinn annarr ábóti að þverá. Hann ferðaðist víða um lönd og eptir hans fyrirsögn er ritað „leiðarvísir ok borgaskipan", (A. Magn. 194. 8vo; pr. í Werlauffs Symbolæ ad geogr. med. ævi. 1821. 4to, og Rafns Antiquités Russes II, 397—415). Hann andaðist 1159. Hinn fyrsti ábóti að þverá hèt Höskuldr.

8) frá [ eptir 205 og hinum; sleppt óvart í 379. 9) Vitusmessa er 15. Juni.

eptir tíðir bauð Klængr biskup öllum þeim mönnum, er við kirkjuvígslu höfðu verit, at hafa þar dagverð, þeim er sèr þótti þat betr gegna, ok var þat enn gjört meir af stórmennsku en fullri forsjá, af því at á einn veg reyndist þat ávallt, at eiga undir mörgum heimskum, er einn vitr maðr má vel fyrirsjá með stillíngu, ok mátti þar ok þá mikit at raun um þat komast, fyrir því at eigi höfðu þar færri menn dagverð en vij$^c$, ok urðu tillög með óhægindum áðr lètti; en veizla var allvirðulig, at öllum þeim mönnum [þótti], er þángat var boðit, ok váru allir virðíngamenn með stórum gjöfum á brott leystir. [Klængr biskup lèt prýða[1], þat mest hann mátti til fá, kirkju þá er hann lèt gjöra at Skálaholti, unz hon var at öllu búin. Hann lèt gjöra[2] gullkaleik ok setja gimsteinum ok gaf kirkjunni; hann lèt ok rita tíðabækr miklu betri en áðr váru[3]. Sú var öll iðja hans senn: at kenna prestlíngum ok ritaði ok söng psaltara, ok mælti þó allt þat, er nauð bar til. [Meinlátsamari var hann[4] í mörgu lagi en aðrir biskupar höfðu verit, í vökum ok föstum ok klæðabúnaði; hann gekk opt berfættr um nætr í snjóum ok frostum. Þá er Klængr hafði x vetr biskup verit, þá andaðist Björn biskup at Hólum ij nóttum eptir Lúcasmessu[5], þá er hann hafði xv vetr biskup verit. En sumarit eptir [var] kjörinn Brandr prestr Sæmundarson, ok hafði hann utan með sèr brèf Klængs biskups á fund Eysteins erkibiskups, ok var hann vígðr til biskups Máríumessu dag hinn síðari[6], ok var í Björgvin um vetrinn ok svá Jón Loptsson; en síða[n] fór biskup út um sumarit eptir, ok settist á biskupsstólinn á Hólum, sem hann var til vígðr.

19. Klængr biskup hèlt allt til elli vegsemd sinni ok vinsældum, svá at allir virðu hann mikils, þeir er mest váru verðir. En er hann tók at eldast, þá sótti að honum vanheilsa mikil,

1) frá [ b. v. eptir getgátu. 2) tvískrifað í 379.

3) „ritandi bækr margar ok merkiligar, sem enn tjást at Hólum ok víða annarstaðar", segir Gunnlaugr múnkr um Klæng (Jóns s. h. cap. 27).

4) frá [ eptir getgátu; meinlátsamr, 379. 205 og fleiri, en það á ekki við það sem eptir kemr.

5) Lucasmessa er 18. Octbr. ártíð Bjarnar biskups er og talin 20. Octbr.

6) þannig 205; þann síðari, 379; — Brandr var vígðr 1163, en það ár bar Maríumessu hina síðari (8. Sept.) uppá 17. sunnudag e. tr. Brandr biskup andaðist 1201 og var því 38 ár biskup. (378 hefir Magnúsmessu fyrir Maríumessu, sem er rángt).

ok tók í fyrstu fætr hans at opnast af kulda ok meinlætum, ok óhægindum þeim, er hann hafði haft. En er hann tók at mæða bæði elli ok vanheilsa, þá sendi hann utan brèf sín til Eysteins erkibiskups, ok bað hann leyfis, at hann skyldi ná af hendi at selja lands-fjölskyldir biskupsdóms síns, ok at taka annan til biskups í staðinn, eptir dæmum Gizurar biskups. En þau orð kómu aptr af erkibiskupi, at í hans leyfi skyldi biskup kjósa ok senda utan, en hann skyldi halda upp tíðagjörð ok kenníngu meðan hann væri til færr, þótt hann væri eigi færr til yfirferðar. Klængr biskup fór til alþíngis, ok sótti þá at höfðíngja, at maðr væri til biskups kosinn, ok var þat allra manna ráð, at hann skyldi kjósa þann, sem hann vildi, en hann kaus Þorlák Þórhallsson[1], er þá var ábóti í Þykkvabæ; ok var þat mikil gæfa Klængs biskups, er hann kaus þann mann eptir sik, er nú er sannheilagr, ok allir mega vita, at aldrei hefir fyr meir neinn maðr at því reynzt á Íslandi, nema hinn heilagi Þorlákr biskup[2], er þá var til biskups kosinn. En þó hafði Klængr biskup staðarforráð þau misseri, ok var þó óhægt fyrir at ráða, því at þá lágu öngvar gjafir til staðarins, en afvinna varð öngvu minni. Klængr biskup seldi sjálfr af hendi staðarins forráð, ok fèkk þau í hendr Þorláki biskupi, ok þeim mönnum, er hann kjöri til með sèr; en hin síðustu misseri, er Klængr biskup lifði, reis hann náliga ekki or rekkju, ok bjóst eptir því við andláti sínu, sem hverr vitr maðr mundi sèr helzt kjósa í löngum vanmætti.

Klængr var vígðr til biskups á dögum Evgeni páfa af Áskeli erkibiskupi[3], ok á dögum Eysteins ok Sigurðar Noregskonúnga; hann hafði þá vij[4] vetr hins fimta tugar ok var

1) Þorallason, 379; Þoralldzson, 205.

2) Í Þorláks sögu hinni elztu cap. 19 er líkt orðað: „Því aldri hafði uppkomið helgi nè jarteinir nokkurs manns á Íslandi [fyr] en Þorláks biskups". Helgr dómr Þorláks var upptekinn 1198, en Jóns biskups 2 árum síðar (1200). Vèr ætlum, að Húngrvaka og Þorlákssaga sè annaðhvort eptir sama manninn, eða að báðir höfundarnir hafi verið samtíða í Skálaholti, og munu báðar sögurnar vera ritaðar skömmu eptir 1200, um daga Páls biskups, eða litlu síðar, en hitt getr varla verið, að þær sè ritaðar á þeim 2 árum, áðr enn helgi Jóns kom upp, enda liggr ekki það í orðunum, ef að er gáð, heldr að eins, að Þorlákr er talinn hinn fyrsti helgr maðr hèr á landi.

3) Evgenius iij. var páfi 1145-1153, Áskell erkibiskup 1137-1177.

4) Þannig leiðrètt; í handritunum er ij, og ætti Klængr eptir því að vera

biskup xxiiij vetr. Hann andaðist iij nóttum eptir Mathíasmessu, ok ber svá ártíð hans, en iiij ef hlaupár er [eigi][1], þá var þváttdagr í ymbrudögum um lángaföstu; þá var liðit frá híngatburði Christi at almenniligu áratali M. C. LX ok IX ár[2], ok var hann grafinn hjá hinum fyrrum biskupum; en þorlákr ábóti stóð yfir honum, bæði hans grepti ok hans andláti; ok bar honum allskonar giptusamliga til, er slíkr maðr skyldi yfir honum standa bæði lífs ok önduðum, sem nú reynist[3] fyrir guði hinn sæli þorlákr biskup.

20. Mörg urðu stór tíðindi meðan Klængr var biskup, þó hèr geti eigi margra. þá varð fráfall þeirra bræðra Gillasona, Noregskonúnga, Sigurðar fyrst, en þá Eysteins, en síðast Ínga, ok andlát Jóns erkibiskups, ok fall Hákonar herðibreiðs, ok andlát Bjarnar biskups á Hólum. Á dögum Klængs biskups var píndr hinn heilagi Thomas erkibiskup á Englandi[4], ok á hans dögum kom annat sinn upp eldr í Heklufelli[5]. þá var ok jarðskjálpti sá, er mannskaði varð af[6]. þessir menn önduðust íslenzkir meðan Klængr var biskup: Jón Sigmundarson[7] [ok Hreinn ábóti[8], Páll þórðarson ok Guðmundr Ketilsson, Bjarnhèðinn prestr Sigurðarson ok Beinir bróðir hans; víg Helga Skaptasonar; ok Nichulás Sigurð[ar]son var þá felldr í þránd-

---

fæddr 1110; en 12 vetra kom hann til Jóns biskups helga, en Jón andaðist 1121, getr því þetta ekki verið rètt. Nú vill svo vel til, að í latínubrotinu gamla af þorláks sögu helga (sem mun vera skrifað um 1200) er tiltekinn aldr Klængs, að hann hafi andazt á 71. aldrs ári (*anno ætatis septuagesimo primo*); hann er því fæddr 1105, og hefir 1117 komið að Hólum í skóla, en vígzt 47 ára 1152; er hèr því ritvilla (ij fyrir vij).

1) þannig leiðrètt, þetta orð vantar í öll handrit. Klængr andaðist „tercia kal. martii" sem í latínubrotinu segir; það er rètt, því 1176 var hlaupár; en endrarnær er ártíð hans *prid. kal. mart.* Ártíð Klængs er 28. febr.; en Mathiasmessa er 25. febr. þegar hlaupár er, en 24. endrarnær; svo ártíð Klængs ber þrem nóttum eptir hana þegar hlaupár er, en fjórum þegar eigi er hlaupár. Árið 1176 bar og 28. febr. uppá laugardag.

2) á að vera 1176. Latínubrotið gamla segir 1169, eins og hèr.

3) þannig 205 og fl.; reyndist, 379. 4) í Englandi, 379. 205.

5) þannig 379 og 377. Heklu fjalli, 205. 6) at, 378. 205.

7) þannig leiðrètt; öll handritin hafa: Sigurðsson.

8) þannig leiðrètt; á Bári, 379; frá [ v. í 378. 205. 206-207. 210. Hreinn ábóti Styrmisson var Gilsbekkíngr að föðurætt. Styrmir faðir hans, Hreinsson, Hermundarsonar, Illugasonar hins svarta, er talinn með mestu

heimi[1]. Nú má oss sýnast sem eigi hafi slíkr skörúngr verit fyrir margra [hluta] sakir á Íslandi, sem Klængr biskup var; viljum vèr þat ok ætla, at hans rausn muni uppi vera meðan Ísland er bygt.

Nú er komit at frásögu þeirri, sem segja skal[2] frá hinum sæla Þorláki biskupi, ok er þessi saga[3] hèr samin til skemtunar góðum mönnum[4], til frásagnar, sem aðrar þær, er hèr eru fyrr ritaðar. En svá vel sem frásögn fer frá hverjum þeirra, þá eru þó engin[5] dæmi fegri í alla [staði, en frá þessum[6] hinum dýrðliga guðs vin er at segja, Þorláki biskupi, er at rèttu má segjast geisli eðr gimsteinn [heilagra, bæði á þessu landi[7] ok svá annarstaðar [um heiminn[8]. Hann má at sönnu kallast postuli Íslands, svá sem hinn heilagi Patrekr kallaðist postuli Írlands, því at þeir frömdu verk postula sjálfra í sínum kenníngum ok þolinmæði bæði við óhlýðna menn ok rángláta.

---

höfðíngjum um daga Gizurar biskups. I Sturlúngu er Hreinn ábóti nefndr „Reinir ábóti að Þverá", en það er varla annað en ránglesið („Þverá" fyrir „Þíngeyrum"). Í Flateyjar annál er hann talinn ábóti í Hítardal, og sama stendr í ábótatali A. M. 415 (4to), sem ritað er um 1330. En Gunnlaugr múnkr telr hann í sögu sinni með þeim lærisveinum Jóns helga, er hann sjálfr hafi sèð, og segir at hann hafi verið þriði ábóti á Þíngeyrum, eða næstr eptir Ásgrím Vestliðason; sama segir og í ábótatali í Stokkhólmsbók, og hlýtr það því að vera rèttast.

1) Þessir atburðir gjörðust á þessum árum: fall Sigurðar konúngs munns 1155, Eysteins 1157, Ínga 1161, Hákonar herðibreiðs 1162, andlát Jóns erkibiskups í Niðarósi 1157, Bjarnar biskups 1162, píning Thomas Beckets erkibiskups í Kantaraborg 1170; elds uppkoma önnur í Heklu 1158; andlát Jóns Sigmundarsonar 1164, Hreins ábóta Styrmissonar 1171, Bjarnhèðins prests í Kirkjubæ 1173; druknan Páls prests Þórðarsonar 1171; víg Helga prests Skaptasonar 1175; fall Níkulásar Sigurðarsonar 1176.

2) af, b. v. 379 (ritvilla, sem gleymzt hefir að leiðrètta).

3) þ. e.: saga Þorláks biskups; af þessu er að ráða sem sami maðr hafi ritað hana og Húngrvöku.

4) ok, b. v. 378. 5) hèr mörg, 378. 6) frá [ staði. En frá, 378.

7) frá [ Íslands, 378. 205. 8) frá [ sl. 378. 205.

# SAGA ÞORLÁKS BISKUPS

## HIN ELZTA.

---

## SAGA ÞORLÁKS BISKUPS HIN ELZTA[1].

ÞANN tíma, er stýrði guðs kristni Anacletus pape, en konúngar váru yfir Noregi Magnús Sigurðarson ok Haraldr gilli, þá var fæddr í hèraði þí á Íslandi, er Fljótshlíð heitir, Þorlákr hinn helgi, á bæ þeim, er heitir at Hlíðarenda, á þí ári, sem Þorlákr biskup Runólfsson andaðist. Eigi bar af þí nöfn þeirra saman, at hann væri eptir Þorláki biskupi heitinn, heldr af þí, at sá, er allt veit ok öllu stýrir, vildi þá virðíng gera Þorláks biskups hins fyrra, at hans nafn veri jafnan elskat ok dýrkat af öllum þeim mönnum, er síðan hefir auðit orðit at heyra [ok] vita dýrð hins sæla Þorláks biskups; hefir almáttigr guð þá dýrð veitta nafni hins sæla biskups, sem fyrr sagði Salomon hinn spaki, at betra væri gott nafn en mikil auðæfi; en þat var þá sannliga gott, er helgat var undir heilagri skírn, en blezat síðan með biskupligri tign. Hefir sá orðskviðr í þessu sannazt, at „þat er spáð, er spakir mæla", at þat nafn verðr nú mörgum gulli betra, þeim er á hann heita í sínum nauðsynjum; þat sannast nú ok eigi síðr í þessu máli, sem í öðrum stað segir heilog ritníng, at „betra er gott nafn, en dýrðlig smyrsl", af því at nú berr opt þá raun á, at nú verðr optliga þat skjótt gert af ákalli hans nafns, er hvárki hefir áðr mátt heilt verða af smyrslum nè af lækníngum þeim, er menn hafa áðr með farit ok til leitað.

2. Faðir Þorláks var Þórhallr, en móðir[2] Halla; þau váru vinsæl ok val at sèr. Hann var farmaðr áðr[3] hann setti bú, en hon var fengsöm ok forvitra. Þau váru bæði góðrar ættar ok göfugra manna fram í kyn. En þat má nú auðsýnt vera,

---

1) Til eru alls þrjár sögur af Þorláki helga: hin elzta, merkt *A*, er hèr prentuð eptir Nr. 5 (folio) í bókhlöðu konúngs í Stokkhólmi (kölluð hèr Stokkhólmsbók, eða Sthb. Á pappír finnst hún í A. M. 205. 206. 210 (folio). — Miðsagan, merkt *B*, finnst í A. M. 382. 4to. — Hin ýngsta, merkt *C*, finnst í A. M. 379 (4to), 219 (folio) og víðar. 209 (folio) er ómerkileg samsteypa sira Jóns Erlendssonar af A. og C.

2) faðir, Sthb. (ritvilla). 3) þannig, 205; at, Sthb.

at guð hefir þat fagrliga viðr oss ent, er hann hèt fyrir munn Davíðs spámanns: at blezat mundi verða kyn rèttlátra manna; ok má sjá, at þat hefir nú fagrliga fyllzt ok framkomit í lífi hins sæla Þorláks biskups. Frændr Þorláks hinir nánostu váru rèttlátir ok ráðvandir, höfðu fjölskyldi mikil, en fjárhlut úgnógan. Þorlákr var þá úngr at aldri, er þau brugðu búi sínu, faðir hans og móðir. Hann var úlíkr flestum úngum mönnum í sinni uppfæðíngu: auðráðr ok auðveldr í öllu; lýðinn ok hugþekkr hverjum manni; fálátr ok fályndr um allt; nýtr ok námgjarn þegar á únga aldri. Hann nam psaltara, áðr en sundrskilja vyrði börn móður hans ok föður, en lítið hafði hann bóknám annat í fyrstu; en svá var hann þegar athugasamr á únga aldri, at mörgum vitrum mönnum fundust orð um hann. En þótt hann hefði eigi mikit nám á barnsaldri, þá gekk fyrir þat í hans háttum, sem hann hefði náliga allt þat numit, sem þá mátti honum betr sama en áðr. Hann þýddist eigi leika nè lausúng; var [hann vakr[1] ok val stiltr, ok lèt þess snimma á kenna, at hann mundi þat heilræði þýðast vilja, er Davíð kennir í psaltara: at maðr skyli hnegja sik frá illu ok gera gott, leita friðarins *ok fylgja honum*.

3. Sem móðir hans sá af sinni vizku, með guðs forsjá, hve dýrðligr kennimaðr Þorlákr mátti verða af sínum góðum háttum, ef nám hans gengi fram, þá rèðust þau mæðgin í hinn æzta höfuðstað í Odda, undir hönd Eyjólfi prest Sæmundarsyni, er bæði hafði höfðíngskap mikinn ok lærdóm góðan, gæzku ok vitsmuni gnægri en flestir aðrir, [ok heyrðum vèr hinn sæla Þorlák þat vitni bera honum, at hann þóttist trautt þílíkan dýrðarmann reynt hafa, sem hann var, ok sýndi hann þat síðan, at hann vildi eigi hjá sèr láta líða þau heilræði um sinn meistara, sem til gaf hinn sæli Páll postuli sínum lærisveinum, talandi svá til þeirra þeim áheyrandum: „Veri þèr eptirglíkjarar mínir, sem ek em Krists"; af því at svá bar opt til, þá er vèr hældum hans háttum góðum, at hann kvað þat vera siðvenjur Eyjólfs fóstra síns Sæmundarsonar. Gjörði hann þat makliga, þótt hann virði hann mikils í sinni umræðu, því at þat var honum í at launa[2].

1) frá [ tvískrifað í Sthb.

2) Á þessum orðum: „heyrðu vèr" og „þá er vèr hældum" er auðsætt, að þessi saga er rituð af samtíða manni Þorláki biskupi, og eflaust af

Eyjólfr virði Þorlák mest allra sinna lærisveina um þat allt, er til kennimannskapar kom, af því at hann sá af sinni vizku ok hans meðferð, sem síðarr reyndist, at hann mundi fyrir þeim öllum verða um þat, sem síðarr segir. Þorlákr tók vígslur þegar á únga aldri allar, unz hann var djákn, af Magnúsi biskupi; en hann var þá XV vetra gamall er biskup andaðist; en því fóru vígslur hans skjótt fram, at þat fundu yfirboðarnir, at hann hugleiddi sjálfr, ok gætti í úthorn þess vanda er fylgði hverri vígslu, þeirri er hann tók; ok svá skjótt, sem fram fór nám hans ok vígslur, þá lèt hann til sín at fyrirboði[1] koma með ráðinni staðfestu alla mannkosti, þá er vígslunum áttu til at heyra. Lèt hann sèr þat í hug koma, meðan nám var minna ok vígslur smærri, er Ysidorus biskup mælir, spakr ok heilagr: at bæði er nytsamligt at nema mart ok lifa rèttliga, en ef eigi má bæði senn verða, þá er enn dýrðligra at lifa val. Hann gætti þess ok, þótt meir fylgdi lítilæti ok þjónkan hinum smærrum vígslum, heldr en sæmd mikil veraldar virðínga, at hann hèlt öllum manndygðum þeim, er fylgja áttu hinum minna vanda, þá er hann var hafiðr á hina hærri palla vanda ok virðíngar með hinum stærrum vígslum. Sú var þá hans iðja, er hann var á úngum aldri, at hann var löngum at bóknámi, en at riti optliga, á bænum þess í millum, en nam, þá er eigi dvaldi annat, þat er móðir hans kunni kenna honum: ættvísi ok mannfræði.

4. Þá er Magnús biskup var andaðr, þá var nokkura stund biskupslaust í Skálholti, ok gerðist þá kennimanna fátt; varð þat þá ráð manna, at biðja Björn biskup til at gera vígslur á alþíngi[2], ok lèt hann at bæn manna, ok var þá vígðr til prests Þorlákr ok margir aðrir kennimenn[3]. En er hann var prestr, ok hann tók sjálfr stjórn ok forráð tíðagerðar, þá var þat brátt auðsýnt, hve geyminn ok gætinn hann mundi at vera um tíðir sínar, ok allt þat annat, er honum var á hendi fólgit með þeirri vígslu, er hann hafði þá fengit. Hann fór þá enn lítilátliga

vígðum manni. Í stað þessa hefir ýngsta sagan C. frá [: ok bar Þorlákr biskup honum þat vitni jafnan síðan, þá er talat var um háttu góðra manna: at það váru siðvenjur Eyjólfs fóstra hans.

1) fyrra boði, 205. 2) var þá fyrr komit til þings en nú, b. v. C.

3) Þorlákr hefir því vart verið eldri en 17-18 vetra, er hann tók prestsvígslu.

með sínu ráði, sem fyrr, ok tók sèr þá hinu fyrstu misseri lítil þíng fèsöm, ok hafði þau nokkura stund, ok varð honum bæði gott til fjár ok vinsælda, af þí at náliga unni honum hugástum hvert barn, er hjá honum var; hafa ok þau mörg góð dæmi sótt hinn sæla Þorlák, er sjaldgæt hafa orðit mörgum öðrum, at hann var þá bæði senn úngr ok gamall: var úngr at aldri, en gamall at ráðum. Hann skrýddist þá enn á nýja leik mörgum mannkostum, ok allra mest þeim, er Davíð kallaði kennimanninum í skyldasta lagi, at þeir skyldu skrýðast hjálpræðum ok rèttlæti, ok sýndi hann þat síðan alla sína æfi, at honum varð þat náliga afhent, þá er til þurfti at taka, ok nutu þeir allir, er honum voru í nánd.

En er þí hafði nokkura stund fram farit ok honum var þá ok gott til fjár vorðit, þá fýstist hann utanferðar ok vildi þá kanna siðu annarra góðra manna; ok fór hann af Íslandi, ok er ekki sagt af hans ferðum, unz hann kom í París, ok var þar í skóla, svá lengi sem hann þóttist þurfa til þess náms, sem hann vildi þar nema. Þaðan fór hann til Englands, ok var í Lincolni, ok nam þar enn mikit nám, ok þarfsæligt bæði sèr ok öðrum, ok hafði þá enn mikit gott þat af sèr at miðla í kenníngum sínum, er hann var áðr trautt jamval við búinn, sem nú. En er hann hafði vj ár af Íslandi verit, þá vitjaði hann aptr til frænda sinna ok fóstrjarðar, ok urðu honum fegnir frændr ok fóstbræðr, ok allir hans ástvinir, ok móðir hans þeim mun fegnust ok systr, sem þeim var mest atlángt, en mest niðrfall í, ef nokkut hefði tálmat hans tilkomu. Móðir hans fylgði[1] honum í sífellu, síðan er hann kom út, en hann veitti ástsamliga ásjá systrum sínum: Ragneiði, móður Páls, er síðan varð biskup eptir Þorlák biskup, en annarri Eyvöru, ok hafði hann mjök lánga skapraun af þeirra háttum, er eigi váru eptir hans skaplyndi; en þó kom þat til góðra lykta um síðir, með guðs miskunn ok góðu tilstilli þeirra manna, er lut áttu í, ok góðvilja þeirra sjálfra. Hann var þá með sama lítilæti, eðr meira, er hann kom aptr or sinni brottferð, sem hann hafði áðr verit, en eigi hafði hann sótt skart eðr þessa heims skraut, sem margr[2] annarr, er minni fremd ok gæfu sækir í sinni brottferð, en hann hafði sótt. Þat er ok

1) hèr þrýtr 210, ok hefst aptr við niðrlag sögunnar.

2) sá, b. v. Sthb., en er skafið út aptr.

margra manna siðvenja, at þeir búast þá vandligar at vopnum ok klæðum, er þeir koma út or för, ok þeir koma í meira val um slíka luti, en þeim hafi áðr til gefit. En Þorlákr hafði sèr at fararblóma lærdóm ok lítilæti ok marga góða siðu, þá er hann sá í sinni ferð með mörgum góðum mönnum, biskupum ok öðrum lærðum mönnum ok ráðvöndum, þeim er enn eru nærkomnir þí, sem fyrir öndverðu hefir hafizt guðs kristni ok síðan magnazt.

5. Þorlákr var þá enn meðr frændum sínum nokkura vetr, ok hafði þá mjök góðan fjárlut með höndum, ok sá þat margir vitrir menn, þeir hjá honum váru, at hann var þá enn til margra luta stórra ok góðra enn betr fallinn, þeirra er miklu varðaði, en áðr hann fór brutt. En er eigi liðu lángar stundir, þá fýstu frændr Þorláks, at hann skyldi staðfesta sitt ráð nokkut meir en þá var, ok vildu þeir helzt at hann kvángaðist. Þóttust þeir þat sjá mega, at hann [væri] fèmaðr ok forsjámaðr mikill um flest. En guðs kristni hefir lengi eflzt ok magnazt ok vaxit vandi lærðra manna, fyrir boðorða sakir, af þí at þá var eigi um þat mjök vandat af yfirboðum, þótt prestar fengi ekkna, en nú er þat fyrirboðit[1], en þá váru þær konor svá í hèraði, er beztr kostr þótti í vera, er ekkjur váru. Nú varð Þorlákr at þí ráði eggjaðr, ok fór hann síðan ok frændr hans með honum á bæ þann, er í Háfi[2] heitir, ok ætlaði at biðja sèr ekkju þeirrar virðuligrar, er þar bjó, ok var við þeim tekit þar forkunnar val. En er þeir tóku svefn eptir góðan beina á þeirri hinni sömu nátt, þá sýndist Þorláki í draumi maðr göfugligr yfirlits ok með sömiligum búníngi ok mælti: „hvert hafi þèr ætlat higat yðvart eyrendi," segir hann, „ef þèr megit ráða?" — Þorlákr svaraði: „ek veit eigi hverju verða vill," segir hann. Sá mælti, er honum sýndist í drauminum: „veit ek," sagði hann, „at þú ætlar þèr hèr konu at biðja, en þú skalt þat mál eigi upp láta koma, af þí at þat mun eigi ráðit verða, ok er þèr önnur brúðr myklu æðri hugut, ok skaltu öngrar annarrar fá." En er hann hafði þetta mælt, þá hvarf hann frá honum at sýn; en Þorlákr vaknar, ok var hann þá svá fráhorfinn þessu máli, at hann bað sèr aldri konu þaðan frá.

1) Það er líklega Þorlákr biskup, sem hefir bannað þetta.

2) Hofi, hin.

Fóru þeir á brott ok váru þau góðir vinir alla æfi síðan. En þeim þótti nokkut kynligt, hví hann var svá hverflyndr í þessu máli, áðr þeir vissu hvat til hafði komit, en þá kunnu allir val, er vissu. Eptir þenna atburð allan jamsaman, þá kveyktist eigi hugr hans til metnaðar, þó honum væri vitrað af guði, at hann ætlaði honum enn æðri forlög, en hans frændr hefði til hugat, ok hann sjálfr samþykkzt viðr; heldr tók hann sik þá því fastara í lítilæti, eptir allra hinna beztu manna dæmum, at því lítilátari hafa allir verit, sem þeir hafa hærra gengit í guðs augliti, eptir heilræðum almáttigs guðs, er hann mælir svá, at: „hverr sá er sik lægir mun upp verða hafiðr", ok: „nemi þèr at mèr, því at ek em mjúkr ok lítilátr í hjarta mínu, ok munu þèr finna hvíld öndum yðrum;" ok þá er þann veg hafði eigi lengi fram farit, þá lýstist brátt yfir hvat honum bjó í skapi.

6. Í þann tíma rèð fyrir bæ er í Kirkjubæ heitir á Síðu ágætr kennimaðr, sá er Bjarnhèðinn[1] hèt, ok var hinn dýrðligsti maðr at alþýðu dómi. Hann var vitr maðr ok vinsæll, örr ok mjök orðfærr, linr[2] og lærðr val. En er hvárr þeirra frá til annars, þeirra Þorláks, þá gjörði hvárn[3] þeirra fúsan til samvistu við annan, ok lèt guð þat eptir þeim, sem hann er van[r] at láta rèttar fýstir eptir ráðvöndum mönnum, ok fór þá at vistafari Þorlákr í Kirkjubæ, ok var þar vj vetr í samt; ok fengu þeir þat þá reynt, er guð segir svá, at „ok mitt er sætt en byrðr mín er lètt"; var þá bæði, at eykirnir váru sterkir fengnir undir okit, en báru þó lèttliga, af því at þeir tóku þá náliga allan vanda at bera fyrir þí fólki öllu, er þau hèruð bygðu, er þeim váru nálæg. Skiptu þeir ok svá við sína undirmenn, at þeir tóku af þeim þúngar byrðar, er á þá höfðu lagzt af mótgjörðum ok meinmælum við guð ok góða menn, en eptirlæti við fjandann, en lögðu á þá í staðinn guðs byrðar, lèttar ok linar, í hógbærum skriptum ok auðveldum yfirbótum. Drógust þeir merkiliga þau nöfn undir, er almáttigr guð kallaði sína postula ljós þessa heims, því at þeir lýstu líknarbraut til eilífra fagnaða, bæði með ágætligum kenníngum orða ok dýrðligra dæma. Mátti þat sjá á hversdagligum þeirra atferðum, at þeir urðu sjaldan afhuga þí, er guð mælti til sinna lærisveina:

1) Bjarnhèðinn prestr Sigurðarson er nefndr í prestatali 1143. Hann andaðist 1173.

2) ljúfr, 205. 3) hvarn, Sthb. og 205.

„lýsi ljós yðvart fyrir mönnum," sagði hann, „at þeir nemi yðrar atferðir góðar; dýrki þèr föður yðarn, þann er á himnum er." Svá sýndist þeim, sem ásamt váru við þá, sem náliga væri öngar þær stundir, er eigi mætti nokkut þat af þeim hafa, er gæði váru í. Váru þeir ok svá samlyndir ok samþykkir at góðu, sem Lucas segir af guðs postulum, ok svá mátti þikkja, sem þeir hefði eitt hjarta ok eina önd; fór þat þá víða um hèruð, hversu ólíkir þeir þóttu flestum mönnum vera í sínum framferðum. Var þat þá þegar vitra manna mál, at hvergi myndi vera vænna til at leita en þar, þótt mann þyrfti at ráða til hins mesta vanda á Íslandi, ok var þat eigi missèt, at þí sem síðar reynist.

7. Fyrir þeim bæ í þí hèraði, er annarr var beztr[1], rèð sá maðr er Þorkell hèt[2], auðigr at fè, en spakr at mannviti. En er hann tók nokkut at eldast, en átti önga allnána[3] frændr til erfðar eptir sik, þá gæddi hann sína frændr með auðæfum, en frelsti sèr þann fjárlut til forráða, er eptir var, mikinn ok fríðan; han lýsti þá yfir þí, at hann vildi Krist kjósa ok hans helga menn sèr til erfingja alls þess fjár, er þá var eptir, ok vildi reisa kanoka setr í Þykkvabæ; en þat mál var vant at semja í fyrsta sinni; ok leitaði hann af því þat fyrst til at fá, er vandast var: manninn þann, er regulu mætti setja, þá er þeir menn skyldu hafa, er þar vildu til hreinlífis ráðast. Hann fór þá í Kirkjubæ, ok skoraði á Þorlák, at hann rèðist til; en hann lèt þat ekki alltorsótt við sik vera, af þí at hann hafði þat áðr í hug sèr haft, at hafna heimi ok ráðast undir regulu, eptir orðum[4] almáttigs guðs, er hann kallar öngan at fullu mega vera sinn lærisvein, nema hann láti alla sína eign fyrir guðs sakir, ok þjóni honum þá síðan með reinum hug. En þó leitaði hann eptir viðr Bjarnhèðinn prest, hversu honum mætti þat í skap falla, eðr hve ráðligt honum sýndist, at hann játtaðist undir þann vanda, er hann var beiddr. En Bjarnhèðinn sagði svá, at honum mundi sá dagr mikill þikkja, er Þorlákr rèðist or Kirkjubæ at vistafari, en þó lèzt hann eigi þess nenna mjök at letja, er hann sá margra manna hjálp viðr liggja.

---

1) ok Þykkvabær heitir, b. v. 209.

2) ok var Geirason, b. v. 209. Þorkell Geirason andaðist 1187.

3) allnæna, 205. 4) tvískrifað í Sthb.

Var þá síðan staðr settr í Þykkvabæ, at ráði ok forsjá Klængs biskups ok allra hèraðsmanna, og síðan rèzt Þorlákr þángat, ok var þar þá sett kanoka setr. En þann dag, er Þorlákr fór á brott alfari or Kirkjubæ, þá leiddi alþýða manna hann or garði, ok þótti öllum mikit fyrir at skiljast viðr hann. En er Bjarnhèðinn kom heim, þá sá hann í rúm Þorláks, ok mælti með aloga miklum: sagði þar þat rúm vera, er aldri mundi síðan jamval vera skipat, ef hann skipaði eigi sjálfr. Var sú ok Þorláks umræða alla æfi síðan, er bæði var í gæfa staðnum, ok þeim er fyrir rèðu, at hann hefði aldri sínu ráði jamval unat, sem þá vj vetr, er hann var í Kirkjubæ; ok hefir mörg stór virðíng til þess staðar lagzt, ok var sjá mikil[1], af þí at þat má líkligt þikkja, at þar muni bezt at flestu verit hafa, er hann undi sèr bezt.

Þá var Þorlákr val hálffertugr, er hann rèðst í Ver, ok var þar vij vetr[2]. Kanoka vígslu tók hann fyrst, ok var þá í fyrstu prior settr yfir þá kanoka, er þar váru, ok samdi hann þegar svá fagrliga þeirra líf, at á þí lèk þá orð vitra manna, at þeir hefði hvergi jamgóða siðu sèna, þar er eigi hafði lengr regulu líf saman [verit en þar[3]. En eptir þat vígði Klængr biskup Þorlák til ábóta í Veri[4], ok tók hann þá af nýju merkiliga stjórn at hafa yfir þeim bræðrum, er hann var yfir settr. Hann bauð þeim at halda ástúð ok samþykki sín á milli, ok tjáði þat fyrir þeim, hve mikit í keyptist[5] er sonr guðs segir svá: at hvar sem saman samnast ij eðr iij [í hans nafni, at hann mundi þeirra á millum vera[6]. Var hann um allt hinn siðvandasti fyrir þeirra hönd, en [þeim var[7] hversvitna val fengit.

8. Halla móðir Þorláks var með honum alla æfi, meðan hon[8] lifði, en hann hafði fengit fè systrum sínum báðum, áðr hann rèðist undir regulu haldit. Var hann ástsamr sínum öllum frændum, þá sem áðr, en andligr faðir öllum þeim, er

---

1) ok er þar nú nunnuklaustr, b. v. C.

2) Klaustrið í Þykkvabæ í Veri hefir því verit sett 1168, einsog í annálum segir, því Þorlákr fór í Skálholt á góu 1175, ok mun sá vetr vera talinn með þeim 7, er hann var í Veri. 3) frá [ en þar verit, Sthb.

4) Það hefir verið á að gizka 1170, að Þorlákr tók ábóta vígslu.

5) í plægir, 209.

6) frá [: í minu nafni, þar em ek mitt á millum þeirra, 205.

7) frá [ var þeim, Sthb. og 205. 8) þannig 205; hann, Sthb.

hann var yfir skipaðr. Hann bannaði bræðrum flaukr ok farar allar, þær er eigi bar nauðsyn til, en bauð þeim at þeir skyldu sem jafnlyndstir vera at góðum lutum í sinni þjónostu, eptir þí sem Páll postuli hefir kent í sínum pistli. „Biðist þèr fyrir", sagði hann, „án afláti, ok gerit guði þakkir í öllum lutum". Segir svá ok sjálfr guðs son, at sá er hverr hólpinn, er hann staðfestist í góðu verki allt til enda lífs síns. Bauð hann þeim vandliga þögn at halda, þá er þat var skylt, en hafa góða munnzsöfn þá er málit var leyft; en at orðum Páls postula spilla ill mál, segir hann, góðum siðum. Má þat ok sjá, hve skylt vera mun í þí lífi at halda sik frá heimligum ok illum orðum, ef þó skal rángt þó gott sè mælt, þá er skylt er at þegja, sem Davíð segir í psaltara: „lítilátr er ek" sagði[1] hann, „ok þagða ek yfir góðum lutum". Því þóttist hann lítilátr, at hann var jafnan fúsari at mæla gott en illt, ok bazt hann þó opt hvorstveggja fyrir guðs sakir. Menn fóru til kanokasetrs Þorláks ábóta or öðrum múnklífum eða reglustöðum, bæði samlendir ok útlendir, at sjá þar ok nema góða siðu, ok bar þat hverr frá, er þaðan fór, at hvergi hefði þess komit, at þat líf þætti jafnfagrliga lifat sem þar, er Þorlákr hafði firir sèt. Þá hit fyrsta fundu þat margir menn, at þar var til mikils góðs at sjá, er hann var, fyrir gæzku sakir, þess, er aðrir höfðu eigi föng á þílíkt af sèr at miðla. Margir gengu þeir heilir af hans fundi, þá er hann veitti þeim blezan ok yfirsöngva, er með ymsum meinum kómu á hans fund. Mart bar þat annat honum til handa, er margir virðu þá þegar til jarteina. Sá atburðr varð, þá er hann var þar staddr, at eldr kom í hús, en þá er Þorlákr kom til ok blezaði, þá sloknaði eldrinn. Ef fènaðr sýktist, þá batnaði ávallt við hans yfirsöngva, ef lífs var auðit. Vatnsvígslur hans váru merkiligar, svá at bæði fèkk bót af menn ok fènaðr. Ef vatni þí var dreft yfir fènað, er Þorlákr hafði vígt, þá grandaði þí náliga hvárki sóttir, nè veðr, eða dýr. Ef mýs gerðu mein á mat eða klæðum, þá kom fall í þær, eða hurfu allar af vatninu, ef þí var yfir stökt, ok færi þeir svá með öllu, sem hann lagði ráð til. Fór vatnit þá þegar um öll nálæg hèruð, en um allt Ísland síðan er Þorlákr varð biskup, af þí at menn þóttust hvervitna bót á finna um þat, sem þá bar mesta nauð-

1) sagða, Sthb.

syn til. En þó fóru vitrir menn varliga meðr þeirri umræðu, at kalla þat berar jarteinir, eða þýða þat einkanliga hans heilagleik; því at svá mælir heilög ritníng: „eigi skaltu lofa mann í lífi sínu; lofa hann eptir lífit, ok mikla hann eptir ömbun lífsins!" ok er af þí svá mælt, at þat má gerast at ábyrgð, bæði þeim er þat mæla fyr, en lok æfinnar eru vituð til fulls, ok þat kann ok vera, at þess hug sjálfs lokki sú umbræða til nokkurs metnaðar, ok má nú þat sjá, hversu þí er ráðit, er menn hafa þeim heilræðum fylgt í þessu máli, at fáir lofuðu hann ofmjök í lífinu; en leitið[1] nú at lofa hann ok dýrka á allar lundir, sem faung eru á, er þèr vitið dýrð hans ok heilagleik.

9. Sem ráð ok líf hins heilaga Þorláks skein með slíkum blóma síns hreinlífis ok gæzku, ok fagrligrar forsjá annarra ráðs, sem nú var frá sagt, þá lèt almáttigr guð til þess rýma, sem hann hafði áðr firir hugat, at hans vegr skyldi magnast ok vaxa or þí sem þá var. En þat varð með þeim hætti, at þá er Klængr biskup gerðist mjök aldri orpinn, þá tók hann vanheilsu mikla, opnuðust fætr hans, ok gerðist hann þá möjk vanfærr til síns embættis firir vanheilsu sakir. En hann hafði þá leyfi þegit af Eysteini erkibiskupi til þess, at maðr væri til biskups kosinn eptir hann[2]. Fór Klængr biskup til alþíngis þá, ok sótti at vini sína, at maðr vyrði ráðinn til utanferðar, ok váru þá lagðar stefnur til. Þat sama sumar fór til alþíngis, svá sem sendr af guði, Þorlákr ábóti, firir þær sakir er honum þótti nauðsyn til bera, af þí at hann var aldre van[r] heiman at fara nauðsynjalaust. Þá er umræða tókst um þetta mál, þá váru iij menn undir kosníng nefndir, þeir er bezt þóttu til fallnir af öllum, ok var einn af þeim Þorlákr ábóti. Annarr ábóti hèt Ögmundr, hinn mesti skörúngr[3]. Þriði var prestr er Páll hèt, lærdómsmaðr mikill ok hinn mesti búþegn. Bar þat fagrt vitni hverjum þeirra, at þess fýstist hverr mest, er kunnastr var. En þess kendi at um Þorlák, at hann hafði sik eigi mjök upphafit í metnaði þeim, er sjálfvirðíng heitir, ok rósaði hann meir góðgerníngum sínum í guðs augliti en manna, ok kostgæfði hann enn meir, at vera afbragð annarra manna í

---

1) þannig B; en Sthb. og 205 hafa „leita".

2) til er brèf frá Eysteini erkibiskupi, viðvíkjandi biskups kosníngi.

3) Ögmundr Kálfsson, hinn fyrsti ábóti á Helgafelli, druknaði 1188.

sinni gæzku, en sýnast svá firir augum skynlítilla manna; ok varð svá af þí, at mörgum þótti sèr hann úkunnastr þeirra, er þá váru í vali; ok var þat af þí várkunnligt, at hann hafði mörgum mönnum verit eigi allnálægr at hèraðavistum ok heimili. Þorlákr var fámálugr á þeim fundi, en margir váru aðrir fjölorðir, þeir er þessi stórmæli horfðu miðr til handa, en honum. Var þá eptir leitað við Þorkel Geirason, er reyndr var at rèttyrði, en kunnast Þorláks ráð af vitrum mönnum ok göfgum: hverr skörúngr Þorlákr væri, eða hve mikill orðamaðr hann væri. En Þorkell svaraði: „meir kostgæfir Þorlákr", segir hann, „at gera allt sem bezt, en mæla sem flest". Þau svör fèllu mönnum val í skap, ok lögðu margir þá þegar meira ástarhug til Þorláks, er þeir heyrðu svá verðligan vitnisburð hans hátta, af svá vitrum manni ok val stiltum; urðu þau málalok, at kosníngr var lagðr undir Klæng biskup, at hann skyldi kjósa af þeim, er í vali váru; en hann kaus Þorlák til utanferðar, ok at taka biskupsvígslu eptir sik, ok þann vanda allan, er því fylgdi. Herra Þorlákr ábóti fór af þíngi[1] aptr í kanokasetr sitt, en bað Klæng biskup, at hann skyldi hafa forráð stóls ok staðar þau misseri. En þá gerðust fjárhagir úhægir í Skálholti; urðu afvinnur[2] miklar, en tillög lítil; var hann eigi færr til yfirfarar, ok tókust af allar gjafir, ok mátti þá eigi lengi svá framflytjast öll misseri, at eigi þyrfti þá stórra viðfánga.

10. Eptir jól váru menn sendir or Skálholti eptir biskupsefni, ok fór hann austan á lángaföstu, ok með honum Jón Loptsson, er þá var mestr höfðíngi á Íslandi, ok kómu þeir til staðarins í Skálholt hálfum mánaði firir páskir, ok var þar Gizurr Hallsson fyrir. Þar váru ok aðrir menn, þeir er biskups vinir váru, ok forsjámenn hèraðsins váru. Tók þá Þorlákr við forráðum staðarins, ok var þá þegar mikil skuld ger til þeirra nauðsynja, er búit þurfti at hafa. Hann hafði þá þegar mikla skapraun, bæði af viðrvist manna ok öðrum óhægindum, þeim er hann átti um at vera, ok bar hann þær allar þolinmóðliga. Klængr biskup lá í rekkju með litlum mætti,

1) Þetta var á þíngi 1174, að Þorlákr var kjörinn til biskups; þá var hann vetri meir en fertugr.

2) Þetta orð er mjög tíðkað í elztu máldögum: „sú er afvinna þessa fjár"; síðan, er kemr fram á miðja 13. öld, er mest haft: „sú er skyld" eða „afskyld".

ok Þorlákr var þá í Skálholti, af því at menn vildu eigi at hann færi utan, firir sakir ófriðar þess, er þá var millum Noregs ok Íslands, er málum var ósett þeim er gerzt [höfðu] landa í millum af vígum ok fjárupptektum[1], ok dvaldi hann þat um nokkurra vetra sakir. En er Klængr biskup andaðist, ok at því kom, er honum þótti nauðsyn til at eigi væri lengr biskupslaust í Skálholti, en þá hafði verit: þá lèt hann eigi lengr letjast utanferðar[2]. Kom þat firir ekki, þótt hann veri lattr utanferðar, firir ófriðar sakir. Hann tók til orða Pálsmessu postula: „eigi skulu þèr skelfast við ótta vondra manna!" sagði hann. Var [hann] þá síðan utan tilbúinn, ok vildi hann bæði hafa lítið fè, at því sem aðrir hafa haft, ok eigi mikit föruneyti, ok greiddist val um hans ferð, unz þeir kómu viðr Noreg.

11. Þá er Þorlákr electus kom á fund[3] Eysteins erkibiskups, þá tók hann við honum forkunnar val, ok lèt hann þat brátt vitað vera, at hann vildi allt leggja þat blíðliga til af sinni hendi, er hann þóttist skyldr til, en hann vildi honum eigi elligar biskups tign gefa, nema samþykki konúngs veri til. Þeir höfðu þá ríki yfir Noregi feðgar: Magnús konúngr ok Erlíngr jarl faðir [hans], ok tóku þeir þúngliga öllu Þorláks máli, ok kómu þaðan hót firir hægindi, at hvárki mundi óhætt fè nè mönnum. En Þorlákr lèt sèr lítið um þat finnast, ok sýndi þar sinn alhoga vera allan, sem [Davíð] kennir í psaltara: at betra sè guði at treystast en höfðíngjum, ok lèt hann þetta af því hjá sèr líða. En erkibiskup þóttist sitja í miklum vanda, er hann vildi hváratveggja elska, ok vildi hann þess gæta, er Páll postuli kennir í sínum pistli: „óttist þèr guð", segir hann, „en vegsamit konúng". Mátti þat ok á öllu sjá, at hann vildi hèr hvárstveggja vandliga gæta í þeirra máli; bar erkibiskup þá boð á millum þeirra, ok aðrir góðgjarnir menn, ok kom þar, at konúngrinn ok jarlinn samþykktu því, at Þorlákr tæki biskupsvígslu, ok gerðist þá vingunar svipr þeirra á milli, ok gáfust þeir gjöfum, áðr þeir skildi. Ok hafði Sverrir konúngr þat opt uppi, er bæði var merkr í máli ok spakr at mannviti,

1) í brèfi Eysteins erkibiskups 1173—74 er drepið á þessa ósætt, sem þá var milli Noregs og Íslands.

2) þar leið þó nokkuð á milli: Klængr andaðist 28. febr. 1176, en Þorlákr fór ekki utan fyr en sumarið 1177, og kom út aptr 1178.

3) hèr byrjar fyrra skinnblaðið af 383. 1, með mjög gamalli hendi.

at þeim feðgum hefði þá allir lutir lèttast gengit, er þeirra var vingan á milli, ok Þorlákr var þar í landi, bæði í sóknum ok náliga valflest annat. Þá var Þorlákr vígðr til biskups af Eysteini erkibiskupi, á dögum Alexand[r]i páfa, þrem náttum eptir píníngardag Pètrs postula[1]. Viðr þá vígslu [var] E[i]rekr Stafángrs biskup, er síðan var erkibiskup í Þrándheimi, eptir Eystein erkibiskup. Hinn þriði var viðr vígslu Þorláks biskups Páll Björgynjar biskup, mikill skörúngr ok vinr Þorláks biskups alla æfi síðan. Þorlákr biskup var skamma stund hjá erkibiskupi, síðan hann hafði vígslu þegit, af þí at hann vissi gerst, hve skjótt þurfti tilkomu hans til Íslands, ok þeirra sauða, er hann var yfir skipaðr. En er Þorlákr biskup var skildr at samvistu viðr erkibiskup, þá spurðu þeir biskuparnir, hversu honum hefði þokkazt Þorlákr biskup. Hann sagði svá, at hann þóttist öngan biskup þann hafa vígt, er honum þótti jamgerla með sèr hafa alla þá mannkosti, er biskupum er skylt at hafa, sem Páll postuli segir í pistli sínum, þeim er hann sendi Tito: „Biskup hæfir at sè", sagði hann, „lastvarr ok lærðr val, dramblauss ok drykkjumaðr lítill, örr ok óágjarn, skýrr ok skapgóðr, góðgjarn ok gestrisinn, rèttlátr ok ráðvandr, hreinlífr ok hagráðr, tryggr ok trúfastr, mildr ok máldjarfr, ástsamr viðr alþýðu en ávítsamr viðr óræknа"; ok má sjá, at þat er heilags manns, at vera með þeim hætti; „má ek yðr svá nokkut segja helzt, hve vitrligir mèr hafa virzt hans hættir", sagði erkibiskup, „at ek munda þilíkt kjósa mitt lífsdægr hit efsta, sem ek sè hans hvert"; ok má nú þat sjá, hve vitr og glöggsýnn hann hefir verit um ráð hins sæla Þorláks biskups.

12. Sem sumraði rèðst Þorlákr í skip, ok lèt[2] í haf með sitt föruneyti, ok varð val reiðfara[3], ok tók[u] þeir þar höfn, sem þeir mundu kjósa, ok kom biskup heim í Skálholt næsta dag firir Laurencius messu. Menn urðu stórliga fegnir hans tilkomu, ok tók hann þá þegar at hafa stilliliga stjórn á þeim lutum, er til hans kómu, með röksamligri ráðvendi. Hann hèlt þó náliga í öllu kanoka reglu, því er hann mátti við koma, þá er hann var biskup vorðinn, bæði í klæðabúnaði, í vökum ok

1) Það er Pètrs messu og Páls, og svo stendr í hinni sögunni. Vígsludagr Þorláks er því 1. Juli, og bar hann upp á sunnudag árið 1178, en 1177 hefir Þorlákr farið utan.

2) letu, Sthb. 3) þannig A.; en B. og C. segir hèr öðruvísi frá.

föstum ok í bænahaldi. Hann tók at semja þá af nýju heimamanna siðu ok hýbýla háttu, þá er þar hèldust um hans daga val í mörgu lagi. Þorlákr biskup lagði mesta ást ok elsku á presta þá ok kennimenn, er siðlátliga lifðu ok sínar vígslur varðveittu nokkut eptir ákveðnu, ok virði þá alla sæmiliga, ok setti þá sæliga at þí sem föng váru á. En þá lærða menn, er miðr gættu siðlætis, ok sínar vígslur varðveittu óvarligar, minnti hann á með blíðligum boðorðum betr at gera, ok snúa sínu ráði áleiðis ok annarra, þeirra er þeir áttu at ábyrgjast. En þá er eigi skipuðust við mjúkar áminníngar, ávítaði hann með stilliligum stríðmælum, ok hógværum hirtíngum, svá sem Páll postuli kendi Timotheo: „vara skaltu, ok biðja, ok ávíta meðr allri þolinmæði ok læríngu". Hann hugði vandliga firir staðareign, ok setti þá menn ávallt firir til fjárforráða, er hann mætti frjálsastr vera sjálfr frá þeirri önn, en þó drægist fram fjárlutr staðarins, eptir því sem föng væri á, þess er þó væri til alls haft, þess er hafa þurfti. En svá hafði hann vitrliga stillíng á um fjárhagi, at allir menn vitrir höfðu þá þegar á máli, hve gott umstilli hann þótti um alla luti hafa. En svá mikla stund sem hann lagði[1] á um þá tilskipan, er til auðræða kom, at þat færi allt at beztum háttum, þá lagði hann á þat þó mestan hug, er til kirkjunnar kom, ok kennimönnum væri allra luta sem bezt fengit. Þat fylgdi ok þar meðr, at hann vandaði ok firir kennimönnum þjónastugerð alla, ok kendi þeim ástsamliga allt embætti þat er þeir váru skyldir at fremja með sínum vígslum. Hann heimti saman lærða menn firir hinar hæstu hátíðir heima í Skálholti, ok sagði þá hvat hverr skyldi at gera, þess er allt yrði fagrliga framit í guðs augliti, þat er þeir váru skyldir til. En svá mjök sem hann vandaði firir öðrum, þá gerði hann sjálfr allt bezt at, svá at náliga kunnu þat allir skilja frá öðrum flestum lærðum mönnum, hve ágætliga hann framdi í guðs augliti alla þjónastu, er yndi var í á at sjá ok heyra til. Þorlákr biskup kendi opt kenníngar, ok var þat af þí mikil mannraun, at honum var málit stirt ok úhægt, en svá váru orðin sæt ok val saman sett, at ávallt mátti þeim þat í hug koma er hans kenníngum lýddu, sem Davíð segir í psaltara, at „sætari eru mál þín, drottinn! í kverkum"

---

1) lagða, Sthb.

segir hann, „heldr en seimr ok hunáng í munni mínum". Þau hin sömu bar Þorlákr biskup fram guðs mál, með svá fögrum dæmum síns lífs, at þau máttu í enskis manns lífi honum samtíða jamdýrðlig[1] finnast. Þorlákr biskup vakti löngum um nætr, þá aðrir svófu, ok baðst firir rækiliga, at hann skyldi þat öðlast, er guð mælti: „sæll er sá þræll", segir hann, „er drottinn finnr vakanda, þá er hann kemr at vitja hans". Er þat ok ákveðit í guðs boðorðum, er hann mælir svá sjálfr: „vaki þèr", segir hann, „því at þèr vitið eigi á hverri tíð drottinn kemr", ok bar svá raun á, at Þorláki mundi þær tíðir sjaldan or hug gánga, af þí at þat hefir honum nú fram komit, sem guð hèt þeim, er opt urðu fundnir í skynsamligri vöku: at hann mundi setja þá yfir alla góða luti sína eptir þetta líf.

13. Heilagr Þorlákr biskup fastaði mjök, þá er hann var heima at stóli sínum, ok minntist hann á þat í þí, er drottinn sagði sjálfr í guðspjalli: at þat væri sumt kyn fjanda [at eigi mætti sigra nema með föstu ok bænahaldi; ok lèt hann þat því saman fara í sínu lífi, at hann vildi yfirstíga alla fjanda[2] freistni. Hann huggaði þá er áðr váru ryggir, ok tjáði þat firir þeim, er drottinn sjálfr mælti: [at sè sælir er nú sýta, ok þeir munu sjálfir síðarr huggast[3]; ok í öðru guðspjalli, er hann mælti við postula sína: „hrygðr yður mun snúast í fagnað", segir hann. Þorlákr biskup samþykti þá ok sætti, er áðr váru reiðir ok sundrþykkir, ok sagði þeim þat, sem sagt var ok satt er, at reiðin már mjök rèttsýni manna meðan hon fylgir, sem Páll postuli segir: at eigi á saman rèttlæti guðs ok reiði mannsins, ok í öðrum stað: „sigrastu eigi af illu, heldr sigraðu íllt með góðu"; þat er at sigra reiðina með þolinmæði ok gæzku. Þorlákr biskup sá opt á helgar bækr, ok las yfir helgar ritníngar, af þí at hann gleymdi eigi þí, er Jón postuli mælir í sinni bók: „sæll er sá, er les ok heyrir orð þessarar bækr, ok varðveitir þá luti, er á henni eru ritaðir". Hann kendi opt klerkum, bæði bækr at lesa, ok annat nám, þat er þeim var nytsamligt; sá hann, hve mikil nauðsyn á var gott at kenna, sem Davíð segir í psaltara: „komit þèr, synir! ok lýðit mèr, en ek man kenna yðr hversu guð skal óttast". Jafnan var

1) - ligr, Sthb. og 205.
2) frá [ b. v. eptir *B*.
3) frá [: sælir eru harmþrúngnir því at þeir munu huggaðir verða, 205.

sköðum, ok báru þau hann vel ok prúðliga, enda var svá sem ekki gjörði af því, ok þá vóxu fè þeirra, sem sær gengi á land. Páll var raungóðr ok fályndr, ok þýðr við alla vini sína ok alla góða menn, en hann var stirðlyndr við vonda menn, þjófa ok illmenni; stjórnarmaðr mikill var hann um alla hluti í sinni sveit, ok örr tilfara allstaðar þar er þurfa þótti hans tilkomu. Páll var goðorðsmaðr, ok hèlt hann svá alla sína þíngmenn til allra rèttra mála, at hvergi varð þeirra hlutr undir. Páll átti fjögr börn, þau er or barnæsku kómust, við Herdísi konu sinni: sonu tvá ok dætr tvær; synir hans hètu Loptr ok Ketill, en dætr hètu Halla ok þóra; þau vóru öll væn at[1] áliti, ok vel at sèr þegar þau vuxu upp. þorlákr biskup, móðurbróðir Páls, lagði á hann mikla virðíng, ok unni honum mikit ok bauð honum opt til sín. En þótt nokkurir höfðíngjar aðrir væri andstreymir þorláki biskupi, þá var Páll honum því traustari frændi ok fulltrúi, sem aðrir gengu meir undan. En þá þorlákr biskup andaðist, þá sýndi Páll enn sína [ástligri frændsemi[2] en flestir allir hans göfgir vinir.

2. Et næsta sumar eptir andlát þorláks biskups ens helga var Páll kjörinn til biskups; áðr var mjök löng tilræða um þat mál, en þar kom um síðir, at þat var lagt undir Brand biskup, mest at ráði Halls Gizurarsonar, en hann kaus Pál til utanferðar. En hann játti eigi brátt undir at gánga, ok gekk annarr til at öðrum at biðja hann, Brandr biskup ok svá bræðr hans ok aðrir hans ástvinir, en hann synjaði ok fór við þat heim af þíngi. Síðan fór hann í Odda til kirkjudags um Seljumanna messu, með mikilli áhyggju. En er allir voru á þrotnir at biðja hann til, ok hann sá, at þá var við öngva at bægjast, nema í mót guðs vilja væri, ok vildi hann þat víst eigi, þá er hann íhugaði sitt ráð: þá skaut hinn helgi andi honum því í hug, at leggja sjálfan sik í ábyrgð til þyrftar mönnum, ok gekk hann þá síðan röskliga undir þann vanda, er honum hafði áðr lengi hugr við boðit. En litlu síðar fór hann í Skálholt, ok Jón faðir hans með honum ok bræðr hans, ok tók þegar við öllum fjárforráðum staðarins. Hann bauð þá þegar þar at vera Gizuri

---

1) hèr vantar blað í 384.

2) þannig frá [ 384, eptir sem segir í Kmh. útg. en nú vantar hèr blað í; ást, 205; dygð ástligri, 204.

Hallssyni, er áðr hafði þar verit um daga Þorláks biskups hins helga, ok mest staðarprýði var at ok hýbýla bót, þeirra manna [er þar] væri. Páll lèt öll hin sömu fjárforráð vera í Skálaholti, sem áðr höfðu verit, en hann setti Þorkel prest Hallsson til kirkju varðveizlu, ok þá þjónaði honum, fyrst er hann kom út, en hann var síðan kanoki í Veri. Herdís varðveitti bú þeirra í Skarði ok börn þeirra öll, ok[1] öll auðræði þeirra, vel ok sæmiliga, meðan hann var utan, ok var þat almælt, at engi börn væri svá vel vanin, sem þeirra börn, í öllu hèraði, ok hèlt þat vel skapi meðan hon lifði, af því hon var allra kvenna vöndust, bæði fyrir sína hönd og annarra manna, sem opt bar raun á.

3. Páll fór utan hit sama sumar, sem hann var til biskups kosinn, ok var þá djákn at vígslum. Honum greiddist sín ferð vel, unz hann kom til Noregs, ok fór síðan til kaupángs í Niðarósi, ok var þar um vetrinn, unz leið jól, ok þóttist hverr þeirra manna bezt hafa, er hans sæmd ok virðíng gjörði mesta, því heldr, er göfgari voru, ok virðu þeir þá rètt. Eirekr erkibiskup var í Danmörku, þá er Páll kom utan til vígslu, ok var hann með Absaloni erkibiskupi, en Sverrir magnus[2] konúngr var austr í Vík, ok fór þaðan á Upplönd. En eptir jól fór Páll norðan or kaupángi á fund konúngs með sínu föruneyti, ok [var] þá með honum fjöldi konúngsmanna; en konúngr tók svá vel við honum, sem sonr hans eðr bróðir væri til handa honum kominn, ok gjörði svá mikla tign hans ok virðíng, sem hann mundi sjálfr kjósa, eðr hans vinir; en bæði var, at hann kunni betr en flestir menn aðrir ok hafði betri færi á, ok sló öllu við, því er til gæða var, er þeir mætti báðir göfgastir af verða.

4. Þórir biskup vígði Pál til prests í Hamarkaupángi; þat var á imbrudögum á lángaföstu, einni nótt eptir Mathíasmessu, ok fór hann síðan aptr til konúngs hina sömu nótt, ok var þá með honum, unz hann fór til Danmerkr, ok fèkk konúngr honum alla hluti, þá er hann þóttist hafa þörf á or landi. Konúngr lèt ok alla biskupa fá honum brèf sín með innsiglum, þá er í landi voru; fór hann síðan til Danmerkr um föstuna,

1) en, 205. 2) Magnússon, 205.

ok kom til Lundar páskadaginn fyrsta, á fund erkibiskupa, ok bauð Absalon honum þegar til sín, er hann kom, með hinni mestu sæmd, en beið hans at hámessu, þegar hann vissi at hans var þángat von. Var hann síðan með erkibiskupi um páskavikuna, ok var í hinu tíguligustu yfirlæti af þeim báðum, ok var þá þegar ráðin vígsla hans, af því þeir gátu brátt reynt þat, hverr skörúngr hann var, bæði at lærdómi ok vitrleik ok atgjörvi; en hann beið vígslu í múnklífi því, er heitir at Hèraðsvaði, ok var hann fyrr vígðr en þeir höfðu þó ætlað, er þeir skildust, ok kom þat mest til þess, at Knútr konúngr Valdemarsson lagði þau orð til, at hans ferð skyldi flýta, eptir því sem honum gengdi bezt, ok þeim mönnum, er hann skyldi biskup yfir vera, ok fór þat eptir annarri hans gæfu, at hinn göfugasti maðr virði hann þar svá mikils ósèn, at hann gaf þat ráð til, sem hann mundi sjálfr kjósa. Absalon erkibiskup vígði Pál til biskups Jónsdag biskups, viij nóttum fyrir Philippus messu ok Jacobus[1], at ráði Eireks erkibiskups, er eigi hafði þá sjálfr sýn til at vígja hann; voru biskupar við vígslu Páls biskups: Eirekr erkibiskup [ok] Pètr biskup af Róiskeldu. Páll biskup gaf gullhríng Absaloni erkibiskupi, en annan Eireki erkibiskupi, ok öllum öðrum nokkurar gersemar, þeim er studdu embætti hans vígslu ok tign. Celestinus var þá páfi, er Páll biskup var vígðr. Páll biskup var þá fertugr at aldri, er hann var til biskups vígðr; fór hann síðan til Noregs ok fann Sverri konúng í Vík austr, ok fór með honum til Björgvinar, ok var með honum unz hann fór til Íslands hit sama sumar, ok tignaði [konúngr] hann því meir í öllum hlutum, sem hann hafði lengr með honum verit, ok hann kunni hann gjörr. Allir virðu hann mikils, sem von var at, ok hans frændr voru allir þeir er göfgastir voru í landinu.

5. Páll biskup fór þá út til Íslands hit sama sumar, sem hann hafði vígðr verit til biskups, ok kom í Eyjafjörð, ok veitti hann þá þegar dýrliga veizlu Brandi biskupi ok öðrum sínum vinum, þeim er þar var við kostr, vín at drekka, ok öll önnur þau atföng, sem mest máttu verða. Sýndist þat þá þegar í fyrstu, sem opt urðu síðan raunir at, at hann undi þá ávallt bezt, er hann gladdi sína vini, sem flesta, ok vandamenn, í veizl-

---

1) Jónsm. Hólabiskups (23. apr.) bar þetta ár (1195) uppá 3 s. e. páska.

um virðuligum með ástúð ok skörúngskap. Hann hafði þá út með sèr tvá glerglugga at færa kirkjunni í Skálaholti, festarmeyju sinni andligri, ok sýndi hann þá þegar, þat er síðar kom enn meir fram, hvat honum bjó í hug, hversu mjök hann vildi þá kirkju prýða, um þat fram sem áðr var, er hann var til vígðr, þótt hon væri áðr gjörviligri ok dýrligri en hver annarra, er á Íslandi voru. Sú var hin fyrsta virðíng, er Páll biskup gjörði til síns stóls ok sinnar kirkju, um þat fram sem nè einn[1] biskup hafði gjört áðr, at hann söng enga messu áðr hann kom til stóls í Skálaholt; en í öllum löndum er sú virðíng á, at ekki sè minna vert at hlýða prestsmessu nývígðri, hinni fyrstu, heldr en biskupsmessu einhverri, en þetta mátti því meira, sem þá var bæði senn at hlýða prests messu ok biskups, ok dreif þá síðan fjöldi manna í Skálaholt til þeirra fagnaðar tíðinda, at hlýða messu Páls biskups hinni fyrstu. Þar voru þá margir göfugir menn viðstaddir: Jón Loptsson, faðir hans, Sæmundr ok Ormr bræðr hans, ok Gizurr Hallsson; ok var þar þá mikit fjölmenni. Biskup mælti þá lángt mál ok fagrt, ok hèt þá þegar því, sem flestir urðu fegnastir, at hann mundi öll boð þau bjóða, sem Þorlákr biskup hafði boðit. Þat mátti ok þá þegar brátt sjá, er hann tók yfirför um sýslu sína, hversu blíðr ok þekkr hann var við alla sína undirmenn, ok hversu óvant hann lèt gjöra við sik öllum, er honum skyldi beina vinna eðr aðra hluti, þá er skylt var hann at tigna; varð hann við þat svá ástsæll við alla alþýðu, at allir unnu honum hugástum náliga um allt land, bæði í sinni sýslu ok svá annarri sýslu eigi at síðr. Þat var ok auðsýnt, hve mikill fèmaðr hann mundi vera, fyrir sakir umsjá ok skörúngskapar[2] ávallt í sífellu. Páll biskup hafði einn vetr setið í Skálaholti, áðr Herdís, kona hans, kom þángat til umsýslu fyrir innan stokk, ok var honum svá mikil stoð ok styrkr at, bæði staðnum ok honum sjálfum, sem engi varð önnur slík af mönnum, meðan hann var at stóli. Svá var skörúngskapr hennar mikill ok umsýsla, at hon hafði fá vetr þar verit, áðr þar var hvervetna ærit nóg, þat er hafa þurfti, ok einskis þurfti [í bú[3]

1) neinn, 205.
2) þannig 384, sem byrjar hèr aptr; skörúngskap, 205.
3) þannig frá [ 384; aðra, 205.

at biðja, þótt C manna væri á búi, en LXX eðr LXXX heimamanna.

6. Páll biskup sá þat brátt, er hann kom til stóls í Skálaholti, at honum þótti þat skylt, at styðja ok styrkja ok til loka færa [þat] er hinn heilagi þorlákr biskup hafði sinn vilja sýndan, ok hann lèt kaupa til, en þat var at búa um klukkur þær, er hann hafði keypt til staðarins í Skálaholti, er þá voru beztar á öllu Íslandi; ok hann hafði ok iiij trè haft út með klukkunum, tvítug at hæð, álnum at mæla. Páll biskup fèkk til síðan þann mann, er hagastr var á öllu Íslandi á trè, er Ámundi Árnason hèt, ok lèt gjöra stöpul svá mjök vandaðan at efnum ok smíði, at hann bar eigi miðr af öllum trèsmíðum á Íslandi, en áðr kirkjan sjálf. Hann lèt gjöra kirkju uppi í stöplinum, ok rið upp at gánga, ok vígði hann þá kirkju hinum heilaga þorláki biskupi, hinn tíunda dag í jólum, ok bjó þá kirkju at öllu fagrliga, ok fèkk þar hvervetna til þat er hafa þurfti. Hann lèt Atla prest, skrifara, penta allt ræfr innan í stöplinum ok svá bjórinn, og tjalda allan it neðra, þrennum tjöldum, vel ok fagrliga, ok svá lèt hann skrifa yfir sèrhvers leiði þeirra niðrsetníng, hvers þeirra er þar hvíla í stöplinum. Hann lagði eigi minna fè til stöpulsmíðar, at því er honum hugðist sjálfum at, en iiij^c hundraða, eðr þaðan af meira. Hann keypti klukkur þær í stöpulinn, er hinar mestu gersemar voru jafnmiklar, at þeim manni norrænum, er Kolr hèt. Hann keypti enn fleiri klukkur til stöpulsins, ok svá samhríngjur tvær uppi í kirkjunni, ok prýddi hann í hvívetna, þat er hugum mátti hyggja, bæði kirkju ok stöpul í búníngi öllum, í bríkum[1] ok krossum, í skriptum, líkneskjum ok lömpum, ok glergluggum, ok í biskups skrúði allskyns. Hann lèt ok steinþró höggva ágæta hagliga, þá er hann var í lagðr eptir andlát sitt; ok hann lèt búa gröf[2] virðuliga í stöplinum, þeirra manna, er honum þótti mestr vandi á.

7. Á enu þriðja ári biskupsdóms Páls biskups, andaðist Jón Loptsson, faðir hans, allra heilagra dag, sá maðr, er þá var göfgastr höfðíngi á öllu Íslandi. Hann virði sèr þat mikit niðrfall vera, er þá var þess manns við misst, er mest mátti hans virðíng hefja ok styrkja, ok var skyldastr til allra manna. En allsvaldandi guð, er hans gipt ok gæfu lèt ávallt vaxa dag frá

1) þann. 384; kirkjunni, 205. 2) þann. 384; „gröft", heldr en „gröf", 205.

degi, en aldri mínka, gæddi svá hans virðíng, at engi maðr hafði áðr á Íslandi orðit af sínum frændum jafngöfigr ok tiginn, sem hann varð þá af sínum náfrænda, þorláki hinum helga biskupi, af því at þá birtist dýrð hans ok heilagleikr, fyrst fyrir norðan land, ok þar eptir um allt Ísland, ok öll lönd önnur, þau er í nánd voru. En þótt Páll biskup yrði þessum tíðindum fegnari en flestir aðrir, þá fór hann svá varúðliga[1] með því máli, at hann hafði alla[2] höfðíngja ok hina vitrustu menn fyrir sèr mest um þetta atkvæði ok meðferð þessa máls; ok var þat eigi trútt[3], at eigi legðist sá orðrómr á af nokkrum mönnum, at hann vildi þetta mál lítt á lopt færa, af heilagleik hins sæla þorláks biskups; en honum kom þó þat til, at hann vildi svá launa guði dýrð þá, er hann lèt verða á hans dögum, er áðr hafði aldri slík orðit, at hann vildi þá meðferð alla hafa, er ván var at guði mætti bezt þykkja. þótti honum vanfært með vera, sem var, at mundángs mikit væri aftekit í fyrstu, ok eigi mætti at sönnu at finna; en engi trúði fyrr nè framkvæmdi[4], en hann, dýrð ok heilagleik hins sæla þorláks biskups, þótt hann færi með varúðligar en aðrir; en þó var þat allra manna ráð hinna vitrustu, með orðsendíngu Brands biskups, at [helgr dómr[5] þorláks biskups væri upptekinn or jörðu hit sama sumar, eptir því sem hann hafði sjálfr fyrir sagt í berri[6] vitran þorvalds prests á jólum hinum næstum áðr. Eptir þíng þat hit sama sumar, er þetta var ráðit, sendi Páll biskup orð Brandi biskupi, ok bræðrum sínum Sæmundi ok Ormi, ok sonum Gizurar Hallssonar: þorvaldi ok Magnúsi, þorleifi þorlákssyni or Hítardal, móðurföður Herdísar[, Katli syni hans[7], þorláki Ketilssyni, bróður Herdísar, Guðmundi presti Arasyni, er síðar varð biskup á Hólum, ok mörgum öðrum sínum ástvinum. Páll biskup gjörði dýrliga veizlu þeim mönnum, er þar komu, ok var þar þá síðan tekinn upp or jörðu heilagr dómr hins sæla þorláks biskups, ok búit þá um virðuliga sem sómdi, eptir forsjá ok fyrirsögn Páls biskups, ok fylgðu jarteinir þá þegar þar stórar, sem sagt verðr í sögu hans, ok var þat dýrð hans en gæfa Páls biskups.

---

1) þann. 384; vandliga, 205. 2) þann. 384; allra, 205.
3) þann. 384, (afbakað: trundtt sa orðröm[2]); trautt, 205.
4) framar, 384. 5) frá [ helgidómr, 205. 6) þann. 384; þeirri, 205.
7) frá [ Ketilsdóttur, 384.

8. Hit næsta sumar eptir var leiddr í lög messudagr Þorláks biskups um allt land, ok sett fasta fyrir, tveggja dægra. Eptir þat sóktu menn þángat of allt land, at dýrka hinn sæla Þorlák biskup, í vökum ok föstum, í bænahaldi ok fègjöfum, ok svá sóttu ok þeir menn þángat, er í förum voru, á hverjum misserum fjölmennir, bæði útlenzkir menn ok íslenzkir, ok færðu [heit sín þar[1], er þeir höfðu heitið, ok seldu í hönd Páli biskupi ok sögðu honum sèrhverja atburði sinna áheita ok jarteina þeirra, er þeir þágu á móti, ok voru honum þat ávallt feginsögur. Þeir báru allir á brott sannar raunir heilagleiks ok dýrðar hins sæla Þorláks biskups, en rausn ok stórmennsku Páls biskups; en þó áðr væri mikil virðíng Páls biskups, sem verðugt var, áðr upp kæmi helgi Þorláks biskups, þá gæddi þat ímjök metorð hans, er hann átti sanngöfugastan móðurbróður, ok væntu margir, at hit fornkveðna mundi sannast: at „móðurbræðrum verði menn líkastir", ok þótti þar líkindi mörg á gjörast, at þar mundi ok svá vera, af því at hann gjörði marga hluti eptir því, sem hinn sæli Þorlákr biskup hafði gjört. Hann var ráðvandr ok rækinn at tíðagjörð; hann var meinlætasamr í föstum ok í klæðabúníngi; hann hafði ok ákenníng allra hluta þeirra, er hann mátti varr við verða at hinn sæli Þorlákr biskup hafði í sínum háttum, lítilæti ok ölmusugæði, harðlífi ok þolinmæði, sem hvárrtveggi þeirra varð í raun margri ok mikilli í sínum biskupsdómi.

Þá er Páli biskupi þótti nokkut safnast ok samandragast fjárhlutr sá, er menn gáfu af góðvilja hinum sæla Þorláki biskupi, þá sýndi hann þat brátt, hvat honum bjó í skapi. Hann keypti þá síðan við gullsmið, þann er Þorsteinn hèt ok þá var hagastr maðr at málmi[2] á öllu Íslandi; en svá urðu tilföng af hans hendi, at ekki skorti þat er hafa þurfti til þeirrar smíðar, er hann vildi smíða láta. Hann lèt taka til skríngjörðar, ok lagðist þar til ógrynni fjár í gulli ok gimsteinum, ok í brendu silfri. Hann lagði þar ok eigi minna fè til skrínis ok smíðarkaups, með tillögum annarra manna, en iiij^c hundraða. Þat smíði var mjök svá vandat, at þat bar eigi minna af öðrum skrínum, þeim er á Íslandi voru, um fegrð en um vöxt, ok var þat betr en þriggja álna, en ekki var annat betr en álnar

1) frá [ í hvert sinn þat, 384. 2) þann. 384; málan, 205.

lángt, þeirra er þá voru á Íslandi. Engi man spyrja þess vitra manna, er skrínit sèr, hvert stórmenni sá maðr hefir verit, er þá gersemi hefir gjöra látið, eða til hvers hann hefir ok færr verit fyrir efna sakir.

9. Á dögum Páls biskups kom utan af Grænlandi Jón biskup, ok var í Austfjörðum um vetrinn, en kom síðan á ofanverðri lángaföstu í Skálaholt, á fund Páls biskups, ok kom þar at skírdegi, ok vígðu þeir báðir [mikinn *crisma*[1], ok höfðu þeir margar tölur trúligar ok spakligar ræður sín á milli. Páll biskup tók við honum með hinni mestu sæmd, ok veitti honum virðuliga veizlu meðan hann var, en leysti hann á brott með mikilli stórmennsku, bæði í fègjöfum ok í annarri virðíng. Jón biskup gaf mönnum ráð til, hversu vín skal gjöra af krækiberjum, eptir því sem Sverrir konúngr hafði honum fyrir sagt. En svá bar til, at þá hit næsta sumar eptir gat nær hvergi[2] ber á Íslandi; en sá maðr er Eirekr hèt, ok bjó skamt frá Skálaholti, á bæ þeim, er heitir á Snorrastöðum, bar saman nokkut vín, ok varð vel, á því hinu sama sumri. En Jón biskup fór til Noregs ok síðan til Róms, ok ræddi hvervetna, þar sem hann kom, frá rausn ok tign Páls biskups.

Á dögum Páls biskups, þá er Gizurr Hallsson hafði lögsögu, þá gekk mest af sèr ránglæti manna um álnir, bæði útlenzkra ok íslenzkra manna, at eigi þótti svá lengr vera mega; gaf [þá] þat ráð til Páll biskup, at menn skyldi hafa stikur, þær er væri tveggja álna at[3] lengd[4]. Styrktu þá aðrir höfðíngjar með biskupi, Gizurr ok synir hans: Þorvaldr [ok Hallr[5] ok Magnús, þat mál; einnig bræðr hans: Sæmundr, er þá var göfgastr maðr á öllu Íslandi, ok Ormr, er bæði var lögspakr ok at flestu forvitri, ok allir höfðíngjar, ok voru þá lög á lögð, eptir því sem ávallt hefir haldizt síðan[6].

10. Á hinu sjöunda ári biskupsdóms Páls biskups and-

---

1) þannig frá [ 384; biskupar, 205, sem mun vera afbökun úr „crisma". Í pápisku var siðr að vígja á páskum allt það crisma (viðsmjör), er hafa skyldi árið um kríng. 2) þann. 205; hver, 384.

3) þessu orði „at" b. v. 384, en í 205 er það ekki.

4) ok möttu þat menn mikit ok kváðust undir þat mál, b. v. 384.

5) frá [ b. v. 384.

6) Gizur hafði lögsögu 20 ár (1181-1201); þetta hefir því gjörzt fyrir 1200. svo undir 20 ár geta legið á milli þessa nýmælis og þess, að sagan var rituð.

aðist Absalon erkibiskup í Danmörk, Benedictusdag; ok á því hinu sama ári andaðist Brandr biskup, Sixtusdag, þá er hann hafði biskup verit átta vetr hins fjórða tigar, hinn mesti skörúngr. Eptir andlát Brands biskups kjöru Norðlendíngar til biskups Guðmund prest Arason, ok fèkk Páll biskup honum brèf sín á fund Einars erkibiskups, ok var Guðmundr vígðr til biskups í Þrándheimi, X nóttum fyrir Jónsmessu biskups[1] ok var þá Hákon konúngr í Noregi, son Sverris konúngs. Guðmundr biskup fór til Íslands hit sama sumar, ok kom í Austfjörðu, ok fundust þeir Páll biskup, ok gjörðu mikla sæmd sín í milli í veizlu ok fègjöfum. Síðan fór Guðmundr biskup til Hóla, ok sat þar at stóli með óhægindum hinum mestum fyrir margs sakir. Auðræði urðu brátt ei mikil, en afvenslur[2] þóttu varla með mikilli stillíngu, en þeir sem fyrir urðu virðu hann heldr stirðan ok stríðan í sínum boðorðum, en því vinsælli varð Páll biskup ok ástsælli við alþýðu landsmanna, sem menn sá[3] hvervetna hans forsjá, en hægindi hans viðrvistar ok boðorða við alla, þá er til hans áttu hníga, ok æsktu sèr slíks yfirboða allir landsmenn, ef kosti ætti.

11. Páll biskup lèt telja í þeim þrimr fjórðúngum lands, er hann var biskup yfir, kirkjur þær er [at skyldu[4] þurfti presta til at fá, ok hann lèt presta telja, hve marga þyrfti í hans sýslu, ok voru þá kirkjur XX ok CC tíræð, en presta þurfti[5] þá X miðr en CCC tíræð. En því lèt hann telja, at hann vildi leyfa utanferð prestum, ef ærnir væri eptir í hans sýslu; en hann vildi ok fyrir sjá, ef svá fèlli, at eigi væri prestafátt í hans sýslu, meðan hann væri biskup.

12. Á hinu tólfta ári biskupsdóms Páls biskups urðu þau tíðindi, er mikils voru verð: þá andaðist Gizurr Hallsson,

1) Eptir þessu er vígsludagr Guðmundar 13. april, en árið 1203 bar þann dag einmitt upp á 1. s. e. páska. Í Guðmundar s. segir, að hann væri vígðr á Evfemiu dag. — Evfemíudagr sá, sem almennast hefir verið haldinn, er 16. Septbr., en það er um haust, og 16. Septbr. bar ekki heldr uppá sunnudag árið 1203, enda segir og í sögu Sturlu, að Guðmundr væri vígðr um vor, svo hèr verðr að vera meintr Evfemíudagr á vor, líklega sá sem sumstaðar hefir verið haldinn 13. apr. Allir annálar setja vígslu Guðmundar 1203, en hann fór utan til vígslu 1202 að áliðnu sumri, því Brandr biskup andaðist 6. águst 1201.

2) Þann. 205 (=afvinnslur); afvinnur, 384. 3) Þann. 384; sjá, 205.
4) Þann. frá [ 384; hann, 205. 5) Þann. 384; þyrfti, 205.

tveim nóttum fyrir Ólafsmessu[1]. Um hann mælti Sæmundr, bróðir Páls, þeim orðum: at hann væri „hrókr alls fagnaðar, hvárgi er hann var staddr". þá kom eldr upp í Heklufelli hit þriðja sinn, þrim nóttum fyrir Ambrosius dag of vetrinn[2] eptir. Páll biskup var svá mikill gæfumaðr, at honum gengu náliga allir hlutir at sölu hinn fyrra hlut æfi sinnar, ok þá hann svá þat, sem nú má nokkut heyra í hjúkólfi þeirrar frásögu, er ek hefi frá sagt: eigi marga hluti hjá því sem efni eru til: at hann[3] þótti öllum mönnum ástgoði[4]. En allsvaldandi guð gæddi hann því meir, er ofarr var, bæði at auðræðum ok mannvirðíngum. En ef þat ætla nokkurir menn, at fyrir ástar sakir hafi ek meira af tekit um frásögn æfi ok lífs[5] Páls biskups, en efni sè til seld, þá geta[6] þeir eigi rètt, því þat stendr mèr meir í hug, at ek hafa margt merkiligt látið eptir liggja í frásögn hans æfi, fyrir fáfræðis sökum ok ógá, ok leti at rita, heldr en þat, at ek hafa neitt logit í frásögn.

þann gæfuhlut bar enn Páli biskupi til handa, þá er mönnum þrengdi óáran, ok biluðu mönnum sáð ok sæföng ok vel flestr vetrar viðbúnaðr, ok rostaðist af því forlag fènaðar[7] fyrst, ok síðan manna: þá tók hann þat ráð, með ásjá þorvalds Gizurarsonar ok annarra vitra manna í sinni sveit, at heita á guð ok helga menn til árbótar, at sýngja iij. *Pater noster* hvern dag til dýrðar guði í[8] minníng hins helga þorláks biskups, ok gefa hans dag um sumarit sauðanyt at morgin máli, [ok] vöndul heys af kýrfóðri hverju, en mörk af mjölvætt hverri, ok kom aldri síðan hallæri meðan hann lifði. En af því guð vill eigi ávallt eptirlæti einu reyna sína ástvini, heldr vill hann sína menn algjörva verða láta í freistninni ok mannraununum, ef vel standast, sem hafa raunir af orðit. Nú er Páll biskup skein í þeim blóma, at hans virðíng ok vegsemd gekk ávallt í vöxt, en Herdís aflaði þeirra hluta allra í sínum skörúngskap ok forsjá, er staðrinn þurfti, í öllum gjörníngi þeim er hafa þurfti, at hon var allra[r][9] umsýslu nákvæmst, þeirra manna

1) Gizurr andaðist 27. Juli 1206, og mun þá hafa verið um áttrætt.
2) þ. e. 4. decbr. 1206; þá gaus Hekla þriðja sinn.
3) þann. 384; þat, 205. 4) þann. 205; ástgóðr, 384.
5) þann. 384; lif, 205. 6) getg.; gjöra (gera), 205.
7) þann. 384; fènaður, 205. 8) b. v. 384. 9) í allri 384.

er þar var heima at stað, ok at öllum öðrum búum, þeirra er biskup átti. Börn þeirra gjörðust atgjörfimenn þegar á únga aldri: Loptr í hagleik ok lærdómi ok vitrleik, Ketill í skilníngum ok riti, Halla í verknaði ok bókfræði, Þóra í hlýðni ok ástsemi. En af því guð mælir svá í guðspjalli, at allt mál skal standa í[1] tveggja eðr þriggja vitni, þá ber ek fram með mèr vitni Ámunda smiðs, er bæði var[2] merkr ok rèttorðr. Hann kvað vísu þessa:

Lopt eflir guð giptu,
gengr fæst af því, hæstri;
kænn styðr krapti sínum
Ketils lán jöfurr mána;
æztr ljær æfi beztrar
alls drottinn þèr Halla!
dýrr magni þrif Þóru
þengill höfutengla.

Slíku gekk of þeirra hagi ávallt, meðan þau áttu of heilt at sitja.

13. En þá er Páll biskup hafði setið at stóli xij vetr í Skálaholti, þá varð sá atburðr, at Herdís fór heiman várit eptir páska, í Skarð, til bús þess er þau biskup áttu, ok skyldi hon taka hjónum ok um aðra hluti þá sýsla, er þar þurfti. Henni fylgdu börn hennar tvö, Ketill ok Halla, en heima var með biskupi Loptr ok Þóra. En þá er Herdís var í Skarði, þá gjörði vatnavöxt mikinn og gjörði ána Þjórsá óreiða; en hon vildi heim koma at nefndum degi, af því margt var þat heima óráðit, er ætlat var at hennar skyldi bíða. Lèt hon síðan sækja skip ok færa til árinnar, ok fara þau síðan til skipsins: Herdís, Ketill ok Halla, ok Jón bróðir Herdísar, ok Björn hèt prestr, kapellan biskups, sá er þeim fylgdi[3]; Þorsteinn hèt djákn or Skarði, Guðrún Þóroddsdóttir ok systurdóttir Herdísar. Yfir ána fór fyrst Ketill ok Björn, fararskjótar ok reiðíngar þeirra; þá týndist reiðhestr Herdísar. Hit efsta sinn, er yfir ána skyldi fara, var á skipi: Sigfúss[4] Grímsson, Þorsteinn djákn, Herdís ok Halla ok Guðrún, en veðr nokkut byljótt. En er þau komu í straum þann, er skamt var

---

1) undir, 384.

2) Þetta er varla svo að skilja, að Ámundi hafi þá verið andaðr; hann andaðist eptir konúngs annál 1229.

3) þann. 384; bygði, 205. 4) prestr b. v. 384.

frá landi, því er þau skyldi til fara, þá barst þeim á ok kastaði skipinu undir þeim; en þau fóru öll í kaf ok komu öll upp síðan, ok var þat heyrt til beggja þeirra mæðgna, at þær súngu, ok fálu sik ok sálir sínar guði almáttkum á hendi; skildi þar þá feigan ok úfeigan: Sigfús[1] sveif at landi, en Herdís, Halla ok Guðrún druknuðu, ok Þorsteinn djákn, en Sigfús var þrekaðr mjök, er hann kom at landi; en ekki var þeirra manna á landi, er knáleikr var yfir. En almáttigr guð endi öll sín fyrirheit, sá er því hefir heitið, at hann mundi gefa huggun með hverjum harmi, ok hann mundi einskis framar freista, en hverr mundi bera mega, [þess hann bíðr[2], ok sýndi guð þat hvárttveggja í þessum hinum hörmuliga atburð: þá huggun brátt með harmi, at hinn sama dag fundust öll lík þeirra manna, er þar höfðu farizt, ok var sú huggan þá mest þeim er eptir lifðu; en þat var *þó lítt með líkindum, nema guð gæfi af sinni mildi* ok miskunsemi, af því svá var vatnavöxtr mikill, at fám nóttum síðar rak hestinn í Vestmannaeyjar, þann er þar hafði farizt. En er þessi tíðindi komu til eyrna Páli biskupi á náttarþeli váveifliga, þá sýndist öllum, at guð hefði nær ætlat, hvat hann mundi bera mega. Hann mátti ekki mat[ar] neyta, ok hann hafði ei svefn, áðr líkin voru niðr sett, en þó leitaði hann alla [at] gleðja í því er hann mátti; en þó má hverr ætla, hvílíka mannraun hann hafði: hafa misst með hörmúngu mannsins þess, er hann unni mest, en sjá í sífellu hrygð á börnum sínum, ok öllum þeim, er hann átti fyrir at hyggja. Stilliliga fór hann með allri eptirgjörð eptir þær, bæði í fègjöfum við kennimenn ok svá við fátæka menn, ok sá hann þat sem var, at um allt þat er miklu varðar er betri sígandi arðr en snúandi. Ártíð Herdísar ok þeirra manna, er líf sitt lètu með henni, [er] xiiij nóttum eptir Crucis messu um várit, ok var þat margra manna skylda, lærðra ok ólærðra, at minnast hennar svá rækiliga ok ástsamliga, sem hinna skyldustu náúnga, fyrir sakir margra hennar dýrligra matráða. Páll biskup veitti Þorláki, bróður Herdísar, mikla huggan, bæði í orðum ok stórmannligum fègjöfum, þeim er hann gaf honum, ok virði í öllum hlutum ekki minnr, en áðr hann missti hennar við; huggaði hann[3] þat allt ekki miðr eptir fráfall hennar en sitt lið. Þóra dóttir

1) Sigfúsi presti, 384. 2) þat hann býðr, 384. 3) b. v. 384.

hans[1] tók til forráða fyrir innan stokk eptir fráfall móður sinnar, með ástsamligri ásjá föður síns, ok var hon þá eigi eldri en xiiij vetra gömul, ok bar hon þat þó fram, svá at þeim virðist öllum bezt hennar hættir[2], sem kunnast[ir] voru. Biskup drap svá brátt yfir harm sinn, þann er hann hafði beðit, at flestir menn þóttust lítt á finna; en þó megu allir þat at líkindum ráða, at meir olli því þolinmæði hans ok þat hann vildi sæma[3] við alþýðu í sínu blíðlæti, en þat, at honum gengi or hug sá harmr meðan hann lifði.

14. Páll biskup lèt sjaldan, nema þá er hátíðir væri, kenna kenníngar hjá því sem áðr var, ok virði[4] hann þá enn öllum meira [um vera, at sjaldan næði[5]; en hann lèt náliga hvern helgan dag tvær messur sýngja; fjóra daga kendi hann sjálfr kenníngar á hverjum xij mánuðum: jóladaginn fyrsta ok miðvikudaginn fyrstan í föstu, skírdag ok kirkjudag, en því at eins fleiri daga, at honum þætti nokkur nauðsyn til bera. En því get ek slíkra hluta við, er ólíkt hafa gjört þeir menn, er auðvandastir eru ok vel kunnu, ok þat er mest gæði þeim er eptir lifa, at menn megi þeirra dæmi sem flest vita, er öllum sè gott eptir at glíkja. Á hverjum gistíngarstað hafði hann formála sjálfr, eða fèkk annan mann til, þá er hann hafði yfirför um sýslu sína nokkut; þjónuðu honum ymsir menn, fyrst Þorkell prestr Hallsson, góðr kennimaðr ok ráðvandr, nokkura vetr, unz hann rèðst [í] kanokasetr. Eptir þat þjónaði honum Leggr prestr vij vetr, en síðan norðlenzkr prestr, sá er Björn hèt, lítill maðr vexti, en þó vitr ok vel lærðr ok fóstri Brands biskups; hann fór utan síðan. Eptir þat þjónaði honum Brandr prestr Dálksson, er áðr hafði enn biskupum þjónat, Brandi ok Guðmundi biskupum. Ketill prestr Hermundarson[6] var ok hans þjónustumaðr, áðr hann andaðist, ok hann varðveitti at staðnum kór[7] ok kennimenn eptir fráfall Páls biskups. Af því lètu hinir fyrri biskupar sèr hinn

1) Þóra biskups dóttir, 384. 2) þann. 384; hættum, 205.
3) 384; sæmða, 205. 4) þann. 384; undi, 205.
5) frá [ at vera, er sjaldan heyrði, 384.
6) þann. 384; Hámundarson, 205. Ketill þessi mun hafa verið sonr Hermundar Koðranssonar á Gilsbakka.
7) þann. 384; konur, 205.

sama þjóna ávallt, hverr þeirra, at þeir sýndu staðfesti ok jafnlyndi skaps síns í því, sem í mörgu öðru. En því lèt Páll biskup sèr ymsa þjóna, at honum þótti því betr, er fleiri tignuðust ok göfguðust af honum, en hvers sæmd var með góðri virðíngu meðan honum þjónaði, hvat sem fyrir lagðist síðan.

15. Í þann tíð Herdís andaðist tóku til vandhæfi mála Norðlendínga, Guðmundar biskups ok Kolbeins Tumasonar; en svá sem vitað er, at alla landsmenn tóku með miklum óhægindum þeirra[1] vandræði, þá sat þó Páll biskup fyrstr allra manna fyrir þeim vanda, er ekki var áðr í Norðlendíngafjórðúngi; en hann var í svá vandan sess kominn um þat mál, því erkibiskup hafði sent honum brèf sín með innsiglum, at hann skyldi styðja ok styrkja, eptir því sem hann hefði föng ok færi á, mál Guðmundar biskups, en Kolbeins mál studdu margir ástvinir Páls biskups, ok frændr ok tengdamenn, þeir er hann vildi í öllu ástúð sýna, en [mót þeim ekki[2] gjöra; en þeim ráðum var eigi hægt saman at koma, er Guðmundi biskupi þótti sèr eigi veitt vera, nema Páll biskup stæði á öndverðan meið með honum, ok hann virði hvárki mennina nè landslögin, en forboðaði eðr bannsetti hvern þeirra, er nokkut vildu móti hans vilja gjöra. En Páll biskup var í mörgu sinni góðr í biðum, þótt eigi væri allt eptir því gjört, sem hann sá at bezt sómdi, ok gjörði hann sèr ok guði þann veg marga at ávexti, at [hann] hirti aðra hógliga, en þó nentu eigi aðrir ávallt illa at hafa; en Guðmundr biskup vægðist eigi við þá menn meir, er í Páls biskups sýslu voru, at eigi forboðaði hann þá, eðr bannsetti, þegar er þeir dæmdu þá dóma, er honum voru eigi [við] skap[3], þótt lögdómr væri. En Páll biskup lèt eigi þau ummæli bíta menn; en þó lagði hann á hönd þeim nokkura litla skript, til varúðar þeim mönnum, er fyrir því urðu eðr ánetjuðust hans banni, af því at hann unni betr sínum mönnum at hafa [*tvö góð*[4], heldr en [*sitja í nokkurum ifa*[5] hvárt þeim mætti þat nokkut granda eðr ekki. En er þeirra vandræði gengu svá mjök af sèr, at þeir áttu bardaga þann er Kolbeinn fèll í ok margir aðrir neytir menn, bæði lærðir ok ólærðir, en lètu

1) þann. 384; þetta, 205. 2) þann. leiðr. frá [; mjök þeim ekka, 384, 205.
3) sköp, 384. 4) frá [ nokkuð, 384.
5) þann. frá [ 384, nema það handr. hefir „ótta". í staðinn fyrir „ifa"; sýna nökkrum ótta ifa, 205.

limar sínar þeir er eptir voru; en eptir þat gerðu þeir biskup atfarir at þeim er eptir lifðu ok nánastir Kolbeini, ok [stöktu þeim[1] í brott, en eignuðu sèr öll þeirra fè, en kölluðu þá í banni. En er Páll biskup varð þessara ótiðinda víss ok varr, þá bað hann sína vini, at þeir skyldi eigi gera bráða atför at þeim, ok bar þat til þess, at hann vildi vænta, at [blóðnætr sè[2] hverjum bráðastar, ok þat mundi sannast, sem mælt er, ok ætlaði með meiri stillíngu ok ráði farit verða, ef lengi væri biðat. En hann vænti í öðru lagi, at Guðmundr biskup mundi missmíði á sjá, hvat mikit af var vorðit, ok mundi bjóða góð boð til sættar ok sæmdar þeim er eptir voru. En er þat drógst undan, en spurðist í öðru lagi ágángr þeirra á hendr mönnum, ok rán ok áverkar ok allskyns óhættir náliga, þá sendi Páll biskup kapellan sinn Björn til fundar við Guðmund biskup, at biðja, at hann leiðrètti ok lægði vandræði þeirra með yfirbótum, ok bauðst til undirstöðu með honum náliga sem þyrfti, ef hann drægist eigi sjálfr undan sinn góðvilja ok sín efni, þau er hann hefði föng á, í auðræðum eðr í öðrum tillögum; var þat auðsýnt [á lètt hvárttveggja: letorð[3] Páls biskups norðrfarar höfðíngja fyrst um haustið, meðan harmr manna var nýjastr og sízt dofnaðr af sárleik manna missis ofvegs[4], en síðan þess umleitan[5] við Guðmund biskup, at hann unni þeim, [er] eptir lifðu sína frændr göfuga ok góða, auðveldri leiðrètti sinna harmsaka en nú [yrði, en[6] vildi firra háska, meðan kostr væri, Guðmund biskup ok hans fylgðarmenn[7]; en Guðmundr biskup þekktist þat ekki, ok virði hann vera vinhallan undir höfðíngja í slíkri umleitan. En þat sýndist þá brátt, með hverri vizku at var hvers þeirra forsjá, af því at á sama ári fóru höfðíngjar til Hóla ok ráku Guðmund biskup af stólnum, ok ruddu á braut fjölda illþýðis, er þar var: sekir menn ok ránsmenn ok reyfarar, ok drápu suma, ok varð þá at rjúfast sú illíngaseta, ok urðu þá ok þaðan frá góð forlög manna. Páll biskup

1) frá [ leiðr.; stökku þeir, 384; stukku þeir, 205.

2) þannig 384; frá [ blóðæsir eðr blóðnætr væri sèrhverjum bráð., 205.

3) frá [ lagað eptir getgátu; á leyt hvorutveggja leytorðe, 205; á lètt hvertveggja. lietorð, 384.

4) ofvegr = óvægr, sbr. Ýnglinga tal; þannig er ofljóst = myrkt.

5) þann. 384; var leitað, 205. 6) frá [ þann. 384; virði (vyrði?) ok, 205.

7) þann. 384; fylgðarmönnum, 205.

bauð til sín Guðmundi biskupi með gæzku ok góðvilja; þág hann þat eigi, ok gjörði at viðsjám at finna hann, því hann vildi eigi hlýða hans heilráðum.

16. Í þann tíð fór utan Loptr, son Páls biskups, ok sótti heim tigna menn í öðrum löndum: Bjarna biskup[1] í Orkneyjum, en eptir þat Ínga konúng í Noregi ok Hákon jarl, bróður hans, ok þág af þeim virðuligar gjafir ok fèmiklar. En er biskup sat í þeirri áhyggju um son sinn ok um frèttir aðrar, hversu þá gengi, þá gladdi guð hann svá á einu sumri, at Loptr kom þá út með góðri virðíngu ok fèmiklum gjöfum, er hann hafði þegit, ok kunni þat at segja, at hann hefði föður síns mest [at] notið hvar sem hann kom.

Á því sumri komu út gersemar þær, er Þórir erkibiskup af Noregi hafði senda[r] Páli biskupi: kóróna gullsaumut, sú er engi hafði fyrr jafngóð komit til Íslands, fíngrgull dýrligt ok glófar virðuligir. En annat sumar eptir, [þá er Páll biskup hafði 16 vetr at stóli setið í Skálaholti[2], þá komu enn út gersemar ágætligar, er Nikulás biskup af Oslo sendi Páli biskupi: fíngrgull mikit, er vá ij aura, ok steinn í virðuligr; ok hann sendi honum balsam svá mikinn, at ván var at þat vyrði aldrei at vandræðum síðan; en ekki var annat jafntorogætt[3], er at skyldu þurfti at hafa; hafði þat ok kostað eigi minna en nokkurar merkr brends silfrs. Þess er ok skylt at geta, at Páll biskup sendi ok margar gjafir utan sínum vinum; bæði voru þat valir ok aðrar gersemar. Hann sendi Þóri erkibiskupi biskupsstaf, af tönn gjörfan, svá hagliga, at engi maðr hafði fyr sèð jafnvel gjörvan á Íslandi, er smíðat hafði Margrèt hin haga, er þá var oddhögust allra manna á Íslandi. Þau voru þá bæði hjú í Skálaholti, er Páll biskup andaðist, ok hafði Þórir prestr, bóndi hennar, þar þá öll fjárforráð, en hon gjörði slíkt allt sem hann[4] vildi. Páll biskup hafði látið tiltaka at gjöra tabolu fyrir altari, áðr hann skildi við, ok ætlaði þar til mikit fè, bæði í gulli ok silfri, ok Margrèt gróf ok tönn til ágæta-

---

1) skyldi Bjarni biskup hafa verið í ætt við Haukdæli eðr Oddaverja? Hann var mikið skáld, en það voru í það mund fáir eða engir aðrir en Íslendíngar.

2) frá [ b. v. 384, en v. í 205, og hefir líklega verið hlaupið yfir eina línu.

3) svo segir Hólmgöngu Bersi: torogætir svá — vinir tryggvir, Korms. c. 12.

4) biskup, 384.

vel, ok er þess ván, at þat mundi hin mesta gersemi verða af fyrirhyggju hans, en þau þorsteinn skrínsmiðr ok Margrèt semdi[1] síðan af hagleik sínum. Varð þat mikill svartasvipr at hans fráfalli, ok þá urðu slíkir hlutir fyrst staðar at nema í bráð fyrir annarra fjölskylda sakir. þorsteinn var ráðinn til tabolu smíðar. þat sumar hit sama, er biskup lifði síðast, kom út húfuviðr or Noregi, sá er Páll biskup hafði höggva látið, ok þá gaf hann í hönd öll kaup þau til staðarins, er at skyldu þyrftu at hafa.

17. Nú eru sagðir þeir hlutir, er vel fèllu í hag á því sumri; þá skal ek geta þeirra hluta, er mjök þóttu andstreymir: þá varð landskjálpti mikill, hinn næsta dag fyrir Seljumannamessu, ok lètu margir menn líf sitt, ok fèll ofan alhýsi á fjölda bæjum ok gjörðu hina stærstu skaða. þá var ok þerraleysi hit mesta ok urðu stórskaðar á því. þá var ok sagt út andlát Klængs þorvaldssonar, er hinn vænsti þótti til mikils höfðíngja ef lífi hèldi.

þat sumar tók sótt ok óhægindi mikil Páll biskup, þá er hann fór um Vestfirðíngafjórðúng, ok komst hann nauðuliga til Hítardals; lá hann þar í rekkju náliga fjórar vikur; síðan fór hann heim með litlum mætti, ok kom heim í Skálaholt þrimr nóttum fyrir Símonsmessu, ok lagðist þá þegar í rekkju; hann söng messu allra heilagra messudag ok söng þá síðustu messu guði almáttigum til dýrðar ok öllum helgum, en sèr til hjálpar ok miskunnar, ok öllum kristnum mönnum, lifendum ok önduðum. En fyrir Marteinsmessu tók at óhægjast með verkjum miklum sótt hans, og fylgði bæði svefnleysi ok matleysi, ok þótti hann þá einrænn vera. þar voru þá synir hans ok bræðr, ok margir aðrir vinir hans. Eptir þat sendi Páll biskup eptir þorvaldi ok Magnúsi Gizurarsonum, ok komu þeir í Skálaholt, ok skipaði hann þá til allra hluta fyrir þeim, eptir sínum vilja; en hann var oleaðr octabodag[2] *Martini*. En áðr hann væri smurðr helgu viðsmjöri, mælti hann mjök lángt mál, at dæmum hins helga þorláks biskups; játti hann þá á hönd sèr fyrir öllum lærðum mönnum, þeirra er við voru, frekliga alla luti, er hann virði sik hent hafa til varúðar í sínum biskupsdómi, ok bað alla, at honum skyldi fyrirgefa þat er

1) þannig 384; sendi, 205. 2) octavo die, 384.

hann hafði misgjört við [þá]. En hann fyrirgaf öllum blíðliga, þat er við hann höfðu misgjört ok fal sik undir guðs miskunn. En eptir þat var hann oleaðr; var nokkut rèn á hans sótt unz hann fór af smurníngarklæðum, ok tvær nætr síðan. En þá tók at fella óhægindi sóttar hans af nýju, ok lifði hann þá eigi lengr en ij nætr síðan, ok tók hann þá *corpus domini* við sjálft andlát sitt, ok sofnaði þá til guðs.

18. En viku fyrir andlát Páls biskups sýndist túngl svá sem roðra væri, ok gaf eigi ljós af sèr um miðnætti í heiðviðri, ok bauð þat þá þegar mikla ógn mörgum manni.

Páll var vígðr til biskups á dögum Celestinus páfa af Absaloni erkibiskupi, á dögum Sverris konúngs; þá var hann fertugr at aldri. Hann stýrði guðs kristni með mikilli stillíngu xvj vetr ok andaðist þriðja dag viku, einni nótt fyrir Andres messu, ok var þá liðit frá guðs burð fjögr ár hins þrettánda hundraðs[1].

Ari prestr hinn fróði, er mörg dæmi spaklig hefir samantöld, segir hve mjök várt land drúpði[2] eptir fráfall Gizurar biskups, er menn virðu mestan skörúng verit hafa á Íslandi; en hèr má sjá, hversu margr kvíðbjóðr[3] hefir farit fyrir fráfalli þessa hins dýrliga höfðíngja Páls biskups: jörðin skalf öll ok piprаði af ótta; himin ok skýin grètu, svá at mikill hlutr spilltist jarðar ávaxtarins, en himintúnglin sýndu dauðatákn ber[4] á sèr, þá er náliga var komit at hinum [efstum lífsstundum[5] Páls biskups, en sjórinn brann ok fyrir landinu þá; þar sem hans biskupsdómr stóð yfir sýndist náliga allar höfutskepnur nokkut hrygðarmark á sèr sýna frá hans fráfalli. Ena[6] síðustu nótt, er Páll biskup lifði, dreymdi Þorvald Gizurarson, hinn vitrasta höfðíngja, at Jón Loptsson fæli Pètri postula á hendi þá hjörð, er Páll biskup sonr hans hafði gætt, en Jesús Kristr fal sína hjörð á hendr föður sínum áðr hann væri píndr, en [guðs miskunn fól nú þessa sína hjörð á hendr Pètri postula, áðr vor faðir ok gætandi var frá oss kallaðr[7],

---

1) á að vera 1211, þá bar og andlátsdag Páls biskups (29. Nov.) einmitt uppá þriðjudag. 2) drjúpði, 384; drúpnaði, 205. 3) kvíðbogi, 384.
4) þann. 384; hèr, 205. 5) þann. 384; efstu stundum, 205.
6) en á, 205; hina, 384.
7) þann. 384; frá [ en Páll biskup bífalaði sik ok hana á vald almáttugs guðs, áðr hann var frá oss kallaðr, 205.

19. Nú má sjá hvárntveggja stafn biskupsdóms þessa hins dýrliga biskups, ok hyggjum vèr á þeirri tíð hafi eigi [aðrir til verit at[1] sjá skutstafninn, er eigi[2] lönguðu til at sjá framstafninn. En við þat er oss at una hans ástmönnum, er eptir lifum, at hann hefir náliga öll þau gæði eptir sik leift, er menn megu eptir hafa góðs manns ok göfug[s]: börn virðulig með góðum efnum til skaðabóta þeim, er mest niðrfall[3] er vorðit í andláti biskups Páls; auðr gnógr ok allskyns staðarprýði, flest framkomin[4], en sum stofnut með góðum efnum, heilræði hans með kenníngum, þeim er hann kendi í sífellu, í orðum ok fögrum dæmum síns lífs; auðræði [ok unaðsamar vistir[5], er hann ætlaði velflestum sínum nánum frændum; en hann man til þess hugt hafa, at guð muni þá hugga, er hann hefir eigi fè[6] huggaða. En þessa sögu mína styrkti vitr maðr, Ámundi Árnason, *smiðr*[7] Páls biskups, ok kvað[8] vísur þessar:

Rèð grams laga greiðir,
góð var stjórn yfir þjóðum,
sextán vetr enn snotri,
sólar, biskups stóli;
nú er meinbönnuðr manna
málsnjallr hèðan kallaðr,
komi Páll í frið fullan
fljótt, með himna dróttni.

Dáðhittir gat drottins
dýrgeðr lögum stýra,
sitt[9] bjó sannvinr rètta,
sextán vetr, til betra;
hyggjum hitt at seggja[10]:
hjálpríkum vel líka,

---

1) frá [ aðra til verit aðra, 384. 2) v. í 384.
3) þann. 384; indifall, 205.
4) á þessu er að ráða sem sagan sè rituð litlu eptir andlát biskups.
5) frá [ eðr unar vistir (unaðs vistir?), 384.
6) þann. 205; er h. hefir ei einkum fè hugg., 384; Khafn. útg. vill lesa: „fyrr". 7) smiðr Árnason, 205, 384. 8) þann. 384; kveðr, 205.
9) „búa sitt (= sik) til betra" sbr. Hávam. 130. síðr þitt um heilli halir.
10) seggja = segja finnst víðar.

[gjörist von[1] af hug hreinum,
hans önn guði ok mönnum.

Lýðr á allr[2] fyr eyði
örsætis við guð mætan,
þeim er gjörði frið fyrða,
farsælum vel mæla:
bænum brátt at skíni[3]
blíðgeðr höfuðfeðra,
þeim er ýta böl bætir,
biskup ór með kóra[4].

20. Þá xvj vetr, er guðs kristni prýddist undir blóma biskupsdóms Páls biskups, urðu mörg stórtíðindi í heiminum: þá andaðist Celestinus páfi, Absalon erkibiskup, Sverrir konúngr, Hákon, Guthormr Noregs konúngar; Knútr, Sörkvir, Svíakonúngar; Ríkarðr Englakonúngr; Njáll biskup, Brandr biskup, Jóan biskup; Haraldr jarl í Orkneyjum, Philippus jarl[5]; Einarr abóti Márssson; Guðmundr Bjálfason abóti; Hafliði abóti Þorvaldsson, Þorkell abóti[6] Skúmsson[7]. Margir hafa ok aðrir göfugir menn andazt meðan Páll biskup var, bæði lærðir menn ok ólærðir: Jón Loptsson, Gizurr Hallsson, Sigmundr Ormsson, Þorleifr Þorláksson, Þorvaldr Þorkelsson, Kálfr Snorrason, Ari Bjarnarson, Önundr Þorkelsson, Hermundr Koðransson, Þórðr Snorrason, Guðmundr Ámundason, Bersi prestr Halldórsson[8];

---

1) frá [ þann. 384; gagn vann, 205. 2) þann. 384; allt, 205.

3) skína bænum, sbr. skína jarteinum.

4) leiðrètt; hóra, 205; eyða í 384; kórr höfutfeðra eru helgir menn.

5) Cælestinus páfi andaðist 1198. Absalon erkibiskup 1201. Sverrir konúngr 1202. Hákon Sverrisson og Guthormr 1204. Knútr konúngr 1195. Sörkvir 1211. Ríkarðr ljónshjarta 1199. Haraldr jarl 1206. Philippus jarl 1200. Brandr Hólabiskup 1201. Njáll biskup í Stafángri 1207. Jón Grænlendínga biskup 1209.

6) bætt við eptir 384.

7) Einar Márssson, fimti abóti að Þverá, andaðist 1196. Guðmundr Bjálfason, annarr abóti í Veri, 1197. Hafliði Þorvaldsson, annarr ábóti í Flatey, 1201. Þorkell Skúmsson annarr ábóti í Saurbæ í Eyjafirði, andaðist 1203.

8) Jón Loptsson andaðist 1. Nov. 1197. Hermundr á Gilsbakka 1197.

ok mart varð annat til tíðinda í hans biskupsdómi: skipatjón ok elds uppkoma í Heklufelli, ófriðr, rán ok brennur, ok með mörgum fátíðindum líflát manna.

Nú hefi ek yfirfarit nokkut með skyndíngu æfi Páls biskups, ok hefir mèr meir ágengit úkænska en illvili, þó at þessi frásaga sè eigi jafnmerkilig orðin, sem hann hafði efni til sett af sinni hálfu. Gleði almáttigr guð hann í sífellu í eilífri dýrð. Amen.

---

Gizur Hallsson 1206. Sigmundr prestr Ormsson og Kálfr Snorrason 1198. Þorleifr beiskaldi 1200. Önundr í Lönguhlið 7. Mai 1197. Ari Bjarnarson 1196. Þórðr Snorrason 1201. Bersi prestr Halldórsson 1204. Guðmundr grís Ámundason 23. febr. 1210.

## JÓNS SAGA HELGA HIN ELZTA[1].

Þar hefjum vèr [sögu eða[2] frásögn frá hinum helga Jóni biskupi, at í þann tíma er rèð Noregi Haraldr Sigurðarson, en liðnir voru frá falli Ólafs konúngs hins helga ij vetr ok xx: þá var hinn helgi Jón biskup fæddr á bæ þeim í Fljótshlíð, er á Breiðabólstað heitir. Faðir hans hèt Ögmundr, en Þorgerðr móðir; faðir Ögmundar hèt Þorkell ok var son Ásgeirs kneifar. Móðir Jóns biskups hèt Þorgerðr, hún var Egilsdóttir Hallssonar af Síðu, þess manns, er fyrstum varð auðit af öllum höfðíngjum í Austfirðínga fjórðúngi at taka skírn ok rètta trú. Móðir Þorgerðar hèt *Þorlaug, dóttir Þorvalds or Ási.* Enn helgi Jón biskup óx upp heima með feðr sínum á Breiðabólstað, þar til er hann var fjögurra vetra gamall, þá urðu mikil tíðindi ok þau, er allu þessu landsfólki var mikill fagnaðr í: þá var vígðr til biskups Ísleifr, son Gizurar hins hvíta[3] [ok dótturson Þórodds goða, at bæn alls landslýðs. Hann var vígðr til biskups af Aðalberto erkibiskupi [í Brimum af Saxlandi, á dögum Leonis, ens níunda páfa með því nafni. Ísleifr var lærðr á Saxlandi, í borg þeirri er Herfurða heitir. Hann var fyrst vígðr híngat til lands þeirra biskupa, er hèr hafa at stóli setið. Margir biskupar höfðu áðr komit til þessa lands, þeir er ekki höfðu hegat til lands vígðir verit; voru sumir hèr mjök marga vetr,

---

1) Af Jóni helga eru alls þrjár sögur: hin elzta, merkt *A*, er hèr prentuð eptir Skálholtsbókinni miklu (A. M. 234 folio), sem hèr er merkt Sk. Í A. M. 235 folio er upphaf sögunnar (2 blöð), en niðrlag hennar í 221 folio (4 blöð gömul mjög), allt á skinni. Öll pappírshandritin eru komin frá Sk. Saga Gunnlaugs múnks (merkt *B*) finnst í Stokkhólmsbók, og A. M. 219 folio (4 blöð); eru þær báðar á skinni. Þriðja sagan, hèr merkt *C*, finnst í A. M. 392 4to á pappír, og er að mestu sem *A*, en fyllri á stöku stað, mest í jarteinunum, en *miðr orðuð*. Allt hvað hún hefir framyfir *A* er hèr sett neðanmáls eða í viðbæti. 2) frá [ vantar í 235.

3) Þetta kemr heim við vígsluár Ísleifs 1056, því Jón helgi er fæddr 1052.

en sumir skamma stund. Ísleifr var í Noregi hinn næsta vetr eptir, er hann var vígðr til biskups, ok fór síðan til Íslands ok kom út á næsta sumri eptir óaldar vetr hinn mikla, ok hafði stól sinn ok heimili á föðurleifð sinni sjálfs í Skálaholti.

Snemmendis varð firirspáð af vitrum mönnum, hvílíkr þessi maðr mundi verða, enn helgi Jón biskup, því at hvar sem hann kom fannst mönnum mikit um hann, þeim er hugleiddu, hvílíkt bragð yfir honum var. Guðini hèt maðr ok var kallaðr Guðini hinn góði, ok þat hyggja menn at hann hafi svá verit; hann sá hinn helga Jón, þá er hann var barn at aldri, ok ræddi um hann þessum orðum: „sjá maðr er fríðr, ok hefir yfir sèr mikit heilagleiks bragð". Nú kom þar at því sem mælt er: at „spá[1] er þat er spakir mæla".

2. Þá er Jón var barn at aldri, þá breyttu þau faðir hans ok móðir ráði sínu ok fóru utan; þau kómu til Danmerkr ok fóru til Sveins konúngs, ok tók konúngrinn við þeim virðuliga, ok var Þorgerði skipat at sitja hjá sjálfri drottníngunni, Ástríði, móður Sveins konúngs. Þorgerðr hafði son sinn, enn helga Jón, undir borði með sèr; ok er margskonar krásir dýrðligar, með góðum drykk, kómu á borð konúngsins, þá varð sveininum Jóni þat firir, sem jafnan er barnanna háttr, at hann rètti hendr til þeirra luta, er hann fýsti at hafa; en móðir hans vildi þat kviðja honum, ok drap á hendrnar honum; ok er drottníngin Ástríðr sá þat, þá mælti hún [við Þorgerði: „eigi svá! eigi svá[2] Þorgerðr mín! ljóstu eigi á hendr þessar, því at þetta eru biskups hendr". Nú má af slíkum atburðum marka þat, sem fyrr kómum vèr orði á, hversu vitrum mönnum fannst mikit um; ok þeir sá ok firir þá luti, er síðan kómu fram, eptir guðligri firirætlan, um enn helga Jón biskup[3].

Þat er ok skylt at tjá, er hinn helgi Ólafr konúngr mælti við Þorgerði, móður hins helga [Jóns biskups[4]: hún var þá átta vetra gömul, er hún fór til Noregs með feðr sínum, ok mæðr. Egill fór til hirðar hins helga Ólafs konúngs ok var þar vel virðr, sem allir aðrir virðuligir menn, þeir sem hèðan kómu at. En er at jólum dró, þá ógladdist Egill. Konúngrinn fann þat, ok spurði hvat til hèldi. Egill kvat þat ekki vera.

1) spáð, 235; sbr. Þorláks s. c. 1. — spá er spaks gáta, *C.*
2) frá [svá: eigi, eigi, 235. 3) þessa sögu v. í *C.* 4) frá [eyða i Sk.

En er konúngr leitaði eptir, þá segir Egill honum: ef hann skyldi nokkut til finna, at honum þótti þat helzt at, ef Þorlaug kona hans skyldi eigi vera sett jafnvirðuliga sem hann, at þeirri hátíð hinni dýrðligu, er þá fór í hönd. Konúngrinn kvezt mundu ráða bætr á því, ok bauð henni til sín at jólunum ok báðum þeim mæðgum; ok jóla kveldit, er þær voru í gaungu með Ástríði drottníngu eptir konúngshöll, ok þar var þeim ok í sæti skipat hjá drottníngunni, þá þekkir konúngrinn meyna, ok mælir síðan við Egil, föður hennar: „Þessi dóttir þín lízt mèr væn mær ok með góðu yfirbragði, ok þat kann ek at segja þèr, at hún verðr gæfumaðr mikill, ok sá mun göfgastr ættbogi á Íslandi, er frá henni man koma". Nú hefir þat fagrliga eptir gengit, semván var at, er þessi enn helgi maðr mælti, ok birtist yfir þessum helga manni Jóni biskupi, syni hennar; því at sá er sannliga göfugr, er hann var prýddr með mörgum mannkostum ok vegsamaðr með biskupligri tign, meðan hann lifði þessa heims, en nú skín hann fögrum jartegnum, ok verðr at mikilli hjálp öllum þeim, er hann sækja at árnaðarorði við almáttkan guð.

3. Þá er faðir Jóns ok móðir höfðu utan verit slíka stund, sem þeim þótti at ráði, þá fóru þau út aptr til Íslands ok settust í bú sitt á Breiðabólstað. En er hinn helgi Jón var afliðinn hinni mestu bernsku, þá fèkk faðir hans hann til læríngar Ísleifi biskupi; óx hann upp honum undir höndum, ok þroskaðist brátt í helgu námi ok góðum siðum, því at hann var vel til náms kominn um hvárttveggja með Ísleifi biskupi. Margir höfðíngjar ok virðuligir menn aðrir seldu sonu sína til fóstrs ok til læríngar Ísleifi biskupi ok lètu vígja til presta; þeir urðu síðan margir höfutkennimenn, en tveir vóru biskupar af þeim: enn helgi Jón Norðlendínga biskup, er nú segjum vèr ífrá, ok annarr Kollr[1] Víkverja biskup. Ísleifr biskup átti þrjá sonu, ok urðu allir höfðíngjar miklir: Gízurr biskup ok Teitr ok Þorvaldr; Gizurr var lærðr í Herfurðu á Saxlandi. Teit fæddi Hallr í Haukadal. Teitr [son Ísleifs biskups fæddi ok lærði marga kennimenn, ok vóru tveir biskupar af hans lærisveinum: Þorlákr biskup hinn fyrri, ok Björn biskup. Ísleifr biskup sá brátt, hversu vel Jón fóstri hans færði sèr í nyt nám sitt, ok

1) svo nefnir og Ari fróði hann, en ekki Kol; sbr. Íslb. c. 9.

þá aðra góða luti, er hann kenndi honum í sínum fögrum dæmum og góðum siðum. þá tók hann at elska hann mjök ok virða mikils í mörgum lutum, ok þar gerðu þegar aðrir eptir. [Enn helgi Jón var mikill maðr vexti, manna vænstr ok liðmannligastr, eygðr manna bezt, [bleikr á hár[1], ok sterkr at afli, ok enn þekkiligsti í öllu yfirbragði; ok svá þekkr sem hann var öllum mönnum af sínu yfirbragði, þá var hvergi minna um þat vert, hversu hann var linr ok lèttr við alla alþýðu í máli; ok svá fèkk hann til gætt með sínu góðu umstilli, at hann varð bæði kærr guði ok góðum mönnum.

Nú verðr ok skyldugt at segja nokkut frá því, hversu hinum helga Jóni biskupi hafði virzt Ísleifr biskup fóstri hans, því at svá segja hyggnir menn ok fróðir, at þat varð Jóni biskupi á munni jafnan, þá er hann var staddr hjá því, er menn ræddu um sín á millum um þá menn, er bezt þóttu at sèr vera: „Ísleifr biskup fóstri minn", kvat hann, „allra manna vænstr, allra manna snjallastr, allra manna beztr". þá svöruðu þeir biskupi, er áðr höfðu við talazt: „hverr gat nú, herra, Ísleifs biskups?" — Enn helgi Jón biskup svaraði: „hans skal ek ávallt geta, er ek heyri góðs manns getið". Nú var þetta fagr vitnisburðr Ísleifi biskupi, er heilagr maðr skyldi svá ræða um hann, en virðíng mikil Jóni biskupi, er slíkr maðr skyldi hafa fóstraðan hann. Sá lutr er ok einkum sagðr, at hinn helgi Jón hafði haft um aðra menn fram: at hann hafi verit raddaðr hverjum manni betr, ok þar man enn verða nokkur merki til þess sögð síðarr í frásögninni, at vitrum mönnum hafi svá þótt.

Hinn helgi Jón fýstist enn at fara utan, ok var hinn helgi Jón þá djákn at vígslu, ok vonum nær roskinn at aldri, ok girntist at sjá góðra manna siðu, ok nám sitt at auka, sjálfum sèr til nytsemi ok mörgum öðrum, sem síðan reyndist. þá fór hann fyrst til Noregs, þaðan til Danmerkr, ok lèttir hann eigi fyrr þessi ferð en hann gekk suðr, ok sækir heim enn helga Pètr postula; ok síðan hverfr hann aptr þaðan ok kemr í Danmörk að *in passione domini*, ok var enn Sveinn konúngr á lífi, ok sækir hann á hans fund; [ok er hann kemr[2] í

1) frá [ ok silkibleikr á hárslit, C.

2) frá [ ok kom hann pálmsunnudag, C.

þann stað, er konúngrinn var fyrir, þá var þat þar tíðenda, at konúngr var at messu. En prestr sá, er sýngja skyldi messuna, hóf upp at lesa *passio* í því, er hinn helgi Jón kom í kirkjuna; en honum gekk lestrinn seint ok tregliga, en mönnum þótti þúngt ok höfugt at hlýða, þeim er hjá stóðu. En er hinn helgi Jón fann þat, at prestrinn var næsta gjörr at firirsjón af mönnum, þá leggr hinn helgi Jón stólu yfir herðar sèr ok gengr at prestinum, ok tók bókina or hendi honum með lítilæti, ok las passiona svá sköruliga ok skynsamliga, er allir undruðust, þeir er við voru staddir; ok er lokit var tíðunum, þá sendir konúngr eptir honum ok býðr honum til sín, ok bað hann með sèr lengi vera, ok lagði á hann svá mikla virðíng, at hann setti hann hit næsta sèr sjálfum, ok þótti mikit undir, at hann dveldist með honum lengr en skemr ok dvaldist hann með honum um stundar sakir[1].

4. Á þessi stundu, meðan hinn helgi Jón var með Sveini konúngi, þá var hann vegsamaðr af guði með ágætligum firirburðum, ok um dag, er hann kom undir konúngsborð, þá segir hann sjálfr konúnginum, hvat firir hann hafði borit. „Svá þótti mèr í nótt, sem ek væra staddr í nokkurri höfutkirkju, forkunnar virðuligri[2], ok í kórnum kirkjunnar, ok svá sem í biskups rúmi, sá ek sitja drottinn várn Jesum Kristum[3], ok á fótskefli[4] fyrir fótum honum sá ek hvar sat hinn helgi Davíð konúngr, ok sló hörpu sína með ágætligri iðrótt ok fagrligri hljóðon, ok þat þikki mèr líkara, herra! at eptir muni dvalizt hafa í minni mínu af þeim hinum fagrligum hljóðum, er hann sló. Nú láttu, herra! færa hörpu, ok at þèr hjáveranda man ek reyna, ef ek mega muna nokkut af því, er hann sló. Þá bauð konúngrinn at taka skyldi hörpu ok fá Jóni; ok tók hann við hörpunni ok stillti[5], ok sló með svo mikilli kænsku, at konúngrinn sjálfr, ok allir þeir er við voru staddir þá, höfðu á máli, hversu vel slegit var[6]. Öllum þótti mikils um vert þenna atburð, þeim er

---

1) frá [ framyfir páskaviku, *C.* Lík saga þessu er nú sögð um Jón biskup Vídalín. 2) hèr i Danmörk, b. v. *C.*

3) með dýrðlegri sveit sinna heilagra manna. Ek þóttumst ok nær sjálfum guði vera i þeirri háleitu sveit, b. v. *C.*

4) fótskemli, 235. 5) strengina til slagar b. v. *C.*

6) því at hann mundi öll þau sömu hljóð slá á hörpuna, sem hann hafði áðr heyrt i fyrirburðinum, b. v, *C,*

frá var sagt, ok lofuðu allir almáttkan guð, þann er sèr lætr sóma at birta dýrð heilagra manna sinna.

Eigi hæfir annat en geta þess við, hversu mikit lið íslenzkum mönnum varð, jafnvel utanlendis sem hèr, at hinum helga Jóni biskupi. Teljum vèr þann lut fyrstan til þess, at hann spanði út híngat með sèr Sæmund Sigfússon, þann mann, er einnhverr hefir enn verit mestr nytjamaðr guðs kristni á þessu landi, ok hafði verit lengi utan[1] svá at ekki spurðist til hans. [En hinn helgi Jón fèkk hann uppspurðan ok hafði hann sunnan með sèr, ok fóru þeir báðir saman sunnan út hegat til frænda sinna ok fóstrjarðar[2].

5. Þá er hinn helgi Jón var utan þessu sinni, rèð firir Noregi Magnús konúngr Ólafsson, Haraldssonar, Sigurðarsonar; ok er hinn helgi Jón kom norðr í Þrándheim, þá var konúngrinn þar. Í þenna tíma voru í Noregi margir íslenzkir menn; þá var þar Teitr, son Gizurar biskups, ok þá urðu þar þau tíðendi, at íslenzkr maðr, sá er Gisl hèt, vá víg, ok var sá maðr, er veginn var, hirðmaðr Magnús konúngs. En Gisl rak þat til þessa snarræðis, at hann átti at hefna föður síns; en þessi maðr hèt Gjafvaldr, er Gisl vá; hann hafði verit at vígi Illuga föður hans[3]. Ok bráðliga eptir vígit þá var Gisl tekinn[4] ok fjötraðr af mönnum konúngsins. En er þeir spurðu þat enir íslenzku menn, þá gánga þeir þegar þángat allir saman, til stofu þeirrar er Gisl var inni, ok var Teitr firir liðinu, ok höggr hann af honum fjöturinn, ok leiðir hann á braut með sèr. Ok eptir þessi tíðindi lætr konúngr þíngs kveðja, ok var ákafareiðr, ok horfði til hins mesta váða um málit. Á þessu þíngi var öllum íslenzkum mönnum bannat at tala sín mál, nema hinum helga Jóni, honum var leyft at tala af kon-

---

1) áðr í útlöndum til fræðináms, *C.*

2) frá [ En í þeirri ferð, er Jón var af landi burt, fèkk hann Sæmund uppspurðan ok útleystan af þeim meistara, er hann var með, ok er þar merkileg frásögn, með hverjum hætti hann gat náð honum, þó þess sè ei hèr getið, ok hafði hann sunnan frá Róm með sèr ok út hingat til frænda sinna ok fóstrjarðar.

3) ok var Gisl þar við staddr, er faðir hans var veginn, ok var þá barn at aldri, ok er þat sögn flestra manna, at hann væri ei eldri en v vetra eðr vj, b. v. *C.*

4) Sk. ritar hèr: „teginn".

únginum, ok talaði um málit langt erendi ok forkunnar snjallt[1], ok þat kom til svá mikillar nytsemdar, at reiði konúngsins mýktist, en þeir menn náðu griðum ok sáttum, er áðr voru náliga til bana ráðnir[2]. Eptir þetta fóru þeir út hígat til Íslands Jón ok Sæmundr, ok settust í bú, hvárr á sína föðurleifð, Jón á Breiðabólstað, en Sæmundr í Odda, ok bjöggu þar báðir mjök lengi, ok var þeirra í milli bróðrlig ást ok heilakt samþykki, enda var þeim um marga luti góða líkt farit. Þeir voru ok nær jamgamlir menn at vetratali, at því er vèr ætlum, ok var Jón tveim vetrum ellri. Þeir prýddu báðir mjök heilagar kirkjur, þær er þeir höfðu að varðveita, í mörgum lutum, ok þjónuðu þeim lítilátliga í sínum prestsskap ok æxtu[3] mikit rètt þeirra [í kennimanna[4] vistum, þeirra er þjóna skyldu at hvárri kirkjunni fleiri en áðr höfðu verit; þeir máttu ok kallast at rèttu stólpar kristninnar, því at þeir studdu hana fagrliga í sínum kenníngum helgum ok mörgum öðrum farsæligum lutum, þeim er þeir miðluðu af sèr öllum þeim mönnum, er þar voru í nánd, eða þeirra heilræði vildu þikkjast eða þýðast. [Enn helgi Jón kvángaðist[5] ok átti tvær konur, ok lifði hin fyrri skamma stund, en við hvárigri[6] átti hann börn, þau er or barnæsku hafi komizt, eða vèr hafim sögur frá heyrðar.

6. Þá er Ísleifr biskup hafði setið at stóli í Skálaholti fjóra

---

1) þat er menn hafa at minnum haft síðan, og bað hann Gisl lífs og griða, b. v. *C.*

2) En sá lendr maðr Magnús konúngs, er hèt Sigurðr ok kallaðr ullstrengr, ok þúngastr hafði verit í öllum tillögum móti Jóni, þá tók hann á sèr skjóta hefnd, þegar á því þíngi; þat var banvæn sótt, svo at hann mátti eigi óæpandi þola, allt til þess, er hann bað Jón með lítilæti ok iðran koma til sín ok leggja hendr yfir sik með helgum bænum. En þat veitti Jón bliðliga, er hann var beðinn, ok sýngr yfir honum ok þegar verðr hann heill, ok bað sèr líknar fyrir sín mótmæli, ok skildust þeir sáttir, en Magnús konúngr fal sik undir bæn Jóns, ok gaf honum sæmiligar gjafir, ok skildust með mestu vináttu, b. v. *C.*

3) þannig 235; æxlztu, Sk.

4) þannig 235; kirkjumanna, Sk.

5) frá [ En brátt, er Jón var prestr orðinn, þá kvongaðist hann, *C.*

6) hvárgi, 235.

vetr ok tuttugu, þá tók hann sótt á alþíngi[1], ok andaðist heima í Skálaholti á drottinsdegi iij.[2] *nonas Julii*, átta tigum vetra eptir fall Ólafs Tryggvasonar; þá var liðit frá burð Krists [þúsund ára ok átta tigir[3]. Eptir þat var vígðr til biskups Gizurr, son Ísleifs biskups, at bæn allra landsmanna, þá er hann var fertugr at aldri, en þat var á dögum Gregorii páfa hins sjaunda með því nafni, ok á dögum Ólafs konúngs Haraldssonar, ij vetrum eptir andlát Ísleifs biskups. Gizurr fór suðr til Róms ok beiddi þar vígslu, fyrir því at Lemmarus erkibiskup var missáttr við páfa, ok mátti hann firir því eigi vígslu gefa. Þá sendi Gregorius páfi Gizur til erkibiskups þess, er var á Saxlandi, í Magaðaborg, ok Harðevigus hèt; hann vígði Gizur til biskups at boðorði páfa. Þá tvá vetr, er í milli voru andláts Ísleifs biskups ok útkvámu Gizurar biskups, var hann annan hèr á landi, en annan, enn næsta eptir er hann var vígðr, var hann í Danmörk suman, en suman á Gautlandi, ok kom út um sumarit hegat til lands; þá hafði Markús Skeggjason lögsögu. Gizurr biskup hefir verit mestr höfðíngi ok algöfgastr maðr á öllu Íslandi, at því er sagði Ari prestr Þorgilsson, at alþýðu virðíng hafi á fallit. Af ástsæld hans ok fortölum Sæmundar prests, ok með umráðum Markús lögsögumanns, var þat í lög tekit, at allir menn á Íslandi skyldu telja fè sitt allt með svardögum, hvárt sem væri í löndum eða lausum aurum, ok gjalda tíund af, at þeim hætti, sem síðan hefir haldizt. Gizurr biskup lèt lög leggja á þat, at stóll biskups þess, er á Íslandi væri, skyldi vera í Skálaholti, en áðr var hvergi. Hann lagði til stólsins Skálaholtsland, ok mörg önnur auðræði í löndum ok lausum aurum[4].

7. Þá er almáttigr guð vildi hefja upp sinn þjónostumann, enn helga Jón, á hærra pall kennimannligrar tignar, en áðr var hann, þá báðu Norðlendíngar Gizur biskup, at hann mundi vilja setja biskupsstól í Norðlendíngafjórðúngi, fyrir því at þeir þóttust fjarlægir, en fjórðúngrinn sá fjölmennastr [ok

---

1) ok var fluttr heim af þínginu við sóttina, b. v. *C.*

2) þat er einni nóttu fyrir octavam apostolorum Petri ok Pauli, b. v. *C.*

3) M. vetr ok iij vetr, *C.* eptir Húngrvöku tímatali, en tugatalan (LXX) hefir óvart fallið út í afskriptinni. Einmitt sama ritvillan finnst á þessum stað í *B* í Sthb.

4) sbr. Íslendíngab. c. 10, sem höfundrinn mun hafa haft fyrir sèr.

mestr, ok þyrfti þar fyr því mest biskupligrar yfirferðar, en hennar var þar áðr sjaldnast kostr. Gizurr biskup bar þetta mál firir hina hyggnustu menn, ok sýndist þeim svá öllum saman, sem þat mundi ráð, at láta eptir þeim þessa bæn, mest firir þá sök, at þat sýndist vera mikit upphald guðs kristni, ok líkligt, at landit mundi verða skemrum biskuplaust, ef tveir væri biskuparnir. Þat var nú síðan ráðs tekit, at Gizurr biskup gaf meir en fjórðúnginn biskupsdóms síns til þess, at biskupsstóll skyldi vera í Norðlendíngafjórðúngi, svá sem Norðlendíngar báðu hann til. En til þessa vanda ok virðíngar, ok biskupsdóms yfir Norðlendíngafjórðúngi ok Norðlendíngum, þá kaus Gizurr biskup Jón prest Ögmundarson, með samþykki allra lærðra manna ok úlærðra í Norðlendíngafjórðúngi, ok þótt hinn helgi Jón teldist í fyrstunni mjök undan þessum vanda, firir lítilætis sakir, þá lèt hann þó at bæn Gizurar biskups, ok játast undir utanferð ok biskupsvíglu at taka, ef guð vill at [þess auðni[1]. Nú voru [opt síðan stefnur áttar um þetta mál, ok rèðst þat af, at stóll Norðlendíngabiskups mundi vera settr norðr í Hjaltadal, á bæ þeim er at Hólum heitir. Þar bjó virðuligr prestr, sá er [Illugi hèt[2]; hann einn varð til þess búinn af virðuligum mönnum í Norðlendíngafjórðúngi, at rísa upp af sinni föðurleifð firir guðs [sakir ok nauðsynja[3] heilagrar kirkju, því at áðr höfðu verit lángar þæfur höfðíngja í milli, hverr upp skyldi rísa af sinni föðurleifð ok staðfestu, ok varð engi til búinn, nema sjá einn, ok má þat öllum mönnum auðsætt vera, at þetta gjörði hann firir [guðs] sakir ok mundi þess vænta, sem fram man hafa komit, at guð mundi gefa honum fagrar vistir í eilífri fullsælu, sú[4] er at rèttu má kallast föðurleifð góðra manna.

8. Ok á þessu sumri þá ferr biskupsefni til skips með föruneyti því, er ætlað var honum, ok fjárlutum, ok hafði hann með sèr brèf ok innsigli Gizurar biskups, þau er vitni báru um hans erendi. Ok er þeir voru búnir lètu þeir í haf, ok er ekki sagt frá ferð þeirra, fyrr en þeir kvomu í Danmörk, ok

1) frá [ þat auðni, 235.
2) frá [ Hilarius hèt, ok Illugi öðru nafni, ok var Bjarnarson, *C.*
3) frá [ skyld ok nauðsyn, *C.*
4) þannig 235; sá (sjá?), Sk.

urðu vel reiðfara. Enn helgi Jón biskupsefni sótti þegar á fund Özurar erkibiskups, ok kom til þess staðar, er erkibiskup var staddr, ok heldr síð dags. Erkibiskup var at kirkju, at aptansaung, ok er hinn helgi Jón biskupsefni kemr í kirkjuna, þá var lokit mjök aptansaunginum. Hann nemr staðar fyrir utan kórinn, ok hefr upp aptansaung sinn með klerkum sínum. Erkibiskup hafði bannat klerkum sínum öllum, ellrum sem ýngrum, at líta utar or kórnum, meðan tíðir væri súngnar, ok lagt víti við, ef af því væri brugðit sem hann bauð. En jafnskjótt sem erkibiskup heyrði saunginn ens helga Jóns, þá lítr hann utar eptir kirkjunni, ok vildi vita hverr sá maðr væri, er slíka rödd hafði. En er lokit var aptansaunginum, þá mæltu klerkar erkibiskups við hann sjálfan: „hvat er nú, herra biskup! hafi þèr nú eigi sjálfir gengit á þau lög, sem þèr settuð". Erkibiskup svaraði: „Ek játi[1] því, at þat er satt sem þèr segit, en þó hefir mèr þetta eigi firir enga sök atborizt, því at rödd hefir borit firir eyru mèr, þá er ek hefi eigi slíka fyr heyrða, ok heldr má hún þikkja engla röddum lík en manna". Hèðan af má þat marka, er fyr kómum vèr orði á í sögunni, hversu mjök rödd ens helga Jóns var frá því sem flestra manna annarra, at vitra manna virðíngu. En er Jón hafði lokit aptansaung sínum, þá gekk hann á fund erkibiskups [ok tók hann við honum[2] virðuliga, ok bauð honum til sín ok öllu föruneyti hans. Ok er hinn helgi Jón hafði skamma stund verit með erkibiskupi, þá bar hann upp firir erkibiskup erendi sín, ok sýndi honum brèf ok innsigli Gizurar biskups, ok er þeir höfðu nokkura daga um þetta rædt með þeim öðrum lærðum mönnum, sem erkibiskup vildi þetta mál firir bera, ok er þetta var vandliga rannsakat, þá mælir erkibiskup við biskupsefni: „Svá kannast mèr til, hinn kærsti bróðir! sem þú munt flesta alla luti til þess hafa, at þú sèr til biskups fallinn, ok því trúi ek, at sæll sè sá lýðr, er slíkan biskup má hafa yfir sèr. En firir sakir eins lutar, þess er þú hefir sagt mèr: at þú hefir ij konur áttar, þá þori ek eigi at vígja þik, án leyfi páfa ok vitorði hans sjálfs. Nú firir þessa sök er þat várt ráð, at þú farir sem skjótast máttu á fund páfa, ok vèr munum rita með þèr með

1) þannig 235; játti, Sk. og er það eyfirzk málýzka.

2) frá [ bætt við eptir 235; vantar í Sk.

voru innsigli, ok tjá páfanum þitt mál. Ok ef svá verðr, sem vèr viljum vænta, at hann leyfi þèr vígslu at taka, en oss at gjöra, þá kom aptr til mín sem skjótast, ok mun ek þá með fagnaði láta lúkast þitt erendi".

9. *Eptir þetta ferr hinn helgi Jón biskupsefni til Róma*borgar, ok er hann kemr þar, þá var vel tekit hans máli af páfa. Þá var páfi, er hinn helgi Jón kom suðr, enn helgi Paskal[is], sá er annarr var með því nafni. Enn helgi Jón berr upp[1] firir páfann öll sín erendi, ok þar með sýnir hann honum brèf erkibiskups ok innsigli þau, er tjáðu páfa málavöxtu alla, er á hans máli voru, [ok er páfi hafði sèð ritið[2], þá veitir hann þat þekkiliga, er hann var lítilátliga beðinn, ok vísar hinum helga [Jóni] biskupsefni á fund Özurar erkibiskups, ok ritar til hans með sínu innsigli, ok gefr honum leyfi á at vígja hinn helga Jón til biskups; ok er Jón hafði tekit blezan af páfanum, þá ferr hann aptr á leið, ok kemr með sínu förunauti á fund Özurar erkibiskups. Ok er [hann] verðr þess varr af brèfum páfa, þeim er hinn helgi Jón bar frá páfa fundi, at honum var fullt frelsi á gefit at vígja hann, þá verðr erkibiskup forkunnliga feginn, ok þakkar almáttkum guði, er honum skyldi þess auðit verða, at láta þat erendi ens helga Jóns verða, sem menn mundu vilja, ok beið hann nú með sjálfum erkibiskupi þeirrar stundar, er honum sýndist tilfellt at vígja hann. Eptir þat kallar erkibiskup saman kennimenn þá, sem við þyrftu at vera þetta embætti, ok at öllum lutum tilbúnum, þá vígir hann enn helga Jón til biskups á drottinsdegi, tveim nóttum firir tveggja postula messo Philippi ok Jacobi, þat er þriðja *kalendas* Maii. Eptir þat er hinn helgi Jón var vígðr, þá dvaldist hann með erkibiskupi, ok þá af honum mörg hjálpsamlig ráð, sjálfum sèr til nytsemdar ok því fólki, sem hann var yfir settr. Enn helgi Jón var vígðr til biskups, eptir

1) hèr þrýtr 235.

2) frá [ Ok svá vilja skynugir menn segja, at Jón tæki til orðs fyrir páfanum: „Þá horfa mèr margir hlutir þúngliga við himna konúnginn í tilgjörðum mínum, ok bægja mèr frá biskupligu valdi: at þann einn hlut veit ek mik til hafa helzt, at verða eigi biskup, er ek hefi átt ij konur". Nú má af slíku marka, hversu guðlega hann muni hafa haldit hjúskapinn, er hann vottaði slíku fyrir páfanum sjálfum. En er páfinn hefir sèð brèfin ok yfirlesit, skilr hann, hverr maðr Jón mundi vera fyrir guði, *C.*

því, sem nú var frá sagt, þá er hann hafði fjóra vetr ens sètta tigar at aldri. Þat var á dögum Paskalis páfa ok á dögum Noregs konúnga Eysteins ok Sigurðar. En þá hafði Gizurr biskup stýrt guðs kristni á Íslandi jafnlengi sem Ísleifr biskup faðir hans, en þat voru fjórir vetr ok tuttugu.

10. [Jón biskup fór út til Íslands á hinu næsta sumri eptir, er hann hafði vígðr verit, ok varð vel reiðfara; ok brátt eptir þat, er hann hafði land tekit, þá spurðist hann útkváma[1] ok urðu því allir fegnir góðir menn, ok drifu þegar flokkum at finna hann. Hann tekr hvers manns máli jafnlèttliga, ok sýnir þat í öllu, at eigi var hann enn afhuga orðinn því hinu helga lítilæti, er hann hafði áðr hann væri vígðr til biskups, heldr hafði hann þat nú því gnægra, með öllum öðrum mannkostum, sem nú var honum vandara um, svá mjök sem hann var upphafiðr af almáttkum guði til mikillar virðingar. Ok þegar hinn helgi Jón var búinn at fara frá skipi, þá ferr hann heim til stólsins til Hóla, ok tók þegar at stýra vel ok fagrliga kristni almáttigs guðs, þeirri sem hann var yfir settr, ok sat hann þá heima um vetrinn at stóli sínum[2]. En at sumri, þá reið hann til alþíngis, ok fundust þeir þar ok Gizurr biskup með miklum fagnaði, ok þá tjáði Gizurr biskup mönnum, hversu mikit gott menn áttu þá guði at launa: þau fagnaðar tíðendi, sem þá voru orðin, er ij biskupar voru á landinu, því at þat hafði eigi orðit áðr, síðan er kristni kom á landit. Marga luti ræddu þeir sín á milli biskuparnir, þá er nytsamligir voru, ok sömdu til með öðrum lærðum mönnum, hver boð þeir skyldu bjóða sínum undirmönnum.

11. Á þessu sumri hóf Jón biskup yfirför sína yfir ríki sitt, ok tók at stýra guðs kristni með mikilli stjórn; hirti hann vánda menn, af því veldi er honum var gefit af guðs hálfu, en styrkti góða menn ok siðláta í mörgum góðum lutum. Enn

---

1) frá [ En þá er Jón biskup var búinn, fór hann á braut af fundi erkibiskups, auðgaðr með gjöfum ok styrktr með heilsusamligum ráðum. Hann fór fyrst til Noregs ok aflar sèr þar kirkjuviðar, ok þetta hit sama sumar fór hann út til Íslands ok varð vel reiðfara, ok kemr skip þat á Eyrar. Þessi tíðindi spyrjast brátt um landit: útkoma Jóns biskups, *C.*

2) þat er ok sagt, at frændr hans ok vinir lètu flytja kirkjuvið hans frá skipi ok sunnan í Vínverjadali; en Norðlendíngar fara þángat eptir ok draga svo heim til Hóla, b. v. *C.*

helgi Jón biskup hafði skamma stund at stóli setið at Hólum, áðr en hann lèt leggja ofan kirkju þá, er þar var. Sjá kirkja hafði gjör verit næst þeirri, er Oxi Hjaltason[1] hafði gjöra látið. Þat hyggja menn, at sú kirkja hafi mest gjör verit undir trèþaki á öllu Íslandi, er Oxi lèt gera, ok lagði til þeirrar kirkju mikil auðræði ok lèt hana búa innan vel ok vandliga ok þekja blýi alla. En sú kirkja brann upp öll með öllu skrúði sínu ok[2] leyndum dómi guðs. Enn helgi Jón biskup lèt gera kirkju at Hólum mikla ok virðuliga, sú er stendr þar í dag, ok hefir hún þó verit bæði þakit, ok margir lutir aðrir at gjörfir síðan. Enn helgi Jón biskup sparði ekki til þessar kirkjugjörðar, þat er þá væri meiri guðs dýrð en áðr, ok þetta hús væri sem [fagrligast gjört ok búit[3]. Hann valdi þann mann til kirkjugjörðarinnar, er þá þótti einn hverr hagastr vera, sá hèt Þóroddr[4], ok var bæði, at hinn helgi Jón sparði eigi at reiða honum kaupit mikit ok gott, enda leysti hann ok sína sýslu vel ok góðmannliga. Þat er sagt frá þessum manni, at hann var svá næmr, [at] þá er hann var í smíðinni, þá heyrði hann til, er prestlíngum var kennd íðrótt sú, er grammatica heitir; en svá loddi honum þat vel í eyrum af miklum næmleik ok athuga, at hann gjörðist enn mesti íðróttamaðr í þesskonar námi.

Þá er Jón hafði skamma stund biskup verit, þá lèt hann setja skóla heima þar at staðnum, vestr frá kirkjudyrum, ok lèt smíð[a] vel ok vandliga, ok enn sèr merki húsanna. En til þess at stýra skólanum ok kenna þeim mönnum, er þar settist í, þá valdi hann einn enn bezta klerk ok enn snjallasta, af Gautlandi; hann hèt Gísli[5] ok var Finnason. Hann reiddi honum mikit kaup til hvasstveggja, at kenna prestlíngum ok at veita slíkt upphald heilagri kristni með sjálfum biskupi, sem hann mátti sèr við koma, í kenníngum sínum ok formælum[6], ok ávallt, er hann prèdicaði firir fólkinu, þá lèt hann liggja bók

---

1) Þessi Oxi mun hafa verið sonr Hjalta Þórðarsonar, er bjó að Hofi í Hjaltadal 1028 (Grett. s. cap. 70.). Þessi kirkja mun því vera bygð um 1050, en nær hún brann, er hvergi getið.

2) at, *C.*

3) frá [ trúligast ok lánggæðligast smíðat, *C.*

4) Gamlason, b. v. *C.*

5) Gísl, *C.*

6) Hann var mjök lengi firir skólanum ok kendi marga vetr látínu, ok var hinn mesti upphaldsmaðr guðs kristni með biskupi í sínum kenníngum, b. v. *C.*

firir sèr, ok tók þar af slíkt er hann talaði firir fólkinu, ok gjörði hann þetta mest af forsjá ok lítilæti, at þar hann var úngr at aldri þótti þeim meira um vert, er til lýddu, at þeir sæi þat, at hann tók sínar kenníngar af helgum bókum, en eigi af einusaman brjóstviti. En svá mikil gipt fylgði þó hans kenníngum, at menninir, þeir er til lýddu, kómust við mjök ok tóku mikla skipan ok góða um sitt ráð. En þat er hann kendi í orðunum, þá sýndi hann þat í verkunum. Kenníngar hans voru linar ok lèttbærar öllum góðum mönnum, en vitrum mönnum þóttu vera skapligar ok skemtiligar; en vondum mönnum varð ótti at mikill ok sönn hirtíng. Um allar stórhátíðir þá var þar fjölmenni mikit, því at þannug var þá mikit erendi margra manna, fyrst at lýða tíðum, svá fagrliga sem þær voru fram færðar, þar með boðorðum biskups ok kenníngum þeim hinum dýrðligum, er þar var þá kostr at heyra, hvárt sem heldr voru fra[m] fluttar af sjálfum biskupi, eða þessum manni er nú var frá sagt.

12. Skamma stund hafði enn helgi Jón biskup verit, áðr hann tók at færa siðu manna ok háttu mjök í annat efni en áðr hafði verit: gjörðist hirtíngasamr við ósiðamenn, en var blíðr ok hægr öllum góðum mönnum, en sýndi á sjálfum sèr, at allt þat, er hann kenndi í orðunum, þá fylldi hann þat í verkunum. Sýndist svá vitrum mönnum, þeim er gjörst vissu hans ráð, at hann yrði sjaldan afhuga því, er sjálfr drottinn mælti til sinna lærisveina: *Luceat lux vestra coram hominibus, ut videant opera vestra bona et glorificent patrem vestrum, qui in celis est.* Þessi orð mæla svá: „lýsi ljós yðart firir mönnum, til þess at þeir sjái góð verk yðr ok dýrki þeir föður yðarn, þann er í himnum er". Enn helgi Jón biskup lagði ríkt við þat, sem síðan hefir haldizt: at menn skyldu sækja til tíða á helgum dögum eða á öðrum vandatíðum, en bauð prestinum at segja optliga þá luti, er þeir þyrftu at vita. Hann bauð mönnum at hafa hversdagliga háttu sem kristnum mönnum sómir, en þat er at sækja [hvern dag, síð ok snemma, kross eða kirkju[1] ok flytja þar fram bænir sínar með athuga. Hann bauð at menn skyldu hafa, hverr í sínu herbergi, mark ens helga kross til gæzlu sjálfum sèr, ok þegar

---

1) frá [ helga kirkju hvern dag, síð eðr snemma, eðr kross, ef ei er kirkja til, *C*.

er maðrinn vaknaði, þá skyldi hann signa sik ok sýngja fyst: *credo in deum*, ok segja svá trú sína almáttkum guði, ok gánga svá *síðan allan daginn vápnaðr með marki heilags kross*, því er hann merkti sik með þegar er hann vaknaði, en taka aldreigi svá mat eða svefn eða drykk, at maðr signi sik eigi áðr. Hann bauð hverjum manni at kunna *pater noster* ok *credo in deum*, ok minnast sjö sinnum tíða sinna á hverjum degi, en sýngja skylduliga hvert kveld, áðr hann sofnaði: *credo in deum* [ok] *pater noster*. Ok at vèr lúkum þessu máli í fám orðum, þá fèkk hann svá samit siðu sinna undirmanna á skömmu bragði með guðs fulltíngi, at heilug kristni í Norðlendíngafjórðúngi hefir aldreigi staðit með slíkum blóma, hvárki áðr nè síðan, sem þá stóð, meðan fólkit var svá sælt, at þeir höfðu slíks biskups stjórn yfir sèr. [Hann bannaði ok með öllu alla úháttu ok forneskju eða blótzskapi, gjörnínga eða galdra, ok reis í móti því með öllu afli, ok því hafði eigi orðit af komit með öllu, meðan kristnin var úng. Hann bannaði ok alla hindrvitni, þá er fornir menn höfðu tekit af túnglkomum eða dægrum, eða eigna daga heiðnum mönnum eða guðum, sem er at kalla Óðins dag eða Þórs, ok alla þá luti aðra, er honum þóttu af illum rótum rísa[1].

13. Leikr sá var *mönnum tíðr*[, er úfagrligr er, at kveðast skyldu at: karlmaðr at konu, en kona at karlmanni, klækiligar vísur ok hæðiligar ok óáheyriligar, en þat[2] lèt hann af takast ok bannaði með öllu at gera. Mansaungs kvæði eða vísur vildi hann eigi heyra kveðin ok eigi láta kveða, þó fèkk [hann] því eigi með öllu af komit. Þat er sagt í frá, at hann kom á hljóð, at Klængr Þorsteinsson, sá er síðan varð biskup í Skálaholti, en var þá prestlíngr ok úngr at aldri, las bók þá er köllut er *Ovidius epistolarum*[3]. Í þeirri bók býr mansaungr mikill, en hann bannaði honum at lesa þesskonar bækr, ok kallaði þó hverjum manni mundu[4] ærit höfugt at gæta sín

1) frá [ sleppir *C* hèr, en setr þat síðar.

2) frá [ í þann tíma, er heldr var ófagr, at bera bottatilldi(?), þar skyldi karlmaðr kveða at konu, ok svo kona at karlmanni, klækiligar vísur ok ótilheyriligar með mansaungs sneiðíngi ok sámyrði. Þá forneskju, *C*.

3) þannig *C*; epistorum, Sk.; *de arte*, *B*.

4) mundi, Sk.

við [líkamligri munut ok rángri ást[1], þó at hann kveykti eigi upp hug sinn til þess meðr nè einum siðum eða þesskonar kvæðum[2]. Hann var ok iðinn at því, at sníða af mönnum ljóta [löstu] ok svá fór hann kænliga með því, at sá kom náliga engi á hans fund, at eigi fengi hann á nokkura lund leiðrèttan firir sakir guðligrar ástar ok kostgæfi þeirrar, er hann lagði á hverjum manni at hjálpa; ok ef hann lagði mönnum harðar skriptir á hendr firir sakir mikilla glæpa, en þeir gengi undir vel ok lítilátliga, þá var skamt at bíða, áðr helgasta hans brjóst, þat er heilagr andi hafði valit sèr til bygðar: þá samharmaði hann þeirra meinlætum ok lètti þá nokkut skriptunum, [ok þá sömu menn, er hann hafði fyr barða firir sakir guðligrar ástar ok umvandanar, þeim hinum sömu líknaði hann þá miskunsamliga, er þeir voru við skildir sína annmarka[4]; ok sá er alla sína undirmenn elskaði sem bræðr eða syni, þá fæddist hann af engra manna annmörkum eða vanhögum, en samfagnaði því, er öðrum gekk vel, en harmaði þat allt, er annan veg varð. Hann var maðr svá huggóðr, at varla mátti hann sjá eða vita þat er mönnum var til meins, en svá örr ok mildr við fátæka menn, at varla hafði hans maki fengizt. Hann var sannr faðir allra fátækra manna; huggaði hann ekkjur ok föðurlausa, ok engi kom svá harmþrúnginn á hans fund, at eigi fengi á nokkurn veg huggan af hans tilstilli. Svá var hann ástsæll við allt fólk, at engi vildi náliga honum í móti gera, ok var þat meir firir sakir guðligrar ástar, þeirrar er allir menn unnu honum,

---

1) frá [ líkams munað ok ránga ást, *C*.

2) Hann tók af hit forna dagatal, ok setti þat er nú er haft; því at hann bannaði þat með öllu, at eigna heiðnum goðum eðr vondum vættum dægr eðr daga, svo sem var at kalla Þórsdag eðr Óðinsdag, ok alla þá hluti bannaði hann, er honum þótti af nokkurum blótskap eðr forneskju eðr hindrvitni vera. Þessi guðs vinr Jón biskup var opt hugsjúkr fyrir syndum annara manna, ok bað þá blíðlega til yfirbóta, því at hann vildi viðhjálpa öllum en öngvan fyrirdæma, b. v. *C*.

4) frá [ Nú var svo hans brjóst, sem hèr má heyra, huggeðsfullt, at hann mátti eigi bera þeirra kvöl, eðr stórlig meinlæti sjá, eðr vita, ok þó at hann sjálfr, eða prestr hans með honum, skyldu gefa ráðning þeim mönnum, er til lausnar kómu til hans fyrir afgjörðir sinar við guð, þá voru fá högg lostin, áðr hann bað hætta, *C*.

en líkamligrar rækslu[1], ok þar er hann braut sína fýsi í marga staði, en gerði guðs vilja, ef hann fann þat, at þat var eigi allt eitt firir sakir líkamligs eðlis, þá launaði guð honum þat svá í hönd þegar, at hann okaði undir hann alla hans undirmenn í heilagri lýðni[2].

14. En heilagr Jóhannes lifði líf sitt eptir guðligri setníngu ok góðra manna dæmum; var á bænum nætr ok daga, vakti mikit ok fastaði laungum, ok deyddi sik í mörgum lutum til þess, at þá mætti hann meira ávöxt gjalda guði en áðr, af þeim lutum öllum, er honum voru á hendi fólgnir. Ok til þess, at hann mætti þá vera frjálsari en áðr tíðir at veita eða formæli, eða aðra luti þá fram at færa, er guðs kristni væri mest upphald at: þá valdi hann menn til forráða firir staðinn með sèr, þá er firir skyldu sjá staðarins eign með húspreyju þeirri göfugri, er hann hafði áðr átta[3]. Einn af þeim mönnum var prestr virðuligr, sá er Hámundr hèt Bjarnarson, hann var afi Hildar nunnu ok einsetukonu, sem enn man getið verða síðarr í þessu máli. Næst Hámunda var at ráðum prestr sá er Hjalti hèt, ok var[4] frændi biskups. Af leikmönnum var sá maðr með í ráðum, er var göfugr at ætt, hann hèt Örn[5] ok var son Þorkels af Víðimýri. Þessir menn [önnuðust mest þat er til staðarins kom, ok skipuðu mönnum til sýslu, sumum til atflutníngar við staðinn um þá luti er [við þótti] þurfa. Sumir voru settir til verknaðar[6], sumir at þjóna fátækum mönnum, ok var biskup vandr at því, at þat væri miskunsamliga gjört; sumir at taka við gest-

---

1) Sköruliga flutti hann fram alla þá hluti, er til biskupsligs embættis kómu, b. v. *C.*

2) Því at hann var, sem fyr var sagt, hinn mildasti í brjóstinu, í fègjöfum hinn örvasti, huggunarmaðr hryggra, stoðarmaðr fátækra, líknarmaðr iðröndum, hirtíngarmaðr þurfundum ok misgjörundum. En af þessum hlutum öllum aflaði hann sèr fyrir af sjálfum guði eilífra fagnaða með hans helgum mönnum at eilífu, b. v. *C.*

3) er Valdís hèt, b. v. *C.*

4) enn prestr, hann var, b. v. *C.*

5) eflaust af ætt Þorkels trefils (sbr. Landn. 2. 4; Egilss. cap. 81); Ari *C.*

6) frá [ höfðu aðra menn at undir sèr, þá er sumir önnuðust um eign staðarins eðr lönd, en sumir um vinnu eðr aðra iðju á staðnum, sumir at hirða verkfæri, eðr greiða fyrir um verkreiða til ferða; sumir til atflutnínga til staðarins, *C.*

um, því at á hverri hátíð sóttu menn á fund biskups, C. manna eða stundum CC, eða nokkuru fleiri, því at hinn heilagi Jón biskup hafði þat í formælum sínum, at honum þótti því at einu til fulls, ef hverr maðr í hèraðinu, sá er föng hefði á, kæmi til sín, hit sjaldnasta, at vitja staðarins at Hólum[1], á xij mánuðum, ok firir þá sök varð þar svá fjölmennt at skírdegi eða páskum, at þar skorti þá eigi CCCC manna, allt saman, karlar ok konur; ok þó at margir af þessum mönnum hefði vistir með sèr, þá voru hinir fleiri, er á biskups kosti voru, ok af honum voru saddir bæði andligri fæzlu ok líkamligri, ok styrktir með biskupligri blezan fóru með fagnaði til sinna heimkynna. Margir siðlátir menn rèðust þángat heim til staðarins ok gáfu fè með sèr, en sumir fæddu sik sjálfir, til þess at lýða kenníngum biskups ok tíðagjörð, ok gjörðu sèr hús umhverfis kirkjugarðinn.

Heilagr Jón biskup tók marga menn til læríngar, ok fèkk til góða meistara at kenna þeim: Gísla Finnason, er fyr gátum vèr, at kenna grammaticam, en Rikinna prest, kapulan sinn ok ástvin, at kenna saung eða versagjörð, því at hann var ok hinn mesti lærdómsmaðr. Þá var þat ekki hús náliga, at eigi væri nokkut iðnat í, þat er til nytsemðar var; þat var hinna ellri manna háttr, at kenna hinum ýngrum, en hinir ýngri rituðu, þá er náms varð í milli. Þeir voru allir samþykkir, ok eigi deildu þeir, ok engi öfundaði annan. Ok þegar er til var ríngt tíða, þá kómu þeir þar allir ok fluttu fram tíðir sínar með miklum athuga; var ekki at heyra í kórinn nema fagr saungr ok heilakt bænahald. Hinir ellri menn kunnu sèr at vera vel siðaðir, en smásveinar voru svá hirtir af meistörum sínum, at þeir skyldu eigi treystast með gáleysi at fara. Þessir kennimenn fæddust upp undir hendi Jóni biskupi: Klængr, er fyr var nefndr, er síðan varð biskup í Skálaholti ok prýddi þann stað í sinni bókagjörð, ok þar var hann um daga Ketils biskups ok svá Bjarnar biskups, vinsæll við alla góða menn; þar var ok lærðr Vilmundr, hinn fyrsti ábóti at Þíngeyrum, ok Hreinn ábóti. Þar var ok lærðr Björn biskup, sá er hinn þriði var biskup at Hólum. Margir voru þar virðuligir kennimenn aðrir upp fæddir ok lærðir, þó at vèr nefnim þá eigi.

---

1) ok helgra dóma, b. v. *C.*

15. Margir lutir urðu þeir í biskupsdómi heilags Jóns biskups, er mikils voru [verðir] ok stórum jartegnum sættu, þó at menn bæri eigi traust á þat, at kalla þat jartegnir, meðan hinn heilagi Jón biskup lifði, því at svá býðr heilug ritníng: *ne laudaveris hominem in vita sua*; þat mælir svá: „eigi skaltu lofa mann í lífi sínu"; því er svá boðit, at þat kann verða, at maðrinn fellir ofmjök eyrun til mannalofsins, ok þverrir þat þá nokkut verðleik hans í guðs augliti; heldr kom hèr hitt fram, sem sú en sama ritníng segir: *lauda post mortem prædica securum*, „lofaðu hann eptir dauðann, ok boða hann öruggan". Nú er leyft at boða hans dýrð ok fagna öruggum hans verðleikum firir almáttkum guði[1].

Sá atburðr er sagðr frá hinum heilaga Jóni biskupi, at maðr kom til fundar við hann ok bað hann af ást mikilli miðla sèr helgan dóm af beinum hins heilaga Marteins biskup[s], en hann nennti eigi at synja honum ok leitaði til beinsins ok hafði í höndum. Honum þótti mikit firir at bera járn á svá heilags manns [bein]. Síðan skrýddist hann til messu, ok er komit var at lágasaungum, þá tók hann þetta heilaga bein ok lagði á altarit undir corporalia, hjá kalekinum, ok saung síðan messuna, þar til er lokit var. En eptir messuna, áðr hann færi af messuklæðunum, þá leitaði hann til beinsins ok hafði þat þá sprottið í sundr í tvá luti; ok er hinn heilagi Jón biskup sá þat, varð hann forkunnliga feginn ok gjörði guði þakkir ok hinum heilaga Martino biskupi. Síðan miðlaði hann hinn minna lutinn þeim er beðit hafði, en hann varðveitti virðuliga enn meira eptir at staðnum. Margir menn kómu þeir á fund hins heilaga Jóns biskups, er höfðu ýmisligar sútir eða sjúkleika, ok fengu skjóta bót sinna meina eptir hans yfirsaungva ok heilaga blezan.

Maðr hèt Þórir, hann var heimamaðr hins heilaga Jóns biskups ok gætti sauða at staðnum. Hann var úngr maðr, frár ok heldr gálauss, gætti lítt orða sinna ok fylgði lítt tíðum, þó at hann væri heima staddr, en hinn helgi Jón biskup ræddi um við hann, at hann skyldi betr gera, því at honum þótti miklu máli skipta um alla sína heimamenn, at þeir væri vel

1) sbr. Þorl. s. cap. 8.; hèr og víðar má sjá, at sá sem fyr hefir ritað hefir þekkt sögu hins.

siðaðir, ok hefði tíðir jafnan er þeir voru heima staddir ok eigi gleptist í því nauðsynjasýslur, en biskup hafði þó eyfvit[1] at sök um þenna mann. Þat var einn hátíðar aptan, þá er hinn heilagi Jón biskup var at aptansaung, ok allir siðlátir menn voru til farnir tíðum at lýða, þá var þessi maðr Þórir inni, eptir sinni úvenju, ok sló sèr þá í leik ok glímur með úngmenni. Sagt var honum at tíðir voru úti, ok gaf hann at því engan gaum. Hann tók þá ok á sèr bráðliga hefnd, firir þat er hann braut boðorð biskups, ok fèll hann í leikinum, ok túngan sú en sama, er hann vildi jafnan lítt gæta, varð í millum tanna honum ok skeindist hann ógurliga. Þar næst kom blástr mikill í túnguna, meðr miklum verk, ok gjörði hana svá stirða ok þrútna, at hann mátti ekki mæla; honum kom þá í hug, hversu hann hafði háttað sèr ok lýðt eigi boðorðum biskups, ok iðrast þess mjök, ferr þegar til biskups ok bað sèr líknar með bendíngu. En hinn helgi Jón biskup, guðs[2] maðr, samharmar þegar þessa manns mein ok vesöld, ok tók með sinni hendi ok strauk túnguna hans, ok gerði hann með sínum bænum á fám dögum heilan, sem hann hefði aldregi firir þessu meini vorðit.

16. Maðr hèt Sveinn ok var Þorsteinsson, hann varð svá ógurliga leikinn af djöfli, at hann kastaði náliga kristninni ok gleymdi því öllu siðlæti, er kristnir menn eigu at hafa, en þat varð með því móti, at hann ærðist at skrímsli nokkuru: honum sýndist þat vera kona helzti væn, en hon fèkk svá ærðan hann, at hann vildi ekki við aðra menn eiga, fór jafnan sem hugsi veri, en gáði einskis þess er hann þyrfti. En af miskun almáttigs guðs, er engan sinna manna vill firirfarast láta, heldr vill hann öllum við hjálpa, þá var þessi maðr tekinn ok fluttr á fund hins heilaga Jóns biskups; þetta var þann tíma, er hann var nýkominn til staðarins. Hinn sæli Jón biskup tekr við honum vel ok blíðliga, leiðir hann með sèr í kirkju ok byrgir síðan kirkjudyrnar. Hann tók þá at frètta hann at vandliga um allan saman atburðinn, ok eggjaði hann á fast til iðranar eptir þat. En með heilugum hans áminníngum, þá tók þessi enn úngi maðr at komast við mjök ok segir síðan hinum helga Jóni biskupi tállausliga allansaman atburðinn, frá öllum svikum

1) sbr. cap. 26 og víðar.
2) guðr, Sk.

ok umsátum djöfulsins, þeim er hann hafði orðit í vafiðr. En er hinn helgi Jón biskup sá sanna iðran með honum, þá varð hann svá feginn, at hann felldi tár, at hann skyldi mega, sem góðr hirðir, koma þessum sauð aptr til drottinlig[r]ar hjarðar; tók eptir þat at bjóða honum skriptir með heilögum bænum ok áminníngum, ok bauð honum þat fyrst allra luta, at til skemðar ok svívirðíngar djöflinum skyldi hann úlatr vera at segja hverjum manni þenna atburð, þeim er heyra vildi; svá gerði hann ok þat, ok *mælti sèr þat kaup af presti hverjum, þeim er hann* sagði atburðinn, at þá er prestrinn spurði andlát hans skyldi hann sýngja honum sálumessu; ok eptir þetta gengu þeir út or kirkju ok var þá svá mikil skipun á vorðin um ráð Sveins, at sá, er lifat hafði þartil leiðiligu lífi, bæði sèr ok öðrum, en nú var hann hèðan í frá blíðr ok þekkr við hvern mann, ok gætti sín vel, ok þakkaði, meðan hann lifði, heilsu sína almáttkum guði ok hinum helga Jóni biskupi.

17. Þá er hinn helgi Jón hafði skamma stund at stóli setið, þá gerði mönnum ráð sitt óhægt, gnúði á hallær[i] mikit [ok] veðrátta köld, svá at jörð var ekki ígróðra at várðíngi. Hinn helgi Jón biskup fór til várþíngs þess er var at Þíngeyrum, ok er hann kom þar, þá heitr hann til árs, við samþykki allra manna, at þar skyldi reisa kirkju ok bæ, ok skyldu allir þar til leggja, þar til er sá staðr yrði efldr. Eptir heit þetta lagði hinn helgi Jón biskup af sèr skikkju sína, ok markaði sjálfr grundvöll undir kirkjuna, en svá snerist skjótt ráð manna áleiðis, at á þeirri sömu viku voru í brottu ísar þeir allir, er þetta hallæri hafði af staðit at miklum luta, svá at hvergi varð vart við, en jörðin skipaðist svá skjótt við til gróðrar, at á þeirri sömu viku voru sauðgrös nær ærin.

Sá lutr lá á staðnum at Hólum, at þat var bás einn sá í fjósi, er eigi lýddi naut á at binda, því at hvert lá dautt um morguninn, er um aptaninn var á bundit. Þat var eitthvert haust, at hinn helgi Jón biskup gekk til [meðr ráðsmanni[1] at ætla naut til lífs, þau er heima þar skyldu vera at staðnum; ok er þeir höfðu til ætlat, þá segir nautamaðr þeim deili á, at eigi mundu nautin svá mörg rúm hafa, með því at

1) frá [ þannig *B*; forráðamanni, Sk., og tvö strik yfir for, líklega til merkis um að misritað sè.

básinn einn var ónýtr. Biskup kvað svá vera skyldu, sem hann kvað á ok ætlaði til, ok kvað svá skyldu binda á þann bás, sem á aðra, ok svá var gjört; en um morguninn eptir, er til fjóss var komit, þá lá kýr á bási þeim sama ok var dauð. Þat var sagt biskupi, ok bað hann binda þángat naut annat ok hit þriðja, ok dó þau. Þá mælti nautamaðr við biskup: „hversu lengi skal svá framfara, sem nú er?" Biskup svarar: „svá skal á meðan nautin nokkur eru til, ef guð vill at staðr sjá eyðist fyrir þessar sakir". Eptir þetta lèt af, ok sigraði Jón biskup svá þetta úfrelsi með sinni trú ok staðfesti.

Þat var enn eitthvert vár, at váraði svá seint, at jörð var lítt ígróðra at fardögum; þá reið hinn helgi Jón biskup til alþíngis ok hèt þar til árbótar mönnum Jóns messu baptista, ok er hann hafði firir skilt heitinu ok þat var fest, þá mælti hann þessum orðum á eptir: „þat vilda ek, at guð gæfi oss nú þegar döggina!" ok lýstist þat í því, at hann var mjök bráðlátr maðr. Sumarit hafði verit þurkusamt áðr, svá at eigi hafði getið döggvar, ok voru firir því grösin nær engi. Ok þá er hinn helgi Jón biskup hèt, þá var svá þunnt veðr ok reint, at hvergi sá ský á himni. En þá er hann hóf upp *gloria in excelsis* þann dag í messu, þá kom regn svá mikit af himni, at mönnum þótti illvært úti firir vátviðris sökum. Þaðan í frá um sumarit voru döggvar um nætr en sólskin um daga, ok gekk því nokkura stund; grasvöxtr varð þat sumar til meðallags. Þessi hinn heilagi Jón biskup var prýddr af guði í mörgum merkiligum firirburðum ok fögrum vitrunum, ok var þat eigi allkynlikt, at honum væri margir merkiligir lutir í svefninum sýndir, því at hann hafði eigi meira svefninn en hann mátti minnstan nýta, en hugrinn var jafnan, áðr hann sofnaði ok þegar hann vaknaði, á guðs þjónostu ok heilugu bænahaldi[1].

18. Þat bar firir hann á þeirri sömu nótt, sem andaðist suðr í Skálaholti Þorkell prestr, fóstbróðir[2] hans, ok Trandill hèt öðru nafni; hann var hinn virðuligsti kennimaðr. Þat var eptir náttsaung, þar hinn helgi Jón biskup var kominn í hvílu, ok jamskjótt, sem hann hneigði sik at hægendi, rann þegar

1) Þenna kap. v. í *C*.
2) fóstri Jóns biskups frá dauða föður h., *C*.

höfgi á hann, ok þótti honum sem maðr gengi inn, sá er hann kendi eigi, ok næmi stað í miðju herberginu. Honum þótti, sem sá maðr væri spurðr af þeim mönnum, sem við voru, ef hann segði nokkut nýrra tiðenda, en hann sagði: „þorkel helgan". Eigi mælti hann fleira. Biskup vaknaði, ok spratt upp þegar ok kallaði á Rikinna erkiprest sinn, ok mælti við hann: „rís upp, þú bróðir! ok förum til kirkju ok lofum almáttkan guð, því at þorkell prestr, bróðir okkarr, er nú liðinn af þessu lífi, ok skulum vit nú fela önd hans almáttkum guði á hendi". Spurt höfðu þeir, at hann var sjúkr. þeir fóru þá til kirkju ok hèldu sálutíðum, ok þá segir hann prestinum Rikinna, hvat firir hann hafði borit.

19. Á hinu xij. ári biskupsdóms hins heilaga Jóns biskups urðu mörg stór tíðendi: þá andaðist Gizurr biskup í Skálâholti, þrim tugum nóttum síðarr en þorlákr Runólfsson tæki biskupsvígslu, þat var á þriðja dag viku v. kal. Junii. þorlákr var kosinn til biskups, at bæn Gizurar biskups, einu sumri fyr en Gizurr biskup andaðist. Gizurr var biskup XXX ok VI vetr. þá var liðit frá burð Krists M. C. xviij[1] [ár]. Á því ári enu sama andaðist Paskalis papa, Baldvini Jórsala konúngr, Arnaldus patriarcha í Hierusalem, Kirjalax Girkja [konúngr], Philippus Svíakonúngr. þá var liðit frá falli Ólafs konúngs Tryggvasonar C. ok xviij[2] vetr.

Eitthvert sinn, þá er heilagr Jón biskup hafði til svefns lagzt einhverja nótt, þá bar firir hann sýn. Hann þóttist staddr vera á bæn sinni firir einum miklum róðukrossi, ok þvínæst þótti honum líkneskit á krossinum hneigjast at sèr ok mæla nokkur orð í eyra sèr, ok vitum vèr eigi hver þau voru. þessa sýn sagði hann Rikinna prest[i], ok var engi sá er ráða kynni. En hinn næsta dag eptir, þá komu á fund heilags Jóns biskups þeir menn, er þá voru nýkomnir af hafi, ok færðu honum bók eina. Á þeirri bók var sá atburðr ritaðr, er á þessu landi var þá mjök ókunnr: sagt frá því, er Gyðíngar

---

1) M. C. IX, *C*, fyrir MCXI, sem eptir Húngrvöku er dauða ár Gizurar. Sama ritvillan (IX fyrir XI) finnst í *B* á þessum stað í Sthb.

2) xiij, *C*. ritvilla fyrir xviij; *C* telr ætíð rètt frá falli Ólafs Tryggvasonar, en frá Krists fæðing sem Húngrvaka. *B* hefir hèr líka ritvillu (xiiij fyrir xviij).

píndu líkneskju várs herra Jesú Kristi[1], eptir þeim hætti, sem þeir höfðu fyr píndan drottinn várn Jesum Kristum; þeir börðu líkneskit með svipum ok spýttu á þat ok gáfu því hálshögg; eptir þat krossfestu þeir þat, ok gengu síðan firir krossinn ok skelktu[2] at líkneskinu, eptir dæmum hinna fyrri Gyðínga. Eptir þat tóku þeir spjót og lögðu grimmliga í síðu líkneskinu. Þá varð dásamligr atburðr ok fáheyrðr: vatn með blóði ljóp or síðu líkneskinu, ok af því blóði ok vatni fengu margir sjúkir menn heilsu. Ok er Gyðíngar sá þenna atburð allan jamnsaman, þá gerðu þeir iðran af öllu hjarta ok snerust til guðs. Ok er heilagr Jón biskup ok Rikini prestr höfðu lesit þenna atburð, þá mælti prestrinn við biskup brosandi: „sè hèr nú, faðir, draum þann, er drottinn sýndi þèr í nótt." [Síðan lofuðu þeir báðir drottinn Jesum Kristum[3].

20. Nú er yfir farit nokkut um þær jartegnir, er vèr höfum heyrt sagðar eða sèð ritaðar af lífi hins heilaga Jóns biskups, þótt menn sæi við, at honum lifanda, at kalla þat berar jartegnir, en þó þótti öllum mikils um vert, þeim er gjörla kunnu at sjá, um slíka luti ok marga aðra, þá er almáttigr guð gjörði firir þenna sinn ástvin. En þó þótti um þat hvergi minna vert, hversu dýrðliga hann hèlt staðinn ok kennimenn þá, er með honum voru, ok hversu jafnlyndr hann var í öllum góðum lutum. Hit sama var ávallt lítilæti hans, ok hin sama ástúð við fólkit ok almáttkan guð fyrst at upphafi. Hit sama var hans huggæði, svá at hann mátti ekki vetta aumt sjá. Hann fastaði löngum, ok vakti náliga nætr ok daga ok baðst firir, en hafðist jafnan nokkut þat at, er nytsamlikt var, ok hvat sem hann gjörði þá voru hans varrar aldri kyrrar frá lofi almáttigs guðs[4].

21. En er sú tíð var komin, er almáttigr guð vildi eilífliga ömbuna hinum helga Jóni biskupi þat starf ok erfiði með miklum meinlætum, er hann hafði firir guðs sakir borit, þá tók hinn helgi Jón biskup sótt, ok meðr þeirri sömu sótt leið hann af þessu lífi. Sottin var ekki áköf, ok mátti hann eptir því öllum lutum skipa ok hugsa, sem hann vildi; ok er hann lá í þessi sótt ok var enn eigi oliaðr, þá kom til hans einn af lærisvein-

1) á krossi í borg þeirri er Bericho (rètt. Berytho) heitir, b. v. *C.*
2) skekltu, Sk.
3) frá [ „Satt er" segir biskup, „ok lofum guð", *C.*
4) sbr. Þorl. s. cap. 12.

um [hans][1], ritari góðr ok vinsæll maðr, prestr at vígslu, [hann hèt þorvarðr ok kallaðr knappi, or Knappadal[2]; hann hafði með sèr bók, er hann hafði ritað ok gjörva presti einum, þeim er þaðan var lángt í brutt, ok hafði sá beðit hann mjök til at gera bókina, ok höfðu þeir á þat sæzt sín í millum, at biskup skyldi virða bókina, ok skyldi prestrinn eptir því kaupa. Biskup varð feginn prestinum ok mælti við hann blíðliga: „gakk at mèr, son minn! ok kyss föður þinn friðar koss, áðr en ek öndumst, sem aðrir bræðr þínir." Síðan gekk prestrinn at honum ok kysti hann. Eptir þat sýnir hann honum bókina, ok segir á hvat þeir höfðu sæzt um verðit sín í millum, ok bað hann virða bókina. En biskup hyggr at bókinni ok lofaði mjök ok mælti síðan: „góð er þessi bók ok vel rituð, en eigi man honum verða auðit bókarinnar; annarr nokkurr man hennar njóta skolu." Prestrinn svarar: „firir hví, faðir? legg þú á verðit, en hann man gjarna kaupa eptir því, því at hann bað mik mjök, at ek skylda honum slíka bók gjöra." Biskup svarar: „þat má ek gjöra," segir hann, „ef þú vill, at virða bókina, en eigi þarf þess, firir því at sá hinn sami prestr, er þú hefir bókina ætlað, er nú andaðr[3]". þess var í millum nokkur ríð, ok þess, er spurðist andlát þess hins sama prests, ok hafði hann þá andaðr verit, er biskup sagði andlát hans. Öllum mönnum þótti mikils um vert, er hinn heilagi Jón biskup mátti slíka luti vita, þar er hann var þessu hvergi í nánd.

22. Nú tók þó mjök at líða at hinum helga Jóni biskupi; en þó at máttrinn þyrri mjök, þá hèlt hann þó jamnan sínu bænahaldi. [Eptir þat[4] lèt hann olea sik, ok voru þar við staddir allir þeir lærðir menn, sem á staðnum voru, ok aðrir hans hugðumenn. Hafði hann ok þá áðr þannug til skipat, sem honum þótti vænligast. Eptir þat lèt hann gefa sèr *corpus domini*; ok er hann hafði því bergt, þá saung hann fyrst *communio* þessa: *Refecti domine pane celesti ad vitam quesumus nutriamur eternam.* Eptir þat hóf hann upp sálm þenna: *Benedicam dominum in omni tempore, semper laus ejus in ore meo.* þessi orð þýðast svá: „lofa man ek drottinn á hverri tíð, ok jamnan sè

---

1) „hans" b. v. *C.* 2) frá [ er þorvaldr hèt af Knappstöðum, *C.*
3) Engi maðr vissi þetta annarr en biskup, b. v. *C.*
4) frá [ meðan hann mátti mæla; ok er hann sá sitt andlát nálgast, *C.*

lof hans í munni mínum. Ok þá er hann hafði þenna psálm í munni, ok enn rærðist túngan til þessa hinna heilugu orða, þá skildist hans hin heilaga önd við sinn líkama, ok var þá borin af guðs englum til þeirra fagnaða, er henni voru firirbúnir af almáttkum guði, ok man hann þar lofa almáttkan guð at eilífu með öðrum helgum mönnum, svá sem hann hafði firirheitið í psálminum, þeim er hann saung síðast. En hinn heilagi Jón biskup leið af heimi þessum til eilífra fagnaða á laugardegi, IX. kal. Maii; þá var liðit frá burð Krists M. C. XXI.[1] vetr. Hann var vígðr til biskups þá er hann hafði fjóra vetr hins sètta tigar, en hann sat í biskupsdómi sínum XV vetr. Ok þá er hann hafði alls lifat í þessum heimi LX vetra ok IX vetr, þá andaðist hann í góðri elli. Þat var á dögum Calixti papa[2], er annarr var með því nafni. Þat var ok á dögum Noregs konúnga Eysteins ok Sigurðar, en þá var andaðr Ólafr konúngr bróðir þeirra. Þá var biskup í Skálaholti Þorlákr biskup Runólfsson.

Lærðir menn, þeir sem við voru staddir, bjoggu um lík hins heilaga Jóns biskups vel ok rækiliga[3]; ok er þar var komit, er líkit var skrýtt ok búit til graptar ok súnginn líksaungr, framan til þess, er út skyldi bera, þá gengu til af lærðum mönnum þeir er bera skyldu, ok tóku undir bararnar ok vildu upphefja. Þá brá því við, er öllum mönnum þótti mikils um vert, þeir er við voru: líkit varð svá þúngt, at þeir máttu engan veg hræra, er til voru settir út at bera. Þetta fèkk öllum mikillar áhyggju, ok ræddu sín á millum, hverju gegna mundi. Þá tekr til orða vel ok hyggiliga einn af klerkum ok segir svá: „várrar vanhyggju man at gjalda um þenna atburð,

---

1) M. C ok XIIIJ bæði *B* og *C*, eptir tali Húngrvöku.

2) Calixtus II. var páfi 1119—1124; Ólafr konúngr andaðist 1116.

3) ok skrýddu hann biskups skrúða. En er kistu skyldi gjöra at líkinu, þá var at þeirri smið klerkr sá er Brandr hèt ok var Bergþórsson. Hann skeindist mjök í hendi, svo at náliga var af fíngrinn; ok eptir þat lætr hann binda um lèrepti einu, því at blæddi mjök, sem von var at, en þó lèt hann ei af smiðinni, fyr en kistan var fullgjör. Eptir þat skrýddi hann lík biskups með öðrum kennimönnum, ok starfaði þar at með mikilli vandvirki. En iij nóttum síðar, þá var til handarinnar leyst, ok var þá sárit gróit. En þat þótti mönnum líkast, þar sem sárit hafði verit, sem rauðr þráðr lægi eptir, ok lofuðu allir guð, þeir eð þessa jarteikn sá, b. v. *C*.

ok munum vèr hafa gert nokkurn lut óvirðuliga í várri þjónostu við biskup várn. Leitið nú eptir vandliga, hvárt hann hafi þá luti alla í skrúðinu, sem hæfa ok til heyra hans vígslu." Þá var um leitað, ok rannsakaðist svá til, at þeir höfðu eigi dregit á hönd hinum heilaga Jóni biskupi fíngrgull hans[1]. Þeir tóku þá gullit ok drógu á hönd honum, ok eptir þat gengu til hinir sömu menn, sem fyrr, ok tóku þá upp líkit lèttliga ok báru til graptar. Líkami hins heilaga Jóns biskups var jarðaðr utan kirkju, firir sunnan saunghúsit ok gjört yfir hválf. Þar lágu bein hans LXXX vetra ok nokkuru minnr, þar til er guð birti hans dýrð með fögrum jartegnum, ok heilagr dómr hans var or jörðu tekinn. Þá lèt virðuligr herra Brandr biskup taka upp helgan dóminn, ok færa í kirkju inn, ok búa um virðuliga með mikilli dýrð, til lofs drottni várum Jesu Kristo. Sá láti sèr sóma, firir verðleika þessa hins heilaga síns ástvinar ok bænir, at firra[2] oss vandræðum ok háskasamligum lutum, en þá er vèr líðum af þessum heimi, samtengi hann várar sálur sínum völdum mönnum[3].

23. Þá er liðnir voru frá andláti hins heilaga Jóns biskups LXX vetra ok vij[4] vetr, þá lèt virðuligr höfðíngi Brandr biskup, sá er hinn fjórði var biskup at Hólum, þvá bein hins heilaga Jóns biskups ok lèt gjöra at nýja kistu ok búa um vandliga. Haus hins heilaga Jóns biskups lèt hann þvá einn saman í reinu vatni, ok lèt varðveita þat vatnið vandliga. Hann lèt ok [á sömu tíð[5] þvá bein Bjarnar biskups ok gjöra þar at nýju kistu. Síðan lèt hann setja báðar kisturnar undir eitt hválf, en moka eigi moldu á. Bein hins heilaga Jóns biskups voru þessu sinni or jörðu tekin á XIX. degi *kalend. Januarii*[6].

1) ok lá þat þar á pallinum, b. v. *C.*

2) friða þetta land, styðja ok styrkja þessa kristni, er þessi biskup hóf með sinni biskups tign, ok prýddi ok helgaði með sínu lífi; ok hann firri, o. s. frv., *C.*

3) Þetta veiti oss almáttigr guð, sá er lifir ok ríkir einn guð í þrenníngu *per omnia secula seculorum. Amen.* b. v. *C.* Þar næst hefir *C* söguna um ráðskonu Jóns biskups, um Hildi nunnu, o. s. frv. (sjá Viðbæti).

4) viij, *C* (rángt).  5) frá [ annan daginn eptir, *C.*

6) þat var iij nóttum eptir Magnús messu ok Luciæ (þ. e. 16. Des. eða xvij. kal. Jan., sbr. sögu Gunnlaugs, því Magnúsm. ok Luc. er 13. Dec. en XIX. kal. Jan. er 14. Dec.); þá hafði Brandr biskup ráðit fyrir Hólastað XXX vetr (á að vera XXXV, 1163—1198), b. v. *C.*

Á þeirri sömu tíð var mær ein úng at aldri, sú er Hjálmgerðr hèt. Hún tók sjúkleika lengi, ok af miklu svefnleysi þá tók hon augnaverk mikinn á so-gurt ofan. Þá var tekið vatnið þetta hit sama, sem höfutbeinin heilags Jóns biskups höfðu verit þvegin í, at ráði Brands biskups, ok dreypt á augu meyjunni iij aptna ok iij nætr, er næstar voru; þá svaf hon sætliga, ok varð á skömmu bragði alheil þessa meins.

24. Á öðru ári, á öndurðum vetri, tók mær sú hættligt mein, er Arnríðr hèt. Þat var með því móti, at hon kendi firir brjósti sèr ok at síðunni út öðrum megum sárligra verkja ok mikilla óhægenda. Henni fèll meinit svá nær, at allum mönnum þótti hon at bana komin. Þat fylgði ok, at ódaunan gekk svá mikit af henni, at menn þóttust varla mega nýta at sitja yfir henni. Eigi mátti hon sofa nè matast. Faðir hennar var sorgmóðr af hennar vanheilsu. Ok er honum þótti hon vera mjök fram komin, þá tekr hann hana upp í faðm sèr hógliga, ok vildi vita, ef hann mætti nokkut kenna undir höndunum, hvernug meininu væri farit, því at hann var læknir góðr. Ok er hann þreifar um hana, kennir hann fyrir ofan nafla, við rifin öðrum megum, at þar var sullr mikill ok ógurligr[1], ok þá tekr hann til orða: „Ef fènaðr nokkurr hefði slíka sótt, þá munda ek skera til, en nú þori ek þat eigi firir guði". Eptir þat hèt hann á hinn heilaga Jón biskup til árnaðarorðs við almáttkan guð, at láta gjöra kerti, þat er væri jafnhátt meyjunni, ok annat þat, er tæki um hana. Þau kerti skyldu brenna í kirkju at Hólum at ártíðardegi Jóns biskups. Hann hèt ok bænahaldi ok kona hans, at sýngja fimtigum sinna *pater noster* ok Maríuvers með, ok þegar, er heitið var fest, þá sofnaði mærin ok svaf til morgins. Eptir þat tóku þeir, er yfir henni sátu, ok dreiptu vatni því í mjólk, er bein hins heilaga Jóns biskups höfðu verit þvegin í, ok lètu meyna drekka allt saman. Ok jafnskjótt, sem hon hafði bergt, þá gaus upp or henni spýja mikil með mikilli fýlu. Eptir þat lá hon kyr til aptans[2], þá tekr faðir hennar ok þreifar um hana öðru sinni, ok kennir hann, at þá var sullrinn sprúnginn ok [þrotinn laupinn í sundr í þrjár hellur[3]. En er iij nætr voru liðnar, frá því er heitið

1) ok tók hann upp fyrir brjóst henni, ok hann var átaks sem þófi, b. v. *C.* 2) þá, b. v. Sk. 3) frá [ ok hlaupinn sullrinn í iij knöttu, *C.*

hafði verit, þá var mærin svá alheil, sem hon hefði aldreigi sjúk orðit. Allir lofuðu guð, þeir er við voru staddir, ok hinn heilaga Jón biskup. *þessi atburðr varð litlu firir jólaföstu.*

25. Sá atburðr varð þenna sama vetr, næsta dag firir Andres messu postula, heima þar at staðnum, at sá maðr, er Einarr hèt, djákn at vígslu, átti þat at annast, at þjóna kirkju. Ok er hann skyldi at því vera, at skrýða hana móti messudeginum, þá kemr at honum höfutverkr svá mikill, at hann mátti eigi annast sýslu sína firir. Hann tekr þá nokkur lyf af helgum dómi Jóns biskups, ok leggr við höfut sèr, ok gengr út eptir þat. Ok er hann sneri heim til húsanna ok ætlaði niðr at leggjast, þá fær hann svá skjóta bót, at hann kennir sèr hvergi meint, ok hvarf þá aptr til kirkjunnar, ok gjörði guði þakkir ok hinum heilaga Jóni biskupi, ok lauk góðmannliga sinni þjónostu.

Sètta dag jóla varð sá atburðr, at sá maðr, er Grímr hèt, var í leik með jafnöldrum sínum; þá varð hann firir meini: leypr fótr hans or knèliðnum, en blóð hljóp þegar milli leggjarins ok knútunnar; mátti firir því fótinn eigi til fulls í lag færa. Blástr kom mikill í fótinn ok gjörði stirðan sem stokk, ok mátti þá ekki gánga. En er kemr þrettándi dagr jóla, ok allir menn voru til nónu farnir, þá er hann einn samt, ok gjörist þá hryggr af sinni vanheilsu, ok hèt af öllum hug á almáttkan guð ok á hinn heilaga Jón biskup til árnaðarorðs. Hann hèt ok, at sýngja guði til dýrðar ok hinum heilaga Jóni biskupi sálma þá alla, er hann kunni af psaltara, hvern dag, meðan hann lifði. Aptansaungva kunni hann, ok tekr þegar til ok sýngr; ok er hann hefir lokit þessum saung, þá kennir hann skjótt, hvat mátti við guð verðleiki hins heilaga Jóns biskups, ok færist þá á fætr ok gengr út til kirkju staflaust, ok hittir heimamenn sína ok segir þeim atburðinn. Ok á þessi sömu tíð gengr hann af bæ í brutt ok ferr at finna Guðmund prest, siðlátan kennimann, ok segir honum atburðinn allan jamsaman. Hann varð feginn þessu ok þakkaði guði.

26. Kona hèt Rannveig, hana átti prestr sá er Jón hèt; hon varð firir meini miklu drottinsdag hinn næsta fyr jól: blástr mikill ok þroti kom í andlit henni með miklum verk ok kendi af þrotans víðara, ok svá annarra óhægenda með.

Prestrinn Jón, bóndi hennar, hèt firir henni á hinn heilaga þorlák biskup, ok skipaðist ekki við. Eptir þat vitraðist hinn heilagi þorlákr biskup meyju einni ok mælti við hana: „Eigi skulu þèr undra þat, þó at ek láta eigi at hvers manns áheiti, með því at fleiri menn eru enn mikilla verðleika, ok er annat öðrum til handa varðveitt í jartegnum". Eptir þat hverfr hann frá meyjunni at sýn, en hon segir mönnum firirburðinn. Nú liðu af jólin, ok vóx at eins úhægendi konunnar. Nú kom drottinsdagr næsti þrettánda degi, ok vóx þá svá mjök[1] mein hennar, at hon mátti eyfit mæla eða sofa. Ok er náttaði, tók hon með mikilli sorgmæði at kalla á árnaðarorð hins heilaga Jóns biskups, ok mætti hon þaðan af heil verða. Síðan hèt hon firir sèr, at sýngja fimm *pater noster* í hverri viku til dýrðar hinum heilaga Jóni biskupi, ok vers Maríu drottníngar með, þann dag í vikunni, sem á hinum næstu misserum haf[ði] messudaginn á borit. Ok þegar heyrir almáttigr guð hennar ákall, firir árnan heilags Jóns biskups, því at þegar er hon festi heitið, þá sofnaði hon, ok vaknaði eigi fyr en um morguninn, er prestr vakti hana. þá var or andliti hennar allr þroti, ok á fám dögum varð hon alheil.

Svá bar enn til, á þriðja degi viku firir kyndilmessu, at prestr einn, er Jón hèt, fór at finna móður sína. Ok er hann fór heim á leið ok reið hart, þá bar svá at, at hestr hans fèll undir honum; varð fótr hans undir hestinum ok skeindist mjök. Eptir þat fór hann á bak ok reið heim. Verk laust í fótinn miklum ok þrútnaði; gjörði stirðan, sem trè. En messudaginn Brigide meyjar, þá hèt hann af öllum hug á hinn heilaga Jón biskup til heilsubótar sèr, ok at eigi tækist svá þúngliga, at hann yrði eigi tiðafærr þann hátíðisdag, er í hönd fór. Hann hèt því, at sýngja IX tigum sinna *pater noster* ok Maríuvers með, ok lauk þegar saunginum Brigiðarmessu. En kyndilmessudag sjálfan þá vaknaði hann við þat, er honum var mál til tíða at fara, ok var þá þroti allr or fæti hans, ok reis hann þá alheill upp ok flutti tíðir sínar með fagnaði.

27. Maðr hèt Sveinn; hann fór til tíða Brigiðarmessudag. Svá bar til, at hann fèll fall mikit, kom höfuðit niðr ok springr einshverstaðar; var þat sár mjök mikit ok blæddi ákafliga; hann komst þó leiðar sinnar, ok fann prest þann, er saung at

1) í Sk. ritað: mig.

kirkju þeirri, sem hann hafði til ætlað at fara, ok þar skyldi sýngja tíðir; sýnir honum sárit[1]. En er lokit var tíðum, þá fór Sveinn heim; ok er hann kom á þann bæ, sem hann átti heima, þá tók blóðrásin at hefjast öðru sinni, ok blæddi nú enn ákafligar en fyrr; en nú var engi sá hjá, er stöðva kunni. Þá sækir hann til guðligs fulltíngs, er eigi var hins mannliga kostr, ok kallar af öllum hug á hinn heilaga Jón biskup til árnaðarorðs, ok heitr, at biðja hvern dag meðan hann lifði firir Ögmundi, föður hans, ok Þorgerði, móður hans, ok vitja um sínsakir á hverjum xij mánuðum staðarins at Hólum, ef hann væri vistum í Norðlendíngafjórðúngi; ok jamskjótt, sem hann hafði firir mælt heitinu, þá [stöðvaðist blóðit ok[2] sárit var á fám dögum heilt. Hann varð feginn mjök þessum atburð, ok allir, er hjá voru, þökkuðu guði ok hinum heilaga Jóni biskupi.

Nú tók at vaxa mjök orð um heilagleik Jóns biskups, ok fengu margir menn mikla fró sinna meina ok fagrar jartegnir af hans árnaðarorði við allmáttkan guð. Ok nú segir maðr manni þessi fagnaðar tíðendi, ok spurðist brátt víða. Þá varð enn sá atburðr, at mær sú, er Svanhildr hèt, varð vanheil mjök, svá at reis eigi or rekkju; var ryggr ok lendar knýttr, en fæturnir kreptir. Móðirin heitr firir henni á hinn heilaga Jón biskup, at sýngja hvern laugardag fimtugum sinnum *pater noster* allt til ártíðardags hans, en fara þá sjálf til Hólastaðar ok færa þángat kerti ij. Því hèt konan ok með, at mærin sjálf skyldi sýngja viku í samt, hvern dag, sem hon var vetra gömul jammargar *pater noster;* en hon var vij vetra gömul. Síðan festu þær heitið, ok hinn næsta drottinsdag síðan þær höfðu heitið, þá mátti mærin gánga ein saman um þvera stofu, ok batnaði síðan dag frá degi, til þess er páskar komu; þá var hon vorðin svá alheil, sem hon hefði alldri firir slíkri meinsemi vorðit. Öllum þótti um þetta mikils vert, ok þeim öllum mest, er áðr höfðu sèna meyna ok meinsemi hennar var mest í kunnleika, en sá hana nú alheila, ok lofuðu guð ok hinn heilaga Jón biskup.

28. Maðr hèt Áslákr, hann varð firir því meini, at sló út um hörund hans ryfi ok úþvera með kláða miklum ok sviða, svá

1) ok bað hann stöðva blóðrásina; hann gjörði svá, b. v. *C.*

2) frá [ var sem tekit væri fyrir undina ok blæddi eigi síðan *C.*

at hann mátti sik hvergi kyrran hafa; þá spyrr hann sá maðr, er Þorfinnr hèt, hví honum væri svá óþverasamt, en hann kvezt honum sýna mundu hvat til bar, ok bað þá gánga frá öðrum mönnum í brutt; ok er [þeir] voru ij samt í húsi, þá sýnir Áslákr sik Þorfinni ok ferr af klæðum sínum. Þá var líkami hans at sjá, allr millum háls ok hæls, sem blaðra væri við blöðru, ok sviði á, sem bruni væri. Hann Þorfinnr tekr þá vatn hins heilaga Þorláks biskups, ok reið því um allan líkama hans; ok er menn lögðust til svefns um kveldit, þá vakti Áslákr með miklum óhægendum alla nóttina[1]. Eptir um morguninn kemr Þorfinnr til máls við Áslák, ok spurði hversu hann mætti, „Eigi má ek nú vel", sagði hann, „ok mikill áauki þikki mèr nú hafa fallit[2] til minnar meinsemdar; nú er hörund mitt allt sem einn hrúðr sè, en sviðar þeir eru at mèr ok hitar, at ek veit eigi hvat ek skal til taka með illakláða þeim". Ok eptir þetta setr at honum grát mikinn af harmi ok leiðendum. Þat fylgði með, at blástr mikill var kominn í andlit honum, svá at varla mátti sjá augun í höfðinu[3]. Ok nú kemr honum í hug, hversu mikit orð á reis um helgi Jóns biskups, ok hversu margar jartegnir guð gjörði firir hans árnaðarorð; þá heitr hann á hann af öllum hug, at hann lètti nokkurn veg hans meinlætum; hann heitr því, at sýngja v sinnum *pater noster* vij daga, hvern eptir annan, guði til dýrðar ok hinum heilaga Jóni biskupi. Eptir þat baðst hann firir ok sofnar þegar, ok vaknar þegar um morguninn eptir, ok var þá líkami hans allr slèttr ok heill ok sviðalauss. Þroti var eptir nokkurr í andliti hans, en heil[l] var hann vandliga firir annars sakir. Þá tók Þorfinnr vatn heilags Þorláks biskups ok reið á andlit honum ok tók þá þegar or þrotann allan. Áslákr varð feginn mjök heilsu sinni, ok þakkaði guði af öllum hug ok hans helgum mönnum.

29. Maðr hèt Þorbjörn; hann tók sótt hættliga, ok með svá bráðum atburðum, at hann lagðist niðr um kveldit heill ok kátr, ok sofnaði, en vaknaði við þat, at hann hafði stínga tekit[4] svá hættligan, at hann mátti varla draga öndina firir [sárleikinum, þeim er fylgði[5]. Verkrinn lá mest í síðunni ok firir brjóstinu; vildi hann ná prests fundi, en engi var sá, er eptir mætti fara.

---

1) Hèr byrjar 221. 2) b. v. 221. 3) höfuð, 221.
4) tökit, 221. 5) frá [ sárleikum þ. e. fylgðu, 221.

þá kallar hann á þann, er öllum er hallkvæmastr, almáttkan guð, firir árnaðarorð heilags Jóns biskups, ok hèt at sýngja vij *pater noster* vij daga samt hinum heilaga Jóni biskupi, ok tók þá þegar at sýngja, ok gekk honum tregt at sýngja firir sóttinni. En er hann var at hinni vij[du] ok hafði varla lokit, þá rann á hann höfgi, ok í höfganum vitraðist honum maðr í svartri kápu, mikill ok harðla kennimannligr. Hann þóttist verða hræddr við manninn ok þora ekki við hann at mæla. Síðan þótti honum sá hinn komni maðr taka hægri hendi undan kápu sinni. Höndin var svá björt ok ljós, at hann mátti eigi í gegn sjá. Síðan leggr sjá maðr höndina firir brjóst honum, ok þrýstir[1] svá fast, at hann þóttist varla bera mega. Eptir þat hefr sá maðr upp höndina ok blezar honum ok hvarf í brutt síðan. Hann vildi hafa spurt hann, hverr hann væri, ok varð ekki tóm til þess. Eptir þat vaknar hann ok var þá heill, svá at hann kendi sèr hvergi sóttar nè meins. Honum þótti mikils um vert þenna atburð, ok þakkaði guði ok hinum heilaga Jóni biskupi.

þenna tíma varð sá atburðr, at maðr sá er hèt Auðunn hafði fótarmein, þat er við hafði leikit xviij mánuði. þat var með því móti, at á tánni [enni minnstu[2] var sár, ok jafnan opit[3], ok sýndan hafði hann læknum fót sinn, ok sögðu þeir svá, at sá fótr mundi aldri græddr verða, nema bæði væri skorinn ok sviðinn; en honum þótti þat ógurlegt ok leitaði sèr kænna læknis. Hann kallar þá á hinn heilaga Jón biskup til árnaðarorðs sèr ok miskunnar, ok hèt at gefa til Hólastaðar mörk vax, ok sýngja v *pater noster* laugardag hvern framan til páska, en þetta var Gregoriusmessu. Síðan batt hann um fótinn sèr eptir venju, ok leysti eigi fyr til, en vij dagar voru liðnir; þá var fótrinn svá heill, at hvergi sá á sárt[4]. Hann segir þá sjálfr þenna atburð mörgum mönnum, ok lofuðu allir guð ok hinn heilaga Jón biskup, ok þótti mikils um vert, hversu tíðum nú urðu jartegnir.

Sá atburðr varð enn, at kona sú er Guðrún[5] hèt tók um nótt svá stríðan höfutverk, at hon þóttist eigi víst vita, hversu

---

1) frá [ eigi allkyrt, svá lengi, sem maðr drekkr þorstadrykk, b. v. *C.*
2) frá [ einni, 221. 3) opin, 221.
4) at sárt hefði verit, 221. 5) þannig 221; Gurun; Sk.

hon mundi bera mega. þá kallar hon á hinn heilaga Jón biskup af öllu hjarta, at ef hann væri svá mikilla verðleika við guð, sem hon heyrði frá sagt, þá skyldi hann nú hjálpa henni. Hon heitr því með, at láta gjöra kerti, þat er tæki um höfut henni. Síðan festir hon heitið, ok sofnar brátt eptir þat, en vaknar alheil, ok reis upp þegar ok fór í klæði sín ok þakkaði þetta guði ok heilugum Jóni biskupi.

30. Á því sama ári, sem þessar jartegnir urðu flestar, er nú hafa sagðar verit, ok margar aðrar[1], þá urðu þau tíðendi at staðnum á Hólum á[2] lángaföstu: þar var kona ein[3] fátæk ok ókröptug, sannorð ok meinlaus ok trúföst. Á þessum tímum lágu á mönnum ríðir miklar ok veðrátta köld, horfði ráð manna til hins mesta voða ok hallæris, gekk því um allt Ísland; en kona[4] sú, er ek gat fyrr, lá einhverja nótt í rekkju sinni vakandi ok baðst firir; ok at lokinni bæn sinni, þá hnegir hon sik at hogendi ok sofnar. þá[5] bar firir hana, at maðr kom at henni, mikill vexti ok virðuligr yfirlits; hon þóttist verða rædd við manninn, ok þora ekki at kveðja hann[6]. Hann kveðr hana þá þessum orðum: „þikkir yðr eigi þúng veðrátta sú er á liggr, eða hræðist þèr eigi hríðir þær enar ógurligu, er á gnýja?" Konan svarar: „víst hræðast menn mjök, ok eigi þikkjast menn yfir mega sjá, nær endir man á verða ógn þessi. Nú eru þegar þeir margir menn vorðnir fátækir ok öreiga, ok í mikilli hrellíngu staddir, þó at þeir menn allir sè sælir, er á þessum heilaga stað eru staddir". þá mælti maðrinn sá er henni vitraðist: „einskis ráðs leita menn ok í, þó at í slíkum háska verði staddir". Konan svarar: „eigi vita menn svá glöggt, hvat helzt liggr til við slíkum hlutum at gjöra". Hann lagði þá ráð til ok mælti svá: „Taki menn[7] or jörðu kistu heilags Jóns biskups, ok dýrki svá sem menn hafa framast faung á, ok sjái síðan hvat í gjörist". Ok er hann hafði þetta mælt, hvarf hann frá henni at sýn, en hon vaknaði ok sagði mönnum[8] firirburðinn, ok þótti öllum mikils um vert.

---

1) þótt hèr sè eigi ritaðar, b. v. *C.* 2) öndverðri, b. v. *C.*
3) ok hèt þórdís ok var Hallsdóttir, hún var, b. v. *C.*
4) sa, 221 hèr og víðar. 5) ok í höfganum, *C.*
6) því at hann var svá bjartr, at hún þóttist eigi geta í móti honum séð, b. v. *C.*
7) v. í *C.* 8) Gísla presti, *C.*

31. Á þessi sömu tíð var Brandr biskup sjúkr mjök, svá at hann mátti eigi leiðast til kirkju, ok lèt hann lesa tíðir ok messu í herbergi sínu. Þetta var á fyrstu viku föstu, ok var svá gjört bæði *miðvikudaginn* ok fimtadaginn[1]. Þá eggjuðu *menn* Brand biskup á, at hann skyldi senda til menn, at láta taka upp hválfit af leiði Jóns biskups, ok færa biskupi nokkut af helgum dóminum[2]. Ok er þeir höfðu upp lokit leiðinu, þá fundu þeir þar grös, þau er mönnum voru ókunn, hverskyns voru, ok græn, sem á sumar; þeim þótti undarligr grænleikr grasanna í þat mund missera, ok tóku upp ok lètu koma í drykk biskups, ok þegar hann hafði bergt var honum nokkuru lèttara, ok þá kveðr hann þat upp firir mönnum, at hann man upp láta taka helgan dóminn, ok lætr þá þegar um daginn búa firir þann stað í kirkjunni, sem hann ætlaði, at heilagr dómrinn skyldi vera. Ok er allir lutir voru tilbúnir, þá biðu þeir þann dag, því at þeir vildu eigi upp taka heilagan dóminn [fyrr] en virðuligr kennimaðr kæmi til, Guðmundr Arason, er síðan var biskup eptir Brand biskup, því at þeir höfðu eptir honum sent, ok kom hann um kveldit; en föstudaginn eptir tóku þeir upp heilagan dóminn. [Þá var á veðr kalt ok myrkt, ok bæði fjúk ok drífa[3]; en um daginn, at

---

1) Þá hafði hann verit biskup at Hólum xxx vetr ok vij vetr. Ok á þessari stundu dreymdi Einar djákn, er fyrr var frá sagt, at hann þóttist gánga með Brandi biskupi út til kirkju þar at Hólum, ok þóttist hann vita, at drottinsdagr væri, ok sýndist honum ljóst vera i kirkju, ok þar var kertahjálmr uppi, ok voru þar á kerti xij. En honum þótti, sem log hlypi á kertið eitt, ok snerist hjálmrinn við, svo þat varð kvennamegin, er logit varð á. Þá þótti honum, sem biskup mælti við hann, at hann skyldi gjöra at ljósinu; ok hann þóttist til fara ok gjöra at ljósinu, ok vilja taka af ljósit af kertinu, en þat lifði þó eigi at siðr. *Þá kom honum i hug*, at þetta mundi vera af verðleikum hins heilaga Jóns biskups, er ljósit hafði tendrazt. Þá þótti honum Brandr biskup um tala, at hann skyldi hætta at gjöra at ljósinu: „því at ek hygg at sá rèð ljósinu, er betr mun kunna en vær". Einari fèkk svo mikils, er hann skyldi fyrir ljósinu hafa staðit, at allt hægindit var vott undir höfði þeim, er hann vaknaði; kom honum þat i hug í svefninum, at hann mundi margs mega at gjalda, ok eigi annars meir mega gjalda en þess, er hann hafði eigi lýst þessari jarteikn, er honum hafði Jón biskup gjört, b. v. *C*.

2) ok þenna dag hinn sama, er Einar djákna hafði áðr dreymt um nóttina, þá lætr Brandr biskup grafa til kistunnar, b. v. *C*.

3) frá [ v. i *C* á þessum stað.

miðjum degi, þá voru allir kennimenn í kirkju komnir[1], skrýddir sloppum ok kantarakápum, með krossum ok kertum, ok reykelsiskerum ok helgum dómum, ok skipuðu *processionem* inni í kirkju. Biskup sat í stóli sínum í kantarakápu[2], ok er allir hlutir voru albúnir, var hríngt öllum klukkum. Þá gengu lærðir menn út or kirkjunni. En Brandr biskup sjálfr, sá er áðr haf[ði] varla mátt við tveggja manna fulltíng til kirkju komast, þá vóx svá skjótt máttr hans af guðs miskunn, at hann spratt nú upp or stólinum ok gekk út síðan með þeim *processionem* ok leiddi einn maðr hann þá eptir venju, ok gengu síðan allir samt til leiðisins með fögrum lofsaungum [ok tóku upp helgan dóminn, ok báru í kirkju inn með mikilli dýrð ok fagnaði, ok settu í þann stað, sem áðr hafði verit fitirbúinn[3]. Síðan súngu þeir messu hátíðliga guði til dýrðar ok hinum heilaga Jóni biskupi[4].

32. Heilagr dómr Jóns biskups var or jörðu tekinn, eptir því sem nú var sagt, á hinu þriðja ári frá því er Brandr biskup hafði þvá látið beinin. Þessi upptekníng var gjör *quinto nonas Marcii*[5]; en til þess at þat væri sýnt berum jartegnum, at þessi upptekníng var at guðs vilja gjör, þá snerist veðráttan svá skjótt þann sama dag, sem heilagr dómrinn var upp tekinn, [at þá [h]lánaði svá, at á fám dögum tók af snjóinn allan, eigi at eins í því hèraði, heldr um allt Ísland, svá at á þeirri sömu stundu, sem heilagr dómrinn var upptekinn, skiptist veðrit í loptinu, ok öllum mönnum þótti mikils um vert,

---

1) en Brandr biskup var borinn til kirkju á stóli fyrir vanmáttar sakir, b. v. *C*.

2) skrýddr biskups skrúði, b. v. *C*.

3) frá [ ok er biskup kom til grafar sæls Jóns biskups ok allr lýðr, þá hófu kennimenn upp allir: *surgite sancti beati*, ok annan lofsaung, þann er þeim þótti guði mest til lofs ok hinum heilaga Jóni biskupi, ok tóku nú upp helgan dóminn ok báru inn í kirkju; var þá hríngt öllum klukkum ok súnginn *te deum* ok *litania* með fagrligum bænum. Eptir þat var heilagr dómrinn hafinn upp á kórinn kvennamegin í kirkju ok búit um sem vandligast, eptir því sem föng voru á, *C*.

4) Brandi biskupi batnaði svá skjótt sinna meina, at hann varð þenna dag alheill, ok saung Maríumessu eptir á laugardaginn, b. v. *C*.

5) Þá voru liðnir frá andláti hans LXXX vetra, ok þat sumar eptir var lögtekinn dagr hans á alþingi, b. v. *C*. — Rèttara er LXXIX, því árið 1200 bar 3. Marts (v. non. Mart.) á föstudag, enda segja og allir annálar, að þá væri leidd í lög Jónsmessa, en ekki 1201, sem *C* telr til.

hvar sem staddir voru, er veðrit skipaðist svá skjótt. En þá er þessi tíðendi spurðust með, at heilagr dómrinn hafði þá verit or jörðu tekinn, þá þökkuðu allir guði ok heilögum Jóni biskupi[1].

Maðr hèt Leifr, þá úngr at aldri, honum varð meint í leik, hafði knèit ko[mit] niðr ok sprúngit, ok var meinn[2] síðan fótrinn. En þenna dag, er heilagr dómrinn var upp tekinn, var hann fenginn til at leita til graptarins, ok starfa þar at slíkt sem þyrfti, með öðrum þeim mönnum, er til þess voru skipaðir. Ok er heilagr dómrinn var upptekinn, þá tekr þessi maðr nokkurskonar lyf, þau er undir kistunni höfðu verit, ok leggr við, þar sem fótrinn var sárr; ok jamskjótt sem hann gjörði þat, þá brá kláða á sárit ok var hann skjótt heill[3]. [Brandi biskupi batnaði ok svá skjótt sinna meina, at hann varð þann sama dag heill, ok saung messu um morguninn eptir, ok urðu menn stórum fegnir þessum atburðum allum jafnsaman[4].

33. Sá atburðr er fyrstr sagðr eptir upptekníng heilags Jóns biskups í Norðlendínga fjórðúngi, at mær hèt Hildibjörg[5]; hon tók handarmein mikit með því móti, at verk laust í höndina

1) frá [ sem nú má heyra í því sem eptir ferr: Vetr þenna hinn sama, sem nú var frá sagt, var veðrátta svo þúng, at við því þótti mönnum búit vera, at yfir mundi taka af hríðum ok snjóum. En þenna dag, er heilagr dómrinn var upptekinn um morguninn, var veðr frostmikit ok myrkt, því at bæði var fjúk ok drífa, sem jafnan var áðr vant. En þá er menn gengu til kirkju ok bjuggust til upptekningar, þá var kramr snjór, ok þá er menn hófu inn helgan dóminn í kirkjuna, þá var regn. En þá er messan var súngin, þá var þeyr sem mestr, ok kom þá, ei at eins hèr í sveitum, heldr um allt Ísland, ok á sömu stundu allstaðar um landit, ok hèlzt viku, ok þaðan af varð aldreigi jafnillt síðan, *C*.

2) b. v. 221; v. í Sk.

3) Guðlaug hèt kona, hún hafði bríngsbalamein svá mikit, at hún varð at hvílast á leið til kirkju, ok hèlt hún klæðum frá brjósti sèr, er hún gekk. Hún mátti ekki salt eta, nè súrt drekka, fyrir þeim sviða, er henni var fyrir brjósti. En er heilagr dómrinn var upp tekinn, sat hún í kirkju innar við kórinn, ok bað heilsubótar grátandi, en Brandi biskupi bað hún heilsubótar, en eigi sjálfri sèr. Ok þá er heilagr dómrinn var upp hafinn á kórinn, þá stóð hún upp á móti, ok í því bili kendi hún sèr hvergi meins, ok urðu menn stórliga fegnir þessum atburðum öllum saman, ok lofuðu guð ok hinn heilaga Jón biskup, b. v. *C*.

4) frá [ er nokkru fyrr í *C* (bls. 186, athgr. 4).

5) þann. 221 og Sk. seinna; Hildiborg, Sk. hèr.

með svá miklum þrota, at hon mátti engan fíngr hræra á þeirri hendinni. Þá heita þau faðir hennar ok hon sjálf á biskupa vora báða, hinn heilaga Þorlák ok Jón biskup. En firir því at almáttigr guð vildi í þessum lut helgi hins sæla Jóns biskups birtast láta, þá þótti við þetta heit vaxa at eins þroti ok verkr í höndinni. Þá tekr faðir hennar ok ríðr á höndina vatni því, sem bein heilags Jóns biskups höfðu verit þvegin í, ok sveipaði at hendinni dúki þeim, er þessi sömu bein höfðu verit þerð með; ok eigi var lángt at bíða skjótrar jartegnar. Jamskjótt, sem hann hafði þetta at gört, þá tók or verk allan ok þrota hendinni; var hon svá mjúk ok hæg til allrar sýslu, sem sú er aldr [eigi] hafði meinit tekit, ok lofaðu allir guð ok hinn heilaga Jón biskup.

Á sama degi, sem Hildibjörg hafði bót fengit, varð sá atburðr heima þar at staðnum, at frændkona Brands biskups glataði fíngrgulli góðu, ok var víða leitað ok fannst eigi; ok er firir von þótti komit um fundinn, þá heitr hon á hinn heilaga Jón biskup, at finnast skyldi. Á sömu stundu þá gekk út til lækjar, at þvá sèr, faðir meyjarinnar, þeirrar er áðr sögðum vèr frá; ok er hann hafði þvegizt ok gekk heimleiðis, þá sá hann, hvar lá í grasi á götu hans fíngrgullit, tók upp ok hefir heim, ok færir þeirri, er átti. Hon varð fegin, ok þakkar guði ok heilögum Jóni biskupi[1].

34. Þar enn at staðnum at Hólum tók mein hættlikt kona er Valgerðr hèt. Verkr kom í brjóst henni með þrota miklum, ok er hon vildi fæða barn sitt á brjóstinu, þá stökk blóð or, en eigi mjólk. Meinit seig at henni svá ákafliga fast, at hon mátti varla bera óæpandi. Ok sem hon var í þessum nauðum stödd, þá hèt hon af öllum hug á almáttkan guð sèr til miskunnar ok á heilagan Jón biskup sèr til árnaðarorðs, at mein hennar lèttist ok mætti hon bera þat svá, at mönnum væri eigi mikil skapraun í hjá henni at vera. Hon hèt at sýngja fimtugum sinna *pater noster*, þegar henni lèttist svá, at hon mætti því við koma. Eptir þat tóku menn dúkinn þann sama, sem bein heilags Jóns biskups höfðu verit þerð með, ok breiddu

1) Héðan frá, frá upptekning hins helga dóms Jóns biskups, er jarteinaröðin í *C.* öll önnur en í *A.*, ok hefir *C* ellefu jarteinir framar en *A*; sjá Viðbæti hèr aptanvið söguna.

yfir brjóst henni, ok tók þegar or verkinn allan, ok varð konan heil, en þrotann tók á fám dögum or brjóstum hennar[1].

Ein heima-kona þar at staðnum, sú er Arnfríðr[2] hèt, var í seli, ok nokkurar konur aðrar með henni, til þess at heimta nyt af fè, ok einhverja nótt kendi hon sèr sóttar or svefni, ok annan dag eptir þá lá hon ok hafði mikla sótt, ok spjó jáfnan ok tók at mæðast mikit ok gerast máttlítil. En er var nóni dags, þá gengr hon út einsaman örna sinna; ok er konunum, þeim er inni hö[f]ðu verit hjá henni, þótti hon vánum seinni aptr vera, þá senda þær mey eina litla at leita hennar. En er mærin kom þar er Arnfríðr[3] var, þá sat hon þar, ok er mærin kallaði á hana, þá svarar hon engu. Mærin rann þá aptr skjótt ok segir konunum, þeim er hana höfðu senda, hvat títt var. Þær fóru út þegar, ok er þær komu til konunnar, þá þóttust þær eigi víst vita hvárt hon var lífs eða öndut. Síðan breiddu þær niðr möttul ok lögðu hana þar á ofan ok hulðu með klæðum, ok lögðu kross firir brjóst henni. Eptir þat senda þær konu eina eptir presti, en þær sátu eptir ok gættu hennar. Karlar voru eingir viðstaddir; voru þeir farnir at samna sauðum. En meðan eptir presti var farit, þá hètu þær konur, er yfir henni sátu, á hinn heilaga Jón biskup, at þessi kona fengi vit sitt ok mál, ok hon mætti taka *corpus dei*; ok mjök harðla var jamskjótt, að þær höfðu fest heitið ok prestr kom, ok gekk þegar at hinni sjúku konu, ok bað hana benda sèr, ef hon vildi þjónostu taka. En hon tók þegar mál sitt ok vit firir verðleika heilags Jóns biskups, ok játaði með skýrum orðum þjónostutekjunni. Þar urðu svá skjótar bætr, at sú sama kona, sem þá hafði nýlegit, sem dauð væri, allt frá nóni til nætr, ok ekki höfðu þær konur, er í hjá voru, varar við vorðit andardrátt hennar, þá tók hon nú mál sitt ok vit þegar prestr kom[4], ok var vandliga heil um morguninn eptir[5].

Mær sú er Sigríð hèt tók kverkamein svá mikit, at víða þrútnaði af höfut ok háls; kverkurnar fúnuðu; ljóp or bæði

1) ok lofaði guð ok hinn heilaga Jón biskup, b. v. *C*.

2) Arnþrúðr, Sk. og 221 (hèr, en síðar „Arnfríðr"). Arnríðr *C* á báðum stöðum. 3) þannig bæði Sk. og 221.

4) fyrir verðleik hins sæla Jóns biskups; sagði hún sik leidda hafa verit í annan stað ok víða um ógurliga staði ok margháttaðar kvalir, b. v. *C*.

5) lofandi guð ok hinn heilaga Jón biskup, b. v. *C*.

vogr ok holdfúi sárum þeim [sem] á gjörðist[1]. Ok er menn þóttust ekki kunna at gjöra, at lækna hana, en meinit hafði lengi við leikit, þá tóku menn mold or leiði heilags Jóns biskups ok lögðu við hvirfil meyjunni. En er iij dagar voru frá því liðnir, þá var mærin alheil, ok urðu þessu allir fegnir, ok þökkuðu guði ok hinum heilaga Jóni biskupi.

35. Einn úngr maðr, sá er Kálfr hèt, athugalítill ok lítt orðstiltr, tók vitfirríng, svá at hann varð í böndum at hafa, ok var þó þeim mönnum grunr á, er hann varðveittu, at hann mundi hafa annarskonar sótt með[2]. Hann var at frænda síns, er Jón hèt; lèt hann geyma hans vel ok góðmannliga. Hann var trúmaðr mikill Jón, ok hèt hann firir[3] hinum æra manni á hinn heilaga[4] Jón biskup, at láta gera kerti, þat er tæki um höfut honum. Þetta var Benedictusdag nær nóni. Næstu nótt eptir þá svaf hann Kálfr vel ok hógliga, ok þegar er hann vaknaði um morguninn bað hann guð hjálpa sèr, ok var þá vorðinn heill ok kátr, reis upp ok fór í klæði sín, ok fór at leita Jóns frænda síns; en hann hafði farit at gefa fè sínu. Ok er þeir fundust, þá hugði hann Jón, at Kálfr mundi vera enn ærr, sem hans var vandi til. Kálfr kastar þá orðum á Jón fyrri, ok segir honum, hvat firir hann hafði borit um nóttina: „Maðr vitraðist mèr mikill ok virðuligr. Ek þorða ekki við hann at mæla, en þó vissa ek, at þar var Jón biskup hinn helgi, ok mælti við mik: ‚Mátt þú illa'? Ek svaraði: ‚Illa víst'. Hann mælti: ‚Þat er eptir því sem vert er, þú ert fullr lausúngar, ok hefir illa lifat, ok firir þá sök, er þú ert annan veg háttaðr, en kristnum mönnum semði. Þú ert vorðinn firir guðs reiði, en þó grandaði þèr þat nú mest, er þú drakkt[5] [síðla dags[6] ok úræktir at signa þik áðr. En nú fyrir þá sök, at Jón frændi þinn hèt á mik, at árna þèr miskunnar við guð, þá mantu nú vera heill, er þú vaknar, en þú hygg at því, at þú lifir betr hèðan í frá, en hèr til hefir verit, ok hræðst jafnan at gjöra guð reiðan ok honum í móti. En þú hygg at því vandliga, er ek man segja þèr, ok seg öðrum mönnum: at þar er menn heita bænahaldi til minna þakka, þá er mèr þat þægast allt, er af fimtartölunni

1) Þrír voru munnar, þeir með engri mannlegri lækníng urðu græddir, b. v. *C.*
2) vit, 221.
3) honum, b. v. Sk.
4) leil' (misskrifað), Sk.
5) þannig 221; dragt, Sk.
6) frá [ i gærkveld síð, *C.*

rís, sem er fimm *pater* eða XV. eða L. eða XV. tigir[1]; slíkt sama líkar ok bezt hinum heilaga þorláki biskupi'. Eptir þetta hvarf hann í braut frá mèr at sýn, en ek vaknaða alheill." Ok er hann Jón heyrði þessa frásögn Kálfs, ok er hann sá, at hann var heill vorðinn, þá varð hann forkunnliga feginn. Var þá þessi jartegn lýst með guðs lofi ok heilags Jóns biskups.

36. Maðr hèt Narfi[2], hann fór á skipi með förunautum sínum. Því næst gjörir at þeim storm veðrs ok var við sjálft [at] skipit mundi kefja undir þeim. Ok er þeir óttuðust sitt mál, mælir hann Narfi til fèlaga sinna: „Nú skolum vèr biðja allir almáttkan guð, at firir árnaðarorð sællar Marie ok heilags Jóns biskups miskuni hann oss, ok láti oss komast með heilu til hafnar. Sýngjum nú allir *pater noster*". Eptir þetta hèt hann á heilagan Jón biskup ok mælti svá: „Heyr þú hinn heilagi Jón biskup! ef þú mátt þat öðlast af guði firir þitt árnaðarorð, at vèr komim[3] í dag heilu ok höldnu í þá höfn, er næst [er] bæ mínum, þá man ek gef[a] hátíðardag þinn fátækum mönnum mjólk þá alla, er frá kúum mínum kemr, ok efa alldri um þína göfugliga verðleika." Ok er hann hafði svá mælt, þá fèll þegar veðrit ok stormrinn, ok tóku þeir til ára ok komu þann dag heilu ok höldnu í þá höfn, sem þeir höfðu á kveðit; en áðr þeir höfðu til loks af skipinu borit, þá hljóp á hit sama veðr ok sami stormr í sjóinn, sem áðr þeir hètu, at sýndist, hvat mátt hafði heit þeirra ok ákall við heilagan Jón biskup. Fóru þeir nú fegnir heim til sinna heimkynna, lofandi guð ok heilagan Jón biskup.

37. Í þetta mund varð sá lutr enn at staðnum at Hólum, at prestr sá, er þorgeirr hèt, hinn bezti ritari: þá einn dag, er hann sat at riti, þá með voveifligum atburð fèll hann f[r]á ritinu, ok var svá [stirðr ok[4] sárr allr, at hann mátti [engan lim[5] hræra á sèr, nema fæturna firir neðan knè; ok er menn vildu leita honum nokkurra hægenda, þeir er hjá voru, ok freista at hræra hann, þá kallar hann hátt ok biðr þá eigi þat gjöra; kvezt svá þikkja, sem hann mundi allr lemjast, ef þeir tæki nokkur á honum. Þá tóku þeir dúk einn hins heilaga Jóns biskups, ok breiddu yfir herðar honum ok bak, þar sem verk-

1) til þess at guð sè lofaðr um aldir, b. v. *C.*
2) hann bjó i Auðbrekku, b. v. *C.* 3) komin, Sk.
4) frá [ b. v. 221. 5) frá [ ekki vætta, *C.*

irnir voru einna sárastir; ok þegar jamnskjótt flýði undan þaðan verkrinn allr, ok firir brjóstið; þá lögðu þeir þar við dúkinn, ok flýði þá enn verkrinn allr aptr í herðarnar ok bakit. því gekk daginn allan, at verkrinn forðaðist dúkinn, en hvarf aldri af honum með öllu. Ok er þessu hafði gengit allt til aptans, þá hètu menn firir honum, at sýngja XV tigum sinnum *pater noster* til dýrðar heilugum Jóni biskupi ok heilsubótar þorgeiri. Ok þegar heitið var, þá þurru verkir, svá at annan dag eptir mátti hann gánga sjálfr við staf, nauðsynja sinna, ok lá þó í rekkju jamnan þess á millum, ok gekk því allt til hins þriðja dags. Ok er at kveldi var komit þess dags, þá ræddu menn um, at allseinn þótti vera batinn, ok sá ein[n] mundi til liggja, at heita á annan nokkurn mann til heilsubótar þorgeiri, ok jafnskjótt, sem menn höfðu þetta rædt, þá sýnir almáttigr guð, at hann vill bæta þorgeiri firir árnan heilags Jóns biskups, þá batnar þorgeiri svá skjótt, at hann varð þegar heill, ok gekk staflaust hvert er hann vildi, ok engar minníngar voru eptir hans meina; ok sýndist þat í þessum atburð, at því batnaði eigi[1] skjótt, at þat mundi rèttr dómr við þorgeir; en þegar þat var rædt, at á aðra helga menn mundi vera heitið, þá varð hann alheill, til þess at þat sýndist, at guð vildi þessu meini af honum lètta firir árnaðarorð hins heilaga Jóns biskups, heldr en annara heilagra manna; ok [lofuðu][2] allir guð ok heilagan Jón biskup.

38. Brandr hèt djákn[3] at staðnum at Hólum, hann hèt firir hesti sínum, er sjúkr var mjök, á heilagan Jón biskup, at láta gjöra kerti til dýrðar honum, ok varð hestr þegar heill á sömu stundu. Ok þá er Brandr biskup lèt [lýsa jartegnum[4] Jóns biskups, þá vildi hann[5] eigi þessi jartegn lýsa[6] láta, kvezt eigi glöggt vita, hvárt þetta var heldr at kenna jartegnum en atgjörðum þeirra sjálfra[7]. Ok er hann hafði svá mælt, þá vildi guð enn birta dýrð heilags Jóns biskups í þeima atburð, sem í mörgum öðrum. þá sló sótt á hestinn öðru sinni svá æsiligri, at eigi mátti á fætr standa nè draga gras í munn sèr. þetta

1) v. í 221.
2) þannig 221, en í Sk. með ýngri hendi (frá 15. öld?) á spázíunni.
3) ok var Dálksson, b. v. *C.*
4) frá [ rita jartegnir, *C.*
5) Brandr djákn, *C.*
6) rita, *C.*
7) Hèr vanta 2 blöð í 221.

varð við nótt sjálfa; þá heitr djákninn öðru sinni á hinn heilaga Jón biskup, at sýngja hátíðardag hans allan psaltara ok rita nú atburðinn, ef heit hans væri heyrt, ok um morguninn eptir var hestrinn alheill, er hann kom til[1].

Lærisveinn Gunnlaugs múnks, ok skyldr frændi, sá er Leifr hèt, hann tók sótt hættliga; var ætlað at olea hann. Þá beiddist hann, at tekinn væri heilagr dómr Jóns biskups, er Guðmundr biskup hafði miðlat honum, ok látinn koma í vígt vatn, ok vildi hann drekka þar af, ok var svá gjört. En þegar er hann hafði þat gjört, þá batnaði honum, ok var hann heill á fára nátta fresti firir árnaðarorð heilags Jóns biskups.

Mær[2] ein fátæk[3] var vorðin firir svá mikilli vanheilsu, at fætrnir[4] báðir voru kreptir, svá at hon mátti ekki gánga[5]. Þat fylgði með, at hon hafði í sífellu svá mikla útsótt, at aldri mátti hon á klæðum liggja, heldr var hon í ösku bundin, sem börn lítil. Hon var löngum grátin ok sorgafull sakir mikils vanmáttar; faðir hennar hvergi ósjúkari af miklum meinlætum dóttur sinnar, [ok hann heitr[6] af öllum hug í hrellíngu sinni á hinn heilaga Jón biskup til heilsubótar meyjunni[7]. En fám dögum síðar varð mær alheil meina sinna. Síðan fór faðir hennar til Hóla ok sagði þar þenna hlut skilvísliga. Þessi mær fèkk iiij vetra gömul heilsubót.

39. Maðr hèt Ásgautr, fátækr at fè, en átti fjölda barna; hafði varla mat í munn sèr. Hann hèt af öllum hug á hinn heilaga Jón biskup, at hann legði nokkura luti[8] honum til bjargar, er hann mátti eigi þá yfir sjá, ok kvað á dægra tölu, nær þat skyldi fram koma, ef heyrt væri heit hans. En þetta var litlu eptir jól. Kú átti hann eina, ok var ekki von, at hon mundi bera

1) snemma, ok kom eigi sótt á hann síðan. Honum var ok riðit mjök lánga leið þann dag, ok lofuðu allir guð ok hinn heilaga Jón biskup, b. v. *C.*

2) Þuríðr hèt mær, *C.* 3) hún, b. v. *C.*

4) þannig *C*; fætr nær, Sk.

5) Á þetta ofan tók hún aðra sótt, þá er ei mun þykja frásögulegri, at þarmar hennar sigu úr lági, b. v. *C.*

6) frá [ ok í þessu hans hugarángri hèt hann, *C.*

7) Þá hafði messudagr hans áðr annat sumarit verit lögtekinn á alþingi. Hann hèt at sýngja xv tigum *pater noster* ok Maríuvers, ok *pater in manus tuas domine commendo spiritum meum* við hvern tug, b. v. *C.*

8) aura, *C.*

fyr en um várit eptir páska. Á sama degi, sem hann hafði heitið, vatnar hann kúnni, ok verðr honum hugat at henni, ok sèr, at júgrit var meira en at venju, ok þikkir þetta undarlikt. En annan dag eptir, er hann kom til, þá var júgrit undir kúnni svá mikit sem þeim kúm, er bezt búast til burðar. En hinn þriðja dag, þá bar hon [kálf dauðan[1], sem von var, ok ekki hár á, en kýr var þegar heil, ok mjólkaði þaðan í frá allan vetrinn, sem þær kýr, er stórfengstar eru. Hèlt Ásgautr við[2] þat ráði sínu ok búi[3].

Grani hèt maðr, hans kýr fèll ok braut fót sinn. Hann leitaði við at binda fótinn, ok varð ekki um búit svá at dygði. Kýr hafnaði átinu, ok þótti þat öllum líkara, at af mundi láta verða. Hann bindr þá upp kúna[4], ok vill vita hvernug þá yrði, ef hon lægi eigi jafnan. Ok um kveldit, áðr hann gengi frá, þá heitr hann á hinn heilaga Jón biskup til heilsubótar kúnni: láta gjöra kerti, þat er tæki um lær kúnni. Eptir þat ferr hann til svefns; en um morguninn eptir, er hann kemr til kýrinnar, þá var hon heil ok laus, svá sem hon hefði aldri firir meini vorðit. Hann gaf henni þá hey, en hon át glaðliga. [Honum þótti mikils um vert atburðinn, ok þakkar guði af öllum hug ok hinum heilaga Jóni biskupi[5].

40. Þess atburðar verðr nú einkum við at geta, er at barst eptir framför heilags Jóns biskups, á því meli, er var í milli andláts hans ok upptekníngar hans. Hann hafði vígt til nunnu konu þá er Hildr hèt, ok hon gerðist einsetukona áðr en heilagr Jón biskup andaðist, ok hann vígði henni kofa firi sunnan kirkju, ok svá hlauzt til, at hann var grafinn gegnt kofanum. En eptir andlát hans þá gjörðist sá hlutr, er henni var mikit meinlæti í. Í kofanum gerðist músagángr svá mikill, at varla fèkk hon staðizt. Þar var hvervetna í leitað, þess er í hug kom, at eyða þeim meinvettum, ok hafði ekki at sök. Þá var freistað at fella innan kofan allan ok þilja sem vandligast, ok varð eigi bót á at heldr. Þá þóttust menn eigi kunna bætr á þessu at ráða. Ok er hon Hildr sèr þat, at menn mundu firirleggjast um þetta mál, þá mælist hon við einsaman ein-

1) frá [ kálfi ok var hann dauðr, *C.* 2) var, Sk.
3) ok lofaði guð ok hinn heilaga Jón biskup, b. v. *C.*
4) með vaðmálum, b. v. *C.*
5) frá [ lofaði sá guð sem átti, ok hinn heilaga Jón biskup, *C.*

hverja nótt, ok tók svá til orða: „Ef minn herra, hinn heilagi Jón biskup, mætti nú vita, hvert ángr mèr er at þessum úvettum, ok vildi hann nú svá um mitt ráð hyggja líkamliga[1], sem þá sá hann andliga, er hann lifði hèr í heimi með oss, þá mundi nú eigi lengr svá fram fara". Ok er hon hafði þetta mælt, þá sá hon mann koma í kofann kennimannligan ok virðuligan, ok þóttist hon þar kenna enn heilaga Jón biskup. Hann hafði stökkul í hendi, ok stökði um húsit, ok rak svá í brutt mýs þær allar, svá at frá því varð aldri við þær vart í kofa hennar[2].

Kona hèt Þórdís, er lèttari skyldi verða, ok horfði ráð hennar heldr seinliga ok til mikils háska. Prestr sá kom at finna hana, er Jón hèt; ok er honum þótti ráð hennar mjök seinkast til greiða, þá tekr hann belti sitt ok leggr um hana. Þat sama belti hafði áðr lagt verit um kistu heilags Jóns biskups; ok jamskjótt sem beltið var um hana lagt, þá varð hon lèttari ok þakkaði guði ok heilugum Jóni biskupi.

Á bæ þeim í Sunnlendíngafjórðúngi, er í Skálmaholti heitir, bjó kona sú í þenna tíma, er Oddný hèt. Hon heyrir sagðar margar fagrar jartegnir heilags Jóns biskups. Þá heitr hon á hann, [at] finnast mætti kirkjulykill sá, er þar hafði týnzt firir vj vetrum. Hon var í kirkju ok hèt at sýngja x *pater noster* til þakka hinum heilaga Jóni biskupi, ok lauk hon heitinu áðr hon gengi or kirkjunni. En er hon kom út or kirkjunni í kirkjugarðinn, þá [sá] hon, hvar lá kirkjulykillinn í grasi[3], ok tók upp ok varð fegin svá skjótum fundi.

41. Á bæ þeim, er Þjótandi heitir, var kona, sú er tók jaxlaverk, ok einn jaxlinn varð svá lauss, at henni varð eingu nýtr, ok svá sárr, at hon þóttist eigi nýta mega at láta túnguna við koma. Hon mátti ok engan þann mat hafa, er tyggva þyrfti. Hon mátti ok eyfit sofa um nætr firir verkjum, þeim er í andlitinu voru. Ok eitthvert kveld, er hon kom í rekkju, þá hugsar hon, hversu margar jartegnir hon hafði heyrt sagðar frá hinum heilaga Jóni biskupi. Síðan heitr hon á hann, ok sofnar eptir þat, en vaknar svá, at andlit hennar var verklaust. Enn sofnar hon, ok er hon vaknar af þeim svefni, þá var

1) leiðrètt; andliga, Sk.

2) þessi jartein er miklu fyr í *C.* (sjá bls. 205).

3) ok eigi ryðgrafinn, b. v. *C.*

jaxlinn sá hinn sári vorðinn fastr, ok brott horfit allt meinit. Hon lofaði guð ok heilagan Jón biskup.

Í Ólafsfirði átti maðr sauð einn blindan, ok hafði vægt or augun bæði; þá hèt sá, er átti sauðinn, á hinn heilaga Jón biskup, ok voru aptr goldin augun sauð heil bæði, firir árnan Jóns biskups.

Öðrum manni var vant sauðar, ok fannst eigi, en þó þóttust menn vita, at í læk einum mundi vera ok hafa fennt síðan yfir ofan. Þá hèt sá er átti, at gefa sauðinn, eða jafnvirði hans ella, hinum heilaga Jóni biskupi. Eptir þat var á ratað þann skafl, sem sauðrinn var undir, ok af rudt. Sauðrinn hafði í læk legit undir skaflinum, svá at ekki tók or nema munnr ok nasar. En þegar er hann var upp dreginn, þá var hann heill[1], ok hafði allan dag ok nótt legit í því foraði, en svá hafði heilagr Jón biskup til gætt, at ekki[2] sakaði til[3].

42. Á sama sumri sem messudagr heilags Jóns biskups var í lög tekinn[4], varð sá atburðr á þingi í Jöklamanna búð, at manni hurfu vaðmál nokkur, ok var leitað hvervetna ok fannst eigi. Þá hèt sá maðr, er skaðann beið, á heilagan Jón biskup, ok fundust þegar vaðmálin, þar sem áðr hafði lengi leitað verit. Sá varð feginn er átti, ok þakkaði guði fundinn ok heilugum Jóni biskupi.

Maðr hèt Eysteinn, hann varð firi meini miklu, ok var því aumligar, at þat var honum kynfylgja. Hann [varð vitlauss ok ærr, svá[5] at hann varð í böndum hafa. Eptir þat var heitið firir honum á hinn heilaga Jón biskup, ok tók hann þegar heilsu sína, ok þakkaði guði þá miskun, er honum var veitt, ok hinum heilaga Jóni biskupi.

Sá atburðr varð enn, at maðr skeindi sik á hendi[6] svá at honum varð únýt til allrar sýslu. Eptir þat hèt hann á hinn heilaga Jón biskup sèr til heilsubótar, ok varð hann á næsta degi heill, eptir er hann hafði heitið, ok varð feginn heilsu sinni, sem von var.

Kona ein varð firir höfutmeini svá miklu, at bein leysti

1) ok frár, b. v. *C.* 2) vætta, b. v. *C.*
3) ok þakkaði sá hinum heilaga Jóni biskupi, b. v. *C.*
4) á Íslandi, á alþingi, b. v. *C.*
5) frá [ tók vitfirring svá mikla, *C.*
6) ok sló í verk miklum ok þrota í höndina, b. v. *C.*

or höfði henni. Hon varð við sitt mein vel ok röskliga, ok talðist maklig til vera, firir sakir synda sinna, at þola þvílíkan bardaga. En er hon mæddist mjök í þessu meini, þá hèt hon á hinn heilaga Jón biskup til heilsubótar sèr. Ok bráðliga eptir heitið þá sofnar hon, ok vaknar við mikinn bata síns meins, ok lauk þá *með góðum* athuga þeim *saungum*, sem hon hafði heitið firir sèr, ok varð alheil á skammri stundu.

Einnhverr maðr skyldi mungát gera[1], ok horfðist á úvænliga; kvikurnar[2] vildu ekki duga. Horfðist þar til skaða mikils[3], ef efnit únýttist. Þá hèt hann á heilagan Jón biskup, at kvikurnar skyldu duga, ok hreif þegar við, svá at þat varð hit bezta öl, ok drakk hann sjálfr með fagnaði, ok allir þeir, er þetta öl var til handa borit, með guðs lofi ok hins heilaga Jóns biskups.

Þess atburðar viljum vèr enn geta, at einnhverr prestr[4] bað miðla sèr af heilugum dómi hins sæla Jóns biskups; [ok er þat var eptir honum látið ok þeir hèldu á beininu, þá firirlítr hann í hug sèr helgan dóminn ok þótti lítils um vert[5]. Þá verðr þar dásamligr atburðr ok stórum merkiligr: beinit gaf þá af sèr svá sætan ilm ok dýrðligan, at þeir, er í hjá voru staddir, þóttust eigi þvílíkan kendan hafa. En prestrinn sjá hinn sami tók nú við helgum dóminum með þökk ok góðvilja, sem vera átti, ok hafði framast föng á hann at dýrka.

43. Nú verðr aptr at víkja lítt þat, til þess at eigi liggi niðri sú en fagra jartegn, er varð í Fljótum, á bæ þeim, er í Holti heitir, á því ári er or jörðu voru tekin bein beggja biskupanna, Jóns ok Bjarnar, sem fyrr var sagt. Á þessum bæ, er nú var nefndr, var prestr sá er Þorsteinn hèt. Hann varðveitti í vitum sínum annars manns fíngrgull, sèr til varðveizlu selt; ok af vanminni hafði hann lagt gullit á altari einn dag,

1) heita, *C.* 2) kveikarnar, *C.* 3) mykis, Sk.
4) austr á *Síðu*, b. v. *C.*
5) frá [ Guðmund prest Arason, er síðan varð biskup. Þessi prestr hèt Steinn, ok er Guðmundr prestr lèt þetta eptir honum, segir hann prestrinn, at [honum] þótti þat ei heilagligt, at beinit var svá dökt. Þá svaraði Guðmundr prestr: „hvert trúir þú ei, vesall maðr, Martinum biskup helgan vera, *fyrir* því at dökk eru bein hans?" Þá bað Guðmundr prestr alla þá menn, er við voru, biðja, at hann eyddi ótrú Steins prests, en birti enn þá at nýju heilagleik Jóns biskups fyrir mönnum, *C.* sbr. Sturl .s. 3, 9.

ok svá í frá gengit, en komit eigi í hug at hirða. Eptir þat fær hann sút mikla, ok liggr í rekkju um hríð. Því jamfram leggr á hríðir, snjóvar ok hvassviðri æsilig, svá at kirkjan var snjóvarfull nær innar allt hjá altarinu, er harðla var mjök fyrnð ok fölnuð. Prestrinn vill rækja guðs hús; ok nú er hann má eigi sjálfr þetta gera firir sótt sinni, sendir hann annan mann, at ræsta innan ok hreinsa húsit ok ryðja út snjónum öllum; enn þýngist sóttin[1] prests; tekr nú ok hugsar andlát sitt, ætlar at láta olea sik; minnist á ok innir vandliga alla þá luti, er hann átti skyn firir at gjalda. Ok þá hit fyrsta kemr honum í hug, hvar eða hversu hann hafði gleymt ok í frá gengit þessum grip, er honum hafði til varðveizlu fenginn verit; fær áhyggju mikillar ok hrygðar, því at honum lízt allokit allri von fundarins, þar sem snjór hafði hulit allt alltarit, en sópat síðan allt umhverfis ok braut rudt öllu or húsinu. Prestr lá lengi í sóttinni ok varð þó heill; ok þegar er hann rís, ferr hann fíngrgulls á leit. Hann leitar lengi ok mjök, ok fær eigi fundit; leggst æ því fastara til um leitina, sem hann finnr seinna; brýtr upp gólfit, er áðr var laust ok lúit, ok hrífr þar ok ransakar undir niðri snæblandna mold. Ok er firir ferst fundrinn, þá berr svá til, at heyrir þenna orðróm: upptöku fyrnefndra biskupa. Þá mælir hann svá í hug sèr: „Ef hinn heilagi Jón biskup gerir svá, firir sinn verðleik, at ek finna fíngrgull þetta, er ek hefi glatað, skal ek hann dýrka ok færa honum nokkura fórn firir ástar sakir við hann; ok engi var dvölin þess í milli, er hann hafði þessum orðum fram kastað, ok þá sèr hann þegar gullit, þat er hann hafði lengst leitað, liggja firir augum sèr; tekr upp or snjónum, ok lýsir jartegn firir hverjum manni með miklum fagnaði[2].

44. Í Svarfaðardal, þat er ytri lutr Eyjafjarðar, var kona sú er Þorfinna hèt, fátæk, með börn sín föðurlaus, á þeim bæ er at Hofi heitir. Töldu þau þar í húsi svá, at þá er [jól kæmi[3], ok eigi mátti annat vinna, ætlaðist hon til nokkurrar yfirferðar ok biðja sèr matar. Nú kom sètti dagr jóla; var hon heima ok hvergi farin, þá verða þar þau tíðindi, at hon missir máls, ok verðr mállaus, ok má þá eigi biðja sèr ásjár eða ölmusu;

1) hans, b. v. Sk. 2) þessa jartein v. i C.
3) frá [ getg.; kornv, Sk. líklega misritað úr *kœmi* (*or* f. *œ*) en *jól* fallið út.

sitr við slíkt heima firir þessa sök. Tólfta dags kveld jóla síð, at kveyktu ljósi í herberginu, ok börnin sátu hjá henni, var móðr mikill í hug hennar. Þá hneigir [hon] sik til nokkurrar hvíldar. Þat var henni einkum til ángrs, at veðr var æsiliga úsvást af hreggi ok regni, þóttist eigi mundu komast til tíða þá hátíð er eptir fór. Hon sofnar þá, eða eigi síðr sem úmegn nokkut fèlli á hana; þá þóttist hon sjá þar í húsinu dýr nokkut mikit, svart ok ógurligt; því fylgði nykr ok fýla. Þat dregst at henni; hon hræðist ok biðr guð fulltíngs. Þá sýnist henni skjótt ein en fegursta mær með dásamligum ilm ok sætleik, þeim er eyddi ódauni öllum þess djöfulliga dýrs. Bæði ilm ok ódaunan þetta kendu börnin; sá þó enga nýlundu; ræddu um ok undruðu, vissu eigi, hví sætti. En sú mær, er henni sýndist, ægði dýrinu með litlum dúki, er hon hafði í hendi; en sú vesla vetr sökk þegar í jörð niðr. Mærin sjá sama, er hon hugði Maríu vera, hvarf henni þá ok at sýn. Þegar er hon var í bruttu, þá sèr hon Þorfinna standa í dyrum mann þekkiligan, ljósan, lágan vexti í kápu svartri. Gjörði hon sèr þat helzt í hug, at þar mundi vera hinn heilagi Marteinn biskup. Sjá maðr stóð í dyrum, ok blezaði þau þaðan með krossmarki, ok var senn horfinn. Litlu síðar gengr þar inn maðr hvítklæddr, undir svartri kápu; hefir í hendi vatnker ok stökkul. Þar kendi hon hinn heilaga Þorlák biskup. Hann hafði hon sèt um sinn í lífi sínu, ok honum var hon nokkut skyld at frændsemi, ok því hafði hon á hann kallat af öllum hug í sinni nauðsyn, framar en á aðra helga menn. Hann gekk at[1] ok settist niðr at fótum henni, ok spurði hana, hversu henni færi at. Nú er hon mállaus, ok mátti engu svara. Þá rèttir hann hönd sína at henni, ok dreypir vígðu vatni í munn henni ok segir henni svá: „Nú muntu fá aptr mál þitt ok fara til kirkju á þessi sömu nótt; en þú hugfest þá luti, er ek segi ok ek legg á þik: þú vandist lítt at sýngja firir mat þinn ok minntist eigi framliðinna manna, sem þú skyldir, er eigi verða úfegnari bænum en þú fæzlu. Nú frá þessi stundu sýng jafnan firir þeim iij *pater noster* áðr þú takir til matar þíns. Þat er ok mikil úvenja margra manna, at vaka allar nætr til engiss nýz[2], en sofa um morna; þat er bæði í móti guðligri setníngu ok manna hjálp ok heilsu[3]; því at þann tíma

1) Hér byrjar aptr 221. 2) neytz, 221.
3) guðl. setn. ok mundángligu eðli, C.

dægra einna mest flýgr fjandinn umhverfis heiminn innan, ok [leitar alls í með sinni slægð ok svikum, allt mannfólk at glepja frá nytsamligri vöku, er skyldast væri í guðs lofi at vaka ok hann hjálpar at biðja[1]. En þú fær ok þessa alla hluti bróður mínum Brandi biskupi, ok vin mínum Guðmundi presti Arasyni, ok aðra þá luti nokkura, er þú skalt engum manni öðrum til trúa, innt þú firir honum einum". At svá mæltu hvarf hann henni; hon vaknar ok má mæla; sækir síðan til kirkju ok segir slíkt sem hon sá ok heyrði í firirburðum. Fám dögum síðar fór hon sem henni var boðit; ok er hon gengr, sem vegr hennar liggr, [um heiði fjarri bygði, þar sem var saurugt ok hallt, þá skriðnar hon ok fèllr í klifi nokkuru; rekr hana jamskjótt fram at hamri nokkurum ákafa háfum, þar er undir voru gljúfr ok gjögrar[2]; ok er hon kemr mjök svá fram at foraðinu, þá festir hana á úslèttu nokkurri, svá at hon liggr[3] opin ok má sik hvergi hræra or þeim stað, sem hon var komin, ok[4] þorði hon engu móti at gera, því at þá væri ráðinn bani[5] ef hana ræki firir hamrana niðr. Börnin gráta, er þau sjá misfarar mæðr sinnar, ok megu henni ekki duga. Hon huggar þau; kallar sèr munu vel at fara. Ok er hon lá svá váðvænliga komin, þá varð því líkast, sem nokkurr hæfi hana upp hægliga, kom hon þegar fótum undir sik svá at hon stendr, ok gengr því næst þar til er voru börn hennar; komust þau öll saman við trauð ok[6] nauð af heiðinni, því at knè hennar hafði skeinzt, þá er hon fèll í klifinu; koma um síðir til næsta bæjar or öræfi þessu, ok segir sik sèð hafa þann sama dag fara firir sèr, þá sömu leið sem hon fór, aðra konu með börn sín; biðr menn fara, at forvitnast vandliga, hvat um hana hafi gerzt. Nú var farit ok leitað ok fannst sú kona steypzt hafa með börnum sínum í þat sama forat, sem henni hafði næst váða, ok voru þau öll líflátin. En þorfinna mátti þá hvergi gánga; var firir því flutt á fund Brands biskups;

1) frá [ kastar þessum þúnga á menn, ok þykir þá gott ef hann fær svæft þá, at þeir gleymi morgintíðum sínum, *C.*

2) frá [ um Heljardalsheiði, ok ætlaði til Hóla at finna Brand biskup, sem henni var boðit, en færðin var ill um heiðina ok lá nær einn jökull yfir alla; þá bar svá at, at hana rak at gljúfrum nokkrum ok fèll hún, *C.*

3) þann. 221; lá, Sk. 4) þat b. v. 221.

5) hennar b. v. 221. 6) við, b. v. 221.

segir allt slíkt honum, sem henni var sagt. Ok er hon hafði þar nokkura daga hvílzt, þá var hon flutt þaðan til nálægs bæjar, er heitir á Kálfsstöðum; ok á sama kveldi, sem hon hafði þar komit, þá sýndist henni sæll Þorlákr biskup standa hjá sèr [svá segjandi: „þolir þú hart nú í ferðum þínum"[1]? — Hon svarar: „svá er víst". Hann mælir: „vel hefir þú gætt þess er ek bauð þèr". Ok er hann hafði svá mælt, tók hann ok strauk linliga hendi sinni um hinn sára fót hennar ok sagði: „nú mant þú verða heil með öllu; far nú ok seg Guðmundi alla luti, sem ek bauð þèr, svá ok öllum þeim er heyra vilja, þá luti er yfir þik hefir liðit, ok þèr er eigi bannat upp at bera, þá seg úlatliga". Enn mælir hann til hennar: „hvat ætlar þú, hver þig hafi upp reista, þá er þú fèllt í fjallinu"? — „Eigi veit ek, en þèr ætlaða ek, ok þik hugða ek þar verit hafa". „Eigi var ek þar", sagði hann, "heldr bróðir minn Jón biskup var þá [nærri, hann reisti þik upp[2]. Nú kom ek at miskunna þèr, hugga þik ok græða, ok styrkja þína eymð [ok öngving[3], ok jafnan man ek þèr ásjá veita". Þá vaknar hon; var heill fótr hennar annan dag; fór þá fagnaðarfull leið sína, ok segir þetta allt greiniliga Guðmundi biskupi[4].

Ein aldræn[5] kona tók fótarmein mikit, svá at hon lá í rekkju alla xij mánuði. Eptir þat hèt hon miklum fègjöfum á hinn heilaga Jón biskup, ok varð hon þegar heil.

45. [6]Nú höfum vèr yfirfarit nokkut af lífi ok jartegnum hins heilaga Jóns biskups, eptir því, sem vèr höfum fundit á skynsamligum bókum ritað, ok haft sumt af skynsömum mönnum ok rèttorðum. Er nú sú vár bæn til þeirra allra manna, er þessa frásögn hafa með höndum, at þeir firirlíti svá fremi vára frásögn, er þeir gera aðra merkiligri, ok láta oss ná sjálfa at koma rèttindum firir oss, fyrr en þeir felli dóm á at rengja. Þess viljum vèr ok biðja einkum alla þá menn, er þessa frá-

1) frá [ ok spurði hvert hert hefði um farirnar, *C*.

2) frá [ nálægri en ek, því at hann leynist meir at öllum jartegnum, ok er hann þó hvergi lægri at verðleikum við guð en ek, *C*.

3) frá [ b. v. 221.

4) presti, 221. Þessi jartein er í *C* býsna ólík *A* að orðfæri, nokkru styttri og víðast miðr orðuð.

5) þannig 221; alldruð, Sk.

6) saugv lyct hins heilaga Jóns biskups, 221, (fyrirsögn) með rauðu letri.

sögn hafa heyrt, en sjálfa oss mest undir, ok vár þyrpt, at vèr sækjum at árnaðarorði öll saman þenna hinn háleita guðs dýrðlíng, enn heilaga Jón biskup, ok köllum á hann í várar nauðsynjar. Látum oss því skyldra þikkja hann at athyllast, sem vèr heyrum fleira dýrðlikt frá honum sagt, bæði af lífi hans ok jartegnagjörð, hversu almáttigr guð lèt sèr sóma hans dýrð at birta firir mönnum. Biðjum þá þess með alhuga þenna hinn góða[1] guðs vin, at hann árni oss við drottinn allra þeirra luta, er oss liggr stærst við meðan vèr lifum þessa heims, ok guð kalli oss svá fremi af heiminum, er vèr hafum náð áðr allum þeim viðrbúníngi viðr andláti voru, er oss má hjálpvænast vera; en at liðnu þessu lífi veiti hann oss paradísar vist til dómsdags, en eptir dómsdag himinríkis vist eilífa með sjálfum sèr ok allum helgum *in secula seculorum. amen*[2].

---

1) göfga, 221.

2) Neðst á blaðs. í 221. er með rauðu letri: „Her hefr saugu hins mykla Augustini sva sem herra Runolfr aboti Sigmundarson af Veri snaraði af latino. *prologus*". Þetta er fyrirsögn fyrir Augustinus sögu, sem hefir komið á eptir Jóns sögu í þeirri skinnbók, einsog í Sk.

# VIÐBÆTIR[1].

Á hinum sjaunda degi eptir andlát hins sæla Jóns biskups, þá er enn voru allir hans hugðarmenn ok ástvinir í mikilli hrygð af hans dauða, ok var þó öllum hryggvari sú ekkja, er fyrir staðarbúi hafði ráðit, ok annazt allt vel ok trúliga ok forsjáliga. En þat er sagt, at ij konur mikilsháttar öfunduðu hana ok settu ráð í móti henni með presti þeim er Hjalti hèt, ok fyrr gátum vær, er þar var at ráðum, ok einn hafði enn verit af vildarmönnum biskups, ok leituðu um þat, hvern veg þau mættu ræna hana því valdi, er hún hafði haft meðan biskup lifði ok vel fyrir ráðit, ok vildu gruna, at hún varðveitti trúliga, ok hugðu þau, at hún mundi leyna af nokkrum góðum gripum ok ætla at senda dóttur sinni. En er þessar konur, þó ei siðlátar væri í mörgu, urðu staðfastar í þessi ætlan af áeggjan fjandans, þá gánga þær um nótt, ok þessi prestr með þeim, at hvílu hennar, þá er hún svaf, ok tóku á braut alla lykla, þá er hún hafði lagt hjá sèr; þeir gengu at klefum ok at öðrum lokum, ok luku þau upp ok ransökuðu hvervitna. En þau tóku öll eina hefnd eptir guðligum dómi, en þat var vitfirríng þegar um morguninn eptir; ok lýstu þá yfir því, at þau höfðu misgjört við vin hins sæla Jóns biskups, er þau lögðu harm á harm ofan þessari góðu konu, er mest hrygðist áðr af andláti biskups, ok því fengu þau skjóta hirtíng af guði. En þessi kona hèt önnur Guðrún, ok var göfug húsfreyja, en önnur hèt Valgerðr Böðvarsdóttir, ein ágæt mær.

2. Þess atburðar verðr einkum viðr at geta, er at barst eptir andlát hins sæla Jóns biskups, á þeirri stundu, er á meðal varð hans andláts ok upptekníngar. Er þat upphaf til þeirrar frásagnar, at þá hinn sæli Jón biskup rèð fyrir Hólastað, þá rèðust þángat margir siðlátir menn, bæði karlmenn ok svo konur, sem fyr var getið. En til forráða rèðst sá maðr, sem fyrr var getið, er nefndr er Hámundr prestr Bjarnarson, ok með honum frændmær hans, er Hildr hèt, úng at aldri en hrein

1) Þær jarteinir, sem *C* hefir umfram *A* ok ekki urðu settar neðanmáls.

at líkama, en lítilát í verki, mild í hugskoti, fögr at áliti en fegri at trú; því at svo var trúa hennar mikil, at hún fýstist þegar á únga aldri einsetulífs, ok bað kostgæfiliga hinn sæla Jón biskup, at hann lèti henni einni saman hús gjöra ok vígði hana til nunnu. Hún bað ok frænda sinn ok fóstra, at veita sèr fulltíng til þessa, at biskup lèti þetta eptir henni. En þessa bæn fèkk hún ei af þeim, því at þeir þorðu ei til at hætta, hvort hún fengi haldit svá brattri fyrirætlan. Ok er hún náði því ei, er hún fýstist, þá hverfr hún í burt um haustið einn hátíðisdag eptir messu leyniliga, ok leitar sèr eyðistaðar. Þá var at henni leitað, ok fannst hún hvergi á staðnum heima ok eigi á næstum bæjum, ok undruðust þetta allir; var þat ok sumra manna ætlan, at hún mundi hafa misst vits síns bráðliga ok hlaupit á ána er skammt var frá staðnum, eðr fyrirfarit sèr með öðrum skjótum atburð. En er þetta heyrði ein vitr kona, er Guðrún Daðadóttir hèt, móðir Íngunnar, er fyr var getið, þá mælti hún: „ei skulu þèr ætla svá heimskliga um systur vora Hildi, því at hún kom til vor snemma í morgun, segi ek yðr satt, at hún bar ei óra í augum, heldr þekk guðlegri miskun. Trúi þèr því, er ek segi yðr, því at fjarri mun hún reynast, sem þèr ætluðut". Hennar var vant nokkura daga; þá sögðu konur þær, er farit höfðu áðr um sumarit til berja í Kolbeinsdal ok hún með þeim Hildr, at hún hefði þat mælt fyrir þeim, at þar þætti henni vera byggiligt þeim manni, er einsetulíf halda vildi; sagði berin vera gnóg at eta, ok hin skírstu vötn at drekka, ok gnógt hellnagrjót, at gjöra sèr af herbergi. En af þeirra frásögn þá kom mönnum í hug, hvat hún hafði opt áðr talat; því fara menn skyndiliga til þess staðar, sem konurnar höfðu til berjanna farit, ok fundu þar skjaldmey drottins vopnaða með bænum, ok búna til bardaga móti fjandanum ok hans flokkum, ok brynjaða með heilagri trú, en hjálmaða með voninni, ok skjaldaða með psálma saungvum. Hún hafði þar þá gjört sèr eitt lítið skygni af hellum, ok hafði hún lesit sèr mikil ber til fæðslu. Henni var þá fylgt heim á staðinn ok fögnuðu allir menn hennar aptrkomu, ok náði hún þá því, er hún hafði lengi til girnzt, því at þá lèt hinn sæli Jón biskup gera henni eitt lítið hús, áfast saunghúsi, fyrir sunnan kórinn, ok horfðu suðr á dyrin, ok vígði hann hana til nunnu ok vígði henni þenna kofa til at byggja, ok lifði hún þar sitt líf til elli ok

þjónaði guði þar nótt ok dag, með föstum ok bænum. En þá er hinn sæli Jón biskup andaðist, þá hlauzt svo til, at hann var grafinn gegnt kofanum.

3. Nú skal þat segja, hverja miskun ok huggun guð veitti henni fyrir verðleik hins sæla biskups Jóns, fóstra hennar, þá er hann var liðinn af þessum heimi, því at eptir andlát hans þoldi hún marga freistni óvinarins, svo sem margir vissu ok ei mátti leynast: Á nokkurri tíð gjörðist þar músagángr svo mikill í kofa hennar, at bæði voru margar ok stórar, en henni voru þær mjök hugstæðar, ok þótti henni við því búit, at hún mætti ei standast. Þar var hversvitna í leitað, þess er mönnum kom í hug, at eyða þessum óvættum, ok hafði ekki at sök. Þá var sent eptir hinum hagasta smið, Bersa Dagssyni, at hann bjargaði henni með sínum hagleika. Hann fellir innan kofann ok þilr sem vandligast, ok varð ekki bót at; þá var þar komit, at menn þóttust ei fá at gjört. Ok er Hildr einsetukona sá, at menn mundu fyrirleggjast at bjarga henni við í þessari freistni, þá mælist hún við einsaman einhverja nótt: „Ef minn herra Jón biskup mætti vita, hvert ángr mèr væri at þessum óvættum, ok vildi hann nú hyggja svo um mitt, andliga, sem hann sá líkamliga[1] meðan hann lifði hèr í heimi með oss, þá mundi nú ei svo lengi fram fara. „Heyr þú nú, hinn heilagi Jón biskup", sagði hún, „því at þú helgaðir mik guði með nunnuvígslu, ok settir mik í þessum stað ok leystir mik af allri fjandans freistni með máli munns þíns ok fulltíngi bænar þinnar; en nú firirlætr þú mik framliðinn. Heyr þú nú ambátt þína trúandi, því at ek má hjálpast við þinn verðleik, svo at ek verði ei yfirstigin eðr ek firirláti bygð *mína*, þá er þú bjóst mèr hèr fyr, svo at ei fagni óvinrinn af mèr. Vertu svo nálægr nauðsyn minni, sem þú hvílir nær mínu húsi; ok þessar hinar veslu mýs, sem mik hræða ákafliga, keyr þú þær svo í burt, at þær sjáist hèr ei síðan, til þess at ek gleðjumst fyrir þínar sakir, ok megi ek gjöra guði mínum þakkir í styrk hans þjónustu". Ok er hún hafði þetta mælt, þá sá hún mann koma í kofann kennimannligan ok heilagligan ok mjök göfugligan. En hún þóttist þar kenna hinn heilaga Jón biskup. Hann hafði stökkul í hendi, ok stökti um húsit, ok rak svo í burt mýsnar

---

1) Orðin „andliga" ok „líkamliga" standa hèr líklega öfugt.

allar, ok varð aldrei vart við þær síðan í þeim sama kofa, ok gjörði hún guði þakkir ok hinum sæla Jóni biskupi.

4. Sú kona var ein á Hólastað á dögum Ketils biskups, er Guðrún hèt, ok var kend við kirkjuna ok köllut kirkjukerlíng. Hún unni mikit guði, en þó gjörði hún marga hluti óvitrliga, því hún var fám mönnum lík at undarligum hlutum ok siðum. Þessi kona vakti nætr allar nær í gegnum í kirkju hjá líkum. Hún hafði gjört sèr hjá hurðu kirkjunnar svo sem altari nokkut, eðr stall. Þar stè hún á þann stall daga ok nætr ok kallaði þaðan til guðs ok mælti svo: „Tak þú mik Kristr ok skjótt, tak þú mik! eigi er þegar nema þegar sè". Þat var einhverja nótt, at hún hafði enn vakat at vanda sínum hjá einu líki, þá sýndist henni um miðnættis skeið hrærast hinn dauði á börunum, ok litlu síðar á fætr standa með mikilli gnauðan, ok vildi sækja at henni ok grípa hana höndum; en þegar varð hún ákafliga hrædd við þessa sjónhverfíng, ok kallaði á Krist með ópi miklu, ok flýði þá undan innar allt til altaris, ok greip ofan af altarinu kistil, er í voru helgir dómar, ok hafði í faðmi sèr, ok leyndist svo firir innan altarit skjálfandi. En af þessum ókyrleik vaknaði guðs ambátt Hildr, ok vildi vita hvaða ókyrleika væri at heyra fram í kirkju. Hún lauk upp glugga einum, er á var saungþilinu, ok leit hún fram í kirkju ókyrleik mikinn; henni sýndist kirkjan öll full af draugum hræðiligum ok skuggum, ok sóttu allar þessar sjónhverfíngar at Guðrúnu. En er Hildr sá þetta, þá vildi hún skjótt frá líta; en þess var þá ei kostr, því at þá var andlit hennar svo stirt ok áfast þilinu, at hún mátti hvorki hræra hálsinn nè höfuðit. Þá vildi hún leggja saman augun, [en mátti eigi] fyrir því, at svo voru stirð sjáldrin, at hún gat augnabránum hvergi vikit; því varð hún at sjá þat er hún vildi gjarna ei sjá. Ok er hún var svo fast haldin í þessari hræðiligri sýn, þá tók hún með mikilli áhyggju at kalla á Jón biskup fóstra sinn, at hann dygði henni ok frelsti hana af þeirri fjandans freistni, svo sem hann hafði áðr fyr gjört; ok þá þegar sèr hún hinn sæla Jón biskup gánga or saunghúsi skrýddan biskups skrúði, ok hafði bagal í hendi. Henni þótti hann með miklu ljósi ok heilagligr at sjá. Hann nemr stað á saunghús-gráðunum, ok með bagalstafnum ok broddinum bægir hann þeirri hinni vondu sveit, svo at þessir óhreinir andar flýðu allir undan hans heilagleik, sumir þar niðr, er komnir

voru, sem hinn versti reykr. En hinn heilagi Jón biskup hvarf henni þegar eptir þessa sýn; var hún þá ok frjáls af allri þeirri vondu sýn, lofandi almáttugan guð ok hinn sæla Jón biskup, fóstra sinn. En Guðrún kerlíng leyndist allt til morguns, ok vissi ekki til þess, hvat Krists ambátt hafði atborizt. En þenna atburð sagði hún fám mönnum, því at Hildr vildi vera fráskila allri fjölmælgi, eptir þat er hún hafði í einsetu gengit; en kirkjukerlíng var fjölmálug, ok fyrir því var þat í flestra manna vitorði, sem henni bar til handa; en Hildr nunna sagði sem fæstum frá. Oddnýju Knútsdóttur sagði hún frá, en Oddný sagði frá Guðlaugi múk Leifssyni, er þessa sögu hefir samansett.

5. Svo er hèr sagt, at einsetukona Hildr lifði frá dögum Jóns biskups, ok til þess er Björn biskup Gilsson hafði verit biskup xij vetr, er hinn þriði rèð fyrir Hóla biskupsdæmi. Hún hafði alla stund lífs síns himneska atferð hèr í þessum heimi. Sýndist ok þat hèr í þessum heimi á hennar yfirbragði, at hún bar heilags anda gipt í sínu brjósti, því at hún var jafnan blíð ok mjúklynd ok hafði dúfu einfeldi. Hún lærði siðlátar konur, þær er komu til hennar í hljóði. Hún fóstraði ok snauðan svein, þann er Ketill biskup veitti, er Þórólfr hèt, ok kendi honum psaltara; ok þá er hún tók at eldast mjök, ok hún mátti eigi fyrir frosts sakir ok kulda vera í kofa sínum á vetrum, þá var henni fengit varmahús ok þjónaði henni ein kona. Hún lèt tjald eitt hánga yfir sèr, til þess er hún sæi ei þá menn, er í húsit gengi; en hún mælti aldrei veraldlegt orð eðr gálaust; en hvat sem hún þurfti nauðsynligt at hafa, þá beiddi hún þess með bendíng eðr hljóðum orðum. Hún fylldi daga sína í góðri elli hinn V. [*nonas*][1] dag Martii mánaðar, ok andaðist ok fór þá til guðs, ok frá þessa heims ánauð. En svo hefir nú almáttigr guð fagrliga fyrirsèð, at svo sem hún var samtengd hinum sæla Jóni biskupi meðan hann lifði, þá ber nú ok svo saman andlátsdag hennar ok upptekníngardag hans.

Svo sagði Brandr biskup Sæmundarson, þá er lík Bjarnar biskups var niðrsett hjá hinum sæla Jóni biskupi: at þá er menn grófu at kistu hans, þá kendu allir menn ilm, þeir er í kirkjugarðinum voru. En þeir er gröfina grófu luku upp kistu

---

[1]) v. í *C.*; bætt hèr við samkvæmt upptekníngardegi Jóns biskups.

hins sæla Jóns biskups, ok bauð þeim mikla þekt, er þeir sá líkit, ok var þá margstaðit haldit á beinunum, ok sem vænst þótti til, at annan veg mundi vera en ilma af[1].

6[2]. Sá var einn maðr, er þat mein hafði, er slitnaðr var á honum kviðrinn, ok voru signir niðr á honum smáþarmarnir, ok hafði hann haul. Eptir þat tekr hann stein einn úr leiði Jóns biskups ok batt við kvið sèr, þar er sakaðr var; en um morguninn eptir, þá var hann heill maðr, svo sem hann var borinn frá móður kviði, lofandi guð ok hinn heilaga Jón biskup.

Maðr hèt Guðmundr, hann var daufr báðum eyrum, svo at hann heyrði ekki; þá hèt hann fyrir hinu hægra eyra á hinn heilaga Þorlák biskup, en á hinn heilaga Jón biskup fyrir því vinstra, því at þá var ei upp komin helgi Jóns biskups; en hann hèt at sýngja *pater noster* fyrir dag hvers þeirra. Nú kom at þeim degi, er heilagr dómr Jóns biskups hafði verit upp tekinn, ok fèkk hann þá heyrn sína [á] því eyra, er hann hafði á hann heitið, lofandi guð ok hinn heilaga Jón biskup.

7[3]. Halldór hèt maðr, hann hafði brotfall; hann hèt á hinn sæla Jón biskup, at hann skyldi sækja honum heilagan dóm hans ok vaka þar, ok hann hèt enn nokkru fleira; ok þegar hann hafði fyrir heitinu mælt, var hann alheill, lofandi guð ok hinn heilaga Jón biskup.

Þat var á lángaföstu, at bóndi fór at kaupa föstumat, sá er Vigfúss hèt, því at þá var lokit öllum vistum heima, nema hval. Bóndi var lengr heiman en hann ætlaði, því at veðrátta var svo hörð, at hann gat ei heim komizt, ok varð at vandræðum heima um föstumatinn, því at hvergi gat at kaupa. Þá mælti húsfreyja, at hún mundi heita á guð ok hinn sæla Jón biskup sèr til árnaðarorðs, at hann gjörði á þeim miskunnarbragð í líkn sinni á nokkra lund, svo at þeir menn legði[4]

1) Þessir 4 undanfarandi kapp. standa í samfellu í *C.* milli kap. 22 og 23.

2) Eptir upptekning Jóns biskups standa í *C.* fyrst jarteinirnar um Leif, Guðlaugu, Hildibjörgu, Sigríði, en þar næst koma þessar tvær.

3) Því næst stendr í *C* um Þuríði, Eystein, „Annar maðr skeindi sik á hendi" og „Ein öldruð kona" en þar næst koma þessar sex jarteinir.

4) logðu, *C.*

ei niðr þurföstu sína, er áðr höfðu fastað fyrir guðs sakir; en at heiti voru með henni dætr hennar. Þær hètu at sýngja CL sinna *pater noster* ok Maríuvers, ok gefa hinn fyrsta kálf undan kúm sínum. Þetta var hinn næsta dag fyrir Benedictus messu; þá var ekki til náttverðar þeim[1], en þat voru xij menn er föstuðu. Svo bar at á þeim degi, er þær höfðu heitið, at mær nokkur átti erindi at fara í rót upp, eptir þeim hlut, er hún hafði þar eptir látið; þá sá hún liggja á hurðásnum vij fiska skarpa, ok þóttist hún öngva hafa sèð jafngóða, ok unnust þeir at gnógu þat kvöld. En brátt eptir þat kom bóndi heim, ok sögðu þau honum þenna atburð, ok lofaði hann guð ok hinn heilaga Jón biskup.

Maðr einn fór leiðar sinnar föstudag hinn lánga; en hann átti at fara yfir vatn mikit ok var ís á vatninu. En er hann átti eigi lángt til lands, þá brast niðr ísinn undir hestinum, ok fèll hann í vökina, en maðrinn komst á land ok var á landnyrðíngr ok hit grimmasta veðr fyrir kulda sakir, en leið var laung eptir mönnum; ok er hann kom heim, þá voru menn at psalltara saung; en prestr einn átti hestinn, er Ívarr hèt. Hann hèt þegar á hinn sæla Jón biskup, at bjargat skyldi verða hestinum ok því sem á var, en öngum manni þótti lífs von hestinum fyrir kulda sakir ok dýptar vatnsins. En þó fóru menn til vatnsins ok sá þar fljóta hestinn lífs í vatninu; ok þegar er þeir komu at fram, þá lagðist hestrinn at ísbrúninni, þar sem þeir stóðu fyrir, ok drógu þeir hann upp á ísinn ok riðu honum heim ok jafnsíða, ok lofuðu guð ok hinn heilaga Jón biskup.

8. Steinólfr hèt bóndi, hann bjó á landi staðarins at Hólum, ok hafði þat mest sèr til atvinnu, er staðrinn átti, sem margir aðrir. Hann fór leiðar sinnar ok annarr maðr með honum, er Svalr hèt; þeir fóru með hest, er Brandr biskup átti, ok höfðu á ij vættir hvals. En er þeim varð minnst von á, þá fèll hestrinn niðr, ok rèttir frá sèr höfut ok fætr. Tóku þeir þá úr munninum; þeir staunguðu ok börðu hann alla vega, ok hrærði hann hvergi á sèr. Þá mælti Svalr: „Ei ætla ek, at vit munum þurfa lengr við hann at fást, því at mèr sýnist hestrinn dauðr vera". „Svo sýnist mèr ok", sagði Steinólfr, „en opt þikkir mèr bráð kunna at verða hrossa-sótt, en sú slysförin meiri, ef deyja skal hestr þeirra Maríu ok biskupa vorra hèr í

höndum mèr". „Ekki verðr nú gjört at því", sagði Svalr. Steinólfr hann mælti þá: „ok hví mun Jón biskup vilja láta deyja hest sinn, svo góð sem honum þótti hrossin meðan hann var hèr í heimi, ok fyrir því mun ek nú heita á hann, at hestrinn rakni við, ok mun ek sýngja fimtigir sinnum *pater noster*, ef hann virðist at heyra ákall mitt, ok láta fylgja jafnan mörg Maríuvers. Ok þegar er hann hafði fyrir heitinu mælt, þá hrærðist hestrinn. Þeir tóku þá grös ok lögðu í munn hestinum ok át hann þá. Eptir þat spratt hestrinn upp ok gekk á gras ok beit tíðum, en þeir urðu fegnir. „Þat ætla ek", sagði Steinólfr, „at okkr muni duga at fara brátt, því at sá einn á nú hlut at með okkr, at ei man þat láta at skorta, at við komumst ei heim í kveld". Nú leggja þeir upp á hestinn þat hit sama, sem hann hafði áðr borit, ok fara leið sína, ok koma heim um kvöldit ok segja atburðinn Brandi biskupi, ok lofuðu allir guð.

9. Svo er sagt, at kaupmenn fóru á ij skipum af Orkneyjum til Íslands, ok sigldu þar til er þeir komu í lands sýn. Eptir þat tók af byri alla ok gjörði logn; lögðu þá hvorrtveggi í rètt[1]. Þá gjörði þokur miklar, svo at hvorki mátti sjá sól nè land, ok hèlzt þat viku; en þat var frjádaginn, er þeir lögðu í rètt. En annan frjádag eptir ræddu menn um á öðru skipinu, at þeir mundi heita nokkru. En þar var íslenzkr maðr einn á skipinu, er Þórðr hèt; hann mælti, at þeir mundi heita á Jón biskup. Þeir urðu þegar allir samhuga á þat, at hverr maðr skyldi gefa hálfan enskan pening, ok hètu at sjá skyldi annathvort sól eðr land fyrir þoku sakir, áðr en nón kæmi þann sama dag. Eptir þat festu þeir heit sitt; ok er at nóni dró, skipaðist ekki veðrit. Þá tóku Austmenn at ámæla Jóni biskupi, ok sögðu hann ekki helgan vera, ok fóru til matar síns. En þeir menn í austri voru sá at þoka öll var horfin, ok hèr með sá þeir sól ok land, ok voru þeir komnir fyrir Austfjörðu, ok þá sá þeir skip þat, er þeim hafði verit samfara um sumarit. Nú tóku þeir at skipa landi. Eptir þat dró yfir hinn sama myrkva, sem áðr hafði verit; kom nú at vindr, ok sigldu þeir til hafs. En þeir er á voru öðru skipinu ok öngvu höfðu heitið, þeir sá öngva veðraskipan, hvorki sól[2] nè land; ok er

1) reit, C á báðum stöðum. 2) leiðr.; sjó, C.

vindr kom á, sigldu þeir til lands er öngvu höfðu heitið, ok komu á Eyrar ok brutu skipit í spón. En þeir er heitið höfðu á hinn heilaga Jón biskup sigldu þar til er þeir komu vestr fyrir Breiðafjörð, ok tóku þar höfn í Dögurðarnesi, lofandi guð ok hinn heilaga Jón biskup.

Bótólfr hèt maðr, hann bjó skip sitt til Íslands; en þá er þeir voru í hafi staddir, þá fengu þeir myrkva mikla, svo at þeir vissu ei, hvort þeir horfðu. Því gekk ij vikur. Eptir þat hètu þeir á hinn heilaga Jón biskup, at þeir skyldi sjá himintúngl fyrir hina þriðju sól. Þeir hètu, at hverr maðr, sá er á skipinu var, skyldi gefa hálfa mörk vax, en þar voru á xviij menn. Þetta var frjádaginn nær nóni. En laugardaginn eptir sá þeir land, ok voru þá komnir fyrir Lánganes; kom þá á vindr hagstæðr ok tóku Gáseyri, lofandi guð ok hinn heilaga Jón biskup[1].

10. Sá atburðr varð á Víðimýri, í ágæts manns hýbýlum, Kolbeins Tumasonar, at kona sú er vann Gyríði húsfreyju fór til laugar, ok önnur kona með henni af næsta bæ, þeim er í Brekku heitir. Þær höfðu með sèr klæði mörg, er húsfreyja átti; en veðrátta hafði verit mjök hörð áðr, ok þá voru frost mikil ok þúngfært. En er þær komu til laugarinnar, þá tók Þorkatla af sèr skóna, ok lagði niðr undir stein einn. Eptir þat taka þær at þvo; var þar ok komit margt annarra kvenna til þvotta. Arndís hèt kona, hún tók til orða: „hrafn flýgr þar," sagði hún. „Hvat er undir því?" sögðu þær. „Mèr þótti, sem hann hefði nokkut í munni sèr," sagði hún, „eðr hvar lèztu skó þína, Þorkatla?" — „Hèr undir steininn", sagði hún. Eptir þat leita þær skónna, ok voru þeir þá í burtu. Sjá þær nú allar, at hrafninn flýgr austr til Krossaness, ok eptir þat býst hver kona í burt, svo at þær urðu tvær einar eptir, Þorkatla ok Sigríðr, ok tekr nú til að líða fast at aptni; þóttust þær nú vita, at henni mundi ei duga at gánga skólausri í þessari ófærð ok frosti; þeim þótti ok illt at vera þar, því at þar höfðu snauðir menn áðr andazt í laugarhúsunum. Nú fara þær í laug; þá mælti Þorkatla: „Nú skal heita á Jón biskup frænda minn til þess, at annathvort sè, at menn komi í móti okkr eða hann leggi annat til hjálpar, en ek mun bíða meðan þú ferr til bæjar, ok skal sýngja v *pater noster* hvor okkar ok með

[1]) *C* setr hèr á milli söguna um Narfa.

Maríuvers. Eptir þat fór Sigríðr úr lauginni, en Þorkatla sat þar eptir. En í því bili er Sigríðr gekk úr lauginni, þá mælti hún: „hrafn flýgr þar," sagði hún. „Hirð eigi þat," segir Þorkatla. „Far úr lauginni," sagði Sigríðr, „því at mèr þótti, sem hann hefði nokkut í munni sèr, sem fyrr." Nú hugðu þær at, ok sá, at hrafninn fló aptr til hins sama steins, sem hún hafði skóna fyrr haft um daginn, ok lèt þar niðr þat hann fór með, ok fló burt eptir þat. En þær fóru þángat til, ok sá, at þar voru þá komnir skórnir heilir ok óskaddir, ok fóru þær heim, lofandi guð ok hinn heilaga Jón biskup, ok sögðu þenna atburð Kolbeini bónda ok mörgum öðrum[1].

11. Þórdís hèt kona, er enn var fyrr frá sagt[2]; hún átti kú eina, sú er sjúk var, svo at hún át ekki, nema lagt væri í munn henni, ok fórst þat fyrir þat kveld; þá var hart í hug hennar, því at þar lá við lífsbjörg hennar, ef kýrin væri drepin. Þá hèt hún fyrir henni á hinn heilaga Jón biskup, at gefa kerti þat er tæki um háls henni fram við bóga, ok gefa lýsi nokkut undan henni, ef hún yrði heil. En eptir um nóttina þá dreymdi hana, at maðr kæmi at henni í kápu svartri, mikill ok bjartr í ásjón, ok þó göfugligr; en hann mælti: „Er ei hægt nú hugarfarit, Þórdís"? sagði hann. „Ei er hægt", sagði hún. „Ek heiti Jón", sagði hann, „ok em nú kominn til þess híngat, at gæta kýr þinnar með þèr, ok skulu vit nú kaupa saman, at ek skal gæta kýr þinnar, en þú skalt hvern dag minnast mín í nokkru, því er þèr hentar; en svo mun kúnni seint batna, at þèr mun þat örvænt þykkja áðr". Eptir þat sneri hann í burt, en hún vaknaði ok fór þegar til kýrinnar; hún stóð þá upp við hey ok át, ok batnaði dag frá degi þar til hún var heil.

Þorkell hèt maðr, ok hafði haft handarmein marga vetr, ok mátti eigi á aðra hlið liggja, en þá er Brandr biskup var andaðr ok lík hans var til grafar borit, þá var heilagr dómr Jóns biskups ok út borinn ok um kirkju, ok gekk Þorkell þá undir skríninu; ok á þeirri stundu fèkk hann heilsu sína, lofandi guð ok hinn heilaga Jón biskup.

---

1) Hèr á milli stendr í *C* sagan um Þorfinnu.

2) Hin jarteinin um Þórdísi (sjá bls. 195) stendr löngu síðar en þessi í *C*, svo röðina í *C* er lítið að marka.

# JÓNS SAGA HINS HELGA

EPTIR GUNNLAUG MÚNK.

---

# JÓNS SAGA HELGA EPTIR GUNNLAUG MÚNK[1].

MEÐR því at miskunnar faðir ok guð allrar hugganar, vorr herra Jesus Christr, hefir leitt vora forfeðr frá ótrú ok til almenniligrar ok sannrar trúar, ok grundvallað sína borg ok einkanliga plantat sinn víngarð, heilaga kristni, um Norðlendínga fjórðúng, fyrir röksamliga prèdikan heilags lífnaðar hins blezaða Jóns Hóla biskups, skipandi hann oss föðr ok forstjóra, lífs lærifððr ok háleitan árnaðarmann þeim er á hann kalla með sannri trú ok hreinu hjarta sèr[2] til fulltíngs ok tènaðar: því höfum vèr ætlat meðr guðs fulltíngi fram at bera með rèttligri frásögn þat kraptanna ljós, sem þessi hinn ágæti guðs geisli, hinn heilagi Jón biskup, hefir fagrliga lýst með ok prýtt, eigi at eins sína fóstrjörð, heldr ok nærverandi lönd þessa konúngsríkis[3], kunnikt gerandi eptirkomandi þjóðum þessa góða manns verk, siðu ok siðferði, at heyrandi menn þessa frásögn hitni því framarr í ást ok elsku viðr þenna guðs vin, sem þeir heyra fleiri dásamlig tákn ok kraptaverk, er guð hefir gert fyrir hans volduga verðleika, ok at ljósker hans kraptaverka, upp sett á háfa kertistiku, lýsir öllum bjartliga kristninnar sonum, ok brott reki meðr sinni birti vor synda myrkr, ok at góðum mönnum sè fram settr bjartr spegill fagrligs eptirdæmis, þeim sem eptir vilja líkja dýrðarfullu siðferði þessa ágæta biskups. Höfum vèr þessa frásögn, *[segir Gunnlaugr múnkr, siðugr maðr ok góðrar minníngar, er*[4] *látínu*

1) Prentuð eptir Stokkhólmsbók (St.), en brotin í niðrlagi sögunnar eptir A. M. 219. folio. Öll pappírshandritin eru komin frá St. Í St. er þessi titill með rauðu letri: „prologus f' sogn [*eða* sogu?] Jons sogu hola byskups".

2) sett, St.

3) í frumritinu latinska mun hafa staðið *regnum*, enda má og vera, að sögunni sè snarað eptir að landið kom undir konúng.

4) or, St.

[*söguna*] *diktat hefir*[1], af oss ellrum mönnum ok meirháttar numit, ok eigi af einni saman vorri ofdirfð ok hvatvísi þetta verk upp byrjat, heldr at boði ok áeggjan verðligs herra Guðmundar biskups[2]. Biðjum vèr alla þá, sem þessa frásögn heyra, at fyrir vorn ólistugan framburð ok ósnjallt orðatiltæki fyrirdjarfi þeir eigi svá háleitt efni, sem vèr munum fram flytja, heldr umbæti meðr ást ok elsku þar sem þeir sjá þess með þurfa[3].

2[4]. Þar byrjum vèr frásögn af hinum heilaga Jóni biskupi, at í þann tíma, er rèð fyrir Noregi Haraldr konúngr Sigurðarson, er liðin vóru frá falli hins heilaga Ólafs konúngs tuttugu ok þrjú[5] ár, var Jón fæddr af kyngöfgum mönnum ok guðhræddum, á bæ þeim, er Breiðabólstaðr heitir, í Fljótshlíð. Faðir hans hèt Ögmundr, en Þorgerðr móðir. Faðir Ögmundar hèt Þorkell, ok var son Ásgeirs kneifar, en móðir Þorgerðar hèt Þorlaug, ok var dóttir Þorvalds or Ási, en Egill hèt faðir Þorgerðar, son Síðu-Halls, þess manns, er fyrst varð auðit af öllum höfðíngjum Austfirðínga, afneitaðri skurðgoða villu, at taka viðr kristnum dómi ok trú almenniligri. Jón vóx upp heima á Breiðabólstað meðr feðr sínum ok mæðr, þar til er hann var fjögurra vetra gamall. Í þann tíma urðu mikil tíðindi, ok þau, er öllu landsfólkinu vóru til mykils fagnaðar ok andligrar nytsemdar: þá var vígðr til biskups í Skálholt Ísleifr, son Gizurar hins hvíta, en dótturson Þórodds goða, at bæn ok beiðslu alls landsfólksins; var hann vígðr til biskups af Aðalberto erkibiskupi í Brimum í Saxlandi, í borg þeirri, er Herforða heitir. Hann var vígðr fyrstr higat til lands, þeirra biskupa, er hèr hafa at stóli setið. Margir biskupar höfðu áðr komit til Íslands, þeir er ekki höfðu higat vígðir verit. Ísleifr biskup var í Noregi hinn næsta vetr eptir, er hann var vígðr til biskups, ok fór eptir þat til Íslands, ok kom út hit næsta sumar

---

1) Sbr. cap. 23. Þessum orðum frá [ hefir þýðandinn eflaust skotið inn í.

2) til þessara orða Gunnlaugs lítr Arngrímr ábóti í Guðmundar sögu: „þessi Gunnlaugr componeraði meðr látinu líf hins sæla *Johannis* fyrsta *holensis*; váttar hann þat í *prologo* þess sama verks, at þat efni tók hann upp í fyrstu fyrir bæn eða boð virðuligs herra Guðmundar Hólabiskups". 3) þenna *prologus* vantar í öllum pappírshandritum.

4) „her byrjar sogu hins heilaga Jons hola bp̄s", St. með rauðu letri.

5) rèttara „tvö" (bls. 151).

forir[1] óaldar vetr hinn mykla, ok hafði stól sinn á heimili sínu ok föðrleifð í Skálholti.

3[2]. Snemmendis var fyrir spáð af vitrum mönnum, hvílíkr maðr þessi smásveinn mundi verða, hinn sæli Johannes, því at hvar sem hann kom fannst mönnum mykit um hann, þeir er hugleiddu hans hit ágæta yfirbragð. Einn heilagr maðr, er hèt Guðini, kallaðr hinn góði, ok þat hyggja menn svá verit hafa, sem hann sá þenna únga mann, mykiliga undrandist hans bjartleik, lagði hann þvílíkan orskurð á þetta hit blezaða úngmenni: „þessi maðr er sannliga heilagleiks spegill, ok sýnir í sínu bjarta yfirbragði þann mann, sem einkanliga er valdr af guði til heilagrar þjónastu". þessi sveinn var fagrliga prýddr af guði meðr mörgum ok einkanligum vingjöfum. Hann var mjök fríðr í ásjónu, bjartr í augum, gulr á hár, langr vexti, sterkr at afli, öllum fríðleik ok guðs miskun alla vega um kríngdr. Eptir því sem hann var í hvers manns augliti æskiliga limaðr ok sæmiliga á sik kominn, svá var hann ok viðr alla góða menn hýrligr, siðsamr ok prýddr hæverskligri hófsemd, sýnandi sik elskuligan allri alþýðu, ok því varð hann val vingaðr guði ok góðum mönnum. Auðsæ var guðs gipta meðr honum þegar á únga aldri, sú er enn síðan birtist í fyllíngu kraptanna ok framníng jarteigna.

4. þá er hinn sæli Johannes var barn at aldri, sigldi hann af Íslandi með feðr sínum ok mæðr; kómu þau til Danmerkr ok fóru á fund Sveins konúngs Úlfssonar; tók hann viðr þeim sæmiliga; var þorgerði, mæðr hins heilaga Jóns, skipat at sitja hjá sjólfri drottníngínni Ástríði, mæðr Sveins konúngs. þorgerðr hafði son sinn Jón undir borði meðr sèr. Nú sem dýrðligar krásir vóru fram settar fyrir drottnínguna, varð sveininum þat fyrir, sem jafnan er barna háttr, at hann rètti hendr til þeirra luta, sem hann til lysti. En er móðir hans sá þetta, vildi hon tyfta hann af þessarri úhæversku ok drap við honum hendi sinni. Hon drottníngin þetta sjándi fylldist spáleiksanda ok mælti svá: „gjör eigi svá, kæra þorgerðr, því at hendr þessar, er þú slær, eru biskups hendr." Nú má af slíkum

1) Hèr er meintr manndauðavetrinn mikli 1057—58; í hinni sögunni bls. 152 stendr *eptir*; hvorttveggja er rètt, því hallærið mun hafa byrjað um vorið eða ofanverðan vetr 1056, en endað um sumarið 1058 (sjá Landn. 1843, bls. 323—24). 2) „f' spa guðina hins goða", St. með rauðu letri.

orðum ok atburðum marka þat, er fyrr kómum vèr orði á, hversu vitrum mönnum fannst mykit um þetta hit blezaða úngmenni, sjándi þá luti fyrir, er myklu síðarr fram kómu eptir dýrðligri guðs fyrirætlan um hinn heilaga Johannem.

Meðr öllu er eigi yfir þí þegjanda, er hinn heilagi Ólafr konúngr, postuli Norðmanna, fullr af helgum anda, fagrliga fyrirspáði um þorgerði, mæðr Jóns biskups; hon var þá tólf vetra gömul, er hon kom til Noregs meðr feðr sínum ok mæðr. Egill fór til hirðar hins heilaga Ólafs konúngs, ok var þar val höndlaðr ok sæmiliga, sem aðrir íslenzkir menn, þeir sem kómu undir miskunnarfaðm þessa hins volduga höfðíngja. Nú sem dró at jólum um vetrinn, var Egill bóndi ógladari en eptir venju. Sem konúngrinn fann þat, spurði hann, hver sök til væri hans úgleði. Egill sagði þar litla sök til vera, „en ef ek skal nokkut til finna", segir hann, „þikkir mèr þat helzt at vera, at þorlaug husprey mín er eigi svá sæmiliga sett ok haldin, sem ek, at þessarri vors drottins burðartíð, sem nú er at höndum komandi." Hinn mildasti höfðíngi, hinn heilagi Ólafr konúngr, þessa luti heyrandi, bauð þegar án dvöl þorlaugu huspreyju fyrrsagðri til sæmiligrar jólaveizlu meðr dóttur hennar þorgerði. Jóla aptaninn, sem þær mæðgur vóru í göngu meðr Ástríði drottníngu um höll konúngsins, ok er hann sèr meyna þorgerði, talar hann við Egil, föðr hennar: „þessi dóttir þín lízt mèr stórliga væn ok með góðu yfirbragði, ok þat kann ek segja þèr, at hon verðr mikill lykkumaðr, ok sá man göfgastr ættbogi á Íslandi, er frá henni kemr". Er þat nú fagrliga fyllt ok fram komit, sem von er, at þessi hinn heilagi konúngr hefir fyrir sagt; birtist þat nú yfir hinum heilaga Johanne, syni hennar, því at sá er sannliga göfugr, er guð prýðir með ótalligum manndygðum ok háleitum kraptaverkum, vegsamandi sælan Johannem biskupligri tign hèr á jarðríki, en lætr hann háleitliga skína eptir stundlikt líf mörgum jarteignum ok stórtáknum, verðandi at mikilli hjálp viðr guð, öllum þeim er hann sækja til árnanarorðs ok bæna fulltíngs.

5. Nú skal þar til frásagnar taka, er áðr var frá horfit, at þá er faðir hans ok móðir höfðu slíka stund verit í Noregi, sem þeim þótti hentleikr til vera, fóru þau út til Íslands ok settu bú sitt á Breiðabólstað. En þá er hinn sæli Johannes hafði um liðit hinn mesta bernsku aldr, ok göfugliga yfir farit

allt smásveinlikt nám ok kennidóm, var hann fenginn af feðr sínum í meistaradóm sæls Ísleifs biskups, er vèr gátum fyrr í vorri frásögn, at nema guðliga spekt ok heilagar ritníngar, hvers líf og siðferði hann algerliga eptirlíkjandi varð innan skamms tíma hinn fullkomnasti lærisveinn í allri reglu guðligrar siðsemdar ok bókligri vizku, því at hann, prýddr sæmiligum verkum, varð skjótt kærr ok val þokkaðr bæði guði ok góðum mönnum. Sem herra Ísleifr biskup undirstóð, hversu val Jón, fóstri hans, færði sèr til nytsemdar þá góða luti, sem hann kenndi honum, ok hversu þat sáðkorn fagrliga plantaðist í hjartans akri, sem hann hafði nægliga í sáð meðr sínum ágætum kenníngum ok fagrligum dæmum, tekr hann at elska hann mjök heitri ást ok [allri virt[1], virðandi hann mikils umfram alla smálærisveina sína, því at hann skildi með glöðu hugskotsauga, hversu háleitt mannsefni hann var. Margir menn ok voldogir höfðíngjar seldu syni sína í hendr fyrrsögðum herra biskupi til náms ok læríngar; urðu margir af þeim höfutkennimenn ok sæmiligir personar; tveir af þeim urðu biskupar: hinn heilagi Johannes Norðlendínga biskup, ok *verðligr höfðíngi*, er Kolr hèt, er síðan var biskup í Oslo. Herra Ísleifr biskup átti þrjá sonu, ok urðu allir miklir höfðíngjar, er hètu: Teitr, Gizurr ok Þorvaldr. Gizurr var lærðr í borg *Herefordensi* á Saxlandi, er fyrr var getið, en Teit fæddi upp Hallr í Haukadal. Teitr lærði ok síðan marga kennimenn val ok meistarliga, ok urðu tveir af hans lærisveinum biskupar: Þorlákr hinn fyrri ok Björn biskup Gilsson.

6. Svá er ek skyldugr at segja nokkut frá því, hvílíkr maðr Jóni biskupi hafi vorðit Ísleifr fóstrfaðir hans, því at svá segja þeir menn í frá, sem kunnikt var um, at þat varð Jóni biskupi jafnan á munni, er hann var staddr hjá þí, er menn ræddu sín í meðal um þá menn, er bezt þóttu vera at sèr gjörvir. „Ísleifr biskup, meistari minn", sagði hann, „var allra manna vænstr, manna snjallastr ok bezt at sèr um alla luti". Þeir svaroðu þá, sem hjá vóru, eptirspyrjandi, hverr þá hefði getið Ísleifs biskups. Hinn heilagi Johannes svaraði: „hans skal ek í hvert sinn at góðu geta, þá er ek heyri góðs

---

1) frá [ allir ut, St. (= allri u't?).

manns getið". Má af þílíku marka, hversu góðr ok mikilsháttar Ísleifr biskup hefir verit, er svá heilagr maðr bar honum svá sæmiligan vitnisburð.

7. Einn tíma, þá er hinn sæli Johannes, subdjákn at ví[g]slu, kom af Rómaveg til Danmerkr *in passione domini* á sjálfan pálmsunnudag, var hann at tíðum staddr, þar sem sjálfr Sveinn konúngr Úlfsson var, er fyrr gátum vèr; bar svá til, at prestr sá, er las[1] vors herra *passionem*, bar seint fram ok stirðliga, ok eigi mjök rètt, þessa háleitu þjónastu, styggjandi mjök eyru viðrstandanda lýðs með sínum leiðiligum lesníngi. Sem Jón djákn heyrði hans lestr, ok sèr, at prestrinn fær hèr af nokkvarn svá kinnroða ok fyrirlitníng, hrærist hans milda hjarta til dugnaðar við prestinn; gengr af því fram með lítilátum líkamsburð[2], tekr bókina stilliliga af prestinum, les síðan svá snjallt ok skjallt, rètt ok greiniliga, at konúngrinn ok allir viðrverandi undruðu mikiliga hans listuligan framburð. En eptir endat heilagt messuembætti, sendir herra konúngrinn sína heimolliga menn eptir Jóni djákn, bjóðandi honum með sæmd til borðs með sèr um daginn, skipandi honum hit næsta sèr, trakterandi hann val ok herraliga, ok bauð honum at hafa svá lengi sjálfs síns borð, sem honum þætti bezt ok blíðast vera, ok þat þá hann fram um páska.

8. Á þessum tíma bar fyrir hinn sæla Johannem mikilsháttar vitran ok merkiliga sýn[3], hverja hann sagði Sveini konúngi undir borðum um daginn eptir, er hann hafði á fyrirfarandi nótt sýnina sèt, svá sína ræðu byrjandi: „ek þóttumst vera", segir hann, „í nokkurri höfutkirkju á þessarri nátt, ok í kór kirkjunnar sá ek sitja í biskupligu sæti vorn herra Jesum Christum, en á fótskör fyrir honum sat Davíð konúngr, hinn hæsti guðs spámaðr, lystuliga slándi sína hörpu með óumbræðiligum sætleik sönglistarinnar. Af því bjóð, herra konúngr! at mèr sè nokkur harpa færð, at ek prófi í yðru augliti, hvárt nokkurr partr þessa himneska hörpuslags hefir í mínu hjarta eptir dvalzt". Skjótliga eptir konúngsins boði er hinum sæla Jóni harpan tilborin, hverja viðrtekna er hann stillir með háleitri list, slándi svá

1) Hèr byrjar fyrsta blaðit af 219.
2) ok dúfuligu einfeldi, b. v. 219.
3) hèr er hálfr dálkrinn rotinn úr blaðinu í 219.

náttúrliga, at konúngrinn ok allir hjáverandi menn mikiliga glöddust, undirstandandi, at þessi hörpuslagr var víst eigi af jarðligum mönnum samansettr, heldr or himneskri höll ættaðr. Hafði hinn heilagi Johannes þessháttar list ekki fyrir sik lagt, ok því var þetta af einni saman guðs gjöf honum gefit til merkja ok vitnisburðar, at sýnin var sönn, án nokkurri draumligri sjónhverfíng, ok því lofuðu allir guð mikiliga fyrir þann dásamliga hlut ok háleita merki.

9. Eptir þetta ferr hinn sæli Johannes sunnan af Danmerk í mikilli blíðu ok góðu orlofi Sveins konúngs, snúandi ferð sinni til Noregs ok svá norðr til Þrándheims, ætlandi at vita með góðfýsi [heilagra dóma[1] hins blezaða Ólafs konúngs, guðs píslarvátts. Í þann tíma rèð fyrir Noregi Magnús konúngr hinn góði, son Ólafs konúngs, er kallaðr var Magnús berbeinn, sonarson Haralds Sigurðarsonar. Þenna tíma sat konúngrinn í Þrándheimi; vóru þar þá margir íslenzkir menn: Teitr son Ísleifs biskups og mart annat mektugra[2] manna af Íslandi, en þá hafði þar vorðit ill tíðindi, því at einn íslenzkr maðr, er Gils[3] hèt, hafði drepit einn hirðmann Magnúss konúngs, er Gjafvaldr hèt; en Gisl fyrrnefndan hafði þat til þessa verks rekit, at hann átti hefna feðr síns, þvíat Gjafvaldr hafði vegit Illuga, föðr hans, á Íslandi, en Gisl var þann tíma barn at aldri. Nú er þar til frásagnar at taka, at bráðliga eptir víg Gjafvalds var Gisl tekinn, fjötraðr ok í myrkvastofu rekinn. Sem Íslendíngar allir, þeir er í bænum vóru, spyrja þetta, ganga þeir án dvöl til myrkvastofunnar, er Gisl sat inni, harðliga höndlaðr. Sem Teitr biskupsson, er fyrir þeim var, kemr at stofudyrunum, ok þrjú hundrat íslenzkra manna með honum, hrundu þeir upp hurðina ok brast viðr hátt. Þá kipptist Gisl viðr [litt þat[4], þá einusinni sá menn þat, en áðr þeir kómu var Gils sagt, at konúngsmenn fóru, þá kvað hann vísu:

---

1) frá [ heilagan dóm, 219.

2) merkilegra, 219.

3) þannig St. hèr, en Gisl þó víðast; sumstaðar verðr ekki sèð, hvort heldr lesa á. Gisl og Gils skiptast og opt á, t. d.: „Þorgísl samdi honum písl", um Þorgils skarða, og Gisl Illugason, sem og var af Gilsbekkínga ætt, er í Skáldatali nefndr Gils, og má vera það sè rèttara.

4) frá [ þannig 219; litt$^{z}$ St. (=littat?).

Kátr skal ek enn, þótt ætli
aldrtjón viðir skáldi[1],
járn taka oss at orna,
undateins, at beinum;
hverr deyr seggr, en svarri!
snart er drengskapat[2] hjarta,
prúðr skal ek enn í óði
eitt sinn á þrek[3] minnast.

Teit[r] hjó af honum fjöturinn, ok tók hann á sitt vald, ok gengu síðan til mótfjala; þá kom þar Auðunn gestahöfðíngi í mót þeim, ok ætloðu þá at taka Gisl. Þá mælti Auðunn: „eigi vóru þèr nú tómlátir einusinni, Íslendíngarnir, ok þat hygg ek, at þèr ætlið yðr nú dóm á manninum, en eigi konúnginum, væri ok val, at þèr rækit minni til, hvat þèr hafit gert þenna morgin, ok reiðzt hefir Magnús konúngr fyrir minna, en teknir sè dauðadæmdir menn með valdi þeirra Íslendínga[4]". Teitr svarar: „þegi maðr[5]! ella mant þú tuskaðr vera". Viðr þessi orð varð Auðunn í brottu.

10. Nú sem þíng var sett, stóð upp Sigurðr ullstrengr ok mælti: „þat hygg ek flesta vita munu, þá sem hèr eru komnir, at nú er veginn lögunautr vorr Gjafvaldr, ok kom maðr af Íslandi utan, er sakir þóttist eiga viðr hann, hafandi þá atför, at hann veitti honum þegar banasár, en leitaði eigi eptir bótum, sem öðrum mönnum [er] títt; man oss svá sýnast konúngs mönnum, sem lítið mani fyrir þikkja at drepa[6] hirðina, ef þessa skal eigi hefna. Nú má vera, at þeir láti svá ganga allt at höfðinu, ok þyrmi eigi heldr konúnginum en öðrum mönnum. Nú eru slíkt údáðaverk mikil ok stórra hefnda fyrir vert, ok er eigi at bættra, þó at tíu sè drepnir íslenzkir fyrir einn noræenan, ok refsi þeim svá sína dirfð, at þeir tóku mann or konúngs valdi". Síðan þagnaði hann. Þá stóð upp Teitr biskupsson ok mælti: „vill minn herra konúngrinn gefa mèr orlof til at tala"? — Konúngrinn spurði þann mann, er hjá honum stóð: „hverr beiddi talsins". „Herra"! segir hann, „Teitr biskupsson". Konúngrinn mælti hátt: „víst eigi viljum

---

1) leiðrètt; skjaldar, St.; „aldr rán göra skáldi", 219.
2) dreings skapat, St. 3) þannig Fms. VII 35; þat, St. og 219.
4) morlendínga, 219. 5) vándr sáðbitr, 219. 6) bleðja af, 219.

vèr leyfa þèr at tala, því at öll orð þín munu spilla til, þau er þú mælir, ok væri þat makligt, at or þèr væri skorin túngan". Báðu margir menn íslenzkir sèr hljóðs ok orlofs, ok fèkk enginn.

11. Síðan stóð Jón prestr upp ok mælti: „vil herra konúngrinn leyfa mèr at tala mitt eyrendi"? — Konúngr spurði: „hverr mælti nú"? — Honum var sagt, at Jón prestr beiddi orlofs. Konúngr mælti: „leyfa viljum vèr þèr". Þá hóf hinn heilagi Johannes svá sína ræðu: „vorum herra Jesu Christi er þat at þakka, er löndin eru kristin, Noregr ok Ísland, en áðr vóð allt saman, menn ok fjandi; gengr fjandinn eigi nú svá berliga í augsýn við mennina, sem áðr, en þó fær hann mönnunum[1] sína limu, at fylgja ok fram bera sín bölvaðu eyrendi, sem nú er skammt á at minnast, at fjandinn mælti fyrir munn þeim er í fyrstu talaði, svá segjandi: nú er veginn einn konúngsmaðr, en makligt væri, at drepnir væri tíu íslenzkir fyrir einn noræenan. En hugsit um þat, góðr herra, at svá erum vèr Íslendíngar yðrir menn[2], sem þeir er hèr eru innanlands, ok þat hygg ek, at slíkir menn muni mest at vinna, at leysa sjálfan djöfulinn, í sínum vondum fortölum; skyldu þèr at því hugsa, er settir erut í heiminum höfðíngi ok dómari yfir fólkinu, ok merkíng hefir þess dómara, er koma man á hinum efsta *dómi*, at *dæma* alla veröldina, hvern *eptir sínum* verðleikum, at þèr dæmit rètta dóma, því at til hvers dóms ok þíngs kemr almáttigr guð með sínum helgum mönnum, ok vitjar góðra manna ok góðra dóma, þar kemr ok fjandinn ok hans árar, vitjandi vondra manna verka ok rangra dóma, ok sá man koma dómrinn at lyktum, er hit rètta man uppi vera. Hugsit um, herra! hvárr eldrinn man heitari: sá er lagðr er í eikistokkinn, ok gerr er viðr ofninn[3], eðr hinn, er lagðr er í þurt lim. Svá ok man vera, herra konúngr! ef þèr dæmit ranga dóma, at yðr man í þann eldinn vorpit vera, er eikistokkrinn liggr í; en ef rètt er dæmt af yðr, konúngr! þá er þó von, at þèr hreinsist í eldi *purgatorii*, þeim er af þurru limi er gerr". Konúngr mælti: „stórt talar þú nú, prestr, en þó at líku hlýtr maðrinn at hafa hinn versta dauðdaga, sem hann hefir til

1) „mon nonum" í tveimr línum, St.; til mennina, 219.
2) þegnar, 219. 3) Hèr vantar 1 blað í 219.

gert". Var konúngr hinn reiðasti, ok bað Auðun gestahöfðíngja sækja Gisl í hendr þeim Teiti ok hans sveitúngum, ok spara öngan til, þann er fyrir vildi standa. Nú af þí at Auðunn var fullr af æði, ok meðr margra manna áeggjan, þá verðr hann skjótr til þessa ok skortir eigi fjölmenni, en Íslendíngar í annan stað búast við vörn, ok eru ráðnir til at verja Gisl meðan þeir megu anda ok upp standa. En er Auðunn ok hans sveit koma þar at, er fyrir vóru Íslendíngar, þá hljóp Gisl í hendr konúngsmönnum ok mælti: „þat skal aldri verða, at hèr týnist svá margr drengr góðr fyrir mínar sakir, því at deyja man ek, hvárt sem nú er, eðr síðarr, ok gerit fyrir guðs sakir", talandi til sinna kumpána, „at þèr gætið yðar sem bezt, því at allir mega nú vita yðvarn drengskap, at þèr mundut fyrr falla allir, en selja mik fram í vald minna óvina, ok hafit nú mikla þökk fyrir yðvarn góðvilja".

12. Nú taka þeir Auðunn viðr Gisl, ok líkar þeim val, at Íslendíngar uni illa viðr sik, ok ráða eigi eptir þeim þó, því at þat var ekki ráð viðr ofrefli liðs konúngsmanna, ok sakir þess, at sjálfr konúngrinn er viðr; gengr Auðunn nú at geystr, lætr gera einn háfan gálga þar á þinginu, ok þikkist þá skörulígast hefna lögunauts síns Gjafvalds, en svívirða sem mest Gisl, ok alla þá, er honum vildu lið veita, ok at þeir væri allir viðrstaddir, þeim til skapraunar, er mikit þótti undir, þó at væri fremstr af þeim þar sem var hinn heilagi Jón prestr, er öllum [vann] gott, sem heyrast má í þessum atburð er stofnast. Nú þá er hinn heilagi Jón sá konúngsmenn leiða Gisl til gálgans, þá stóð hann upp ok mælti til konúngs: „vili þèr, herra konúngr, leyfa mèr, at ek gera þat sem ek vil af kápu þeirri, er þèr gáfut mèr í vetr". Konúngr leit viðr honum heldr reiðugliga, ok skildi, hvat hann ætlaði at gera af, ok mælti þó: „gjör af hvat er þèr líkar, en vit hversu margar er þú þiggr hèðan af konúngs gjafirnar, ef þú sèr svá fyrir þessari". Hinn heilagi Jón kveðzt ekki þat hyrða, ok gekk þegar þar til er þeir styrmdu yfir Gisl, steypti þá yfir hann kápunni konúngsnaut. Þá mælti Auðunn gestahöfðíngi: „ekki gefr mörlandanum þetta grið, ok vitum hvárt hann hangir at síðr á gálganum"; ok síðan festu þeir Gisl upp sem þjóf, og gerðu allt at sem svívirðligast, nema hann hèkk í kápunni konúngsnaut, ok gekk þeim eigi gott til þess, heldr hinum, er yfir

hann lèt. Hinn heilagi Jón prestr gekk þá í brott með huggæðis tárum, ok til kirkju, verandi þar þat sem eptir var dagsins.

13. Eptir þetta er slitið þínginu, og ferr konúngr til hallar ok hirðin meðr honum; ok er þat sagt, at konúngrinn iðraðist mjök meðr sjálfum sèr þegar litlu síðarr en þessi atburðr hafði vorðit, þó at menn fyndi þat eigi mjök á honum, er hann hafði lítils virt tillögur Jóns prests. Þat var þann tíma lög í Noregi um þá menn er hengdir vóru, at þeir skyldu hanga þar til er þeir fèlli ofan. Nú hafa fróðir menn svá sagt, at þá er miðvikudagr kom, þá gengr hinn heilagi Jón prestr frá kirkju með hinn níunda mann, þar til, er Gisl hèkk á gálganum, ok kveðst vilja sækja kápu sína. Hinn heilagi Jón gekk þrysvar um gálgann rèttsælis, en síðan fèll hann á knè þrysvar ok baðst fyrir, ok er hann stóð upp, þá bað hann þá högga virgilinn fyrir ofan höfut honum; þeir gerðu svá. Þá varð dásamligr atburðr: er Gisli fèll ofan, kom hann standandi niðr á jörð. Þá gekk hinn heilagi Jón at honum, tók af honum kápuna ok heilsaði honum meðr nafni, en Gisl svaraði honum blíðliga, viljandi ganga at honum ok mátti eigi. Jón prestr spurði hverju gegndi um hans hag. Gisl svarar: „þat kann ek helzt af segja, at mèr var sem ek sæta í hægum stað, síðan þú lagðir yfir mik kápuna, fyrir utan þat, at fætrnir eru mèr stirðir, er undan tóku kápunni, ok því má ek enn eigi ganga". Þá lofuðu allir guð almáttkan fyrir þetta háleita stórmerki, sem verðugt var, er hann hafði varðveitt þessa manns líf fyrir bænir ok verðleika síns ástvinar, hins heilaga Johannis, þar sem maðrinn hèkk frá mánadegi ok til miðvikudags í harðri þjófsnöru, ok hèlt þó lífinu, sem fyrr segir. Segja svá sumar bækr, at Gisl fyrrnefndr hafi ei verit hengdr, ok náð griðum ok fullum sættum, ok allir þeir íslenzkir menn, er í sögðu framhleypi vóru, fyrir fulltíng ok bænarstað hins heilaga Johannis. En eptir þetta þreifaði Jón prestr sínum höndum um fætr Gisla, þar til er hann fèkk göngu sína, ok fór meðr þeim. Nú fara þeir Jón prestr heimleiðis ok kómu fyrir lopt eitt. Maðr einn gekk út ok mælti viðr Jón prest: „gakk inn í húsit! — Sigurðr ullstrengr, lendr maðr konúngs, ok Auðunn gestahöfðíngi eru hèr inni svá dauðasjúkir, at þeir megu eigi óæpandi þola, ok biðja þik með miklu lítilæti ok sannri iðran, at þú komir til

þeirra, ok leggir hendr yfir höfut þeim með heilagu bænahaldi". Hann gerði svá. Sigurðr mælti: „eigi munda ek vita, prestr góði! nema orð þau, er þú talaðir á mótfjölunum, mundi hafa bitið okkr kumpána, því at vit erum sjúkir mjök. Vil ek nú gera mína játníng fyrir þèr, biðjandi, at þú lesir nú betra ok mjúkara yfir okkr kumpánum, en í sinn á þínginu". Sem Sigurðr hefir gert skriptamálin, mælti Jón prestr: „meðr þí at þú hefir mart ok stórt guði móti gert, þá verðr þú þat með stórum lutum bæta, ef þú villt algerliga sættast viðr þinn skapara". Sigurðr sagðist eptir hans ráðum vilja fram fara. Segja svá merkiligir menn, at hinn heilagi Jón hafi þat til lagt meðr honum, eðr beðit hann í skript, at hann skyldi reisa af sínu góðs[i] svartmúnkaklaustr í Niðarhólmi, ok gefa þar til svá mikit góðs, at guðs þjónastumenn mætti val ok sæmiliga viðr vera. Er þat mörgum mönnum kunnikt, at Sigurðr ullstrengr hefir þegit af Magnúsi konúngi hólminn, ok fyrstr manna fyndi at gera sagt klaustr, ok gefit þar til sína föðrleifð ok margar aðrar stórlendur; en svá trúist vera til komit, sem nú var sagt. Ok er Sigurðr hafði beðit sèr líknar fyrir sín meinlæti, las hinn heilagi Johannes yfir þeim kumpánum helgar bænir, ok gaf þeim sína blezan. Þá mælti Sigurðr: „mykit megu orð þín hörð ok góð, prestr! þvíat nú er mèr gott"; sagði Auðunn ok slíkt hit sama; gáfu þeir Jóni presti sæmiligar gjafir, ok skildust góðir vinir.

14. Nú er þat at segja, at Jón kom til konúngs hallar; þá sat konúngr yfir borðum. Hinn heilagi Jón gekk inn höllina; eru þeir tíu saman, ok er konúngrinn sá Jón prest, rètti hann báðar hendr blíðliga mót honum ok mælti: „gakk hèr undir borð hjá oss, Jón prestr, hinn kærasti vin guðs! ok svá vilda ek, at þú værir minn hinn bezti vin, þvíat ek veit víst, at saman ferr guðs vili ok þinn, ok þí vilda ek, at saman færi okkarr vili". Hinn heilagi Jón svarar: „þá mundi þèr ok vilja gera val til Íslendínga, kumpána minna, þvíat þat þikkir mèr allmiklu varða". Konúngr mælti: „þat mant þú opt sýna, at þú vil öllum gott, ok þat man þèr opt veitast, bæði fyrir guði ok góðum mönnum; er þat nú ljóst fyrir þenna atburð, er hefir gerzt, allan samt, eðr eigi síðr at kalla stórtíðindi; er þat nú ok allt á þínu valdi, Jón! er þú vil af oss þiggja, ok væri þó fyrr sæmra". Hinn heilagi Jón tók þetta konúngsins boð þakk-

samliga, ok steig undir borð hjá sjálfum herra konúnginum, ok var þar dýrðlig veizla. Nú sem Jón prestr var undir borð kominn, þá gekk Gisl at konúngi ok kvaddi hann. Konúngr tók val kveðju hans. Gisl mælti: „grið vilda ek nú þiggja af yðr, herra minn"! — Konúngrinn svarar: „gjarna viljum vèr nú gefa þèr grið ok gakk til sætis Gjafvalds, ok haf þilíka virðíng af oss, sem hann hafði um sína daga". Gisl þakkaði konúngi herraliga valgerð viðr sik; fór hann með Magnúsi konúngi til Írlands ok var hann formaðr fyrir gislunum, er Magnús konúngr sendi Myrkjartan Írakonúngi í Kunnöktum; en þar var einn norænn maðr í förum með þeim, kvezt kunna val írsku, ok bauðst til at kveðja konúnginn, en Gisli lofaði honum. Síðan mælti hann til konúngs: „*male diarik*", en þat er á vora túngu: „bölvaðr sèr þú, konúngr!" — þá svaraði einn konúngs maðr: „herra"! segir hann, „þessi maðr man vera þræll allra Norðmanna". Konúngr svarar: „*olgeira ragall*", þat er á vora túngu: „ókunnig er myrk gata". Konúngrinn var val við þá. Magnús konúngr herjaði síðan á Írland. Konúngr mælti: „nú eru þèr allir forveðjaðir, en ei viljum vèr drepa yðr, þó at Magnús konúngr hafi til þess unnit, ok farit hvert er yðr líkar". Fór Gisli til Íslands, ok þótti mikilsháttar maðr, ok var þar til elli. Einarr hèt son hans, ok var frá honum mikil saga[1]. Hinn heilagi Jón prestr var eigi lengi með Magnúsi konúngi eptir þessi tíðindi, fal konúngrinn sik undir bænir hans, gefandi honum sæmiligar gjafir, ok skildust með hinni mestu vináttu. Þá er hinn heilagi Jón biskup var í Suðrvegum[2], sem fyrr segir, gat hann upp spurt ok með sèr haft Sæmund hinn fróða, á þann hátt sem hèr segir.

15. Eigi hæfir [annat], en geta, framarr en áðr er sagt, hversu mikit lið íslenzkum mönnum varð at hinum heilaga Jóni, jamval utanlands sem innan. Teljum vèr þann hlut einkanliga þar til, er hann spandi út higat með sèr Sæmund Sigfússon, þann mann, er verit hefir einnhverr mestr guðs kristni til nytsemdar á Íslandi, ok hafði lengi verit í útlöndum, svá at ekki spurðist til hans. En hinn heilagi Jón gat hann upp

[1]) Frá þessum Einari Gilssyni ætlum vèr að Einarr skáld Gilsson muni vera kominn (lifði um 1350). Hann bjó í Húnavatnsþingi, og mun hafa verið Gilsbekkíngr að ætt, en í þeirri ætt voru ávallt skáld.

[2]) þannig eptir getgátu; Suðreyjum, St.

spurðan, at hann var með nokkurum ágætum meistara, nemandi þar ókunniga fræði, svá at hann týndi allri þeirri, er hann hafði á æsku aldri numit, ok jamval skírnarnafni sínu. En er hinn heilagi Jón kom þar, er hann var fyrir, spurði hvárr annan at nafni. Hinn heilagi Jón sagði sitt nafn, en Sæmundr nefndist Kollr. Jón svarar af gipt heilags anda ok mikilli kennispeki: „ek getr, at þú heitir Sæmundr ok sèr Sigfússon, ok fæddr á Íslandi, á þeim bæ er í Odda heitir". Taldi hinn heilagi Jón þar til fyrir honum, at hann kannaðist viðr sik ok ætt sína. Sæmundr mælti: „vera má at sönn sè saga þín, ok ef svá er, þá man finnast í túninu í Odda hóll nokkurr, sá er ek lèk mèr jafnan viðr". Ok eptir þetta, þá kannast þeir viðr með öllu. Þá mælti hinn heilagi Jón: „fýsir þik ekki í brott hèðan?" — Sæmundr svarar: „gott þikkir mèr hjá meistara mínum, en þó, síðan ek heyrða þín orð, ok ek sá þik, virðist mèr þó svá, sem sá hafi betr, er þèr fylgir ok aldri viðr þik skilst, en eigi sèr ek þó ráð til þess, at ek mega þèr fylgja, þvíat meistari minn vil með öngu móti gefa mik liðugan". Hinn heilagi Jón mælti: „vit skulum báðir þar at sitja, ok man ek dveljast hèr um hríð; skulum vit[1] til nýta hverja stund, er vit megum við talast, eigi síðr nætr en daga. Nú ef meistari þinn ann þèr mikit, þá man hann leita okkar, ef vit erum einir saman, ok man hann þá venjast við ok þikkja ekki grunsamligt, ef þat kemr opt at. En ef hann lèttir af at leita okkar, þá skolum vit leita á brott sem skjótast". Sæmundr mælti: „vitrligt ráð er þetta, er þú hefir til lagt, skal þetta grundvöllr okkarrar ráðagerðar, en viðr vitran mann eigum vit, þar sem meistari minn er, því at hann sèr ferð okkra þegar hann hyggr at himintúnglum í heiðríku veðri, þvíat hann kann svá algerla *astronomiam*, þat er stjörnuíþrótt, at hann kennir hvers manns stjörnu, þess er hann sèr, ok hyggr at um sinn.

16. Nú eptir þessa ráðagerð fylgir Sæmundr Jóni á fund meistara síns; tók hann viðr honum allval, er Jón þar um hríð, þar til er þeir leita á brott á einni nátt; var veðr þykkt, ok fara þá nótt alla ok daginn eptir. En er meistarinn saknar þeirra, þá var þeirra leitað ok fundust þeir eigi. En á annarri nátt, þá sá

---

1) leiðrètt; viðr, St.

öll himintúng[l], sèr meistarinn þegar hvar þeir fara, ok ferr eptir þeim skyndiliga. Sæmundr leit í loptið upp ok mælti: „á ferð er meistari minn kominn, ok sèr hvar vit förum". Jón mælti: „hvat er nú til ráða?". Sæmundr svarar: „skjótt skal til ráða taka: tak skó af fæti mèr ok fyll af vatni, ok set í höfut mèr". Svá gerir hann. Nú er at segja frá spekínginum, at hann sá í himininn upp ok mælti: „ill tíðindi! þvíat Jón hinn útlenzki [hefir drekt] Koll, fóstra mínum, þvíat vatn er um stjörnu hans"; ok ferr heim aptr. En þeir Jón fara leið sína þá nótt ok daginn eptir. Nú er enn at segja frá spekínginum, at á næstu nátt eptir skipar hann himintúnglum, ok sèr stjörnu Sæmundar fara yfir honum lifanda, ok ferr eptir þeim Jóni. Sæmundr mælti: „enn er stjörnumeistarinn á ferð kominn, ok man enn ráða viðr þurfa; tak enn skó af fæti mèr ok kníf or skeiðum, ok högg á kálfa mèr, ok fyll skóinn af blóði, ok set í hvirfil mèr". Jón gerir svá. Þá gat meistarinn enn sèt stjörnu Sæmundar, ok mælti: „blóð er nú um stjörnu meistarans Kolls, ok er nú víst at þessi útlendíngr hefir fyrirfarit honum"; ok þí hverfr hann aptr leið sína. En þeir Sæmundr ok hinn heilagi Jón fara sinn veg framleiðis. Þat er enn at segja, at þá er þessi hinn fróði meistari kom heim, reyndi hann list sína enn af nýju, ok sá enn stjörnu Sæmundar ok mælti: „á lífi er enn Kollr, lærisveinn minn, er betr er, en nógu mart hefir ek kent honum, þvíat hann sigrar mik nú í stjörnuíþrótt ok bragðvísi sinni, ok fari þeir nú heilir ok val, þvíat ekki get ek á móti staðit þeirra brottferð, ok mikils man Jóni þessum auðit verða, ok langæligar nytjar munu menn hafa hans hamíngju". En þeir Jón fóru leiðar sinnar, ok fórst þeim val ok greiðliga.

17. Eptir þetta fóru þeir Jón ok Sæmundr út til Íslands, ok settust í bú, hvárr á sína föðrleifð, Jón á Breiðabólstað í Fljótshlíð, en Sæmundr í Odda; bjuggu þeir þar mjök lengi, ok var þeirra í millum gott samþykki ok heilagt með bróðurligri ást, ok stýrðu kirkjum sínum langa hríð val ok dýrðliga, báðir undir prestsvígslu, svá at staðirnir auðgoðust at fè ok gersimum, enda var þeim at mörgum[1] góðum lutum líkt farit; vóru þeir mjök jafngamlir menn, at því er vèr ætlum, ok var

[1]) Hèr byrjar aptr 219.

hinn heilagi Jón tveim vetrum ellri. Þjónaðu þeir kirkjum fyrrnefndum með sönnu lítilæti, aukandi þeirra heiðr ok sæmd í kennimanna vistum, er þeir lögðu í óðul sín fleiri en áðr höfðu verit, svá at þeir máttu rèttliga kallast styrkir stólpar kristninnar, því at þeir studdu hana fagrliga í sínum kenníngum ok öðrum góðum lutum, þeim er þeir sýndu sínum undirmönnum, er þeirra hjálpsamlig heilræði vildu þekkjast. Hinn heilagi Jón kvángaðist skjótt, eptir er hann vígðist til prests; átti hann tvær konur og lifði hin fyrri litla ríð, ok átti með hvorigri börn, nè nokkurri konu annarri, svá at vèr hafim sögur frá heyrt, ok er þat margra manna ætlan, at hann hafi með hvorigri líkamliga flekkazt.

18. Þá er Ísleifr biskup hafði setið at stóli sínum í Skálholti iiij vetr ok XX, tók hann sótt á alþíngi, ok var fluttr heim meðr sóttinni, ok andaðist á sunnudag, fimta nonisdag Julii mánaðar, þat er einni nótt fyrir *octavam apostolorum Petri* ok *Pauli*, LXXX vetra eptir fall Ólafs konúngs Tryggvasonar; þá var ok liðit frá burð vors herra Jesu Christi ↀ. vetra, LXX[1] ok þrír vetr. Eptir þat var vígðr til biskups í Skálholt Gizurr Ísleifsson, at bæn allra landsmanna; var hann þá fertugr at aldri; en þat var á dögum Gregorii páfa hins sjaunda með þí nafni. Gizurr fór suðr til Rómaborgar ok beiddi þar vígslu, því at Liemarus[2] erkibiskup í Lund[3] í Danmörk var missáttr viðr páfann, ok mátti af þí eigi biskupa vígja. Hafði erkibiskupinn þá í Lund eigi at eins vald yfir biskupum í Danmerk, heldr jamval yfir alla biskupa í Noregskonúngs ríki, því at þann tíma var eigi erkistóll í Þrándheimi, því at á dögum Magnúss konúngs, sonar Erlíngs skakka, var Eysteinn fyrst gerr erkibiskup í Niðarósi af *legato* herra páfans, er sendr var til at sjá yfir þau mál, sem millum fóru kirkjunnar ok konúngsins, ok því sendi herra Gregorius páfi Gizur biskupsefni í þý[ð]erskuland, [til þess erkibiskups[4], er var í Megeðaborg ok hèt Hardeviku[s], ok var Gizurr þar til biskups vígðr eptir herra páfans boðskap. Liðu þá tveir vetr í meðal andláts Ísleifs biskups ok útkvómu

1) bætt við eptir 219; v. í St. 2) Leonarius, St.

3) þannig bæði St. og 219. Þetta er gáleysi Gunnlaugs, eða þess er sögunni snaraði, því Liemarus var erkibiskup í Hamborg og Brimum, en erkibiskupsstóll í Lundi var fyrst settr 1104. Eysteinn var ekki heldr fyrsti erkibiskup í Niðarósi. 4) frá [ b. v. 219; v. í St.

Gizurar biskups; var hann annan vetr hèr á Íslandi, en hinn næsta eptir er hann var vígðr var hann suman vetr í Danmerk en suman í Gautlandi, ok kom út sumarit eptir higat til Íslands; hafði Markús Skeggjason þá lögsögn á Íslandi. Gizurr biskup hefir verit mestháttar maðr ok algervast[r] hèr á Íslandi, at þí er sagt hefir Ari prestr hinn fróði Þorgilsson, ok alþýðu virðíng hafi mest á fallit. Af ástsemd hans [ok] fortölum Sæmundar hins fróða, ok með umráðum Markúss lögmanns, var þat í lög tekit, at allir menn á Íslandi skyldu telja fè sitt allt með svardögum, hvort sem væri í löndum eðr lausum aurum, ok gjalda tíund af, með þeima hætti, sem síðan hefir haldizt. Gizurr biskup lèt þat í lög leiða, at biskupsstóll sá, er á Íslandi væri, skyldi vera í Skálholti, en áðr var hvergi stöðugliga; lagði hann til stólsins landit í Skálholti ok mörg annur auðæfi, bæði í löndum ok lausum aurum.

19. Þá er almáttigr guð vildi hefja upp sinn þjónöstumann, hinn heilaga Johannem, á hærra pall kennimannligrar tignar, en áðr var hann: báðu Norlendíngar Gizur biskup, at hann skyldi setja með ráði hinna bezta manna fyrir norðan annan biskupsstól, fyrir því, at þeir þóttust vera fjarlægir Skálaholts biskups yfirsjón, en fjórðúngrinn sá fjölmennastr ok mest þurfandi biskupligrar yfirferðar, en hennar var þar áðr sjallnast kostr. Gizurr biskup talaði þetta mál viðr hina vitrastu menn á landinu ok sýndist þeim svá öllum, sem þetta væri ráðligt ok forsjáligt at láta eptir bæn Norðlendínga, ok mest fyrir þá grein, at mönnum sýndist, sem skemrum mandi biskupslaust vera á landinu, en áðr. Var þat ráð tekit, at Gizurr biskup gaf upp þann fjórðúnginn síns biskupdæmis, til þess at biskupsstóll skyldi vera í Norðlendínga fjórðúngi, svá sem þeir báðu. En til þessa vanda ok virðíngar, at vera biskup Norðlendínga, kaus Gizurr biskup til, af heilags anda íblæstri ok vitrastu manna ráði, siðferðugan kennimann Jón Ögmundsson, með blíðu samþykki lærðra ok leikmanna í Norðlendínga fjórðúngi. En þó at hinn heilagi Johannes teldist undan þessum veg ok vanda í fyrstu, fyrir lítilætis sakir, þá lèt hann þó at bæn Gizurar biskups ok annarra góðra manna, ok játtaðist undir utanferð ok biskupsvígslu at taka, ef guð vildi, ef honum yrði þess auðit. Vóru optliga síðan stefnur ok dagþínganir um þetta mál hafðar, ok rèðst þat af, at stóll Norðlendínga biskups skyldi vera settr

at Hólum í Hjaltadal, því at sá einn prestr, er þar bjó, er Hilarius hèt, en Illhugi öðru nafni, varð til, af öllum Norðlendíngum, at rísa upp af sinni föðrleifð fyrir guðs sakir ok kirkjunnar nauðsyn, trúandi þí, at guð mundi gefa honum fegri staðfestu í eylífri dýrð, er at rèttu má kallast föðrleifð allra góðra manna.

20. Nú at svá skipaðu ferr hinn dýrðligi maðr, herra Jón *Electus* hit sama sumar brott af Íslandi með brèfum herra Gizurar[1] biskups ok sæmiligum fjárhlut, eptir því sem til heyrði. Ok er þeir vóru albúnir, lètu þeir í haf ok urðu val reiðfara, ok er ekki sagt frá ferð þeirra fyrr en þeir kómu í Danmerk. Herra Jón *Electus* skyndir þegar ferðinni á fund Özurar erkibiskups í Lund, ok kemr í borgina þá er herra erkibiskup var at aptansöng. Ok er herra *Electus* kemr í kirkju[2] bíðr hann með sínum förunautum þar til er lokit er aptansönginum. Síðan byrjar hann aptansöng með raust, ok er erkibiskupinn heyrir hljóm hans ok rödd, þá lítr hann utar; ok er klerkar finna þat, [segja þeir svá[3]: „hvat er nú, herra erkibiskup! „hví brjóti þèr sjálfir þau lög, sem þèr hafit sett"? — Herra erkibiskup hafði þau lög sett, ok þat sínum klerkum boðit, at enginn þeirra skyldi utar líta um tíðir nauðsynjalaust. „Satt segi þèr" segir hann, „en þó er nú sök til, þvíat þílíka rödd heyrða ek aldrei fyrr af nokkurs manns barka út ganga, ok er þetta heldr engillig rödd en mannlig"; virðist ok svá mörgum mönnum, at hinn heilagi Jón hafi allra manna verit bezt raddaðr í þann tíma; ok fær hann góðar viðtektir ok sæmiligar af erkibiskupinum. Síðan tèði Jón erkibiskupinum sín erindi með brèfum Gizurar[4] biskups ok annarra höfðíngja af Íslandi. Ok er erkibiskupinn hafði heyrt hans eyrendi, stefnir hann fjölmennan kennimannafund í Lund, ok dagþíngaði viðr þá um eyrendi herra Jóns *Electi*. En þat varð endir þeirra samtals, at erkibiskupinn sagði svá: „svá virðist mèr, hinn kærasti bróðir"! talandi[5] viðr sælan Johannem, „sem þú munir flesta alla hluti til þess hafa, at þú sèr til biskupligrar tignar val fallinn, ok þat trúi ek, at sæll er sá lýðr at slíkan biskup náir at hafa yfir sèr[6]. En fyrir eins lutar sakir, þess er þú hefir sagt mönnum,

---

1) leiðr.; Ísleifs, St. 2) kirkja, St. 3) frá [ b. v. 219; v. í St. 4) leiðr.; Ísleifs, St. 5) þann. 219; talaði, St. 6) Hèr endar 2. bl. af 219.

at þú hefir átt tvær konur, þori ek eigi at vígja þik án orlofi ok boði postuligs sætis. Nú er þat vort ráð, at þú farir á fund vors herra páfans ok birtir honum þitt eyrendi, en vèr skulum rita með þèr ok tjá þitt mál fyrir herra páfanum, ok ef svá ferr, sem vèr ventum, at hann dispenseri með þèr, at þú takir biskups vígslu, þá kom aptr til vor sem skjótast, ok skulum vèr þá í guðs nafni vígja yðr til biskups".

21. Eptir þetta ferr Jón *Electus* til herra páfans í kuriam, en í þann tíma stjórnaði almenniligri guðs kristni heilagrar minníngar herra Paschalis pape, annarr með því nafni, ok sat þá í höfutborg allrar kristninnar, í sjálfri Rómaborg; tók hann viðr hinum heilaga Jóni val ok volduliga; bar hann fyrir herra páfann fram skjótt ok sköruliga sín eyrendi, þvíat hann var bæði snjallr ok ínóg höfðíngjadjarfr, sýnandi honum brèf ok innsigli *Astueri*, *Lundensis* erkibiskups, er hann hafði skrifat um kosníng ok vígslugerð hins heilaga Jóns. Segja þat margir sannfróðir menn ok merkiligir, at herra Jón *Electus* hafi þetta talat millum annarra luta fyrir herra páfanum: „því horfa mèr margir lutir þúngliga við guð í mínum tilgerðum, ok hrinda mèr frá biskupsvígslu, at þann einn lut veit ek mik helzt til hafa at vera [eigi] biskup, er ek hefir tvíkvángaðr verit". Mega allir menn hèðan af marka ok undirstanda, hversu guðrèttliga hann man hafa haldit heilagan hjúskap, er hann vottaði þessu fyrir sjálfum herra páfanum. Nú sem verðligr herra Paschalis pape hefir yfirlesit brèf erkibiskupsins, ok undirstaðit af guðs tilvísan verðleika heilags Jóns, ok mótiköst laganna, þau sem mót sýndust ganga biskupsvígslunni, virðir hann hvárttveggja ok vegr í sínu hjarta með vitrligri skynsemdar vág, ok hyggst honum svá at, sem þat muni fleira vera ok meira háttar, sem herra Jón *Electus* hafi til at taka biskupliga tign, en hitt, sem honum hryndi frá af laganna vandlæti; fyrir því gefr hann honum út af sínum kuria postulig brèf með sínu *bulla*, í hverjum hann dispenserar þat með sælum Jóni *Electo*, at hann skyldi biskup mega vera, ok býðr herra *Astuero* erkibiskupi með páfaligri röksemd at vígja hann til biskupligrar tignar. Ok sem hinn heilagi Jón hafði út tekit páfabrèfin ok fengit páfaliga blezan, hefir hann sik aptr á veg á fund herra síns, fyrrnefnds erkibiskups, ok lèttir eigi fyrr en hann kemr í Lund í Danmerk. En þegar erkibiskup varð þess varr, at hann er kominn í

borgina, tekr hann viðr honum með hinni mestu vináttu ok sæmd, ok sem hann undirstóð af herra páfans brèfum, at honum var gefit vald til af postuligu sæti at vígja hann, varð erkibiskupinn stórfeginn ok þakkar almáttkum guði, at honum skyldi þess auðit verða, at leggja sínar hendr í hans höfut með vígslu orðum, ok beið hann þar þeirrar stundar, er erkibiskupi þótti tilfellilig vera at vígja hann. Eptir þat kallar erkibiskupinn saman kennimenn, þá sem viðr þurfu vera þetta embætti, ok at öllum lutum tilbúnum, þá vígir hann Jón *Electum* til biskups, á sunnudag, tveim náttum fyrir messudag guðs postula *Philippi* ok *Jacobi*, þá vantaði hann vetr á hálfsextugan. Var þetta á dögum Paschalis páfa ok Noregs konúnga Eysteins ok Sigurðar. En þá er Jón biskup var búinn, ferr hann glaðr af erkibiskups fundi, sæmdr með gjöfum en styrktr með hjálpsamligum heilræðum; fór hann fyrst til Noregs, sýslandi sèr þar kirkjuvið, ok þat sama sumar lætr hann í haf, ok verðr val reiðfara, ok kemr skip þat á Eyrar fyrir sunnan land.

22. Þessi tíðindi spyrjast brátt um landit, utkváma Jóns biskups, ok urðu allir góðir menn þí fegnir, bæði norðanlands ok sunnan, ok fóru þegar at finna hann með miklum mannfjölda; tók hann hvers manns máli blíðliga, meðr miklu lítilæti. Ok þegar er Jón biskup var búinn frá skipi, ferr hann heim til stóls síns til Hóla, at vitja guðs hjarðar, sem góðr hirðir. Tók hann þegar styrkja ok stýra fagrliga guðs kristni, þeirri er hann var yfir settr, sitjandi heima um vetrinn at stóli sínum, en frændr ok vinir fluttu sunnan frá skipi kirkjuvið hans í Vinverjadal, en Norðlendíngar gerðu þegar eptir, ok drógu heim til Hóla; en at liðnum vetrinum ríðr herra Jón biskup til þíngs um sumarit, ok fundust þeir þar biskuparnir, Jón ok Gizurr, með miklum fagnaði ok bróðrligum kærleik. Tèði herra Gizurr biskup alþýðunni, hversu mikiliga menn áttu guði at þakka fyrir þau fagnaðartíðendi, er þá vóru vorðin, at tveir biskupar vóru vorðnir staðfastir á landinu, því at þat hafði eigi fyrr vorðit, síðan kristni kom á Ísland. Töluðu biskuparnir marga nytsamliga luti fyrir sínum undirmönnum, trakterandi með sínum lærðum mönnum, hver lagaboðorð þeir skyldu skipa lýðnum, þau sem guði mætti verða til heiðrs en mönnum til siðsemdar. Á þessu sumri hóf verðligr herra Jón biskup

yfirferð sína um sitt biskupsdæmi, ok tók at stýra kristni guðs með mikilli stjórn ok guðligu vandlæti, hirtandi vonda menn, en styrkjandi góða menn í guðs þjónastu með heilagum fortölum ok fögru eptirdæmi.

23. Jón biskup hafði skamma stund setið at Hólum, áðr hann lèt ofan brjóta kirkju þá sem áðr var. Sú kirkja hafði ger verit næst þeirri kirkju, er Oxi Hjaltason hafði gera látið. Þat hyggja menn, at sú kirkja hafi mest verit ger á Íslandi. Lagði hann til þeirrar kirkju margar gersimar ok lèt alla blýþekja. En sú kirkja brann upp með allri sinni prýði at leyndum guðs dómi. Síðan lèt Jón biskup reisa at Hólum mikla kirkju ok volduga, sú er til skammrar stundar hefir staðit[1] ok þó með mörgum atgerðum. Sparði hann ekki til þessarar kirkjugerðar, þat er guðs heiðr væri þá meiri en áðr, ok þetta hús væri sem fagrligast gert ok búit. Valdi hann þar til smið þann, er hagastr var í þann tíma á Íslandi, er Þóroddr hèt ok var Gamlason. Þat er sagt frá þessum manni, at hann hafði svá hvast næmi, at þá er hann var at smíð sinni, ok hann heyrði at klerkum var kend grammatika, en þat er látínulist, loddi honum þat svá í eyrum, at hann varð hinn mesti íþróttarmaðr í sagðri list.

Þá er hinn heilagi Jón hafði skamma stund verit biskup, lèt hann setja skóla heima þar á staðnum, vestr fra kirkjudyrum, ok lèt smíða val ok vandliga, hvern vèr sám með vorum augum *segir bróðir Gunnlaugr*, *er látínusöguna hefir saman sett*[2]. Til at stjórna klerkunum, ok kenna þeim, valdi hinn heilagi Jón einn hinn sæmiligsta úngan mann, val bóklærðan ok hinn snjallasta túlk guðligra ritnínga, er hèt Gísli ok var Finnsson, hvern er Jón biskup hafði haft or Gautlandi með sèr, ok gaf honum fyrir sitt starf mikla rentu ok sæmiliga; hèlt hann skólann um mörg ár ok kendi látínu klerkum val

---

1) sú er stendr þar í dag, *A*; sjá bls. 163.

2) þegar fornmenn sneru sögum úr öðrum málum á íslenzku, eðr handlèku eldri sögur, og höfundrinn nefnir sig í fyrstu persónu, þá er þýðandinn optast vanr að geta þess og skjóta inní nokkrum orðum til vitnis um, að það er ekki hann sjálfr (þýðandinn) sem talar, heldr höfundrinn; t. d. „segir bróðir Gunnlaugr", „segir bróðir Oddr", „segir meistari Simon" (í Flovents sögu Frakkakonúngs), „segir sögumeistarinn" eða „sá er söguna hefir samansetta" o. s. frv.

ok dyggiliga, ok veitti mikit uppheldi guðs kristni með biskupi í kenníngum sínum ok predikan. Þá er meistari Gísli talaði guðs orð fyrir fólkinu at hátíðum, þá taldi hann eigi utanbókar marga luti, eðr treysti mjök á sitt minni, heldr skýrði hann út heilagra feðra ritníngar eptir þeirri bók, sem á lectaranum lá fyrir honum. Gjörði þessi vitugi maðr ok hinn forsjáli þetta mest sakir lítilætis, at þar sem hann var úngr at aldri, þætti þeim meira um vert, er til lýddi, at þeir sæi þat, at hann tæki sínar kenníngar af helgum bókum ok merkiligum, en eigi af einu saman brjóstmegni ok hugviti. Blíðkaði hann ok mýkti eigi at eins heyrn atstandanda lýðs með sæmiligri snild ok klerkligs framburðar, er hann hafði nógliga af guðligri gjöf, heldr saddi hann þeirra hug ok hjörtu gnógliga með andligri fæðslu guðligra orða, svá at hann sýndist eigi at eins með orðunum, heldr ok jamval með gerðunum, predika. Var hans kenníng án hègómligum orðum eðr nokkurri hræsni samanstanda[ndi], ok þí fylgði hans orðum svá mikill guðs kraptr, at margir kómust viðr af öllu hjarta, ok tóku mikla skipan ok góða um sínar framferðir. Kenníngar hans vóru linar ok lèttbærar öllum góðum mönnum, ok þótti öllum vitrum mönnum vera spakligar ok skemtiligar, en vondum mönnum varð ótti mikill at ok sönn hirtíng, ok þí sótti þegar nær at öllum guðs hátíðum útöluligr mannfjöldi, upptendra[n]dist af góðfúsri græðgi guðlegra málsemda, girnandist at seðja sín hjörtu ok hugskot með lífs fóðri, þat er guðs orð, því at þar var kostr at heyra fagrar kenníngar, bæði af sjólfum herra biskupi ok af þessum gauzka manni Gísla, er nú var um talað.

24. Skamma stund hafði heilagr Jón biskup verit, áðr en hann tók at færa siðu manna ok háttu í annat efni, en áðr hafði verit, um marga luti; var hann hirtíngasamr viðr ósiðamenn, en blíðr ok hægr öllum góðum mönnum, fyllandi þat allt með verkum, sem hann kenndi fólkinu með góðum fortölum, opt hugleiðandi þat er vorr drottinn talar í guðspjallinu, ok hann bauð sínum lærisveinum: „*Luceat lux vestra coram hominibus, ut videant opera vestra bona et glorificent patrem vestrum, qui in celis est*"; þat þýðist svá: „lýsi ljós yðvart fyrir mönnum, at þeir sjái góðverk yður ok dýrki föðr yðvarn, þann sem á himnum er". Herra Jón biskup bauð þat styrkliga sínum undirmönnum öllum, at sækja með góðfýsi helgar tíðir hvern

tíma er heilagt var, bjóðandi prestunum at læra sitt undirfólk um þá luti, sem þeir þyrfti til guðligrar inngöngu. Bauð hann mönnum, at hafa þá háttu hversdagliga, sem góðum kristnum mönnum til h[e]yrir, at signa sik þegar um myrgininn, er hann vaknaði, ok sýngja fyrst *credo in deum*, ok játta svá trú sína í augliti almáttigs guðs, áðr en maðr fengist í hègómligri margmælgi, ok ganga svá síðan vopnaðr allan daginn með marki hins helga kross, en taka aldri svá mat, drykk eðr svefn, at maðr hlífði sèr eigi áðr með guðs píslarmarki. Bauð hann hverjum manni kunna at sýngja *credo* ok *pater noster* ok Maríuvers, ok at lofa guð vij sinnum á daginn, eptir því sem Davíð propheta segir: *sepcies in die laudem tibi dixi, domine deus meus*, þat er svá at skilja á norænu: „sjau sinnum á dag sagða ek þèr lof, drottinn guð minn!" — Ok at vèr talim þetta allt jamnsaman í fám orðum, þá kenndi hann með sínum iðuligum áminníngum sínum undirmönnum allan hátt guðligrar þjónastu af heilagra feðra setníngum, ok gat svá samit á skömmum tíma, með guðs fulltíngi, framferðir ok siðu fólksins, at heilög kristni í Norðlendínga fjórðúngi hefir hvárki áðr nè síðan skinit með svá björtum blóma ok fagri ásjón, sem þá stóð, meðan fólkit var svá sælt, at þeir náðu at vera undir stjórn ok stýríng hins blezaða biskups Jóns; svarf hann ok af snarpri ok bitrligri hirtíngar þèl alla óháttu, fjölkýngi ok fordæðuskap, galdra ok gerníngar, ok allan sjónhverfiligan kuklaraskap, ok stóð í mót allri illri forneskju með öllum mátt ok megni, þvíat áðr var eptir í kristninni miklar ok illar afleifar heiðins siðar, er eigi var upp rætt or guðligum akri meðan kristnin var úng. Fyrirbauð hann styrkliga alla hindrvitti, þá er fornir menn höfðu tekit af túnglkomum eðr dægrum, eðr eigna daga vitrum mönnum heiðnum, svá sem at kalla Týrsdag, Óðinsdag eðr þórsdag, ok svá um alla vikudaga, en bauð at hafa þat dagatal, sem heilagir feðr hafa sett í ritníngum, at kalla annan dag viku ok þriðja dag, ok svá út.

Leikr sá var kærr mönnum, áðr en hinn heilagi Jón varð biskup, at kveða skyldi karlmaðr til konu í dans blautlig kvæði ok regilig, ok kona til karlmanns mansöngsvísur; þenna leik lèt hann af taka ok bannaði styrkliga. Mansöngskvæði vildi hann eigi heyra, nè kveða láta, en þó fèkk hann því eigi af komit með öllu. þat er sagt, at hinn heilagi Jón biskup kom

at einn tíma, er einn klerkr, er Klængr hèt, ok var þorsteinsson, er síðan varð biskup í Skálholti, las versabók þá, er heitir *Ovidius de arte*. En í þeirri bók talar meistari *Ovidius* um kvenna ástir, ok kennir með hverjum hætti menn skulu þær gilja, ok nálgast þeirra vilja. Sem hinn sæli Johannes sá ok undirstóð, hvat hann las, fyrirbauð hann honum at heyra þessháttar bók, ok sagði, at mannsins breysklig náttúra veri nógu framfús til munuðlífis ok holdligrar ástar, þó at maðr tendraði [eigi] sinn hug upp með saurugligum ok syndsamligum diktum.

25. Heilagr Jón biskup var hinn þrifnasti ok hinn iðnasti í því, at sníða af mönnum löstu, þvíat sá kom enginn á hans fund, at hann gæti eigi leiðrètt á einhverja lund með guðs miskunn ok þeirri miklu kostgæfi, er hann lagði á at hjálpa sínum undirmönnum. Ok ef hann lagði á menn harðar skriptir, fyrir sakir mikilla glæpa, ok gengi þeir undir val ok lítilátliga, þá var lítil stund at bíða, áðr hans blezaða brjóst, heilags anda musteri, sampínist þeirra vesöldum af hinum innstum hjartarótum, linandi með vægð ok rèttlætis miskunn þeirra skriptamálum, eptir því sem hann fann þá iðrandi vera, ok þeir vildu viðr skiljast sín illferli; ok þar sem hann elskaði sína undirmenn sem bræðr eðr syni, fæddist hann af einskis manns vanhagafè, heldr gaf hann nær allt í ölmusur; fagnaði hann þí öllu, er mönnum gekk val, en harmaði þat allt, er annan veg varð. Hann var maðr svá huggóðr, at hann mátti ekki aumt sjá, eðr nokkut þat, sem mönnum varð til meins. Hann var svá örr ok mildr viðr fátæka menn guðs, at enginn á þeim tímum var hans nóti þar um. Hann var mjúklátr faðir allra fátækra manna; huggaði hann ekkjur ok föðrlausa, ok enginn kom svá harmþrúnginn á hans fund, at eigi fengi föðrliga huggan á nokkura lund. Svá var hann þekkr ok ástfólginn af öllum sínum undirmönnum, at enginn vildi honum nokkut móti gera, ok var þat meir fyrir sakir guðligrar ástar, þeirrar er allir menn unnu honum, en líkamligs ótta, eða þúngs yfirboðs; var þat af þí makligt, því at [hann] lýddi með öllu kostgæfi guðs boðorðum, ok leitaði meir eptir guðs afla en veraldligum, ok þí launaði guð honum þegar í hönd, at hann okaði undir hans vilja alla hans undirmenn, með heilagri lýðni ok heitri ástsemd.

26. Heilagr Johannes leiddi fram sitt líf eptir guðligri setníng ok heilagra feðra dæmum, gangandi fram rèttan veg í guðs boðorðum, girnandist þá eina luti at fremja, sem hans embætti til heyrði. Lá hann um þat vakandi, at afla guði til handa sem flestar sálur, iðjandi í bænum, studeran ok heilagri predikan nætr ok daga, ok í annarri guðs þjónastu. Ok at hann væri þí frjálsari ok liðugri til þílíkra iðna guðligrar þjónastu, valdi hann til vitra menn ok svinna, at hugsa ok í höndum hafa staðarins forræði, með þeirri göfugri hústrú, er hann hafði átt, ok þá var ekkja. Einn af þeim var prestr sá, er Hámundr hèt; hann var föðrfaðir Hildar nunnu ok einsetukonu, er getið man verða síðarr í sögunni. Næst Hámundi var prestr sá at forráðum, er Hjalti hèt, ok var náfrændi biskups. Af leikmönnum var sá maðr mest at ráðum ættgöfugr, er Örn hèt, son Þorkels af Víðimýri. Sumir menn vóru skipaðir at taka með gestum, því at hverri hátíð sótti þangat til biskups hundrat manna eða CC, eða nokkuru fleira, þvíat hinn heilagi Jón biskup bauð þat fólkinu, at hverr sá maðr, er fóta sinna forráð hafði í hans biskupsdæmi, skyldi vitja um sinn á hverju ári höfuðkirkjunnar at Hólum, at offra þar guði sínar bænir með góðfúsu hjarta, ok af þí mátti þar sjá at skírdegi ok páskum eigi minna en CCCC manna, bæði kvendi ok kallar; höfðu margir af þeim vistir með sèr, en hinir þó fleiri, er herra biskup fæddi fagrliga, bæði með líkamligum krásum ok andligum, ok þeir, styrktir biskupligri blezan, fóru fagnandi heim til sinna heimkynna.

27. Margir siðferðugir menn rèðust til staðarins, gefandi með sèr svá mikit góðs, at staðrinn var val haldinn af; en sumir, bæði karlar ok konur, fæddu sik þagat, til þess at lýða hjálpsamligum kenníngum herra biskups ok heilagri tíðagerð, smíðandi sèr herbergi umhverfis kirkjugarðinn. Heilagr Jón biskup tók marga menn til kennslu, ok fèkk til góðan meistara at kenna *grammaticam*, Gísla hinn gauzka, er fyrr var getið. En einn franzeis, sæmiligan prestmann, er Rikini hèt, capalín sinn, fèkk hann til at kenna sönglist og versgerð. Rikini var klerkr góðr, bæði diktaði hann val ok versaði, ok svá glöggr var hann í sönglist ok minnigr, at hann kunni utanbókar allan söng á tólf mánuðum, bæði í dagtíðum ok óttusöngum, með öruggri tóna setníng ok hljóða grein, ok þí rèðust margra

góðra manna börn undir hönd þessum tveim meistarum, sumir at nema látínu, en aðrir söng, eða hvárttveggja, kostgæfandi, hverr eptir sínu næmi, at fylla vandlaupa síns hjarta af þeim molum vizku b[r]auðs, er þeirra kennifeðr brutu þeim til andligrar fæðu, af hverjum [vèr] sám blómberaligan akr guðligrar miskunnar með fögrum ilm viða upp runninn[1]. Við þessum tók Rikini prestr öllum með fagnaði ok blíðu heilags Johannis, ok elskaði sem einka sonu, nærði ok fóstraði undir sinni forsjá ok gæzlu, varðveitandi þá undir sínum vængjum, sem fugl sína únga. Hèr mátti sjá um öll hús biskupsstólsins mikla iðn ok athöfn: sumir lásu heil[a]gar ritníngar, sumir rituðu, sumir súngu, sumir námu, sumir kenndu. Engi var öfund þeirra í millum eða sundrþykki, engi ágangr eða þrætni, hverr vildi annan sèr meira háttar; lýðni hèlt þar hverr við annan, ok þegar *signum* var til tíða gort, skunduðu allir þegar or sínum smákofum til kirkjunnar, sætligan seim, sem þrifit býflygi, til býstokks heilagrar kirkju með sèr berandi, hvert þeir höfðu saman borit or lystuligum vínkjallara heilagra ritnínga. Meðr tíða upphafníng hófst í kirkjunni fagrlig samhljóðan söngsins í kórinum, ok hófst sætlig hljóð raddanna. Enginn fór þar með lausúng eða margmælgi; hinir ellri menn ok meiri háttar vóru með staðfesti ok athuga, en úngir menn haldnir ok siðaðir undir stjórn hinna ellri manna, ok algerðu svá hvárirtveggju fagrliga sitt embætti; ok skein með þvílíkri birti yfirlit heilagrar kristni undir þessum heilaga biskupi. Allir hinir sæmiligstu kennimenn í Norðlendínga fjórðúngi vóru nokkura hríð til náms at Hólum, þá sem vorr aldr, *segir bróðir Gunnlaugr*, mátti muna, sumir af barndómi, sumir á fulltíða aldri. Margir af sagðra meistara lærisveinum önduðust á vorum dögum; en einn af þeim varð Ísleifr Hallsson, hvern Jón biskup æskti at verða skyldi biskup næst eptir hann ok tènaðarmann síns biskupsdóms, ef hann mæddi elli, en hann andaðist fyrr en herra biskup. En at ek nefna nokkura sagðra lærisveina, þá er ek sá mínum augum: var einn af þeim Klængr, er síðan var biskup í Skálholti; var hann xij vetra gamall á hendi fólginn Jóni biskupi af móðr sinni til fræðináms, ok varð hann hinn bezti klerkr, ok var lengi síðan

1) leiðrètt; upp runnið, St.

sæmiligr kennimaðr í Hóla kirkju, hinn mesti upphaldsmaðr kristninnar, prèdkiandi fagrliga guðs orð undir stjórn ok yfirboði tveggja Hólabiskupa: Ketils og Bjarnar; hafði hann marga vaska lærisveina undir sèr, ritandi bækr margar ok merkiligar, þær sem enn tjást at Hólum ok víða anna[r]s staðar. Vilmundr var þar ok lærðr, er fyrstr var ábóti á Þíngeyrum; svá ok Hreinn, er þar var hinn þriði ábóti. Margir vóru ok þar aðrir í skóla, þeir er síðan urðu mektugir kennimenn: Ísleifr Grímsson, frændi biskups, Jón svarti, Bjarni Bergþórsson, Björn, er síðan var hinn þriði biskup at Hólum, ok margir aðrir, þeir er langt er frá at segja. Þar var ok í fræðinæmi hreinferðug júngfrú, er Íngunn hèt. Öngum þessum var hon lægri í sögðum bóklistum, kenndi hon mörgum *grammaticam* ok fræddi hvern er nema vildi; urðu því [margir val[1] mentir undir hennar hendi. Hon rètti mjök látínubækr, svá at hon lèt lesa fyrir sèr, en hon sjálf saumaði, tefldi, eða [vann] aðrar hannyrðir með heilagra manna sögum, kynnandi mönnum guðs dýrð eigi at eins með orðum munnnáms, heldr ok með verkum handanna. Nú fljóta slíkir lutir fram af einni uppsprettu, ok sjá ávöxtr af einni vínviðar hríslu, þat er hinn heilagi Johannes. Kallast sjálfr drottinn sætt víntrè, en hans valdir menn vínviðar kvistir, eptir því sem segir í guðspjallinu: *Ego sum vitis vera et vos palmites.* Nú svá sem hinn heilagi Johannes lærði ok fræddi fólk heima á staðnum, fyrir þílíka menn ok meistara, sem taldir vóru, svá boðaði hann ok sjálfr guðs eyrendi í kenníngum um allar sveitir, þá er hann visiteraði sitt biskupsdæmi. Svá mikit hófst fræðifýsi ok náms með kostgæfi þessa blezaða biskups, at öðrumegum stóðu at klerkar, öðrum megum leikmenn, hverr at lesa með heilagri græðgi í sinn minnissjóð þat er fá mætti af nægð guðligra auðæfa. En þó at grandalaust líf ok góðir siðir, elska náúngs ok ástsemd viðr guð, ok miskunnar verk, auðsýni mannsins verðleik ok he[i]lagt meðferði, framarr en öll tákn ok jarteina gerðir, þá þikkir þó mörgum fávitrum mönnum, sem nær fyrir einsaman stórmerki jarteinanna vaxi mest fyrir guði heilagleikr mannanna: því munum vèr segja fá luti af heilagum Jóni, at þaðan af megi auðsýnast, at þat er sannligt, sem von er, sem ritníngin segir af

1) frá [ tviskrifað í St.

guði með fylgjanda máli: *dominus voluntatem timencium se faciet, et deprecacionem eorum exaudiet*, þat er svá at skilja: „drottinn man gera vilja sik elskandi manna, ok hann man heyra þeirra bæn".

28. Þat var á einum tíma, at góðr prestr ok göfugr, Eyjólfr Gunnvaldsson, frá stað heilags Martini biskups, kom til Hóla, biðjandi lítilátliga hinn heilaga Jón partera sèr nokkut af heilagum dómum sæls Martini, er þar vóru á staðnum. Hinn blezaði Jón vildi gjarna þí játta, er hann var svá lítilátliga beiddr, því leitaði hann til beinsins ok í höndum hafði, ok þótti honum mikit fyrir at bera járn á svá heilags manns bein. Síðan skrýddist hann til heilags messu-embættis, ok er komit var at fyrsta lágasöng, tók hann þetta hit blezaða bein ok lagði á altarit undir *corporale* hjá kaleknum, ok söng messu þar til er lokit var. En at luktu embættinu leitaði heilagr Johannes at beininu, ok fann, at þat hafði klofnat sundr í tvá luti, ok var annarr meiri lutrinn. Fær hann hinn minna part beinsins fyrrnefndum presti til Grenjaðarstaða, en hinn meiri var eptir at staðnum. Margir menn kómu þeir á fund hins heilaga Jóns biskups, er höfðu ýmissar sóttir eða sjúkleika, ok fengu skjóta bót sinna meinsemda fyrir hans blezaða handaátekníng og yfirsöngva.

29. Maðr hèt Þórðr, ok var heimamaðr hins blezaða Jóns ok gætti sauða þar á staðnum. Hann var úngr maðr, gálaus, ok gætti lítt orða sinna, fylgdi lítt tíðum, þó hann væri heima staddr, en Jón biskup minnti hann opt á betr at gera, þvíat honum þótti miklu máli skipta um alla sína menn, at þeir veri val siðaðir ok heyrði tíðir jafnan, er þeir veri heima, svá þó, at eigi gleymdist skyldugar sýslur; en þessi maðr gerði þó nær ekki eptir því, sem herra biskup bauð honum ok bað hann. Þat var einn hátíðar aptan, at herra biskup var at aptansöng, at allir siðlátir menn stóðu at tíðum, þá var þessi maðr, Þórðr, inni í stofu eptir sinni úvenju, ok sló sèr þá í leik ok glímur með úngmenni. Sagt var honum, at tíðirnar vóru úti, ok gaf hann öngan gaum at þí. Hann tók þá á sèr bráðliga hefnd, er hann hafði brotið boðorð biskups, því at hann fèll í leikinum, ok túngan sú hin sama, er hann vildi jamnan lítt gæta, varð í millum tanna honum ok skeindist hon mjök. Þí næst kom í blástr mikill með miklum verk, ok gerði svá stirða

ok þrútna, at hann mátti ekki mæla. Þá kom honum í hug, at hann mundi þess at gjalda, er hann hafði eigi hlýtt boðorði herra biskups, biðjandi sèr lítilátliga líknar, farandi á fund herra biskups, ok iðra[n]dist sinna afgerða með handa bendíngum. En er guðs maðr Johannes sèr hann, sampínist hann þegar þessa manns meini ok vesöld, takandi með hendi sinni túnguna, ok strauk um með heilagu bænahaldi, ok fèkk hinn mállausi aptr skýrt mál, ok varð á fám dögum alheill þessa meins, sem aldri hefði á hann komit.

30. Maðr hèt Sveinn ok var Þorsteinsson, hann var svá aumliga leikinn ok spottaðr af fjandanum, at hann kastaði náliga kristinligri trú ok gleymdi nær öllu þí siðferði, sem kristnir menn eigu at hafa, eptir þí sem hann sjálfr sagði ok mörgum mönnum var kunnikt; en þat var með þí móti, at hann ærðist fyrir ást nokkurs sjónhverfiligs skrim[s]ls; sýndist honum þat kona vera, há vexti ok væn áliti; fèkk hon svá villt hann, at hann vildi ekki viðr aðra menn eiga, farandi jafnan rá[ð]lausliga, einreikull, hirði ok hugsaði eitt ok annat; gleymdi hann öllu þí, sem honum var til hjálpar ok miskunnar, andliga ok líkamliga. En guðlig miskunn samvinnandi, sá er önga sína menn vil fyrirfarast láta, heldr vil öllum miskunsamliga viðr hjálpa, þá var þessi maðr tekinn ok fluttr á fund hins heilaga Jóns biskups, ok var þat í þann tíma, er hann var nýkominn til staðarins. Hinn heilagi Jón biskup tók við honum blíðliga, leiðir hann með sèr í kirkju og byrgir sik þar síðan, en tók at frètta hann af öllum saman atburð, ok eggjaði hann fast til iðranar eptir þat. En með hans heilögum áminníngum tók þessi hinn úngi maðr at komast viðr mjök, ok segir síðan hinum heilaga Jóni biskupi ljósliga frá öllum svikum ok umsátum djöfulsins, er hann hafði hann háskasamliga í vafit; ok er hinn blezaði Johannes fann sanna iðran með honum, þá varð hann svá feginn, at hann felldi tár, at hann skal mega, sem góðr hirðir, koma þessum sauð or varga munni ok aptr bera til drottinligrar hjarðar, temprandi sín tár með hans tárum ok harmandi hans misfelli með föðrligri sampíníng; en hèr eptir tók biskup at setja honum skriptir með helgum bænum ok hjálpsamligum áminníngum, bjóðandi honum þat einkanliga fyrst, at djöflinum til skemdar ok svívirðíngar skyldi hann vera ólatr at segja hverjum manni þenna atburð, er

heyra vildi, ok svá gerði hann, biðjandi þá góða menn, er hann sagði nefndan atburð, at hverr skyldi minnast hans í sínum bænum. Eptir þat ganga þeir báðir saman út or kirkju, ok var svá mikil skipan á orðin um ráð Sveins, at sá er lifat hafði þagat til ljótligu lífi fyrir guði ok mönnum, ok aldri mátti glaðr vera sakir þeirra sjónhverfínga, er djöfullinn hafði hans sál ok líkam lengi háskasamliga tekit ok illkyndugliga ínetjað, en nú styrktr af dæmum ok mjúku viðrmæli þessa guðs manns í hugganar anda guðs, treystandi uppá eina saman miskun guðs ok hans rèttlæti, svá at fjandinn kom aldri síðan þessari tálarsnöru á hans háls. Gerði hann guði verðugar þakkir fyrir sína andarhjálp á öllum dögum lífs síns, ok fór glaðr ok góðlátr til sinna heimkynna.

31. Þá er hinn heilagi Johannes hafði skamma stund sínum biskupsstóli stýrt, lá hallæri mikit á fólkinu, ísar miklir ok veðrátta mjök köld, svá at jörð var ekki ígróðra at várþingi. Hinn heilagi Johannes fór til várþíngs er var at Þíngeyrum; ok er hann kemr þar, heitr hann á guð drottinn, með samþykki allra, til árs ok hægrar veðráttu, at þar skyldi kirkju reisa ok bæ upp gera, ok allir sitt góðs til leggja, svá at hvárttveggja veri sæmiliga upp gert. Síðan lagði hann af sèr möttulinn ok markaði sjálfr grundvöllinn yfir kirkjuna. En síðan skiptist svá skjótt árferð ok veðrátta, at á þeirri hinni sömu viku vóru í brottu allir hafísar, er þetta hallæri stóð af, svá at hvergi varð vart við; en jörðin lífgaðist svá skjótt til blómbæriligs ávaxtar ok skrýddist fögrum grösum, at í þeirri sömu viku hafði allr fènaðr græn grös ok nógligt fóðr.

32. Sá lutr lá á staðnum á Hólum, at þar var bás sá einn í fjósi, er menn sögðu at eigi mætti naut á binda, þvíat dautt lá hvert um morgininn þat er á var bundit um kveldit. Þá var þat eitthvert haust, at Jón biskup gekk til meðr ráðsmanni sínum at ætla naut til lífs, þau er heima þar skyldu vera á staðnum; ok er þeir höfðu til ætlað, þá segir nautrekinn, at eigi mundi nautin rúm hafa í f[j]ósinu, með því at einn básinn var ótyttr, ok eigi mætti á skipa. Herra biskup sagði svá vera skyldu sem hann hafði til skipat, ok sagði at á einn veg skyldi binda á þann bás, sem aðra í fjósinu, ok var svá gert; en um myrgininn kom nautamaðr til fjóss, ok fann kúna dauða á básinum; kom hann þá ok sagði herra biskupi, en hann bauð

honum at binda á hinn sama bás naut annat, ok hit þriðja; var svá gert ok dó þau bæði, sem hit fyrsta. Þá mælti nautamaðr: „hversu lengi, herra! skal svá fram fara, sem nú horfist á?". Hinn heilagi Jón biskup svarar: „svá skal gera meðan nokkut naut er á staðnum, ef guð vil at staðrinn eyðist fyrir þessa skyld". En eptir þetta hans umtal tók af fallit af básinum, ok sigraði Jón biskup þetta úvinarins áfelli með sannri trú ok áfelli staðfestunnar, ok af þí at óvinrinn hafði tekit sèr gistíng á sögðum bás, ok inn gengit fyrir nokkura vantrú manna, var nauðsyn at hann væri sneypiliga út rekinn, með sannri trú ok heilagri þolinmæði blezaðs biskups Johannis.

33. Þat var eitthvert sinn, at váraði mjök seint, svá at jörð var ekki ígróðra at fardögum; þá reið heilagr Jón biskup til alþíngis, ok hèt þar til árbótar mönnum á Jónsmessu baptiste; ok er hann hafði sakt fyrir heitum ok staðfest með heilagu bænahaldi, mælti hann þessum orðum: „þat vilda ek, at guð gæfi oss nú þegar í stað döggina"; ok lýstist þat í því, at hann var mjök bráðlátr. Sumarit hafði verit svá þurkusamt, at sjaldan hafði komit vátr dagr, ok var þí grasvöxtr nær engi. Áðr en hinn heilagi Jón biskup hèt var svá skírt veðr ok hreint, at hvergi sá ský á himni, en þá er hann byrjaði upp *gloria in excelsis* á fyrrnefndan messodag í hámesso, þá gaf guð svá mikit regn á jörðina, at varla var mönnum úti vært fyrir vatnviðri. Þaðan frá um sumarit var regn um nætr en sólskin um daga, ok gekk þí um stund; gra[s]vöxtr var þat sumar til meðallags.

34. Þessi hinn heilagi biskup Johannes var prýddr af guði mörgum merkiligum lutum ok fögrum vitranum, sem fylgjandi frásögn vottar, ok var þat eigi undarligt, at honum væri margir merkiligir lutir í svefni sýndir, því at hann hafði eigi meira svefn en náttúran mátti minnstan nýta; en hugrinn var jafnan áðr hann sofnaði, ok svá þá er hann vaknaði, á guðs þjónastu ok helgu bænahaldi. Þat bar fyrir hann á þeirri nátt, sem andaðist suðr í Skálholti Þorkell prestr skólabróðir hans, er Trandill hèt öðru nafni; hann var sæmiligr kennimaðr. Eptir náttsöng, þá er hinn heilagi Johannes var kominn í sæng sína, nú sem hann hneigði sik til svefns aptr at hægindinu rann á hann höfgi, ok sofnaði hann; þá þótti honum maðr inn ganga, sá er hann kenndi eigi, ok nam staðar í miðju herberginu, ok

honum þótti, sem sá maðr væri spurðr af hjáverandi mönnum, ef hann segði nokkur tíðindi. Hann svarar: „þorkel helgan". Eigi mælti hann fleira, svá at nokkurr heyrði. Herra biskup vaknaði viðr þessi orð, ok sprettandi upp, ok kallaði á Rikina, kapalín sinn ok erkiprest, svá segjandi: „rís upp bróðir! förum til kirkju ok lofum guð, þí at bróðir okkarr, þorkell prestr trandill, er nú fram stiginn um almenniligar dauðadyr, ok felum hans sál guði í vald með heilagri *commendacione* ok öðru viðrkvæmiligu bænahaldi". Heyrt höfðu þeir, at hann hafði sýkzt, ok höfðu þar frammi guði þekkiligt bænahald, en herra biskup sagði prestinum, hvat fyrir hann hafði borit.

35. Á hinu tólfta ári biskupsdóms hins heilaga Johannis urðu mörg tíðendi: þá andaðist góðrar áminníngar Gizurr biskup í Skálholti, en þorlákr Runólfsson kom í hans stað. Gizurr var biskup XXX. ok vj. ár. þá var liðit frá burð vors herra M. C. ok xj ár[1]. Á þí sama ári andaðist heilagr faðir herra Paschalis pape, annarr með þí nafni, Baldvini Jórsala konúngr, Arnaldr patriarcha at Jórsölum, Alexius Grikkja keisari, Philippus Svíakonúngr. þá var liðit frá falli Ólafs konúngs Tryggjasonar C ok xviij[2] vetr.

36. Eitthvert sinn, þá er hinn heilagi Johannes hafði til svefns lagzt nokkura nótt, þá bar fyrir hann sýn. Hann þóttist vera á bæn sinni fyrir einum miklum róðukrossi; ok þí næst þótti honum líkneskit á krossinum hneigjast at sèr, ok mæla nokkur orð í eyru sèr, ok vitum vèr eigi hver þau vóru. þessa sýn sagði hann Rikina presti, ok var engi sá er ráða kynni. En hinn næsta dag eptir kómu menn á fund hins heilaga Johannis, þeir er nýkomnir vóru af Noregi, færandi honum einn lítinn bæklíng, á hverri bók ritaðr var sá atburðr, er mönnum var mjök úkunnigr, frá þí er Gyðíngar spottuðu hinn krossfesta, píndu líkneskju vors herra Jesu Christi með þeim hætti, sem þeirra forfeðr gerðu viðr sjálfan hann. þessir bölvaðu Gyðíngar struku líkneskit með sárum svipum, spýtandi á þat, ok gáfu þí stóra pústra ok háðulig hálshögg; eptir þat krossfestu [þeir] þat, gangandi fyrir róðuna, ok sín höfut með miklu spotti svívirð-

1) leiðrètt; IX, St. (ritvilla: IX fyrir xj).
2) leiðrètt; xiiij, St.; Húngrvöku tímatal er að eins við haft þegar miðað er frá Krists burði.

liga skakandi, margar guðlastanir mælandi, ok öll krossins brígzli endrnýjandi, líkneskjunnar síðu með hvössu spjóti leggjandi, ok allt eptir þí líkjandi, sem þeirra feðr vóru við sjálfan guð grimmligast gerandi. En svá sem þessir fjandans fèlagar gerðu þenna grimmliga glæp, ok þeir höfðu opnat síðu líkneskjunnar, þá rann or síðunni blóð ok vatn, svá sem þá er guð sjálfr var píndr, ok gerði guð af þeirra glæp dásamligt tákn ok mjök fáheyrt stórmerki, hvaðan af margir sjúkir menn fengu háleita heilsubót sinna meina. Hinir ok, er sagðan glæp höfðu gert ok dauðir vóru í sálinni, iðruðust þessa glæps ok vantrú sinnar, snúandist til guðs ok almenniligrar trúar, ok urðu svá hvorirtveggju meðr guðs miskunn hjálpaðir, bæði at önd ok líkama. Ok er hinn heilagi Johannes ok Rikini prestr höfðu sagðan atburð yfirlesit, talaði hann prestrinn til heilags Johannis: „sè hèr nú, sæti faðir! sýn þá ok vitran, er guð sýndi yðr í nátt". Lofuðu þeir guð fyrir þenna háleita atburð.

37. Svá bar at skírdag, þá er í fjölmennasta lagi var at Hólum um daga Jóns biskups, at ein fátæk kona kom til ráðskonu ok mælti: „nú hafa börn mín ekki til náttverðar, ok þurfum vèr nú, at þú gefir oss nokkura ölmusu fyrir guðs skyld". — „Eigi er nú mjök auðvelt um ölmusugerðir", segir ráðskona, „þvíat nú eru margir gestir til garðs komnir; far þú til biskups", segir hon, „ok man hann ráða þèr nokkut hjálpræði". Hon fór þá á fund herra biskups, ok kvaddi hann hana fyrri. „Hvat viltu, mær mín"? segir hann. Hon svarar: „nú er ekki til náttverðar mèr í kveld ok börnum mínum, heilagr faðir!" segir hon. Herra biskup mælti, at bryti skyldi fá henni osthleif einn. Hin fátæka kona tekr við fagnandi ölmusunni, ok ferr brott með, en brytinn kom litlu síðarr aptr til ostanna, ok ætlaði at pártera í sundr sèr hvern, ok töldust þá jammargir sem fyrr. „Hverju man þetta sæta"? segir hann, „konan hafði einn ostinn í brott áðan, ok eru þó nú jammargir sem áðr; þetta er mjök undarligt". Síðan ferr hann brytinn til sjálfs herra biskups, segjandi honum svá fallinn atburð, sem fyrr var greint. Hinn blezaði biskup Jón svarar: „hèr man at þí koma, sem mælt er, at ‚*guð elr gesti*', en þó þarftu ekki orð um slíkt at hafa". Varð hinn heilagi Jón af slíkum lutum ok öðrum þekkr alþýði, vinsæll af guði ok góðum mönnum.

38. Nú er yfirfarit nokkut um þær jarteinir, er vèr höf-

um heyrt sagðar eða sèð ritaðar af lífi hins heilaga Johannis, þó at menn sæi viðr, at honum lifanda, at kalla þat jarteinir, en þó þótti öllum mikils um vert, þeim er gjörst kunnu at skilja þá luti, sem guð gjörði fur verðleika síns ástvinar, hins heilaga Jóns biskups. En þó þótti nær hvergi minna um þat vert, hversu sæmiliga hann hèlt staðinn ok kennimenn þá, er meðr honum vóru, ok hversu jafnlyndr hann var í öllum góðum lutum. Hit sama var jafnan hans lítillæti ok huggæði, svá at hann mátti ekki vetta aumt sjá. Hann fastaði löngum, vakandi bæði nætr ok daga, ok baðst fyrir, en gerði jafnan til nytsemdar nokkut, svá at aldri fann fjandinn hann iðjulausan. En hvat sem hann gerði, vóru hans varrar aldri kyrrar at guðs lofi. Nú sem sú tíð var komin, at almáttigr guð vildi ömbuna hinum heilaga Jóni með eylífum fagnaði þat stundliga starf, mæði ok erfiði, er hann þoldi þessa heims fyrir guðs kristni, ok andaligum nauðsynjum sinna undirmanna, tók hann sótt, af hverri hann steig fram af þessa heims lífi til eylífs fagnaðar. En er hann var oleaðr, kom til hans einn prestr, einn af mörgum hans lærisveinum, hinn bezti skrifari, er hèt Þorvarðr ok söng á Knappstöðum í Fljótum. Hann hafði með sèr eina bók, er hann hafði at öllu mjök vandat ok sagðist hafa skrifat einum fjarlægjum presti, er hann hafði beðit; vildi hann at herra biskup legði verð á bókina, segjandi prestinn hafa játtað at kaupa eptir virðíng herra biskups. Hinn blezaði biskup Johannes fagnar honum val, gleðjandist mjök af hans þarkomu, ok talar svá: „gakk higat, son minn! ok gef mèr friðarkoss áðr ek andist, sem aðrir hjástandandi bræðr þínir". Hann prestrinn gerði sem hann bauð, ok minntist til hans, sýndi honum bókina, sagði sitt eyrendi ok bað hann leggja verð á. Herra biskup leit innvirðiliga á bókina, lofaði ok sagði svá: „þetta er góð bók, en annarr man eignast en sá, sem þú hefir ritað hana". Prestrinn svarar: „fyrir hví, minn sæti faðir? — leggit á verðit ok man hann öruggliga eptir því kaupa, sem þèr kastið á, þvíat hann bað mik, at ek skylda rètt með þessum hætti rita honum bókina". Þá mælti hinn heilagi Johannes: „þat má ek gera, son minn! at leggja verð á bókina, sem þú beiðir, en eigi mant þú þeim selja, sem þú ætlar, þí at hann er nú andaðr". Prófaðist þetta satt, því at litlu síðarr spurðist andlát prestsins. Er í þessum lut auðsýnt, at hinn heilagi Jón

var prýddr guðligum spádóms anda, er hann vissi svá sannliga þá luti, er hann var fjarlægr, sem hina, er honum vóru nálægir.

39. Eptir þetta tók mjök at minkast líkamligt afl ok máttr hins heilaga Jóns biskups, þvíat sóttin tók at öflgast ok vaxa. En þó at máttrinn þyrri, þá lètti hann aldri af psalmasöng ok öðru heilagu bænahaldi. Nú svá sem hann sá nálgast sína dauðastund, þá beiddi hann prestana, er hjá honum stóðu, at þeir skyldu gefa honum heilagt götunisti, en þat er guðs líkami, er kallast englabrauð ok vegfarandi manna fæða. Sem hann hafði reynt guðs líkam, ok tekit þenna örugga verndarskjöld móti sinna óvina áskeytum, les hann þessa *communionem*, er svá byrjar: *Refecti domine pane celesti ad vitam quesumus nutriamur eternam.* Þat er svá at skilja: „heyrðu drottinn! vèr saddir himnesku brauði biðjum, at sú næring snúist oss til eylífs lífs ok fagnaðar". En áðr hann hafði tekit *corpus domini*, hafði hann til skipat um allar kirkjunnar nauðsynjar, þær sem mestar vóru, eptir því sem honum þótti bezt henta, hafandi hjá sèr alla þá menn, er mestháttar vóru á staðnum, bæði lærða ok leikmenn. Nú sem hann hafði lengi beðizt fyrir, ok gert guði margfaldar þakkir, ok gefit fólkinu sína blezan, byrjaði hann psalminn: *Benedicam dominum in omni tempore, semper laus ejus in ore meo.* Þat þýðist svá: „bleza man ek drottinn á öllum tíma, ok jafnan sè hans lof í munni mínum"; ok svá sem hann var at, at sýngja sagðan psalm, ok þau heilög orð, er í psalminum vóru, myndi rærast í hans munni, skildist hans heilaga sál viðr sinn líkama, á móti hverri guðs englar kómu, berandi hana til lifandi manna jarðar, með himneskum lofsöngum, skipandi henni í flokk háleitan guðs játtara, með hverjum sú hin signaða sál sýngr at eylífu guði lof, eptir því sem hinn blezaði Johannes með önd ok líkam hafði sjálfum guði fyrirheitið í þeim psalm, er hann söng síðast viðr sitt andlát. Heilagr Jón Hóla biskup, umskiptandi þessa heims vesöld meðr himneskri föðrleifð, fyrirlátandi líkamliga leirbúð, en háleita höll himneskrar Jerusalem mótitakandi, útgangandi af harðri herbúð heimligra bardaga: leið fram af þessu lífi til eylífs friðar ok fagnaðar á laugardag, IX. kalendasdag Maji mánaðar, þá er liðnir vóru frá hollgan vors herra Jesu Christi ⅭⅠⅠ. C. ok xiiij ár[1]. En allir saman [hans] lífdagar eru svá samantaldir:

1) Þetta er eptir Húngrvöku tímatali; rètt. ⅭⅠⅠ. c. xxi (bls. 176).

var hann víg[ð]r til biskups þá er hann hafði iiij vetr hins sètta tigar, en hann stýrði guðs kristni með biskupligri tign XV ár; en þá er hann hafði lifat í guðs kristni um LX ok IX ár gekk hann fram um almenniligan dauðans veg, ok andaðist í góðri elli á dögum Noregs konúnga Eysteins ok Sigurðar, en Þorlákr Runólfsson var þá biskup í Skálholti; var líkami hins heilaga Jóns biskups grafinn fyrir utan kirkju til austrs, nær sönghúsvegginum syðra, ok gert yfir sæmiligt hválf. Hvíldi í þessum stað hans heilagr dómr lítið fátt í áttatigi vetra, þar til er Brandr biskup, góðrar áminníngar, tók upp or jörðu með guðs tilvísan, eptir því sem síðarr man sagt verða, berandi inn um kirkju með mikilli dýrð ok andaligri gleði til lofs ok dýrðar vorum herra Jesu Christo, sá er oss hreinsar fyrir bænir ok verðleika heilags Johannis af öllum syndasaur ok veraldar válki, stjórnandi oss ok styrkjandi móti vorum óvinum ok hörðum freistninnar hvirvilvindum, en framfarandi or þessum heimi samtengi oss sínum helgum mönnum, ok geri oss makliga at sýngja sèr lof ok dýrka hans signaða nafn um óendiligar aldir alda. Amen.

40. [1]MEÐR því at vèr sjáum, að guðlig miskunn auðsýnir ok fagrliga birtir með berum jarteinum ok háleitum táknum dýrðarfulla verðleika heilags Jóns Hóla biskups: er oss harðla nauðsynligt at rita ok saman setja þá luti, er honum eru til lofs ok dýrðar, eptir því sem til vor er komit af röksamligri frásögn margra skilríkra manna, at eigi líði þeir lutir or minni á óvorðnum tímum, sem guð hefir miskunsamliga veitt fyrir hans volduga verðleika mönnum til hjálpar á vorum dögum. En þó at þeir sè nokkurir lutir, er á vorum dögum hafa gjörzt fyrir þessa guðs[2] vinar verðleika, þá eru hinir þó fleiri, at vèr höfum numit af oss ellri manna frásögn, ok því munum vèr fyst þat ævintýr segja, er at barst á graptrar degi heilags Johannis.

41. Þá er hinn heilagi Jón var skrýddr biskupligum búnaði, búinn til graptrar, lá á börum, en prestar ok klerkar myndi hafa súngit með sorg *commendacionem* ok annan líksöng, gerandi hans útferð með sæmiligum heiðr, eptir því sem

---

1) Hèr byrjar jarteina þáttrinn, og lítill *prologus* fyrir.
2) sonar b. v. St. (líklega ritvilla).

guðs kennimanni til heyrði, ok þar var komit embættinu, at út skyldi bera líkamann, þá gengu þeir at, er út skyldu bera líkamann, ok er þeir tóku til, þá vóru bararnar svá þúngar, at þeir gátu hvergi hrærðar úr stað. Þetta fèkk öllum viðverandi mönnum mikillar undranar ok áhyggju, talandi með sèr, hversu þessi dásamligi lutr mundi standa. Þá tekr til orða einn af klerkum ok mælti þessum orðum: „Þat hygg ek, at nokkur vanhyggja hafi vorðit, ok þat muni valda þessum atburð, ok munim vèr hafa gert einhvern lut óvandvirkliga[r] í vorri þjónostu viðr biskup vorn, en vera ætti. Leitið nú eptir hvat þat er, eða hvort hann hefir allan skrúðann, þann er biskupligum stètt ok hans vígslu heyrir til." Þá var um leitað, ok prófast svá til, at þeir höfðu eigi dregit á fíngr hinum sæla Jóni gullit. Þá drógu þeir gullit á fíngr honum. Eptir þetta gengu til hinir sömu menn sem fyrr, ok tóku þá upp líkit lèttliga ok báru til grafar.

42. Þá er liðin[1] vóru frá andláti hins heilaga Jóns biskups LXX ok viij[2] ár, lèt virðuligr herra Brandr biskup Sæmundarson, er hinn fjórði var biskup at Hólum, þvá bein hins heilaga Jóns biskups, látandi gera nýja[3] kistu ok búa um sæmiliga. Haus hins heilaga Jóns ok öll höfutbein lèt hann ok þvá[4] sèrílagi ok lèt varðveita [vatnið] vandliga. Hann lèt ok á þeim tíma þvá bein Bjarnar biskups, síns forverara, ok gera þar at nýja kistu. Síðan lèt hann setja báðar kisturnar undir eitt hválf, ok ekki moldu hylja. Bein hins heilaga Jóns vóru þessu sinni or jörðu tekin hinn XIX. kal. dag Januarii mánaðar, en hinn XVij. kal. dag sagðs mánaðar var niðr settr undir fyrr greint trèhválf bein hins heilaga Jóns, með *commendacionibus* ok öðru heilagu bænahaldi.

43.[5] Á þessum tíma var mær sú er Hjálmgerðr hèt; var hon mædd af nokkurum krankleik; fèkk hon miklar andvökur, svá

---

1) liðnir, St. 2) vij, A (bls. 177), rèttara. 3) nýju, St. 4) þ'au, St.
5) þær jarteinir, er nú koma (sbr. bls. 177—187), gjörðust frá Jan. 1198 til 3. Marts 1200, — en hinar, sem þar næst standa (sbr. bls. 187—202) gjörðust velflestar frá Marts 1200 til andláts Brands biskups 6. August 1201, nema sagan um Hildi nunnu, er gjörðist löngu fyr; en mjög fáar af þeim munu hafa gjörzt eptir dauða Brands biskups, og mun þetta flest vera ritað eptir jarteinabók þeirri, er Brandr biskup lèt rita jafnóðum og síðan lýsa (lesa upp); sbr. bls. 192.

at þar af fèkk hon önga ró; þá var tekið vatn hins heilaga Johannis, er fyrr var frá sagt, ok dreypt einum litlum dropa af vatninu þrjá aptna; ok þær þrjár nætr hinar næstu svaf hon sætliga, ok varð á skömmum tíma alheil sagðrar sóttar ok krankleika.

44. Á öðru ári á öndverðum vetri tók mær sú ein hættligt innanmein, er Arnríðr hèt; þat var með þí móti, at hon kenndi sèr fyrir brjósti, ok at síðunni út, af megni sárligra verk[j]a ok mikilla óhæginda. Henni fèll svá nær meinit, [at] allum þótti hon at bana komin. Nú svá sem faðir hennar sá hana svá sárliga spennta vera af miklum verkjum, tók hann um at hugsa hennar krankleika ok gerðist hryggr af þí at hon var dauðvona. Síðan leggr hann hana í kápuskaut sèr, at hann mætti nokkurra hægenda leita henni; tók hann at þreifa höndum um hana, þí at hann var góðr læknir, ef hann mætti nokkut kenna undir höndunum, hvern veg meininu væri farit, eða hvar verkrinn mundi mest í vera. Í því laust upp or henni svá mikilli fýlu, at engi þóttist slíka kennt hafa; mátti hon hvárki neyta svefns nè matar. Þá kennir hann undir brjóstinu, í milli skinns ok hör[u]nds, stóran sull ok mikinn, er tók allt út undir rifin ok niðr at naflanum, svá snarpt ok óslètt, sem hárklæði. Þá mælti faðir hennar: „ef nokkurr búfènaðr hefði slíkan sull, þá munda ek at vísu skera, en nú, sakir varygðar ok mikils háska, þori ek þat víst eigi at gera viðr barn mitt". Nú með því, at dóttir hans mundi verða eigi grædd með manna fulltíngi, þá freistar hann af öllum hug guðligs ákalls, biðjandi guð hjálpa meynni fyrir verðleika hins heilaga Johannem, at lesa fimmtigum sinna guðliga bæn *pater noster*, ok svá mörg Maríuvers, ok húsfrú hans með honum, ok at offra til Hóla at messu degi hans svá langt kerti, at tæki um meyna. Ok þegar er fest var heitið, þá sofnaði mærin ok svaf allt til morgins náðuliga. Eptir þat tóku þeir er yfir henni sátu, ok dreyptu á varrar henni beinavatni hins heilaga Johannis biskups, ok í mjólk, ok gáfu henni at drekka allt saman. En jafnskjótt, sem hon hafði drukkit þenna hjálpsamliga drykk, gaus upp or henni svá mikil spýja ok fúlum óþef, at engi mátti nasa neyta. Eptir þat lá hon kyr til aptans. Þá þreifar faðir hennar um hana annat sinn, ok finnr at þá var sprúngit kýlit, ok laupinn þrotinn sundr í þrjá luti. Eptir þrjá daga liðna, frá þí er heitið var, var

mærin svá alheil vorðin, sem aldri hefði hon sjúk verit. Allir lofuðu guð, þeir er hjá vóru, ok hinn heilaga Jón biskup. Varð þessi atburðr litlu fyrir jólaföstu.

45. Sá atburðr varð þenna sama vetr næsta dag eptir Andres messo postula heima þar á staðnum: Maðr hèt Einarr, ok var djákn at vígslu; hann átti at geyma skrúða kirkjunnar ok aðra dýrgripi. Nú sem hann var at skrýða altarit á móti fyrr nefndum messodegi, þá kom at honum svá mikit váfeifi ok höfutverkr, at hann þóttist eigi mega þjónostunni fram halda. Síðan tekr hann einn köggulinn or hendi hins heilaga Johannis ok leggr viðr höfut sèr, þar sem þrotinn var mestr í, ok gekk síðan út; ok er hann sneri heim til húsanna, ætlandi niðr at leggjast, fær hann svá bráða bót, at hann kenndi eigi höfuðverkjar, ok gekk hann þá glaðr aptr til kirkjunnar, gerandi guði þakkir ok hinum heilaga Johanne, ok lauk góðmannliga sinni þjónastu þat sem eptir var.

46. Enn[1] sètta dag jóla varð sá atburðr, at sá maðr, er Grímr hèt, lèk með sínum jafnöldrum, hljóp fótr hans or knèliðinum, en blóð ljóp í millum knútunnar, ok mátti þí eigi í lag komast fótrinn. Þá ljóp í blástr ok gerði svá stirðan sem stokk, ok mátti ekki á stíga, nema haltra með staf mjök úhægliga. En er kom hinn þrettándi dagr jóla, ok allir menn vóru til kirkju farnir at biðjast fyrir, þá var hann einn saman í leyndarkofa nokkurum, mjök ryggr af vanmætti sínum. Hèt hann þá á almáttigan guð sèr til fulltíngs, en á hinn heilaga Jón biskup sèr til árnaðar, at sýngja psalma þá alla, er hann kunni í Davíðs psaltara, hvern dag meðan hann lifði; en þat vóru allir aptansöngar. Nú sem hann hafði súngit sagða psalma, kennir hann skjótt á sjólfum sèr, hvat mátti við guð verðleikar hins blezaða biskups Johannis, þvíat hinn halti maðr færðist á fótinn, ok gengr staflaust til kirkju, hittandi heimamenn sína, ok sagði þeim atburð þilíkan ok þá jartegn, er guð hafði gört honum fyrir verðleika heilags Johannis. Frá þessari sömu stundu gekk hann úhaltr ok staflaust á annan bæ til fundar við einn siðferðugan prest, er Guðmundr hèt, segjandi greiniliga þessa jartein. En prestrinn varð mjök feginn, ok lofuðu þeir allir guð er þar voru, ok hinn blezaða játtara Johannes.

1) leiðr.; Einn, St.

47. Kona hèt Rannveig, hana átti prestr sá er Jón hèt. þessi kona varð fyrir meini miklu sunnudag næsta fyrir jól. Blástr mikill ok þroti með óðaverk kom í andlit henni, ok kenndi af þrotans víðara bráðliga, ok svá annarra óhæginda. Prestrinn Jón, bóndi hennar, hèt fyrir henni á hinn heilaga þorlák biskup, ok skipaðist ekki við. Eptir þat vitraðist hinn heilagi þorlákr biskup [til] meyjar nokkurrar, ok mælti við hana: „eigi skulu þèr þat undrast, þótt ek láta eigi at hvers manns áheiti, með því at fleiri menn eru mikilla verðleika, ok er annat öðrum til handa varðveitt í jarteinu[m]". Eptir þat vaknar hon ok sagði mönnum frá. Nú liðu af jól, ok óx meinsemi konunnar. Nú kom drottinsdagr næsti eptir xiij. dag, ok óx svá mjök hennar meinlæti, at hon mátti varla sofa nè mæla. En er náttaði, tók hon með mikilli sorgmæði at kalla á heilagan Jón biskup. Síðan heitr hon fyrir sèr, at sýngja í hverri viku fimm *pater noster* til dýrðar hinum heilaga Jóni biskupi ok vers Mariu drottníngar með, þann dag í vikunni, sem næst hefði messodag [hans] á borit. Ok þegar heyrir almáttigr guð hennar ákall, fyrir árnaðarorð síns ástvinar, því at þegar hon hafði fest heitið, þá sofnaði hon, ok vaknaði eigi fyrr en um myrgininn, þá er prestr vakti hana; þá var or andliti hennar allr þroti, ok á fám dögum varð hon alheil, ok lofaði guð ok hinn heilaga Jón biskup[1].

48. . . . . . setu líf, ok bað sælan Johannem biskup, at hann lèti göra henni einni saman hús, ok vígði hana til nunnu, guði at þjóna; bað hon ok frænda sinn, fyrrnefndan ráðsmann, at veita sèr fulltíng til at þetta mætti fullgörast. En þessa bæn fèkk hon eigi af þeim, þvíat þá uggði um, at hon, barn at aldri, sakir úvinarins umsáta ok kvennligs

1) Hèr þrýtr St., en vantar án efa mikið af sögunni (sjá cap. 40); líklega hefir ritaranum leiðzt að skrifa meira, en fyllir í þess stað tvö blöð með: 1. biskupatal íslenzkt, 2. ábótatal íslenzkt, 3. biskupatal í Noregi, Orkneyjum, Færeyjum og Grænlandi, 4. um píslarvætti postulanna, og 5. um embætti það er hverri vígslu fylgir. Nú vill svo vel til, að tvö síðustu blöðin úr 219 eru úr þeim kafla, sem vantar í St., og er sá kafli prentaðr hèr eptir þeim, en tvær línur eru skornar neðan af fyrra blaðinu. Að frásagan um Hildi nunnu hafi staðið í sögu Gunnlaugs, sèst af orðum hans í cap. 26 (bls. 236): „Hildar nunnu — er getið mun verða *síðarr* í sögunni".

breyskleika, mundi eigi fram geta haldit þessarri háleitri fyriretlan. Nú sem hon náði eigi því er hon beiddi, þá hverfr hon í brott um haustið einn hátíðardag leyniliga, leitandi sèr einsetu fjarri manna bygðum. Eptir þat var at henni leitað, er hon sást eigi *millum* annarra göfugra kvenna eptir vana sínum, um öll hús á staðnum ok hina næstu bæi, ok undruðust allir, er hon [er] eigi millum kvenna. Var þat margra manna etlan, at hon mundi hafa bráðliga mist vits síns ok hlaupit á ána Hjaltadalsá, er skammt fellr frá staðnum, eðr elligar með nokkurum hætti fyrirfarit sèr. En er þetta heyrði ein vitr kona, er Guðrún hèt, þá mælti hon: „eigi skulot þèr svá ferliga ætla tekizt hafa systur vorri Hildi, þvíat [hon] kom til mín í morgin, ok segir ek yðr, at hon bar eigi órar í augum, heldr þekkt guðligrar miskunnar; trúit þèr því, sem ek segir yðr, því at fjarri mun því reynast, sem þèr segit". Vant var hennar nokkura daga. En konur þær, sem ber höfðu lesit í Kolbeinsdal, sögðust hafa fundit hana, ok hon hefði talat fyrir þeim, at henni þótti einsetumönnum gott þar at vera ok byggiligt, segjandi berin nóg vera [at eta], ok hit skærasta vatn at drekk[a][1] . . . . . . kvennanna, hvat mærin Hildr hafði lengi í hug haft at sjá fyrir sèr, at hon vildi einsetukona vera, ef hon skyldi ráða. Nú fara menn skyndiliga til þess staðar, er konurnar höfðu frá sagt, ok hitta þar skjaldaða mey drottins ok vápnaða með bænum, búna til bardaga móti sínum þremr óvinum, þat er móti fjandanum ok hans fèlögum, móti heimsins blekkíngum ok holdsins girndum; fundu þeir hana skrýdda með heilags anda alvæpni, röskliga hafa fyrir sik skotið öruggum trúar skildi, ok brynjaða með blezaðu lítilæti, en umgyrða tvíeggjuðu sverði guðligra málsenda, ok sèr á höfuð hafa sett bjartan hjálm himneskrar heimvánar. Hon hafði þá gört sèr eitt lítið hreysi af hellnagrjóti, er dýrðligra var fyrir guði en kurteisar konúngahallir, en lesit sèr ber ínóg til fæðu. Var hon þá tekin, þó at í móti standandi, ok leidd heim til staðarins, öllum mönnum fagnandum af hennar fundníng. Náði hon þá því, sem hon hafði lengi beðit, þvíat hinn sæli Jón biskup lèt göra henni lítið *heremitorium* áfast sönghúsinu fyrir sunnan, ok horfðu dyrnar til suðrs, vígjandi hana til nunnu, ok helgaði

---

1) hèr er skorið neðan af blaðinu i 219 (sbr. bls. 204).

guði til þjónostu. Herbergit blezaði hann ok með helgum bænum henni til íbyggíngar; lifði hon þar til elli, ok þjónaði guði nátt ok dag með föstum ok vökum ok bænahaldi, ok öðru harðlífi. En er hinn heilagi Jón biskup var andaðr, lauzt svá til, at hann var nær einsetuklefanum Hildar grafinn.

49[1]. Sú var ein kona á dögum Ketils biskups Þorste[ins-sonar][2] . . . . . görði þó sumt eigi með vizku, þvíat hon var fám mönnum lík at kynligum framferðum. Þessi kona vakti nætr allar í gegnum hjá líkum í kirkju. Hon hafði gört sèr hjá kirkjuhurðu hjall nokkurn, svá sem altari, kallandi þaðan nætr ok daga á guð, með þessum orðum: „Tak þú mik Kristr, ok skjótt, taktu mik! eigi er þegar, nema þegar sè". Eina hverja nátt, er hon vakti yfir líki einu, at vanda sínum, þá sýndist henni hrærast hinn dauði á börunum, ok litlu síðarr á fætr færast með harki miklu ok umfangi, viljandi sækja at henni ok grípa hana höndum. Kerlíngin varð ákaf[a] rædd viðr þessa sjónhverfíng, kallandi á Krist með miklu háreysti, ok flýði undan innarr allt til háaltaris, grípandi kistil einn, er í vóru helgir dómar, ok hafði í fangi sèr, leynandist svá fyrir innan altarit skjálfandi. Af þessum atburð ok ókyrrleik vaknaði guð[s] ambátt, Hildr, ok vildi vita, hverju gegndi þessi hinn mikli órói kerlíngarinnar. Hon lauk þá upp glugganum, er gjörr var á sönghúsinu, lítandi or sínum einsetukofa fram í kirkjuna. Henni sýndist þá kirkjan full af draugum ok hræðiligum skuggum, ok sóttu þessar óhreins anda sjónhverfíngar allar at Guðrúnu kirkjukerlíngu. Nú sem Hildr einsetukona er þessa luti sjándi, vildi [hon] skjótliga frá venda sýninni þessum úvinsins dáraskap; var þess eigi kostr, þvíat andlit hennar var svá óhræriligt, sem þat væri þilinu áfast, ok hvergi mátti hon höfuðit nè hálsinn útaf víkja. Hon vildi þá augun[um aptr lykja] ok mátti eigi, því at svá vóru stirðar[3] . . . . . . at sjá þessi illkyndug sjónhverfínga skrimsl, hvárt er henni líkaði vel eðr illa. Sem hon var svá nauðuliga stödd, í svá öskranligri sýn, tók guðs brúðr með mikilli ábyggju at heita ok kalla á hinn sæla Johannem biskup, fóstra sinn ok forstjóra, at hann dygði henni ok frelsti hana af þessarri fjandans freistni. Jafnskjótt, sem hon hafði þetta

1) „af kirkjukerlíngu", fyrirsögn í 219 með rauðu letri.

2-3) skorið neðan af blaðinu í 219 (sbr. bls. 206).

mælt, sèr hon hinn sæla Johannem ganga or kórinum, dýrðliga skrýddan hinum bjartasta biskups skrúða. Hann hafði bagal í hendi sèr. Henni sýndist hann með miklu ljósi ok heilagligu yfirbragði, nemandi staðar á sönghúsgráðunum; en meðr bagalsbroddinum ógnaði hann þessarri flærðsamligri fjandans sveit, ok með hæfiligu augna tilkasti sjálfs síns, svá at þessir óhreinu andar flýðu þegar, skelfdir af hans heilagleik; steyptust sumir niðr, þar sem komnir vóru, en aðrir liðu undan utar yfir chórinn, sem hinn vesti reykr, en hinn heilagi Johannes hvarf henni at sýn; var hon þá ok frelst af allri þessi óvinarins freistni, svá at hon hafði sjálfráða sýn ok óstirðnaðan háls at víkja frá glugginum. Görði hon þá guði margfaldar þakkir ok hinum heilaga Jóni biskupi. En kerlíngin, er fólgizt hafði fyrir innan altarit, leyndist þar allt til morgins, vitandi ekki til, hvat Krists ambátt hafði til handa borit. Þenna atburð sagði Hildr einsetukona fám mönnum, þvíat hon vildi forðast fjölmælgi við veraldarmenn, síðan hon settist í einsetu. En kirkjukerlíng var málug, ok því máttu margir vita hvat henni hafði til handa borit. En Hildr nunna sagði sem fæstum; þeirri konu, er Oddný hèt, hafði hon sagt, en Oddný sagði Gunnlaugi múnk Leifssyni, er þessa[1] *[sögu hefir samansett]* . . . . . . . . . . . . . .

50. . . . . . .[2] lagri trú; þessi kona lá einhverja nátt vakandi í sinni sæng, offrandi guði þekkar fórnir góðfúsra bæna, er eigi fyrirlætr fátækra manna bænir, ok eigi görir mun fátækra manna ok ríkra í sínum rèttindadómum. Þenna tíma vóru hin snörpustu frost með miklum ríðum, ok því var hit mesta hallæri á landinu; ok sem hon hafði lesit bænir sínar, hneigði hon [sik] til svefns ok sofnaði. Þá bar fyrir hana þesskáttar sýn, at henni vitraðist einn sæmiligr maðr, hár vexti ok bjartr at áliti. Hon verðr óttafull af hans tilkvámu, ok þorði ekki at heilsa honum, eða nokkura luti við hann at mæla. Hann talar þá til hennar þessum orðum: „þú kona! þikkir yðr eigi þúng veðrátta sú er á liggr, eðr skelfir yðr eigi mjök hríðir þessar ok hallæri, er yfir yðr er komit?" — Hon svarar: „at sönnu eru menn hèraf mjök ryggir, vitandi eigi nær endir mun á verða þessum kvöl-

1) Hèr endar fyrra blaðið í 219, og er skorin neðanaf svosem 1 lína (sbr. 207); en líklega vantar hèr sem svarar tveim blöðum í söguna.

2) hèr byrjar annað blaðið af 219 Fol. (sbr. bls. 184).

um; eru nú margir vorðnir fátækir ok í miklum harðindum, þó at vèr sèm sæl, sem hèr erum at biskupsstólinum". Þá mælti sá maðr, er henni vitraðist: „hví leita menn engrar hjálpar í þílíkum nauðsynjum, eða setja nokkur góð ráð móti slíkum háska?" — „Eigi vita menn", segir hon, „hvat bezt er til ráða um slíka luti". — „Heiti menn", segir hann, „at láta or jörðu taka líkkistu hins heilaga Jóns biskups, ok at heiðra hann með öllum mætti, ok framastu kunnáttu, ok sjái þá hversu við skipast". Ok er hann hafði þessa luti talat, hvarf hann henni at sýn, en hon sagði eptir um morguninn vitranina, ok þótti öllum mikils um vert, er hana heyrðu.

51[1]. Á þessum tíma var Brandr biskup á Hólum svá mjök krankr, at eigi mátti hann leiða til kirkju, ok því lèt hann lesa sèr messo inni í herbergjum miðvikudag ok fimta dag; þetta var í hinni fyrstu viku langaföstu. Fimta daginn í sagðri viku eptir fyrrgreindri vitran, ok margra manna bænastað, lèt Brandr biskup af taka hválfit af leiði Jóns biskups, ok bauð at upp skyldi taka kistuna. Nú sem þeir höfðu upp lokit leginu, fundu þeir í gröfinni ilmandi grös, þess kyns, sem enginn þóttist fyrr sèð hafa, svá græn ok fesk, sem um sumartíma, þvers í móti náttúru ok öllum líkindum, þar sem þá var komit misserum. Tóku þeir þessar ágætu jurtir ok stöppuðu við drykk biskupsins, gefandi honum þat at drekka. Ok sem hann hafði drukkit, var hann miklu betr til reika en áðr. Nú sem kom frjádagrinn, ok allir lutir vóru til reiðu búnir at taka upp or jörðu heilagan dóm Jóns biskups, ok Guðmundr prestr Arason var kominn, eptir orðsendíng herra biskups, bjoggust lærðir menn til upptöku líkamans. Þá var frost mikit, dimmt veðr, bæði fjúk ok drífa, ok horfði til mikillar hríðar. Í móti hádegi vóru allir lærðir menn, skrýddir hinum bezta skrúða, sloppum ok kantarakápum, ok búnir at göra hátíðliga *processionem* með krossum ok kertum með merkjum, reykelsiskerum, acerrum, ok mörgum dýrðligum helgum dómum; ok at öllum klokkum hríngjandum, gengu þeir með ymnum ok lofsöngum til þess

1) „upptekníng hins heilaga Johannis" fyrirsögn í 219 með rauðu letri. Að sagan um upptekníng Jóns biskups hafi staðið í sögu Gunnlaugs, sèst af orðum hans (cap. 39): „sem síðarr man sagt verða": og, af þessum orðum hèr á eptir (bls. 259): sem „fyrrmeir var frá sagt í sögunni".

staðar, sem líkamrinn hafði jarðaðr verit. Var herra biskup þá svá vel til reika, at hann gekk með öðrum auðveldliga í *processione*, er fyrir litlu áðr var studdr af tveim mönnum, ok fyrir sínum krankleikum mátti varla til kirkju komast, sem fyrr segir. Tóku lærðir menn þá or jörðu þenna dýrðliga *thesaur* ok purpurligan gimstein, líkam hins sæla Johannis, er áðr hafði, sem jarðfólgit fè, lengi í jörðu legit, berandi inn í musterit með mikilli sæmd góðfúsrar gleði, ok settu hann til norðrs í sæmiligum höfuðstað, eptir því sem guðs játtara til heyrði, sýngjandi honum hátíðliga messo með miklum fagnaði ok hjartaligri góðfýsi. Var þessi upptekníng fyrrsagðs heilags dóms gör hinn fimta *nonis* dag *Martii* mánaðar, á þriðja ári eptir þá virðíng, sem áðr hafði veitt verit þessa heilaga manns beinum, ok fyrrmeir var frá sagt í sögunni[1]. En til þess at þat birtist með berum jartegnum, at þessi upptekníng var at guðs vilja gör, þá snörist veðrátta svá skjótt þann sama dag, sem heilagr dómrinn var or jörðu tekinn, at harðar hríðir snörust í blítt regn, grimm frost í heitan þey, ok brott reknum grimmum norðan vindum kómu í staðinn heitir sunnan vindar, svá læir ok linir, at á fám dægrum tók af snjó allan, eigi at eins í því hèraði, heldr um allt Ísland, svá at á þeirri sömu stundu, er heilagr dómrinn var upp tekinn, skiptist veðrit í loptinu, ok fagnaðu sjálfar höfuðskepnurnar af þessa heilaga manns upptekníng, ok at mennirnir mætti þaðan af skilja, hvílíkan heiðr þeir ætti þessum guðs vin at veita, er loptið þjónaði með svá blíðu veðráttunnar umskipti.

52. Þar heima at biskupsstólinum var nokkurr úngr maðr, Leifr at nafni, einn af þeim vinnumönnum, er til vóru sendir at ryðja til legs hins heilaga Jóns biskups; hann hafði fallit ok meidt í glímu knè sitt, svá at honum var mikit mein at. Hann tók þá eina fjöl, er legit hafði næst moldinni við líkkistu Jóns biskups, ok leggr við knèit, þar sem sárt var; bregðr fyrst á kláða nokkurum, ok varð hann jafnskjótt heill, lofandi guð ok hinn heilaga Jón biskup. Brandi biskupi batnaði ok svá vel síns krankleika, at næsta dag eptir söng hann messo, gerandi guði þakkir fyrir sína heilsugjöf.

Mær nokkur hèt Hildibjörg, hon tók handarmein mikit með

1) cap. 42 (bls. 251).

því móti, at verk laust í höndina svá miklum, at hon mátti engan fíngr röra. Þá var heitið fyrir henni á báða biskupa, Jón ok Þorlák; en af því at guðlig miskunn vildi þann tíma einkanliga sýna krapta ok verðleika heilags Jóns biskups, þá sýndist öllum við þetta áheit vaxa en eigi þverra verkrinn. Þá tók faðir meyjarinnar vatn þat, sem þvegin höfðu verit í bein heilags föður Johannis, ok dúk þann sem þurkut höfðu með verit, gefandi meyjunni at drekka vatnið, en vafði höndina innan í dúkinum. Flýði þegar án dvöl undan dúkinum þroti ok allr verkr or hendinni, svá at höndin var með öllu heil vorðin, ok svá mjúk ok liðug til allra görða, sem sú, er aldri hafði sár vorðit.

Á þessum degi, sem fyrrnefnd mær fèkk heilsu sína, tapaði sonardóttir Brands biskups heima þar á staðnum fíngrgulli sínu. Sem hon hafði lengi leitað, ok henni þótti fyrir ván komit, at finnast mundi, hèt hon af öllum hug á hinn heilaga Jón biskup, at finnast skyldi gullit. Á þeirri sömu stundu gekk til lækjar frændkona meyjarinnar, þeirrar er gullinu hafði glatað, ok er hon hafði þvegit þat er hon fór með, ok gekk heimleiðis, sá hon gullit, hvar lá í grasinu hjá götunni, þar er lengi áðr hafði leitað verit. Tók hon upp ok hafði heim, ok færði þeim sem átti.

Sá atburðr varð enn at biskupsstólinum á Hólum, at kona sú er Valgerðr hèt tók hættligt mein: verk laust í brjóst henni með þrota miklum ok óþolanligum verkjum; ok er hon vildi fæða barn sitt á brjósti sèr, stökk blöð or en eigi[1] . . . . . .

---

1) Hèr þrýtr 219 Fol., og mun mikið vanta aptan við söguna (sbr. A og C. bls. 188).

---

# SAGA ÞORLÁKS BISKUPS HIN ÝNGRI[1].

---

*INCIPIT PROLOGUS.*

Í nafni föður ok sonar ok heilags anda byrjast hèr *prologus* eptirfarandi sögu, hver samanstendr af lífi ok jarteignum virðuligs herra Þorláks biskups Þórhallssonar, er sannliga má segjast *primas* þessa lands, firir þá grein, at drottinn várr Jesus Christus, sannr guð og sannr maðr, valdi hann fyrstan til þess af öllum rèttlátum mönnum sínum á þessu landi, at skína efalausliga í heilagleiks frægð, birtandi hans dýrðarfulla verðleika með háleitum stórtáknum. Þessa heilaga manns líf má kristnum manni vera svá sem hin skýrasta skuggsjó til eptirdæmis, þvíat guð drottinn sýnir þat með þeim jarteignum, sem veitast firir hans verðleika, at þessi blezaði biskup hefir rèttan boðorðanna veg gengit. Má þat ok skilja af hans sögu, at í sèrhverjum stètt síns lífs, frá bernsku ok til hins hæsta kennimannskapar, hefir hann auðgaðr verit góðum verkum umfram flesta aðra sèr samtíða; þó at fyrra hlut sinna lífdaga sýndist hann fylgja heiminum fyrir nokkura grein, þá var hann þó allt eins hlýðinn guði ok hans lögmáli. En svá sem hann var biskup vorðinn, fágaði hann fagrl[iga á-][2] sjánu *Skalholltensis* kristni með setníngu boðo[rða sinna][3], brot sníðandi lýti lastanna. Þessi sami guðs játtari, [skína]ndi[4] ok ilmandi með sínum heilagleik, veri nærri várum framburði með sínu árnaðarorði, at vèr megim makliga hluti skrifa, guði til lofs ok dýrðar,

---

1) Þessi saga (B) er prentuð eptir A. M. 382 (4to); eyðurnar eru fylltar eptir A. M. 379 (C); 204 folio, 380 (4) og skinnbrotin 219 (6 blöð), 385a og 383 3-5 (alls 6 blöð), heyra öll til C. Brotin 383 1-2 (4 blöð) eru mjög forn og góð, 383 1 gengr næst A, en 383 2 næst B.

2-4) gat á bókfellinu.

sjálfum sèr til sæmdar ok virðíngar, öllum heyrandum mönnum til góðrar ok andligrar hugganar. Þat dregr oss mjök til at skrifa líf ok jarteignir þessa virðuligs herra ok andaligs föður, at í fornum framburði sögunnar virðist oss hann varla hafa verðuga minníng af þeim þrautum ok meingerðum, sem hann hefir þolat af sínum mótstöðumönnum, þeim sem upp vóru á kirkjunnar skaða í hans biskupsdómi, ok af þessu efni þikkir oss minna talat, en vèr vildim. En sá góði maðr, sem í fyrstu hefir söguna setta, byrjar svá sitt mál, sem hèr fylgir[1].

## Hèr byrjast saga hins heilaga Þorláks biskups Þórhallssonar[2].

2. Á þeim tíma, er guðs kristni stýrði Anacletus páfi, annarr með því nafni, en konúngar vóru ifir Noregi Magnús Sigurðarson ok Haraldr gilli, var fæddr Þorlákr hinn helgi í því hèraði á Íslandi, er Fljótshlíð heitir, á bæ þeim er heitir at Hlíðarenda, á því ári, er Þorlákr biskup Runólfsson andaðist,[ er hinn þriði var biskup í Skálholti. Eigi bar af því nöfn þeirra saman, at hann væri eptir honum heitinn, heldr af því, at sá, er öllu stýrir, vildi þá virðíng gera Þorláks biskups hins fyrra, at hans nafn væri jafnan elskat ok dýrkat af öllum mönnum, þeim sem síðan hefir auðit vorðit at heyra ok vita dýrð hins sæla Þorláks biskups. Hefir almáttugr guð þá dýrð veitta nafni hins helga Þorláks biskups, sem firir sagði Salomon hinn spaki, at betra væri gott nafn en mikil auðæfi, en þat var þá sannliga gott, er helgat var undir heilagri skírn en blezat síðan biskupstign; hefir sá orðskviðr í þessu sannazt, sem mælt er, at ‚þat er spát er spakir mæla', því at þat nafn verðr nú mörgum gulli betra, þeim er á hann heita í sínum nauðsynjum. Þat sannast ok í þessu máli, sem heilug ritníng segir, at betra er gott nafn en dýrðlig smyrsl, firir því at nú berr oft þá raun á, at þat verðr skjótt grætt firir ákall hans heilaga nafns, er hvárki hefir áðr heilt mátt verða af smyrslum nè lækníngum mannligum[3].

Faðir Þorláks hèt Þórhallr, en Halla móðir; þau vóru vinsæl ok velferðug. Hann var farmaðr áðr hann gerði bú, en

1) prologus vantar í *C.*

2) allar fyrirsagnir í 382 eru með rauðu letri, og upphafsstafir rauðir eða grænir, og dregið í gult á sumum stöðum. 3) frá [ vantar í *C.*

vita. at eɴ sęli Thorlacr biscop var. Haɴ męlte viþ hana fyʀe. þyker yþr *eki* sýnt. hvart ec mon geta at ɢvþe. at Haldora verþi heil. hon svarar. Øłom þyker þat sýnt [herra miɴ. *dixit* hon[1]. Eɴ sęli biscop męlti. Fás þyki mér i leitat. farþv. oc seg heɴe þesa vitron. oc męl viþ hana at hon fare i Scalaholt. ef hon vił heilso geta. En ec mvn fara firer heɴe. oc greiþa farleŋþ heɴar. Siþan vacnaþi hon hvsfreyian[2]. oc fór at segia eɴi sivco vitron þesa. En þa er leiþe gaf ór eyionom. þa fór hon vtan. oc var hon siþan. i børom borin í Scalaholt. oc fylgþi heɴe moþer heɴar. oc bvaɴde. En þegar es hon sá[3] kirkiona i Scalaholti. þa þóᴛi heɴe sér þegar hvgleᴛara verþa en áþr hefþi orþit ne eino siɴe i heɴar meinsemi. Hon com þar necqveriom noᴛom firer kirkio dag. oc þóᴛe heɴe necqver scae a hverio døgri verþa a sinom męᴛe. alt til kirkio dagseɴs. En þar var þa fiølmeɴe mikit. oc hafþe Poł biscop i formęle sino. at meɴ scylde biþia firer heɴe. At hon [arnaþe þat i siɴe þangat como sem heɴe var mest fyst at þiɢia. Eɴ enom sęla biscopi til dyrþar auca. En ałri alþyþo til trv bótar[4]. En eɴ nęsta dag *efter*. þa gek hon til altaris. oc varþe fiŋrgvłe. oc reiþ siþan fom nóᴛom siþaʀ til alþiŋes. oc var þar sýnd ǫłom þiŋheime alheil. oc lysti þési iartein Karl abote. oc lofoþo ałer ɢvþ. es slíca hlvte veiter firer þión siɴ Thorlac biscop.

41. A alþiŋe þeso eno sama. lét Poł biscop [raþa vp[5] at bǿn maɴa jarteiner eɴs sęla Thorlacs biscops. þęr er her ero scrifaþar a þesi bóc. En þar var sa *maþr* viþ staðr. es sva var dǫfr at haɴ heyrþe eki *nema* ǿpt være at honom. En er iartegner voro vp sagþar. þa heyrþe haɴ iamgløct. sem aþrer meɴ. oc var haɴ heił orþeɴ siɴs meiɴs.

42. Sa var aɴaʀ viþ staðr viþ þeɴa atbvrþ. es sva var oscygn. at haɴ sa travᴛ fiŋra siɴa scil. oc var *eki* verc føʀ. en naliga félavs. honom fek mikils es haɴ heyrþi iartegner eɴs sęla Thorlacs biscops. oc gek iɴ i kirkiona. oc lagþesc a knebeþ. oc baþ eɴ sęla Thorlac biscop meþ torom. At haɴ scylde honom necqveria lícn veita. En er haɴ reis vp af

---

1) frá [ at þér munit þiggja af guði þat sem þér vilit beðit hafa, *C.*
2) hvsfreyio | an, i (tveimr línum), 645.
3) á spáziu i 645, með tilvísunar merki.
4) frá [ fengi heilsu sína, *C.*
5) frá [ lesa, *C.*

bønine. þa var han heil. oc var þesi jartein lyst. oc lofoþo men gvþ. oc en sęla Thorlac biscop.

43. Eín kona hafþi vanheilo[1] micla. hon hafþi qviþ sul harþan. oc hętligan. hon reis vp ór rekio lotom. oc van at nøcqveriom hlvt til reiþo ser. En var þó æþscáþ. oc æþcvmol i scape af sino meine. En hon [lá ein vęn[2] a hveriom holfom manaþe oc spió þá bloþe. nęr fvlom mvnløgom. En er hon hafþe þeta meín háft. naliga þriatego vetra. oc var hene sít meín þvi ohęgra. es lengr hafþi viþ leikit. En er scamt var til meso dags. ens sęla Thorlacs biscops. þes er of vetren er[3]. þa tóc hon en ena sømo meinseme. sem hon áte vanþa til. oc hafþi hon aldregi orþit einvęni en þa var hon. Keni *maþr* stóþ ifer hene. oc lagþi þat raþ til. at hon scylde heíta a en sęla Thorlac biscop. oc gerþi hon svá. oc hét af ølom hvg til heilso bótar sér søngom. oc bøna halde. En at Meso deginom ens sęla Thorlacs biscops. reís hon vp or rekio. oc hafþi þegar meiri heilso þegit af arnaþar orþe ens sęla Thorlacs biscops. en langa ęfi áþr. En þó var en necqver svlr i qviþe henar. hon hafþesc þa løngom a bønom of iolen oc var at kirkio. En er hon var at kirkio síþ of aftanen firer en áta dag i iólom. oc var mýrct í kirkione. þa bar fyrer hana lios mikit at siá í sønghvset. svát hon máte travt igegn siá. En þó þotesc hon sia man scryðan i lioseno. En fra þeire stvndo máte *eki* kena i qviþe henar þrota. En þó þotesc hon kena meinseme firer briosti nacqvat. oc miclo miþr en áþr. En of notena firer [en ata dag fra enom þretanda[4]. þa bar þat firer hana. At hon þotesc siá Thorlac biscop ganga i svefnhvset. ok at rekione þar er hon hvilde í. En þá vacnaþe hon. oc var þa alheil. oc sva ala daga *siþan. meþan hon lifþe. oc sva høg i scaphøfnom* sinom. At hon męlti øngom mane i mein. Þakaþe hon almatkom gvþe heilso sina. oc enom sęla Thorlaci biscopi.

44. Sia var en ænor kona. es varþ firer miclo meine. a þeim enom sama vetri es aþr var fra sagt. sa var anar vetr fra þvi er vp var tekin *sanctus*[5] domr ens sęla Thorlacs biscops.

---

1) þannig 645; vanheilsu, *C.* 2) banvæn, *C.*

3) 1237 var lögtekin Þorláks messa of sumar (20. Juli); en af þessu er að sjá, sem margir hafi áðr haldið þann dag helgan.

4) frá [ geisladag, *C.* 5) = *heilagr.*

Siá kona gek ór stofo v. dag a miþlom imbrodaga of iolafosto. i eldhvs. en er hon lát níþr miǫc at sýslo þeire. es hon hafþi fram. þa fell ór rǫfri ovan tre mikit oc þvngt. oc com a bac hene. oc lamþesc firer bøþi hrygren. oc ønor beinin þar er á com. oc vise eki til mana. es men como at hene. oc var hon bórin í vaþmále þaþan. hon vise løngom eki hingat. oc var hǫt meþ ollo. oc hvergi hrørande. oc colblát bac henar alt naliga oc híart sára. En er sva var comet mǫte henar. þa var heitiþ firer hene. á en sęla Thorlac biscop meþ vmbraþe. goþra kenimana. es þar voro viþ staðer. at hon scylde syngva v. tegom sina. *Pater noster*. til dyrþar enom sęla þorlaki biscopi. oc hafa svngit alt aþr liþen være Mesodagr ens sęla Thorlacs biscops. meþ fvltinge bvanda sins. oc sonar ef hon hefþe *eki* mót til. siolf. En drotens dagen *efter* imbrodagana var hon i stófo ini. þa er aþrer men voro at tiþom vte. meþ sva litlom méte sem aþr var fra sagt. oc var ine hía hene hvsfreyia henar. oc dóter hvsfreyiønar. mǫr litel. oc vng. oc var fostra enar sivco kono. En er hon sang slíct es hon þotesc mega af heit sang sinom. þa ran a hana omégins hǿfge. En þegar es hene høfgaþe. þa þotesc hon sia en sęla Thorlac biscop ganga í stofona i canoca bvninge. oc at þar er hon hvilde. þa męlte hon en sivca kona. i þvi es hon þotesc siá han. Sel erom vér. qvat hon. erþv ert her comen. hon vacnaþe viþ þat. es hon hafþe męlt. oc þá spvr[1] hon hvsfreyian. viþ hvern hon þǿtesc męla. Viþ Thorlac biscop. qvat hon. han þóte mér her comen vera. Efter þat reis hon vp i rekiǫne konan. oc førþesc a golf fram. oc var þá orþen alheil. oc lofoþo þeir aller gvþ oc en sęla Thorlac biscop.

45. Sa atbvrþr varþ i Scalaholti. es mikils er verþr. þar fóro men a ferio scipe. ifer ó þa er Hvít ó heiter. var sa *maþr* at feriøne es Steinþór heiter[2]. oc flvti ifer óna prest þan es syngva scylde i þing sín. En fatøker men voro viþ óna. oc vildo giarnliga i Scalaholt fara. af því at þar var þeim meira sciol. en hvar anars staþar. En veþr var á hvast oc miøc kalt.

1) þannig 645; = *spyr*.

2) sbr. kap. 39: „er Þórny heitir". Þetta sýnir augljóslega að Steinþórr hefir þá verið lifandi í Skálholti er bókin var rituð. *C* hefir frá [: hét sá Steindórr, er við ána var.

oc var scipit solit oc frørit. En óen var mikil. oc var breiт ifer at róa. En feriomaþr var i scinbrócom miklom. oc þétom. Þeir foro a scip ener snaþo meɴ x. en feriomaþreɴ xIte. En þa com eɴ xij. maþr oc sté þegar a scipit. es sá com til. oc bar síþan scipit fra lande oc a divp. En þegar es viɴdr com at. þa fylde scipit. En siþan søc niþr. *Efter* þat com scipit vp. oc sva meɴener flester lífs. oc comosc necqverer a kiol. En flester feŋo a haɴ. oc bóþo haɴ tønaþar. ferio maɴeɴ. oc fór þá i caf alt saman. oc heldo þeir honom niþri. vnz Steinþór comsc ýr þvi fateno i kafe. es þeir heldo á flester. Efter þat com Steinþóʀ vp. oc hafþi haɴ þa drvkit miøc. oc var þrecaþr miøc. af cvlþa. oc comsc haɴ þa eɴ i scipit vp. oc fec ǫrena[1]. en fvlt[2] var scipit. oc marþe ýpi of stvɴdar sacar. en firer vár divpit at mestom hlvt. komo þá vp hiá honom meɴener oc flester aler oreɴder. Vęте haɴ þa oc eki sér lífs. En meþan scipit marþi ýpi. hét Steinþóʀ a ɢvþ oc eɴ sęla Thorlac biscop til þes. at haɴ scylde coma til þes landz. es nęr var Scalaholte. oc líc hans scylde fiɴasc. þóт honom være *eki* lifs aþet. Siþan fór haɴ niþr til grvɴa. oc var sva þvŋr i vatneno. sem steinar være viþ haɴ bvɴdner. es sciɴbrøcrnar voro fvlar vazt[3]. haɴ ętlaþe. at vaþa i cafeno meþan haɴ vise til sín. til þes landz es haɴ vilde coma. oc lét ár strømiɴ fala á siþo sér. En sva var divpit mikit. at þat var iamscioт es haɴ com til grvɴa. oc þa var þrotit ǫreɴde hans. Þa varþ facvɴdlegr hlvtr. haɴ þoтesc siá sem høɴd manz i cafe. oc sopaþe vatnino fra aɴdlite hans. oc tóc haɴ øɴd i cafe. svát haɴ drac *eki*. oc fór sva þrysvar. Taca vilde haɴ [hǫɴdom þat[4] es haɴ þoтesc s[i]a. oc máтe haɴ *eki*. Efter þat tóc óen at gryɴasc þar er haɴ var comeɴ. oc grvflaþe haɴ til landz. oc maтe hvartki staɴda ne gaŋa þa er haɴ híтe meɴ. En þó varþ haɴ heil fára naтa. Et sama qveld var farit *efter* Steinþore. oc a leít lica. þa fvɴdosc líc tveɢia møþgna. oc i føtom þeira silfrsylgia sv er þęr høfþo sagt aþr. at þęr scyldo føra Thorlaci biscopi. Sía atbvrþr gerþisc a degi artiþar Clǫŋs biscops.

---

1) þat er = árina; ár eina, *C.*
2) sýlt, *C.*
3) = vatz = vatns.
4) frá [ höndina þá, *C.*

46. Holfom manaþe siþaʀ[1] varþ sá atbvrþr þar at eɴi sǫmo ferio. [oc þar er ferian er vǫn. á oɴe at vera[2]. þa var eɴ same *maþr* at ferioɴi sem fyʀ var nefndr es Steinþóʀ hét. En haɴ var ǫlmoso góþr oc armvitegr viþ fatøkia meɴ at þvi ǫllo es haɴ hafþe føre á. En voro marger fatøker meɴ viþ óna. oc móʀo *eki* ifer comasc af þvi at ís var á óɴe. oc *eki* gegr. En scipeno maʀe oc *eki* viþ coma. Tóc þa at gráta fátøkis liþit es þat máʀi *eki* søkia til þes sciols. es þat hafþi légi til sparazc. Honom gecsc þá hvgr viþ ferio maɴenom. oc callaþe haɴ oc mǫlte. Costit ér oc gratit *eki*. qvat haɴ. heitom vér *heldr* a eɴ sǫla Thorlac biscop. oc sygom v. siɴom *Pater noster*. til *glorie* honom. oc má haɴ yþr þegar láta ifer comasc. es haɴ vill. Siþan sygo[3] þau. En *efter* þat. þa fell niþr íseɴ of þvera óna. oc litlo breiþare vøken. en scipino máʀe roa. oc la íseɴ siþan nøcqver døgr ogegr. bøþi vp oc niþr fra. ʀil vitnes þesar iartegnar. at aller mǫʀe sia þeir es til como. Før[4] þa hverr siþan leiþar siɴar lovaɴde oc dyrkaɴde ɢvþ al-Matkan. oc eɴ sǫla Thollac biscop.

---

1) = 13. Marts 1200. Þetta er síðasta jarteinin; mun því þessi bók vera rituð á ofanverðum vetri árið 1200, og bætt við því sem gjörzt hafði frá alþingi og til þess þá var komið vetrar (kap. 41—46).

2) frá [ v. í *C*. — þessi orð „er vǫn" sýna að bókin er í Skálholti rituð, eða þar í nánd.

3) = súngo. 4) = fór; fór, *C*.

## II[1].

# Önnur jarteinabók Þorláks biskups.

Í Kynn á Englandi lèt maðr nokkurr, sá er Auðunn hèt, gjöra[2] líkneskju til dýrðar hinum sæla Þorláki biskupi, og er líkneskit var gjört ok sett í kirkju, þá gekk at klerkr einn enskr, ok spurði, hvers líkneskja þat væri; honum var sagt, at þat var líkneskja Þorláks biskups af Íslandi; þá hljóp hann með hlátri miklum ok spotti í soðhús eitt, ok tók mörbjúga, ok kom síðan aptr fyrir líkneskit, ok rètti bjúgat fram hinni hægri hendi, ok mælti svá með spotti til líkneskjunnar: „viltu, mörlandi! þú ert mörbiskup"? — Eptir þat vildi hann á burt ganga, ok mátti hvergi hrærast or þeim sporum, sem hann stóð, ok var höndin krept at bjúganu, ok mátti ekki hræra. Dreif þá síðan til fjöldi manna, at sjá þessi fádæmi, ok spurðu hann síðan sjálfan, hverju þessi undr sætti; en hann játaði þá glæp sínum fyrir öllum þeim, er við vóru staddir ok þat sá, en hann sýndi með viðrkenníngu sanna iðran, ok bað þá, er við vóru, at þeir skyldi styðja hann með sínum bænum; en hann hèt því, at hann skyldi aldri þesskyns glæp gjöra síðan. Báðu þeir honum af öllum hug heilsubótar, en almáttugr guð heyrði bæn þeirra, ok hinn sæli Þorlákr biskup, ok rèttist þá höndin, ok fór hann þá hvert er hann vildi, ok lofuðu allir guð ok enn sæla Þorlák biskup.

2. Sonr prests eins, góðs ok göfugs manns, hafði fótarmein mikit á únga aldri, tóku fætrnir at visna, ok at mínka aflit. Sveinninn hèt Bjarni; hann var úngr at aldri, auðveldr ok auðráðr sínum frændum, ok af þessu meini tók honum mjök at þýngja, svá at hann lá náliga í rekkju ok mátti ekki ganga, ok var þat mikil hrygð föður ok móður. Þau höfðu mikinn ástarhug á enum sæla Þorláki biskupi, ok hètu þau einkum á hann til heilsubótar sveininum, ok styrktu sitt áheit

1) þessi jarteinakafli stendr aptast i 379, bls. 131—154, en finnst í engu öðru handriti af *C*, nema 381 (4to), sem er líklega afskript eptir 379; mun því þessi kafli vera niðrlag einhverrar annarar Þorláks sögu og settr aptan við af þeim sem ritað hefir bókina 379. Vel flestar þessar jarteinir munu hafa gjörzt um og rètt eptir 1200 (sjá kap. 6. 9. 10. 11. 14. 15. 16. 17. 18. 20.). 2) leiðr.; hann gjörði, 379.

með söngvom ok fègjöfum, ok þó varð þar eigi allbráð skipan, en þó varð þeim öllum hughægra síðan heitið var. Fám nóttum síðarr bar þat fyrir konu eina, at hún þóttist mann sjá ganga í[1] rekkjugólfit, þar nær sem hún hvíldi, í svartri kápu, ok mælti við hana: „hversu fer at um fótinn eða um sóttina sveinsins Bjarna?" Hún þóttist segja, at lítið þætti um batna. Hann mælti: „liggja mun þar ráð til; sækit smyrsl Þorláks biskups ok ríðit á, ok mun þá bætast." Hún vaknaði, ok sagði hvat fyrir hana hafði borit; en prestr þóttist sjá af sinni vizku ok ráðleitni, at smyrsl þau myndi vera smjör þat, er hinn sæli Þorlákr biskup hafði vígt. Tók hann þau síðan, ok reið á fótinn nokkurn aptan. En þaðan í frá bættist dag frá degi, þar til er hann var heill, ok fóru þeir feðgar báðir í Skálaholt, ok sýndu þar ok sögðu þessa jarteikn, lofandi guð ok hinn sæla Þorlák biskup.

3. Mær hèt Jórunn, úng at aldri en lítil beinvöxtum, vanheil mjök, en fèlítill faðir ok móðir; ok er hún var komin á þrettánda vetr aldrs síns, þá lagðist hún í rekkju ok tók þá at hafa verki mikla í öllum beinum, ok lá þó mest verkr í lendunum, þar til þær knýttu, ok krepti hana. Mátti hún þá ekki ganga, ok varð hana at bera, hvert er hún skyldi fara; gjörðist þeim þá mikill áhyggjukostr, er hana skyldu annast í langri vanheilsu með lítinn fjárkost. Hètu þau síðan á hinn sæla Þorlák biskup til heilsubótar meynni söngvom ok bænahaldi óaflátanliga, ef mærin mætti einbjarga verða til göngu. En viku síðarr tók mærin heilsu sína svá bráða ok algjörliga, at hún var um nóttina nær at þrotum komin, en um morguninn ok um daginn eptir var hún heil, svá at hún gekk einsömun stoðarlaust, en annan dag eptir var hún sýnd [skyn]sömu[m] mönnum, presti ok fjölmentri kirkjusókn. En viku síðarr sá menn hana í Skálaholti heila, með vitnisburðum rèttorðra manna um hennar vanheilsu, ok lýstu þeirri jarteikn.

4. Sá atburðr varð, er mikils var verðr, at fákunnligr gullhríngr hvarf húsfreyju einni virðuligri or lokum þeim, er vandliga var varðveitt optliga. Hans var víðarr leitað en von þótti, því at svá reis sumra manna orð á, at vanleitað mundi vera, ok eru menn þeirrar ætlanar, ok henni þótti sjálfri engi von annars, en af manna völdum mundi vera. Þá var heitið

1) á, 379.

á hinn sæla Þorlák biskup, með umráði dýrligs kennimanns, þess er opt var reynt, at guð ok helgir menn vildu í helzta lagi hans heit þiggja; var til þess heitið, at hríngrinn skyldi aptr koma, ok menn skyldi vísir verða, hvat grandat hefði, og var bæði heitið söngvom ok fègjöfum. En annan dag eptir fóru úngmenni eptir litlum mosa, er hafa þurfti; gengu þau síðan í gröf þá, er verit hafði kolgröf en þá var öll innan mosa vaxin; ok er þau vildu mosann upptaka, þá sá þau í einum stað meira mosann fram undir bakkanum, ok tóku þau upp, en þar var holt undir, ok rendi þar fram or gullhríngrinn, en markstika stóð gagnvart. Var sá at nýju borinn málinu, sem líkastr þótti at stolit hefði hríngnum, ok gekk sá við, ok sagði þat mönnum, at bæði var heimskligt ok illgjarnligt, at hann hefði ætlat, ef menn hefði eigi til grafit, at kasta honum á vatn, eða gjöra þat eitthvat af, er aldri var von at fyndist. En hinn sæli Þorlákr biskup gjörði þá fegna, er sitt nálguðust, en lèt hinn eigi slíkan[1] glæp unnit geta, er í öndverðu hafði stolit hríngnum.

Maðr hèt Guðlaugr, er lagðist niðr úti ok sofnaði fast; ok þá er hann vaknaði, var hann verkóðr, ok tók fast í síðuna ok undir rifin; en hann tók óðara innan rifja. Þá hljóp upp þroti, ok var sem trogi væri hvolft á síðuna. Hann hèt þá á hinn sæla Þorlák biskup til heilsubótar sèr, ok varð hann skjótt heill, ok sótti síðan helgan dóm hins sæla Þorláks biskups, ok sagði sjálfr þessa jarteikn.

5. Einn úngr sveinn fèll á tálguknif ok særðist mjök mikit, ok þótti hann banvænn vera. Faðir hans sat yfir honum áhyggjufullr ok hèt á hinn sæla Þorlák biskup, til lífs sveininum, söngvom ok fègjöfum: vj. álnum vaðmáls í Skálaholt. Heitið var þegit innan fárra nátta, ok sá þó örit alla æfi. Um sumarit eptir fór faðir sveinsins til þíngs ok keypti ketil, ok tók til vaðmáls Þorláks biskups, er hann skorti ketilverðit, en sagði þeim ekki frá, er umsjá staðarins höfðu. Ok er hann fór heim af þíngi, þá vóru margir katlar á einu hrossi; þá tók skipit[2] at berjast, ok fèllu ofan klyfjarnar, ok brotnaði ketill bónda allr í sundr, en aðrir vóru heilir allir. En annat sumar eptir færði hann heit sitt til þíngs, og sagði þar þessa jarteikn.

---

1) soddan, 379. 2) þann. skb.; hrossit at æðast, *B.*

6. Ormr hèt maðr, er fór um vetr ok húsfreyja hans í frosti miklu ok köldu veðri. Þá bar svá at, er þau riðu, at fararskjótr hans drap fæti, ok fèll hann af baki vofeifliga ok skemdist miök í andliti af því vopni er hann hafði í hendi, svá at í sundr hlupu báðar varrirnar, ok fylgði þar með ein tönnin, ok var þat voði mikill, er æsifrost var at. Var húsfreyja þá fljótfanga ráðs þess, er helzt lá til: tók þá nál, ok saumaði saman varra-sárit með silkiþræði, ok síðan batt hún um, sem henni þótti vænligast; en þau vóru fjarri bæjum. Hèt hann þá á hinn sæla Þorlák biskup, at gefa vj aura vaðmáls í Skálaholt, at hann veitti honum miskunn. Fóru þau síðan leiðar sinnar sem þau höfðu ætlat, ok þrem nóttum síðarr vóru leyst bönd af andliti Orms, ok var svá gróit, at trautt mátti á sjá, at sárt hefði verit. Hann færði heit sitt Páli biskupi ok sagði greinilega þenna atburð, en hann lèt rita síðan.

7. Maðr hèt Ólafr, er bjó skamt frá sæ, ok var þar brattlendi mikit, sem víða er vant í fjörðum; honum hvörfu naut, ok var víða leitað, ok fundust eigi, ok er menn vissu eigi hvárt leita skyldi, þá hèt Ólafr, at gefa hinum sæla Þorláki eitt nautið, ef hann fyndi öll; var þá enn leitað nautanna á nýtt, ok fundust öll, nema uxi einn. Þá mælti bóndinn: „sè ek nú", sagði hann, „at Þorlákr biskup vill nú eiga uxann, sem ófundinn er, ok skal svá vera, ef hann hittist. En fjall var hátt skamt frá bænum, ok gnípur stórar í fjallinu, ok fuglberg við sjóinn. En þrem vikum síðarr fannst uxi Þorláks biskups í tó einni lítilli, ok þóttist engi vita mega, hversu hann hafði þangat komizt, ok hví hann mátti þar svá lengi lifat hafa; ok er menn kómu í tóna, þá sá þeir hana hvergi bitna nè troðna, en uxinn var feitr ok vakr, ok varð hann í festum þaðan at færa, ok var síðan færðr í Skálaholt.

8. Sá atburðr varð, at tveir menn rèru til fiski, góðir fiskimenn. En annarr þeira fiskaði ekki um daginn, ok hèt sá Svertíngr, ok enn bezti fiskimaðr, ok þótti honum undarligt, ok litlu fyrir nón kendi hann fiski, ok dró þann at borði, ok sá, at heilagr fiskr var; þá brast vaðrinn á borði, ok rendi fiskrinn á burt með færit, ok þá tók hann annan öngul, ok kom síðan fiskr á, ok kom hann um stundar sakir ok slapp sá af, en hann tók til sín færit, ok var þá rèttr öngullinn, er upp kom. Honum þótti þá allt fara at einu. Síðan hètu þeir

á enn sæla Þorlák biskup, at þeim skyldi aptr koma þat er týnt var ok súngu XV sinnum *Pater noster*, ok hètu þeir at gefa fátækum mönnum af veiði sinni, Þorláki biskupi til þakka. Tekr hann þá enn iij. öngul, ok lèt þann fyrir borð, ok beit fiskr á, þegar er þess mætti fyrst von vera, ok þurfti þá báða til, áðr sá yrði dreginn; ok þá er sá kom at borði, er bitið hafði, þá loddi þar ok við annarr fiskr heilagr, ok hafði sá með sèr veiðarfæri Svertíngs, ok hafði vaðrinn brugðizt um þann vaðinn, er síðarr kom fyrir borð; drógu þeir þá innanborðs báða fiskana, ok þökkuðu þenna enn fagra atburð almáttkum guði ok hinum sæla Þorláki biskupi; lètu síðan at landi með góðri veiði, ok sögðu þessa jarteikn vel ok greiniliga öllum þeim er á vildu hlýða.

9. Mær var sú vanheil, er krept var þá er hún var fædd, ok mátti hún ekki ganga þá er hún óx upp, ok til einskis taka, en fátækr var bæði faðir ok móðir meyjarinnar; þau báru hana sjálf eptir sèr um stundar sakir. Eptir þat hljóp hann frá þeim mæðgum, en móðirin lèt hana litlu síðarr, ok tók sèr þá annan mann, en meyna tókst á hendr frændi hennar ok gjörðist henni góðr faðir, ok fór með hana í Skálaholt at upptekníngardegi hins sæla Þorláks biskups, ok vöktu þau þar bæði um nóttina, ok báðust fyrir undir kistu hins sæla Þorláks biskups. En um morguninn snemma tók hún alheilsu sína, ok fóru heim, fegin sínum erfiðisbótum.

10. Þorsteinn hèt maðr er fór einn vetr í Skálaholt, ok áttu at fara yfir á þá er Þjórsá heitir. Hann hafði með at fara hest til reiðar, ok fylgðu honum ij menn, en ill var áin þar þeir fóru yfir. Þeir gengu ísinn en leiddu eptir sèr hestinn, ok er þeir áttu mjök langt ófarit árinnar, brast niðr íssinn undir, ok síðan vildu þeir upp draga hestinn, ok máttu eigi; þá hètu þeir á hinn sæla Þorlák biskup til fulltíngis, ok máttu þeir ekki at vinna heldr en áðr; tóku þeir þar af söðulinn ok söðulreiðit, ok báru þat sjálfir til þeirrar gistíngar, sem þeir höfðu. Fóru þeir at Skálaholti, en báðu bónda at láta flá hestinn ok nýta sèr húðina. Lèt hann til fara um morguninn, ok ætlar at láta flá hestinn, ok fundu hann eigi; vökin var opin, ok meintu þeir hestrinn mundi sokkinn, en fám nóttum síðarr fannst hestrinn heill ok ósakaðr, ok var þá á biti með öðrum hrossum; sýndist þá hvárttveggja í þessum atburð, at

hann vildi þiggja heit þeirra, en vildi ei vera samvinnandi at með þeim er með fóru. Páll biskup lèt rita þessa jarteikn.

11. Menn fóru herskipum or Noregi til Hjaltlands með höfðíngja ráði[1], ok fóru herskildi yfir landit; rændu menn fè, en tóku suma af lífi. Maðr hèt Hávarðr; hann var lögsögumaðr þar, vinsæll ok ríkr at fè; hann flýði fyrir þessum ófriði frá búi sínu ok eign, en gróf niðr kistu þá, er lausafè hans var í, gull ok silfr. Ok er þeir fundu ekki silfr eða annat fè, er þeim var mikit sagt, þá lètu þeir haldit verða eptir honum, en hann hafði fíngrgull mjök mörg í fèhirzlu, en ekki annat fè; ok er þeir vóru náliga eptir honum komnir, þá var þar sandr, er hann var staddr; hann lætr þar falla gullin niðr í sandinn, ok gengr síðan á ofan, ok hèt þá því, at hann mundi gefa hinum sæla Þorláki biskupi eitt gullit, ef honum yrði auðit at finna þau aptr; ok litlu síðarr gátu þeir handtekit hann, ok fundu fèhirzluna tóma, ok grunuðu, at hann myndi í sandinn kastað hafa. Fóru þeir síðan þangat til ok leituðu vandliga, ok fundu ekki. Riðu þeir þá eptir honum annat sinn, ok leysti hann þá af með nokkru fè, ok keypti sik svá í frið við þá ok fè sitt, ok er þeir vóru í burtu, þá fór Hávarðr at leita gulla sinna, ok fann þegar öll, ok sendi eitt í Skálaholt, sem hann hafði heitið.

12. Litlu síðarr tók Hávarðr augnaverk ákafan, ok kómu læknar til, ok gjörðu at slíkt [er] þeir kunnu, ok var þat at verr. Þá kom honum í hug, hverja miskunn hann hafði þegit af árnaðarorði ens sæla Þorláks biskups, ok hèt á hann enn til heilsubótar sèr, ok náliga þegar hann hafði heitið fèll blindi

---

1) Þetta er eflaust herferð sú, er getið er í sögu Ínga Bárðarsonar árið 1209. Þar segir svo: „var þat þá (á sættafundi þeirra konúnganna Ínga og Philippus 1208) ráðs tekit, at þeir (Baglar og Birkibeinar) [skyldu] um sumarit eptir fara vestr um haf til Suðreyja í víkingu ok afla sèr fjár, bjuggu þeir þá hvárirtveggju skip til þeirrar ferðar." ..... „ok um várit eptir fóru bæði Birkibeinar og Baglar með tólf skipum í vestrvíking. Þeir herjuðu í Suðreyjar ok önnur lönd, er þar liggja í nánd, því at konúngar þar í eyjunum áttu ófrið sín á meðal; þeir rændu eyna helgu, er Norðmenn höfðu jafnan látið friðhelga vera; síðan gerðust þeir ósáttir ok skildust at; váru þeir drepnir víða. En þeir er aptr kómu til Noregs sættu hörðum skriptum af biskupum fyrir rán þeirra ok hernað". (Fornms. ix. bls. 187 – 191 eptir þýðing Svb. Egilssonar).

af augum hans, með þeim hætti sem Saul forðum, svá sem hreistr væri, ok var hann þá jafnskygn sem áðr, eðr skygnari. Hávarðr lèt þíngs kveðja eptir þetta, ok lýsti þessari jarteikn, er hann hafði fengit, ok bað menn til at styrkja heitið með honum, ok fá enum sæla Þorláki hönd fulla mjöls, hverr maðr, er nokkut sæði hafði. Þar gengu menn glaðliga undir þat heit, ok kom þat mjöl út hit sama sumar, ok svá gerðu þeir lengi síðan.

13. Sá atburðr varð í Noregi, at einn norrænn maðr vel fjáreigandi, sá er verit hafði á vist með hinum sæla Þorláki biskupi, fór með kaupeyri sinn fyrir land fram, en þá var illa fritt: þá lögðu at þeim illgjörðamenn ok ræntu þá, ok áðr þeir koma at þá hèt sá maðr á enn sæla Þorlák biskup, er fyrr hafði með honum verit, at hann skyldi halda nokkurri sinni eigu. Síðan hlupu hermennirnir á skipit, ok hjuggu upp lokin, ok tóku mikit fè, er þeir fundu laust, ok fóru síðan á burt; þeir könnuðu hvat þeir höfðu fèmætt eptir; þá fundust þar kistur hans heilar ok fjárhlutr hans allr óskertr, ok höfðu þeir hans fjárhlut engan fundit, ok urðu þeir allir fegnir þessari jarteikn, at þeir gleymdu sínum fjárskaða svá, at þessi fögnuðr brast yfir. Hann færði síðan heit sitt í Skálaholt, lofandi guð ok hinn sæla Þorlák biskup.

14. Eigi miklu síðarr, en upp kom helgi hins sæla Þorláks biskups, var Philippus[1] af Flæmingjalandi valdr til konúngs í Miklagarði. Þá drifu þangat af Noregi Norðmenn til Væríngjasetu, ok kunnu þeir at segja þessi fagnaðartíðindi þeim er þar vóru fyrir, um heilagleik ok jarteiknakrapt hins heilaga Þorláks biskups, ok síðan fóru þeir til kirkju, ok gerðu þakkir guði fyrir sína dýrð; ok er menn urðu varir við þessa nýlundu, þá sögðu þeir konúnginum, en hann sendi eptir Væríngjum nokkrum, ok spurði hvat þat væri er honum var sagt. Sá sagði hit ljósasta af, er kunnast var um, af æfi ok háttum ens sæla Þorláks biskups, ok hvar hann var fæddr, ok hver forlög hans höfðu verit, ok hversu helgi hans hafði upp komit ok jarteiknir þær, er hann vissi satt af at segja. Konúngr tók því öllu vel ok líkliga, ok litlu síðarr skyldu Væríngjar ráðast á mót heiðíngjum, er á ríkit gengu, ok er liðinu

---

1) Hèr er annaðhvort meintr Baldvini af Flandr, sem kosinn var til keisara 1204, eða Heinrekr bróðir hans, sem var keisari 1206—1216.

laust saman, þá var mikit mannfall, ok miklu meir af Væríngjaliði, ok þar kom um síðir, at þeir flýðu í kastala einn, ok var þat lítið skjól, en hinir settu herbúðir sínar umhverfis, ok ætluðu þegar at þeim at ganga um morguninn; vóru Væríngjar með mikilli áhyggju þá nótt, þóttust við bana búast eiga með skömmu tómi. Þá mælti einn af Væríngjum: „vèr megum enn fagran sigr vega í trausti ens sæla Þorláks biskups, þó at liðsmunr sè ofvægr, ef hann vill oss styrkja ok fylgja; heitum vèr á hann af öllum huga, ok mun nokkut um batna vor efni". Þeir hètu at láta gjöra kirkju enum sæla Þorláki biskupi, ef þeim yrði auðit aptr at koma. Ok þegar er þeir höfðu heitið, þá tók allan ótta or hug þeirra, ok langaði til móts við heiðingja; ok þá trautt var vígljóst bjuggust þeir til ofangöngu, ok báðust fyrir rækiliga áðr, ok signdu sik vandliga. Hlaupa þeir þá á hendr þeim með þeyttum lúðrum ok háreysti miklu, ok mæltu svá: „göngum nú fram þrekmannliga í trausti hins sæla Þorláks biskups, ok sigrumst snarpliga, eða deyjum allir drengiliga". Ok er heiðíngjar heyra nefndan hinn sæla Þorlák biskup, þá sló á þá hræðslu, ok vissu ei hvat þeir gjörðu, hjuggust sjálfir, en flýðu flestir, en margir urðu handteknir ok bundnar hendr á bak aptr, ok öll vopn þeirra ok klæði, ok fóru með herfangi heim til Miklagarðs, ok sögðu sjálfir þenna atburð konúnginum ok hans mönnum, en bandíngjarnir sögðu þat er til þeirra kom. Konúngrinn varð feginn, ok tók sjálfr enn fyrsta stein ok bar til þeirrar kirkju, er Þorláki biskupi var gjör, ok fèkk sjálfr smiði ok öll efni, ok lèt síðan vígja hinum sæla Þorláki biskupi kirkjuna þá er gjör var, ok segja þeir, er þaðan koma, at þar verði fjöldi jarteikna.

15[1]. Í Papisfirði í Austfjörðum var kona sú ein fátæk, er vanheilir vóru fíngrnir, þeir vóru kreptir í lófann á hægri hendi. Hún átti börn tvö úng fyrir at sjá. Þau lèku sèr úti undir húsvegg; þá fèll mikit rekatrè af veggnum á börnin, ok höfðu bæði bana; ok er börnin vóru fundin örend, þá var hún illgrunut um, at nokkut mundi af hennar völdum orðit hafa, en hún synjaði þess, ok grèt náliga svá at hún flóði öll í tárum, ok bauð hún allar undanfærslur, slíkar sem Jóni ábóta[2]

1) „lifguðust börn ij." fyrirsögn í 379 með rauðu letri.

2) Jón Ljótsson, ábóti í Veri, 1197—1224.

sýnist hún til fallin; ok er Jón ábóti kom þangat í sveit, þá tók hún þat ráð, at hún vann þann eið, sem frekastan mátti stafa, fimtardóms eið, ok lagði hún hönd sína yfir þann umbúníng, er var hár ens sæla Þorláks biskups. En er eiðnum var lokit, þá heldr hún upp hendinni, ok vóru þá rèttir fíngrnir, er áðr vóru kreptir; ok lofuðu allir, er við vóru, almáttigan guð ok enn sæla Þorlák biskup.

16. Þessar jarteiknir hafa orðit í öðru biskupsríki á Íslandi:

Þorfinnr hèt maðr fátækr, er reri til fiski; hann hèt á enn sæla Þorlák biskup, at hann skyldi helgan fisk draga fyrstan, en hann mundi láta gjöra kerti til hans þakka, jafnlangt fiskinum; ok fyrr en öngullinn hafði grunn, kendi hann fisks, ok dró hann þegar mikinn helgan fisk, ok hafði öngullinn krækt granbeini fisksins, ok varð hann feginn þessum atburð, [ok] lofaði guð ok hinn sæla Þorlák biskup.

Maðr hèt Þórarinn, er tók ákafa sótt ok varð banvænn með öllu. Prestr sá er yfir honum stóð lagði þat til, at heitið var á enn sæla Þorlák biskup kerti því, er tæki um brjóst honum í kross. Hann skyldi ok sýngja fimtigi sinnum *Pater noster* messudag hans. Ok er hann hafði heitið, sefaðist sóttin ok höfgaði hann, ok vaknaði síðan heill, lofa[n]di guð ok enn sæla Þorlák bisknp.

Kolþerna hèt kona, móðir Bjarnar einsetumanns at Þíngeyrum; hún skemdi sik mjök á hendi, er hún skyldi skera skarpan fisk. Þá hèt hún til dýrðar hinum sæla Þorláki biskupi litlu kerti ok nokkru bænahaldi, en annan dag eptir var hönd hennar heil.

Maðr at Þíngeyrum, er Þormóðr hèt, hjó á hönd sèr er hann smíðaði, en síðan hèt hann á hinn sæla Þorlák biskup, ok söng iij. sinnum *Pater noster*, ok eptir iij. nætr var til leyst, ok var þá höndin alheil.

Ólafr hèt maðr, er tók óhægliga sótt um aptaninn fyrir Maríumessudag enn fyrra. Hann blès allan, ok fylgdu æsiligir verkir, svá at hann vissi varla hvert hann skyldi hafa sik. Þá hètu fyrir honum faðir hans ok móðir, á enn sæla Þorlák biskup, ok súngu v. sinnum *Pater noster* með Maríu versi, ok varð hann alheill.

Úngr maðr, sá er Sveinn hèt, tók vanheilsu mikla, hafði litla svefna en matleysi mikit, svá hann gjörði aflvana mjök;

en þau vóru fèlítil. Þá tók móðir hans kerti tvö, ok hèt á hinn sæla Þorlák biskup til heilsu honum; ok litlu síðarr kvaddi hann matar, ok eptir þat svefns, ok svaf alla nóttina ok vaknaði alheill.

Þorsteinn hèt einn úngr maðr, er fór óvarliga hjá eldi, þar er ketill var uppi; ok er hann lá við eldinn, þá fèll ofan ketillinn, ok slagnaði á sveininn or katlinum, ok brann hann ákafliga, svá honum þótti náliga engin von lífs; fór af honum hárit, ok fylgði húðin ok holdit klæðunum. Þá var heitið á enn sæla Þorlák biskup, ok varð hann á einni nóttu heill.

Ein kona átti úngan son, þann er náliga gjörði líkþrán, ok bættist nokkut við atgjörð, nema fætrnir, þeir vóru allir veikir. Biðu þau fyrir þat hvárki nótt nè dag ró. Eptir þat hèt hún á hinn sæla Þorlák biskup, ok gjörði kerti til hans þakka, ok vafði dúki um fætrna. Hún leysti til tveim nóttum síðarr, ok var sveinninn alheill.

Sú var önnur kona, þessu nálæg, er tók fótarverk mikinn, gjörði á sár stór, ok fèll út vogr; hafði lítinn mat en náliga öngvan svefn alla viku í samt. Þá hèt hún á hinn sæla Þorlák biskup til heilsubótar sèr, ok dró síðan leist á fótinn ok sofnaði svá; en er hún vaknaði, þá var verkr or fætinum ok kom á kláði í staðinn, ok vj. nóttum síðarr var af tekinn leistrinn, ok var þá alheill fótrinn.

Sá atburðr varð þar er Flatey heitir, at þangat kom heilagr dómr af klæðum ens sæla Þorláks biskups, en þar var haltr maðr, er Knútr hèt, hann mátti aldri staflaust gánga, ok er hann heyrði ok sá ferð fjölda manna til kirkjunnar, þá vildi hann fylgja öðrum mönnum, ok haltraði eptir þeim; en er hann kom til kirkjunnar, þá var hann óhaltr, ok svá ávalt síðan.

17. Þorbjörg hèt kona, er skyld var Þorsteini, er síðarr[1] varð ábóti; hún tók vanheilsu mikla, svá at hún var ávalt með miklum vanmætti, en stundum hætt með öllu. Hún hafði ok hugarvolað mikit, en var snauð at auðæfum. Hún bað í sífellu Þorlák biskup ásjá, til leiðrèttu síns meins. Þá bar svá at í svefni, at hinn helgi Þorlákr biskup sýndist henni ok mælti: „ek em Þorlákr biskup, er þú hefir lengi á heitið, ok hefi ek

1) líklega Þorsteinn Tumason, annar ábóti í Saurbæ í Eyjafirði, andaðist 1224.

nú þegit heilsu af guði þèr til handa, ok nýtr þú þess mest at, er þú dugðir barni þínu, er elligar mundi fyrir háði verða; nú launar guð þat tvöfaldliga: tók barnit til sín, en gaf þèr heilsu; lít þú á líf þitt, ok hirt hagi þína, lát af kirkjumælgi, ok kenn þat öðrum, því at ófallit er at auka þar afgerðir, er auðveldast er at mýkja; verða skaltu fyrir freistni, ok mun þèr allt leiðrèttast; segðu Þorsteini þat er fyrir þik ber." Síðan fór hann höndum um hana, ok gjörði kross yfir henni, ok mælti: „nú muntu heil verða, ok taka eigi slíka sótt síðan." Eptir þat vaknaði hún, ok gekk allt eptir hans fyrirsögn, ok sagði hún síðan Þorsteini frænda sínum. Hún var þá heil sóttar, en óstyrk í huganum. Þorlákr biskup sýndist henni í annat sinn með ilm miklum, ok styrkti biskup hana þá með öllu; ok er hún vaknaði, þá var hún heil, ok þá gekk at henni kona ein ok mælti: „sæl ertu, systir! ek kenda aldri slíkan ilm, sem af þèr er."

Á bæ þeim, er Vörum[1] heitir, fór bóndi at aka heyi páskadag eptir náttverð, en sveinn hans úngr sat á garðinum, ok hafði knif í hendi ok skarpan fisk. Þá steyptist sveinninn af garðinum, ok fèll á knífinn, ok vóru þegar úti iðrin; var hann síðan heim færðr ok í dúk lagðr ok vafðr. Faðir hans og móðir hètu á hinn sæla Þorlák biskup, en á einni nóttu greri svá sárit, at örit var sem bíldsspor væri.

Ein kona hafði keypt mörk vax viij. álnum, kerti at gjöra hinum sæla Þorláki biskupi; hún var fátæk at fè; en er vefr hennar fèll, þá var vaðmálit iiij. álnum lengra, en hún átti von á, ok vissu þat skilríkir menn.

Prestr hèt Þórðr, ok fèll á ísi ok lestist vinbein[2] hans, ok varð hann trautt tíðafærr, nema hann lèti hefja höndina frá síðunni. En jóladag í miðmessu, þá nam staðar messan, er at lágasöngvom kom, ok stóð prestrinn upp, ok sá menn hann tíðum tárfella; þá snerist hann til manna ok mælti: „ek þóttumst eigi tíðafærr", sagði hann, „ok fèll mèr tár, þá hèt ek á enn sæla Þorlák biskup til heilsu mèr, ok em ek nú heill"; hèlt hann þá upp höndum sínum yfir höfut sèr, en allir lofuðu guð ok sælan Þorlák biskup.

18. Úlfrún[3] hèt hin siðlátasta kona at Þíngeyrum, ok var

1) líklega Varastaðir eða Varir við Mývatn. 2) = viðbein.
3) Úlfrún nunna og Björn einsetumaðr (kap. 16) lifðu bæði um 1200.

lengi þar í einsetu; hún tók meinsemi mikla ok matleysi, ok hugarvolað ok svefnleysi, ok var þat milli Ambrosíusmessu ok Agnesarmessu er fastast tók, ok hèt hún á hinn sæla Þorlák biskup ok sofnaði eptir þat. Hún þóttist vera í húsi einu, ok margt ókunnra manna, ok sá hún inn ganga ógurligan mann ok illiligan, ok at rekkju sinni, ok varð hún hrædd mjök. Þá sá hún inn koma hinn sæla Þorlák biskup í kanoka búnaði, ok mælti: „herfiliga dragist þèr út allir!" ok þeir flýðu allir; „hvar er sá nú", sagði hann, „er síðast kom inn?" hún þóttist svara, at hann mundi þar leynast. Þá tók hann þann, ok dró út nauðugan; en hún vaknaði heil síðan, ok lofaði guð ok hinn sæla Þorlák biskup.

Á búi prests þess, er Skapti hèt, varð sá atburðr, at griðúngr manneygr stangaði svein einn frumvaxta hættliga, svá at rauf varð á lífæðr þeirri, er gæta skyldi getnaðarlima hans, í sífellu, ok var þat þá bert er hulit skyldi vera; þá var heitið á hinn sæla Þorlák biskup, ok varð hann heill á fám nóttum.

Prestsdóttir ein vij vetra gömul mataðist, ok snerist fiskbein í hálsi hennar, ok mátti ekki at gjöra; þá var heitið á hinn sæla Þorlák biskup, ok um lágasöng hinn lengsta, messudag hans, hraut beinit or hálsi henni, ok var hún þegar heil.

Húsfreyja ein hrasaði mjök, er hún vildi skunda, fimta dag jóla, ok stakk hendinni í vellanda ketil ok brann ákafliga. Þá hèt hún á enn sæla Þorlák biskup, ok var höndin heil eptir iiij. daga.

Kýr fór í haga með nautum um vetr, ok er heim kómu, þá hafði kýrin borit, en kálfrinn fannst eigi. Þeir heita, er áttu, at gefa kálfinn Þorláki biskupi, ef hittist, en þá lagði á vatnhríð þá, er trautt þótti úti vært, ok eptir þat gengu nautin út; ok er þau kómu heim, þá fylgði þeim kvígukálfr svartr, kátr ok lífligr, en enginn þóttist vita, hvar hann hafði verit, eða við hvat hann hafði lifat. Var þá fædd upp kvígan sú hin sama, þar til er kýr var.

19. Á þeim bæ, er í Enni heitir, varð húsfreyja lèttari, ok þótti öllum barnit dautt fætt vera. Prestr var við staddr, ok þá er lengi hafði beðit verit, ef lifna vildi, þá hafði prestrinn þat með höndum, ok blès í hvirfilinn ok milli herðanna, en barnit í höndum þeim. Þeir sýttu mjök, er áttu, ok hètu á enn sæla Þorlák biskup með ráði prestsins til lífs sveininum,

kertum tvennum ok jafnvægi hans matar at gefa fátækum mönnum; ok litlu síðarr lifnaði sveinninn, ok var skírðr fullri skírn.

Bóndi hèt Auðunn[1].... sonr frá Þíngeyrum; hann átti úngan svein, þann er gæta þurfti; hann var niðr lagðr ok svæf[ð]r, ok fóru menn síðan til vinnu; ok er heim var komit, þá var sveinninn horfinn, ok fannst eigi brátt; var þá sagt föðurnum, en hann varð hryggr, ok leitaði hvervetna er honum kom í hug, ok fannst um síðir í hlandgröf, ok hafði lengi þar í legit, ok var allt blátt ok blásit; en faðirinn vissi ekki lengi, svá þótti honum mikit. Þá var heitið á hinn sæla Þorlák biskup til lífs sveininum, bæði kertum ok söngum, ok var þat um síðir, at sveinninn skaut upp öndinni, ok lifnaði síðan, ok var lengi sjúkr.

Sá atburðr varð, á bæ þeim er á Egg[2] heitir, at börn lèku sèr, en beizl hèngu uppi, ok vöfðu þau þar í höfut sín, ok þar kom um síðir, at mær ein misti fótanna, ok rann beizlit at kverkum henni, en þá hlupu börnin í burt ok urðu hrædd, ok sögðu til öðrum mönnum; ok er til var komit, þá þótti mærin öllum mönnum örend. Faðir meyjarinnar hèt á hinn sæla Þorlák biskup til lífs henni, söngum ok fègjöfum, ok eptir mjök langar stundir lifnaði mærin, ok þökkuðu allir guði ok sælum Þorláki biskupi.

---

20. VITRANIR þær, er Guðmundr prestr, er síðan var biskup, sendi Gunnlaugi múk, at hann skyldi dikta, mun ek skyndiliga yfir fara:

Kona hèt Valgerðr, frumvaxta, vanstillt í skapi ok óhlýðin í æsku, orðstór ok óráðin. Hún tók sótt hættliga, var fyrst á ómegin ok öngvit, eptir þat óp ok öngvit. Prestr var við staddr, er Jón hèt, ok bað at menn skyldu sýngja v sinnum *Pater noster* Þorláki biskupi til þakka, at hún mætti taka *corpus domini* fyrir vits sakir; en hún skyldi sýngja fimtigi sinnum Þorláksdag, meðan hún lifði ok hún mætti mæla. Þá tók hún þegar vit sitt, ok síðan *corpus domini*, lofandi guð ok hinn sæla Þorlák biskup, ok efndi vel heit sitt, ok vakti þá stund fyrir messudaginn, ok um messudaginn sjálfan kendi hún sýnt óhæginda, ok höfgaði hana. Þá þóttist hún sjá Þorlák biskup í svartri kápu, hafa handlín

---

1) föður nafnið vantar. 2) Egg í Hegranesi, í Skagafirði.

á hendi, ok signdi hana ok mælti: „nú muntu heil verða; efn þú vel heit þín, ok seg þessa vitran Jóni presti", ok þá vaknaði hún. Jóladag var hún í kirkju ok höfgaði henni; hún þóttist þá sjá enn helga Þorlák biskup, skrýddan ok córónaðan, ok blezaði lýðinn ok mælti: „heim skal ek nú skunda í Skálaholt", sagði hann, „til hámessu, ok styrkja þar guðs embætti, en ek mun verða þèr ásjármaðr ef þú varðveitir vel þitt ráð". Hinn þriðja dag í jólum at kveldi var hún at krossi, ok höfgaði henni. Þá þóttist hún sjá hinn sæla Þorlák biskup, ok spurði, hvílíkt þess manns ráð væri, er Þórðr hèt, er andazt hafði í Fljótum. „Sætt er ráð hans", kvað hann. Hún mælti: „hvat má mest fyrir guði"? — Hann svarar: „bæn ok ölmusugjafir". Hún mælti: „hversu lengi mun ek lifa?" — Hann svarar: „mjök lengi, í ennu þriðju sótt muntu andast". Þá hvarf hann henni at sýn. Þá er menn vóru farnir til messu hinn níunda dag í jólum, en hún lá ok svaf, þá sýndist henni hinn sæli Þorlákr biskup ok mælti: „hví liggr þú ok sefr, en ferr ekki til messu? segðu Sigvalda, veiðimanni yðrum, at hann mun engan dag veiða á þeirri tíð, nema hann hlýði messu áðr"; ok svá gekk jafnt eptir, sem hann hafði sagt. Ok et fimta sinn sýndist henni í svefni hinn sæli Þorlákr biskup, ok mælti: „hví sefr þú á leið fram"? Hún svarar: „vaki ek" kvað hún. „Maðr heitir Þorvarðr", segir hann, „er mik hefir fulltíngis beðit, en ek mun hægja honum, ok bið þú hann sýngja fimm sinnum *Pater noster* hvern fimta dag, en hinn þrettánda dag jóla fimm tuga með Mariuversi.

21. Hestr hljóp í keldu, ok náliga allr í vatni, nema höfuðit, en feikna veðr á úti ok fjúk mikit, framorðit dags, ok fèkk ekki at gjört. Hèt hann [eigandinn] á enn sæla Þorlák biskup, at hestrinn skyldi eigi deyja, ok gekk þá eptir öðrum mönnum, ok varð þó eigi fyrr upp dreginn, en um morguninn, ok var ekki sakaðr.

Þat var í öðrum stað, at uxi manns var horfinn frá nautum, ok er hann sá uxann, þá var hlaupinn ofan bógrinn ok slitin þýnan, fýstu flestir at drepa skyldi; en sá er átti hèt á enn sæla Þorlák biskup, at uxinn skyldi lifa, ok varð á fám nóttum alheill.

Prestr hèt Þórðr, er fèll um vetr ok meiddist, svá at hann var eigi tíðafærr; ok er dró at messudegi hins sæla Þorláks

biskups, þá hèt hann á hann af öllum hug til heilsubótar sèr, ok um nóttina sýndist honum Þorlákr biskup í draumi, ok mælti: „hvat áttu til at telja við mik um heilsugjöf"? — „Þat helzt", sagði hann, „at [ek] minntumst þín, meðan ek ætlaði at þú þyrftir þess". — „Svá er sem þú segir", kvað biskup, „ok er þat ærit til at telja, ok muntu fá heilsu þína". Prestr þóttist mæla: „allsælir erum vèr þess, at þú gefr mönnum heilsu fyrir þinn heilagleik". Hann svarar: „öll erum vèr þess sæl". Eptir þat hvarf hann honum at sýn, en prestr vaknaði heill.

22. Þá nótt er menn veittu heimsókn Guðmundi hinum dýra[1], er síðan var múkr at Þíngeyrum, varð sá atburðr, at kona lá í fótar verk, ok var sár mikit á, ok vesnaði ávall[t] um. Hún hèt til heilsubótar sèr á hinn sæla Þorlák biskup, ok þá ena sömu nótt sýndist henni í svefni Þorlákr biskup, ok fór höndum um fótinn ok mælti: „hèðan af mun þèr batna, en ek verð at fara at veita lið Guðmundi enum dýra, sem ek nú heyri bundinn", ok gekk hún svá eptir þat heil.

Maðr hèt Eyjólfr, er bjó skamt frá biskupsstóli á Hólum. Hann tók vitfirríng, ok lauk svá, at jólanóttina fyrstu, er menn vóru til tíða farnir, lagði hann knífi fyrir brjóst sèr, ok var þat mikit sár. Var hann vitlauss ok dauðvona, er heim var komit. Þá stóðu menn yfir honum hryggvir, ok vissu eigi glöggt, hvat til ráðs skyldi taka; sýndist þeim öllum maðrinn skammæligr, en viðrbúníngrinn varla allskapfelligr, ok varð þat ráð þeirra, at heita á enn sæla Þorlák biskup, til þess at hann gæfi honum mátt ok vilja til viðrkenníngar ok íþróttar vitsins, ok til svá langs líf[s], sem hann sæi honum bezt gegna; ok er eigi liðu langar stundir, þá raknaði hann við ok settist upp, ok signdi sik, ok var þá auðsèð, at hann hafði þegar vit sitt, ok vildi gott bæði sèr ok öðrum; iðraðist nú afgjörða sinna, ok bað guð miskunnar ok helga menn. Sárit greri á fám nóttum, ok var hann þá alheill. Lofuðu allir guð ok hinn sæla Þorlák biskup.

23. Þær eru margar jarteiknir hins sæla Þorláks biskups, fagrligar ok stórar, er fyrir fáfræðis sakir ok óminnis eru eigi ritaðar; hefir allt í skilit, sem líklegt er, at almáttkum guði hefir glöggligar enzt mildi ok miskunsemi til at gefa oss ótallig

1) sjá Sturl. s. 3. 30.

tákn ok [jarteina gjörðir[1], fyrir verðleik ok dýrð hins sæla Þorláks biskups, en oss geð ok geyming at gjöra eptir ok varðveita, svá sem oss hæfði. Var fyrst, er upp kom sú en háleita nýjúng dýrðar verðleiks hins sæla Þorláks biskups, tekin í minni með ást við almáttugan guð ok enn sæla Þorlák biskup, svá sem menn kunnu framast: ritaðar þá fyrst hans jarteiknir ok upplesnar, ok teknar þær allar frásagnir með frekligum fagnaði, er frá hans jarteiknum vóru optliga sagðar. Ok er þat var, at svá mikill fjöldi gjörðist at um jarteiknir hins sæla Þorláks biskups, at mönnum varð um afl í minni at hafa, en þær vóru margar, at hver var annari lík, þá dofnaði hugr manna, ok mæddust málgögnin til uppburðarins, en eyddist málit eptir at rita: þá sýndi guð svá sína jafnlyndi til hins sæla Þorláks biskups, at því víðara urðu menn gladdir með hans jarteiknum, sem þeim fyrndist meir, er nærri vóru heims vistum. Tók þá á nýjan leik þat at æsa ást manna til hins sæla Þorláks biskups, ok hvetja vanbrýnda hugi manna til hvatleiks hollustu þeirrar allrar, er menn mega til hans gjöra, at kom af öðrum löndum ógrynni auðæfa, með fjarlægri frásögn margra merkiligra atburða hans jarteikna. Hefir almáttigr guð í lífi ok kenníngum, dýrligum dæmum, ok ítarligu andláti, en ótalligum jarteiknum ens sæla Þorláks biskups, sett fyrir oss margfalliga miskunnar gildrur með aðgengiligum ögnum ok teygiligum tillögum, at heimta oss með ást ok elsku í sinn einangr, þann er hvervetna er hirt ok haldit er í þann kemr. Gildran er gjör af grjóti, þröng ok torsóttlig í burt at komast því sem í hana kemr, ok af hurð, er hleypr fyrir hana, þá er allt í þess valdi, er gjöra lèt, þat er þar er komit. Gildra sú teiknar þessa heims líf, er þröngt er af sútum ok sorgum, ok mörgum mæðíngum ok miklum mannraunum; en at teygja til þessarar gildru er[u] þessi ögn: röng ást óskaplig ok ágirni, metnaðr ok mannráð, reiði ok ranglæti, ok allar rangar fýsnir; en þeir menn, sem í þessa ófarnaðar gildru ganga, eptir teygíngu þessara ódáða ok agna[2], ok megu eigi til snúast or henni at ganga, þá eru svá hörmuliga staddir, ok þá hleypr fyrir hana hurð, þat er dauðinn, endir þessa heims lífs, ok þá eru gefnir í vald þess, er egndi gildruna, fjandans sjálfs, segi ek, er þá dregr

1) getg.; giörðe, 379. 2) ögna, 379.

til eilífs dauða ok óendanligra kvala, at þeim hætti[1], sem gjört er hèr við skaðasöm dýr ok meinsöm, at þá eru deydd, er þau koma or gildrunni. Sú er önnur gildra, er gjör er til þess at veiða dýr þau, er höfðíngjar hafa fyrir hinar mestu gersemar þessa heims, ok láta hvervetna gott með sèr hafa, þat er þeir hafa föng á, en þeir hafa margar góðar menjar eptir þau; sú teiknar miskunar gildru almáttigs guðs, er upp er hlaðin með stjórn ok stillíngu, ok innan búin með líkn ok lítilæti, en auðsýn ávítan, rækt ok ráðvendi; þangat liggr ok löng bónar braut, lýst með helgum ritníngum, þeim sem sýna mörg ágætlig gögn margra mannkosta, þau er hafa fengit guðs helgir menn, svá sem nú hefir verit frá sagt hinum sæla Þorláki biskupi, eða aðrir honum líkir; ok síðan, er þeir hafa gengit í þessa miskunar gildru, þá fellr enn fyrir hin sama hurð, dauði þeim dýrligr ok heilagr, ok koma þeir þá á þess vald, er þá gildru hefir egnda, almáttigs guðs, er þá laðar til sín, með sèr at vera ok neyta eylífra krása í fullum fagnaði. En þá er þeir eru hèðan liðnir, þá hafa menn eptir þeirra minnum líf þeirra ágætligt, dæmi þeirra dýrlig, andlát þeirra unaðligt, mót formerkilig en jarteiknir ótalligar eptir þessa heims líf. Nú er bæði, at guð hefir oss tignat um þat fram nú, sem fyrr hefir verit, í uppkomu helgi hins sæla Þorláks biskups, ok margföldum jarteiknum, þeim er nú sýna hans dýrð, enda er oss ok þat von, at guð mun nú vera miklu vandari oss í hendr at voru lífi, er hann hefir oss svá stóra hluti nú þá veitta, er hann hefir aldrei fyrr á voru landi. En til þess er at segja líf ok jarteiknir hins sæla Þorláks biskups, eða annarra heilagra manna, sem þèr megit sjá, at heimta hugi manna frá hættligri hègómadýrð heims þessa, en semja þá til sæmiligs siðlætis í guðs augliti. Eru þær sögur margar sagðar frá helgum mönnum, postulum guðs ok píníngarvottum, at trautt verðr hitalaust huggóðum mönnum at heyra illsku ok ódáðir, geysínga grimmleik greifa ok höfðíngja, ok hverskyns kvalir ok harmkvæli gjörðu þeir guðs vinum, ok lètu þá deyja eptir allskyns píslir, þær er þeim kom áðr í hug þeim á hendr færa. Nú þó at öllum góðum mönnum sè stórligr fögnuðr í þeim fagnaði, er nú hafa helgir menn at ömbun sinna meinlæta, þá

1) heiti, 379.

fylgja þar þó mikil atkvæði, er þeir enir grimmu menn skuli eigi snúizt hafa til guðs frá sínum illverkum ok vonzku. En þessi frásögn, sem hèr er nú sögð frá hinum sæla Þorláki biskupi, er öll full fagnaðar ok farsælu, ok fylgir hvergi þó hrygð nè hörmúng; lífit sjálft allt eptirlits ólíkt annarra manna lífi: bernskan bráðvæn til þrifa ok þroska, en æskan endist til athuga ok atgjörva, en fulltíða aldrinn framdr með allskonar mannkostum, þeim er góðs manns líf má göfga, ok er þat í skammri umræðu ekki annat skyldara ok merkiligra eptir at muna, en þat er áðr er ritað, ok enn vitrasti maðr, Gizurr Hallsson, mælti yfir greptri hans. Nú veit ek, at þessi umræða má brátt fulllöng þikkja, er hèr er, um líf ok jarteiknir hins sæla Þorláks biskups: þá gengr mèr þat til, at ek vilda at öll vær hefðim lengr nytjar þeirra frásagna, en þá eina stund, er vær heyrðum frá sagt. En vèr eigum þat ok mjök undir oss sjálfum, með guðs miskunn ok umsjá ok árnaðarorði ens sæla Þorláks biskups. Nú megu vèr þat atgjöra, at sýna oss nú á þessari hátíð með siðlætis yfirbragði, ok biðja þess almáttugan guð, þann hinn sama, er þá krapta gefr hinum sæla Þorláki biskupi, at gefa sjón blindum mönnum en heyrn daufum, göngu höltum, en hreinsa líkþrá, ok reka djöfla frá óðum mönnum, lífga þá er áðr eru dauðir, stöðva vötn ok vinda: at hann gefi oss rèttsýni meiri um vort ráð hèðan frá en híngat til hefir verit, ok meiri hlýðni til guðs boðorða en áðr, göngu ok gæfu til góðra verka, hraust hugskot vort frá illri óvenju ok ónýtri munnshöfn, verk vor veraldlig frá allri þeirri iðni, sem gagnstaðlig er hans vilja, ok leysi guð oss frá allri fjanda freistni, ok öllum vèlum hans ok svikum, ok styrki oss ok efli í mót hans vilja, en stöðvi oss at ofstopa ok ójafnaði; gefi hann oss af ást heilags anda: hjálpsamliga hreinsan hættligra anmarka, iðran með yfirbót unninna afgjörða, gæfu grandlausa góðrar atferðar, viðrbúning vandvirkiligan vorrar framfarar, olean ok yfirstöðu ítra kennimanna, andlát unaðligt at liðnum lífsstundum, hvíld hægliga, unz heimi er brugðit, dýrliga upprisu til dóms at sækja, umdæmi æskiligt öllum trúföstum, líkn langgæða at loknum dómi, eilífa unaðs vist með öllum helgum, hirðir ok haldnir í himnaríki, gæddir hvervetna af guði sjálfum, án enda *amen*.

---

## III.

# Jarteinir úr sögu þorláks biskups hinni ýngstu.

1[1]. Kona hèt Jódís, er hinn heilagi þorlákr biskup hafði lagt á þjónustu bann um stundar sakir; eptir þat sættist hún við hann, ok skildist við sitt mein, er hann hafði um vandat. Mjök litlu síðarr þýddist hana annarr maðr, ok varð hún vanheil af þeim; ok er henni var lètta von um sitt mein, þá afræktist hann hana, fór hún þá yfir voladliga ok var mörgum sinnum banvæn af sinni vanheilsu. Hún kom um síðir til einnar mikilsháttar húsfrúr, er Guðný hèt, ok lagðist þá í rekkju; vænti hún sèr þá hvorki heilsu nè langlífis. En þorlákr biskup vitraðist henni í svefni ok styrkti hana, lèzt optarr mundu vitja hennar; ok þá er vika leið þaðan, þá sýndist hann henni í annat sinn, ok gaf henni þat ráð, at hún skyldi vaka í kirkju fyrir messudag hans, ok kveðst þá enn mundu koma til hennar. En er at þeirri nótt kom, þá var hún borin í kirkju, ok lögð niðr fyrir sönghús palla, ok skinn undir hana; mær ein var hjá henni til þjónustu henni, fimtán vetra gömul. Ok nær miðri nótt, þá höfgaði henni; hún sá hinn sæla þorlák biskup ganga inn í kirkjuna, ok til altaris, ok tók ofan púng þann, er í var mold or leiði hans; gekk hann síðan at henni ok dreyfði yfir hana moldinni, ok mælti ekki, svá at hún heyrði, ok hvarf í burt síðan at sýn. En er hún vaknaði, þá var hún alheil, ok sá þar engin merki, at hún hefði þar hvílzt, heldr en þar hefði hvílzt heill maðr. Hún var ok svá mögr orðin ok mjó, at hún þurfti eigi meira um sik en hálfa aðra alin, en áðr hálfa fimtu alin, ok var þessi jartein opinberlig öllum mönnum.

2. þann sama vetr, er systir Katrín, er síðan var fyrst, ok þó langa tíma síðan, abbadís at Stað í Reynisnesi, var at þverá, ok hún hafði tekit hreinlífis búníng, fèkk hún svá mikinn augna krankleika, at hún mátti sèr ekki við heilagra bóka lestr skemta, ok eigi þóttist hún heldr psaltara á bók mega lesa, ok

1) Prentað eptir *C* (379 4to, bls. 109—131). þessi kafli stendr þar næst á eptir kafla þeim, sem tekinn er eptir hinni fornu jarteinabók þorláks biskups (Viðbætir 1). Flestar þessar jarteinir munu hafa gjörzt um og eptir 1300 (sjá kapp. 2. 19. 23—26), og hefir sá, sem *C* setti saman, hnýtt þessum kafla aptan við gömlu söguna.

fyrir því hèt hún til almáttigs guðs ok hins sæla Þorláks biskups, sèr til þvílíkrar heilsubótar, sem henni mætti bezt gegna, bæði [í] bráð ok lengd; ok eptir því sem hún hafði til ætlat, byrjaði hún ferð sína fyrir sagða nauðsyn um vorit eptir páska suðr um land, og leiddi Ljótr ábóti[1] hana til hests, svá at hún hafði bundit fyrir bæði augun, ok svá fór hún allt vestr til Miðfjarðarár, at hestr sá, er hún reið, var í togi hafðr. Sem hún þóttist þat eigi lengr mega þola, þá sagðist hún treystast sjálfum guði ok hinum sæla Þorláki biskupi, at nokkur bót mundi verða á hennar máli; tók hún þá í tauma hestsins, ok reið síðan sem heilbrygðir menn, þar til er hún kom í Skálaholt, ok batnaði svá dag frá degi, at næsta dag eptir messu varð hún heileygð báðum augum.

3. Sá atburðr varð á Hofstöðum í Reykjadal, at sveinn nokkurr tók þesshàttar fótarmein, at verk sló í kálfann svá at holdit fúnaði, ok stóð sárit með stórum holum, svá at ekki mátti atgjörðum við koma, því at sveinninn æpti, þegar menn höfðu hendr at meininu. Lèk þat svá lengi við, at um síðir tók or sveininum annan legginn, þann sem í fætinum stóð, nær hálfan, var sá þremr þverum fíngrum minni en spannar at lengd, sem hann tók burt, en nær þverrar handar hold á; sjá mátti í leggjar hol þess er eptir var nær ökla í fætinum, ok svá viðr knè á þeim hlutunum sem eptir stóðu. Frændr sveinsins örvæntu honum mannligs fulltíngs, ok fyrir því hètu þeir á hinn sæla Þorlák biskup, at hann árnaði honum heilsugjafar af guði. Síðan þvoðu þeir sárit með því vatni, sem áðr vóru í þvegin bein hins sæla Þorláks biskups. Kom þar svá skjót bót á, at fótrinn varð heill, bæði at holdi ok beini; ok síðan, til sanns prófs um þessa jarteikn, gekk sveinninn heim[an] tveim nóttum fyrir Þorláksmessu, ok kom í Skálaholt at messudeginum; sá þá margir hinir beztu menn aptr komit í kálfann bæði hold ok bein, en þó var sem nokkut þrep kendist[2] á leggnum, þar sem mættist hit nýja beinit ok hit fornara, þat sem áðr var í fætinum; skinnit var ok nokkut rauðara þar sem sárit hafði verit. Margir hinir beztu menn ok skynsömustu sá ok þat beinit, sem tekit var or fætinum, ok hafði þat stöð[3] sársins

1) Ljótr Hallsson var ábóti að Þverá 1293—1296; systir Katrín varð abbadís á Reynistað 1330. 2) kn̄ðið (kendit), 379. 3) stoð, 379.

at lengd; sóru ok þrír vottar, at þat sama bein væri or hans fæti; síðan var þat upp fest við skríni Þorláks biskups, til vitnisburðar þessarar jarteiknar.

4. Bræðr tveir vóru í Eyjafirði; hèt annarr Böðvarr en annarr Björn. Á þann sama Björn sló svá mikilli kviðu ok hugarvolaði, at hann vildi gjarna tapa lífi sínu, ok drekkja sèr í á þeirri, er skamt var frá húsi, en bróðir hans geymdi hans með svá fullkominni ástúð, at hann gat ij sinnum stöðvat fyrir honum þetta óráð; ok einhvern tíma leyndist þessi Björn einsaman út í haga, ok særði barka sinn, svá at fram skar or; mátti hann þá eigi draga öndina, fyrr en hann lukti undina með sjálfs síns höndum. Blóð fèll æsiliga or sárinu, ok sem hann sá opinn dauða sinn ok helvítis kvalir fyrir hendi, tók hann at iðrast síns óráðs, ok rendi huganum til almáttigs guðs. Bróðir hans saknaði hans af bænum ok leitaði hans þegar, ok fann hann liggjanda í sjálfs síns blóði með litlu megni. Hann spurði, hversu at hefði borit um sár þat, er hann hafði fengit. Hann svarar: „ekki má ek völd af mèr bera um þat, en þó iðrumst ek nú minnar glæpsku, eða hvat er til ráðs, bróðir?" — Hann mælti: „vit skulum heita, bróðir! á hinn sæla Þorlák biskup, at hann árni þèr miskunnar ok lífs umbótar: ferð okkarri í Skálaholt, at votta þar, ef hann hjálpar okkr í þessarri okkar nauðsyn." Ok sem þeir höfðu fest heitið, tók Böðvarr skónál ok seimis þveng or púngi sínum, ok með því saumaði hann saman barka bróður síns; eptir þat bar hann [hann] heim á herðum sèr til bæjarins, ok lagði hann niðr í rekkju. En svá mikla miskunn veitti guð þeim, at eptir liðnar fyrstu þrjár nætr át hann skarpa skreið, ok var hann skjótt alheill. Þessir bræðr fóru í Skálaholt at upptökudegi hins sæla Þorláks biskups, ok heyrðu á sögu þeirra hinir beztu menn margir, ok sá örit, sem vitnit bar um sársins víðleika, ok hrukkur á skinninu, þær sem orðit höfðu af saumnum á hálsi þessa sama Björns.

5. Sá atburðr varð á Gnúpi í Gnúpverjahrepp, at sú kona, sem Oddný hèt, tók hugarvolað, fyrst með mælgi, en síðan með þögn; vóx meinit til þess á langaföstu; vildi hún tapa sèr með einshverju móti; gjarna vildi hún svelta sik í hel, en sakir ótta, ok áeggjunar Þorvalds prests Pálssonar, neytti hún nokkurrar lítillar fæðu. En mánud[ag]s kveldit *in passione*

*Domini* varð hún einsaman eptir kvöldsöng, ok þegar lagði hún knífi í barka sèr. Þórðr bóndi Egilsson varð skjótt varr við, ok kallar prest með sèr; sá þeir hvar hún lá, ok horfði í lopt upp, drjúgum sem dauð væri, ok í óviti af blóðrás, en knífrinn stóð í sárinu. Jafnskjótt, at tilkölluðum tveimr nábúum sínum, gengu þeir til kirkju, ok hètu á hinn sæla Þorlák biskup til lífs ok heilsu fyrrnefndri konu, at hún skyldi vatnfasta æfinliga fyrir báðar Þorláksmessur, ok sýngja þar með fimtigir sinnum *Pater noster* ok versit *Ave Maria*, ok ganga iij sumur í Skálaholt, ok gefa, ef hún ætti til, álnar virði staðnum. At festu heitinu gengu þeir aptr til hennar, kippti þá prestr knífinum burt or sárinu, var þá niðri öndin, þar til er hann dró í sárit lèrepts kera, ok batt um síðan; var þá sem hún vaknaði af því ómeginn[i], sem á henni hafði verit; mælti hún þá nokkur orð sèr til hjálpar. Þriðja daginn leysa þeir til, ok mátti prestr þá stínga minnsta fíngri í sárit, er kerinn var úr dreginn; lá henni þá svá nær, at hún hneig aptr; þá tók prestr smjör hins heilaga Þorláks biskups, ok fylldi sárit og batt um. Síðan skaut hún upp öndinni, ok var hraust í máli. Fimta dag, sem bændr kómu til samkomu, tók prestr bönd af sárinu, var hún þá alheil, svá at í tveim stöðum sá, sem hrofnat væri fyrir nagli; urðu þeir, sem sèt höfðu, eigi ásáttir í hverjum stað sárit hafði verit.

6. Á Vestfjörðum fèll þrèvetr sveinn á kníf, sá er Ólafr hèt, ok kom í milli nafla hans ok flagbrjóska, knífrinn hljóp á hol; hann var mjök breiðr ok vel þriggja fíngra langr. En sem sveinninn kippti honum or sárinu, kom at móðirin, Þorgerðr G[r]ímsdóttir af Stað; var þá hold langfíngrslangt af hans innhlutum komit út or sárinu. Hún hèt þá sveininum til lífs á hinn sæla Þorlák biskup, vaxkerti því sem tæki um sveininn. Var þá sóttr Thomas prestr, föðurbróðir sveinsins, ok fyrir því at hann vissi eigi, at móðirin hafði heitið fyrir sveininum, þá hèt hann at gefa skyldi xij álnar í Skálaholt, svá at faðirinn færði á staðinn hit sama sumar, ok at sveinninn skyldi ganga þangat, þá er hann hefði afl til ok þroska. Einni nátt síðarr vóru af tekin blóðböndin; stóð þá út or fyrrsögðu sári hold fíngrsþykkt ok þriggja breitt, ok varla spannar langt. Faðirinn eggjaði þetta sama hold af at sníða, vakti hann þá blóð á því; hljóp þá or með miklum æsíngi, svá at sveinninn lá nær í

óviti iiij dægr þaðan af; var hann ok matlauss áðr iij dægr, ok þar með þessi fjögr; en eptir þat lètti honum, en fyrrgreint hold hvarf á burtu. Varð hann svá heill, at á þetta sár kómu engi smyrsl, nema beinavatn Þorláks biskups.

7. Sá atburðr varð á Þorkötlustöðum í Grundavík, at sá maðr, sem Þorbjörn hèt, brendi þann mann, sem með sama hætti var til lækníngar, með þess háttar atferð, at hann lagði á kviðinn þat járn, er bora var á; en af því at ekki viðrnám var á knappjárninu, þá hljóp þat svá djúpt, at þeim, er brendr var, þótti á hol hlaupa; vottaði þessa hans meiníng mikill brestr sá sem þá varð, er hin minni himnan brast í sundr, sú sem lá í ístruna, en sá, sem brendi, kippti skjótliga í burtu járninu, þá er hann kendi, at ekki nam við því. Hann vildi þá þrýsta dílanum, ok fèll feiti út í móti, sú sem þeir trúðu at ístran væri; ok er hann stóð upp, kendi hann á sèr svá mikinn sárleik, at honum þótti sik taka náliga aptr í hrygginn; gekk hann þá til krosshúss, ok þótti þeim mönnum, sem hann sá, honum öllum brug[ð]it. Hann hèt þá á hinn sæla Þorlák biskup, at fæða fimm fátæka menn, ok sýngja v sinnum Davíðs psaltara, ok lesa *orationem: Deus qui populo tuo* honum til dýrðar, ok fasta vj dægr fyrir dag hans, ok vatnfasta þar fyrir hina síðustu nátt, ok gefa hálfa mörk í Skálaholt ok ganga þangat. Eptir þat drakk hann vatn þat, er í var lagðr steinn sá, er lagðr hafði verit á kistu hins sæla Þorláks biskups; bættist honum svá þá, at hann gat á hesti setið heim á Hvalsnes, var hann þá svá hraustr, at hann vatnfastaði næstu nótt eptir Maríumessu, ok þó með því móti, at hann var stórliga krankr ok neytti nær ekki matar tveim nóttum eptir vatnföstuna; laust í dílann hinum sama verk, svá at honum, ok þeim sem hann sá, þótti honum lítil lífsvon. Þá tók Hallr prestr beinavatn Þorláks biskups, ok steypti iij sinnum í sárit, ok rann jafnan inn til, þó at öndverðu væri fullt. Sá allir þeir, sem hjá vóru, ístruna inn í kviðinn. Viðr þetta sýndist þeim draga saman opit á sárinu, þat sem inn vissi til holsins, svá at þaðan af varð honum ekki mein at, ok var síðan betr heill en áðr. Báru þeir vitni: Hallr prestr, Þorsteinn klerkr, ok sá sem lækníngina skyldi veitt hafa í fyrstu, ok margir aðrir góðir menn.

8. Á þeim bæ, er at Brjánslæk heitir á Barðaströnd, fóru

tveir menn á skipi úr eyju einni frá heyverki; hèt karlmaðrinn Hallr. Ok svá sem þau kómu at landi, ok sú kona, sem með honum var, stè hann upp af skipinu, ok tók í stafninn skipsins ok vildi brýna upp, þvíat þat flaut illa at landi; hafði hann sett fram í stafninn ljá í langorfi; ok sem hann leit upp við, er hann tók til skipsins, þá kom ljárinn á nef honum nokkru fyrir neðan augun, ok skar allt niðr at kinnunum, ok mjök svá fram or, svá at lítið eina hèlt. Eptir þat tók hann þar til, ok lagði nefit við upp, þar sem þat hafði verit, ok hèlt at, ok gekk svá heim til bæjarins, ok sem hann kom heim, hètu þeir Andrès bóndi báðir, ok Hallr, á almáttigan guð at upphafi, ok hinn sæla Þorlák biskup, til árnaðarorðs, at gefa hálfan eyri til Skálaholts, til þess at hann mætti heill verða, lýtalaust af sárinu, ok at honum stæði þat ekki lengi fyrir vinnu. Eptir þat bundu þeir um sárit og fóru til svefns; vóru þessi umbönd við iij nætr; síðan leystu þeir til, var þá svá gróit sárit, at allr þroti var í burtu or andlitinu, ok svá lýtalaust, sem hann hefði aldrei sárr orðit, utan örit mátti sjá, svá sem allmjór hvítr þráðr lægi um nefit; var honum ok engan tíma svá mikill verkr eða sviði í sárinu síðan heitið var, at eigi mætti hann sofa fyrir. Lofaði hann, ok allir aðrir, þeir er sá svá háleita jarteikn, guð ok hinn sæla Þorlák biskup; vóru ok nóg vitni til skilrík at sanna þessa jarteikn með eiði.

9. Sá atburðr gjörðist at Hítarnesi, at sveinn xij vetra gamall, sá er Örnúlfr hèt, fèll niðr með æsiligu brotfalli, ok fór meinit hinn fyrsta vetr svá vaxandi, at þá er langafasta kom, fèll þessi sjúkleiki nær hvern dag á hann. Um vorit ok um sumarit sótti hann nokkut minnr. Um haustið var honum í þýngra lagi, en nokkuru lèttara um vetrinn. Um langaföstu kom hann svá hart niðr, at þá er meinit hvarf frá honum lá hann langar stundir með litlum lífs merkjum. Á langa frjádag fèll [hann] í þat sama mein, ok lá í dái um nóntíðir allar. Hèt þá Nichulaus prestr, móðurbróðir sveinsins, fyrir honum, at láta hann fara í Skálaholt, ef hann þætti flytjandi vera. Litlu síðarr en fest var heitið gekk hann heill í stofuna innar, ok spurði: „hvort hefir nokkurr yðar komit til mín ok vakit mik"? — Nichulas svarar: „ek trúi engan þann hèr vera, er þik mætti af svefni vekja". Sveinninn mælti: „sannliga þótti mèr maðr ganga at mèr ok vekja mik". Þaðan frá var hann svá heill, at engi

minníng þessa meins kom at honum upp frá þeim degi. Bauð þessi hinn sami Nichulaus prestr ok fjöldi annarra manna eið sinn, at *sá vitnisburðr var fullkomliga sannr.*

10. Þat bar til í Túngu í Steingrímsfirði um vetrinn fyrir jólaföstu, at þaðan fór kona sú fátæk, er Guðfinna hèt; var hún svá fáklædd, at hún var í einum slitnum tötri, ok hafði ekki vætt[a] á höfði nè á höndum, ok ekki skóklæði á öðrum fæti; ok sem hún var í burtu, kastaði á vindi með krapadrífu ok áköfu snjófalli. Nærri miðri nótt kom á grimdar frost með stormi ok snjófalli; en þessi kona hafði hvergi til bæja komit um nóttina. Um morguninn eptir, á mánadaginn, því at hitt var á sunnudaginn, fóru menn or Túngu, og fengu eigi fundit hana, því at snjófallit var. Frostið hèlzt, svá at þeir kómust erviðislega til bæjar ok vóru mjök kalnir; hèlzt þetta veðr framan til miðvikudags kveldsins, en hún fór á drottinsdaginn or Túngu; máttu menn eigi bjarga fè sínu á þessum dögum öllum, ætluðu menn ok fullkomliga at hún mundi sáluð vera. Á fimta dag var frost ok mikill vindr; varð hún þó ekki fundin. Föstudagskveldit tók at regna, ok svá laugardaginn. En á sunnudaginn fann sauðamaðr at Túngu þessa sömu konu Guðfinnu, svá at hún var hraust í máli, ok færði hana heim í Túngu. Var hún hvergi kalin svá at hana sakaði, ok eigi sagðist hún nokkut dregin af húngri. Sagðist hún heitið hafa á Þorlák biskup, at hann hjálpaði henni, ef hann væri svá mikils verðleiks, sem hún hefði heyrt sagt; hèt hún at gefa hálfa mörk lýsis; ok síðan kallaðist hún hvorki hafa kent húngrs nè kulda, svá at henni væri mikit meinlæti í, ok kveðst optast ókyr verit hafa, ok gengit þegar hún hefði mátt, á þessari stundu; ætlaði hún, at þá mundi laugardagr er hún var fundin. Þótti öllum, þeim er þetta var kunnigt, hin fegrsta jarteikn.

11. Svá bar til á Ferjubakka, at son Jóns Erlendssonar, er Flosi hèt, x vetra gamall, tók á þann hátt krankleika á fyrsta miðvikudag í föstu, at þrútnuðu kverkarnar, ok varð hann hás mjök, en málit gjörðist óskýrt. En á næsta drottinsdag skildist ekki hvat hann talaði, utan já ok nei, ef nær honum var lotið; en þriðjadag næsta eptir imbrudaga viku, ok þaðan af, mátti hann engi orð mæla, ok engi rödd mátti heyrast af hans munni; tók þá at mínka þrotann í kverkunum; var hann at leikum með öðrum mönnum þá er upp leið á föstuna. Eptir

páskir tók at heyra nokkut til, er hann hóstaði eða hló. Móðir hans hèt fyrir honum, svá sem hann hafði mist málsins, á guð allsvaldanda ok á hinn sæla þorlák biskup til árnaðarorðs, at sveinninn fengi heilsu sína: at þau bæði skyldi ganga í Skálaholt, ok gefa mörk vax at þorláksmessu at næsta sumri. En sveinninn skyldi vatnfasta æfinliga fyrir daginn. Gengu þau þá í kirkju um aptansöng, ok kómu um hymna fyrir *Magnificat* undir skrín þorláks biskups. Ok sem þau höfðu þar litla stund verit, þá þótti móður hans sem höfgi rynni á sveininn, ok fyrir því vakti hún hann ok mælti: „heit þú son minn! á þorlák biskup, af því viti sem þú hefir til, at hann gefi þèr heilsu þína"; ok þegar í stað svarar hann, svá mælandi: „sæll sè þorlákr biskup! sæll sè þorlákr biskup!" — Varð þetta þegar í stað sem aptansöngrinn var súnginn; síðan las hann Maríuvers, *Te deum* ok aptansöng sinn, ok talaði þá svá skýrt sem hann vildi. Vóru þá margir menn þar, þeir er þetta var alkunnugt, ok buðu at sanna þetta með eiði.

12. Svá bar til á Mýrum í Borgarfirði, á bæ þeim er í Stangarholti heitir, at sá maðr sem þorkell hèt lagðist niðr til svefns í stofupalli drottinsdag í fardögum, ok son hans, er þórálfr hèt, xiiij vetra gamall; ok sem sveinninn stóð upp, mátti hann ekki mæla. þótti föður hans ok móður, ok þeim öllum er hann sá, sem barkakýlit væri dregit niðr fyrir hóstinn, ok var þar allt þrútið undir kverkinni, ok svá hart, at hvergi mátti sveigja. Drottinsdaginn at kveldi heitr þorkell, faðir hans, fyrir sveininum, at þeir báðir skyldi fara í Skálaholt at þorláksmessu um sumarit, at sýngja psaltara, ok gefa málsverð fátækum manni á messudaginn, ok tvá aura vax í Skálaholt. Enn þriðja dag nær dagmálum fèkk fyrrnefndr sveinn þórálfr mál sitt. Lofuðu allir guð ok hinn sæla þorlák biskup.

13. Sá atburðr varð á Yzta-Reyðarvatni, at son bónda, er Glúmr hèt, gleypti hestskós nagla, svá at á var höfuðit. Faðir hans ok móðir hètu fyrir honum á almáttugan guð at upphafi, ok hinn sæla þorlák biskup, til árnaðarorðs, at þetta tilfelli grandaði sveininum eigi; en viku síðarr flaut naglinn frá honum í vallgangi.

14[1]. Kona sú er Halla hèt tók meinsemi svá mikla á

---

1) „Kona ein misti mál ok sjón", fyrirsögn i 379.

laugardag *infra octavas beatæ virginis*, at hún misti sinnar sýnar báðum augum; en um daginn eptir misti hún málsins. Hét hún þá með hugrenníngu, ok þó með fortölum þeirra sem hjá stóðu, á almáttugan guð sèr til heilsubótar, ok hinn heilaga Þorlák biskup til árnaðarorðs: at ganga í Skálaholt ok vatnfasta fyrir Þorláksmessu, ok enn þar með bænahaldi nokkuru. Á þriðja degi var kertisrak látið um höfut henni, ok þá tók hún sýn sína öðru auga, en mátti þó báðum upp ljúka. Á drottinsdag tók hún mál sitt, en á Michaelismessu dag tók hún um upphald sýn á því auga, sem áðr hafði blint verit.

15. Svá bar til á bæ þeim á Akranesi, er á Klafastöðum heitir, at Arnbjörn Jónsson, er þar bjó, tók krankleika mikinn, á þann hátt, at hann gat torvelliga ok með miklum sárleik gengit hinnar þynnri þurftarinnar; lá hann vj vikur í rekkju, ok um síðir kom svá, at þat var hálft þriðja dægr, at hann gat með engu móti fyrrnefndrar þurftar gengit; hèt hann þá til allsvaldanda guðs, ok til árnaðarorð[s] hins sæla Þorláks biskups, sèr til heilsubótar, at ganga í Skálaholt ok fæða fátækan mann í ij mál, ok hèt at gefa æfinliga hvert sumar mörk vax í Skálaholt. Ok nokkuru síðarr, en hann hafði heitið fest, beiddi hann at ganga þurftarinnar; gekk hann þá blóði ok blóðlifrum í eina stóra munnlaug, utan allan sárleik, ok sem skammt leið þaðan, þá gekk hann með sama hætti blóði ok blóðlifrum enn í stóra munnlaug, ok þegar sem honum batnaði hafði hann sik mjök við; þýngði honum þá enn á sama hátt; hèt hann þá enn at gefa eyri vaðmáls hinum sæla Þorláki biskupi; batnaði honum þá dag frá degi, þar til hann var heill, ok sannaði með eiði þenna atburð.

16[1]. Sá atburðr varð í Svartárdal, er gengr upp af Langadal, viku fyrir jól, at sá maðr, er Eirekr birkileggr hèt, ok tveir menn aðrir, hèt annarr Illugi en annarr Oddr[2], þá reið Illugi fyrir, ok svá sem hann kom fram á árísinn, þá brast hann niðr undir honum ok hestrinn í kaf, ok í þessu hljóp Eirekr af baki ok hafði á hendi fíngrgull, ok sem Illugi komst upp á ísinn, þá brast hann niðr undir honum; þá sprettu þeir söðli af hestinum; flaut þá hestrinn, þvíat þar var hylr mikill sem

1) „Týndist fíngrgull", fyrirsögn i 379.
2) hèr mun vanta nokkur orð.

hann hafði í riðit, ok þessu næst þreifaði Eirekr til taglsins á hestinum ofan í ísinn, en Illugi hèlt beizlinu; fengust þeir þar lengi við, áðr þeir kómu upp hestinum; ok sem þeir riðu burt, þá saknaði Eirekr gullsins, ok sá at þat var burt af hendi hans; riðu þeir þá aptr, ok leituðu við vökina, ok fundu eigi. Síðan riðu þeir veg sinn, þótti Eireki þetta illa hafa til tekizt, er týnt var gullit, þvíat annarr maðr átti þat, ok fyrir því hèt hann fyrst at upphafi á guð ok hinn sæla Þorlák biskup, at finna[st] skyldi gullit, ok gefa eyri vax í Skálaholt, ok fæða iij fátæka menn Þorláksmessu, ok þetta heit festu þeir allir fèlagar, ok riðu heim síðan, ok varð ekki leitað gullsins um vetrinn. En um vorit ætlaði þessi sami Eirekr at fara með Geir Þorsteinssyni suðr um Kjöl. Kómu þeir á þann bæ, er heitir á Gilhaga, næsta sunnudag fyrir gagndaga, ok um morguninn árla dreymdi Eirek, at maðr kom at honum ok mælti: „stattu upp, því at þú mátt ekki þann veg fara, sem þit hafit ætlað, ok skaltu fara þá leið, sem þú fórt norðan í vetr". Ok er hann vaknaði, var svá mikil þoka, at honum þótti eigi fært á Kjölinn; fóru þeir þá vestr Vatnsskarð. Ok sem þeir riðu vestr nær þeim stað, sem Eirekr týndi gullinu, vildi hann vita hversu þar væri til fallit. Kallar hann þá enn til guðs ok hins sæla Þorláks biskups, at hann láti finnast gullit með sinni mildi; ok sem hann hafði þetta mælt, sèr hann gullit, ok kallar á Geir, at hann skyldi ganga ok sjá; hann gekk til at sjá; lá þá gullit í framanverðum bakkanum, ok gekk áin undir þat þá er meir bærði, en þess í milli lá á þurru; tóku þeir þat upp ok höfðu með sèr, lofandi guð ok hinn heilaga Þorlák biskup. Var gullit heilt ok ósakat utan handsalit var nokkut lest.

17. Á næstu viku fyrir jólaföstu fóru þrír menn á einu skipi austr í Berufirði, ok ætluðu at sækja skreið; ok sem þeir kómu á sjóinn, hljóp á æsistormr með drifi ok foki; bar þá skjótt at skeri ok fengu þar með mikit áfall ok þegar annat, svá mönnunum ij kastaði út or skipinu, svá at sá sem eptir var í skipinu, ok Finnbogi hèt, sá þá aldrei síðan; ok eptir þetta stafnkastaði skipinu, ok komst hann í hvorttveggja sinn á kjölinn. Eptir þat sá hann vísan bana sinn, ef hit þriðja sinn kastaði, því at skipit var mjök svá komit at boðanum. Hèt hann þá á allsvaldanda guð at upphafi, ok hinn sæla Þorlák biskup til árnaðarorðs, at hann skyldi komast lífs á land ok heill; var þat heit hans, at ganga í Skálaholt ok gefa mörk

vax; ok eptir fest heitið[1], þá var sem snúit væri skipinu frá boðanum ok inn á eina vík; var þá fullt skipit, ok í burtu or allt þat er laust var; kallaði hann þá til hjálpar sèr á þann mann, sem hann sá á landi, ok eptir þat vissi hann ekki til sín, eðr hvat um leið, þar til at [hann] var borinn inn í baðstofuna á Krossi; ætla þeir menn, sem kunnugt var um, at þat mundi verit hafa meir en hálf eikt, er hann vissi ekki til sín. Lá höfut hans út á öxl á hástokkinum, er menn kómu til hans; hefði hann ok þar drukkit, ef hann hefði öðruvís í óvit fallit í skipinu. Var Finnbogi á næsta sumri at Þorláksmessu at Skálaholti, ok vildi gjarna sanna þessa jarteik[n] með eiði.

18. Sá atburðr varð í Þrándheimi, í garði þeim er Grábaksgarðr heitir, at kona sú er Gunnhildr hèt ætlaði at ganga til óttusöngs um morguninn, ok sem hún gekk eptir einu loptriði, spratt henni fótr ok fèll hún, ok í því sama falli brotnaði bæði hönd hennar ok fótr. Síðan hèt hún á hinn heilaga Þorlák biskup, at láta gjöra hönd ok fót af vaxi. Þar með hèt hún vj[2] mörkum vax til hins heilaga Þorláks biskups. Þessari konu bættist svá skjótt, at hún varð heil innan mánaðar; var hún þá svá gömul, at hún var á sètta tigi.

19. Sá atburðr varð á Bollastöðum í Blöndudal, at ij dætr húsfreyju þeirrar, er þar bjó, ok Guðlaug hèt, gengu út um kveldit fyrir nokkura nauðsyn, báðar úngar at aldri, ok hin ýngri fèll á svelli, ok kallaði á systur sína, ok sagðist ætla, at sá knífr, sem hún hafði [uppá sèr[3] í vándum skeiðum, stæði á henni; hin ellri tók til þegar, ok vildi kippa burt knífinum, ok gekk þegar af heptið[4], en blaðit stóð eptir. Eptir þat reisti hin ellri upp systur sína, ok fluttust svá inn; ok sem móðirin sá, gekk hún at með ljósi, ok sá at járnit stóð í lærinu ofarliga, ok svá nær kviðnum, at holit mundi hafa. Þá biðr hún karlmann, þann sem hjá var, at kippa burt járninu, en hann kveðst varla þora, sagðist hyggja, at þar mundi líf meyjarinnar með fylgja; þá tók hann tangann ok fèkk eigi burt kippt, því at holdit var hlaupit upp yfir knífsaxlirnar; síðan lagði hann klæði um tangann ok togaði til með tönnunum, ok losnaði

1) „fest" (tvívegis), misritað í 379.

2) Hèr byrjar aptr 219, 2 blöð (sjá bls. 304) og nær söguna út.

3) frá [ sèr á linda, 219.

4) þann. 219; skaptið, 379.

þó eigi járnit. Þá var leitað at töng, ef svá mætti járninu í burt koma. Móðurinni fèkk mikils ok gekk fram til kross, ok bað [at] guð ok hinn heilagi Þorlákr biskup skjóti henni því í hug, at heita því til heilsubótar meyjunni, sem bezt gegndi ok guði væri þægiligast. Henni hugsaðist svá skjótt, með öðrum hlutum, at láta sýngja sálumessu fyrir sál Árna biskups, ok hún söng *Pater noster*, festandi svá heitið; ok í þessu bili kom maðr fram ok sagði, at þá var járnit í burtu losnat. Síðan gekk móðirin til ok sá at lítt blæddi sárit, ok bar á vatn hins sæla Þorláks biskups, ok innan iij nátta var mærin alheil; var járnit svá mikit, at leggja mátti á þrjá fíngr fram hjá tanganum.

20. Bóndi sá er Teitr hèt bjó á Hvaleyri [fyrir neðan heiði[1]; hann sigldi á næsta dag fyrir[2] Pètrsmessu um sumarit, ok ij bræðr hans með honum, af Rosmhvalanesi, ok ætlaði inn í Hvalfjörð; ok sem þeir kómu varla miðleiðis, fengu þeir svá mikinn storm ok sterkt veðr í móti sèr, at þá rak hálfa aðra viku í haf út; marði[3] þá undir þeim skipit, svá at þeir fengu eigi upp ausit; þá hvölfðu þeir því sjálfir, þótti þeim þá líkara at þeir mundi komast á kjölinn, ok þat varð eptir því; ok síðan kastaði um v sinnum, ok í því druknuðu þeir ij. Teitr var þá einn eptir, ok rak lengi undan landi; síðan kom á mótviðri með óðastraumi ok rak þá aptr sömu leið; þá hèt hann á guð ok hinn heilaga Þorlák [biskup] til fulltíngis, at hann kæmist at landi með öllu heilu, ok ómeiddr; hann hèt at ganga í Skálaholt ok gefa hálfa mörk vax, ok þegar eptir heitið rak miklu fljótara en áðr, ok æ á stafninn, svá sem stýrt væri hjá hverjum boða; kom hann á land hjá Ytra-Hólmi á Akranesi; mundi þvínær hálfri annari viku er hann rak síðan hann hèt. Hvolfðu þeir síð á fimtudaginn, en hann komst á land föstukvöldit eptir sólarfall; bauð hann at sanna þessa jarteikn með eiði ári síðarr, sem hann kom í Skálaholt, ef þurfa þætti.

21. Fátæk kona, sú sem Alfeiðr hèt, tók fótar mein á þann hátt, at fótrinn þrútnaði, ok setti svá blán sem drep væri í hlaupit, ok varð hún af þessu ekki verkfær; fór hún þá um nokkura stund hús or húsi mæðiliga; en við vos ok vaðla

---

1) frá [ b. v. 219. 2) eptir, 219. 3) kafði, 219.

spiltist mjök meinit, ok þrútnaði meir ok meir, ok opnaðist fyrir neðan knè nær utan á miðju beini; um síðir varð þat eigi fjarri hinnar minni spannar langt, ok heldr minna á breidd; fèll þá or blóð ok holdfúi; at lyktum lagðist hún fyrir á bæ þeim, er heitir á Þorvarðsstöðum, ok þóttist varla lífvæn af sulti ok sárleik fótarins, ok brjóstleysi, því at hún skreið stynjandi ok grátandi lengi áðr bæja í millum. En þat var Þorláksmessudag um vetrinn, er hún lagðist niðr; vildu menn henni lítinn dugnað veita; var þá ok mikit mannfall af fátæku fólki fyrir sunnan land, því at þá var mikit hallæri. Nú sem þessi fátæka kona var þröngd[1], þrotin ok fyrirlátin af mannligu fulltíngi, þá rendi hún hug sínum til guðs ok til árnaðarorðs hins sæla Þorláks biskups, hèt hún þá nokkurum söngvum ok[2] Skálaholtsferð sinni, ef hún fengi bót sinna sjúkleika, ok þótti henni þýngja at eins. Leið svá Þorláksmessa ok atfangadagr jóla, jóladagr fyrsti ok annarr dagr jóla; bað þessi kona sèr hjálpar, bæði nætr ok daga, með mikilli viðrkomníngu, ok vænti sèr hvorki lífs nè líkamligrar heilsu. Ok um nóttina fyrir Jóns postula messu rann á hana úmegins höfgi, ok þóttist hún sjá Þorlák biskup með björtu ljósi, svá at henni varð um megn í móti at sjá; þótti henni hann ganga at sèr ok mæla: „hèr liggr þú, lúin ok lamin eru bein þín, ok bót muntu fá"; síðan þótti henni hann strjúka fótinn niðr frá knè, svá at hún kendi sárt við, ok síðan hvarf hann henni at sýn, þá vaknaði hún ok lofaði [guð ok[3] hinn sæla Þorlák biskup, ok spratt þegar or rúmi sínu ok gekk burt staflaust þegar um daginn eptir, en áðr fèkk hún varla einsömun þat skemsta sem hún mætti sinnar þurftar ganga, ok síðan bættist henni dag frá degi, svá at hún varð alheil, ok til miklan[ar] guðs dýrðar sá menn þann hennar legg mjórra ok skinnhvítara ok óþrymlóttara, eptir vaðal í frosti, Thomas messu biskups, en hinn, sem fullkomliga var ósakaðr jafnan, því at hinn græddi var lítt sárr, ok þvílíkr at sjá sem úngmennis hold, en hinn var dökkr, breyskr af blóði ok mjök skaddr, sem von var á hnignandi konu, af öllu saman, mæði, göngu ok verkjum; vóru hèr ok nóg vitni til at sverja ok sanna þenna atburð.

1) b. v. 219. 2) þann. 219; í, 379.
3) frá [ várn lávarð Jesum Kristum ok hans ástvin, 219.

22. Svá bar til á Drepstokki um vetrinn fyrir Símonsmessu, at þat var stormr ok sjóargangr sem þá er óðast verðr, at feræringa bát tók í burt með flæði, vóru þar í sela nætr vel fertugar, árar, austker ok þiljur; höfðu þeir lagt nætrnar upp á saxit, ok sumar út í móti veðri, til festíngar við bátinn; var veðrit austrkennt, ok því þótti von á veðrstöðunni, at þegar hafði keyrt undir brim; ok þegar sem Jörundr, er bátsins skyldi geymt hafa, vaknaði, ok vissi at bátrinn, með öllu því sem í var, var í burtu, klæddist hann þegar ok reið út til Óss, var þá eigi fullt flóð; ok sem hann fann eigi bátinn, nè þat sem í var, þá hèt hann, sem hann kom heim, á allsvaldanda guð, ok til árnaðarorðs á hinn sæla Þorlák biskup, til þess at bátrinn, með öllu því sem í var, fyndist: at ljá hest upp í Skálaholt undir klyfjar staðarins, ok gefa rapt til kirkjunnar á Háeyri, ok þann sel, sem fyrstr veiddist í nótunum, skyldi skipta[1] með fátækum mönnum. Eptir þat reið hann út til Ölfus, föstudaginn, til Hjalla; sagði Ormr bóndi honum, at bátr, með öllu því sem í var, væri upp settr á þá hæð, sem hæst var í Nauteyrum[2], ok stóð við eina fuglþúfu, sem skorðaðr væri, ok eigi meiri austr í, en lítið um eina austskotu. Sýndist Þorkeli, syni Orms, [þann tíma] sem bátrinn fór sunnan, sem dökkklæddr maðr væri í stafni ok stýrði svá, at stafninn var í veðrit, ok sagði til þeim manni sem fór með honum, er Árni hèt, Jónsson, en sakir þess gat Árni eigi sèt, at hann var mjök úskygn; vildi þessi sami Þorkell sverja gjarna eptir þessi sögu sinni, ok svá Árni, at hann vísaði honum til, þó hann gæti [fyrir sakir síns óskygnleiks[3] eigi sèt.

23. Þat bar til á Höfðaströnd í Skagafirði, á þeim bæ er í Garðshorni heitir, at bóndi sá sem þar bjó, ok Karl hèt, hjó á hönd sèr með tálguöxi yfir úlfliðnum afsniðis[4] um handlegginn, svá mikit sár, at menn þóttust sjá at í beini stóð; vóru margar sinar í sundr í handlegg[i]num, en sumar mjök skaddar; blóðrás var svá mikil af sárinu, at hann fèll iij sinnum í úvit, ok varð eigi stöðvat; tók hann þá at heita á hinn heilaga Þorlák biskup, með ráði Eyjólfs prests Ásgeirssonar, er þar var við staddr, at fara í Skálaholt at Þorláksmessu at næsta sumri, ok

1) skiptast, 379. 2) þ. 219; nausteyrunum, 379.
3) frá [ b. v. 219. 4) af sniðu, 219.

gefa hálfa mörk vax, ok láta þar sýngja iij sálumessur fyrir sál Árna biskups ok öðrum kristnum sálum. Eptir fest heitið mínkaði blóðrásina ok lètti skjótt af með öllu; var þá sárit svá djúpt ok mikit, at setja mátti í [niðr handar jaðar[1] manns; síðan var um bundit ok eptir iij nætr liðnar var sárit þrotalaust, ok batnaði svá síðan dag frá degi, at með öllu var heilt innan hálfs mánaðar, ok kom hvorki í verkr nè þroti; var ok ekki öðruvís um bundit, en vafit um dúki, ok borit á smjör hins heilaga Þorláks biskups. Kom þessi sami Karl á næsta sumri alheill í Skálaholt, ok buðu þeir Eyjúlfr prestr báðir at sanna með eiði þessa jarteikn[2].

24. Þá [er] liðit var frá híngatburði vors herra Jesú Kristi [þúshundrað þrjú hundruð tuttugu og þrjú[3] ár, varð þessi atburðr um haustið, at Bjarni [bóndi] á Útskálum sendi menn með v. hesta norðr[4] á Eyrar eptir varníngi; þeir lètu hestana eptir í Óseyri, ok at ij. dögum liðnum kómu þeir aptr til hesta sinna; ok er þeir skyldu [lènur á þá leggja[5], vildi ekki upp standa hinn sterkasti hestrinn, er þeir höfðu með farit, brúnn at lit; ok sem þeir höfðu hann lengi barit með fótum ok lurkum, komst hann nauðuliga á fætr, ok sem þeir skyldi reka hann, [kanna þeir þat af[6], at á hestinn sè hlaupit dauðaslig, ok við þær vændir flytjast þeir heim með hann; var hann hrakmagr, er hann kom heim, [en rifblautr er hann fór heiman[7]; fjögr dægr lá hann þar á vellinum, ok öllum þeim er hann sá þótti hann jafngóðr sem dauðr. Síðan hèt Bjarni, at gefa mörk vax hinum heilaga Þorláki biskupi, ef hestinum batnaði, ok síðan gaf hann at honum engan gaum, ok nær hálfum mánaði síðarr var honum tvímennt, ok þarnæst bar hann bjórtunnu fulla öðrum megin langa leið, eðr annat eigi lèttara, optliga.

25. Á sama ári varð annarr atburðr at Útskálum. Um vetrinn næsta dag eptir Nicholausmessu drukknuðu iiij menn á sexæríngi, er Bjarni bóndi átti, í stóru brimi, ok er hann frètti at skipinu hafði kastað, skundaði hann til strandar, ok grípr þat skip er fyrr um daginn hafði lent, ok þeir iiij

1) þannig 219; frá [ til miðrar handar, 379.
2) ef þurfa þætti, b. v. 219. 3) frá [ 1323, 379. 4) suðr, 219.
5) þann. 219; frá [ á leggja, 379. 6) þann. 219; frá [ könnuðu þeir, 379.
7) þann. 219; frá [ gekk hann lauss, bæði heim ok heiman, 379.

saman, ok róa út at briminu, ok freista at nokkuru mætti hjálpa; ok sem þeir hyggja at, sá þeir hvar skipit marði fullt uppi, þar sem mest var brimit, en menn allir sokknir, [ok] þat annars, at vaðr hèlt skipinu, er fastr var undir knè skipsins, en annarr endir í grunni; ok[1] þvíat ofrefli brimsins gekk jafnan yfir flatt skipit, hugðu þeir at vaðrinn mundi slitna, mundi ok þá skipit losna, ok varð þat eigi; ok því at út fèll sjórinn, ok [víst var[2], at sker [þau] er undir vóru mundi lemja skipit í spón, [þegar grynnti[3], [þá hèt[4] Bjarni til hins heilaga Þorláks biskups, at gefa mörk vax, ef hann næði skipinu heilu; ok jafnskjótt sem hann hafði þetta talat hátt, hvolfir skipinu, ok þegar með öðru falli rèttist skipit upp, ok horfði stafn móti brimi, ok annarr at landi; [fór skipit með hægri ferð inn móti straumi at landi[5] sem því væri allvel stýrt; gekk þá aldri svá stórt at á gengi, ok eigi var meiri sjór í, er þat kom inn at Bjarna ok hans skipverjum, en í mitt knjám, ok eigi meir brotið en hástokkrinn, ok af saumförin með af riminni, en annarr hálfr.

26. Þá er liðit var frá híngatburði vors herra Jesu Christi [ꝏ. ccc. xx. ok v[6] ár, gjörðist þessi jartein á bæ þeim er á Bútsstöðum heitir, at einn dag, sem smalamaðr Snæbjarnar bónda kom heim frá fè, ok hann hafði talað eitt orð, svá at menn heyrðu, fèkk hann stórt öngvit, ok er hann vitkaðist misti hann málsins ok svá var iij[7] dægr, þar til er Snæbjörn bóndi hèt á *Blasium* biskup, at [smalamaðr hans þessi sami, er Hallr hèt[8], skyldi ganga í Breiðholt, ok gefa þangat nokkut af lýsi, ok er Snæbirni þótti eigi hèr við skipast eptir þörf, þá kallaði hann enn á guð at upphafi, ok hinn heilaga Þorlák biskup, heitandi, at sveinn[inn] skyldi ganga í Skálaholt at Þorláksmessu, eðr sjálfr hann, ok vatnfasta fyrir messudaginn ok gefa eyri vax, at guð gefi honum heilsu sína. Ok litlu síðarr sofnaði Hallr. Honum sýndist koma inn maðr í svartri kápu, ok litlu síðarr annarr með sama búníngi, ok [því sveif[9] honum í hug, at sá veri Blasius biskup er fyrri kom, en Þorlákr biskup sá er síðarr kom. Sá tók til orða er fyrri kom: „þú ert lítt haldinn, sveinn!". Hallr þóttist svara, at svá

1) þ. v. 219. 2) var víst, 379. 3) frá [ þ. v. 219. 4) frá [ hèt þá, 379.
5) frá [ v. í 219; með hægri ferð fór inn m. str. l., 379.
6) frá [ 1325, 379. 7) vij, 219. 8) þann. 219; frá [ sveinninn, 379.
9) þann. 219; frá [ þat sneri, 379.

væri. Þá mælti sá er síðarr kom: „viljum vit gefa honum heilsu sína, þá hefir hann á okkr kallat". — „Gjörum vit svá, bróðir minn!" sagði sá, sem honum sýndist Blasius vera, „í guðs nafni ok heilagrar Marie". Síðan gekk at honum sá, er hann hugði Þorlák vera, ok signdi[1] hann. Eptir þetta vaknaði hann alheill, lofandi guð ok [hinn heilaga Þorlák biskup[2].

---

## IV.

## Brot af Þorláks sögu hinni elztu[3].

....... fvnd eysteins erkibyscvps. þa toc hañ við hanvm forkvñar vel oc let þa bratt vitat vera. at hañ villdi þat allt bliðlega tilleggia af siñi hendi er hañ þottisc scylldr til. En hañ villdi þo eigi geva honvm byscvps vigslv nema samþycki konvngs væri til. Þeir hofþv þa riki yvir noregi feðgar. Magnvs konvngr oc ærlingr iarl faþir hans. oc tokv þeir þvngliga allv thorlacs mali oc qvomo þaðan hót firir hǫgendi at hvartgi mvnde uhætt fe ne monnvm. Eñ thorlacr let ser þat ecki nær falla oc syndi þar siñ aloga vera allan. sem davið kennir i (psaltara at betra se gvði) at treystasc en hofþingiom. oc let hañ (af þvi þetta hia ser liða). En ærkibyscvp þottisc sitia i miclvm (vanda er hañ villdi hvár)tveggio trvlega geta oc vel (. . . . er Pall postvli segir) i sinom pistola. Ottizc þer gvð (segir hañ en veg)samiþ konvnginn. Matti þat a allv sia (at hann villdi her hvars)tveggia vandlega geta i þeirra mali. Bar (erkibyscvp þa boð a millvm þeirra oc) aðrir goðgiarnir meñ oc com þar . . . . at convngriñ oc iarlliñ lǫgþv samþycki sitt til þess (at thorlacr) tǫki byscvps vigslo oc gerþisc þa vingan(ar svipr þeirra í) millim. oc gavosc þeir þa giovvm. aðr þeir scilþvsc. Oc hafþi (sverrir konvngr þat) opt vppi. ær bæði var merkr i mali. oc spacr at manviti. At þeim feðgom hefþi þa allir lvtir lettast gengit ær þeirra vingan var. oc thor-

---

1) signaði, 219.

2) frá [ hina blezaðu biskupa, Thorlacum ok Blasium, 219. — Á þessari jartein endar *C* í 219 og öllum hinum, en 379 settr aptanvið það sem hèr er í Viðbæti II. (bls. 357-374).

3) Eptir AM. 383, I. (4to) 2 blöð rituð um 1250; það sem er milli sviga () er mjög dauft og máð, og er það sumpart sett eptir *A*.

lacr var þar ilandi. bæþi i sócnvm. oc nalega velflest an̄at. Þa var thorlacr vígþr til byscvps. af eysteíne ærkibyskvpi adagvm Alexandre pava. þrimr nottvm eptir piningar dag Petrs postvla. Við þa vigslv var Eirecr stafangrs byscvp. er siþan var ærkibyscvp i þrondheimi eftir eysteín. En þriði var við vígslv thorlacs byscvps. Pall biorgyniar byscvp mikill scorvngr. oc vin hans alla ævi siþan. Thorlacr byscvp var scam̄a stvnd með erkibyscopi. siðan ær han̄ hafþi vígslv þegit. af þvi at han̄ vissi gerst. hve títt vera matti hans qvamv. til síns stols oc stiornar yvir sinv folki. En ær thorlacr byscvp var scilðr at samvistvm við ærkibyscvp. en þeir varo eftir aðrir með erkibyscvpi. þa spvrðv þeir byscvparnir hversv hanom hefþi þockaz thorlacr byscvp. Han̄ sagþi sva at han̄ þottisc engi byscvp þan̄ vigþan hava ær hanom þótti iafngerla með ser hava alla þa man̄costi ær byscvpinum ær scylt at hava. sem Pall postole segir í pistvla sínvm þeim ær han̄ sendi Tito. Byscvp hóvir at se sagþi han̄. lastvaʀ oc lærðr vel. dramblavss oc dryckio maðr lítill. orr oc orðfórr. scyrr oc scapgoðr. goðgiarn oc gestrisin̄. rettlatr oc raðvanðr. hreinlífr oc hagraðr. tryggr oc trvfastr. milldr oc maldiarfr. astsamr við alþyðv. en avitsamr við vrócna. Oc ma sia at þat er heilags man̄z at vera með þeim hætti. Ma ec yðr sva nocqve hellzt segia. segir ærkibyscvp. hversv mer hava virzt hans hættir. at æk mynda þvilict kiosa mítt lífs dógr et ófsta sem æk sa hans hvert. Oc ma nv þat sia hve vitr maðr oc glógsyn̄ han̄ hevir verit vm rað ens sæla thorlacs byscvps. Byscvp thorlacr reðz þa til scips með sitt foroneyti. oc þa ær þeir varo nalega bvnir. þa hloðv styrimen̄ skipit til vfórs af lavsa viðvm. oc tveim scipvm þeim er þeir tengþv vtan við vigin. þa geck byscvp a land vpp af skipino oc sagþi styre man̄vm at hanom þotti of mioc hlaþit vera. þa svaraþi ein̄[1] þeirra sa het makan. þv att ecki vetta i scipinv sagþi han̄ enda scallt þv eigi raða hversv hlaða scal. biscvp svaraði: Ec ferbyð yðr i gvðs nafni sagþi han̄. At hlaþa til vfórs. en ek fel yðr ahendi allra man̄a abyrgð. þeirra er með yðr fara. Steig þa siþan byscvp a scip. oc letv þeir þa við svabvit ihaf. oc er þeir[2] . . . . . . . . . . . . . . . man̄an̄a. rett oc blezat ær hafvð synd ær ælligar. ef þat var hervilega neist oc ranglega rascat.

---

1) tvíritað. 2) hèr vanta 4 blöð, sjá bls. 101.

En þav fe er meñ gvlldv firir vanhagi sina. let hañ alldregi við añvr fe. helldr lagþi hañ þav til þess. at þav hiv er vel forv saman. oc varv felavs mætti þa helldr saman vera en aðr. oc yrþi þeim þat þa nocqvot til sciols. oc yvirbóta siña vráþa. ær fein hofþv latit. Thorlacr byscvp ravf þav rað oll asínvm dagvm at logvm. ær hañ vissi at vlogvm raðin vera. hvart sem hlvt attv i stórri meñ eða smǽri. Eigi varð hañ við svma hofþingia með allv samhvga. þvi at hañ samþycþi þat eitt við þa ær vel samþi. þotti honom þat miclv meira niðrfall gvðs cristni ef gofgvm moñvm gafvsc storir hlvtir yvir. Virðdi hañ oc við þa eigi meiri varkvñ. ꜳt hepta sic eigi at vleyfþvm hlvtvm ær aðr hofþv bæþi mikit lan af gvði i avðræþvm oc mañvirþingvm.

Nv ær at segia fra hvers dags hattvm ens sæla thorlacs byscops. hve iafnlyndr hañ var at goþv ær hañ mælti alldregi þat orð ær eigi kǿmi til nacqverrar nytsemþar ef hañ var at þvi sottr. hañ var oc sva varr i sinvm orþvm. at hañ lastaði alldregi veðr sem margir gera oc enga þa hlvti er eigi ero lastandi. oc hañ sa at eptir gvðs vilia foro. hañ langaþi til ǿngra dǿgra. hañ qviddi oc engv vilgi[1] mioc nema imbrodogvm oc alþingi. af þvi alþingi at hanom þotti þar margr maðr verþa villr vega vm sín malaferli sa ær mikils var verðr. oc hanom mikit við liggia. En af þvi imbrodagvm. at hanvm þotti þat abyrgþar rað mikit. at vigia þa meñ ær til þess sottv langa leið. oc hañ sa allmioc vanfǽra til. bæþi firir lærdoms sakir litils. oc añarra hatta ser vscapfelldra. en hañ neñti þó varlega at varna bæþi firir sakir fatǿkis þeirra sialfra. (þa) eñ firir sakir þeirra maña ær þeim hofþv keñt. eþa sínar iarteinir hofþv til señt. Eñ sagþi hañ hveriom þeirra greinilega hvat hverri vigslv fylgþi til vanda. oc fal þeim þa sialfvm abyrgð ahendi oc þeim ær þa sendo. Thorlacr byscvp let opt keña keñingar. af þvi at hañ sa þat þo at eigi yrþi opt hlytt sva scynsamlega sem scylldi bocsagvm. at þo dvalþi þat þa vnytar iðnir firir morgvm moñvm. hañ var oc sva iafnlyndr i fostvm sinvm þa ær hañ var heima. en i vokvm oc i bǿna halldi hvart sem hañ var heima eþa eigi. at sva var sem til ens sama væri iafnan at ætla.

---

1) *vilgi*, áherðandi = harðla, sbr. Harb. ljóð 25. og Húsdrápu; annars ávallt neitandi: Þórsdr. 1., getsp. Heiðr. 49. og víðar.

hañ neytti sva litt fôzlv at eigi matti añat liclegra þyckia en hañ myndi þa optast við sciliaz ær hanvm þotti mest firir. Sva var hanvm vm dryck farit. at alldregi matti þat fiua at a hañ fengi þo at hañ hefþi þesskyns dryck en hañ var sva drycksæll. þa ær hañ veitti vinvm sinvm at þat ol brasc alldregi nalega ær hañ blezaði sia[l]fr siñe hendi þa ær gerþar beiddi. Hañ [var] oc sva vvandblôtr oc vinveittr at þeim veizlvm ær dryckior varo. at hañ sômþi við þat allt ær sômanda var oc eigi samþi illa. En ær thorlacr byscvp drack vatn eþa vafengiñ dryck. þa fór hañ sva stillelega með. oc með sva mikille bindendi at hañ savp a þria sopa. eþa fim̄. eþa siav. en nalega alldregi framarr. hañ drack oc nalega alldregi matmala i mille usivcr ef eigi varv alþyðv dryckivr. Thorlacr byscvp. . .

---

## V.

## Latinsk lesbókabrot um Þorlák biskup.

### 1.

...... [1]carnem suam castigare et seruituti subicere indefessus diuine legis executor sine intermissione satagebat. Tandem senio et longa egritudine fatigatus. sic ut supra dictum est. sui sacerdotii sanctum thorlacum successorem elegit dignissimum. Igitur kloingus episcopus sue etatis anno septuagesimo primo. cum iam scalotensi ecclesie prefuisset annis uiginti quatuor. die tercia kalendarum martii mensis. ab incarnatione domini millesimo centesimo sexagesimo nono[2] migrauit a seculo.

### De sancto Thorlaco episcopo et aliis episcopis nostris[3].

Sed qualiter beatus thorlacus ad summi sacerdotii gradum promotus sit. sufficienter in superiore huius operis libro expressimus. His igitur presulibus et eximiis plebis sibi commisse rectoribus scalotensis ecclesia uiguit? et usque ad sancti thorlaci tempora sicut modo comprobatur magis ac magis in suo statu amplificata et dignanter confirmata conualuit.

---

1) eptir AM. 386 (4to), 3 blöð mjög gömul (um 1200). Þetta sögubrot hefir verið í 2 bókum: 1. Um hina fyrri biskupa; 2. Um jarteinir Þorláks biskups. 2) 1169, þ. e. eptir Húngrvöku tímatali.

3) fyrirsögnin með rauðu letri. Þetta mun vera upphaf 2. bókar.

Jsti sunt precipui gregis dominici pastores et uerissimi patres patrie qui sue et suorum subditorum utilitati bene prouidentes. suos sequaces crebris ammonitionibus et bonorum operum ex[1] . . . . . ex intimis precordiis cum uoto sanctum cepit exorare thorlacum? ut per ipsius interuentum de lecto surgere. et perfectam sanitatem consequi mereretur. Post uotum repente doloribus cessantibus se sensit conualescere. et paucis interpositis diebus pristine sospitati restitutus? ea que circa se gesta erant cum magno gaudio paulo episcopo et multis aliis qui tunc aderant retulit[2].

## de mercatoribus[3].

Mercatores quidam cum per exitum aque, que arnarbeles oss dicitur. nauim suam ualde difficulter in altum mare perduxissent. et aptum uentum non haberent ad uelificandum cum uoto sanctum ceperunt inuocare thorlacum. ut ipso opitulante secundum suam uoluntatem cursum sui nauigii possent dirigere. Nec mora qui producit uentos de thesauris suis uentum eis prosperum prestitit? sed tamen hoc eis ad uelificandum moram fecit. quod magnam anchoram quam de naui miserant nulla arte de profundo extrahere poterant. Jterum naute suffragium a sancto presule expetere ceperunt? et subito eodem conamine quo prius non ualebant cum[4] . . . . . . . . . . . . . . . . . . olescens nauim cuius gubernator cum suis sociis ad locum qui eyrar dicitur tendebat. Sed illis nauigantibus cum ad exitum thiorsaici fluminis appropinquassent? subito uentus ualidus mare turbauit. fluctusque maris intumescentes nauim illam operuerunt. ac pene mergere ceperunt. Jam nautas illos de sua salute desperantes adolescens[5] ille de quo ante dictum est admonuit. ut in tam exitioso periculo pro sua liberatione sanctum inuocarent thorlacum. Quo illi audito omnes unanimi uoce beati thorlaci ceperunt inplorare suffragium. Mox uento cessante et maris iam magna tranquillitate facta. naute prospero cursu quantocius optatum subierunt portum[6].

---

1) vanta óvíst hvað mörg blöð. 2) það er óvíst hver þessi jartein er.
3) með rauðu letri. 4) vantar á að gizka eitt blað.
5) adolescentus, 386. 6) þessar tvær jarteinir sjá kap. 38, bls. 308—309.

Andlát Kristínar drotníngar[1]. Þá tók Sverrir konúngsnafn. [En þá er Guðmundr var xvij vetra gamall[2], þá rèðst Íngimundr prestr á brot af Greneaðarstöðum, ok fór Íngimundr til Staðar í Kaldakinn at búa við Þórarinn skinnfaxa[3], ok bjó hann þar ij vetr, en Guðmundr fór í Saurbê inn í Eyjafjörð til Ólafs Þorsteinssonar, ok var hann þar ij vetr, [en Íngimundr fóstre hans var at Stað; en þá inn fyrra vetrinn fèkk Guðmundr karlhöfðe vitron af guðe ok Agnete meyjo[4]. Þann vetr sat fyrstan at stóle hinn heilage Thorlakr biskup, ok þá fèll Erlíngr [jarl, ok Hlöðver Frakkakonúngr[5]; ok var í lög tekit[6] um sumarit [eptir af vitron Guðmundar, er fire hann bar[7], Ambrosiusmessa ok Ceciliomessa ok Agnesarmessa, en af teknir ij dagar í hvítadögum. Þau missere andaðist Hallbera Einarsdóttir; þá var ok gipt Guðný Þorgeirsdóttir Þorgeire biskupssyne[8], ok var boð þat á Hálse, ok vóro þar v. c. boðsmanna. Þau missere var bardage á Íluvöllum með þeim Sverre ok Magnúse. [Þá fèll fjall í Sogne[9]. En um várit, er Guðmundr var XIX vetra, þá bregðr Íngimundr búino, ok varðe fjárlut sínum til vöro ok êtlar til utanferðar, ok Guðmundr fóstre hans með honum. Þeir rèðust til skips at Gásum með Hallsteine kúlobak, ok lètu út enn nêsta dag fire Michalsmesso; þat var drottinsdag[10], ok leidde þat veðr þá norðr fire Gnúpa til Melrakkaslèttu, ok þá kom andviðre ok leggja þeir í rètt, ok velkir þá svá lenge, ok rekr þá vestr at Hornströndum. [En þváttaptaninn[11], er þeir vóru yfir náttverðe, þá sprettir sá maðr tjaldskörum, er Ásmundr hèt, hann var Austmaðr, ok verðr þetta at munne: [„hvis, þvis[12]! af tjöldin! upp menn, hart ok títt! boðar ero allt fire, [hrinde borðunum! hirðe eige um matinn[13]!" — Þá spretta menn upp allir ok kasta af sèr tjöldunum. Þá kallaðe Hávarðr stýre[maðr], hvar skipprestr vêre. „Skamt er hans at leita," kvað Íngimundr, „hvat vili þèr honum?". — „Vèr

---

1) [ v. í *B*. 2) [ v. í *B*. 3) Þann. *B*; sc'para (skinnfara?), *A*; skrifara, 394. 4) [ v. í *B*. 5) [ um vorit eptir, *B*.
6) af báðum biskupum með samþykki vitrustu manna hvárstveggja biskupsdæmis, b. v. 395. 7) [ v. í *B*.
8) Þann. *B*; Bersasyni, *A*. 9) [ v. í *B*.
10) árið 1180 var Mikaelsmessa á mánudag.
11) [ Einn aptan, *B*. 12) [hiss! Þis, *B*. 13) [ v. í *B*.

viljom ganga til skripta." Hann segir: „ekke er nú betra til skriptar at ganga en í haust, er ek hefe beðit yðr til hvern drottins dag fire guðs sakir, ok vildu þèr ekke því hlýða; nú varþar eige þótt guð skripte yðr, því at ekke er mèr sêr nêrr en yðr; verit nú hraustir ok úhrêddir". þeir svöroðo: „þá mantu, prestr, vilea beina[1] með oss suðrgöngu, eðr öðrum stórheitum, því at nú man ekke annat stoða". Hann svarar: „víst eige; ek man heita, ef ek skal ráða hverjo heita skal, eða elligar man ek mále taka fire alla íslenzka menn þá er á skipe ero, at alls enge skal í heitum vera með yðr at míno ráðe, þvíat ek vil eige [yðra forseá fire mèr, heldr[2] en þèr hafit hlíta vileat minne forseá í haust". þeir spurðo: „hverjo viltu heita láta, prestr?" — Hann svarar: „ek vil heita láta á allsvaldanda guð ok hinn heilaga kross, ok sêla *sancta Maria*, ok alla heilaga menn, at gefa it tíunda hvert hundrað af öllo því er á land kemr til kirkna ok fátêkum mönnum, eptir ráðe [biskups[3]" — „þá skaltu ráða, prestr, því at eige megum vêr missa þinnar forseá". þá ferr handfestr um allt skipit þeirra á millum at þesso heite; þá ero þeir komnir at boðunum mjök svá allt, ok er þá þrêta mikil með þeim hvat til ráða skal taka, ok vill sitt hverr; sumir vilea láta segl upp vinda, ok er til þess laupit. þá rêdde Hávarðr stýremaðr um við Íngimund prest, ef hann kynne nafn guðs it hêsta. Hann segir: „kann ek nokkurt nafn guðs, ok trúe ek því er segir Páll postule, at eige sè annat nafn guðs hêra en Jesús nafn eða helgara, en hitt veit ek eige, hvert þú kallar hêst". Hann svarar: „ekke kalla ek svá, ok þikke mèr slíkt ekke prestar, er eige kunna it hêsta nafn guðs". þá kallar hann á Hallstein stýremann ok spyrr: „kantu nafnit"? — „Veit guþ, at ek êtla mik nú eige muna þegar, ok er þat þó allilla, ok man þórðr kráka muna". þá [spurði Hávarðr þórð[4]: „kantu nafnit"? — þórðr segir: „því er verr fèlage! at mèr er or minne munat[5], en því er betr, at ek veit þann mann er kunna man, þar er þorbjörn humle". — „Já, já! vel, vel, [þorbjörn humla[6], nefn þú þá, ef þú kant". Hann segir: „guð veit, at ek vilda gjarna kunna, en ek êtla

1) heita, *B.* 2) [ framferð eiga undir yðvarri forsjó, *B.*
3) [ biskupa þeirra sem ráða skulu, *B.*
4) [ þann. *B*; s. þórð, *A.* 5) þann. *A* og *B.* 6) [ b. v. *B.*

mik aldri heyrt hafa þat nafn, en ek man vísa til þess manns, er ek êtla kunna, en þar er Einarr nefja". Þá var rêtt við hann, ok nefnir hann nafnit. En í því er þeir höfðo lypt segle af [búlka upp, varla[1] mannhátt[2], þá kemr áfall mikit fire framan búlka ok aptan, [ok dreif yfir búlkann[3]; þá hèlt maðr á hverjo reipe. Þá þreif Íngimundr hefils skapt ok vilde kippa ofan, en Guðmundr frênde hans átte bygð í báte, ok stóð hann á mille bátsins ok seglsins, ok skylde hann greiða seglit. En í því kemr áfall annat svá mikit, at yfir gekk þegar skipit, ok ofan drap flaugina ok af vígin bêðe, ok utanborðs seglit ok allt þat er laust var á búlkanum, nema menn, ok lestist mjök skipit ok svá bátr þeirra; þá hrindr þeim af fram boðanum, ok fá þeir áfall it þriþja, ok var þat minnst; þá var laupit til austrar bêðe fram ok aptr, en seglit var undit upp. Þá seá þeir land ok rêða um hvar þeir ero at komnir, kvóðust sumir komnir at Málmeyjo, en[4] Þórarinn roste, íslenzkr maðr, [kvað þá rekit hafa seint[5]. Þá segir Már Eyjólfsson, ok lèzt kenna, at þeir vóro komnir vestr at Hornströndum, at Skjalda-Bjarnarvík, ok kvaðst þar hafa verit áðr um sumarit. [Þá báðo þeir at hann munde segja þeim leið til hafnar, ok vildo[6] norðr fire til Þaralátrsfjarðar, því[7] at þar var örogg höfn[8]; var þá leitað, hvat til skaða hafðe orðit, ok kemr Íngimundr at Guðmunde fóstra sínum; en áfallit hafðe drepit hann inn í bátinn, en fótrinn hêgre hèkk út af borðino, ok var hann fastr í seglinu. Íngimundr spur, hví hann stêðe eige upp, en hann kvað svá þúngt á sèr, at hann mátte [eige upp standa[9]. Þá var lypt[10] af honum[11], ok mátte hann eige at heldr upp standa. Þá rêdde Íngimundr um, [hví hann stêðe eige upp[12], en hann segir, kvað sèr þúngt um fótinn, at hann mátte [sik eige hrêra[13]. „Man eige brotinn?" kvað Íngimundr. Hann sagði: „[eige] veit ek, ekke kenne ek til." Þá var athugat, ok var brotenn

1) [ búnka svá at varla var, *B.* 2) undir rá, b. v. *B.*
3) [ svá at fèll um þvert skipit, *B.* 4) þá svarar, *B.*
5) [ seinna hefir oss þá rekit, en ek mynda ætla, *B.*
6) [ þá bað hann, at þeir skyldu beita, *B.* 7) sagði, *B.*
8) en þeir báðu hann segja þeim leið þagat, b. v. *B.*
9) [ horgast eða upp komast, *B.* 10) rutt, *B.*
11) seglinu, b. v. *B.* 12) [ hvat honum væri, *B.*
13) [ hvergi horga, *B.*

fótrinn á borðe bátsins, svá smátt, sem skeleamole, ok horfðu þangat tèr er hèll skylde; þá lögðo þeir [hann] í bátinn ok bjöggu um hann; þá saknaðe Íngimundr bókakistu sinnar, ok var hon drepin[1] fire borð; þá þótte honum hart um höggvast, því at [þá var farit[2] ynðe hans er bèkurnar vóro farnar[3], en maðrenn sá meiddr, er hann unne mest; þá þakkaðe hann þat allt guðe, ok þótte mjök skjótt rèzt hafa draum þann, er hann hafðe dreymt áðr um nóttena: at hann þóttist koma til Eysteins erkibiskups, ok þótte honum hann fagna sèr vel, „en þó þikke mèr ekke fljótlikt um ferðina þína, ok segir mèr eige lètt hugr um," segir hann. En Guðmundr fóstre hans rèð dreyminn, ok sagðe, at þar munde koma erkibýsn yfir þá. En um daginn áðr þeir siglðe í boðann, þá tekr til orða Magnús Ámundason ok spurðe, hvar þeir boðar vère, [er Þúfoboðar heita, en þeir[4] segja þá vera fire Ströndum[5]. „Svá hefir mik dreymt til", segir Magnús[6], „at þaðra nèr munde vèr koma". En síþan er þeir höfðo þetta talat, þá urðo þeir varir við boðana. Nú hefr þá norðr fire Reykjarfell[7], en þá gengr eige lengra, ok fella þeir þá seglit ok kasta akkerum, ok [hrífa þau við[8] um síþir, ok liggja þeir þar um nóttina, en at morne flyteast menn til lands með viðum, ok höggva trè sitt ok streng [á borðe[9], en skipit rekr upp. Þá var rètt um, hversu fara skylde með Guðmund. Þá tekr til orða sá maðr er Berse hèt, ok var kallaðr valbrá[10], því at kinn hans önnur var kolblá, hann mèlte: „fire hví mundu vèr fara með fótbrotenn mann, þar er vèr megum eige seálfum oss bjarga, ok skjótum[11] honum fire borð." En Þórarinn roste segir: „mèlþu allra manna armastr! ok skylde þèr fire borð skjóta, ef vel vère, en hèr muno vèr leita annars ráðs," ok hleypr þegar fire borþ ok Einarr nefja[12], [en þá var skipit rekit upp, svá[13] at þeir stóðo grunn á landborða, ok lèto Guðmund síga ofan fire borðit í vaðmále, en þeir Þórarinn ok Einarr taka við honum, ok hèlt

1) lostin, *B*. 2) [ þar var, *B*. 3) v. í *B*.
4) þann. *B*; frá [ en þeir kvóðo þá heita Þúfoboða ok, *A*.
5) eða hví frèttir þú at þeim, b. v. 395. 6) þann. *B*; Íngimundr, *A*.
7) Reykjafjörð, *B*. 8) [ hrífr við línu akkere eitt, *B*.
9) [ fyrir borð, *B*. 10) þann. leiðr.; valbráð, *A*, *B*, 204, 395.
11) skjóti, *B*. 12) næpa, *B* hèr á þessum stað.
13) [ var þá svá skipinu ekit upp, *B*.

um sitt lêr hvárr þeirra, en hann hèlt sinne hende um háls hvárum þeirra. þá gengo sumir eptir at hlífa við áföllum, ok burgust[1] þeir svá til lands, at þá dró út at útsogum, en á skreið, þá er [brimit hratt at[2], ok kómust á land með hann; þá hallar skipino frá lande, ok skolar til hafs allt or skipinu, en skipit brýtr í spán, en lítið kemr á land af fearlut. þá bjó þar fire maðr sá er Snorre hèt, og var Arngeirsson[3], hann var lèknir góðr; hann tekr við Guðmunde, ok fêrir hann heim til sín, ok gerir við hann [sem hann] kunne bezt, en hann var þó fèlítill ok góðviljaðr. Margir kómu þangat or nêstum bygðum, ok vildo duga þeim ok fè þeirra. þá heitr Íngimundr prestr, at bókakista hans skylde á land koma ok bêkr; en v[4] nóttum síþarr spurðist, at kistan var á land komin at Dröngum heil, ok þar í allt þat er ván var, ok hèlt hespa ein, en tvêr vóru af brotnar; en allar kistur aðrar, þêr er á land vóru komnar, þá vóru brotnar, ok allt or þat er í hafðe verit. þá ferr Íngimundr þangat at þurka bêkr sínar, ok var þar allt til Marteinsmesso; þá fór hann aptr norðr at finna fóstra sinn, ok vita [hvat títt vêre um fót hans[5], ok var þá fótr hans festr. Eptir þat rèðst Íngimundr norðan, til Breiðabólstaðar[6] í Steingrímsfirðe, þar bjó þá Jón Brandsson, hann átte þá Steinunne Sturlodóttur ok[7] Íngibjargar þorgeirsdóttur, systurdóttur Íngimundar, ok taka þau við Íngimunde báðum höndum, ok er hann þar um vetrinn; ok er tvêr[8] vikur vóru til páska, þá kom Guðmundr norðan við þat er úte stóðo leggjabrotin, ok gekk hann við þat norðan, ok kom á Breiðabólstað at[9] *in passione domini*, ok varð Íngimundr fóstre hans honum feginn. þar er hann unz líðr paschavikuna, en þá mátte eige vera lengr svá gert um fót hans, því at úte stóð beinit, ok varþ því eige á brot komit, ok eige yfir grêtt; þá fór hann suðr á Reykjahóla á Reykjanes til Helga Skeljúngssonar prests; hann var ágêtr maðr ok hinn meste lèknir; hann átte þorgerðe dóttur Halldórs slakka[10] þóroddssonar ok dóttur Guðrúnar þorgilsdóttur Oddasonar. Helge tekr við honum, ok er [hann]

1) syndu, *B*. 2) [ atsogin voru, *B*. 3) Arngrimsson, 395.
4) fám, *B*. 5) [ hversu honum færi at í fætinum, *B*.
6) þann. *B*; Staðar, *A*. 7) dóttir, b. v. *A*, *B*, 204.
8) iij, *B*. 9) þann. *A*, *B*; sbr. bls. 154[35]. 10) skakkafóts, *B*.

þar til lêkníngar unz líðr fardaga; en brátt er hann kom þangat bakaðe Helge fótinn mjök, ok toguðu ij karlar beinit með töng áðr brot genge, en þá grêdde hann eptir, ok varþ hann heill nêr fardögum; en eptir fardaga ferr hann norðr á Breiðabólstað. Sá vetr var kallaðr sóttarvetr, er hann var á Ströndum; þá önduðust margir menn þeir er mikill skaðe var at: Björn ábóte at þverá, ok Styrkárr lögsögumaðr, ok Oddr prestr Gizurarson, ok Arnórr Kolbeinsson. þá tók Gizurr Hallsson lögsögo. [Orrosta við Norðnes, þar fèll Guthormr sindre. Kirkjubrune at Helgafelle[1]. þá vóro Deildartúngumál. Nú er Guðmundr XX. [vetra].

Frá Guðmunde Arasyne.

9. Um sumarit eptir þá ferr Jón Brandsson til gildis norðr til þíngeyra, ok ferr Guðmundr Arason með honum, því at Íngimundr fóstre hans vilde, at hann fêre á Háls til þorvarðs, ok var hann þar um vetrinn. En um várit, þá fýstist hann vestr aptr til fóstra síns, ok ferr hann norþan til alþingis með þorvarðe. þat sumar var kallat grasleysis sumar. þá um vetrinn áðr andaðist Valdemarr konúngr í Danmerk, sonr Knúts konúngs, ok þann vetr urðo landskjálptar, ok týndust xj. menn af því. [Sion hafit. Alexander papa andaðist. þá fèll Kolr Isaksson ok Viðkunnr Erlendsson[2]. þá hafðe Guðmundr vetr ok XX, er hann fór til þíngs; en af þínge um sumarit fylgir hann Jóne Brandssyne vestr í Steingrímsfjörð til Staþar.

[3]þat sumar fór hinn heilage þorlákr biskup fyrsta sinne um Vestfjörðu; en er hann kemr í Steingrímsfjörð, þá hefir hann gistíngarstað í Kálfanese, því at þá var [ú]vígð þar kirkja ok nýger; þar kemr mart gott mannval: þar var Ögmundr ábóte, [ok Ormr prestr Eyjólfsson[4], er fylgðe biskupe, ok þar var[5] þorsteinn Tumason, er síþan var ábóte, [ok þar var þorfinnr þorgeirsson[6], ok þar var Brandr Bergðórsson ok Jón son hans; þar var ok Íngimundr prestr þorgeirsson ok Guðmundr fóstre hans, ok þótte honum skemtiligra at eiga tal við klerka biskups, heldr en at vera at tíðum eða kirkjuvígslu. þá gengr Íngimundr prestr eptir Guðmunde fóstra sínum, ok mêlte við

1) [ v. í *B*. 2) [ v. í *B*. 3) *Spá Íngimundar, A* (16).
4) leiðr.; Eilífsson, *A*. 5) [ v. í *B*. 6) [ v. í *B*.

hann: „farðu til tíða ok kirkjuvígslu, ok hygg at vandliga, því at eige veit hverr til þarf at taka, en ek hygg sá er nema þarf, [at hann mune eige at betra manne nema[1] ok skynsamara, en þeim sem nú skal þetta embétte fremea hèr". þetta var tvefaldr spáleikr, því at hvártveggja kom fram síþan þat er í hans orðum bjó: at Thorlákr biskup var sannheilagr maðr, en Guðmundr þurfte þessa þjónosto at fremja. En um haustið eptir fór Íngimundr til skips í Hvítá, at kaupa varníng til sölu ok ágerðar[2], því at hann bjóst jafnan til utanferðar, sem síþan kom fram, þegar hann þóttist fêre á hafa, ok skildust þeir frêndr í Dölum, ok fèkk Sturla föroneyte Guðmunde norðr á Háls, því at Íngimundr sende hann þangat, en Guðmundr unðe þar þá eige lengr en hálfan mánoð, ok ferr þá þegar vestr aptr, unz hann kom á Breiðabólstað, ok er hann þar um vetrinn.

### Guðmundr sêkir Toll-Odd[3] til sektar.

10. þenna vetr var veginn Guðmundr Knattarson[4] at Kleifum í Gilsfirðe, hann var aldavinr Jóns Brandssonar, ok fèr hann til at méla eptir vígit[5] Guðmund Arason, ok sêkir hann þann mann til sektar fullrar, er Oddr hèt, ok var kallaðr Toll-Oddr. En [er] hann var sekr orðinn, þá tekr við honum Jón Húnraðarson. Guðmundr ferr af þinge vestr í Saurbê at heyja fèránsdóm á Staðarhóle eptir Odd, ok þaðan fór hann á Breiðabólstað at finna Íngimund fóstra sinn, ok er þar at kynnisvist, en þegar eptir þat êtlar hann norðr á fund vina sinna ok frênda til Skagafjarðar. Hann ferr þá, unz hann kemr í Hvamm at hitta Sturlu mág sinn, ok vilde vita, ef hann vill veita honum þat fulltíng, at leita at skógarmanne hans. En þá var þat tíðenda þar, at Sturla lá þá í banasótt, ok lifðe ij einar nêtr þaðan frá, er hann kom þangat, ok bíðr hann þar, unz hann dó, ok var greptr. þá var farit þat traust, er þar var áðr ván, en kapp hans var eige farit. Nú hugsar hann um, hvert hann skylde sèr traustѕ leita, til þess at þat genge fram, er hann vilde, ok eige yrðe at svívirþíng, þat er hann hafðe manninn sóttan,

---

1) [ mun eigi færi á gefa at nema at betra manni, *B.*
2) ávaxtar, *B.* 3) þann. *A*; *B*, 204, 395 og *St.* nefna hann Kollodd.
4) Bjarnarson, *B*, 204, 395, 220. 5) víginu, *B.*

ok hann legðe eige þá ábyrgð á sik, at hann firefêre vígslum sínum ok kennemannsskap; [ok snýr honum því í skap[1], at heita á guð almáttkan til fulltíngs sèr, ok heitr því, at gefa guðe þat fè, er hann tekr á sekt Odds, ok leggja ekke sèr í sjóð af, ok yrðe sêzt á málit, svá at honum yrðe eige at sáluháska.

[2]Þesse missere vóru Bêjar-Högna mál, þau er hann gipte Snélaugu dóttur sína Þórðe Böðvarssyne með tvöföldum meinum; en þann ráðahag bannaðe hinn heilage Thorlákr biskup með svá miklo guðs trauste, at hann gekk til lögbergs með klerka sína, ok lèt vinna eiða, at sá ráðahagr var í móte guðs lögum, ok þá nefnir hann sèr vátta, ok segir í sundr ráðahagenum, en forboðaðe þá alla, er þesso höfðo ráðit.

[3]Þetta sumar týndust [v. c. manna af hafskipum[4], ok var þat af því kallat ófara sumar. Þesse missere tók Sverrir konúngr Björgin ok átte bardaga á Íluvöllum[5]. [Andlát Ámunda biskups. Fall Hallvarðs mardráps ok enn fleire manna[6]. Nú hefir Guðmundr ij. vetr ok xx.

### Guðmundr fór til hestaþíngs.

11. Eptir andlát Sturlu fór Guðmundr unz hann kom til Þíngeyra; þar var fire Þorgrímr alikarl, vinr hans ok fóstbróðir; hann biðr at Guðmundr skylde fara með honum vestr til Vazenda í Vestrhóp til hestaþíngs, en hann svarar: „ek veit eige hve vel þat man duga, því at þar munu koma þeir menn, er mèr er lítið um, Oddr skógarmaðr minn ok þeir er hann halda; nú er mèr þat skapraun at seá þá, en þó skal ek fara með þèr, ef þú vill, ok man guð til gêta". Nú fara þeir, ok ero á mannamótinu. Þar kemr Jón Húnraðarson með rê[n]íngjasveit mikla ok [gys mikinn[7], þar var ok Toll-Oddr enn seke; þar kom ok Þórðr Ívarsson frá Þorkelshvále, ok menn með honum. Þar kom Bjarne Hallsson ok margir Miðfirðíngar[8]

---

1) frá [ b. v. *St.*; — en sá guð, er hann hafði valit sèr til þjónustumanns, andaði honum því í brjóst, *B.*

2) *capitulum, A* (18).

3) *ófara sumar, A* (19).

4) [ v hafskip, *B.*

5) sjá Sverriss. kap. 72; Illivöllum, *A.*

6) [ v. í *B.*

7) [ vóru þeir gemsmiklir, *B.*

8) þann. *B*; Misfirðingar, *A.*

með honum. þar skilr á Toll-Odd ok Húnröð, systurson Jóns, ok laupast þeir í móte, ok höggr Húnröðr til Odds, ok verðr hann sárr á hende; [þá verðr Jón óðr við, ok vill vinna á Húnröðe frênda sínum[1]. þá verðr þröng mikil, ok þá höggr Húnröðr í annat sinn til Odds, ok verðr at mishöggum son Jóns, er Eyjólfr hèt, ok fèkk þar bana, ok þar vann Húnröðr[2] á húskarle þórðar Ívarssonar, er þórðr[3] hèt. Mart manna varð þar sárt. Nú skipte þar svá um, at Guðmundr fór við þat af mannamótinu, at guð hefnde óvinum hans svá mjök, at Jón lèt son sinn þar fire sakir Odds, en Oddr varð sárr mjök, ok lutust þesse vandrêðe öll af Odde; en guð gêtte svá Guðmundar, at hann lagðe til þessa harks hvárke orð nè verk. Hann ferr síþan norðr til Staþar til þorgeirs biskupssonar, ok er með honum um vetrinn í svá góðu yfirlête, at hann sagðe þat síðan, at honum hefðe enge óskyldr maðr jafngóðr verit sem þorgeirr.

[4]Um várit eptir vóro mál tilbúin á hendr Jóne Húnraðarsyne um áverka, af þórðe Ívarssyne, ok varþ Jón sekr um várit. En at málum veittu þeir þórðe: Brandr biskup ok þorgeirr son hans, ok frêndr þeirra ok vinir, ok fjölmenna þeir norðan um sumarit til fèránsdóms, ok urðu mál þau lagit í dóm Brands biskups ok þorgeirs sonar hans. En þorgeirr sagðe biskupe, at hann kvað skyldu þat nema við sêttum, ef eige fylgðe þar mál Guðmundar um sekt Odds ok um bjargir, ok sýnde hann svá mikla ást við hann í þesso mále, at enge kostr var elligar sêtta, ok var með því móte sêzt á þat mál, ok gerðo þeir Brandr biskup ok þorgeirr.

Á þessom misserom varþ þat til tíðenda, at þá fèll Magnús konúngr Erlíngsson, ok þá andaþist þorgrímr Knútsson, Tume Kolbeinsson. [Fêrt kanoka setr til Helgafells or Flatey[5]. þá brann bêr á Möðruvöllum ok á Bakka í Miðfirðe. þá hafðe Guðmundr iij vetr ok XX.

Guðmundr prestr fór at heimboðum suðr á Nes.

12. þetta sumar fór Guðmundr Arason til alþíngis ok af þínge suðr á nes til Magnús Ámundasonar ok þorfinns, er

1) [ Jón vildi hefna sín á Oddi, *B*. 2) h'i, *A*; Jón, *B*.
3) þóroddr, 395, 220. 4) *sæzt á mál Jóns*, *A* (21). 5) [ v. í *B*.

síþan var ábóte; fór hann þá at heimboðum, ok með honum Gellir prestr Haustkullzson, ok var hann því ekke staddr við sáttarfundinn at Ásgeirsá. En er hann hafðe verit at kynnisvist suðr þar, þá ferr hann norðr til Staðar til þorgeirs, ok er þar þau missere, ok svá Íngimundr fóstre hans; en um várit eptir bregðr þorgeirr búe síno ok snýr til utanferðar; hann rèðst til skips í Eyjafirðe, þat skip átte Ögmundr rafakollr, hann var faþir Helga er síþan var biskup á Grênalande; þar rèðst til ferðar með honum þórálfr prestr Snorrason ok þorsteinn, þorkell Eireksson, ok mart annat íslenzkra manna. þat sumar ferr utan á öðro skipe Karl ábóte ok Íngimundr prestr þorgeirsson, ok Ögmundr þorvarðsson, ok mart annat íslenzkra manna. þá átte bú at Stað sá maðr er Hesthöfðe hèt, [ok var Gunnarsson ok Guðrúnar Sêmundardóttur, systur Brands biskups. [þenna vetr áðr andaðist Páll Sölvason, Einarr þorgilsson ok Skegge Markússon. Fórst Grênalandsfar, ok[1] þesse missere hófst Jón kuflúngr, ok þá týndist skip Einars kata[2], ok mart annat góðra manna með honum, allra heilagra messodag, ok þenna vetr hljóp skriþa[3] austr í Geitdal, ok fórust í xviij menn. Nú hefir Guðmundr iiij vetr ok xx.

### Guðmundr vígðr til prests.

13. [þetta vár um langaföstu[4] þá var Guðmundr vígðr til prests af Brande biskupe iiij nóttum eptir Gregoriusmesso. Íngimundr fóstre hans gaf honum bêkr þêr allar, er hann átte beztar ok fróþastar, ok messoföt at skilnaðe þeirra, ok skilðist hann svá við hann, at hann var prestr ok fullkominn í lêrdóme ok góðum siðum, ok fóro þá á brot þeir ij. menn, er hann unne mest: Íngimundr ok þorgeirr; en þó hugðo þeir, at eige munde verða svá langr skilnaðrenn sem varð. [Nú fara skip þesse bêðe or Eyjafirðe ok taka Noreg, ok koma at norðr, ok ero bêðe í þrándheime um vetrinn[5]. þorgeirr biskupsson var með erkibiskupe um

---

1) [ v. í *B*. 2) kakta, *B*. 3) snæskriða, *B*.
4) [ þann. leiðrètt; þetta var um langaföstu, *A* i enda kap. 12.
5) [ þessi skip bæði kvomust til þran[d]heims, *B*; 395 b. v.: þá var Sverrir konúngr yfir Noregi, hafði einu ári áðr fallit Magnús konúngr Erlíngsson; stóð þá góð sætt meðal konúngs ok Eysteins erkibiskups, sat hann heima at stóli sínum.

vetrinn, en Íngimundr prestr hafðe bêarsetu, ok var honum gefin Jónsstúka at Kristskirkju til söngs, en var hátíþir allar, jól ok pascha, með erkibiskupe, ok hafðe af honum virðíng, sem þeir er mesta höfðo.

[1]En um várit eptir pascha þá ferr Þorgeirr út híngat til Íslands ok fèlagar hans allir, en Íngimundr prestr er eptir í Norege ok tekr kirkjo til söngs [á Staðe, Mario kirkjo[2], ok var þar ij vetr, ok var þat til marks, hversu erkibiskupe reyndist hans lêrdómr, at þá er Jón biskup enn fyrre, er Knútr var kallaðr, andaðist á Grênalande, þá vilde Eysteinn erkibiskup vígja Íngimund þangat til biskups. [En í því mátte seá metnot hans, at hann vilde þat eige[3]. Þenna vetr, er Íngimundr var utan fyrstan, þá var Guðmundr at Hofe með Gríme máge sínum, þíngaprestr. Þenna vetr andaðist Böðvarr Þórðarson ok Þorvarðr inn auðge. [Runólfr biskupsson[4]. [Þá var Guðmundr hálfþrítugr[5].

## Andlát Þorgeirs, sonar Brands biskups.

14. Um sumarit í hafe tók sótt Þorgeirr biskupsson, ok liggr unz þeir taka land á Eyrom, ok þá tekr at nýjo at vaxa sóttin, er hann kemr á land. Hann andaðist ij. nóttum eptir[6] Mariumesso ena furre[7]. En vinir hans ok frêndr taka þat ráð, at fêra lík hans norðr til Hóla, ok spyrr Brandr biskup eige andlát hans fyrr en þeir koma norðr til Hóla með líkinu. Þesse tíðende þóttu allmikil frêndum hans ok vinum, en biskupe þó mest, því at hann var allvinsêll. Þat váttaðe ok síðarr Guðmundr Arason, at hann hefðe engis manns þess mist, at honum þêtte jafnmikit at missa, ok þat fèll honum svá nêr, at náliga mátte kalla at hann skiptist í annan mann at mörgu eðle síþan. Hann var þá vistum at Hofe þau missere. Hann görðest þá mikill trúmaðr í bênahalde ok tíðagerð ok harðrètte ok örlête, at sumum mönnum þótte halda við vanstille, ok êtloðo, at hann munde eige bera mega allt saman, harþlífe

---

1) *Frá Íngimunde preste, A* (24).

2) [ Mariukirkju á Staði, *B* (á staðnum, 204).

3) En Íngimundr prestr vildi þat víst eigi, at taka svá mikinn vanda á sig, *B*.

4) [ v. í *B*.

5) [ b. v. *B*.

6) fyrir, 204, 395.

7) síðari, *B*.

sitt ok óynðe af andláte þorgeirs. Hann tók ok til kenslu prestlínga, ok var þat athöfn hans hversdagsliga tiða á millum, at kenna ok rita. Hann var ok at kirkju mikinn luta nátta, bêðe öndverþar nêtr ok ofanverþar, ok gekk til skripta ávallt, er hann náðe kennimönnum; en þá er þat varþ eige svá þjokkliga[1] sem hann vilde, þá tók hann þat ráð, at [hann] reit eptir hvern misgerníng[, svá sem hann gerðe, ok sende Brande biskupe á laun[2]. Hann skoðaðe ok rannzsakaðe bêkr manna þar sem hann kom, ok hende[3] af hvers bókum þat er hann hafðe eige áðr. Öllum mönnum þótte mikils vert um trú hans, ok þeim öllum mest, er vitrastir vóru. Marga lute tók hann þá upp til trú sèr, er enge maðr visse áðr, at nè einn maðr hafe gert áðr hèr á lande; en í annat sinn þóttust menn mestan mun á hafa fundit, at skiptist skap hans: vetr þann, er hann lá á fótbrotum á Ströndum, því at þá unðe hann sèr hvárki nótt nè dag, þar til er hann hitte fóstra sinn, ok kom þaðan af nokkut við á hverjum misserum til siðbótar honum ok skilníngar[4], at náliga þótte hann allr maðr annarr í atferð sinne, en fyrst þótte áhorfast, er hann var úngr. þat fylgðe ok þesso, at mörg merke urðo at vazvígslum hans ok yfirsöngum þá þegar, þau er mönnum þótte mikils um vert, ok honum var til styrkíngar ok vinum hans ok frêndum, ok þat mátte á finnast, at guðe líkaðe vel atferð hans. En alþýða manna sýnde þat í því, hver[5] efne í þótto um atferð hans, at honum var þat kenníngar [nafn] gefit, at hann var kallaðr Guðmundr inn góþe. En þat varð, sem hvörvetna er vant, at eige lagðe jafnt í þökk við alla, þótt góðo vêre til varit. Sumir þökkuðo guðe, þeir er þurfendr vóro, ok bêðe höfðo gagn af andlikt ok líkamlekt, en sumir öfundoðo þat, er þeir vóro minne nyteamenn af meirum êttum[6], heldr en hann var. En hitt skilðe þó myklo meira, er þeir skyldo af sealfum sèr taka í trú ok meinlêtum ok ást við guð, því at þeir sá sik hvern dag úlíka hans atferðum, því at hvert vár fór

---

1) jafnliga, *B.*

2) [ *til minnis, svá at hann mætti því greiniligar játa, þá er hann fyndi sinn skriptaföður*, *B.*

3) skrifaði sèr, *B.*

4) [ ok þar kom, b. v. *B.*

5) hvers, *B.*

6) efnum, *B.*

því fram, at eytt var kaupe því öllo, er hann tók, ok gaf þat til matar ok klêða fátêkum mönnum ok frêndum sínum, ok vóro þat vij. úmagar, er hann fêdde með þesso. Nú var bêðe þess í leitað, at honum vêre úhêgra, ok mêtte hann minna at hafast til þurftar öðrum, af þeim er hann öfundöðo[1], ok skipt var þíngunum við hann, ok skylde hann þau hafa, er fèminnst vóro; en þá kallaðe Brandr biskup til bóka ok messofata í hendr honum, ok kallaðe staðinn eiga at Hólum arf eptir Íngimund prest. En þeir fengo hvárke hnekt örlête hans nè meinlêtum, ok fannst þat á, at guð var honum fulltíngjande, því at nakkvat bar þat til ávallt, af góðra manna fulltínge ok guðhrêddra, at hann fèkk því haldit[2], sem hann hafðe upp tekit.

[3]Þesse missere varð mart til tíðenda: þá var Jórsalaborg unnin af Serkjum, svá at allir kristnir menn, þeir er þar vóro áðr, [þá var annathvárt, at þeir urðo at flýja, eðr vóro drepnir ella[4], ok allr kristinn dómr niðr brotenn. Þá dró myrkr fire sólena um daginn, svá at margir menn úvitrir ætluðo at heimslit mundo verþa. [Þá andaðist Þorkell Geirason. Deild á Vöðla þínge[5]. Sá var kallaðr fellevetr, ok kom grasleyse mikit eptir um sumarit ok óáran, ok kom ekke skip til Íslands af Norege. Þá hafðe Guðmundr Arason vj. vetr ok XX.

Guðmundr prestr ferr á Miklabê.

15. Um várit eptir ferr Guðmundr á Miklabê at vistafare til Auðbjarnar, ok var þar ij. vetr, ok hèlt hann hinum sömum háttum öllum, sem hann hafðe upp tekit, ok vêr höfum áðr sagða. En hin fyrre missere[6], er hann var á Miklabê, þá andaðist Eysteinn erkibiskup; [þá hafðe hann vígðan Jón til biskups, Sverris fóstra, til Grênalands. Fall Jóns kuflúngs[7]. Þá hafðe Guðmundr vij. vetr ok XX. En hin síðarre missere, er hann var á Miklabê, þá andaðist Heinrekr konúngr á Englande. Þann vetr var Jón Grênlendínga biskup á Íslande í Austfjörðum. Þá druknaðe [Ögmundr][8] ábóte um várit, ok þá andaðist Karl[9] ábóte.

---

1) öfundu, *B*. 2) valdit, *B*. 3) *Hèr segir frá tiþindum*, *A* (26).
4) [ vóru annattveggja drepnir eða urðu at flýja, *B*.
5) [ v. í *B*. 6) *B* missari (næstum ætið). 7) [ v. í *B*.
8) b. v. *B*. 9) þann. *A* og Skálh. ann.; Kári, 204, *St.* og Konúngs ann. og mun það rèttara. *B* hefir „Ka" síðast í línu, og hefir gleymzt að lykja nafnið í næstu línu.

Kuflúngar tóku fè Íngimundar prests.

16. Þesse missere var Íngimundr prestr í Norege, með konu þeirre, er Brynhildr hèt, ok svá reyndist öllum enum vitrostum mönnum, ok hinum göfgustum mönnum, hvar sem hann kom, at þess at merkri var hans atferð, sem hann var kunnare, ok fèkk hann þar góþar virðíngar af Jóne kuflúnge ok hirðmönnum hans. Þat bar þá ok vel til, at þar var þá í hirðvist Ögmundr Þorvarðsson, ok hafðe hann mikla virðíng; hann tekr báðum höndum við Íngimunde, föðurbróður sínum, ok bauð honum allt sitt fulltíng, þat sem hann mátte. En um várit áðr þá hafðe Íngimundr prestr farit vestr til Englands kaupferð, ok kom vestan at hauste, ok fór þá til Björgynear. En er þeir koma af Englande með mikille gêzku víns ok hunangs ok hveitis, ok margs annars, þá vilea hirðmenn konúngs upp taka fire þeim ok rêna þá. Ögmundr gengr þá fire konúng ok segir honum svá: „þat munde satt vera, ef Ínge konúngr lifðe, þá munde hann víge láta verea bróður Þorvarþs, föður míns, ef hann kême á vald þeirra, ok svá[1] Magnús konúngr, fire sakir Ara. Nú vêntum vêr þess, herra, at þèr munut svá gera fire þeirra [sakir ok várar[2], at láta fè hans frið hafa". Konúngr segir honum: „vel segir þú, Ögmundr, skal ok svá vera, at hverr peníngr skal sá frið hafa, er hann á, ok gakk seálfr til með frênda þínum, ok skal hann [hèr vera vel kominn með[3] oss". En við þesse orð konúngs gekk Ögmundr til skips með hirðmönnum, ok segir ummêle konúngs. Ganga þá hirðmenn at víntunnom stórum, er kaupmenn átto, ok spurðo hverir êtte, en Íngimundr kende sèr iiij. eða v, ok svá annat þat er þeir spurðo eptir, þar til er þá grunaðe, at hann munde eige svá auðigr maðr vera, sem hann segir, ok mêlto við hann: „nú seám vêr prett þinn, at þú munt kenna þèr þat er aðrir menn eigo, ok nenno vêr eige at missa alls". Síþan tóko þeir tunno eina, ok hlutaðist svá til, at þá átte Íngimundr; þeir tóko xvj. álnir klêðis, þat var brúnat at lit, er átte Íngimundr prestr. En þá vilde hann eige segea, ok vilde heldr missa, en þá skilðe á. En klêðit var gersime. Eptir þat leitaðe Íngimundr sèr herbergis, ok er hann þar nú um vetrinn; ok er á leið nokkut á vetrinn, þá berr þat við, at

1) it sama, b. v. *B.* 2) [ skyll ok mína, *B.*
3) [ guði velkominn ok, *B.*

hann kennir klêðe þau í kyrtlum hirðmanna, er hann hafðe rêntr verit um haustið. Þeir höfðo kyrtla hálflíta, hálfa rauða en hálfa brúnaða. Hann [bað þá[1] þó láta kyrt vera „ok vil ek ekke hark láta af verða", segir hann; kvað sik eige mundo fè skorta meðan hann lifðe.

Dráp Bjarna[r] ok hans sveitúnga.

17. Björn[2] er maðr nefndr, ok var kallaðr bríkarnef, hann var gestahöfðinge; hann hafðe verit fire ráninu við Íngimund prest, þá er hirðmenninir vildu upp gefa. Þat berr við um dag einnhvern, at Ögmunde bar fire augo þá menn, er gengo í kyrtlonum, þeim er af klêðe Íngimundar vóro. Hann segir frá vinum sínum, Bárðe salo ok Pètre glufso ok Eindriða, ok mêlte við þá: „eige ero góð efne í. Mèr bar þat [fire][3] augo, at Björn bríkarnef ok sveitúngar hans [gengo í h[álflit-um] kyrtlum, hálfir brúnaðir en hálfir rauðir, af sk[arlate, ok] kenne ek þar kyrtla-klêðe þau[4], er Íngimundr prestr f[öður-bróðir minn var] rêntr á hauste". [Eindriðe segir: „fire hverja sök lætr þú þá kyrt vera ok kallar eige til"? — Ögmundr svarar: „eige vill hann sjálfr heimta láta, því at hann vill, at ekke illt gerist af[5]. Eindriðe segir: „þat skal aldri vera", s[egir hann, „at svá vándir menn[6]] skyle ganga yfir oss, ok gera oss slíka sk[apraun ok vinum várum[7]], ok skulum vêr at víso eptir leita, [þótt hann vili eige um hirða. Spretta upp þe]gar[8] ok ganga út ok taka eyx[ar í hönd sèr] . . . ok Ögmundr með þeim; ganga til drykkjastofu þeirrar, er Björn bríkarnef drakk inne ok gestasveit með honum, [nêr XL[9] manna, en þeir vóro iiij einir, ok vilde Eindriðe þegar at þeim, en Pètr[10] kvað þat eige hêfa, þar er fire vóro XL. manna, en þeir vóro iiij einir, ok bað þá heldr bíða unz þeir gange út. Þá berr svá til, at þeir gengo út með Birne or drykkjostofunne iiij, sem valdir vêre til, er [kleðin þesse báru[11]. Eindriðe höggr Björn bana-

1) [ talar við Ögmund bróður sinn, en bað hann, *B.*
2) þann. *B*, 204, *St.*; *A* hefir ýmist Björn eða Bjarni.
3) rifið af horninu af blaðinu; það sem stendr milli [ ] er sett af getgátu.
4) [ gengu í hálfskallaz klæðum þeim, er hálf eru skoren or klæði því, *B.*
5) [ eptir *B*; en hlaupið yfir í *A* til: „Eindriði svarar" á seinna staðnum.
6) eptir *St.* 3, 7. 7-8) eptir *B*, 204. 9) [ var mjög L., *B.*
10) Bárðr, *B.* 11) [ klæðit báru Íngimundarnaut, *B.*

högg; en þeir Bárðr ok Pètr ok Ögmundr vágu hina iij, svá at ekke varð viþrnám. Þá kveðr við gestalúðr, ok samnast þeir saman nêr cccc manna. Þá koma tíðenden fire konúng, ok kveðr þá við hirðmannalúðr. Þá segja hvárirtveggjo konúnge sögo sína; en þeir Bárðr ok Pètr vóru náfrêndr Eysteins erkibiskups, ok virðe konúngr þá svá mikils í þesso mále, at hann gerir á brot sveit þá alla, er at ránino hafðe verit með Birne, frá fylgð við sik, en þeir Ögmundr tóko klêðin[1] til sín, ok var þetta mál kyrt hèðan frá, svá at engar vóro deilur um þetta. En um várit eptir þá rèz Íngimundr prestr til skips þess, er kallaðr var Stangarfolinn, ok bjóst til Íslands or Björgyn. Þar var á skipe Bergðórr, son Þórþar Ívarssonar[2] ok mart íslenz[kra] manna ok norrênna, góðra drengja. En skip þat kom í óbygðir á [Grênalande], ok lýkr þar svá um ferð þeirra, at þar týnast allir menn. En [þat varð svá v]íst, at xviij[3] vetrom síðarr þá fannst skip þeirra í ó[bygðum, ok þá f]undust menn vij. í einum hellisskúta. Þar var Íngimundr [prestr; hann var heill ok óf]úinn, ok svá klêðe hans, en vj. manna bein vóro [þar hjá honum, ok vax, ok r]únar, þêr er sögðu atburð lífláts þeirra. [En þetta þótte mikit merke] hverjum [manne], hve guðe hafðe líkat [hans atferðe, er hann skylde svá len]ge hafa legit úte með heilum líkama ok ósköddum. Þat sumar, er týndist Stangarfoli, þá kom utan af Grênalandi Ásmundr kastanraze. Þá hafðe Guðmundr viij vetr ok XX.

Fireburðr.

18. Þá er Guðmundr prestr var vistum á Miklabê, þá átte hann brotsöng á þann bê er á Marbêle heitir; þangat söng hann einn hátíþardag. Þar bjó vitr kona ok skynsöm, er Hallfríðr hèt, ok var Ófeigsdóttir; hon var stödd hjá messo Guðmundar prests, ok hugðe at sèr vel um messuna, sem jafnan var hon vön. Ok er lokit var guðspjalle, ok hann snerist utar, ok sagðe: *Dominus vobiscum*, þá sá hon eld fara or munne honum í lopt upp, miklo bjartara en hon hefðe sèt slíkan furr, ok þóttist hon vita, ok allir þeir er hon sagðe frá, at þat var heilags anda eldr, er hon ein hafðe sèt.

---

1) Íngimundarnauta, b. v. *B.*

2) þann. *A*, 220; Márssonar, *B*, 204.

3) fjórtán, *B.*

[1]Eptir þetta ferr hann af Miklabê ok í Viðvík, ok er þar um vetrinn með Máfe Finnssyne. Þat var eitt sinn um vetrinn at Márs, at Guðmundr prestr var í kirkju úte at bên sinne, ok kemr Már bónde gangande til kirkju. En er hann kom í kirkju, þá sá hann, at fugl lítill fló upp af öxl Guðmunde preste í lopt, ok hvarf honum þá. Hann þóttist eige vita, hvat fugla þat var, því at hann var óvanr at seá [heilagan anda[2]. Þessom atburð varð hann svá feginn, at hann virðe hans athêfe þaðan frá ólíkt annarra manna athöfnum sem vóro, ok var þaðan af miklo betr við hann en áðr hafðe hann verit.

[3]Þau missere týndist skip Ásmundar kastanraza[4], ok fóro þar margir íslenzkir menn, þeir er mikill skaðe var at, ok þá andaðist Karl ábóte[5] ok Eiríkr jarl. [Fall Simunar Kárasonar. Þá andaðist Hallr ábóte ok Helge biskup. Halldóra Brandsdóttir. Druknun Þorsteins Gyðusonar[6], ok þá var bardage mikill í Vík austr. Nú er Guðmundr prestr vetri miðr en þrítogr[7].

Guðmundr prestr fór í Svarfaðardal.

19. Um várit eptir sende honum orð kona sú er Arn-

1) *Enn fireburðr*, *A* (31).

2) [ þesshåttar fugla, sem menn trúa, at þessi muni verit hafa, *B*.

3) *Týndist skip Ásmundar*, *A* (32).

4) ok allir þeir menn er á skipi höfðu verit með honum, b. v. *B*.

5) þann. *A*, *B*, líklega af ógáti, því tveim vetrum fyrr er getið um andlát Karls (Kára?) ábóta.

6) [ v. í *B*.

7) hér skýtr *St.* inn sögu Guðmundar dýra. Híngað að er 204 alveg sem *St.* 2, 39.—3, 8.; en héðan frá sem *St.* 3, 32—33 og 35—36, en sleppir þó greininni í kap. 32: „son Guðmundar griss — systir í Kirkjubæ"; þá sem 3 *B.*, 7—19 (I, 208—223) að orðunum: „að ganganda fé"; þá sem 4, 1—3 og 5—8, að orðum: „til sætta við biskup"; þá sem 4, 11 og 23—24; þá upphaf 26. kap.: „þenna vetr" — „á Helgastöðum"; þá niðrlag 27. kap. frá: „Arnór Tumason skipaði"; þá niðrlag 28. kap. frá: „þenna sama vetr"; þá kap. 29—32; þá 41. kap.; þá úr kap. 44, orðin: „þá kom skip — til stóls síns". Þá upphaf á kap. 47: „Sumar þetta — í annat sinn". — Þá 5, 8. kap.; þá upphaf á 5, 13: „Guðmundr biskup kom norðan — með mikla sveit". Þá úr kap. 14: „en af þingi fór hann vestr um sumarið ok [Guðmundr bisk. fór *o. s. frv.*, *St.*] út um sveit — ok svo í sýslu sína"; þá 5, 19: „þetta haust kvámu — um vetrinn"; þá 5, 23: „Fór Sturla þá suðr — í Norðrlönd"; þá 5, 49. Því næstr kemr jarteinakafli fram að 1319, sem ekki finnst í Sturlúngu, og síðast, sem viðbætir, sagan um hrút Kolbeins, um Einar fork, og Rannveigarleiðsla síðast, og endar sagan á orðunum: „Hákon og Hildibrandr".

þrúðr[1] hèt, er bjó á Völlum í Svarfaðardal, at hann skylde ráðast til vistar þangat ok umseár með henne; hon var Fornadóttir, ok frêndkona hans; hon var ekkja ok átte sono únga. Bónde hennar hèt Eyjólfr, sá er hana átte síþarr, ok átto þau ij suno; hèt annarr Brandr en annarr Klêngr. Annarr maðr hafðe átt hana fyrr, sá hèt Snorre, þau átto ok ij suno, þorsteinn ok Snorre. Nú rèzt hann þangat til vistar með henne. [2]Snorre bónde hennar enn fyrre, hann var veginn af austmanne þeim er Ólafr hèt, en þat var til saka, at austmaðrenn átte fè at húskarle Snorra, þeim er Skegge[3] hèt; en húskarlinn átte ekke til at gjalda fire sik, en Snorre vilde eige gjalda fire hann. þá vegr austmaðrenn Snorra fire þessa sök, um várit þann dag er hann fór á brot af vist sinne. þá ferr austmaðrenn á fund Önundar[4] þorkelssonar[5] á Laugaland[6] ok sêkir hann at áseá. Hann tekr við honum ok kemr honum utan, [en semr svá málit eptir[7], at þau fá fire þetta enga sêmð, ok var þetta upphaf til saka þeirra, er Arnþrúðarsynir vóro at brenno Önundar. þá var Arnþrúðr ólètt er Snorre bónde hennar var veginn, ok fór hon þá með svein þann, er hon lèt heita eptir föþur sínum, ok var kallaðr Snorre. En er Guðmundr rèzt þangat, þá átte hann bú hjá á einum bê, ok er þar lið hans þau missere. En fursto missere, er Guðmundr prestr var á Völlum, þá andaðist Ormr [Jónsson múnkr[8]. [Tveir flokkar hófust, annarr í Orkneyjom en annarr í Vík austr. Breiðskeggr drepinn[9].

[10]Önnur missere eptir varð sá atburðr út í Flateyjo, at þar êrðist kona ok varþ í bönd at fêra. þá var heitið fire henne mörgo, ok batnaðe ekke við þat. Prestar vígðo henne vatn, ok margs var í leitað, ef henne mêtte batna, ok varþ þat ekke[11]. þá dreymðe konu eina um nótt, þá er yfir henne

---

1) þann. *B* (sjá sögu Guðm. dýra); Arnfríðr, *A* hèr og viðar.
2) *Víg Snorra*, *A* (34). 3) þann. *B*; Snorre, *A*.
4) þann. *B*; Ögmundar, *A*. 5) þorgrímssonar, *B* rangt.
6) þann. bæði *A* og *B*; sbr. *St.*
7) [ ok lamdi svá niðr eptirmálit, *B*.
8) [ Svínfellingr Jónsson, faðir Sigurðar ok Sigmundar, *B*.
9) [ v. í *B*. 10) *Frá vatni Guðmundar prests*, *A* (35).
11) við ekki, hvárki við vatnvígslur presta nè annat, *B*.

sat, at henne þótte [sél María drottníng[1] koma at sèr ok méla við sik: „hví sêtir þat, at þèr erut svá óráðleitin [í atgerðum við konu þá ena óðu, er hèr er[2], ef henne mêtte batna"? — Hon þóttist svara: „margs þikkjumst vèr í leita, en hver ertu, er þú tekr svá á, at þú þikkist vita, hvat til liggr"? — Hon segir: „hèr er Maria, guðs móðir, er þèr hafit á heitið; nú man ek kenna yðr ráð til, þat er lýða skal: láte þèr sékja vatn Guðmundar prests ins góða, vinar míns, því at mèr [þikkir hann bezt vígja vatnit[3], ok man við þat batna". Eptir þat vaknaðe hon, ok segir hvat fire hana hafðe borit, ok er þá farit at sékja vatnið; en er því var hellt á hana ok stökkt, þá varþ hon þegar heil.

[4]Sá atburðr er enn sagðr, er þar varð. Heima á Völlum var kerlíng ein gömul, hon var trúkona mikil; hon var því vön, at sitea í hjá altere kvenna megin um tíþir, en Guðmundr prestr var vandlátr um siðferðe manna, ok allra helzt í kirkjunne, ok var honum at því angr, er kerlíngin sat svá nér altarino, en hann var góðr við börn ok gamalmenne, ok alla þá er hans þurfto, ok varþ hann af því ástséll af guðe ok góðum mönnum. Nú nente hann eige at amast við kerlíngu, [ok vilde eige hrella hana, því at hon unne honum mikit, ok svá hann henne[5]. Þá var þat einn dag eptir messo, at kerlíng stumrar utar at sönghússdurum, ok vilde hitta Guðmund prest, er hann fór or messo kléþum; en hann tekr í móte henne ok fagnar henne vel, ok spurðe hvat hon vilde. En hon spurr, hverr þar vêre nú. Hann svarar: „hèr er Guðmundr prestr, vinr þinn". — „Þó em ek þá sél", kvað kerlíng, „nú þikke mèr helzt hafa or leyst, ok eige veit ek hví sêta mun. Mèr höfgaðe nêsta um messona, þá er þú tókt til *præfatio*; þá þótte mèr maðr koma at mèr ok méla þetta: ‚upp hjörtun'; þá spratt ek upp, ok heyrða ek, at þú söngt *sursum corda*, ok veit ek eige hví sêta mun". — „Ekke skaltu undrast þetta, systir, guð vakte þik, systir, ok vilde eige at þú svéfir um messona svá nér altare". — Þetta haust var veginn[6] Sumarliðe Ásmundarson.

---

1) [ kona, *B.* 2) [ b. v. *B.*
3) [ líkar hans vatnvígsla bezt af þeim mönnum, sem hèr eru nú fyrir norðan, *B.* 4) *Fireburðr kerlíngar*, *A* (36). 5) [ v. í *B.*
6) at tjöldum, b. v. *B.* — að Völlum, b. v. 395.

[1][Þetta sumar um haustið kom Grímr út til Tjarnar í Svarfaþardal, ok var veginn at sauðarètt[2]. En völd vígs þess vóro kend Snorra Grímssyne, brœðrúnge Guðmundar prests Arasonar. En til eptirmáls um víg þetta snerist Brandr biskup til liðveizlu, ok vilde hann láta bera ákviðu á Snorra á alþinge um sumarit. En af orðum ok frásögnum Guðmundar prests Arasonar, ok annarra merkra manna, þeirra er Snorra veittu lið, þá lèt hinn heilage Þorlákr biskup bera kviðinn af Snorra[3], ok varð svá eytt því mále.

[Þenna vetr var manndauðr mikill á Íslande af sótt. Þá andaðist Ketill biskupsson[4]; [Jón prestr Ketilsson, er kallaðr var Fljótabiskup[5], ok Þorsteinn Jónsson, er kallaðr var súðarsteinn[6], [ok margir aðrir. Þá var margrètt um helge Rögnvalds jarls í Orkneyjum[7]. Nú hefir Guðmundr prestr vetr ok XXX. vetra.

Kirkja laukst upp seálf fire Guðmunde preste.

20. [Þá bar þat enn við, at Guðmundr prestr hafðe riþit til skips[8] at hitta vine sína, þá er þar vóro út komnir, ok varþ honum dvalsamt, því at alþýða manna tók at sèkja at honum heilrœðe ok yfirsöngva, bœðe útlendir ok hèrlendir, hvar sem hann kom. Hann kemr síð heim um kveldit fire Mat[h]iusmesso[9]. En er mönnum þótte seinkast heimkváma hans, þá var súnginn aptansöngr ok lêst kirkju, ok fóro menn í rekkjur sínar. En er Guðmundr prestr kom at kirkjugarðe, þá hyggr hann at, hvárt hann skal [starfa á mönnum[10], ok kveðea kirkjulykils, eða [skal hann eige koma í kirkju, ok þikkir honum hvártveggja þúngt[11]; [gengr til kirkjuduranna, ok þurfte þá eige at leita kirkjulykils, því at þá stóð[12] kirkjan opin; en þat

1) *Mælt eptir víg Gríms, A* (37).

2) [ v. í *B*, 204, *St.*, 395, og verðr það eptir því vígsmál Sumarliða, sem sótt var.

3) um fjörráð, b. v. *B*.

4) [ v. í *B*.

5) [ þá andaðist Fljóta-Ketill prestr, *B*.

6) staðarsteinn, *B*.

7) [ v. í *B*.

8) [ þat sumar fór Guðmundr til Gáseyrar, *B*.

9) þann, *B* (= 21. Sept.); Marteinsmesso *A* (= 11. Novbr.).

10) [ vekja menn, *B*.

11) [ sýngja utan kirkju, *B*.

12) [ Gekk hann þá um (umbergis, 395) kirkjuna, ok svá sem hann kom aptr til kirkjuduranna, var, *B*.

visse enge maðr, hverr upp hafðe lokit; en enge hafðe maðrenn upp lokit sá er þar var. En þótt slíkir lutir sè ritnir, þá urðo þó margir aðrir, þeir er [þat birto, hver elska guðe var á hans atferð ok þjónostogerð[1]. Hann tók þá at samna at sèr helgum dómum, hvar sem hann fór, ok hann gat fengit, ok hafðe þá með sèr, hvar sem hann fór, ok bar yfir sjúka menn, ok sýnde þat, at hann treystist meirr af þeirra heilagleik, en af sínum verðleik[2]; en þó þóttust allir vita af slíkum lutum ok mörgum öðrum, at guð [elskaðe meirr hans atferð en annarra manna. Þá fóro þeir lutir um allt land ok margir aðrir þessum líkir[3], ok tekr alþýða manna at leggja til hans ástarhug mikinn í átrúnaðe, ok bjóða margir menn honum heim, at láta vígja sèr vötn[4] eða skripta mönnum. Brandr biskup valde hann sèr til skriptaföður ok margir aðrir góðir menn.

### Spratt láss frá kistu.

21. Þá er Guðmundr prestr hafðe xij vetr ok xx, þá er þess atburðar getið, at þat var einn dag heima á Völlum, at hann söng messo, [en klerkar skyldo búa til fórn í messunne[5], þá ero oflètr lèstar í kisto, en lykillenn fannst eige. Þá rêddo menn um, at brjóta skylde upp kistuna, en hann bað þat eige gera. Hann söng messo [óhrapalliga[6], ok lètr sem hann visse eige þetta, er oflètrnar vóro lèstar. En er guðspjalle var lokit, ok komit at lágasöngum, þá blezar hann til kistunnar, er oflètrnar vóro í. Þá leypr lássinn frá kistunne, svá at enge maðr tók á, ok datt á gólfit niðr, ok náðust svá oflètrnar. Þat var enn of dag, at hann söng messo heiman til Hofsár, at þar var enge sacrarium hjá altare gerr[7], ok varþ at þvá sèr á gólf niðr. En þar lágu pálmar iiij[8] bundnir saman, er hafðir höfðu verit

---

1) [ stórum merkilegir vóru, um hans hagi, ok skynsömum mönnum virðist guð birta þá þegar hans atferði, hversu honum líkaði, *B.*

2) en þótt hann elskaði vel marga heilaga menn, var optast hans ákall til guðs móður Mariam ok hins heilaga Ambrosium, í sínum nauðsynjum, b. v. 395.

3) [ var honum samvinnandi um marga góða hluti, framari til opinberra tákna, en flestum öðrum, *B.*

4) b. v. *B.* 5) [ v. í *B.* 6) [ seint ok skynsamliga, *B.*

7) v. í *B.* 8) fornir, *B.*

hin fyrre missere ok komit þar við altarit. [En hann þó sèr eptir þjónostotökjuna ofan á pálmana. En þá vóro þeir upp teknir, er hann mêlte at þá skylde[1] annarsstaðar varðveita. En þá var humle sprottinn á pálmunum ok lauf, ok þótte bêðe honum ok öðrum mikils vert um þenna atburð. Þenna vetr andaðist hinn heilage Þorlákr biskup í Skálaholte ij nóttum fire jól, ok þá andaðist Snorre Þórðarson í Vazfirðe Remigiusmesso, [ok Hruna-Gunnarr. Solveig Jónsdóttir. Myrkr mikit fire gagndag enn eina[2].

Guðmundr prestr bjóst til ferðar.

22. Þat var [annan vetr[3] eptir jól Brettifu messo, at Guðmundr Arason bjóst heiman at fara vestr um heiðe til Hóla, at hitta Brand biskup ok aðra vine sína, ok slóst í för með honum mart manna, sem jafnan var vant. Þau urðo saman xvj menn, ok fór[u] um aptaninn upp á Skeið, ok vóro þar um nóttina. En um morgininn eptir þá bjöggjust þau til heiðarinnar, ok skyldo þau fara Heleardals heiþe, ok kalla menn at Guðmunde preste, at hann skylde skunda at tíþum; en [þat varþ ekke svá, ok urðo tíþirnar seinne en aðrir vildu, en skjótare en hann vilde, ok segir[4], at þeim munde hverge at betr farast, [þótt hann[5] hrapaðe at tíðunum. Ok nú búast þau til fararinnar, ok verþa síðbúen. Þar var í för Helge bónde af Skeiðe, ok Erlendr prestr Brandsson, er múnkr var síþan, ok Bjarne[6] Jónsson, er Söng-Bjarne var kallaðr, ok Sigmundr hèt maðr, ok Klêngr Þorsteinsson[7]. Þar vóro ok [í] för fóstrar hans ok lêresveinar. Gestr hèt sveinn, son Snorra Assabana, hann var subdjákn at vígslo; annarr hèt Vermundr, son Þorgríms[8] af Brattavelle; [unne hann þeim[9] svá mikit, sem þeir vêre hans synir. Þar var ok í för með honum fóstra hans, er Jódís hèt, hon var Bersadóttir. Helga hèt kona, [er bjó it nêsta Völlum, í Gröf[10]; hon var þar ok son hennar, er Íngjaldr hèt, ok enn mêr, er hèt Dýrhildr, ok enn

1) [ ok sem hann var afklæddr messoskrúðanum, bað hann brott taka pálmana ok, *B*. 2) [ v. í *B*.
3) þann. *B* (= 11. Jan. 1195); frá [ um vetrinn, *A*.
4) [ hann sagði at, *B*. 5) [ at þeir, *B*. 6) Björn, *B*.
7) Runólfssonar, b. v. *B*. 8) Þorgeirs, 395. 9) [ þeim unne hann þeim, *A*.
10) [ er þar bjó við heiðina, á þeim bæ, er í Gröf heitir, *B*.

hèt kona Una, hon var Herleifsdóttir[1]. Hrafnkell hèt maðr, ok var Skeggjason, ok kona hans Hallbera, þau vóro þar í för. [En er þau koma á leið, þá var þannig veðre farit, at veðr var þjökt ok við[2] vátadrífa ok vindlítið, ok þótte öllum mönnum óteygilikt[3], en honum sjálfum óteygiligast[4].

[5]En er þau sèkja upp á heiðina, þá tekr [veðrit at vaxa ok[6] kólna, þar til er fjúk gerir. Veðrit var í móte þeim, vestan veðr, ok tók þá at kólna liðe þeirra, ok seinkaðist fören, því at mart var lið þeirra, born ok konur, klèðfátt ok ófrátt. Veðrit gerir ok hvast ok svá illt, at varla máttú karlar ganga í mót. Þá gerir ok svá myrkt fjúk, at ekke sá af tám fram, ok þá tekr at nátta. En er hann var kominn á heiðe upp seálfr, þá sezt hann niðr, ok bíðr þess liðsins, er ófrára var. En er saman kom lið þeirra, þá lèzt hann vilea, at þau snúe[7] aptr forviðris ok forbrekkis, því at þá visse enge[8] þeirra, hvar þau vóro komin, ok lèzt honum þikkja vènna, at nokkut munde til húsa komast af liðe þeirra, ef þau hèlde eige fram förinne, ok var þat ráðs tekit; en Hrafnkell ok þau Hallbera höfðo fyrst verit á leiðinne, ok bar þau vestr af heiðinne, ok kemst hann til bygðar til Heleardalsár, en hon lá úte við garðinn seálfan ok hafðe þó líf sitt.

## Dasaðist lið Guðmundar prests.

23. Nú er þar til máls at taka, at þau Guþmundr prestr snúa aptr ferð sinne, ok flèzt hann or kyrtlinum áðr ok steypir yfir meyna Uno, er þá kól áðr mjök; þá tekr hann í hönd Jódíse, fóstro sinne, ok leiðir hana[9], en Erlendr prestr leiðir Vermund, en Gestr gekk með þeim einn saman. Þá tekr at skileast lið þeirra, ok saknar sveinninn Íngjaldr móður sinnar, ok hafa þau Sigmundr skilizt frá liðino ok hon Helga, móðir sveinsins. Þau hrata í gil nokkut ofan, en þá þóttist hon eige ganga mega lengra, ok grefr hann hana í fönn, ok þar gengr hann frá henne, ok hleypr þar yfir skriþa; hon ferst

1) Hjörleifsdóttir, *B.*
2) [ veðri var svá háttað, er þau fóru or bygðum, at við var, *B.*
3-4) þann. *A* (ótryggiligt — ótryggiligast?); ótrúlikt — ótrúligast, *B.*
5) *Frá ferð Guðmundar prests ok liðs hans, A* (41).
6) [ vindrinn at vaxa, en veðrit at, *A.* 7) snori, *B.*
8) ekki, *B.* 9) hèr vanta 2 blöð í *B.*

þar, ok fannst eige fyrr en um sumarit Columbamesso, en Sigmundr kom til bygðar á Skeið. Þá hvarf ok sveinninn Íngjaldr, er hann vilde leita móður sinnar, ok fannst lík hans Antoniusmesso, ok hríngðist klukka seálf í móte líke hans á Völlum, er hann var til kirkju férðr. En Helge bónde fór með meyna Uno ok Björn, unz hana þraut; þá bjöggu þeir um hana, ok grófo hana í fönn, ok vöfðo hana í kyrtle Guðmundar prests, ok gengu svá frá henne, ok kómust þeir heim loksins um nóttina.

[1]En þat lið, er fylgðe Guðmunde preste, tekr at dasast mjök, ok hörklar af heiðinne ofan; þá var sveinninn Vermundr ógengr, ok vilde Guðmundr prestr eige ganga frá honum. Þá tekr Erlendr prestr at grafa þau í fönn; ok meðan hann grefr fönnina, þá andaðist sveinninn í faðme fóstra sínum, undir kápu hans, ok settist hann í fönnina, ok hjá honum Jódís, fóstra hans, ok lík sveinsins Vermundar lá á honum ofan. Þá gengr Erlendr prestr á brot, ok með honum Gestr ok Helge. Þá leypr sveinninn Gestr í á, ok má hann þá eige ganga lengra; þá gróf Erlendr prestr hann í fönn; hann andaðist áðr þeir gengo frá. Þá fara þau, unz þau koma til bygða loksins um nóttena, ok kunno at segja þann skilnat, hvesso þau höfðo skilit við sitt föroneyte, sumt líflátið, en sumt litlu betr. Þá vóro þegar sendir menn ofan á Völlo, at segja hvarf Guþmundar prests ok margra manna með honum, ok samnar Brandr Arnþrúþarson mönnum þegar, at leita Guðmundar prests, ok verða þeir saman nêr XL. manna. En er þau Guðmundr prestr liggja í fönninne, þá rêðir Jódís um, at hana kale á hálsinn, er berr var við snjóinn. En þá var ekke annat til atgerða, en þá rètte hann hönd sína undir háls henne, ok lá hon þar á ofan um nóttina. Hann horfðe í lopt upp; en sveinninn lá á honum ofan, ok gerir hann svá stirðan undir þeim báðum, at hann mátte nêr ekke víkja sèr. En er lýsa tekr um morgininn, þá leita þau or fönninne, og er þá nêr aflètt fjúkinu. Hann mátte þá ekke ganga, ok verðr þá lítt af förenne, en þó leita þau við at fara. Þá kemr fyrst í móte þeim Helge bónde af Skeiðe með eyk ok sleða, ok ekr hann heim til bêjar þess er nêstr er heiðinne, ok er þar um nótt-

1) *Andaðist lið Guðmundar prests*, A (43).

ina ok um daginn eptir ok hvílast. Þá sendir hann þegar eptir líkunum sveinanna, Gests ok Vermundar, ok vóro þau fêrð ofan á Skeið. Þá var geisladagr á föstodege[1], en þváttdaginn eptir þá var farit upp á heiðina af nýjo at leita líkanna, ok fannst þá eige fleira en lík Dýrhildar, af því at veðr var svá illt, at ekke mátte leit við koma; komast þeir aptr á Skeið um kveldit með Guðmund prest ok með lík Dýrhildar. En drottinsdaginn þá var farit ofan með líkin á Völlo, ok vóro ekin í sleða; en í öðrum sleða var ekinn Guðmundr prestr ok Jódís fóstra hans. En þá sendir hann enn Helga bónda ok menn með honum upp á heiðina, at leita, ef fleira fyndist af liðe þeirra, ok koma at þar er búit var um meyna Uno, ok var hon alls hvergi kalin váðakulþa, nema á tá eina; en þat eitt hafðe tekit undan kyrtlinum Guðmundar prests, er kalit var á, ok er þá hêtt leitinne þaðan af. Annan dag eptir þá ero líkin niðr sett, ok kemr fjölðe manna á Völlo um daginn, ok fannst þat á því, hverso mikit Svarfdêlar unno Guðmunde preste, at þeir þóttust hann hafa or heljo heimtan. En Guðmundr prestr söng yfir líkonum, en aðrir menn saumoðo um þau. Þá klappaðe hann í höfut sveinonum ok kyste, ok grèt við ok mêlte: „guð lífge þik ok ykkr með seálfum sèr í ríke síno!" — En er lokit var greptinum, þá laupast at hundar, er fylgt höfðo mönnum þangat, ok bitust svá ákaft, at menn mátto eige skilea þá, ok var hellt vatne á þá, ok togaþir í sundr ok barðir, ok lètu eige laust at heldr. Þá gengr Guðmundr prestr at hundunum, ok blezar þá, ok mêlte við þá, at þeir láte laust ok þege, í nafne föþur ok sonar ok anda heilags. Þá láta hundarnir laust þegar ok þagna, ok gengr síns vegar hvárr.

[2]En eptir um nóttena þá dreymðe Jódíse fóstro hans, at hon þóttist koma at þar er sveinarnir glímðo mjök margir; þar kennde hon Gest ok mêlte við hann: „fire hví sêtir, at þú glímir, enda vartu andaðr." Hann segir: „andaðr var ek, en life ek nú, því at fóstre minn steypte yfir mik kyrtle sínum, þegar ek var andaðr, ok í gêr, er hann klappaðe í höfut mèr, þá veitte guð þat er hann bað, at ek skylde lifa með guðe, ok nú life ek sannlega, ok skaltu þat segja fóstra mínum, at

---

1) þetta kemr heim við árið 1195. 2) *Draumr Jódísar*, A (44).

ek má nú miklo meira en áðr ek öndöþumst, ok má hann nú senda mik, ef hann vill, til eins eðr annars, því at ek skal nú túlka með honum, ef hann þarf, þat er hann vill, en þó er Vermundr meira ráðande en ek, því at hann er nú aðaltúlkr hans." En eptir þetta vaknar hon, ok segir fóstra sínum drauminn, ok verðr hann allfeginn drauminum.

[1]En áðr þesse atburðr varþ, þá dreymde Guðmund prest, at hann þóttist vera at messosöng, ok sýngja, unz hann hefr upp: *Te igitur*, en sat yfir honum Arnþrúðr[2] húsfreyja, ok heyrðe gerla allt þat er hann mèlte í svefninum.

Maðr er nefndr Kálfr, hann var bónde ok vinr góðr Guþmundar prests; hann tekr kverkamein svá mikit, at hann mátte ekke mèla, ok eige mat niðr koma. Þá ferr Guðmundr prestr til fundar við hann ok sýngr yfir honum, ok dreypte vatne á varrar honum af he[i]logum dómum, ok gekk þat svá tregt niðr, at hann sveittist mjök við, ok þegar eptir mèlte hann lágt þat, ok þá stóð [hann] upp ok var heill, ok fór þegar í fjós út at vinna at nautum sínum, ok varþ hann alheill. Þesse missere var kosinn Páll til biskups í Skálaholt, ok þá andaðist Kleppjárn prestr ok Páll biskup í Björgyn, ok þá var bardage í Flóruvágum pálmsunnodag, ok fèkk Sverrir konúngr sigr, en Eyjarskeggjar fèllo. Vígðr Sverrir konúngr undir kóróno. Þá fannst ok Svalbarðr. Þá hafðe Guðmundr Arason xiij[3] vetr ok XX.

Slökktr eldr með vatne Guðmundar prests[4].

24. Annan vetr eptir varð sá atburðr at Hólum í Hjaltadal, at þar kom eldr í hús um nóttina fire Leonardusmesso, ok vöknoðo menn við þat, at logaðe allt húsit, ok ljópo menn til, ok vildo slökkva eldinn, en svá mikill gangr var orðinn at eldinum áðr, at hann èstist við vazburðinn. Þá var sagt til Brande biskupe, ok reis hann upp ok allir heimamenn, ok ferr hann til kirkju, ok skrýddist, ok tók bagal sinn ok vígt vatn, ok gekk til eldsins með heilaga dóma ok guðs trauste, ok þar til, er eldrinn gekk

1) *Draumr Guðmundar prests*, *A* (45).

2) Þannig *A* á þessum stað rètt.

3) Leiðr.; xiiij, *A*. Hèr hefir *A* fipazt á áratölunni, og telr, frá 1194—1201, Guðmund einum vetri eldri en á að vera, og er það hèr leiðrètt jafnóðum.

4) biskups, *A*.

lengst fram; en þeyge lêgðist annars staðar. Þá var rêtt um, ef nokkut vêre vatn Guðmundar prests Arasonar. Þá svarar Brandr prestr Dálksson, at þat munde vera til, ef vilde. Þá bað biskup taka þat, ok freista at stökkva því í eldinn; en þá sloknaðe þegar allr eldrinn, ok urðo allir því fegnir. En Brandr biskup þá svá þessa skapraun, at hann þakkaðe guðe skaða sinn, ok kennde því um, at hann hefðe oflítið af veitt fátêkum mönnum, ok þêtte guðe ofmart fornt vera. Þaðan af lagðe hann meira ástarhuga á Guðmund prest Arason, ok vatn hans ok yfirsöngva, ok allar athafnir hans, ok var þó áðr vel.

[1]Sá atburðr varð, at austmenn ij vóro á Grund í Svarfaðardal, hèt annarr Guthormr, en annarr Hermundr[2]; þeir lögðo mikla ást á Guðmund prest. Þeir fóro um dag á fund hans, at ganga til skriptar, ok kalla hann út til kirkju; en höfut hans var vátt ok nýþvegit, en frost mikit, ok lýstr kulþa í höfut honum, ok þaðan af fló á hann mein þat, er hafðe móðir hans, ok kom opt at henne, áðr hann söng yfir henne; eptir þat tók af henne meinit algerliga; ok kom at honum þat it sama mein. Þá var honum fylgt inn, ok mátte hann ekke mêla ok eige liggja kyrr, ok stóðu menn yfir honum, bêðe konur ok karlar, ok báðo fire honum, ok þótte mönnum svá mikit, at margir báðo guð grátande, at hann skylde láta batna honum. En er liðin var nêr ein eykt dags, þá varð hann alheill at bênum þeirra manna, er grátande stóðó yfir honum, ok söng hann seálfr messo um daginn. En meðan þetta var, þá höfðo prestlíngar hans farit til fjöru at leika sèr. Þeim sýndist sem hundr mikill kême at þeim með gapanda munninn, ok vilde bíta þá; en þeir urðo hrêddir mjök ok felmsfullir, ok hèto á heilaga menn sèr til fulltíngs með hrêzlo mikille. Þá hvarf hundrinn þegar á bröt, en sveinar fóro heim, ok segja hvat fire þá hafðe borit, ok þóttist fóstre þeirra vita, ok aðrir menn skilea mega, at þetta var freistne fjanda við þá.

Unnit á Ögmunde Þorvarðssyne.

25. Á þessum misserom var vígðr Páll biskup til Skálaholts ok út kominn, ok þá andaðist Knútr Svíakonúngr. Nú

---

1) *Guðmundr prestr tók höfuð mein, A* (47).

2) Vermundr, 395.

hefir Guðmundr prestr Arason xiiij[1] vetr ok XX. [Á þessom misserum var unnit á Ögmunde þorvarðssyne af sonum[2] Þórðar í Laufáse, því at þeir kenndo honum fiflíngar við Margreto, kono Þórðar; þeir hugðust sèra hann til ólífis. Þá ferr Ögmundr heim á Draflastaðe, þar bjó hann þá[3]. En er þat frèttist, at hann rètte við, [þá sömnoðu þeir mönnum, Guðmundr enn dýre ok Önundr, ok vildo fara at Ögmunde í annat sinn, ok vildo drepa hann[4]. Þeir sendo eptir mönnum til Svarfaðardals, sonum Arnþrúþar Fornadóttur, ok leyndo erendum, því at þeir vóro náfrêndr ok Ögmundr þorvarðsson. En er þeir hitta Guðmund inn dýra, þá spurðo þeir hvert fara skylde, en hann segir þeim at fara skylde at drepa Ögmund þorvarðsson, en Arnþrúðarsynir lètust fara mundo, ok slást í lið með Ög-

---

1) leiðr.; xv, *A*. 2) leiðr.; syni, *A*.

3) [ Sagt var fyrr í sögunni, at Ögmundr Þorvarðsson, er sneis var kallaðr, frændi Guðmundar prests Arasonar, fór til Noregs, ok var vel tekinn af Jóni kuflúngi ok öðrum mikils háttar mönnum, sakir mikillar hreysti ok drengiligrar framgöngu, er hann sýndi í hverjum stað. Hann var vel at sèr gerr um marga hluti, kappsmaðr mikill, hinn vopndjarfasti, ok öruggr ok vinfastr, ok lèt ekki gjarnan af uppteknu, þótt meire háttar menn ætti hlut í, hvað honum varð ei þolat af mörgum. Sem Ögmundr hefir nokkur ár verit í Noregi, ferr hann út til Íslands, ok tekr Þorvarðr faðir hans vel við honum, var Ögmundr hjá föður sínum næsta vetr er hann kom út, en síðan átti hann búnað á Draflastöðum. Þórðr Laufæsingr bjó undir Laufási, hann átti fríða konu er Margrèt hèt. Synir Þórðar vóru gjörfilegir menn ok ekki vinsælir. Guðmundr hinn dýri bjó á Bakka í Öxnadal, en Önundr í Launguhlíð, vóru þeir á þessum tíma miklir vinir Þórðar Laufæsings. Ei hafði Ögmundr lengi verit á Draflastöðum, áðr Laufæsingum óþokkaðist við hann ok fleirum öðrum, kendu þeir at hann sæti á fiflingum við Margrètu konu Þórðar, hvaðan af þeir veittu honum umsátir; ok eitt sinn, sem Ögmundr fór leiðar sinnar, eigi ófriðar væntandi, kómu synir Þórðar með fleirum öðrum, ok veittu honum atgöngu, særandi hann mörgum sárum, skiljandi svo við, at þeir hugðust hafa drepit hann; en þeim burtfarendum raknaði Ögmundr við, ok fór heim á Draflastaði, ok vóru veitt umbönd sárum hans, 395.

4) [ óttuðust mótstöðumenn hans ei litt at skjótar hefndir mundi eptir koma, ef Ögmundr hèldi lífi ok yrði gróinn sára sinna, því sækja synir Þórðar fund Guðmundar dýra ok Önundar, ok biðja þá fylgis; rèðst þat af, at þeir safna liði, ok vilja veita Ögmundi atför annat sinn, ok drepa hann. Guðmundr hafði þá mest mannaforráð út um dalina, 395.

munde, með þá menn, er þeir fenge til, [ok gera honum njósnir[1], at hann samnaðe sèr mönnum, ok stöðvaðist nú för seá, því at þeir Guðmundr ok Önundr sá sik eige mundo fram koma þesse fireétlan[2]. Þat bar saman, at þá nótt andaðist Grímr Snorrason at Hofe, hann átte Þórnýjo Þorvarðsdóttur, sem unnit var á Ögmunde Þorvarðssyne, ok var Guðmundr prestr Arason þá farinn vestr yfir heiðe at sitea yfir Gríme máge sínum, ok oleaðe hann, ok fylgðe líke hans til Hóla.

Tíðende.

26. Þetta sumar áðr var bardage á alþínge með Oddaverjom ok Haukdélum um mál Þórðar rauðs, þíngmanns Kolbeins Tumasonar, ok veitto Haukdélir lið Kolbeine, frênda sínum, en Oddaverjar þeim er í móte vóro. Þetta sumar var farinn til þíngs Guðmundr prestr Arason. En á þíngino fellde bên at honum Halldóra abbadís Eyjólfsdóttir, austan or Kirkjubé, til forusto með henne. Hann játte því at bên hennar, ok var ráðin þangatför hans, ok skylde hon senda menn í móte honum norðr, því at hann varð at fara heim norðr. Nú ferr hann heim af þíngino á Völlo, ok er heima til Ólafsmesso, því at þá var kirkjudagr á Völlum, ok vilde hann bíða hans. [3]En eptir kirkjudaginn ferr hann inn í Eyjafjörð at hitta vine sína ok frêndr, áðr hann rèðist á brot or sveit, en þá var komit skip út at Gásum, þat er Páll biskup var á, ok hittast þeir Guðmundr prestr ok biskup á Grund at Þorláks Ketilssonar, ok lèt Guðmundr prestr hríngja í móte biskupe, ok taka við honum með veg ok sóma. Biskupe virþist þat vel. Þá koma sendemenn abbadísar austan: Sokke bróðir hennar, á mót Guðmunde preste, ok biðea Pál biskup leyfis, at hann leyfðe,

1) [ þeir gera Ögmundi orð, ok biðja hann, 395.

2) Ögmundr lá lengi í sárum, ok varð þó græddr um síðir, ok stóð missætti meðal hans lengstum, ok Laufæsínga; bjó Ögmundr fá vetr á Draflastöðum, unz hann tók búnað á Hálsi, þá er faðir hans Þorvarðr fór vestr til Skagafjarðar, sem síðar segist; þótti hann vera mikilsháttar maðr fyrir marga grein, þó gekk hans ráð um tíma nokkut afskeiðis þar sem til heyrði kvennaferlum. Skal hèr hvílast frá honum at segja framar at sinni, en greina, hvat fram ferr af Guðmundi presti, frænda hans, b. v. 395. (sbr. *St.* 3, 17).

3) *Guðmundr biskup(!) étlar í Kirkjubé*, *A* (50).

at Guðmundr prestr staðfestist austr þar. Þar var þá kominn Brandr biskup til fundar við Pál biskup; þeir leyfðo báðir Guðmunde preste brautferð. Þá ferr Guðmundr prestr heim á Völlo, ok lýsir þá fire sveitarmönnum brotför sinne, en því höfðo menn aldri trúat þangat til[1].

[2]En er hann var á brot farinn or Svarfaðardal, þá finna þeir misse sinn, ok eiga samkvámu, ok taka þat ráð, at senda menn eptir honum, ok tala fyrst til við Brand biskup, at hann banne honum brotför; hann gerðe svá, því at hann þóttist sjá, at hann hafðe misráþit, er hann gaf honum brötfararleyfe. En er þeir koma á fund Gúdmundar prests, ok segja honum orð biskups ok bèn allra sveitarmanna sinna, þá snýr hann fireètlun sinne ok hittir biskup, ok segir [biskup honum[3] vilea sinn, at hann bannar honum brötför, ok rèðst Guðmundr prestr aptr á Völlo, ok er þar um vetrinn. [4]Þenna atburð virðe biskup svá mikils, at honum kvazt eptir því fara þikkja, sem um Gregorium páfa[5]. En um vetrinn eptir, þá tekr at gerast nokkur þverúþ meðal Þorsteins Þraslaugarsonar ok Guðmundar prests Arasonar, því at sveitarmenn báro fè þau í hendr Guðmunde preste Arasyne, er þeir hètu, ok gáfu guðe ok helgum mönnum, en þat fè kallaðe Þorsteinn at hann têke. Þat var ok vande Guðmundar prests á helgum dögum ok hátíðum, at láta menn kyssa á helga dóma, en Þorsteinn lèzt eige vita, hvárt þat vóro heilagra manna bein eða hrossabein. Nú gjörðist af þesso úþykt með þeim, svá at Þorsteinn sótte at Brand biskup, at hann skylde koma Guðmunde preste á brot þaðan. Þesse missere hófust Beglíngar móte Sverre konúnge, Víg Markúss á Rauðasande. Víg Þorfinns prests ok Sighvats Þórðarsonar. Andaðist Jóra biskupsdóttir. Þá hefir Guðmundr prestr xv[6] vetr ok xx.

---

1) Hann ferr nú vestr um heiði, at finna Þórnýju frændkonu sína, er Grímr hafði átt, b. v. 395.

2) *Sent eptir Guðmunde preste af hèraðsmönnum*, *A* (51).

3) [ v. í *A*, en þessum tveimr orðum er bætt hèr við eptir getgátu.

4) *Missætte Guðmundar prests ok Þorsteins*, *A* (52).

5) því at þá er hann tók af herra páfanum orlof at fara til Englands ok predika þar guðs erende, ok er hann var á ferð kominn, kallaðist hann aptr af sama páfa fyrir bæn lýðsins, mjök líkt sem nú var lesit af Guðmundi, b. v. 395. 6) leiðr.; xvj, *A*.

Guðmundr prestr fór brot af Völlum.

27. [1]En um várit eptir, þá ferr Brandr biskup norðr á Völlo, ok kannar þat af, at alþýða manna þar í sveit vildo eige Guðmund prest á brot. Þá býðr biskup honum staðinn[2] til varðveizlo; en hann vilde þat eige, því at hann nente eige starfe því ok áhyggjo, at ábyrgjast staðenn við fèleyse sitt. Þá segir biskup honum, at hann munde ráða þangat annann prest, ok svá gerðe hann. Þá stefnde Guðmundr prestr ij stefnum Þorsteine um várit: annarre um þat, er hann kende honum stulð um heitfè manna, en annarre um guðlöstun, er hann kallaðe bein heilagra manna hrossabein. Nú rèzt Guðmundr prestr um várit á brot af Völlum, at fardögum, ok til Ufsa.

[3]Þenna vetr andaðist Einarr ábóte ok Ön[4] Bjarnarson. Um várit var inne brendr Önundr í Langahlíð af Kolbeine [Tumasyne ok Guðmunde[5] enum dýra. Um sumarit eptir var fjölmennt til þíngs; þá ríðr til þíngs Guðmundr prestr Arason, ok vóro honum seld seálfdême um mál hans. Á þíngino býðr honum heim Sigurðr Ormsson austan frá Svínafelle, ok reið hann af þíngino suðr í Haukadal, en þaðan suðr undir Eyjafjöll, ok svá austr í Ver ok til Svínafells; þaðan austr í Fjörðo; svá í Fljótsdalshèrat ok til Vápnafjarðar, ok í Reyðarfjörð; svá norðr um hèrot um Reykjadal ok um Hnjóskadal ok út um Eyjafjörð, ok til Svarfaðardals, ok kom heim til Ufsa nêr vetrnóttum. En í farlengð hans urðo fleire lutir nytsamligir ok merkiligir, en vêr megim telea, af yfirsöngum hans ok vazvígslum, ok bru[n]na vígslum ok öðrum vígslum. En af slíkum lutum ok mörgum öðrum tók mönnum at vaxa svá mikil ástúð ok alhuge til hans, at allír enir[6] vitrostu menn lönguðu til hans fundar ok heimkvámu[7].

[8]Þetta haust andaðist Jón Loptsson austr í Odda. Nú er Guðmundr prestr at Ufsum um vetrinn. Hann ferr [um vetrinn[9] vestr um heiðe, at hitta biskup ok skripta mönnum, sem

1) hèr byrjar aptr *B*.
2) á Völlum, b. v. *B*.
3) *Frá ferðum Guðmundar prests*, *A* (54).
4) þ. e. Án; Árni, *B*; Ari, ísl. Ann.
5) frá [ b. v. eptir *B*; Kolbeine enum dýra, *A*.
6) þann. *A*, *B*.
7) ok buðu honum heim, b. v. *B*.
8) *Andlát Jóns Loptssonar*, *A* (55).
9) [ á langaföstu, *B*.

þá gerðist mjök venea hvern vetr. Þá kom á fund hans sá maðr, er Ófeigr hèt, hann var búandmaðr, ok góðr maðr ok gagnsamr; hann hafðe augnaverk mikinn, svá at hann mátte [ekke sjá[1]. En er hann hitte Guðmund prest, þá var hann at skripta mönnum í baðstofu. Þá var honom fêrt vatn at þvá sèr í, ok litaðist vatnit af höndum hans. En þat var þá venea margra manna, at þvá sèr í handlaug hans, ok batnaðe mörgum mönnum augnaverkjar ok svá annarra meina, er þat gerðo. Ófeigr tekr ok þvêr sèr í þesso vatne, ok sá hann eige hvernig litt var vatnit, en þat fylgðe, at hann varð svá skygn, sem aldri hefðe verkr komit í augu honum, ok sá augnaverkr kom aldri at honum síþan.

[2]Þenna vetr varð vitron um helge Þorláks biskups, at þat vitraðist Þorvalde preste lunda ok mörgum öðrum fire norðan land. Sú vitron var sögð Orme preste Eyjólfssyne, er var kapalín Thorláks biskups; hann var þá at Hólum með Brande biskupe; en hann sende þegar rit um vitronina Guðmunde preste Arasyne, því at þeim hafðe orðit áðr rètt um helgina Thorláks biskups, ok segir Guðmundr prestr Orme preste, at Thorlákr biskup var hinn helgaste maðr, ok var af því þau missere mjök heitið á hinn sêla Thorlák biskup fire norðan land af mörgum mönnum. [Nú hefir Guðmundr prestr xvj vetr ok xx[3].

## Frá leiðslu Rannveigar.

28. Sá atburðr varþ enn um vetrinn austr í Fjörðum, at þar fèll kona í dá; hon hèt Rannveig; hon fylgðe preste þeim er Auðunn hèt; hon hafðe fylgt öðrum preste áðr. Hon var í mörgu lage trúmaðr mikill, þótt henne sêist lítt um þetta. Þat varþ með þeim atburð, at hon fèll niðr [í forskála, er hon skylde ganga fram or baðstofo snemma um morgininn, einsaman[4], ok kvómo menn svá at henne, at hon hafðe þar lenge legit. Hon var boren í stofu, er menn fundu hana, ok sáto menn yfir henne um daginn, ok sá, at hon var eige öndut[5], fire því, at hon kiptist við hart stundum, sem henne yrðe

---

1) [ varla upp sjá, *B.* 2) *Vitron um helge Þorláks biskups, A* (56).
3) leiðr.; xvij vetr ok xx, *A*; frá [ v. i *B.*
4) [ er hon gekk fram or stofu, *B.* 5) örend, *B.*

mjök sárt. Þat var þváttdaginn at föstuígang. En er hon raknaðe við um aptaninn, þá settist hon upp ok signðe[1] sik, ok bað guð hjálpa þeim öllum, ok sagðe, at mörg tíðinde ok stór hafðe borit fire hana, þau er hon skylde segja enum êztum kennemönnum, ok var þar einkaðr til Guðmundr prestr Arason, þegar er hon néðe honum, ok Brodda[2] preste, er þá var í Fljótsdals hèraðe, ok þat at segja hverjum þeirra, sem til kom, þótt þúngt þétte. [En vèr urðom þessa áheyrsla af þeim er við vóro staddir af seálfrar hennar orðum[3], þá er hon sagðe Guðmunde preste Arasyne þessa vitron, at hon sagðe koma at sèr fjandr með ógn mikille, ok gripo í hendr henne, ok leiddo hana hart ok óþyrmilega, þar er vóro [hraun ok klúngr[4]; en þar er þau fóro sá hon kvalar margar, ok menn í kvölunum; en þeir fóro með hana, unz þeir kómu at þar hon sá fire sèr því líkast sem vêre ketill mikill, eðr pyttr djúpr ok víðr, ok í bik vellanda, en umhverfis[5] eldr brennande. Þar sá hon marga menn, béðe lifendr ok dauða, ok hon kende suma þar. Hon sá þar alla nêr höfðíngja ólêrða, þá er illa fóro með því valde, er þeir höfðo. Þá tóko fjandrnir til orða við hana, ok mêltu: „hèr skaltu fara í ofan, til þessa hefir þú þèr verkat, því at þess hins sama ertú hluttakare sem þeir, er [hèr ero í niðre[6], þat[7] er leiðiligr hórdómr, er þú hefir framit[8], er þú hefir lagzt undir ij presta ok saurgat svá þeirra þjónosto, ok þar með ofmetnaðr ok fègirne. Nú skaltu hèr vera, er þú vildir aldri af láta at þjóna oss; nú skolu vêr þik marga vega kvelea. Síþan draga þeir hana fram at pyttenum, en þar var svá ógurlig vella, at stökk or upp á fêtr henne; ok allt, þar er hon var ber, þá var hon brunnen er hon raknaðe við. Þá var hon hrêddare en frá mege segja. Hon

1) signaði, *B*. 2) Bárð, 395.

3) frá [ en ek heyrði þetta, segir sá er söguna hefir setta, af sjálfrar hennar framsögn, *B*. 395 hefir: En ek, er þenna atburð skrifaði í fyrstu, heyrða ek af skilvísasta manni, er hjá var, þá er Rannveig sagði Guðmundi presti. — 204 hefir: En vèr urðum þessa áheyrsla af sjálfrar hennar frásögn. 4) [ klúngr ok hornkn, *B*.

5) umbergis, *B*. 6) [ þú sèr hèr í ofan, *B*, 204.

7) þann. *B*, 204; því, *A*.

8) Leiðr. eptir 204, *B*; í *A* er greinin: „því (þat) er l. h. er þ. h. fr." óvart rituð ofsnemma: „fara í ofan, því er l. h. er þ. h. fr. til þessa", o. s. frv.

kallaðe á helga menn til árnaðar orðs sèr ok miskunnar við guð, fyrst Mariam drotníngu ok Petr postula[1]. [Hon kallaðe á hinn heilaga Ólaf konúng ok Magnús jarl inn helga ok Hallvarð, því at menn hèto þá mjök á þá hèr á lande[2]. En í því bile kemr yfir hana ljós mikit, ok sèr hon at menn fylgja ljósino, göfugligir ok þó með ógn nokkurre. Þesse sýn varð hon fegin mjök, ok styrktist svá þegar at hon þorðe spyrea, hverir þar vêre. En þeir sögðo, at þar var Ólafr konúngr ok Magnús jarl, ok hinn heilage Hallvarðr. Þeir taka til hennar, ok taka hana or höndum fjandanum, ok leiddu hana í brot. Þá sletta fjandrnir eptir henne svipu, ok kom um miðherðar[3] henne, ok bak ok lendar, ok mèlto þetta við: „þótt vèr verðum nú sem optarr at láta várt mál er vèr eigumst við, þá skal hon þó hafa nokkut fire endime sín". Svipan var glóande, ok brann[4] þar allt sem hon kom við. En er fjandrnir vóro í brotto, þá tóko þeir til orða, er henne fylgðo: „nú er þèr sýndr verþleikr þinn ok margra annarra, at eige mætte svá búit lýða um margra manna ráð. En þess skaltu skyld, at segja þat hverjum manne, sem þú hefir sèt um hans mál. Nú branntu því á fótum, at þú hafðir skrúðsokka ok svarta skúa, ok skreyttist svá við körlum; en því a höndum, at þú hefir saumat at höndum þèr ok öðrum á hátíþum; en því á bake ok herðum, at þú hefir borit á þik skrúð ok lèrept, [ok skreyzt við körlum af metnaðe ok óstyrkt[5]. En fire því at guð er mildr ok miskunnsamr, ok þú hèzt á Marío drotníngu ok Petr postula ok oss til árnaðar orðs þèr, þá sendo þau oss fire sik, er þú mundir nú fire farast ella, ok hafa þau þat þegit af guðe, at þú skalt lifna ok bêta misverka þína, ok skaltu ná at seá verðleik heilagra manna, er hèr ero á yðro lande, bêðe lifendr ok andaðir, því at eige ero á öðrum löndum at [jafnmiklum mannfjölda[6] fleire heilagir menn en á Íslande, ok halda bênir þeirra ok várar landino upp, en ella munde fire farast landit".

[7]Þá kemr af nýjo yfir hana ljós mikit, þar fylgir maðr mikill ok ítarligr, ok svá bjartr sem snjór, svá vóro ok klêðe hans.

1) því at þar var Petrskirkja á Berunesi í Austfjörðum, b. v. *B.*
2) [ v. í *B.* 3) herðar, *B.* 4) hon, b. v. *A.*
5) [ af tilteyging saurlifnaðar, *B.* 6) [ jöfnu manntali, *B.*
7) *Vitraðist Petr postuli ok María drottníng*, *A* (57).

þeir sögðo henne, at þar var Petr postule. En er þeir höfðo farit með hana um stund, þá kemr [enn af nýjo ljós yfir hana mikit ok meire birte, en fyrre hefðe hon slíka sèt áðr; þar fylgðe sêtr ilmr[1], ok því ljóse fylgðe Maria drotníng, guðs móðir, en hon var svá björt sem sól, svá at hon mátte eige í gögn henne sjá; þar voro fire þeim vellir slèttir ok fagrir með allskonar blóme ok unaðe ok ilm; þar sá hon hallir fagrar ok margar, ok hús, bêðe há ok mörg ok fögr, svá at hon þóttist eige skilea mega dýrð alla, ok vóro þó eige öll jafndýrðleg. Þá taka þeir til orða ok mêlto við hana: „nú sèr þú hèr staðe þá, er eigu helgir menn, bêðe lifendr ok dauðir; en hèr ero hús eige öll jafnfögr. [Hèr ero biskupar yðrir[2] því at þeir ero helgir menn allir, ok ero þó helgastir af þeim Jón biskup ok Thorlákr biskup enn ýngre; en þá nêst Björn biskup, ok Ísleifr biskup, ok Thorlákr biskup enn ellre. [3]Svá ero ok þessir helgir menn, er nú lifa, af skapraunum sínum ok þolinmêðe [ok óhlýðne lýðsins við sik, því at því helgare er hverr maðr, er hann hefir meire þolinmêðe fire guðs nafne[4]. En hús þat, er þú mátt seá, fagrt ok hátt, ok heyrir ekke þangat, því at þar er hljótt, þat á Björn einsetomaðr at Þíngeyrom. En annat hús þar heá, hátt ok göfuglikt, þangat mantu heyra söng fagran ok hljóð mikit ok dýrðlikt, þat á Guðmundr prestr Arason, því at svá halda bênir hans upp lande þesso, sem várar bênir halda upp Norege ok Orkneyjum, ok man hann verða mestr upphaldsmaðr lande þesso ok sitea eige í lègra sête en Thomas erchibiskup á Englande". Marga lute[5] sá hon þar merkilega ok heyrðe[6]. En er hon raknaðe við, þá var hon orðin svá rêdd[7], at hon mátte varla segja, ok svá ávallt síþan, at hon skalf jafnan, er hon skylde nokkut um rêða. En af vitron þesse tóko margir menn mikla bót, er leyndir lutir vóro sagðir í fare þeirra seálfra; en þó lögðo sumir menn öfund á þat, er firelitnir vóro [fire sína andmarka, en nento þó eige við at skileast, at bêta sína misverka.

[8]Þenna vetr var Gregorius messo hríð[9]; seá vetr var kall-

1) [ myklu meiri birta með ilm ok sætleik, *B*. 2) [ b. v. *B*; v. í *A*. 3) *þeir sögðo henne frá*, *A* (58). 4) [ v. í *B*. 5) aðra, b. v. 395. 6) þótt hèr sè ei skrifaðir, b. v. 395. 7) ok sta[ð]laus, b. v. *B*. 8) *Tíðende*, *A* (59). 9) en mikla, b. v. *B*.

aðr fellevetr. Um haustið eptir vóro víg í Laufáse, er vegnir [vóro] ij synir Arnþrúþar, þorsteinn ok Snorre, ok ij. senir þórðar laufêsíngs, Hákon ok Hildebrandr[1], [en þann vetr andaðist Sigmundr Ormsson austr at Svínafelle ok Kálfr Snorrason. *Translatio sancti Thorlaci.* Fall Ríkarðs Englakonúngs. Björgynjar sumar. Fall Haralds jarls únga á Katanese. þá hafðe Guðmundr prestr Arason xvij vetr ok xx[2].

## Guðmundr prestr ferr til Staþar.

29. Um várit eptir pascha þá ferr Guðmundr prestr vestr um heiðe, at hitta vine síne ok frêndr. þá býðr honum heim til vistar Kolbeinn Arnórsson til Staðar, ok rèðst hann þá þangat um várit at fardögum, ok móðir hans. þá var hart vár, ok riðu þeir Brandr biskup [eige][3] til þíngs ok Guðmundr prestr Arason, um sumarit. [4]En eptir þíngit þá sendir Páll biskup menn sunnan eptir Brande biskupe ok Guðmunde preste Arasyne, at þeir skyldu koma suðr í Skálaholt þegar sem skjótast, því at Brandr biskup hafðe sent brèf um jarteinir ok vitronir Thorláks biskups [til þíngs, ok var ráðit á þínginu, at taka upp helgan dóm þorláks biskups[5], ok taka hann í heilagra manna tölo; ok fara þeir suðr eptir þíngit ok koma í Skálaholt at Margrètarmesso hinne síðarre[6]. En í þesse þjónostogjörð, er þá var gjör guðe til dýrðar ok hinum sèla Thorláke biskupe, þá sette Páll biskup Guðmund prest Arason nêst þeim biskupunum at allre sýslo, ok lèto þeir hann þørra kistonne með sèr[7], er biskup var í kirkju borinn, ok Guðmundr prestr rèð mesto, hvat súngit var, þá er heilagr dómrenn var upp tekinn. þar vurðo margar merkilegar jartegnir af heilagleik Thorláks biskups með guðe. þar lèt Páll biskup Guðmund prest vígea sèr ker mikit fullt af vatne til heilsobótar mönnum, því at þêr jarteinir urðo at vazvígslum hans um allt land, bêðe fè ok mönnum, sem nauðsyn krafðe til.

---

1) Á þessum orðum endar 204, sjá bls. 436 athgr. 7. síðast.

2) leiðr.; xviij. v. ok xx., *A*; frá [ v. í *B*. 3) b. v. eptir *B*.

4) *Upptekinn heilagr dómr Thorláks biskups*, *A* (61).

5) [ b. v. *B*; v. í *A*.

6) Í 395 er hèr rangt sagt frá: að Brandr biskup riði á þíng þetta sumar, en af þíngi í Skálholt, og að Páll biskup lèti þetta sumar lesa upp jarteinir á þínginu.

7) þann. *A* og tvískrifar *með sèr*.

[1]Húskarl var sá í Skálaholte er Halldórr hèt, hann var kreptr[2] svá mjök, at heitt[3] var hörund hans allt af ofverkjum[4]; en af hitum ok ofverkjum þá stóð vatn undir allt[5], ok vêttust undir herðum honum klêðin. En þat þótte þeim Pále biskupe ok Gizure Hallssyne mein mikit, því at hann var hagr maðr, ok rèzt Gizurr nú um við Guðmund prest Arason, hvat þeir skyldo at gera. En hann kennde þat ráð til, at ríða skylde á hann viðsmjörve, ok fóro þeir báðir til viðsmjörsins, ok vígir Guðmundr prestr viðsmjörit ok ríðr á hann af spêne; en litlo síðarr var hann alheill, ok sýnde sik heilan annat sumar Guðmunde Arasyne á alþínge. Nú ferr Guðmundr prestr heim norðr til Skagafjarðar ok til Staðar; var hann at Stað þau missere með Kolbeine.

[6]Sá atburðr varð heima þar at Stað, at kvíga ein sýkðist, er Kolbeinn átte, svá mjök, at honum þótte nêr dauð vera, ok gengr hann Kolbeinn til, ok segir Guðmunde preste, at þá lá kvígan úte á velle, ok rètte bêðe frá sèr fêtr ok höfut, ok var nêr dauð. Þá ferr Guðmundr prestr til með helga dóma sína, ok gengr [vij sinnum umhverfis[7] með helgan dóminn, ok sýngr yfir henne. Þá sprettr kvígan upp ok þegar alheil, ok leypr hart um völlinn.

[8]Sá atburðr varð at Hrafnagile, at þar kom fall á fè, ok er spurt, ef Guðmundr prestr vile til koma. Hann ferr til, ok lêtr reka á stöðul allt fèit, ok vígir vatn ok berr yfir helga dóma; gefr síþan þat ráð til, at taka skylde ofan úteklukku, ok rísta á *crucifixum* fjórum megum, ok hríngja henne yfir, en því var gleymt[9] at taka klukkuna ofan þegar hann fór í brøt. En þá litlo síðarr fèll ofan klukkan seálf, ok sakaðe ekke, ok var þó undir grjót, ok var þetta þá at gert, ok tók af þegar allt fallit.

[10][Þetta varð allt á einum misserum: Flóð et mikla. Í lög tekin Thorláks messa. Fálka víg[11]. [Þesse missere fèll Philippus jarl ok Ríkarðr Englandskonúngr[12]. Þann vetr sat

---

1) *Frá húskarle, A* (62). 2) likþrár, *B.* 3) hvítt, 395.
4) hrufum *B*; en undir þeim lá vatn ok ilskuver, b. v. 395.
5) hrufunum, *B.* 6) *Frá táknum Guðmundar prests, A* (63).
7) [ þrimr sinnum umbergis, *B.*
8) *Guðmundr prestr gjörði at fjárfalle, A* (64). 9) glaeymt, *A.*
10) *Tíðende, A* (65). 11) [ v. i *B.*
12) [ b. v. *B.*

Guðmundr prestr at Stað; [þá hafðe hann xviij. vetr ok xx[1]. En um várit rèzt hann á Víðemýre til Kolbeins Tumasonar með lið sitt, ok gerðe hann bú í Brekko liðe síno, en hann var seálfr á Víðemýre.

Capitulum.

30. Um sumarit ferr Guðmundr prestr til þíngs, en sá maðr var á þíngino, er fótar mein hafðe, [þat er menn kalla spýtu. Þat var[2] með svá miklum óhègindum, at hann mátte varla þola; þá kemr Guðmundr prestr til, ok sýngr yfir honum, ok ríðr á hann vatne vígðu, ok varþ hann heill, en lêknar fengo ekke at gert áðr. Af þíngino ferr hann í Borgarfjörð, ok bjóða menn honum heim um allt hèraðit, ok vígir hann þar brunna víða, ok fengo menn hvørvetna bót af meina sinna af vatne hans ok yfirsöngum, þótt hèr sè fátt talit, því at meirr finnst í frásögninne fáfrêðe vár ok óvizka, en efnafêð atburðanna.

[3]Sá atburðr varþ út á Hvítstöðum[4], at þar bjó sá maðr, er Jón[5] hèt, hann var vanheill[6], svá at hann lá í kör ij. vetr; þar kom þá Guðmundr prestr, ok söng yfir honum, ok bar á hann vígt vatn, ok bar yfir hann helga dóma sína, ok varþ hann þegar heill.

[7]Þaþan fór hann vestr í Hvamm, ok var at brúðlaupe Snorra Sturlosonar, þaðan fór hann vestr í Saurbê ok í Fagradal, þaðan á Reykjahóla, á Reykjanes; þar vígðe hann brunn, þann er þeir migu í síðan til háðs við hann; en þó batnaðe eige síðr en áðr við þat vatn. Þaðan fór hann til [Staðar á Reykjanese, til Þorgils Gunnsteinssonar, ok hvarf þaðan aptr, ok fóro þaðan norðr til[8] Steingrímsfjarðar, þaðan norðr til Miðfjarðar ok svá heim til Víðemýrar um haustið, ok var þar

1) leidr.; xix. vetr ok xx, *A*; frá [ v. í *B*; 395 b. v.: Sem Guðmundr prestr hafði verit einn vetr at Stað, bauð Kolbeinn Tumason honum til sín á Víðemýri. Kolbeinn átte Guiðriði(!) dóttur Þorvarðs, föðurbróður Guðmundar, hann var mestr virðingamaðr af leikmönnum í Skagafirði, vitr maðr ok hit mesta skáld, yrkjandi mörg kvæði með frábæru lofi til guðs móður Mariam, ok at mörgu var hann vel fallinn, þegar hann varð eigi sigraðr af ofmiklu kappi.

2) [ v. í *B*. 3) *Miraculum*, *A* (67). 4) á Mýrum, b. v. *B*.

5) þann. *B*; í *A* er eyða fyrir nafninu. 6) vanmegn, *B*.

7) *Guðmundr prestr fór í Hvamm*, *A* (68). 8) [ v. í *B*.

um vetrinn í góðo yfirlête, ok lagðe Kolbeinn svá mikla virþíng [á hann], at hann kallaðe hann þá sannliga helgan mann, ok kallaðist seálfr margar raunir á því hafa. Um sumarit áðr[1] var Thorláks messa leidd í lög.

### Frá Sigurðe Ormssyne.

31. Eptir andlát Jóns Loptssonar tóko til deilur þeirra Sêmundar ok Sigurðar Ormssonar; þeir deildu um arf þess manns er Gellir[2] hèt, ok hafðe Jón Loptsson haft handsöl á fjám hans, en erfíngjar voro austr í sveit Sigurðar, ok tók hann fèit undir sik, ok sette í þann mann er Káre hèt, ok urðo þar um deilur á þinge; bauð Sêmundr á gjörð Þorvalds Gizurarsonar, er þá átte Þóru, dóttur Guðmundar gríss ok Solveigar systur Sêmundar, ok þar með Páls biskups, en Sigurðr vilde þat eige, því at þeir Sighvatr Sturloson ok Kolbeinn Tumason lötto hann sêtta, ok hèto honum öllum sínum styrk, ok urðo þesse mál ekke greidd á því þinge.

[3]En um vetrinn er á leið, þann er Snorre Sturloson hafðe kvángazt um sumarit áðr, fóro þeir Sêmundr með xxx. manna austr á Síðu, ok lèt Sêmundr drepa Kára, er sat í feám þeim, er Gellir hafðe átt. En um várit hafðe Snorre Sturloson stefnt Sigurðe til várþíngs at Þíngskálum. Sigurðr sende snemma um várit Arnór Tumason á fund þeirra Sighvats ok Kolbeins Tumasonar, ok bað þá koma til sín með allan afla þann er þeir fenge til, því at hann þóttist þurfa um mála tilbúnat þann, er þeir átto at kêra.

[4]Sêmundr sende Snorra Sturloson til Borgarfjarðar at kveðea upp þíngmenn sína, er faðir hans hafðe átt, bêðe marga ok góða bêndr, fèkk hann þar gott mannval. Þá er Snorre kom í Skálaholt með føroneyte sitt, var Arnórr þar fyrr kominn með liðsbón þeirra Sighvats ok Kolbeins. Þá var Snorre tvítugr en Arnórr xviij. vetra, ok þóttust eige mega draga meire flokka á vársdag svá mikit stórleiðe. Sigurðr varð sekr á þinge.

[5]Nú er þar til máls at taka, at hvárirtveggjo samna liðe

1) eptir, *B* (rangt). 2) Glæðir, *St.*
3) *Liðsdráttr Sigurðar ok Arnórs, A* (70).
4) *Frá Snorra Sturlosyne, A* (71).
5) *Sétt Sigurðar ok Sêmundar, A* (72).

af nýjo, ok varð Sêmundr myklo fjölmennare. Sigurðr hafðe cc. manna, ok hann frèttir at Sêmundr hefir DCC manna. Ferr hann upp á eyna með lið sitt, ok býst þar við. En við þenna váða þá ferr til Páll biskup ok Þorvaldr Gizurarson at leita um sêttir. En við þenna aflamun gjörðist Sigurðe sá einn til, at sèttast við Sêmund; vóro þá griþ seld, ok fundust þeir heá Forsá heá Skógum, ok varþ sú sêtt, at Páll biskup skylde gera um á þinge. [1]Fara nú til þings hvárirtveggju, ok lýkr Páll biskup þar upp gjörðum við ráð hinna beztu manna. Görir hann eignir til handa Sêmunde, en stillir svá gjörðum, at hvárirtveggju máttu vel við una; en Sêmundr hafðe af málum þessum sêmd ok virþíng. Kolbeine líkaðe illa þessar málalyktir, en Sighvate miklo verr[2].

Upp tekinn heilagr dómr Jóns biskups.

32. Þenna vetr, er Guðmundr prestr var á Víðemýre, var vetr *mikill ok* horfðe til *mikilla* úhêginda fire *mörgum* mönnum. Þá berr mönnum í drauma um heilagleik Jóns biskups. En þat vitraðist, at veðrátta munde batna, ef heilagr dómr hans vêre upp tekinn. Var þat þá ráðit af Brande biskupe, at hann sende eptir Guðmunde preste Arasyne á Víðemýre, at hann skylde *til koma*, *ok* vera *forráðsmaðr* þeirrar þjónosto, því at hann seálfr lá í rekkjo. Stefnir biskup at sèr kennemönnum; en svá var veðr illt, at Guðmundr prestr kom nótt síðarr en êtlat var ok ákveðit var, ok var hans þó beðit. En er hann var kominn, þá var upp tekinn heilagr dómr Jóns biskups með stórum jarteinum, vij. *nóttum* eptir Mathiasmesso um föstо[3].

[4]En um várit ferr Guðmundr prestr norðr í Eyjafjörð eptir pascha ok allt upp í Saurbø; þar var sveinn einn, hann

---

1) *Frá gjörð Páls biskups, A* (73). 2) kap. 31. v. í *B*.

3) *Hèr* skýtr *B* inn sögunni um ferð Kolbeins um Kjöl, sjá Viðb. kap. 2; — 395 bætir við: gekk sú þjónusta fagrliga fram eptir forsögn hins góða Guðmundar. Margar ágætar jarteiknir birtust á þeim degi fyrir verðleika signaðs Johannis, fyrsta í heilsugjöf Brands biskups, ok batnaði veðrátta um allt land, ok fleirum táknum öðrum, hvað fyllilega greinist í hans jarteikna bók. Guðmundr prestr fór heim á Víðemýre, ok var þar um vetrinn í góðre virðing hjá Kolbeine.

4) *Frá táknum Guðmundar prests, A* (75).

var krypllngr ok illa haldinn af ofverkjum, svá at hann mátte varla standast. [Hann rêdde um við Einar[1], at Guðmundr prestr munde vilea koma til hans ok sýngja yfir honum; hann ferr til, ok sýngr yfir honum lenge ok ríðr á hann vatni síno, ok gerir hann [fárinn[2]. En eptir þat þá tekr sveinninn at rèttast þegar, ok varð hann skjótt alheill þessa meins. þessa sveins verðr getið síðarr í sögunne.

[3]Sá atburðr varð enn þar í Saurbê, at kona sú er Halldóra[4] hèt, hon var fóstrsystir[5] Guðmundar prests ok unne honum mikit, ok hon var þá við aldr: hon sá um dag, er Guðmundr prestr söng messo, at ljós mikit kom yfir hann, svá bjart ok mikit, sem sólargeisle vêre. þat skein á hann um alla lágasöngva nèr, ok leið síþan í lopt upp[6]. En meðan hann hafðe brøt verit or hèraðe, þá hafðe andazt móðir hans Úlfeiðr, ok var líke hennar fylgt til Hóla, ok var hon oleut áðr, ok tók Brandr biskup við líke hennar með ástúð.

## Guðmundr prestr á Víðemýre.

33. Nú ferr Guðmundr prestr á Víðemýre, ok er ráðin vist hans heima þar framleiðis, því at Kolbeinn lýste því fire alþýðo manna, at hann fynde mune á, at þá fèlle minne matr fram í búe, er hann var heima með klerka sína, en þá er hann var í brottu, ok kvaðst hann því meirr kostgêfa[7] heimavist hans, en hann munde elligar[8]. Hann ferr enn til þíngs um sumarit. þá var leidd í lög Jóns messa biskups at bøn Brands biskups ok tölo Guðmundar prests Arasonar, er hann talaðe um í lögrètto. Á þínge buðo honum heim Vestfirðíngar, ok fór hann af þíngino vestr í sveitir til Borgarfjarðar ok svá til Breiðafjarðar. En er hann kom á Reykjanes, til þorgils Gunnsteinssonar, þá ráða þeir þat með sèr, at [hann] skyle taka við syne hans, er Lambkárr heitir, til fóstrs ok kenna,

1) [ Einar bónde ræddi um, *B*. 2) allan votan, *B*.
3) *Fireburðr*, *A* (76). 4) Hallbera, 395.
5) þann. *B*, 395; fo systir, *A*.
6) sagði Hallbera þessa sýn vitrum mönnum, ok þótti öllum mikils um vert, var hún kona merkorð, ok því grunaði enginn hennar sögu hèr um, b. v. 395. 7) kosta á, *B*.
8) Hèr skýtr 395 inn sögunni um ferð Kolbeins um Kjöl (sjá Viðb. kap. 2).

ok staddr var við marga funde ok marga lute síþan, þá er ero[1] í þesse sögo.

[2]Nú vill Guðmundr prestr fara af Reykjanese ok til Flateyjar, [þat ero iij. vikur sjáfar[3]; þar vóro til fengnir sveinar þorgils úngir ok húskarl einn, at ferja Guðmund prest þangat allt í Flatey. Þorgils mêlte til Guðmundar prests: „gefðu sveinum mínum byr ok blezan þína, þá er þeir fara aptr, því at þeir ero allóknáir, ok fel ek þá þèr á hende". — „Biðea skal ek", sagðe hann, „at guð gefe þeim byr". Þá fara þeir, ok koma [í Hval[l]átr, því at mart [er] eyja á leiðinne, ok koma annan aptan í Flatey[4], ok var logn um daginn. Þá bjoggust sveinarnir þegar heim, ok rêddu um, at hann skylde efna við þá, ok gefa þeim byr; en hann lèzt mundo biðea guð, ok gekk til kirkju. En þeir fóro til skips ok bjøggust til siglíngar, ok draga þar upp segl sitt. Þá kastar þegar vinde á eptir þeim, ok sigla or vörum, ok légja eige fyrr segl en heima í vörum um morgininn eptir. Þeir höfðo því betra byr, er þeir höfðo lengr siglt.

[5]Þaþan ferr Guðmundr prestr vestr í Fjörðu, ok verða þar margir merkilegir lutir í stórum jarteinum, þótt [vêr munim fátt af[6]. En er hann var í Sauðlausdal[7], þá vígðe hann þar vatn, ok bar þar kona heim í húfu sinne, því at hon hafðe ekke ílátið til vazins, ok var húfan þur á utan, en vatnit var í húfunne. Þá ferr maðr einn hverr [um fjall eitt bratt[8] með vatnit í bytto, ok sette niðr hjá sèr, er hann batt skó sinn; en þá steykkr byttan ofan fire fjallit, ok hleypr stein af steine, unz hon kom á jöfnu. Þá þótte honum sake at mikill um vatnit, ok fór hann ofan af fjallino ok þar til er byttan stóð, ok var hon heil ok enge drope or.

[9]Þá ferr Guðmundr prestr norðr í Fjörðu, þar til er hann kemr í Keldodal til Þórðar Arasonar; hann var vanheill svá mjök, at hönd hans var visnut af ofverkjum, svá at hann mátte eige skera mat fire sik; hann tók vel við honum, sem allir

---

1) enn verða síðar sagðir, *B.*
2) *Guðmundr prestr fór til Flateyjar, A* (78).
3) [ v. í *B.* 4) [ til Flateyjar, *B.* 5) *Jartein at vatne, A* (79).
6) [ hèr sè fátt af sagt, *B;* hèr sè fátt skrifað, 395.
7) þannig *A, B.* 8) [ b. v. *B.* 9) *Jartein, A* (80).

aðrir. En um nóttina, er hann þóttist eige mega liggja, þá gekk hann út; en er hann kom inn í skálann, þá sá hann til rekkju Guðmundar prests ljós mikit, svá sem skine geisle, ok gengr hann til at seá. Því slêr á, at hann rèttir höndina í ljósit, þá hina veilo, ok var þá ljósit jafnbjart á hendinne, sem áðr sýndist honum. En eptir þat var höndin heil ok styrk, ok verklaus. Þá líðr af ljósit. Þaðan ferr hann í Haukadal, til Árna rauðskeggs. Þar var fengin til kona um aptaninn, er hann var kominn í rekkju, at klá fót hans; [hon var vanheil, svá at krepptir vóro ij. fíngrnir eða iij[1]. En er honum þótte ofkyrt klegit, þá spyrnir hann við mjök hart fêtinum, ok kemr hêllinn í bug fíngranna, þeirra er krepptir vóro, ok spyrnir hann þar í, ok verðr henne við sárt. En fám nóttum síþarr kom hon á fund hans ok sýnde honum hönd sína heila, ok þökkuðo allir guðe þeir er sá.

Frá ferðum Guðmundar prests[2].

34. Þaðan ferr hans unz hann kemr á Mýrar til Mögs[3], þar vígðe hann brunn, þann er náliga varþ allt heilt þat er á bergðe, ok þar fengu bót konur ij, [svá at vèr vitom víst[4], er vaþit höfðo í lèkinn þann, eðr keldo, er fèll or brunninum. Þaðan fór hann út á Íngjaldssand, ok svá í Önundarfjörð, ok þaðan norðr[5] til Ísafjarðar, ok kemr hann í Súðavík at Matheusmesso, þar gefr hann Bárðe frênda sínum til XXX hundraða vöro til kvánarmundar, [ok var honum föstnut dóttir Steinþórs[6] prests Bjarnarsonar. Þar kom laupande [kona sú[7] er Þuríðr hèt, er fylgt hafðe Árna rauðskegg, ok áðr hafðe setið í banne Páls biskups, ok fèkk hann eige skilit þau. En er hon heyrðe kenníngar Guðmundar prests Arasonar, ok sá jarteinir hans, þá gerðe hana engis jafnfúsa, sem at fylgja honum. Nú verðr hon at leita sèr ráðs, at komast or höndum Árna, því at hann unne henne mikit, ok átto þau mörg

1) [ henne lágu iij fíngr í lófa, *B*. 2) biskups, *A*.
3) mágs síns, *B*, rangt (sjá St. 4. 13).
4) [ v. í *B*; vóru þess hlutar margir skærir vottar, 395.
5) um heiðe, b. v. *B*.
6) þannig eptir *B* og *St.*; Steinolfs, *A*. Frá [ við dóttur Steinþórs, *B*; Þorsteins prests Bjarnarsonar úr Holti, 395. 7) [ leiðr.; konu þá, *A*.

börn; hon var vên kona; ok komst hon með laupe á brot, ok kemr hon Matheusmesso á fund Guðmundar prests Arasonar, ok fèll til fóta honum, ok bað [miskunnar með miklum iðrunar gráte[1], ok beidde viðtöko, ok hon mêtte skileast við vandrêðe sín, ok hlaut hon svá mikit gott af funde hans, at hon viteaðe aldri aptr síðan til hins sama vandrêðis, ok fylgðe hon honum ávallt síðan, þá er þau skilðe eige úfriðr manna, ok þótte mörgum mönnum mikils vert um þenna atburð, með þeim hètte sem þar varþ, í andligre hjálp. — Þaðan ferr Guðmundr prestr til Vazfjarðar, ok þaðan til Steingrímsfjarðar til Jóns Brandssonar. En þá var lið mart í för með honum, ok rêddo menn um, at senda[2] skylde menn fire, at segja, at þeir kême eige á úvart. En hann kvað eige þurfa mundo, „ok man guð gefa[3] þeim hval nökkorn, áðr vêr farim í brot". En þesse orð fylldust svá, at hinn sama dag kom reyðr á reka Jóns, þar er hann átte einn, [ok var honum sögð hvalsagan um morgininn eptir; en þeir urðo fegnir þessum atburþ[4], ok gaf Jón Guðmunde preste bók, [þá er gerseme var[5], er Páll biskup hafðe gefit Jóne. Þaðan ferr hann [á Broddanes, ok norðr þaðan um Flóa[6] til Miðfjarðar. En í för þesse, er hann fór um Vestfjörðo, veitte guð honum miklo fleira ok stêrra en vêr kunnim at virða eðr telea, bêðe í andligum jarteinum ok líkamligum. Þeir Vestfirðíngar felldu svá mikla ást til hans, ok kenninga hans, at sá þóttist bezt hafa, er meira mátte gott til hans gera, bêðe í fègjöfum ok öðrum lutum góðum, ok [gafst þeim því þegar[7] af guðe meire miskunn, at guþ sá ástarhug þeirra, þann er þeir hèldo ávallt síþan við Guðmund prest. Þá rèðust um sumarit til hans [prestlíngar, ok lèto frêndr sína ok vine, ok girntust at fylgja honum[8], þar var Snorre[9] frênde hans, son Bárðar[10] prests Snorrasonar, er lenge var með honum síðan. Þar var ok Páll, son Íngjalds prests. Þar var ok

---

1) leiðr. eptir *B*; [ iðrunar með miklum gráte, *A*.
2) þann. *B*; (misskrifað) skñda, *A*.
3) firir oss, ok senda, b. v. *B*.
4) [ v. í *B*.
5) [ heiðuz (heiðurs?) góða, *B*.
6) [ v. í *B*.
7) [ galt þeim þegar í hönd, *B*.
8) [ klerkar iij, *B*.
9) Einar, 395.
10) þannig: *B*; Bjarnar, *A*.

Lambkárr, son þorgils[1] prests Gunnsteinssonar, er enn var með honum lenge síþan.

### Frá táknum Guðmundar prests Arasonar.

35. Sá atburðr varð at Hofe í Vazdal þetta haust, þá er Guðmundr prestr Árason var þar, at hann söng yfir sjúkum manne, er[2] lá í kör, ok bar yfir hann helga dóma sína, hann lá í bekk heá enum sjúka manni ok sofnaðe á bênenne, at því at þeim sýndist, er hjá vóro. Djákn hans lá í bekkinum heá honum, ok [hnè hann á hann ofan, er hann sofnaðe[3]. En er hann hafðe skamma stund sofit, þá kennde djákninn ekke, at hann lêge á honum, en sá hann ok svá aðrir, at hann lá þar; þat var mjök langa stund. En er hann vaknaðe, þá spurðe djákninn hví þat sêtte, „er ek kennde þín eige, er þú hvíldir á brjóste mèr"; en hann vilde ekke frá segja.

[4]þá kemr sú saga vestan or Fjörðum, at maðr sá er Snorre hèt, vestr í Skálavík, [var leikinn][5] af flagðe einu, ok sótte hann tröllkona ein svá mjök, at hann hugðist eige standast mega. En þessa nótt hina sömu, áðr seá dagr kême, er áðan nefndu vêr, þat var þváttnótt, þá skylde Snorre fara til tíða einn saman, en langt var at fara. þá kemr at honum tröllkonan, ok sêkir hann einart, ok bêgir honum til fjalls. þá heitr hann á Guðmund prest Arason, at hann skylde duga honum, ef hann vêre svá ávarðr guðe, sem hann êtlaðe, ok leysa frá trölle þesso. En í því bile sýndist honum [at] ljós mikit kvême yfir hann; en ljósinu fylgðe maðr í kirkju-kápu, ok hafðe vazstökkul í hende ok stökkte á hana; en [þá hvarf tröllkonan[6] þegar, sem hon sykke niðr. En honum fylgðe [ljósit[7] [þar til er[8] hann kom til bêjarins. Hann þóttist gerla kenna, at ljósinu fylgðe Guðmundr prestr Arason. Nú bar þat saman, at þetta var allt á einne stundo, at Snorra vitraðist, ok þat er djákninn hafðe eige kennt þúnga af honum. Sjá djákne [varð miklo optarr þessa varr[9], því at hann hvílde heá honum, [at

---

1) þann. á spáz. með sömu hende, en „þorkels" i textanum, *A*.

2) ok, *A*. 3) [ hneig hann af bæninni á hann, *B*.

4) ***Frá Snorra***, *A* (83). 5) b. v. *B*; v. i *A*. 6) [ þannig *B*; v. i *A*.

7) [ i *A* ritað fyrst: „ljós mikit" en síðan gert úr því „ljósit".

8) [ b. v. eptir getg. En ljósit fylgði honum allt til bæjarins, *B*.

9) [ þótt ei sè nefndr, var mjög elskaðr af Guðmundi presti, hann sagði opt sinnis svá til bera, 395.

hann þóttist eige kenna hans í rekkjonne; en hann þorðe þó eige at þreifa til; en þá urðo ávallt nokkorar jarteinir í öðrum sveitum, þar sem hann var eige seálfr, af heitum manna ok kalle[1]. Seá inn same djákne hafðe sull í höfðe sèr, ok stóð hann under hende honum í messo, ok lá ølboge hans á sullenum, ok varð honum sárt við mjök. En er lokit var messunne, þá kennde hann eige sullsins, ok segir hann fóstra sínum frá annan dag eptir.

[2]Síþan fara þeir til Þíngeyra, ok koma þar um daginn fire allra heilagra messo. En þat er til merkja, hverr þá var alhuge manna skynsamra, þeirra sem þar vóro fire: Karl ábóte ok Gunnlaugr múnkr, ok margir aðrir, áðr upp reis öfund sú ok ofmetnaðr, er síþan kom fram af mótgangsmönnum hans, þeim er ávítaðir vóro af honum um glêpe sína: at þeir gerðo *processio* í móte honom [um daginn[3], ok var hann þá prestr, ok súngo [þeir á mót honum *responsa*[4]: *Vir iste in populo suo mitissimus apparuit*, *dei*[5] *gratia plenus; iste est qui assidue etc.* Nú berr þetta alltsaman mikit vitne, hversu slíkir menn virðu hans ráþ, áðr þeir urðo af metnaðe blindir. Þar telr hann merkilega tölo allra heilagra messo. Þaðan ferr hann út á Blöndobakka, þar var hann mjök lenge. Þaðan er hann ekinn upp eptir Langadal, ok[6] var sendr maðr eptir heste þeim, er feitastr var í dalenum ok sterkastr, ok var eige lèð, þá gengr hestrinn í brunnløk þeirra er átto, ok dó hann þar í. En Guðmundr prestr ferr, unz hann kemr heim á Víðemýre at Nicholásmesso, ok verðr Kolbeinn honum allshugar feginn, ok er hann heima þar um vetrinn. Þá verða margir merkilegir lutir í jarteinum.

[7]Kolbeinn átte rút einn, þann er gersime var í, ok honum þótte góðr; hrútrinn tók sótt, er köllut var kríngloo sótt, ok varð dauðvána. Þá söng Guðmundr prestr yfir honum, ok sette líkneske Johannes baptista á meðal horna rútinum, ok verðr þá rútrinn heill.

[8]Einarr hèt maðr, er kallaðr var forkr, hann tók mein

---

1) [ v. í *B.* 2) *Frá ferðum Guðmundar prests, A* (84).
3) [ næsta dag firir allraheilagramessu, 395.
4) [ bræðr Responsorium, *B.* 5) sancte isti, dei et, *B.*
6) en áðr hann riðr norðr um Vatnsskarð, 395.
7) *Jartein, A* (85). 8) *Jartein, A* (86).

þat er sullo á honum skøpin með óhêgindum stórum; þá sýngr Guðmundr prestr yfir honum ok berr á hann vígt vatn, ok tók þegar at svin[n]a[1] sköp hans, unz hann varð alheill maðr. [Nú er Guðmundr prestr Arason [vetre miðr en] fertogr. þetta varþ á einum misserum ok á eino áre, er Guðmundr prestr var á Víðemýre enn fyrra vetrinn: Upp tekinn or jörðo heilagr dómr Jóns biskups at Hólum, ok í lög tekinn andlátsdagr hans um sumarit á alþinge, sem fyrr er ritað. Andlát Sigurðar Sverrissonar[2]. Orrosta á Strindseá. Bardage í Oslu. Andlát þorleifs beiskalda[3].

Frá Guðmunde preste.

36. þenna vetr enn síðarra var Guðmundr prestr á Víðemýre í góðu yfirlête, ok fóro um várit at heimboðum norðr um herot, í Flatey[4] ok upp um Eyjafjörð, ok norðan at alþinge, ok reið hann til þíngs um sumarit. En á þinge buðo honum heim bêðe Sunnlendíngar ok Austfirðíngar. Hann reið suðr af þinge í Skálaholt. þá nótt er hann var þar kominn andaðist Ketilbjörg nunna, ok lèt Páll biskup Guðmund prest sýngja fire líksöng yfir líke hennar; en biskup stóð yfir meðan ok Gizurr Hallsson, ok varð sú þjónosta svá merkileg, at Gizurr váttaðe því í tölo sinne yfer[5] gröfinne, at þeir þóttust eige slíkan líksöng heyrt hafa, ok virðo þeir henne til heilagleiks, er henne skylde slíks auðit verða. þaðan ferr hann austr yfir ár. þá býðr honum heim Árne á Skúmstöðum; þar var þá mikit fall ok ákaft, svá at vij menn vóro fallnir, ok bêðe naut ok hross; þar gistir hann, ok vígir vatn ok gengr með helga dóma, ok stökkte hann seálfr vatninu um akra hans alla ok töður ok um engjar, ok tók þegar af fallit allt. þaðan ferr hann austr undir Eyjafjöll, ok svá austr á Síþu, ok yfir Austfjörðu, ok vígir hann þar brunna á hverjum bê er hann giste. þá kemr hann á þann bê, er at Lómagnúpe heitir; þar var laup í ánne Lómagnúpsá, svá mikit, at Örn[6] bónde hafðe af komizt [við illan leik[7], en drukknat hafðe maðr sá er reið með honum, af laupe árinnar,

1) þann. „svina", *A*, 122 (sbr. á dönsku *svinde*).
2) getg.; Snorrasonar, *A*; Sigurðr lávarðr andaðist 1200.
3) frá fyrra [ v. í *B*. 4) vígjandi þar brunn ok víða annarstaðar, b. v. 395. 5) þann. *A* á spáziu, en *i* í textanum.
6) Einar, 395. 7) [ við trauð, *B*.

ok braut[1] niðr lönd manna. Menn sáto við ána fire austan, ok mátto eige yfir komast, því at áin var berliga úfêr, ok er þeir Guðmundr prestr kómu til árinnar, þá sá þeir, at hon var úreið, ok stíga þeir af hestunum ok bíða. Þá seá þeir at áin fellr fram. En er þeir höfðo setið við ána langa stund, ok treystast eige at ríða, þá sá þeir, er fire austan sáto ána, at hon fèll fram, ok ráða þeir til at ríða. [Þá ríða þeir Guðmundr prestr ok föronautar hans[2], ok hittast á ánne nêr miðre, ok þeir er austan kómu at; ferst hvárumtveggjum vel. En er hvárirtveggjo kómo yfir ána, þá tekr hon at vaxa, ok var þá enn ófêr nokkora daga eptir.

Guðmundr prestr ferr at heimboðum um Austfjörðu.

37. Þaðan ferr hann til Svínafells til Sigurðar Ormssonar; þar var þá kominn Kolbeinn Tumason til heimboðs, ok ero þar allir samt iij nêtr. Þá ferr Kolbeinn á brot, ok ríða þeir Sigurðr Ormsson ok Guðmundr prestr Arason á leið með honum. En er þeir vóro skilðir, þá ríða þeir Guðmundr prestr ok Sigurðr þangat sem maðr hafðe farit sèr seálfr, ok var þar rambygglikt, því at sá gekk aptr, ok vilde Sigurðr, at Guðmundr prestr blezaðe þann stað. Sigurðr vilde ok tala við Guðmund prest einn saman um vandrêðe sín, þau er leiddo af málum þeirra Sêmundar, ok hann lèzt varla bera mega þann vansa ok ámêle, ok ágang þann, er leidde af málum þeirra Sêmundar, ok leitaðe ráða við Guðmund prest, kvazt engis jafnfúss, sem at leita til hefnda við Sêmund. En Guðmundr prestr kvað hann þess mest gêta skyldu, at spilla eige málaefnum sínum svá góðum: „því at þú mátt vel við una at þú hafir góð málaefne, ok hafir þú af því ámêle, er þú gerir vel, [en hann af því lof, er hann[3] gerir illa ok fylgir röngu at með ofríke. Nú man ek biðea guð sem ek kann, at hann styrke þik ok gête þín". — „Hins vilda ek biðea þik", [segir][4] Sigurðr, „at þú bêðir þess guð, at hann lète þik verða þess ráðanda, at þú mêttir fá mèr staðfestu norðr í sveitum, þá er höfutburðr vêre at, því at mèr sýnist svá mikit yfir þèr, at

1) brot, *A.* 2) [ ok ríða þá hvorirtveggju, *B.*
3) [ þann. *B*; en af því lof, er þú, *A.* 4) fyrst skrifað *at*, en síðan gert *s* (= segir) úr *t*inu, en gleymt að strika *a* út.

mèr býðr þat eitt í skap, at þú verðir meira stýrande[1] en nú ertu; en staðfestu þessa vilde ek selea í hendr Jóne frênda mínum Sigmundarsyne. Nú man verða annat tveggja, at ek man leita undan, ef þú villt mèr þesso játa, ella man ek eptir leita við Sêmund, hversu sem ferr". En hann svarar, ok kvazt heldr þesso heita vilea, at hêtta til, hvárt guð lète hann þessa verða ráðanda eðr eige. En þetta bar í móte, at þenna hinn sama dag, er þeir töloðo þetta, andaðist Brandr biskup at Hólum, ok fylldist svá hvártveggja þetta orð: sú gêfa er Sigurðr þóttist seá yfir honum, ok góðvilea heit þat, er Guðmundr prestr hèt Sigurðe, ef hann mêtte stöðva missêtte þeirra Sigurðar ok Sêmundar, at fá Sigurðe staðfesto fire norðan land; [ok bar þenna dag undir Guðmund prest ráð biskupsdómsins[2], þótt þeir visse eige.

Jartein hins heilaga Jóns biskups.

38. Sá atburðr varð þar, at Sigurðr bað Guðmund prest gefa sèr helga dóma, ok svá görðe hann. En er hann gaf honum af beine Jóns biskups, þá rêdde um prestr sá er Steinn hèt, at honum þótte eige vel litt beinit Jóns biskups, ok kvazt þat þikkja eige heilaglikt. En Guðmundr prestr svarar mjúkliga, ok spur, [hvárt hann tryðe Martein biskup óhelgara en aðra menn, af því at bein hans vóro dökk, eðr hvárt honum þêtte Thorlákr biskup heilagr eðr eige. Steinn prestr segir, ok kvazt Jón biskup eige þikkja komast til jafns við Thorlák biskup[3]. Þá mêlte Guðmundr prestr við þá er í nánd vóro: „biðjum vèr nú öll guð ok sǿla Mariam drotníng ok hinn heilaga Jón biskup, at hann sýne sinn heilagleik með nokkurum táknum, at lina[4] ótrú [Steins] prests. Þá fèllu allir á knè, ok súngu *Pater noster* með Guðmunde preste; en eptir þat lèt hann alla menn kyssa á beinin. Þá kenndu allir hinn sêtasta reykelsis ilm [nema Steinn einn, hann kennde engan

1) stýranda, *A.* 2) b. v. *B*, *St.*; v. í *A.*

3) [ „hvárt trúir þú prestr," sagði hann, „Martein biskup at óhelgara, þótt bein hans sè smátt ok dökkt, eða þikki þèr Þorlákr biskup at helgari, þótt hans bein sèr hvítara?" — Steinn prestr svarar; „eigi þikki mèr," sagði hann, „Jón biskup lengra taka en í miðjar síður Þorláki biskupi," (vorum, b. v. 395), *B*, 395.

4) þann. *B*; sýna, *A.*

ilm[1]. þá skammaðist Steinn prestr ótrú sinnar ok orða, ok sá þá reiðe guðs ok hins heilaga Jóns biskups við Stein prest, er hann var[2] svá fráskila [gjörr] þesse dýrð. Bað þá Steinn prestr með gráte iðrunar sinnar hinn heilaga Jón biskup fyrgefníngar. þá bauð Guðmundr prestr at gefa Steine preste af beinum Jóns biskups, ef hann vilde vera dýrkande Jón biskup af öllum hug; en hann kvaðst þat vilea feginn, ok kvaðst þó vera hrêddr um, hvárt Jón biskup munde þiggea vilea hans dýrkun eða eige. þá mêlte Guðmundr prestr enn, at allir menn skyldu biðea, at hinn sêle Jón biskup sýnde Steine fyrgefníng í nokkoro orða þeirra er hann mêlte. En er Steinn tók við beinunum, þá kennde hann slíkan ilm sem aðrir. þökkuðo nú allir guðe ok hinom sêla Jóne biskupe, ok var hríngt öllum klukkum ok súnginn *Te deum*, ok lýst svá jartein þesse, er þá var nýorðin.

[3]Sá atburðr varð þar enn, at laup kom í ána, þá er fèll við bêinn seálfan, ok braut akra ok töður, svá at stórum sköþum søtte. þá bað Sigurðr Guðmund prest fara til ok sýngja yfir ánne. En um morgininn eptir þá var áin horfin. En Guðmundr prestr hafðe til farit með helga dóma sína áðr um daginn, bêðe með klerka sína, ok líkneske Nicholai biskups, ok hafðe hann súngit yfir ánne. En þá var áin horfin or þeim farveg, ok hafðe brotið sèr nýjan farveg austarr um sanda.

[4]Kerlíng var þar ein at Svínafelle afgömul, hon lá í rekkjo ok var komin at bana, svá at hon hafðe vij nêtr mállaus verit, ok enge matr niðr komizt á þeim vij nóttum, hon hafðe ekke hrêrt á sèr nema framanverða fíngrna ok têr framanverðar, en þó hafðe henne veitt verit oleun ok öll þjónosta til framfarar[5], en öndin skildist eige við hana. [Hon unne Guðmunde preste mikit[6]. En er Guðmundr prestr var kominn til hests síns ok á brot frá Svínafelle, þá tekr Guðmundr prestr til orða: „þat er satt"[7], segir hann, „at ek hefe eigē kyst kerlínguna sêlo inne, en þat skal þó eige vera". þá gengr hann inn, ok alþýða manna með honum. Hann kemr í stofo, ok at þar er

1) [ b. v. *B*; v. í *A*. 2) eigi, b. v. *A*. 3) *Jartein*, *A* (90).
4) *Frá kerlíngu*, *A* (91). 5) þann. *B*; framan, *A*.
6) [ hon var góðmenni mikit í manna augliti, *B*. 7) satna, *B*.

kerlíng liggr, ok þótte mönnum hon þá nêr öndut vera. Þá tekr Guðmundr prestr til orða, ok kyste kerlíngu, ok mêlte við hana: „vertu nú heil ok sêl, *kerlíng*, ok *muntu nú brátt* fara til guðs; nú berr þú kveðju mína sêlle Marie guðs móður, ok Michaele höfutengle, Johanne baptista, Petro ok Paulo, Ólafe konúnge, ok einkum Ambrosio biskupe vin mínum, ok öllum helgum"[1]. Þá svaraðe kerlíng, svá at þeir heyrðo eige ógjörr, er fire framan vóro stofuna: „Já", kvað kerlíng. Þat orð mêlte hon síðarst. Þat var nér miðjum dege, en hon andaðist at nóne þann inn sama dag; þat var laugardagr. Um þessa alla lute þótte Sigurðe mikils vert, ok þökkoðo guðe ok öllum helgum[2].

## Andlát Brands biskups.

39. Einum vetre eptir deilur þeirra Sêmundar ok Sigurðar andaðist Brandr biskup at Hólum[3]; en þá rèð Kolbeinn einn öllo fire norðan land. Hann boðaðe saman mörgo stórmenne norðr þar, ok stefnde fund fjölmennan á Völlum Egidiusmesso. Kolbeinn leitaðe ráða við alþýðu manna um biskups kosníng til Hólastaðar, en flestir viku til hans orskurðar. Hann kaus þá, við ráð vina ok frênda, Guðmund prest hinn góða Arason til biskups, er þá var prestr á Víðemýre með Kolbeine Tumasyne. Þau vóro brêðrabörn: Gyríðr[4] Þorvarðsdóttir, kona Kolbeins, ok Guðmundr prestr inn góðe; var hann maðr vinveittr ok vinsêll ok hógvêrr, ok var þat orð á af mörgum mönnum, at Kolbeinn vilde því kjósa Guðmund til biskups, at hann þóttist þá ráða meira, ef hann rèðe bêðe leikmönnum ok kennemönnum fire norðan land. Þá hafðe Guðmundr prestr vetr hins fimta tigar[5]. Á þesso áre andaðist Absalon erkibiskup ok Brandr biskup at Hólum, Sêmundarson. Kjörinn Guðmundr

---

1) ok seg honum þat Ambrosio, at ek vilda honum líkastr vera allra heilagra manna, b. v. *B*.

2) Hèr skýtr *B* inn litlum formála með fyrirsögn: *þriði hlutr*; sjá Viðb. kap. 3.

3) octavo Jdus augusti, þat er in festo Sexti, á öðrum deg iviku ( = 6. Aug. 1201), þá hann hafði biskup verit viij vetr hins fjórða tigar, b. v. 395.

4) Guðríðr, *A*. 5) á að vera *fjora tige vetra*.

prestr[1] Arason til biskups. Andaðist Hafliðe ábóte. Sverrir sat um Túnsberg.[2]

### Guðmundr kjörinn til biskups[3].

40. [Nú er þar til máls at taka, er áðr var frá horfit, at Guðmundr prestr ok föroneyte hans ferr frá Svínafelle ok til Austfjarða, ok kemr at Bartholomeus messo til Stafafells; þar spur hann þau tíðende um óttosöng: andlát Brands biskups. En við þau tíðende varð honum svá dátt, sem hann vêre steine lostinn. Þá lèt hann þegar sýngja sálu messo um tölo, en um daginn eptir allar sálutíþir ok líksöng, með allre vandvirkt ok ást.

Síþan fóro þeir, unz þeir koma austr í Fljótsdals hèrat til Valþjófsstaða til Jóns Sigmundarsonar at Egidiusmesso; þá var þar kirkjudagr; þar vóro góþar viðtökur. En er Jón leidde Guðmund prest í kirkju um kvøldit, þá spurðe Guðmundr prestr hann tíðinda; en Jón segir: „bêðe mikil ok góð! — hèraðsmenn í Skagafirðe skulo eiga fund á morgin at kjósa sèr biskup, ok muntu kjörinn vera, því at guð man þat vilea". En þaðan frá var honum svá mikil hrêzla í brjóste, at hann mátte hvárskis með hallkvêmdum neyta, svefns nè matar, fire ótta ok ugg slíkra orða. Þar var þá í Fljótsdals hèraðe Rannveig, kona sú er [í dáe hafðe legit[4], ok hittir hon Guðmund prest, ok segir honum frá vitron sinne með hrézlo mikille ok ótta. Um aptaninn fire krossmesso kom Guðmundr prestr á bê þann er í Hlíð heitir í Fljótsdals hèraðe.' Þar dreymðe Guðmund prest um nóttina, at hann þóttist koma í kirkju þar á Völlum í Svarfaðardal, en honum þótte altarit falla í fang sèr, ok þótte skrýtt vera hinu bezta skrúðe. En þat rêstist[5] svá, at um kveldit fara þeir norðr um heiðe til Vápnafjarðar, ok kómu í Krossavík um kveldit. En er þeir vóro komnir undir borð, þá koma sendemenn Kolbeins Tumasonar, Einarr forkr, ok gengu inn fire Guðmund prest ok kvöddu hann vel; en hann tók vel kveðjo þeirra. Hann spurr þá tíðenda. Einarr segir:

---

1) biskup, *A*. 2) kap. 39 v. í *B*.

3) *A* hefir hèr fyrirsögnina: *Frá Guðmunde biskupe* (93), en litlu neðar, fyrir næstu grein: *Guðmundr kjörinn til biskups* (94).

4) [ leidd hafðe verit, *B*. 5) þann. *A*, 395; rættist, *B*.

„góð segjum vèr, þú ert kjörinn til biskups af[1] Kolbeine ok öllum hèraðsmönnum ok ábótum; nú ferr ek hèr með brèfe þeirra ok orðsendíngu, at þú skyldir sem skjótast norðr koma heim". En við þesse tíðinde varð honum svá ósvipt, at hann mátte langa stund ekke mêla. En er hann tók at mêla, þá bað hann guð til giêta, ok láta þat upp koma um þetta, er öllum gengðe bezt. Um daginn eptir ferr Guðmundr prestr til Hofs til Teits Oddssonar; þar var þá vistum með honum Halldórr prestr[2]; [þá rêðst Guðmundr prestr um við Halldór prest[3], hvárt nokkur ván munde vera, at hann munde leysa hann undan þessum vanda, ok ganga undir seálfr; en hann taldist undan, ok kvaðst gamall vera, ok þó ekke til felldr, ok kvaðst vita þikkjast, at honum munde ekke stoða undan at teljast, ok kvað þat vera guðs vilea ok manna „at þú sèr biskup", segir Halldórr, „en ek vil beina til með þèr bênum mínum, ok öllo því sem ek má, þèr til fulltíngs".

### Ferð Guðmundar biskups.

41. Þaðan ferr Guðmundr prestr ok föroneyte hans norðr til Eyxarfjarðar um Möðrudalsheiðe; þá kemr á fire þeim veðr illt ok kafafjúk, ok skilst lið þeirra, þar til er Guðmundr prestr raknar við, at þeir mundo eige fara rètt, ok kemr hann fyrst til húss ok djákn[ar] hans iij. Sturla Bárðarson ok Lam[b]kárr Þorgilsson ok Þorlákr Þorsteinsson. Þá kómu langre stundo síðarr: Snorre Bárðarson ok Grímr Hjaltason ok Grímr gále; en síðast kómo þeir Jón Álason ok reizlumaðr þeirra. Nú fara þeir unz þeir koma á Grenjaðarstaðe, þar bjó þá Eyjólfr prestr Hallsson. Þá skorar Guðmundr prestr til við Eyjólf prest Hallsson, ef hann vilde ganga undir at vera biskup; en Eyjólfr prestr segir honum svá, at hann kvaðst þess víss vorðinn, at ekke munde stoða um annat at leita en um þetta.

[4]Nú fara þeir norðan, ok koma á Háls at Mikalsmesso til Ögmundar Þorvarðssonar; spyrr Ögmundr, hvárt þat sè satt, at hann telist undan at vera biskup; en hann kvað þat satt vera. „Hví sêtir þat?" kvað Ögmundr; en Guðmundr prestr

---

1) Hèr vantar blað í *B.* 2) Hallvarðsson, b. v. 204, *St.*
3) [ v. í *A*, bætt við eptir 204.
4) *Frá Guðmunde biskupe, A* (96).

segir: „því at mèr sýnist vande fylgja mikill, at eiga við marga menn ok ólýðna ok öfundarfulla ok ríka, eða muntu nú verða oss hlýðinn, ef vèr vøndum um ráðit þitt?" — En Ögmundr segir: „hvers vandrêðe skaltu heldr ábyrgjast en mín; en þó at ek sè þèr ólýðinn, þá mun ek þó öllum öðrum ólýðnare. En þèr man ekke stoða undan at teleast, því at þèr man fara sem Ambrosio biskupe fóstra þínum: þèr spáðu barnleikar fire sem honum, at þu mundir biskup verða; nú gerðe honum ok ekke undan at teleast, enda man þèr svá, ok viljum vèr eige annan biskup en þik."

Tal Þorvarðs við Guðmund prest.

42. Nú ferr Guðmundr prestr, unz hann kemr heim á Víðemýre at vetrnóttum; verða honum allir menn fegnir, Kolbeinn ok Þorvarðr ok Gyr[í]ðr, ok allir aðrir. Þváttdaginn eptir gengr Þorvarþr Þorgeirsson til máls við Guðmund prest einn saman. Hann spyrr, hvárt þat vêre satt, at hann vilde gerast einhverfr í því, at teleast undan at vera biskup, ok hlíta eige hans forseá ok annarra vitra manna, vina hans ok frênda ok mága; en hann kvað þat satt vera. „Ek þikkjumst," kvað Þorvarðr, „eiga at seá fire þèr ok at vera forseámaðr þinn, ok vil ek ráða." Þá svarar Guðmundr prestr: „hví mune þat sêta, at ek skula eige ráða fire mèr?" — Þorvarðr svarar: „veiztu þat frênde, at ek hefe verit höfðínge yfir êtt várre, en minn faðir fire mèr. Nú hlítte því minne forseá þinn faðir ok svá allir frêndr minir, enda rêð ek þèr þat, því at þú munt êtlaðr höfðínge eptir mik." Þá segir Guðmundr prestr: „Ekke bauð þú mèr at taka eptir föður minn, ok lítillar virðíngar hefir þú mèr leitað hèr til, nema berja mik til bêkr. Nú sýnist mèr svá enn, sem þú vilir koma mèr í vanda, en eige í virðíng, ok man ek eige játa þesso." — Þorvarðr segir: „hvat hefe ek heyrt slíkt, at drepa hende við virþíngo þinne ok várre, enda man þèr ekke stoða, því at þú mant biskup vera, svá hefir mik dreymt til." — „Hvat hefir þik dreymt?" kvaþ Guðmundr prestr; en Þorvarðr segir: „mik dreymðe þat, at ek skylde ganga í hús mikit ok hátt, svá at ek hafða [eige] sèt jafnmikit ok hátt, er svá vóro miklar dyrr á, at þat var eige með minna móte. En er höfut mitt var komit í dyrrin, þá nam við herðunum á mèr, ok gekk þá eige lengra. En ek

hefe svá drauminn ráþit, at vegr þinn munde svá vera mikill, at öll kristne munde eige hyggja mega, ok munde hús þat it háfa merkja kristnina, en með okkr munde eige skilea drauma. Þá dreymðe mik draum annan, at ek þóttumst koma norðr í Þrándheim, ok í höll Ólafs konúngs; mèr þótte hann sitea í hásête sínu, ok var alskiput höllin. Mèr þótte hann standa upp í móte mèr, ok breiða faðm sinn ok kveðja mik: ‚kom þú heill ok sêll, Þorvarðr, ok skaltu blezaðr vera um öll norðrlönd'. Nú veit ek, at þú átt drauma þessa, ok muntu fara utan ok verða biskup, ok muntu vera vígðr í Þrándheime at Ólafskirkju. Nú man þèr ekke stoða í móte at mêla, því at þetta man fram ganga, hvárt er þú vill eðr eige.". Þá skilea þeir talit, og segir Þorvarðr Kolbeine allt viðrtal [þeirra].

[1]Eptir þetta gengr Kolbeinn til fundar við Guðmund prest, *ok segir honum*, at þeir átto fund Egidiusmesso á Völlum, „ok var þar á funde ábóte frá Þíngeyrom ok frá Þverá; þar var Gizurr Hallsson ok Guðmundr inn dýre[2], ok mart annat hèraðsmanna, ok var látinn í kosnínge [þú ok[3] Magnús Gizørarson, ok dró Gizurr fram mál Magnús sonar síns, ok kvað meire stoðar rísa undir hann til fulltíngs, ok meirr reyndr at fjár[varð]veizlu en þú; en ek lèt mèr vel líka hvárr ykkarr sem til vêre kjörinn, en þá svaraðe Hjálmr Ásbjarnarson[4] ok Hafr, ok margir aðrir, at þeim kvaðst lítið um utanhèraðsmenn, at or öðrum fjórðúngum vêre maðr til kjörinn, enda þótte öllum þetta svá vel, at enge varð til at mêla í móte, ok samþykktust þá því allir, ok ertu nú kjörinn fastliga, bêðe af guðe ok mönnum. Nú vêntum vêr, at þú munir bêðe gera guðs vilea ok várn." Þá svarar Guðmundr prestr: „þat vil ek fyrst heyra, hvárt svá er gefit öðrum hèraðsmönnum sem þèr, því at mèr þikkir stórt við liggja, ok vande mikill fylgja, ok em ek því tregr at ganga undir."

## Fundr á Víðemýre[5].

43. Þá var stefndr fundr drottinsdag á Víðemýre, ok

---

1) *Tal Guðmundar prests ok Kolbeins*, *A* (98).
2) þar var ok Einar Hallsson, b. v. 395. Þessi grein stendr þar nokkru fyr.
3) [ b. v. 204, *St.* 4) þann. 395, *St.*; Ass., *A*.
5) *A* skiptir kapítula nokkru fyr, eptir orðin: „þá svar. Guðm. pr".

kómu þar þá hèraðsmenn, ok lögðo þá enn af nýjo í umrêðo, ok kemr í sama stað niðr, at þeir urðo allir þá enn á eitt sáttir; sendo þá menn eptir Guðmunde preste til kirkju, ok kemr hann inn, ok segir Kolbeinn honum, at þeir biðea hann samþykkis ok jáorðs, at ganga undir vanda þann, sem þeir báðu hann til, at vera biskup. En er Guðmundr prestr sá hve horfðe af Kolbeine, at hann vilde ekke annat en þetta, ok hugðe hann sèr þetta vera mundo dêlt, þá svarar Guðmundr prestr: „heldr vil ek hêtta á með guðs miskunn, at játa þessum vanda, en ábyrgeast þat, at enge vere til kjörinn. Þá [svarar Kolbeinn[1]: „mêlðu allra manna heilastr", segir hann[2], ok þökkoðo honum allir af[3] nýjo, ok er nú í annat sinn seá kosníngr fastráðinn, ok fara menn nú heim um kveldit.

[4]En um aptaninn þá var honum búit hásête, ok bar Kolbeinn seálfr mat fire hann, ok breidde dúk á borð fire hann. En er skjótt þurfte til at taka, var dúkrinn slitinn, ok rêdde Kolbeinn um: „mjök kennir nú dêlleika af várre hende meirr en verðleika þinna, er svá vándr dúkr er undir diske þínum"; en hann svaraðe brosande: „ekke sakar um dúkinn, en þar eptir man fara biskupdómr minn, svá man hann slitinn vera sem dúkrinn". En Kolbeinn þagðe við ok svarar engu.

[5]Um morgininn eptir búast þeir til Hóla með biskupsefne, Kolbeinn ok Þorvarðr ok klerkar hans seálfs. Kolbeinn gaf honum uxa gamlan um morgininn áðr þeir fóro, ok kváðust þeir skyldo hefea upp gjafar við hann. Fara síþan um daginn, ok koma út til Hóla um aptaninn fire Kolnismeyja messo, ok er þá gör processia í mót honum. En er þeir vóro þar komnir, þá tekr Kolbeinn ráð öll undir sik um [búss forráð ok fjárlutar, at engu loforðe biskupsefnis[6]. Þá var þar fire Kygre-Björn at Hólum. En áðr þeir kême til Hóla, þá hafðe Lambkárr, djákn biskupsefnis, ritagerðir Kolbeins allar, ávallt er hann var heima; en þegar er þeir kómu til Hóla, þá var Lambkárr at viðseá gerr um brèfagerðir allar, en Kygre-Björn[7] var tek-

1) [ b. v. 204, *St.* 2) leiðr.; segja þeir, *A.* 3) hèr byrjar aptr *B.*
4) *Frá Guðmunde biskupsefne*, *A* (100).
5) *Biskupsefne reið til Hóla út*, *A* (101).
6) [ ráð öll, en biskupsefni var at öngu kvaddr, *B.*
7) Kyf'-Björn, *A.*

inn til brèfagerðar í staðinn, ok gørðe Kolbeinn sèr eige þegar við annan mann kérra heldr en Björn; en Björn sló þegar fêð á biskupsefne af öfund, er hann þóttist oflítils metinn af honum, ok spáðe þat fire, er síðarr kom fram um Björn, því at meire ok margfaldare var seá öfund, er fylldist honum af djöfuligu sáðe óvinarins alls mannkyns ok óaflátligu[1], ok varþ hon því meire, sem hon hafðe lengr staþit.

[2][Guðmundr biskupsefne rèzt til Hóla um haustið, sem áðr var sagt, ok var hann þar fire kennemönnum um vetrinn, ok skipaðe öllum málum fire norðan land þau missere. Vóro þá sendir menn til Páls biskups, ok var hann beiddr samþykkis um biskups kjör ok brèfasendíngar til erkibiskups, sem enn man gjörr sagt verða síþarr. Tók Páll biskup því vel, sem hann efnde síþan.

Kolbeinn sende menn til Svínafells.

44. Þenna vetr sende Kolbeinn menn sína austr til Svínafells á fund Sigurðar Ormssonar ok Þuríðar móður sinnar, ok bað at þau skyldu ráðast norðr þangat til Hóla, ok vera þar fire feárforráðum staðarins með biskupsefne; hann segir ok, at þau mundo hafa sêmðer myklu meire fire norðan land en suðr þar. Þau Sigurðr ok Þuríðr tóko þesso vel, ok seldo þau þá Svínafells land ok mannaforráð í hendr Jóne Sigmundarsyne, bróðursyne sínum; hann átte Þóro ena ellre, dóttur Guðmundar gríss ok Solveigar, ok vóro þeirra börn Ormr ok Solveig, er átte Skegge Njálsson í Skógum. Þau Jón bjoggu á Valþjófsstöðum. Steinunn var ok systir Solveigar, er átte Ögmundr Helgason. Jón selde landit Teite syne [Odds] Gizurar[sonar], hann átte Helgu Þorvarðsdóttur, brêðrúngu[3] Guðmundar biskups. Nú rêzt Jón í brot af Valþjófsstöðum, ok er hann kom á Exarheiðe, þá snerist hann aptr ok mêlte: „hèr skiljumst ek nú við Fljótsdals hèrat, ok á ek hèr nú ekke eptir". Þá svarar Þóra kona hans: „þú átt eptir, en ek á ekke eptir". Þetta spámêle kom fram nokkurum vetrom síðarr, ok birtist með því, at sveinn sá var kenndr Jóne í Fljótsdals hèraðe, er Þórarinn hèt; hann varþ síþan mikill maðr fire sèr. Þetta sumar it sama, er kaup þesse rèðust, fóro þau Sigurðr ok Þuríðr til Hóla, ok vóro

1) oaflatligū, *A.* 2) *Sendir menn til Páls biskups, A* (102).
3) brêðrunga, *A.*

þar ij vetr; þau buðo til fóstrs Tuma Sighvatssyne, ok unno allmikit[1].

[2]Nú er svá frá sagt, at því fór fram um vetrinn, at Kolbeinn rèð þar einn öllo, en biskupsefne var svá borinn ráðum, at eige skylde hann ná at þar vêre bróðursynir hans, ok gerðe hann þeim bú á Kálfsstöðum, af því fè er honum [hafðe verit] gefit um sumarit, en Kolbeinn gerðe sèr heimolt at seteast á staðinn með hinn vij. mann. Biskupsefne vilde ok láta gefa fátêkum mönnum mat í þrjú mál, en Kolbeinn rak þá í gesta hús, ok lèt gefa þeim í eitt mál. En er jólin liðu af höndum, þá kom Þórarinn bryte geisladags aptan til máls við biskupsefne ok mélte við hann: „ekke ertu forvitinn um bússfar, þat er vêr höfum með höndum". Biskupsefne svarar: „eige þikke mèr sá baztr, at lutast til en ráða engo". — „Ek vil þó segja þèr til", kvað brytinn, „hvat títt er, ek hefe slíkan mat êtlat til jólavistar í vetr, sem hèr hefir lenge vant verit, en hvern vetr hefir enzt um jól þat er soþit hefir verit, en nú hefir enzt viku lengr, ok hefir þó aldri verit slíkt fjölmenne hèr um jólin sem nú". Þá svarar biskupsefne: „því er svá, sonr minn, at Maríu þikkir betr at veitt sè en Kolbeine". Kolbeinn sat heá ok þagðe, ok svaraðe engu. Þá gengr bryte á brøt, en nautamaðr kemr þar þegar á hinne sömo stundo, ok segir hina sömo sögo frá feárfóðre því, er hann hafðe hendr yfir, at þat hafðe aldri orðit jafndrjúgt fyrr sem þá; en biskupsefne svarar eno sama: „hverr veit, nema Mario þikke betra at veitt sè en Kolbeine.

Guðmundr biskupsefne sende [eptir] Rafne Sveinbjarnarsyne.

45. En eptir jólin sendir biskupsefne Þórð Vermundarson vestr á Eyre, at stefna Hrafne á sinn fund í Miðfjörð at *Sexagesima*, ok vilde krefea hann til utanferðar með sèr. En er líðr at þesse stundo, sem ákveðit var, þá bjóst biskupsefne heiman; en er hann var kominn [til hests sins[3], þá gengr Kolbeinn at honum, ok mélte við hann: „nú vil ek at vit leggim niðr fèð þá, er verit hefir með okkr í vetr, því at ekke hefir til orðit, ok skolom vêr engis virða, hvárigir við aðra". Bisk-

---

1) frá síðasta [ i kap. 43, v. i *B*. 2) *Frá ráðum Kolbeins at Hólum*, *A* (104). 3) [ at kerru sinni, *B*.

upsefne svarar: „ekke þikkjumst ek til saka hafa gert, enda er vel at þèr hafit svá gert, enda ábyrgist þèr, ef þèr hafit annan veg gert". Kolbeinn svarar: „hvárirtveggjo muno nokkoro hafa um valdit, svá verðr optast; nú er líklikt, at vêr valdim meira um, enda viljum vèr því biðea þik fyrgefníngar; viljom vèr ok firegefa þèr, ef þú hefir í nokkuro oftekjur haft". Biskupsefne segir: „góð ero góð orð, ok muno þar nú hvárir dulþir at sínum gjörnínge, því at ek dyljumst við, at ek [hafa] við mart oftekjur haft í vetr, því at ek hefe eige koste átt". Nú ferr hann vestr í sveitir, ok gistir at Þíngeyrum, þar var nunna ein góð, hon var einsetokona, hon var skynsöm; hon hèt Úlfrún, hon var móðir Simonar prests ens mikla. Hon hèlt svá ríkt einseto sína, at hon vilde eige, at son hennar kvême[1] til hennar, svá at hon sêe hann, þá er hann sótte hana heim. Hon segir svá biskupsefne, at Maria hafðe þat vitrat henne, at guð ok hon vilde, at hann vere biskup, „ok skaltu eige undan teleast, ef þú vilt guðs vilea fylgja, sem þú mant þat vilea, því at þat er ètlat". Sjá sögn þótte honum merkilig, ok nam trúnat á. Nú ferr biskupsefne þaðan, til þess er hann kemr á Staðarbakka í Miðfjörð at nefndum dege. Inn sama aptan kom þar Rafn Sveinbjarnarson vestan or Fjörðum, sem ákveðit var. Þar talðe biskupsefne langa tölo ok merkiliga drottinsdag, ok lýste því, ef nokkurr maðr vêre sá kominn þar, er manns visse ván, er undir þann vanda vilde ganga, er honum var ètlaðr[2], því at [hann] kvasðt feginn vildu upp gefa, ef þat mètte verða með samþykke manna. En því treystist enge þeirra, er þar var kominn, at vera þessa hnekkíngarmaðr, ok var á þeim funde ráðin utanferð Rafns Sveinbjarnarsonar með biskupsefne. Af þeim funde fór Rafn Sveinbjarnarson heim vestr á Eyre, en biskupsefne norðr til Hóla með föroneyte síno.

## Brèfsendíngar biskupsefnis.

46. Um vetrinn hafðe biskupsefne sent menn með brèfe austr til Svínafells Sigurðe Ormssyne ok Þuríðe, þat mêlte svá: „Guðs kveðjo ok sína sendir Guðmundr, er nú er kallaðr biskupsefne, Sigurðe ok Þuríðe. Guð hefir miklar jarteinir við oss

---

1) eigi, b. v. *A.* 2) eða sá er honum vildi hnekkja, b. v. *B.*

gert, um þat, at vêr skyldim heit vár efna mega, sem vêr erom skyldir til við yðr, at fá yðr staðfestu. Nú em ek þurftugr yðars fulltíngs, er ek hefe meira vanda á mik tekit, en ek sea til fêrr at bera; nú býð[1] ek ykkr til staðar forráða með mèr ok fjár forráða, ok komit sem fyst megi þèr, því at þat gegnir staðnum ok mèr, ok öllom oss. *valete*".

[2]Nú er Sigurðe koma orð biskupsefnis, býst hann ok ferr austan eptir jól, ok hittust þeir biskupsefne[3], er hann fór heim norðr, ok fór Sigurðr skjótara norðr til Hóla. En er biskupsefne kom heim, þá var lagt í umrêðu, hverja koste Sigurðr skal hafa, hann kvaðst eige vilea til ráðast, nema honum vêre handsalat staðarforráð ok staðarfè, en biskupsefne var þess tregr, [at handsala honum staðinn[4]. Þá báðo vitrir menn: Kolbeinn Tumason, Hafr Brandsson, ok margir aðrir, at biskupsefne skylde heldr handsala Sigurðe staðinn, en hnekkja slíkum manne frá sem Sigurðr er, ok þótte öllum eige mega betr fire seá staðar forráðum, en selea í hendr Sigurðe ok Þuríðe, ok rèzt þat or, at hann handsalar Sigurðe staðarforráð öll með sèr. Síþan ferr Sigurðr heim austr með brèfe biskupsefnis í Skálaholt til Páls biskups, svá mêlanda: „Kveðjo Guðs ok sína sendir Guðmundr, er nú er kallaðr biskupsefne[5]. Vêr höfum játazt undir meira vanda, en vèr sèm til fêrir at bera, ok haft ekke yðart [lof til[6], sem vera átte. Nú viljum vèr biðea yðr á at líta af guðs hálfu, sem þèr erot skyldir til, at segja, hvat yðr er nêst skape. Vilit þèr annan mann kjósa til þessa valds ok vanda, er vêr höfum ómakliga undir gengit, þá vil ek feginn upp gefa ok fara, því at ek verð þess varr af nokkorum mönnum, at þetta [þikkjast ofmêlt[7] hafa. En ek hefe því ráðit Sigurð Ormsson til staðarforráða með mèr, því at menn kvíddo feárforráðum mínum. Nú ráðit skjótt annattveggja, þat er guð kennir yðr, ok sendit mèr brèf sem fyrst, hvárt sem þèr kjósit mik til eða frá".

---

1) bið, *B.* 2) *Sigurðr ferr austan, A* (107).
3) á leið, b. v. *B.*
4) [ en kveðst gefa mundu staðar forráð í hendr Sigurði, *B.*
5) þann. *A*; Páli biskupi sendir guðs kv., o. s. frv., *B.*
6) [ ráð til ok lof, *B.*
7) [ vildu ómælt, *B.*

## Enn brèfsendíng.

47. En er Sigurðr kemr í Skálaholt ok fèrir Pále biskupe brèf biskupsefnis, þá sendir Páll biskup brèf austr í Odda til Sèmundar: „Kveðju guðs ok sína sendir Páll biskup Sèmunde bróður sínum. Brèf Guðmundar biskupsefnis er komit til mín, þat er ek skylde kjósa annan mann til biskups, ef ek vil, en hann lèzt búinn upp at gefa kosnínginn, hann hefir ok ráðit Sigurð [Ormsson] til forráða með sèr, því at þat ugðu menn hølzt áðr, at fjárvarðveizla hans munde eige vera með forseá. Ek þikkjumst ok þess kenna á brèfinu, at hann man ètla utan í sumar, ef hann er til[1] kjörenn, því at hann bað mik [gera skjótt annathvárt, at[2] kjósa hann til eða frá. Nú vil ek at þú segir, hvárt ek skal at kveða". — Sèmundr sendir brèf at móte til Páls biskups, þat er svá mèlir: „Pále biskupe sendir kveðju guðs ok sína Sèmundr bróðir hans. Veiztu, bróðir, at Guðmundr biskupsefne hefir verit ekke mikill vinr í málum várum Sigurðar, en þó er hann mjök leyfðr af mörgum mönnum, ok líklikt, at því mune kosníngr til hans fallinn, at þat mune guðs vile vera; spyr ek ok, at hann mune fire margra luta sakir vel til fallinn, bèðe fire sakir gèzku sinnar ok siðvende ok hreinlífis, er mesto varðar. En ef nakkvat er annat í, þá takþu ekke vanda af þeim Norðlendíngum, at þeir ábyrgist sjálfir kjör sitt; er þat mitt ráð, [at þú kjósir[3] hann heldr til en frá, því at eige er víst, hverr guðe líkar betr en seá, ok er vánu[4] bezt at hètta; óráþit er, at sá finnist, er ekke má at finna. Einhlítir gerðust þeir Norðlendíngar um kjör sitt, enda bere þeir nú ábyrgð fire hve verðr".

[5]Nú kemr brèfit í Skálaholt, þá sendir biskup orð Þorvalde Gizurarsyne[6] ok Magnúse bróður hans, ok Sigurðe, ok setto þeir fund; ok lýsir biskup yfir fire þeim, at kosnínge var orpit undir hann, ok hann hafðe ráðit fire sèr, at kjósa [Guðmund til biskups, sem áðr var ráðit[7]. Binda þeir þá allir saman þetta fastmèlum, ok sendir Páll biskup, ok þeir Sigurðr, Íngimund Grímsson með brèfe til biskupsefnis. Þat brèf mèlte

---

1) eigi frá, *B*. 2) [ skjótt atkveða, hvárt ek vilda, *B*.
3) [ kjós, *B*. 4) or vænu, *B*.
5) *Brèf Páls biskups*, *A* (109).
6) Halli, b. v. 395. 7) [ hann til en eigi frá, *B*.

svá: — „Páll biskup sendir kveðju guðs ok sína Guðmunde biskupsefne. Guð hefir þik kjörit til biskups at guðs lögum ok manna, svá sem má fulligast á váro lande. Nú er guð ok góðir menn hafa þenna vanda á þik lagt, þá berr oss nauðsyn til at hitta þik sem bráðast, því at vêr kennum þess í brèfe þínu, at þú mant utan ètla í sumar, ef svá ferr sem þú ètlar. Nú vil ek koma at móte þèr þar sem þú vill, en kunna þökk ok øfussu at þú sèkir mik heim, enda skylda þik eige til þess, því at mörg nauðsynea erende á ek til erkibiskups, þau er ek vil at þú komir á minn fund áðr þú ferr utan".

[1]Nú líðr vetrinn af höndum, ok ferr biskupsefne eptir hvítadaga suðr í Skálaholt at hitta Pál biskup, tekr Guðmundr biskupsefne við brèfum þeim, er hann sende erkibiskupe; ferr hann síðan heim til Hóla. Þá kemr Sigurðr ok austan ok Þuríðr, alfare til Hóla, ok gera þann kost biskupsefne, at fè þeirra skylde ekke þverra, ok kölloðo þau þat x hundrut[2] hundraða, þat var allskonar fè, bèðe frítt ok ófrítt, ok varþ hann því at játa. Síþan var hann búinn til skips með tíundavöro sína. [Þá hafðe Guðmundr biskupsefne j[3] vetr ens fimta tigar, er hann fór utan til biskupsvígslo. — Á þessum misserum andaðist Sverrir konúngr, en Hákon son hans var til konúngs tekinn. Andlát Knúts Danakonúngs ok Birgis jarls af Gautlande. Utanför Magnús Gizurarsonar. Andaðist Berse enn auðge. Narfe prestr Snorrason[4].

Rafn Sveinbjarnarson kom til skips.

48. [En er biskupsefne kom til skips[5], þá kemr Rafn Sveinbjarnarson vestan á skipe, ok er þá búinn at fara með honum sem þeir höfðo ètlat. Þar ráðast til ferðar með þeim XV íslenzkir menn. Þar var Rafn Sveinbjarnarson, Thomas Þórarinsson[6], ok Ívarr Jónsson, Grímr Hjaltason múnkr, Erlendr prestr, Bergr[7] Gunnsteinsson ok Eyjólfr Snorrason ok Þorsteinn Kambason[8], Guðmundr prestr Þormóþarson, Brandr[9] Dálksson,

1) *Sigurðr rèzt til staðarforráða*, *A* (110).

2) cc., *B*. 3) leiðr.; ij, *A*. 4) [ v. í *B*.

5) [ Síðan var hann búinn til skips með tíundavöru sína, en er hann var búinn, *B*.

6) Ragneiðarson, *B*. 7) prestr, b. v. *B*. 8) Kampason, *B*, 395.

9) prestr, b. v. *B*.

Pettr[1] Bárðarson ok Snorre bróðir hans, þórðr Vermundarson ok Höskuldr[2] Arason, Kollsveinn[3] Bjarnarson. þeir lètu út drottinsdag [fyrir] *Divisio apostolorum*[4]. Biskupsefne hafðe sendan frá skipe norðr um fjörð Kollsvein[5] at sêkja vatnkeröld, ok kemr hann norðan at firðe þá er skipit siglir út, ok er orþinn strandarglópr; þar koma þá at jafnt róande[6] menn í skyrtum einum; þar var Narfe or Brekku, ok vóro þeir komnir með fiskafarm austan or Flatey. Nú segir Kollsveinn þeim vandrêðe sín, ok skorar á þá til fulltíngs. — „Illa ertu við kominn", segir Narfe, „ok er þetta bêðe þín nauðsyn ok biskupsefnis, ok skal víst verða við þèr". þeir kasta gagne síno þegar af skipe, ok taka við Kollsveine ok fargagne hans, ok róa undir seglino út eptir firðe. Tekr þá vindrinn at vaxa ok gengr skipit undan. þá er þeir seá at í sundr berr með skipunum, tekr Narfe til orða: „hve langt föro vèr eptir kaupskipino, áðr þèr þikke kløkislaust eptir sótt várrar handar"? — Kollsveinn svarar: „út í fjarðarkjapta, þar til er haf tekr við". — „Svá er jafnt", kvað Narfe, „skal ok svá vera". En er kaupskipit kemr út at Hrísey, þá tekr biskupsefne til orða: „nú skal fella seglit, ok vil ek eige sigla frá manne mínum, þeim er á lande er, enda vil ek hafa messo í dag í eyjunne". Austmenninir mêlto við, ok öllum var þetta móte skape at ónýta svá góðan byr. En hann segir at þeim munde hefna, „ok man guð láta koma meire seinkun farar várrar". En[7] er þeir sá at honum mislíkaðe, þá var fellt seglit ok kastað akkere, ok gekk biskupsefne á land, at sýngja messo. Nú þurftu þeir Narfe eige at róa lengra; stigr Kollsveinn þar á skip; en um morgininn er byrr, ok vilea þeir heimta upp akkere sitt, ok er þat fast, ok ganga til aðrir at öðrum, ok leita í þess er þeim kemr í hug, ok gengr eige upp. þá er sagt til biskupsefne, ok gengr hann til ok mêlte: „drottinn minn, leys þú akkerit!", ok tekr í strenginn; þá losnar upp akkerit þegar, ok taka þeir til segls, ok siglðo til Grímseyjar; þar liggja þeir viku. þá kemr byrr á, ok siglðo þeir norðr fire Gnúpa; þá kemr andviðre, ok rekr þá allt vestr fire Skagafjörð. þá lètte þeim rètte, ok herkja þeir þá í annat sinn

1) þórðr, 395. 2) Hrollaugr, *B*, 395. 3) þann. *B*, *St.*; Kolbeinn, *A* (alstaðar). 4) 1202 var *Divisio apostolorum* (= 15. Juli) á mánudag. 5) Kolbeiñ, *A*. 6) iij, b. v. *B*.
7) þann. *B*; þetta varð, at fellt var seglit, b. v. *A*.

norðr fire Langanes. þá kemr enn landviðre, ok leggja enn í rètt, ok rekr vestr í haf. þá dreymir konu eina um nótt á skipino, at henne þótte maðr mikill ok dýrðligr koma at skipe þeirra í biskupsbúnínge, ok ganga eptir skipino, þar til er hann kemr þar at, er biskupsefne hvílir, ok blezaðe yfir honum. Henne þótte sem þar vêre Jón biskup, ok síþan vaknar hon.

Frá hafgerðíngum.

49. Um morgininn eptir talar biskupsefne um: „þat er mitt ráð, at taka til segls ok sigla vestr um landit, því at ganga á landnyrðíngar, ok mun eige ganga norðr um landit." þetta er ráðs tekit, at þeir fêra segl upp, ok sigla vestr um landit, ok svá fire Vestfjörðo, ok suðr fire Snêfellsnes[1] ok austr fire Eyjafjöll[2]; ganga þá á landnyrðíngar, ok rekr þá suðr allt í haf, þar til er þeir verða varir við Suðreyjar, ok bera kennsl á, at þeir ero komnir at eyjom þeim er Hirtir heita. þá berr þá suðr í haf, at Írlande; sigla þeir þá suðr fire Írland, ok hafa storm veðrs, ok heyra þeir grunnföll á alla vega frá sèr. þá rêðir biskupsefne um, at allir menn skyldu ganga til skriptar á skipino, en kennimenn allir skyldu gera krúnur sínar, ok skyldu menn taka at heita. Svá var gjört sem hann bauð. þeir hèto at gefa alin af sekk hverjum, ok göra mann til Roma, ok gefa hálfa mörk vax, hverr maðr, til kirkna. þá fèll þegar veðrit. Um síðir bar þá at Skotlande, ok lágu þeir nokkurar nêtr norðr frá Staure. Undan Skotlande tóku þeir sunnan veðr svá mikit, at þeir menn sögðo svá, er þar höfðo verit, at þeir hefðe aldri komit í jafnstóran seá, sem þá er þeir sigldo undan Hvarfino á Skotlande. Grímr Hjaltason kvað þá vísu þessa:

Eisande veðr undir
Uðr, nú er hvast or suðre,
stêrir [sterkar bárur[3],
starf era[4] smátt, fire Hvarfe:
klökkr verðr kjölr, en rakkar[5]
kemr hregg í stað seggja;
nú ero fjöll á sê sollin,
súð gengr ê sem prúðast.

---

1) Reykjanes, *B.* 2) Eyjafjall, *A.* 3) þann. *B*; sterkr baru, *A.*
4) varat, *B.* 5) rakkan, 395. Rafns. s.

þá lögðo þeir í rètt harðan; ok of nóttina heyrðo þeir menn er vörð hèldu ok vöktu, breste stóra ok ógurligan gný. þeir urðo varir við báru mikla, at þeim þótte ráðinn bane sinn vera, ef hon genge at flöto skipino, [vildo stýremenn[1] þá taka til segls, ok kváþu þat eitt lífs hjálp vera, ef þeir fenge fire snúit ok undit seglit. Hrafn Sveinbjarnarson segir nêr komna báruna, en þeim mêtte þat endast. Hann bað þá, at ganga skylde til biskupsefnis, ok segja honum hvar komit var. Biskupsefne stóð upp þegar, ok tók helga dóma, ok gekk út á borð með, ok blezaðe; [þá snore skipinu[2] í móte bárunne, ok er þeir vóro í brjóste hennar, þá hrunde hon öll, þar sem þeir mátto seá, nema fire stafninum, ok í því gekk inn á bæðe borð, ok tók frá sólbyrðin, en húðföt rak aptr í austrúm[3]. Kaupmönnum varð öllum eitt á munne: „betr fór en líklikt", segja þeir; en biskupsefne þakkaðe guðe, ok sagði fara eptir líkendum. Síþan tóko þeir til segls, ok höfðo svá mikinn storm, at þeir siglðo við eitt rif; ok at kvelde eins dags, þá sá þeir land, ok vóro ko[m]nir svá nêr, at boðar vóro á bêðe borð. þeir visso, at þeir vóro komnir at Suðreyjom, en þar þóttist enge maðr kunna leið at segja fire, ok þat êtloðo flestir, at skipit munde brjóta en menn týnast.

[4]Ok er þeir vóro komnir í svá mikinn háska, þá urðo enge úrrêðe kaupmanna. þá mêlte biskupsefne til Hrafns, ok bað hann segja leið, en Rafn baðs[t] undan, ok kvaðst [þar] aldri komit hafa; en biskupsefne bað hann til fara, kvað mikit mundo mega gêfo hans. Rafn svarar: „dýrt er drottins orð", ok bað biskupsefne gefa sèr blezan. Síþan tók Rafn til leiðsagnar at samþykke allra skipara, ok bað þá sigla at eyjonum at firesögn Rafns. þat s[egir] Thomas prestr þórarinsson, at þat vêre þrysvar um nóttina, er þeir siglðo, at hann kvaðst eige annat mega seá, en landit vêre fire stafn fram. þat var jafnskjótt, at þeir vóro komnir í gögnum eyjarnar, ok þá sá þeir dagsbrúnina. þesso nêst kómo þeir skipe síno í góða höfn, við ey þá er Sandey heitir. þá rèð fire Suðreyjum Ólafr konúngr. Biskupsefne gekk á land upp, ok til kirkju, ok vilde hafa tíðir.

1) vilde Bótólfr stýremaðr, *B.* 2) [ b. v. *B.*

3) leiðr. eptir *B*; austrinn, *A.*

4) *Leiðsögn Rafns, A* (113). þat sem eptir er kapítulans er í *B* miklu fjölorðara (sjá Viðb. kap. 4).

þar var fire konúngr; hann bauð biskupsefne til borðs með sér, ok hann þá þat. Síþan fór biskupsefne til skips; siglðo góðan byr ok urðo vel reiðfara, ok kómo skipe síno við Noreg suðr frá þrándheime, þar sem á Eiðe heitir. þeir spurðo þar andlát Sverris konúngs. þar lágo þeir um nóttina. þaðan siglðo þeir norðr til þrándheims, ok hèldo skipe síno inn til Niðaróss. þá kvað Grimr vísu:

Hèr náðum val víðis
víglundr með Guðmunde
sterkr at stöðva merke
stefnu biskupsefne:
frágum áðr á Eiðe
einne nótt[1] fire dróttins[2],
trauðr man glaum at gêða
grams herr, bana Sverris.

Guðmundr vígðr til biskups.

50. Í Norege var biskupsefne um vetrinn, ok vóro þar áttar margar stefnur at um hans mál; talðist hann undan mjök, ok lèzt lítt til fallinn þessa embèttis; ero þar lángar frásagnir, áðr Guðmundr biskupsefne vêre vígðr. En svá kom, at hann var vígðr til biskups af Eiríke erkibiskupe á messodag heilagrar meyjar Evfemie. þá var Hákon Sverrisson konúngr yfir Norege[3]. Um sumarit eptir fór Guðmundr biskup út til Íslands,

1) b. v. *B*; v. í *A*. 2) dróttum, *B*, Rafns s.

3) Hèr er 395 miklu fjölorðara en *A*, en flest fánýtt, og skal því að eins hið helzta til greint: „Var herra Guðmundr biskup vígðr í Kristskirkju í þrándheimi". . . . „Dvaldist hann vetr þenna í Noregi, ok var sæmilega tekinn af Hákone konúngi". . . „Optliga töluðu þeir erkibiskup, hversu kristinn rèttr hèldist á Íslande, ok sýndist þeim einn veg báðum, at ofmikinn yfirgang þoldi heilög kirkja ok guðs kennemenn af veraldlegum höfðíngjum" . . . . „marga hluti aðra töluðu þeir meðal sín, ok urðu um allt vel samhuga. . . . tók Guðmundr biskup orðlof. . . . lètu síðan í haf. . . . komu að Austfjörðum". — „Sem þeir höfðu fá dægr legit firir austan, skiptist um veðrföll, ok settust upp vestrænir útnyrðingar; ok meðr því at kaupmönnum þótti seint, at vestr gengi um Langanes, tóku þeir land í Mjóvafirði í Austfjörðum". því næst er um fögnuð Austfirðinga, ok komu biskups heim á staðinn. . . „gladdist nú heilög Hólakirkja ok hennar kennimenn, veitandi sæmiligustu *processionem* sinum formanni". . . því næst er löng þula um dygðir biskups; því næst lítill eptirmáli, líkt og í *B* (Viðb.

ok kom skipe síno í Mjóvafjörð í Austfjörðum. Þá fór Guðmundr biskup út til stóls síns til Hóla. Þá hafðe hann ij[1]. vetr hins fimta tigar[2].

[3][Á þessum misserom urðo þessir lutir: Býsna sumar. Vígðr Guðmundr biskup ok útkominn. Kosinn Hallr til lögsögu. Bereavín fyrst. Jón Grênlendíngabiskup á Íslande. Útkváma Magnús Gizurarsonar. Andaðist Þorkell ábóte ok Arnórr Eyjólfsson, ok Þóra Guðmundar dóttir gríss[4].

Frá höfðíngjum[5].

51. Berse prestr enn auðge andaðist á því áre sem Brandr biskup; tók þá Snorre Sturloson arf allan eptir hann. Rèzt hann þá til bús til Borgar ok bjó þar nokkora vetr. Þá bjó Þórðr Böðvarsson í Görðum, móðurbróðir hans, ok átte hann þíngmenn um Akranes, ok marga upp um hèrat. Honum þótte Þórðr Sturloson, systurson sinn, leggja þíngmenn sína undir sik þá er honum vóro nèstir; gaf hann þá Snorra hálft Lundarmannagoðorð[6] við sik, ok skylde hann halda þíngmenn fire Þórðe ok öllum þeim er á leitaðe. Ok er Snorre Sturloson hafðe tekit við þíngmönnum, þá þótte [Þórðe Böðvarssyne hann[7]

---

kap. 5). Því næst, hversu nú hafi framkomit fyrirspá Guðmundar kárhöfða og Íngimundar prests, og barnleikar Guðmundar, er hann var „skipaðr biskup í leiknum, sem heilagr Ieronymus skrifar af Athanasio erkibiskupi, er hann var úngr at aldri, var biskup gjörr í piltaleiknum, en varð síðan, sem öllum er kunnugt, hinn mesti erkibiskup í kristni guðs". . . . Þá um gjafir og skilnað biskups við Rafn með líkum orðum og í sögu Rafns. Því næst um bænir Guðmundar biskups, (sjá Viðb. kap. 16). — Þarnæst; „Mikit hallæri ok hart gekk yfir fólkit, einkanlega fyrir norðan land, hinn fyrsta vetr er herra Guðmundr biskup sat at sínum stóli, svá at xx. c. manna var talt at dæi frá vetrnóttum til fardaga, flest af sulti ok harðrètti, um Norðlendíngafjórðúng". 1) leiðr.; iij, *A*.

2) Hèr endar í *B* prestssaga Guðmundar, en hefr biskupssöguna, og skýtr *B* hèr inn litlum eptirmála við prestssöguna, og þar næst formála fyrir biskupssögunni (sjá Viðb. kap. 5—6).

3) *Tiðende*, *A* (115). 4) [ v. í *B*.

5) Fyrisögnin sett eptir getg.; *A* skiptir þessum kap. í 5 kapítula með fyrirsögnum: *Snorre Sturloson fór til Borgar* — *Frá Sèmunde í Odda*. — *Frá Orme*. — *Frá Lopte syne Páls biskups*. — *Sighvatr Sturloson keypte* [*Sauðafell*], (116—120). 6) þann. *St.*; Þ́ðmanna goðorð, *A*.

7) leiðr. eptir *St.*; [ honum Böðvarr son hans, *A*.

meirr leita á sína vine en áðr hafðe Þórðr[1] á leitað. Snorre Sturloson fór búe síno í Røykjaholt eptir samníng þeirra Magnús prests; gjörðist hann þá höfðínge mikill, því at fè skorte eige; var hann hinn meste fjárgêzlumaðr ok fjöllyndr. Hann átte börn við fleirum konum en Herdíse. Son átte hann er Órêkja hèt. Þuríðr, dóttir Halls Órêkjosonar, var móðir hans. Hann átte börn [við] Guðrúno, dóttur Hreins Hermundarsonar, ok komst Íngibjörg ein or barnêsko, þeirra er þau átto. Þórdís var dóttir Snorra, Oddný hèt hennar móðir.

Sømundr þótte maðr göfgastr í þann tíma á Íslande; hann hafðe í Odda rausnarbú, ok átte hann mörg bú önnur. Eige var Sêmundr eiginkvángaðr, ok fóro orð meðal þeirra Haralds jarls, at hann munde gipta honum dóttur sína Langlíf, ok var þat á millum þeirra, at Sêmundr vilde eige sekja í Orkneyjar brúðlaupit, en jarl vilde eige senda hana út híngat. Þau vóro elzt barna Sømundar: Margrèt, er átte Kolbeinn kaldaljós, ok Páll, vóro þau systurbörn Þorgríms alikarls. Sêmundr átte dóttur er Solveig hèt, ok var Valgerðr, dóttir Jóns Loðmundarsonar, hennar móðir; hon varðveitte bú at Keldum; var þat it mesta rausnarbú. Vilhjálmr ok Haraldr, Andreas ok Philippus vóro Sêmundarsynir. Yngvildr Einriða dóttir var þeirra móðir, hon varþveitte bú. Hálfdan ok Björn ok Helga vóro sèr um móður. Þorbjörg var þeirra móðir, rangêsk kona, Öll vóro börn hans fríð ok vel ment.

Ormr bróðir Sêmundar bjó á Breiðabólstað í Fljótshlíð, hann var spekíngr at vite ok it mesta göfugmenne. Hann hafðe fyrst þá frillo, er Þóra hèt Eireksdóttir, systir Kolskeggs ins auðga í Dale. Jón var son þeirra ok Hallveig dóttir. Ormr var vellauðigr at fè, því at hann hafðe af fè Kolskeggs slíkt er hann vilde, því at Þóra var arfe Kolskeggs[2] en börn hennar eptir hana. Borghildr var ok frilla Orms, ok vóro þeirra synir Sigurðr ok Andreas, ok margar døtr.

Í Skarðino vestra bjó Loptr son Páls biskups, ok var hinn fríðaste maðr, ok þótte vênn til höfðíngja. Ketill var ýngstr sona hans[3] ok inn vinsêlste. Svá s[egir] Þorvaldr Gizorar-

---

1) það er: Þórðr Sturluson. 2) Skolskeggs, *hèr*, *A.*

3) það er: Páls biskups. — Ketill var hinn ýngri son biskups ok enn vinsælli, *St.*

son, at sonum Páls biskups vére ólíkt farit, kvað Ketil vilea mönnum hvatvitna gott, en Lopt kvað hann méla hvatvitna gott. Þorvaldr bjó í Hruna, ok vóro hans synir Guðmundr ok Klèngr, Björn ok Einarr, Teitr. Síþan fèkk hann Þóro Guðmundardóttur, Halldóra var elzt barna þeirra, þá Gizurr ok Kolfinna.

Sighvatr Sturloson bjó í Hjarðarholte nokkora vetr; síþan keypte hann Sauðafell, ok fór hann þangat nautfellisvár it mikla[1], ok bjó hann þar, ok gjörðist hinn meste höfðínge ok vinséll við sína menn. Með þeim Kolbeine Tumasyne var hin mesta vinátta með tengðum. Kolbeinn rèð þá mesto fire norðan land; hann hafðe öll goðorð fire vestan Eyxnadalsheiðe til móts við [Möðruvellínga goðorð[2], en Melmenn áttu sinn lut goðorða. Fire norðan Eyxnadalsheiðe áttu þeir goðorð Ögmundr sneis ok Hallr Kleppjárnsson. Þorvaldr son Guðmundar dýra fèkk Sigurðe Ormssyne þau goðorð er hann hafðe átt; en Sigurðr gaf þau goðorð Tuma Sighvatssyne, ok komst Sighvatr svá at þeim síþan[3].

Hófust deilur Guðmundar biskups ok Kolbeins.[4]

52. Þá er Guðmundr biskup kom út ok hann tók kennemannaforráð ok stjórn fire norðan land, urðo margar greinir með þeim Kolbeine Tumasyne, þat er sinn veg þótte hvárum þeirra, ok var [með] þeim mikit sundrþykke; var biskup minne leiðíngamaðr en svá sem Kolbeinn étlaðe. [Um várit eptir, er þau Sigurðr ok Þuríðr höfðo verit ij vetr at Hólum, þá bað Guðmundr biskup Sigurð, at hann skylde ráðast norðr til Múnkaþverár at hressa staðinn, er mjök var af sèr kominn at húsum. Ormr faðir Sigurðar var systursonr Bjarnar biskups, er staðinn hafðe settan at Þverá, ok andaðist Ormr þar múnkr, ok hafðe Sigurðr því elsku á staðnum, ok fór hann við bén Guðmundar biskups ok Orms frénda síns abóta, ok snere hann áleiðis staðinum með fè ok at húsum[5]. Sigurðr Ormsson var skamma hríð at Þverá, áðr Guðmundr biskup skipaðe honum staðinn

1) þat er: 1187 (sjá ísl. Ann.).

2) Ávellinga goðorð, en Þorsteinn Ívarsson gaf Snorra Sturlusyni Ávellingagoðorð, þat er hann átti, *St.*

3) kap. 51 v. í *B.*

4) Fyrirsögn eptir getg. — *þá er Guðmundr biskup kom út, A.*

5) [ v. í *B.*

á Möðruvöllum; var þá sêmiliga með þeim í fyrsto, en þó grênðist[1] brátt. Tume Sighvatsson var jafnan með Sigurðe ok dêtr Arnórs Tumasonar, Herdís ok Sigríðr.

[2]Meðr því upphafe røis deila með þeim Guðmunde biskupe ok Kolbeine Tumasyne ok hans venzlamönnum: Ásbjörn hèt prestr, sá er Kolbeinn hafðe fire sökum um fornt fèmál, ok kölloðo sumir menn þá feárheimto eige rètta. Nú sékir prestrinn biskup at sínu mále, en biskup þóttist eiga dóm á prestinum, ok kallaðe hann freálsan fire Kolbeine. Nú sékir Kolbeinn prestinn at landslögum til útlegðar ok dauða. En er þeir vêlto um dóminn á þínge, þá gekk Guðmundr prestr til dómsins með staf ok stolo, ok firebauð þeim at dêma prestinn; en þeir demðo eige at síðr. En annan dag eptir firebauð biskup Kolbeine ok öllum þeim, er í þessom dóme höfðo verit ok þar höfðo [eiðum ok vitnum borit[3], alla guðs þjónosto; en eptir þetta tók biskup prestinn til sín, en kona prestsins gaf Kolbeine fè til þess at bú þeirra vere í friðe.

[4]Um haustið veitte Kolbeinn biskupe heimsókn, ok stefnir húskörlum biskups skó[g]gangsstefnum, er hann samneytte við prestinn. Við þetta varð biskup svá styggr maðr, at hann bannfêrðe Kolbein. Nú koma til vinir þeirra, ok vilea sêtta þá, ok verþa þeir sáttir með því móte, at Kolbeinn feste eindême biskups, bêðe skripta ok fègjalda; en bêndr festo Kolbeine, at halda upp fèbótum fire hann, slíkum sem biskup vilde gert hafa. En um sumarit á þínge gerðe Guðmundr biskup gjörð þessa með ráðe Páls biskups ok Sêmundar í Odda, xij hundrat vaðmála á hendr Kolbeine. Þat fè galzt hálft [en hálft] eige, fire því at Kolbeinn vilde, at Guðmundr biskup heimte at bóndum, fire því at þeir höfðo fest gjaldit; en biskup vilde heimta at seálfum Kolbeine, er til festo gekk við hann um fègjaldit. [Þá hafðe Guðmundr verit ij vetr biskup. Á þesso áre andaðist Hákon konúngr ok Berse Halldórsson. Hófst Erlíngr steinveggr. Obiit[5] Ormr prestr Eyjólfsson[6].

---

1) *grænast* (grønast) = vesna, mínka, grennast, sjá Helgakv. Hund. b. II. 48, Sturl. s. 3, 26 og víðar. — grædist (upphafl. grædist?), *B.*

2) *Frá Kolbeine, A* (122).

3) [ eiða unnit eða vitni at borit, *B.*

4) *Sætt biskups ok Kolbeins, A* (123).

5) Θ = *Obiit, A*; þ. e. andaðist. 6) [ v. í *B.*

Guðmundr biskup bannsette Sigurð ok Hall.

53. Þat sumar it sama hafðe Guðmundr biskup í stormêlum ij höfðíngja, Sigurð Ormsson ok Hall Kleppjárnsson, fire þat, er þeir höfðo tekit mann or múnkaklaustre til meiðínga ok limaláts. Þeir höfðo ok kúgat mikit fè af einum bónda, ok kölloðo þat höfoðmund hans, ok höfðo þeir seálfir allt fè hans. Hallr sèttist við prest, ok vilde eige dóm biskups á þesso mále, ok ero þeir nú í stórmêlum. Kolbeinn varast nú fyrst samneyte við þá, en þó kom svá, at öll alþýða samneytte þeim. Kom þá svá, at þeir bönnoðo kaup öll til staðarins ok sölur, til slíks sem nauðsyn bar til. En mál þesse lukust svá, at um haustið, Mauritius messo, sêttust þeir Sigurðr ok Hallr við biskup, ok lögðo allt sitt mál á biskups dóm. En Kolbeinn sitr heá þesse sètt, því at hann vilde eige fè gjalda, en biskup vilde þvílíka sètt af honum hafa sem hinum. Nú kallar biskup Kolbein í banne af samneytíngo við þá Sigurð; en Kolbeinn ok öll alþýðan metr þat enskis.

Biskup bannsette Kolbein.

54. Um vetrinn fire jól bannsetr biskup Kolbein, af þeim sökum, er hann samneytte bannsettum mönnum, ok fire þat, er hann hèlt fè því hálfo, er biskup hafðe gert á hendr honum. Um várit eptir páska veitte Kolbeinn aðra heimsókn á staðinn með LXXX manna, ok stefnir til Hegranesþíngs, skó[g]gangsstefnum, heimamönnum biskups, prestum ok djáknum ok leikmönnum, ok flestum fire ósannar sakir. Biskup ok hans menn vóro á húsum uppe, ok var hann skrýddr, ok las upp bannsetníng á norêna túngo[1]; ok ef[2] Kolbeinn [hefðe] verr verit stilltr at því sinne, þá hefðe þar bardage orðit. Kolbeinn ferr þá í brot ok kveðr vísu þessa[3]:

Báls kveðr hlynr at Hólum
hvern mann vera í banne
gylfa láðs þann er greiðir
geðrakkr fire mèr nakkvat:
trautt kann hóf sá er háttar
hoddlestir vel flestu,

1) svá at þeir skyldu allir skilja mega, b. v. *B*.
2) þeir, b. v. *A*. 3) með miklum móði, b. v. 395.

meðr ero at því aðrir
ósêlir, stórmêla.

ok enn kvað hann:

Bannar biskup mönnum,
berr stríð af því víða
lýða kind á láðe,
löngum kirkjugöngur:
geyst[1] man gegn at flestu
Guðmundr fara um stundir,
trautt má ek enn fire annan
enda sjá hvar lendir[2].

[3]Um várit dró Kolbeinn lið saman um öll herot til várþíngs; þá kom sunnan Þorvaldr Gizurarson, ok höfðo þeir mál fram á hendr biskupsmönnum. Þat var orð á, at þeir mundo fara at biskupe[4] með flokkum þessom öllum, ok taka menn þá er þeir höfðo sótta[5]. Þá fóro vinir þeirra ok leitoðo um sêtter, [ok urðu þeir sáttir[6] með því móte, at öll mál skyldo vera undir erkibiskupe. *Gáfu þeir* Kolbeinn upp sektir allar, en biskup tók alla menn or banne. Biskup hafðe menn Kolbeins fire ymsum sökum um ýmissa lute, tíundar mál, eða kirkna

---

1) geystr, *B*. 2) þann. *A*, *St.*, 204, en *B* setr vísuhelm.: „geyst man" o. s. frv. aptan við fyrri vísuna, en vísuhelm.: „trautt kann" o. s. frv. aptan við hina síðari. — Hèr bætir *B* við þriðju vísu:

„Guð hefir Guðmund gjörvan
glíkan Tóma at ríki,
nær liggr okkr við eyra
erfíngi höfðíngja:
ræðr guðs laga geymir
geðbjartr snöru hjarta,
hræðist himna prýði
hann, en vætki annat.

Hèr má skilja í vísum þessum, hversu drengiliga Kolbeini hefir farit þat er hann kvað til Guðmundar biskups eða mælti, ávallt er hann hefir fengit gætt reiðinnar, fyrir ósköpum þeim, er hann eggjuðu fram til dauðans". — 395 b. v.: „Hèðan af er þat ok virðanda, hversu hans túnga hefir verit samin til lofsamligs kveðskapar, frá því sem flestra skálda, hvort sem hann kvað um stórmerki guðs eðr hans mildustu móður, svo ok hvort er hann kvað til vina eðr óvina, sem greindar vísur bera vitne", o. s. frv. — Hèr til mun og heyra vísa Kolbeins sem er í Sn. Eddu, bls. 187.

Mundi mèr fyrir stundu
mikit orðalag þikja
of elgrenni unnar
eyrum slíkt at heyra.

3) *þeir sêttuz Guðmundr biskup ok Kolbeinn*, (*A* 126).
4) af þínginu, b. v. *B*. 5) sekta, *B*. 6) [ b. v. *B*.

fjárhald, eðr viðtöku við fátêkum frêndum sínum. Bêndr tóko því þúngliga, ok virðo þeir svá, sem engir mètte í friðe vera eða í frelse fire biskupe[1].

### Kolbeinn sótte klêrkinn.

55. Nú berr svá til, at klerkr einn sá er Skêríngr hèt, akolitus at vígslo ok ósiðvandr at vápnaburð ok klêðnaðe; hann var einhendr. þenna mann höfðo Austmenn handhöggit at Gásum, en[2] Guðmundr enn dýre mêlte eptir hann. þesse maðr átte barn við kono; en bróðir hennar konunnar sótte Kolbein at þesso mále, en klerkrinn sótte biskup at sínu mále; en Kolbeinn sêkir eptir, ok vill eige biskups dóm á málino. En Guðmundr biskup býðr at gjalda fire málit sex hundruð[3], ok kallar biskup meirr en ij lögrètto; en Kolbeinn neitar því, ok kvað ekke tjóa at sêttast við biskup, ok kallar [hann] rjúfa hverja sètt, ok lètr Kolbeinn sêkja klerkinn til sektar; en biskup forboðar Kolbein, ok alla þá er í dóminum höfðo verit. En hálfum mánaðe síðarr høðu þeir Kolbeinn ok Sigurðr fèránsdóm eptir klerkinn, ok tók[u] upp fèit. En er biskup spyrr þetta, þá bannsetr hann þá báða, því at honum var fèit handsalat. Guðmundr biskup var heima um þíngit, en þeir Sigurðr ok Kolbeinn sêkja þíngit, ok samneyta menn þeim, en þeir öðrum. þeir sêkja vj menn biskups um bjargir við klerkinn. En eptir þíngit samnar Kolbeinn liðe um öll hèrut, ok êtlar at heyja fèránsdóm at Hólum eptir þá er sekir vóro kallaðir, ok êtlaðe at taka fè þeirra; en biskup var fáliðr fire heima á staðinum, ok báðo menn hann undan ríða, sögðo menn eige sýnt, hvárt griþ munde gefin mönnum hans. Biskup var þess trauðr, ok gjörðe þó við ráð vina sinna, ok fór hann norðr í sýslo sína. Hann mat engis sektir manna, þeirra er Kolbeinn hafðe sótta, ok lèt þá ganga í kirkjur sem freálsa menn. þeir Kolbeinn gerðo ok svá, at þeir gengo í kirkjur allir, er biskup hafðe bannsetta; en prestar tóko þat upp, sem þeir hèldo lenge síðan, at samneyta þeim mönnum, er Guðmundr biskup bannsette fire þvílíka óhlýðne.

---

1) Hèr skýtr 395 inn sögunni um samtal Gyríðar og biskups (sjá Viðb. kap. 8); síðan er 395 alveg sem saga Arngríms, unz hún endar í miðjum Selkollu þætti.

2) þann. *B*; þá er, *A*. 3) dc, *A*.

[1]En er á leið sumarit ok biskup vendir aptr, þá dreif til hans mart manna; var þar inn fyrste maðr Ögmundr sneis frênde hans, ok margir aðrir menn þeir er röskvir vóro, með biskupi; þar var Vigfús kenne[maðr] [Önundar son, Konáll Sokkason[2] ok margir aðrir vaskir menn. Görðist hann þá fjölmennr, því at þau vóro orð úvina biskups, ef hann fêre á staðinn með sekja menn, at þeir mundo drepa af honum þá er sekir vóro; en þeir þorðo eige við hann at skileast, er sèr visso eige annars trausts vánir. Þá er biskup fór norðan um Eyjafjörð, fóro nokkorir óspektarmenn or flokke biskups, ok rêntu útlenda menn, þá er biskup kallaðe í banne af samneytengo við Kolbein ok Sigurð. En er þeir biskup ok Ögmundr urðo varir við, þá rèttu þeir mestan luta ránsins. Siþan fór biskup[3] á Möðruvöllo með flokkinn, ok hafðe á brot með sèr skrín ok helga dóma ok bêkr nokkorar, því at honum þótte ómaklega helgir dómar komnir, þeir er bannsettir menn varðveitto. Arnórr Tumason var [þar fire[4] ok mart [manna] annat með honum.

[5]Nú ríðr biskup á brott, en Sigurðr gerir orð Kolbeine Tumasyne; kalla þeir nú at biskup hefe hernot ok rán. Nú draga hvárirtveggjo flokka saman, Sigurðr ok Arnórr, ok Hall[r] Kleppjárnsson, en í annan stað Kolbeinn Tumason, ok êtla allir saman at biskupe, sem þeir gjörðo. Biskup kom heim á staðinn [snemma dags, ok gengo til kirkjo[6], ok [lèt biskup sýngja messo. Um daginn eptir var Maríu messa hin síðare[7] ok vilde biskup gøra þjónosto [þann dag[8], því at Maríu var helgaðr staðrinn[9]. Þann hinn sama dag kom Kolbeinn þangat með aukin CCC manna, ok settist um staðinn, ok fóro þá menn á millum þeirra ok leitoðo um sêttir; var þat svá þvert af Kolbeine, at hann vilde ekke annat, en þeir menn, er sekir vóro, vêre fengnir í vald hans; en biskup vilde eige selea menn sína

1) *Frá Guðmunde biskupe, A* (128).

2) þann. *St.*; [ Ögmundr s. Konáls Sokkas., *A.* 3) heim, b. v. *B.*

4) leiðr.; [fire þeim, *A*; — með þeim Sigurði, b. v. *B.*

5) *Flokkadráttr, A (129).* 6) [ kirkjudag sinn snemmindis, *B.*

7) [ syngr þar messo, en næsta dag eptir var Mariv messa, sem lengi hefir þar kirkjudagr verit, einni nótt fyrir Mariumessu, b. v. *B.*

8) [ baða dagana þessa, sem sannlikt var, *B.*

9) með guði, b. v. *B.*

undir eyxe, ef þeim vere eige friðe heitið. Ögmundr átte í allan lut at[1] draga saman sêttina, því at hvárrtvegge var hans venzlamaðr. En með því at hann var óleiðingasamr, þá var þess leitað, at biskup skylde ríða af staðnum með menn sína í friðe, en Kolbeinn játaðe því ekke, en þó tóko þeir[2] Guðmundr biskup þat ráð; þótte mönnum sem þannig munde helzt úhêfa ok vandrêðe við berast[3]. Mariomesso um kveldit var hríngt öllum klukkum at staðnum til aptansöngs, ok er svá sagt, at Kolbeinn hafe eige heyrt klukkna hljóþit.

## Fall Kolbeins Tumasonar.

56. Nú ríðr Guðmundr biskup af staðnum með CCC manna; þar vóro ok með honum iij ábótar, ok ij múnkar ok nêr XL. presta, ok mart klerka, þar var ok mart röskra manna með honum, en sumt stafkarlar ok göngukonur. Nú er þeir Kolbeinn seá, at þeir biskup ríða á brot, þá tók til orða Brúse prestr ok mêlti til Kolbeins: „þar ríðr biskup nú á brot með virþíng ykkra beggja". Kolbeinn bað menn taka hesta sína, ok lèzt eige þola, at biskup riðe á brot við sogurt með menn sína. Kolbeinn ríðr þá á veginn[4] fire þá með CCCC manna, ok fylkir liðe síno. Guðmundr biskup víkr þá af veginum ok annarsstaðar. þeir Kolbeinn snúa þá þar í mót; ok er flokkarnir hittust, þá lystr í bardaga með þeim. Guðmundr biskup sat á heste, ok ábótar með honum ok prestar nokkorir, ok kallaðe, at eige skylde berjast, en at því gáfu engir menn gaum. Berse Vermundarson frá Móberge hann gekk fast fram, ok spurðe at Ögmunde sneis. Naddr hèt fylgðarmaðr Ögmundar, hann rèzt þá í móte Bersa, ok fóro þeirra skipte svá, at Berse vegr Nadd. þá tekr Ögmundr sneis til orða: „fast gengr þú nú fram, Berse!" — „þat skaltu finna", segir Berse, „at ek skal ganga þèr nêrr". Eptir þetta snýr Ögmundr í móte Bersa ok höggr hann banahögg. Menn Guðmundar biskups börðust vel ok djarfliga: Konáll Sokkason, Sveinn Jónsson, Vigfúss kennimaðr, ok margir aðrir. Kolbeinn fèkk steinshögg í bardaganum, ok kom þat högg í ennit, ok fèll hann við; var þat

1) skara (skra) vandræði með þeim, en, b. v. *B*.
2) Ögmundr ok, b. v. *B*. 3) Héðan og út kap. 56 er *B* fjölorðari (sjá Viðb. kap. 7).
4) með, b. v. *A*.

hans banasár, en þó hafðe hann vit sitt, ok beiddist prests fundar, ok vilde Guðmundr biskup at hann nêðe því. Eptir þat svarðe Kolbeinn sèttareið, ok eptir þat var hann huslaðr, ok dó hann siþan. En ekke varð víst, hverr steininum hafðe kastað[1].

## Hverir fèllo í Viðenese.

57. þessir menn fèllo með Kolbeine Tumasyne í Viðenesbardaga: Brúse prestr, þórðr prestr Einarsson, Berse [Vermundarson] ok Böðvarr Tannsson[2], Eyjólfr Hallsson[3], Glúmr ok Styrbjörn, ok Björn Steinþórsson[3] ok Starre Sveinsson. En af mönnum Guðmundar biskups fèllo þessir menn: Naddr þórarinsson ok Einarr Ólafsson, en annat lið Kolbeins flýðe, allt þat er mátte fire sárum; sumir gengu slyppir at Guðmunde biskupe, ok sóro eiða, ok festo honum skriptir ok fègjald í hans dóm. Nú seá menn Guðmundar biskups, hvar ríðr flokkr þeirra Sigurðar ok Arnórs, ok snúa nú í móte þeim, ok hafa vápn þeirra Kolbeins. þeir Sigurðr snúa nú undan ok aptr, en biskupsmenn eptir, ok heldr tómliga í fyrsto, því at sumir lötto en sumir fýsto eptirreiþar. En aðra nótt eptir, þá vurðo þeir Sigurðr ok Arnórr varir við, at flokkr biskupsmanna var mjök eptir þeim kominn, þá leyndist Sigurðr ok Arnórr ok þeir fjórir saman frá flokkinum, ok riðu suðr um land, ok vóro þar þann vetr með frèndum sínum ok mágum. En Hallr Kleppjárnsson ok flokkrinn gekk til sèttar við Guðmund biskup, ok játa með eiðum hans dóme, hverr á síno mále.

[4]En Kolbeinn hafðe stefnt til móts við sik þorvalde Gizurarsyne til atferðar við Guðmund biskup, er biskup kallaðe grundvöll allra þess[arr]a mála. Hann frètte fall Kolbeins á Kile, ok snýr þorvaldr þá aptr. Hann fann Snorra Grímsson, frènda þeirra Guðmundar biskups ok Ögmundar, vitran mann ok vinsèlan, subdjákn at vígslo. þorvaldr lèt taka hann, ok hafðe êtlat mann til áverka við hann, en þeim varð bilt. þá hljóp at Klèngr son þorvalds, messodjákn at vígslo, ok höggr Snorra banahögg.

---

1) Hèr skýtr *B* inn litlum kapitula um húsfrú Gyríði (sjá Viðb. kap. 8).
2) þann. *A* og *B*; Tannason, *St.*
3) Haldórsson, *B*, *St.*
3) v. í *A*; b. v. *B*, *St.*
4) *Drepinn þorvaldr* (!), *A* (132).

Frá biskupsmönnum.

58. Nú er Guðmundr biskup at stóle sínum um vetrinn, ok býðr hann erkibiskups dóm á málom þessum öllum, en því var eige játað. Ögmundr bauð þá, sem jafnan hafðe hann fyrr boðit, sinn fjárlut til sétta með þeim, ok margir aðrir. En Guðmundr biskup leggr fègjöld á þá, er at honum höfðo farit til Hóla, CCC vaðmála á mann, eða V, eða X, svá sem honum þóttu menn sakbitnir til. Á einn mann lagðe Guðmundr biskup at gjalda XX. C. Guðmundr biskup sende menn sína at heimta saman fè þetta, ok treystust þeir eige fámennir at fara; en þeir er fire sáto þorðo eige annat en gjalda slíkt sem þeir kröfðo, en kölloðo rán. Nú er illr kurr í bóndum, þóttust hafa látið höfðíngja, en farit sneypo, ok látið marga frêndr ok vine, sumir limu, en gjalda nú fè á sogurt ofan; kalla þeir þetta allt hernat ok rán, er þeir láta; en hinir ylmðust því meirr, er yfir fara með flokkinn, ok gefa aðrar sakir bóndum hjá fram. Þeir ganga yfir bú þeirra Sigurðar ok Arnórs, ok gerðu marga lute, þá er biskup bauð þeim eige, heldr bannaðe hann þeim. Þeir brendo eitt bú, ok unno á nokkorum mönnum, þeim er þeir þóttust sakir við eiga ok þeim þótte um líf sitt setið hafa, en einn mann drápo þeir, drepinn var ok prestr einn af þeim. En þar sem biskupsmenn gjørðo úspektir, þá kendo bêndr þat biskupe, en biskup kallar bêndr í sama banne, sem áðr þeir séttust, því at hann sá, at þeir vildo ekke halda þat, er þeir höfðo fest ok svarit, en þeir vildo allt gera í móte honum þat er þeir mátto, sem raun gaf á síþan. Þeir vóro margir menn, er stukku undan suðr í Dala til Sighvats Sturlosonar, ok kêrðo skaða sinn fire honum; hafðe hann af því mikla skapraun um tillögur Halldóru, konu sinnar.

Féddr Gizurr jarl.

59. [Nú er þar til máls at taka, at um vetrinn eptir Víðenessbardaga fêdde Þóra Guðmundsdóttir, kona Þorvalds Gizurarsonar, sveinbarn, ok töloðo menn um við Þorvald, at hann skylde kalla láta eptir Kolbeine Tumasyne, en Þorvaldr segir: „eige man minn son verða jafnvel mentr Kolbeine, en þó hafa þat vitrir menn mêlt, at menn skyldo eige kalla sonu sína eptir þeim mönnum, er skjótt ero kallaðir af heime; man ek

minn son Gizur láta heita, því at lítt hafa þeir ökkvisar verit í Haukdêla êtt, er svá hafa heitið hèr til"[1].

[2]Þenna vetr er á leið fóro menn mille höfðíngja með þeim ráðagjörðum, at þeir skyldo draga flokka at Guðmunde biskupe. Var þar Þorvaldr Gizurarson firemaðr, Arnórr Tumason, Jón Sigmundarson, Sighvatr Sturloson ok Snorre bróðir hans, Magnús Guðmundarson, Þorvaldr vazfirðíngr. Sighvatr sende orð Þórðe bróður sínum, ok fundust þeir í Hítardal, ok bað Sighvatr Þórð bróður sinn til farar með sèr. Þórðr spurðe, hverjo hann skylde ráða, ef hann fêre. — „Hví mantu [eige] ráða því er þú vill", segir Sighvatr, „eðr[3] hve fjölmennr mantu fara"? — „Með v. mann", segir Þórðr; en Sighvatr svarar: „hvat skaltu mèr þá heldr en annarr maðr, ef þú ert svá fámennr"? — „Þú sèr þat", segir Þórðr. Sighvatr ljóp á hest sinn, ok var reiðr, ok skildo þeir brêðr við svá búit, ok s[egir] Þórðr, at alldri hefðe vorðit síþan slík frêndseme þeirra sem áðr.

## Fireburðir.

60. Þat er sagt, at um vetrinn eptir bardagann í Viðenese vóro dreymdir draumar margir. Þat dreymde mann einn í Skagafirðe, at hann þóttist koma í hús eitt mikit; þar sáto inne konur ij; þêr vóro blóðgar ok rero áfram; honum þótte rigna blóðe í gluggana. Önnur kvað konan:

Róum vit ok róum vit,
rignir blóðe,
Guðr ok Göndul,
fire guma falle:
vit skolom ráðast
í Raptahlíð,
þar manum blótaðar
ok bölvaðar.

En í Austfjörðum dreymðe mann þat, at hann þóttist koma í litla stofu, ok sátu þar inne ij menn svartklêddir, ok höfðo grá kollhötto á höfðe, ok tókust í hendr, ok sat í sínum bekk hvárr, ok reru þar, ok ráku hendrnar á veggina svá fast, at þá reidde til falls. Síþan kváðo þeir víso þessa, ok kvað sitt orð hvárr þeirra:

---

1) [ v. í *B*. 2) *Flokkadráttr*, *A* (135). 3) P, *A*.

Höggvast hart seggir,
er hallast veggir,
illa ero vit settir
er inn koma [gráir][1] hettir:
verk manu upp innast
þau er aldri finnast[2],
enge er [á sóme[3],
á efsta dóme.

[4][Á þessum iiij árum, frá því er Guðmundr hafðe verit biskup ij vetr, þá varð þetta til tíðenda: Á hino fyrsta áre var Inge Bárðarson tekinn til konúngs. Fall Einars konúngsmágs. Víg Márs prests. — Á öðro áre andaðist Haraldr jarl hinn gamle, ok Gizurr Hallsson. Þórir erkibiskup í land kominn. Slagit í Þrándheime. Ellz uppkváma í Heklufelle.

[5]Á þriðja áre andaðist Erlíngr steinveggr. Philippus Simunarson hófst. Andaðist Njáll biskup ok Þorvarðr Þorgeirsson. Druknan Herdísar *cum sociis*. Á fjórða áre: England í banne. Fall Kolbeins Tumasonar. Víg Snorra Grímssonar. Þá hafðe Guðmundr verit biskup vj vetr[6].

Heimsókn á staðinn.

61. Nú er þar til máls at taka, at um várit eptir drógo þessir höfðíngjar[7] flokka saman, sem áðr vóro nefndir, ok fóro at biskupe. Þorvaldr Vazfirðíngr fór vestan með XXX [manna] ok gengo þeir allir. Þorvaldr hafðe exe í hende, ok studde ekke niðr skaptinu er hann fór norðr, ok ekke er hann fór norðan. En er flokkarnir kómu saman, höfðo þeir DCC manna, er þeir veitto biskupe heimsókn á staðinn. Biskup hafðe fire fátt lið umfram heimamenn sína, því at menn gengu mjök undan honum, ok vildo náliga ekke veita honum. Ögmundr sneis vilde veita biskupe, ok komst hann eige til móts við biskup, því at flokkr var gjörr í móte honum; en Ögmundr komst

1) b. v. *B.*
2) finnast = fyrnast, eldast; sbr. Finnar; *finnúngr*, fornt gras.
3) [ þann. *St.*; osoma, *A, B.* 4) *Tíðende*, *A* (137). 5) *Tíðende*, *A* (138).
6) [ v. í *B.* — Þess verðr að gæta, að biskups ár Guðmundar eru ávallt talin í *A* frá 1202, en hann var vigðr snemma árs (13. apr.) 1203.
7) vij, b. v. *B.*

undan; en þeir tóko skjöld[o][1] hans or kirkjo, ok hest[a][2] hans, svá at hann fèkk hverge farit. Þeir Sigurðr vóro fire þeim flokke ok Hallr. Þá er flokkarnir riðu á staðinn, vóro biskupsmenn á húsum uppe ok höfðo búizt til varnar; var þar fire mart röskra manna. Þeir höfðíngjarnir gengu um bêinn, ok hugðu at hvar auðvelligast vêre at at sêkja. Þórðr [Böðvarsson] móðurbróðir Sturlosona lagðe þat ráð til, at þeir skyldo êpa um kveldit heróp, en ganga eige fyrr at, en um morgininn; ok êtlaðe hann, at þá munde þunnskipaðra á húsunum en um kveldit. Þat fór sem Þórðr gat til, at margir menn leyndust um nóttina frá Guðmunde biskupe, en sumir til úvina hans, en sumir annan veg á brot, svá at fátt var manna eptir á húsunum. En um morgininn, þá gengo þeir í kirkju, er sèr þótte óvênt til griða; en þá var fátt eptir biskupsmanna. Þá ljópo þeir á þá til bardaga. Þorkell prestr Bergþórsson, er nörtr[3] var kallaðr, varðist bêðe vel ok drengilega, ok fèll hann þar á húsunum. Fleire menn fèllo þar á húsunum, ok einn mann drápo þeir í kirkjugarþinum, svá at blóðit hraut á kirkjuna. vj menn lètust af biskupsmönnum. Þeir Arnórr lètu ok vj menn. Síþan ljópo þeir í hús inn, ok bruto lok ok lása at leita manna. Nú gerðo þeir biskupe ij koste: annan þann, at hann skylde taka þá or banne, en þeir mundo þá gefa þeim sumum mönnum griþ, er í kirkjo vóro, en biskup skylde fara af staðinum ok koma þar aldri síþan, ella mundo þeir drepa þá alla, er í kirkjunne vóro, ok eira øngo vêtta, en reka þó biskup á brot af staðinum svívirðelega. Hann kaus hvarngan kost, ok sagðe sik ekke mega leysa þá; en þó varð þat við bên þeirra manna, er þá vóro til dauþa êtlaðir, at Guðmundr biskup vann þat til lífs mönnum, at hann sýngr yfir þeim *miserere*, ok segir þeim þó, at þeir vêre þá eige lausare en áðr.

Guðmundr biskup fór með Snorra Sturlosyne.

62. Eptir þetta býðr Snorre Sturloson Guðmunde biskupe til sín, ok ferr Guðmundr biskup þann dag á brot með Snorra. En er Guðmundr biskup var í brottu, gengo þeir Arnórr til[4] kirkju með vápnum, ok eggja hina út er inne vóro, ok þeir

---

1-2) þann. *B*; skjöld — hest, *A*.
3) naðr, *B*. 4) þann. *B*; í, *A*.

þóttust mestar sakir við eiga, ella mundo þeir sêkja þá eðr svelta þá í kirkjunne. Þá tók Sveinn Jónsson til orða: „gera man ek kost á út at ganga;" en þeir spurðo hverr sá vêre. Hann svarar: „ef þèr limit mik at höndum ok fótum, áðr þèr hálshöggit mik;" ok þesso var honum heitið. Gekk hann þá út ok allir þeir, því at þeir vildo eige at kirkjan saurgaðist af þeim eða blóðe þeirra. Allir gengo þeir slyppir út. Var Sveinn þá limaðr, ok søng Maríu vers meðan, en síþan rètte hann hálsinn undir höggit, ok var allmjök lofut hans hreyste. Þar var ok hálshögginn Skêríngr klerkr, ok hinn þriþe sekr maðr. En þessir höfðo áðr látizt af Guðmunde biskupe: Þorkell prestr, Leifr Þorbergsson[1], Brandr[2] ok Steingrímr ok Handar-Leifr, Einarr Hallvarðsson ok Þórarinn, ok er sá nú taliðr, er [í kirkjugarðinum var drepinn[3]. En af þeim er til sótto lètust þessir menn: Bergþórr ok Gizurr, Sigmundr svalr[4] ok Einarr birkibeinn, Símon prestr. En þeir er sekir vóro kallaðir vóro fêrðir í urð, ok lágu þeir þar ij mánuðr. En suma menn, þá er þar fèllo án iðran ok lausn, grófo þeir at kirkju, ok kölloðust þeir þat allt líkea eptir Guðmunde biskupe, er hann lèt sekja menn í kirkjur ganga. En biskup lèt ok einn mann, þann er þar hafðe fallit af Kolbeine iðrunarlaust, [eige at kirkju liggja[5]. Mörgo var þar rênt, því er staðrenn átte ok aðrir menn, þeir er þar vóro, bêðe hestum ok húsbúnínge, ok flestu því er utan kirkju var. En þá er manndrápum var lokit, tóko höfðíngjar menn til sín, ok gáfo grið þeim mönnum, er þeim líkaðe, ok gerðo þat nokkut í þrá öðrum.

[6]Sighvatr gaf griþ Konále Sokkasyne, en Snorre hafðe griþ gefit Vigfúse kennemanne. Þeir vóro flestir af hinum stêrrum mönnum, er nokkurn mann tóko til sín. En er biskup var or hèraðe, gerðo þeir[7] orð á alla vega frá sèr, ok lèto [presta taka[8] alla menn or banne, ok tíðir sýngja ok gera alla þjónosto, bêðe þar ok svá at öðrum kirkjum öllum, ok segja þat biskups leyfe. Alla þá menn, er Guðmunde biskupe höfðo fylgt ok

1) Þorgeirsson, *B*, *St*, 204. 2) Bárðr, *B*, 204, *St*.
3) þann. *B*, *St*.; [ or kirkjunne, *A*. 4) ok Svalr, *B*.
5) [ v. í *A*; b. v. eptir *B*; *St*. b. v. „mánuð".
6) *Frá Sighvate ok Snorra Sturlosonum*, *A* (141).
7) Arnórr, b. v. *B*. 8) [ taka presta, *A*.

fulltíng veitt, ok þar vóro eptir, kúguðu þeir til[1] seálfdêmis við sik, svá vígðan ok úvígðan, ok lögðo fègjöld á, CCC eða V, eða X eða XX, eða XL eða XXX. Ögmundr sneis lèt hundrat hundraða ok hèraðsvist sína áðr en lètte; fór Ögmundr austr í Hofsteig. Suma menn gerðo þeir útlaga ok bótalausa. Fjóra góða menn, presta ij ok leikmenn ij, nauðgöðo þeir til járnburðar um þat, at þeir hefðe eige unnit á Kolbeine, ok urðo þeir allir vel skírir.

[2]Nú seteast þeir Arnórr ok Sigurðr á staðinn ok staðareignina. En um várit eptir, þá sende Guðmundr biskup brèf til staðarins, ok bað lêsa kirkju, ok kallar hana saurgaða, bêðe af manndrápe ok af grepte bannsettra manna, var ok svá gert, at kirkju var lêst. Var þá tjald reist utan kirkjugarðs, ok vóro þar þá messur súngnar. Þeir Arnórr ok Sigurðr þola eige at kirkjan stêðe tíðalaus; fara þeir þá ok þröngva til prestum at sýngja í kirkjunne, ok eige messo fyrst; en þó litlu síðarr var þar full þjónosta framit, ok lík jörðut. Aumlig ok hörmulig kristne var þar þá at seá: sumir prestar lögðo messo sönginn fire rêzlo sakir við höfðíngja, sumir af seálfs síns vilea; höfuðkirkjan, móðirin, sat í sorg ok í sút, ok sumar dêtr með henne, en sumar gleymðo yfir hennar[3] harme, ok lifðe hverr sem lyste, en enge þorðe um at vanda, nè satt at mêla, fire þeim Sigurðe ok Arnóre.

Guðmundr biskup í Reykjaholte.

63. Guðmundr biskup var um vetrinn í Reykjaholte með Snorra, en um várit fór hann norðr til Rútafjarðar, ok êtlaðe hann á skipom[4] norðr til staðarins, eða allt til Austfjarða. En er þeir Arnórr frèttu þat, ok êtloðo at biskup munde fara á staðinn, þá draga þeir þegar lið saman, ok skiptu mönnum hjá höfnum þeim, er líkast [vêre], at hann munde til leita. En Arnórr êtlar at snúa flokkinum til móts við biskup, þegar hann frètte til hans. En er Guðmundr biskup frètte liðsamnat, vendir hann aptr ferð sinne til Steingrímsfjarðar; frètte hann þá meðferð

1) hèr vantar 1 blað í *B*; en byrjar aptr í nýju efni um brèf Þóris erkibiskups ok samtal þeirra Guðmundar biskups (sjá Viðb. kap. 9—13).

2) *Frá Sigurðe Ormssyne ok Arnóre, A* (142).

3) b. v. eptir 204; v. í *A*. 4) skipino, *A*.

presta um tíðagerð, béðe á staðnum ok annars staðar. Guðmundr biskup bannsetr þá alla presta, er messur höfðo súngit í óleyfe hans, ok átto allt samneyte við bannsetta menn. Þá hafðe Guðmundr biskup verit vij vetr. Á þesso áre sèttust konúngar í Norege. Bardage at Hólum. Andaðist Margrèt kona Sverris. Guðmundr biskup í Reykjaholte. Farsumar it illa. Andaðist Jón Grênlendíngabiskup. Drukknan Ásólfs prests.

[1]Þetta sumar fór Guðmundr biskup um Vestfjörðo; en um vetrinn var hann á Breiðabólstað í Steingrímsfirðe með Bergþóre Jónssyne, ok urðo þar margir merkiligir lutir, þeir er frásagnar ero verðir, ok jarteinum þótte gegna, þótt þat sè eige ritað í þesse bók, béðe þat er Guðmundr biskup átte við flagð þat, er [þeir kölluðu[2] Selkollu, ok mart annat. En prestar fóro síno fram um þjónosto gerð sína, hvat sem biskup s[agðe]; höfðo þeir helzt umrêðe um sín vandamál við Gunnlaug múnk, er mestr klerkr [var] ok góðvilea maðr norðr þar. Þá hafðe Guðmundr verit viij vetr biskup. Á því áre er Guðmundr biskup var í Steingrímsfirðe [urðo þesse tíðende[3]: Styrmir tók lögsögu. Staðrenn brann í Hólme. Álfhildarmál. Andaðist Guðmundr gríss ok Halldóra abbadís ok Valgerðr Jónsdóttir. Týndist skip Steinbjarnar Híðabróður.

Sèttar fundr með Guðmunde biskupe ok Arnóre.

64. Um várit var lagðr sèttarfundr með þeim Guðmunde biskupe ok Arnóre til sêtta, ok bauð Arnórr marga koste sêmilega, en þó vilde hann at Guðmundr biskup fêre ekke á staðinn, svá at hann stýrðe fleira en kirkjo ok tíðum. Um sumarit eptir fór Guðmundr biskup vestan við x. mann, ok kemr í Eyjafjörð til Halls Kleppjárnssonar á óvart, ok tekr hann vel við honum, því at þeir höfðo áðr sêzt. Nú frètta þeir Arnórr þetta, ok draga saman flokka, ok svá þeir Hallr ok biskup í móte, ok finnast þeir. En svá varþ vel til gètt, at þeir skilðo óhappalaust, en sètt þeirra varþ enge. Vendo þeir Hallr ok Guðmundr biskup undan, ok vildo eige göra ófrið, ok ferr Guðmundr biskup þá norðr í sýslu sína, ok sýngr messur í tjöldum, en eige í kirkjum, meðan eige var höfutkirkjan hreinsut.

---

1) *Frá ferðum Guðmundar biskups um Vestfjörðu, A* (144).

2) [ þann. 204, *St.*; hann kallaðe, *A.* 3) [ b. v. eptir getg.

þá koma út brèf þóris erkibiskups, ok vóro þar á utanstefníngar, ok tekit hart á úvinum biskups, ok kyrðust þeir Arnórr við þat. Guðmundr biskup fór til Hóla, ok sat þar í friðe þann vetr at kalla, ok áttust þeir Arnórr ekke við. þann vetr gengu margir menn til sètta við Guðmund biskup.

[1]Á eino áre boðat höfðíngjum á erkibiskups fund. Vetrinn góðe. Landskjálpte, ok urðo xviij menn undir húsum. Vêtusumar. Andaðist Páll biskup í Skálaholte iij kal. Decembri[s] mánaþar. Jón prestr Brandsson. Sokke Eyjólfsson. þá hafðe Guðmundr biskup verit IX vetr. — Á nêsta áre var kosinn til biskups Teitr Bersason, systurson þorvalds Gizurarsonar, ok fór þorvaldr Gizurarson utan með honum. Helge biskup við Flatey. Utanför Arnórs. Andlát Sveins biskups. Guðmundr enn dýre, Jón Sigmundarson, Karl ábóte, Ormr ábóte. þá hafðe Guðmundr biskup verit X vetr.

Frá Kálfe Guthormssyne.

65. Í þenna tíma bjó Kálfr Guthormsson á Grund í Eyjafirðe; hann átte þá kono er Ósk hèt, dóttir þorvarðs hins auðga. Guthormr hèt son hans en Jórunn dóttir. Kálfr þótte þá mestr bónde í Eyjafirðe. þá bjó at Hrafnagile Hallr Kleppjárnsson, hann átte Íngibjörgu dóttur Guðmundar ens dýra; Einarr ok Kleppjárn vóro synir þeirra. Með þeim Kálfe ok Halle var óþokke mikill, varþ þeim mart til; hafðe Hallr mannaforráð mest í Eyjafirðe, ok þótte honum Kálfr ekke trúr at leita á þíngmenn sína. þeir deildu ok um hval nokkorn, ok fêrðu málit til þíngs, ok var hvárrtvegge enn meste flutníngsmaðr síns máls. þat þótte þeim er hjá vóro þá sannara, er þá flutte sitt mál eðr erende, en þó fengo þeir ekke samit mál sitt. þeim varþ mart til. Hrafnagilsmenn ortu mart um Kálf, ok gerðo um hann háð ok spott mikit:

Vetrúngs fèðist efnit eitt,
öllum er þat mönnum leitt,
tvennar liggja [til þess[2] bètr,
tveir einir ero undir fètr;
helzte hefir þat lenge lifat,
[láte menn[3] þat höndum þrifat,

1) *Tíðende*, *A* (146). 2) [ þann. *St.*; þar til, *A*. 3) þ. *St.*; látum enn, *A*.

ekke er þat sem annarr smale,
enge er skaptr fire rass aptr hale.

Ok enn þetta:

Reið ek fire dyrr ok dúðag
[dyn háskutil[1] brynjo,
[eldr lèk yggs[2] und skilde,
óskjálfande[3] Kálfe:
mêlt var-a gott þá er gjöltu
Grundar menn sem hundar,
þyss var í þrêlum kusla
þeim, í virke heima.

Ok enn:

Hefir um [h]repp inn efra,
hann er gjörr at þrotsmanne,
þar[4] er kotmanna kynne,
Kálfr matgjafir hálfar.

Þat er sagt[5] þenna tíma, at þeir Arnórr Tumason ok Sigurðr Ormsson báðo Sighvat Sturloson, at hann skylde ráðast norðr þangat í sveitir, vilde Sigurðr, at hann tèke við goðorðum þeim, er hann hafðe gefit Tuma syne hans, en Arnórr hafðe þá lýst utanferð sinne af málum þeirra Guðmundar biskups. Sigurðr bjó þá at Möðrovöllum í Hörgárdal, ok vóro þau Sighvatr ok Halldóra þar jafnan á kynnissókn. Ok eitt sinn er Sighvatr var á Möðrovöllum, kom Kálfr Guthormsson at finna Sighvat, ok kêrðe fire honum missêtte þeirra Halls, en Sighvatr lèt sèr fátt um finnast, en lèzt ekke vilea fýsa Kálf vandrêða, en lèzt vin hans vera skyldu ok liðveizlo maðr, hvat sem honum kynne til handa at bera, ok mêltust þeir vel við at skilnaðe.

## Frá Halle Kleppjárnssyne.

66. Þat var iij[6] vetrom eptir bardagann at Hólum, á jólafösto, at Kálfr varð þess víss, at Hallr Kleppjárnsson átte ferð til Múnkaþverár. Þangat fór á Grund Jón Eyjólfsson, er átte Salbjörgu[7], systur Kálfs, hann bjó í Möðrufelle, ok er þat sumra manna sögn, at þat vêre ráð þeirra beggja. Kálfr fór

1) [ getg.; dyns háskyte, *A*; dyn háskutils, *St*. 2) [ getg.; eldz liggr yggs, *A*; eldr lèt (lèc?) ygs, 122. 3) óskjálfanda, 122. 4) þat, *St*. 5) at, b. v. *A*. 6) leiðr.; v, *A*, *St*. 7) Valgerði, *St*.

síþan um daginn, ok með honum Þorbjörn[1] klukkunef, móðurbróðir hans, er þá bjó í Gnúpufelle, ok þeir brêðr Steingrímssynir, Eldjárn prestr ok Þorgeirr, þeir vóro dóttursynir Tuma Kolbeinssonar.

[2]En er þeir koma á völlinn at Þverá, gengu þeir Hallr Kleppjárnsson tveir neðan á völlinn; snero þeir Kálfr þá skjótt á móte þeim, ok sêtto áverkum við Hall, en hann hörfaðe undan, ok varþe sik bêðe vel ok drengeliga; en menn vóro úte á bênum, ok talaðe austmaðr einn um, hvárt menn berðist á vellinum niðre; en Jón Eyjólfsson svarar: „skylmast menn þar", segir hann; ok var því ekke til laupit, er hann tók þannveg á. Þeir unnu allir á Halle, ok lèt hann þar líf sitt. Snero þeir Kálfr þá skjótt í brot, ok fór hann heim á Grund um kveldit, en heima menn at Þverá bjoggu um lík Halls.

[3]Eptir þetta stefnir Kálfr at sèr mönnum, vinum sínum ok frêndum, ok leið svá framan til jóla, ok hafðe Kálfr fjölmennt á Grund. Synir Halls vóro úngir, er þetta var tíþenda, ok var Klêngr bróþir Halls vígsakar aðile. Þá er víg Halls spurðist vestr í Dale til Sauðafells, segja menn at Sighvatr kvêðe víso þessa:

Nú spurðo vêr norðan,
[náir hrafn af[4] því tafne,
heipt hefir herr fire gipto,
Hall Kleppjárnsson fallinn:
nú er Eyfirðín[g]s orðit
allmargs ins forsnjalla,
gunnmáva hnè grennir
geðhraustr, lokit trauste.

Þat var jóladag inn fyrsta, at Kálfr s[purðe] þau tíðende, at Klêngr Kleppjárnsson var kominn á Espihól með mikinn flokk manna, ok gengo þeir til matar. Kálfr sende þá menn til Möðrufells, ok víðara á bêi, at stefna at sèr mönnum. Guthormr Jónsson hljóp þegar ofan til Grundar, er orðsendíng kom, ok vóro þeir komnir þá á bêinn þeir Klêngr. Guthormr ljóp at virkino, svá at hann náðe eyxinne upp á virkit, ok las sik svá upp í virkit, þeir Kálfr vóro fire í virkino, ok bjoggust til varnar, bêðe konur ok karlar, en þeir Klêngr sóttu at, ok höfðo á öðro

---

1) Styrbjörn, *St.* 2) *Víg Halls Kleppjárnssonar, A* (150).
3) *Seta á Grund, A* (151). 4) [ þann. 122; natthrafn at, *A*.

hundraðe manna, ok fengo þeir Kálfr lítt vörninne við komit fire liðsfjölða sakir, ok stukko þeir or virkino ok inn í húsin, urðo þar nokkorir menn sárir af Kálfs mönnum, en einn ljóp í kirkjuna af mönnum Kálfs, ok var sá sêrðr allt innar heá reiðu-stól. Áttu menn þá lut, at þeir skyldo sêttast, ok lýdde Klêngr á þetta; en þar kom öngu öðru við, en Kálfr laut at selea seálf-dême um víg Halls, ok skildo þeir við þetta. En Klêngr gerðe gerð þessa um várit eptir, ok gerðe hann CC hundraða fire víg Halls, en Kálfr skylde utan vera iij vetr, ok vera hèraðs-sekr or Eyjafirðe. Þetta fè allt galt Kálfr vel ok rösklega, sem gert var á hendr honum, ok fór utan eptir þat, ok gekk suðr, ok tók lausn allra sinna mála; hèlt hann ok alla sètt vel.

[1]Vetr þann, er Hallr Kleppjárnsson var veginn á jólaföstu, lèt Þorvaldr Snorrason drepa Rafn Sveinbjarnarson á Eyre í Arnarfirðe á langaföstu, sem segir í sögo þeirra Þorvalds ok Rafns. Þeir rêntu ok þar mörgu ok góðu í fèmunum, áðr þeir fóro í brott. Tveir gripir vóro þeir þar, er Guðmundr biskup hafðe gefit Rafne, er frá er sagt, þat var sólarsteinn ok kvenn-kyrtill með hlöðum blábrúnaðr. En er þeir êtloðo hann á brott at taka, þá sýndist þeim sem þat vêre svartr fats töturr, ok köstoðo eptir, en sólarsteinenn höfðo þeir til sjófar; þá sýndist þeim [hann] sem annarr fjörosteinn, ok köstoðo niðr, ok er þeir vóro á brotto farnir, þá fannst sólarsteinninn.

[2]Á því áre er Rafn Sveinbjarnarson var veginn urðo þesse tíþende: Magnús Gizurarson rèzt í Skálaholt til forráða. Utan-för Þorvalds Gizurarsonar ok Teits biskupsefnis. Týndist skip Ólafs skirvils. Andlát Eireks erkibiskups ok Kristínar kono Philippus. Þá hafðe Guðmundr biskup verit xj vetr.

Guðmundr biskup êtlaðe utan.

67. Nú er þar til máls at taka, at um várit eptir búast þeir til utanferðar: Guðmundr biskup ok Arnórr Tumason, ok lá Guðmundr biskup[3] til hafs vj vikur, ok siglðe út tveim sinn-um, ok urðo aptrreka, ok var Guðmundr biskup borinn af skipe, en ij menn fóro utan af þeim vj, er erkibiskup hafðe utan stefnt; þá fór ok utan Þorvaldr Gizurarson ok Teitr bisk-

---

1) *Drepinn Rafn Sveinbjarnarson, A* (152).
2) *Tíþende, A* (153). 3) biskups, *A*.

upsefne, en Guðmundr biskup fór utan vetre síþarr, ok var hann hinn fyrsta vetr í Vík austr, en lengstum var hann með Nicholáse biskupe.

[1]Þrim vetrom eptir víg Halls Kleppjárnssonar rèzt Sighvatr Sturloson til Eyjafjarðar, ok var hinn fyrsta vetr á Möðrovöllum í Hörgárdal með Sigurðe Ormssyne. Annan vetr átte hann bú við hann. Eptir þat keypte hann Grundar land með því móte, at Runólfr prestr, er síðan var ábóte, gekk í skuld fire Kálf Guthormsson, ok galt fire landit, en Sighvatr handsalaðe honum Sauðafell í veð at móte, ok hann fór þangat at búa, en Sighvatr gerðe þá bú á Grund, ok bjó þar meðan hann lifðe. Kálfr Guthormsson keypte Miklabê í Skagafirðe, ok bjó þar meðan hann lifðe. Í þenna tíma vóro í Eyjafirðe margir stórir bêndr, ok ýfðust þeir heldr við Sighvat; þótte þeim hann þar eiga hvárke erfðir nè óðul í hèraðe.

[2]Á þeim árum er Guðmundr biskup var utan þesso sinne varð mart til tíðenda: Á fyrsta áre andaðist Hákon jarl, ok Davíð jarl, ok Þórir erkibiskup. Teitr biskupsefne. Útkváma Þorvalds Gizurarsonar ok Arnórs Tumasonar. Utanför Guðmundar biskups. Víg Geirarðs patriarka. — Á öðro áre andaðist Vilhjálmr Skotakonúngr, Pètr biskup á Sjólande, Andreas erkidjákn á Hjaltlande. Kosinn Guthormr til erkibiskups; Magnús til biskups.

[3]Á þriðea áre kom Guthormr erkibiskup í land. Snorre Sturluson tók lögsögn. Andaðist Ketill biskupsson. Magnús biskup út kominn. Vígðr Sørqvir biskup til Fêreyja[4]. Bardage á Mel. Andaðist Innocentius pape, ok Jón konúngr, ok Eirekr Svía konúngr, ok Marteinn biskup af Björgyn, ok Páll Sêmundarson. Þorfinnr ábóte. Víg Rafns Ámundasonar.

[5]Á fjórða áre andaðist Inge konúngr ok Philippus konúngr. Hákon kjörinn til konúngs, Skúle til jarls. Fêrð frêndseme ok úmegð. Fjárupptektir á Eyrom. Vígðr Hávarðr til biskups. Andaðist Nicholas kúfúngr. Fall Rögnvalds jarls. — Á fimta áre: Konúngsskírsla. Útkváma Guðmundar biskups, ok tekinn af stað. Andaðist Otta keisare. Víg þeirra Orms Jónssonar í Vestmannaeyjum. Utanför Snorra Sturlosonar.

---

1) *Sighvatr rèzt til Eyjafjarðar*, *A* (155). 2) *Tíðende*, *A* (156). 3) *Tíðende*, *A* (157). 4) Fêreyjar, *A*. 5) *Tíðende*, *A* (158).

Guðmundr biskup tekinn nauðigr.

68. [1]Þat sumar er Snorre fór utan kom út Guðmundr biskup, sem nú var sagt, ok fór hann heim til stóls síns; sette Guðmundr biskup þá skóla at Hólum, ok var Þórðr ufse meistare yfir settr. Dreif þá lið mikit til biskups, ok horfðe til kostnaðar. Arnórr Tumason dró þá lið saman, ok kom á úvart til Hóla um nótt. Þeir tóko Guðmund í hvílo sinne, ok drógo hann ofan eptir húsunum. Hann lêtr hendr eða fêtr i dyrestafe eðr þile, en þeir drógo hann því harðara, svá at við stórmeizlum var búit. Þeir kómo honum um morgininn vestr or húsunum; lögðo þeir hann þá í vágir, ok óku með hann í Ás til bús Arnórs. Þeir ráko af staðenum allt lið þat er biskupe var hendilangt, svá meistara ok alla sveina, ok heitoðust at brenna skólann ok lið þat er inne var. Þá fór Þórðr meistare á Völlo, ok með honum Eyjólfr, son Valla-Brands; kende hann þar mörgum sveinum um vetrinn. En Guðmundr biskup var í Áse um vetrinn, ok haldinn sem úspektarmaðr í myrkre stofo; einn þjónn var þar heá honum, en aldri var hann freáls at ganga nema nauðsynea sinna á brøt. Þá hafðe Guðmundr biskup verit xvj vetr.

[2]Um sumarit eptir báro þeir Guðmund biskup í börum suðr til Hvítár. Í því þolþe hann svá illt ok hart, at hèlt við beinbrøt at flestra manna sögn; hestarnir vóro eltir undir honum, svá at bararnar hrutu ofan[3], en Guðmundr biskup dragnaðe um móa ok um grjót, ok hafðe af öngum þeirra hjálp. Arnórr hafðe tekit sèr fare um sumarit í Hvítá, ok ètlaðe, at þeir Guðmundr biskup skyldo báðir samt utan fara, hvárt sem Guðmunde biskupe líkaðe þat vel eðr illa. Sat Arnórr þar um sumarit, ok var Guðmundr biskup í varþveizlo ok geymslo.

[4]Þá bjó Eyjólfr Kársson í Flatey á Breiðafirðe, [hann var hinn meste vin Guðmundar biskups[5]; ok sem hann spurðe þetta, þá fannst honum mikit um, er Guðmundr biskup var at nokkoro neyðbeygðr, ok sende hann suðr svein, er Skúma hèt hinn litle, hann var raustr, ok eige svá úngr sem hann var lítill; hann var á Hvítárvöllum um sumarit, ok ljóp þannig sem hann

1) Hèr tekr *B* aptr til eptir samtal þeirra Guðmundar og erkibiskups.

2) kapitula skipti í *A* (160).

3) sundr, *B*.

4) *Frá Skúmo enum litla*, *A* (161).

5) [ hánn átti Herdísi Hrafnsdóttur Sveinbjarnarsonar, *B*.

vár sendr; hann var lengstum í búð Norðlendínga, þar sem Guðmundr biskup var í; en búðir vóro þá fire vestan Hvítá, undir þjóðólfsholte, þar sem nú ero húsakotin, ok vóro dyrr á miðre búðinne, ok horfðo dyrnar at holtino, ok var Guðmundr biskup í þann arminn búðarinnar, er visse frá ánne, [ok stóð við gaflinn húðfatið[1] ok horfðe höfðafjölin ofan til Ferjobakka.

Eyjólfr tók Guðmund biskup á brot.

69. Svá er sagt, at um sumarit eptir Mariomesso fór Eyjólfr Kársson or Flateyjo suðr til Eyrar, til Guðrúnar mágkono[2] sinnar, ok fèr sèr þar hesta. Þeir vóro vj eða vij, ok riðu suðr um heiðe, ok riðu suðr á Mýrar, þar til er þeir kómo í Eskeholt, þar bjó sá maðr er Guðmundr hèt, hann varðveitte Eyjólf í sauðahúse, ok segir biskupe at Eyjólfr var kominn. Þat var eina nótt, at laust á foraðsveðre, bêðe hregge ok krapadrífu. Þá riþu þeir Eyjólfr á Hvítárvöllo, ok sendo fire einn sinn föronaut til móts við Skúmo, ok sagðe hann þeim hvat títt var. Sex menn vökto yfir búðinne, ok hrukko þeir allir inn í búðina [í skúrinne[3]. Eyjólfr kom svá, at þeir váro allir sofnaðir, er tjaldat var yfir, ok rutu mjök; var þá veðr allósvást. Eyjólfr sprette þá tjaldskörum at höfðe Guðmunde biskupe, ok tók af húðir þêr, er tjaldat var með, bêðe fire utan ok innan [tjaldit[4]. Eyjólfr tók biskup í fang sèr, ok bar hann í brot frá búðinne, ok fêrðe hann þar í klêðe, þau er þeir höfðo haft í móte honum, kápo ok kyrtil hvítan, ok riðo á brot með hann ok út á Mýrar, ok sögðo þeir svá, at þeir fengo ekke blautt um Valbjarnarvöllo, en hrêlog brunno af vápnum þeirra ok spjótum, svá at lýste af; en Skúma enn litle lagðist í húðfat Guðmundar biskups, ok sögðo menn, er vörð hèldo, at Kanpe svéfe lenge um morgininn. Sumir sögðo, at hann munde vera sjúkr, er hann gáðe eige tíða sinna; ganga menn þá til at leita orða við hann; sagðe Skúma, at Guðmundr biskup var í brottu, ok Eyjólfr Kársson hafðe sóttan hann, ok kallaðe eige mundo skemra komna, en vestr or Langavazdal. [Var þá til sagt Arnóre, ok líkaðe honum allþúngt, ok varþ eige eptir honum riðit,

1) [ b. v. *B*, *St.*; v. í *A*. 2) *A* á spáz., en „frændkono" í textanum.
3) [ b. v. *B*. 4) við regni, b. v. *B*.

því at þeir visso eige hvárt biskup hefðe riþit á Mýrar út eða snúit vestr í Dala[1].

[2]Arnórr brá utanferð sinne, ok fór til Skagafjarðar ok var þar um vetrinn. En þeir Guðmundr biskup fóro í hríðinne vestr á Eyre til Guðrúnar Sveinbjarnardóttur, ok gengo þar á skip, ok fóro svá vestr til Flateyjar. Þeir vóro þar litla hríð, áðr þeir fóro inn í Kerlíngarfjörð, ok lágo þar í skógum, þar til er þeir spurðo at enge varð eptirleit þeirra Arnórs.

[3]Svá er sagt, at Maríomesso eno siþarre sendir Guðmundr biskup orð undir Múla á Skálmarnes, þar bjó þá Olleifr prestr, at hann vilde tíþir veita Maríumesso hina síþarre, ok gista þar við vj. mann; en prestr talþist undan, ok þóttist eige mega við honum taka. Þá beiddist hann at vera við iij. mann, áðr þeir skilðu, en prestr talðist undan eige at síðr. Þá segir Guðmundr biskup, at hann munde henda meira misfelle á þeim misserom, en þótt hann êle biskup við þriðja mann. En þat spámêle gekk svá eptir, at annat sumar fire Mariomesso hina síþarre brann upp bêrinn allr at köldum kolum. Guðmundr biskup var í Kerlíngarfirðe um hríð, ok bêttust þar mjök reimleikar, þeir er menn þóttust eige mega þar úte búa áðr, en síþan varð engum manne mein at því. Guðmundr biskup fór út til Flateyjar, ok var þar um vetrinn með mikit fjölmenne; hafðe Eyjólfr allmikinn kostnat ok fèkk skörolega til.

[4][Þetta varþ til tiðenda á þesso áre: Guðmundr biskup borinn til skips ok komst frá þeim. Farbann. Andaðist Gunnlaugr múnkr, ok Grímr Jónsson. Þá hafðe Guðmundr biskup verit xvij vetr[5].

Guðmundr biskup fór í sýslu sína.

70. En um várit eptir [fór] Guðmundr biskup norðr í sveitir, ok með honum Eyjólfr Kársson ok Einarr Rafnsson, þar var ok Ketill Íngjaldsson, Jón Ófeigsson, bróðir Eyjólfs Kárssonar; þeir kómu til Hóla ok dvölðust þar um hríð. Síþan fóro þeir norðr til Svarfaðardals, ok êtlaðe Guðmundr biskup at fara norðr í sýslu sína, en Eyfirðíngar vildo eige taka við fólke hans á bú sín;

---

1) [ v. í *B*. 2) *Ferð Guðm. biskups ok Eyjólfs Kárssonar, A* (163).
3) *Guðmundr biskup vilde gista undir Múla, A* (164).
4) *Tíþende, A* (165). 5) [ v. í *B*.

fór Guðmundr biskup þá yfir til Höfða. Fór hann síþan norðr til Reykjadals ok heldr tómliga, ok dvalþist biskup þar lenge um sumarit; dreif þá til hans mart fólk. Bergþórr Jónsson var með honum, ok hafðe hann nêr tíutigum manna, ok þótte bóndum þúngt undir at búa; þolðo þó um hríþ.

[1]Nú ferr Guðmundr biskup í Múla, ok tók Ívarr við honum liðlega; var þar sêmilega við tekit, þess at þat mátte seá, at eige var af ástsemd veitt af Ívare; skilea þeir þó vel, ok fór Guðmundr biskup á brot, ok sezt á Einarsstaðe um hríð; flytr Ögmundr prestr á brot málnyto sína, ok ofan í Múla, en Höskuldr Gunnarsson, er bjó á hálfo landino, var eptir, því at hann bauð biskupe allt þat er hann hafðe til. Litlo síþarr giste biskup á Grenjaðarstöðum; var þat orð á, at hann munde þaðan í Múla í annat sinn, en Ívarr vilde víst eige við honum taka, ok hafðe hann XL manna, ok svá búnir sem til bardaga, ok skipaðe hann mönnum í stöþur. En at viðrbúnaðe þessum, þá ríðr biskup þar í tún. Spyrea þeir Eyjólfr, hvat samnaðr sá skal. Ívarr segir, at þeir skyldu at keyptu komast, áðr þeir fengu eigu hans, ok segir, at þá skal fara allt saman, karl ok kýr. En er Guðmundr biskup heyrðe þetta, þá mêlte hann: „förum vêr, sveinar, ok eigum ekke við Ívar, því at nú er óhreinn ande með honum", ok ríða þeir þá yfir til Kinnar ok gista at Stað.

### Flokkadráttr.

71. Nú er þar til máls at taka, at bêndr gera orð Sighvate Sturlosyne ok Arnóre Tumasyne, at þeir rydde af þeim úfriðe þessom. Þeir bregða við skjótt, ok ríðr Arnórr ok samnar mönnum um Dale, en Sighvatr um Eyjafjörð. Annan dag viku, er Guðmundr var undir Fjalle, ríðr Ívarr í Valahrís, ok með honum Ögmundr prestr af Einarsstöðum, ok Odde son hans; finna þeir þar á veginum Þorvarð[2] or Saurbê, ok stíga þeir af hestum sínum ok talast við. Þá ríðr þar at þeim Höskuldr Gunnarsson; en Ívarr spurðe: „hví ríðr þú hèr, Höskuldr, í glett við oss, því at ósýnt er, hverso vêr þolum þèr" — „Ek lýt at ráða ferðum mínum", segir hann, „en þèr munut ráða yðr". Í því bile leypr at [Od]dr skeiðkollr, ok höggr til Hös-

1) *Guðmundr biskup í Múla, A* (167). 2) Þorvarðr, *A*.

kolls, ok stefnir á fótinn, en hann brá undan fêtinum ok á háls hestinum, ok kom höggit á síðu hestinum, ok í því reið Höskolldr undan. Síþan fèll hestrinn niðr dauðr, þá er hann kemr á völlinn undir *Fjalle*. Fór hann þá á fund Guðmundar biskups, en þeir Ívarr fóro heim í Múla[1].

Bardage á Helgastöðum.

72. Síðan ferr Guðmundr biskup á Einarsstaðe, ok êtlaðe þaðan á Helgastaðe at vígja þar kirkju [um daginn eptir[2] Jónsmesso um haustið, sem hann görðe, en Eyjólfr Kársson reið í Múla, ok bauð Ívare, at biskup vígðe þar kirkju eptir um daginn, en Ívarr vilde þat eige, ok kvazt víge mundo verja ef biskup vilde til koma. Nú kemr biskupe njósn, at flokkar dragast at öllum megin. Guðmundr lýkr þá kirkjuvígslo. Eptir þat búast þeir til varnar þar í kirkjugarðinum, ok báro at sèr grjót mart; síþan seá þeir at flokkarnir riðo ofan at Einarsstöðum; er þá sveit biskups í kirkjugarðe; en Þorljótr[3] bónde ok Sigurðr bróðir hans ok heimamenn vóro einir sèr. Þá mêlte Sigurðr: „sè þèr nú, sveinar, flokk þeirra höfðíngjanna hvar ríðr, enda skellr þar nú láss fire búren þeirra Reykdêlanna". Síþan sá þeir annan flokk ríða neðan eptir Vazhlíð. Flokkarnir kvómo nêr jafnsnemma; þá var nón dags; var þá slegit upp herópe ok skipat til atgöngu; gekk Arnórr Tumasson sunnan at með sína sveit, en Sighvatr gekk at hliðino, ok or túnino, en Ívarr sótte at norðan. Guðmundr biskup var í kirkjugarðinum, ok gengr nú hörð hríð með grjóte ok með skotum. Sturla Sighvatsson fèkk steinshögg; þá mêlte Sighvatr: „engu eiru biskupsmenn, nú berea þeir sveininn Sturlo sem aðra menn, eðr hvar ertu Guðmundr Gilsson? sèr þú eige at Eyjólfr Kársson er í kirkjugarðinum, eðr mantu eige bardagann á Mel?" — Við áeggjan þessa knúðust Sighvatsmenn fast til atgöngu. Fèll þá maðr af biskupsmönnum fire spjótum, er Gísle hèt. Litlo síþarr fèkk maðr lag af spjóte í augat af liðe Arnórs, sá het Hámundr, ok var Þorvarðsson, hann lifðe um nóttina, en andaðist um morginimn eptir. Þá gekk Guðmundr

1) Myla, *A*.

2) [ b. v. *B*; v. í *A*, 204, *St*. Í ártíðaskrá stendr Helgastaða bardagi 30. Aug., en *decoll. Joh. bapt.* ( = höfuðdagr) er = 29. Aug. 3) Þorlákr, *B*.

biskup or kirkjo ok til manna sinna, ero þeir þá allákafir ok berjast alldrengilega, ok enge einn hverr betr en Jón Ófeigsson[1], ok við þetta leggja þeir Sighvatr frá at sinne, ok lètust heldr vilea vinna með ráðum en mannháska; vildo þeir ok eige berjast svá, at biskupe vêre at því lífsháske. Setea þeir nú menn til, at enge af biskupsmönnum kêmist í brøt án vilea þeirra.

[2]Síþan ganga þeir suðr á völlinn firemenninir, ok spurðe Arnórr Sighvat: „þikke þèr eige hörð hríð gengit hafa mágr"? — „Hörð víst", segir Sighvatr. [Arnórr mêlte[3]: „í sumar var mèr kvellíngasamt, en er mèr kómo orþ Reykdêla, at þeir þyrfte liðs, hóf af mèr allar vámur, svá at ek kenne mêr hverge illt". — „Þat man þèr þikkja jartein", segir Sighvatr. Arnórr svarar: „þat kalla ek atburð", segir hann, „en eige jartein". Síþan seteast þeir um kirkjugarþinn, ok var leitað um sèttir, ok var þó sem ekke vêre, ok líðr af nóttin; var Guðmundr biskup ok hans menn í kirkju, en hinir sátu umhverfis. Einn biskupsmaðr komst yfir ána ok or kirkju, sá hèt Eyjólfr hríþarefne, óspakr maðr; var hann dreginn ok barðr, ok drógu þeir hann heim hálfdauðan ok drápu hann síðan. Drottinsmorgininn[4] snemma gerðo þeir vígflaka[5], ok grófu þar undir kirkjugarðinn; var þat mjök jafnskjótt, at hlið varð á kirkjugarðinum, ok biskupsmenn gáfust upp ok fóro í kirkju. Þeir settu vígflakann sunnan undir kirkjugarðinn. En Ísleifr Hallsson var þar kominn, ok hafðe eige barizt ok enge hans manna; hann bjó þá at Þverá í Laxárdal. Bauð Ísleifr biskupe heim með sèr; með honum fór hann í brott, en þeir er eptir vóro gengu þá til griða; gaf Arnórr grið Eyjólfe Kárssyne, en Tume

1) Sighvatr fèkk þá steinshögg mikit, ok fèll hann við, en Guðmundr klasi kallaði, er stóð hjá honum: „fèlltu nú Sighvatr sæll". — „Lágr varð ek, fýla væl", sagði hann, „en eigi fèll ek". Þá tók Klasi at kalla, ok bað menn flýja undan ógn þeirre er yfir var komin, „því at jörðin skelfr undir oss". Þá var þetta kveðit:

Klasi nam kalla þrysvar:
„komi menn ok renni,
jörð bifast öll und fyrðum,
undan biskups fundi". *b. v. B.*

2) *Frá Sighvati ok Arnóre, A* (170). 3) [ b. v. *B*, 204.

4) Dagatalið kemr heim við árið 1220.

5) hèr vantar 8 blöð i 399 ok er fyllt eptir 394.

Sighvatsson Jóne Ófeigssyne. [Tveir menn vóro þar drepnir norðr á hólunum frá hênum, hèt annarr þorgeirr en annarr þórðr Arason[1]. Reið Sighvatr þá í burt, en Arnórr nótt síðarr. En Guðmundr biskup fór [frá þverá[2] norðr yfir Reykjaheiðe [ok allt á Sauðanes[3], ok gjörði þar víglur á sæludögum. Eptir þat fór hann norðan til Öxarfjarðar, ok svá Reykjaheiði; ok er hann kom[4] í Reykjadal, er honum sagt, at Eyfirðíngar [mune] í mót honum rísa. Ferr hann þá til Bárðardals, ok svá um Krókdal, ok þaðan suðr um land, ok lètte eige furr en hann kom í Odda, ok tekr Sêmundr við Guðmunde biskupe vel, ok býðr honum þar at vera, meðan hann vill, ok þat þiggr Guðmundr biskup, ok er hann þar um vetrinn með nokkura menn, en suma vistaðe Sêmundr annarstaðar í nánd[5]. þann vetr var Guðmundr biskup með Sêmunde í Odda eptir bardagann á Helgastöðum, en um sumarit fór Guðmundr biskup vestr til Borgarfjarðar, ok fór þar yfir um haustið er mjök var á liðit, ok fylgði [þórðr Sturluson[6] honum norðr til Skagafjarðar ok heim til staðarins, ok sette biskup þar niðr, en þat var mjök at óvilja hèraðsmanna, því at þeir vildu hann gjöra útlaga af öllu sínu góze.

---

1) [ en er biskup var brutu, tóku þeir Arnórr ok Tumi vj menn or kirkju, ok hengdu sem þjófa. Menn Guðmundar biskups ij vóro festir upp, sínu megin garðs hliðs hvárr, því er veit til Glaumb[æ]iar, en iiij vóro færðir upp í þjófahóla. þorsteinn hèt maðr er kallaðr var hryggr, hann var skotinn með spjóti í lærit í kirkju, ok var vesalíngr einn með biskupi, ok lifði lengi síðan. Mart illvirki var þar gert á heilagri kirkju nývigðri, ok enn má þat sjá á henni í dag, hversu hörðu hon mætti í þeim bardaga saklaus ok ómaklig; ok svá hafa menn sagt síðan, at svá sýnist, sem sár hafi gróit á kirkjunni þar sem hon fèkk áverka af vopnum ok grjóti, *B*.

2) [ leiðr. eptir *B*, *St.*; þá, 394.

3) þann. *St.*; Reykjanes, *B*. 4) [ b. v. *B*; v. í 394.

5) þetta sumar fóro þeir utan Loptr biskupsson ok Haraldr Sæmundarson, Guðlaugr ok Íngibjörn bróðir hans, Arnórr Tumason. Loptr braut fót sinn um sumarit, ok þá er festr var, þótti honum illa af sèr horfa, ok lèt hann brjóta annat sinn, ok sagði sjálfr firir hversu binda skyldi; festi þá vel, ok varð hann lítt haltr. Arnórr Tumason skipaði menn firir ráð sitt í Skagafirði. þórarinn Jónsson Sigmundarsonar var settr niðr á Víðimýre, ok skyldi gæta hèraðs við mönnum Guðmundar biskups, ef þeir kæmi til. b. v. *B* (sbr. *St.* 4, 27).

6) [ b. v. *B*; v. í 394.

[Á þesso áre varð þetta til tíðenda: Bardage á Helgastöðum. Snorre kom út. Guðmundr biskup í Odda. Herr búinn til Íslands. Andaðist Ketill ábóte. Þá hafðe Guðmundr biskup verit xviij vetr.[1]

73. [2]Guðmundr biskup sat heima at Hólum síðan Þórðr Sturloson fór heim; dreif þá til hans mart manna; gekk þá upp sumarbúit. Þá varð mikit orð á af bêndum, at til auðnar munde horfa á staðnum, en bêndr þóttust hafa litla forstoð, því at Þórarinn var þá úngr ok ekke reyndr at hèraðsstjórn nè höfðíngsskap. En í Eyjafirðe var [þat] títt, at Tume Sighvatsson kêrðe þat fire föður sínum, at hann vilde láta fá sèr bú nokkut, ok manna forráð sumt eðr allt þat er Sigurðr hefir sèt fire; sagðist hann eigè verr til manns kominn en Sturla bróðir hans, er þá hafðe við búe tekit at Sauðafelle ok manna forræðe í Dölum. En Sighvatr vilde eige þverra sinn kost norðr þar. Reið Tume þá vestr til Skagafjarðar, ok átte fund við bêndr, ok kêrðe þat fire bêndum, at biskups menn munde gjöra þeim ónáðir þegar föng [têke at þverra[3] á staðnum, en kallar þá hafa úngan formann ok óreyndan. Bêndum fèllst þat vel í eyru, er Tume sagðe, ok verðr þat ráð þeirra, at þeir gjöra orð Guðmunde biskupe, ok segja, at þeir vildu eige fjárauðn hans á staðnum, ok kvóðust mundu burt ryðja fólke því með ófriðe, ef hann vilde eige í burt ryðja sjálfr. En er Guðmundr biskup heyrðe þetta, ok hann visse, at Norðlendíngar vóro honum jafnan óljúgheitir þá er þeir hèto honum illu, þá tók hann þat ráð, at fara í útlegð heldr en selja menn sína til dauða.

74[4]. Í þenna tíma horfðist til mikils ófriðar fire norðan land, millim þeirra Guðmundar biskups ok Sighvats Sturlosonar; þar til styrkte Sturla föður sinn ok þeir Tume brêðr, ok margir

---

1) [ v. í *B.*

2) kapp. 73—89 eru í *B* ekki nema lítið ágrip af *A*, og alveg sem *St.* 4, 29 og 31—32, að fráteknum fáeinum greinum, sem *B* hefir umfram *St.*, og sem hèr eru tilfærðar neðanmáls. Kapp. 90—94 vantar í *B.*

3) [ fættist, *B.*

4) Hèðan frá (kap. 74—90) er Aronssaga alveg sem *A*, er því við kapp. 74—90 höfð til samanburðar Aronssaga (A. M. 212 folio á pappír), hèr merkt *Ar*, og getið alls hins markverðasta er hún víkr frá *A*, en upphaf og síðari helmíngr Aronssögu er prentaðr í viðbæti hèr fyrir aptan.

aðrir höfðíngjar, ok leidde af þessarre tiltekju mikenn ófagnat mörgum mönnum fire norðan land¹, því at þeir veittu mikinn ágang Guðmunde biskupe með miklum ójafnaðe ok ófriðe.

[Á þesso áre varð þetta til tíðenda: Hallr Gízurarson vígðr til ábóta. Bardage á Breiðabólstað. Utanför Lopts ok Haralds, ok Arnórs Tumasonar, ok andlát hans. Guðmundr biskup í Vestfjörðum en stundum at Hólum. Þá hafðe Guðmundr biskup verit xix vetr².

Nú draga þeir Tume lið saman, ok fundu þat til saka, at þeim þótte biskup ofstríðr, er þeir þóttust eige fram koma öllum ójafnaðe, þeim er þeir vildu, á vinum biskups, því at hann hèlt þá drengiliga ok ríkuliga sína vine. En þá er Guðmundr biskup varð varr við þetta, ok þeirra fireëtlan, þá varð hann fire mikille áhyggju, ok tók þó sköruligt ráð ok vitrligt, at senda skjótliga orð vinum sínum, at þeir kême til hans³; nefnde hann þar til fyrstan Eyjólf Kársson; hann varð vel við orðsendíng Guðmundar biskups, ok fór hann skjótt á fund hans. Þessa för fór Aron Hjörleifsson it fyrsta sinn með Eyjólfe Kárssyne svá at getið verðe, ok kómu þeir til biskups ok aðrir vinir hans at áliðnu sumre, ok báru nú saman ráð sín, ok sýndist einn veg flestum, at biskupe munde verða aflaskortr við jafnmarga höfðíngja at etja. Biskup varð því ok samþykkr; ok meðan þeir sátu yfir þessum málum ok ráðagjörðum, þá vóro þessir ófriðarflokkar á leið komnir. Þá lèt Guðmundr biskup draga at sèr skip um Skagafjörð, ok sýndist honum undan at halda, því at þêr vóro frásagnir, at þeir êtluðu [at] taka biskup í sitt vald, ok þröngva honum með afarkostum, en setjast á staðinn at Hólum, sem þeir gjörðu. Heldr nú Guðmundr biskup skipum sínum út eptir Skagafirðe til Málmeyjar, ok bjoggust þar fire, ok vóro þeir saman LXX röskra manna. [Þat var at jólaföstu, er þeir kómu þar. Með Guðmunde biskupe var mart góðra manna: þar var Einarr skemmíngr, Pètr Bárðarson, Eyjólfr Kársson, Aron Hjörleifsson, Ketill Íngjaldsson ok margir aðrir⁴.

---

1) því at margir mistu fè ok náðir, en tóku útlegð í staðinn, en sumir mistu lífit sakir ofríkis Sighvats ok sona hans, b. v. *Ar.*

2) [ v. í *Ar.* 3) at ráða um þenna vanda, b. v. *Ar.*

4) [ v. í *Ar.*

En er flokkarnir kómu til Hólastaðar, ok mistu þar Guðmundar biskups, en skipin öll í burtu, [þá tóku þeir þat[1] til ráðs, at dreifa þeim inum sterkustum flokkum; settist þá Tume á staðinn at Hólum, ok lagðe undir sik heilagra manna eign, svá sem hann vêre erfínge orðinn, en keyrðe á burt alla þá menn, er biskup hafðe þar setta; semja nú híbýla háttu með því móte, at Tume lèt halda sterka vörðu á staðnum ok hestvörð. Tume hafðe mannmart ok suma varla til vápns fœra. Nú sitr hann með þeim hêtte um hríð[2].

75. Nú er at segja frá Guðmunde biskupe ok hans mönnum, at þeir bjuggust um í Málmeyju, ok draga at sèr föng; var þar Eyjólfr Kársson mikill ráðagjörðarmaðr með Guðmunde biskupe, ok annarr maðr Aron Hjörleifsson, er Eyjólfr hafðe mikla elsku á. Aron hafðe mest útgjörðir til atdrátta, ok valde menn með sèr eptir skaplynde sínu; varð ok jafnan eptir föngum á land at leita. En er Tume varð þessa varr, þá lèt hann setja menn fire, svá at hverge [var óhêtt[3]. Nú fêr Guðmunde biskupe mikillar áhyggju ok stórrar skapraunar[4]: rekinn frá stólinum, en þeir máttu hvergi föngunum ná, ok vóro þat berlig fjörráð. Höfðu þeir firemennirnir þat mjök í ráðagjörð, at þeir mundu leggja á lífshêttu mikla, at hefna biskups svívirðínga ok sinna. Nú tekr heldr at harðna vistin í eyjonne, ok óhêgist veðrátta, ok verðr nú atfangafátt; sitja nú við svábúit um hríð. Líðr nú fram vetrinn; ok er þeir sá, at eige mátte þannig hlýða, þá hugsa þeir Eyjólfr ok Aron, við samþykke Guðmundar biskups, at leggja á nokkora lífshêttu, at leita þangat eptir föngum, er þeir þóttust frjálsast eiga, en þat var at Hólum, ok þeir vóro skömmu áðr af keyrðir. Ètla nú ok eige öll stórvirke láta undan ganga, ef fêre gefr á. Líðr nú fram um jólin, ok frestaðist því svá mjök, at þeim þótti fastligt sakir varðhalda ok fjölmennis.

Maðr er nefndr Auðunn, ok var kallaðr hande, hann var lítill maðr ok nêr hálfreíngi; hann sendu þeir á land eptir jólin til nokkurra njósna; sögðu svá fire, at hann skylde dvelja sem lengstum á Hólastað millum jóla ok föstu. Tume var þá góðr

---

1) [ þat tóku þeir, 394. 2) at hvárigir gera til annarra, b. v. *Ar.* 3) [ mátti uppgang veita, *Ar.* 4) áhyggju skapraunar, 394. Hèr er eyða í *Ar*, fram í lok 77. kap.

viðtakna. Skylde hann ok skynja híbýlaháttu ok hvílur hinna betre manna; vita ok hvárt Tume hvílde í skemmu eðr skála; hann skylde ok minna sofa um nêtr en um daga; láta sem vís ván vêre heimsóknar af biskupsmönnum, ok munde þat heldr um nêtr en um daga. [En þann tíma, er dregr fram at kyndilmesso, þá leggjast at stormviðre. Þess er getið eitt kveld, þá er Tume er undir borð kominn, at hann heimte til sín varðhaldsmenn sína, ok gefr þeim frelse þá nótt, ok þetta þágu þeir. En þetta it sama kveld mêlte Guðmundr biskup til manna sinna, Eyjólfs ok Arons, at honum segðe svá hugr um, at á þesse nótt munde helzt tóm til falla at leysa nokkut þeirra vandrêðe, þótt þeim þêtte fire storms sakir eige vandrêðalaust; vildu [þeir] nú ok þegar af ávísan Guðmundar biskups fire fullt ganga láta, því at þat þótte jafnan vera mikil spásaga, er Guðmundr biskup sagðe þeim.

76. Nú er þar til máls at taka, er þeir heimta saman fylgðarmennina, ok vilja nú kanna, hvat þeim þykir helzt til fallit til þessarar ferðar, ok verðr þat hálfr fjórðe tögr manna, er eige taldist undan, ok enginn vilde í móte mêla. Nú eru þeir forstjórar ferðar þessarar Eyjólfr ok Aron; Einarr var nefndr inn þriðe, ok var kallaðr skemmíngr; hann var frênde Guðmundar biskups, ok hafðe fengit stórar skapraunir af Sturlúngum í mannamisse ok fèsköðum, en[1] Pètr Bárðarson, er einn var hinn vaskaste maðr, hann vilde eige fara at Tuma frênda sínum. Bregða þeir nú við skjótt, ok hrinda skipum á sjá, ok báru grjót á, því at þeim þótte [eige] siglanda fire storme lausum skipum[2]. Nú námu biskupsmenn eige fyr staðar, en

1) ok, 394.

2) [ Svá er sagt, at sá atburðr varð í Málmey Blasiusmessu um kveldit, er biskup gekk frá kirkju, þá nam hann stað, ok leit i himininn ok mælti: „mykla ógn býðr þú nú drottinn minn". Þetta heyrðu fylgðarmenn hans, Einarr skemmingr ok Eyjólfr Kársson, ok spurðu hvat væri í fyrirburðum. Biskup mælti: „eigi má ek þat segja þèr, en hitt mun ek segja yðr, ef ek mætta eða ætta hefna minna meingerða, eða guðs rèttar, þá munda ek nú til hætta, þar sem óvinir vorir ugga nú ekki at sèr". Af þessi ávísan biskups bregða þeir við skjótt, ok fara af eyjunne xxx manna, ok allir inir röskustu menn, nema Pètr Bá[r]ðarson; hann vildi eigi fara at Tuma frænda sínum. Veðr var it sterkasta, hríð, bæði at stormi ok frosti ok myrkri, en svá hafa biskupsmenn sakt síðan, at þar veri logn, er þeir fóru, ok it bezta farar leiði, ok kendu þeir þetta biskupi sínum með guði, *B*.

þeir kómu á land, ok gengu þeir til þess bêjar er á Óslande heitir, ok höfðu þar frèttir þêr, at Tume vêre heima, ok svêfe úte í skemmu við enn xv. mann, ok vóru flestir valdir til vápns. Nú herklêðast þeir Eyjólfr ok hans menn, ok fóru með ákafa miklum, ok koma á staðinn öllum mönnum á óvart, nokkuru fire dag, ok var þat einne nótt fire Öguttu messo.[1]. Eptir þat skipta þeir Eyjólfr ok Einarr liðe sínu til atgöngu. Þeir er öruggastir vóru til vápns vóro valdir til at ganga at skemmunne, en sumir at verja útgöngu á heimahúsunum, ok ráku þar fire slagbranda. Nú verðr af gnýr mikill, ok spretta þeir upp, er í skemmunne vóro, ok komast í klêðe sín, ok fengu allir nokkut vápn, ok í þesse svipan báru þeir at stokka at skemmuhurðinne, því at þeim hèldu sterkar járnlokur, ok hlutu þêr upp at ganga, ok var þar fire þykk fylkíng af harðfengum mönnum, ok skorte þar eige sköruliga vörn, ok gekk því lenge. Í þeirre svipan báru þeir stokka at skemmuhurðunum, ok komst Aron inn í skemmuna ok iiij menn með honum, ok verða áverkar, ok þá fèkk Tume sár mikit, ok var þat kennt Arone, en hann gjörðe þar at hvárke: bar þat af sèr nè á sik.

77. Nú sloknuðu ljós öll í skemmunne; nú leita þeir Aron út aptr til sinna manna, því at þeim þótte fast fire; vildu þeir nú leita á fleire vega at vinna skemmuna; lètu nú draga at eld mikinn, ok leggja hann í viðinn, er þeir höfðu at dregit, en þó var ávallt glettíngar atsókn, ok hefir sjaldan harðare hríð[2] jafnlenge gengit en þesse, at frásögn manna. Nú kveykir stormrinn skjótt eldinn, ok gýss upp loginn, ok vex reykrinn. Sjá þeir Tume nú, at þeir eru yfirkomnir. Beiðir Tume nú útgöngu ok griða, ok býðr hann nú tyllusêtt, ok var þeim leyfð útganga, ef þeir lète laus vápn sín, en þeim var engum griðum heitið; gjöra nú at þeim kúlur á hermanna hátt. Nú gengu út v menn eða vj fyr en Tume, ok vóro allir handteknir. En er Tume gekk út, þá tóko þeir hann ok velktu hann lenge úte, ok rêddu sumir um, at þeir vildu kvelja hann, en sumir mêltu hann undan, ok gjörðe honum kalt. Þá mêlte Tume, at honum þótte við því búit, at nokkorir menn êtlaðe at hann skylfe af hrêzlu. Lofuðu þá allir hreyste hans ok mêltu hann undan. Einarr skemmíngr kvað hann eige hafa svá skipt goðorðum

1) Agathæ messa = 5. febr.; ártíðarskrár setja og víg Tuma 4. febr.
2) gengit, b. v. 394.

fire [norðan land[1], at hann skylde lifa lengr, ok hann vá at honum, því at eige urðu aðrir til, ok eptir þetta gengu allir menn út. Þar vóro drepnir ij menn aðrir en Tume, Þorgeirr Steingrímsson ok Bergþórr Oddason. Tvá menn fóthjuggu þeir, ok hèt annarr Jón Þórðarson[2] en annarr Halldórr Klasason, en öðrum mönnum vóro grið gefin, þeim er eptir vóro. Þá var þesse vísa kveðin:

Gjörðu geirhríð harða
gunnar setrs á vetre
hríðar sól á Hólum
hjaldrþúngir búðlúngar:
þá er vígfimir vágu
valdeirs at Þorgeire,
Tume var feldr til foldar
frêndstórr með Bergþóre.

Nú var orðinn ljóss dagr, rèðu þeir nú mjök tökum við þá sem eptir vóro. Nú könnuðu þeir híbýlahátto, ok gjörðu sèr frjálsa staðareign, ok biskupe vistir ok klêðnat, ok hèlt þeim til þess êrin nauðsyn, ok bjuggust nú á burt með nokkurum skyndínge svá sem þeim þótte helzt tíme á vera; vóro nú glaðir ok kátir, en heimamenn á Hólum slöktu eldinn allan niðr.

Fylgðarmenn Tuma ok bændr söfnuðust saman, ok fara eptir biskupsmönnum, en þeir undan sem harðast, ok sá hvárir aðra, ok var í hendíngum með þeim áðr þeir kómust á skipin, ok einn varð seinne, ok var sá drepinn [ij nóttum síðarr, ok hèt sá Jón. Annarr dó af kulda, er Þórarinn hèt[3]. Höfðu biskupsmenn þá skipt um farmana, hlaðit góðum byrgðum, en kastað grjótinu, lægðe ok þá þegar veðrit, er þeir vóro á sjá komnir. Tóku nú róðrarleiðe, ok tókst þeim allt auðvelligar, en þeim þótte líkinde á vera; kómu hina næstu nóttina eptir til Málmeyjar; gengu þeir heim þegar frá skipe, Eyjólfr ok Aron, ok kómu til þess herbergis, er Guðmundr biskup svaf í; var hann þá á bæn sinne ok fagnaðe þeim fyrre, ok spurðe þá at tíðindum, en þeir segja slík sem gjörzt höfðu, ok þótte honum þetta mikil tíðinde, ok lèt Guðmundr biskup yfir þeirra för illa, er

---

1) [ sunnan heiði, *B*. 2) Þórarinsson, *B*.

3) [ Tveim nóttum síðarr dó ij menn, hèt annarr Jón en annarr Þórarinn, af kulda báðir, *B*.

þeir höfðu drepit Tuma en fært honum eige, en [kvað þó þess vænta, at eptir guðs forsjá hefðe farit þeirra viðskipte[1]. Þá var þesse vísa kveðin:

Sóttu heim við hættu
hjálmrunnar styrkunnir,
snjallr sege ek freyr at fèlle
fagrhjóls, Tuma at Hólum:
inn gekk Aron manna
einna fremstr í skemmu,
hann vann hildar manna
hjálmskóð roðin blóðe.

Nú er þar til máls at taka, sem þeir eru at Hólum, at þeir styrma yfir dauðum mönnum ok sjá fire þeim. Nú spurðust þesse tíðinde til þeirra Sighvats ok Sturlu, ok þótte þeim sèr nær höggvit, ok því næst spurðust þesse tíðende um allt land. Nú svall Sturlúngum mjök móðr, ok þess galt margr maðr síðan. Nú skipar Sighvatr staðinn í annat sinn, ok verðr ekke til tíðinda; sitja nú hvárirtveggju um kyrt mjök lenge, þat sem eptir var vetrar. En er á leið vetrinn, þurfte atföng, en menn vóro margir, en engi kómu við. Sýndist þá ráðsmönnum Guðmundar biskups, at láta eige yfirdrífast þar[2]; vóro þeir jafnan góðir áréðis ok einarðir á þat, er þeir vildu vera láta; sigldu á burt ok norðr til Grímseyjar, ok er eige annars getið, en sú ferð tækist greiðliga ok í vild þeirra. Búast þeir nú þar fire, ok nema þar stað á eyjonne.

78. Gnúpr hèt maðr, er þá bjó í Grímseyju, ok var hinn meste maðr at mannvirðíngu af bêndum; var þat þá vande mikill, at veiðiskap skorte eige í eyjonne, var þar þá nóg atvinna mörgu sinne, þótt annarstaðar á lande vêre skortr. Hitt hèlt ok annat til, er biskup vilde þangat fara, at honum sýndist, sem var, skylda sín til vera, at kanna siðu manna, ok fegra, slíkt sem hann mètte, um kristindóm, ok mest þurfte, ok biskupligu embètte heyrðe til. Sá atburðr varð at páskum, at Einarr skemmíngr varð sjúkr af blóðrás, ok blèddu nasar hans. Einarr var frênde Guðmundar biskups ok vinr, ok mikilsháttar maðr, ok því þótte þat mikill mannskaðe, ef hann lètist. Gekk

1) [ þeir kváðu þar gert allt um, *B*.
2) Hèr byrjar aptr *Ar*.

þá Guðmundr biskup sjálfr til at stöðva blóð hans, ok þat vannst at sinne; ok enn optarr kom blóðrás at honum, ok svá áköf, at menn segja, at bêðe hafe út sprúngit [um] munn ok eyru; segir Guðmundr biskup þá, at þat mein munde honum at bana verða; kvezt þat hyggja, at því munde svá ákaft fara blóðrásin; en þó fèkk hann stöðvat at sinne, at því at menn hafa sagt. Ok er eige komst um nasar honum eðr aðra limu, þá sprakk út á millum herðanna. Eptir þat mínkaðe mátt hans, ok síðan andaðist Einarr.

79. Sighvatr Sturluson hafðe nokkra stund öfundsamt setr, fyrst er hann kom í Eyjafjörð, en flestum bóndum líkaðe því betr til hans, er hann hafðe þar lengr verit. Í þenna tíma bjó at Hrafnagile [Íngibjörg], dóttir Guðmundar ens dýra, með sonum þeirra Halls Kleppjárnssonar, en sá maðr var at ráðum með þeim, er Hafr hèt, hann var bróðir Einars skemmíngs, er vegit hafðe Tuma Sighvatsson; þar var fátt meðal húsa ok Grundar, þótte Hrafngilíngum Sighvatr sitja yfir sæmdum sínum, þeim er Hallr hafðe haft, faðir þeirra. En þeir menn, er eige vóro vinir Sighvats, mêltu þat, at hann hefðe eige heilsmiðliga farit í skiptum þeirra Kálfs Guthormssonar ok Halls Kleppjárnssonar. Þat var einn tíma, er Sighvatr gekk um tún sitt upp frá húsum á Grund, hann var í kyrtle ok hafðe kápu yfir sèr: hann sá at iij menn riðu utan at garðinum alvápnaðir; hann kennde at þar var Hafr ráðamaðr. Þeir riðu at túngarðinum, ok vóro öngar kveðjur. Hafr segir: „hví er goðinn svá fámennr"? — „Ek vissa eige", kvað Sighvatr, „at ek þurfta manna við". Þeir Hafr horfðust á um hríð, áðr þeir sneru í burt, en Sighvatr gekk heim.

Gunnarr kumbe hèt maðr, hann var gildr maðr, hann var jafnan í Grímseyju; hann tók sèr vist at Hrafnagile; segja sumir menn, at Hafr brygðe við hann, en sumir segja, at hann hèlde kaupe hans. Gunnarr sótte Sighvat at þessu mále, en hann vísar af sèr, ok bað hann finna Halldóru frêndkonu sína, ok visso menn ekke til tals þeirra, en Gunnarr var hèr ok hvar um vetrinn í hèraðe þar.

Þat varð til tíðenda at Hrafnagile hinn síðasta dag í góe, þá vóro þrjár vikur til páska[1], at þar var kominn Jón Birnu-

1) þetta kemr heim við ár 1222.

son, hann var lausamaðr ok var vistum at Stokkahlöðum, ok þar var vistum Höskuldr Gunnarsson. Þetta var hinn nésta vetr eptir er hann hafðe vegit Ögmund prest ok Gunnstein son hans. Þeim Jóne var skipat í eina hvílu báðum, innar af setum[1], en þar gegnt í annarre stafnrekkju lá Hafr ráðamaðr; hann átte varðhund góðan, ok lá hann fire rekkju hans jafnan; en einne nótt áðr hvarf hundrinn, ok fannst alldri siþan. Hafr gekk til kirkju hverja nótt til bênahalds; en er hann kom inn, ok hafðe skamma stund inne verit, heyrðu þeir Höskuldr snörgl til hans. Þeir fóro til hans, ok fundu, at hann var sárr fire brjóstinu, hafðe hann verit lagðr með öxe, ok var öxin þar, ok hafðe Hafr hana átt; hon hafðe hangit þar hjá hvílunne. Þeir lètust heyra, at maðr ljóp utar eptir skálanum til útidyra, ok suðr með vegginum; var þá tendrat ljós, ok var Hafr öręndr, ok bjöggu þeir um lík hans.

Um morgininn var samkváma á Grund, vóro þá sögð tíðendin, þá kom Gunnarr kumbe þar ok bar á sik víg Hafrs, en Sighvatr hafðe nokkut í fleymínge, ok kallaðe ekke ráðligt at halda kaupe sumrúnga[2]. Gunnarr var í umsjá Halldóru á laun, þat er eptir var föstunnar, en Gunnarr týndist um várit, er þeir fóru til Grímseyjar. En um sumarit eptir kom Jón Birnoson suðr í Stafaholt til Snorra Sturlosonar, ok segir Sighvat hafa sendan sik, ok fastaðe hann þar kárföstu, ok lagðist sá orðrómr á, at Jón hefðe vegit Hafr, ok hèlzt sá orðrómr lenge siþan manna á meðal[3].

80. [Nú skal þar til taka, er áðr var frá horfit, at um várit eptir páskaviku sendir Sighvatr menn vestr í Dale til Sturlu, ok bað hann koma norðr með fjölmenne; kallar hann mál at leita eptir bróðurhefndum, en þóttist sárt haldit hafa með frênda láte ok vina. Margir samþykktu þat, at svá vére. En er orðsendíng sjá kom til Sturlu, stefnde hann at sèr mönnum, ok fór norðr til Skagafjarðar með mikla sveit manna. Þar var í för með honum Guðmundr skáld Oddsson, ok kvað hann vísu þessa:

Norðr [fara[4] gêtigautar
geirastígs at víge,

1) sætum, 394. 2) Snorrúnga, 204.
3) þenna kap. v. í *B* og *Ar*. 4) getg.; [ frá ek, 394.

Hamðis veðr á heiðar
hagl snýr, á vit Bagla[1]:
Skyldu eige flèrðar fyldir[2]
festendr lagar hesta,
harðr get ek víst at verðe
várr fundr, reka undan.

Sturla fór til Skagafjarðar, var þar fyre Þórarinn Jónsson ok hafðe liðsdrátt um Skagafjörð, en Sighvatr lèt safna mönnum um Eyjafjörð[3], ok verðr þar brátt mikit fjölmenne; leggja nú allan fjandskap á þá menn, er at vígum höfðu verit at Hólum, ok mart þótte þeim annat til draga; spyrja nú at Guðmundr biskup var kominn til Grímseyjar, ok ekke munde fundum á koma við hann nè menn hans, nema þangat være farit til eyjarinnar. Þeir Sighvatr ok Sturla tóku skip hvar sem þeir fengu, smá ok stór, kom þar saman meira fjölmenne, en optast[4] hafe fyrr verit á Íslande, utan þíngstefnur, því at hálfr fjórðe togr hefir sagðr verit skipa þeirra, er þeir höfðu til Grímseyjar.

Sturla var meirr fire málum þessum, því at hann var mjök roskinn ok var hinn bráðgjörfaste maðr, sem allir hafa eitt um talat þeir er hann hafa sèt. Vildu þeir feðgar at Sturla vére meir framme í öllum þeim hlutum, sem firemenne vére í, þótt Sighvatr hefðe ráð fire þeim feðgum jafnfram Sturlu. Fara þeir Sighvatr [nú ferðar sinnar[5] í góðu veðre þegar þeir vóro búnir.

Biskupsmenn höfðo á sèr sterka vörðu, eptir því sem þeim þótte helzt föng á, því at [þeir] þurftu ekke at efast, at opinn var ófriðrinn fire þeim. Þat var einn morgin í sólar upprás, at varðmenn biskupsmanna sá skipaferðina, gjöra nú biskup varan við, ok Eyjólf Kársson; segir nú hverr öðrum. Spretta nú allir upp allröskliga ok herklêðast eptir efnum, sem til vóro, en þau vóro harðla lítil; dyljast nú eige við, at þeir munu við ófriðe taka eiga, þegar er skipin koma at lande.

Guðmundr biskup stendr upp ok gengr til kirkju með klerkum sínum, en talar nokkrum fögrum orðum fire mönnum

---

1) þann. 122 og *St.*; gagla, 394. 2) fullir, 394.

3) [ Í annan stað er þar til máls at taka, at Sighvatr ok Sturla son hans, illa barðir, hafa sert(!) haldið með frènda láti ok vina. Margir samþyktu þat með honum, at svo væri. Láta eptir þat safna liði, *Ar* (bjagað).

4) kom þar, b. v. 394. 5) [ af Íslandi, *Ar*.

sínum, ok þó fám, því at eige var tómstund til at mêla svá mart gott, sem hann munde vilja, [at þeim áheyrendum; en ráða má þat til líkenda hverr góðfúss maðr, með hverjum alhuga hann munde sínar bênir fram fêra sèr til hjálpar ok sínum mönnum, því at honum var eige ókunnigt, at allir hinir beztu menninir hafa á bênirnar treyst í allar stórþurftir[1].

Nú snúa þeir Eyjólfr ok Aron til sjófar, ok þeirra menn, ok skipa liðe sínu fire þêr hafnir, sem skipin stefndu á; sá [þeir] sinn mikinn aflaskort, ok þótte þat flestum mönnum líkara, at eige mundo allir frá tíðindum segja eiga á þessu kvelde, af þeim er fire vóro. Var þá skipat Arone fire höfn þá sem bezt var á eyjunne; þótte þeim líklegast, at þar munde nokkurir firemenn til leita. Þeir skipuðust fire hafnir, [vóro þat LXX manna, er vápnfærir vóro með Guðmunde biskupe, en þá vóro XXX kvenna ok stafkarla. Ætla þeir Eyjólfr ok Aron at sýna vaskliga vörn, ok skylde Eyjólfr styrkja þessar þrennar sveitir til framgöngu[2]. Bar Eyjólfr sik hraustliga þenna dag, [svá sem hann átte vanda til[3]. Aron var við enn xviij. mann, þar sem hann var staddr; þótte Eyjólfe, sem þar munde vel fengit firemanns sem hann var. Nokkurir menn skriptuðust við Guðmund biskup áðr þeir genge ofan. Skipin áttu þá mjök langt til lands.

81. Nú er þar til máls at taka, at Arone þótte þat lið lítt búit at vápnum, er hjá honum stóð, kom þar til mikill fèskortr; ok nú mêlte Aron til Eyjólfs, hvárt nokkurr maðr bêre vápnin Tuma í flokke hans. Eyjólfr kvað öngan bera, ok segir heima vera, „þikke mèr sem êrinn mune ofse vera í skape þeirra feðga, þó eige vêre slíkar skapraunir gjörvar, við slíkan aflamun sem at eiga var", en Aron svarar svá: at honum þótte óskapligt, at menn hans skylde ganga berir ok vápnlausir í móte sverðshöggum, en þeir skyldu eige þora at bera slíkar gersemar, því at þat vóro hin beztu vápn, „ok hygg ek mik jafnlenge lifa munu, þótt ek bera vápnin, en[da] er nú enn êrit tóm til at sêkja þau"; selr nú af höndum sín vápn þeim mönnum, sem honum þóttu líkligastir til at vel mundu neyta. Snýr hann

1) [ v. í *Ar.*

2) [ ok vildu sýna vaskliga vörn, svá sem til framgöngu, *Ar.*

3) [ sem allar frásagnir votta, *Ar.*

nú heim, ok mêtir Guðmunde biskupe í kirkjugarðinum, ok klerka sveit hans með honum, ok kveðr Aron biskup, en hann svarar honum blíðlega, því at hann elskaðe Aron meir en alþýðu manna, sem síþan þikkir nokkur raun hafa á borit. Fór nú Aron skjótt, ok vápnar sik með öruggre brynju ok góðum hjálme ok sterkre hlíf; it fjórða vápn var mikit sax, sem stór sverð, ok var þat hit ágêtasta vápn. Aron snýr skjótt út; er nú biskup enn fire honum, ok lêtr vel yfir þessum tiltekjum, „ok vil ek nú, son minn, at þú gangir til skriptar við mik". — „Ekke er nú tóm til þess, herra", segir Aron, „því at eige mun þikkja of þykkskipat til varnarinnar, ok er jafnan munr undir manns liðe". — „Vel er slíkt mêlt", segir biskup, „en þó skyldir þú sem trúmestr vera, son minn, ok vertu sem bezt við fátêka menn". Nú blezar biskup hann ok mêlte: „svá segir mèr hugr um, at þú komir hart niðr af Sturlúngum, en þó vêntir mik, at vit sjáimst enn síþarr", ok þikkir þat orðin en mesta spásaga, því at þat þótte þá en mestu ólíkende fyrst í stað, ok svá jafnan síþan.

Nú ferr Aron leið sína, ok kemr til manna sinna, en Guðmundr biskup var eptir heima, ok bað Aron vel fara. Nú dregr skipin at lande; kemr Aron nú í þann stað, sem áðr hafðe hann verit[1]. Þar var eige breið höfn, en aðdjúpt mjök; þar var ok þarabrúk fire ofan; hamrar vóro at tveim megin, ok var eige frítt upp at ganga, en menn til varnar fire ofan, þótt fáir vêre. Verpa menn helzt á CCC manna, þeirra er með þeim feðgum vóro, en vij [tigir] vóro fire. Nú biðr Aron menn bregða vápnum sínum ok veita karlmannligt viðrnám, sem framast eru föng á; slíkt it sama segir Eyjólfr sínum mönnum; fær ok röskr maðr þenna dag, sem jafnan endranær, drengiliga athöfn, ok sýnir mikinn vaskleika áðr en þeim funde lúke. Nú fara vij skip at lande, þar er Aron var fire, ok stýrir Sturla því liðe, var hann ok auðkenndr, því at hann stóð upp, var hann mikit afbragð annarra manna, bêðe at vexte ok afle, svá at ekke mátto aðrir menn við hann jafnast um flesta hlute hèr á lande. En er þeir vóro mjök landfastir vorðnir, þá skynjar Sturla á landit, hvar firemenn vêre, ok vilde þar helzt at sêkja.

82. Nú tekr Sturla til orða: „þar stendr Aron djöfullinn,

---

1) til skipaðr, b. v. *Ar.*

sêkit nú at honum sköruliga, ok drepum hann skjótt". Aron svarar, ok hristi saxit Tumanaut brugðit í hende sèr: „hèr máttu sjá, ragr fjandinn, m[ækinn][1] Tuma naut bróður þíns; sêkit at at heldr sem yðr[2] líkar, en vèr skulum óskjálfande bíða". Svá segir Þormóðr prestr Ólafsson:

Styrks var á stýris birke
staddr, sá er Aron kvadde
hörðum heiptarorðum,
hildar ruðr enn milde:
en í mót fire mönnum
mjök lík afar[3] ríkum
garpr veitte svör snörpust
sannfrêgr höfuðsmanne.

Nú éstist Sturla, ok steðjar af skipinu upp á þarabrúkit[4]; honum varð hált á þarabrúkinu[5], en Aron snarar í móte honum, ok leggr saxinu Tumanaut af því öllu afle, sem hann hafðe til; lagit kom á Sturlu miðjan. En með því at sólinn var stökkr, en brúkit var hált, ok fast var til lagit, þá rasar Sturla ok fellr. Svá segir Þormóðr prestr:

Sturla rèð í striðe
strangr á land at ganga,
hauðr[6] með höldum fríðum
harðr þar er Aron varðe:
en eld[brote[7] unnar
iðea dóms á miðjom
freyr [svá at[8] fèll enn dýre,
frama bragð var þat, lagðe.

Ok enn segir Þormóðr prestr:

Sonr jók saxe benjar
seggja kind til beggja,
hlífsendir naut, handa,
Hjörleifs, vala kleifar.
Margr hnè maðr við dreyrgar,
málmr sundraðist, undir

1) þann. *Ar.*; í 394 er gat á blaðinu. 2) er, b. v. 394.
3) þann. *Ar.*; aptr, 394. 4-5) brúkina, — brúkinni (*femin.*), *Ar.*
6) þann. *Ar.*; hauðrs, 394. 7) [ hèr byrjar aptr 399.
8) [ fyrst ritað *sá er* í *A*, en síðan leiðrètt *at* úr *er*.

áðr fullhuginn fèlle
frêgr nêr svölum êge.

[1]Nú höggr Aron til Sturlo tveim höndum[2]. Maðr er nefndr Sigmundr snage, hann kastaðe skilde yfir Sturlo með miklum skyndínge, ok kom högg þat í skjöldinn; en Sturla stóð þá skjótt á fêtr, ok var þá eige at frýja atsóknar at Arone ok öllum þeim sem fire vóro[1]; varð vörnin vasklig, ok eige löng flestra, því at við mikinn aflamun var at eiga. Sumir menn lètu þar skyndilega líf sitt, en nokkurir menn lètu sígast sárir. Aron barðist þá nokkuro lengr en aðrir menn, þeir sem hjá honum höfðo staðit; gjörðist þá nokkut undarligr atburðr, því at svá er sagt, at Sturla seálfr þikkist at honum hafa unnit, ok sóttu hann ok fleire menn aðrir, þeir sem heá honum höfðo verit. En svá stóðo þjøkt spjót á Arone um hríð, at þá studdo hann aðrir spjótsoddar, er öðrum var at lagit, en[3] brynean var svá örugg, at ekke gekk á, ok því mátte hann eige falla svá skjótt, sem elligar munde hann. Aron fèkk þar iij[4] sár stór ok eige banvênlig; eitt lag kom í kinnina Arons, ok nam staðar öðrum megin í góminn, ok var sú kefling heldr óhêg; annat sár fèkk hann á lêre, en hit þriðea á rist, ok var þesse vörn allfrêg. Fór þá svá, at hann dasaðist af mêðe ok blóðrás, svá at hann fèll, ok var þat þó siðarr en líkligt var. Nú þótt Aron sýnde í vörn þesse meira mátt en líkende vêre á, þá kenna menn þat meirr guðs miskunn ok bênum Guðmundar biskups, en einkum framkêmd seálfs hans, ok hitt annat, at þeir hafa minne ábyrgð hafða fire guðe, er vörðu Guðmund biskup, en hinir, er at sótto. [Þá var þesse vísa kveðin[5]:

Sturla fèkk þá er stukko
stálhríð búendr fríðir,
harðr hjó heila byrðar
hjörfreyr í Grímseyjo.

ok enn þetta:

Aron gekk því at óðist ekke
êrit fram í böðgerð ramma,

---

1) *Bardagi í Grímsey, A* (197).

2) svá sterklega, at fullu hefði unnit, ef þeir hefði átt ij við at leikast, b. v. *Ar.* 3) er, b. v. *A.* 4) þann. *Ar.*; iiij, *A.*

5) [ þar um er þetta kveðit, *Ar.*

hölda klauf hann heldr en skjöldo,
heiptarfullr í móte Sturlu.

### Frá Sturlo.

83. Nú vill Sturla forvitnast til föður síns ok um fund þeirra Eyjólfs, hver skipte orðit hefðe. Þar var gengit mjök at líkendum þeirra skipte. Hafðe Eyjólfr varizt sem hann var vanr; vóro þar margir menn fallnir, sumir dauðir en sumir sárir, þá vóro enn nokkorir menn laupnir til kirkju, ok hugsoðo sèr þar af nokkora lífs hjálp eðr lima. Þótte þeim feðgum þat líkligast, at Eyjólfr munde í þesse ferð verit hafa; snúa nú heim á bèinn, ok var biskup í kirkju ok klerkar hans á bên sinne; en er biskup heyrðe hvininn[1], þá snýr hann fire kirkjudyrnar. [2]En er Sighvatr kemr at utan, þá vóro heldr valdar biskupe kveðjur harðligar, ok hans mönnum. Biskup svarar sköroliga ok þó með stillíngu, því at nú vóro mikil vandkvêðe at höndum komin. Frèttast þeir nú fire, hvárt Eyjólfr vêre í kirkjunne, ok at öðrum manne Einare skemmíng, bróþurbana Sturlu, er þeir höfðo mikla heipt á; [var þeim þá sagt, at Eyjólfr var ekke þar, ok þar með[3] var þeim sagt, at Einarr var andaðr, ok með þeim atburðum sem verit höfðo, en þeir höfðo þat eige frètt. Nú vill Sturla eige þesso eino fire hlíta, sem sagt er; lêtr hann nú ranzsaka kirkjuna, ok er þat var gert, þá nefnir Sturla til nokkura menn, at draga skal or kirkjonne til sárra píninga, en vêr [nefnum ij eina[4], Knút ok Snorra, ok vóro báðir prestar, ok lèt hann síþan gelda þá báða. Völdo nú biskupe mörg afaryrðe með öðrum stórum jarteinum; sögðo skaplikt, at túnga vêre or honum skorin, ok mêtte hann eige þaðan frá veita þeim jafnsterk stórmêle, sem þeim þótte verit [hafa]; en þó fórst þat óverkan fire, er betr var. [Þeir vilea eige trúa því, sem sagt var um lát Einars[5]. Var hann þá upp grafinn ok lagðr á grafarbakkann, ok sprett líkblêjonne fire andlitino, ok borin kennsl á, ok sýndist þeim þesse sögn ófölsut. Þá lýstr Sigmundr snage náinn eyxar-

1) dyninn, *Ar.* 2) *Frá svörum Guðmundar biskups, A* (198).
3) [ þ. v. *Ar.* 4) [ þ. v. *Ar.*
5) [ Nú verðr á nokkur hvíld þeirra illvirkjum, þó vilja þeir mjök(!) ekki því einu fire hlíta um andlát Einars, sem sögn gekk af,. *Ar.*

hamarshögg, ok spyrnir honum í gröfina ofan, ok skilðe svá við hann, ok þótte þetta vera et mesta marglête.

Frá Eyjólfe.

84. Nú víkr sögunne til Eyjólfs ok þeirra mága. [Nú sem mjök var fallit lið Eyjólfs Kárssonar, en sumir til kirkju hlaupnir, snýr hann þangat til, sem þeir Aron ok Sturla höfðu barizt, ok[1] kemr Eyjólfr þar at, sem Aron sat með vápnum sínum, ok umhverfis hann lágu dauðir menn ok sárir. [Verpa menn svá á, at látizt hafe IX menn[2]. Fréttir Eyjólfr Aron mág sinn, hvárt hann munde nokkut mega brot fara or þeim stað. Aron segir svá vera mundu, ok stendr upp, ok ganga nú báðir saman um hríð með ströndinne, ok verðr fire þeim einn leynevágr, þar flaut skip eitt fire lande, ok sátu [v eða vj[3] menn við árar, ok horfðe framstafn frá lande. Þessa firesögn hafðe Eyjólfr haft, ef skjótt þyrfte til at taka. Nú segir Eyjólfr Arone, at hann êtlar þeim á þetta skip; kallast nú fire sjá, at þeir máttu eige meira styrk biskupe veita í þetta sinn; „vênte ek enn, at koma myne betre dagar," segir Eyjólfr. „Undarlikt lízt mèr þetta at êtla," segir Aron, „því at ek hugsaða, at vèr mundim nú ekke skileast í þesse mannraun við Guðmund biskup, ok er mèr enn grunr á, at enn búe annat undir, ok vil ek víst eige fara, nema þú gangir út fyrre á skipit." — „Þat hentir eige, mágr," segir Eyjólfr, „því at hèr ero mikil útgrunn, en ek vil, at þeir gange öngir utan, er við árar sitea, en þat er við meira magne, er þú gengr við slíkar meiðíngar, ok lýtr þú at fara fyrre út á skipit." — „Nú skaltu þá leggja vápn þín út á skipit,"[4] segir Aron, „ok man ek þá trúa þèr." [5]Nú stígr Aron út á skipit, en Eyjólfr gerðe nú, sem Aron beidde; veðr nú Eyjólfr út eptir skipino, því at útgrunn vóro mikil, ok þá er honum þótte helzt fêre á vera, þrífr Eyjólfr eina eyxe mikla or stafninum, en hrindr skipinu út sterkliga af öllo afle. „Farit nú vel, Aron!" segir Eyjólfr, „ok finnumst þá er guð vill." En meðr því, at Aron hafðe mikil meizl á sèr, ok mêddr af blóðrás, þá laut svá búit at

1) [ b. v. *Ar.* 2) [ v. i *Ar.* 3) [ b. v. *Ar.*

4) Hèr er aptr eyða i *Ar.* til „sem leiðir liggja" i upphafi kap. 88.

5) *Frá Arone Hjörleifssyne, A* (200).

vera, ok þótte Arone þúngr þesse skilnaðr, því at þeir sást alldri siþan. Nú mêlte Eyjólfr við þá, er á skipino vóro, at þeir skyldo herða róðrinn, ok láta eige Aron þann dag koma á eyna, ok ekke í bráð, ef þeir mêtte seálfir ráða. Fara þeir Aron nú leið sína, en Eyjólfr snýr á land upp ok til eins nausts, þess er mikil ferja var í, er Gnúpr bónde átte, ok í þesse svipan sèr hann, at flokkrinn drífr ofan af bênum, eptir þau illvirke, sem gerzt höfðo. Nú snýr Eyjólfr til naustsins[1], þar var í mikil ferja, er Gnúpr átte, ok nemr þar staðar, ok êtlar þaþan at verjast, svá sem auþit má verða; hurðir vóro ij fire naustino, ok lètr hann gêta þúnga steina hurðanna.

Frá vörn Eyjólfs.

85. Maðr er nefndr Brandr, hann var fylgðarmaðr Sighvats, ok var hinn gildaste maðr; hann hefir af svip af göngu mannsins, ok mêlte við föronauta sína, at hann þóttist þar kenna Eyjólf Kársson, ok bað þá snúa eptir honum; en Sturla var þar eige við staddr; verða nú saman IX eða X. Snúa nú at naustino, þar sem Eyjólfr var fire. Spyrr Brandr, hverr maðr vêre í naustinu, en Eyjólfr segir til sín. „Þá muntu vilea út ganga," segir Brandr, „ok fara á fund Sturlo." — „Vili þèr þá griðum heita," segir Eyjólfr. — „Skammt man um þat verða," segir Brandr. „Þá hljóte þèr at at sêkja," segir Eyjólfr, „en ek at verjast, ok sýnist mèr eige jafnliga á komit." Eyjólfr var í brynjo, ok hafðe [eyxe] eina mikla, ok ekke fleira vápna. Nú sóttu þeir at honum, en hann varðist vel ok drengiliga, hjó spjót þeirra af sköptum, ok veitto hvárir öðrum mörg stór slög; ok í þeirre hríð þá stökkr eyxarskaptið Eyjólfs, ok þrífr hann þá ferjo ár, ok verst með henne, því nêst aðra, ok bresta báðar af[2] sterkligre vörn; ok [í] þesse hríð fêr Eyjólfr lag undir höndina, ok gekk á hol. Segja sumir menn, at hann bryte spjótið af skapte, ok stêðe þat eptir í sárino. Sèr hann nú, at lokit man vörninne. Þá snarar hann út heá þeim, ok þat tókst, en þetta kom þeim mjök á úvart, ok varþ þeim þó eige bilt er úte vóro. Már hèt maðr, er hjó eptir honum, ok kom á fótinn við ökla[3], ok lodde við at eins. Nú hnekkir hann við þat fram á bakkann, en flêðr var sjófar. Kastar Eyj-

1) rimanausts, *B*, *St*. 2) ok, *A*. 3) öklað, *B*, 122.

ólfr sèr nú á sund við þetta efne, ok leggst xij faðma undan lande, ok í eitt sker, ok lagðist þar á knè, en síþan fèll hann allr til jarðar, ok breidde hendr frá sèr, ok horfðe sjálfr í austr, svá sem til bênar. Nú skjóta þeir báte, ok vilea nú forvitnast til hans, ok er þeir koma í skerit, stíngr maðr spjóte til hans, ok því nêst annarr, ok blêdde þetta sár hvárke.

[1]Nú skileast þeir við hann, fara til lands ok finna Sturlo, ok segja honum einarðlega frá þeirra skiptum; verðr Sturla samþykkr ok svá aðrir menn, at þesse vörn hafe allfrêg verit; lèt Sturla vel yfir þessum tíþendum. Brandr kvað þá vísu þessa:

Varizt hefir Eyjólfr árum
örfengr x lenge,
frêg er orðin sú fyrðum,
fleyvangs í Grímseyjo:
áðr út í sker skreytir
skorðu blakks[2] enn rakke
brjótr með benjar heitar[3]
brynflagða þar lagðist.

þessa víso orte þormóðr prestr:

Frá ek ofrhugann efra
Eyjólf við þrek deyja,
seggr fèkk sêmd af höggum
san[n]frêgr x manna:
meiðr svam mens frá láðe
mêtr við stýfðum fête,
mikit var málma sèkis
megn, ok lagðr í gegnum.

Nú kemr Sturla í þann stað sem þeir Áron skilðo, ok var Áron í brottu, ok þótte þat eige at líkendum. Litast menn nú um, ok seá eitt skip róa frá eyjonne, ok komit mjök langt frá eyjonne; þá segir Sighvatr, at á því skipe mune Áron vera, ok biðr róa eptir honum ok drepa hann. Sturla segir: „vèr þóttumst svá við hann skileast, at ek hugða þat lítinn drengskap vera, at sèkja hann með mannfjölða í þetta sinn; en ef honum verðr lengra lífs auðit en mik varir, þá kann vera, at

---

1) *Víg Eyjólfs Kárssonar*, *A* (202).
2) þann. *B*, *St.*; skorðo blakkr, *A*.
3) þann. *B*; hettar, *A*.

þá verðe enn skamt meðal funda". Þá segir Sighvatr: „þat segir mèr hugr, at þessa iðrist þú eitthvert [sinn], ef eige verðr optarr". Skilr þar með þeim at sinne.

[1]Þessir menn fèllo með Eyjólfe Kárssyne í Grímseyjo: Are[2] ok Ketill prestr, Sveinn ok Marteinn [Jónsson, ok Skegge Snorrason[3], Einarr ok Gunnarr, ok enn ij eðr iij af Guðmunde biskupe. Þat segja menn, at þeir feðgar lète leggja hendr á Guðmund biskup, [ok fór hann á því skipe af eyjonne, er Sighvatr var á. Þat er sagt, at Guðmundr biskup hafe þat [mêlt] áðr þeir fóro or eyjonne, ok skipin vóro sum frá lande komin: „hefn þú nú, drottinn, eige má vesalíngr minn". Hann sá [í] himininn upp meðan hann mêlte þetta. Ero af því þesse orð uppe höfð, at þat þótte sýnast í þeim atburðum er þá urðo brátt, at guð vilde heyra bên hans, ok þesse illvirke öll skyldo eige ølengr óhefnd vera. En brátt þegar þeir kómo allir á ferð, gerðe á harðviðre mikit ok norðan storm ok kulða, svá at þeir vóro allir í miklum háska; tóko flestir menn land við illan leik, en hálfr fjórðe tøgr lèzt í þesse ferð, ok eige fêre; fundust sumir dauðir en sumir alldri. Sýnist mêr svá, sem guð hafe heyrt bên Guðmundar biskups bêðe þá ok endra nêr[4].

1) *Hverir fèllo í Grímsey*, *A* (203). 2) Árni, 204, *B*, *St*.

3) [ Jon son Skeggja Snorrasonar, *B*.

4) [ ok lèku hann svá harðliga, at því er frásagnir hafa gengit fyrir norðan land, af þeim mönnum, er gjörla vissu þeirra skipte, at þeir brutu iij rif í síðu hans enni hægri. Guðmundr biskup bað guð hefna sín: „því at ek má eige", sagðe hann. Sighvatr vilde, at biskup færi á því skipi af eyjunni, sem hann færi á. Biskup kvað þat ei skyldu, „ok er þèr illa gefit til mín um þetta, sem mart annat; þú meiðir menn mína ok skemmir ok svá mik í öllu, en drepr suma til dauðs, en þú lætr þó í öðru lagi sem þèr muni hjálp at mèr verða eða sæmdir; nú mun guð hefna þèr ok sonum þínum meingerðir þínar við mik, ok mun eigi langt til vera". Sighvatr mælti: „hvárgir eru aðrir einir, biskup, í skiptum vorum". Biskup mælti; „hinir sömu munu þó verr hafa, ok ertu þat ok synir þínir". „Því skal ek ráða", sagði Sighvatr, „at skrúði þinn skal ver[a] á skipi mínu, ef þú ert eigi þar". „Þat lofa ek", sagði biskup, „því at þèr samir þat verr, því at eigi ertu svá heimskr, sem þú ert illgjarn" Veðrit var et hríðligsta, ok gafst at því, því at eigi hefir meiri hríð verit firir norðan land ein hver en sú, en stór leið at fara inn til Eyjafjarðar. Þeir Stulla ok Sighvatr vóru á einu skipi, er þeir fóru or Grimseyju. En um daginn, er hríðin var sem mest, þá mælti Guðmundr biskup, ok leit í himininn:

Guðmundr biskup fór utan.

86. Sturla fór heim til Sauðafells eptir fundinn. Þá kvað Guðmundr skáld vísu þessa:

Stórlátr hefir Sturla,
stendr hrafn á ná jafnan,
Kristr rêðr tír ok trauste,
Tuma hefndir vel efndar:
skapat vann hinn er höppum
hestrennir veldr flestum
hár fire hernot stóran
høfukt víte griðbítum[1].

Þetta sumar it sama lèto þeir Guðmund biskup utan fara, ok heldr harðliga leikinn af óvinum sínum. Var hann þá nokkora vetr í Norege, ok gørðust þar þá enn margir merkiligir lutir um [hátto *Guðmundar biskups ok svá um sagnir hans*[2]. Flestir þeir er land tóko, þá er þeir fóro or Grímseyjo, tóko land fire norðan Eyjafjörð.

[3]Á þesso áre urðo þesse tíðende: Dráp Tuma Sighvatssonar at Hólum; IX menn fèllo. Bardage í Grímseyjo, ok druknan hálfs iiij. tigar manna. Ellz uppkváma í Heklofelle. Snorre tók lögsögo. Sèn kometa. Rauð sól. Andaðist Bjarne biskup ok Sêmundr Jónsson, Jón Örnólfsson, Börkr Grímsson ok Þóroddr Vigfússon. Þá hafðe Guðmundr biskup verit [XX vetr[4].

Frá Arone ok föronautom hans.

87. Nú er at segja frá Arone ok hans föronautum, at þeir höfðo ekke mikinn váða af veðre í ferð þesse. En er þeir þóttust komnir or enum mesta háska fire ófriðe at sinne, þá leitar Árne prestr til sára Arons, ok finnast iij eggbitin, en búkr hans var víða blár ok eggbitinn; steypa í síðan

„njóta lætr þú, drottinn minn, þá feðga skrúðans mins, er þeir fara eigi slíkum óförum í dag sem menn þeirra". Þat er sögn manna, at tveir menn ens fjórða tigar hafi lífs á land komizt af þeim ccc manna, er þeir höfðu at biskupe dregit, svá kom þeim bráð hefnd, sem nú má heyra, *B.*

1) Miskveðit gerði skáldit þar er hann kvað svá, því at þeir vóru griðníðingar eða griðbitar, er níddust á biskupi sínum, svá sem þeir gerðu, b. v. *B.* 2) [ hans háttu ok spásögur, *B.*

3) *Tíðende*, *A* (205). 4) [ leiðr.; v. vetr ok xx., *A*, rangt.

biskupsvatne, ok binda um eptir þat. Nú er ekke getið um ferð þeirra, fyrr en þeir kómo[1] ...; settu þar upp skip sitt sem þeim þótte vênligast, at vel munde komit vera. Gengu nú til þess bêjar er þar var nêstr, ok beiddu bónda viðtöku þá nótt, en bónde gørðe þeim kost á með einhverju móte. Gengu inn eptir [þat], ok settust niðr brátt, því at þeir vóro mjök farmóðir, en sumum hèlt enn fleira til. Eptir þat spyrr bónde at tíðendum vandlega, en þeir segja honum af it ljósasta; ero þeir þar nokkorar nêtr. Eptir þat leysir Árne prestr bönd af sárum Arons, ok vóro allar blóðlifrar lausar í sáronum, svá sem þar vêre en bezto smyrsl við höfð. Aron kallaðe ok litla verke fylgja sárum sínum eptir því sem líkende þóttu til vera; kennde hann þat fyrst allsvaldanda guðe ok vatnvígslu Guðmundar biskups. Hann hafðe ok enga lèkníng aðra við sín sár, en vatn þat, er Guðmundr biskup hafðe vígt, ok grero bêðe vel ok skjótara en optast var vant. En síþan slógo þeir kaupe við bónda ok seldo honum skipit, en tóko við fararskjóta, ok slíkt annat sem mest þurfte. Eptir þat fóro þeir þaðan í brot, ok mjök síns vegar hverr, ok þangat hverr sem líkligast þótte. Fengu þeir fararskjóta Arone, þann sem þeim þótte sem bezt munde duga, ok einn fót[gan]ganda mann, ok eptir þat skilðo þeir, ok er Árne prestr or þesse sögo.

## Aron kom til Svínafells.

88. Aron fór til Austfjarða, sem [2]leiðir liggja, þar til er hann kom til Vápnafjarðar, ok [snýr hann þaðan til Fljótsdalshèraðs, ok svá ætlaði hann suðr til hèraða. Þess er getið, at hann kom eitt kveld til gistíngar[3] á þann bê, er heitir á Valþjófsstöðum, ok var Þórarinn bónde eige heima, en húsfreyja hans tók vel við Arone, ok sá at hann var beinleika þurfe; var hann þar nokkurar nêtr vel kominn; síþan fýstist hann í brøt, en huspreyja lèt honum kost lengre vistar, ef hann vilde. [Snýr hann nú um þvera Austfjörðu, svá sem leiðir liggja, til Hornafjarðar[4], ok er ekke getið um ferð hans, fyrr en hann kemr á þann bê, er at[5] Svínafelle heitir. Þar bjó þá Ormr Jónsson, mikill höfðínge, er kallaðr var Svínfellíngr; hugðist Aron þar

1) vantar eitt eða tvö orð í *A*, eyðulaust. 2) Hèr byrjar aptr *Ar*.
3) [ b. v. *Ar*. 4) [ v. í *Ar*. 5) af, *A*.

mundo fá góðar viðtökur, en þat brást honum, því at þar vóro komnar hèttligar njósnir af þeim Sturlúngum. Þat var síð um kveldit, ok vóro menn mettir, en Ormr bónde var til baðs farinn, ok var út at ganga til baðstufunnar; þar vóro varðmenn fire. Aron reið at þeim mönnum, er vörðinn hèldu; hestr hans kastaðe sèr niðr þegar af mêðe. Menn heilsoþo honum ok spurðo hann at nafne, en hann segir til sín ok föður síns, ok hugðe at þat munde ekke spilla hans mále. [1]Þá snýr maðr einn skyndelega inn í baðstofona, ok segir hverr maðr kominn er. „Þar er sá maðr," segir Ormr, „at eige skal sjálfr eiga frá tíðendum at segja, ef svá ferr sem ek êtla, ok fylgit honum til Sörlastofu[2] ok vakit yfir honum." Nú gengr þesse maðr út, ok segir fèlögum sínum, at þeir skulo handtaka Aron. Þetta kom Arone mjök á óvart, ok spur fire hvat hann skylde þetta hafa. Þeir segja honum hvers efne í ero, [hvat fire er sagt. Hann kallar þá ekke þurfa[3] at hafa hendr á sèr, kallast ganga mundo skamma leið með þeim, hvert er þeir vilde; kallar ok lenge skipast mega hörð heit, at enn mege betr verða. Fara nú allir saman til einnar lítillar stofu, reka aptr hurðina eptir þat, en Aron var einn eptir[4], ok festir upp vápn sín, ok þikkist hann hverge betr kominn en hann hugðe til, ok hlaut þó svá búit at vera. Þat var drjúgt manna þar á bê, at sèr þótte mjök í móte skape þesse viðtaka, ok þótte þeim þúngast, sem helzt visso deile á hans forellrum, en þó höfðu fáir menn orð um. Ormr bónde kemr or baðe, ok frèttir, hvat þeir hefðe gert af manninum; en þeir sögðu viðrêður þeirra, ok kváðust þat hyggja, at hann munde lítt felmta, ef þeir vêre jafnmargir[5], „en vèr skilðumst svá við hann, sem þú mêltir fire." Þá lèt Ormr vel yfir.

### Frá Þórarne Jónssyne.

89. Maðr er nefndr Þórarinn Jónsson, bróðir Orms[6], góðr drengr, hann var ekke jafnmikill vin Sturlúnga sem Ormr; hann var þar kominn at heimboðe. Hann verðr nú varr þessar

---

1) *Aron tekinn*, *A* (208). 2) þann. *Ar*; sørlustofu, *A*.
3) [ ok hvat þeim var fyrir sagt. Hann kvað þá ekke þurfa, o. s. frv. *Ar*. 4) inni strengdr, *Ar*.
5) hvárir, b. v. *Ar*. 6) Orms. s., *A*, rangt.

êtlanar, ok nú stendr hann upp or rekkjo sinne, ok gengr til rekkjo Orms. Hann fagnar bróður sínum vel ok frèttir at erendum. — „Smá ein ero erende at svá búno, ek vil forvitnast um viðtöko við Arone, hvárt hon er svá ógeðlig sem flutt er, því at mèr er heldr úþekt, at honum sè þannig fagnat, með því at hann er hèr kominn með öllum ókunnum, en barn at aldre ok hverge nêr gróinn at sárom." Ormr segir: „opt mêlist yðr vel, vil ek þó stundum meira ráða." Þikkir nú sinn veg hvárum. Eptir þetta gengr Þórarinn á brot, ok til litlastofunnar, ok fylgðarmaðr hans með honum; snarar frá lásinn ok gengr inn. Aron sitr á pallinum, ok hefir saxit Tumanaut í hende sèr; hann heilsar manninum. Þórarinn tekr kveðju hans. Þá mêlir hann [h]ljótt við föronaut sinn, ok maðrinn gengr fram[1]. Aron spur nú þenna mann at nafne, en hann segir heite sitt; kannast Aron nú við, ok þikkist varla vita, hvert erende hann man þangat eiga; er honum á nokkurr grunr um brautgöngu mannsins, hvern enda eiga munde.

[2]Nú frèttir Þórarinn at tíþendum. Aron segir honum slíkt er hann frètte. En meðan þeir tøloðo þetta, þá var lokit hurðu, ok kom inn same maðr innar, ok hafðe dúnklêðe í fange sèr ok lagðe í bekkinn; því nêst tók hann borðskutil. Þá kom innar kona með fêðzlu; biðr Þórarinn Aron til matar ganga, ok leggjast til svefns síþan, „hvat sem enn kann eptir at koma, en ek man á brot ganga, en fylgðarmaðr minn skal hèr sofa í nótt." [En þá er Aron var mettr, lagðist hann niðr til svefns, ok þikkir Arone nokkoro blíðara, en hann hugðe til[3]; líðr nú nóttin ok kemr morginn, ok er Þórarinn snemma á fótum, ok vekr upp fylgðarmenn sína, ok biðr þá upp standa ok klêðast, [ok eiga við búit, hvat sem at höndom kême[4]. Þeir gera nú svá. Þeir senda mann til Arons, ok biðea hann upp standa ok klêðast[5]. Aron stendr upp skjótt. En er Ormr vaknar, þá gengr Þórarinn til bróður síns, ok frèttir eptir, hvárt Ormr hafe nøkkut skapskipun tekit um nóttina. Hann segir þat ekke vera. „Þá man ek segja þèr," segir Þórarinn, „at þetta man

---

1) ok er á brott nokkura stund, b. v. *Ar.*
2) *Tal Arons ok Þórarins, A* (211).
3) [ v. í *Ar.* 4) [ v. í *Ar.*
5) ok vera viðbúinn hvat sem at höndum kemr, b. v. *Ar.*

kallat et mesta níðíngsverk hèr á Íslande ok óhöfðínglikt, ok vilda ek láta spara sjálfum Sturlúngum þetta verk." þá segir Ormr: „finn ek at þú ert mikill í flutnínge, en þó hefe ek þesso fastliga heitið." þá svarar þórarinn: „birta mun ek mitt skaplynde, ok felast eige lengr, at hèr skal frá fleirom tíðendum at segja í dag en lífláte Arons, því at vèr munum allir saman standa, ok veita nokkora vörn, ef þèr vilit at sêkja, ok vênte ek, at nokkorir kláe sárt síður, áðr vit Aron látimst báðir." Ormr svarar: „ofrkapp leggr þú á þetta, bróðir, sem jafnan endra nêr, ok man ek ekke þat til vinna[1] nauðsynealaust, at berjast við þik. Takit hann nú á yðart vald, ok farit með, sem yðr líkar." þá þakkaðe þórarinn Orme bróður sínum, ok er ekke getið, at þá skilðe á um þetta síþan. Fèkk þórarinn af þesso góðan orðróm[2], ok man lenge uppe vera. Svá segir þormóðr prestr:

þórarenn hèt sá er þegne mêtum
þrútins elldz at Svínafelle
röskliga dugðe runnr í háska
randa svinnr ok nauðum stinnum:
Aron laut af Orme at mêta
ógnar ráð ok miklum váða,
herðinn bjóst því höldr at varða
hlýra sínum dreng hinn skýra.[3]

Frá Arone.

90. þórarinn tekr nú Aron á sitt vald, ok ero þar nokkora hríð, ok fara jafnsnemma í brøt; fèr þórarinn honum góðan föronaut, sá er Guðmundr hèt ok var Ólafsson; sá var síþan at brennunne þorvalds Vazfirðíngs með þeim Rafnssonum. Um þat er Aron var tekinn at Svínafelle vóro þessar vísur kveðnar:

Morgunn kom yfir mistarferge,
mannraun laut þá Aron sanna,
ráðinn var honum raunmjök dauðe
randastorms af Svínfells-Orme:
stríðir hratt þá vel við váða,

1) til lífláts eins manns, b. v. *Ar.* 2) orðorom, *A.*
3) vísan stendr síðar í *Ar.*

viðfrêgt hefir þat vorðit síðan,
mest um barg þá málma treyste
mildr Þórarinn, vápna hildar.
Aron reið við sollnum sárum
sêmðar hraustr um Fjörðu austan,
vistar þurfte varga nistir
vellum grimmr, at Svínafelle:
höndum tóko þá hjörva sende,
hótað var honum dauða skjótum,
lundar unno ljóssa branda
luktan hann í myrko ranne[1].

Nú bjó Þórarinn Aron á brot frá Svínafelle; var ferð þeirra vel búin, en þó luto þeir at fara leyniliga, ok meirr um nêtr en um daga, því at raunmjök var lífs at gêta; en eige er sagt frá náttstöðum þeirra fyrr en þeir koma í Borgarfjörð, ok til þess bêjar, er á Rauðamel heitir enum syðra. Þar bjó þá Sölve prestr Jörundarson ok Sigríðr, móðir Arons; þat var nêr miðjo þinge. Þeir kómo í mornun á bêinn, ok vóro flestir menn í svefne. Sveinpiltar ij höfðo farit úte at rossum. Þeir vóro úte, er þessir menn riðu at bênum. Annarr sveinninn var Bárðr, bróðir Arons, en annarr hèt Ormr. Sveinarnir heilsoðo þeim ok spurðo þá at nafne. Þeir sögðo til sín, ok eige þat sem var, ok leiddo hestana á bak húsum, ok heimtu sveinana þangat, ok mêlte Aron, at þeir skyldo inn ganga [h]ljóðliga til hvílo Sigríðar Hafðórsdóttur[2], ok segja henne, at menn ero komnir úte þeir er hana vilea finna. [Piltarnir gjöra sem þeir vóro beðnir[3]. Hon frèttir eptir, hversu þessum mönnum sè háttað, því at henne var mikil önn á um ferðir Arons; en þeir segja, at menn vóro miklir ok vápnaðir mjök. Hon ríss upp ok, en biðr sveinana sofa, ok láta kyrt yfir þesso. Hon gengr út, [ok annarr maðr[4] í móte henne, ok minntist til hennar, ok var henne optarr[5] meire fögnoðr á funde þeirra[6]; biðr þá ganga af þjóðbrautenne, en hon gengr inn til hvílo Sölva prests, ok segir honum hvers efne í ero. [Hann sprettr skjótt

---

1) vísurnar standa síðar í *Ar*. 2) *Ar* hefir ætíð „Hafþórir".
3) [ b. v. *Ar*.
4) [ en þessi maðr annarr snýr þegar, *Ar*. 5) nú, *Ar*.
6) en hon mætti í fyrsta orði upp koma, b. v. *Ar*.

upp[1] ok gengr út, ok finnast þeir frændr, ok gerir hann fire þeim ráð af skyndíngu, ok litlu síðarr var þeim fylgt til eins hellis, er þar var í hraunino mjök langt frá bênum, ok hefir sá hellir þar af nafn tekit, ok kallaðr Aronshellir. Síþan vóro þannig fluttar vistir af trúnaðarmönnum þeirra, ok klêðe, svá at þeir máttu bjargast við, ok námu þar staðar um hríð.[2]

Aron var gerr sekr skógarmaðr.

91. Eptir Grímseyjarför lèt Sturla Sighvatsson sêkja Aron Hjörleifsson til sektar, var Aron sekr gjörr ok xv biskupsmenn aðrir. Hafðe Aron því meire sekt en aðrir, at hann var sekr gjörr skógarmaðr, óêll ok óferjande ok óráðande öll bjargráð, sem síþan bar raun á. En síþan var Aron með frêndum sínum í Vestfjörðum með Rafnssonum á Eyre í Arnarfirðe, svá sem segir í sögu Arons, þar til er Sturla lèt búa mál til á hendr þeim um bjargir Arons; en þá handsalaðe Böðvarr þórðarson fire þá á þínge, ok galt fire þá x hundrot. En eptir þat vöroðust menn at innhýsa Aron; var hann í leynum hèr ok hvar. Hann var lenge á Geirþjófs[fjarðar]eyre með litlum bónda [er] þórarinn hèt; en Sturla hafðe grun á því, ok sende hann vestr í Fjörðu Rögnvald Kársson ok þorvald Sveinsson ok Danza-Berg; iij vóro þeir. þetta var þat haust er nú var frá sagt.[3] Sturla sende Íngimund Jónsson vestr til Arnarfjarðar at leita eptir Arone, en Aron var þá á Geirþjófsfjarðareyre í nauste, ok gerðe at báte, er þórarinn átte. Hann fann eige fyrr en menn ij vápnaðir gengo at naustino, ok snero inn, er þeir sá manninn. Aron heilsaðe þeim ok spyrr, hverir þeir vêre. Annarr nefndist Egill digre, ok hafðe hann êtlat at finna Aron, því at þeir höfðo verit báðir með Guðmunde biskupe, en annarr hèt Sigurðr ok var Eyvindarson; þeir sögðust vera heimamenn þorvalds í Vatnsfirðe. Aron tók til eyxarinnar, því at þorvaldr var enge vinr hans. Brynja Arons hèkk á skipstafninum, ok tók Sigurðr til hennar ok fór í. Arone hvarflaðe

1) [ b. v. *Ar.*

2) héðan frá er Aronssaga miklu lengri en *A*, og er því það sem eptir er sögunnar prentað í Viðbæti.

3) það er 1224, sama haust og brullaupið var í Reykjaholti. Á þessu er að sjá, sem kapp. 91—93 sè skotið hèr inn í *A* úr Íslendíngasögu Sturlu.

hugr um, ok hugsaðe, hve lenge hann skylde bíða þeirra. Sigurðr spyrr Aron, hvat hann frètte tíðenda. „Ekke," segir Aron. — „Heyrt höfum vit þat sagt, at menn Sturlu vêre hèr inn í fjör[ð]um ok njósnaðe um ferðir þínar." — „Vera má þat," segir Aron, „því at mik dreymde Guðmund biskup, at hann legðe yfir mik skikkju sína í nótt." [1]Sigurðr sá út, ok mêlte: „menn ríða þar iij innan með firðinom, ok muno eige þikkjast úvígligre en vèr." — „Ekke muno þeir ok vígligre en vêr, ef vêr veitumst vel, en eige veit ek, til hvers ek má êtla." — „Drengsbragð vêre þat, at skileast eige við þik," segir Sigurðr, „en eige veit ek, hversu Agle er um þat gefit." — „Eige man ek renna frá þèr," segir Egill, ok þá êtlaðe Sigurðr at fara af brynjunne, en Aron mêlte: „far þú eige af brynjunne, ef þú vill mèr lið veita." Síþan gengu þeir út, ok í því ríða þeir Rögnvaldr á völlinn, ok laupa af bake, ok snero á millum þeirra ok húsanna. Þeir gengust þá í mót; var Egill þeirra mestr, ok gekk hann í mið. Snýr Rögnvaldr í mót Agle; hann var berbrynjaðr ok hafðe brynjo hálsbjörg við stálhúfo, ok sêrðe Egil á fète. Sigurðr snýr í móte Danza-Berg, en Aron Þorvalde, ok hrökkr Þorvaldr fire Arone, en Rögnvaldr vann á Agle, ok í því bar Aron at þeim Agle ok Rögnvalde, ok laust Aron aptan undir stálhúfuna með eyxarhamre, ok steyptist ofan fire andlitið, ok bar hálsbjörgina upp af brynjunne, ok beraðe hálsinn, ok snere þá Aron eyxenne í hende sèr, ok hjó á hálsinn Rögnvalde, svá at af tók höfuðit. Sigurðr var sárr orðinn. Þeir Þorvaldr runnu til hesta sinna, ok kómust á bak, ok keyrðe Þorvaldr hestinn undir Berge, en hann lá á grúfo í söðlinum; bar þá svá upp á leitið undan. Aron rann eptir þeim; en er Þorvaldr sá þat, þá kallaðe hann: „upp þèr, Sturla! hêr renn Aron fjandinn eptir okkr". Þá nam Aron staþar, en þá dró undan. Síþan snere Aron aptr ok flette Rögnvald af fötum ok vápnum, ok flutte hann síþan á seá út ok drekkte. Svá segir Þormóðr prestr:

Átt hefir Aron hêttan
eggja fund við segge,
stál klauf styreardeilir
stirð í Geirþjófsfirðe:

---

1) *Bardagi Arons ok Rögnvalds*, A (213).

rjóðr hljóp rimmu klêða
rínar logs at tíne,
otrs veitte bör bitran
bana gjalda Rögnvalde.

### Frá Arone.

92. Aron flutte þá Sigurð ok Egil á Eyre til Rafnssona, ok vóro þeir þar grêddir, fóro síþan heim í Vazfjörð, en þótt Þorvaldr vêre enge vin Arons, þá lèt hann þó vel yfir þeirra för. Aron stökk þá til Barðastrandar, ok var þar í helle í Arnarbêlisdal á koste kono þeirrar, er bjó í Túngumúla. En um haustið tók Aron skip frá Jóne Auðunarsyne, er þá bjó at Vaðle, ok fór á því suðr yfir Breiðafjörð með annan mann. Síþan hratt hann út skipino, ok rak þat á Eyre til Þórðar. Aron var þá í ymsum stöðum suðr þar; kom þá til hans Hafþórr móþurbróðir hans.

Um haustið fór Sturla út til Helgafells, at finna Hall ábóta, ok með honum Vigfúss Ívarsson ok Kolbeinn Jónsson ok Þorkötlo, dóttur Þorgeirs[1] at Brunná, ok var Aron þá á Eyre með Þórðe. En Aron var þá í skóginum út frá Valshamre þá er þeir Sturla riðo þar um, ok vilde Aron leita á, er iij vóro hvárir, en Hafðórr hèlt honum. Þeir urðo eige varir við. Þá sende Sturla Björn af Eyre at njósna um Aron, ef hann vêre þar í sveit.

[2]Þat var síðarr um haustið, at Sturla hafðe njósn af, at Aron var at Val[s]hamre á koste Vigfúss, er þar bjó. Reiþ Sturla þá út á Strönd með hinn xv. mann. Þá var Aron at Valshamre ok þeir Aron ij ok Hafðórr, ok vóro þeir í sauðahúse á vellinum. Þeir Sturla riðu á völlinn, ok at bênum, ok varþ um háreyste mikit, en þá var myrkt. Ljópo þeir Sturla af hestum sínum ok fóro inn; var þá gert ljós í stofo. Eiríkr hèt maðr, er kallaðr var birkibeinn, hann var þá nýkominn til Sturlo, ok var nêr umrenníngr, ok gekk hann út ok inn, ok njósnaðe um, hvers hann yrðe víss. Þeir Aron gørðo þat ráð, at Hafþórr skylde fara heim, ok njósna hvat komit vêre. Hann fór hljóðliga á bak húsum, en hliðskjár var á stofunne, ok lagðe þar hlustina. Þá kom Eiríkr birkebeinn at, ok hjó á

1) þann. *St.*; Bárðar, *A.* 2) *Frá Arone, A* (215).

aðra kinnina, ok varþ þat hans banasár. Ljóp þá Eiríkr inn, ok segir, at hann hafðe drepit einn fjandann. Ljópo þeir þá til vápna ok út. Aron hafðe þá gengit heim at njósna um ferð Hafþórs; var hann þá kominn á völlinn mjök heim at húsunum, er þeir Sturla kómo út, ok fengu þeir slegit hríng um Aron á vellinum. [Hèr um kvað Ólafr hvítaskáld[1]:

Fundr var hêttr þar er hittust
hermenn um dag tvennir,
áðr var stála stríþir
styrframr at Valshamre:
hríngr var um hjörva slöngve
harþfengr skipaðr drengjum
áðr en Aron flýðe
undan Sturlo funde[2].

Sturla ljóp á hest sinn, en Aron leitaðe út af túnino til árinnar. Í því sýndist þeim Sturlo mönnum, sem lýso nokkorre brygðe við hamarinn Valshamar, ok lito þeir þar allir til, ok í þesse svipan ljóp Aron at Birne, fylgðarmanne Sturlo, ok hjó til hans með saxino Tumanaut, ok brá eige, því at honum varþ eige ráðrúm til þess. Björn fèll við höggit, en Aron ljóp út yfir hann ok svá af túnino, ok hvarf hann þeim þá í náttmyrkrino. Svá s[egir] þormóðr prestr Ólafsson:

Út hefir Aron leitað
ógnramr at Valshamre,
hann varð[3] [h]reyste mönnum
harðráðr, or manngarðe:
auðs rak ólmum dauða
en[n] röskligast kenner[4],
Björn hnè áðr fire ernum,
undan, bauga lunde.

Frá Arone Hjörleifssyne.

93. Aron stökk þá suðr yfir heiðe til Rauðamels til móþur sinnar, ok var þá allmjök þrekaðr, en þeir Sturla fóro á brot, ok höfðo seálfdême af Vigfúse, ok gerðo af honum XX hundraða

1) [ þannig *Ar.*; þeir Sturla riðu á, *A*, aflagað.
2) [ v. í *St.* 3) og, b. v. *A.*
4) þann. *Ar.*; kenne, *A.*

eyjar, en Björn laust Vígfús eyxarhamarshögg. Sturla fór heim, en Aron fór suðr um heiðe, sem fyrr var ritað, ok dvalþist þar til þess er hann var fèrr; fór hann þá suðr í Eyrar repp, ok var á Berserkseyre með Halldóre Árnasyne; þar var frilla Hjörleifs, föður hans, ok fundust þeir þar jafnan feðgar. Þar kom til Arons Starkaðr Bjarnarson, er kjapte var kallaðr, ok fóro þeir suðr fire jól, ok vóro hèr ok hvar á laun.

En á jólunum segir Aron, at hann vilde at þeir sète um Sigmund snaga, „er hann er hèr settr til höfuðs mèr;" en hann bjó út á Fáskrúðarbakka. Þeir Aron vóro við hinn níunda dag jóla í stakkgarðe einum, en þaðan skamt var annarr stakkgarðr, er Sigmundr fèrðe hey or, ok annarr maðr með honum, ok vilde Aron eige á hann leita fyrr en um kveldit, er myrkt var orðit. Fóro þeir þá heim til eyðehúsa, ok var Aron úte hjá duronum, ok stóð við kanpinn, er hlaðinn var af vegginum, en Starkaðr fór inn ok kvadde sèr greiða. Sigmundr var einn karla á bênum, ok hafðe háttað í dagsljóse, því at föstodagr var. Helga frilla Sigmundar kvazt ekke mundo gefa honum; gengo þeir þá til úteduranna Sigmundr ok Starkaðr. Starkaðr var hámêltr ok bað Sigmund ganga fire. En er Sigmundr kom or úteduronum, lagðe Aron í gegnum hann með saxinu Tumanaut; var þat hans banasár. Síþan fóro þeir inn í stofu, ok ráku þangat fólk allt, en bjöggu búe sem þeim líkaðe, ok vóro þeir þar meðan myrkt var. Fóro þeir síþan á brot ok suðr í Hraun til Rauðamels, ok vóro þar um hríþ.

[1]Síþan fór hann austr í Odda til Haralds Sêmundarsonar, ok var hann þar í kirkjuskote um stund. Haraldr kom honum utan, ok fór hann þá til Hákonar konúngs, ok gerðist hirðmaðr hans þá er hann kom utan frá Jórsölum. Svá segir Ólafr hvítaskáld:

Fór [sá er[2] fremð ok tíre
fleinrýrir gat stýra,
mest lofa ek mikla [h]reyste
manns, Jórsale at kanna:
nafn rak út [við ítra[3]

1) *Aron fór utan*, *A* (217).
2) þann. *St.*, 204, *Ar*; með, *A*.
3) leiðr.; [ við ítran, *A*; hit ytra, *St.*

Jórdan með[1] þrek stóran
skjaldarfreyr [enn skýre[2]
skógarmanns[3] at [g]nógu.

Tíþende.

94. Á nêsta áre eptir Grímseyjarför varþ þetta til tíþenda: Hákon konúngr ok Skúle jarl skipto skattlöndum með sèr. Andaðist Teitr Oddsson ok Kolskeggr auðge. Útkváma Lopts ok Haralds. Guðmundr biskup í Björgyn. Utanför Jóns Arnþórssonar með ritum Magnúss[4] biskups. Valdemarr Danakonúngr handtekinn ok son hans. Skip Auðbjarnar týndist [ok] LX ok iij menn. Vígðr Jófreyr biskup til Orkneyja. Sigurðr hrafnasveltir gekk á vald Hákonar konúngs ok Skúla jarls. Ólafr Guðraðarson [blindaðe ok gelde Guðröð bróður sinn[5].

[6]Á öðro áre vurðo þesse tíþende: Andaþist Guðþormr erkibiskup, ok Hávarðr biskup, ok Heinrekr biskup í Stafangre. Jón ábóte. Jón Arnþórsson. Guðmundr biskup var í Þrándheime. Sigurðr ábóte kosinn til erkibiskups, ok fóro út til Róms. Útkváma Arnórs prests með ritum kórsbrêðra. Kvánfang Gizurar Þorvaldssonar ok Hjalta biskupssonar.

[7]Á þriðea áre varþ þetta til tíðenda: Boðorða breytne Magnúss biskups í messo. Guðmundr biskup í Þrándheime. Hákon konúngr kvángaðist. Petr vígðr til erkibiskups ok kom í land. Valdemarr Danakonúngr kom í land, ok leystr út viij lestum silfrs ok xij skippund í lest. Andaðist Nikolaus biskup ok Eysteinn rêþismaðr.

[8]Kolbeinn, son Arnórs Tumasonar, er síþan var kallaðr Kolbeinn únge, kom út um sumarit í Hvítá; fór hann um haustið norðr til Eyjafjarðar, ok var hann um vetrinn á Grund með Sighvate máge sínum. En um sumarit eptir fór Sighvatr til Skagafjarðar, ok leitaðe við þíngmenn hans, at þeir skyldu gera honum bú, ok vikust menn vel undir þat. Var honum gert bú í Hegranese á þeim bê er heitir í Áse, ok gerðist

1) við, *Ar.* 2) [ með skýru, *Ar.*
3) skógarmaðr, *Ar.* 4) þann. Annálar; til, *A.*
5) leiðr. eptir Konúngs annál [ blindaðr ok geldr, *A.*
6) *Frá tíðendum, A* (219). 7) *Tíþende, A* (220).
8) *Frá Kolbeine, A* (221).

hann ofsamaðr mikill, ok þótte hann vênn til höfðíngja. Sighvatr rèð mesto með honum, meðan hann var úngr. Sumar þetta var illt ok vandrêðasamt. Kom upp eldr or sjónum fire Reykjanese. Rotosumar it mikla. Vígðr Hallkell til ábóta. Skúle jarl krossaðr. Staðarsetníng í Viðey ok v kanokar. Vígðr [Árne][1] Björgynear biskup ok Áskell Stafangrs biskup, Ormr biskup í Oslo. Andaðist Pètr erkibiskup ok Sigurðr hrafnasveltir.

Útkváma Guðmundar biskups.

95. Þat sumar kom skip í Hrútafirðe þat er á var Guðmundr biskup ok Rita-Björn[2], ok fór Guðmundr biskup heim til stóls síns. Þeir frêndr Þórðr ok Sturla fundust við skip, ok fór[3] þá vel með þeim. Átto þeir þá drykk saman, ok tók sinn Austmann hvárr þeirra til sín; fór í Hvamm Bárðr garðabrjótr son Þorsteins kúgaðs, en Bárðr trèbót til Sturlo.

[4][En annat sumar en nú var frá sagt[5] kom Guðmundr biskup norðan með XXX manna til alþíngis, ok tók Snorre Sturloson við honum um þíngit með alla sveit sína. En eptir þíngit fór hann vestr til Borgarfjarðar, ok fór þar yfir um sumarit; dreif þá til hans mannfjølðe mikill, ok þó tóko menn vel við honum, ok gáfo honum mikit fè. Fór hann þá um Sneáfellsnes ok svá inn til Dala, ok fór hann þar ekke at gistíngum. Fór hann þá í Hvammssveit ok um Strönd ok Reykjanes ok til Steingrímsfjarþar, ok þaðan aptr til Saurbêjar, ok kom hann á Staðarhól um haustið fire vetr, ok hafðe hann þá c manna.

[6]Sighvatr var kominn í Dala, ok höfðo þeir Sturla LX manna at Sauðafelle, því at engar sèttir höfðo orþit með þeim Þórðe ok Sturlo, var Þórðr þá kominn utan í Hvamm, [en hann hafðe verit á Eyre um sumarit; höfðo þeir Böðvarr son hans lx manna, ok fundust þeir brêðr í Leárskógum, ok var Sighvatr inn kátaste, meðan þeir töloðo um hesta ok lausnartíþende; en er þeir skyldo tala um mál sín, mátto þeir ekke við talast, ok skilþust ósáttir[7]. Sighvatr sende þau orð Guð-

1) b. v. eptir ísl. Ann. 2) Rita-Bjarne, *A*.
3) fóro, *A*. 4) *Guðmundr biskup reið til þings*, *A* (223).
5) [ Um sumarit, *B*, sem hèr kemr aptr til sögunnar (sjá bls. 501 athgr. 1). 6) *Frá Sighvate*, *A* (224). 7) [ v. í *B*.

munde biskupe, at hann skylde eige êtla sèr at fara norðr til sveita. Guðmundr biskup var á Staðarhóle þar til er hann frètte, at honum var bönnut yfirferð. Var þá sent eptir eyxnum þeim, er biskupe höfðo gefin verit, nêr xx, ok vóro þeir fyrst etnir. Þá fóro menn Guðmundar biskups til þeirra manna, er farit höfðo at Guðmunde biskupe til Hóla, ok fengo þar mikit fè. En er á leið jólaföstо tók Guðmundr biskup sótt, enda mátte þá eige lengr ráðalaust vera.

[1]Þórðr fór þá á Staðarhól ok bauð Guðmunde biskupe til sín, ok varþ hann því feginn, ok bar Böðvarr, son Þórðar, Guðmund biskup í börom suðr í Hvamm, ok var hann þar framan til langaföstо, [ok var þá í Hvamme aldri fêra manna en C síþan biskup kom þar. Þeir Torfe prestr Guðmundarson ok Kolle Þorsteinsson fóro jafnan millum þeirra frênda um vetrinn, at leita um sêttir, ok varð saman talat fire föstо[2], ok skylde Guðmundr biskup fara norðr til stóls síns með þá menn, er verit höfðo með honum um vetrinn, en Þorlákr Ketilsson [ok Böðvarr[3] skylde gera um málin með þeim Þórðe ok Sturlo. Fór Sighvatr þá norðr þegar, en Guðmundr biskup litlu síðarr, ok fann Sturla hann í Hjarðarholte, ok sêttust þeir þá enn í annat sinn; [en þeir Þórðr ok Sturla fundust á Þorbergsstöðum ok sêttust þar[4]. Var nú kyrt um vetrinn þat er eptir var.

[5][En um várit luku þeir gjörðum upp Þorlákr Ketilsson ok Böðvarr Þórþarson, þeir gjörðo LX hundraþa þriggja álna aura fire fjörráð[6] við Þórð, en XX. C. til handa hvárum þeira, er sárr varð, en þrjú C fire hvern mann, er fór í Hvamm með Sturlo. En Sturla svarar svá gjörðum þessum: „eige er ofmikit sárum mönnum gjört, ok skal þat vel gjalda, ok þat mun sannara, at bêta fire þá menn, er fólskuferð þessa fóro með mèr. En fire fjörráð þikkjumst ek eige eiga at gjalda Þórðe, því at ek vilda eige dauða hans, sem ek lýsta fire mönnum, en eige mun ek deila við hann hèðan af um fè þat, er vit höfum eige orðit ásáttir um hèr til, Glerárskóga eða annat". Sturla galt

1) *Þórðr Sturluson bauð Guðmunde biskupe til sín, A* (225).
2) [ en um vetrinn sættust þeir Þórðr ok Sturla, *B*.
3) [ b. v. *B*. 4) [ v. í *B*. 5) *Lokit upp, A* (226).
6) hèr vanta 2 blöð í 399, og er fyllt eptir 394.

þá Þórðe Valshamarseyjar, er hann hafðe gjört af Vigfúse fire bjargir Arons Hjörleifssonar[1].

96. Vetr þann er Guðmundr biskup var í Hvamme, kom norðan í Reykjaholt Kolbeinn únge Arnórsson, ok fór bónorðsför, ok bað hann Hallberu dóttur Snorra, ok var þá þegar brúðkaup þeirra, ok fór hon norðr með honum; þá fór ok norðr Jón murtr, ok kómu þeir til Staðar í Hrútafirðe; þá bjó þar Brandr Jónsson; en Snorre Sturluson hafðe látið sêkja Brand til sektar um fornt fèmál, er hann hafðe átt at Steinunne systur sinne, móður Brands, en þeir höfðu vígása í dyrum, ok varð þar ekke at gört ok hurfu þeir Kolbeinn frá við þat, ok fóru þeir heim norðr, en Jón hafðe mál fram á hendr Brande.

Sandvetr hinn mikle ok fjárfellir, þá er Guðmundr biskup var með Þórðe. Á sama áre varð þetta: Magnús biskup fór hverge. Ill rit upp lesin á þínge. Heimsókn í Hvamme. Skip týndist ok kómust af xviij menn í Vestmannaeyjum Ceceliu messodag; þá týndist ok þat skip, er af Eyrum fór, ok Jón var á Pètrsson. Þá hafðe Guðmundr verit biskup v ár ok xx.

Á nêsta áre eptir varð þetta tíþinda: Mikill manndauði af sótt ok sult[i]. Brenna Þorvalds í Vazfirðe. Friðrekr keisare í banne. Þórir vígðr til erkibiskups ok kom í land. Utan stefnt Magnúse biskupe ok Sighvate Sturlusyne, ok Sturlu syne hans. Þá hafðe Guðmundr biskup verit vj ár ok xx.

Á þessu áre nêst var heimsókn Þorvaldssona til Sauðafells; iiij menn drepnir. Þíng fjölmennt ok sektir Vazfirðínga ok Rafnssona. Utanför Magnúss biskups ok Gizurar Þorvaldssonar, Markúss Þórðarsonar ok Jóns Snorrasonar. Bardage konúnga í Eyjum. [Bardagi í Alostrum[2] mille konúngs Svía ok Fólkúnga. *Translatio beati Thorlaci episcopi.* Andaþist Ketill ábóte, [Þorsteinn Jónsson[3] ok Ámunde smiðr.

Á næsta[4] áre varð sêtt Vazfirðínga ok Sturlu; x. c. goldin fire víg. Andaþist Þórir erkibiskup. Kosinn Sigurðr erkibiskup tafse. Búenn herr or Norege til Suðreyja. Andaðist Hallr ábóte. Þá hafðe Guðmundr biskup verit viij ár ok xx[5].

---

1) [ v. í *B*. Hèr er í *A* farið svo orðum, eins og búið væri að segja frá ferð Sturlu í Hvamm (*St*. 4, 46).

2) [ bætt v. eptir getg.; Jalöngrum, ísl. Ann. 3) [ Jón Þorsteinsson, Kon. Ann. 4) leiðr.; þessu, *A*. 5) kap. 96. v. í *B*.

97. Guðmundr biskup var heima at Hólum þar til er Skagfirðíngar ráku hann í burt, með ráðe Kolbeins únga, af staðnum. Fór hann þá norðr um sumarit, ok heldr tómliga, þar til er hann kom í Húsavík til Guðmundar Húsvíkíngs; var þá fjölmennt með honum ok óspakt lið. Þá sette Guðmundr biskup til Rafnssonu, at eige vêre stolit af flokke hans. En um daginn er þeir riðu or Húsavík, sitja þeir brêðr fire flokkinum, ok láta öngan um ríða, fyrr en þeir höfðu rannsakat hvern mann, ok jafnvel biskup sjálfan. Fannst þá mart þat er bêndr átto, ok var þá sent hverjum þat er átte.

Eptir þat ferr Guðmundr biskup til Eyxarfjarðar; heimtir biskup þar tíundarhval af mörgum mönnum, ok drógust þar saman föng mikil, slátrföng ok hvalföng; er þat fêrt á Skinnastaðe, ok þar upp fest. Þar bjoggo þau Jón ok Guðleif. Guðmundr biskup kom þar at jólaföstu með lið sitt, ok var þar mjök svá til jóla, ok vóro þá upp gengin föngin, en bêndr ugðo, at sezt munde á kost þeirra, ok kurruðu illa. Fóru þeir þá á burt frá Skinnastöðum ok vestr yfir Jökulsá. Hann giste í Keldunese; þá var samgangr biskupsmanna illr ok sveitardráttr ok hlaupaför. Þaðan fór hann undir Fjöll, ok um kveldit, er Guðmundr biskup var genginn til svefns, en þeir til baðs er þat líkaðe, þá var sleginn dans í stofunne, en Knútr prestr sat á þverpalle, en ljós var í stofunne ofarliga. Jón Birnuson gekk þá at Knúte preste, hann var þá nýkominn or baðe; hann var þá i baðkápu ok línkléðum. Jón mêlte: „þat vilda ek, at vèr leggim niðr fèð þá, óþokka ok dylgjur þêr, er vêr höfum, með því at eige er Guðmunde biskupe oflaunaðr velgjörníngr sinn, þótt vèr hafim eige ófrið í føroneyte hans". Knútr prestr segir: „eige em ek lymskare en þèr, þótt ek sè skapharðari[1], ok í því ljóp sveinn Knúts prests or koluskugga ok höggr á öxl Jóne, var þat mikit sár; en Jón slêmir sverðe á bak sèr aptr, ok skeindist sveinninn mjök svá nokkut. Eptir þat vóro þeir skildir, ok lá Jón í sárum.

Eptir þat fór Guðmundr biskup með it knárra liðit um Brekkur, en it óknárra var flutt fire nes á skipe. Biskup ferr heldr tómliga, til þess er hann kemr í Hrísey; þar kemr Jón Birnuson eptir honum, var þá áliðin langafasta. Or Hrísey ferr Guðmundr biskup til Eyjafjarðar, ok mikill hlute liðs með

1) nasbráðari, *B.*

honum; en Knútr prestr ok þeir er erinde áttu til Svarfaðardals, fóro þangat, ok svá um heiðe til Ólafsfjarðar. Guðmundr biskup var á gistíngu fire Benedictusmesso á þóroddsstöðum, ok um kveldit eptir mat var biskup inne, en menn hans vóro úte í túninu: sjá nú at Knútr prestr ríðr af heiðe ok þangat til béjarins. þeir gjöra nú ráð sín, þótt heldr vêre óráð, ok êtla honum at ríða á mille kirkjugarðs ok fannar þeirrar, er þar hafðe lagt sem leiðin lá í túnit; standa nú sumir á kirkjugarðinum, en sumir á skaflinum. Fer nú sem þeir êtluðu; en hinir vêntu sèr einskis ófriðar. Knútr prestr reið jafnan við vápn, því at hann var ódêll ok embêttislauss. Nú leypr fram einn maðr, ok laust aptan undir hnakkann Knúte preste, ok ferr stálhúfan fire andlitið, en þá höggr þesse maðr þegar aptan undir hnakkann, ok fellr Knútr prestr fram af hestinum, ok dauðr, því at heilinn lá á öxinne eptir. Nú er laupit inn, ok er sagt Guðmunde biskupe, at unnit vêre á Knúte preste nýkomnum. Guðmundr biskup sat í öðru húse, ok sende út Ketil prest Oddsson. Hann hleypr út, ok biðr hundana frá fara, því at þeir vildu höggva fíngrna af honum dauðum, ok náðu eige, því at gull var á fíngrinum, ok vildu þeir því ná. þá var þvegit líkinu ok jarðat um morgininn eptir. En um kveldit, er vígit var orðit, segir húsbónde, at búit var bað, ef hann vilde í fara; en biskup segir: „menn mínir hafa mèr gjört bað at sinne, ok launat mèr svá vetrvist". þaðan fóro þeir or firðinum; fara þeir til Fljóta um heiðe, ok svá inn eptir Strönd, ok koma í Viðvík at skírde[ge[1], var þar fire Kolbeinn únge með mikinn flokk; hann rekr þá allt frá biskupe, nema ij eina klerka: þorkell, son Ketils Íngjaldssonar, ok Helge bróðurson hans. Kolbeinn lèt biskup [fara] heim til Hóla, ok er hann þá tekinn í varþhald með því móte, at hann var í einne stofo ok klerkarnir heá honum; þar svaf hann, ok þar mataðist hann, ok þar söng hann allar tíþir, nema lágasøng. Engo rèð hann nema þeim fèlögum, ok engum manne mátte hann ølmoso gera af líkamligre eign, heldr var hann haldinn sem einn arfsalsmaðr; leið svá fram til þess er Magnús biskup kom út at Gásum með brèfum þeim, er erkibiskup sende þeim mönnum, er Guðmunde biskupe bêgðu eða buðu af embêtte sínu, eðr honum vildu þrøngva.

---

1) [ hèr byrjar aptr 399.

[1][Á nésta áre eptir sêtt Vazfirðínga ok Sturlu varþ þetta tíðenda: Víg Jóns Snorrasonar. *Obiit*[2] Úspakr Suðreyja konúngr. Fjárheimta Snorra við Kolbein, ok sêtt. *Obiit*[3] Hallbera Snorradóttir. Útkváma Gizurar þorvaldssonar, Hjalta biskupssonar ok Brands. Víg Dagstyggs. Druknan Rafnssona, Einars ok Gríms. þá kvángaðist Hálfdan ok Kolbeinn. Hettosótt. [4]Á øðro áre nést þesso varð þetta tíþenda: Víg þórðar ok Snorra þorvaldssona. Sigurðr erkibiskup í land kominn. Útkváma Magnúss biskups með ritum. þá braut skip iiij ok lètust L ok iij menn. Styrmir tók lögsögo. Guðmundr biskup af embêtte[5].

Víg Jóns Birnusonar.

98. Sá atburðr varð þar at Hólum nêr miðju sumre, þá sat Guðmundr biskup sunnan undir kirkju einn góþan veðrdag; en þar til staðarins var kominn Kolbeinn únge Arnórsson, ok Kleppjárn, son Halls Kleppjárnssonar; þar var þá ok kominn Jón Birnuson, at finna Guðmund biskup, ok stóð hann framan fire kirkjunne, en Kolbeinn stóð í klukkna húse, ok lèk sèr at klukkunum, en menn hans vóro fire norðan kirkjuna ok Kleppjárn. Nú seá þeir Jón Birnuson, ok laupa at honum með vápnum; hann verr sik vel, ok opar undan austr um kirkjuna, ok síþan norðr[6] um sønghúsit, ok fèll hann þar heá stoðinne, ok vilde upp standa. þá hjó Kleppjárn á mille herða honum, ok gekk síþan frá. En hann Jón gekk þá eitt fet at kirkjunne, ok fèll hann þá, ok lifðe skamma stund þaðan frá. En þat er sögn manna, at hann bêre af sèr áverkann með hafrstøku. Stoðin varþ blóðug mjök. Síþan ganga þeir á brøt, en þeir biskup sýngja yfir líkinu; en Kolbeinn ríðr á brot, ok fara orð mille þeirra Kolbeins ok Guðmundar biskups til sêttar. Lýkr svá þesso màle, at þeir Kolbeinn ok Kleppjárn fèlagar leggja þetta mál allt undir Guðmund biskup; en hann leysir þá or banne, ok bað þá þat gjalda hverjum, sem átte at rèttu, þat frêndum sem þeir eigu, þat biskupe ok kirkju er þau eigu. Skilea þeir at svá búnu, ok fór Guðmundr biskup heim eptir sêtt þeirra Kolbeins.

1) *Tíðende, A* (236). 2-3) Θ, = *obiit* = andaðist, *A*. 4) *Tíþende*, (237). 5) [ v. í *B*. 6) suðr, *B*.

Frá ferðum Guðmundar biskups.

99. At áliðnu sumre ferr Guðmundr biskup at erendum sínum norðr um heiðe ok yfir fjørð, ok êtlaðe norðr um sveitir; hann kemr undir Laufás. Hann frètte þá, at Reykdêlir êtla í móte honum at rísa. Biskup snýr þá aptr yfir fjørðinn, ok êtlar inn eptir strönd til Eyjafjarðar, ok kemr hann í Árskóg; frèttir hann þá, at Eyfirðíngar vilea eige við honum taka. Þetta frèttir Brandr bónde í Höfða; hann ferr ok býðr Guðmunde biskupe til sín til vetrvistar, ok þat þiggr Guðmundr biskup blíðliga, ok er hann þar ij vetr. [Eptir þat fór Guðmundr biskup vestr til Hrútafjarðar, ok þaðan norðr til Steingrímsfjarðar, ok aptr til Saurbęjar, ok svá í Hvamm til Þórþar; var hann þá fjølmennr; kvómo þá orð frá Sturlo, at hann vilde eige at Guðmundr biskup fêre lengra. Ríðr Þórðr þá á Þorbergsstaðe, ok sömþo þeir frêndr þat, at Guðmundr biskup skylde fara norðr Lagsárdalsheiðe, en Sturla skylde fá til sauðe or Dölum, á Dönustöðum ok í Hjarþarholte, þar sem biskup skylde gista. Fór Guðmundr biskup þá síþan norðr til Hóla.

[1]Guðmundr biskup fór til þíngs um sumarit, ok var með Snorra um þíngit með mikla sveit manna. Snorre reið af þínge og þeir báðir saman ok Sturla; þar var ok Kolbeinn Sighvatsson ok Órêkja Snorrason, ok skyldo þeir báðir vera heimamenn Sturlo, ok fóro þeir báðir til Sauðafells með honum. Guðmundr biskup ferr vestr til Borgarfjarðar af þíngino. Með Guðmunde biskupe var prestr sá er Dálkr hèt, hann kallaðist vera lèknir góðr, ok [kunna] at gera at meinum manna. En er Guðmundr biskup giste at Borg, þá var talat um, hvárt Dálkr munde nokkut kunna at gera at sjúknaðe Hallbero; hon var þá sóknut[2] mjök. Dálkr kvazt kunna at gera henne laug, þá er henne munde batna, ef hon fenge staðizt; en hon var fús til heilsunnar, ok vilde hon hètta á laugina. Nú rèð hann til prestrinn at gera laugina, en hon fór í. Síþan vóro borin at henne klêðe, sló þá verkjonom fire brjóst henne; síþan andaðist hon. En er þat spurðe Kolbeinn únge, reið hann suðr um land, ok bað Helgo Sêmundardóttur, ok var hon gipt honum. Litlo áðr hafðe Hálfdan Sêmundarson fengit Steinvarar dóttur Sighvats, ok bjöggu þau at Keldum; vildo allir Áverjar hann helzt til höfð-

1) *Lát Hallberu*, *A* (240). 2) sjúknut, *St.*

íngja, en Hálfdan var óhlutdeilinn, ok hèlt sèr lítt fram um flesta lute; en þá bjó Björn í Gunnarsholte, hann hèlt sèr mest til mannvirðíngar þeirra brœðra. þeir Haraldr ok Vilhjálmr bjøggu í Odda, en Andres at Eyvindarmúla, áðr hann keypte Skarð at Katle þorlákssyne. Philippus bjó at Hvále, ok vóro þeir allir góðir bèndr, en mikit var heimt at þeim fire sakir föður þeirra.

[1]Hrafnssynir vóro við skip um sumarit, þeir lètu út ok urðo aptrreka undir Grímsey. þar var skerjótt er þeir kómo at, ok skuto þeir báte, ok ljópo þeir brœðr Einarr ok Grímr í bátinn, ok föronautar þeirra allir, [nema Guðmundr ok nokkrir Austmenn; þeir týndust allir[2], en skipit hèlzt, ok var upp skipat, en Sighvatr sá fire þeim Guðmunde[3].

## Frá Gizure þorvaldssyne.

100. þetta sumar kvómo þeir út á Eyrom Gizurr þorvaldsson, ok höfðo verit í Norege um vetrinn, ok sögðo þeir út víg Jóns[4], með þeim atburðum sem verit höfðo. Valgarðr Guðmundarson fór í Reykjaholt, ok segir Snorra frá tíþindum, ok þótte Gizure hann [lítt] bera sèr söguna. En er þorvaldr varð varr orðróms þessa, er á lèk um víg Jóns, þá lagðe hann fund með þeim Snorra ok Gizure, ok á þeim funde svarðe Gizurr fimtardóms eið, at hann hefðe í engum ráðum verit með Ólafe um áverka við Jón, ok hann vilde þá rèttum skilnaðe skilea í alla staðe. Lèt Snorre sèr þat þá vel skileast, er Gizurr sagðe. Fóro þau Íngibjörg þá til einnar vistar, ok var þeirra hjúskapr jafnan heldr úhœgr, ok sögðo menn, at hon ylle því meirr en hann; en þó vóro ástir miklar af henne. þeim varð barns auþit, ok hèt sveinninn Jón, ok lifðe skamma stund. Eptir þat dró til hins sama um ósamþykke þeirra, ok átto þeir í allan lut at semea með þeim, þorvaldr ok Snorre, ok gáfo þeim fè til samþykkis, XX hundrat hvárr þeirra, ok var þó sem ekke gerðe, ok kom því svá, at skilnaðr þeirra var gjörr.

[5]Guðmundr biskup fór suðr í sveit um sumarit. þetta

---

1) *Frá Rafnssonum, A* (241). 2) [ b. v. *St.*; v. í *A*.

3) getg.; bræðrum, *A*, *St.*; frá [ Eptir þat fór Guðmundr biskup o. s. frv., v. í *B*; þar næst v. í *B* kapp. 100—103, og fram í miðjan kap. 104.

4) þ. e. Jóns murta, svo sem sagt er frá í *St.* 5, 12.

5) *Frá ferðum Guðmundar biskups, A* (243).

var kallat sandsumar, því at eldr var uppe fire Reykjanese ok var grasleysa mikil. En [er] Guðmundr biskup kom í sveit Þórðar Sturlosonar, fèkk hann til Sturlo son sinn at fara með biskupe, ok skipa fólke á gistíngar, því at þá var mannfjölþe mikill með honum. Hann var fluttr af Eyre á skipe því er Langhúfr heitir, ok á annarre ferjo mikille til Bjarnarhafnar, ok svá til Helgafells; en þaðan var hann fluttr til Eyrar til Páls. En er Guðmundr biskup var þar kominn, kom þar Sturla Sighvatsson, Kolbeinn ok Órêkja, ok hrundo frá honum því fólke flesto, er þá var með honum, en lèto Guðmund biskup fara til Dala, ok svá norðr Haukadalsskarð, ok í sýslu sína. Um haustið fór um allt land sótt sú er hettusótt var köllut; af henne andaðist Íngimundr Jónsson, er var í för með Snorra Sturlusyne, fire sunnan land; hann átte bú at Skáneyjo, en hann var fylgðarmaðr Snorra.

Kómu út brèf Sigurðar[1] erkibiskups.

101. Nú er þar til máls at taka, at annat haust eptir kómu út brèf Sigurðar[2] erkibiskups, er þá var nýkominn í land; þau vóru mèlt heldr harðliga til þeirra Sighvats ok Sturlo um Grímseyjarferð ok um annan mótgang við Guðmund biskup; var þeim utan stefnt báðum feðgum, en rèðst af, at Sturla skylde fara fire þá báða feðga, ok leysa mál þeirra beggja. Lýste hann þá utanferð sinne; en Solveig skylde fara á Grund, ok börn þeirra meðan Sturla vêre utan, en Sighvatr skylde hafa umseá um ríke Sturlo, meðan hann vêre utan. Var þá enge höfðínge í Vestfjörðum, en þeir mestir af bóndum: Oddr Álason ok Gísle á Rauðasande, ok vóro þeir hinir mesto vinir Sturlo báðir; bauð Sturla Odde þar helzt um at geyma vina sinna, ok rèzt hann á Eyre um várit í Arnarfjörð, ok hafðe mart röskra manna með sèr. Oddr hafðe mikit fè ok rausnarbú, ok gekk svá við ráð hans ok sêmd; gerðist hann ofsamaðr mikill ok enge jafnaðarmaðr.

Utanför Sturlo.

102. Sturla Sighvatsson fór utan um sumarit at Gásum ok nøkkurir menn með honum; hann varð síðbúinn, ok tók

1) leiðr.; Þóris, *A*. 2) leiðr.; Þóris, *A*.

Noreg fire norðan Stað, ok hèlt til Borgundar; þar var þá Álfr af Þornberge, mágr Skúla hertoga, ok tók hann allvel við Sturlo, ok bað hann þar bíða, til þess er hertoginn kême norðan, ok sagðist hann mundo koma honum í vinátto við hertogann. Sagðe Álfr Sturlo, at hertoginn munde hann gera mikinn mann, slíkt afbragð sem hann var annarra manna; en hertogann kallaðe hann inn mesta vin Íslendínga, ok þó mestan Sturlúnga. En Sturla vilde ekke annat, en fara suðr til Björgynear á fund Hákonar konúngs; en þá var sundrþykke mikit með þeim mágum, ok drógu þeir þá lið saman, slíkt er þeir fengu; þeir fundust um haustið í Björgyn ok sèttust, ok þótte hertoganum sèr erfitt veita sêttin. Þetta var kallat hákarlahaust[1].

[2]Sturla var í Björgyn øndurðan vetr, ok bjóst til suðrferðar er á leið, ok fór fyrst til Danmarkar, ok fann þar Valdemar konúng inn gamla, ok tók hann allvel við Sturlo. Var hann þar um hríþ, ok gaf Valdemarr konúngr honum hest góðan ok fleire sêmiligar gjafir, ok skilðust þeir með hinum mestum kêrleikum, ok fór Sturla þá suðr í Þýðverskuland. Hann fann Pál biskup þar, ok vóro þeir allir samt út í Róma. Veitte Páll biskup allvel Sturlo föroneyte, ok var hinn meste fulltíngsmaðr allra hans mála, er þeir kómo til páva fundar. En Páll biskup fór fire því á páva fund, at hann var missáttr við Hákon konúng, ok deildu þeir um Eyna helgu, er liggr í Mjörs. Sturla fèkk lausn allra sinna mála í Rómaborg, ok var honum ráðit fire flestum höfutkirkjum, ok bar hann sik drengiliga, sem líklikt var. En flestir menn hørmoðo hann, ok mart fólk stóð úte, ok undraðist, ok barðe á brjóstið ok harmaðe, er svá fríðr maðr sýnum var svá hörmuliga leikinn, ok mátto eige vatne halda, bêðe karlar ok konur. Páll biskup ok Sturla fóro báðir saman í Norðrlönd, ok skilðust með hinum mestum kêrleikum; veitte hvárr öðrum góðar gjafir. Fann Sturla þá Hákon konúng í Túnsberge, ok tók hann allvel við honum; dvalðist hann þar lenge hinn síðarra vetrinn er hann var í Norege.

## Frá Sighvate.

103. [3]Nú er at segja frá Sighvate, at Eiríkr greife njósn-

---

1) hèr endar 394. 2) *Sturla fór til Rómaborgar*, *A* (241).
3) Hèr litr út sem felldir sè úr í *A* 2 kapp., *St.* 5, 26—27.

armaðr Styrmis kom á Grund, ok annarr maðr með honum, síð um kveld; sat Sighvatr í rúme síno ok hafðe tugla skinnfeld á herðum sèr, en lambskinnskofra svartan á höfðe. Þeir Eiríkr vóro spurðir tíðenda, en þeir sögðo liðsdrátt um Skagafjørð, ok søgðo, at þeir Kolbeinn ok Órêkja mundo þar koma um nóttina með ófriðe; en Sighvatr dêste við, ok kvað slíkt ekke gegna mundo, ok ekke varþ þá skjótlikt um ráðagjörð hans. Húsfreyja gekk þá til hans, ok segir at einsêtt var at senda eptir mönnum. Sighvatr bað hana senda eptir þeim, er henne líkaðe. Sende hon þá þegar menn út í Kaupángs sveit, ok þaðan norðr til Grenjaðarstaðar til Kolbeins, en þá lèt hann samna mönnum it neðra um hèrat. Síþan samnar Þorvarðr mönnum it efra um hèrat í Eyjafirðe, því at hann var vinsêll maðr. [1]Þorgisl Hólasveinn kom fyrst með XL manna, en allir bêndr vóro komnir [innan or Eyjafirðe[2] fire messo um morgininn; var Sighvatr þá í blám kyrtle ok stálhúfa á höfðe, ok eyxe silfrrekna í hende, ok var maðrenn þá miklo hermannligre en um kveldit, er njósnarmenn kómo. Gerðe hann þá menn á hestvörð upp á Skjálgdalsheiðe, en aðra út með firðe. Spurðist þá brátt, at þeir Kolbeinn höfðo aptr hørfit. Fóro þá bêndr heim, en Sighvatr hafðe fjölmennt ok varðhöld sterk. En þá er Sighvatr spurðe, at setur vóro á Skagafirðe, hafðe hann ok seto á Grund, ok kostaðe einn allt til, ok leið svá fram á vetrinn mjök.

Nêr biskup var í Høfða.

104. Nú er þar til máls at taka, at í þenna tíma var Guðmundr biskup í Höfða með Brande bónda. Sighvatr sende þangat menn, ok bauð Guðmunde biskupe til sín, ok vilde at hann vêre með honum í málum þessum. En er sendemenn kómo í Höfða, vóro þar fire sendemenn þeirra Kolbeins ok Órêkju, þeir er Guðmunde biskupe buðo vestr þangat. En með því at Órêkja hafðe lenge verit vinr Guðmundar biskups, síþan hann fèkk nokkurn þroska, ok Snorre faðir hans, þá virðe Guðmundr biskup þat mest, ok fór Guðmundr biskup vestr til Flugumýrar með þeim, ok var hann þar um føstuna.

---

1) *Liðsamnaðr*, *A* (248). 2) [ b. v. hèr; v. í *A*.

[1]Um várit sende Órêkja menn í Vestfjørðo eptir páska eptir liðe, ok fóro þeir vestan um várit, Illuge þorvaldsson með XXX manna. Með þeim fór ok or Laxárdal Svarthöfðe Dugfússon[2] ok Oddr, son Guðlaugs af Höskuldsstöðum. þeir Kolbeinn sendo menn austr í Fljótsdalshèrat til þórarins Jónssonar, ok báðu hann fara til liðs við sik, ok fór hann austan við XL manna. þar var þá með honum Ögmundr sneis, ok var hann þá á hinum átta tige, ok søgðu menn svá, at hann vêre vígligastr maðr í flokkinum með þeim þórarne.

## Liðsdráttr Kolbeins ok Órêkjo.

105. En er Sighvatr spurðe liðsdrátt þeirra Kolbeins ok Órêkjo bêðe vestan ok austan, þá dró hann lið saman, ok fór vestr til Skagafjarðar með CCCC. þar vóro með honum synir hans, Kolbeinn ok þórðr kakale. Eige vóro þá hinir ýngre vápnfêrir. þar vóro ok með Sighvate Rafnssynir, Sveinbjörn ok Krákr. En er Sighvatr reið ofan eptir Norðrárdal, var honum sagt, at Kolbeinn ok Órêkja vóro á Silfrastøðum með DC manna. þar var ok Guðmundr biskup, ok høfðo þangat riðit nokkorir menn Sighvats, ok vóro teknir ok flettir. Snere Sighvatr þá til Flatatúngu, ok var hann þar um nóttina með lið sitt; en þeir Kolbeinn vóro [á] Silfrastöðum.

[3]þar er nú til máls at taka, at um morgininn bjoggust hvárirtveggjo til bardaga, ok skriptaðe Guðmundr biskup mönnum þeirra Kolbeins, en Guðmundr biskup segir þeim þó, at þeir mundo eige berjast um daginn, „en þó man Sighvatr fara farar Haralds konúngs Sigurðarsonar", segir Guðmundr biskup[4]. þeir Sighvatr bjoggust við í Flatatúngu, ok fylktu liðe síno þar hjá húsunum í túnino. þá er þeir riðu norðan at Flatatúngo, reið þorsteinn Jónsson or Hvamme at Kolbeine, ok spur, hvernig hann êtlaðe til um viðskipte þeirra Sighvats, en Kolbeinn segir, at þeir skyldu þegar

1) *[Illuge] þorvaldsson fór vestr*, *A* (250). 2) Dufgusson, *A*.

3) *Sætt Kolbeins ok Sighvats*, *A* (251).

4) „hann herjaði á England, ok fèll þar á eignum annarra manna fyrir ágirni sina ok öfund"; enda fór Sighvatr svá, hann fór til Skagafjarðar, ok fèll þar ok synir hans á eignum annarra manna, ok fylldist svá þessi spásaga Guðmundar biskups sem aðrar, b. v. *B*. þar næst kemr i *B* Viðb. kap. 14 ff.

berjast er þeir fyndist. Þorsteinn sagðe menn vildo veita honum til sêmiligra sêtta, en berjast eige við Sighvat. Kolbeinn brá sverðe, ok vilde leggja til hans, ok bannaðist um, en Þorsteinn bar af sèr lagit. Þá vilde Kolbeinn leggja til hans spjóte; kom þá at Órêkja, ok tók hann, átto þá margir menn lut at, ok svafðist hann, ok var Kolbeinn þó allreiðr. Síþan riðu þeir upp til Flatatúngu, ok ljópo af hestum sínum ok heim á bêinn; en er þeir sá fylkíng Sighvats, þá var liðit meira en þeir hugðo til, ok varð þeim bilt um árásina. Þá tók Sighvatr til orða: „ekke þurfum vêr at ugga þá, er þeim varð bilt í fyrsto". Eptir þat gengo stórbêndr or Eyjafirðe or liðe Sighvats ok nøkkurir menn or liðe Kolbeins, ok leituðo um sêttir. Þar var þá með þeim Ólafr af Steine; hann var þá í fyrsto ferð út híngat, ok var hann heimamaðr at Keldum með Hálfdane; þá var hann xviij vetra, ok allra manna vaskligastr. Kom þá svá, at hvárirtveggjo lýddo á fortølur manna, ok sêttust á þat, at Magnús biskup skylde gera um málin[1]. . . . . .

---

1) hèr þrýtr *A* algjörliga (sjá *St.* 5, 29).

---

# VIÐBÆTIR.

---

## I[1].

### Hèr hefr upp prologus sögu Guðmundar biskups[2].

1. Eins hæsta allsvalda guðs speki ok forsjá, öllum hlutum sætliga ok miskunnsamliga skipanda, prýd[d]i eigi at eins ok lýsti sína eigin brúði, heilaga kristni, með inum fegurstum gimsteinum ok lýsandi lömpum sinna útaligra manna, um austrhálfu, suðrhálfu ok vestrhálfu hemsins, heldr ok jamvel um enu yðstu útskaga norðrhálfunnar, hvár er allra mest var forðum hörðnut af grimleiksins frosti þeirra ótrúlyndra þjóða, er þar bygðu, ok steni harðari hjörtu höfðu í sinni þrjózku ok óheyranligri óhlýðni við sína andliga feðr ok guðs eyrendreka; af hverjum er var sem en skærasta stjarna, með enum fagrligstum geislum sinna góðra verka, þessi góði guðs vin, Guðmundr biskup Arason, hverr er þoldi margar ok stórar meingjörðir af sínum undirmönnum, firir guðs sakir, ok til friðar ok frelsis almennilígri kristni, svá sem heyrast má í hans eptirfarandi sögu, hver er skipt er í þrjá þriðjúnga. Í enum fysta þriðjúngi er greind ættartala hans ok frænda hans, ok uppruni hans ok lifnaðr, framan til þess er hann var vígðr til prests. Í öðrum segir frá þeim tíðindum, er gjörðust meðan hann var prestr, ok heitir sá hluti sögunnar prestssaga hans. Í enum þriðja er sagt frá þeim þrautum ok ónáðum, er hann þoldi í sínum biskupsdómi af sínum mótstöðumönnum, ok frá lífláti hans, ok þar með at lyktum eru skrifaðar nokurar jartegnir, þær er almáttigr guð hefir látið sèr sóma at vinna, firir sakir verðleika þessa síns þjónustumanns, ens góða Guðmundar biskups, honum til vegs ok virðíngar. Er ok þessi sögu því fullkominliga vel trúanda í alla staðe, at hana hafa

---

1) Brot úr miðsögu Guðmundar biskups (*B*) eptir skinnb. AM. 657 *C* (4).
2) sjá bls. 409 athgr. 6.

saman sett góðir ok skilríkir menn, þeir er kunnust vóro þau tíðindi, er hèr er á skrifuð.

2. [1]Frá því er at segja, at Kolbeinn reið einn tíma um Kjöl ok fylgðarmenn hans, ok húsfrú hans, fríð kona ok sæmilig; þau koma á einn völl undir einn hamar; taka þeir af hestum sínum ok reisa tjald við hamarinn; fór Kolbeinn ok menn hans til leiks, en húsfrú hans var ein í tjaldinu ok kemfði sèr. Sem þeir hafa litla hríð leikit, kveðr hon við hátt ok sárliga. Sem Kolbeinn ok menn hans heyra þat, hlaupa þeir inn í tjaldit, ok er konan þá í brottu; leita þeir hennar þá nær ok fjarri, ok finna eigi. Kolbeini þótti þetta svá illa, at hann gáir eingis. Hann tekr þat ráðs, at senda ij menn til Guðmundar prests á Víðimýri, ok biðr hann koma til sín, en Kolbeinn beið þar meðan ok menn hans. Sendimenn finna Guðmund prest, ok segja honum, at Kolbeinn er sjúkr á fjalli, „ok beiðir með lítilæti, at þèr komit til hans". Guðmundr prestr mælti: „satt segi þèr, at Kolbeinn er sjúkr, ok þó eigi líkamligum sjúkleik, heldr at hugar angri ok sorg; skal þó at vísu hitta hann". Ok sem þeir finnast, segir Kolbeinn allan þann atburð, sem fyrr var sagðr, ok hèr með biðr Kolbeinn Guðmund prest, at hann biði til guðs, at þeir verði víser hvat af henni væri orðit: „þætti mèr," segir Kolbeinn, „mikill lèttir harms míns, ef ek mætti líkam konu minnar sjá, svá at ek mætta í vígðri moldu líkam hennar grafa miðal[2] annarra kristinna manna". Guðmundr prestr gengr þá inn í tjaldit, en biðr þá alla út ganga; en er hann hefir beðizt firir frá rismálum ok til dagmála, þá kallar hann Kolbein til sín; sèr Kolbeinn, hvar húsfrú hans liggr í grasinu mjög ólík ok fyr at sjá at yfirbragði, því at hon var bæði blá ok þrútin ok all[ó]hugkvæmliga snöruð ok snúin, ok ólíkt kristnum mönnum, ok fullkomit dauð. Við þessa sýn kemst Kolbeinn mjög við, ok mælti við Guðmund prest: „svá sem harmr minn var mikill áðr, þá hefir mjög á aukið í þessi sýn, ok af því bið ek þig, enn góði prestr! í guðs nafni, at þú þiggir af guði, at hon fengi líf sitt ok vit, ok mannligan lit". Guðmundr prestr svarar svá: „bið mig eigi þessa, er ek hefir öngan verðleik til at þiggja". Kolbeinn fellr

1) sjá bls. 459 athgr. 3. 2) milldal miðal, *B* misritað.

þá til jarðar með viðkomnu hjarta, biðjandi með hörmuligri kveinkan sárligra orða þenna góða prest líta miskunar augum til sín. Eptir mörg andvörp ok mikla sýting kemst Guðmundr prestr við af sinni huggæði, ok biðr Kolbein út ganga. Að liðnu hádegi kallar Guðmundr prestr Kolbein til sín annat sinn. Hann sèr húsfrú sína liggja með fögrum lit ok náttúrligu yfirbragði, sem fyr hafði hon. Gęngr Kolbeinn þá til með fagnaði, ok finnr at líf er með henni; en svá var hon máttlítil, at hon fèkk ekki talat. Guðmundr prestr mælti: „margfalliga áttu, Kolbeinn, guði at þakka firi þá mikla miskun, er hann hefir þèr veitta, gefandi líf húsfrú þinni ok vit með heilum ok ósköddum líkam, áðr af trorllu[m] volkaða, ok er þat tillaga mín, áttu sèr hlýðinn guði ok heilagri kirkju. Húsfrú þín mun leingi lifa". Kolbeinn sagði: „þakkir gere ek guði ok þèr, því at ek trúi þig sannhelgan mann, ok alla mína lífdaga skal ek þig elska, ok halda þig minn traustasta vin". Guðmundr prestr svarar: „vel segir þú þetta, því at þar mun nú þinn hugr á standa svá at gera. En þó varir mig, at þat verðe þinnar æfi, at þú verðir minn enn sterkasti ok enn mesti mótstöðumaðr ok minna mála, en æ því meiri sem leingra líðr fram á okkra æfi. En ek bið, at þú þakkir guði firir fagra jartegn, er hann hefir þèr veitta, en kenn ekki þat mèr syndugum manni". Kolbeinn hèt þessu, ok skildu síðan með inni mestu vináttu þat sinn, þó at skamma stund stæði, sem enn mun siþar sagt verða í þessi sögu.

---

## þriði hlutr.

3. [1]þar hefr upp inn þriðja hlut[2] af sögu Guðmundar prests Arasonar, ok tekr þessi hlutr til þess, er hann kemr heim til Hólastaðar þá er hann var vígðr til biskups. En þat er upphaf þessa máls, sem fyr var frá horfit, at Guðmundr prestr Arason fór yfir Austfjörðu. þá bar þat til tíðinda at Hólum í Hjaltadal, at Brandr biskup Sèmundarson leið af þessu stundliga lífi til annars lífs eptir guðs tilskipan; urðu þau tíðindi einni nótt eptir *Transfigurationem domini*. Frèttist þessi fyrgreiɴ tíðindi bráðlíga um allt Ísland. En þá er Guðmundr

---

1) sjá bls. 470 athgr. 2.

2) kap. 5 er þó að rèttu lagi niðrlag prestssögunnar.

prestr kom til Austfjarða, var hann at Barðolomeus messo á þeim bæ er at Stafafelli heitir, ok á sjálfan messodaginn, um óttusöng, frètti hann anlát Brands biskups; en við þau tíðindi varð honum svá dátt, sem hann væri steini lostinn; þá lèt hann þegar sýngja sálumesso um predican, en um daginn eptir allar sálutíðir ok líksöng með allri ást ok vandvirkt.

---

4. [1]En er þeir vóru komnir í svá mikinn háska, þá urðu engi orræði kaupmanna. Þá mælti biskupsefni: bað Rafn taka til at stýra, kvað mikit mundu mega giptu hans, ok frèttir hans fróðligar. Rafn svarar: „dýrt er drottins orð," ok bað biskupsefni gefa sèr blezan, ok kvazt mundu til taka í guðs trausti ok hans. Stýrimenn kölluðu honum djörfúng mikla at takast slíkan vanda á hendr, þar er hann átti ekki í skipi, ef eigi tækist vel. Rafn kvazt eigi þenna vanda á hendr takast, ef nokkurr þeirra vildi til taka: „en þèr megit sjá at eigi mun svá búit hlýða, ok verðr or hverju vandræði nokkut at ráða". En eingi þeirra kvazt til munu taka þessa vanda. Síþan tók Rafn til leiðsagnar með samþykki allra stýrimanna. Þessa getr Guðmundr skáld:

Foraðs vanda hygg ek fundu:
firirsagnir þraut bragna,
þjóð varð þá við leiði
þreytin segl[s] at neyta:
blátt[2] var um borð at líta
brekafall vegu alla
bræd[d]r þar er bárum rud[d]i
barðjór of skergarða.

Nú er þeir vóru komnir í svá mikinn háska, þá mælti Rafn, at þeir skyldu sigla at eyjunum, en hann kvazt mundu firir segja sem honum þætti líkast; ok svá gerðu þeir, at þeir sigldu um nóttina, en hann sagði firir með miklu viti ok gæfu. Þat sagði Tomas Þórarinsson, at þat veri iij sinnum, at hann kvazt eigi annat sjá en land firir stafninn, ok eigi mátti vita, hvárt þar vóro nokkur sund eða eingi. Þess getr Guðmundr skáld:

---

1) sjá bls. 484, athgr. 4. Þessi kap. stendr og í Rafnssögu, hèr merkt *R*. 2) *R*; blott (= blótt = blátt), *B*.

Gekk á græðis blakki
greppr um nótt við ótta,
Ramn varð sem ek get gumnum
gagnsmaðr, til leiðsagnar:
höggr fèkk hvárutveggja
hugtorgs vita borgit,
suldi[1] segl ok boldi[2],
svall hrönn[3], skipi ok mönnum.

þat var jamsnemma, er þeir vóro komnir í gegnum eyjarnar, ok þá sá þeir dagsbrúna. þá kvað Eyjólfr vísuhelmíng þenna:

Báru [austr frá[4] Íra
ættlandi ske branda
[hregg áðr[5] himna tiggi
heitbyr fírum veitti.

þá tók Grímr at kveða:

Sèr á sigling vára
Suðreysk kona, þuðri[6]
súð gerast nú nauðir,
námgjörn, er hrýðr[7] stjörnum.

þessu næst koma þeir í góða höfn við ey þá er Sandey heitir, ok þar reistu kaupmenn hafnarmark. Svá sagði Grímr:

Hèr hefir beitt[8] á brattri
Bótólfr skipi fljótu,
áðr fèll sjór um súðir,
Sandeyju[9] ske branda:
reisti sjálfr ok sýsti
snarr fèlagi harra
hafnar mark firir hrefnis
[happsverk gota[10] sterkan.

þeir lágu við Suðreyjar í góðu lægi nokkurar nætr; þá rèð firir Suðreyjum Ólafr konúngr. þar kom til þeirra sýslumaðr konúngs ok heimti at þeim landaura, eptir því sem lög þeirra Suðreyga vóru til, ok at þeir ætti at gjalda XX hundra[ða] vaðmála, því at þar vóru XX íslendir menn á skipinu. þeir vildu

---

1) svalði, *R.* 2) bulði, *R.* 3) svalhrönn, *R.*
4) *R*; [öll firir, *B.* 5) *R*; heggoðr, *B.* 6) *R*; þyði, *B.*
7) *R*; hrauð, *B.* 8) *R*; beint, *B.*
9) *R*; Sandeyjar, *B.* 10) *R*; hafsverk vita, *B.*

eigi gjalda, því at þeir vissu, at þeir urðu at gjalda annat slíkt í Noregi. Eptir þetta gengu þeir Rafn ok biskupsefni á land mjög margir, ok til kirkju, því at biskupsefni vildi hafa tíðir; þar var kominn konúngr, ok bauð biskupsefni til borðs. En er biskupsefni vildi brot fara, þá sagði konúngr, at biskupsefni skyldi gera honum rètt, ella kvazt hann mundu halda þá, en biskupsefni tók því þverliga. Rafn sagði slígs von, ok bauð at gera konúngi sæmdir; en hann kvazt þat skyldu hafa, er hann átti. En er stýrimenn urðu varir við þetta, at þeir biskupsefni ok Rafn vóru haldnir, þá bað Bótólfr, at menn skyldu taka vopn sín, kvazt eigi svá skyldu skilja við svá vaska dreingi, at hann vissi eigi hvat liði um þá. En er þeir vóru búnir, hljópu þeir í bátinn ok reyru at landi, gengu þeir upp með fylktu liði; en Suðreygar sátu undir einum hóli ok þeir biskupsefni. Fóru þá menn í milli þeirra, ok varð þat at sætt áðr en lauk, at þeir biskupsefni guldu vj hundrut vaðmála. Eptir þetta fóru þeir biskupsefni til skips síns, ok sigldu góðan byr ok urðu vel reiðfara; koma við Noreg skipi sínu suðr frá Þrándheimi, þar sem á Eiði heitir. Þar frèttu þeir andlát Sverris konúngs, þar lágu þeir um nóttina. Þaðan sigldu þeir norðr til Þrándheims; hèldu þeir skipinu í Niðarós. Þá kvað Grímr vísu:

*Hèr náðum val víðis*, (sjá bls. 485.)

Í Noregi vóru þeir um vetrinn, ok vóru margar stefnur at áttar, ok taldist biskupsefni mjög undan, ok lèzt lítt til fallinn þessa embættis; eru þar margar frásagnir áðr en Guðmundr var vígðr. En með umráðum Rafns ok annara góðra manna, þá var hann vígðr til biskup[s] af erkibiskupi á messodegi heilagrar meyjar Evfemi[e]; þá var Hákon Sverrisson konúngr yfir Noregi. Svá segir Guðmundr skáld:

Rymgæðis varð ráða
randar [hóts at[1] njóta
vitr áðr vígslu gæti
vegsmaðr náð saðri:
kjölrennir fór kanna
kynfriðr [at þat[2] síðan,
trú þá er tókst með lýðum
trygð, Háleygja bygðir.

---

1) [ þann. *R*; hót ok, *B*. 2) [ þann. *R*; af því, *B*.

Rafn fór um vorit norðr á Hálogaland. Um sumarit eptir fóru þeir Guðmundr biskup ok Rafn út til Íslands ok kvómu skipi í Mjófafjörð í Austfjörðum; þá fór biskup til Hóla til biskupsstóls síns, en Rafn fór vestr í Fjörðu heim til bús síns á Eyri: ok áðr þeir biskup skildust, gaf biskup Rafni stóðhross góð ok sólarstein ok kyrtilsbúnað, ok þeir skiptu kyrtlum brúnuðum til minja, eptir því sem Rafn beiddi. þessa gripi átti Rafn meðan hann lifði. En er Rafn var drepinn á Eyri, þá tóku þeir sólarstein[inn] ok kyrtilinn með búningi, ok sýndist þeim steinninn hegettill, en kyrtillinn vondr sloftötur, ok köstoðu. Eptir þenna atburð virðu menn svá, at þorvaldr mátti því eigi þessa gripa njóta, at Guðmundr biskup hafði átt.

5. [1]Nú er sagt frá uppruna virðuligs herra Guðmundar biskups Arasonar framan til þess er hann var biskup, ok mun svá at hyggjast þeim er þessa sögu lesa eða heyra, at fár munu prestasögur þvílíkar á bókum ritnar, ef með rèttum hug er virt, hversu háleitr guðs kraptr hefir hann styrktan til síns biskupsdóms, hversu sem síþan hefir skipazt atferð hans eða hættir í biskupssýslunni, því at þat hefir í mörgum óöldum verit. Nú megu allir menn firir því efanarlausir at vera um þessa sögu, þvíat hana hafa saman setta góðir menn ok öfundarlausir, bæði vinum biskups ok óvinum; máttu þeir ok vita gjolla þessa atburði, er nú eru sagðir, er þeir fæddust upp jamfram Guðmundi biskupi, ok vóru við þessi tíðindi, er nú vóru sögð.

6. [2]Hèr hefju vèr upp sögu herra Guðmundar biskups Arasonar, til gamans þeim mönnum, er hana vilja heyra með góðfúsu brjósti, þvíat þat er öllum góð skemtan, þeim er gott vilja heyra, en hinum gerir ekki góð skemtan, er eigi vilja til hlýða, eða at hyggja, ok allra sízt þeim, er til háðs virða þat sem gott gaman er góðra manna. Nú biðjum vèr guð ok alla heilaga menn, at þessi frásögn verði öngum at ábyr[g]ð þeim er lesa eða rita, eða hèr leggja nokkut gózs til í orðum eða öðrum góðum hlutum, því at hon þarf mjög góðra manna tillögu, því at hon hefir leingi í salti legit, ok eru nú allir dauðir, þeir er hana ætluðu langa at gera, ok gyost vissu ok bezt mundu vilja, ef þeim hefði lífit til enzt. Bar ok svá til um þat, er

1) þessi kap. er *epilogus* eðr eptirmáli prestssögunnar.

2) þessi kap. er nokkurskonar *prologus* biskupssögunnar.

menn höfðu fjölda brèfa ritað ok í einn stað komit, í Laufáskirkju, ok brunnu þau þar inni öll í kirk[j]ubruna e[i]num, ok munu þau aldri síþan ritin verða[1].

Þat skal nú rita, hversu mikill spámaðr herra Guðmundr biskup hefir verit í framsýni sinni, þó at þat hafi á ymsum tímum verit; tek ek þar fyst til, er segir í prestssögunni, á Víðimýri enn fysta aptan, er hann var til biskups kosinn um daginn áðr, en Kolbeinn breiddi dúkinn á borðit ok mælti svá: „eigi er dúkrinn svá virðuligr, sem vera skyldi, hann er slitinn"; en biskupsefni svarar: „øngu skitir um dúkinn, en þar eptir mun fara biskupdómr minn, svá mun hann slitinn, sem dúkrinn er". Kolbeinn þagnaði ok brá lit við. Nú er sjá en fysta spásaga hans, ok er þetta mikit framsýni, at því sem eptir kom í biskupdómi hans.

Nú skal segja aðra spásögu Guðmundar biskups. Þórðr hèt maðr, hann var faðir Böðvars, föður Þorgils skarða; hann var mikill vin Guðmundar biskups. Þórðr bað þess eitt sinn, er þeir fundust, ok mælti svá: „þat vilda ek, biskup, at þú segðir mèr, hversu gamall maðr ek mun verða". Biskup svarar: „eigi má ek segja þèr þetta, því at ek veit þat eigi". Hann svarar: „veiztu þetta, sem mart annat þat er þú vill, ok þarftu eigi undan at fara um þetta". Biskup mælti: „ráða mun ek þèr ráð ef þú vill". — „Hvert er þat"? sagði Þórðr. Biskup mælti: „þá er þú frèttir anlát mitt, þá láttu sem þú munir eigi leingi lifa þaðan frá". Nú skilja þeir at þessu, ok líðr löng stund, til þess er Þórðr tekr sótt í elli sinni, ok er hann hafði legit í sóttinni nokkura stund, þá frètti hann anlát Guðmundar biskups; hugsar nú um tal þeirra Guðmundar biskups ok ráð hans, sendir nú orð vinum sínum ok frændum, ok býst við framför sinni, ok andaðist or þeirri sótt. Nú fylldist svá þessi spásaga Guðmundar biskups, sem margar aðrar.

Enn er at segja þriðju spásögu Guðmundar biskups, þá er gjörðist öndverðliga í hans biskupsdómi, en þat var með þeim hætti, at kona sú var með biskupi, er Hallbera hèt, ok var kölluð hetta; hon var dóttir Þórólfs hatta, af því var hon hetta köllut. Hon mælti við biskup: „segðu mèr, herra minn, þat er mèr er allmikil forvitni á". — „Hvat er nú"? sagði hann. — „Hve nær mun helgi þín upp koma"? segir hon. Hann svarar: „þegi þú,

---

1) sbr. ísl. Ann. árið 1258.

fífla þín, ok spyr mig ekki þess, þvíat ekki mun helgi mín upp koma". — „Eigi má þat vera", segir hon, „svá mörg guðlig verk sem þú vinnr í þessu lífi, ok trúi ek því, at guð láti eigi helgi þína minni eða ríki en nú er hèr, ok segðu mèr þetta, er ek spyr þig, því at allt þetta ok annat veizt[ú], ef þú vill". Guðmundr biskup svarar: „þat fær engi gjört at þekta þig af því, sem þú tekr upp, svá ertu fylgin þínu máli; en nú til þess at þú þagnir, þá mun ek segja þèr mitt hugboð ok framsýni, ef svá verðr, sem ek get: at þá er liðit er frá anláti mínu hálfr fjórði tögr vetra, þá munu bein mín or jörðu tekin méð þeim atburðum, sem guð vill at verði"[1]. Nú mega allir menn skilja af slíkum atburðum ok frásögnum sem nú eru sagðar, hversu mjög enir fyrri menn hafa trúat á orð Guðmundar biskups, jamvel enir vitrustu, sem óvitrare, jamt vinir sem óvinir, sem sagt mun verða, áðr þessi sögu lýkr. Hèr munu vèr nú standa láta at segja frá spásögum Guðmundar biskups; ætlu vèr ok, at þessar spásögur hans sè í leingsta lagi, þær er hann hafði fírirsagt af gipt heilags anda, sem Salomon konúngr sagði: „öll spe[k]t er af guði ok ávallt með honum, ok er æ ok æ". Munu vèr ok svá virða, vinir ok frændr Guðmundar biskups, ok sannliga trúa, at sá guð, er alla góða hluti veitir ok gefr sínum vinum, hafi hann efldan ok styrkta[n] í gegn sínum óvinum, er honum vildu fírirkoma í öllu illu, því er þeim kom í hug ok þeir máttu, í orðum ok verkum. Nú skal hèðan af segja þau tíðindi, er hèðan af urðu í viðskiptum þeirra Kolbeins Tumasonar ok Guðmundar biskups Arasonar ok annarra höfðíngja, hversu harðliga þeir lèku við hann á marga vega, sem nú mun sagt verða í eptirfarandi frásögnum.

---

7. [2]Fírir Maríu messu um kveldit var hríngt á staðnum öllum klukkum til aptansaungs, ok er svá frá sagt, at þeir Kolbeinn hey[r]ðu eigi klukknahljóðit þar er þeir vóru í gerðinu, ok er þat litlu meirr en örðrag frá staðnum. Þá mælti Kolbeinn: „reiðr er Guðmundr mágr minn nú, er hann lætr eigi hríngja

---

1) sjá kap. 37. (um 1273), þó var það í raun rèttri árið 1314 að heilagr dómr Guðmundar biskups var úr jörðu tekinn, ok mætti vera, að hèr ætti að standa: „hálfr *átti* tugr".

2) sjá bls. 494 athgr. 3.

at staðnum slíka hátíð sem nú er í dag". Kolbeinn kvað vísur þessar um daginn áðr en hann fèll:

Heyrðu himna smiðr
hvers er skáldit biðr:
komi mjúk til mín
miskunn þín,
því heit ek á þig
þú hefir skapaðan mig,
ek er þræll[inn] þinn,
þú ert drottinn minn.

Guð heit ek á þig
at þú græðir mig,
minnstu mildíngr mín,
mest þurfum þín:
ryttu röðla gramr
ríklyndr ok fram[r]
hælds hverri sorg
or hjartaborg.

Gættu mildíngr mín,
mest þurfum þín,
hælz hverja stund
á hölda grund:
sentu meygjar mægr!
málsefnin fögr,
öll er hjálp af þèr,
í hjarta mèr.

Nú ríðr biskup af staðnum við iij c[1] manna; þar vóro með honum iij ábótar og ij múnkar ok nær iiij[2] tigum presta, ok mart leikmanna ok klerka sveit mikil; þar var ok mart röskra manna, en sumt vóru strákar ok stafkarlar ok göngukonur. Ok er þeir Kolbeinn sjá at biskup ríðr í brot, þá tók til orða Brúsi prestr ok mælti við Kolbein: „þar ríðr nú biskup í brot með virðíng ykkra beggja". Kolbeinn bað þá menn taka hesta þeirra, ok kvazt eigi þola, at biskup riði brot með skógarmenn hans. Kolbeinn ríðr nú firir þá Ögmund með cccc manna ok fylkir liði sínu. Biskup víkr þá af veginum, ok vill ríða fram anna[rs]staðar, en Kolbeinn snýr þar í móti; ok er flokkarnir mættust, þá lýstr í bardaga. Guðmundr biskup sat á hesti, ok með honum ábótar ok múnkar ok nokkurir prestar. Biskup kallaði þá, at eigi skyldi berjast, en eingi maðr lèt sem þat heyrði, er hann talaði. Bessi Vermundarson frá Móbergi gekk fast fram, ok spurði hvar Ögmundr sneis væri. Nad[d]r hèt fylgðarmaðr Ögmundar, hann svarar Bessa: „þat er líkara, Mó-Bessi, at þú hittir oddinn á hjalta sneisinni, áðr sjá dagr líði af, ok ósýnna, at þú sneisir mör þinn optarr þá er it skilit." Naddr hljóp í mót Bessa ok barðist alldja[r]fliga, en þó fóru svá þeirra viðskipti, at Bessi vo Nadd. Ögmundr kom at í því er Naddr fèll, ok tók til orða: „fast gengr þú fram, Bessi."

1) iij. ccc., B. 2) xl, B.

„þat skaltu finna," sagði Bessi, „at ek skal ganga nær þèr". Ögmundr svarar: „þat skal eigi leingi, at þú hrósir því". Síþan hljóp hann at Bessa í því er hann vo Naðr; brynjan Bessa var rúm, ok hljóp hon fram undir hendr honum, er hann laut. Ögmundr hjó til Bessa með sverði[1] á hrygginn firir neðan brynjuna, ok þar í sundr í tvau; dó[2] Bessi þar, ok fann svá sneis, er hann leitaði um daginn þá er þeir Naddr töluðust við um daginn. Ögmundr kvað þá vísu þessa um fall Bessa ok bardagann í Víðinesi:

Bessi hnè þar er breiðar
bitu eggjar lið seggja
vægðar trauðr at víðri
Vermundarson grundu:
lètu lagðir spjótum
líf þar er brustu hlífar,
góð vörðu fjör fyrðar
fúsir, þórðr ok Brúsi.

Biskups menn börðust djarfliga, Konáll Sokkason, Sveinn Jònsson, Vigfús kennimaðr og margir aðrir. Kolbeinn Tumason fèkk steinshögg í bardaganum í ennit, ok fèll hann við; þat var banasár hans, en þó hafði hann vit sitt ok beiddist prests fundar, ok þat vildi biskup gjarna. Lagði Kolbeinn þá allt sitt mál á biskups vald ok kirkjunnar rèttindi; tók hann síþan þjónustu, ok andaðist eptir þat. Ekki varð víst, hverr steini þeim hafði kastað, er Kolbeini varð at bana, ok eingi maðr veit þat enn í dag, en þat er frásögn þeirra manna, er þar vóru, at or lopti ofan sá þann stein fljúga.

8. [3]Nú er frá því at segja, er þó var fyr en þat er nú var frá sagt: Kona Kolbeins var Gyríðr dóttir þorvarðar þorgeirssonar; vóru þau bræðra börn: Guðmundr biskup Arason ok Gyríðr, at fræ[n]dsemi. þar var ávallt in mesta blíða með þeim biskupi ok henni, hversu sem með þeim Kolbeini var ok biskupi, ok allt bætti hon um með þeim þat er hon mátti. Gyríðr spurði biskup einu sinni, er þau töluðu marga hluti með sèr: „hvat ætlar þú, fræ[n]ði, hvárt Maria drotning launi Kolbeini nokkuð í þessum heimi þat er hann kveðr um jartegnir hennar ok dýrðir". Biskup svarar: víst mun hon launa honum þá er

1) sverðinu, *B.* 2) dó, *B.* 3) sjá bls. 495 athgr. 1.

hann þarf mest". „Nær mun þat, er hann þarf mest", segir hon. — Biskup mælti: „hvinær ætlar þú at hann þurfi mest?" — Hon svarar: „þat vilda ek at Maria veitti honum fyst hèr í heimi, at hann gerði aldri í móti þèr". Guðmundr biskup mælti: „lètt mun honum þat falla, er hann gerir í móti mèr, ef ek skal ráða". Gyríðr svarar: „vel mun þèr fara, frændi, en þat allt bezt, er mestu varðar, en allhrædd er ek um þó, at honum verði eigi at öngu þat er hann gerir í móti þèr"; ok nú fær á hana, ok grætr hon af tali þeirra ok hugboði því, er hon hafði í brjósti, en biskup huggaði hana, sem alla aðra, þá er hann sá hryggja, því at hann mátti ekki aumt sjá, ok mælti hann svá til hennar: „gráttu eigi, frænkona, guð mun sjá til með oss, ok verði sem hann vill, þat mun bezt gegna öllum oss". Nú kom sjá spásaga Guðmundar biskups fram þá er Kolbeinn var at bana kominn, ok hann bað biskup miskunnar, en guð hjálpar; þá mælti biskup: „nú mun Maria launa þèr kvæði þín, ok helgir menn guðs, er þú hefir ort um, enda þarf þú nú mest; skal ek nú ok miskunna þèr þat er ek má"[1].

---

1) Af Mariukvæðum Kolbeins er nú ekkert til, en í Jóns sögu guðspjallamanns (AM. 649. 4.) eru tilfærð 5 erindi, úr „Jónsvisum" Kolbeins. Þetta kvæði var 47 erindi, en var ekki sett stefjum. Þetta var í öndverðu kvæðinu:

Angrfellir vartu öllum
einn postulum hreinni
heilags Krists í hæstu
happskeytr föruneyti:
unni engum manni
jafnheitt friðar veit[t]ir
þýðr sem þèr ok móður,
þat er minniligt, sinni.

Miðr gekk þú einn en aðrir
öðlings frá píningu
svikbannandi! sunnu
snjallr postular allir:
því at drengr í styr ströngum
stótt þú hjá kvöl dróttins
blíð ok bragnings móðir
byrstrandar grátandi.

Sjálfr kallaði sællar
sólknarra[1] þik harri
son Márie særar[2]
sund-hyrs í kvöl bundinn:
ráð fal ræsir lýða
risnu kendr á hendi
díks áðr dauðann tæki
dagrennir! þèr hennar.

Kænn lèzt þú hag hreinnar
höfðingi drotningar
hafs meðan hyrþöll lifði
hugat blíðliga síðan;
þèr var hon sem hárar
hildingr skipa vildi,
ykkr lofar, ela þekju,
öll þjóð, í stað móður.

Nær enda kvæðisins stóð þetta erindi:

Frami gengr hátt sá er himna
herteitir þèr veitir
snardeilandi! sólar
sunds á margar lundir;

1) sólknarri, skb. 2) sær = Sýr?

9.[1] . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . .
. . . ge[r]sema, þetta allt firirlèt hann, svá at hann veitti þat hverjum er hann bað, ok svá þeim er hann báðu eigi, ok hann sá mjög þurfandi, þá hugði hann þeim sjálfr þat er þeir þurftu. Nú mega menn sjá ok skilja af þessum frásögnum, hversu mjög alþýða manna mundi at honum sækja, eða spara hann lítt þessa, er hann sparði sig eigi sjálfr til. En þó var þetta ósækilig sök, þótt hann gerði skyldu sína firir guðs sakir við kristna menn, því at guð sjálfr mælir svá: „elskaþu náúng þinn firir guðs sakir", ok segir svá: „eigi skaltu manninn firirlíta þótt syndugr sè, heldr syndirnar, ok skilja þær frá honum, ef má". Nú gerði Guðmundr at heldr sína skyldu í þessum hlutum, er nú vóru sagðir, þar sem hann var biskup skipaðr til rèttra hluta af guði ok mönnum, þvíat þessa er hverr kristin[n] maðr skyldr, at elska náúng sinn sem sjálfan sig; því hirði Guðmundr biskup um ekki, nema þat at hjálpa mönnum, at hann vissi, sem allir vita rètttrúandi menn, at guð sjálfr lagði alla stund á at hjálpa mönnum, ok gerði Guðmundr biskup því þetta eptirdæmi guðs sonar, at hann sá, at þetta var æðra en hvert annarra, því at öll önnur drottinlig teign lúta þessu yfirstórmerki almáttigs guðs, ok leysa menn or helvíti; ok firir þessar sakargiptir stefndi erkibiskup Guðmundi biskupi á sinn fund.

Þenna tíma kom út brèf Þóris erkibiskups, ok vóru þá utanstefníngar, ok tekit þúngliga á óvinum Guðmundar biskups. Kyrðust þeir Arnórr nokkut við þat. Þetta brèf mælir svá: „Þórir erkibiskup sendir hörmúngar orð ok heilræða Arnóri Tumasyni ok Sigurði Ormssyni, Þorvaldi Gizurarsyni, Jóni Sigmundarsyni, Halli Kleppjárnssyni, Snorra Sturlusyni. Sannligt þikkir oss at byrja várt eyrendi af hörmúng ok heilræðum, því at svá sem vèr eigum at fagna yðrum fagnaði, svá eigu vèr at ófagna ok yðrum ófagnaði, þvíat sýsla vor ok Pètr postuli

hár er á hvern veg meiri | aldagarðs með orðum
hyrbjóðr en kyn þjóðar | yðra dýrð geti skýrða.

Í 649 eru og tilfærð 4 erindi úr hrunhendri Jónsdrápu „eptir Gamla kanúnk austr í Þykkvabæ", og enn 3 erindi úr dróttkvæðri Jónsdrápu eptir „Nikulás, fyrsta ok fremsta Þverár múnklífis ábóta".

[1]) Hèr á undan vantar blað í *B*, sjá bls. 501 athgr. 1.

skyldar oss: ‚*Gaudere cum gaudentibus et flere cum flentibus*; fagna þeirra fagnaði, er fagnað gera guði, en gráta hina, er grim[m]ast við'; en eptir guðs orðum grim[m]ast sá við hann, er við hans eyrendreka grim[m]ist, þat er við biskupa ok presta. Hann Pètr postuli segir svá í sínum pis[t]li': ‚*Qui vos audit, me audit, et qui vos spernit, me spernit;* hverr er yðr heyrir, mig heyrir hann; hverr er yðr hafnar, mèr hafnar hann'. Þau sömu orð koma til vor, því at þeir vóro vorir feðr, en vèr þeirra synir, sem spámaðrinn segir: ‚*Fratribus tuis nati sunt tibi filii'*; þá kenníng kennu vèr, at þeir lètu oss með sömu áminníng lærða, ef vèr flytjum vel með sönnum rökum; gjöldum ok, ef vèr flytjum illa, þá er vorr hagr hættligr, ef vèr þegjum ok hefnum eigi glæpa, þvíat ef þat geru vèr, þá er týnd sál þess ens synduga, en guð heimtir hana af oss, ok er ólíkr kostr, at falla í nokkura grimd við menn, hversu máttugir sem þeir er[u] eða harðir, heldr en grim[m]ast við guð; en hèðan spyrst hörmuligr grimleikr ok fátíðr guði ok öllum guðs lögum, er Guðmundi biskup[i] er veittr, ef sá vöxtr er á, sem menn segja, at ólærðir menn hafi hann firirdæmdan, þar sem eingi maðr á á honum dóm, nema páfinn, ok vèr af hans hendi, ok er hann nú settr af sínu biskupríki, hætt mörgum sálum til ábyrgðar, menn af honum teknir, ok nokkurir prestar af þeirra tölu; en þenna vanda má eingi leysa, nema páfinn sjálfr. Nú er þar komit, at þessi mein verða aldri með orðsendíngum slökt; vær höfum þess freistað, en yfirbætr hafa frestazt, ok veldr því va[n]si trúar, ok kapp þeirra, er í illu þrályndast. En þá er vèr leitum við at ransaka, hvaðan þessar sakir rísa, eða hverir með kappi leita við um at næra þessi mein heldr en slökva, þá vísa sumir sökum í einn stað, en sumir í annan, ok sjám vèr ekki annat heilt ráð í þessu máli, en biskup sæki á vorn fund ok þeir menn með honum, er hèr eru á nefndir. Þat bjóðum vèr ok yðr, í hlýðni, guði til þakka, heilagri kristni til frelsis, syndum yðrum til lausnar, ok öllum landslýð til þurftar: at þèr sækit at sumri á vorn fund; en nú skulu vèr alla stund á leggja, at ósætt falli, en sætt eflist, sálur hjálpist, ok langær friðr standi í þessu landi; en oss uggir, at til langra meina standi, eptir því sem oss kennir hugboð, ef þetta ráð er firirlitið. En þèr, Arnórr, [ok] þeim öðrum, er þú hefir yfir guðs eigu ok biskups-

stól setta, þá bjóðum vèr þeim fastliga í blýðni af guðs hálfu, at þèr fáit honum af staðarins eign svá mikit, at hann megi sæmliga utan fara, ok hvárki kenni hann hneisu í utanferð nè aptrhvarfi, en ef þèr afrækis[t] þetta vort eyreyndi, þá vitið þat víst, at yðvarr vandi mun aukast mar[g]falligliga."

Guðmundr biskup fór um haustið til Hóla, ok sat þar í friði at kalla um vetrinn, ok eigast þeir Arnórr ekki við þann vetr. Þá gengu margir menn til sætta við biskup. Þann vetr er biskup var í Steingrímsfirði fyrri, andaðist Páll biskup, þriðja *kal.* Desembris, en kosinn var til biskups Teitr Bersason, systurson Þorvalds[1] Gizurarsonar, ok fór Þorvaldr utan með honum. Teitr andaðist í Noregi, ok varð eigi biskup. Um sumarit eptir bjoggust þeir til utanferðar, Guðmundr [biskup] ok Arnórr Tumason; lá biskup til hafs vj vikur, ok sigldi út ij sinnum ok varð aptrreka, ok var borenn sjúkr af skipi, en ij menn fóru utan af þeim fimm, er erkibiskup hafði utan stefnt með biskupi. Arnórr fór utan um sumarit einn af þeim vj, er með honum vóru nefndir, en Guðmundr biskup fór utan vetri síþar, ok var enn fysta vetr í Vík með Nikulási biskup[i]. Nú finnast þeir erkibiskup ok Guðmundr biskup, ok var erkibiskup heldr stirðr í fystu, en Guðmundi biskupi ekki ógjarnt, at láta lítt til við aðra menn. Nú var af því heldr seinligt um samníng með biskupum, er hvártveggi var stirðr við annan, en meðalgöngumenn vóru misjafnir. Allir góðir menn lögðu góð orð til, at þeir skildi vel, en þó vóru þeir þar sumir, er ekki bættu um með erkibiskupi; stóð nú þann veg um stund, ok höfðu klerkar erkibiskups heldr í áleitni við Guðmund biskup, ok þeir spurðu hvárt þat veri satt er sagt var, at hann lèti eta slátr tvímælt föstudaga á Íslandi. Hann kvað eigi þat satt. Þeir spurðu: „lætr þú eigi eta slátr ef jóladag ber á föstudag?" — „Víst leyfi ek þat," sagði Guðmundr biskup. — „Hvat gerir þú þá af föstudeginum?" sögðu þeir. Guðmundr biskup svarar: „hvat geri þèr þá af myrkrinu, er ljósit kemr í húsit?" — Þeir svara þá öngu. Guðmundr biskup mælti: „drottinsdagr er burðardagr hans, en eigi föstudagr[2], ok svá flýr fastan firir hátiðinni, sem myrkr firir ljósinu, svá at ekki verðr af". Nú þagna þeir við slík ansvör.

---

1) Þorvarðz, *B.* 2) getg.; píslardagr, *B.*

10. Þat er sagt, at um vetrinn, er kom at Þorláksmessu, at Guðmundr biskup spurði Þóre erkibiskup, hvárt hann lofaði, at hann hèldi Þorláksmessu sem vandi hans var til á Íslandi. Erkibiskup svarar: „Þat lofa ek víst eigi, at þú brjótir lög á oss hèr í Noregi, hversu sem þú gerir út á Íslandi". Snemma um morgininn Þorláksmessu sendir erkibiskup ij klerka sína, at forvitnast hvat Guðmundr biskup hefst at. En er klerkar koma aptr, spurði erkibiskup, hversu Guðmundr biskup hèldi boðskap hans. „Þat skaltu virða sem þú vilt, herra, eigi skortir þar tíðagjörð mikla ok hátíðliga." — „Hver er tíðagerð þar?" segir erkibiskup. Þeir sögðu: „þar er tíðagerð at öllu sem allraheilagra messu". — „Já, já! vel," segir hann, „má svá vera, ekki má at þessu finna annat, en vel er til snúit; þat get ek Guðmund biskup ætla, at hinn heilagi Þorlákr biskup skuli hafa sinn hlut af tíðagerð þessi, ok fáir mundu þetta ráð sjá, eða hafa svá komit, sem nú er, ok ekki er þat undarligt, þótt Guðmundr biskup verði eigi barn í viðskiptum þeirra höfðíngjanna á Íslandi út, þann veg virðist mèr athöfn hans ok hættir, því heldr, er ek veit gjör, en vant er mann at lofa meðan lifir, en fárra maki ætla ek at Guðmundr biskup sè, þeirra sem nú eru firir ofan mold, í atferli ok höfðíngsskap sínu[m], bæði firir guði ok mönnum, þat sem til hans heyrir." Hèðan frá þessum atburð var erkibiskup betr til Guðmundar biskups en fyst, er hann kom til Noregs, ok var þat at líkindum um þvílíkan mann sem erkibiskup var, at hann mundi vilja ransaka mál Guðmundar biskups áðr hann veitti orskurð um slík stórmæli, sem þaðan vóru flutt af Íslandi. En er hann vissi sannleik um mál Guðmundar biskups[1], því at honum þótti þat satt vera, at hann hefði jamnan betr en aðrir, ef rètt veri virt firir honum. Nú var um þat, þótt höfðíngjar á Íslandi gerði ódæmi við biskup sinn, önnur at öðrum, þau er óheyrilig vóru í kristnum dómi, þá þótti erkibiskup[i] þat þeirra illmennska, sem gerðu, en Guðmundr biskup var maðr at betri, sem hann þoldi fleiri mótgerðir þeirra, ok hèldi hann þó guðs rètti.

11. Þórir erkibiskup spurði Guðmund biskup, hví sætti, er hann vígði kennimenn fleirum vígslum senn en einni senn, sem lög segja ok háttr er á. Guðmundr biskup svarar svá

1) hèr er sem eitthvað vanti.

máli hans: „þat hefi ek fundit í helgum ritníngum, at nauðsyn sè lögum ríkri um marga hluti; nú þótti mèr ok svá nauðsyn á, at eigi veri prestalaust í Norðlendíngafjórðúngi eða víðara á landinu; sumir prestar mínir eru drepnir, en sumir annan veg illa svívirðir; þá eru þeir sumir prestar, er berjast í móti mèr ok gera marga óhlýðni; sýngja messor í banni mínu, ok samn[e]yta bansettum mönnum, ok veita þeim alla þjónustu, þó at ek banna; nú þori ek eigi firir guði, at láta þá menn þjóna mèr jamfram þess[i] óhlýðni við guð ok menn, sem nú hefi ek þèr sagt, ok læt ek þó mart niðri liggja í vorum viðskiptum, þat er mikils veri vert, ok þeim samir illa, er gjöra; nú læt ek ok af slíkum nauðsynjum vígslurnar skjótara fram fara, en ella mundi, ok hætti ek á guðs miskun um slíka hluti, ok treyst ek því ok trúi, at allir hlutir verða senn í hans nafni ok fulltíngi, svá sem segir í uppreistarsögu, at [guð gjörði[1] alla hluti í senn, ok svá varð sem hann vildi allt senn, þótt hann gerði grein allra hluta síþar. Nú hefi ek þessa grein firir mèr, minn herra, við vini mína, þèr satt at segja, ok þat enn með, at ek hygg, at óvinir mínir eigi enga sök á mèr um þetta, ok þeir eigi ekki at ónýta vígslur mínar eða boðskap, eða dæma mig eða klerka, sem ólærða illvirkja." — Erkibiskup svarar: „hvat segir þú um vatnvígslur þínar? því at þar er enn mikit orð á um þær". Guðmundr biskup svarar: „ekki vígi ek vötnin greiðliga, því at sjálfr drottinn hefir þau helgat í upphafi hèrvistar sinnar, at þau mega ekki helgari verða, en þá er hann helgaði þau fyst í upphafi jartegna sinna, þá er hann gerði vín or vatni, ok gerði þá fystu jartegn, at því er helgar bækr segja, ok ek trúi at svá var; en þar næst gerði hann þá jartegn á vatninu, er öllum gerir eilífan fagnat, þeim er til gæta, er hann lèt Johannem baptista skíra sig í Jórdan, allri kristni til hjálpar ok miskunnar, ok þá varð svá háleitr fagnaðr á vatninu, er vor herra Jesus Kristr stè niðr í ána Jórdan; þá kom enn helgi andi yfir hann í dúfu líki, ok krismaði ána, ok flaug síþan til hemins; þá varð áin svá ágætr heilagr dómr, at öll vötnin urðu heilög hèr í heimi af gift heilags anda ok í nafni heilagrar þrenníngar, ok svá margfalliga hreinsuð af úhreinindum öllum, at eigi má hugr hyggja nè túnga tína þá

---

1) [ getg.; guði, *B*.

miskunn, er guð hefir í vatninu setta til hjálpar mönnum hèr í heimi, ef trúa vilja guðs miskunn; en ótrúum manni, ok þeim er svívirða vill guðs stórmerki, verðr allt at syndum ok áfallsdómi, svá sem segir heilög ritníng, at allt er h[r]einum ok trúföstum hreint, en óhreinum ok trúlausum er[u] allir hlutir óhreinir, svá sem segir hinn heilagi Ambrosius biskup, þá er Justina[1] drottníng sendi menn sína til hans, at vita undr þau, er þar vóru orðin, með hverjum hætti hann hygði at þau veri. Þat var með þeim hætti, er hon sat undir borði ok hirð hennar, at matr allr varð at drekum ok höggormum ok pöd[d]um, en drykkr at blóði. ‚Segit svá Arius mönnum', sagði Ambrosius biskup, ‚at öllum þeim mönnum, er eigi hafa fylliliga trú ok almenniliga, verðr öll fèzla óhrein, svá sem þeir eti dreka, orma, eða pöd[d]ur, eptir því sem segir Páll postuli: ‚Allir hlutir eru hreinum hreinir, en saurgum ok trúlausum eru allir hlutir saurgir'. ‚Nú er slíkt sýnt í undrum'', segir Guðmundr biskup. „Nú trúi ek slíkum dæmisögum ok mörgum öðrum þvílíkum, at allt verði sem guð vill, þat er í hans nafni er gjört ok þeim gengr gott til er gerer. Nú má vera þó, minn herra, at ek trúa of mjög á slíka hluti, sem nú segi ek frá, ok vænti ek, at þú bætir um með mèr, þar sem þèr þikkir ábóta vant um mína hagi, sem ek má hræd[d]r um vera, at bæði sè mart ok stórt; er þat ok mín trúa, at áin Jórdan sè jamheilög þar sem drottinn vorr var skírðr í henne, sem anna[r]staðar í milli uppsprettu hennar ok til þess er hon fellr í sjóinn; en þat veit guð einn þaðan af, hversu víða hon helgar sjóinn um heiminn, ok þar má ek ekki um ætla, enda veit ek eigi deili, at mig varði at vita þat, eða svá marga aðra leynda hluti guðs, þá er hann vill eigi at menn vite; en um þau vötnin, er vèr sýngjum yfir guðs orð, þau er hann sjálfr hefir hugat ok firir sagt, til hjálpar ok upprisu heilagri kristni hèr í heimi, þá helgast þau af guði sjálfum en eigi af mèr, ef rètt er skilið; en þó trúum vèr, at öll guðs orð haldist á vötnum ok öðrum hlutum, þótt syndugir menn flytti fram, ef rètt er fram farit, ok undir hans hræzlu ok hlýðni gert. Nú þó at óvinir mínir kalli vígslur mínar öngu neytar, þá veit ek þó, at guði þikkir eigi svá, ok mèr þikkir mörgum gagn at yfirsaungum mínum verða, ok svá þikkir þeim, er trú

1) leiðr. Tustina, *B*.

hafa til at njóta eptir því sem guð vill at verði. Þeir segja brunna þá, er uppsprettur eru, eigi helgari, þótt ek krisma eða sýngja yfir guðs orð[1], en aðrir þeir er ekki er yfir súngit, en þeir kalla mèr guðlastan í at gera slíkt, ok gangi þar yfir fènaðr ok illkvikvendi síþan. Nú segi ek svá, at þeir trúa eigi guðs orðum, er slíkt tala með alhuga ok illvilja, ek segi svá, at Jórdan helgar vötn öll ok hreinsar allar uppsprettur ok stöðuvötn, ok jafnvel leirkeldur sem önnur vötn, því at hon er enn háleitasti heilagr dómr, síþan drottinn var skírðr í henne, ok helgar ok hreinsar hennar straumr ok nafn alla kristnina, því at þar hóf drottinn vatnskírn, ok af því kallar heilög ritníng Jórdan heilaga kristni, en straum hennar heiðnar þjóðir, því at drottinn helgar á hverju ári heiðnar þjóðir til sín með Jórdanar skírn ok hennar vatni, því at hon ein er vatn í öllum heiminum þat et sama, er drottinn skapaði í upphafi heimsins í paradiso; er enn í dag uppspretta hennar þar, ok fellr þaðan í fjórum kvíslum ok straumi sínum, ok spretta upp hèr ok hvar or jörðunni til lífs mönnum ok fènaði ok öllum þeim kykvendum, er guð hefir ætlat at við vatn skyldi bjargast ok han[s] miskunn. Nú er þat bæði, herra minn", segir Guðmundr biskup, „at ek má eigi, enda vil ek eigi banna lífsbrunna guðs firir þeim, er hann vill at lifi við þá, heldr samir mèr at sýngja guðs orð yfir uppsprettum hans ok brunnum, til lífs anda þeim, er við þat verða at lifa, því at menn þora eigi at drekka or brunnum þeim, er menn deyja í eðr óhreinindi, en vötn eru eingi önnur at lifa við, sem víða kann verða, ok lèt guð þá ekki til saka, firir trú þeirra, en miskunn sína. Nú má ek eigi í frásagnir færa eða orðum inna, hversu margfa[l]da miskunn guð hefir oss veitta[2] í helgan vatnanna, þó at ek kunna eigi at greina svá, sem hann hefir oss efni til gefit; en því trúi ek meir á vatnið en hinar iij höfutskepnur guðs, jörð ok vindr ok eldrinn, ok er hann þó líkastr guði af allri skepnunni, því at hann er bæði þren[n]r ok einn, sem guð sjálfr; hann er hiti, ok þurka ok birti, ok má ekki eldr, nema hann hafi þessa iij hluti, eigi fleiri eða færi ok önga aðra, sa᷎ sem guð má eigi vera nema einn ok iij., faðir ok sonr ok heilagr andi. Nú eru þessar iiij höfutskepnur hafðar af guði til allra líkamligra hluta, ok styrkja þessir hlutir allir þessa heims anda, ef til er gætt, ok

1) en áðr, b. v. *B.* 2) veitan, *B.*

svá anna[r]s heims; en ef eigi verðr til gætt um andar dauðann, þá renn vatnið Jórdanar skjótast ok fyst til búit af þeim iiij hlutum, er guð skapaði manninn af, sem fyr var sakt. Nú þá er maðrinn er firirfarinn af syndum heimsins, þá renn Jórdanar vatn, þat er í líkam mannsins er fest, til hja[r]tans, ok sprettr upp í brjó[s]tinu, ok kemr fra[m] or augsteinunum til iðranar ok hjálpar manninum ok lífs, ok er þetta vatn guð[s] gefit hverjum manni, sá er hann er skírðr, ok vill ávallt lífga manninn en alldri deyða, ok er þetta því an[d]ligt vatn; er nokkur von ávallt lífsins, er þat þornar eigi, en allir hlutir aðrir í heiminum gera ýmist, at lífga manninn eða deyða. Nú er líka[m]s vatnið því öroggura til hjálpar manninum, en allt annat í skepnunni: þat skilst síþarst við manninn af fjórum höfuðskepnum, vindrinn fyst með andanum, en þá eldrinn, er maðrinn er kaldr, ok verðr þá líkaminn mold ein eptir, nema dauða vatnið, þat er þá setr or dauðu holdinu, ok skilst þá nauðigt við þat, svá sem margir lifandi menn vita, at maðrinn deyr af eðli sínu, at vatnið rennr or dauðum líkamanum leingi síþan öndin er við skilin. Nú hefi ek", segir Guðmundr biskup, „sagt þèr nokkurar greinir um vígslur mínar ok atferli ok yfirsa'ngva, til þess at þú vitir sem gjost atferð mína ok háttu, þvíat þat þikkir mèr myklu skipta, hversu þèr virðist mín atferð ok annara góðra manna. Nú er ek sjálfr dæmdr undir guðs miskunn, ok þinn dóm ok forsjá um minn hag, því at ek veit, at þú ert minn yfirmaðr ok dómandi settr af guði ok mönnum, enda hefi ek ávallt mitt mál á þinn dóm boðit mínum óvinum, þó at þeir hafi þat aldri viljað heyra. Nú em ek hèr kominn á þína miskunn, ok ger þú nú af mínu máli þat er þèr þikkir bezt sama, bæði firir guði ok mönnum, en ek em skyldr ok ráðinn til at halda þat er þú vill at sè, ok ek má þèr hlýðni gera í orði ok verki".

12. Ekki er þess getið at Þórir erkibiskup svaraði fyr greinum Guðmundar biskups, en hèr var komit málinu, ok þá svarar hann: „svá miklar ok fáheyrðar eru þínar greinir, bróðir, at þess vænti ek, at guð reiðist þèr eigi firir þína trú ok meðferð um vígslur þínar ok yfirsa'ngva manna ok fènaðar; en hvat ætlar þú um styrjöld þá ena miklu ok bardaga, er þú ert við staddr, svá op[t]liga sem er, hversu guði líki þat, þvíat þat er fornt mál, at eingi taki svá í tjörnina, at eigi verði votr af,

ok svá mart illmenni, sem með þèr er ok ferr at frásögn manna, ok þikkir mèr, bróðir, slíkt mikill vandi ok hætta góðum mönnum", segir erkibiskup „ok vil ek, at þú svarir hèr um nokkuru, at ek megag skilja atferð þína enn um þetta mál, því at þat mun mörgum vant verða, at hafa þessa atferð þína svá at guði líki vel ok góðum mönnum, en ek tel ekki illmenni". — Guðmundr sagði enn: „satt hafi þèr, herra, þat fregit, at ek em opt í úfriðinum, ok þó þá at eins, er ek vilda gjarna í friðinum vera ok mikit til vinna; en þó vil ek eigi þat til vinna líkams friðarins litla stund hèr í heimi, at ek vita víst, at önd mín sè í meira úfriði anna[r]s heims, en veit ek þat, ef ek mæli eptir höfðíngjum á Íslandi hverja úhæfu, at þá hefi ek frið af litla stund, ok þó eigi sýnt um, at þeir lèti mig í friði um mína lífsdaga, þó at ek mæla allt eptir þeim, því at ófrjálst er allt þessa heims ríki, ok því ófrjálsara, sem stjórnarmenn eru verri ok ranglátari, ok ranglátum manni þikkir bezt eptirmæli, en þolir vest mótmæli, ok er því við ra[n]g[láta] menn vest at eiga; en þó verðr þat enn góðum manni, at hann reiðist við atmælin, er ok líkara, at sá eigi minna í atmælinu ok er þó linmæðinn; þó er inn mesti mannkostr, at þola vel atmæli undirmanni sínum, en þó er meiri nauðsyn, at þola vel yfirmanni sínum, þess at heldr sem hann á betra formann, því at jafnan hlýtr gott af góðum, svá sem segir inn heilagi Eronimus prestr til sinna undirmanna, múnka ok meyja: ‚*Celibem virgo spernit germanum fratrem quæret externum*'[1]. þessi orð mæla svá: ‚múnkr ok mær firirlítr bróðir et himneska en leitar lögmanns ens jarðneska'. Nú reiddust margir við þessi orð, en sumir gerðu sèr at hjálp ok at heilræði, ok vöruðust þetta umskipti, ok hlutu þeir gott af atmæli þessu; en hinir gerðu sèr at illu, er reiddust við atmæli þvílíks manns sem Eronimus prestr var. Ok enn segir hann svá í öðrum stað: [‚*Obsequium amicos, justitia odium pariet*[2]: eptirmæli aflar þèr vina, en rèttyrði rógbera'. Nú er þetta fyst undirrót úfriðar þessa, sem nú er fram komit, at ek vilda þat eigi til vinna friðar mèr, ok láta ólærða höfðíngja stjórna guðs kristni, þeirri er mèr var á hendi fólgin af guði ok góðum mönnum, en um bar-

1) *externinum*, *B*; þýðingin er afbökuð.
2) leiðr.; [ *of seqviem anos vt ita odivm pariet*, *B*.

daga þá, er ek varð við staddr, þá var mèr þat ósjálfráðligt, þótt höfðíngjar dragi her at mèr, hvar sem ek flý undan ófriði þeirra, í útsker eða óbygðir eða afdali, eða í þau ørræfi ok útlegðir, er öngir kristnir menn máttu vera firir allskyns óvættum, ok trölla yfirgangi, ok svá má sannliga frá segja, at engi öræfi eða útsker sè svá ill á Íslandi, at ek hafa eigi í komit eða í verit, ok þeir vesalíngar, er með mèr vildu vera í útlegðum. En þó at ek veri í þessu[m] stöðum til friðar mèr, þá var mèr hvergi óhætt, eða þeim mönnum, er með mèr vóru; nú mátta ek þó eigi hvergi vera, sem von var til, þótt mèr þætti hvergi vært. Nú þá er vèr vórum rekníngar or útlegðum, þá leitaða ek mèr skjóls til heilagra staða, ok vilda ek flytja þar fram guðs þjónustu, sem ek var skyldr til, þá var þegar dreginn her[r] at mèr, en ek flýða ávallt undan, er ek *náða því, en þat var stundum, at ek mátta eigi, ok varð ek at* vera þar nauðigr, því at mèr þóttu illir bardagarnir, at því er ek segi til, þó at öngir bæri vopn á mig greiðliga, en þó þótti mèr illt at sjá, er menn mínir vóru drepnir eða skemdir, en þó varð þá hver[r] at vera þar sem staddr var, þótt illt þætti; er þeir synir öfundar ok illsku, er oss þótti allt ofgott þat er vèr höfðum, sem fyrr var sagt, ok þótti þeim gott at leika sèr at kirkjum vorum ok tíundum, ok varð þeim því gott til góðra dreingja, slíkra sem þeir eru, en mèr varð hvergi betra til fyl[g]darmanna, er vèr höfðum færa gott til viðurlífis, en hinum, er allt höfðu, þat er þurftu ok þeir vildu. Nú er mèr svá gefit, herra, at ek nennta eigi at reka þá frá mèr, er til minnar miskunnar leituðu ok skjóls, ok firir mínar sakir vóru sekir kallaðir af óvinum vorum, ok vóru þó betri menn en margir hinir, er þá kölluðu illa menn. Nú þarf ek eigi at segja þèr fleira af styrjöld vorri ok bardögum, en þat segi ek af mèr, at undan ófriðinum hefi ek ávallt leitað, en sjaldan fýst, eða eggjað áðr ens verra, at mínu viti ok skynsemi, því at þú veizt öll skipti vor. En þat mál er þú talaðir, um tjörnina, at eigi tæki svá í, at eigi yrði votr, þat mælir þú til mín mest ok fyl[g]darmanna minna, er hversdagsliga vóru með mèr, ok mest þjónuðu mèr í allar nauðsynjar, ok vèr átum ok drukkum allir saman, ok þó optar vatn en vín, ok tókum jafnan í eitt vatn, ok alla reiðu nauðsynliga áttu vèr saman, þá er líkligt má til kalla, ok unnu þeir mèr, en ek þeim, föðurligri ást

ok elsku. Nú mun ek svara firir mig ok vini mína ok hversdagliga fyl[g]darmenn, er þar fyrst at telja Eyjólf Kársson, fullhugann, er mig sótt[i] í hendr óhreinum anda til Hvítár[1]; þá er annarr Arun Hjörleifsson, ofrhuginn; enn þriði var Einarr skemmíngr þeirra jafníngi, en iiij. Konáll Sokkason, Sveinn sveitarbót ok Vigfús kennimaðr, Einarr klerkr, Eygjólfr hríðarefni. þessir vóru vinir mínir ok öroggir í öllum þrautum, ok hræddust ekki vætta, ok verða eigi röskari menn en þessir at minni raun, ok því viti, er guð gaf mèr til at skynja manna háttu. Nú má ek svá helzt segja þèr um þessa menn ok enn fleiri vini mína, þá er með mèr hafa margan lífsháska þolat, ok opt í eina tjörn tekit með mèr í þessa heims vanda, ok vili guð, at þeim verði sú hanlaug at eilífri hreinsun anna[r]s heims með guðs vinum, ok þess vænti ek, at svá verði, þvíat eingi tekr svá í vatnið, at eigi sè þá hreinni en áðr, ok þess vænti ek, at vèr saurgir ok syndugir hafim heldr hreinsazt í þessi tjörn, er þú mælir til, at flestir yrði votir, er í tæki; var ok þess von at um þitt atmæli, at oss mundi þat til hugbótar, ef vèr kynnim at þekkjast sem vera skyldi. Nú fögnu vèr af þessa heims stjorjöld ok hreggi ok bardaga ok ánauðarstarfi þessarar veraldar, þótt vèr þolim verr en vera skyldi, öðlimst vèr í öðru lífi kyrt ok hægt ok örogt rólífi með friði ok fagnaði án enda. En þá er ek var heima at Hólum, kom þar margr sá maðr, er ek senda ekki orð, bæði góðir menn ok svá hinir, er óorðsælli vóru, ok þóttust við mig eiga eyrendi, en ek gerða mína skyldu, at ek firirleit hvárga, ok leysta ek svá hvern í brott, sem ek þóttumst bezt efni til hafa eðr kunna, þá sat þar hverr er líkaði siþan. Nú rak ek öngan í brott, enda bað ek fá til at vera leingr en nauðsyn bar til; nú var af því löngum mannmart á staðnum, því at mèr virðist sem fleirum þætti betra at vera á staðnum leingr en skemr. Nú kölluðu bændr ok höfðíngjar ok margir aðrir óvinir mínir, at ek vera glutursmaðr ok landeyða, ok ek hèlda menn á staðnum til þess at ræna bændr ok gera ófrið á marga lund, þá er ek vandaða um vanhagi manna eðr ósiðu, eðr þeir hèldu tíundum firir fátækum mönnum ok tollum heilagra kirkna; en þá er ek fór í sýslu mína, þá dreif enn til mín fjöldi mikill, bæði hinir dýrri menn, ok svá fátækir

1) þetta varð nokkrum árum síðar, en þetta samtal á að hafa staðið.

menn margir löngum, svá at þat var næsta ofrefli á fátæku landi; en þó senda ek öngum orð lengstum. Nú var þat satt, at mèr þótti því betr, er þeim var meira gott gjört firir guðs sakir, ok ávallt þótti mèr betr, at fátækir menn nyti mín, hvar sem ek kom; en firir þetta efni hefir þó alþýðan ok formenn mig firirdæmdan á Íslandi, ok margan ófrið mèr gjörvan, er ek vilda við önga menn mat spara, ok þat er ek fèkk til, ok svá vilda ek at aðrir gerði, ok segi ek, at þat veri guðs vili, at hverr kristinn maðr elskaði annan sem sjálfan sig, ok sjálfr drottinn mælir svá: ‚sælir eru aumir menn í anda, því at þeirra er himinríki', en þeir eru aumir í anda, er aumir menn [eru] ok guðs ölmosur, ok þat er vesælt er hèr í heimi. Enn segir vor herra svá: eigi eru þeir allir sælir, þótt fátækir sè ok aumir, heldr þeir er sjálfráðliga firirláta auðæfi sín, ok þjóna guði þesskostar frjálsir, því auðæfi gera áhyggju ok [ú]frelsi öllum mönnum. Nú hefi ek sagt yðr, herra, nokkurar greinir um skipti vor Íslend[íng]a, bæði vina ok óvina, at boði þínu ok nauðsyn minni, at þú vitir nú gjör en áðr, þvíat nú þikkjumst ek satt eina frá segja, en þat er fornt mál, herra minn", segir Guðmundr biskup, at ‚hálfsögð er saga hver, er aðrir einir segja'; nú vil ek þat guði þakka ok yðr, herra erkibiskup, at þèr hafit yðvar til lèð, at heyra mína frásögn, en allt viti þèr áðr þetta myklu gjör marga hluti, en ek kunna yðr segja; nú var þat þó mín skylda, at þegja eigi yfir minni nauðsyn, þá er ek fann minn yfirmann. Nú mun ek hèr standa láta mína frásögn á guðs valdi ok yðru, nema þar er þèr vilit láta við auka".

En er Guðmundr biskup lauk sínu máli, þá tók Þórir erkibiskup svá til máls: „Guði lof ok dýrð ok öllum helgum mönnum í *öllum góðum hlutum*; *nú er[u] oss kunnir af þínum munni margir* góðir hlutir ok fáheyrðir, ok er oss nú ljósara en áðr firir þínar guðlegar greinir á svá marga lund, sem ek heyrða alldri fyr af nè eins manns munni. Nú mun ek mæla við þig sem Clemens páfi mælti við Dionisius biskup: ‚sèr þú bróðir, at mikill er kornskurðr en fáir verkmenn í akri guðs. Nú með því at þú ert vel lærðr, þá farðu nú í nafni drottins, ok flyt guðs eyrendi um allt Frakkland'. Nú far þú ok, Guðmundr bróðir, í nafni vors herra Jesu Christi til Íslands, ver þar verkmaðr í víngarði guðs, meðan hann gefr þèr styrk til, þvíat þar þarf styrkasta ok sætasta fæðsluna, er fólkit er óstyrkast

móti fjandans freistni; virðist mèr ok svá atferð þín ok lifnaðr, sem þú sèr enn styrkasti stólpi guðs kristni á Íslandi ok víðara; mun ek at síðr ónýta vígslur þínar eðr yfirsöngva, at ek vil bæði biðja þig ok bjóða þèr, at þú haldir bænum firir mèr til guðs, meðan þú lifir, bróðir, þvíat mèr þikkir sem guði líki vel þín atferð, ok sælli Maríu guðs móður, ok öllum guðs helgum. Nú þore ek eigi, enda vil ek eigi afþokka firir þèr þat, er allir góðir menn vita at guði líkar vel, ok taka þá ábyrð á mig, at eiga því at svara við guð ok menn, en þótt heimskum mönnum ok öfundarfullum við góða menn þikkir sem guði mislíki þat sumt, er vel samir, en þikkir sem guði sè þat þægilegt sumt, er illir menn gera ok guðs rètti er niðrat. Nú viti þat allir góðir menn ok svá hinir, at ek banna eigi, heldr vil ek leyfa þínar vígslur ok yfirsöngva, bæði mönnum ok fènaði ok öllum vötnum, ok öllu því, er þú veitir miskunn í guðs hlýðni ok fulltíngi, til hjálpar mönnum ok fènaði, ok allar stundir meðan er ek lifi, ok af því valdi er guð gaf mèr, ok ek tók af Innocentio papa til upphalds guðs kristni, en hinu má ek eigi ráða, hversu þeir gera, er eptir mik koma til".

13. Nú er sagt nokkuð frá viðtali þeirra Þóris erkibiskups ok Guðmundar biskups, ok þeir skildu með bróðurligu samþykki sín á milli um alla hluti, ok vóru ávallt ástvinir, meðan þeir lifðu báðir. Erkibiskup gaf Guðmundi biskupi góðar gjafir áðr þeir skildu, ok fèkk Guðmundr biskup ena mestu sæmd í utanferð sinni af guði ok öllum góðum mönnum, í Noregi ok anna[rs] staðar, þar sem hann var nafnkunnigr. En er biskuparnir höfðu samið sín á millum, sem þeir vildu at stæði, þat er til þeirra heyrði í málaferlum: tók Guðmundr biskup þá blezan af erkibiskupi ok fararleyfi at fara til Íslands, þótt til lítilla náða veri at sækja, ok varð þó þat fram at koma, sem firir var ætlað. Síþan stè Guðmundr biskup á skip með sitt föruneyti, ok er ekki anna[r]s getið, en honum tækist vel um hafit, ok fór hann þá heim til Hóla. Allir góðir menn fögnuðu honum, vinir hans ok fátækir menn, með mikilli blíðu sem makligt var, því at hann sýndi mikla blíðu öllum þeim, er þar þóttust nokkut skjól eiga er hann var, því at hann veitti föðurliga ástsemd snauðum ok [ú]sælum, svá at eigi mun finnast sá maðr hèr á Íslandi, nema hinn helgi Þorlákr biskup

ok inn sæli Jón biskup, at slíkr hafi verit í gæzku við fátæka menn ok harðlífi við sjálfan sig; ok þat skal ek mæla lægíngarlaust öllum guðs vinum, at ek hygg Guðmund biskup haft hafa flestra þeirra mannkosti í sínu lífi[1].

---

14. [2]Eptir þat er þeir höfðu sæzt í Flatatúngu Sighvatr ok Kolbeinn ok Órækja, fór Guðmundr biskup þá með Kolbeini á Flugumýri, ok þaðan fór hann út til Hóla; var hann þá ekki langvistum af staðnum þaðan af meðan hann lifði; hann var þá jafnan í litilli stufu ok tveir klerkar í hjá honum, þorkell Íngjaldsson ok Helgi bróðurson hans; lifði hann þá líkara hljóðlyndum ok hóglátum einsetumanni, en harðlyndum ok hlutsömum biskupi, sem óvinir hans höfðu orð á. ij vetr fulla var hann þar, ok þat ens þriðja er þá var, ok hann lifði síþast. Löngum var hann lítt heill, þvíat hann var eigi bókskygn er hann fór or Höfða, en blindr með öllu enn síðasta vetr er hann lifði. Anlits mein hafði hann, ok lá verkr í kinn hans enni hægri ofan frá auganu. Löngum söng hann, eða lèt lesa firir sèr helgra manna sögur á latínu, þá er hann vakti. þenna vetr kom norðan frá Hólum litlu firir föstu, á Eyri til þórðar Stullusonar, Magnús múnkr tolosveinn. þórðr spurði at eyrindum hans, en hann sagði honum kveðju Guðmundar biskups, „ok bað mig segja þèr, at þú skyldir eigi dyljast við, at þit mundut finnast í vor". — „þat þikki mèr ólíkligt", sagði þórðr, „þvíat nú er hvergi okkar færr til langferða, en hvat talaði hann um mótgangsmenn sína"? — „Til talaði hann þar nokkut", sagði Magnús, „þvíat hann kvað fá vetr líða mundu, áðr mótgangsmenn hans sjálfir mundu hendr á leggjast, ok þeirra afkvæmi drepast niðr sem vargar, ok kvað hann þar mest mundu eptir verða, er þá var mestr uppgangrinn". Mart sagði hann annat, þótt eigi sè hèr ritað.

15. þenna vetr tók Guðmundr biskup sótt litlu firir langaföstu, þúnga ok hljóðliga; í þeirri sótt lá hann fram um Gregoriusmessu, hon bar þá meðal imbrudaga. Föstudaginn lèt hann Jón prest lærdjúp olia sig með fulltíngi djákna sinna ok annara lærðra manna þar heima. Eptir olian vildi hann þat eitt mæla, er nauðsyn bar til. Til alls skipaði hann áðr hann

---

1) sjá bls. 508 athgr. 1. 2) sjá bls. 557 athgr. 4.

veri oliaðr, nema hann skipti bókum með klerkum sínum, en miklu áðr hafði hann firir sagt, at hann vildi hvíla í stúkunni suðr af kirkjunni, milli tveggja presta, er hann hafði þar áðr jarða látið. Hann sagði hvern mann eiga at andast í berri moldu, ok er drottinsdagr kom, dró mjög at mætti hans, ok mánadaginn andaðist hann, á sètta vetri ens átta tigar aldurs síns, þá hafði hann biskup verit hálfan fjórða tög vetra. Þeir Helgi ok Þorkell hófu hann af klæðum í andláti á fjöl ösku dreifða, ok þar í höndum þeim skildist sálin við líkaminn, ok þar á fjölinni mintust þeir við hann, ok báru svá mikinn harm, er þeir skildust svá langæliga við sinn föður, at þeim gekk seint or hug, þvíat þeir höfðu frá barnsaldri af honum þegit föðurliga ást ok blíðu; finnst ok varla á voru landi dæmi til, eða þótt víðara fari, sá maðr, er þokkasælli hafi verit sínum mönnum ok vinum en sjá enn blezaði biskup, sem votta brèf Þóris erkibiskups, eða Sigurðar erkibiskups, ok Hákonar konúngs, ok margra annara ágætra manna í Noregi, at þeir unnu honum sem bróður sínum, ok báðu hann fulltíngs í bænum sem föður sinn. Líkamr Guðmundar biskups var þar náttsettr í stofunni, en þriðjudaginn var hann borinn í kirkju ok skrýddr; kom þá til Eyjólfr prestr á Völlum, ok gaf til gull þat, er hann hafði í gröf. Allir þeir menn, er sá þenna líkama, þóttust alldri sèt hafa dauðs manns hold jafnbjart ok þekkiligt sem þetta. Jón prestr söng líksöng, en Kolbeinn kaldaljós þakkaði líkferðina ok talaði fagurt eyrendi yfir greptinum[1].

Í þennan tíma var kirkja at Hólum mjög hreyrnut, ok mátti eigi meirr hríngja en einum eða tvennum klukkum at sinni, ef kirkju skyldi óhætt; en er lík Guðmundar biskups var boret til graptar, þá báðu formenn kirkjunnar hríngja öllum klukkum; þá var hríngt tvennum klukkum ok skalf mjög kirkjan. Þá

1) Í jarteinunum er haft til samanburðar: AM. 204, og 2 skinnblöð í AM. 122 folio, einnig blaðhelmingr á skinni í AM. 220 folio, að efnisröð og orðfæri öll samhljóða 204; fyrra blaðið í 122 byrjar hèr þannig:

„Hèr fara margar sögur saman, ok má þó eina senn segja, en þó skal nú fyrst segja frá jartegna gerðum herra Guðmundar biskups, þó at þær eigi fyrr at standa í bókinni, ok er hèr nú eigi merkiliga samanskipat, ok skal nú þar til taka, er Guðmundr biskup var andaðr, ok ger var líkferð hans: at *í þann tíma var*, o. s. frv.

mælti Jón prestr[1], at hríngja skyldi öðrum tvennum, ok svá var gert. Þeir fundu þá, at kirkjan var nú fastari undir en áðr. Jón bað þá auka hríngíngina, ok síþan var hríngt öllum klukkunum, ok hafa þeir menn svá sagt, er þar vóru þá við, at þeim þætti, sem stoð veri sett við kirkjuna í hvert sinn, er við var aukit um hríngíngina, svá at hon skalf þá alls ekki, ok þótti þetta merkiligr atburðr. Margir hlutir aðrir urðu þar merkiligir á þeim degi, þótt hèr sè eigi ritaðir, ok huggaði þá er hryggvir vóru þegar, þvíat þeir sá fagran upprisudag síns föður. En vèr væntum, at Guðmundr biskup mun öðlazt hafa himinríki með guði ok hans helgum mönnum at eilífu. *amen.*

16. [2]Þetta bænahald var vanr at hafa enn góði Guðmundr biskup firir sèr hvern morgin: Fyst, er hann vaknaði, signdi hann sig ok söng þetta: *Adesto nobis deus unus omnipotens pater et filius et sanctus spiritus.* Þá söng hann þetta: *Abrenuntio sathanæ et omnibus operibus ejus et omnibus pompis ejus.* Þá söng hann *Credo in deum*, en eptir þat: *Confiteor domino*; þar næst þessa bæn: *Domine deus omnipotens, qui es trinus et unus.* Þá söng hann bæn: *Omnipotens sempiterne deus dirige actus nostros.* Þar næst söng hann bæn: *Assit nobis quæso domine;* þá söng hann sálminn: *Usquequo domine;* þá *Pater noster*; þá vers: *Delicta juventutis. Ne perdas cum impiis deus. Adjutor meus esto domine, ne derelinquas me. Domine deus virtutum. Domine exaudi orationem. Ineffabilem memoriam tuam nobis domine clementer.* Þá söng hann sálm: *Deus in nomine tuo. Pater noster.* Þá vers: *Deus in nomine tuo. Eripe me de inimicis meis deus meus. Domine exaudi ora[tionem]. Deus qui conspicis.* Þá sálm: *Deus in adjutorium;* þá *Pater noster;* vers: *Cor mundum crea. Ne proicias. Redde mihi [lætitiam]. Domine deus virtutum. Domine ex[audi orationem]. Deus qui corda*[3].

17. Þat er frásögn Gríms prests, at sá atburðr var í Bæ í Borgarfirði, þar bjó þá Böðvarr Þórðarson: þar lagðist

1) lærdjúpr, b. v. 122.

2) Í 204 (og skbl. 122) er jarteinaröðin framanaf nokkuð önnur, fyrst kap. 16, þá kap. 20—21, þá kap. 17, þá kap. 19, þá kap. 23—33; þá Selkolluþáttr (kap. 34—35) og ferð Kolbeins yfir Kjöl; þá kap. 18; þá kap. 36. ff.

3) fidelium deus omnium, b. v. 122; fidelium sancti spiritus illuminatione docuisti, b. v. 204.

dýr á fè bónda, ok reif í sundr meir en dæmi er til; þetta var um haust. Þar kom Guðmundr biskup, ok tók Böðvarr bóndi allvel við honum, ok sagði honum frá dýrbiti því er þar var á komit. Biskup mælti: „viltu kaupa at mèr, at ek gera at?" — Bóndi svarar: „hvat mæli þèr til, herra?". — Biskup mælti: „þú skalt gefa mèr XX geldínga, þá er ek kýs af fè þínu". Böðvarr svarar: „eigi nenni ek svá mikit til at gefa". — „Lát vera þá", kvað biskup, „en þess get ek, at þú vilir þetta kaup á morgin". Þar var biskup um nóttina; en at morni fór sauðamaðr til fjár, en er hann kom heim, sagði hann, at bitinn var forystu geldíngr bónda, góðr gripr, ok þótti bónda hann eigi verri en tveir eða þrír sauðir aðrir. Nú fór bóndi ok sagði biskupi. „Hvat er nú til ráðs?" sagði biskup. Bóndi mælti: „nú vil ek kaup þat, er þèr buðut mèr í gær, herra, því at þetta eru enu mestu býsn, er sauðr sjá er bitinn, því at aldri festi dýr fyr tak á honum fyrr en nú". — „Þá skal svá vera", sagði biskup, „sem þú vill". Nú lèt bóndi reka saman alla geldínga sína ok fèkk menn til at láta velja; eptir þat bað hann biskup til fara at sjá sauðina; en biskup gekk til, ok sá, ok var þat ágæta fè gott; valdi þá biskup vinum sínum gjafir; en [þat] vóru fátækir menn, guðs ölmusur. Ok er þessu var lokit, gekk biskup til kirkju ok með honum kennimenn allir, þeir sem til vóru, ok mikill fjöldi leikmanna, ok margir fátækir menn hans virktavinir, því at þeir vóru jafnan margir með honum. En er biskup kom í kirkju, var hann skrýddr, ok með honum skrýddust allir prestar ok djáknar. Eptir þat kemr upp messa, ok er hon eigi súngin með nokkuru hátíðarhaldi, heldr var hon sett ok samið í þá mynd, sem þá er biskupi er boðit at bannsetja sanna guðs óvini. At súnginni messunni gekk biskup inn með öllum sínum mönnum, ok er þar í kyrðum þann dag ok nóttina eptir. Um morgininn eptir fór sauðamaðr snemma til fjár at vanda sínum; hann fann fè allt heilt ok ósakat, en hjá fènu fann hann melrakka dauðan með þeim hætti, at eingi vóru beinin í, heldr var því líkt sem brjósk veri í, þar sem beinin höfðu verit, svá höfðu hann bitið atkvæði Guðmundar biskups ok bannsetníng, sem nú mátti heyra; en ekki er þess getið, at Böðvari bónda yrði mein at dýrbiti síþan, meðan hann átti firir fè at ráða. Nú skildust þeir Guðmundr biskup enu beztu vinir, ok þótti sjá atburðr fágætr ok fagrligr.

18. Sá atburðr gerðist í Noregi, þá er Guðmundr biskup var þar, ok var hann þá enn vegsamaðr af góðum mönnum: þórir erkibiskup hafði gefit honum silfurbolla, góðan grip, ok margir aðrir góðir menn gáfu honum sæmiligar gjafir; en litla stund átti hann flestar, þótt eiguligar veri, því at hann lagði litla elsku á þessa heims fagnaði, at því er frá er sagt. þess er getið at Guðmundr biskup veri jafnan lítt heill í sínum biskupsdómi, ok mest af meizlum þeim, er óvinir hans veittu honum mörgu sinni, eptir því sem fyr var ritað, en guð styrkti hann ok efldi til alla góðra hluta. þat var sagt, at Guðmundr biskup sat jafnan einn sama[n] í húsi, bæði í Noregi, er hann var þar, ok svá heima í sínu landi; þóttist hann þá frjálsari at hugsa góða hluti. Nú þá er hann sat í stufu, ok hjá honum þjónustu kle[r]kr einn, þá koma þar farandi inn iij fátækir menn, ok báðu Guðmund biskup gefa sèr ölmosu í guðs nafni ok sællar Maríu, hans móður. Biskup sást um, sem hann var opt vanr, þá er hann var svá beðinn, er hann vill eigi synja, er hann er svá guðliga beðinn, at þrír báðu senn í líking guðs þrenníngar, er hann vildi alldri synja, þótt hann veri eigi jafndásamliga beðinn, sem nú. Biskup sèr nú ekki nær sèr, þat er honum þikkir gefa mega í þessa ena guðligu gjöf, er hann vildi firir öngan mun missa þessa ens himneska sáðs, er til svá góðs ávaxtar stóð. Hann spurði klerkinn, er hjá honum var, ef nokkuð veri silfr til at gefa þessum, „er svá biðja þarfliga". Klerkrinn svarar: „ekki veit ek silfr, nema kerit erkibiskupsnaut, ok þætti mèr, sem þat veri eigi stafkalla eign". Biskup mælti: „vit skulum, bróðir, þetta gefa guði ok sælli Maríu drotníngu, en eigi stafköllum, þó at þeir taki nú fyst við af okkr, ok látum okkr af því eigi ofgott þikkja, þat er vit gerum firir þeirra sakir, því at þat er þó lítils vert hjá því sem guð veitir mönnum, ok jafnvel þeim, er hann veitir minnst eptirlæti hèr í heimi, þá veitir hann þó myklu meira fagnað, en þeir fái guði launað, sem vert veri, ok allir mætti hræddir um vera ósannsæi sína við hann, ok þeir þó hræddastir, er hann veitir mest eptirlæti". Nú sèr klerkrinn, at eigi má halda á bollanum firir biskupi, ok tekr nú, ok færir honum kerið. Biskup setr á lófa sèr, ok hèlt upp höndunum ok mælti svá: „skiptu nú, drottinn minn, með þeim, er ek má eigi". Skýtr hann nú kerinu af lófanu[m] á gólfið, ok hrýtr þat

sundr í þrjá hluti; en biskup þakkaði þetta guði, skiptið, ok bað þá nú taka til sín bollabrotin í guðs nafni, ok kvað sèr nú ekki skulu, sagði hann, at þeir mundu góðir vesalíngar vera, er guð veitti þeim þetta, at skipta með þeim, er þeir áttu eigi. Þessir menn urðu stórliga fegnir, ok mæltu svá: „Guð hefir þèr þetta veitt, sem marga hluti aðra stóra ok fagrliga, enda er sjá fágætr góðgerníngr, er þú hefir til vor gjört, en mun hann æ ok æ uppi vera, ok um allan heim fara, meðan hann stendr. Nú sè guði lof ok öllum hans helgum mönnum ok þessum velgerníngi til vor gervum, ok megum eigi svá túngu til koma, sem vert veri, eða vèr vildim, at þakka guði ok þèr, enn góði biskup, þenna fagnað er þú hefir oss gjörvan í hans nafni". Nú taka þeir upp bollabrotin, ok lètu vega í skálum, ok er svá frá sagt, at eingi veri hlutrinn öðrum meiri nè minni. Nú er sjá jartegn sa' sögð, bæði í Noregi ok hèr á Íslandi, ok svá hvar sem hon er sögð, ok er hon óefanlig, því at hana hafa einnveg rètt sagt vinir biskups sem óvinir, enda er hon fáheyrðari en flestar jartegnir heilagra manna, þær er guðligr máttr gerði firir þá í þessum heimi, þeim til eptirlætis ok styrkíngar góðra hluta, bæði þessa heims ok anna[r]s. Þessi jartegn varð í utanferð Guðmundar biskups þeirri er fyr var frá sagt, þá er þeir feðgar tóku hann nauðgan, Sighvatr ok Stulla, ok lètu utan fara nauðgan eptir Grímseygjar för, svá sem Sturla Þórðarson segir í Íslendíngasögu[1], at þá varð mart til frásagna i jarteinum ok spásögum[2] ok fáheyrðum tíðindum, þeim er gerðust í hans utanferð, þeirri er hann kom út á Borðeyri í Hrútafirði; ok ekki höfo vèr heyrt getið, at hann hafi utan farit síþan hann kom út í þessu sinni.

19. Sú er frásögn vina Guðmundar biskups, Einars Ásbjarnarsonar, er var með honum í Víðinesi átján vetra gamall, ok var hann þá messudjákn at ví[g]slu ok kærr Guðmundi biskupi, en hann vígði hann þá er hann var tvítugr, ok gaf honum þat kenníngar nafn, at hann skyldi heita Einarr klerkr, ok kvað honum þat sannefni, en eigi auknefni. Sagði Guðmundr biskup[3] hann mundo halda vígslum sínum ok öllum nafnbótum meðan hann lifði. Einarr kvongaðist, ok fèkk Íngibjargar Þórðardóttur

---

1) þann. einnig 204 (ekki „Íslendinga sögum").
2) spáförum, 204. 3) at, v. b. *B*.

Laufæsíngs, at ráði Guðmundar biskups. Nú hèlt Einarr vináttu við Guðmund biskup. Hann fór á Einarsstaði í Reykjadal, ok bjó þar til elli, ok átti viij börn með konu sinni, þau er or barnæsku kvómust, þrjá sonu ok fimm dætr. Einarr klerkr andaðist í Fjörðum austr í Hofsteigi með Þorvaldi mági sínum, ok var hann þá á xij. tigi gamall vetra, ok sannaðist sú spásaga Guðmundar biskups svá við hann, at hann hèlt messusöng sínum ok vígslum ok eiginkonu sinni, ok öllum nafnbótum þeim, sem þessu áttu at fylgja, bæði prestsstètt ok bóndaskap, ok öll börn hans skilgetin, ok þat með þessu, at honum þótti mest við liggja, er hann gat haldit vináttu við Guðmund biskup, bæði þessa heims ok anna[r]s, enda var þat mest vert.

20. Þat er öllum mönnum kunnigt á Íslandi, at Guðmundr biskup átti mest traust ok trúnað þar sem var Þorvarðr föðurbróðir hans, ok Ögmundr sneis son hans, ok Einarr klerkr, ok Þorvarðr Ögmundarson, er átti Gró dóttur Einars klerks, ok var þar af því sem einn maðr veri, þar sem þeir vóru allir, ok hverr unni öðrum hugástum. Nú hefir Guðmundr biskup þessum mönnum marga þá hluti sagða í trúnaði, er hann vildi eigi at aðrir menn vissi um hans daga. Hafa þessir menn marga þá hluti sagða frá Guðmundi biskupi, er hann vildi eigi segja láta meðan hann lifði, firir lítilætis sakir. En er hann var til hafs búinn [því sinni, sem nú var frá sagt[1], fór hann til Maríu kirkju, ok bað guðs móður Maríu sèr fararleyfis ok ásjár, ok fal allt sitt ráð henni á hendi, sem hann var optliga vanr. Ok um nóttina næstu eptir sýndist honum í svefni sæl María guðs móðir, ok var blíð við hann, ok sagði honum marga hluti, þá er hann vissi eigi áðr, bæði af Íslandi ok anna[rs] staðar. Þessi vitran varð hann stórliga feginn, ok styrktist hann mjög við þetta, ok varð þá enn úngr í annat sinn, ok fór út til Íslands, ok kom skip þat á Borðeyri í Hrútafirði, sem fyr var ritið.

21. Svá er sagt, at þar sem Guðmundr biskup kom á land í þessu sinni, var firir kona sú, er átti Sigmundr snagi, er Arnn Hjörleifsson hafði vegit litlu áðr suðr at Eyðihúsum; hon fagnaði biskupi, ok bað hann gefa sèr nokkut, til þakka sællar Maríu, ok taldi upp þurft sína marga ok barna sinna.

---

1) eptir skilnat þeirra Þóris erkibiskups, 122 (rángt, sjá kap. 21).

Guðmundr biskup svaraði henni: „þótti þèr Sigmundr makligr, at ek gæfa börnum hans fè mitt, svá mart illt sem hann gerði mèr?" — Hon svarar: „eigi má ek maklig vera frá þèr góðra hluta, heldr má ek njóta frá þèr gæzku þinnar ok miskunnar, sem allir njóta ómakligir ok óverðugir, þess er guð veitir þèr marga góða hluti til hjálpar mönnum, þeim er þín þurfa". Biskup mælti: „gefa mun ek þèr kvígu hálfa, er okkr Maríu var gefin í vetr, ok er suðr í Norðrárdal, á Glystöðum, ok farþu eptir, ef þú vill þiggja, ok seg mín orð til, ok mun ek fá þèr x aura í varníngi, at þú leysir kvíguna til þín, ok mun svá gjört vera sem ek segi þèr." Hon svarar: „hver sagði þèr þetta, herra minn, svá at þú vitir þat víst, þar sem þú hefir önga menn hitt á landinu nú? en mèr þikkir illt at rekast suðr yfir heiði til eingis." Biskup mælti: „sè ek, at þú ætlar at ek bera skrök firir þig um þetta, ok þiki mèr þú lítt lokka mig til at ek gera þèr gott. Nú mun ek kaupa at þèr, at þú trúir því, er ek segi þèr, at ek mun eigi af þèr taka þessa x aura, er nú fæ ek þèr í hendr, en ek skal fá þèr aðra kvígu, ef þú fær eigi þessa, sem ek vísa þèr til". — Nú varð hon svá fegin þessi gjöf, at hon mátti eigi vatni halda, eða orðum upp koma, ok þakkar guði, ok enum góða Guðmundi biskupi þessa háleitu huggan, er henni var veitt. Fór hon þá suðr Holtavörðuheiði til Norðrárdals á Glysstaði, ok sagði eyrendi sitt, ok var þat allt eptir því sem Guðmundr biskup hafði sagt henni; fór hon brott með kvíguna, ok nauzt bæði vel ok leingi, sem sá mundi vilja, er henni gaf. Nú veri mart at segja frá Guðmundi biskupi, þat er frásagnar væri vert í þessi hans utanferð, ok þó munu vèr nú hèr standa láta, því at [eigi] höfum vèr vit til nè minni, at segja allt frá honum í þessi bók, myklu er þat fleira til frásagna orðit, en menn fái því til enda á komit í þessum heimi þótt menn vildi við þat leita.

22. Guðmundr biskup fór þá heim til Hóla, er hann kom út á Borðeyri, ok varð þá enn mikill fagnaðr vinum hans at þeirra fundi. Hann var þá enn sem fyr enn röskasti í biskupsdómi sínum, ok lèt ekki mælast, nè undir fótum troðast firir sínum óvinum, þá heldr en áðr hann fór utan, þótt hann hefði harðleikit feingit af þeim í þessi utanferð, er nú var frá sagt um hríð. Fór hann þá víða um sýslu sína, ok enn víða anna[rs]staðar um landit, svá sem Stulla sagði í Íslendíngasögu,

ok urðu þá enn margir merkiligir hlutir í ferðum hans, spásögum ok yfirsöngum manna ok fènaðar, ok margskyns heilsugjöfum þeim er hann gerði í guðs nafni, ok þá þótti öllum góðum mönnum mikils um vert í þann tíma, þeim er sá eða vissu, hvern guðs krap[t] hann hafði til gagnsemda mönnum ok fènaði. En þótt sumum mönnum þikki þat nú sem lygi sè, þá er þat þó ótalligr fjöldi manna, er trúa enn þessa sögu sanna, ok svá mun jafnan, meðan kristnin stendr, at þeir munu fleiri, er trúa þessi frásögn. Nú má því eigi at hvers manns orði fara, at sitt þikkir hverjum satt, ok skal af því nú enn rita fleira frá Guðmundi biskupi, at þeim verði at gagn ok gaman, er trúa með góðum hug þessi sögu, því at þat vita allir menn, at þat er allt satt, er gott er sagt frá guði ok hans helgum mönnum, ok er því gott góðu at trúa, en illt er at trúa illu, þótt satt sè, ok allra vest því, er illt er logit, ok verðr þat þó mörgum góðum mönnum, at trúa því er logit er, ok verðr þá eigi rètt um skipt, er menn tortryggja þat, er gott [er] ok satt, en trúa því er illt er ok logit. Nú munu vèr hèr setja sem flestar jartegnir Guðmundar biskups, þær er guðligr krap[t]r vann firir hans árnaðarorð í þessu[m] heimi, bæði við menn ok fènat, ok mart eptirlæti við menn, er trú höfðu til at njóta hans bæna í guðs nafni, því at nú er svá komit frásögn hans í lífsbókinni, at vèr hyggjum, at hann hafi öðlazt nú fagrliga ombun af guði firir sitt starf ok erfiði, er hann hafði hèr í heimi, ok áhyggju margri, er hann þoldi, ok ánauð, bæði firir vinum sínum ok óvinum ok fátækum mönnum, er[1] hann hafði mesta önn ok ámæli firir af sínum óvinum, ok þó eigi trútt um af vinum hans, at þeim þætti eigi ærit um. Nú er þat frásögn flestra manna, at hèðan frá linaði heldr um mótgang óvina biskups, þeirra er frem[s]tir vóru í því, sumir vóru dauðir, en sumir eldust at illskunni við hann, sem var Sighvatr Sturluson, er hann sendi orð Guðmundi biskupi firir Flatatúngufund, at hann færi til ráðagerða við hann, en hann vildi þat eigi, ok fór hann til Órækju, ok virði hann meira vináttu við Snorra Sturluson, föður Órækju, ok lagði hann sína ráðagerð til liðs við hann, ok sagði honum marga hluti firir, þá er fram kómu

---

1) leiðr.; en, *B.*

síþan, sem segir í þessi sögu. Nú munu vèr þá atburði rita í fyrra lagi, er sannfróðir menn hafa sagt, at í lífi hans hafi verit, þótt menn megi eigi öroggt ákveða, nær verit hefir, enda liggr eigi við mikit um þat, hvat fyst er frá góðum manni sagt, allt kemr í einn stað niðr, þat er gott er gjört í guðs augliti[1].

23. Sá atburðr er sagðr, þá er Guðmundr biskup fór um sýslu sína ok með honum DC manna, ok var í því [liði] XXX vildarmanna hans; hann kom á bæ þann, er Reykjahlíð hèt, at Mývatni, um voret firir hvítasunnudag, ok var á hallæri mikit; þar bjó sá maðr er Þorsteinn hèt, ok var Þórðarson; hann átti son, er Einarr hèt, er kallaðr var dra[u]mr[2], hann var skældinn[3] ok orti vísu þessa um *Hall* [*Klepjárns son*[4] *á Möðruvöllom, föður*[5] *Þórðar*:

Öll unna hjú Halli,
Hallr er blíðr við alla,
getr eigi slíka[6] í sveitum
sveit þótt víða leiti:
kynnist mörgum manni
mannbaldr sá er fremr aldir,
full er ölbærð[7] öllum
öll á Möðruvöllum.

Þorsteinn bóndi tók vel við Guðmundi biskupi ok mælti svá: „tver eru kostir til við lið þitt, herra, af minni hendi, ek á kýr níu ok allar feitar, þar skaltu kjósa af þrjár, at fæða við fólk þitt, en ek vil gefa þèr mat ok vildarmönnum þínum". Biskup svarar: „María launi þèr, þetta er allvel boðit", ok er biskup enn blíðasti um aptaninn; en kýr bónda vóru þegar af drepnar um kveldit, því at lið biskups var bæði mart ok svangt, ok var því skjótt matbúit til morgins, en náttverðr var lítill um kveldi[t], ok vóru skamma stund signd bauluföllin þrenn firir liði biskups, ok var senn uppi, áðr en helgren leið af. Um morgininn var snemma til tíða faret, ok er lokit var morgintíðum, gekk biskup frá kirkju, ok öll alþýða manna, ok gekk firir austr á völlinn frá kirkjunni, ok er hann slèttr ok fagr, tekr völlrenn at vatninu fram, ok vóru[8] þar grjótgarðar sterkir firir, at eigi brjóti völlinn, þá er at landi stóð[9] vindr með báru.

1) þenna kap. vantar í 204. 2) draum maðr, 122; dramr, *B*. 3) skáld, 122. 4) [ mjög dauft í *B*; v. í 122, 204. 5) herra, b. v. 204. 6) þann. 122; slikt, *B*. 7) öll verð, 122. 8) eru, 122. 9) stendr, 122.

Biskup gengr at garðinum ok blezaði vatnit, ok mælti síþan: „hversu mikil hefir verit veiðr í vatninu í vor"? — þorsteinn bóndi svarar: „eingi hefir verit, herra, ok er oss þat mikit hallæri, er hvergi eru veiðar or vatninu". En þar lágu varpnet löng á garðinum, er biskup hafði at gengit, ok vóru breidd til þerris; höfðu þeir op[t] leitað at veiða or, ok veitt ekki. Biskup mælti: „takit þèr netið ok bátinn, ok látið mig sjá, hversu þèr farit at veiðinni". þorsteinn bóndi svarar: „þat er mikill starfi, herra, á svá mikilli hátíð sem nú er". Biskup mælti: „mèr er svá mikil forvitni á at sjá[1], hversu þèr farit at". — „Svá skal þetta vera sem þú vilt", segir bóndi, „at sè, herra". þeir taka nú ok búa um sem þeir vóru vanir. þar var at djúp mikit at landinu ok marálmr í. Nú verpa þeir netinu, sem þeir vóru vanir, til at veiða, ok drógu at landi netið, ok vóru þar í fiskar ij, miklir sem laxar; ok er biskup sá þetta, þá mælti hann: „lofaðr sèr þú drottinn minn, ok in sæla María drotníng ok Johannem baptistam, „nú skulu vèr hafa í dag græna fiska; faret til enn ok it þriðja sinn, góð er guðs þrenníng". þeir gerðu enn svá, ok urpu netinu it þriðja sinn, sem biskup bauð þeim; drógu nú at landi netið, ok var í hálfr fimti tögr fiska. Nú gerði Guðmundr biskup þetta í minníng Marteins biskups, er hann sendi páskadag inn fysta at veiða lax til hátíðar fagnaðar ok matar mönnum, sem segir í sögu hans. Nú verðr vel haldit lið biskups um daginn af veiðinni, ok margir aðrir. þá kemr annarr dagr viku; þá spurði biskup þorstein bónda, hvar veiðistöð veri bezt með landi hans. Bóndi sagði honum hvar þat var. Biskup mælti: „þann veg vil ek í dag fara ok sjá yfir veiðistöðna". Svá var gjört sem biskup vildi, ok fóru menn til veiða; ok er biskup kom þar, blezaði hann veiðistöð bónda, ok bað guð ok Maríu launa honum kýr sínar, þær er etnar vóru. En um daginn, áðr en menn fóru heim, vóru veiddir v hundrat fiska, ok urðu menn fegnir þessum atburð, ok lofuðu allir guð ok sæla Maríu, ok Johannem baptista. Nú varð veiðr svá mikil um sumarit eptir, at varla kom nytjum á, ok seldi þorsteinn bóndi til iij. kúa reyðar um sumarit, ok skorti öngan hlut til búsins, ok leingi síþan. Fór biskup í brott eptir helgina, ok vóru þeir þorsteinn ok biskup góðir vinir alla æfi síþan.

1) hèr endar fyrra skinnbl. í 122.

24. Þat er enn sagt, at Guðmundr biskup fór í sýslu sína, ok bað, at menn gæfi honum búfè nokkut til Hólastaðar, því at þar vóru fár kýr heima, ok annat fè. Hann kom á Staðarbakka, þar bjó þá Þorgrímr, faðir Eireks, er þar bjó leingi síþan. Þá bjó at Húki Ali, faðir Hallvarðs ok annara Húkúnga, fèlítill maðr ok átti fjölda liðs. Ali gekk firir biskup ok kvaddi hann vel. Biskup tók vel kveðju hans. Ali mælti: „viltu, herra minn, þiggja at mèr kú?" — Biskup svarar skjótt: „hví munda ek eigi feginn þiggja kú at þèr, ok launi María þèr". Þorgrím[r] bóndi mælti: „ekki er þat ráð, herra, at þiggja kú at þeim, er ekki eigu nema vá ok vesöld, ok sitja við hús fullt ómegðar". Biskup svarar: „mart er fè betra, ok má María drotníng gefa honum þat, sem eigi er verra en kýren, þótt síþar sè, ok þótt hon sè góð," ok þiggr biskup kúna. En er Ali fór heim frá fundi biskups, þá sá son hans lax mikinn í á sinni, ok gátu tekit með höndum sèr, ok færðu föður sínum. Þá mælti Ali: „eigi mun sjá einn samt staðit hafa í ánni, ok skulu vèr til fara á morgin ok vita hvat firir verði." Þeir fóru til með net, ok veiddu marga laxa um daginn, en þó var þetta fyr en tími veri til laxgöngunnar, ok ekki veiddu aðrir menn í þann tíma. En svá var veiðr þessi mikil um sumarit, at Ali bóndi seldi til mikils fjár laxa, ok hafði ávallt þaðan frá hægra ráð en áðr, ok þótti þessi atburðr en fagurligsta jartein, sem mart annat, þat er sagt [er] frá Guðmundi biskupi, ok eptir þat varð til margr góðr maðr at gera eptir sem biskup bað, þótt mikit þætti, sem var, at taka við honum ok liði hans, þá sá þeir þó, at þeir tóku jafnan meira gott upp en þeir vörðu til við hann, ok eigi minnr fátækir menn en au[ð]gir, því at þeir þurftu meir ávaxtarins en hinir, er ekki skorti áðr þat er hafa þurftu; var hann sannliga faðir anligr fátækra manna, því at hann þoldi firir þá húngr ok kulða ok margháttaðar mótgerðir sínum óvinum.

25. Vígslur Guðmundar biskups vóru merkiligar, þegar er hann var prestr, en þó jók mikit við síþan hann var biskup. Hann vígði marga brunna, er hann fór um sýslu sína, ok urðu þar mikil tákn af því síþan, meðan menn höfðu trú til at njóta, með guðs miskunn; en nú er því eydt, sem mörgum öðrum góðum hlutum, af ótrú manna ok ofmetnaði, ok öfund þeirri, er þeir höfðu, er eigi vóru slíkt verðir at þiggja af guði, firir

syndum sínum, ok af elsku heimsins ok eigingirni veralligra hluta. Hann vígði brunn í Vestfjörðum á bæ þeim, er á Mýrum heitir. Svá er sagt, at kona ein fór til Mýra af bæ þeim er í Lambadal heitir, ok eru þar v bæir í millum. Hon mæltist illa um, er hon hafði ekki til at hafa heim vatnit með sèr. Hon tók línhúfu af höfði sèr, ok mælti svá: „eigi mun ek minn[a] af fá vatninu, en þat, at vinda húfuna vota". Tekr hon nú húfuna, ok fyllir af vatninu, en hon lak ekki heldr enn it þèttasta kerald, ok eigi var hon heldr vot. Nú þótti þetta merkiligr [atburðr].

Sá atburðr varð í Hvammi í Breiðafirði, þá er Þórðr Sturluson bjó þar, at menn tefldu kvotru um nótt, ok er einn þeirra nefndr Hermundr, sá er firir þeim var. Nú þraut þá lýsit, ok vandræddust þeir um, ok báðu konur fá sèr lýsi, en þær vildu ekki þat. Hermundr mælti: „tökum vatn Guðmundar biskups, ok reynum þat", ok svá var gjört. Nú brann vatnið sem it bezta lýsi, ok tefldu þeir meðan þeir vildu, ok lofuðu þeir guð ok hinn góða Guðmund biskup.

26. Þessi er frásögn Tho[r]láks Narfasonar: þá er Guðmundr biskup hafði vígt þá bræðr Narfa ok Bárð, sonu Skarð-Snorra, þá var þat orð á, at af þeim mundu teknar vígslur. Þeir fóru þá at finna Guðmund biskup, ok rèðust um við hann hversu með skyldi fara, en hann sagði svá, at þat veri hugboð hans, at ekki mundi stoða at vígja Bárð leingra fram, firir sakir óspektar sinnar, en þat kvazt hann þó vilja, at Bárðr hefði jafnan krúnu sína, ok kvað honum mundu at því verða gagn en aldri mein," ok þóttú verðir vopnbitinn, þá mun guð svá til gæta, at krúnu þinni mun ekki skeðja". Nú bar svá raun á síþan, þá er Bárðr prestr var í bardaga á Örlygstöðum, ok var særðr til ólífis, en ekki sár var í krúnunni. Síþan var Bárðr græddr, ok var á Reykjahólum með Tuma Sighvatssyni, ok þar fèll Bárðr, ok var á honum hálfr fjórði tögr sáranna, ok flest í höfðinu, ok var þó ekki sár [í] krúnunni. Nú er at segja frá Narfa Snorrasyni, hvat Guðmundr biskup rêðr honum um sínar vígslur: „Ek skal þig til prests vígja," segir hann, „ok þú munt þínum vígslum halda til dauðadags, ok alldri mun messusöngr af þèr tekinn, meðan þú lifir, ef þú villt, hverja heitan sem þeir hafa á, ok mun þó koma sú boðorða breytni, at þèr mun þikkja óvænna um en nú er, firir því, at þá mun

af flestum prestum tekinn messusöngr, ef eigi vilja til handa ganga". Nú var Narfi prestr síþan, ok var aldri messusöngr af honum tekinn, þótt Guðmundr biskup hefði hann vígðan eigi at fullum lögum; ok Narfi fèkk sèr konu, en síþan kvómu út þau boðorð, at eingi prestr skyldi sèr konu eiga, en þeir er áðr vóru kvángaðir skyldu skilja við sínar konur, ella láta messusönginn, ok skyldi þá heita skilgetin börn þeirra. Nú tók Narfi prestr þat ráð, at hann fór utan ok fann erkibiskup, ok þá þat af honum, sem eingi prestr þá annar, at hann skyldi vera ásamt við húsfreygju sína, ok var eigi messusöngr af honum tekinn. Síþan fór Narfi út til Íslands, ok lèt aldri messusöng sinn, ok sannaðist svá þessi spásaga Guðmundar biskups.

Þat er frásögn Guðrúnar Bárðardóttur, at fátæk kona var sú norðr á Ströndum, er átti mörg börn bjarglaus, ok lá þó í húsi, ok þótti illt út at ganga; matr var eingi. Hon tók vatn Guðmundar biskups, ok lèt í ketil, ok kastaði á grösum, ok lifði hon við þat leingi sumars, ok þótti þetta enn tíðindi, er svá mátti verða.

27. Þat er enn sagt, at kona lèt ketil yfir eld, ok bar í elditorf, en hon sagði börnum sínum at í veri kjöt, ok huggaði þau svá, er matrinn var eingi. Nú bar svá til, [at] Guðmundr biskup fór um sýslu sína, hann kom á bæ þenna, ok gekk hon út en fátæka kona, er hon vissi, at biskup var kominn, ok fagnar honum vel ok mælti: „gefþú mèr nokkut, biskup sæll, til Maríu þakka; ek á börn mörg inni", ok segir hon honum tiltekju sína, er ketillinn var yfir eldinum. Biskup mælti: „ráðleitin þikki mèr þú vera, ok far þú nú inn til barna þinna, en ek mun biðja Maríu, at hon huggi börnin með þèr". Biskup reið nú leið sína, en konan kom inn til barna sinna. Nú kom hon til ketilsins, ok sèr at vellr í ákafa; henni sýnist sem flot sè á katlinum; síþan leitar hon til, ok var hann fullr af slátri. Hon var nú stórliga fegin þessi guðs sendíng, ok þótti Guðmundr biskup vel hafa dugat sèr í árnan sinni við Maríu drotníngu, ok varð hon allfegin þessi huggan ok börn hennar.

28. Sá atburðr varð vestr á Svínanesi, þar bjó sá maðr er Þorkell hèt, hann var faðir Barkar, er þar bjó leingi síþan. Þetta var í þann tíma er Guðmundr biskup var í Kerlíngarfirði, ok Eyjólfr Kársson hafði hann sóttan til Hvítár; fór biskup þá

leyniliga firir óvinum sínum; var hann ok leingi á Eiði um sumarit, þat var óbygð ok útlegð, ok vóru þar furðu miklir reimleikar, svá at menn máttu þar ekki vera, áðr en biskup átti þar tjöld ok menn hans. Þat var nótt eina, er menn vóro í hvílum ok biskup; þeir heyrðu út dunur miklar ok margskyns ill læti ok glímur miklar. Þá tók eitt flagðit til orða: „hèr sofa dreingir, ok hèr sofa dreingir". Við þetta sprettr biskup upp, ok bað menn sína sofa í náðum, en hann gekk út með helga dóma sína ok með vatn sitt ok stökkul. Menn hans heyrðu út skræki mikla ok hlaup stór, sem þá er naut leika ok láta öskurliga; þeim þótti tjaldit allt hristast ok jörðin undir þeim. Undrum þessum fylgði ódönn mikill ok fýla. Þeir hræddust ógn þessa ok hlaupa út allir, ok vilja forvitnast hvat um biskup þeirra liði, ok finna hann langt í brott frá tjaldinu, ok spurðu hann at tíðindum. „Smá eru tíðindi", segir biskup, „en þess hefi ek hvergi komit, at jafnmargar óvættir ok flögð hafi í einn stað saman komit, sem hèr í Kerlíngarfirði; en þó þikki mèr meiri von, at eigi sè hèr jafnmikill óvætta gangr hèðan frá, sem áðr, ok láti guð svá verða, sem ek get til". Ok þat segja nú allir menn síþan, at þar verði nú aldri vart við reimleika síþan Guðmundr biskup var þar.

29. Nú skal enn þar til taka, er fyr var frá horfit, er Þorkell bjó á Svínanesi, hann var messudjákn at vígslu; hann söng opt óttusöng ok aptansöng þar heima at sín firir hátíðir; hann söng aptansöng firir Maríu messu um kveldit allt til *Magnificat*, þá mundi Þorkell eigi upphaf sálmsins. Hann söng iij tíma *Antiphonam* firir, ok mundi þá eigi heldr en áðr upphafit. Nú bað hann, at menn skyldu út sjá, ok svá var gert. Þá sjá menn, at skip ferr at landi ok mart manna á. „Þat kann vera", sagði djákninn, „at þar sè sá maðr á skipinu, er ætlað sè at hefja upp sálminn hennar Maríu drotníngar í kveld. Nú kom skipit at landi; var þar á Guðmundr biskup, ok söng hann aptansöng Maríu, sem djákninn gat til.

Bær heitir at Firði á Skálmarnesi, þar bjó sá maðr er Þorsteinn hèt, hann átti börn mörg; en þar er þat bjarg nær bænum, er börn mörg höfðu dáit, er þau höfðu leikið sèr, en bóndi var hræddr um börn sín, ok bað Guðmund biskup sýngja yfir þeim, þá er hann kom þar um farinn veg. En biskup mælti við bónda: „vill þú eigi heldr, at ek sýngja yfir bjarginu?" — Bóndi svarar:

„þat mun betr gegna, sem þú vill heldr firir sjá". Síþan fór Guðmundr biskup til bjargsins ok vígði þat, ok hefir þar aldri barn dáit nè ellri maðr síþan.

Eirekr hèt maðr, hann var Árnason, hann var veiðimaðr mikill, hann fór í skor þá er Gráhn[ak]ka[1] skor heitir, þat er fuglberg mikit, ok skal eigi í fara fyr en at miðjum morni, en eigi síþar í brot en at miðjum aptni. Nú fer hann í bjargit, ok fyglir um daginn viij hundrat eða meirr, ok varð honum dvalsamt í bjarginu, ok fór hann síþar or en vera skyldi; ok er hann ætlaði upp at fara, þá kom hönd fram or bjarginu mikil, ok skálm í, ok skar í sundr viij þáttuna í festinni, ok hrukk[u] þeir um höfut honum, en einn var óskorinn, ok ha[f]ði Guðmundr biskup þann vígt, ok gaf sá honum líf, með guðs miskunn ok verðleik Guðmundar biskups.

30. Þat er sögn Lambkárs Gunnsteinssonar, at Guðmundr biskup gisti í Galtardalstúngu; þá varð sá atburðr þar, at hann stóð upp um morgininn ok gekk til anna[r]s húss, ok klerkar nokkurir með honum, ok var hann varla klæddr. Þá varð þat til tíðinda, at sveinn einn fátækr kemr hlaupandi til biskups, alnökviðr, svá at hann hafði ekki klæði á sèr. Hann biðr biskup, at hann gefi honum nokkut til klæða sèr. Biskup hyggr at sveininum ok mælti svá: „áttu öngva klæðaleppana, s[onr]"? segir biskup. — „Já, alls öngva", segir sveinninn. — „Allóbirgr þikki mèr þú vera, son minn", segir biskup, „ok má eigi þat vera, at ek ráða ekki or við þig. Nú mun ek vísa þèr til fataleppa, er María hefir sent þèr, ok er[u] þeir niðri á mýri undir torfstakki þeim, er fir[s]t er bænum". Sveinninn varð um fár s[v]á, ok kvazt eigi fara mega þangat nökveðr. Biskup kvaddi til ij klerka sína at fara með honum, ok fór hann mjög svá nauðigr með þeim. Nú koma þeir til torfstakkanna, ok koma til allra, ok finna undir þeim, er biskup kvað á, fataleppa vonda. Þeir spyrja nú sveininn, hvárt hann kenni nokkuð fataleppa þessa. „Kenni ek víst", segir hann, „ek hefi átt þetta, ok þiki mèr vera öngu neytir, ok ætlaða ek, at biskup mundi gefa mèr betri, ok hefir ekki María sent mèr tötra þessa. Nú láta þeir hann fara í tötra þessa ok er hann þá alltötrugr. Nú spyrja þeir hvárt hann vill nokkuð finna biskup. „Ekki þori ek þat nú",

1) þann. 204.

segir hann, „at finna hann". þeir mæltu: „þat er nú ráð, at þú farir ok finnir hann, ok segir honum allt sem röskligast, hversu farit hefir". Hann ferr nú með þeim, ok rönmjög nauð[ig]r. En er þeir koma firir biskup, þá segja þeir hversu farit hefir. Biskup mælti þá: „hví vildir þú, kollr minn, ljúga at okkr Maríu"? — „Ek ætlaða, biskup, at þú mundir ekki til vita" segir hann, „hvar ek hefða kastað fatatötrum mínum, en ek vissa, at þú mundir annathvárt gefa mèr betri eða öngva; vissa ek ok þat, [at] ek munda eigi þessa missa at heldr, sem nú máttu sjá; en nú muntu ráða, hvárt þú leggr nokkut fram firir Maríu, því at ekki þikki mèr hon gefa mèr þessa tötra". Biskup brosti at svörum hans ok mælti: „Guð ok María gefr allt þat, er betra er at hafa en án at vera, ok hafðu nú xij [álnir] vaðmáls til Maríu þakka". Hann fór á brot ok varð allfeginn, ok þakkaði forkunnliga vel Guðmundi biskupi.

31. þat er enn sagt, at Guðmundr biskup gisti á Jörva í Haukadal at áliðnu sumri, þar bjó þá húsfreyja sú, er þórey hèt ok var Grímsdóttir, hon var góð húsfreyja ok skörúngr mikill, ok þá á efra aldri, er sjá atburðr varð; hon hafði nokkuru áðr mist bónda síns, er Ari hèt; þau áttu iij sonu, Hall ok Guðmund ok þórarinn, þeir vóru allir góðir bændr leingi, ok lifði þórarinn lengst af þeim, ok var þó firirmaðr allra bræðra sinna. þeir bræðr vóru heima með móður sinni þá er þetta var tíðinda. þórey húsfreyja tók allvel við Guðmundi biskupi, ok var hann þar nokkurar nætr, ok mart manna með honum, bæði vildarmenn ok fátækir menn. Nú geingr upp mikill matr í búinu firir húsfreyju, sem von var; ok er sá dagr kemr, er biskup ætlar brott at ríða af Jörva, þá kemr þórey húsfreyja at máli við hann, ok segir svá: „þat vilda ek at þú veittir mèr, biskup sæll, at þú færir um hús mín áðr þú ríðir á brot, ok blezaðir mat minn ok aðra hluti, þá er ek á innan veggja, því at ek trúi því, at mèr verði allt at drjúgara, at þú sjáir yfir eign mína". Biskup segir: „þat skal vera þannveg sem þú vill, systir sæl, því at ek veit, at mikill matr hefir upp geingit í búi þínu, meðan ek hefir hèr verit ok vesalíngar mínir, ok vilda ek, at María drotníng drýgði firir þèr í staðinn". Nú ferr biskup í búrit við henni; hon sýndi honum fyrst smjörspann sitt, ok var þat allmikit, ok stóð í innanverðu búri; hann blezaði smjörspannit. Hon sýndi honum skyrker sín, þau er þar vóru í

búrinu, því at upp hafði gengit allr enn betri matr. Biskup sýngr nú yfir þessu öllu, ok blezar svá sem honum sýndist, ok mælti við húsfreyju: „þess vænti ek, systir, at guð gæti þess er þú átt, ok María drotníng, ok launi þèr þessa veizlu, er þú hefir mèr gjörva, ok svá vilda ek at veri", ok þakkar henni margfalliga þá góða hluti, er hon hafði honum gjörva. Nú ríðr biskup í brot þaðan, ok skiljast þau hinu beztu vinir.

32. Sá atburðr gerðist þessu nær, at menn Órækju fóru um sveitir heldr óspakliga, ok var firir þeirri sveit Maga-Björn ok aðrir illvirkjar með honum. þeir föluðu mat at mönnum, en tóku, ef þeim var eigi gefinn eða seldr. þeir spurðu at hvar smjör veri mest í Dölum; þeim var sagt, at þórey húsfreyja á Jörva ætti smjör mikit. þeir verða við glaðir, ok ríða þann veg, ok finna húsfreyju at máli. þeir spyrja, ef hon vildi selja þeim smjör nokkut: „því at oss er sagt, at þú eigir allmikit smjörspann". Húsfreyja svarar: „ekki mun ek yðr smjör selja, ok eigi við yðr eiga, því at mèr þikkir, sem sá hafi verr, er mart á við yðr". þeir verða óðir við þetta, ok kalla þetta atmæli ok illyrði: „ok er þat makligt, at þú látir smjör þitt, ok hafir ekki fè firir." — „Hversu sem þat verðr", [segir hon], „þá sel ek yðr aldri at heldr." þeir hlaupa inn í húsin, ok fara með styrjöld mikilli ok illyrðum, ok spyrja hvar búrit er. „Tröll vísi yðr til búrs," segir hon. — „þó munu vèr finna smjörspann þitt," segja þeir. Nú koma þeir at búrdurum, ok brjóta upp þegar ok hlaupa í búrit, ok leita smjörsins ok finna ekki; þeir sjá þar skyrker ein ok keralda hrata[1], en ekki annat. Nú þikkir þeim þetta undarligt, ok tala með sèr, hvar sjá en slægja kerlíng mun fólgit hafa smjörspann sitt; fara nú enn at leita um allt búrit, ok finna eigi at heldr. Nú sjá þeir einn hlut undarligan, at þar stendr hamarr mikill firir þeim í innanverðu búrinu, at því er þeim sýndist; þeir berja um öxarhömrum, ok stínga í öxarhyrnum, ok gnestr í steininum. þá talar til einn þeirra, at kerlíngin mun vera fjölkunnig, „ok mun þetta vera smjörspann rænar, ok er þetta óvinr, kerlíng sjá." þeir stukku nú brott ok eru málóðir, ok biðja bæði illz húsfreyju ok þeim, er þá hefir þagat ginnt. En húsfreyja þakkaði guði ok Guðmundi biskupi, er hon hèlt eigu sinni firir ill-

1) *hrata* (hratta), *B.*

virkjum þeim, ok þótti öllum þetta vera en fegursta jartegn, þeim er heyrðu.

33. Maðr hèt Jón ok var Þorgrímsson[1], hann bjó at Þverá í Hnjóskadal, hann var vitur maðr ok vel at sèr, vinsæll ok vellauðigr. Þat var eitt vor, at hallæri var mikit norðr um sveitir, ok var illt til matar, ok feingu menn varla þat er menn þurftu at hafa til atvinnu. Í þann tíma fór Guðmundr biskup um sýslu sína með margmenni mikit; þá vóru með honum margir dugandi menn, en hitt var myklu meiri [þori], er vóru göngumenn ok illhrysíngar, því at hann rak önga á brot sakir huggæðis, er hans þóttust þurfa. En er hann kom til Þverár, fagnar Jón honum vel, ok var þar enn bezti beini, ok enu frjálsustu hýbýli um kveldit, ok sèst eingi maðr í húsum inni fátækr á þeim aptni, vóru þar allir menn kátir, nema biskup, hann var heldr óglaðr. Þetta undrast menn, því at bóndi var enn kátasti, ok tók við þeim et bezta, enda skorti þar önga hluti; vissu menn ok, at hann var mikill vin bónda, ok hvárr þeirra anna[r]s. Nú líðr af þetta kveld ok nóttin, ok verðr ekki til tíðinda. Um morgininn stendr biskup [upp ok ferr] í klæði sín[2] ok þeir menn með honum, er frjálsir vóru; fór biskup til tíða, ok háttaði öllum háttum sem hann var vanr, vel ok góðmannliga; ok er biskup hafði lokit tíðum, gengr hann inn til borðs með öðrum mönnum; vóru borð upp sett, ok vist á borin; var þar at öllu vel um búit ok kurteisliga; ok í þat mund er biskup var undir borð kominn, þá gengr Jón til fátækra manna, ok spurði þá, hversu þeim gætist at viðtökum ok forbeina. Þeir sögðu ekki eptir liggja um þat, at þeim gætist at öllu vel, ok þökkuðu bónda, ok sögðust hvergi þar hafa komit, at betr hefði verit við þeim tekit en þar. „Þá þikki mèr vel," kvað bóndi, „ef yðr gezt at. [Nú er gjört kaup með oss". — „Hvert kaup er þat?" sögðu þeir[3]. „Nú skulu þèr fara inn gjörvöll, ok spara ekki af, at hrifsa allt þat er fírir verðr, ok gerit allt þat er yðr er í hug. Látið ok öngum manni tjá til at tala, nema mèr, þá er ek vil at gera; hèr í móti skal ek gera yðr slíkan forbeina, sem þèr þurfit at hafa meðan biskup er hèr." Þá svöroðu enir fátæku: „eigi þurfu vèr, bóndi, at breyta um þetta, sem þú hefir oss gert, því at vèr

1) Þorgeirsson, 204. 2) um morgininn, b. v. *B*. 3) [ b. v. 204.

erum öll fullsæl, ok oss mun langt til slíkrar veizlu ok fagnaðar." — „Hversu sem þat [er]," sagði bóndi, „þá skulu þèr þó inn fara;" ok nú gengr bóndi inn, ok þegar jafnskjótt dreif inn fólkit með ópi miklu ok harki, ok hlaupa þegar í stofuna, ok ætluðu margir, þeir er inni vóru firir, at kominn mundi úfriðr. Nú hljóp þegar fólkit at borðunum, ok reif allt ok sleit þat er höndum kom á; var ok eigi því heldr[1] hlíft, er á borði sjálfs biskups var; urðu nú stórar árásir ok áflog ok bölvan. Nú talar biskup um: „dragist brot þèr veslir menn ok vondir, ok gerit eigi meira illt af yðr, ok launið þèr ómakliga góða hluti, er þessi enn góði maðr gerir oss". — Var biskup þá nokkura hríð harðmæltr, en fólkit gaf öngan gaum at því hvat er hann sagði, ok gjörði allt slíkt sem því kom í hug. Nú gekk Jón bóndi til biskups, ok kvaddi hann vel ok sagði siþan: „hvat er nú, herra, verit nú kátir, hèr er nú komit fólk yðvart ok ferr at vilja sínum; mun yðr nú vel þikkja, er þèr sjáit veslínga yðra ok ölmosur; hæfir þat eigi at gera í móti yðr, því at ek sá at yðr mislíkaði, er þetta fólk var eigi hjá yðr í gærkveld, en ek vilda allvel við yðr taka, ok sá ek at þar dugði eigi af at draga um viðtökur, er yðr þótti svá miklu varða." Nú svarar biskup: „María launi þèr, bróðir, þínar viðtökur, sè ek, at þú hefir enn verit sem optar vitr ok langsær í þessu sem mörgu öðru, ok veri þannveg myk[it] betr, sem þú vildir hafa firir sèt, þótt ek hefða eigi þol til, sneriligr[2] karl, at láta eigi finna á mèr." Bóndi sagði: „þannveg mun bezt vera raunar, sem þèr vilit firir sjá, en þat megi þèr þá heldr hugleiða, hversu þar má verða, er þèr sækit þá menn heim, er mart skortir, þat sem hafa þarf yðr til forbeina eða öðrum góðum mönnum, en þá sè þessir slíkir, sem nú máttu þèr sjá um hríð. Nú biðr ek yðr, minn herra, at þèr firirlátið mèr þessa tiltekju ok skapraun, sem ek hefi yðr gert; hefi ek þetta heldr gert til þess, at sýna yðr sannindi um þetta mál, heldr en mèr þætti svá mikit firir, at gefa veslíngum þínum mat um máls sakir eða tveggja eða þriggja; skulu þèr ok þat vita, herra, at eigi skorti þessa menn heldr mat eða annat, en þá sem inni sátu hjá yðr. Nú vil ek at þèr sendit þá menn, er þèr trúit, at sjá þat herbergi, er ek

---

1) er, b. v. *B.* 2) þann. 204; smorligr(?), *B.*

hefir búa látið fátækum mönnum þínum, eða þat annat sem þar þarf at hafa. Nú bið ek þig, at þèr gefit þeim orlof til, at þeir fari aptr til þess herbergis er þeim er búit, ok vil ek því heita þèr, at þeir skulu hafa þat er þeir þurfa, meðan þeir eru hèr með yðr." Biskup játti þessu blíðliga. Síþan mælti Jón bóndi: „farit nú aptr, allir fátækir menn, ok gerit öngar ónáðir nè harka hèðan frá í mínum hýbýlum." Síþan keppast allir fátækir menn um út at ganga þegar, sem bóndi beiddi, ok gerðu öngan harka þaðan frá; en biskup segir at hann þarf eigi menn til at senda, at sjá þat er Jón gerði til þeirra, kvað þat allt bezt gert, sem hann sæi firir. Síþan fær Jón menn til at ræsta stofuna, ok bera brot le[i]far þær ok keröld, sem fólkit hafði eptir látið, því at þat var öngum frjálsum manni hæft; lèt bóndi þá setja borð í annat sinn firir biskup ok menn hans, skorti þá önga hluti heldr en fyrri, þat er hafa þurfti; var nú biskup enn kátasti ok allir hans menn, ok sögðu, sem satt var, at þetta var bæði viturligt bragð ok röskligt, er Jón hefði gert, því at þess þótti jafnan áfátt vinum biskups, at frjálsir menn máttu eigi hafa náðir firir fólki því, er honum fylgði; bar svá opt raun á, at hann sjálfr kom eigi til leiðar at setja þat eða siða, eptir því sem hann vildi, ok launaði þat honum svá þessa miskunn, er hann gerði á því. Nú höfum vèr eigi heyrt, at yrði fleira til tíðinda í því sinni, er Guðmundr biskup gisti Jón; fór biskup í brot ok lið hans allt, þá er hann var búinn. Leiddi bóndi hann út vel ok sæmiliga; skildust þeir enir beztu vinir. Þakkaði Guðmundr biskup vel beinann, sem vert var.

34. [1]Nú skal segja þann atburð, er varð fyrr í sögunni, þá er Guðmundr biskup var í Steingrímsfirði, áðr hann fór utan, ok vann sigr á fjanda þeim, er meiddi menn ok gjörði svá mikinn ófrið af sèr, at varla fannst dæmi til í þann tíma kristninnar. Bær hèt á Eyjum[2], sem er norðr frá Kallaðarnesi, þar var meybarn fætt; vóru feingnir til tveir menn, karlmaðr ok kona, at fara [með] til skírnar á Stað í Steingrímsfjörð, því at þá var eigi kirkja á Kallaðarnesi, ok er þau kómu til [Miklasteins[3], þá leggjast þau niðr, ok leysir konan af sèr barnit, en hann legst með konunni, en er þau koma til barnsins, þá sýnist þeim

1) Selkollu þáttr (kap. 34—35) er hèr settr inn eptir 204; en vantar í *B.*
2) leiðr.; Eyrum, 204. 3) [ þann. eptir sögu Arngríms; veikleiks síns, *B.*

þat dautt ok illiligt, ok þar láta þau eptir barnit; ok er þau koma skamt í burt, heyra þau barnsgrát, ok fara eptir hljóðunum, ok sýndist þeim þat þá enn illiligra en fyrr, ok þora þá eigi [í] nánd at koma; fara nú heim, ok segja af hit ljósasta at því sinni. Fara menn nú ok leita barnsins, ok finna eigi; en litlu síðarr sýndist þar kona, ok eigi fríð ásýndar, því at stundum þótti selshöfut á vera; fyrir þat var hon Selkolla köllut. Skildu menn nú af þeim atburð, at óhreinn andi var hlaupinn í búk barnsins, ok mátti sjá fjanda þann dag sem nætr; ok er af því Selkollu-Kleifar kallaðar. — Dálkr hèt bóndi, ok var Þórisson, hann bjó at Hafnarhólmi í Steingrímsfirði þá er þessi tíðindi gjörðust; hann var smiðr, ok þótti vinsæll maðr. Þorgils hèt annarr smiðr, Dálksson, Vigdís hèt kona hans, hon var væn ok góð húsfreyja. Þat var einn dag, er bóndi gjörði skip sitt einn saman í nausti, hann var kvennsamr, ok um daginn sýndist honum, at kona hans gengi í naustið; hann bregðr á blíðlæti við hana, því at þau vóru vön til slíkra leika. Nú legst hann með þessari konu, eigi síðr fjanda en konu at var fjandi hans til at gjöra sèr skömm en öðrum mein, ok sem þau vóru skilin, þá þótti[st] hann ætla, at þetta var eigi kona hans, heldr óhreinn andi, Selkolla, leitar hann þá heim, en Selkolla vill eigi skiljast við hann, ok var hann mjög máttfarinn er hann kom heim, ok or allri mannligri náttúru, ok þó kennist hann við, ok sèr hvat honum var orðit. Nú legst hann í rekkju, ok urðu menn at gæta hans nótt ok dag firir Selkollu, ok ákalli þessa óvinar, en sá fjandi gekk svá djarfliga, at menn þorðu eigi at fara nauðsynja sinna um þær sveitir, þó at hraustir menn væri; gekk þessi fjandi svá um daga sem um nætr, ok engi var óhræddr um sig þar um sveit, því at hennar var hvergi örvænt, því at hon kom upp or jörðu, svá inni sem úti. Hon sækir svá at Dálki, at öngir þorðu nær honum at koma. Þorgils dani liggr hjá Dálki um nætr. Á einni nótt ræðr Selkolla á hann, ok spreingir or honum bæði augun, ok liggja þeir nú báðir, annarr hálfdauðr, en annarr aumliga haldinn, ok vaxa nú vandræðin.

35. Þenna tíma fór Guðmundr biskup norðr um sveitir, ok þá er hann kom í Kollafjörð, þá ríða þeir Helgi Illugason í Kálfanes[i] ok Ólafr af Kirkjubóli, ok buðu heim Guðmundi biskupi. Þetta var um vor, ok var mikit hallæri í landinu. Biskup þiggr

heimboð þessi, ok gistir hann í Kálfanesi fyrri. Helgi bóndi lèt skera XX geldínga, því at eigi fengust matkaup, en mart fólk var með biskupi. Bóndi bað biskup vígja brunn sinn, „ok þætti mèr allmikit við liggja, at heilagr yrði", segir bóndi. „Hví munda ek eigi sýngja yfir brunni þínum, bróðir", segir biskup, „en guð ráði helgi hans, sem öllu öðru", ok vígir biskup brunninn, ok er þetta [vatn] svá heilagt, at þat var borit í línhúfu yfir Steingrímsfjörð, ok þótti sem svell at sjá, meðan í húfunni var, en þá var þur, er or var tekit vatnið, ok verða stórgeðir atburðir at þessu vatni. Biskup var tvær nætr með Helga bónda. Síðan fór biskup á Kirkjuból til Ólafs Helgasonar, ok var mart fátækt fólk með honum. Ólafr lèt skera XX geldínga til kostar biskups mönnum fátækum, er honum fylgdu margir; skiptir biskup því upp öllu með fátækum mönnum; ok er uppi var kjötið sauðanna, þá þagnar biskup. Helgi finnr þat ok mælti: „hví ertu svá hljóðr, herra, við mig, þikkir þèr at nokkut, eðr offátt til látið?" — Biskup mælti: „þú baðst mig öllum xx geldíngum skipta með fátækum mönnum". Ólafr mælti: „svá skyldi ek talat hafa;" tók hann þá gærurnar ok færir biskupi; gaf biskup gæru hverjum fátækum manni; var biskup þá kátr síðan. Svá segist, at einn kryplíngr var með Ólafi, er Þorbjörg hèt, ok gengu knèn í bríngspöluna. Ólafr bóndi bað Guðmund biskup líkna þessum kryplíngi. Biskup mælti: „makligt væri þat, ok biðja skal ek fyrir henni til guðs, ok Maríu drotníngu ok Michael eingil, at þau líkni henni, ok skal leggja hana í sæng mína í nótt, er ek geng til söngs," ok svá var gjört; en um morgininn var hon borin til kirkju, ok sett niðr hjá altari til hægri hliðar hjá biskupi, ok gekk hann þrysvar til hennar í messunni, ok it síðasta sinn, er hann hafði þvegit sèr; síðan reið hann vatni á kryplínginn, ok blezaði hana, ok varð hon þegar í stað heil, og gekk sem hon aldrei hefði krept verit; fanst mönnum mikit um þenna atburð, ok lofuðu allir guð; lifði hon leingi, ok sýndust hennar ör síðan til vitnisburðar. Nú fór Guðmundr biskup til Hafnarhólms, eptir bænarstað Ólafs ok Helga og margra annarra, at biðja til guðs firir því fátæka fólki, er þar var mjög illa komit sakir hins óhreina anda, er þar gengr; var biskup við vj. mann ok klerkar hans, ok vóru mjög hræddir allir, nema biskup; kom hann þar um kveldit, ok var illt at koma sakir aumleika

fólks ok ódauns í húsum. Þar var sút ok grátr á fólki, er kvalit var af óhreinum anda; kom þá huggun aumleiks manna er fyrir vóru. Eigi varð til tíðinda, ok var búin sæng biskups í stofu öðrumegin dyra til hægri handar; signdi biskup ena sjúku, ok gekk síðan til hvílu sinnar, ok settist niðr í rúmit, ok ætlaði at fara af klæðum. Nú verðr þjónustumanni um felmt, at taka hosu af biskupi; í því hleypr til ein kona, at því sem sýndist, ok tekr til fótar biskups ok kippir af hosunni. Nú sèr biskup hvat konu þetta var, at þar var komin Selkolla, fóstra Dálks bónda, ok dylst hon þá eigi fyrir biskupi. Nú sèr biskup, at eigi mun svá búit hlýða, ok þrífr af henni hosuna, ok keyrir í höfut henni, ok biðr fjanda þann fara þar niðr sem kominn var, ok svá var, at hon sökk þar niðr. Síðan lèt biskup alla heimamenn vera í stofu hjá sèr um nóttina, ok svaf fólk lítið, en biskup var leingstum á bænum. Um morgininn lèt biskup gjöra krossa vj ok einn mestan, svá at færri hafnarkrossar eru stærri, ok færir síðan á Hamar, þar var bænahús; ok við bekk þann, er var millum bæjanna, þá er biskup fór þar yfir, kom þar upp Selkolla, ok vildi glettast við fylgdarmenn biskups, ok sá hana þeir einir, er ófreskir vóru; ok þá er biskup sá hana, gjörir hann krossmark móti henni, ok mælti: „far þú, óhreinn andi, niðr, ok kom aldri upp í Vestfirðínga fjórðúngi, ok gjör öngum hèr mein síðan, ok lát mig eigi þurfa at færa þig niðr í þriðja sinn í guðs nafni;" ok þá í stað fór hon niðr, en þeir fóru á Hamar ok súngu þar messu; ok vígði biskup þar krossa þá vj, er hann lèt gjöra; ok vatn þat, er hann vígði til krossanna áðr, þá mælti hann at hella skyldi á þak bænahússins enu syðra megin, ok sagði, at mönnum mundi gagn at grasi því, er þar rynni upp, ef svá væri með farit, sem hann sagði firir, ok bað jafnan eptirláta nokkuð af hinu ytra þakinu, þá er þakit er. Síðan fór biskup á burt af Hamri með krossana, ok þá er hann kom þar er Selkolla sökk niðr, bað biskup kross hinn mikla þar niðr setja, ok þar standa, meðan nokkurt trè væri heilt í, ok menn skyldi dýrka hann með lýsíng ok bænahaldi, guði til dýrðar ok hinum helga krossi. Sækja menn þangat sem til heilagra staða, ok brenna ljósi firir þeim krossi, úti sem inni [i] kirkju, þótt hregg sè úti. Þá fór Guðmundr biskup heim til Hafnarhólms, ok setti þar í fjórar áttir krossa, ok enn fimta

setti hann þar upp í stofunni, þar sem Selkolla fór niðr undan hosu biskups, ok þessir krossar standa þar enn í dag. Þá mælti Guðmundr biskup, at Dálk bónda skyldi færa til Staðar, ok sagði hann fá daga lifa mundu, ok fór sem biskup segir, at Dálkr dó þegar hann kom til Staðar; en Þorgils dani lifði leingi síðan, ok var sjónlauss meðan hann lifði.

Teitr hèt maðr, hann var faðir Steingríms, er bjó at Kambi á Ströndum. Eptir andlát Dálks fór Teitr yfir Flóa til Miðfjarðar; ok er þeir kómu frá landi, þá þótti þeim undarlegt, er skipit var hlaðit í kaf undir þeim, en þeir höfðu ekki á. Þá sjá þeir aptr í skipinu hrossknútu eina hrá ok óþokkuliga, ok bauð þeim ótta, er þeir sjá, ok mæltu, at þeir mundu kasta firir borð; en þat dvaldist, því at veðr var hvast, svá at þeim var við bana búit, ok því var eigi ráðrúm til at kasta knútunni, ok bar þá skjótt inn yfir flóann, og lendu at Hvammsnaustum, ok þegar er skipit kendi grunn, þá kastaði Teitr knútunni firir borð. Þá sá einn þeirra, at Selkolla gekk þar á land upp er knútan kom niðr, ok skildu þau svá. Þökkuðu þeir guði, er Selkolla mátti þeim eigi mein gjöra. Höfðu þeir áðr fundit Guðmund biskup, ok tekit blezun af honum áðr um daginn, er þeir fóru; bað hann þá fara varliga ok í guðs friði.

36. Börkr hèt maðr ok var Alason, hann var heimamaðr at Sauðafelli með Vigfúsi Gunnsteinssyni; hann var sendr suðr á Akranes eptir mjölum, er Vigfús átti. Nú verð[r] ekki til tíðinda í hans ferð fyr en hann kemr sunnan undir Brattabrekku, ok rekr hann hestinn firir sèr, ok gekk hestrinn af leiðinni firir honum; hann vildi þá vísa honum á götuna, ok hafði broddstaf í hendi, ok kom broddrinn í auga hestinum, ok hljóp augat út á skoltinn, ok fór hann svá heim með hestinn til Sauðafells, ok sá menn þá hestinn, at augat var frosit á skoltinum, sem von var í frost[i] þvílíku sem var um daginn. Nú gáfu menn öngan gaum at hestinum nokkura daga. Einn dag gekk Börkr bóndi til brunns þess, er vígt hafði Guðmundr biskup, ok vildi bergja á vatninu; hann sèr nú at hestrinn stendr hjá brunninum ok var mjög dapurligr, sem von var. Bóndi tók horn eitt, er var hjá brunninum, ok drekkr or; en er hann hafði drukkit sem hann vildi, þá fylldi hann hornit af vatni ok fór til hests[ins] þar sem hann stóð. Hann steypir vatninu í augastaðinn, ok eys á allan hestinn vatninu; síþan

fór hann heim, en hestrinn stóð eptir, ok gaf eingi maðr gaum at honum. En fám dögum síþar var hestrinn sènn á biti með öðrum hrossum, ok var hann svá heileygr báðum augum, sem honum hefði aldri meint vorðit. Nú þótti sjá jartegn fágæt öllum þeim er þetta sá ok vissu með sönnu, ok lofaðu guð ok enn góða Guðmund biskup, þeir er heyrðu þenna atburð.

37. Á dögum Magnús konúngs Hákonarsonar kom til Hóla Jörundr biskup Þorsteinsson, ok á enu átta ári biskupsdóms síns, þá varð sá atburðr þar heima at Hólum á staðnum, at Þorsteinn hèt prestr þar, ok var kallaðr faraprestr, hann hvíldi í kirkju ok varðveitti vel kirkjuskrúðann ok hríngdi til tíða, hann var skynsamr maðr ok rèttorðr; hann þóttist heyra páska sunnumorgin brak mikit til stúku Guðmundar biskups, ok sprettr hann upp skjótt, ok varð nokkut við ótta, ok gekk til stúkunnar, ok hugði at vandliga; honum sýndist sem kista sú, er var um líkama Guðmundar biskups, veri kominn upp or jörðinni, ok lægi moldarflaga ein ofan á kistunni miðri. Hann tók til hendi sinni, hvárt svá veri, sem honum sýndist, ok var þat einu veg; þá sagði hann biskupi ok fleirum mönnum. Síþan gekk biskup til kirkju ok fleiri menn aðrir, ok er þeir koma í stúkuna, þá sá þeir önga nýbreytni. Nú reiddist biskup, ok þótti sjá maðr vera lyginn, ok tók illa á honum, og rak hann á brot; en hann hèlt sögu sinni, sem áðr hafði hann sagt.

38. *Sá atburðr varð at Hólum, at eldr kom í hús* þat, er von var at allr bærinn mundi brenna, ok var margs í leitað, ok gerir ekki. Nú [er] sagt til biskupi, ok hann spurðr, hvat at skyldi gera, en hann vàr þá á bænum firir altari, at því er mönnum sýndist; ok þá mæltu menn við biskup: „leggit til nú, herra, gott ráð ok skjótt, at eigi brenni bærinn." Biskup svarar: „taki vatn Guðmundar biskups ok stökkvi því í eldinn." Þeir gerðu svá, ok sloknaði þegar eldrinn er vatnið kom í. En um daginn eptir þökkuðu klerkar biskupi þat it góða ráð, er hann hafði þeim gefit, ok sögðu ekki annat hafa tjóat, hvat sem at var gert. Biskup svaraði: „kvaðst ekki þetta ráð gefit hafa, ok eigi vitað ellzganginn. Litlu síþar eptir þenna atburð er þat sagt, at Jörundr biskup lèt taka upp or jörðu bein Guðmundar biskups ok tveggja presta með honum, er lágu á sína hönd honum hvárr; hèt annarr Björn, en annarr Gunnsteinn. Þar var við herra Rafn Oddsson, ok sagði hann svá, at hann vissi

eigi, hverra manna bein þat vóru, er honum vóru sýnd, ok öngum þótti meira um vert þess[i] bein, en annara hversdagligra manna, ok[1] bein Guðmundar biskups veri þunn ok særig, ok mátti þat vel vera, því at hann var harðlífr hèr í heimi. Sú var frásögn Bjarna Ha[ll]freðarsonar, er þá var djákn at Hólum, er líkamr Guðmundar biskups var or jörðu tekinn: „þat sá ek," sagði hann, „at menn grófu gröf í stúkunni mannsvaxtar eða djúpara, ok settu þar niðr kistu Guðmundar biskups, ok fylldu síþan þá gröf af moldu, ok ferðu þar á ofan stórgrjót."

39. Ljótr prestr Refsson[2] bjó í Árnesi á Ströndum í Trèkyllisvík; hann átti þrjá sonu: Þorkel ok Þorgils ok Kálf. Ljótr prestr ámelti jafnan Guðmundi biskupi. Þat var eitt vor, er mannfundr var í Árnesi, at þar kom mart fólk. Þar var kominn Ásgrímr bóndi af Kallaðarnesi, vin Guðmundar biskups. Á þeim fundi var mart talat um vatnvígslur Guðmundar biskups, ok lofuðu þat allir mjög, ok sögðu hann verit hafa helgan mann í sínu lífi, ok svá eptir lífit. Ljótr prestr kvað þat vera allmikla lygi ok loklæsu, ok mikla ábyrgð at fara með slíkan hègóma, at trúa á vötn hans eða steina. Synir prests, Þorgils ok Kálfr, fóru í fjöru sem önnur ú[ng]menni; þá sá þeir hrog[n]kelsi[3] á skeri einu. Nú fara þeir fram í sker þau, er þurt mátti fara, ok var þá sund til hrognkelsins, ok var þat eigi vætt. Nú veðr Kálfr út á sjóinn, ok sökk þegar niðr, sem steinn, til grunns. Þorgils sèr nú at Kálfr er sokkinn, ok grætr hann nú, ok fer heim aptr, ok fellr at honum sjórinn. Hann kemr í stufu ok grætr, ok mælti til föður síns: „dauðr er kusli." Prestr mælti: „eigi hirði ek, þótt kusli sè dauðr". Sveinninn mælti: „Kálfr er dauðr." Prestr svarar: „margir kálfar hafa dáit firir mèr." Sveinninn mælti: „Kálfr er dauðr, bróðir minn." Prestr spurði: „hvar dó hann?" — Sveininum varð seint um að greina. Prestr biðr menn duga sèr ok leita at sveininum. Þeir fara nú á skipi, ok segir Þorgils hvar von var. Þeir funnu [til] Kálfs í brúki í sjófardjúpi, ok krökuðu þeir hann upp ok fluttu hann til lands, ok sýndist öllum hann dauðr; segja menn presti þetta makliga skript, ok guð mundi honum reiðzt hafa ok enn góði Guðmundr biskup, er hann ámælti slíkum guðs vin, ok báðu prest iðrast ok biðja guð miskunnar.

1) þótt, b. v. *B.* 2) Repsson, *B.* 3) krogkelsi, *B.*

Prestr iðraðist nú mjög við allt [jafn sa]man, sonartjónið ok orð þeirra. Nú spyrja menn prest, ef hann vill vegsa[ma] Guðmund biskup ok vígslur hans, ef hann þiggr þat af guði, at Kálfr lifni af vatni hans; en prestr lèzt þat vilja feginn, ok halda heilagt ártíðardag hans meðan hann lifði, ok gera þá jafnan nokkura hluti firir hans nafn. Siþan var tekit vatn Guðmundar biskups, ok er haldit upp höfðinu sveinsins, at vatnið rynni sem leingst í brjóstið; ok er þat kom í brjóst sveininum, þá koma bláir flekkir í hörondit, ok því næst roðnuðu þeir við áriðu vatnsins, ok var þá alvotr líkamrinn, ok þá kom roði í kiðrnar, ok litlu síþar hrærðust fíngrnir ok lukust upp augun, ok þá var mjög allt senn, at sveinninn lifnaði ok var alheill, ok þótti öllum mikit um vert þessi tiðindi ok lofuðu guð.

40. Íngibjörg systir Helga Lambkárssonar bjó vestr í Aðalvík, hon var mikill vin Guðmundar biskups [ok] treystist mjög vígslum hans með guðs miskunn; um vorit var matfátt þar at hennar, ok firir uppstigningardag var þar ekki kjöt á bæ hennar nema eitt sauðar þæri. Hon átti einn kálf fárra nátta gamlan, en áðr kálfrinn var skorinn, þá lèt hon hann drekka vatn Guðmundar biskups, ok vænti at henni mundi þá drjúgara verða. Nú var skorinn kálfrinn, ok var í fjórðúngr mörs, ok þótti mönnum þetta undarligt. En húsfreyja varð fegin; hon lætr í sex fjórðúnga ketil kálfskjötið ok mörinn, ok þar lætr hon í þærit; ok færir upp slát[r]it, er soðit var. Íngibjörg jós af flotið af katlinum, ok var þat nokkuru meira verk en hon hugði, ok lofaði hon guð ok enn góða Guðmund biskup.

41. Kona hèt Oddkatla, er hafði andlitsmein þat er menn kalla jótur; hon bar á vatn Guðmundar biskups, ok var á fám dögum heilt. þessi kona trúði mjög á vígslur Guðmundar biskups, ok sjá en sama kona sáði[1] fimm mælum korns at áliðnu sumri í ótadda jörð, ok um haustið tók hon af þeim akri xij fjórðúnga mjöls, ok þótti mönnum þessi ávöxtr fágætr, ok þökkuðu guði.

42. Jón hèt bóndi, er bjó [at Hóli[2] á Rangárvöllum, kona hans hèt Gyrið, en Þorvaldr son hans, þroskaðr mjög ok vel mentr. Um haustið stökk hönd hans or lið, ok kvómu þeir eigi í liðinn, er hjá vóru. Þá kom til Oddr Þórarinsson ok Filippus Árnason, ok Skeggi Klængsson, ok vildu hendinni koma

1) arði, 204. 2) [ b. v. 204.

í liðinn, ok fengu ekki at gert. Um nóttina dreymdi Þorvald, at maðr kom at honum ok mælti: „hvárt þótti þèr, fóstri, vaxa verkrinn í hendinni, er þeir toguðu?" — „Þat er satt", sagði Þorvaldr. Dra[u]mmaðrinn mælti: „láttu sækja vatn Guðmundar biskups, ok ber á höndina". Þorvaldr svarar: „Þat bannar Árni biskup, ok er niðr laginn brunnrinn". — „Ekki at síðr ok", segir hann, „sendi móðir þín eptir vatninu; hon heitr fast fírir þèr". Um morgininn segir hann móður sinni þenna fírirburð. Nú sendir hon þegar til Keldnabrunns, er þá var ónýttr af boði Árna biskups. Hann kemr ok segir eyrendi sitt Gró, bróðurdóttur herra Sighvats Hálfdanarsonar, leyniliga. Hon svarar: kvað þau skyldu leyniliga með fara, ok ferr hon með honum. Nú grafa þau þar til, er þeim þótti líkast, ok finna ekki. Þá heitr Gróa til, á guð, at þau finni vatnið, ok á enn góða Guðmund biskup; hon heitr, at varðveita hann vel, meðan hon lifði ok væri at Keldum, ok festir hon nú heitið, ok söng með *Pater noster*, ok fellr á knè, lýtr heim kirkjunni. Nú fara þau til í annat sinn, ok þurfa nú lítið við, ok sprettr þá upp bruðrinn. Ferr sendimaðr heim með sitt eyrendi, ok fêrir húsfreyju vatnið, ok bera síþan vatnið á hönd Þorvalds iij daga; ok á enum þriðja degi um aptaninn tók bóndi hart til handar Þorvalds. Þá heyrðu menn brest mikinn. Jón spurði: „hvat brast, Þorvaldr minn"? — „Nú hljóp hönd mín í liðinn" [segir hann]. Þá lofuðu þeir guð fírir þessa miskunn, ok urðu fegnari en frá megi segja.

43. Á því ári, er göfigr herra Auðunn biskup kom til stóls at Hólum, varð sá atburðr á Eyri í Hvalvazfirði, at kona sú er Þorbjörg hèt skyldi fæða barn, ok kvaldist leingi í sjúkleiknum svá at hon gerðist banvæn; ok svá sem höfuðit var fætt á barninu, tók af henni sóttina, ok nam við herðunum, ok lá hon [svá] matmáls stund, ok þótti svá öllum, er hjá vóru, sem vísari veri hvor[o]tveggja, konunni ok barninu, [dauði] en líf. Síþan heitr Ólafr bóndi hennar á enn góða Guðmund biskup, henni til heilsu ok lífs barninu, at láta sýngja sálumessu föðurmóður Guðmundar biskups, ok gefa x merkr fiska fátækum mönnum. Ok sem hann hefir heitið, fæðist barnit án dvöl, með hinum minnsta náttúrligum verk, er konur eru vanar at hafa í barnburði; var þá líf með barninu, ok rètti fótinn annan. Síþan var skírt af leikmanni barnit, ok síðan andaðist barnit, en konan fèkk fulla heilsu sína á sama ári, ok var þessi atburðr svarinn.

44. [1]Næsta þriðja dag firir Gregoriusmessu, en þá var hon á frjádag, þá fór Hramn[2] prestr um Leirdalsheiði ok með honum sá maðr, er Þórðr hèt; þeir ráku tvav geldnaut ok kú. Þeir kvómust í föruneyti með þeim mönnum, er óku um heiðina, ok svá sem þeir kvómu upp í hálsinn frá Trölladal[3], þá mæddist kýrin, ok fara föronautar þeir[ra] undan upp á hálsinn[4] frá Trölladal ok bíða þar. Þá rekr prestr fram til þeirra þau enu geldu nautin, ok síðan fara þeir veg sinn, en prestr ríðr aptr til Þórðar ok kýrinnar. Hann talar með sèr: „ef kýrin kemr lífs af heiðinni, þá gef ek fátækum mönnum mjólk þá, er kýrin mjólkar hit fimta mál frá því er hon kelfir, til dýrðar guði ok Guðmundi biskupi Arasyni; en veit ek þat, enn helgi Ólafr, at þú mátt þetta gera, ef þú vill, því at þú hefir mèr bæði hjálpat á sjó ok landi, er ek hefi á þig kallat, en þenna farargreiða ætla ek Guðmundi biskupi með guði; en þó biðr ek þig, at þú sèr eigi í móti mèr". Ok sem prestr kemr til förunauts síns, þá ferr hann af baki, ok leiðir kúna í heiðarbrún, ok æja þar. Þeir fara síðan upp á heiðina, ok tekr göngu af kúnni, ok því næst slær hon sèr niðr flatri; var þá hálfnut leið til bygðar, þó at snjólaust væri, en nú var snjór ok ófærð. Þeir settust þá niðr. Þá mælti prestr við Þórð: „hvat er nú til ráða, viltu aptr snúa"? — Hann segir: „hvorki mun ganga aptr nè fram". Prestr mælti: „ráðin þikki mèr kýrin til dauða, ok get ek, at Guðmundi biskupi þikki oflitlu heitið, ok skal á auka. Hann skal eiga ok hafa hálfan kálfinn í kúnni, ok skal ek upp fæða, ef lifa vill; ok ef þat er kvíga, skal ek gefa hálfa leigu fátækum mönnum þann tíma er kýr er, ok svá hálfa, þá er ek drep". Ok sem þeir hafa súngit fimm sinnum *Pater noster* ok fest heitið, þá stendr prestr upp, ok veltir kúnni, ok segir: „dug þú nú, Guðmundr biskup, í guðs nafni". Sem hann hafði svá sagt, stendr kýrin upp, ok gengr með því er þeir tráðu snjóinn firir, því at ófærð var svá mikil, at kýrin óð af kviði, ok gekk langt, ok þá legst hon niðr ok hvílist. Síðan stendr hon upp, ok gengr um nóttina, þar til er hon kemr til Grýtubakka; mundi þá eptir þriðjúngr nætr. Um morgininn

1) Þessi atburðr er sagðr á sama ári, b. v. 204.
2) Hrani, 204. 3) Trölladalsá, 204.
4) ok, b. v. *B*, og endar *B* (657 C) á því orði, og er héðan frá tekið eptir 204.

eptir var kýrin svá full ok þrifleg, sem hon hefði aldri í volki verit, nè í ferð.

45. Einarr hèt maðr ok var Andrèsson, hann tók augnaverk, ok honum var krankt í fæti; getnaðarlimirnir þrútnuðu, svá at hann varð at hafa klæði neðan undir til lèttis, því honum þótti sem slitna mundi ella. Ok einn dag, sem hann var úti hjá sleða sínum, þá vazt fótrinn undir honum, svá at hann gat ekki við spyrnt; þá tók hann rim or sleðanum ok studdist við inn í bæinn. Þá þykir Einari þýngjast: hefir krankleika í augunum, svá at hann mátti eigi sjá, en í fótunum, svá at hann mátti eigi ganga, sárleik af þrútnan getnaðarlimanna, ok um nóttina fèkk hann ekki sofit. Þá kallar hann á Guðmund biskup Arason, ok hèt at láta sýngja iij sálumessur firir sálum föður ok móður Guðmundar biskups, ok þess, at guð gæfi honum aldrs heilsu; ok eptir heitið sofnar hann; ok um morgininn eptir mátti hann vinna, ok fèkk alla heilsu sinna meina, ok til marks hèr um, at þat eystað, er honum var sárara ok meir niðr sigit, var komit upp í kviðinn, en tómt skinnit eptir, ok svo hefir jafnan verit síðan.

Einarr hèt maðr, ok var Andrèsson, hvers et sama nú strax var getið, [hann] átti ross er sýktist, ok lá í húsi ok sperði frá sèr fætr, ok lá svá þrjú dægr, ok vildi ekki eta. Þá hèt Einarr at sýngja v *Pater noster* til dýrðar guði ok Guðmundi biskupi; ok enn næsta morgin kom hann til rossins, ok stóð þá við stall ok át, ok var allvel heilt síðan.

46. Maðr hèt Sigurðr, ok var Vigfússon, er átti lamb þat er hvarf frá öðru fè vj. dag jóla; hann fór at leita, ok fánn eigi. Þá hèt hann á Guðmund biskup, at gefa ölmusu jafnlengdar dag hans slíka sem honum sýndist, ok söngum nokkurum. Síðan kómu snjófar myklir ok hríðir, ok viku síðar en jólin leitaði hann lambsins, ok fann lífs í á þeirri, er mjög langt var frá bæ hans, ok stóð í vatni, ok hafði hvergi mátt ganga or þeim sporum. Þat hafði etið af sèr ull alla. Þetta sama lamb þrifgaðist vel síðan.

Snorri hèt maðr Magnússon, er tók augnaverk svá mykinn, at hann þóttist varla þola mega; ok næsta dag firir jól bað hann ljá sèr húfu þá, er átti Guðmundr biskup. Ok sem húfan kom á höfut honum, æstist verkrinn at eins, ok um nóttina sofnar hann, en um morgininn vaknar hann heill. Nokkurum vetrum fyrr var þessi maðr staddr í Flatey til fiskjar; hann

bar torfu mykla til fiskahlaða síns, ok hrapaði til falls, ok kom niðr lærit. Honum varð illt við, ok þrútnaði á honum lærit, svá at hann þóttist alverkja af. Hann lagðist í sæng sína, ok fèkk ekki sofit firir verk ok þrota. Þá heitr hann á Guðmund biskup söngum nokkurum, ok gefa ölmusu fátækum mönnum. Sem hann hefir heitið sofnar hann, ok um morgininn eptir kendi hann sèr hvergi meins, ok þann sama dag reri hann á sjó.

Þorbjörn, er kallaðr var bratti, tók vanheilsu á þann hátt, at eystun þrútnuðu svá mjög, at eigi vóru minni tilsýnis en eystu á tvævetrum graðúngum; hann átti ok kú þá, er einn fótinn dró eptir, ok gat ekki við spyrnt. Ok eina nótt, er honum þótti sèr þúngast ganga, hèt hann á Guðmund biskup Arason, at halda heilagt æfinliga ártíðardag hans, ok sýngja v tigum sinnum *Pater noster*; ok morgininn næsta eptir er hann heill, ok kýrin göngufær, ok er þetta jarteikn svarit ok sannat.

47. Þorsteinn í Hlýskógum[1] átti kú, er sýktist eptir kálfburðinn, ok tók af átið, þat var fimtudaginn firir Tómasdag firir jól, ok frjádaginn eptir, er til var komit, lá kýrin ok hèlt eigi höfði. Þá bað Þorsteinn, áðr hann fór til tíða, at skera skyldi af kúna, en menn treystust eigi þann dag. Þá hètu þau, hann ok húsfreyja hans, á Guðmund biskup, at láta sýngja eina sálumessu firir sálum föður ok móður Guðmundar biskups, ok gefa nyt kýrinnar jafnlengdar dag hans, ok málsverð fátækum mönnum, ok skipaðist ekki við. Kýrin lá svá til drottinsdags, ok sunnudaginn át kýrin, ok þó lítið, ef maðr trað í munn henni, ok lá sem áðr. Þá sendir bóndi eptir Einari bónda at Lómatjörn, at reisa upp kúna, ok eru at fimm, svá at þeir binda hana upp í vaðmáli, ok kreppti hon upp fætr alla at kviðnum. [Bóndi mælti]: „Svá sem þú, Jón biskup, gafst líf kú Guðmundar prests í Flatey með skjótum atburð, svá gefðu, Guðmundr biskup, þessari kú líf ok fulla heilsu". Ok sem hann hefir svá mælt, ferr hann í burt, ok lítilli stundu liðinni brýzt kýrin til at verða laus, ok spyrnir við öllum fótum, ok á sama dægri át hon ok gekk stuðníngarlaust, ok um morgininn eptir var hon fullkomliga heil ok þreifst allvel.

Þat varð enn á þriðju viku föstu, at húsfreyja þessa manns Þorsteins[2] fæddi barn, ok sýndist eigi líf með. Þorgrímr hèt maðr, er gjörði benjar á armlegg barnsins, ok blæddi ekki.

---

1) = Hlèskógum í Höfðahverfi. 2) Arnsteins, 204.

þá heita þau faðir ok móðir, at láta sýngja þrjár sálumessur fyrir sálum föður ok móður Guðmundar biskups, ok láta heilagt jafnlengdar dag hans æfinliga. En svá sem þau hafa fest heitið, sèr lífsmörk á barninu, ok síðan var þat skírt skemri skírn, ok lofuðu allir guð ok hinn góða Guðmund biskup.

48. *Anno domini* M. CCC. xvj. varð sá atburðr í Hornafirði, á bæ þeim er heitir at Horni, at Pettar Bjarnarson varð firir svá miklum krankleika, at hann þrútnaði bæði utan ok innan, svá at löngum rann ekki niðr utan mjólk ok vatn; hafði hann þessa sótt þrjú misseri; hugði hann sèr ok margir aðrir meir dauða en líf, því at menn ætluðu þetta dauðamein, sem varð áðr Kötlu systur hans. Ok þá er hann var sjúkastr, hèt hann á hinn góða Guðmund biskup Arason sèr til hjálpar; hafði hann áðr heitið mörgu, ok stoðaði ekki; en síðan batnaði hann dag frá degi, svá at á sama sumri gekk hann til Hóla með heit sitt, ok var hann þá alheill. Sór hann þenna atburð svá skrifaðan, ok svá Guðmundr prestr með honum Teitsson.

Í sama firði vildu menn taka eld með bragðal, sem hèr er vani til, ok fengu eigi. Síðan vættu þeir sliit[1] í brunni þeim, er vígt hafði Guðmundr biskup, ok með því vatni tóku þeir eldinn þegar í stað. Þetta sóru fyrrnefndir menn, sira Guðmundr ok Pettar.

49. Fyrir mörgum vetrum fór Steinólfr, bróðir herra Þorvarðar, með buk[k]skinn á hesti, ok kom hornit í auga hestsins, svá at úti var augasteinninn, ok tómt eptir, en augat lá í leiri niðri, svá at menn sá þat. Síðan hèt Steinólfr á hinn góða Guðmund biskup firir hrossinu, ok bar í brunnvatn hans á Landi í Öxarfirði; ok at tveim dögum liðnum var hrossit heilt ok skygnt. Þessa jarteign sór Jón Steinólfsson á sögðu ári á honum sjálfum.

Þessi sami Jón fèkk augnaverk svá strangan, at hann hugði bæði augun mundi út springa, ok hann gekk vj dægr um hús innan nótt ok daga. Síðan hèt hann á hinn helga Jón biskup ok hinn góða Guðmund biskup sèr til heilsu, ok enn af annari sótt mikilli, ok af þessum báðum sóttum fèkk hann skjóta heilsubót firir þeirra verðleika; ok þessa jarteign sór hann sjálfr.

50. *Anno gratiæ* M. ccc. xviij. varð sá atburðr vestr firir Hólargnúp á Hornströndum, at menn lágu tjaldlaust á skipi

1) slijd, 204.

sínu. Þorlákr hèt formaðr skipsins, en annar Sigurðr; en at þeim gjörði svá mikinn storm ok stórviðri, at hverr hèlt á sínum föngum, ef eigi skyldi frá þeim slíta stormr ok ofviðri; var svá gangr þessa veðrs, at fuglar stukku or bjarginu ok kómu dauðir á sjó. Þótti nú öllum, þeim er innbyrðis vóru, ráðit bæði tjón skips ok manna, því at veðrit stóð þvert upp at bjarginu. Með þessu rekr frá þeim árarnar allar, en skipit festir millum steina tveggja, svá at heldr við brot, en akkeris strengirnir í sundr báðir. Nú at þessari ógn yfirkomandi kalla þeir á almáttkan guð sèr til miskunnar, ok hinn blezaða Guðmund biskup, heitandi göngu sinni til leiðis þess góða biskups ok ofra þar með nokkurum penníngum, ok láta sýngja sálumessu föður hans ok móður, ef hann þægi þat af guði, at þeir leystist or þessum lífsháska; ok þessu játuðu um skipit staðfastliga kom svá mikill boði, at skipinu kastaði upp yfir steinana, ok tók frá þeim stýrit. Rekr nú skipit með björgum sem stýrt sè, en aldri at upp; en einn tíma, þá er upp bar at bjarginu, skýtr einn vanmegn piltr með árarbroti, en skipit varð svá laust ok lètt at, sem einn sexæríngr; hleypr þat langt út á sjóinn móti veðrinu; skiptist nú um veðrit ok rekr þá aptr sama veg, ok í mót þeim stýrit ok árarnar ok öll þeirra föng. En er þeir koma þar sem akkerin týndust, flutu upp strengirnir, ok náðu þeir akkerum ok bundu sig við. En þegar þeir höfðu um búit, kom it sama veðr á sem í fyrstu, með hógværum vindi, en hitt hèlzt ekki lengr en meðan þeir bættu reiða sinn. Kómust þeir allir farsælliga heim til sinna bæja. Lofuðu allir einn guð, hverr er gjörir slíkar jarteinir firir verðleika sinna þjónustumanna.

51. *Anno præcedenti* varð sá atburðr, at sú kona er Þorgerðr hèt tók þá sótt, er konur eru vanar börn at fæða, svá langan tíma frá jólum at iij vikur vóru af föstu; en laugardaginn fæddi hon allt barnit nema höfuðit, ok var þat firir dagmál, ok lá hon með því, þar til jafn ner var báðum hádegi ok dagmálum, ok var líf með barninu fyrst er hon fæddi, ok langa stund síðan. Ok at henni liggjandi í þessum krankleika, þótti henni sèr ráðnari dauði en líf; heitr hon á hinn góða Guðmund biskup sèr til heilsu en barninu til lífs, at vatna æfinliga firir dag Guðmundar biskups ok gefa málsverð, ok láta heilagt æfinliga, ok láta sýngja sálumessu, ok gefa eyri vax, ef barnit hlyti skírn, ok jafnvægi matar barnsins, ok eptir

sýngja *Pater noster*. þá fæddi hon allt barnit, ok fannst eigi líf með. þá bar hon ölmusu leyniliga einhverjum frænda Guðmundar biskups; ok hèr eptir bragðaði firir brjóstinu, ok skírði sá maðr, er til var fenginn.

52. Sá atburðr varð í Fljótsdalshèraði, á þeim bæ er Bóndastaðir heita, at Ívarr Benteinsson, er þar bjó, gekk á fjall, ok fraus á báða fætr, svá at læknar þóttust ekki mega at gjöra, ok lögðu þat til, at hann lèti höggva af sèr í öklaliðum. Hann lá í rekkju ij mánuði, ok batnaði ekki. Síðan hèt hann á hinn góða Guðmund biskup, at gefa mörk vax til legs hans. Á sömu nótt eptir, sem hann hefir heitið, ok hann vaknar, hefir flagnat framan af fætinum öðrum skinnit með nöglunum, á þann hátt sem leistr, ok nokkurum nóttum síðarr á sömu leið öðrum fæti. Síðan tók með öllu verk or fót[unum], ok bar hann ekki á, utan vatn Guðmundar biskups, ok litlu síðarr var hann alheill af þessu meini.

þessi sami maðr tók fótarmein svá mikit, at hann lá í rekkju mánut. Hann lèt sníða fótinn í viij stöðum, ok spilltist æ við hverja atgjörð. Síðan heitr hann á Guðmund biskup iij aurum vax, ok fara til Hóla, ef guð gæfi honum heilsu. Ok þegar sem hann hefir heitið tók or allan verk, ok bar hann ekki á utan vatn Guðmundar biskups, ok litlu síðarr eptir þat var hann göngufær, en iij vik[um] síðar alheill.

þessi fyrrnefndr bóndi átti kú góða, er sýktist um vorit hálfum mánuði firir krossmessu. Af henni tók átið, en hon drakk mikit; gekk svá xj dægr, at hon át þar drjúgum ekki, ok tók undan nytina með öllu. Síðan hèt bóndi ok húsfreyja hans, at vatna æfinliga firir dag Guðmundar biskups, ok gefa málsverð fátækum mönnum, ef þessi kýr fengi líf ok heilsu þeim til gagns ok nytsemdar. Ok næsta morgin eptir, er nautamaðr kom til fjóss, stóð kýrin ok át, en knífr blóðigr lá í mykinni, er hon hafði fellt; kýrin var ok blóðug aptan. þá kom bóndi til ok margir aðrir, ok sá þetta sama; ok hugðu allir, at þessi knífr væri frá kúnni kominn, ok til marks um hafði kýrin blóðfall mykit; en þegar kýrin tók átið, kom aptr nyt ok mjólk kýrinnar[1].

1) Hèr byrjar síðara blaðið af 122. Hèr hnýtir 204 og 122 aptanvið sögunum um hrút Kolbeins, Einar fork og Rannveigarleiðslu.

## II.

# Arons saga Hjörleifssonar[1].

Þat er upphaf at þessari sögu, at Sverrir konúngr, son Sigurðar Haraldssonar, rèð fyrir Noregi, sem mönnum er kunnigt. Í þann tíma vóru biskupar á Íslandi: Páll biskup Jónsson í Skálholti, en Guðmundr biskup Arason at Hólum; þessir valdsmenn af leikmönnum: Jón Loptsson ok Sæmundr son hans, Gizurr Hallsson ok Þorvaldr son hans ok Magnús, er síðan var biskup í Skálholti, Snorri Sturluson, ok bræðr hans Þórðr og Sighvatr. Maðr hèt Hjörleifr, ok var Gilsson, kona hans hèt Sigríðr ok var Hafþórisdóttir; bæði vóru þau vel ættuð. Hjörleifr var maðr sæmiligr, bæði [at] vexti ok vænleik ok afli, svo varla fèkst hans jafníngi honum samtíða; Aron hèt son hans hinn elzti, er þessi saga gengr mest af; annarr son þeirra hèt Ófeigr, þriði Bárðr, fjórði Ólafr, er síðan var ábóti at Helgafelli. Hjörleifr bjó fyrst í Bjarnarhöfn en síðan í *Miklaholti, hann var hinn örlátasti maðr í búi, skorti [hann* ok] ekki fè í þann tíma; hann var vinsæll ok víðfrægr; Sigríðr kona hans var fríð sýnum ok hög á handiðjan, ok nutu þess margir, bæði skyldir ok óskyldir; enn vóru á því meiri orð, hversu hógvær hún var í skaplyndi, því svo má at kveða, at hvert barn unni henni hugástum. Aron vóx upp með föður sínum ok móður í Miklaholti; var hann þegar mikill vexti á únga aldri, skýrr ok skapprúðr við vini sína; fanst þat [á] honum, at hann var kappsamr í öllu því, er honum þótti ekki at sínu skapi gjört vera, sem síðarr man sagt verða í sögunni, en þó þat allt sköruligt ok með hófi. Mörg átti Hjörleifr önnur börn en sonu þessa, sem nú vóru nefndir. Íngeldr hèt móðir

---

1) Prentað eptir AM. 551 d. (4) (5½blað á skinni frá enda 14. aldar) og AM. 212 folio og Additam. 27 (folio), sem eru lítt vandaðar pappírsafskriptir af 551, meðan sagan var þar heil, svo ekki vantaði nema 2 blöð. Allr miðþorri sögunnar (kap. 3-10) stendr hèr að framan í Guðmundar sögu kap. 74-90, og er honum því slept hèr.

Hjörleifs, ok var Halldórsdóttir, Brands sonar hins örva, er bæði var víðfrægr utan lands ok innan. Hafþórir, faðir Sigríðar, var Ásgautsson, Bárðar sonar hins svarta or Selárdal. Þessir vóru bræðr Hjörleifs Gilssonar: Sölvi prestr, merkiligr maðr, annarr Þórðr, Helgi hinn þriði; allir vóru þeir vaskir menn ok góðir drengir, ok sterkir at afli ok fríðir sýnum, þar eptir fór þeirra skaplyndi, svo varla fundust þeirra líkar, en þó var Hjörleifr fyrir þeim í mörgu; var þat eitt til marks um afl Hjörleifs, at engi uxi var sá framleiddr, at ekki hyggi hann af höfut með annarri hendi, en af tveimr, ef hann hjó með báðum höndum.

2. Maðr hèt Þorlákr ok var Ketilsson, er bjó í Hítardal virðuligu búi, ok var göfugmēnni mikit. Guðlaug hèt kona hans ok var Eyjólfsdóttir, hún var skörúngr mikill. Þorlákr Ketilsson var náfrændi Sigríðar, móður Arons, ok góðr vin, ok því sótti Sigríðr hann heim þá hún brá búi í Miklaholti; fóru þangat með henni tveir synir hennar, Aron ok Bárðr, var Aron þá vel vaxinn, en Bárðr vetrgamall, tók Þorlákr við þeim vel ok sköruliga. Sighvatr Sturluson átti marga sonu: Tuma, ok Sturlu ok Þórð, ok aðra fleiri, þó þeir sè hèr ekki nefndir. Þorlákr ok Sighvatr vóru kærir vinir sín í millum, var Sturla Sig[h]vatsson því löngum á fóstri með Þorláki, bæði haldinn vel ok ástsamliga. Sturla var hinn vænligasti maðr, bæði á vöxt ok allan vænleika. Þeir vóru kallaðir jafnaldrar Aron ok Sturla, því vóru þeir svo sem fóstbræðr, var ok þann tíma harla vel með þeim, ok þó nokkut kappdrægt í leiknum. En þá meir tók at greinast með þeim kumpánum, þá bauð Helgi föðurbróðir Arons honum til sín, ok þat þá Aron; ok þá [er] Helgi fór í Fjörðu vestr at fjárheimtum sínum, fór Aron frændi hans með honum. Þeir kvómu í Flatey á Breiðafirði, þar bjó nafnfrægr maðr, Eyjólfr Kársson, hann átti þá konu er Herdís hèt [ok] var Hrafnsdóttir, hún var náfrændkona Arons; þau buðu Aroni til sín, ef Helgi færi utan um sumarit, sem hann hafði [heitið]; þat þá Aron [ok] var með Eyjólfi tvo vetr, ok ástsamliga haldinn. Eyjólfr var mikill vin Guðmundar biskups at Hólum, svo hann lagði [sitt líf við] hans líf þegar hann þurfti.

*Kapp. 3-10 eru sem kapp. 74-90 í Guðmundarsögu.*

11. [1]Litlu síðarr kvómu menn af þíngi, ok fréttust þau tíðindi, at Aron var sekr gjörr ok XV biskupsmenn aðrir; hafði Aron því meiri sekt en aðrir, at hann var gjörr skógarmaðr ok óheilagr ok óferjandi ok óráðandi öllum bjargráðum, ok á öllum þeim stórsakir, er honum veitti nokkur bjargráð; vóru þeir nú nokkura stund í helli sínum, ok er á leið, var farit óvarliga, kvómu þeir heim stundum um nætr til Sölva prests; ok eitthvert kveld, er þeir fóru til laugar, þá var úti staddr húskarl Þorláks Ketilssonar á Kolbeinsstöðum, ok sá mennina við laugina með vopnum, ok þótti honum nýlunda í þessari sýn, en laugin var ekki á almanna veg; getr hann um þetta fyrir Guðlaugu húsfreyju, en hún færir í hámæli; var hún jafnan ólaunkár at tíðindum; en Þorlákr kallaði hana til sín, ok talaði við hana hljótt, ok bað hana láta vera orðlaust, því at hann þóttist vita af hverju vera mundi; var hann vitr maðr ok vel heill vinum sínum, ok jafnan at ráðum sóttr; gjörði hann orð Sölva presti ok Sigríði um þenna pata, sem á var kominn um ferð Arons, ok segir ekki svo búit hlýða, bað hann á brott fara, ok leita sèr hælis þar [er] ekki hefði óvinir hans hendr á honum. Þetta heilræði þágu þeir, ok fóru þaðan í brott með laun ok mikilli mannhættu, ok kvómu á þann bæ á Skógarströnd, er heitir at Björgum, ok fengu sèr þaðan skip, ok yfir Breiðafjörð til Barðastrandar, ok höfðu nokkurar hvíldir með frændum sínum, en lengst dvaldist hann með Eyvindi ok Tómasi, en þeir þóttust ekki efni til hafa at halda hann langvistum, fyrir stórbokkum þeim, sem eptir áttu at sjá, ok fóru þaðan til Arnarfjarðar, á þann bæ, er [á] Eyri heitir:

Morgunn kom yfir mistarfergi. —
Aron reið við sollnum sárum — (sjá bls. 538-39).

12. Á Eyri í Arnarfirði bjuggu bræðr tveir, vel mentir ok stórættaðir, hèt annarr Einarr en annarr Sveinbjörn, þeir vóru synir Rafns Sveinbjarnarsonar, var þar vel við honum tekit, beiddi Aron þá nokkurrar ásjá ok trausts. Einarr segir þat ekki vandræðalaust, svo óblíðliga sem komit var hans mál; þóttust þeir vita, at þar mundi hefndir á eptir koma, „þótt ekki

1) sjá bls. 540 athgr. 2. Hèr vanta 6 blöð i 212, og er því prentað eptir 27 þar til skinnb. tekr við.

sè frekara at sótt, en eptir leita at lögum", en þó vildu þeir ekki af svara, þótti vera allra þeirra nauðsyn fyrir frændsemis sakir; tóku þeir hann á sitt vald þann vetr, ok veittu honum drengiliga. Þetta frèttir Sturla, ok snýr miklum fjandskap upp á þá Rafnssonu, ok leið svo vetrinn. En um vorit eptir fóru þeir Rafnssynir til Vatnsfjarðar, ok var Aron í þeirri ferð; kom Þorvaldi njósn, ok komst hann skyndiliga á sjó undan; þá urðu miklar orrustur, drepnir tveir bændr, hèt annarr Ími en annarr Snorri, ok einn maðr fóthöggvinn, ok við þetta skildu þeir. Hit sama vor kom Sturla á Vestfjörðu, ok ætlaði at leita eptir sæmdum sínum við Rafnssonu, þótti honum þeir hafa gjört mikit skarð á sæmd ok virðíng sinni. Sturla nam staðar í Selárdal, ok hafði nokkurn riðul manna; sendi Sturla orð Rafnssonum; þeir fóru skjótt á hans fund, ok höfðu svo nær sèr nokkur ráð, at þeir áttu ekki allan hlut sinn undir Sturlu í þetta sinn; — Aron var þá eptir á Eyri; — horfðist heldr fáliga á með þeim í fyrstu, ok fór nokkut í bága; en þær urðu málalyktir, at þeir sættust; skyldi Sturla gjöra fè slíkt sem hann vildi, en LX hundraða skyldi gjaldast. Þeir leituðu við at koma Aroni í sætt, en þat fór því firr, sem þeir sóktu þess meir; þeir skyldu ekki halda Aron lengr í fjandskap við Sturlu, ok mæltu til vinskapar með sèr áðr en þeir skildu; fóru Rafnssynir heim, ok sögðu slíkt sem í hafði gjörzt. Aron lèt slíks at von, ok kallar sèr skyldast at halda þeim ekki lengr í áfrýju. Enn gjörðu þeir fyrir honum nokkut ráð. Bóndi er nefndr Jóhamar[1], hann bjó á þeim bæ, er heitir á Geirþjófsfjarðareyri; hann var landseti þeirra bræðra; þangat sendu þeir Aron með jartegnum, at hann skyldi þar staðar nema, svo þat væri ekki með neinna manna vitorði; sá bær er mjök af[2] þjóðleið kominn; tók Jóhamar[1] við Aroni; dvaldi hann þar lengi um sumarit með launúngu. Sturla fór heim, en setti menn til at njósna um Aron, en suma til höfuðs honum; XX menn sendir Sturla til Vestfjarða til fjörráða við Aron, ok skiptu þeir sèr í tvo staði, fóru sumir til norðfjarða en sumir til vestfjarða; þótti honum þá[3] sízt mega undan bera fundi við Aron. Sá maðr hèt Rögnvaldr, er fyrir þeim var er vestr fór[u], ok var Kársson, hann var hinn gildasti maðr; annarr maðr hèt Þorvaldr Sveins-

1) Þórarinn, *St.* og Guðmundarsaga. 2) á, 27. 3) þat, 27.

son, er fór með honum, þriði var Danza-Bergr[1], báðir gildir menn ok vel vopnaðir. Nú er at segja frá Aroni, at bóndi átti slitinn bát ok varla sjófæran, hann átti þar nokkut undir um byrgðir sínar; Aron tókst þat á hendr, at gjöra at bátnum um sumarit. Þat bar at einhvern dag, sem [ekki] hafði fyr verit, at tveir menn kvómu gangandi at Aroni, vel vopnaðir. Aron hafði lagit niðr öll vopn af sèr, nema stálhúfuna; snýr hann í mót mönnunum ok heilsar þeim; þeir taka vel kveðju hans. Hann spurði þá at nafni, ok nefndist annarr Sigurðr en annarr Egill. Þeir spyrja hann at nafni; hann segir til sín, ok dylst ekki. Hann spyrr þá at tíðindum, ok hvaðan[2] þeir væri at komnir. Þeir kváðust komnir vestan or Dölum, ok vera sendimenn Þorvalds or Vatnsfirði, ok spurðu Aron, hví hann færi svo óvarliga, svo sem öllum megin væri honum voða at sèr von. Hann sagði, at ekki mátti hann við öllu sjá. Hann frètti þá, hvat þeir kynni framarr frá nýjum[3] tíðindum at segja. Þeir kváðu þat smátt vera, „en fundu vit í gær iij menn albrynjaða, ok sýndust okkr ekki auðvelligir, ok eru vit at sannri frètt komnir, at þeir eru settir til höfuðs þèr, ok er meiri von at ekki líði sjá dagr allr, áðr fund yðvarn berr saman, ef þú vilt í stað bíða, en ekki köllu vit þat ráð". Aron hugsar nú með sèr hvert þeirra orð, ok veit ekki gjölla, hvat hann skal af marka, því honum vóru menn ókunnigir, hugsar þá á fornan orðskvið, at hafa skal heil ráð, hvaðan sem at koma; sèr, at ekki mun duga at velkja ráðit, þó honum þiki menn ótrúligir. Aron segir þá: „setist þit niðr, ok vil ek segja ykkr draum minn". Þeir gera svo. „Þat dreymdi mik", segir Aron, „at maðr kom at mèr í kórkápu; sá ek lítt í annlit honum, því at kápuhattrinn var síðr. Draummaðrinn segir: ‚þú skalt skriptast við mik ef þú vilt'. ‚Ekki hefi ek lagt þat hversdagiega í vanda minn', er ek sagða. Greiddi hann þá til kápuna, en ek þóttumst í fara, ok í því vaknaða ek, at ek þóttumst kenna manninn, ok þótti mèr [sem] veri Guðmundr biskup". Þeir kalla góðan drauminn, ok eigi örvænt, at viti nokkur[s]. Egill segir þá, at þeim er mál at fara, „því líðr dagrian; má vera, at

---

1) leiðr.; Danakóngr, 27. 2) leiðr.; hvort (hv°t), 27.
3) Hèr byrjar skinnb. 551, og er henni fylgt hèðan af; fyrsta síðan er mjög máð, það sem stendr milli sviga () verðr ekki lesið.

okkr þikki síðar ekki drengiligra við hann at skiljast, ef fund þeirra berr saman". Sigurðr segir enn gott tóm til at fara. Egill sagði þá ekki til draga, at hlaupa í vandræði með þeim, „en þó hefir þat sjaldan verit, at ek hafi þá runnit, er þú hefir staðit; muntu allöruggr í vera at veita Aroni, ef hann þarf nokkurs við", en Sigurðr svarar öngu, ok leið á daginn. Brynja Arons lá á saxinu skipsins, ok tók Sigurðr upp brynjuna ok fanst mikit um, at góð veri, ok tekr af sèr stálhúfuna, ok ferr í brynjuna, ok kallar allvel fara. Egill var út genginn, ok gekk upp á skriðuna, ok sèr þrjá menn ríða alvopnaða, snýr hann nú heim at naustinu, ok segir, hver efni í eru. Þá mælti Aron til Sigurðar: „fá mèr brynju mína, fèlagi, kann vera, at ek þurfa hennar skjótt.". Sigurðr vildi þegar or fara; þóttist Aron þá vita, at þeir vildu ekki svíkja hann; forvitnar hann nú, hvort þeir vildu veita honum vígsgengi, eða vildu þeir fara í burt, „en ek [mun] í stað bíða" — „Egill skal ráða", segir Sigurðr. „Ámæli mun til okkar falla", sagði Egill, „ef vit skiljumst báðir við hann svobúit". „Vel líka mèr orð þín", segir Sigurðr, „en þó mun þetta meðallagi forsjáligt". Aron þakkaði þeim sín ummæli. Aron var í síðri treyju ok góðri stálhúfu, búklara ok saxit Tumanaut í hendi. Því næst riðu þrír menn á skriðuna, ok at naustinu; þeir stigu af baki. Rögnvaldr kendi Aron, því at þeir höfðu sèzt nokkurum sinnum. Þá spyrr Rögnvaldr, hvort hann kendi rètt skógarmann Sturlu. Aron bað hann ekki dyljast við þat. „Þá er vel á komit", segir Rögnvaldr, „því at vèr höfum þín langa hríð leita farit". „Þá hljóti þèr at lýsa yfir erindum við mik", segir Aron. „Skamt skal til þess", segir Rögnvaldr, ok hleypr at Aroni, ok leggr til hans með spjóti, ok hvorr þeirra til annars. Aron kom firir sik búklar[a]num, en höggr annarri hendi spjótið af skapti firir Rögnvaldi, ok nú berjast þeir um hríð allir röskliga; skiptir þá svo til, at Þorvaldr (ferr) á móti Aroni, en Egill í móti Rögnvaldi, en Sigurðr móti Bergi; fèll Þorvaldr skjótt með (. . ek . . .) sárum, ok ekki þótti (mönnum) Þorvaldi þessi saga vel borin; kemr Aron þar at, sem Egill er mjök svo yfirkominn, (var ekki la)ngt liðveizlu at bíða; fèkk Aron þat fangaráð, at hann slær saxinu flötu aptan undir stálhúfuna. Rögnvald svimraði við, því at höggit var mikit, ok steypi[s]t stálhúfan fram firir augun ok berar hálsinn; höggr

Aron þá tveim höndum með öllu afli á hálsinn, svo af fýkr höfuðit. Þetta sèr Bergr, þar sem þeir Sigurðr eigast við, ok þikkir honum Aron ærit stórhöggr, ok snýr undan til hests síns skyndiliga, ok vill ekki hætta til hversu Aron skiptir, þá hann kemr til. Þorvaldr er nú á bak kominn, með þær skein[u]r sem hann hafði; kemst Bergr til hests síns, en Aron hleypr eptir honum; verðr Bergr því skjótari, [at] hann kemst í stigreip öðrum fæti, ok *ríðr* svo um þvert bak, en Þorvaldr keyrir undir honum hestinn, ok upp á skriðuna. Aron ferr ákafliga eptir, *ok vildi ekki missa annars hvors. Þá kallar Þorvaldr hátt:* „upp þèr Sturla, hèr hleypr fjandinn Aron eptir okkr!". Aroni þótti ekki örvænt at satt væri, ok nam staðar, ok við þenna prett kemst Bergr á bak, en Aron snýr aptr, ok skilr þar með þeim; en þetta var hin mesta lygi, at Sturla væri nærri. Gengr Aron nú til fèlaga sinna; sitja þeir á vellinum, ok eru báðir sárir mjök. Aron víkr þangat, sem lík Rögnvalds lá, ok tekr upp búkinn ok höfuðit, ok kastar á sjá út, en flettir hann áðr or brynjunni. En með því at vindr stóð [á land[1] þá rak upp búkinn. Aron kippir fram bátinum, ok leggr búkinn út í skipit, ok ferr frá landi skamma hríð, lætr síðan búkinn útbyrðis, ok stíngr saxinu firir brjóstið, sagði Sturla skyldu þangat sækja fylgðarmann sinn, ef hann vildi. Eptir þat snýr Aron þangat, sem þeir Egill ok Sigurðr eru, ok spurði, hvort þeir sè nokkut göngufærir til bæjar; þeir segja at vísu svo vera; koma nú heim á bæinn, ok segja tíðindin; þótti bónda vaxit hafa vandi sinn firir svo stór vandræði, ok drap niðr höfði. Aron bað hann bera sik vel, „*munu* vær taka upp eitthvert ráð, svo at þitt vandræði skal ekki vaxa hèðan í frá"; ganga inn eptir þat, ok bindr Aron sár þeirra *blóðböndum, ok eru* þar *um nóttina*; en þegar er kveldar, kveðr Aron mann til fylgdar með sèr; þeir Egill spyrja, hvert hann ætlar; „stutta leið", segir Aron, „mun ek fara, ok skjótt aptr koma". Þeir báðu hann firir sjá. Þeir snúa nú leið sína á hálsinn til Mosdals. Þeir fá sèr skip ok fara til Eyrar; sendir Aron förunaut sinn til bæjar, ok segir, at hann vill finna þá bræðr; kemr sendimaðr fyrst at rúmi Eina[r]s, ok vekr hann, ok segir, at Aron vill finna þá. Hann klæ[ð]ist skjótt, ok gengr til bróð[u]r síns ok biðr hann upp

1) [ leiðr.; af landi, 551.

standa. Eptir þat ganga þeir, til þess er þeir finna Aron; hann fagnaði þeim vel, þeir tóku honum ok vel ok spyrja hann tíðinda, en hann segir slík sem vóru. Þeir kvóðust ekki lasta þat, „eða hvert er erindi þitt nú híngat"? Aron kveðst biðja þá enn nokkurrar ásjá. Þeir kvóðu nú lítið tiltak hjá sèr vera mundu, sakir fastra heita við Sturlu, „eðr hvers beiðir þú"? — „Ek vilda", segir Aron, „at þit tækit við Sigurði ok Agli, ok vilda ek, at þit skildist ekki fyr við þá, en þeir veri færir heim til Vatzfjarðar". Þeir kvóðust þat gera vilja, kölluðu þá njóta eiga liðveizlu við Aron. Um fund þeirra í Geirþjófsfirði var þessi vísa kveðin:

Átt hefir Aron hættan — (sjá bls. 541.)

Ekki er þess getið, at þeir bræðr sæi nokkurt ráð firir Aroni í þetta sinn; skiljast þeir nú við svo búit; ferr Aron aptr á Geirþjófsfjarðareyri, ok sagði þeim Agli þessa firirætlan; þeir láta sèr þetta vel líka. En þegar náttar snúa þeir allir til ferðar; flytr Aron þá til Mosdals, sem þeir bræðr höfðu ráð firir gert, en bóndi sá er þar bjó skyldi flytja þá til Eyrar; en er þeir kvómu þar, þá var tekit við þeim lágliga, lètu menn sem engi tíðindi hefði frètt, ok spurðu þá tíðinda; þeir segja af hit ljósasta. Þá spyrr Einarr, hvort þeir sè nokkut sárir, en þeir segja, at þeir hefði einstaka skein[u]r. — „Hèr munu þit vilja dveljast í nótt, ef þit þikkist greiða þurfa". Fara þeir þá af klæðum sínum, er blóðstorkin vóru. Sigurðr var í góðri brynju, er Aron hafði gefit honum; bindr Sveinbjörn um sár þeirra, ok býðr þeim þar at vera nokkura hríð, ok kallar þá eiga at njóta vaskleika síns, er þeir höfðu sýnt fyrir skömmu; ok fóru þaðan ekki fyr en þeir vóru grónir; fóru síðan heim til Vatzfjarðar; en þó Þorvaldi veri lítið um Aron, þá lèt hann þó vel yfir þeirra tiltekjum. Spyr[j]ast þessi tíðindi víða um sveitir.

13. Nú skal þar til taka, er þeir Þorvaldr ok Bergr koma heim til Sauðafells, ok segja víg Rög[n]valds með sönnum atburðum. Sturla [tók] lítt á þeim, ok kallar þá ógiptu hafa til borit þessarar ferðar; „vilda ek gefa til mikit fè, at Rögnvaldr hefði aptr komit, en þit eptir legit"; una þeir nú verr við en áðr. Nú er at segja frá Aroni, at hann býst braut af Geirþjófsfjarðareyri, lætr hann flytja sik yfir Arnarfjörð um nóttina, ok til þess bæjar, er [at] Lokinhömrum heitir; þar bjó sá maðr, er Helgi hèt ok var góðr bóndi; kona hans hèt Þuríðr, ok var

Hrafnsdóttir; var Aron þar um hríð, ok með ymsum frændum sínum um vetrinn. Maðr hèt Hafþórir, ok var Snorrason, móðurbróðir Arons, hann hafði lengi verit á leit hans, ok var þar fagnafundr með þeim frændum, ok vóru báðir saman með leyndum. Þetta sama sumar kom Sturla í Vestfjörðu, ok leitar eptir við þá menn, er borgit höfðu skógarmanni hans; hlutu þar af margir afarkosti í fèlátum; verpa menn svo á, at hann muni hafa fengit aukit CC hundraða. Lèt Sturla nú mjök eptir leita, hvar Aron veri niðr kominn, en þó berast ekki fundir þeirra í þetta sinn; leita þeir Aron undan í ymsar eyjar á Breiðafirði, þangat sem líkast þótti at undan bæri fundi við Sturlu, þóttist hann mjök vanbúinn við fundi hans. Líðr nú mjök á sumarit, ok fara þeir Aron nú til meginlands á Skógarströnd, ok til þess bæjar, er á Valshamri heitir, þar bjó sá maðr, er Vigfús hèt, hann var vin Arons, hafði hann þar staðar numit enn fyr í sektinni; hitta þeir bónda í fárra manna vitorði. Hann tók vel við Aroni, ok fylgði honum til eins leynistaðar, ok kvað í Arons firirsjá skyldu vera um þarvist þeirra, ef leynast mætti, ok þat þágu þeir; vóru þeir [þar] til þess er dró at jólum mjök. Sturla var heima at Sauðafelli, ok hèlt njósnum til ferða Arons. Þat var nokkurum sinnum, at Aron gengr í stofu þá, er trúnaðarkon[u]r hans sátu at verki, ok þótti þar ódaufligra at vera. Svo bar at eitt kveld, at þar var kominn einn utanhèraðs strákr, sá er menn höfðu ekki gaum at gefit; hann lèt sem hann svæfi, er þeir kvómu í stofuna, ok hlýddi til tals manna, ok heyrði nefndan Aron; ok er þær vóru búnar gengu þau í burt öll saman, ok fóru þeir Aron til þess herbergis, er þeir vóru vanir at sofa í, en þat var lambahúshlaða. En nokkuru síðar en húsfreyja hafði niðr lagizt, var lokit útihurðu; hún frètti, hverr út gengi, en henni var öngu svarat, en þá vóru flestir menn í svefni. Líðr sjá nótt, ok standa menn upp um morguninn, ok er menn koma í stofu var strákrinn í burtu; hugsuðu þau nú, at vera mundi annathvort, at strákrinn mundi hafa stolit nokkuru, eða vera njósnarmaðr, ok var þat sannara. Nú gengr bóndi til Arons ok segir honum, ok bað þá alla saman at gæta; kallaði Sturlu mundu við bregða, ef honum kæmi njósnin. Aron kvað snemt at stökkva, en ekki víst hvat strákrinn gerði af sèr, ok vóru kyrrir um daginn ok nóttina eptir; en er annarr dagr kom,

ganga þeir or garði, þangat sem þeim þótti ólíkligast til manna ferða, ok vita ef nokkut bæri firir augu, þat þeim væri forvitni á. En er þeir höfðu ekki langt gengit, námu þeir staðar um hríð ok heyrðu mannamál í skóginn hjá sèr, ok þótti þeim, sem ekki mundu allfáir. Þá mælti Aron við Hafþóri: „nú má vera, frændi, at strákrinn hafi illa gefizt", ok því næst kvómu menn fram or skóginum xj saman, þeir vóru allir vopnaðir. Þá mælti Aron: „föru vit heim til vopna okkarra, búit, at þeirra þurfi við, ef þetta eru ófriðarmenn"; ganga þeir nú til lambahússins, er vopn þeirra vóru inni; bar þetta saman, at mennirnir riðu heim á bæinn, ok hlupu þegar af hestunum.

14. Nú verðr fyrst at segja af kvomumönnum, þeir gengu inn í bæinn ekki mjök friðsamliga, gjörðu marga menn handtekna, en suma börðu þeir; hlaut Vigfús bóndi öxarhamars högg í höfuðit, ok enn annarr maðr, er Páll hèt. Nú skal segj[a] frá Aroni ok þeim Hafþóri, at Aron fór í brynjuna, en Hafþórir gekk til dyranna þegar hann var búinn. Aron bað hann bíða sín, svo þeir gengi báðir saman heim. Hafþóri þótti sem allir menn veri inn gengnir, ok fór hann skyndiliga heim til húsanna, ok nemr staðar við stofuna ok tekr af sèr stálhúfuna ok hlörar við hliðskjáinn, er á var stofunni, ok er hann heyrir hvat fram ferr inni hleypr hann ofan af stofunni, ok í þessi svipan hleypr at honum maðr, ok höggr tveim höndum í höfut honum, svo hann fær bráðan bana; þessi maðr hèt Eirekr, ok kallaðr birkibeinn; hann snýr inn þegar eptir þetta, kallandi, ok segist hafa drepit annanhvorn, Aron eðr Hafþóri. Sturla kvað mikit undir hvorr væri. Nú kemr Aron heim at húsunum í því er Hafþórir er fallinn, ok mælti: offljótr vartu nú, frændi, í heimgöngunni", segir Aron, „eða máttu nokkut mæla?" — Þá hrærðust varrirnar, en hann gat öngu svarat; hann rètti á sèr fíngrna, ok virti Aron þat svo, sem hann vísaði honum í burt. Nú koma þeir Sturla út í þessu, ok þat sèr Aron, ok snýr í burt skyndiliga. Þá kallar Árni Önundarson, ok spurði hverr þar stigi stórum. Aron leit við honum ok mælti: „hafit þat firir satt, sem þèr sjáit", segir Aron. Sturla mælti: „herðit nú at honum fast, ok látið hann ekki gera skaða hèðan í frá". Þá hlupu ij menn á hesta, ok hleyptu eptir honum, en allir aðrir hlupu sem máttu. Aron var manna fljótastr, þó hann væri minna at reyndr en nú; komast þeir brátt firir hann, sem á hestunum vóru, ok því

næst var hríngr sleginn um hann, ok hafa þeir menn þat sagt, er þar vóru, at Sturla vildi láta handtaka Aron, ok ætlaði honum meiri pínu til dauða, en eitt högg eða t[v]au; var nú Aron staddr í svo miklum háska sem heyrast má, ok verðr þó með öllu ekki bilt, kastar þá búklaranum, en ekki var ráðrúm til at bregða saxinu; reiðir hann þat þá upp tveim höndum, ok hleypr at fylgðarmanni Sturlu, er Björn hèt, ok höggr til hans báðum höndum, ok kemr í stálhúfuna, svo hann fèll þegar, sem hann veri drepinn niðr. Aron hleypr þegar á hann upp, ok út or mannhrínginum, ok er þat allra manna mál, at Aron þikkir manna sköruligast hafa undan komizt, við slíka garpa sem eiga var. Þetta var kveðit um fund þeirra Sturlu ok Arons:

Út hefir Aron leitað — (bls. 543)

15. Nú eggjar Sturla fast sína menn eptir honum at sækja; bar þat saman, at drífu gerir á mikla ok kveldar, ok skildi þar með þeim í því sinni; þóttist Aron eiga höndum ok fótum fjör at launa. Aron hafði sár eitt í kálfanum, er skotið var eptir honum spjóti. Ferr Sturla nú heim ok unir illa við sinn hlut. Hèr um kvað Ólafr hvítaskáld:

Fundr [var hættr[1] þar er hittust — (bls. 543)

Aron veit nú ógjörla hvar hann ferr, veðrit tekr at harðna, ok gjörir á fjúk; sèr hann stundum at eins leið sína; kennist hann við sik, at hann er kominn á heiði þá er Flötr[2] heita. Aron hefir nú harða útivist, vötn öll ill yfirferðar, ok kemr frost í sárit, en þó lèttir hann ekki fyr ferðinni en hann kemr á þann bæ, er heitir í Höfða[3], þar bjó kona sú er Tófa hèt, hún var mikill vin Sigríðar Hafþórisdótt[u]r, því nam Aron þar staðar með góðum viðtökum; var þá sent eptir Sigríði, at hún kæmi at lækna son sinn, ok svo gerir hún gjarna. Enn er at víkja aptr til Sturlu: má þat sýnast skipat með guðs miskunn, at þegar Aron komst or mannhringinum rak á kafahríð, svo sterka, at þegar skildi með þeim; höfðu menn þá hríð lengi í minnum; segir svo, at þar hafi veðrit verit miklu linara sem Aron fór. Eptir þat fór Aron í burt or Höfða ok til Rauðamels, ok fann móð[u]r sína; hún segir honum þau tíðindi, er henni þótti mikit firir upp at kveða, at þeirra samvistir mundu stuttar; „hefir Þorlákr þau orð gert mèr, at Sturla hafi sanna

1) [ varð harðr, 551. 2) sbr. Dipl. Island. I, bls. 273, og Vilkinsmáldaga; það heitir nú Flatir. 3) Höfðum, *Ar.*

frètt af, at þú ert hèr niðr kominn; býðr Þorlák[r], at ekki skuli á hætta um hèrvist þína, at ekki hafi óvinir þínir hendr á þèr". En við þessa sögu legst Aron flatr niðr á jörðina, ok rètti sik í kross, söng hann fyrst sálminn *Benedicite* ok *Ave Maria;* síðan stóð hann upp, ok sagði enn nokkut gott mundu firir liggja. Sigríðr mælti: „at hverjum hefir þú numit þetta bænahald, son minn?" — Aron segir, at Guðmundr biskup hefði honum þetta bragð kent, at hann skyldi þetta bænahald hafa ok þetta atferli, þá er honum þætti á liggja, at guð heyrði bæn hans ok hin helga Maria. Skamma stund dvaldist Aron þar í fárra manna vitorði; hugsar hann þá firir sèr, hvat hann skal upp taka. Maðr er nefndr Sigmundr snagi, hann hafði verit fylgðarmaðr Sturlu í Grímsey, ok þótti Aroni hann hafa gengit nær sèr. Sigmundr bjó þann vetr at Eyðihúsum; þar kom Aron farandi einhvern dag; urðu þar þau umskipti, at Sigmundr var drepinn með skjótum atburð, því at Sigmundr var úti staddr; en þat dró til þessa verks, með öðru, at Aroni þótti hann hafa sezt til höfuðs sèr, þóttist hann ok ekki mega þola, at óhefnt væri vígs Hafþóris, frænda síns. Sæzt var síðan á víg Sigmundar við sonu hans, ok dæmdi Heinrekr biskup málit, ok Brandr, er síðan [var] biskup at Hólum. Þann vetr fór Aron mjök huldu höfði, ok sótti hann suðr á Rosm[hv]alanes[1]; dvaldist hann þar þat sem eptir var vetrarins í valdi Einars Snorrasonar, móðurbróð[u]r síns. Um vorit eptir fór Aron suðr um land, ok sækir heim virðuligan mann [Harald Sæmundarson[2] ok bræðr hans, Vilhjálm ok Filippum; tóku þeir vel við honum, naut hann þar, sem víða annarstaðar, vináttu Guðmundar biskups, því at þeir höfðu hann lengi elskat; kvómu þeir Aroni í skip ok gott föruneyti; fór þat skip til Noregs ok varð vel reiðfara; tóku Þrándheim, þar sem Aron mundi helzt kjósa; þar var firir Guðmundr biskup ok Hjörleifr faðir hans; tóku þeir við honum með fagnaði, ok þóttust hann or helju heimtan hafa. Þá var Skúli jarl yfir þeim þriðjúngi lands, þótti hann einn hinn göfgasti maðr ok beztr Íslendíngum; hafði hann frètt af, í hverjum nauðum Aron hafði staddr verit á Íslandi, ok þótti hann sköruliga hafa at borit sik, við slíka höfðíngja sem eiga var. Þann vetr bauð jarl honum hirðvist, ok þat þektist Aron;

1) Rosmalarnes, 551. 2) leiðr.; [ Sæmund Haraldsson, 551.

var nú orðit umskipti á hans högum: jarlinn var vel til hans ok öll hirðin. Líðr svo vetrinn, ok kemr sumar; flytr Aron þat firir jarli, at hann vildi fara af landi burt, kallast hafa heitið firir sèr Jórsalaferð; hann tók því seint. þetta mál flutti Guðmundr biskup ok svo faðir Arons, ok fengu ekki af; virðu þeir svo, at honum þætti Aron ekki kominn verr nær sèr en firr. þetta þótti Aroni mjök í móti skapi, at verða heitrofi um svo stóra hluti, en jarl hlaut þó at ráða við alla þá sem hans eiðsvarar vóru; skilja þeir við þetta tal sitt. þetta sumar fór Hjörleifr til Íslands, ok var sú ferð með mörgum háska ok fáheyrðum atburðum, ok í þessi ferð lèt hann líf sitt ok margir aðrir vaskir menn; segja menn hann sprúngit hafa af liðsemd þeirri sem hann veitti í skipbrotinu. Nú var Aron með jarli þessi misseri hin næstu; hugsar hann þá með sèr, at honum [er] nauðsyn at taka ekki aptr heit sín við guð, en þó sýndist flestum óráðligt at fara orðlofslaust, en þó hættir hann á þat, ok fær sèr fylgðarmann íslenzkan, er Eyjólfr hèt; fara þeir nú í burt; tókst þeim vel ferðin, en þó var hún háskasamlig sakir ófriðar ok margra hluta annarra. Urðu þeir saman xvj um hríð, kom þá sótt í lið þeirra ok lètust sumir, en þeir eptir lifðu lèttu eigi fyr en þeir kvómu til Jórsala ok könnuðu þá staði sem þeir vildu; sneru síðan aptr á leið, ok er ekki getið, at til tíðinda yrði í þeirra ferð; komst Aron aptr til Noregs ok þeir Eyjólfr; hittu þeir Hákon konúng í Vík austr, ok gengu firir hann ok kvöddu hann. Konúngr tók þeim vel ok bað þá hvíla sik, ok lèt frètta þá tíðinda, en þeir sögðu þau sem þeir vissu. Einn dag frèttir Aron konúnginn, hvort hann vildi at hann færi á fund jarls; konúngr svarar: „þat vil ek, at þú haldir eiða þína við jarl, ok má vera, með flutníngi vorum, at hann láti sèr vel líka þar til sem vær finnumst". Ólafr hèt maðr, ok var þórðarson[1], hann var vinr Arons; hann kvað vísu um Aron ok útferð hans:

Fór sá [er] fremd ok tíri — (sjá bls. 544).

þetta sumar fundust þeir konúngr ok jarl, ok þá konúngr veizlu at jarli í þrándheimi. Ok einn dag ræddi konúngr við jarl: „vili þèr nú taka við Aroni hirðmanni yðrum? ok þikki mèr

1) leiðr.; Jónsson, 551. Vísan er í *St.* og Guðmundar sögu eignuð Ólafi hvítaskáldi, og er án efa úr flokki þeim eða drápu, er hann orti um Aron.

þat rúm vel skipat, er hann er í; vill hann bæta við yðr þat sem hann hefir brotið, en hann hefir nú mikit bætt sál sína." Jarl svarar heldr stutt, kvað Aron svo tafli teflt hafa við sik, „at okk[u]r sambúð mun skömm vera." Konúngr mælti, sagðist öngan bænarstað fara mundu um þenna hlut, „ok kann vera, at Aroni verði at þessu lítið gjald". Konúngi fanst fátt um. Eptir þetta tók konúngr Aron á sitt vald ok gerði hann hirðmann sinn, ok var Aron með honum nær XXX vetra.

16. Nú ferr konúngr heim af veizlunni; skildu þeir við svo búit; sigldi konúngr suðr til Björgvinar, ok sitr þar þat sem eptir var sumarsins; var konúngr vel til Arons, ok litlu síðar fær konúngr honum gott kvonfang, sú kona var skyld konúngi ok hèt Ragnhildr, ok var ekkja. Konúngr fèkk Aroni jörð svo mikla, at Aron mátti þar vel hús á reisa, ok var þat nær konúngsgarðinum, ok enn annan styrk lagði konúngr til með Aroni, þann er honum gekk firir mikit: þat vóru stofur tvær, þar skyldi konúngr taka bað í annarri, en hann ok hirð hans skyldu afklæðast í annarri; þær vóru svo miklar, at þar mátti allri þjónustu við koma, þótt fimm tigir manna væri inni í hvorri. Konúngr kvað ok á, að hverr maðr skyldi gefa pen[n]íng veginn, ef þar vildi bað taka, ok varð þat stórfè, ok þurfti þess, því Aron hafði jafnan mikinn kos[t]nað. Þat var mark á velgjörníngum konúngs, þeim hann veitti Aroni, at hann skipaði honum á sitt skip, þar sem hann var á sjálfr, ok enn annat lítið mark, at sverð Arons skyldi liggja hjá konúngsins sverði, en fá önnur; verðr ok þess að geta, að þýngjast tók með konúnginum ok jarlinum, ok hafði þó lengi at dregit, en þó kom þýngra eptir, sem ritað finst.

17. Í þenna tíma kom Sturla Sighvatsson utan af Íslandi, ok er hann kom í Björgvin, var Hákon konúngr þar firir ok Aron með honum. En er Sturla kom í Björgvin, segir svo, at hann frètti einkis fyr, en hvort Aron væri innan bæjar, en honum var sagt, at svo var. Þat bar at, at Aron hafði gengit til baðs ok nokkurir lögunautar hans með honum; kemr at því sem mælt er, at margr á sèr vin með óvinum; þar var einn íslenzkr maðr á skipinu, er Húnbogi hèt, hann var skyldr Aroni; hann verðr varr við eptirfrèttir Sturlu ok [gengr] af skipi, ok gerir Aron við varan. Aron segist meir vanbúinn verit hafa við fundi Sturlu, en svo nokkut; fór hann þá or baði ok

klæddist, ok förunautar hans með honum, ok ganga svo búnir á strætið firir stofudyrnar. En er Sturla hefir sanna frètt af hvar Aron var staddr, kveðr hann með sèr þórð Guðmundarson ok ij menn aðra; höfðu hvorigir fleiri vopn, en sitt sverð hvorr þeirra í hendi, en svo var mikit fjölmenni, at hvorigir máttu öðrum mein gera, þó þat byggi í skapi; en þat er flestra manna hugsan, ef færri væri gæzlumenn, at ekki mundi aðrir hvorir frá tíðindum eiga at segja. Sturla nam staðar í fyrstu, er hann sá Aron, ok horfði lengi á hann hvast. Aron mælti: „hversu lízt [þèr] nú á skógarmann þinn, Sturla, er þú horfir á hann svo lengi, eða hversu þikki þèr ek skipazt hafa, síðan vit skildum næst"? en Sturla svaraði öngu ok gekk í burt til manna sinna, ok er lokit frá honum at segja í þessi sögu.

18. Sá atburðr var á einu sumri, sem opt kann til bera, at þar var hestum att. Maðr er nefndr Gautr á Meli, göfugr maðr at ætt ok at margri annarri atferð; hann var mikill vin Sturlúnga, ok hafði þegit af Sturlu hest góðan, ok var þat margra manna orð, at sá væri hestr beztr í Noregi. Maðr er nefndr Árni öreyða, íslenzkr maðr, hann hafði sent konúngi hest, þann er hann kallaði beztan á Íslandi, ok þeim hestum skyldi etja; kom til fjölmenni mikit. En er hestarnir vóru fram leiddir, sýndist hvorrtveggi hinn vænligasti. þeir vóru lausir látnir, ok kvómu hart saman, ok var þetta hit sköruligasta víg, bæði hart ok langt; en [er] á leið vígit, lattist hestr konúngs, fanst konúngi fátt um; var þat auðfundit, at konúngi þótti hvergi betr. Nú gengr Gautr um mannhrínginn, ok sèr vel upp því enu eina auganu, er til var. Aron var þar nær staddr, ok sá maðr hjá honum, er þórarinn hèt, frændi hans; þeim líkaði illa, er hestrinn var [sigraðr, var] Aron vin Árna [en] engi Gauts, þikkist hann sjá hvat veldr. Nú sem þeir sjá, at konúngr leggr enga hugðu til hests síns, ganga þeir firir konúng. þá mælti Aron: „leggit ekki óvirðíng á hestinn, herra, því hann mun vera hin mesta hrossge[r]semi, en hann hefir ekki þá atferð, sem hann er vanr". — „Hver er sú?" segir konúngr. „Maðr fylgir þar hesti hverjum, er fram er leiddr", segir Aron, „ok hefir staf í hendi, ok klappar á lend hestinum, ok þar með styðr hann hestinn, þá er hann ríss". — „Ef þú þikkist munu gera stað í hestinn, Aron", segir konúngr, „þá far til". Nú leggja þeir Aron ok þórarinn

af sèr yfirhafnir sínar, ok taka skíð[u]r í hönd sèr, ganga síðan at hesti konúngs þar sem hann stóð í utanverðum mannhrínginum, ok lètu koma við hann stafi sína, en hann brá við, svo sem hann þættist vita til hvers þeir væri komnir, hleypr at hesti Gauts, en hinn í móti, ok koma hart saman; hafði hestr Gauts nú mikla raun, því hestr konúngs var með afli studdr, ok var þat orðtak, at slíkir mundu í bezta lagi. En er á leið daginn, lattist hestr Gauts, en þó vildi hann hvorki hopa nè renna. Þeir Aron keyrðu því fastara eptir sinn hest, þar til at hestr Gauts kastar sèr niðr af mæði ok stórum tökum, ok stóð aldri upp síðan. Nú mátti Gautr hvergi kyrr þola firir kappi sínu, ok virti svo, sem Aron hefði drepit firir honum hestinn, ok líkaði stórilla; en þat fanst á, at konúngi líkaði vel. Því næst vóru fram leiddir aðrir hestar, ok er þar engi frásögn af. Þeir Aron ok Þórarinn reikuðu um völlinn, ok litu á atferð hestanna, ok því næst var tekit á herðum Aroni ok svo mælt: „ek vilda gefa til öll klæði ok gull, at þú værir jafnnær Sturlu, sem þú ert nú mèr". Þá snaraðist Aron við ok mælti: „biðja máttu þèr þarflegri bænar, Gautr bóndi", segir Aron. „Hver er sú?" segir Gautr. — „At ekki taki fjandinn svo annat auga þitt, sem hann hefir tekit annat áðr". Gautr skipti mjök litum, ok talaði fátt síðan. Var áðr fátt með þeim, en þó ver síðan miklu. Fanst þat í orðum Arons, hversu óvæginn hann var, þótt hann ætti við sèr meiri menn um.

19. Í þenna tíma var Þórðr Sighvatsson, er kallaðr var kakali, utan, ok hafði verit í Noregi tvo vetr; hann var vaskr maðr ok vel mentr, en ekki til spakr við drykkinn, ok því var konúngr ekki jafnblíðr til hans sem ella mundi. Hann var í garði þeim, er Hallvarðsgarðr var kallaðr; þann garð átti Hallvarðr svarti, hirðmaðr konúngs ok hinn mesti ofrembíngr, ok [var] fátt með þeim, því at metnaðr brauzt í milli þeirra Þórðar. Þaðan skamt í brot var garðr Arons, en þó var fátt með þeim Aroni ok Þórði, enda er þar jafnan fátt, er ólíkara er til. Þenna vetr var Bárðr, bróðir Arons, á vist með honum, ok var jafnan í skemtan með Þórði, því vegir hans lágu til Íslands, ok vildi hann hallast til við hann, ok tók Þórðr því vel, en Aron lagði þar ekki til. Þórðr hèlt sik kappsamliga ok sína menn, ok varð honum kostnaðarsamt, ok gekk upp fèit mjök. Þá var með honum Hrani Koðransson fylgðarmaðr hans ok Þórðr

þumli, hinn þriði hèt Pètr, en[n] fjórði var skósveinn, er Eysteinn hèt. Þat bar til eitt kveld, at Þórðr drakk í skytníngi, þar sem drykkr var áfengr, ok er á leið kveldit gengu þeir menn í burt er stillínga[rmenn] vóru, en Þórðr sat eptir ok nokkurir handgengnir menn. En er á leið náttina, sló í kappmæli með þeim ok áhöld, svo at þeir börðust með hornum ok skriðljósum. Þórðr var harðgjörr maðr ok aflamikill; urðu þeir mjök vanhluta, er í móti vóru, ok urðu bæði bláir ok blóðugir; vóru þeir skildir um síðir, ok ferr hverr til síns herbergis, ok sofa af náttina. Eptir þat kemr morgin, ok er tíðum var lokit, ganga þeir firir konúng er vanhluta höfðu vorðit, ok segja honum. Konúngr leggr nú fæð á Þórð, en semr þó málit.

20. Nú líðr sumarit, ok tekr fast at óhægjast fjárhagr Þórðar ok gengr upp í kostnað allt þat er laust er. Nú er liðit er nokkut af vetri, þá kemr vestan af Orkneyjum skip þat, er á var sýslumaðr konúngs er Finnr hèt. Þenna sama dag gekk Bárðr bróðir Arons á fund Þórðar til skemtanar; þeir Þórðr ok Hrani sátu at skáktafli. Þeir buðu Bárði undir borð, ok svo gerir hann. Því næst kom þar inn Hallvarðr bóndi ok gekk snúðigt; öngvar vóru kveðjur af Þórði. Bárðr heilsaði Hallvarð[i], ok spurði hvaðan hann kom at. Hann sagðist hafa verit á konúngsgarði. „Hvat var þar tíðinda?" segir Bárðr. — „Eigi skortir tíðindi frá frændum yðrum af Íslandi, bardagar stórir ok höfðíngjalát ok mannafall mikit". — „Hverir hafa höfðíngjar látizt?" segir Bárðr. — „Sighvatr ok Sturla ok allir synir hans". Þá lèt Þórðr af taflinu, ok svarar svo tíðindum: „fleira slátra Íslendíngar en baulum einum, ef satt er". Þórðr gekk í konúngsgarð, ok vildi heyra tíðindin; en er hann kom þar [vóru] honum sömu tíðindi flutt. Í þessum atburðum bar margar skapraunir at Þórði, fyrst í mannaláti ok missi svo göfugra frenda, ok þar með var hann orðinn peníngalauss, svo hann mátti ekki halda fylgdarmenn sína, ok þar með var hann orðinn firir fæð nokkurri af konúnginum, er flestum þikkir þýngst firir at verða; gengu nú allir menn hans frá honum, nema skósveinn hans; bar hann sik vel.

21. Nú frètti Aron þessi tíðindi, ok var honum þat engi harmsaga, sem von var, en þó fanst þat á, at honum þótti Þórðr þá lítt við kominn; en er Bárðr fann þat, þá mælti hann við bróð[u]r sinn, at hann skyldi Þórð vita [láta], at Aron Hjörleifsson veri nokkuru betri drengr en alþýða manna, svo sem

margir mæltu. Í þessum flutníngi [var] Ragnhildr kona Arons með Bárði. Aron tók af öngu mikit ok lèzt ekki vita, hversu þórðr mundi taka hans máli, ok kvað sèr ofgert þikkja, ef hann tæki lítt; en Bárðr kveðst búinn þat at forvitnast af þórði. Gekk Bárðr til fundar við þórð; höfðu [þeir] skamma stund við talazt, áðr Bárðr frètti þórð, hversu hann mundi taka, ef Aron vildi nokkurum orðum á hann verpa, en þórðr kveðst Aron einkis eiga at kunna, kveðst ætla, at þat eitt hefði hann gert í móti frændum hans, at hann hefði nauðr til rekit; „oss hefir einn hlutr mislíkat við Aron". Bárðr spurði, hverr sá veri. — „Hann hafði nokkur orð í móti, þá ek skyldi gerast hirðmaðr, ok vildi ekki vera lögunautr minn". Eptir þat skildu þeir tal sitt[1], ok fór Bárðr, ok sagði Aroni tal þórðar ok svör. Aron lèt sèr fátt um finnast. Nú líðr af nóttin ok kemr dagr; varð Ragn[h]ildr vör, at þórðr hefir sett út þann hinn eina grip, er hann átti svo at fè tæki, þat var ein skarlatsskikkja, fóðruð hvítum skinnum. Hún segir Aroni, hvar þá var komit; knýja þau Bárðr bæði, ef hann vildi nokkurn hlut at eiga, ok fresta ekki lengr. Aron spratt þá upp, ok gekk við hinn þriðja mann til lopts þórðar, var hann þar einn ok skósveinn með honum; en þegar Aron kom í loptið, stóð þórðr upp, ok heilsaði Aroni, ok tók í hönd honum. þórðr talaði við sveininn hljótt, ok gekk hann í [burt] ok því næst kom inn mjaðarbytta, ok drukk[u] með gleði um daginn. þórðr sagði, at hann vildi at Aron dveldist þar um daginn, ef hann vildi ekki lengr. Aron kveðst til þess þar kominn, at bjóða honum til sinna herbergja, ef þat mætti vera nokkuru eptirlátligra, en þat sem áðr var, ok láta þann [veg] ráð gerast. þórðr kvað þá ekki fleiri bjóða sèr sæmdir, en sagðist ekki vilja hendi við drepa, „þikki mèr nú daufligt gerast samsætið". Sendir Aron þegar, ok lætr taka skikkjuna, þar sem hún lá á torgi, ganga nú allir í garð Arons; hafði þórðr þar góðar viðtök[u]r; var þórðr þar þrjár vik[u]r í samt, ok á þat ofan bauð Aron honum, at eitt skyldi yfir þá ganga, meðan þórðr vildi þat þiggja; hann tók vel undir þat ok talaði mörgum sæmdarorðum til Arons, ok nokkurum tíma síðar gengu þeir til konúngs, ok vildu koma þórði í meiri kærleika við konúng en áðr hafði verit, ok varð erbitt um þat,

1) tal' síðr, 551.

ok hurfu frá at sinni. En nokkuru síðar talar þórðr við Aron, at hann muni ekki optar [þess í[1] leit vera við konúng. Aron sagði ekki svo vera skyldu, „því at þar verðr jafnan hinn lægri at lúta, sem minni mannamunr er, ok verðr þat jafnan til mikillar sæmdar". — „þú skalt ráða Aron", segir þórðr, „því at ek finn jafnan þinn sannan góðvilja við mik, ok kant margt gjörla at sjá"; ok einn dag, er skamt var til jóla, gengu þeir á konúngs fund, ok kvöddu hann; tók Aron svo til orðs: „herra, hèr er þórðr kominn á fund yðvarn, ok vildum vèr flytja hans mál til meiri blíðu, en svo sem áðr hefir verit, ok viljum vær þess beiða, at þèr gerit firir honum nokkurt ráð, þat honum sè til sæmdar". Konúngrinn þagði. — þá mælti þórðr: „þat vilda ek herra, at þèr leyfðut mèr at fara[2] or landi ok leita til annarra höfðíngja". Konúngr neitaði því, ok við þat fóru þeir í burt. Fám dögum síðar koma menn or konúngsgarði til Arons, ok sögðu honum konúngs orð, at hann bauð þeim Aroni til jólaveizlu, at þeir skyldu drekka með honum um jólin, ok þat þágu þeir; hóf upp brún við þetta, ok hugðu, at hèr mundu meiri sæmdir eptir koma; drekka nú þar um jólin, ok hinn næsta dag eptir ganga þeir firir konúng, ok þakka firir góða veizlu. þá mælti konúngr: „mun ekki þat sæmiligt, Aron, at ek taka undir með þèr nokkut, ok mun þórðr hèr eptir vera með oss". Aron kveðst svo helzt mundu kjósa at veri, ok [skilja þeir] nú þórðr ok Aron fyrst at sinni, ok vóru jafnan góðir vinir. Var þórðr nokkura vetr síðan með konúngi. Bera menn um þat skýrt vitni síðan, hverja giptu Aron bar til, at hjálpa mörgum manni, ok hversu mikils konúngrinn virti hans orð. Herra Hákon konúngr batt fastliga vinfengi þeirra þórðar ok Arons, ok fal Aron á hendi þórði, ef hann færi til Íslands, því at Aron fýsti þá út híngat, at finna frendr ok vini; ok er þeir kvómu til Íslands, hafði þórðr Aron í góðu yfirlæti, ok veitti honum vel ok röskliga til allra mála, þeirra sem Aron þóttist eiga á nokkurum mönnum. Tóku þá allir frendr hans honum vel, ok hèldu hann firir sæmdarmann; fèkk hann þá sætt ok sýkn með styrk þórðar ok frenda sinna. Fór Aron síðan aptr til Noregs á fund Hákonar konúngs, tók hann honum blítt, ok var [hann] enn með honum vetr nokkura í sömu virðíngu ok fyr.

1) *í skinnb. ritað sem: þessi.* 2) til Islan b. v. *Ar.*

22. Í þenna tíma kom legatus herra páfans til Noregs, er Vilhjálmr hèt, þess erindis, at kóróna Hákon konúng ok Margrètu drotníngu, ok marga aðra góða hluti framdi hann þar. Hann vígði Heinrek biskup til staðarins at Hólum í Hjaltadal á Íslandi; en þá Heinrekr biskup fór til Íslands, rèzt Aron til ferðar með honum, ok var með biskupi þann vetr. Um sumarit eptir ætlaði Aron til utanferðar með Eysteini hvíta[1], en þat skip braut um haustið firir Hofshöfða í Flateyjardal; lètust þar menn allir, nema Aron, ok ij menn aðrir, ok bjargaði Aron þeim með guðs miskunn; var Aron um vetrinn eptir með Heinreki biskupi, ok hafði enn fengit góðan orðstír. Um sumarit eptir sættist Aron við sonu Sigmundar snaga; gjörði Heinrekr biskup sætt ok Brandr ábóti, en síðan gekk Gizurr ok Þorgils skarði til festu firir Aron, ok eptir þetta var Aron sáttr við alla menn á Íslandi. Hit næsta sumar fór Aron utan ok tókst þá vel ferðin, ok kom af hafi við Björgvin, ok fór þegar á fund Hákonar konúngs, ok tók hann honum vel, sem hann var vanr. Aron var þá ekki lengi í Noregi, áðr en hann tók sótt mikla. Í þessi sótt kom konúngrinn til hans, sem til síns hugðarmanns eðr frænda, ok hefir mönnum þat þótt hin mesta sæmd, ok fèkk Aron alla guðsþjónustu, ok eptir þat andaðist hann. En er lík hans var borit til kirkju, gekk konúngrinn sjálfr ok hirð hans með líkinu, ok stóð sjálfr yfir grefti hans, ok mælti þar nokkurum sæmdarorðum; eru þessi eptir höfð: „þessi maðr, Aron, vorr hirðmaðr, hefir víða farit, ok [í] mörgum mannraunum vel prófazt, ok í mörgum lífsháska staddr verit, ok viljum vèr því orði á lúka", segir konúngr, „at hèr hefir látizt eitt hit bezta sverð af vorum þegnum". Var hans líkferð með mikilli sæmd gjör, ok er þat væntanda, at sál hans hafi gott heimili fengit, bæði firir meðalgöngu vinar síns, hins góða Guðmundar biskups Arasonar, ok einkanliga firir mjúkustu vors lausnara miskun, hvers pílagrímr hann má rèttliga kallast, firir þat er hann heimsótti hans helgustu gröf, ok marga aðra heilaga staði. Ok lýkr þar sögu Arons Hjörleifssonar.

---

1) þann. ísl. Ann. 1253; h'ra (herra), 551.

## III.

# Rafns saga Sveinbjarnarsonar.

---

### [1]Hèr hefr[2] sögu af Hrafni á Hrafnseyri. Prologus.

1. Atburðir margir, þeir er verða, falla mönnum opt or minni, en sumir eru annan veg sagðir en verit hafa, ok trúa því margir, er logit er, en tortryggja þat satt er. En fyrir því, at aptr hverfr lygi þá er sönnu mætir, þá ætlu vær at rita nökkura atburði, þá er geyrzt hafa á vorum dögum, á meðal vor kunnra manna, sem vèr vitum sannleik til. Í þeim atburðum mun sýnast mikil þolinmæði guðs almáttigs, sú er hann hefir hvern dag við oss, ok sjálfræði þat, er hann gefr hverjum manni[3], at hverr má geyra þat sem vill, gott eðr illt[4].

2. Sveinbjörn hèt maðr, son Bárðar svarta, Atlasonar, Höskullssonar, Atlasonar, Högna sonar ens heppna, Geirþjófs sonar, er nam Geirþjófsfjörð, Valþjófs sonar ens gamla. Sveinbjörn bjó í Arnarfirði, á þeim bæ er á Eyri heitir; hann átti konu þá er Steinunn hèt, hon var Þórðardóttir Oddleifssonar. Sveinbjörn var goðorðsmaðr ok vitr, ok mikill atferðarmaðr, læknir góðr. [Atli föðurfaðir hans[5] hafði verit með Magnúsi konúngi enum góða Ólafssyni í bardaga á Hlýrskógsheiði, þá er hann barðist við Vindi. Þá vitraðist Ólafr konúngr Magnúsi, seyni sínum, bað hann velja xij menn af öllum herinum, þá er væri af enum beztum ættum, til þess at þeir bindi sár manna; en hann kvezt þat þiggja mundu af guði, at í hvers þeirra kyni skyldi síðan lækníng haldast, er þar væri

---

1) Af Rafnssögu eru til tvenn handrit, merkt *A* og *B*. Til *A* heyra: AM. 155 fol. (merkt *A* 1); 154 fol. (merkt *A* 2); 487 4to. (merkt *A* 3) allar afskriptir af ágætri skinnbók, er brann 1728 (codex academicus). Til *B* heyra: AM. 557 4to. á skinni, frá 15. öld (4 blöð); AM. 552 *N*, 4to. er afskript Bjarnar á Skarðsá af 557, meðan hún var heil. Hèr er lögð til grundvallar 155 (með hendi sira Jóns Erlendssonar).

2) *A* 2; byrjar, *A* 1. 3) manna, *A* 1. 4) þenna *prologus* v. í *B*.

5) leiðr.; [ Sveinbjörn, *A*, *B* (sjá Magnúsar sögu góða).

til valdir sár manna at binda. En eptir bardagann skipaði hann þeim til at binda sár manna, því at fáir vóru læknar í liði hans, en menn vóru margir sárir orðnir. Þar batt Atli sár manna fyrsta sinn at boðorði Magnúss konúngs, ok var síðan algjörr læknir, sem allir þeir, er þar bundu sár manna. Svo kom lækníng af guðs miskunn fyrsta sinni í kyn Bárðar svarta. Þau Sveinbjörn ok Steinunn áttu ij sonu ok v dætr. Herdís hèt dóttir þeirra, er átti Hallr prestr ok lögsögumaðr, sonr Gizurar lögsögumanns. Helga hèt önnur dóttir þeirra, hana átti Brandr[1] Þórisson ok Helgu Jónsdóttur austan frá Svínafelli. Guðrún[2] hèt en þriðja dóttir þeirra, hana átti Sámr prestr Símonarson. Halla[3] hèt en fjórða, hana átti Þórðr Arason[4]. Birna hèt en fimta. Markús hèt son Sveinbjarnar enn ellri, en Rafn enn ýngri. Markús var mikill maðr vexti ok ram[r] at afli; svo var handleggr hans digr meðal axlar ok olboga, sem lær manns væri; hann var úngr til bókar settr, ok síðan vígðr til prests. Á Eyri í Arnarfirði stendr steinn, sá er Markús bar þangat; í þeim steini vóru klappaðir fjórir koppar; [síðan er hann hafðr[5] til þvottsteins, ok er svo höfugr at varla megu fjórir karlar hefja. En fyrir því, at [skömm eru úföll[6] þessa heims, þá varð Markús ei langlífr. Hann fór [einn vetr[7] or Arnarfirði um heiði til Tálknafjarðar, ok þeir iiij saman; ok á heiðinni geyrði at þeim vont veðr, svo at þeir fóru villt; ok er minstar vonir vóru, þá brast undir þeim einn hengiskafl, ok í þessi skriðu týndist Markús prestr ok annarr maðr með honum, en sá komst í brott heill or skriðunni, er óknástr var, sá hèt Árni, ok Húnþjófr[8] hèt annarr maðr er á brott komst. Þessi atburðr varð þar sem heitir Feitzdalr[9].

3. Hrafn var á únga aldri snemmendis mikill atgeyrvismaðr, hann var völundr at hagleik, bæði at trè ok at járni, ok skáld, þó hefir hann fátt kveðit, svo at vèr vitim, ok enn mesti læknir, ok vel lærðr, ok eigi meir vígðr en krúnuvígslu[10], lög-

---

1) þann. *B*, Sturl. 2. 5, (sjá kap. 4); Bárðr, *A*.
2) *B*, *St.*; Guðríðr, *A*. 3) Halldóra, *B*.
4) *A* 3; (sbr. bls. 461); Urason, *A* 1-2. 5) [ ok er nú hafðr, *B*.
6) þann. *B*; [ seinar eru of alls, *A* 1.
7) *B*; [ um vetrinn, *A* 1. 8) Geirþjófr, *B*.
9) Fækdalr, *B*; mikill ok stór, b. v. *B*.
10) þann. *A* 2, *B*.

spakr maðr ok [vel máli farinn[1], ok at öllu fróðr. Hrafn var mikill maðr ok rèttleitr í andliti, svartr á hárslit, syndr vel, ok við allt fimr, þat er hann hafðist at, bogmaðr mikill, ok skaut manna bezt handskoti. Hrafn fór úngr brott af landi, ok fèkk góða virðíng í öðrum löndum af höfðíngjum, sem vitni bar um þær gersimar, er Bjarni biskup sendi honum, sonr Kolbeins hrúgu or Orkneyjum, út híngat: þat fíngrgull, er stóð eyri, ok var merktr á hrafn ok nafn hans, svo at innsigla má með. Annan lut sendi biskup honum, söðul góðan ok enn þriðja lut steinklæði. Rafn var utan einn vetr, ok var á hendi tignum mönnum, ok þótti mikils verðr hvar sem hann kom, fyrir íþrótta sakir. Þá rèð Sverrir konúngr fyrir Noregi. Annat sumar sigldi hann út híngat, ok fór til bús með föður sínum á Eyri.

4. Atburðr sá geyrðist í Dýrafirði á vorþíngi, þá er Rafn var þar, at rosmhvalr kom upp á land, ok fóru menn til at særa hann, en hvalrinn hljóp á sjó ok sökk, því at hann var særðr á hol. Síðan fóru menn til á skipum, ok geyrðu til sóknir, ok vildu draga hvalinn at landi, ok unnu engar lyktir [á]. Þá hèt Rafn á enn helga Tómas, biskup til þess at nást skyldi hvalrinn: [hausfastar tennar[2] or hvalnum, ef þeir gæti náð hvalinn at landi fluttan; ok síðan, er hann hafði heitið, þá varð þeim ekki fyrir at flytja at landi hvalinn. Þessu næst fór Rafn í brott, ok kvómu þeir skipi sínu við Noreg. Þetta sannar Guðmundr Svertíngsson, í drápu þeirri, er hann orti um Rafn:

Sviðr braut sinni öðru
sundr menþroti grundar,
brast glymfjöturr gestils,
garð firir knarrar barði:
áðr veðrlostinn vestan
veggöndur[3] framir seggir,
meðr stigu glatt[4] [af græði[5]
grund, við Noreg bundu.

Þann vetr var Rafn í Noregi, ok at vori fór hann vestr til Englands ok sótti heim enn helga Tómas erkibiskup í Kantara-

---

1) [ ok snjalltalaðr ok minnigr, *B*.
2) hz fastar tennur, *A* 1.
3) *B*; ve gundr, *A* 1.
4) *A* 2; hlatt, *A* 1.
5) *B*; á gerði, *A* 1.

bergi, ok færði enum helga Tómas[i] tennar, ok varði hann þar fè sínu til musteris ok fal sik undir þeirra bænir. Þetta sannar Guðmundr Svertíngsson:

Get ek þess, er gekk at lúta
geðfastr enum helgasta
bölhnekkjanda[1] af blakki
blásvandar Tómási;
sökreynir[2] bjó sína
suðr drengiligr lengra
för[3], sem fyrðar he[y]ra,
fæti, [sál at[4] bæta.

[Þaðan fór hann suðr um haf[5] ok sótti heim enn helga Egidium [í Ilansborg[6], ok er hann kom þar, þá mintist hann þess, er mælt[7] er af alþýðu, at guð veiti hverjum manni, þeim er kemr til Egidium, eina bæn, þá er maðr vildi helzt biðja, af verðleikum Egidii. Þá bað Rafn þess guð almáttkan, at af verðleikum Egidii skyldi hvorki fjárhlutr, nè þessa heims virðíng, svo veita[st] honum, at þeir lutir hnekði fyrir honum fagnaði himinríkis dýrðar[8]. Ok þat hyggjum vær, at Kristr veitti honum þetta, því at Rafn hafði nær alla luti til þess at hann mætti mikill höfðíngi sýnast, en engi var sá orðrómr á af alþýðu manna hèr á landi um hans virðíng, sem oss sýndist hann til vinna, [því at vèr seám[9] nakkvara menn[10], þá [er] meiri[11] virðíng hafa af alþýðu, er minna unnu[12] til virðíngarinnar. Síðan fór Rafn vestr til Jakobs, sem Guðmundr segir:

Fyr kom fleina rýrir
fram jókeyrir glamma,
[lýðir sjá storma stríða[13],
stund til Jakobs fundar.

Þaðan fór hann til Rómaborgar, ok fal líf sitt á hendi guðs postulum ok öðrum helgum mönnum. Síðan fór hann sunnan frá Rómi, ok varði fè sínu til helgra dóma, þar sem hann kom;

---

1) bölhnekkjandi, *B*. 2) sökrennir, *B*.
3) getg.; fara, *A*, *B*. 4) *B*, *A* 2; salar, *A* 1.
5) [ stendr í *A* á undan vísunni.
6) *A* 2; [ eyða í *A* 1; (heitir nú St. Giles). 7) rekit, *B*.
8) hèr v. 2 blöð í 557. 9) *A* 3; [ þeim vær sena, *A* 1.
10) *A* 2; mun, *A* 1. 11) *B*; minni, *A* 1. 12) *A* 2; vinnr, *A* 1.
13) [ liðinn sestora stríða, *A*; lýðir sjá storma stríði, *B*.

ok er hann kom í Noreg, þá fór hann út til Íslands, ok var um vetrinn á Þíngvelli með Brandi mági sínum. Þá fóru þeir Rafn ok mágar hans: Hallr Gizurarson ok Brandr, í Kallaðarnes, at biðja Hallkötlu Einarsdóttur til handa Rafni, ok þat var at ráði geyrt. Hallkatla var Einarsdóttir, Grímssonar, Íngjaldssonar, Grímssonar glammaðar, Þorgilssonar errubeinsstjúps[1]; móðir hennar var Þórey Másdóttir[2]. Síðan fór Rafn vestr á Eyri, ok tók hann við fjárhlut þeim, er faðir hans ok móðir hafði átt, ok bjó á Eyri í Arnarfirði þaðan af meðan hann lifði. Rafn tók þá við goðorði því, sem faðir hans hafði átt, ok manna varðveizlu. Þá rèðu þeir Mögr ok Seldælir[3] ok Hraunsverjar[4] goðorð sitt undir Rafn fyrir sakir vinsælda hans. Svo var bú Rafns gagneyðigt, at öllum mönnum var þar heimill matr, þeim er til sóttu ok eyrinda sinna fóru, hvort sem þeir vildu setið hafa lengr eðr skemr. Alla menn lèt hann flytja yfir Arnarfjörð, þá er fara vildu, hann átti ok skip á Barðaströnd, þat höfðu allir þeir er þurftu yfir Breiðafjörð; ok af slíkri rausn Rafns var sem brú væri á hvorumtveggja firðinum, fyrir hverjum er fara vildi. Svo fylgði hans lækníngu mikill guðs kraptr, at margir gengu heilir frá hans fundi, þeir er banvænir kvómu til hans fyrir vanheilsu sakir, sem hèr segir:

Sótti [H]rafn at hitta
höggusár af fári
maðr, eða meðr at öðru[m],
margr, hinn er þurfti bjargar:
hverr gekk hodda stökkvir
heill, segik á því deili,
ljóns eða leystr frá meinum
lögvarðanda or garði.

Til einkis var honum svo títt, hvorki til svefns nè til matar, ef sjúkir menn kvómu á fund hans, at eigi mundi hann þeim fyrst nökkura miskun veita; aldregi mat hann fjár lækníng sína. Við mörgum mönnum vanheilum ok fèlausum tók hann, þeim er þrotráða vóru, ok hafði með sèr á sínum kostnaði þangat til er þeir vóru heilir. Fyrir því væntum vær, at Kristr mun kauplaust veitt hafa Rafni með sèr andliga lækníng á dauðdegi

1) *A* 2; skúfs, *A* 1. 2) Njálsdóttir, *B*.
3) getg.; Keldælir, *A* 1. 4) *B*; Hraunsvenar, *A* 1.

hans. Eigi at eins græddi Rafn þá menn, er særðir vóru eggbitnum sárum, heldr græddi hann mörg kynjamein, þau sem menn vissu eigi hvers háttar vóru. Þorgils hèt maðr, er hafði meinsemi þá, at allr líkamr hans þrútnaði, bæði höfut hans ok búkr, hendr ok fætr. Hann kom á fund Rafns á förnum veg á einum gistíngarstað, þeim er Rafn hafði, ok bað hann lækníngar, en Rafn brendi hann marga díla, bæði í kross fyrir brjósti ok í höfði ok í meðal herða. En hálfum mánaði síðarr var allr þroti or hans hörundi, svo at hann varð alheill. — Kona sú kom á fund Rafns, er mikit hugarvolað hafði, hon grèt löngum, ok var svo brjóstþúngt, at nær hèlt henni til örvin[g]lunar. Rafn tók henni æðablóð í hendi, í æði þeirri, er hann kallaði þjótandi; en þegar eptir þat varð hon heil. — Þorgils hèt maðr, er tók vitfirríng; hann var svo sterkr, at margir karlar urðu at halda honum. Síðan kom Rafn til hans, ok brendi hann í höfði díla nakkvara, ok tók hann þegar vit sitt; litlu síðarr varð hann heill. — Í sveit Rafns varð maðr þrotráða, er hèt Marteinn ok var Brandsson; hann hafði steinsótt, svo at því mátti hann eigi þurft sækja, er steinninn fèll fyrir getnaðarliðu[1] hans. Síðan tók Rafn við honum, ok hafði hann með sèr lengi, ok lètti hans meini með mikilli íþrótt; ok svo sótti meinit at honum, at hann varð banvænn, ok lá bólginn sem naut, ok þá heimti Rafn til sín presta sína, ok þá menn er vitrastir vóru með honum, ok spurði, hvort þeim þótti sjá maðr fram kominn fyrir vanmegnis sakir, en allir sögðu, at þeim þótti hann ráðinn til bana, nema atgerðir væri hafðar; en Rafn sagði, at hann mundi til taka með guðs forsjá ok þeirra atkvæði. Ok þá fór hann höndum um hann, ok kendi steinsins í kviðinum, ok færði hann fra[m] í getnaðarliðinn[2] svo sem hann mátti, ok batt síðan fyrir ofan með hörþræði, svo at eigi skyldi upp þoka steininn, ok öðrum þræði batt hann fyrir framan steininn; ok þá bað hann, at allir skyldu sýngja V *pater noster* þeir er inni vóru, áðr hann veitti atgeyrðina. Ok síðan skar hann um endilangt með knífi, ok tók í brott tvo steina; síðan batt hann viðsmjör við sárit, ok græddi hann svo at hann varð heill. Torvelt er at tína öll ágæti íþróttligrar[3] lækníngar hans, þeirrar er guð gaf honum. En fyrir því

1-2) limu — liminn, *B*. 3) þann. *A* 2.

má slíkt eigi undarligt sýnast, at guði eru engir hlutir ómáttugir, ok af guði er öll sönn lækníng svo sem Páll postuli segir: *alii gratia sanitatum in eodem spiritu;* þat er svo at skilja: sumum mönnum er gefin miskun heilags anda. Mörgum mönnum veitti Rafn smíðir sínar ok aldrei mat hann þær fjár. Bæ [sinn á Eyri bygði hann vel, ok geyrði þar mörg hús ok stór[1], ok marga aðra bæjarbót, þá er mikil merki má á sjá.

5. Markús hèt maðr, hann var Gíslason, Þórðarsonar, Úlfssonar; Guðríðr hèt móðir Markúss, hon var Steingrímsdóttir. Íngibjörg hèt kona Markúss, hon var dóttir Odds af Söndum or Dýrafirði. Þau Markús ok Íngibjörg [fluttu sik af Söndum í Dýrafirði ok til Saurbæjar á Rauðasandi, ok bjoggu þar[2] ok áttu tvo sonu ok eina dóttur, svo at or barnæsku kæmist. Gísli hèt son þeirra enn ellri, en Magnús enn ýngri, en Hallbera dóttir. Loptr hèt son Markúss, hann var laungetinn; Ragneiðr hèt móðir hans, hon var Bjarnardóttir. Markús var búþegn góðr ok mikill atferðarmaðr. Hann fór utan ok lèt höggva í Noregi kirkjuvið góðan; síðan fór hann út híngat ok kom í Austfjörðu [í Gautavík[3], ok gaf kirkjuviðinn allan Sigmundi Ormssyni; sú kirkja stendr nú austr á Valþjófsstöðum. Sigmundr var þá mestr höfðíngi í Austfjörðum. Síðan fór Markús vestr á Rauðasand til bús síns, ok bjó þar lengi síðan í góðri virðíngu. Markús var eigi goðorðsmaðr, ok var þó með öllu ríkr í hèraði sínu. Svo lèt hann bæ sinn húsa stórkostliga, at hans bær var svo húsaðr sem þeir er bezt vóru húsaðir í Vestfjörðum. Síðan andaðist Íngibjörg, kona Markúss, ok eptir hennar andlát fór Markús í brott af landi, ok lèt höggva í Noregi kirkjuvið góðan; hann fór suðr til Róms, ok er hann fór sunnan frá Róm keypti hann klokkur góðar í Englandi ok hafði þær með sèr í Noreg; síðan fór hann til Íslands með kirkjuviðinn ok klukkurnar; ok er hann kom út híngat, lèt hann geyra kirkju göfugliga á Rauðasandi ok til þeirrar kirkju gaf hann klukkurnar, ok Ólafsskrín, er hann hafði út haft. Sú kirkja var síðan vígð guði almátkum ok heilagri Maríu drotníngu. Eptir andlát Íngibjargar var Markús óglaðr löngum, af hugtrega þeim er hann hafði af hennar andláti.

---

1) *B*; [ þann er hann bjó á bætti hann at mörgu, hús stórlig, *A*.
2) *B*; [ bjoggu í Saurbæ á Rauðasandi, *A*. 3) [ b. v. *B*.

6. Maðr hèt Íngi, hann var Magnússon, hann bjó í Patreksfirði, á þeim bæ er hèt at Hvalskeri. Íngi var mikill maðr vexti ok ljótr, grályndr ok gárfenginn. Á þeim bæ er Íngi bjó var bænahús; þat lá undir þá kirkju er á Rauðasandi var. En þat var boð hins heilaga þorláks biskups, at hvergi skyldi bænahús niðr falla þar sem áðr vóru; ok ef bænahús hreyrnaði eðr fèlli niðr, þá skyldi af tóptinni gjalda vj aura til graptarkirkju þeirrar, er bænahúsit lá undir. Á þeim bæ er Íngi bjó fèll bænahús ofan, en þat hús lèt Íngi eigi uppgeyra, ok eigi vildi hann gjalda af tóptinni. þat fè heimti Markús at Ínga, en hann galt eigi fèit; þaðan af óx óþykt með þeim Markús[i] ok Ínga. Guðlaugr hèt maðr, hann var Valentinu[s]son, hann bjó á bæ þeim er hèt at Stökkum[1]; Jólinn[2] hèt systir Guðlaugs, hana átti Íngi. þat var eitt haust, þá er sauðir vóru reknir saman í rètt at Rauðasandi, at Markús lèt draga sauði sína í hús til skurðar; þá kvómu þeir Guðlaugr ok Íngi til rèttarinnar. þeir fengu til mann, þann er þormóðr hèt, at draga sauð þann er Íngi átti til sauða Markúss, þeirra er til skurðar vóru dregnir, því at þeir vildu gefa Markúsi gagnsök í móti fjárheimtu þeirri, er hann heimti bænhústollinn at Ínga. Síðan skildust menn at rèttinni[3]. En um morgininn eptir fèkk Markús menn til at skera sauði þá, er inn vóru dregnir. En er húskarlar Markúss vóru at slátra, þá sendu þeir Íngi mann til fundar við þá, at vita, hvort þeir hefði skorit sauðinn, þann er Íngi hafði látið draga til sauða Markúss, en þeir Markús vissu enga von til, at Íngi átti þar sauð inni með sauðum Markúss. þá höfðu húskarlar Markúss skorit sauðinn. En þá er sendimaðr Ínga kom þangat til, er þeir slátruðu, þá heilsuðu þeir honum, en hann tók kveðju þeirra. Hann tók upp höfut sauða þeirra er þeir höfðu skorit, ok finnr þar höfut þat er mark Ínga var á; en þeir svöruðu, ok kvóðust eigi vitað hafa, at með því marki hefði verit. Sendimaðr Ínga fór í brott ok kemr á fund þeirra Guðlaugs, ok segir at húskarlar Markúss hefði skorit geldíng er Íngi átti. Nú er Markús varð þess varr, at húskarlar hans hefði skorit sauð þann er Íngi átti, þá sendi hann mann til fundar við þá Ínga ok Guðlaug, ok bauð at gjalda fè fyrir sauð

1) *A* 2, *B*; Stauðum, *A* 1.
2) *A* 2-3; rolinn, *A* 1; Jórun, *B*. 3) rèttinum, *B*.

þann, vaðmál, eðr sauð þann annan, er þeir vildi, ef þeim þætti sèr þat betr koma at hafa heldr en slátr þess sauðar er skorinn var. Þeir svöruðu, ok kvóðust ekki vilja þat þiggja er Markús bauð; þeir sögðu þessa sök búna vera á hendr Markúsi um sauðaskurð, á mót þeirri sök er hann hafði á höndum Ínga um bænahústoll. Ok síðan drógu þeir glott at ok mikit skaup, at Markús mundi eigi allt rèttiliga fá til bús síns, ok höfðu mörg heimslig orð um þetta mál. Nú við [þessi slög[1] þeirra ok illt orðalag þá reiddist Markús mjök, ok kvazt eigi lengi mundu nenna at sitja[2] sèr minnum mönnum slíkan ósóma er þeir tóku upp.

7. Þá er þessi mál hófust þá dreymdi þann mann draum er Guðbrandr hèt, Gestsson. Hann dreymdi þat, at honum þótti maðr koma at sèr, mikill ok svartr ok illiligr. Hann þóttist spyrja hvat manna hann væri. Sá svaraði ok kvað vísu:

Líðr gott sumar gróðrar,
gandrekr[3] þrumir landa,
heimr er í hæstum blóma
[hirtr, nú er ráð at birtast[4]:
mjök er gráliga[5] glýjaðr,
gapir hann á sjót manna,
ólmr und ægishjálmi,
Íngúlfr kominn híngat.

Þann draum hyggjum vær verit hafa fyrir þeim ófriði, er á Rauðasandi var[ð]; en fyrir því at lítið er nef vort[6] en breiðar fjaðrar, þá óx óþykt með þeim Markúsi ok Ínga, svo at eigi var óhætt. Markús var þíngmaðr Jóns Loptssonar Sæmundarsonar, en Íngi ok Guðlaugr vóru þíngmenn Rafns Sveinbjarnarsonar. Markús var frændi Rafns, manni firnari en systrúngr; Guðlaugr var ok skyldr Rafni nökkut. Þat var eitt haust, at Íngi fór á kynnisleit til Stakka til Guðlaugs, ok var þar nökkurar nætr. En er Íngi skyldi heim fara, þá ræðst Guðlaugr í ferð með honum. Í þeirri ferð vóru seynir Ínga, Arnórr ok Magnús. Ketill hèt maðr, Árni ok Þormóðr, er í þeirri ferð vóru. Þeir fóru um tún í Saurbæ. Ok er þeir vóru komnir

1) [ *B*; þessa slægð, *A*. 2) b. v. *B*, *A* 2-3.
3) *A* 2-3 (gandreckr); gandreiþr, *A* 1.
4) getg. [ birtr — hirtast, *A*. 5) *B*; grimmliga, *A*. 6) *B*; vor, *A*.

í túngarð, þá kom kona nökkur í stofu, sú er úti hafði verit, ok mælti: „Nú fara þeir Íngi hèr í tún". Karlar vóru at skinnleik margir, heimamenn Markúss. Loptr son hans var sjúkr, ok var hann því eigi at leiknum. Þeir Gísli ok Magnús vóru börn at aldri. Nú er Markús heyrir sagt, at þeir Íngi fara þar um tún, þá tók hann öxi í hönd sèr ok gekk út á hlaðit í móti þeim, ok hjó þegar til Ínga, ok kom höggit [framan í enni[1] honum, ok varð þat sár ekki mikit, því at Íngi hjó í móti til Markúss ok hjó í sundr viðbeinat ok þar á hol, ok litlu síðarr dó Markús. Ok er hann var fallinn[2] þá kvómu húskarlar hans út. Maðr hèt Sigurðr Þórðarson, ok var hann húskarl Markúss, ok er hann sá hann veginn, þá hjó hann til förunauts Ínga, þess er Ketill hèt; hann fèll við höggit ok dó þegar. Ok er Ketill var veginn, þá hjó Sigurðr þegar til Guðlaugs, ok veitti honum sár mikit; þá var Sigurði haldit. Var þá sögð Lopti tíðindin, þar sem hann lá sjúkr, at faðir hans var veginn. Þá reis hann upp þegar ok tók spjót í hönd sèr, ok gekk út, ok lagði til Guðlaugs ok veitti honum sár mikit, ok var Loptr þá tekinn ok haldinn. Maðr hèt Bárðr, hann var son Íngólfs Bárðar sonar ens svarta; hann var vinr Markúss ok frændi, sviðr maðr ok góðgjarn; hann beiddi Lopt griða fyrir hönd þeirra Guðlaugs ok Ínga, sagði þá báða sára; kvað þá til einskis vera at vinna á þeim, en förunautr þeirra einn veginn; kvað annat vera hjálpvænligt Markúsi föður hans en þá væri fleiri menn vegnir at sinni. Ok af þessum orðum Bárðar vóru grið sett meðal manna, ok síðan fór Íngi ok hans fèlagar í brott. Þessir atburðir urðu tveim nóttum eptir allraheilagramessu; svo bar ártíð Markúss ok Ketils. Síðan var lýst vígi Markúss. Árni Surtsson förunautr Ínga lèt sem hann skyldi óhelga Markús. Þormóðr sá er skotið hafði sauðnum til sauða Markúss, færði Lopti höfut sitt um vetrinn eptir víg Markúss, en Loptr mælti, at hann skyldi sjálfr ráða fyrir höfði sínu. Um þat var kveðin vísa:

Hvotvetna grèt, | þó hefir hæra[3]
hefik þat fregit, | þá er höfut færði
býsn þótti þat, | Þormóðr þotið,
Baldr or helju: | þat er ólogit.

---

1) [ á hönd, *B*. 2) hèr byrjar aptr 557. 3) getg.; hota, *A* 1.

Of vorit næsta eptir víg Markúss var áttr sáttarfundr of þessi málaefni, sá fundr var á Barðaströnd, á þeim bæ er at Haukabergi heitir; fyrir þeim fundi rèð Rafn Sveinbjarnarson ok Jón prestr Brandsson ok Krákr Þórarinsson, Steinólfr prestr Ljótsson. Jón Brandsson var vinr mikill Lopts Markússonar, ok því bað hann Rafn til at handsala fyrir Ínga ok Guðlaug þíngmenn sína, eðr fá menn til handsala. Gellir hèt maðr Steinsson ok Jóreiðar Þórólfsdóttur; Gellir átti Vigdísi Sturludóttur, en Jón Brandsson átti Steinunni Sturludóttur, en þó var sínumegin hvorr þeirra at þessu máli, því at Gellir hafði tekizt á hendr Ínga ok varðveitt hann á laun á bæ sínum. Gellir var hávaðamaðr mikill ok heitramr. En þá er Gellir vissi fund þenna, samnaði hann liði, ok fór með feylmenni til þessa fundar, ok hafði með sèr í för Árna, er óhelgat hafði Markús. Þeir fóru með mikilli gemsan. Ok er þeir vóru á för komnir, þá sagði Gellir sik fleirum mönnum andvígan en einum. Um þat var kveðin sjá vísa:

Verða nadda nirðir,
nú emk út kominn, lúta;
„Víst mun ek fimm et fæsta[1]
fella menn", kvað Gellir[2].

Ok er þeir kvómu til fundarins þá var Lopti mjök óþokkat um þeirra gems, því skaut hann spjóti í flokk Gellis. Af því spjóti fèkk sá maðr sár er Hólmsteinn[3] hèt; hann fèll við skotið ok varð lítt sárr; ok síðan hljóp förunautr Lopts, sá er Óttarr hèt, ok hjó í flokk Gellis, en maðr vildi stöðva höggit, sá er Örnólfr hèt, hann var húskarl Steinólfs prests; en Óttarr hjó Örnólf banahögg, ok síðan vóru margir menn særðir förunautar Gellis. Síðan beiddu góðgjarnir menn griða; ok af því at margir góðir menn ok vitrir vóru við staddir, þá var sæzt á þessi mál þeirra í millum. Um víg Örnólfs ok áverka er þar geyrðist skipuðu þeir Rafn ok Jón Brandsson. Á þeim fundi var Eilífr Snorrason; hann kvað þá vísu þessa:

---

1) *B*; flesta, *A*. 2) í *B* er þessi vísa þannig:

Þótt vær sjö eðr átta
andvinnir nú finnum[st]
reyndr at ríð ek ei undan
raglystr nú hinn fysti.

Hitt man ráð, kvað rèttinn,
raunsljófir sik prófi;
víst mun ek o. s. frv.

3) Hálfdan, *B*.

Strendir hvöttu vápn vond,
víða ferr [ygs-lið[1],
Gellir vissi fyrir fall,
flatir skriðust[2] menn at;

Lopti var sú gefin gipt
grjóti mætti hans spjót;
Jón leyfði ok þá
öldum at lita skjöld.

Á þeim fundi var sæzt á víg Markúss ok víg Ketils ok áverka alla þá er þar geyrðust á þeim fundi. Jón Loptsson skyldi geyra slíka fèsekt, sem hann vildi gert hafa. Þau fègjöld handsöluðu þeir Rafn ok Krákr Þórarinsson, Helgi bróðir Guðlaugs, Páll Surtsson bróðir Árna. Þat var ok skilit undir sætt, at Íngi skyldi fara braut af landi ok koma aldregi aptr. Guðlaugr ok synir Ínga skyldu fara í brott or Vestfirðíngafjórðúngi ok verða þar aldrei síðan vistum. Árni Surtsson var ok hèraðssekr um Barðaströnd ok Rauðasand, um Víkr ok Patrexfjörð. Ok um sumarit eptir á alþíngi geyrði Jón Loptsson um þessi mál svo sem ætlat hafði verit. Þau fè öll sem geyr vóru guldust at máldögum. Íngi fór í brott af landi ok kom aldrei aptr síðan. Guðlaugr ok synir Ínga fóru í brott or Vestfjörðum. Loptr gaf mörgum mönnum sakir, þeim er verit höfðu vinir Ínga, ok tók fè af. Árni Surtsson var síðan í Tálknafirði. Þá var þat mælt af nökkurum mönnum fyrir Lopti, at Árni væri ills verðr af honum fyrir þat er hann hafði óhelgat föður hans. Nökkurum misserum eptir víg Markúss fór Loptr, ok sá maðr með honum, er Galti hèt, í Tálknafjörð, á þann bæ er í Krossadal hèt; þeir hitta þar heimamenn ok spyrja hvar Árni sè, en þeim var sagt, at hann var eigi heima. Þá fóru þeir í Selárdal, ok vóru þar nökkurar nætr. En er þeir fóru heim, þá fundu [þeir] Árna á götu, ok hjó Loptr þegar til Árna, en hann bar af sèr höggit; síðan sótti Loptr at honum, en hann varðist vel; ok er Galta þótti Lopti seint sækjast, þá fór hann til ok vann á Árna, ok síðan vógu þeir hann. Þat víg varð enn næsta dag eptir Ólafsmessu. Þat víg mæltist illa fyrir, því at fè öll höfðu goldin verit fyrir Árna, ok hann hafði sætt þá[3], er geyr hafði verit á hendr honum, vel haldit við Lopt. Síðan bætti Loptr frændum Árna fè, sem geyrt var á hendr honum af þeim mönnum er til geyrðar vóru teknir. Loptr bjó nökkura vetr á Rauðasandi síðan, ok varðveitti bú bræðra sinna, til þess er þeir höfðu aldr til at taka við fjárvarðveizlu sinni.

---

1) *B*; [ hyezt lið, *A*. 2) *A* 2-3. 3) ueþa, b. v. *A* 1.

8. Maðr hèt Snorri, hann var Þórðarson, Þorvaldssonar, [Kjartanssonar[1], Ásgeirssonar, Knattarsonar. Sigríðr hèt móðir Snorra, dóttir Hafliða Mássonar. Snorri var höfðíngi mikill, ríkr ok fjölmennr, vitr ok stórráðr. Snorri bjó í Ísafirði, á þeim bæ er í Vatnsfirði heitir. Snorri var lítill maðr vexti ok vænn at yfirliti ok vel vaxinn; hann átti mart barna ok vóru[2] engi skírgetin. Hafliði hèt son hans, hann var vitr maðr ok vinsæll, ok mikill umbótarmaðr, bæði með föður sínum ok öðrum, þeim sem hans ráð vildu hafa, því at Snorri þótti eigi í öllum stöðum jafnaðarmaðr vera; en sá ójafnaðr gekk aldri við ef Hafliði var nær, fyrir gæzku sakir hans ok rèttlæti; af því var hann vinsæll við alla menn, at hann vildi öllum gott. Þat var einusinni, at einn vinr Snorra ræddi fyrir honum um vinsældir Hafliða, ok tjáði þat, hversu gott höfðíngjaefni hann var. Snorri svarar: „Engar nytjar munu menn hafa Hafliða, því at hann er miklu betr [at sèr[3] um alla hluti en ek sè verðr at njóta hans; mun hann verða skammlífr, en þau börn mín munu lengr lifa, er mönnum [man] minna gagn at verða, ok munu þar [mín at því[4] gjalda; uggir mik, at menn munu meir hafa harm en huggan af minni kynslóð". Þetta mælti Snorri með mikilli áhyggju ok trúnaði fyrir sínum vin, ok sýndist mönnum síðan sem hann hefði þetta mælt af nökkurum spakleik, því at litlu síðarr rèðst Hafliði til skips ok fór í brott af landi, en þat skip týndist í hafi, ok öll skipshöfn sú er þar var á. Síðan tók Snorri sótt ok andaðist tveim nóttum eptir Mikielsmessu. En eptir andlát Snorra tóku synir hans við staðfestu ok fjárhlut, Þórðr ok Þorvaldr. Bárðr bróðir þeirra var þá barn at aldri. Þórðr var mikill vexti ok liðligr, en Þorvaldr var lítill maðr ok fráligr; ok brátt er þeir höfðu við fjárhlut tekit urðu þeir eigi ásáttir um fè. Þá fór Þorvaldr í Vigr um vetrinn eptir andlát Snorra, ok var þar til vors. Maðr hèt Sveinn, ok var Þórólfsson, hann var kvongaðr maðr ok hèt Þóra kona hans, hon var Bárðardóttir, Snorrasonar, Bárðar[sonar] ens svarta. Móðir Þóru hèt Jóreiðr, hon var Oddleifsdóttir; Jóreiðr var móðir Þorvalds Snorrasonar. Sveinn var hávaðamaðr mikill ok ódæll; hann geyrðist fylgðarmaðr Þorvalds ok var í eynni

---

1) [ b. v. eptir *St.* 2, 6; sbr. Landn. 3, 5.
2) hèr v. 6 blöð í 557. 3) [ b. v. *B.* 4) [ at mín þí, *A* 1.

Vigr með Þorvaldi. Jórunn hèt dóttir Snorra, hon var Jóreiðar dóttir, systir Þóru konu Sveins. Þat mæltu sumir menn, at Sveinn legði á hana þokka. En er Þórðr Snorrason frá þaðan orðróm, þá lagði hann óþokka á Svein fyrir all[t]saman, orðlag þat er á var með þeim Jórunni, ok hávaða þann ok óspekt, er hann hafði. Þórðr Snorrason var eigi sammæddr við Þorvald: Steinunn hèt móðir hans, Íngjaldsdóttir. Um vorit eptir andlát Snorra áttu þeir Þórðr ok Þorvaldr fund í Vatnsfirði, at skilja með sèr hvorr hafa skyldi staðfestu eðr goðorð; til þess fundar kom Sveinn með Þorvaldi; ok er Þórðr vissi þat, at hann var þar kominn, þá rèð hann til mann at vinna á Sveini, sá hèt Gísli; hann hjó á hönd honum upp við öxl. Þá hjó sá maðr, er Guðmundr hèt, Gísla banahögg. Búi hèt húskarl Þórðar, hann hjó til Guðmundar, af því sári fèkk hann bana. Nú eptir þenna atburð hafði Þórðr staðfestu í Vatnsfirði ok mannforráð. Þorvaldr var þá staðfestulauss nökkura vetr. Sveinn var færðr til lækníngar þeim manni er Þorbjörn hèt, ok varð eigi græddr fyrr en Rafn græddi hann. Síðan fór Sveinn í brott af landi, ok geyrði bú á Hálogalandi, ok kom eigi síðan til Íslands.

9. Magnús hèt prestr, hann var Þórðarson, Þórissonar, er kallaðr var Tolla-Þórir[1]. Magnús geyrði eptir Jórunni Snorradóttur til Ísafjarðar, ok hafði hana með sèr í Dýrafjörð, á Mýrar; þar bjó sá maðr er Mögr hèt, hann var Mögsson, en Magnús var þar heimaprestr með honum. Bergþórr hèt maðr [Sámsson, Brandssonar[2], hann hafði nökkvot verit fyrr í tíðleikum við Jórunni, ok er hann frá, at Magnús prestr hafði eptir henni geyrt, þá fór hann til Dýrafjarðar ok ætlaði at hafa Jórunni brott með sèr. En fyrr en Bergþórr kvæmi á Mýrar, þá var Magnúsi sögð för hans ok fyrirætlan. Þá lèt Magnús prestr flytja Jórunni á þann bæ, er at Gnúpi heitir, ok var hon þar varðveitt á laun, meðan Bergþórr var þar í hèraðinu. At Gnúpi bjó kona sú er Sigríðr hèt, hon var Þórðardóttir, hon var góð húsfreyja ok fengsöm. Bergþórr kom á Mýrar ok var þar við honum vel tekit. Þar var hann nætr nökkurar ok gat eigi upp spurt Jórunni. Magnús var við Bergþór allkátr, ok gaf honum

---

1) Þórðr, *B.* 2) [ Jónsson Knútssonar, *B.*

hund, er hann fór á brott. Bergþórr fór heimleiðis ok var Jórunn eigi í ferð með honum. Þá kvað Magnús vísu þessa:

Sitr fimlikt fljóð, en höfðu heim
fram greiði ek ljóð, þat er hæfði þeim:
vex greppi sút, var hundr í för
at Gnúpi út; með hjálma bör.

Ok er Bergþórr frá þetta, at Magnús hafði kveðit vísu, hafði hann tygilig[1] orð um, at eigi mundi svo búit sjatna; en þau orð spyrr Magnús prestr ok kvað vísu:

Margr mundi sá sendir
sókngífrs numinn[2] lífi
linnavangs fyr löngu
lundr, er nú rekr undan:
ef brynhríðar bæði
biti [tygilig skitja[3],
niðr drepr skáld und skildi
skeggi, mál sem eggjar.

Ok eptir þat er þessar vísur vóru kveðnar þá sömnuðu þeir Þorvaldr ok Bergþórr liði, ok geyra til Magnúss. Ok er hann spyrr þetta, ferr hann á fjall þat er Sölólfsfell[4] heitir, ok þar eru þau í einum helli, meðan þeir Þorvaldr vóru í firðinum; rannsökuðu þeir víða bæi, ok leituðu þeirra Magnúss, ok fóru við þat á braut af hèraði, at þeir fundu þau eigi. Ok eptir þat sneyrist Jórunn í karlaföt, ok fór með Magnúsi presti suðr á Eyrar á laun, ok eptir þat af landi á braut. Ok er þau kómu í Noreg geyrði hann boð til hennar, at ráði Erlends múgamanns; hann var hirðmaðr Sverris konúngs ok frændi Jórunnar. Magnús var lengi í Noregi, ok gat mart barna við Jórunni.

Kali hèt maðr, hann var Halldórsson, hann átti Íngiríði Snorradóttur; hon fíflðist frá Kala at þeim manni er Ljótr hèt, hann var son Sela-Eireks. Ok er þeir Þorvaldr ok Kali urðu þess varir, þá geyrðu þeir sát fyrir Ljóti, ok sá enn þriði maðr, er Þórðr hèt, ok var Kalason[5]; ok er þeir fundu Ljót, sóttu þeir hann þrír með vopnum, en hann varðist svo vel, at þeir

---

1) rygilig, *B*. 2) *B*; muni, *A*.
3) [ tygiligs kytia, *A* 1; skytja, *A* 2; skya, *B*.
4) Sauðólfsfell, *B*. 5) *B*; Kolason, *A*.

gátu hann seint sóttan. Þá eggjaði Kali Þorvald[1] at hann skyldi sækja at djarfliga, ok sagði klæki vera at þeir fengi eigi einn mann sóttan. Svo lauk þeirra fundi, at þeir vógu Ljót. Um þat víg orti Eilífr vísu:

Kali bauð kjark at selja
kaldráðum Þorvaldi,
nýti ek Fjölnis flýti-
feng, en til var engi;
[Þórðr manat virðum virðast[2],
vann á dauðum manni,
áðr sló á hodda hlæði
hvikan, með spjót it mikla.

Eptir þessa atburði fór Þorvaldr til fundar við Rafn, ok skoraði á hann til viðtöku, því at hann var þá fèlauss ok ráðstafalauss, en Rafn var góðr viðtakna við mönnum ok skyldr at frændsemi Þorvaldi, manni firnari en næstabræðri[3]. Rafn tók við Þorvaldi vel, ok hafði með sèr nökkura vetr, [ok] var til hans sem hann væri hans son eða bróðir.

10. Ragneiðr hèt kona, dóttir Arons Bárðarsonar ens svarta, bræðrúnga Rafns; hon var vitr kona ok spök; hana hafði átta Ámundi Úlfsson. Þau Ragneiðr ok Ámundi höfðu átt fjórar dætr, þær er or barnæsku kvæmist. Tófa hèt dóttir þeirra ok Margrèt, Hallbera ok Birna. Ámundi andaðist, ok eptir andlát hans var Ragneiðr gefin þeim manni er Þórarinn hèt [Þorkelsson[4], Þórarinsson[ar], Auðunnar[sonar], Þorsteins[sonar]][5], Auðunnar[sonar] af Auðunnarstöðum[6], Ásgeirssonar frá Ásgeirsá. Þau Ragneiðr ok Þórarinn áttu iiij sonu ok ij dætr: Krákr hèt son þeirra, er fyrr var getið; Eyvindr hèt son þeirra, ok Tómas, ok Halldórr. Guðfinna hèt dóttir þeirra, ok Guðrún. Ragneiðr geyrði bú xv[7] vetra gömul, ok bjó til elli góðu búi, ok var hvers manns gagn, þess er hana sótti heim. Þórarinn andaðist fyrr en Ragneiðr, ok eptir andlát hans bjó hon lengi í Selárdal. Nú er Þorvaldr var kominn til vistar með Rafni,

---

1) *B*; Þorvaldr, *A*. 2) [ þat mun vondum virðast, *B*.
3) það er: Þórðr Oddleifsson - Steinunn - Rafn, og Jóreiðr Oddleifsd. - Þorvaldr (sjá *St*. 2, 5-6).
4) [ b. v. *B* (sbr. *St*. 2, 5). 5) Auðunnars. Þorsteinss., v. í *B*.
6) leiðr.; Auðunnarvöllum, *A*, *B*. 7) xij, *B*.

þá fór Rafn í Selárdal, ok varð þeim Rafni ok Ragneiði rætt til þorvalds, ok bað Rafn, at hon skyldi leggja góðan hug á þorvald. Ragneiðr segir: „enga stund mun ek á hann leggja, því at ek ætla, at þú hafir þar úlf at fæða, er hann er". Rafn svarar: „eigi veit ek hví þú mælir svo, því at mèr sýnist fáir mínir frændr þvílíkir". Ragneiðr svarar: „þat ætla ek, at eigi muni langt líða, áðr þèr mun þorvaldr engi gersemi sýnast; geyra máttu svo vel til þorvalds sem þú vill, en eigi væntir mik, at þèr verði gagn nè virðíng at honum". þessi orð Ragneiðar sýnast mönnum verit hafa af mikilli forspá, af þeim atburðum er síðan geyrðust með þeim Rafni ok þorvaldi. þorvaldr var með Rafni nökkura vetr, ok eptir þat fýstist þorvaldr at fara af landi. þá fèkk Rafn þorvaldi vöru nökkura, vistir ok vatnkeyruld, ok húðfat ok reykjuklæði ok alklæðnat, ok tók honum fari á skipi því er uppi stóð í Dögurðarnesi. — þórðr Snorrason átti bú gott ok gagnauðigt í Vatnsfirði, svo at hann var hvers manns gagn, þess er til sótti. En fyrir því at hallæri var á landi hèr, þá fór þórðr á vorum til fiskjar með mikit skip ok húskarla sína í Bolúngarvík, af því at hann þóttist þá fleirum mönnum mega gagn geyra. þat vor, er þorvaldr var ráðinn til utanferðar, var þórðr róinn á fiski, ok geyrði at þeim vont veðr, svo at þeir gátu nauðiliga land tekit. þórðr var ern maðr ok kappsfullr, ok liðgóðr at öllu. Ok er þeir kvómu at landi, þá var þórðr þreyttr af mæði ok þyrstr, þeim munum meirr en förunautar hans, sem hann hafði liðbetri verit ok miðr hlíft sèr. Ok er hann kom at landi, þá drakk hann or læk nökkurum; ok er hann hafði drukkit þá kendi hann sèr sóttar, ok sú sótt leiddi hann til bana. þórðr var mörgum mönnum harmdauði fyrir vinsældar sakir hans ok drengskapar. Ok er þorvaldr frá andlát þórðar, þá seldi hann goðorð ok manna forráð, þat er þórðr hafði átt, í hendr Rafni meðan hann væri utan. Ok síðan [fór hann[1] í brott af landi ok var utan einn[2] vetr. Ok er hann kom heim út híngat, kvongaðist hann, ok fèkk þeirrar konu er Kolfinna hèt; hon var dóttir Einars þorgilssonar ok Salbjargar[3] Ketilsdóttur; ok síðan geyrði hann bú í Vatnsfirði, ok tók þá við goðorði sínu.

11. Sá atburðr gjörðist norðr at Hólum at biskupsstóli,

---

1) [ *B*; er hann fór, *A*. 2) iij, *B*. 3) *B*, *A* 2-3; Sialbjargar, *A* 1.

at Brandr biskup tók sótt ok andaðist fjórum nóttum fyrir Laurentiusmessu; ok er hann var andaðr, þá var keyrinn til biskups af Norðlendíngum Guðmundr, son Ara Þorgeirssonar, Halla[sonar], Orms[sonar], Gellis[sonar], Orms[sonar], Halla-[sonar] ens hvíta. Móðir Guðmundar hèt Úlfeiðr Gunnarsdóttir. Ok er hann var keyrinn til biskups, þá sendi hann orð Rafni Sveinbjarnarsyni, at hann skyldi koma á fund hans norðr í Miðfjörð. Rafn fór á fund biskupsefnis, svo sem hann sendi orð til, ok er þeir fundust, þá bað biskupsefni, at hann skyldi fara utan með honum, því at honum þótti hann bezt til fallinn þeirrar ferðar fyrir vizku sakir, ok vinsældar er hann hafði utanlendis; var þar ok en mesta vinátta með þeim Rafni ok Guðmundi enum góða, ok því hèlt á meðan þeir lifðu báðir. Frá þessu sagði Guðmundr Svertíngsson[1].

Guðmundr bauð enn góði,
get ek jafnan þess, Rafni,
síð man at enda óðar,
útferð með sèr, lúta;
farar leizt[2] flotna stýri
[fallinn bezt enn snjalli[3]
geira veðrs til góðrar
gangnistir forvistu[4].

Ok fyrir því at Rafn var vinr Guðmundar, þá hèt hann honum förinni, ok eptir þat fór Rafn heim í Vestfjörðu. Ok um vorit eptir fór Rafn vestan or Fjörðum norðr til skips í Eyjafjörð, á fund Guðmundar biskupsefnis. Í þeirri för var með Rafni Tómas Þórarinsson, annarr maðr Þórðr Vermundarson, þriði Eyjólfr Snorrason. Biskupsefni varð feginn Rafni ok hans förunautum. Ok er skip var búit ok veðr gaf til, þá lètu þeir í haf. Þeim byrjaði erfiðliga um sumarit ok vóru lengi úti; rak þá suðr í haf, svo at þeir höfðu fogl af Írlandi.

*Hèr kemr bls. 483[23]—484[20], og þar næst bls. 562[7]—565[8].*

Allir vinir Rafns urðu honum fegnir er hann kom heim, en hann valdi sínum ástvinum, þeim er hann fundu, góðar gjafir. Svo segir Guðmundr:

---

1) *B*; svarti, *A*. 2) *B*; letz, *A*. 3) [ *B*; fallit bezt með öllu, *A*.
4) = flotna stýri (Guðmundi) leizt enn sn. geirav. gangn. (Rafn) bezt fallinn til góðrar forvistu farar.

Hverr gekk hyrjar þverrir
*hodda brjót*[1] at *móti*,
hríngs er heim kom slöngvir,
haukstrandar fagnandi;
en menfergi mörgum
mótrunnr frömum spjóta,
æ sè hann efri skýjum
ókvaldr, gjafar valdi.

Ok er Rafn hafði eigi lengi heima verit, þá fór hann í Vatnsfjörð at heimboði Þorvalds, ok þá af honum [stóðhross góð[2]. Þeir mæltu þá enn af nýju til vinfengis með sèr. Nökkuru síðarr fór Þorvaldr á Eyri at heimboði Rafns, ok þá af honum góðar gjafir, ok var þá vinfengi þeirra it bezta.

*12*[3]. Í Selárdal kom reyðarhvalr góðr ok mikill á land þat er Ragneiðr átti; ok er Þorvaldr frá þat, fór hann í Selárdal, ok bað Ragneiði, at hon skyldi selja honum nökkurar vættir hvals; en Ragneiðr lèt hann hafa xij vættir hvals, ok mælti, at hann skyldi gjalda henni jafnmikinn hval síðarr, þá er ræki á fjörur hans; fyrir þann hval galt Þorvaldr aldri síðan. Ok er hann fór á brott or Selárdal með hvalinn, gisti hann í *Lokinhömrum, ok er hann var þar um nótt*, þá var stolinn í brott sumr hvalrinn; sá stuldr reyndist á hendr þíngmanni Rafns, þeim er bjó á Slèttanesi. Ok er Rafn var[ð] þess varr, varð hann skjótr til, ok bauð honum at gjalda fyrir þíngmann sinn, slíkt fè sem Þorvaldr vildi geyrt hafa, fyrir hvaltökuna; en Þorvaldr vildi eigi þiggja at Rafni fèbætr. Ok litlu síðarr fór Þorvaldr ok rændi þann mann, er tekit hafði hvalinn, ok þaðan af tók Þorvaldr at ganga á hendr þíngmönnum Rafns at öðru hvoru.

Maðr hèt Haukr, er kallaðr var Víga-Haukr, sonr Orms Fornasonar, hann var norðlenzkr at ætt; hann kvongaðist vestr á Rauðasand, ok fèkk Hallberu dóttur Markúss Gíslasonar, ok fór þangat vistafari til Lopts. Þá er Gísli Markússon var fulltíða at aldri, þá beiddi hann Lopt at gjalda fè þau, er hann hafði at varðveita, er þeir Markússynir áttu, ok Loptr galt fèin af hendi svo sem Gísli beiddi, bæði lönd ok lausa aura. Nú

---

1) *B*; brjótz, *A*. 2) [ *B*; góð hross, *A*.
3) Af kapp. 12—19 er mestr þorri settr inn í Sturlúngu 4, 12—18.

er Loptr var staðfestulauss, þá fór hann norðr í Dýrafjörð á Mýrar, þar bjó [Mögr, er fyrr var getið[1]; hann var á gömlum aldri ok auðigr at fè; hann var þíngmaðr Rafns, ok átti hann mála á Mýra landi. Loptr keypti landit at Mög, svo at hann spurði ekki Rafn at, ok fór þangat búi sínu. Víga-Haukr rèzt þangat til fylgðar með Lopti á Mýrar. Nú er Rafn spurði, at Loptr var kominn á Mýrar búi sínu, þá mislíkaði Rafni við Lopt um landskaupit ok búgeyrð, því at Loptr var hávaðamaðr mikill ok ódæll, en þíngmenn Rafns vóru nábúar Lopts, ok hugðu eigi gott til; hafði Loptr ok nökkvat tygilig[2] orð við Rafn ok þíngmenn hans, kvezt eigi undir þykkja, hvort þeim þætti vel eðr illa hans bygð. Þá samnaði Rafn liði, ok fór á Mýrar með fjölmenni; þá kom þar Þorvaldr Snorrason með vj menn, ok bauð Rafni lið sitt, ok gekk í flokk Rafns. Síðan leituðu menn um sættir milli þeirra, en Loptr var tregr til sættar við Rafn. Þá fóru þeir Rafn til, ok veittu á brott læk þann, er inn fèll í húsin á Mýrum; ok er þeir höfðu þat geyrt, þá grunaði þá Lopt, at þeir mundu ætla at bera eld at húsum ok brenna bæinn. Þá tók Haukr at leita um sættir, ok þat varð at lyktum, at þeir sættust á þat, at Sighvatr Sturluson skyldi geyra á milli þeirra Rafns ok Lopts. Eptir þenna fund ýfðust þeir Loptr við Þorvald, fyrir þat er hann hafði geyrzt berr í liðveizlu við Rafn. Eptir þenna atburð gaf Rafn Þorvaldi góða breiðöxi, silfrrekna ok barskepta, áðr þeir skildust á Mýrum, ok mæltust þá enn vel við. Of sumarit eptir á alþíngi geyrði Víga-Haukr hlaupafar til Þorvalds, ok hjó milli herða honum, en Þorvaldr skeindist ekki, því at hann var í brynju. Þá hjó Haukr til förunauts Þorvalds, þess er Teitr hèt, ok var son Árna rauðskeggs; þat högg kom á hönd Teiti, á hreifann, ok var kallat ekki mikit sár, en höndin fèll síðan af honum í hreifanum, þá er Þorvaldr[3] Bjarnason skyldi græða hann. Á þau mál var þar þegar sætzt á þínginu; en þat kom upp síðan, at þeir Loptr ok Gísli höfðu verit í fjörráðum við Þorvald, ok þeir hefði heitið at halda upp fèbótum fyrir Hauk, ef hann hefði unnit á Þorvaldi. En er Loptr vissi, at Þorvaldr hafði ekki skeinzt, þá vildi hann eigi fèbótum upp halda, sem þeir

1) [ *B*; sá maðr er Mögr hèt, *A*.
2) *A*, *St*. (122 a.); rygilig, *B*, *St*.
3) Þorvarðr, *B*.

höfðu heitið; svo geyrði ok Gísli, en Hauki þóttu þeir eiga at efna mælt mál við sik, þar er hann hafði ráðit til þorvalds, þótt hann hefði eigi skeinzt; en því vildu þeir eigi fè gjalda, er þorvaldr hafði ekki skeinzt af tilræði Hauks. þá sýndist Lopti óvarlikt vera sèr at sitja í Dýrafirði fyrir ófriði þorvalds, ok fyrir því fór hann á brutt, brátt er menn kvómu af þíngi, suðr um land til Eyjólfs goða þorsteinssonar, mágs síns, föður Álfdísar konu hans, ok var þar um sumarit ok öndverðan vetrinn. þetta sumar fór þorvaldr vestr í Dýrafjörð til leiðar, at vitja fègjalda þeirra, er gjaldast skyldu fyrir Hauk, en fèin kvómu þar eigi fram. þá beiddi þorvaldr Rafn, at hann skyldi fara með honum á Mýrar, at ræna bú Lopts, fyrir þat er fègjöld kvómu eigi fram fyrir Hauk; en Rafn vildi eigi í þeirri för vera; kvezt veita mundu þorvaldi til laga, en eigi til ólaga; mælti, at þorvaldr skyldi sækja Lopt til laga eðr Gísla, um fjörráð eðr fjárhald, ok kvezt veita honum mundu til þess. Eptir þat fór þorvaldr á Mýrar ok rænti þar mörgu fè, ok lagði ámæli til við Rafn, er hann vildi eigi í þeirri för vera. Of þetta rán orti Heinrekr, þíngmaðr þorvalds, vísu þessa:

Rekk[ar] frá ek at ræki,
ráð er þat mikit dáða,
kynnist kappgirnd manna,
kýr tuttugu af Mýrum;
nú hefir hrunbirk[i]s hvárki
hlynr, veit ek á því skyn[ja]r,
illr mun kostr hans [kallaðr,
kýr nè[1] land á Mýrum.

Loptr kom eptir jólin vestr á Mýrar í Dýrafjörð, at ráði Sighvats [Sturlu]sonar ok Eyjólfs þorsteinssonar. Ok er þorvaldr frá, at Loptr var kominn á Mýrar, samnaði hann liði ok fór á Mýrar[2] með fjölmenni. Til þeirrar farar spurðu vinir Lopts, ok sömnuðu þeir liði ok kvómu á Mýrar þá er þorvaldr var kominn þar, ok leituðu um sáttir á milli þeirra þorvalds ok Lopts. Ok fyrir því, at þorvaldr sá at Loptr hafði þar fleiri fulltíngsmenn, þá sættist hann við Lopt, ok fór í brott síðan; ok er hann var í brottu treystist Loptr eigi at vera á Mýrum, því at honum þótti einskis örvænt fyrir þorvald[i] um tiltektir.

---

1) [ *A* 2; bialaðr, kycn, *A* 1. 2) Mýri, *A* 1.

Loptr fór þá til Rafns á Eyri, ok bað at hann skyldi taka við honum, kvað Sighvat hafa sent honum orð til ásjá við sik; en í þann tíð var Sighvatr mikill vinr Rafns. Nú fyrir því at Rafni var leitt at kveða nei við þeim er hans þurfti, þá varð þat, at hann tók við Lopti[1]. Um þat sannar Guðbrandr:

Betr [vill ægis[2] otra
opt, tók Rafn við Lopti,
raun sannar þat, rennir
ráðgjarn[3] hafa en aðrir.

Ok er Þorvaldr frá, at Rafn hafði tekit við Lopti, þá mislíkaði honum við Rafn sín tiltekja, fyrir óþyktar sakir þeirrar, er milli þeirra Lopts vóru. Eptir þat sendi Þorvaldr Rafni orð, at hann skyldi koma til fundar við hann í Dýrafirði, á þann bæ er á Granda hèt; þangat kom Rafn við enn þriðja mann, fyrr en Þorvaldr, ok beið hans inni. Ok er Þorvaldr kom, við marga menn, þá sendi hann orð Rafni, at hann skyldi út ganga. Þá gekk Rafn út, ok hans förunautar: Tómas Þórarinsson ok Sturla Bárðarson; þá höfðu þeir Þorvaldr skipazt fyrir dyrnar, ok geyrðu kví at Rafni ok förunautum hans, en Þorvaldr stóð stund frá durunum ok hafði sverð í hendi ok brugðit á miðjar slíðrar, ok Rafn hvarf til hans, en Þorvaldr tók kveðju hans, ok síðan settust þeir niðr ok hjöluðu, ok varð Þorvaldi ekki at orðum við Rafn, ok þat þótti Rafni undarlikt, ok eigi sá Rafn eyrendi Þorvalds við sik í því sinni. Af þeim fundi fór hvorr þeirra til síns heimilis. Loptr keypti síðan bæ þann á Rauðasandi, er at Stök[k]um hèt, ok geyrði þar bú á. Þat ætluðu margir menn, at Eyjólfr Þorsteinsson, mágr Lopts, mundi rètta hluta hans, ok þeir Sunnlendíngar, fyrir þíngvistar sakir, um ránit við Þorvald, en þat varð ekki. Þá var kveðin vísa þessi.

Víst eru farnir flestir
fálu hests it mesta
þótt lýðir böl bíði
bræðendr at harðræðum[4];
menn eru seinir[5] sunnan,
slíkt heyri ek opt, með Lopti

---

1) ok þótti þar verða mikill manna munr með þeim, b. v. *B.*
2) [ leiðr., uillegs, *A.* 3) getg.; rausgjarn, *A.*
4) *A* 2; harðendum, *A* 1, *B.* 5) *B*; sumir, *A.*

stála[1] strangra èla
stefni ráns at hefna.

Víga-Haukr ok Hallbera kona hans fóru í brott af landi, fyrst í Noreg[2] ok síðan til Grænlands, ok þótti Haukr mikilmenni hvar sem hann kom. Magnús Markússon fór ok til Grænlands, ok kom ekki þeirra aptr. Guðmundr hèt maðr, hann var Hallsson; hann var einhleypíngr ok hávaðamaðr; hann geyrðist fylgðarmaðr Gísla Markússonar. Galti het vinr Lopts, hann átti hest góðan, þann föluðu þeir Gísli ok Guðmundr, en Galti vildi eigi selja hestinn, ok gaf síðan Lopti. Ok er Guðmundr vissi þetta, þá geyrði hann eptir hestinum ok ætlaði at hafa í brott. Loptr sá at Guðmundr tók hestinn hjá garði, ok fór eptir honum við enn fjórða mann; Gestr hèt maðr ok Gunnarr, Galti enn þriði; þessir menn fylgðu Lopti. Þeir Loptr ok Gunnarr vógu Guðmund; þat vígsmál var lagt undir Sighvat Sturluson, því at hann var kallaðr vinr hvorstveggja þeirra, Lopts ok Gísla. Gísla þótti sèr mjök misboðit í vígi Guðmundar. Fyrir víg Guðmundar geyrði Sighvatr Lopt á braut or Vestfjörðum ok förunauta hans, þá er til vígsins fóru, ok þar á ofan fègjöld mikil. Þá fór Loptr í brott or Vestfjörðum ok suðr um land, til handa Eyjólfi mági sínum, ok var síðan lengi undir áraburði Oddaverja.

13. Í þann tíma tók at vaxa mjök misþykki með þeim Rafni ok Þorvaldi, af þeim ágangi er Þorvaldr tók at hafa á hendr þíngmönnum Rafns. Þorvaldr færði ómaga þíngmanni Rafns, þeim er Bárðr hèt, hann bjó í Reykjarfirði í Arnarfirði. Þorvaldr setti þar niðr ómagann at Bárðar, ok fór brott síðan, en Bárðr fór á fund Rafns, ok bað, at hann skyldi færa ómagann af hendi honum. Rafn samnaði liði ok fór við LXXX manna norðr til Ísafjarðar, ok færði ómagann þeim manni er Jósepr hèt, hann bjó á þeim bæ er í Súðavík hèt. Þorvaldr varð varr við för Rafns, ok tóku þeir skútu nökkura þar í Súðavík ok lögðu henni þar í einn leynivog, ok vóru þar meðan Rafn var í Súðavík. Rafn lèt þar eptir ómagann. Um þat kvóðu förunautar Rafns kviðlíng þenna:

Færum gildan
grepp Jóseppi,
sá skal ráða
ríkr Súðavík.

1) suala, *A* 1. 2) ok þá til Gautlands, b. v. *B*.

Rafn fór heim aptr eptir þat, en þorvaldr færði aldri síðan þann ómaga á hendr þíngmönnum Rafns.

14. Sá atburðr varð í Skagafirði, þá er Guðmundr biskup hafði v vetr at stóli verit, at þeir Kolbeinn Tumason ok menn biskups börðust í Víðinesi í Hjaltadal; tókst þar meirr at guðs fyrirætlan en at líkindum fyrir liðfjölda sakir: fèll Kolbeinn þar, en biskupsmenn sigruðust. þann vetr enn næsta eptir geyrðu þeir þorvaldr Gizurarson ok Sighvatr Sturluson menn til allra höfðíngja á Íslandi, ok báðu liðveizlu þeirrar, at fara at Guðmundi biskupi; en í þetta mál gengu allir höfðíngjar, nema þórðr Sturluson ok Rafn Sveinbjarnarson. þorvaldr Snorrason gekk or Vestfjörðum með XXX manna norðr til Hóla. Varð þar sá fundr, at vj fèllu af þeim er til kvómu, en IX af biskupsmönnum; var biskup tekinn með valdi; hafði Snorri Sturluson hann með sèr í Reykjaholt. Eptir þetta þóttist Rafn ok hans vinir kenna nökkurn kulda af ráðum Sighvats í skiptum þeirra þorvalds.

þá urðu í Vestfjörðum mörg[1] kyn, bæði í sýnum ok draumum. Einusinni, þá er Rafn hafði verit at heimboði í Selárdal, fór hann í brott snemma um morginn ok tveir menn með honum; ok er þeir vóru komnir skamt frá garði, sá þeir ljós mikit or austri frá bænum á Eyri. Rafn sá í ljósinu iij menn. þar þóttist hann kenna sik sjálfan ok ij menn aðra. þá sýn sagði hann fám mönnum, ok þótti honum mikils um vert. — þórðr hèt maðr, hann var heimamaðr í Selárdal; hann sofnaði eitt kveld, ok dreymdi, at maðr kom at honum svartr ok illiligr. þórðr þóttist spyrja hverr hann væri; hann segir:

Faraldr[2] ek heiti, döprum dauða
ferr ek um aldar kyn, ek mun drengi vega
emka ek sættir svika; ok nýta mèr nái.

Hann vaknaði ok sagði drauminn.

Guðbrandr hèt maðr, er fyrr var getið; hann dreymdi at maðr kom at honum mikill ok illiligr; hann þóttist spyrja, hvat manna hann væri. Sá svaraði: „Hèr er nú Íngólfr[3], sá enn sami, er þèr vitraðist fyrir vígi Markúss." Guðbrandr spurði: „hvort ferr þú með jafnillum tíðindum sem þá?" — Hann svarar: „hygg at vísu þessi:

---

1) *B*; mörkut, *A*. 2) *St.*; Farvaldr, *A*; þorvaldr, *B*.
3) v. í *A*; Vigólfr, *B*; sbr. Sturl. og kap. 7.

Fagna ek því er ógnir,
ymr þjóðar böl, glym[j]a;
allr tekr svarmr at s[v]ella,
svellr þat er mannfólk h[r]ellir;
fara man ek suðr it syðra
snákranns um lið manna,
farit hefik norðr et neyrðra
návaldr um far aldar.

Guðbrandr vaknaði ok mundi vísuna. — Eyjólfr hèt maðr ok var Snorrason, hann bjó at Haukabergi á Barðaströnd; hann dreymdi um nótt, at hann þóttist sjá túngl svo mörg sem stjörnur væri, sum full en sum hálf, sum meir en sum minnr vaxandi ok þverrandi. Ok er hann undraðist þessa sýn, þá sá hann mann hjá sèr ok kvað vísu:

Sèþú hvarfa
heima í milli
syndauðigra
sálur manna,
kveljast andir
í o[r]ms gini,
skelfr ramr röðull,
ræð ek þèr at vakna.

Þá vaknaði hann ok mundi vísuna. — Jón hèt maðr, hann var Þorsteinsson, hann var húskarl á þeim bæ, er á Kúlu heitir, þar bjó sá maðr er Kjartan hèt. Maðr hèt Símon, hann var Bjarnason, hann var heimamaðr Rafns á Eyri. Símon átti barn ok byrgiskonu á Kúlu. Jón fíflðist at þeirri konu. Einn helgan dag fór Símon til fundar við fylgjukonu sína ok sat á tali við hana, en Jón gekk at honum ok hjó hann banahögg. Fyrir þat víg geyrði Rafn Jón sekjan skógarmann. Nökkuru síðarr færði Jón Rafni höfuð sitt, en Rafn gaf Jóni upp höfuðit, en hann þakkaði Rafni höfuðit, ok launaði illu illt höfuð, sem síðarr mun sagt verða. Rafn bætti síðan fè fyrir víg Símonar frændum hans, ok færði sjálfr fram sýknu hans.

15. Þat var eitt vor, at Þorvaldr fór með fjölmenni norðan or Ísafirði til Arnarfjarðar, ok er þeir kvómu ofan á heiðarbrún í Arnarfjarðarbotni, þá sá sú kona för þeirra er Ástríðr hèt, hon var Gunnarsdóttir, Bárðarsonar, bræðrúnga Rafns; hon bjó at Borg; ok er hon sá för margra manna saman, þá sendi hon son sinn út á Eyri til fundar við Rafn, at segja honum mannaferð; ok er Rafn spurði þetta, þá sendi hann menn til Selárdals, at Ragn[eiðar]synir kæmi til fulltíngs við hann, með svo marga menn sem þeir fengi til; ok þeir sömnuðu at sèr

mönnum ok flotuðu skipum. Þorvaldr kom litlu síðarr á Eyri, en Rafn hafði sent menn yfir fjörð. Þá er Rafn hafði sanna frètt af ferð Þorvalds, þá bað hann sína menn búast við eptir föngum brennu þeirra Ísfirðínga. Rafn skipaði mönnum fyrir í húsum með vopnum, ok lèt vera opnar dyrr allar ok skaut í slám. Rafn hafði boga ok skaut. Þorvaldr bar eld at húsum þegar er hann kom, ok kveikti fyrir þeim dyrum, er honum þótti minst vörn fyrir verða, en þeir er inni vóru báru í vatn ok sýru í eldinn, ok slöktu svo sem þeir máttu. Rafn spurði hverr fyrir eldinum rèði. Þorvaldr svarar, ok segir at hann rèð fyrir. Rafn spyrr, hvat hann gæfi honum at sök, er hann bar eld at húsum hans. Þorvaldr kvað mart til saka. Rafn spurði hvat þat væri. Þorvaldr svarar, kvað Rafn hafa verit í fjörráðum við sik þá er hann færði ómagann í Súðavík. Rafn kvað eigi þat satt vera: „því at ek vissa hvar skip þitt var, eðr þú, þá er ek var í Súðavík, ok hafða ek svo mikit fjölmenni, at ek átta[1] alls kost við þik, þess er ek vilda; svo vissa ek er þú vart í Holti í Önundarfirði, ok hafða ek þá enn ærit fjölmenni at geyra slíkan þinn hlut, sem at ek vilda. Nú er á hitt at líta, hvat vær skulum til þess vinna, at þú brennir eigi bæinn". Þorvaldr svarar: „þú skalt handsala mèr sjálfdæmi fyrir þá hluti alla, er ek vil geyra á hendr þèr; skaltu járn bera fyrir þat, at þú vildir eigi bana minn í Súðavíkrför". Rafn sagðist eigi mundu selja honum sjálfdæmi, „fyrir því at mèr mun eigi skortr liðveizlu af bragði". Þeir háðust þar við um stund, ok gátu þeir Þorvaldr eigi brendan bæinn fyrir varnar sakir þeirra manna er fyrir vóru. Þá sá þeir Þorvaldr hvar skip fóru utan eptir firðinum, skiput mönnum ok vopnum. Þorvaldr spurði þá Rafn, ef hann vildi þeirra mál í nökkurs manns geyrð leggja, en Rafn geyrðist til þess tregr, því at hann vissi sèr þá liðs von. Þá áttu margir menn hlut í at þeir skyldi sættast, ok skyldi Rafn hafa þá nefnu um þetta mál, er honum þætti góð. Þorvaldr var þá fúss til sætta, er hann sá lið vopnat fara til fulltíngs við Rafn. Þat urðu málalok þessa fundar, at Þórðr Sturluson skyldi geyra milli þeirra Rafns ok Þorvalds, bæði um heimsókn, ok allt þat, er honum[2] þætti geyrðar þurfa í milli þeirra. Þegar er þessi sætt var handsöluð

1) mátta, *A*. 2) hann, *A* 1.

fór þorvaldr í brott með skyndíngi, ok er þorvaldr var skamt í brott farinn, þá dreif mikit lið at Rafni, bæði Seldælir ok margir aðrir. þeir vóru margir vinir Rafns er mæltu, at þá skyldi geyra eptir þorvaldi ok drepa hann, svo berr sem hann geyrðist í fjörráðum við Rafn, er hann vildi brenna hann inni. En þat sýndist opt, at Rafn var ógrimmr maðr, ok hann vildi heldr deyja fyrir trygðar sakir en fyrir ótrygðar. Nú vildi hann eigi geyra eptir þeim þorvaldi, nè drepa hann, svo sem hann átti þá[1] kost, ef hann vildi, því at hann vildi eigi vinna þat til fárra vetra virðíngar, sem opt kunnu manna ráð verða, heldr vildi Rafn hafa svívirðíng af mönnum í orðlagi fyrir guðs sakir, ok hætta svo lífi sínu til eilífrar miskunnar almáttigs guðs. Fyrir þessa trygð Rafns ámæltu honum margir menn, fyrir þat er hann hafði látið þorvald undan ganga; svo sem Guðmundr skáld Galtason segir Guðrúnu systur Rafns, þá er hon spurði, hvat hann heyrði rætt um málaferli þeirra Rafns. Hann sagði ok kvað vísu:

Heyri ek Hrafni fjóra[2]
hyrtælendr ámæla,
þjóð er til lymsk á láði,
línspöng! um atgöngu;
raun mun segja sína
seimbrjóðandi góða;
vígs er ullr með öllu
e[i]trþvengs fyrirleitinn.

þá er þorvaldr kom í Ísafjörð, þá sagði hann allt annat um fundi þeirra, ok hver sætt verit hafði, en var. — Of sumarit eptir riðu þeir Rafn ok þorvaldr með miklu fjölmenni báðir til alþingis. Á þingi var kníat mál þeirra þorvalds ok Rafns; vóru í fyrstu öll vitni borin í hag Rafni, svo sem málaefni vóru til; en [er þorvaldr knokaði[3] sína menn til ljúgvitna ok eptirmælis við sik, þá drógust þeir í málinu, ok mæltu þá eptir þorvaldi allir, nema einn maðr, sá hèt Vermundr[4]; hann var son þórðar Halldórssonar, hann bar öll vitni eptir því sem Rafnsmenn báru ok verit hafði. þar varð ekki geyrt um mál þeirra Rafns ok þorvalds, því at þorvaldr hèlt ekki þat er þeir höfðu ásætzt sín í milli.

16. Eptir um vetrinn kom hvalr norðr á Strandir á land Rafns, en sá maðr, er fann hvalinn, fór ok sagði þorvaldi hvalkvomuna. þá geyrði þorvaldr þat ráð, at sá er fundit hafði hvalinn

---

1) þann, *A* 1. 2) *fjóra* (eig. fleirt.) heyrir kenningunni til.
3) [ *B*; þorvaldr kallaði, *A*. 4) *B*, Sturl.; Eymundr, *A* 1; Eyvindr, *A* 2.

skyldi segja, at hvalrinn hefði komit á Almenninga, ok hefði hann þar fest lögfesti hvalinn. En þat gegndi engu. Þá fór Þorvaldr til með sína menn, ok lèt skera hvalinn ok flutti heim til sín, en sumum hvalnum skipti hann með mönnum sínum. Nú er Rafn spurði þetta, þá sendi hann menn suðr um land, til fundar við Hall lögsögumann mág sinn ok Þorvald bróður hans, ok hafði ráð við þá, hversu hann skyldi þetta mál leiðrètta við Þorvald; en þeim sýndist þat ráð, at Þorvaldr væri sóttr, ok þeir menn er tekit höfðu hvalinn, ok Rafn beyggi til mál á hendr þeim til Dýrafjarðarþíngs, ok sækti þá þar at lögum. Sendimenn Rafns kvómu aptr til fundar við hann, með þeim ráðum, sem þeir höfðu til lagt. Um sumarit eptir bjó Rafn mál til um hvaltökuna á hendr Þorvaldi ok þeim mönnum öllum, sem at hvalskurðinum höfðu verit ok neytt höfðu hvalinn. Sturla hèt maðr, son Bárðar Snorrasonar ok Þórdísar Sturludóttur, hann hafði mál á hendi. Á því þíngi varð Þorvaldr sekr ok IX menn aðrir, er at hvaltökunni höfðu verit.

17. Eptir um sumarit reið Þorvaldr til þíngs með fjölmenni. Þat sumar fór Rafn eigi til þíngs. Sturla Bárðarson fór til þíngs fyrir hönd Rafns, ok var í flokki Þórðar Sturlusonar [ok sagði[1] til sektar Þorvalds at lögbergi, ok þeirra manna annarra, er sekir höfðu vorðit um hvalmál. Þat sumar fór Rafn norðr í Ísafjörð, ok tók upp sektarfè fyrir þeim mönnum er sekir höfðu orðit. Þá er Þorvaldr kom heim af þíngi samnaði hann mönnum um allan Ísafjörð ok fèkk C manna; margir fóru nauðigir í þá för með Þorvaldi. Kolbeinn hèt fylgðarmaðr Þorvalds, hann fór at sendíngum þessum, ok nökkurir menn með honum, til fundar við þann mann er Ámundi hèt. Ámundi var fátækr maðr, ok bjó, þó hann ætti mikla ómegð; [hann var Þorkelsson, ok[2] þíngmaðr Rafns. Þorvaldr mælti svo við Kolbein ok hans förunauta, at þeir skyldu beiða Ámunda at fara at Rafni með þeim, en ef hann vildi eigi fara, þá mælti Þorvaldr, at þeir skyldu vega hann. Þeir Kolbeinn fundu hann á heyteigi, er hann sló, en kona hans rakaði ljá eptir honum ok bar reifabarn á baki sèr, þat er hon fæddi á brjósti. Þeir Kolbeinn beiddu Ámunda, at hann færi með þeim á Eyri til Rafns; en Ámundi kveðst í engri þeirri ferð vera

---

1) [ *b. v. Sturl.* 2) [ *B*; en var, *A*.

mundu, er Rafni væri til óþyktar. Þá hljópu þeir at honum ok vógu hann. Síðan fóru þeir til fundar við Þorvald ok sögðu honum vígit, en hann lastaði eigi verkit. Þá er þeir Þorvaldr kvómu í Dýrafjörð, þá fór kona nökkur með skyndíngi á Eyri til Rafns, ok sagði honum til fara þeirra Þorvalds; ok er Rafn heyrði þau tíðindi, þá sendi hann menn til Selárdals, til fundar við Eyvind, [ok] bað hann samna liði ok fara til fundar við sik. Rafn sendi ok menn til Barðastrandar, til fundar við Steinólf prest Ljótsson ok Gelli Þorsteinsson, ok bað þá koma til liðveizlu við sik. Þeir Gellir kvómu á Eyri með þá menn er þeir fengu til. Rafn hafði geyrt virki mikit ok gott or grjóti um bæ sinn. Heimamenn Rafns bjoggust við komu Þorvalds eptir öllum slíkum föngum sem til vóru. Þeir menn er eigi höfðu bolhlífar aðrar, skáru sèr stakka or þófum[1]. Þá kvað Sturla Bárðarson vísu:

Hlífðu hamri[2] þæfðar
hjaldrborðs viðum forðum,
þjóð bjóst Þróttar klæðum
þíngs, gráskyrtur[3] hrínga:
nú skerr[4] margr í morgin
mótrunnr um sik [spjóta,
mjótt verðr mundang[5] hitta
mitt hóf, söðulþófa.

Þá var með Rafni Guðmundr [Galta[6]son, hann var skáld gott ok ódæll maðr ok heldr úargr[7] viðskiptis. Þat hafði Rafn mælt, at honum þótti [þat líkast[8] í híbýlum, Guðmundr skáld ok hundr sá er Rósta hèt, ok því reiddist Guðmundr. Hann bjó sik við þessum fundi [frá því[9] sem aðrir menn; hann tók eina nautshúð hráblauta ok skar á rauf, ok fór í, ok gyrði at sèr með reipi, eina öxi mikla í hendi, ok gekk út ok inn ok kvað:

Skal ek með skjaldar runni,
skapaðr [erumk aldr[10], at gunni,
koma mun geira gjósta,
ganga fram sem Rósta.
Okkr þurfut nú ella
þeir er opt á mik skella[11],
[sýnt mun[12] ek seðja hrafna,
saman um allt at jafna.

Þorvaldr kom á Eyri með C manna, ok er hann sèr viðrbúníng Rafns, bæði virkit ok fjölmenni mikit, þá sýndist honum óárenniligr bálkr þeirra. Síðan settist Þorvaldr niðr á brekku einni skamt frá virkinu. Eyvindr Þórarinsson hafði samnat

---

1) þiljuþófum, *B.* 2) *B*; höfði, *A.* 3) *A* 2; gráskotru, *A* 1.
4) *B*; skar, *A* 1. 5) [ *B*; spiotum ott verðr mèr at, *A* 1.
6) [ getg.; Svertings, *B*; eyða i *A* 1. 7) [ þann. (vargr), *A* 1; örigr, *B.*
8) [ hreimsamt, *B.* 9) [ b. v. *B.* 10) [ *B*; er ek a leðr, *A* 1.
11) skella á (atyrða) sbr. *skjælde paa.* 12) [ getg.; spinomun (suint mun, *A* 1.

liði um Tálknafjörð ok Dali í Arnarfirði, ok fór skipaliði til Eyrar. Nú er þorvaldr sá hvar skipin fóru, þá fór hann ofan til sjófar með flokk sinn, ok ætlaði at vera á ströndu fyrir er þeir Eyvindr kvæmi at landi. Eyvindr sá hvar flokkrinn þorvalds var í fjörunni fyrir. Hann mælti við sína förunauta, at þeir skyldi eigi at landi leggja skipin. þorvaldr kallaði á skipamennina ok spurði, hverr fyrir rèði; en honum var sagt at Eyvindr þórarinsson rèði fyrir. þorvaldr kallaði á Eyvind, og mælti at hann skyldi leggja at landi skipin, „því at ek vil tala við þik". Eyvindr svarar: „Ef þú átt nökkut vanmælt við mik, þá mæl þú þaðan sem nú ertú kominn, en ek man hèðan s[vara], sem ek er kominn, því at ek á ekki vanmælt við þik". þá svaraði þorvaldr engu. þá sá þeir, er í virkinu vóru, flokk þorvalds ok skipamennina, hvar þeir kölluðust á. Í virkinu vóru bræðr Eyvindar ij, Tómas ok Halldórr, ok er þeir sá hvar Eyvindr var kominn skipum sínum, þá ganga þeir [or virkinu með miklum flokki á mót Eyvindi, ok er þorvaldr sá för þeirra, þá gengr hann á braut or fjörunni. þá leggja þeir Eyvindr at landi, ok ganga í flokk þeirra bræðra sinna[1], ok fara með þeim í virkit til Rafns; þá hafði hann CCC manna í virkinu. þá fóru nökkurir menn or flokki þorvalds á þann bæ, er á Tjaldanesi heitir. þá mæltu sumir menn við Rafn, at þeir skyldu ganga at þorvaldi ok drepa hann; kvóðu eigi mundu Rafn komast í betra færi; en Rafn vildi eigi þat, því at hann kvezt vilja virða til enn heilaga Jacobum postula ok berjast eigi við þorvald, ok hann kvezt aldri mundu um líf hans sitja. Sjá ræða Rafns var um kveldit fyrir Jakobsmessu. þá kallaði þorvaldr á Steinólf prest Ljótsson, at hann skyldi koma á hans fund; ok Steinólfr fór or virkinu ok á fund þorvalds ok töluðu lengi hljótt. Síðan fór Steinólfr aptr í virkit ok leitaði þaðan af um sættir milli þeirra Rafns ok þorvalds. Um morgininn eptir kom Áli Oddsson enn auðgi á Eyri með nökkura menn, ok leitaði um sættir með Steinólfi, ok þá sættust þeir þorvaldr ok Rafn. Sú var sætt þeirra, at geyra skyldi um öll þeirra málaferli þórðr Sturluson ok þorvaldr Gizorarson. Ok þá er þeir höfðu handsalat þessa sætt, þá þakkaði þorvaldr öllum mönnum, er um sættir höfðu leitazt: „em ek þessu feginn orðinn, er vèr erum

1) [ *B*; Eyvindr i flokk þeirra Tómas ok leggja at landi, *A*.

sáttir, því at mèr sýnist svo frændi, sem vit sèm eigi uppnæmir fyrir einum höfðíngja, ef vit erum at einu ráði báðir". þá bauð Rafn þorvaldi ok öllu föruneyti hans til matborðs[1]. þá hafði þorvaldr ok flokkr hans dögurð á Eyri. Rafn lèt skera húð til skúa förunautum þorvalds, því at þeir vóru mjök skólausir, er langa leið höfðu farit þangat. Rafn fèkk þorvaldi ok förunautum hans faraskjóta norðr yfir heiði til Dýrafjarðar. þorvaldr mælti marga vega fagrt til Rafns er þeir skildu, ok hvarf til hans. þá vóru málaefni þeirra kyrr þaðan frá um sumarit, ok svo um vetrinn eptir. Um vorit eptir fór Rafn suðr til Borgarfjarðar, í Reykjaholt, til sáttarfundar þess er þeir þorvaldr höfðu sett með sèr; til þessa fundar kom þorvaldr eigi. þar kom þórðr Sturluson ok þorvaldr Gizorarson, er geyra skyldu um þetta mál, en þeim sýndist sem ekki mundi stoða at geyra um þetta mál, þar er þorvaldr var eigi viðstaddr; sýndist þeim þorvaldr rjúfa sætt, er hann kom eigi til þessa fundar, sem ákveðit var. Um haustið eptir sendi þórðr Sturluson orð þorvaldi ok Rafni, at þeir skyldu koma á Skarðsströnd[2] í Fagradal, ef þeir vildi sættast. Til þessa fundar kom Rafn, en þorvaldr eigi. þá þóttust menn sjá, at þorvaldr vildi enga sætt við Rafn. þá fór Rafn á Barðaströnd, í Haga, til brúðkaups þess, er Haukr þorgilsson gekk at eiga Oddnýju, dóttur Steinólfs prests. At því boði var ok Eyvindr þór[arin]sson. Ok er lokit var boðinu, þá var Rafn eptir í Haga, en Eyvindr fór um heiði til Arnarfjarðar ok förunautar hans. Ok er þeir fóru út með Forsfirði til Dufansdals síð um kveld, þá sá þeir eld brenna á sjáfarbrekkunum fyrir utan Dufansdalsá. þeim sýndist eldrinn bj[ar]tr, ok víðr sem stakkgarðs vídd væri. þeir sá lengi eldinn, ok ætluðu at fara ok vita hverju gegndi, en flóð var í ánni niðri, ok máttu þeir þar eigi yfir komast; fara upp með ánni, ok sá jafnan eldinn. Áin var ill yfirferðar ok upp gengin af frosti; fjúk var á ok snækvoma. En er þeir kvómu yfir ána, hugðu þeir at eldinum, ok var þá horfinn eldrinn. þeir fóru til húss í Dufansdal ok vóru þar um nóttina, ok sögðu þar sýn eldsins, en engi þóttist vita hví sjá sýn mundi gegna, er þeir sá.

18. Í Selárdal varð sá atburðr, at húskarlar Ragnheiðar vóru rónir á sjó; en er þeir vóru mjök langt komnir frá landi,

---

1) *A* 2-3; matbúrs, *A* 1. 2) *B*; Meðalfellsströnd, *A*.

þá sjá þeir á sjónum út til hafs eld upp brenna ok skjótt hverfa; þeir sá allir þessa sýn, ok eigi meir senn en tveir; en þeir sá svo opt, at þó sá þeir allir. Eptir þessa sýn sá þeir blóð á klæðum sínum, þat er þeir vissu eigi hvaðan var komit. Um kveldit, er þeir kvómu at landi, sögðu þeir mönnum þessi tíðindi; öllum þótti þessi atburðr undarligr. Þat var enn í Selárdal, at sást í kirkju á sönghúspöllum ok á gólfinu utarfrá blóð, þat er menn vissu eigi hvaðan at var komit. Öllum þótti þessi sýn undarlig, er sá. — Oddleifr hèt maðr Jónsson, á Skálmarnesi í Breiðafirði; hann sá enn blóð á klæðum sínum einhvern dag, er hann var úti staddr; hann undraðist, ok vissi eigi hvaðan at var komit. Slíka sýn sá húskarl Oddleifs[1] þar á Skálmarnesi, ok vissi eigi hvaðan þat blóð var at komit. — Þorbjörn hèt maðr, hann var Magnússon, hann bjó í Valþjófsdal í Önundarfirði; hann gekk út um nótt ena næstu fyrir Ambrosiusmessu, um vetrinn þann sama er Rafn var veginn; ok er Þorbjörn var út kominn, sá hann í landsuðr í loptinu, hvar eldr fór or landsuðri í vestr, en eptir eldinum sá hann mann ríða hvítum hesti; hann hafði skjöld hvítan ok hjálm á höfði; hann var gyrðr sverði ok hafði höggspjót mikit í hendi, ok lagði spjótið fram milli eyrna hestinum; hann sá at spjótið tók lengra fram en hestrinn. Þar eptir sá hann mann ríða, sá hafði rauðan hest ok hálfhitan skjöld, hálfan rauðan, en hálfan hvítan; sá hafði ok hjálm á höfði ok gyrðr sverði, ok mikit spjót í hendi, ok fór svo með sínu spjóti, sem sá er fyrr reið. Þar eptir sá hann mann ríða enn þriðja, sá hafði brúnan hest ok deykkvan skjöld, sá var gyrðr sverði, ok mikit spjót í hendi, ok bar þann veg sem enir fyrri; hann hafði á höfði þvílíkast til at sjá sem biskupsmítr væri, þannveg litt sem kolsvört klæði, ok svo sýndist honum öll hans klæði, þau er hann hafði. Þessir menn riðu allir or landsuðri ok vestr eptir loptinu, því nær skjótt sem [fugl flygi[2]. Þessa sýn sá Þorbjörn svo gerla, at hann sá allan fótaburð hestanna, ok svo þat, at mennirnir stóðu í stigreipum; en þenna atburð sá hann gj[ö]rr en eðli manns er til at sjá. — Þann vetr enn sama varð sá atburðr á Eyri at Rafn[s], enn átta aptan jóla, at maðr sá er Þórarinn hèt Höskullsson, Þorbjarnarsonar, ok Birnu[3] Ámundadóttur: hann sá

1) Jóns, *A*. 2) [ *B*; túngl fullt, *A*. 3) *A* 3, *B*; eyða í *A* 1.

mann standa fyrir matborði Rafns, sá var mikill vexti, ok hafði hjálm á höfði ok sverð brugðit í hendi, ok studdi niðr á borðit blóðreflinum fyrir Rafni. Hann stóð um stund ok gekk á braut síðan. Þórarinn sat et næsta Rafni innar frá; þá sá Þórarinn þessa sýn, en engir aðrir þeir er í stofunni vóru. — Þann vetr enn sama sá Hallkatla Einarsdóttir, hon var at kirkju, ljós heim undir virkinu, ok horfði annarr endir ljóssins upp í lopt en annarr niðr til jarðar; henni þótti þetta undarlikt ok vissi eigi hverju gegndi. — Steingrímr hèt maðr, hann var Ólafsson, heimamaðr Rafns, hann sá ok ljós undir virkinu, sem Hallkatla hafði sèt, ok fleiri menn sá þessa sýn þann vetr enn sama þar undir virkinu.

Um vetrinn eptir jól fóru þeir Pètr ok Sturla Bárðarsynir norðr í Súðavík, ok tóku höndum þann bónda er Jóseppr hèt, ok son hans er Einarr hèt; þeir höfðu sekir orðit um hvalmál; þeir höfðu þá heim á Eyri til Rafns, en hann gaf þeim líf báðum, Jóseppi ok Einari, ok kunni enga þökk þeim Pètri, fyrir þat þeir höfðu þá þangat flutt. Um þenna Jósepp kvað Eilífr Snorrason vísu þessa:

Sekr gekk hodda hneykir áðr beið illt ok síðan
hríngleygr[1] af várþíngi; Jóseppr af hvalfjösum.

19. Þat var um langaföstu et sama vor, at Þorvaldr fór norðan or Ísafirði með tvo menn ens fjórða tigar. Í þeirri för vóru með Þorvaldi: Bjarni djákn Finnsson, Aðalsteinn djákn Re[i]nallsson, Ögmundr Sveinsson, Þorgils austmaðr, Steingrímr Ásgeirsson, Kolbeinn Bergsson, Þórðr Gunnarsson, Þórðr Steinsson, Bárðr Bárðarson, Sölvi Þóroddsson, Kormakr Ásbjarnarson, Ormr Skeggjason, [Eirekr Þorvarðsson[2], Eirekr Rafnkelsson, Þórðr Þorbjarnarson, [Ullr Þorbjarnarson[2], Þórðr Högnason[3], Helgi Magnússon, Svertíngr Högnason, Ólafr Þorsteinsson, Ólafr Helgason, Ásgeirr Kalason, Tyrvi Starrason, Ími Þorkelsson, Jón Þorsteinsson, Snærir[4] húskarl Heinreksson, Glúmr Helgason, Þorleifr gjafleifi[5], Björn Þorkelsson, Þorgrímr Þormóðsson, [Sighvatr Þorkelsson[2]. Þeir fóru Glámuheiði til Arnarfjarðar. Ok er þeir kvómu ofan í fjörðinn til bygða, þá bundu þeir alla menn á bæjum, þar sem þeir kvómu, at engi væri njósn borin fyrir

1) *B* (= hrínglægr); huikeygr, *A*. 2) [ b. v. *B*.
3) Hauksson, *B*. 4) *A* 1, 3; Snorri, *A* 2. 5) Guðleifsson, *B*.

þeim til Eyrar, en þeim er í böndum vóru þótti þúng sín æfi, en börn grètu er bundin vóru, en mæðr eðr feðr máttu eigi duga þeim, þar er allir vóru bundnir. Á einum bæ, þar er menn vóru bundnir, hètu þeir á þorlák biskup til þess at þeir skyldi lausir verða; þeir hètu söngum; ok er þeir höfðu fest heitið, þá spruttu bönd af einum þeirra, ok leysti sá alla, ok síðan fóru þeir á bæi, er menn vóru bundnir, ok leystu menn or böndum. Rafn var vanr at láta vaka yfir bæ sínum ok halda vörðu, en þat kveld, er þeir þorvaldr höfðu komit af heiðinni, spurði Rafn heimamenn sína, hvort þeir vildi eigi halda vörð, en þeir svöruðu, ok kvóðu eigi mundu þurfa vörð at halda, er fjúk var úti; sögðu ok, at eigi mundu menn geyra til þeirra um langaföstu. Rafn sagði: „þat þikkir mèr ráð, at haldinn sè vörðr í nótt". þangat til hafði vörðr haldinn verit hverja nótt, en þá nótt var eigi vörðr haldinn, er þeir þorvaldr kvómu. þá er Rafn var kominn í reykkju mátti hann eigi sofna; hann mælti við mann, þann er Steingrímr hèt, at hann skyldi kveða Andreasdrápu. Hann kvað drápuna, ok eptir hvert eyrindi talaði Rafn mart um þá atburði, er geyrzt höfðu í písl Andreas postula. þá nótt dreymdi Tómas prest þórarinsson[1], at hann þóttist sjá písl Andreas postula; þat sama dreymdi hann alla nóttina, jafnan er hann sofnaði. — þá nótt kom þorvaldr á Eyri; ok er þeir kvómu at virkinu, þá settu þeir mann þann er Bárðr hèt á skjöld, ok lypta skildinum upp á spjótaoddum á virkit. Síðan tók hann til við lás duranna, ok rendi frá slánum þeim er vóru á virkishurðunni, ok lauk upp virkinu. þá gekk þorvaldr í virkit ok förunautar hans. Við því bili reis Rafn upp, því at hann mátti eigi sofa, ok gekk út; ok er hann lauk upp hurðunni, sá hann, at menn vóru komnir í virkit með vopnum. Rafn lauk aptr hurðunni ok skaut loku fyrir, ok gekk inn, ok sagði, at menn vóru komnir mjök margir í virkit með vopnum, „ok hafi þèr eigi vel vörð haldit í nótt". Nú risu menn upp hvatliga ok vopnuðu sik. þeir þorvaldr viðuðu þegar fyrir dyrr allar, ok lögðu eld í þekjuna víða. þá er menn Rafns vóru komnir í klæði sín, þá gengu þeir til dura, ok spurði Rafn hverr fyrir eldinum rèði, en honum var sagt, at þeir rèði fyrir er kveikti, en þorvaldr væri höfðíngi

1) þórðarson, *A.*

þeirra. Rafn spurði, ef þorvaldr vildi nökkurar sættir af þeim taka, kvað hann ráða skyldu sjálfan fyrir, ef hann gæfi bænum frið, en þeim öllum grið er þar vóru fyrir með honum. Menn þorvalds kvóðu Rafn ok hans menn ómakligan sætta. þorvaldr svarar engu, en menn hans höfðu mörg heimslig orð um þetta mál. Rafn spurði hvar þorvaldr væri, [eðr] hví hann svari engu: Rafn segir, at hann kvezt at þorvaldi bezt vænta: „því at ek þykkjumst af honum góðs eins makligr". þorvaldr svarar engu. þá mælti Rafn við prest sinn, þann er Valdi hèt, ok klerka þá er með honum vóru, at þeir skyldu sýngja óttusöng, ok Rafn söng með þeim óttusönginn, en menn hans, þeir er ólærðir vóru, vörðu húsin með vatni ok sýru, slíkt er þeir máttu at geyra. Svo höfðu þeir þorvaldr óvart komit, at engi pati hafði farit af ferð þeirra. þetta sannar Guðmundr skáld:

Óþykki[1] þreifst ekka
andærligum blandit;
fjón greri ljótlig ljóna,
liða ek fátt um þat, miðlum;
beittr var bragna sættir,
brandel þrifust, vèlum;
stóð þann er stýrði lýðum
stolaherr[2] skörúng[3] errinn.

þá er lokit var óttusöng geyrðist mikill reykr í húsunum. Eldi sóttu þeir bæinn, en eigi með vopnum. þá gekk Rafn til dura, ok beiddi þorvald, at hann gæfi grið konum ok börnum til útgöngu: „enn vil ek bjóða þèr fyrir mik þat sem þú vill hafa". þorvaldr svarar engu. Rafn mælti: „þat vil ek bjóða þèr, at fara í brott af landi, ok ganga suðr til hjálpar hvorumtveggja okkrum, ok koma aldrei aptr til Íslands, ef þèr þykkir þinn sómi meiri en áðr". þorvaldr neitaði þessu. þá bauð Rafn at gefa sik upp til friðar öllum mönnum öðrum, þeim er þar vóru í bænum, at hann væri eigi brendr. þá svaraði þorvaldr: „ek mun lofa öllum mönnum út at ganga, ef þèr selit af hendi vopn yðar öll, ok leggit þá á mitt vald, hvat ek vil af hverjum geyra. þetta[4] vottar Guðmundr skáld:

Bauð til friðkaups fróðum
fólkprýðandi lýðum:
hann bauð sveit fyrir sinni
snjallri einn at falla.

þá seldu þeir af hendi vopn sín öll, ok gengu út síðan, karlar

1) getg.; óþykki, B; óþokki, A. 2) = launherr, svikaherr.
3) B; skörúngr, A. 4) A 3; þessu, A 1.

ok konur. Þá er Rafn kom út, var hann tekinn ok haldinn. Sturla Bárðarson, systurson Sturlusona, var ok haldinn, þriði maðr Þórðr Vífilsson; en allir menn aðrir, konur ok karlar, vóru leiddir í kirkju ok byrgðir þar. Þá lýsti Þorvaldr yfir því, at Rafn skyldi taka af lífi. Ok er Rafn heyrði þann dóm, þá beiddist hann at ganga til skriptar ok taka þjónustu, ok hann gekk til þjónustu við Valda prest, ok mælti skriptagang ok tók *corpus domini* ok fèll til bænar, ok feldi tár með mikilli iðran. Þá kvaddi Þorvaldr Kolbein Bergsson at vega Rafn, en hann kvezt þat eigi vilja. Þá mælti Þorvaldr við Bárð Bárðarson, at hann skyldi vega Rafn. Þá lagðist Rafn niðr á knè ok olboga, ok lagði hálsinn á eitt rekatrè, ok Bárðr hjó af honum höfut þar við trènu. Rafn hrærði hvorki hönd nè fót er hann sæfðist, heldr lá hann á knjánum ok olbogunum, sem hann var vanr at liggja til bænar. Sá atburðr varð undir virkinu, þar sem ljósit hafði sèzt um vetrinn áðr; þar var þá leir[1] er Rafn var höggvinn, en um sumarit eptir var þar grænn völlr. — Þorvaldr lèt höggva fót undan Sturlu Bárðarsyni ok Þórði Vífilssyni. Þessir atburðir urðu annan dag viku í [annari viku[2] langaföstu, viij nóttum eptir Mathiasmessu. Þá rænti Þorvaldr bæinn á Eyri öllu lausafè, því er innan veggja var, vopnum ok klæðum, húsbúnaði, búsgagni ok mat. Í því ráni tóku þeir sólarstein góðan ok kyrtil brúnaðan með búnaði; þá gripi hafði Guðmundr biskup átta, ok gefit Rafni. Þeir tóku ferju eina, er kirkjan átti, ok báru þar á þann fjárhlut, er þeir ræntu. Ok er þeir vóru á braut farnir með skipit ok fjárhlutinn, þá fundu heimamenn á Eyri sólarsteininn þar er þeir höfðu eykinn búit, því at þeir höfðu honum í brott kastað ok kölluðu vera hègetil[3]; svo ok kyrtilinn höfðu þeir eptir látið, ok kölluðu vera vaðmáls slopp, ok eigi fengu þeir sèt á búnínginn. Þenna atburð virðu menn svo, at því mætti þeir þessa gripi eigi í brott hafa, er Guðmundr biskup hafði átt. — Þat vor et sama fór Þorvaldr eptir páska í annat sinn í Arnarfjörð, ok rænti þá marga þíngmenn Rafns. Pètr Bárðarson lèt drepa þíngmann Þorvalds, þann er Hermundr hèt, sá hafði opt verit í andskotaflokki við Rafn. Þorvaldr sendi orð Kár múnki

---

1) *B*; jörðin, *A* 1; jörðin er Rafn v. h. hrjóstrug, *A* 2-3.
2) [ b. v. *B*, *St*. 3) *A* 2, *B*; hegeit el, *A* 1.

Geirmundarsyni, at hann skyldi leita um sættir við frændr Rafns. Þá var settr sáttarfundr þessa málaferla, at ráði Þórðar Sturlusonar ok Kárs múnks, á Þíngeyri í Dýrafirði. Þá var sætzt á þessi mál á þann veg, at Þórðr Sturluson skyldi geyra um þessi mál öll, þann veg sem hann vildi; xij menn handsöluðu fyrir Þorvald fègjöld, svo sem Þórðr vildi geyra, ok til þeirrar sýknu Þorvalds, sem Þórðr vildi vera láta. Annat sumar eptir á alþíngi sagði Þórðr upp geyrðunum. Sú var geyrð hans á hendr Þorvaldi, at hann skyldi fara utan þá samsumars ok vera utan v vetr, nema hann færi á fund páfa ok sættist við hann, ok fengi þat af honum, at hann væri utan iij vetr; en er hann kvæmi út ok hefði svo í brott verit, þá væri heimil vist hans í Vatnsfirði, bústaðr ok þíngmannavarðveizla, en Þorvaldr skyldi vera óheilagr[1] milli Vatnsfjarðar í Breiðafirði ok Stiga í Ísafirði, ok allir þeir menn er fóru til aftöku Rafns, ok skyldu aldri koma í þetta takmark, nema þeir yrði [sæhafa nauðgir[2], þá skyldu þeir fara á brott fullum dagleiðum. Allir menn skyldu vera or þíngi frá Þorvaldi, þeir er bygðum vóru í Súgandafirði ok vestr þaðan, í því takmarki sem áðr var tjáð. Þessir iiij menn skyldu utan fara, ok koma aldreigi út: Þorgils austmaðr, Steingrímr Ásgeirsson, Þórðr Gunnarsson, Bárðr Bárðarson, ok vera or Vestfirðínga fjórðúngi at enum næsta hálfum mánuði þaðan frá, er þeir spyrði geyrðina. Þeir Bjarni djákn ok Kolbeinn Bergsson skyldu vera sekir um allt land, nema í Austfjörðum. Ormr Skeggjason skyldi eigi vera í Dýrafirði ok eigi í Ísafirði. Þórðr Steinsson skyldi ok svo sekr sem Ormr. Allir menn aðrir skyldu hafa slíka sekt sem Þorvaldr, án utanför, ok gjalda þó fè: ccc [fyrir mann[3] til þess at þeim sè landvært. [En með[4] þessum mannsektum geyrði Þórðr fyrir víg Rafns c hundraða, [þat fè skyldi gjalda í gulli eða silfri, en því at eins annat fè, ef þeim er við tæki þætti þat eigi verra[5]. Fyrir afhögg við Sturlu vóru geyrvir xxx hundraða; [fyrir afhögg Þórðar Vífilssonar xxx hundraða; fyrir fjörráð við Pètr Bárðarson xxx hundraða[6]. Fyrir aðild vígsakar eptir Rafn vóru geyrvir xxx hundraða til handa Magnúsi Þórðarsyni, systursyni Rafns, er víg-

1) b. v. *B*, *St.*; v. í *A*.
2) *St.*; [ sæ . . . nauð ser, *A*. 3) *B*; [ fram, *A*. 4) [ b. v. *B*.
5) [ *B*; i skylld ok gillda i vöru eðr kuikfe en þat eitt Ormr annat fe ef þat væri ei til skyldi taka þætti, *A* 1. 6) [ b. v. *B*.

sakar aðilinn var, því at synir Rafns vóru þá svo úngir, at þeir máttu eigi vera vígsakar aðilarnir. þessi CC hundraða guldust eptir því sem þórðr Sturluson vildi. Rán þat er þorvaldr rænti á Eyri, ok önnur þau er þeir rændu í Arnarfirði, vóru aptr goldin svo sem skyldi. — þorvaldr fór utan, ok gekk suðr til Róms, ok var utan iij ár, en meðan þorvaldr var utan lèt Pètr Bárðarson drepa Íma þorkelsson, en höggva fót undan Jóni þorsteinssyni, því at þeir höfðu farit með þorvaldi til aftöku Rafns, ok höfðu eigi fè fyrir sik bætt. þorvaldr kom út þá hann hafði iij vetr utan verit ok gengit suðr, ok bjó síðan í Vatnsfirði meðan hann lifði, [*ok lýkr þar söyunni*[1].

20[2]. þessi vóru börn Rafns Sveinbjarnarsonar ok Hallkötlu Einarsdóttur, þau er or barndómi kvómust: Einarr ok Grímr, Sveinbjörn ok Krákr, Steinunn ok Herdís, Hallgerðr ok þuríðr. Einarr ok Grímr týndust við Grímsey af kaupskipsbáti. Sveinbjörn ok Krákr fèllu á Örlygstöðum með Sturlu ok Sighvati. Steinunni Rafnsdóttur átti Oddr Álason, ok var þeirra son herra Rafn, Ólafr ok G[uðlaugr][3]; Herdís var ok dóttir þeirra Odds ok Steinunnar, er átti Svarthöfði Dufgusson. Herdísi [Rafnsdóttur] átti fyrr Eyjólfr Kársson, ok var þeirra son Eyjólfr, er fèll á þverárfundi, enn vaskasti maðr. Síðarr átti Herdísi Sigmundr Gunnarsson, þeirra son var Sveinbjörn, faðir herra Eireks, Krákr ok Steinunn. Hallgerði Rafnsdóttur átti Víkarr þorkelsson, þeirra son var Grímr, faðir Einars, Márs ok Víkars, ok Hrómundr læknir, faðir Kráks læknis í Hvallátrum ok Víkars ok þórðar. þuríði Rafnsdóttur átti Helgi Sveinsson, er fèll á Örlygstöðum. þeirra börn vóru: Guthormr, Gautr, Vilhjálmr ok Einarr, Margrèt ok Gunnhildr. Guthormr átti þorgerði þorláksdóttur, systur Árna biskups. Vilhjálmr átti Marínu þorkelsdóttur; Margrètu átti Valdi; Gunnhildi átti Steinólfr Ísleifsson, faðir þorsteins ok Magnúss ok Jóns, ok Herdísar, móður Einars Bergssonar.

---

1) b. v. *B*.

2) kap. 20 v. í *B*, og er án efa bætt við af þeim er látið hefir rita skinnbókina *A* (Einari Bergssyni?) á 14. öld.

3) sbr. *St.* 7. 3; í *A* 1 og 3 er eyða fyrir nafninu, en í *A* 2: G . . .

# ÁRNA BISKUPS SAGA[1].

HERRA Árni biskup, er þessi frásögn er af skrifuð, var sonr Þorláks, Guðmundar sonar gríss, ok Halldóru, dóttur Orms í Holtum; hann var fæddr á því ári sem Magnús biskup Gizorarson andaðist[2]. Hann fæddist upp með föður sínum ok móður, en þau bjoggu í þenna tíma at Svínafelli at ráði Orms Svínfellíngs, ok vóru þar meðan hann lifði ok nokkora stund síðan, at ráði Ögmundar Helgasonar, er þá hafði fjárforráð sona Orms. En síðan penníngar eyddust fyrir sonum Orms at Kálfafelli, fóru þeir bygðum sínum til Svínafells, en Þorlákr varð firir sakir magnsmunar at skipta bygðum; fengu þeir honum þá Rauðalæk, ok fór hann þangat. Þar gekk fè af hendi honum, ok undi hann sèr lítt þann tíma er sundrþykki gerðist milli Sæmundar Ormssonar ok Ögmundar Helgasonar; ok eptir víg Ormssona þoldi hann eigi; fór hann þá með öllu liði sínu á Reynivöllu í Kjós, til Jörundar Sigmundarsonar, er átti Guðrúnu dóttur hans. Þessi vóru þá á lífi börn Þorláks: Magnús var elztr af sonum hans, þar næst Ormr; Árni, er fyrr var nefndr, var ýngstr, en af dætrum hans var elzt Ásbjörg, er átti Helgi, sonr Lopts Svartssonar. Þessi Loptr átti Guðrúnu, dóttur Hamra-Finns, systur Bjarna[3], föður Finns í Selvági ok Þóru, er átti Þormóðr á Gufunesi, faðir Svarts. Þeir feðgar bjoggu fyrst at Kálfafelli, áðr þeir keyptu Skála[r] land at Sæmundi Ormssyni. Loptr var elztr barna þeirra Ásbjargar, þar næst Bjarni prestr,

---

1) Öll handrit Árna biskups sögu eru komin frá skinnbók í folio (frá miðri 14. öld), sem nú er týnd öll, nema 2¼ blað, sem finst í AM 122 b. folio. Skinnbókin Nr. 12. 4to í bókhlöðu konúngs í Stokkhólmi, hèr merkt *S* (rituð um 1650), er lögð til grundvallar. *AM* 204 folio, og útg. 1820 (merkt *U*) eru höfð til samanburðar, og bersýnilegar ritvillur í *S* leiðrèttar eptir þeim, og kapitulatal sett eptir *U*. Hin öll handritin eru af lakara tagi. Skinnblöð 2 í 4to í AM 220 folio hafa heyrt til bók, er engin afskript nú finst af það eg veit. 2) 1237, b. v. *S*. 3) Bjarnar, 204.

þá Magnús prestr, þá Árni, er síðan varð biskup. Torfi prestr var laungetinn sonr Helga; átti hann þenna son áðr hann fengi Ásbjargar. þessar vóru dætr þeirra Helga: þuríðr, Guðný, Halldóra, Agatha abbadís. Guðrún, er áðr var nefnd, dóttir þorláks, átti engi börn þau er menn sè frá komnir. Hin þriðja dóttir þorláks var þorgerðr, er fyrr átti Guthormr körtr, ok var dóttir þeirra Halldóra, er átti Kolbeinn Högnason. þessa þorgerði átti síðarr Klængr Teitsson, ok var þeirra dóttir Ásta, er átti Ívarr hólmr.

2. þorlákr ok lið hans var eitt ár á Reynivöllum, þaðan fóru þau til Hofs á Kjalarnes ok vóru einn vetr firir búi Ólafs Jónssonar, föður Jóns ok Styrkárs; þaðan fóru þau þorlákr í Skál austr, ok bjoggu þeir mágar þar þau misseri. Helgi bóndi ok allt lið hans lagði svá mikla elsku til Árna klerks, at hann gerði sitt allt heimilt til þess sem hann vildi hafa, því at hann sá þenna mann, firir sakir atgervi ok góðvilja, ok allrar framkvæmdar, vera mundu höfðíngja sinna frænda, ok trúði, at honum mundi meiri tignar auðit en þá var fram komit, [ok váttaði hann þat optliga; [rækti Árni þetta[1] alltsaman, þá [er] hann var biskup orðinn, framarliga við Helga ok öll hans börn. þessi Árni var á únga aldri fálátr, ok aktaði mjök ýmisligar íþróttir, hagleik ok áskurð, ok trèsmíði allt, rit ok bóknám ok allar klerkligar listir; var hann af þessu öllu saman fáskiptinn við almenníng. En þaðan frá, er þorlákr fór frá Rauðalæk, gerði hann sik lèttan við alþýðu ok átti hann alþýðu gleði; hèlt því fram til þess er hann var í Skál, þá fór hann til skinnleiks í Kirkjobæ með öðrum mönnum. Í þeim sama leik rak hann niðr annat knè á arinhellu þar í stofunni, svá at sprakk mjök; lá hann af því í rekkju nær viku; þaðan af var hann aldri at þesskyns leik nè danzi, hvárki áðr nè síðan, ok kendi sik í þessu mundu hirtan af óskynsamligri skemtan.

Um várit fór þorlákr bygðum til Svínafells, ok hafði Magnús þá mest búráð, en Árni var þá stundum í þykkvabæ með Brandi ábóta, stundum í Skál með fyrrgreindum mági sínum, stundum í Kirkjobæ með Grími presti Hólmsteinssyni, en stundum at Kálfafelli með þorsteini ábóta[syni[2], en lengstum heima at Svínafelli; fór hann í þessa staði alla nokkora vetr, til þess er menn

1) [ 204; ok lèt Árni þetta optliga i rikja, *S*. 2) [ b. v. *U*; þ. e. Brands ábóta.

þóttust þurfa í hagleiksgerðum; hèlt þessu fram nokkora vetr, þar til er Magnús bróðir hans fèkk Ellesifar, dóttur þorgeirs or Holti, vóru þeirra börn Andrès prestr ok Guðfinna, er átti þorsteinn Hafrbjarnarson; lagði þá Árni fram allan sinn hlut af penníngum þeim sem faðir hans varðveitti, við hann, utan hest ok ígangsklæði; rèðst hann þá í burt frá Svínafelli, sakir sundrþykkis þess, er varð milli þeirra frænda, mest um giptíng þorgerðar systur hans, ok fór í þykkvabæ til [fyrrnefnds[1] Brands ábóta, ok batt sik honum á hendi ok gerðist hans klerkr, því hann sá þenna mann mikinn atgervismann í hagleik ok riti, ok hvassan í skilníngi til bóknáms, svá at um þann hlut var hann formentr flestum mönnum at jöfnu námi. [þessi sami[1] Brandr ábóti [talaði svá til sinna lærisveina, at engum manni kallaðist hann[2] jafnminnigum kent hafa sem Jörundi, er síðan var biskup á Hólum, en engum þeim er jafnkostgæfinn var ok jafngóðan hug lagði á nám sitt sem Runólfr, er síðan var ábóti í Veri, en til Árna, [er fyrr nefndum vèr[1], talaði hann svá, at hann skildi þá marga hluti af guðligum ritníngum, er hann þóttist varla sjá, hví svá mátti verða.

3. Nokkoru síðarr kallaði Einarr erkibiskup Brand ábóta til sín, ok fylgði Árni klerkr honum til Noregs, ok var þá messodjákn fyrst, ok hafði vígslur tekit af Sigvarði biskupi. Herra erkibiskup skynjaði brátt, hvílíkrar röksemdar Brandr ábóti var, ok með umráði ok samþykki kórsbræðra kaus hann Brand ábóta til biskups, ok vígði til Hóla. Í þessi ferð fór Árni djákn jafnliga í milli konúnganna, Hákonar ok Magnúss, ok Brands[3], er þá var biskup orðinn, ok gerðist þegar mikill kunnleikr á milli Magnúss konúngs ok [þessa sama[1] Árna, sá er aldri þraut meðan þeir lifðu báðir. Í þessi ferð herra Brands biskups varð þat mark á einum veizludegi, at Hákon konúngr sá enga rèttu fram koma firir Árna klerk ok hans mötunauta, þá sem fram kómu firir kennimenn þá er at konúngs borði vóru. [þá] mælti hann: „hvat hafa nú prestar biskups?" — Má af því hugsa, hvílíkar hans meðferðir vóru, at hinn vitrasti maðr hugði hann æðra mann at vígslum en hann var. En þá er biskup fór til Íslands, fylgði Árni honum til Hólastaðar, ok var þar með honum vel virðr þat ár sem biskup lifði.

---

1) [ b. v. 204. 2) [ 204; kallaðist engum manni, *S.* 3) getg.; Brandr, *S.*

4. At Brandi biskupi liðnum sendu Norðlendíngar þenna sama Árna í Skálaholt á fund [herra[1] Sigvarðar biskups, ok beiddu at hann setti mann firir kennimenn firir norðan land ok yfir staðinn á Hólum; ok er hann kom í Skálaholt, vissi biskup skjótt af honum, hvern skaða Hólastaðr hafði fengit í fráfalli síns formanns, ok hvers Norðlendíngar þyrfti við. Tók hann þat ráðs, með samþykki [hinna[1] vitrustu manna, at hann gaf prestvígslu þessum sama Árna djákn, ok skipaði hann yfir stólinn at Hólum, at stjórna lærðum mönnum ok ólærðum, þar til er sú kirkja fèkk sinn formann; gerði hann því svá, at [þessum sama[1] sira Árna vóru kunnastar framferðir Brands biskups, ok hvar þá var hverju máli komit í hans biskupsdæmi. En þegar margir vitrir menn vissu, hversu honum fór þat sköruliga af hendi, [trúðu þeir[2] þessa hans firirfarandi framferð vera forynju eðr firirfara hinnar fremri tignar, sem síðarr bar raun á[3].

Maðr hèt Oddi, hann var djákn at vígslu, ok átti vel penníngа; hann fèkk sèr konu, Ólufar Broddadóttur, ok með frænda ráði; vóru þar váttar at heitorði. At þessu ráði var með honum Gizorr jarl Þorvaldsson, er þann tíma bjó at Stað í Reyninesi, ok skildu þau saman ganga at ákveðnum tíma. Sira Árni varð þessa skjótliga víss, ok því at Heinrekr biskup, ok Brandr biskup eptir hann, höfðu báðir subdjáknum ok öllum mönnum þeim, sem sværi vígslur[, firirboðit[4] at kvænast, lagði hann bann firir, at þetta hit ósæmiliga samlag veri bundit framarr. Jarlinn reið þó til brúðkaups með Odda, svá sem ekki veri um mælt, ok með hans ráði fór fram boðit. En er þessi tíðindi kómu firir sira Árna, lýsti hann forboði yfir Odda, ok öllum þeim mönnum, er at boðinu sátu. En þann dag sem jarl kom heim, brá honum vá firir grön, því at kirkja var byrgð at Stað; ok þá er hann spurði hví þat gegndi, var honum sagt. Nokkoru síðarr var fundr lagðr til þessa máls, ok sóttu þeir báðir, sira Árni ok jarl, þenna fund; bar jarl fram fornan landssið, ok sjálfs síns dæmi ok margra annarra manna, til þess, at þessháttar hjónalag, sem var með Odda ok hans konu, hefði lengi verit lofat, en þat var ófirirsynju nokkot sinn firirboðit. Sira Árni sagði á móti, at páfarnir, er öllum lögum eigu með rèttu

1) [ b. v. 204. 2) [ 204; ok trúði, *S*. 3) Brandr biskup dó á því ári 1264, b. v. *S*. 4) [ hans, firirbuðu *S*; bæri vígslur, sum handr.

at ráða, höfðu svá frekliga af numit ok firirboðit þesskyns samlag undir pínu fullkomins banns. Um síðir lètti jarl firir sönnum skynsemdum, ok staðfesti sira Árna, ok tók lausn af honum ok allir boðsmenn; sór Oddi af hendi sèr konu þá, sem hann hafði sèr ætlað. At skilnaði mælti jarl við sira Árna: „þess vænti ek, frændi, at flestum munir þú verða eigi firirlátsamr, þótt þú eigir málum at skipta, þar sem þú lèzt eigi firir mèr". Reið sira Árni heim til Hóla, en jarl til Staðar.

þenna tíma, er Jörundr biskup var vígðr til Hóla af Hákoni erkibiskupi ok skipaðr yfir allt land, sakir elli ok vanmegnis Sigvarðar biskups, vissi hann honum nauðsynligan þann fulltíngismann, er hann styrkti ok styddi í öllum nauðsynjum kirkjunnar; sá hann engan mann annan betr fallinn til þessa starfs en sira Árna, ok því sendi hann hann í Skálaholt, ok tók Sigvarðr biskup gjarna við honum, var hann þar þá xij mánuði. Á því ári andaðist Sigvarðr biskup, ok veitti sira Árni honum graptliga þjónustu[1].

5[2]. þetta sumar tóku hinir vitrustu menn með samþykki Jörundar biskups þat ráð, at kjósa[3] sira Árna til utanferðar, at fara með brèfum, er þat váttuðu, at menn á Íslandi beiddu virðuligan herra Jón erkibiskup, er kosníngi átti at ráða, at hann veldi Árna til biskups í Skálaholti. Hann tók þessu nokkot seinliga, en þó, firir sakir bænastaðar allra hinna beztu manna, sigldi hann með brèf þeirra, ok kom á erkibiskups fund, en hann gaf eigi samþykki til þessa bænastaðar at sinni, er af Íslandi kom, ok kaus til biskups sira þorleif *in dominica Lætare Jerusalem;* en hann andaðist eptir[4] páskaviku; var þá sira Árni kosinn ok *confirmatus in festo sancti Leofredi,* til Skálaholts biskups, ok vígðr *in commemoratione sancti Pauli apostoli.* Á því ári var vígðr Erlendr biskup til Færeyja. Eptir þat er Árni hafði biskupsvígslu þegit af herra Jóni erkibiskupi, bjó hann ferð sína til Íslands, leiddi erkibiskup hann út sæmiliga, ok veitti honum í vingjöf *Decretalem cum apparatu;* váttaði hann í vígslubrèfi herra Árna biskups, at eigi var firir þat þorleifr fyrri til kosinn at vera biskup heldr en Árni, at hann fyndi nokkorskonar brest vera á hans meðferð eðr lifnaði, því at hann reyndi hann at vera bæði vitran ok góðviljugan til allra

---

1) en Jörundr biskup vígðist til Hóla árið fyrir, 1267, b. v. *S.*
2) hèr byrjar fyrra skinnblaðið, 220. 3) 220; skrifa, *S.* 4) í, 220.

nauðsynligra hluta ok biskupligra þarfinda, ok þat bauð hann hans undirmönnum í krapti guðligrar hlýðni, at þeir tæki við honum vel ok sæmiliga, ok sæmdi hann [sem] sinn föður ok forstjóra, ok heyrði hans kenníngar. Þat váttaði ok Magnús konúngr í sínu brèfi, at honum var þessi [sami] Árni kunnigr at góðum hlutum, ok þat bað hann ok bauð öllum sínum þegnum en hans undirmönnum á Íslandi, at þeir tæki hann vel ok sæmiliga, ok virði hann ok tignaði í öllum þeim hlutum, sem til heyra kristiligri hlýðni, heilagri kirkju til sæmdar, svá sem andligan[1] föður.

Eptir þat er Árni biskup hafði skilit við virðuligan herra Jón erkibiskup *in divisione apostolorum*, sigldu þeir [í haf, ok greiddist þeirra ferð vel ok ekki allskjótt; kómu þeir[2] skipi sínu í Eyjafjörð þváttdaginn eptir *assumptionem beatæ virginis*, ok litlu síðarr fundust þeir Jörundr biskup, ok fèkk Árni biskup honum þau brèf, sem erkibiskup sendi honum; stefndi hann þá saman fólki, ok vóru þar frammi höfð erindi erkibiskups ok þær siðbætr, sem hann hafði þeim boðit. Eptir þat riðu þeir báðir samt suðr um Kjöl, ok kómu í Skálaholt *in decollatione beati Johannis;* stefndi Árni biskup þá fund við presta ok bændr; lèt hann upp lesa boðskap erkibiskups, ok stóðu þar þessir hlutir í, at allir menn knèfalli með upphaldandi höndum þann tíma í messunni, er haldit er upp holdi ok blóði várs herra, ok svá þá er borit er til sjúkra manna; svá ok, at engi maðr festi sèr mey eðr konu til eiginorðs áðr en lýst veri í kirkju þrem sinnum; svá ok, at frillumönnum skuli firirbjóðast at taka Krists líkama at páskum, utan þeir festi frillur sínar til eiginorðs, eðr skili við þær fullkomliga; svá ok, [at] allir staðir ok tíundir skildi gefast í biskups vald; svá ok, at engi skildi byggja dautt fè á leigu. Tók alþýða manna vel þrimr hinum fyrrum greinum, en um staðamál ok okr var seinliga tekit. Síðan sendir hann þenna boðskap um allt sitt biskupsdæmi; tóku þeir honum, er hann heyrðu síðarr, mjök sömu leið sem hinir fyrri. — Á þessu sama hausti ok öndverðum vetri fór Árni biskup víða um Sunnlendínga fjórðúng, var honum játað hinum minnum kirkjum, en þeir sem hinar ríkari kirkjur hèldu vóru fastari firir. Oddastaðr var þá kallaðr kaupaland af þeim er

1) andligum, *S.* 2) [ b. v. 220.

hann hèldu, ok vildu því einkis máls á ljá, nè grein á gera hvat kirkjan ætti, ok fór biskup heim við svá búit, ok var heima þann vetr.

6. At vári komanda hafði Árni biskup hönd á Oddastaðarmáli; lèt hann þá raunarstefnu stefna til þess, hvárt Oddastaðr veri kirkju eign; ok er at þíngi kom, reið hann til þíngs, ok krafði dóms um þetta mál; var þá dæmt, at Oddastaðr veri kirkju eign, ok svá þar með þær eignir, sem henni bárust. Á því sama þíngi krafði biskup staðar í Hítardal; þar hafði klaustr verit. Ketill Loptsson, er þar bjó, vildi hann eigi upp gefa. Biskup bjóst til at bannsetja hann þá þegar á þínginu; ok er Ketill sá, at þat mundi eigi firir farast, jáði hann, at greiða af hendi staðarins fè at sinni, þeim sem biskup vildi, en kallaði þat þó ekki rètt; [skaut hann[1] ok margir [aðrir] sínu máli á konúngs dóm[2]. Biskup jáði því, ef hann yrði samþykkr erkibiskupi, en ella sagðist hann einum saman erkibiskups dómi hlíta mundu um[3] þetta mál. At ákveðnum tíma sendi biskup Ólaf ábóta ok Runólf ábóta, ok Þorgrím prest Magnússon til viðtöku staðarins fjár, en þeir kómu aptr með þeirri sögn, at eigi var lauss staðrinn eptir því sem ætlað var. Firir þetta fjárhald bannsetti Árni biskup Ketil, eptir ráði lærðra manna sinna, *in translatione sancti Thorlaci episcopi Skalholtensis*[4].

Þetta sumar reið Árni biskup firir norðan Sólheimajökul, ok rak biskupligt embætti um Austfirðíngafjórðúng, ok eptir tilskipan herra Jóns erkibiskups hóf hann tilkall á alla staði, þá sem [þar vóru; en þótt þat yrði með nokkorum mótmælum af þeirra hendi, sem þar hèldu kirkna[5] eignir, fèkk hann vald yfir flestum stöðum, utan Þváttá ok Hallormsstöðum; gengu því Austfirðíngar lèttligar at þessu, at hinn sæli Þorlákr, með ráði Eysteins erkibiskups, hóf þat sama tilkall á Svínafelli til Sigurðar Ormssonar, ok hann jáði biskupi þeirri kirkjueign; vóru ok eptir þessu dæmi vel flestir staðir í hans vald gefnir í Austfirðínga fjórðúngi. En eptir kirkjuvígslu ok messu skipaði hann staðinn í lèn Sigurði, ok af þessu tiltæki biskups hófst sá vandi, at höfðíngjar í Austfjörðum skipuðu staði [með ráði eðr samþykt[6]

---

1) [ 220; skutu, *S*. 2) 220; dóminn, *S*. 3) 220; yfir, *S*.
4) firir miklum mannfjölda, ok stóð hann í því banni þat sumar ok um vetrinn, b. v. 220.
5) [ 220; áðr hèldu þesskyns, *S*. 6) [ b. v. 220.

biskupa allt til Árna biskups. En af því hann tók öll kirkna forráð, af hverjum sem áðr hafði, undir sik, vóru margir tregir til at segja sèr af hendi þat áhald, sem þeir þóttust áðr eiga. — Um haustið snýr biskup heim í Skálaholt, tók hann þá einkanliga at bera alla önn firir staðinn ok hans eign; var þá í burtu Jón Skúmsson, er lengi hafði þar ræðismaðr verit. Staðrinn var þá mjök af sèr kominn sakir húsa, en kirkja hrörnut mjök at þökum[1]. Nú því at biskup var áhugamaðr mikill ok stórmenni í lund, ok veitti mörgum mikit gott, ok varð því stórt í at ráða: var þá til bús ok staðar ger eigi minni skuld en CCC hundraða, varð sú skuld sakir[2] annarra fjölskylda seint algoldin.

7. Herra Árni biskup hafði ok optliga fjölmennar veizlur heima á staðnum, ok fóru þær [fram] með miklu kappi ok stórmensku, því at hans hugr var gjarn af öðrum stórt at þiggja, svá ok harðla gjarn stórt öðrum at veita. Firir slíka hluti ok aðra þvílíka varð hann stórliga frægr ok mjök sóttr af alþýðu; hann sat opt yfir málum manna, ok þótt hann hefði eigi veraldligt vald, sem hinn heilagi Ambrosius biskup hafði á sínum dögum, vildi þó hverr hann til síns máls kalla, meðan þeir vóru sjálfráðandi firir konúngligum valdsmönnum, ok þóttu þann tíma þau mál flestum mönnum bezt komin, er hann sá yfir; fèkk hann af slíku mikit kallz ok annsemd, ok þar fjárkostnað með. Mörgum mönnum sýndist hann heldr optarr halla gerðum á klerka, en óvini sína; virðu menn þá fyrstu sök til þess, at hann vildi eigi láta þá vanrefsaða vera, sem hann átti yfir at dæma, en sú önnur, at hann mætti firir þat djarfliga heimta rèttindi firir sik eðr sína vini í þeim hlutum, sem aðrir áttu þeim svara í þeim málum, er hann átti eigi yfir at dæma, en sú hin þriðja, at hann gerði sèr vini af óvinum í því, er hann hèlt þeirra hlut langt fram, þótt vinir hans veri í móti, sem forðum gerði Jón Loptsson, ok endrtrygði þá óvinina með sæmdum eðr fègjöfum. En þat sem hann sýndist klerka harðliga dæma, ef þeir gerðu leikmönnum aflaga, var með fyrrnefndum þrem sökum sú hin fjórða grein, at honum þótti ill þeirra föll;

---

1) þrotin búshægindin, þau er lengi höfðu vel enzt, meðan Sigvarðr biskup mátti fulla umsjá veita, b. v. 220, og endar hèr fyrra blaðið.

2) getg.; v. í *S*.

firir þat kostgæfði hann af þeim at venja öll ókynni, svá at hvergi veri heilagri guðs kristni ósæmd at þeim. Mörgu sinni bar ok svá til, ef þeir gengu glaðliga við hann at borði, [þá] skipaði hann þeim fèsamar vistir, eðr veitti aðrar hjálpir, svá at þeir máttu vel við sín málalok una. — Árni biskup breytti ok margri skipan hinna fyrri biskupa til miskunsemdar: hann [skipaði] at þau börn, sem eigi fengu skírn, skildi grafa utan við kirkjugarð, en áðr vóru þau grafin fjarri vígðum stöðum sem sekir menn, ok kölluðu fáfróðir menn þau útburði; veitti þat ok mörgu sinni, at í þeim stöðum, sem þau vóru grafin, fengu menn firir sakir eiginnar ótrúar ok andskotans [umsátra ýmisligar sóttir, eðr undrsamligar sýnir ok margskonar mein[1] sinna fylgjara. En síðan virðuligr faðir Árni biskup eyddi þessi villu, fengu menn í þeim stöðum, er þau vóru síðan jörðut, ekki mein af þessi fjandans umsát; fann ok fyrrnefndr Árni biskup dýrðarfullt dæmi hins mikla Augustini til þessarrar skipanar, þess er heldr kvaðst vilja vera sem þessi börn, en eigi vera; þat taka svá vísir menn, at hann vildi heldr eiga þeirra heimván. Þat var ok siðvani ok skipan hinna fyrri biskupa, at lík þeirra manna, sem utan kirkju stóðu firir vanhagi sína, ok á þann tíma, sem þeir liðu or líkama, ok stóð þessi skript á: at lík þeirra skildi eigi í kirkju bera, en grafa þó í kirkjugarði, en hann skipaði, at hvers manns lík, þess sem at kirkju ætti leg ok í sætt var við kirkjuna, skildi í kirkju bera. Þat var ok siðvani, at þær konur, sem á sæng andaðist, skildi grafa í kirkjugarði, ok bera eigi lík þeirra í kirkju, en hann skipaði, at lík hverrar þeirrar konu, er í sætt veri við kirkjuna, þó at af sængarferð andaðist, skildi í kirkju bera; skildi kona ganga með loganda kerti firir líkum þeirra kvenna, er í sjúknaði höfðu með bóndum sínum börn alit, en firir allra annarra líkum með engu kerti; hann skipaði ok: í þeim sjúknaði sem þær áttu börn at fæða, at þeirra[2] skildi vitja, skripta, husla ok olea, ef þær veri banvænar, þegar þær veri í sætt við heilaga kirkju, en áðr var þvert í móti af biskupum boðit.

8. Um várit eptir þenna vetr fóru menn á millum Árna biskups ok Ketils Loptssonar, þess er hèlt Hítardals stað, ok

1) [ 204; umsátrum ok ymisligum sóttum e. undrsamligum sýnum ok margskonar meinum, *S*. 2) getg.; þær, *S*.

um síðir kómu þeir saman; sór Ketill sèr af hendi staðinn, ok hann skildi hann aldri kalla sína eign nè sinna erfíngja, nema Jón erkibiskup eðr Magnús konúngr dæmi honum, hann sór ok at greiða staðinn af hendi at næstum fardögum ok alla hans eign, ok at bæta þat sem hann hefði brotið í óhlýðni ok rángindum við heilaga kirkju ok biskup sinn, eptir hans dómi ok þeirra lærðra manna, sem hann vildi til kalla með sèr, ok at halda aldri stað á móti biskupi sínum, ef hann hefði rètt at mæla. Tók þá Þorgrímr prestr Magnússon, sá er áðr hafði þegit staðinn *canonice*, við honum ok allri hans eign á næstum fardögum, sem áðr var skilt.

Árni biskup hèlt þá enn áfram Oddastaðar máli, en þeir bræðr, synir Steinvarar, sem áðr eru nefndir, kölluðu staðinn móðurarf sinn, því at Steinvör móðir þeirra keypti hann með miklu fè af Birni Sæmundarsyni ok Sæmundi Haraldssyni utan biskups ráð; síðan keypti Sighvatr hann at móður sinni hálfan, ok þóttist hann firir því meira í eiga, en þeir Loptr ok Sturla bræðr hans. Nú því at Árna biskupi þótti mikit firir at fella stórmæli á þá bræðr, ef nokkorr mætti annarr útvegr til finnast, sá er heilög kirkja mætti fá sína sæmd, gerðu þeir samníng á með sèr, at Árni biskup skildi þola, at þeir bræðr ætti búnað á stað, ok hafa þar góðan smið til kirkju uppgerðar, ok fá honum efni til þeirrar smíðar; en ef nokkut tálmaði smiðinn, skildi herra Runólfr ábóti ok Þorsteinn Halldórsson, er þá bjó at Hváli ok átti Íngigerði Philippusdóttur, kveða á hvat firir skildi koma; þeir bræðr skildu ok tregðalaust uppgefa staðinn ok halda engri hans eign, ef sá orskurðr kæmi, at biskup ætti þeirri kirkju at ráða ok hennar fè, af beggja hendi konúngs ok erkibiskups; ok skildi ok sá standa sem þeir gerði, þó at þeir dæmdi öðruvís. Steinvararsynir skildi ok gjalda fè með stað, nema þeir konúngr ok erkibiskup kallaði þá frjálsa þar af. Þeir skildu ok fè þetta útgreiða at sumri, nema þeir fengi af sèr prófat á næsta þíngi lögliga með yfirsýn Árna biskups. Þeir bræðr riðu heim, ok hèldu þat allt sem þeir urðu ásáttir.

9. Á þessu sumri sendi virðuligr herra Magnús konúngr til Íslands Þorvarð Þórarinsson ok Eindriða böggul, hirðmann sinn, þar með Sturlu Þórðarson með lögbók norræna, ok var þá eptir um sumarit játað þíngfararbálki, ok tveimr kapitulum or erfðabálki, um festarkonubörn ok um arfleiðíng, ok þegngildi

um allt land, en eigi fleira. — At gervum þessum samníngi um *Odda*, seinkuðu margir, þeir sem þvílík mál áttu, at ganga at borði við biskup um þessar kirkjueignir, sem þeir hèldu, höfðu flestir þá vörn firir sèr, at herra Jóni erkibiskupi mundi ókunnig kirknamál á Íslandi, ok sögðust eigi trúa mundu, at honum mundi sýnast at kalla þær af þeim, ef hann vissi, at þeir, sem þær gáfu at upphafi, skildu æfinlig forræði þeirra undir sik ok sína arfa, en undan biskupum ok lærðum mönnum. Rafn Oddsson, er átti Þuríði dóttur Sturlu Sighvatssonar, ok þá bjó í Stafaholti, stóð ok mjök í móti biskupi um staðamálin; honum hafði Magnús konúngr skipat hálft Ísland. Hann sannaði firir almenníngi, at konúngrinn vildi eigi samþykkja, at bændr veri sviptir þesskyns eignum, ok eigi heldr, at þeir veri saklausir bannsettir; en biskup sagði á mót, at þat var fals Rafns, *en eigi orð konúngs*, ok þat *vóru frá upphafi kirkjulögin*, at eigi skildu leikmenn, heldr klerkar, varðveita allar kirkju eignir; en þótt ljótligr kaupmáli ok at rèttindum ómátuligr veri á þessum kirkjum gerr, átti þat at standa í honum, sem nokkoru var *nýtt*, en *hitt*, sem firir öndverðu var *ónýtt*, mátti enga hefð gera nè band, ok átti firir ekki at haldast. Nú þó at biskup flytti þessar skynsemdir, fèkk hann eigi lærðan almennínginn firir fortölum Rafns. Ritaði Árni biskup til Jóns erkibiskups, ok sagði frá, hvar kirkjumálum var komit, ok svá hvat þá hindraði, ok beiddist af honum fulltíngs, ok at hann kendi honum þær skynsemdir, sem kirkjunnar ok hans óvinir yrði firir at láta. — Þetta sama ár, sem samníngr var gerr við Steinvararsyni, ritaði [fyrrnefndr] Árni biskup til [virðuligs herra] Magnúss konúngs, þess er hann trúði sannan ok fullkominn vin kirkjunnar, at með sínu konúngligu valdi byrgði munn á þessum hennar óvinum ok sínum mótstöðumönnum. En er Magnús konúngr sá þessi brèf, tók hann vel hans málum, en *ritaði á móti sína* beiðslu, svá sem at henni þeginni vildi hann fulltíngja biskupi at fá framgang síns vilja, ef firir hans fullting fengi hann framkvæmd síns vilja, en sú var konúngsins beiðsla, at biskup skildi eggja menn á Íslandi at taka við lögbók hans, ok sagði at honum var svá flutt, at sakir burða, vígslu ok framkvæmdar, mundi hann mestu á leið koma um þenna hlut við landsfólkit; hann tjáði ok þat firir honum, at þat veri biskuplig skylda, at eggja fólk á þá hluti, sem þeim

var bæði í sæmd ok uppreist, siðbót ok nauðsyn. Konúngrinn ritaði ok, hvernig hann tók biskupsins beiðslu, at hann kallaði hann til sín með fullkomnum blíðskap, ok sagðist bæði hann ok aðra hina beztu menn hjá sèr vildu hafa, at ráða um þenna vandahlut; lèt hann ok fylgja þessu brèfi fagrar presentur: silfrker gylt utan ok innan, ormstúngur ij, buðk af [e]*lectuario* gott við frosti; kómu þessar [gjafir] til [herra] biskups annat sumar eptir þíng, með fyrrnefndum Eindriða böggul, ok brást hann vel við konúngsins sendiboð, ok lagði á allan hug at þau fengi framkvæmd; var ok á þessu þíngi lögtekin öll lögbók, sú er konúngrinn hafði utan sent, nema erfðabálkr var eigi lögtekinn, nema tveir kapitular, er hit fyrra sumarit var játað.

10. Árni biskup bar jafnliga mikla annsemd firir því, hversu þetta mál mætti gagnsamligan enda eiga; sá hann eigi annan líkara útveg, en leggja sjálfan sik í hættu, at eigi veri firir hans leti í salt lagið sök hins krossfesta, ok rèttindin undir fótum troðin; víkr hann skjótliga undir konúngsins sendiboð, ok siglir til Noregs þetta sumar; fóru þá af Íslandi margir hinir ríkari menn, Rafn Oddsson, Þorvarðr Þórarinsson, Sighvatr [Hálfdánarson] mágr hans, með umboði lögliga teknu af bræðrum sínum Lopti ok Sturlu, til þess at svara ok sækja Oddamál, ok Einarr Þorvaldsson, er Vatnsfjarðar kirkju hèlt firir Árna biskupi. Þá sigldi ok Þorsteinn Halldórsson, Ketill Loptsson, Brandr Andrèsson ok margir aðrir. Þat sumar tók Sturla Þórðarson við lögsögn, er áðr hafði Þorleifr hreimr. Þeim biskupi fórst vel ok tóku Noreg, ok tók Magnús konúngr honum með mikilli blíðu. Á þessu ári var vígðr Gregorius páfi *[decimus]*, en áðr hafði páfalaust verit nær v ár. Í þenna tíma var í páfans hirð sira Sighvatr, kórsbróðir af Niðarósi, vin Árna biskups, ok firir hans bæn fèkk Sighvatr af páfanum Gregorius þat *privilegium*, undir innsigli *Hermanni*, er þá var *primarius* herra páfans, at fyrrnefndr Árni biskup skildi leysa mega XXX þeirra mála, sem áðr hafði hann eigi vald yfir, eptir þeim hætti sem þat sama brèf váttar. Kom þessi [sami sira] Sighvatr á þessu ári aptr í Noreg með þeim tíðindum, at þessi Gregorius páfi hefði eptir ij ár stefnt öllum erkibiskupum ok ljóðbiskupum, ok þar með ýmisligrar tignar formönnum heilagrar kristni, utan þeim sem fullkomin nauðsyn tálmaði, í þann stað sem Leontium heitir, til almenniligs þíngs, at allir þessir for-

menn skildi komnir ij. *kal.* Maji mánaðar, at tala um lausn hins heilaga Jórsalalands, ok at kalla þær þjóðir, er *Greciam* bygðu, aptr til almenniligrar trúar, af þeirri þrætu sem þeir höfðu í staðit. En því at Árni biskup sá sik eigi mega peníngum ná af Íslandi, svá at eigi yrði hann ofseinn til þessa fundar, sótti hann á fund[1] Jóns erkibiskups at þessu ok at mörgum öðrum sínum málum, þeim sem áðr eru sögð, ok einkanliga um kirkna mál á Íslandi, þótt hann hefði þat ritað í móti þeim beiðslum þessa Árna biskups, at hann skildi svá fram fara sem hann hóf upp[2]; ok þegar Jón erkibiskup vissi hans girnd, lèt hann upp firir honum allan sinn vilja, svá ok, at hann bannaði leikmönnum lög at segja um kristinn rètt; gerðu þeir svá meðan þeir lifðu. Herra Jón erkibiskup hugleiddi þá lengd ferðarinnar ok fjölskyldi þá, er Árni biskup varð firir fulla nauðsyn at bera í þeim málum, sem [upp vóru hafin[3] á Íslandi, en eigi til enda færð; gaf hann honum leyfi at fá menn firir sik til nefnds þíngs í Leonis. Tók þá sira Sighvatr þetta starf á sik ok umboð með ráði erkibiskups, at svara ok játa öllum þeim málum, sem Skálaholts biskupi heyrðu á þessu þíngi; leysti hann þat umboð vel af hendi, [sem váttar þat brèf meistara Nikulai af Tracia, er þá var kapalin Gregorii páfa meðan þíngit stóð, ok páfinn hafði til skipat at ransaka umboðsmenn biskupanna, hversu þeirra brèf fóru af hendi[4]. Margir hlutir gerðust þar um Árna biskup í þessi ferð, er mikillar frásagnar veri verðir, frá sæmd þeirri, er Magnús konúngr veitti honum, ok hann reið þann vetr [með honum] um miðföstuskeið or Björgvin ok austr í Sarpsborg til móts við Valdimar Svíakonúng ok bræðr hans. Á þeim vetri gaf Magnús

1) hèr byrjar síðara skinnblaðið 220: (sótti hann) virðuligan herra Jón erkibiskup, o. s. frv.

2) Gjörði herra Árni biskup því svá, at hann sá engan jafnlikligan til at sigra með sèr sína mótstöðumenn, sem Jón erkibiskup. Árni biskup vissi ok, at Jón erkibiskup ætlaði nýjan kristinn rètt at skipa, sem hann gerði, ok hann hafði boðit honum með þessum hætti fram at fara á Íslandi, sem hann fór fram í Noregi; girntist hann ok af sjálfum erkibiskupi at heyra, hvat (hann) vildi nýta láta or hinum forna kristnum rètti á Íslandi, eða hvat hann vildi or láta, eðr eptir hverjum bókum þat skyldi samansetja, sem í varð at leggja, b. v. 220.

3) [ 220; upphöfð, S.

4) [ b. v. 220; í hinum er hlaupið yfir frá *af hendi* til *af hendi*.

konúngr Eireki syni sínum konúngsnafn í Björgvin, en Hákoni hertoga[nafn[1].

11. Nú af því at [herra] Árni biskup hefir kunnigt gert herra Jóni erkibiskupi hvar komit var staðamálum á Íslandi, ok þá vóru til Noregs komnir formenn þeirra: ok beiddist hann ráðs ok fulltíngs um þessi mál. Byrjaði erkibiskup ferð sína um sumarit til Björgvinar, var þar firir Magnús konúngr ok Árni biskup ok fjöldi annarra göfugra manna. Var þá settr stefnudagr iij. *kal.* Julii, at Oddastaðar mál skildi ransakast ok dæmast af Jóni erkibiskupi. Magnús konúngr var beðinn at sitja hjá dómi þeim, en hann bauð at fá mann til páfa þann er vel kynni at flytja þetta mál firir honum, [en biskup hèldi honum kost; hann neitaði því[2]. Konúngrinn fèkk þá Auðunn, er hestakorn er kallaðr, hinn vitrasta mann til landslaga, ok annan herra Þóri, son Hákonar, er var erkibiskup firir Jón erkibiskup, þann er vel kunni kirkjunnar lög, at heyra af sinni hendi, at Sighvatr veri eigi ofsóktr. En sú var sök til þess, hví um Oddastað var kært, at hann var frægstr af stöðum, en mörg mál þóttu fullkomin hin minni, þau er eina leið vissi við, ef or veri skorit um it meira.

Á tilsettum degi, þá er virðuligr herra Jón erkibiskup hafði til sín kallat þá menn, sem honum líkaði við þetta mál at hafa, var fyrstr af þeim herra Árni biskup af Skálaholti, er hann skipaði at vera sóknarmann á Sighvat Hálfdanarson ok á annan mann Einar Vatnsfirðíng. Sighvatr hèlt Oddakirkju, ok átti at svara firir bræðr sína Lopt ok Sturlu. Einarr hèlt Vatnsfjarðarkirkju ok átti firir hana svörum at halda. Árni biskup bar fram sínar kærur með þessum hætti: „Minn virðuligr herra Jón erkibiskup! Ek Árni biskup kæri firir guði ok yðr upp á Sighvat Hálfdanarson, at hann heldr ok kallar sèr kirkju hins heilaga Nicolai í Odda til forræðis ok allra aftekna, ok bræðrum sínum. Nú firir því, at Sighvatr á hèr svörum at halda firir báða bræðr sína um þetta mál, þá beiðumst ek, at þèr dæmit heilagri kirkju öll þau rèttindi, sem hon á at hafa, en mèr ok mínum eptirkomöndum rèttum allt vald ok forsjó kirkjunnar, slíkt sem Skálaholts biskupi heyrir eptir guðs lögum." — Sighvatr hafði þessi svör firir sèr á móti: „Ek Sighvatr," segir hann, „ætli at þat skilorð mætti standa, sem Sæmundr

1) [ 220; dóm, *S*. 2) [ b. v. 220.

Sigfússon gerði firir Oddastað, at hann skildi sèr forræði ok varðveizlu hans, ok sínum örfum æfinliga." En þá er þetta var fram borit, sór prestr Árna biskups firir hann upp á sál hans, at biskup skal satt fram bera eptir sinni samvizku, ok eigi leyna sannindum þeim sem hann er spurðr at [í] þessu máli. Slíkt hit sama sór Sighvatr upp á sína sál. Herra Árni biskup kærði ok með þvílíku móti á Einar Vatnsfirðíng um Vatnsfjarðarkirkju, ok [með] sama hætti sór hann, sem Sighvatr hafði áðr svarit um Odda mál. Síðan var Sighvatr spurðr, hvárt Oddastaðr veri kirkju eign kallaðr. Hann kvaðst ekki mundu því á móti mæla, ok svá þó, at Oddaverjar skildi varðveita. Sighvatr segir firir erkibiskupi, at Steinvör, móðir hans, keypti Oddastað at Birni Sæmundarsyni ok Sæmundi Haraldssyni, ok síðan tóku þeir Sighvatr ok bræðr hans í erfð eptir hana. Sighvatr játaði ok, at hann á hèr svörum at halda firir bræðr sína, ok því hefði þeir samþykt. Með sama hætti beiddist Árni biskup af Jóni erkibiskupi, at hann dæmdi honum slíkt vald, sem til Skálaholts biskups heyrði yfir kirkju í Vatnsfirði undan Einari Þorvaldssyni[1], en Einarr segir, at Þórðr [föður]föðurfaðir hans, lèt gera kirkju í Vatnsfirði, ok lèt vígja með þeim máldaga, at hann ok hans rèttir erfíngjar, hverr eptir annan, skildi eiga forræði firir ok varðveizlu. Árni biskup svaraði svá[2], at af því kallaði hann á um þessar kirkjur, at honum sýnist, at þeir megi þær eigi halda nè eiga með rèttindum, ok at erkibiskup bauð honum svá í skyldu ok hlýðni við guð ok sik, at hann rètti slíka hluti með valdi síns biskupsligs embættis, með öðrum þeim hlutum, er umbóta þurfa á Íslandi í Skálaholts biskupsdæmi, ok hann segist ok svá hafa skilit *jura*, at þau segja biskup eiga vald yfir kirkjunum ok öllum þeirra eignum, en leikmenn eðr ólærðir menn megu þær með engu móti at erfðum eignast, ok eigi megu þar skildagar firir ganga; eigi megu ok kirkjurnar kaupast nè seljast utan mikils sáluháska, ok því fær engi sá rèttiliga haldit þær nè haft, er svá kemst at. Jón erkibiskup tók þá til máls: „Af slíkum skynsemdum at skilja, sem nú hefir Árni biskup hèr framflutt, beiðir hann oss, at vèr dæmim af Sighvati ok

1) er sèr kallaði kirkjuna til forræða ok aftekju, b. v. 220.
2) af báðum þeim Sighvati ok Einari, b. v. 220.

bræðrum hans, svá ok af Einari Þorvaldssyni, forræði ok [alla aftekju[1] allra eigna þeirra kirkna, sem fyrr vóru nefndar, at ónýt[t]um þeim vörnum, svá at aldri síðan eigi þeir ok þeirra erfíngjar nokkort tilkall kirknanna. Nú af því at heilagrar kirkju lög vátta, at ljótligr kaupmáli, eðr af rèttindum[2] ómátuligr, má ekki band fullkomna með rèttu, [ok þat sem í fyrstu er eingis vert, þá má þat eigi síðan firir nokkot standa, þó at stundir líði, ok forræði þessa staða mátti engi biskup undan sínum eptirkomöndum[3] [gefa]; ok af því at þetta mál er til várs dóms komit: þá gerum vèr þenna orskurð í nafni föður ok sonar ok heilags anda, at vald ok skipan, forræði ok varðveizla Oddastaðar ok Ólafskirkju í Vatnsfirði, með öllu því sem þar liggr til, hvárt sem þat er tekit eðr ótekit, neytt eðr óneytt, nema þat eitt, sem til kirkju þarfinda hefir haft verit, dæmum[4] vèr undir Árna biskup í Skálaholti ok hans lögliga eptirkomendr, honum ok þeim eilífliga firir at ráða, ok firirbjóðum Sighvati ok bræðrum hans, ok svá þeirra örfum, Einari ok hans örfum, nokkot ákall um þetta. Var þetta gert í Björgvin, þá er liðit var frá burð drottins várs Mcclxxiij ár, á Jakobs vöku aptan[5].

Síðan er virðuligr herra Jón erkibiskup hafði lokit á dómsorði um vald ok varðveizlu Oddastaðar, þá bar Sighvatr þegar fram þessa kærslu firir erkibiskupi, ok sagði [at] Sæmundr Jónsson hefði fengit lx^c vöru Páli biskupi þá er hann fór til vígslu, með þeim hætti, at Sæmundr skildi taka biskupstíundir af svá mörgum bæjum ákveðnum í nánd Oddastað á hverjum xij mánuðum; skildi þetta vera leigur af þessi vöru, sem herra biskup hafði við tekit, þar til er lx^c veri greidd í öðru lagi af Skálaholtsstað Sæmundi eðr hans örfum; kallar Sighvatr þat til marks, at Sæmundr ok hans arfar höfðu æ tekit á hverju ári svá miklar biskupstíundir af sömum bæjum sem fyrr var sagt, þar til er Árni biskup tók þær af Oddaverjum. Árni biskup svarar, at hann kunni eigi í móti at mæla, at þetta hafði svá farit, sem Sighvatr flutti, en sagðist eigi vita, hvárt ættmenn Sæmundar höfðu firir þessa, eðr aðra grein einhverja, haft ok sèr kallat biskupstíundir þessar. Þorvarðr Þórarinsson leitaði þá at sanna sögu þessa með Sig-

1) [ 220; allra aftekja, *S*. 2) 220; afrettindis, *S*, 204.
3) [ b. v. 220, sem endar hèr. 4) sóru, *S*.
5) þessi dómr finst og í *transscripto* Ögmundar biskups, ár 1518.

hvati mági sínum. Herra erkibiskup spurði þá Sighvat, hversu mörg ár Sæmundr ok hans arfar höfðu tekit biskupstíundir þessar; en þótt Sighvatr vissi þat eigi, fanst skjótt, at síðan Páll biskup fór til vígslu vóru liðnir nær lxx[x] vetra. Nú með því, at hvárirtveggju höfðu flutt slíkt sem vildu, ok Sighvatr beiðir dóms af herra Jóni erkibiskupi um þetta mál, þá sagði [erki]biskup þat vera sinn dóm, at með því Sæmundr ok hans arfar höfðu tekit vj hundruð vöru á hverju ári af biskupstíundum, þá höfðu þeir skuld sína á x árum, en þat er þeir höfðu meira tekit þar af, þat eigu þeir allt aptr at gjalda stólnum í Skálaholti, en þat verða vel ccc hundraða vöru. Nú at svá luktu máli þessu ok teknu ráði af herra Jóni erkibiskupi, þá segir svá Árni biskup, at hann gaf alla þessa skuld, fírir sína hönd ok staðarins í Skálaholti, öllum þeim mönnum, sem þessu máli áttu at svara, nema nokkorir af þeim gerðist óverðugir þessarar uppgjafar í mótgangi eðr óhlýðni við sinn biskup ok heilaga kirkju. Eptir þenna atburð lögðu allir mótstöðumenn kirkjunnar niðr þat sem þeir þóttust eiga á at halda, ok lètu af sèr, at kalla, kirkjur, hvárt sem þeir höfðu áðr þær með verði keypt eðr í erfð tekit. Þessir menn önduðust íslenzkir þenna vetr: Þorsteinn Halldórsson, Brandr Andrèsson, Ketill Loptsson; en á Íslandi: Vilhjálmr prestr Sæmundarson ok Ketill prestr Þorláksson. — Þetta sumar fór Árni biskup til Íslands með mikilli blíðu við konúng ok erkibiskup, ok þetta sumar kómu til Íslands þeir Rafn Oddsson [ok] Þorvarðr Þórarinsson, ok með flutníngi biskups ok þeirra fyrrnefndra valdsmanna var þetta haust játað norrænum erfðabálki. At Marteinsmessu kom biskup heim til stóls síns, varð fólkit honum stórliga fegit; tók hann þá enn á nýja leik at styrkja guðs kristni í mörgum heilsusamligum kenníngum.

12. Litlu eptir messudaginn hóf biskup heimanför sína til Borgarfjarðar ok tók veizlu í Reykjaholti, þar bjó þá Egill Sölmundarson; hann hafði fírir búi sínu Þórunni, dóttur Garða-Einars, ok fengit til eiginkonu at frænda ráði; en því at Egill var subdjákn at vígslu, ok hann hafði þessa konu fengit í ólofi Sigvarðar biskups, mislíkaði Árna biskupi þeirra samband, ok taldi mjök á þau bæði, ok neyddi drjúgum til skilnaðar með hótun stórmæla ok banns. Nú þvíat sakir forns landssiðar, ætternis ok ástar, ok þess er þau vóru börnum bundin, at þau

áttu sonu, Snorra og Jón, er kallaðr var eptir Jóni murta Snorrasyni, ok dætr þrjár, Íngibjörg ok Hallbera, er Kolbeinn jarl átti, ok Guðný, er gipt var Finnbirni, syni Sigurðar í Hvammi í Vatnsdal: gekk Egill tregt at borði um þetta mál, en því at Árni biskup þröngði fast, bæði með valdi ok skynsemdum, tók Egill þann kost, at sverja eptir boði Árna biskups þessa Þórunni sèr af hendi með þeim eiðstaf, sem í kirkjulögum er skipaðr; var Þórunn gipt öðrum manni, er Sigmundr hèt, ok var son Ögmundar, son[ar] Digr-Helga, er bjó í Kirkjubæ. Tók þá biskup í sætt þau bæði, ok skriptaði eptir því sem honum líkaði. Átt hafði Egill fyrri við þeirri konu er Guðný hèt, er stjarna var köllut, Valgerði, Steinunni, ok Þórarinn prest, er kallaðr var kaggi. Nokkoru síðarr fylgdi Egill Þórunni Valgarðsdóttur, ok vóru þeirra börn: Þórðr lögmaðr, Andrès, Helgi, Gyða ok Álfheiðr.

13. Eptir lyktað mál þeirra biskups ok Egils, sneri hann ferð sinni ofan til Bæjar ok reið með honum mart fólk. Á þeim degi varð sá atburðr, at sá maðr er Marteinn hèt, ok var Másson, ok ráðamaðr var lengi at Helgafelli með herra Ólafi ábóta Hjörleifssyni, reið á aðra hönd Árna biskupi ok stórliga nær honum. En er þeir vóru komnir fram um bæinn í Kálfanesi, hjó váveifliga með mikilli öxi til þessa Marteins sá maðr er Guðlaugr hèt, ok var Tannason; kom höggit á handlegginn nær öxlinni, ok varð mikill áverkinn, svá at blóð þat, sem af undinni sprændi, hljóp stórliga mjök á klæði biskups. En sú var sök milli Guðlaugs ok Marteins, at hann hafði í vápnaskipti vegit í Dölum Tanna, föður Guðlaugs, en í hefnd hans var þegar veginn Páll, bróðir Marteins, eigi firir aðra sök, en hann skaut undir bróður sinn skjótara hesti en þeim sem áðr reið hann, ok kom honum svá undan bana, en flýði eigi sjálfr, sem hann ætti ekki um at vera. Málin vóru í dóm lagin, ok fèllust vígin í faðma; en þvíat þessi Guðlaugr var þá barn at aldri ok ekki at sættum spurðr, þóttist hann missa föðurbóta við Martein. Biskup varð af tveimr sökum stórliga reiðr þessum Guðlaugi: var sú hin fyrri, at hann þóttist at fjölhöggi hafðr náliga, ok mikil ván á, at á hann mundi komit hafa höggit, ef af Marteini hefði stokkit, þar sem drjúgum lágu saman axlir þeirra, en sú önnur, at honum þótti firir sína návist hafa tekit verit frekt til óhappsins, þvíat Marteinn hafði eigi varazt um-

sátr. Hann kallaði ok Martein sýknan, þar sem áðr var dæmt málit ok veittar trygðir. En Guðlaugr mat lítils þykkju biskups um þetta, þvíat hann hafði á sèr stórar skriptir um stund ok stórmæli Árna biskups, þar til er hann gekk til sættar við hann, bæði firir þann ósóma, er biskupi þótti til sín gerr, ok þann áverka, er Marteinn fèkk af honum. Vóru mál þeirra dæmd á alþíngi, en þó stóð Guðlaugr undir skriptum hörðum um stundarsakir; hafði hann ok tveim sinnum öðrum leitað mein at gera Marteini, en um síðir líknaði biskup Guðlaugi firir bæn herra Þórðar á Möðruvöllum, ok tók af honum sína óblíðu. Marteini varð langt mein at sárinu ok varð þó alheill um síðir. Biskup fór þaðan út í Melasveit, ok skipaði þeim hlutum, sem honum þótti nauðsynjar til standa; eptir þat sneri hann til Nesjanna, ok svá heim á leið[1]. Þaðan sneri Árni biskup suðr um heiði ok var heima í Skálaholti þann vetr, ok var sá hinn fimti hans biskupsdóms.

14. Um várit reið Árni biskup austr um ár, ok setti þann prest í Odda, er Grímr hèt, ok var son Hólmsteins bróður Þorgeirs í Holti, ok Jóns, er átti Herdísi, dóttur Jóns Örnólfssonar. Móðir Gríms var Guðrún, dóttir Orms breiðbælíngs Jónssonar; hafði þann stað áðr haldit Sighvatr Hálfdanarson með bræðrum sínum, sem fyrr var getið. En þótt hann veri í fyrstu hinn gildasti af mótstöðumönnum biskups, tókst brátt með þeim hinn mesti blíðskapr sá er lengi hèlzt. Fór [Sighvatr nú búnaði sínum[2] í Skipaholt, þar sem Árni Jónsson bjó, mágr hans, ok á þessum vetri setti biskup[3] fullkomliga kristin[s]dómsbálk saman með ráði Jóns erkibiskups, er hann lèt síðan fram halda eptir því sem sagt mun verða; má sá hverr, er forvitnar, lesa svá sem í honum stendr orð eptir orð.

Um várit eptir þenna vetr fór af Noregi *ad curiam* virðuligr herra Jón erkibiskup ok Askatín Björgvinar biskup, Andrès biskup af Oslo, ok sóttu þat *generale concilium*, sem um várit var haldit í Leone iij. *kal.* Maji mánaðar, ok kómu aptr á sama ári með þeim boðskap páfans Gregori ok skipan þessa þíngs, at allir klerkar skildi um vj næstu ár leggja tíundir af öllum rentum sínum; en þat sama *statutum* kom híngat um sumarit

---

1) Þetta haust siglir Jörundr biskup, b. v. *S*, 204, og mun vera skotið inn. 2) [ *U*; hann þá, *S*. 3) hann, *S*.

eptir með brèfum Jóns erkibiskups, sem váttaði með hverjum hætti várir biskupar skildu þessu efni fram halda á váru landi við klerka ok almúgann, ok Jörundr biskup fór með sem enn mun sagt verða.

Á þessu sama ári urðu þau tíðindi á fyrrgreindu þíngi *in Leonti*: *Græci* hvörfu aptr til almenneligrar kristni af þeirri þrætu sem þeir höfðu haldit um stundar sakir, með ráðum ok röksemdum Gregori páfa. Þá sendi ok Philippus Frakkakonúngr Magnúsi konúngi part af krónu várs herra Jesu Christi. Þá var ok Eðvarðr Englakonúngr krossaðr til Jórsalaferðar ok margir aðrir dýrðligir höfðíngjar. Þá andaðist Jakob erkibiskup í Danmörk. Magnús konúngr lèt efna til kirkjugerðar í grasgarði sínum í Björgvin. Valdimarr Svíakonúngr flýði í Noreg firir bræðrum sínum, hertoga Magnúsi ok júnkherra Eireki; ok þá er hann kom aptr í Svíaríki varð hann fanginn ok gaf upp krúnuna, ok komst eptir þat á flótta á Konúngahellu. Þá varð í Þrándheimi svá stórt hagl, at hinir stærstu haglsteinar stóðu XV aura. Þá brann bær í Túnsbergi. — Þetta sumar reið virðuligr herra Árni biskup til alþíngis, ok með hans fulltíngi var lögtekinn hinn nýi kristinsdómsbálkr, utan fá *capitula*, þa[u] sem menn vildu eigi samþykkja, fyrrum en[1] herra Magnús konúngr ok Jón erkibiskup gerði þat statt, hversu þau skildi standa, svá sem þeir vóru beðnir af almúganum.

15. Á þessu sumri kom út Jörundr Hólabiskup ok svá *statutum concilii generalis*, þat sem fyrr var af sagt; en þegar Árni biskup sá brèf páfans ok Jóns erkibiskups, fór hann um allt landit ok þíngaði til þessa máls, ok prèdikaði firir fólki, ok eggjaði menn at láta krossast til Jórsalaferðar, birtandi firir mönnum þær aflausnir, sem herra páfinn hafði gefit þeim, sem með sínum líkama ok af sínum kosti færi til Jórsala, ok berðist, ef þarfir gerðist, til frelsis því helga landi, sem sjálfr guðs son tignaði með sínum dreyra, at þeir skildi fá fullkomna aflausn ok líkn allra þeirra synda, sem þeir hefði játað með viðkomníng hjartans, með aukníng verðleiks ok ávexti eilífs verkaups í himinríki, svá ok at páfinn tók alla krossaða menn undir sitt vald, ok vernd Pètrs postula ok sjálfs síns, ok öll

1) hèr byrjar fyrsta skinnblaðið 122 b., og er því fylgt.

þeirra skuldabjón ok allar[1] þeirra eignir, skipandi biskupana um alla kristni verndarmenn[2] þessum mönnum til allra rèttra mála, þeirra sem þeir ætti við aðra menn at skipta, hvern í sínum biskupsdómi, ok þat með, at krossaðir menn skildu eignast öll þau einkamál ok allar þær rèttarbætr, sem standa í almenniligu afgiptarbrèfi þeirra manna, sem krossins heit fylla. Skipuðust ok margir menn vel við hans kenníng, ok tóku nýnefndan kross á sín klæði; sumir lögðu penga fram; gaf ok herra Árni biskup sitt brèf með innsigli til sanns vitnisburðar öllum þeim, sem [hann] lagði krossinn á, eptir tilskipan herra páfans. En um tíundargerð af kirknafjám skipaði hann svá til, at þar sem menn tæki einnar persónu verð á tólf mánuðum betr en til vj marka brendra, skildi greiðast af hinn tíundi hlutr til frelsis helgu Jórsalalandi um vj ár, at engum kostnaði aftöldum. Hann skipaði ok, at hverr prestr, sá sem messusöng hefði, skildi til þessarrar ferðar leggja eyri vaðmáls á hverjum þessarra vj ára, er tíundin stóð yfir. Hann þá ok þat af bóndum, at hverr sá sem þíngfararkaupi gegndi gæfi hinum helga krossi alin vaðmáls á hverjum vetri af þessum vj; skildi saman teljast vj bændr í hverjum stað, svá at fyrsta ár lyki einn af þeim firir alla þá, en annarr annat ár, hinn þriði hit þriðja, til þess er liðin veri vj ár. Hann lèt ok presta sýngja dag í viku, með tilskipuðu *officio* af páfanum, messu firir þessum ófriði, ok bað kalla þar fólk til álögulaust, at offra, hverjum eptir því sem guð kendi honum; varð þetta offr allt saman stórliga mikit. Hann skipaði ok hina skilríkustu menn hvervetna, at taka þetta fè saman, svá at þat kom allt vel til skila eptir hans skipan. Hann valdi ok hinar vísustu persónur af prestum sínum, at predika kross, með sínu brèfi, ok at eggja fólk á nýgreindar miskunnargjafir almáttigs guðs drottins várs.

16. Á þessu sama ári gipti herra Árni biskup Guðnýju, dóttur Helga Loptssonar ok Ásbjargar systur sinnar, Þórði Hallssyni af Möðruvöllum í Eyjafirði, ok var veizlan heima í Skálaholti at áliðnu sumri; er þar af sannast at segja, at hverjum sínkum manni mundi þat vera mjök minniligt torræki, ef hann lèt svá sína penga tærða, sem þar tærðu þessir frjálsir menn sinn kost, er efnit fengu til þessarrar samdrykkju, því at allt

1) leiðr.; allra, 122. 2) verndarmann, 122.

fór saman, at boðsmenn vóru margir ok mikillar frægðar, mikil húsakynni ok mikilmannliga innan búin, ok innleiðslan stórmannlig, vistaföngin valin, drykkrinn dýrr, útleiðslan ágæt af beggja hendi.

þenna vetr var herra Árni biskup heima í Skálaholti; en þvíat sjálfr guð sýnir þá einkanliga sína elsku við sína sonu, er hann leggr á þá sprota sinnar ráðníngar: lagðist Árni biskup, at vilja þess, er sína menn vill hirta með margföldum mótfellum, í sjúknað á jólaföstu, ok sú sótt þreyngði honum svá mjök, at hann lá í rekkju mikinn hlut föstunnar, ok um síðir þótti vinum hans ok sjálfum honum þat ráð, at hann stefndi til sín þeim frendum sínum, sem ná mætti, ok þeim öðrum mönnum, sem hann vildi til ráðagerðar þangat kalla; ok er þeir kómu þar, gerði hann svá sem sannr vinr laganna lögligt *testamentum*, þat sem enn er varðveitt heima þar á staðnum, ok annan aptan, þá er menn kómu þar fákátir at rekkju hans, mælti hann við prest sinn, þann er Hallr hèt, ok var ritari hans: „hversu þikkir yðr sem skipist sóttarfar mitt"? Hann svaraði svá sem einn firir alla: „Herra", segir hann, „nú sýnist oss sól vár at setri komin". Herra biskup hugleiddi orð hans, ok skildi til hvers hann mælti, ok til hvers koma mundi, ok sá alla hryggja þá sem hjá vóru. þá mælti biskup svá: „nú it fyrsta sinn sè ek, at þèr elskit mik". þar næst lèt hann olia sik til lykta, ok beið öröggr guðligrar tilskipanar. En þvíat faðir allrar rèttrar miskunnsemdar sá þenna mann nauðsynligan sínu fólki, at bera starf ok mæðu, firir þat tók hann af honum þúnga þessarrar sóttar, ok veitti at móti fagnað langrar heilsu, at fagnaðar degi hins signaða burðar síns sæta sonar, ok urðu þá biskups ástvinir stórliga fegnir ok margir aðrir.

At liðnum þessum jólum var herra Árni biskup at stóli sínum til várs. þann [vetr] urðu þau tíðindi, at Gregorius páfi andaðist iiij. *idus Januarii*, ok kallar alþýða hann helgan. þá var kosinn Innocentius *quintus*, *in festo sanctæ Agnetis*, ok litlu síðarr vígðr. Hann var fyrstr páfi af prèdikarahúsi, ok lifði eigi allt til Jónsvöku. þá var tekinn til páfa Octinbonus *cardinalis*, rómverskr ok ágætr ok kallaðr Adrianus *quartus*. Hann söng enga messu, þvíat hann varð eigi vígðr til prests, en hann andaðist firir vígsludaga milli Maríumessna. þá var tekinn til páfa meistari Petrus *Hispanus cardinalis* á drottinsdag firir krossmessu, ok

kallaðr Johannes xxj.us — þenna vetr var ófriðr milli Dana konúngs ok Svía. Valdamarr Birgisson Svíakonúngr kom til Björgvinar á fund Magnúss konúngs. Um sumarit eptir var fundr þeirra Magnúss Noregskonúngs ok Magnúss Birgissonar, er Svíar höfðu þá til konúngs tekit; sá fundr var í Gautelfi við Hörsaberg, ok leitað um sættir milli þeirra bræðra Valdimars ok Magnúss, ok vanst ekki at í því sinni. Magnús konúngr gaf í Túnsbergi jarls nafn Magnúsi jarlssyni, [syni Magnúss jarls[1] af Orkneyjum. Þá andaðist Þorgils Stafangrsbiskup.

17. Á þessu hausti, er umliðit var, kom til Magnúss konúngs brèf biskupanna ok sýslumanna ok handgenginna manna á Íslandi, ok þar með almúgsins, at menn höfðu lögleiddan, eptir boði biskupanna ok tilskipan herra Jóns erkibiskups, nýjan kristinsdómsbálk, ok var þetta brèf með allra þeirra innsiglum, ok þó með þeirri grein, at þeir vildi honum eigi meirr framhalda, en hann stæði til þess er konúngr ok erkibiskup vildi annan skipa eðr þessum breyta þar sem þeim líkaði; ok jafnfram þessi frètt kom firir konúnginn sú sögn, at biskupar bannaði heimamönnum sínum at greiða skatta eðr þíngfararkaup, svá ok at biskupar legði á menn nýja tolla eðr pyndíngar, svá sem um matgjafir þeirra vatnföstu nátta, er menn föstuðu á sumar at boði Árna biskups, en fyrrum á vetr; var þá eigi framarr gefit en firir þau fulltíða hjón, sem bóndi fæddi tvau missari. Vóru ok þeir illgjarnir menn, sem biskupum ámæltu, firir þat er þeir lögðu fè á menn firir þat at gefa til frelsis Jórsalalandi, tíund af kirkna eignum, eðr báðu almenníng leggja þar til sínar ölmosur, slíkar sem guð skyti hverjum í hug. En þótt þessum misþyktar hárum væri kastað í augu skynsams höfðíngja, gerði hann sik ekki bráðan firir þessar flutníngar, heldr skrifaði hann at móti þessum flutníngi með sira Aðalbrandi, syni Helga Lambkárssonar, ok bað alþýðu firir sjá, við hvat menn mætti búa, fyrr en samþykkja nokkorum öðrum lögum, hvárt sem þat veri um kristinn rètt eðr önnur lög, en þeim, er hann skipaði, þar til er hann semdi við erkibiskup ok aðra lærða menn, hvat standa mætti; sagði hann ok þá litla vináttu mundu móti taka, er öðruvís gerði; lèzt hyggja þetta vera sitt starf ok erkibiskups, en eigi annarra manna, at

1) frá [ b. v. eptir ísl. Ann. og Laurentius sögu.

skipa kristinn rètt í landi hans eðr önnur lög. þat lèt hann ok fylgja, at hann hugði at þeim mundi gott hafa til gengit, sem gert höfðu. En at móti flutníngi þeirra, sem firir honum sönnuðu, at biskupar pyndi um rètt fram ok móti fornum vanda, ritaði hann svá, at hann firirbauð neinum leikmönnum at ganga undir neina pyndíng, ok eigi til einnar vaðmáls álnar, utan svá sem at fornu hefði verit, ok bauð þeim til sín at halda fyrr en játa. En um viljanligar ölmosur til Jórsalaferðar, ok hvervetna hvar sem prèdikat verðr eptir páfans boði: kvaðst hann því síðr banna vilja, at hann sagði þann hvern sèr betra þikkja, er kross tæki, ok legði svá sína muni til Jórsalaferðar, þótt menn gerði þat eigi firir skyldu sakir eðr álaga. Svá greindi hann um aðrar ölmosur, at honum líkaði vel, at hverr gerði sjálfkrafi slíkt firir sálu sinni, sem guðlig mildi kendi honum; hann kallaði ok ráð, at nýta þann púnkt, sem þá stóð yfir, ok ganga undir þá eina nýjúng sem hann gerði ráð firir. Vóru þessar konúngsins tillögur annathvárt firir þat, at hann vildi, meðan Jórsalatíund stæði yfir, enga hluti óviljanliga inn láta leiða, svá at þaðan af mætti þat skyldu kalla at ganga fyrrum undir, en þeir sættist firir hönd lærdómsins ok alls ríkisins.

18. þessi misseri sat Árni biskup um kyrt fram um þíng; síðan fór hann í sýslu sína til Austfjarða. Á þessu sumri fèkk Sigurðr [á] Seltjörn, Sighvats son [hins] auðga ok Vilborgar dóttur þorgeirs í Holti undir Eyjafjöllum, Valgerðar, systur þórðar bónda Hallssonar, ok var boðit á Möðruvöllum; kom þar til mart stórmenni: herra Jörundr biskup, Rafn Oddsson ok Jón lögmaðr. þangat fór ok herra Árni biskup austan or Fjörðum; þar var ok Runólfr ábóti af Viðey, Eyjólfr ábóti frá þverá, ok fjöldi annarra manna; var veizlan nær viku eptir Bartholomeusmessu, ok veitt með hinu mesta kappi. Til þessarrar veizlu kom þá sunnan af Eyrum sira Aðalbrandr prestr með boðskap herra Magnúss konúngs, þann sem fyrr var af sagt, ok litu þeir formennirnir á hann allir samt. Var þat þá talat í glenzi, at þangbrandr veri kominn annat sinn at kristna Ísland. þar kom ok boðskapr herra Jóns erkibiskups, í hverjum orðum er hann eggjaði biskupana at halda fram rètti kirkjunnar, sem framast veri föng á. Fleiri hluti hafði Magnús konúngr skipat um stjórn ríkisins á Íslandi, ok fylgði því brèfi hin mestu sæmdarmál til hans, nú sem fyrrum. Herra Árni biskup ritaði þegar at móti

öllum þessum konúngs brèfum með líkum efnum ok í almenníngs brèfi stóðu hit fyrra sumar, ok þat með, at hann hefði lögleiddan kristinsdómsbálk, þann sem hann lèt fram bera [ok] sendi til Noregs undir skoðan konúngs ok erkibiskups til[1] umbótar. Fóru þessi brèf þegar firir norðan land í skip, ok svá þau, er andsvöruðu erkibiskups boðskap. Sneri[2] Árni biskup síðan í sýslu sína til Austfjarða ok heim um haustið; var sira Aðalbrandr með honum vel metinn þann vetr.

þessa vetr, síðan er Árni biskup kom út, hafði þorvarðr þórarinsson sýslu firir sunnan heiðar, ok sat hinn fyrsta vetr í Odda. þaðan fór hann til Keldna, ok var þar til þess er hann ætlaði at sigla í Vestmannaeyjum. Knörr sá hinn mikli, er þeir vóru á, varð aptrreka; varð nokkot fjártjón, en allir menn hèldust. þat sumar andaðist sá maðr af skipinu, er Eyjólfr hèt, sonr þórðar í Langaholti; hann hafði verit í mötuneyti með þeim mönnum, er annarr hèt Ólafr, sonr Halldórs langs, er þá bjó í Húsagarði, en annarr hèt þórðr, ok var kallaðr kuggr, sonr Ásmundar, er búit hafði á þeim bæ í Vestmannaeyjum, sem nú er kendr við konu hans Vilborgu, móður þórðar, því at hon lifði honum lengr. þórðr í Langaholti þóttist missa peninga þeirra, sem [Eyjólfr átti[3]; hann hugsaði á hendr mötunautum sonar síns til eptirleitanar. þetta mál fèkk hann í hendr þorvarði bónda til sóknar; hann bar þat á Ólaf, en Ólafr synjaði alls, nema matskála nokkorra, þeirra sem þeir hefði haft á borði, þat eitt kvaðst hann eigi til skiptis borit hafa. þorvarðr ætlaði honum eigi annat, en heimta með freku[4] frásögn þeirra hluta. Ólafr sótti Árna biskup at málinu, en því at hann hafði bók spámannsins, þess er svá mælir: „leiti þèr lagadóms, hjálpit þeim sem þreyngdr er", hugleiddi hann, at þessi maðr mundi ofsóktr verða, ef eigi hylpi hann honum; af því átti hann nokkorar stefnur við þorvarð um þetta mál. Honum eirði illa, þar sem hann hafði miklar hugarhræríngar, þat er biskup ógnaði honum sverði heilagrar kirkju, ef hann lèti Ólaf eigi ná með eiðum at synja þess, sem á hann er borit, þvíat þorvarðr kallar óskylt at eiðar komi firir sumt, en sumt veri viðgengit. Biskup svarar á móti af heilögum *Decretalibus*, at eigi átti firir viðgöngu lítils hlutar [vitnalaust at firir-

1) ok, 122. 2) hèr v. 2 blöð í 122 b. 3) [ b. v. eptir getg. 4) frekri, *S.*

dæma[1] um allt þat, sem menn vildi á hann bera, svá at eigi næði hann undanfærslum. Um síðir varð þat, með biskups trausti, at Ólafr skildi eið vinna eptir landslögum firir málit; ok eptir lögliga biðstund gekk Ólafr til eiðs ok sór. En þá er váttar hans skildi sanna eið hans, eptir því sem þeir höfðu heitið honum, ok biluðu þeir allir, sigraðir með fortölum eðr ógnarmálum Þorvarðs, ok kallaði hann Ólaf fallinn at máli. Biskup segir, at [hann] veri unninn með ógnarmálum ok óeinörð þeirra, sem áðr höfðu nýjátað eiðnum. Um síðir, með góðra manna tillögu, var málit í dóm lagit ok dæmt. En á þessi stundu töldu hvárigra vinir firir Þorvarði, at eigi þyrfti hèr dóm á at hafa, annan en Ólafr veri sannr at sök ok viðgengit við málinu. Þorvarðr gekk þá til dómsmanna ok segir: „segit upp dóminn, en hann mun ek at engu hafa nema mèr getist vel at honum." Biskup var nær ok mælti: „ek firirbýð yðr at segja upp þenna dóm, nema Þorvarðr játi at halda hann í alla staði." Dómsmenn þóttust vant við komnir, ok vildu hvárigum í móti gera, ef þeir sæi, at svá [mætti] með rèttu vera. Nú þvíat þeir trúðu biskupi framarr til rèttsýni, sögðu þeir[2] upp dóminn. Þorvarði eirði þat illa, ok lèt Ólafi eigi óhætt skildu vera, ef hann legði eigi þetta mál á hans vald. Biskup firirbauð Ólafi þat, ok kvað Þorvarð eigi mundu gera honum nokkot mein, þótt hann lèti grimmliga, þar sem mál vóru handsölut ok dæmd at lögum. Skildu þeir biskup ok Þorvarðr með fullkominni óþykt ok missætti.

19. Sá hlutr bar enn til missættis biskups ok Þorvarðar, at einn lítill bóndi ok miðlúngi orðsæll, sá er Sturla hèt, vildi eigi selja Þorvarði geldinga sína svá ódýrt sem hann vildi. Litlu síðarr bar svá til, at á einum litlum bæ var soðit um dag. Menn kómu firir Þorvarð ok sögðu, at þessi maðr Sturla hefði hlaupit inn í húsin váveifliga, ok gripit höfut af sauð or katlinum ok hlaupit í burt með, ok runnit þeim skjótt hvarf. Þorvarðr bar málit á Sturlu, ok hèt honum fjötri, þvíat hann þrætti þessa áburðar. Hann sótti biskup at þessu máli, ok sagði sik ósannan at sök. Biskup spurði hvat manna [á] hann bar sökina. Hann segir honum. Biskup mælti: „viltu eiðum

---

1) [ getg.; vijtalaust (vitalaust, 204) at firir koma, *S*, 204.
2) eigi, b. v. *S*, 204, *U*.

firir standa, ef þèr er þess unt." Hann kveðst þat gjarna vilja. Biskup mælti: „ek mun rita til hans fyrst, ok vita hvat at gerist." Síðan fèkk biskup mann til at bera brèfit til Keldna. Þorvarðr lauk upp brèfit ok las yfir. Þar stóð svá, eptir kveðjusendíng: „Svá er mèr flutt, at þú heitir þeim manni, er Sturla heitir, fjötri eðr fèláti firir þau kensl, er engi vitni bera honum, nema vandamenn þeir, er ekki eigu um þetta mál vitni at bera; lízt mèr þetta ekki þín gerð, þar sem þú átt með þessum manni ekki[1] at gera, utan þiggja af honum einseiði, ef þèr líkar þat at hafa, þvíat málit er ekki svá mikit, at fleiri þurfi at synja. Gerir þú eigi svá, þá firirbýð ek þèr at misþyrma honum nè hans eign, undir slíkri pínu, sem ek á á þik at leggja." Ok er Þorvarðr hafði lesit þessi orð, varð hann reiðr, ok kvaðst eigi lögum fram koma firir kappi biskups, en þó sýndist honum eigi at hætta á hversu biskup hefði í höndum. Sá hlutr dró ok mjök til sundrþykkis með þeim, at biskup tók þann mann til sín er Ketill hèt, ok var sonr Ketils prests Þorlákssonar, ok lèt skipta peníngum hans með skuldunautum. Þessi maðr hafði verit ágangsmaðr við bændr, ok vóru víðast sakir til fundnar, svá nokkoru lögligar sem verða mátti. Biskup setti hann niðr á kirkjueign í Efstadal, ok lèt hann þar flytjast með hyski sitt. En[2] þeir, er síns mistu við Ketil, tóku þá at heimta á hann skuldir, ok með þeim Þorvarðr bóndi. Biskup tók því máli firir Ketil, ok kvað hann engar skuldir lúka skildi af heilagra manna fè. Þorvarði líkaði þetta stórilla, ok lèt þó firirfarast at leggja hendr á Ketil, nè á fè þat sem hann fór með, ok kallaðist þó lögum ræntr af þeim biskupi ok Katli. Margir bændr lögðu ok mál sín undir biskup; líkaði þat Þorvarði þúngt. En þvíat biskup hafði lögunum jafnan at fylgja, urðu fleiri fylgendr þess er hann tók upp, ok varð þúngt við hann at skipta, bæði sakir vizku, valds ok vinsælda.

Á þessu sama sumri, er sira Aðalbrandr kom út með konúngs boðskap, kómu firir Magnús konúng brèf Þorvarðar Þórarinssonar; var í þeim borit vitni, at Sunnlendíngar lèti sèr bezt fara til hans, ok[3] þó framast Sighvatr Hálfdanarson; svá

---

1) b. v. 204. 2) þegar, b. v. *S.*
3) þat fór, b. v. *S*, 204, *U.*

ok [var] Árna biskupi borit fagrt vitni, hversu honum fór í öllum málum þeim er Magnúsi konúngi vörðuðu, utan um efni sjálfs þorvarðar, ok honum þótti sèr hann þúngr. Ok í því brèfi stóð sú klausa: „Herra, í orlofi at tala, get ek flestum verða eigi allhægt at stjórna ríkinu, nema þeim sem hann leggr hendr [í höfuð[1] á sem hann vill; er ok svá mikit ríki hans á landinu, at yðrir menn skulu varla svá við horfa sem þeir þikkjast mannan til hafa eðr skaplyndi." þessi orð standa þar enn í: „þíngi váru í sumar rèðu þeir Rafn ok biskup, höfðu skamt ok meðallagi skilvíst, at því at sumum þótti. Lögsögumaðr var ógreiðr, ok skaut flestum málum undir biskups dóm ok annarra manna, þeirra er sýndist. Af lögrèttumönnum nýttist lítið." — þenna vetr vóru kyrr ein tíðindi. Um várit andaðist Jón páfi [innan pykkisdaga[2]; í hans stað var kosinn Gagitanus, rómverskr kardinali, ok vígðr nær Katrínarmessu ok kallaðr Nicholaus iij^us. Á þessu sama ári andaðist Askatín Björgvinar biskup. þá sættust þeir við Magnús konúng um þær klausur í lögbókum, er hann hafði skipaðar, en þeir höfðu eigi haldit þar til.

20. Á þessu ári gaf Magnús konúngr lendum mönnum barúna nöfn ok herra, en skutilsveinum riddara nöfn ok herra. þá sendi hann til Íslands Eindriða böggul ok með honum Nicholaus Oddsson, ok skrifaði með þeim móti þeim brèfum, sem af Íslandi kómu ok nú var frá sagt, ok svá hinum, sem hit fyrra sumar kómu. þeim Eindriða fórst vel ok kómu til Íslands, ok fóru þeir þíngum um land, ok öktuðu vísaeyri konúngs með enn meiri freku en fyrr var vandi til. þeir tóku harðliga á því, er bændr skutu málum til biskups ok undan sýslumönnum, ok kölluðu þá landráðamenn eðr brèfabrotsmenn at bezta kosti, er þat gerðu. þeir bönnuðu bændum berliga at lúka matgjafir firir þau hjón, sem eigi vóru ij misseri; en um helgihöld þau, sem biskup hafði niðr lagt, ok um föstur þær, sem biskup hafði við lagt, eðr um skript, sagðist Eindriði ekki mundu til leggja; kvað þat ákvæði Magnúss konúngs, at biskup ætti at ráða helg[i]höldum. Á þessu sumri lèt Árni biskup efna til kórsmíðar í Skálaholti, ok var mikit starf.

Eindriði bóndi sendi biskupi skjótliga þann boðskap, er til

---

1) [ getg.; ok höfut, 204; ok höfn, *S*, *U*. 2) [ b. v. 204, *U*.

hans var ritaðr; en hann ritaði at móti, ok var næst eptir heilsanarorð til konúngsins, at herra biskup þakkaði honum vinsamlig orð ok presentur, er konúngr hafði sent honum: *eina tunnu [víns] til messusöngs, ok hálft pund flúrs.* þar næst var talat um formenn ok ríkisstjórn á Íslandi, ok segir biskup Rafn Oddsson bezt fallinn af íslenzkum mönnum til þess at ráða öllu Íslandi, en segir alþýðu mundi hentara, at fleiri veri valdsmenn, ok þá mundi minni kostr fram leggjast. þar næst segir hann, at Jón lögmaðr fór vel ok vitrliga í sínu starfi, en af Sturlu stóð minna gagn en þörf stóð til, ok þar þurfti ráð firir at sjá. Hann segir ok, at höfðíngjar vóru ósamþykkir sín í milli, en allir trúir konúnginum. þar næst stóð sú klausa, at biskup kvaðst nær við alla handgengna menn vel koma skapi, utan við þorvarð, en segir þó engi sakferli þeirra í milli, kvaðst ok eigi þikkjast einn valda, ok lèt sèr af þeim einum ván afflutníngs, ef konúngrinn vildi á hlýða, en sagðist biðja, at hann gæfi honum þat eigi at sök, fyrrum en hann prófaði þorvarð betr hafa haft en sik. Eptir þat veik hann til þess, er konúngrinn hafði getið um kristinsdómsbálkinn, ok segir svá: „Lögþáttum þeim, sem lögteknir vóru firir ij vetrum, ætla ek hvergi meirr fram at halda en hóf er á." Marga aðra hluti rituðust þeir á, Magnús konúngr ok Árni biskup.

Á þessu sama sumri, er hit tíunda var biskupsdóms herra Jóns erkibiskups, kómu út brèf hans. þat hit fyrsta, at hann stefndi báðum biskupum várum til Noregs á tveggja vetra fresti, til þess kennimanna fundar, sem hann ætlaði at hafa í Björgvin. Hitt var annat, at hann ritaði enn til beggja biskupanna, bjóðandi þeim at leysa þann mann, er Oddr hèt ok var þórarinsson, bróðir þorvarðar, af því tvöföldu banni, sem hann stóð í þá er hann var veginn í Geldíngaholti: því öðru, sem Heinrekr biskup bannsetti hann, firir upptekt þeirra peNínga, sem í kirkjur vóru bornir í Felli, ok í Grímsey ok Ljósavatni, svá ok firir rán í Hvammi ok Oddr kallaði sektarfè, ok firir upptöku hvals í Grímsey, þess er biskup átti; ok hinu öðru, sem hann fèll í á Fagranesi, takandi nefndan Heinrek biskup, ok flytjandi í virkit á Flugumýri, ok harðliga haldandi í því sama virki með fullkominni nauðúng, til þess er prestar í Norðlendíngafjórðúngi ok norrænir menn tóku hann burt þaðan or öllu klandi Odds ok hans manna. En því at Oddr hafði boðit

nokkorar sættir firir sik, ok fara af hèruðum eptir boði biskups, ef engi veri annarr til; þat hafði ok Ólafr Oddsson svarit ok Svarthöfði Dufgusson firir biskupi, at Oddr beiddist prests fundar við dauða sinn, ok náði eigi; hafði sira Sighvatr kórsbróðir af Niðarósi þat brèf af páfagarði, [at Oddr skildi af því banni leysast með ráði erkibiskups ok skipan[1]. — Á þessu sumri sigldi Rafn Oddsson ok Þorvarðr Þórarinsson ok Sturla lögmaðr; brutu þeir við Færeyjar, ok vóru þar um vetrinn, en kómu um várit til Noregs. Fór Sturla þegar þat sumar til Íslands. — Á þessum vetri, er Þorvarðr hafði siglt um haustið, var vígðr Narfi til Björgvinar en Þorfinnr til Hamars. Þetta sumar fór Magnús konúngr með miklu liði suðr til Elfar.

21. Á þessu sumri fóru orð millum biskupanna um Odds mál, hèlt Árni biskup til flýtis en Jörundr biskup seinkaði; þótti Árna biskupi til Jörundar biskups koma, at lúka orði á, firir hvat koma skildi eiðar Ólafs ok Svarthöfða, firir þat er málit hafði í hans sýslu gerzt, ok hann átti lausn á hinu málinu, en Jörundi biskupi þótti Árni biskup eiga at lúka á dómsorði, firir þat er honum var í vald gefit hit hærra málit; ok um síðir fundust þeir á Reykjavelli, at hjáveranda Runólfi ábóta af Veri, ok töluðu um sagðar greinir sín í milli, ok þær aðrar, sem áðr höfðu þeir ritazt í millum, at Jörundi biskupi þótti óvíst fè þat til greiðslu, sem Hólabiskup skildi taka eptir pávans orskurð, en þat vóru LXX[c], svá mikit hafði Oddr átt þá er hann fèll í sektir, ok hermdi orð Þorvarðar, at honum þóttu bönnin röng, þau sem Heinrekr biskup lagði á hann, en sakirnar litlar eðr engar, ok hann mundi eigi nauðsynjalaust þar sitt fè til leggja. Árni biskup segir, at fè muni fást, ok eigi muni þat firir standa, en Jörundr biskup kvaðst eigi vilja þar firir hafa orð einsaman, heldr raun sèr í hendi. Árni biskup segir á móti, at honum þótti Jörundr biskup vilja gruna sik, en kvað hann eigi þess þurfa. Jörundr biskup kveðst því tregr, at honum þætti meiri ván, at þeir mundi fleiri vera, er slíka þykkju hefði sem Þorvarðr, en kvaðst því síðr gruna biskup um þetta eðr annat, at hann kvaðst at honum vænta beztrar vináttu ok helztrar, ok til marks um þat sagðist hann allt þetta mál vilja undir hans dóm leggja, „þat sem þèr þikkir

---

1) [ b. v. *U.*

til mín heyra, en þó lízt þat allmikit sinn veg hvárum okkar". Runólfr ábóti átti at góðan hlut með þeim, ok sinnaði meir með Árna biskupi; ok um síðir sagði Árni biskup, at þetta starf mundi eigi fram fara, utan hvárr þeirra gerði þat at sem átti, ok eptir þat lèt Jörundr biskup taka hesta sína ok reið norðr til hèraða, en Árni biskup reið heimleiðis.

22. Þetta sumar kom firir Árna biskup prestr sá er Guðmundr hèt, hann var sonr Guðmundar Hjaltasonar, þess er veginn var í Þrándheimi, firir sakir áverka þess, er hann vann á Þorbergi af Rauðsvelli. Prestr þessi var sterkr at afli, óeirinn ok óforsjáll, en karlmaðr at lunderni. Hann kærði þat mál firir honum, at konúngs sendiboðar hefði hrakit hann ok föng hans við Ölfusferju. Eigi miklu síðarr fundu þeir Eindriði ok Nicholaus Árna biskup; hann spurði þá, hvárt satt veri, at þeir hefði hrakit prestinn, ok föng hans, sem hann hefði flutt. Eindriði segir, at þeir hefði sannliga kipzt nokkot svá, er hann vildi eigi at þeir hefði ferjuskipit. Biskup tók þá at kæra á þá, ok mælti: „hverju vili þit svara honum firir þat, er þit tókut af honum skipit ok þröngðut at honum, en köstuðut útbyrðis föngum hans?" — Eindriði segir, at honum þótti hann gnógt vinna til, þó at þeir færði hann ok föng hans af skipi, er hann vildi kasta útbyrðis töskum þeirra, þeim sem konúngs brèfin vóru í. biskup mælti: „sè ek eptir ykkrum flutníngi, at þit hafit fellt páfa bann á ykkr af sjálfu verkinu, ok dugir með engu móti, at þit sèt eigi leystir, ok eigi þit áðr sverja firir aflausnina þann eið, sem lög kirkjunnar bjóða, en bæta prestinum rètt sinn." Þeir tóku því fjarri at bæta prestinum, en hinu enn firr, at sverja, ok horfði um skeið til hins mesta ósættis. Biskup sá þá, at þetta dugði eigi at þeir færi óleystir í skip, ok tók þat ráðs, at hann leysti þá eiðlaust, en þeir guldu prestinum vj merkr. Þaðan frá var Eindriði hinn makasti, ok samdi þeim biskupi hit bezta um alla þá hluti, sem konúngr hafði honum um boðit; lèt hann þá uppi, at Magnús konúngr hefði honum boðit, at vægja til við Árna biskup, en ekki framarr en honum líkaði við Jörund biskup. Eindriði segir, at hann vildi þola, at Árni biskup lèti sækja þau öll mál at nýjum lögum á hèraðsþíngum [sem stóðu] í fornum kristnum rètti, en kallaði eigi rangt þótt hinar fornu sektir sè á lagðar; þótti þó betr at hinar linari sè. Hann bannaði ok, at handgengnir menn sækti, ok vóru þeir Eindriði ok Nicholaus

báðir vægleiðnir við biskup, ok hann var þaðan af svá við þá, um allt þat er konúnginum var flutt, þvíat Eindriði sagði því líkara, at þar firir mátti biskup ok heilög kirkja halda því fullkomligar ok frjálsligar sinni sæmd. Litlu síðarr sigldi Eindriði. Þetta sumar ritaði Árni biskup til Magnúss konúngs um kristin[s]dóms bálk, at hann skildi ráða hversu með hann skildi fara, svo ok skip staðarins[1] ok formann til þess. Hann sendi ok konúnginum einn fríðan hest, ok kom sá vel til skila.

23. Árni biskup hafði nú látið sumka af peníngum þeim sem lúkast skildi Hólabiskupi, var þat þó raun nokkur, því at Randalín ok frændum Odds var allt óþokkat til hans, af hinum fornum málum Heinreks biskups, lagðist þar til af peníngum Guðmundar gríss, er þá var liðinn, xx^c^, Rafn Oddsson x^c^, en Randalín xij^c^, vóru ok xx^c^ í búfè, en annat, þat sem skorti, í gripum ok silfri. Hon bað ok Árna biskup færa bein Odds í Skálaholt, kvaðst þeim staðnum framarr unna alls þessa fjár, ef svá mætti vera; kvaðst ok til legstaðar honum þangat skildi offra einhverjum grip sæmiligum, herra biskupi ok staðnum til sæmdar en bónda sínum til syndalausnar; var nú ok allt þetta fè til reiðu af tilruðníng Árna biskups, ef til þyrfti at taka.

Annat sumar eptir bjoggust þeir báðir biskuparnir til utanferðar á Eyrum, því at norðr var ekki skip. Árni biskup sendi þá brèf til Jörundar biskups, at honum líkar ekki annat um Odds efni, en þeir leysi hann, fylgjandi brèfi erkibiskups; ok þegar er brèf[it] kom bregðr Jörundr biskup við, ok ferr í sýslu sína allt norðr til Öxarfjarðar, ok virðu sumir honum þa[t] til undanbragðs, at eigi kæmist lausnin fram. Sumir tóku svá upp, at firir því at utanferð stóð á honum vildi hann flýta för sinni, til þess at hann mætti fyrr aptr koma. Ok er Árni biskup vissi þetta, brá honum nokkot svá í brún, ok hugsaði þó, at láta eigi firirvinnast. Ok nær þíngi sendir Árni biskup Auðun koll með brèfum til Jörundar biskups, ok segir, at hann ætlar sèr til Seilu á Seljumannamessu dag, ok fylgja erkibiskups brèfi, ok biðr, at hann skjótist nú eigi undan sem áðr hafði hann gert. Auðunn fór ferðar sinnar hvatliga, ok finnr Jörund biskup á Skinnastöðum í Öxarfirði, ok bar fram brèf Árna biskups. Jörundr biskup las þau yfir ok ritaði ekki á móti. Reið Auð-

---

[1] getg.; sitt, *S* (sbr. kap. 42, 45).

unn svá aptr, at hann vissi eigi gerr um ferðir Hólabiskups. Árni biskup reið heiman sem hann hafði ákveðit, ok með honum Runólfr ábóti or Veri, Klængr Teitsson ok enn fleiri góðir menn, ok er þeir kómu á Mælifellsdal, reið Auðunn kollr í móti þeim, ok segir hversu fór meðr þeim Jörundi biskupi. Árni biskup brá ekki at heldr sinni ferð ok firirætlan, ok reið laugarkveld á fyrrnefndan dag til Seilu, ok sitr þar drottinsdaginn. Á sunnudaginn kómu þangat prestar af Hólum, ok sögðu at Hólabiskup var heim kominn, ok hann bauð Árna biskupi til veizlu á staðinn. En at teknu ráði af förunautum sínum sagði hann sik at Seilu mundu bíða Hólabiskups. Prestarnir riðu þegar heim, ok segja Jörundi biskupi svör Árna biskups. Mánadaginn snemma kallar Árni biskup til sín Auðun koll, ok þann mann sem Þórarinn hèt, ok var kallaðr bausti, son Illuga prests. Hann mælti þá: „ekki er ek vanr við verkstjórn, en þó vil ek skipa til vinnu. Þit skulut grafa upp bein Odds Þórarinssonar, ok gerit þat vandliga, síðan skulu þit þvá þau hreinliga, ok skipa í kistu þá, sem vær höfum sunnan haft með oss, ok til þess var ger". Þeir unnu þat sem firir þá var lagt, ok er því var lokit var kistan sett á garðinn firir sunnan kirkju, ok stóð [þar]; ok er lítið leið, sjá þeir Árni biskup mannareið í túnit, þar var kominn Jörundr biskup; sá hann skjótt, hvat þar var at hafzt. Kvöddust þeir biskuparnir blíðliga. Ok er Hólabiskup var af baki stiginn, ok hafði komit til kirkju, gengu þeir suðr á völlinn, ok þat fólk sem með þeim var, þvíat Árni biskup vildi þá opinberliga tala um Odds mál. Hann beiddist þá af Jörundi biskupi, at þeir skildi frammi láta lausnir þær, sem boðskapr erkibiskups stóð til, sá er hann lèt þá berliga lesa firir öllum þeim sem hjá vóru. Jörundr biskup tók öllu seinliga, en veitti engi afsvör[1]; fóru þar fram margar greinir. Af því var langan tíma dags yfir þessu máli setið; fylgði Árni biskup þeim bæði skynsamliga ok mikilmannliga; ok um síðir, þá er Jörundr biskup vildi honum eigi samþykkja, lèt Árni biskup fram *Decretalem Innocentii papæ* iiji., þa[nn] er skíran orskurð gefr í slíkum tilfellum; ok at honum skoðuðum gaf Hólabiskup gott samþykki til at Oddr veri leystr. Gengu þeir síðan, með þeim lærðum mönnum sem þar vóru staddir, firir kirkjudyr, ok höfðu fram þær *absolutiones*, sem til heyrðu, at

1) andsvör, *S.*

leysa fyrrgreind bein þessi [or þeim bönnum[1] sem Oddr hafði í verit, hvert eptir því sem heyrði ok lögin buðu[2]. Reið Árni biskup þá með öllu föruneyti sínu heim til Hóla, ok þá þar fagra veizlu ij nætr. Tók Hólabiskup þa[u] LXX^c, sem [af] Oddi var kallat, þann tíma er hann fèll í sektir ok bann; hann lagði þá enga penninga sèr í sjóð, heldr skipti hann þeim til klaustra; hann leysti ok Árna biskup stórmannliga af hendi með góðum gjöfum; fór hann þá at heimboði til Þíngeyra, ok veitti þat heimboð Vermundr ábóti. Herra Runólfr ábóti af Veri reið þá til Seilu, ok hafði með sèr bein Odds í lítilli kistu öðrumegin á hesti, en tjald þeirra öðrumegin, ok er þeir fara um Mælifellsdal reið Runólfr ábóti firir ok Árni bróðir ok Sighvatr með honum. Þórarinn bausti hafði í togi þann hest, sem bein Odds vóru á, ok fór illa á honum, kastaði ofan á hverri stundu, ok gengu í sundr styrk reip á[3] kistunni, en hon var eigi um vættar höfga. Bausti var mjök fornorðr. Herra ábóta þótti þetta í móti náttúru, er reip slitnuðu, ok bað Þórarinn lètta af bölvan, ok segir ván, at því færist illa er hann talaði illt. Bausti mælti at verra, en kistan þoldi uppi sem fyrr, eðr nokkoru verr. Ábóti mælti: „nú mun ek ríða síðarr, ok vit bróðir, en þú, Bausti, skalt fara firir, ok þit Auðunn, ok vita hvat at hafi". Bausti segir: „eigi mun at ykkrum skauðum gagn". Herra ábóti reið þá eptir, ok las sálutíðir. Þaðan af lá aldri af hestinum, ok slitnuðu aldri reipin, ok fórst þeim hit greiðasta, til þess er þeir kómu í Skálaholt. Árni biskup kom heim ij nóttum firir *translationem beati Thorlaci*, ok gróf þá bein Odds næsta dag firir messudaginn, ok söng sjálfr yfir. Þá offraði Randalín í sálumessu því öllu sem hon átti í gulli.

24. Á þessu sumri kom út herra Rafn Oddsson, ok var þá gerr merkismaðr; ok þá kom út Þorvarðr Þórarinsson. Þenna vetr höfðu Karelar tekit Þorbjörn skæni, sýslumann Magnúss konúngs, ok drepit af honum XXXV manna; var hann stundu síðarr leystr út með fè. Þá kom ok til Árna biskups brèf af Magnúsi konúngi ok vináttusamlig orð. Var tjáð þat *privilegium*, sem erkibiskup gaf C daga í afgipt hversdagliga öllum þeim, sem

---

1) þ. v. eptir getg.

2) hver í jörðu höfðu legit xxiij ár = anno M. cc. lxx. viij (*rètt.* 1279).

3) hèr byrjar annað blaðið af 122 b.

bæði firir Magnúsi konúngi ok drottníngunni ok barónum þeirra, en áðr hafði páfinn boðit þetta sama öllum biskupum í ríkinu, at þeir skyldaði alla lærða menn til þessa bænahalds; fylgði því *transscriptum* páfabrèf; hèr með fylgðu ij tunnur víns ok pund flúrs prestum til messusöngs. — Þetta sumar kom ok til Árna biskups brèf Jóns erkibiskups, í hverju er hann bauð þat Árna biskupi, at láta eigi konúngsmenn draga þat frelsi undan kirkjunni, sem hon hafði áðr land kom undir konúngdóminn, þat var at kaupa frjálsliga brennustein ok fálka; svá ok, at Jórsalatíund ok *sub[sidium] ejusdem terre sancte* kæmi til Þrándheims á þessu ári, er útgreiðsla þessa fjár var skiput. Árni biskup brá ok þegar við um Jórsala fèit, ok kom þat í Þrándheim sem fyrr var greint. Eptir þetta reið Árni biskup á Eyrar, ok lètu þeir út *in festo sancti Bartholomei apostoli*, en tóku Vág í Noregi firir sunnan Jaðar *in festo Proti et Iacinti*, ok lágu þar nær hálfum mánuði, ok kómu til Björgvinar *in festo sancti Remigii*. Ok á þessu ári andaðist Vermundr ábóti at Þíngeyrum viij. *kal. Januarii*.

Einni nóttu síðarr en Árni biskup kom til Björgvinar, bað Magnús konúngr hann koma út á garðinn í málstofu; gekk hann þangat með klerkum, ok fylgði honum þangat herra Narfi biskup. Ok er þeir höfðu skamma stund setið, kom konúngrinn inn, ok tók Árna biskupi blíðliga ok mintist til hans ok bað hann guði velkominn; ok eptir litla stund gekk konúngrinn út. Nokkoru síðarr um daginn sendi konúngrinn herra Ívar Guðlaugsson til biskups; hann bar honum kveðju konúngsins ok býðr honum í boð sitt næsta dag eptir, en þat var *in festo sancti Francisci*, því at hann hafði þá veizludag. Margar sæmdir þá Árni biskup at Magnúsi konúngi þann vetr, ok einn dag í jólaföstu, þá er hann sat at matborði, kom þar inn Ívarr Guðlaugsson, ok bar honum kveðju Magnúss konúngs; þar með talaði hann þessi orð hans: „ek veit at herra biskup þarf nokkot í bú at afla, nú viljum vèr fá honum c laxa ok skreiðar, hálfa lest malts, ok með oss mun hann vera um jól, ok þeir hans menn sem hann vill, ok um páska, ok alla veizludaga." Hann þá af honum [at] jólagjöf baldikinn þat, sem hann gaf herra Runólfi í Veri ábóta, þá er hann kom til Íslands.

25. At liðnum þessum vetri fèkk Árni biskup þann skaða, sem sameiginligr var allri Noregs kristni, at hinn himneski faðir, Jesus Christus, kallaði til sín virðuligan herra Magnús konúng

*in adventu beati Nicholai in Barin;* var sá skaði svá mikill öllu landsbúinu, en einkanliga klerkunum, sem forðum var fráfall hins ágæta Josiæ konúngs; var þó herra Árna biskupi skjótari skaði at dauða þessa höfðíngja hins dýrðliga, þvíat þá kom virðuligr herra Jón erkibiskup *in festo Trinitatis*, at halda þat biskupa þíng, sem fyrr var getið, ok lagði á hann óblíðu, at því sem trúist firir afflutníng eðr undirgröpt illgjarnra manna, ok gaf honum þær sakir, at hann hefði, framarr en biskupi sómdi, verit hallr undir konúnginn, en minnr undir erkibiskupinn, at firir þat yrði undir fótum troðit frelsi kirkjunnar. En hvar hafði nú Árni biskup fulltíngs at leita, er Magnús konúngr var liðinn ok mátti eigi þetta ámæli bera af Árna biskupi, ok þat með, at hann hafði um lítinn tíma eigi framhaldit kirkjunnar rètti, at hann trúði firir þessar sínar biðstundir at hon mundi álengdar fagna mega fremra rètti: nema þat at treysta á sjálfan sannleikinn, ok segja erkibiskupi hvat satt var ok sýna honum satt lítilæti; ok jafnskjótt sem erkibiskup[1] | vissi h(ans sannan góðvilja til sín ok svá at för) ..... | svá frama(rliga búinn at bæta þá hluti ef) ..... | veri áta(ldir, eigi at síðr þótt hann þættist firir) ...... | Sem þessi (hinn góði maðr Árni biskup er nú ..... *erki*|biskup tók (hann sem skynsamr faðir) .... | í fullko(mna sætt ok blíðu, þvíat) .... | -um raun(ar stöfum þenna biskup vera) ..... | sleg-i(nn, heldr styrkvan stól) ...... | eigi mundi (láta klerka rètt, ...... mætti honum framhalda, ok þat nauðigr þola, ef hann) stakaði nokkot firir ofrefli óvina kirkjunnar, ok gjarna svá framarliga á móti rísa sem framast veri föng á. — Nú ef nökkorn forvitnar, hverir hlutir skipaðir vóru á þessu þíngi, lesi hann *statuta* þau, sem biskuparnir gerðu, ok ritin standa undir þeirra innsiglum; eru ok þau tíðindi mörgum kunn, sem þá gerðust, jafnfram er herra Eirekr var kórónaðr af Jóni erkibiskupi at hjáveröndum þessum biskupum: Andrèsi af Oslo, Jörundi af Hólum, Erlendi af Færeyjum, Árna af Skálaholti, Árna af Stafangri, Narfa af Björgvin, Þorfinni af Hamri, Markúsi af Suðr-

---

1) Hèr hefir verið búið að skera sneið af 9 hinum neðstu línum á blaðinu í 122 þegar *S* var skrifuð, en nú er mestallr dálkrinn skorinn burtu. Vèr setjum hèr línuskilin í 122; þau orð sem hèr standa ólokuð, má enn sjá á línustúfunum; það sem er milli sviga ( ) er eptir *S*.

eyjum, *in festo Svithuni episcopi;* ok öllum þessum biskupum veitti Jón erkibiskup fagra veizlu á hinni fyrri Ólafsmessu. Skildi Árni biskup við hann með miklum blíðskap þá er hann fór heimleiðis til þrándheims. Árni biskup lèt í haf síðari[1] Ólafsmessu ok kom á Eyrar *infra octava[m] assumptionis beate virginis;* þá kom ok þar Jörundr biskup af Hólum, ok riðu þeir báðir samt heim í Skálaholt firir Bartholomeimessu, varð allt fólk fegit Árna biskupi ok var fögr veizla. Reið Jörundr biskup skjótliga heimleiðis, ok skildu biskuparnir með blíðu. Á þessu ári hafði andazt Nicholaus páfi; í hans stað kom Martinus páfi. þá andaðist Ólafr Grenlendínga biskup. — Sumar þetta hit sama kom út Loðinn leppr í Vestmannaeyjum með boðskap hins únga konúngs, ok með honum herra Jón; þeir höfðu meðferðar nýja lögbók til landsins, þá sem konúngr bauð at lögleiða. þessi Loðinn hafði verit nokkorum sinnum með sendíngum Magnúss konúngs til ýmissa landa ok svá út í Babiloniam; var hann af þessu frægr mjök.

26. þenna tíma hafði sýslu firir utan þjórsá Ásgrímr þorsteinsson, | bróðir Eyjólfs ofsa; hann hafði verit í fyrstu suðr um land í trausti | Árna biskups með hyski sinu; hann átti Guðnýju dóttur Mána or Gnú|pufelli. þau áttu þessi börn: Eyjólf, er át|ti Guðrúnu, dóttur Garðs or Austfjörðum; Máni, er fèkk|[2] ..... (dóttur Páls af Hvalsnesi með meinum, ok var um) þat hri | .... (Jón ok þorsteinn, er vígslur tóku af Árn)a biskupi | ..... (dóttur Orms Ögmundarsonar á Kirkj)ubæ ok | ... (Oddr son herra þorvarðar þórarinssonar)[3] ok vóru | ... ..... mjök | ..... var með | .... brenno[4] | .... |[5] ..... (fyrr)nefndr | [6]Eyjólfr bróðir Ásgríms hafði átt við sinni eiginkonu þuríði Sturludóttur — sú var laungetin — son þann, er þórðr hèt, ok dóttur, er Borghildr hèt, hon hafði gipt verit þeim manni sem Erlendr hèt, ok var son Jóns or Ási Sigurð-

---

1) leiðr.; síðan, *S*.

2) hèr hefir verið sneitt af blaðinu (sjá bls. 714, athgr.).

3) *S* skilr eptir eyðu fyrir 5 neðstu línunum í dálkinum.

4) í stað þessara línustúfa í 122 hefir *U*: Ásgrimr var mönnum mjök dár af þeim sökum, er hann var með at Flugumýrarbrennu ok með Eyjólfi bróður sínum í Geldíngaholti at drápi Odds þórarinssonar.

5) hèr er eyða fyrir línu í 122, og mun hèr hafa verið kapitulaskipti.

6) hèr byrjar heili dálkrinn í 122.

arsonar, en hon misti hans skjótt. Eptir þat fèkk hennar Loptr Helgason ok Ásbjargar systur Árna biskups með hans framkvæmd, ok þegar er þessar mægðir tókust varð mikil vinátta með Árna biskupi ok fyrrnefndum Ásgrími; fèkk hann með hans fullfíngi ok framkvæmd hvártveggja sýslu firir sunnan [ok] firir utan Þjórsá með herra Rafni. En því at í þenna tíma þótti engi maðr vera, nema hann veri vin Árna biskups, tóku margir at skipta sínu hugarfari til þessa sama Ásgríms. Nú því at herra Ásgrímr átti enga staðfestu, setti herra biskup hann niðr á þat land, er á Baugstöðum heitir, niðri á Eyrarbakka. Þat land hafði herra Árni biskup keypt at Theobaldo Vilhjálmssyni, þeim er átti Margrètu dóttur Barkar Ormssonar, er þar hafði lengi búit, ok gefit at móti Dal undir Eyjafjöllum, þat land, sem Sigvarðr biskup tók undir Skálaholtsstað í prófentu Þuríðar Ormsdóttur ok Arnfríðar Bjarnardóttur, systur Vigfúss or Dal. [H]afði Árni biskup í fyrstu, þá er hann kom til stólsins, sett í Dal Magnús bróður sinn, en á Baugstaði eptir landaskiptið. Nú því at hann rýmdi firir herra Ásgrími, fór hann heim í Skálaholt ok var þar stundum, en stundum í Seltjarnarnesi, ok með honum Ellisif Þorgeirsdóttir or Holti, þess er fyrr er nefndr. Andrèsi syni þeirra lèt herra biskup kenna ok vígði síðan, en Vilborgu dóttur þeirra gipti hann Þorsteini, syni Hafr-Bjarnar Styrkárssonar laungetnum. Þessi Hafr-Björn bjó í Seltjarnarnesi ok var bróðir Runólfs ábóta í Viðey; hann hafði fyrrum átta Vilborgu, dóttur Þorgeirs í Holti undir Eyjafjöllum, ok var þeirra son Gizorr, en í þenna tíma átti hann Guðrúnu Þorláksdóttur, systur Árna biskups. Þau vóru stórauðig at penníngum, ok engi maðr mátti í þann tíma jafnast við Hafr-Björn at híbýlum ok búi sínu, sá sem í bónda tali var; hèlt ok herra biskup mikit tal af honum. — Á þessum tímum var svá kært með herra Árna biskupi ok fyrrnefndum herra Ásgrími, at engir menn gátu ner í aðra skál lagt en þeir vildu, þar sem þeir stóðu einn veg at málum. Í þenna tíma var Loptr mágr Ásgríms ræðismaðr á staðnum í Skálaholti.

27. Sá maðr bjó í Runa, en stundum í Miðfelli, sem Björn hèt ok var Þorsteinsson; hann var góðr bóndi, ok átti Þóru Hjarrandadóttur, frendkonu biskups. Þessi maðr varð missáttr við herra Ásgrím. Björn átti marga sonu: Steinmóð ok Sæmund, Eyjólf ok Þorlák. Nú því at hann var hlutseigr maðr, hèlt hann

um stund máli sínu svá at hann gaf eigi upp[1], ok í þetta mál kom hann Lopti mági sínum með sèr. Herra Ásgrímr sá þat illa, er Loptr mat annan mann eigi óframar en hann, ok því leitaði hann þeim báðum sakir at fá, ok því næst kómu þeir menn er þat fluttu, at þeir Björn ok Loptr höfðu talat ósæmiligar til konúngdómsins en byrjaði. Honum þótti, ef þetta prófaðist satt, náliga fallit [flesk í kál[2] sitt ok hljóp upp mjök við. Þetta gerðist á því ári er Eindriði böggull fór með konúngs boðskap. Árni biskup gerir honum þetta í kunnleika, en Eindriði gerir sik heitan hèr um, ok stefnir þeim báðum utan þegar í stað. Fara þeir nú skjótt ok sækja herra biskup at málinu, en hann kemr því við, at þeir eiga fund at þessu allir: Árni biskup, herra Ásgrímr ok Eindriði böggull. Þeir Loptr ok Björn afsaka sik, ok verðr eigi sá áburðrinn, er nauðsyn stæði til undanfærslu; því varð þat at sætt, at þeir sóru trúnaðareiða herra Magnúsi konúngi ok Eireki konúngi, ok svá hertoganum Hákoni. Þeir lögðu til þess hönd á bók, ok því skutu þeir til guðs, at þeir skildi honum hollir ok trúir leyniliga ok opinberliga, ok hvergi vera í móti konúngs umboðsmanni, þar sem hann talaði lög ok rèttindi. Eptir þat gaf Eindriði bóndi upp utanstefníngar, ok sættust þeir herra Ásgrímr ok Björn; vóru þeir Loptr mágarnir eptir þat beztu vinir.

Nú er í annan stað frá Loðni at segja; þegar hann hafði sèð ráð firir skipi ok varnaði sínum, fóru þeir herra Jón lögmaðr þíngum yfir landit með boðskap Eireks konúngs ok Hákonar hertoga, ok lètu sverja þeim land ok þegna, hvar sem þeir fóru, ok lètu menn skjótt til þess; ok til þess at Árni biskup lèt[i] sik sannan vin konúngdómsins, sór fyrrnefndr Loptr frændi hans með bændum þenna eið[3].

28. Herra Loðinn var þenna vetr með sveina sína í Seltjarnarnesi með Hafr-Birni, ok veitti hann allstórmannliga, ok vóru þá kyrr ein tíðindi; ok er vár kom, fóru þeir Jón lögmaðr þann hluta lands, sem ófarinn var um haustið; ok er dró at þíngi bjoggust menn til ferðar, hverir af sínum hèruðum. Árni biskup reið til þíngs ok með honum mart lærðra manna, en herra Loðinn ok allir handgengnir menn með honum. Á þessu hausti ok um vetrinn höfðu menn sèna bók þá,

1) hèr þrýtr skinnblaðið. 2) [ *U*; *í kall*, *S*. 3) hèr þrýtr 204.

sem herra Jón fór með; fanst mönnum svá, sem margir hlutir veri í henni frekir mjök, um óbótamál ok aðra hluti, þá sem óhentir vóru landsbýinu. Biskupi þóttu ok margir hlutir í henni móti guðs lögum. Var þat þá ráðs tekit, er hon var skoðut, at lögtaka hana eigi alla. Rituðu þá sèr hvárir þat sem eigi vildu sæma nè játa; vóru í einn stað biskup ok klerkar ok vinir biskups; í öðrum stað handgengnir menn; í þriðja stað vóru bændr. Herra biskup vildi þann kapitula eigi samþykkja, at einn veri lögmaðr yfir landslögum ok guðslögum, hvárt sem konúngr vildi lögmann hafa einn eðr fleiri. Sá annarr, at um þá hluti, sem heyrði til villu, skildi konúngr einn sektir af taka; svá ok um þá, sem sjálfir týndi sèr, ok um óbótamál, at svá mörg vóru, nær lx; svá ok um kvennagiptíngar, ok at hafa dóm yfir hjúskaparmálum, þat sem biskupi einum heyrir; svá ok um sektarbrèf konúngs ok erkibiskups; svá ok um arftöku konu þeirrar, sem legin verðr í föðurgarði, ok þeirra sem giptast á laun; svá ok [um] prófan ok dóm, hversu hverr er lögliga til arfs kominn, ok um testament, ok ef karlmaðr kvænist utan frænda ráð, at hann hafi firir gert landskyldum ok ávexti fjár síns við erfíngja; um arfsöl, at heilög kirkja haldi rètti sínum í því ok öðru; um tíundaskipti á haust ok matgjafa til fátækra manna, at þar hafi biskup ráð yfir, hverir skipta skulu, ok svá um afgjafir heilagra daga veiða, ok um konúngs sakeyri þar af; svá ok um vitnisburði til landsbygðar; um þat, ef sá býðr eigi frændum land, er selja vill, at firir þat megi eigi þat kaup rjúfa; um ábyrgð landsdrottins ef hús falla á menn eðr fènað; um þat er leiguliðar eru skildir at hafa svá hjón, at allar engjar sè á því landi unnar; um þat ef nokkorr þarf hey at kaupa, ok verr eigandi oddi ok eggju, ok skuli hann ógildr, hvárt sem hann fær sár eðr aðrar ákomur, ok engi miskunn á mælt fyrr en hann er áðr drepinn; um þat, at fè sè allt or afrètt rekit þegar iiij vikur lifa sumars; um þat, at konúngr mætti vali veiða á hvers manns jörðu sem hann vill, en þó samþykti hann at [bændr láti[1] konúng veiða á sínum jörðum, ok þó svá at hann leggi verð eptir, utan á kirkju eignum; um meinsæra menn ok sakeyri þar af; um afeyrínga. Svá vildi ok herra biskup halda því fullkomliga, sem lögtekit var í lög-

1) [ getg.; við bændr lætr, S.

rèttu[1] um allt land, at þar sem á greindi guðslög ok landslög[2], þá skildi jafnan guðslög ráða. — Í annan stað höfðu bændr ritað sèr rollu, at þeir vildu þau orð, sem í *capitulo* stóðu ok til kristins rèttar heyrðu, láta standa til orskurðar konúngs ok erkibiskups. Þat var ok mælt, at öll þau kaup hèldist, sem váttar vissi, ok handsölut veri prettalaus ok vèlalaus, ok þeir menn keyptist við, er kaupum sínum ætti at ráða, svá ok um giptíng kvenna ok leigumanna, sem um önnur kaup, ok þat hafa ok halda, sem Magnús konúngr gaf þeim, ok allir menn sè frjálsir í þessu landi sínu gózi at ráða; um lögaura ok dilkfjáreign; um búfjárábyrgð ok skildaga, er at engu skal hafa; um ábyrgð á fúlgufè, ok hversu af höndum skal lúka; um vinnumenn ok leigufólk; um þjófa færslur ok heytökur; um fjárhald ómaga; um fátækra manna flutníng. Bændr höfðu ok þat ritað í rollu, at öll falslaus kaup skildi föst vera, þau sem einkis manns rètti veri hrundit í; um heygjafir ferðamanna, ok at hverr vill ráða heyjum sínum ok annarri eign; um þat, at eigi sè sjálfr í veði, ef útlagi verðr lauss; um lán, ef sjálfr týnist með; um manneldi, at hreppstjórnarmenn semi; um dilka, at þeir hafi, sem jörð eiga undir; um vinnumenn ok leigu skerði, ef lengr er óvirkr en viku; um helgi túns ok akra ok engja; um lögaura, ok um þat, ef nokkot finst þat í bók, er menn þikkjast eigi mega við búa, þá vilja þeir þat[3] með skynsemd mega framvegis or biðja.

29. Nú sem þetta var aktað, gengu menn til lögrèttu, ok lèt hverr upp þat sem ritað hafði. Herra Loðinn varð við þetta mjök heitr, at búkarlar gerðu sik svá digra, at þeir hugðu at skipa lögum í landi, þeim sem konúngr einn saman átti at ráða. Þar næst krafði hann almenníng, at játa allri bók greinarlaust; hverir svöruðu firir sik, at þeir mundu eigi gera, at tapa svá frelsi landsins. Loðinn svarar at *móti*, at þeir áttu fyrst at já bókinni, ok biðja síðan miskunnar um þá hluti, sem nauðsyn þætti til standa, konúnginn ok hans ráð. Eptir þat lætr hann lesa konúngs brèf þat, er honum bauð þat at láta lögleiða bókina, ok kvað hann reiði mundu sæta þá sem öðruvís gerði. Biskup segir, at hann hafi þat brèf Jóns erkibiskups, er bannaði

---

1) anno 1253 b. v. *S*; þetta er án efa innskot eptir Flateyjarannál.
2) landsbók, *S*. 3) þess, *S*.

at lögleiða marga hluti þá sem í bókinni stóðu. Eptir þat lèt hann lesa biskupa brèfit, þat sem gert hafði verit á næsta þíngi í Björgvin, þar sem í stóð bönn þau, er menn feldi á sik af sjálfu verkinu; svá var lesit í hverjum atburðum sem til fèll hit minna bann ok forboð. Ok er þat var úti, rómaði múgrinn, ok taldi at ómátuligt veri at vera undir hvárutveggja, lx óbótamála, er í bókinni stóðu, ok xxxv banna, er í brèfinu stóðu. Ok er hljóð fèkst, mælti Árni biskup: „nú hafi þèr heyrt brèf herra Jóns erkibiskups, andligs föður yðar, ok hans undirbiskupa, ok megit skilja, hversu mikit ágreinir bókina, þá sem vèr erum beðnir at lögleiða, ok hans boð; því vil ek ljósan gera mik, at ek mun engum hlutum játa, sem í mót standa hans vilja, ok svá þeir sem mínum ráðum vilja fylgja: Er þat fyrst um valveiðar ok lögmanns *capitulum*, ok um sættargerðir þeirra Magnúss konúngs ok erkibiskups, þvíat þar stendr í, at biskup skal lög segja, en eigi leikmenn, yfir öllum sökum þeim sem heyra til heilagri kirkju, prófa þær ok dæma, ok svá þat, at virðuligr herra Magnús konúngr gaf kirkjunni undan sèr ok sínum örfum ok öllum eptirkomendum, ef hann eðr hans firirfarendr, formenn Noregs ríkis, hefði haft eðr sýndist hafa, sakir hefðar landslaga, nokkot vald eðr hald slíkra hluta. Hann veitti ok kirkjunni þat *privilegium*, at konúngar skildi eigi mega breyta eðr snúa fornum lögum fóstrlandsins, eðr eign kirkjunnar, í fjárþynd, eðr leikmenn eðr lærdóminn til þvínganar ok ófrelsis; svá ok at forn frelsi kirkjunnar skildi haldast um fálkaveiðar; „svá viljum vèr ok með engu móti þola, at heilög kirkja tapi því frelsi, [at þar[1] greinir guðslög ok landslög ráði jafnan guðslög, eptir því sem firir löngu var lögtekit hèr í lögrèttu yfir allt várt land með góðu samþykki allra landsmanna". Ok er hann hafði þat talat, rómaði múgrinn stórum vel, þat er hann vildi, at kirkjan eðr alþýðan týndi eigi sínu frelsi. Ok er hljóð gafst, mælti herra Loðinn, ok sá um sik nokkot styggliga, ok leitaði ráðs, at leiða almúgann frá biskupi í huganum, þvíat hann skildi margmennit[2] honum vilja fylgja ok sinna, ok mælti svá: „brèf þetta, sem þèr, herra biskup, lètuð lesa, hefir marga hluti í sèr, sem vèr megum várt mark á kenna, en þó hugða ek, at eigi mundi

1) [ leiðr.; á þat, *S*. 2) margmengit, *S*.

þeir, sem þat gerðu, þessu mega firir alla skipa eðr ráða. En þar sem þèr töluðut um okr, trúi ek sannliga at þat sè illt, ok þeir sem okrkarlar eru sè bannsettir; en hvat má hærra okr vera, en tíundargerð sú hin rangliga, sem hèr er á landinu; þèr biskuparnir heimtið tíund af sylgjum ok silfrbeltum, koppum ok keröldum ok öðru dauðu fè, ok undra ek mik, hví landsbýit þolir yðr slíkar óhæfur, ok gerit eigi norræna tíund at eins, þá sem gengr um allan heiminn ok einsaman er rètt ok lögtekin". Ok er Loðinn hafði þetta mælt, stóð upp fyrst herra Rafn Oddsson, því at hann sá, at Loðinn mundi auka sèr fylgi með þessum málsendum: „herra" segir hann, „góð er tíundargerð sú, [er] vèr höfum[1], ok önnur mun hvárumtveggjum, klerkum ok leikmönnum, óhentari". Árni biskup mælti þá: „af orðum Innocentii páfa vitum vèr, at sú tíundargerð er eigi okr ok vinnr engum manni sálutjón". Loðinn mælti þá enn: „þèr töluðut, herra biskup, at þèr mundut fylgja brèfi Jóns erkibiskups ok sættarbrèfi þeirra Magnúss konúngs ok nýjum kristinrètt[i], ok at guðslög skildi ganga yfir landslög, en því mun hvárigu af mèr játað, ok hvergi kom ek þar[2] lands nè lagar, at svá sè nokkors konúngs rèttindi undir fótum troðin svá sem hèr, ok þó mest af biskupum". Margir hlutir vóru á því þingi talaðir, ok kómu fáir saman með mönnum, en þó kom þar um síðir, at lögbók var öll lögtekin, utan þa[u] *capitula*, sem handgengnir menn vildu stæði til konúngs orskurðar ok erkibiskups; hafði öll alþýða þá lófatak um þat, utan IX menn, þeir sem biskupi fylgdu, ok eigi gengu til handa þá er almúginn vægði firir valdi konúngsins; var fyrstr af þeim Arngrímr Teitsson, annarr Snorri or Ásum, þriði Ormr frá Reyni, fjórði Ásleifr Klængsson, fimti Eilífr son Özorar frá Horni, sètti Sigfús stobbi, sjaundi Magnús Pètrsson, átti[3] Loptr Helgason[4] . . . Kallaði herra Loðinn alla þá landráðamenn, en Lopt því framarr, at hann sagði hann svarit hafa tvá eiða ósæra, ok bannaði honum at fara með biskupi af þíngi, ok kvað hann vera skildu í valdi þeirra. Ok er biskup vissi þat, bað hann Lopt með sèr fara, ok svá gerði hann.

---

1) Páll Vídalín (Fornyrði bls. 542, sbr. Finn Joh. I, 126) bætir við: „af allri lögleigu fjár", en þessi orð finnast nú í engu handriti.

2) til, b. v. *S.* 3) ok, *S.* 4) hinn níunda vantar.

30. Þenna tíma óð herra Ásgrímr mjök uppi, var þá áðr orðinn feldr á fèlagskap þeirra biskups, þvíat Ásgrímr hafði [tekit] Geirlaugu dóttur Jóns á Stokkseyri ok barnat, ok er þat varð víst, tók biskup hana af honum, ok lèt vera heima í Skálaholti. Ásgrímr gerði sik reiðan um þat; hann hafði ok þetta vár riðit heim í Skálaholt, sem Loðinn kom áðr út um haustið, ok beðit Lopt mág sinn vera í bragði með sèr, at biðja bændr at styrkja sik til bús, þvíat manninum varð kostalt firir þrennar sakir, örleik ok fjölskildi ok geymsluleysi. En þvíat Loptr vissi, at biskupi þótti hann hafa kastað sèr um til mótstöðumanna kirkjunnar ok frá honum, synjaði hann Ásgrími liðsinnis þessa. Hann fór þá, ok bað fjár, [ok fèkk[1] af öllum bændum nokkot, utan þeim sem næstir vóru staðnum, ok kendi hann undirsetu Lopts; firir því var hann á þíngi erfiðr ok tillagasúrr um mál hans, ok lèt þau orð frá sèr fljúga, er honum var mótdráttr í, meðan í þessu stóð. Ásgrímr þoldi allar meingerðir biskups ok Lopts heldr illa, þvíat hann var af þeim velgerníngum vanr, ok skildi hve mikils hann misti; en í annan stað lágu ok biskupi verr Ásgríms meingerðir en annarra manna, þvíat hann þóttist af honum [hins] bezta verðr, ok harmaði meirr sakir fornrar elsku hans misræði.

31. Eptir þíng reið biskup heim í Skálaholt, en herra Loðinn á Eyrasand, ok hèlt á búnaði; stóð þar á hinu mesta sundrþykki: Loðinn kallaði þá menn, sem ekki játuðu lögbókinni, landráðamenn, ok stefndi utan gervöllum, en Lopt segir hann at taka skildi, ok reka nauðigan á skip, þar til er höfðíngjar landsins, þeir sem til þess vóru skipaðir ok konúngs starf höfðu í hendi, rituðu til hvárstveggja þeirra biskups ok Loðins, at eigi skildist þeir svá óliðmannliga sem áhorfðist; vóru mest at því af leikmönnum herra Rafn ok herra Jón lögmaðr; kom þá svá, at herra Loðinn bauð biskupi á Eyrasand ok veitti fagra veizlu; var þangat þá stefnt þeim IX mönnum, ok handfestu iiij af þeim utanferð sína, en allir aðrir[2] dóm á máli sínu, ok sóru eiða, at veita konúnginum fullkomliga hlýðni þaðan frá eptir rèttri skyldu; gafst[3] þá upp, at þeir skildi eigi allir utan fara, at herra Loðinn lèt þá ok sannast, at hann hefði ofbráðliga talat. Var þar þá við herra Jón lögmaðr, herra Þorvarðr

1) þ. v. eptir getg. 2) ok, þ. v. *S.* 3) gáfust, *S.*

ok herra Ásgrímr; var þá ger, at bæn biskups, miðlan á milli biskups ok konúngs um sakeyri á þeim málum, sem heyrðu til heiðni eðr villu, svá ok ef menn töpuðu sèr sjálfir, at minna fèlli undan erfíngjum en bók segir; þeir rituðu ok bænarstað sinn til konúngs, at þat veri eigi óbótamál ef maðr vegr mann í sjálfs síns heimili, ok svá þat, ef nokkorr maðr heimtir gjöld eptir óbótamenn ok þó með engum ófriði. Herra biskupi samdi, at kvennagiptíngar færi eptir bók, at höldnum hans rètti til dóms yfir hjúskaparmálum. Þat var ok bæn þeirra, at sú kona, sem giptist firir utan frænda ráð, misti eigi arfa sinna, en um sálugjafir skildi standa til dóms konúngs ok erkibiskups. Biskup hèt ok, at dæma hvergi frekara hèr um en landslög segja, áðr orskurðrinn veri reyndr, utan fè þat, sem klerkar afla af kirkjum, skilr hann undan. Þeir samþyktu ok um tíundaskipti á haust [*ok matgjafir*[1] *til fátækra manna*, *en or þeim kapitula*: ‚ef[2] menn þurfu hey at kaupa', báðu þeir allir at sú klausa veri or feld: „ef hann verr oddi ok eggju, sè úgildr, hvárt sem hann fær sár eðr aðrar ákomur; ef hann deyr, sè undir konúngs miskun". Þeir báðu ok at sektalaust veri, þóat fè veri síðarr or afrètt rekit en at iiij vikum; þeim samdi ok, at þeir menn, sem áðr höfðu afeyrínga, hafi at frjálsu. Or bóndabrèfi samdi þeim at biðja, at eigi stæði í lofum um heygjafir ferðamanna ok varðveizlu á ómaga eyri. Aðrar beiðslur þeirra sýndust óskynsamligar, utan þær sem prófast undir biskups beiðslum. Um þessa hluti samdi þeim ekki: at sá sè lögmaðr yfir kristnum rètti, sem konúngr skipar til, svá ok um dóm ok prófan, hversu hverr er lögliga til arfs getinn, svá ok um þá klausu sem stóð í kristinsdómsbælki, at þar sem ágreindi guðslög ok landslög[3] skildi guðslög ráða. En þóat eigi fèlli allt saman með þeim, urðu margir góðir menn fegnir þessi friðsælu, þeir sem hlutlausir vóru allrar undirhyggju, þeirrar sem eptir kom. Fór biskup heimleiðis, ok þeir menn sem þangat höfðu komit til þessa máls. Þeir biskup ok herra Loðinn skildust þá líkliga með yfirbragði, ok gaf hann biskupi landtjald gott, þat sem hann hafði áðr haft á Sandinum ok á þíngi, þvíat biskup hafði honum áðr veitt heimboð ok sæmiligar gjafir; vóru þeir þá kallaðir sáttir. Sigldi Loðinn nokkoru síðarr ok

---

1) [ b. v. eptir bls. 718. 2) *U*; er, *S*. 3) landsbók, *S*.

herra þorvarðr. — Á þessu ári var þat tíðinda í Noregi, at Eirekr konúngr fèkk Margrètar, dóttur Alexandrs Skotakonúngs; vóru at þeirri veizlu herra Jón erkibiskup ok aðrir innlenzkir biskupar. þá var Auðunn hestakorn hæstr í ráði með konúnginum.

32. Eptir þetta flotnuðu upp margir öfundarmenn lærdómsins, þeir sem sinn munn höfðu birgðan sakir vanmáttar meirr en góðvilja, meðan sannr faðir fóstrjarðarinnar lifði, ok sæmd klerkanna, hinn mildi Magnús konúngr; kom þá fram þat spámæli, er hann talaði nokkorum vetrum firir sitt andlát, þá er hann sat með fám mönnum í einu herbergi, ok tók svá til orðs: at þetta líf veri ófrjálst ok með marghátttuðum skapraunum ok erfiðligum, ok þeir veri sælir, er deyja skildi; en þeir sem hjá vóru, ok eigi litu á annat en hóglífi ok náðir, frið ok farsælu hans, þóttust eigi skilja, hví hann mælti slíkt, [ok] spurðu, hvar firir hann talaði þetta. Hann svarar: „má vera yðr þikki sem ek hafa litlar mæður eðr vanda í mínu ríki, en mèr þikkja margar vera ok miklar; en þótt at mikill ok margr vandi sè, at stýra með hófsemd miklu ríki, þá lízt mèr sá hæstr, at tempra dóma [ok] greinir milli lærdómsins ok leikmanna, svá at eigi verði stór missmíði á". En þeir sem við hann töluðu mæltu: „svá lízt oss sem sá verði yðr eigi mikill". Hann svarar: „svá mikill þikki mèr hann, at sælli veri liðnir en lifendr; þá munu þèr vita í hverju ek hefi staðit" — ok strauk um ennit — „er sjá haussinn hefir í moldu verit iij vetr". Bar ok þar raun á skjótliga, at forráðsmenn ríkisins, þeir sem ráð konúngsins vóru kallaðir, vildu at litlu hafa þær skipanir, sem Magnús konúngr ok Jón erkibiskup höfðu skipat með sönnum röksemdum, brjótandi þær niðr með sínum kappsemdum, en hirðirinn, sá er eigi var veikr heldr staðligr stólpi sannleiksins, vildi heldr sitja firir reiði þeirra ok harðindum, en þegja yfir sannindum. En þeir samneyttu þeim, sem hann bannsetti, vanvirðandi vald heilagrar kirkju ok lyklana Petri, en gáfu honum sakir á svá búit ofan, svá sem hann veri niðrbrotsmaðr konúngligs valds, ok neyddi almúgann or hófi, en hèldi lærdóminn rangliga upp á leikmennina. Laust þessi hvass hvirfilvindr fyrst hjörtu þeirra manna, sem Noreg bygðu, ok knúði þar kappsamliga kirkjunnar formenn, en dreifðist síðan til várs útskaga.

Nokkoru síðarr kómu margar misþykkjugreinir upp hèr

á landi milli manna. [Fyrrnefndr] herra Ásgrímr heimti skatta ok þíngfararkaup at heimamönnum staðarins í Skálaholti, en biskup bannaði at þau veri greidd, þvíat honum þótti ótrúligt, at konúngr mundi pynda vilja Skálaholtsstað um þat, sem frelsaðr var Hólastaðr. Þar kom um síðir, at þetta var greitt af heimamönnum, þvíat þeir sátu ella firir lögleysum ok reiði Ásgríms.

Árni biskup hafði, sem fyrr segir, tekit Ketil Ketilsson ok skipt fè hans, ok lauk engum[1] meira, þá er öllu var upp skipt, en hinn fjórða hlut innstæðu. Biskup beiddi uppgjafar um allt þetta, eðr[2] fjórðúngtöku; gerðu menn þat margir firir hans sakir, sumir gáfu allt upp en tóku ekki; sumir gáfu ekki upp, ok vildu eigi taka utan fullt, en þess var engi kostr. Guðröðr hèt bóndi, sá er bjó niðr í Flóa, er hafnaði sínum hluta þann tíma er Þorvarðr hafði sýslu; hann sótti nú Ásgrím at þessu máli, en hann heimti at Katli þessa skuld ok aðrar fleiri. Ketill kvaðst eigi greiða fè þat er stóð með kirkjumarki í Efstadal, ok sagði stað ok biskup eiga allt þat er hann fór með, ok þar kom, at biskup tók Ketil ok lið hans heim til staðarins, þvíat hann þóttist þar frjálsligar mega halda hann; en Ásgrími líkaði stórliga illa.

Snorri hèt maðr ok var Narfason, hann hafði kvángazt suðr um heiði, en hann var kynjaðr vestan or Breiðafirði, ok þar bjoggu bræðr hans: Þórðr á Skarði, en Þorlákr bjó í Borgarfirði á Kolbeinsstöðum; þeir vóru allir vitrir menn ok vel mannaðir. Þessi Snorri hafði tekit með konu sinni land í Hjálmaholti, ok annat land, er Mörk hèt. Loptr biskupsfrændi bjó í Hlíð hinni meiri. Þessir menn keyptu um lönd; tók hann fyrst Hlíð af Lopti, ok fèkk í mót Lauga-lönd ok XX[c] vöru. En því at Snorra þótti betra ávistar í Hlíð en Hjálmaholti, tók hann af biskupi Hlíðar-land, en fèkk honum at móti Hjálmaholt, Mörk ok Þjótanda, ok vóru þessi landakaup vetri síðarr en Loðinn sigldi hèðan af Íslandi. Snorri var mikill vin Árna biskups ok þeir bræðr. Fór hann um várit bygðum í Hlíð með hyski sitt.

33. Á þessu sumri kom skip á Eyrar, ok kom frètt af skipinu, at Lopti ræðismanni veri utan stefnt, ok kom honum sú sögn svá hastarliga af Ásgrími, at hann var kallaðr land-

---

1) getg.; engi, *S*. 2) getg.; er, *S*.

ráðamaðr, ok hann skildi höndum taka ok reka í skip nauðigan, ef hann vildi eigi fara lostigr, ok engi kirkja skildi halda honum utan Skálaholts kirkja. Ásgrímr stefndi skjótt þíng, ok bauð Lopti þangat at koma, en hann fór hvergi, ok lèt búa hvílu sína í Katrínarkirkju, ok þar svaf hann um sumarit langa hríð. En þegar skipit var landfast orðit, sendi hann menn til Árna biskups með brèfum, ok gerði honum kunna þá frètt, er hann hafði fengit um sín efni. Biskup ritaði at móti, ok gerði útveg firir Lopti, ok kom sá maðr eigi fyrr aptr, en hinir höfðu út látið er sigla vildu, ok var þat X nóttum síðarr en hinir kómu á land. Enn hafði annat brèf komit til Lopts á sama sumri, ok sat hann bæði. Ásgrími eirði þat illa, ok því lýsti hann á þeim hèraðsfundum, sem hann hafði við bændr, landráðasök á Lopt, ok taldi konúngi alla peninga hans. Hörð orð fóru ok frá honum til þeirra manna, sem í mót bók höfðu mælt, ok at þeir veri allir utan stefndir.

34. Á þessu sumri sigldi af Íslandi [herra] Rafn Oddsson. Þorvarðr var ok þann vetr í Noregi. Í þann tíma hljóp mikill metnaðr í herra Ásgrím; var hann þá ok mjök bundinn firir konúngsboðskap; vóru ok þær einar frèttir af Noregi, at þar skeikaði mjök stjórnin sem líkligt var, at slokn-uðum svá björtum landsins lampa, sem var Magnús konúngr, þeim sem sanna raun sanns góðvilja sýndi, at um sína daga var mjök í loga af eldi trúarinnar, elsku sjálfs guðs ok síns náúnga, en í hans stað veri kominn son hans, sá er barn var at aldri, ok eigi hafði jafnframt sínum föður kent hve sætr sannleikrinn var; tóku mál firir hann lendir menn, svá at náliga vóru engir hlutir refsaðir, þeir sem landstjórn heyrðu, en hinir sjúku hötuðu Jón erkibiskup, sinn sannan lækni, sem eigi lèt af at hirta þeirra lýti, ok vildu hann svipta sínu valdi sem raun bar á. Af því gömbruðu óvinir náðanna ok frelsis heilagrar kirkju, er þeir trúðu sik skjótt mundu fram koma sinni fýsi; vóx ok mjök af fyrrsögðum sökum misþykki þeirra biskups ok Ásgríms, er hann kendi firir sitja skilda sína frændr ok vini, þröngda móti lögunum af þeim, er umfram rètt vildu lögunum ráða. Mörg önnur málaferli stóðu í milli þeirra, bæði kallaði [biskup] land undan honum á Baugstöðum, ok erfiðaði honum í mörgu því, sem honum þótti þat með lögum gera mega. Þenna vetr átti Ásgrímr för á Síðu austr, at herða at

fyrrnefndum sakamönnum, at þeir jáði honum utanferð sinni, fè eðr öðru tillæti, en herra biskup ritaði til hins kærasta vinar síns, Runólfs ábóta í Veri, at hann minti þá á leyniliga, at þeir bryti í engu vilja sinn eðr ætlan firir Ásgrími, at eigi hefði hann firir þat hólsmun. Hann bað herra ábóta virða, hvílíkar honum þóttu sakir þeirra at guðs lögum, svá ok bað hann ábótann at skynja orð ok tiltæki Ásgríms, ok gera sèr kunnigt hverju hann færi fram. Ábóti gerði allt þetta, ok urðu bændr fegnir, er þeir áttu ván nokkors varnarmanns, ok lètu Ásgrím ekki fang á sèr fá, þá er hann reið austr þangat. [Herra] Runólfr ábóti ritaði ok til biskups, hver orð Ásgrímr hafði á þíngi í Kirkjubæ, ok svá hvat þeir töluðu með sèr, at Ásgrími þótti mikit at missa vináttu biskups, ok vildi þar allt til vinna þat er hann mætti af sjálfs síns efni, ok betra allt ok bæta, þat sem hann hefði verit mótdrægr heilagri kirkju, ok svá [at] hann bað herra ábóta eiga hlut í at þeir mætti sáttir verða, svá at vandræðalaust mætti standa, til þess er konúngr ok erkibiskup greina allt þat, er milli manna stóð; taldi þetta vera hina mestu nauðsyn allra þeirra, sem undir þeim bjoggu. Hann bað ok aðra eiga hlut í, at hann næði at halda Baugstöðum framleiðis, ok mælti þetta allt með ábyggjusvip miklum. En er biskup vissi þessar greinir, tók hann senn or, at þat veri yfirdrepskapr Ásgríms, at láta firir þeim manni líkligast, er biskup trúði framast; þvíat þat mátti alla tíma djarfliga segja, at hjá Runólfi ábóta mundi annarr endir mála Árna biskups. Þeir urðu ok sáttir á þat, at bændrnir urðu ekki sekir, þótt þeir vildi halda lög ósvarit, ok ganga eigi undir þýngri lýðskyldu utan nauðsyn. Herra ábóti bað ok biskup minnast á, hversu hátt hann tók herra Ásgrím í fyrstu, ok at sveigja slíkt sem honum þótti máturligt vera, at höldnum guðs rètti í alla staði.

35. At liðnum þessum vetri vóx at nýju óþykkja millum biskups ok Ásgríms, einkanliga um mál Lopts, þvíat hann sat þenna vetr í kyrðum, ok firir þat er hann kallaði hann hefði selda konúngs eign Snorra Narfasyni, landit í Hlíð, þat sem hann átti þenna tíma er Loðinn gaf honum sakir. Hann kallaði ok Snorra sitja á ótekinni konúngsjörðu. Firir þetta segir hann hvárigum þeirra óhætt skildi vera, utan þeir gengi at borði við hann. Nú þvíat Ásgrímr vildi eigi aptr gjalda skatta þá, sem hann tók af staðarins heimamönnum, lýsti herra

biskup yfir honum forboði, at firirsögðum iij áminningum. Enn fèllu þó fleiri hlutir til, er herra biskup gaf honum sakir [á: þar[1] sem hann hèlt fram konúngsbrèfi um vali ok lögsögu yfir kristnum rètti, ok at eigi gangi guðslög yfir landslög. Þetta vár stefndi herra Ásgrímr Lopti til þess þíngs, er hann átti, en hann fór með engu móti, ok lèt Ásgrím ekki vita af ætlan sinni fyrr en hann kom til skips. Ásgrímr valdi honum mörg digrlig orð, ok kallaði hann landráðamann ok eiðrofa sem fyrr, en Loptr segir at móti, at hann hafði at allra bygðarmanna vitni alla lýðskyldu konúngi goldit, ok hvergi óframarr, ok hann skjóti öllu sínu máli undir konúng, ef honum sýndist hann í nokkoru brotligr vorðinn. Herra biskup ritaði ok með honum til [herra] Eireks konúngs, ok stóð þat þar í með öðru, at hann sendi honum Lopt frænda sinn, biðjandi hann, at hann gerði hans erindi [gott] firir sinn herradóm ok þá hollustu, sem hann hafði af föður hans, ok hann ætlaði at rèttindum honum at veita gott ok sæmiligt trúnaðartraust í alla staði, sèr til sæmdar en Lopti til sannrar giptu, ok honum til eptirlætis ok öðrum þeim sem honum þætti varða; ok lèt hann þat fylgja, at ferð hans dvaldist sakir tilfellis, en eigi firir illvilja við konúng. Var þetta ritað ij nóttum eptir Laurentiusmessu, ok var þá ekki frètt til skipa. Þeir Ásgrímr ok Loptr mágarnir skildu með engum blíðskap. Þat skip, sem Loptr var á, tók Noreg, ok kom [hann] um haustið til Björgvinar, ok var í Bræðragarði um vetrinn. Eigi kom hann fyrr fram brèfi því, sem hann fór með, en nær vetrnóttum á Jónsvöllum. Ekki gat hann við konúng talat annat en heilsat á hann, þvíat honum var bannat at koma á konúngsgarð. Þó var hann í minnisdrykkju með hirðmönnum, en var þó utanbrautar ok stóð undir heitum ok illyrðum.

36. Út híngat til Íslands fluttust þetta sumar þau [hin] hörmuligu tíðindi, sem í Noregi höfðu gerzt, er drottníngu gerði daufa frá hversdagslegri tíða[2] heyrn, ok eyru flestra dugandi manna um stundarsakir: at synir myrkranna ráku frá sèr með valdi hit bjarta ljós Niðarósskirkju, Jón erkibiskup, gerandi hann útlægan, ok með honum Andrès biskup af Oslo, Þorfinn biskup af Hamri, ok menn þeirra. Kom þat spámanns orð þar fram, er forðum var firir sagt: „ljósta mun ek hirðinn,

1) [ getg.; ok þeim, *S.* 2) *U*; tíðinda, *S.*

en hjörðin mun dreifast", þvíat síðan [fyrrnefndr] erkibiskup var landflæmdr, kallaði faðir allra miskunsemda hann til sín or harki þessa heims nær jólum. Loptr sendi brèf til biskups Árna, rituð undir sínu innsigli, með því brèfi Eireks konúngs ok drottníngar, sem váttaði þá skipan, er ger var til Íslands. En í þessu brèfi stóðu þessar klausur: „þat vil ek at þèr vitið, at yðvart mál er mjök afflutt í Noregi; vóru mèr sýnd brèf þau, er rituð vóru af Íslandi til míns herra, með herra Erlendi, ok má vera þeir þikkist ritað hafa nær sönnu, en yðr þikki heldr frekt; vóru þau ok svá harðliga tekin, at þit biskuparnir vórut nær kallaðir landráðamenn, ok mest firir þann hlut, at þèr stóðut mót herra Loðni á þíngi. Margir harðir hlutir hafa í Noregi gerzt milli konúngs ok erkibiskups ok annarra lærðra manna: [herra Andrès plyttr grafinn[1] í banni erkibiskups í postulakirkju, ok brotinn stöpullinn at Kristskirkju af herra Bjarna kanziler, til at hríngja móti líkinu, ok svá var hríngt um allan bæinn í banni kennimanna. Þá var prestum öllum stefnt út til konúngs ok gervir tveir kostir, annattveggja at vera útlagir, eðr halda fornar siðvenjur ok sýngja messur, hvat er biskuparnir sögðu; en þeir kusu at sýngja. Þá átti herra Auðunn þíng í Maríukirkjugarði, ok vóru þá gervir útlaga[r] menn Árna biskups í Stafangri, firir þat er hann vildi eigi at þeir gyldi leiðangr konúngi; stukku þeir við þat or landi, en herra Gauti í Tolgu tók fè þeirra. Slíkt hit sama var gert við menn erkibiskups í Þrándheimi. Erkibiskup hefir ok marga konúngsmenn bannsett, ok láta þeir eigi sem þeir viti. Því bið ek, minn herra, at þèr samþykkizt firir guðs sakir við konúngdóminn, sem þèr þikkist framast mega, þvíat 'betra er at vægjast til góðs en bægjast til ills', því at ek veit firir víst, at eigi mun hèr á Íslandi ófrekara gengit at kennimönnum, en nú er í Noregi, at ætlan ráðsins. Nú gefi guð yðr gott ráð til þessa ok alls annars". Loptr ritaði ok annat brèf til Árna biskups, hversu Jörundr biskup hafði svarat konúngs brèfi, ok þat var i[nn]tak í því, at staðir skildi í ætt hverfa, svá sem fyrr var, á öllu Íslandi, ok sá kristinnrèttr vera, sem stóð um daga Hákonar konúngs ok Sigurðar erkibiskups, ok segir at þeir Jörundr biskup [ok herra Þórðr[2] hefði

1) [ leiðr.; herra A. fluttr ok grafinn, S. 2) [ b. v. eptir getg.

fundizt ok fór með þeim lagliga; handsalaði biskup herra Þórði á Möðruvöllum kirkjuhluta, ok játaði upp[1] öllum stöðum í Norðlendíngafjórðúngi, þeim sem herra Rafni ok öðrum skynsömum mönnum þætti rèttiligt tilkall vera. Árna biskupi brá nokkot við þessa frètt; en þvíat flestir hlutir bitu lítt á hann utan þat, ef hann þóttist í nokkorum hlutum eigi fram halda rèttindum kirkjunnar eptir skyldu, tók hann þat ráðs, at rita til Runólfs ábóta vinar síns, ok sendi honum *transscripta* konúngs brèfs ok Lopts brèfs, ok bað hann þýða sèr konúngs brèfit, ok þar [á] ofan leggja ráð á, hversu hann skildi breyta í þessum púnkt. En ábóti ritaði at móti sinn skilníng, þann sem hann setti yfir brèfit, ok þar með þat ráð, at hann hèldi, sem framast veri föng á, kirkjunnar rètti eptir sinni skyldu ok nauðsyn. — Þetta haust rituðust þeir biskuparnir mart í millum, hverir þeir staðir veri, sem þeim þikkir konúngsbrèfit á kveða at taka skildi, þvíat Jörundr biskup hafði meiri brögð undir skauti en staðamenn hugðu, sem síðan bar raun á með framkvæmd.

Herra Ásgrímr vóð nú mjök uppi sakir þessarra frètta, ok þóttist nú hafa hagldir fengit á sínum málum. Þetta haust kærði hann á fyrrnefndan Ketil Ketilsson um landit, á Snorra um ásetu Hlíðar-lands ok fjártekt. Nú þvíat hvárgi vildi hafa hans tillögur, ok eigi festa í hans vald eðr konúngsmanna, tók hann Ketil á Torfastöðum, ok flutti með sèr ofan í Hjálmaholt, ok hèt honum mörgum harðindum, en þó lèt hann hann lausan á sömu viku. Svá tók hann ok Snorra við Skaptaholtsrètt, ok hristi fjötur at honum. Af slíkum hlutum ok mörgum öðrum svall mjök með þeim biskupi ok Ásgrími, svá at hann var jafnan í forboðum.

37. [Þenna vetr fóru menn[2] í millum herra biskups ok herra Rafns, ok var talat, at þeir mundu hittast at þessum málum, sem í brèfi konúngs ok drottníngar stóðu. Um várit var fundr stefndr í Brautarholti á Kjalarnesi, ok kom þar biskup ok Rafn ok mart annat stórmenni; bar Rafn fram konúngs erindi, ok brèf þau sem þat var sett í, at allir þeir staðir, sem rangliga eru teknir af leikmönnum, sem jafnliga höfðu setið á með rèttri ok lögligri hefð þeir ok þeirra foreldrar, ok haldit upp skyldum eptir rèttum máldögum, en nú vóru klerkar rangliga á settir, skildu aptr hverfa undir leikmenn, sem var á dögum

1) *U*; af, *S*. 2) [ *U*; menn fóru, *S*.

Hákonar konúngs Hákonarsonar ok Sigurðar erkibiskups, ok at slíkr skildi vera kristinsdómsrèttr í smá ok stóru, sem var um þeirra daga; svá ok um tíundir ok alla aðra hluti; en um fálkaveiðar skildi fara eptir konúngsbrèfum ok skipan herra Rafns; en þeir, sem [móti] gerði, skildi svara fullkomnu brèfabroti ok konúngs reiði. Vóru þessir staðir ánefndir: Staðr á Snæfellsnesi, Reykjaholt ok Selárdalr, ok aðrir svá til komnir; var ok [herra] Rafn skyldaðr til at fylgja hefðarmönnum at fá þessa [staði] alla. En biskup svaraði á þá leið brèfinu, at konúngr kallaði þá staði rangliga tekna, er ættarmenn hefði jafnliga á setið ok haldit eptir skildaga allt um daga Hákonar konúngs ok Sigurðar erkibiskups; „en ef ekki finst skilorðit til at í ætt skuli ganga, eðr or ættinni hafa gengit varðveizlan með sölum eðr kvennagiptíngum, eðr þeir kalli til staða[1], sem með fè hafa keypt eðr þeirra formenn, eðr þeir kalli nú til með konúngs valdi, er með biskups valdi vóru í settir, eðr þeir, sem sjálfviljandi hafa upp gefit í biskups vald, eðr þeir, sem biskupar hafa skipat á dögum Sigurðar erkibiskups ok Hákonar konúngs, ok jafnan biskup firir ráðit meirr en XXX vetra, eðr klaustr hafi á staðit: þá finnum vèr hvergi slíkt tilkall í brèfinu".

38. Herra Rafn segir, at hèr lágu slíkar atgerðir til, sem í Noregi vóru fram hafðar, ef biskup vildi eigi samþykkja konúngs boðskap. Herra biskup sá þá mikinn vanda á tvær hendr, hann sá, ef hann lèti ekki af sínum mun, at margr maðr óverðr ok saklauss mundi gjalda þessa sundrþykkis, en kirkjan ok lærdómrinn mundi verða vanvirðr. Því leitaði hann þess ráðs, at firir náða sakir fólkinu sýndist hann samþykkja boðskapinn; ok eptir margar greinir ok langt viðtal jáði hann at þola, sakir góðvilja við virðuligan herra Eirek konúng hinn kórónaða, ok herra Hákon hertoga, sonu ágæts Magnúss konúngs ok frú Íngibjargar drottníngar, þar til er skipaðr verðr erkibiskup til Niðaróss: þann boðskap, er þetta brèf váttaði, er Eirekr konúngr sendi með herra Rafni, eptir því sem herra Jörundr biskup á Hólum hafði þá játað firir sína hönd at þola, ok eigi sè í móti skyldri hlýðni við almáttigan guð. — Herra Rafn hèt á mót þessum hlutum Árna biskupi, at tíund skal greiðast af konúngs[2] eignum biskupi ok heilagri kirkju, þeim öllum, sem hann á ok

1) stāda, *S.* 2) biskups, *S.*

undir hann kunnu falla í Skálaholts biskupsdæmi, ok haldist sá rèttr biskupsstólsins, sem stóð áðr hann var biskup, ok honum þolist þvílíkt sem herra biskupi at Hólum, ok eigi sè önnur þýngsl á þessi ofan lögð af konúngsmönnum við heilaga kirkju ok herra biskup eðr hans vini, nè aðra menn. Ok eptir þetta styrktu þeir sín jáyrði rituð með sínum innsiglum. Þar kom þá ok herra Ásgrímr, ok sömdu þeir biskup þá um skatta ok þíngfararkaup, þau sem hann hafði tekit um þrjú ár af heimamönnum staðarins í Skálaholti, at hann skildi þau út greiða um várit eptir í hendr Hafr-Birni. Eptir þat leysti biskup hann af forboði sínu, því er hann hafði hann í settan meðan hann vildi eigi greiða. Af þessum fundi reið biskup heim, en þeir herrarnir í sýslur sínar, ok skildust þá með blíðu. — Á þessu ári andaðist Martinus páfi ok Karl konúngr á Púli, Pètr biskup í Orkneyjum, ok Magnús jarl Magnússon þar enn í Orkneyjum. Engi var þá enn erkibiskup fenginn til Niðaróss.

39. Sama vár ok þeir Árni biskup ok Rafn Oddsson höfðu fundizt í Brautarholti, kómu saman formenn landsins ok aðrir handgengnir menn, ok með þeim bændr ok alþýða, at fylla með verki þá ætlan, sem þeir höfðu fyrrum samþykt í hjarta, ok staðfest með tilskipan túngunnar, en þat var, at taka af lærðum mönnum kirkjueignir þær, sem þeir hèldu áðr at gjöf eðr tilskipan biskupanna, með valdi en eigi með jafnaði, með liðsfjölda en miðr með skynsemdum eðr rèttindum. En þó at margir þeir, sem meirr elskuðu myrkr en ljós rèttindanna, fagnaði því, er kristnin tapaði sínu frelsi, var hinn þó stórmikill fjöldi mannfólks, er stynjandi stóð í þessu verki, sakir hræðslu, fjárláts eðr sviptíngar sæmda, ef þeir sýndi sinn alhuga öðruvís gerandi en þeir sem brèfin báru þýddu þau. Vóru eigi at eins í þessi tölu múgamennirnir, heldr margir handgengnir, þeir sem þat vissu, firir hvern flutníng þessi brèf vóru fengin, at kirkjunum veri eigi meira frelsi gefit, en at halda svá mörgum lærðum mönnum kost á hverjum tólf mánuðum, slíkan sem forn siðvenja er; ok at móti því sem máldagarnir vátta, at allar kirkjur ok eignir þeirra eru guði gefnar ok hans helgum mönnum, hvárt sem þat er land eðr lausir aurar, ok þat sem fylgir eðr til kirkju liggr; svá ok at móti[1]

1) getg.; með, *S.*

þeirri grein, sem landslög bjóða undir pínu tólf aura gjalds, ef maðr tíundar eigi eign sína í föstu ok lausu á hverjum tólf mánuðum, en þessar eignir hafði engi tíundat frá upphafi kristindómsins á váru landi, sem guði vóru gefnar, sem máldagarnir vátta, utan af einum Hítardal galzt tíundir, ok fátækum mönnum einnsaman þeirra fjórðúngr. En þó at þessir hlutir skoraði samvizkur manna á fornum landskap, vóru enn sumir menn hærri vizku, þeir sem kunnu sjá ok lesit höfðu lögtekna skipan postulanna, páfanna, ok kennara kristninnar, at[1] allt þat, sem guði er gefit ok helgat, [á][2] eptir sameiginligum lögum at vera undir vernd ok valdi, skipun ok forsjá biskupa ok lærðra manna, nema framarr taki þeir af kennimönnum í vild þeirra ok góðri samþykt, ok at þær megi [eigi] eignast nè í erfð takast, hafast nè haldast forsvaranliga[3] af leikmönnum, utan sálutjón sjálfra þeirra. *Vóru ok eigi at eins margir á þessi trú*, þeir sem heima sátu eðr hjá þessháttar framferðum stóðu, heldr ok þar með þeir, sem sjálfir tóku firir grimdar sakir kirkjurnar, ok gjarna vildu hafa þagat ok heima setið, á þá leið sem Judam fór með fagnaðar-*processione* á pálmadegi móti várum herra, [en] þorði eigi at verja líf hans á píslardegi hans, ok var þó at hváru eigi umskipt með öllu trúan, heldr þrotin. Ok svá sem Júðar þessir sömu fögnuðu litlu síðarr Krists upprisu, fögnuðu ok margir hverir af hinum instu hjartarótum skamms bragðs leiðrèttu lærdómsins.

40. Í þessum fardögum var herra Árni biskup víss orðinn, at leikmenn höfðu saman bundizt at setjast á kirkjueignir, ónýtandi með öllu þann skilníng brèfsins, þess er af höfðingjunum kom hit fyrra sumar, sem herra Árni biskup ok Jörundr biskup ok Runólfr ábóti í Veri höfðu allir samanritað, til þess at eigi sýndist þeir taka konúngs ráð framarr en veri sekt á við guð firir þröngíng lærdómsins, ok hins annars, at eigi sýndist þeir samþykkja uppá kirkjuna ágang leikdómsins, ok þess hins þriðja, at þeir veri eigi aptrhaldsmenn eðr niðrbrotarar þeirra skynsemda, sem fornir menn ok lögfróðir á landi hèr váttuðu, bæði eptir sinni samvizku ok sannsýni ok sinna firirmanna, at trautt eðr eigi mundi finnast sú kirkja eðr kirkjueign, at eigi mundi nú eiga at vera undir biskupa valdi, ok þeir mundu eigi fengit hafa,

---

1) getg.; ok, *S.* 2) b. v. eptir getg. 3) *U*; forsamliga, *S.*

firir þat, er skilorð þeirra ok máldagar vóru eigi haldnir, ok víða gripum þeirra eðr eignum sukkat, eðr sjálfar þær sölum seldar eðr kaupum keyptar, þó með fornum landsrètti veri sóttar. Ritaði hann í allt sitt biskupsdæmi, at engi maðr skildi greiða leikmönnum neitt þat land, er kirkja ætti, nè nokkorn part þeirrar eignar, sá sem áðr hèlt þær af honum firir gjöf eðr skipan, heldr skildu þeir vátta, at leikmenn tóku þat allt, sem kirkjunnar var, móti þeirra vilja, at eigi yrði svá illa, at þeir sýndi sik ómáttuliga at fá sæmd aptrgjaldsins, ef þeir sýndist samþykkir ósæmd burtrekstrarins. Höfðu flestir ok þetta heilræði, ok ráku sumt í burt þat sem þeirra var, en bönnuðu þat sem kirkjunnar var. Sumir biðu or stað, ok lètu þá, sem til kómu, ætla sèr þat, er [þeir] eigi vildu hafa. Sumir gerðu margan ógreiða þeim sem tóku, svá at þeir urðu sjálfir fè at safna, eðr sækja þangat sem var, þat er þeir vildi sèr skepja. Vóru þá teknir þessir staðir; Oddastað tóku Steinvararsynir Sighvatr ok Loptr, rjúfandi dóm herra Jóns erkibiskups, ok gerði herra[1] Sighvatr þat meirr firir ákall ok frýju lögunauta sinna en sinn vilja, sem síðarr bar raun á. Fór þá Grímr prestr á Breiðabólstað í Fljótshlíð. Eyjólfr Andrèsson tók Hraungerði; Hámundr, Narfi ok Skúmr Garðastað af sira Ólafi Magnússyni. Snorri Íngimundarson tók með Páli ok Lopti [Ketilssonum stað[2] í Hítardal af Jóni Holt, er þar hafði verit nær xl ára. Ólafr Arnórsson[3] ok Brandr Guðmundarson tóku Stað á Snæfellsnesi af sira Tjörfa. Skúlasynir tóku Stað undir Hrauni. Þórðr ok móðir hans tóku Kvennabrekkustað [af Eyjólfi presti Halldórssyni[4]. Þorgils Hauksson tók Setberg. Stafaholt var ok tekit. Björn Dufgusson tók Hjarðarholt. Þorgrímr Einarsson tók Stað í Steingrímsfirði. Selárdal tók Thomas Snartarson. Eirekr Marðarson ok Sveinbjörn súðvíkíngr [tóku] Holts[5] kirkju í Önundarfirði. Klemet tók kirkju undir Gnúpi [í Dýrafirði]. Einarr Þorvaldsson tók kirkju í Vatnsfirði, ok rauf dóm herra Jóns erkibiskups. Í Austfjörðum tók Magnús kirkjueign í Ási. Viðnæmr ok Skeggi tóku Þváttárkirkju[6] ok allt hennar góz.

1) sira, *S.* 2) [ getg.; Ketilstaði, *S.* 3) *U*; Andrèsson, *S.*
4) [ *U*; ok Eyj. prestr H. son, *S.* 5) getg.; Hvaleyrar, *S.*
6) *U*; Þverárkirkju, *S.*

41. Firir þessar sakir varð mikit sundrþykki manna á milli. Leikmenn kölluðu, at biskup ryfi sáttmál þat, er gert var í Brautarholti, er hann lagði óblíðu á þá sem staði tóku, ok lèt lýsa, at þeir vóru at óvilja han[s] teknir, virðandi einkis þann púnkt, er hann jáði at þola en eigi at samþykkja, ok þó þat eitt, er eigi veri á móti skyldri hlýðni við guð. En biskup segir, at þeir skildu offrekt konúngsbrèfit ok færðu hans orð afleiðis, ok hann hefði, svá sem Hólabiskup, játað at þola rèttskilinn konúngsboðskap; sagðist ok lauss sinna ummæla við þá, sem þeir rufu sín ummæli við hann, ok stóð með þessu fram til þíngs. Nú því at Árni biskup hafði skilit [á, at[1] Ásgrímr skildi aptr greiða þriggja ára þíngfararkaup [ok] skatta þá, sem hann hafði tekit af staðarins heimamönnum, heimti Hafr-Björn skatta af honum, ok fèkk eigi firir þíng. Herra Ásgrímr var þá ok kominn bygðum í Traðarholt[2], þar hafði hann látið húsa sèr til vara, ef biskup tæki af honum Baugstaði. Eyjólfr son hans átti Guðrúnu Garðsdóttur or Austfjörðum, ok unni lítið, en fylgði Íngibjörgu af Stokkseyri, dóttur Jóns, er þar hafði búit; líkaði biskupi þat illa ok gat lítið at gert; vildi Eyjólfr honum eigi rètt af sínu máli gera; skildi þat ok enn mjök með þeim biskupi ok föður hans.

42. Á Pètrsmessu reið herra Rafn Oddsson til þíngs, ok með honum herra Erlendr ok herra Ásgrímr ok herra Jón lögmaðr, ok fjöldi annarra manna; var þá gengit í lögrèttu, ok lesit brèf konúngs ok drottníngar, ok aktað af leikmanna hendi hversu prestar höfðu af stöðum gengit, þótti þeim eigi haldit við sik af biskups hendi eðr prestanna, ok eggjuðu sumir herramenn, ok svá margir múgamenn, Rafn ok lögmennina, at lögtaka allt þat sem í konúngs brèfi stóð, ok með þessu atkalli var upplesinn samníngr sá, er í Brautarholti var gerr, ok svá brèfit, ok tekit höndum upp í lögrèttu, ok staðfest þetta allt með lófataki, ok mart var annat talat á þessu þíngi. — Nú kom þessi frètt í Skálaholt. Biskupi brá skjótt í brún, ok kallaði at þeir hefði leitt inn nýjar skipanir móti frelsi kirkjunnar; ok er þessi frètt ok hans upptekja kom á þíngit, rituðu þeir herra Rafn ok lögmennirnir ok aðrir hinir beztu menn til hans, biðjandi, at hann riði á þíngit með ábótum ok prófföstum, þeim sem hann mætti ná, ok at þeir endrsemdi samníng sinn ok þat sem á millum stóð; buðu þeir at

1) [ *U*; af, *S*. 2) *U*; Staðarholt, *S*.

láta eigi við vera, þá er samtal veri, Ásgrím ok Erlend, at því heilligar yrði or höggnir allir þverúðar þreskeldir af beggja hendi. Ok sem þessi brèf kómu til biskups, sá hann, at þeim herramönnunum þótti eigi við sik haldit af hendi klerkanna, en vissi á sik, at honum þótti eigi við sik haldit þat sem honum var jáð ef hann þoldi konúngs boðskap. Ritaði hann at móti, eptir tekit ráð af þeim mönnum sem hjá honum vóru, at honum líkaði vel at [þeir talist[1] við í náðum, at fráskildum þeim mönnum, er líkligt má þikkja at ógreiði standi af; svá ok, at þeir hètu honúm ok hans mönnum í griðum at fara á þíngit ok af. Skoraði því biskup þessa hluti, at honum kom leyniliga sú frètt, at gert mundi við hann sem við erkibiskup var gert, ok haldit mundi biskupstíundum, ok at engu hlýtt biskupi, ef hann játaði eigi at halda konúngs boðskap. Fór þá Magnús Pètrsson mágr biskups ok Ketill Ketilsson, þeir sem áðr vóru af þínginu til biskups sendir, aptr á þíngit með biskupsbrèfi; vóru ok nokkorir hlutir í einkamálum, [er] þeim tveimr bar í millum, biskupi ok Rafni, ok þeir einir vissu; ok jafnskjótt játaði Rafn biskupi ok hans mönnum griðum, slíkum sem hann beiddist. Fór þá Jón Holt heim í Skálaholt, ok segir biskupi þetta; reið hann þá skjótt á þíngit. En því at honum þótti klerkar þeir, sem á þínginu höfðu verit, ok eigi áttu at afsakast firir fávizku um þat[2] er þeim var skylt at vita, hafa í bann fallit, hjáverandi ok sem samþykkjandi því, er leikmenn lögleiddu brèfin; leysti hann [þá] sem til hans kómu, ok mælti í fyrstu, at allir þeir sem í lögrèttu höfðu verit veri í slíku banni. Þann dag var gengit í lögrèttu, ok var biskup mjök heitr firir sagðar frèttir. Hann spurði þegar opinberliga, hvat þeir hefði lögleitt á þessu þíngi; en herra Jón lögmaðr hafði svör firir þeim, ok var blíðr í máli. Biskup mælti þá: „svá er mèr flutt, at þèr hafit greinarlaust allt þat lögtekit, sem í konúngs brèfi ok drottníngar er ritað, því sem í fyrra sumar kom til Íslands, ok brotið biskupa brèfit, sem ek lèt lesa í þessi sömu lögrèttu, sem nú stöndum vèr í, ok [leitt inn[3] með lófataki nýtt ófrelsi móti heilagri kirkju. Þat má ok eigi annat skilja, [en] at þèr sèt af sjálfu verkinu, ef þetta er satt, í hit meira bann fallnir". Jón lögmaðr segir þá: „vèr höfum þat lögleitt, at sú sætt skal

1) [ *U;* þat talið, *S.* 2) þar, *S.* 3) [ lètu menn, *S.*

haldast, sem í Brautarholti var samin". Ok er þessi svör heyrði biskup, mælti hann: „er nokkot svá fleirum gefit en þèr, sem nú mælir þú"? — þá segja nær allir, at þetta veri allra þeirra ástundan, sem hann hefði einn játað. Biskup mælti: „gjarna vilda ek því trúa hèr um, sem bezt semdi, en skjótt munu þèr sjálfir bera yðr vitni um þetta". Síðan tókst tal með þeim ok varnir af beggja hendi, hvat hvorjum þótti eigi haldit; kærði biskup á þat, er þeir einir höfðu glósat brèfin sèr til handa, ok kallaði langt gengið um þat fram á kirkjuna, sem þat váttar, ok rèttskilit er, ok færði fram sína glósu ok herra Jörundar biskups ok herra Runólfs ábóta [í Veri[1]; hann sagðist eigi hafa fengit þat frelsi staðarins í Skálaholti ok hans heimamanna, sem jafnan stóð, áðr landit gengi undir konúnginn, ok jafnan hèlzt á Hólastað, ok honum var játað í Brautarholti, ok sýndi með fullum skynsemdum, at konúngar virðu[2] aldrei fremri þegnskyldu[3] staðarins heimamönnum, [en áðr[4] en landit kom undir þá höfðu landsins formenn átt ok haft; ok í þessu ákalli leiddu sýslumennirnir nýtt ófrelsi móti fornu kirkjufrelsi. Þar næst tjáði hann, [at] áðr landit kom undir konúnginn guldust af hvers manns eign tíundir biskupi ok heilagri kirkju, kennimönnum ok ölmusumönnum, en nú sviptu konúngsmenn þessu frelsi þá sem hafa áttu, hvervetna þar sem undir konúnginn fèllu eignir firir sakferli, eðr kaup, eðr gjafir, ok þat mátti kirkjunnar skaði verða, sem lengr stæði konúngs vald á landinu, ok mætti eigi svá búit standa. Hann taldi þar næst um fálkaveiðar, at konúngsmenn tæki þær móti fornu frelsi af kirkjueignum. Hann taldi ok um tolla Holtskirkju í Önundfirði, at þat veri rangliga undan henni dregit. Hann taldi ok á þá um þat, at þeir meinuðu honum nýjan kristinnrètt, þann sem skipaðr er eptir helgum Decretum, firir þá skynsemi, at þat vóru hèr lög á landi fyrr, áð[r] þat kæmi undir konúngs vald, at guðslög rèði, þar sem þau greindi á ok landslög, ok þessu sínu frelsi mætti kirkjan með engu móti týna. Hann segir ok, at konúngsmenn tóku rangliga á sik dóma ok lögsögn yfir andligum hlutum; hann segir ok, at konúngsmenn gerði rangt, er þeir þýngdu eðr lögræntu frændr hans eðr

1) [ b. v. *U.* 2) getg.; urðu, *S.* 3) getg.; þegnskyldum, *S.*
4) [ getg.; eigendr, *S.*

mága eðr starfsmenn, firir þat, er þeir skildu eigi við hann[1] þar sem hann vildi eigi láta rèttindi sín eða heilagrar kirkju firir þeim. Vóru þessar sakir gefnar flestar herra Ásgrími ok Eyjólfi syni hans, þvíat biskupi þótti Ásgrímr rangliga reist hafa mörg mál, fyrst á Lopt frænda sinn ok Ketil Ketilsson, þar næst á Snorra í Hlíð, ok marga aðra; svá þótti honum ok frekt sótt á þá, sem herra Loðinn gaf sakir, því at þeir vóru þá enn eigi frjálsir orðnir. Hann taldi ok á við Eyjólf um konumál ok tíundarhald, ok um osttoll, ok um eiðfall, ok um vápnaburð í kirkjur. Hann taldi ok á Ásgrím firir þat, er hann gaf þeim mönnum sakir, er málum skutu undir biskups dóm; svá ok um orð þau, er hann hafði talat til niðranar kirkjum. Hann sagðist ok eigi annat þola mundu, en Niðarósskirkja hèldi hèr á landi sínu fornu frelsi ok fálkakaupum, flutníngum brennisteins ok mjöls ok annarra hluta. Hann segir ok, at þeir mundi eigi neinn samníng við hann gera, utan konúngsmenn gerði honum rètt ok heilagri kirkju, svá Ásgrímr ok Eyjólfr son hans, sem aðrir; svá ok, at hann megi halda því frelsi, at skip staðarins gangi. Þar eptir segir hann, at hann vill at [herra] Rafn ok aðrir konúngsmenn fái af konúngi[2] aptrkomu Lopts, ef hann hefir eigi áðr orlof fengit. Eptir þat sagðist biskup í engum stað ábyrgjast vildu þau kirkjufè, sem herra Rafn hafði taka látið, ok bað hann þar síðan öllu firir svara. Hann sagði ok, at staðr í Odda ok Vatnsfjarðarkirkja, ok þær kirkjur, sem fornir máldagar segja biskup eiga ok hafa vald yfir, má engi þýða at takast ei[gi] firir konúngsboðskap. Þá er herra biskup lauk sinni ræðu, gekk fram sira Jón Holt, ok kærði á Snorra bónda Íngimundarson ok Ketilssonu, at þeir hefði ólögliga tekit firir honum kvikfè mart, ok beiddi herra biskup at heimta at nefndum mönnum fylliliga sín rèttindi, en þeir svöruðu at móti, at þeir hefði eigi meira tekit með [herra] Rafns ráði en þeir áttu at hafa.

43. Um alla þá stund, sem herra biskup talaði, hlýddi herra Rafn ok aðrir konúngsmenn. Eptir þat mælti hann: „undarliga víkr nú við; þeir gefa oss nú sakir, er vèr hugðum at oss ætti sakir at bæta; þeir kalla oss at hafa rofit várt sáttmál, ok þeir kalla oss hafa gengit yfir konúngsbrèf, er oss

1) en, b. v. *S*, *U*. 2) þíngi, *S*.

þikkja brotið hafa þau sömu brèf; en vèr höfum því síðr yfir þau tekit, at vèr höfum þeim víða vanfylgt, því at enn eru þar margar kirkjur óteknar, sem brèfin segja rètt teknar; viljum vær því síðr niðrbrjóta kirkjunnar frelsi, at vèr fám enn eigi várt fornt frelsi. En þótt herra biskupi lítist, sem at klerkar muni tapa þeim röngum yfirgangi sem þeir hafa nú haft um stundar sakir, ok hóti þeir oss firir þat harðindum, þá verðum vèr þat at þola eptir því sem guð vill, firir skyld míns herra konúngsins; svá vitu vèr ok, at engi á váru landi á lögum at ráða, utan konúngr. En um heimamenn Skálaholtsstaðar, tíundir af eignum míns herra, flutníngar ok frelsi Niðarósskirkju, svá ok um fálkaveiðar á kirkjueignum, hefir biskup mikit til síns máls, þótt mèr sýnist slíkir hlutir nú í konúngs valdi vera; svá ok þikkir oss hann þat rèttiliga mega heimta, at svá handgengnir menn sem múgamenn svari þeim sökum, sem forn kristinnrèttr segir á þá; en hinum firirbjóðum vèr, undir slíkri pínu sem konúngsbrèf váttar, at neinn hlýði, meiri maðr nè minni, í smá nè stóru. Ek vil ok at allir viti, þeir er til minna orða spyrja, at mèr þikkir sú sátt rofin, annathvárt af biskupi eðr prestum hans, sem í Brautarholti var ger; ætla ek ok mèr at taka til norrænna dæma, nema þat sè haldit hèðan af, sem mèr þikkir híngat til eigi haldit, með ráði minna lögunauta." Ok er herra Rafn lauk sínu máli, mælti Árni biskup til hans, ok litaðist um sik hógliga, svá talandi:

44. „Þat er álmáttigum guði þakkanda, at þú, herra Rafn, sèr, at í sumum stöðum stendr konúngs boðskapr móti fornum guðs rètti, en hitt er stórliga mjök harmanda, at þú trúir, at forn óvandi, sá sem á várum landskekli var upp tekinn um leikmanna forráð á kirkjum, megi eigi rèttiliga niðrbrjótast með þeim, sem allr heimrinn heldr, ok af páfanum eru allir skyldaðir til at halda, þvíat rangligr kaupmáli, ok af sjálfum rèttindunum ónýtr, má ekki band nè hald fullkomna, nè hefð gera. En þar sem þú sagðir, at ek eðr prestar mínir hefði rofit sætt þá, sem í Brautarholti var ger, stendr því at móti sú hin fyrsta grein, at ek játaða at þola, en eigi samþykkja konúngs brèf, ef þèr efndit þat, sem þèr hètuð at móti; höfðu þèr ok sjálfir raun í hendi, at staðrinn í Skálaholti hefir enn eigi sinn rètt; sú önnur, at ek játaða at þola boðskapinn, ef hann veri af þèr eðr öðrum skynsömum mönnum rètt skildr, en nú er þar

þvers á móti gert; sú er hin þriðja grein, at ek jáða honum um þat eitt, sem eigi veri í móti skyldri hlýðni við almáttigan guð; því bauð ek þeim prestum, sem af stöðum gengu, at segja, at þeir lèti þá[1] utan síns vilja: at páfinn, sá sem sitr í guðs sæti, segir klerkum öll kirkna forráð, ok honum á öll kristni með rèttu at hlýða; ok þótt ek vilda kirkna vald undir leikmenn gefa, ætti þat með engum kosti haldast, þótt gefit sè; var ok várt viðrmæli í Brautarholti eigi sett til langgæðar eðr fullnaðar, heldr [stillt ór[2] vandræða firríng, til þess er guð gæfi biskup til Niðaróss."

45. En er biskup hafði lokit sínu máli, rómuðu klerkar ok múgr vel, en staðamenn ok sumir handgengnir menn, þeir sem blindaðir vóru með sótt fornrar ágirni, tóku þúngliga hans orðum, sem forðum gerðu Pharisei við várn herra. Sumir handgengnir menn lögðu gott til. Margir hlutir vóru þar talaðir, þeir sem mikillar frásagnar eru verðir, en fáir til skila færðir. Þar kom um síðir, at brèf var ritað undir beggja innsiglum, ok er um flesta hluti sem hermanda eptir Brautarholts brèfi, ok þat umfram, at Rafn játaði biskupi, at fullar vörzlur skulu gefast firir öll fè kirkna, ok staða allra, þeirra sem menn höfðu á sezt eptir ráði Rafns, í Skálaholts biskupsdæmi. Þar eptir gerðu þeir þann skildaga, at biskup ok lærðir menn skildi bæta með jafnaðardómi slíkt sem hverr prófaðist sakaðr; var þar undir skilit öll þeirra mál, ok Ásgríms ok Eyjólfs sonar hans, með fyrrsögðum greinum, ok mörg önnur. Ekki skapaðist at Holtstolla-málum, en mál Jóns ok Hítdæla mátti kalla at til samníngs veri lögð. Ásgrímr handfesti at greiða þriggja vetra skatta ok þíngfararkaup, þau sem hann hafði tekit af biskups heimamönnum, í hönd Hafr-Birni, sem fyrr. Eptir þat ritaði herra biskup ok Rafn, ok báðir lögmenn, herra Ásgrímr ok herra Sturla, sinn bænarstað til Eireks konúngs með fögrum orðum, at hann lèti tíund greiða af öllum sínum eignum á Íslandi æfinliga, til sáluhjálpar sjálfum sèr, en til nytsemdar staðnum, ok at eigi heimtist skattar ok þíngfararkaup af báðum biskupsstólum, ok at konúngrinn styrki þetta staðarins frelsi með sínu brèfi ok innsigli. Þeir báðu ok, at konúngrinn lèti ganga skip staðarins, þótt hann hefði áðr annat ætlat. Þeir

1) þær, *S.* 2) [ stiltr, *S.*

báðu ok Lopti orlofs, þó at hann hefði eigi áðr fengit. Þeir báðu ok, at konúngrinn linaði dóm þann, sem handgengnir menn höfðu dæmdan um[1] þá menn, sem herra Loðinn gaf sakir á alþíngi, ella gefi hann þeim upp allan dóminn firir sinn herradóm ok bæn sinna manna; höfðu ok verit á þann þeirra, sem mest þótti sekr vera, dæmdar xiij merkr, en á suma dæmdist IX merkr, en á suma V, at lúka konúnginum, ok eigi þótti nauðsynlig utanferð þeirra, þar sem skynsömum mönnum virðast minni sakir þeirra, en firir öndverðu var upp kastað, ok þeir vóru kyrrir menn ok gæfir í bygðarlagi; gafst þeim upp, ef þeir lyki þat fè, sem nú var greint. Þeir beiddu ok konúnginn rita í móti sèrhverri grein, hvat hann vildi veita eðr eigi veita. Eyjólfr Ásgrímsson sættist þá við biskup um sín mál; svá vóru þeir Ásgrímr ok biskup sáttir.

46. Nú þvíat herra biskup vissi, at þar sem á þessu þíngi höfðu margir ok misjafnir heyrendr verit vitnismenn þess, er á þínginu gerðist, vildi hann svá sem vinr sannleiksins í öllum stöðum birta. Því ritaði hann brèf þat, sem hann lèt bera ok upplesa um allt sitt biskupsríki; í því stóðu þessi orð: „Vær trúum yðr kunnigt vera, at konúngsmenn kváðust staðfesta með lófataki í lögrèttu í sumar, at oss fráveröndum, allt þat greinarlaust, sem stóð í brèfum þeim, sem í fyrra sumar kómu til Íslands undir innsigli konúngs ok drottníngar, ok hversu þeir aptruðu sèr, þá er vær kómum á þíngit, svá sem Jón lögmaðr váttaði í lögrèttu, at þeir vildu þat eigi staðfest hafa, sem í móti veri guðs lögum og rètti. Sýndist oss firir þessa hans framsögn ok þeirra samþykki, at þeir forðaðist banns áfelli, meðan þat hèlzt sem þeir hètu; en ef þeir seilast á guðs rètt ok heilagrar kirkju með framkvæmd verkanna á dómum yfir kristnum rètti eðr lögsögum, þá falli þeir í þat bann, sem lögbækr heilagrar kirkju vátta, ok þar með opit brèf míns herra Jóns erkibiskups ok hans undirbiskupa: Nú af því at leikmenn eigu [eigi] vald ok lög at segja eðr skipa yfir kristnum rètti, þótt nokkorir af þeim hafi annat flutt, þá viljum vèr ok, at allir þèr vitið, at um almenniliga ok helga skírn ok svá um föstur ok um helgihöld, um biskups forræði á kirkjum ok eignum þeirra, valveiðum ok tíundum, um kirkju þyrmsl ok

1) *U*; ok, *S*.

lærðra manna, um lýsíngar fyrir brullaup, festarmál ok um öll hjúskaparmál, um guðsifjar ok skriptamál, ok okr, er menn byggja dautt fè, ok allt þat annat, er til biskups heyrir at eins eptir guðs lögum vald ok dóm yfir at hafa, eðr þeir, sem hann skipar til: þá skal svá standa, sem vèr höfum áðr skipat ok boðit." Ok eptir nokkorar klausur standa enn þessi orð á því sama brèfi: „Nú er sá vár bænastaðr til allra yðar, at þèr geymit vel ok forsjáliga skyldugrar hlýðni við jarðligan konúng, en varizt allra mest mótgerðir ok hlýðnibrot við himna konúng, er vald hefir á lífi ok sál jarðligs konúngs ok allra vár, ok oss veitir allt gott, þat sem hverr vár hefir; hann hegnir sína óvini at endalykt með eilífri pínu, ok umbunar sínum sonum ok þjónustumönnum stundligt starf með eilífri dýrð ok endalausum fagnaði."

Þá er herra biskup var heim kominn, gaf sira Jón Holt honum þat fè, sem Hítdælir tóku firir honum. Biskup krafði fjárins með brèfi, ok setti stefnudag, nær greitt skildi vera, en hèt þeim harðindum, ef eigi gyldi. Rafn ritaði brèf undir sínu innsigli, ok lèt Eylíf skjálg bera þat, ok fá í hendr Kolbeini Eindriðasyni ok Magnúsi Pètrssyni, at þeir færði þat biskupi. Hann gekk þá firir fortölum þeirra, sem Rafn hafði til hugat, ok lèt firirfarast at sinni harðindi við Hítdæli. Þetta haust andaðist Sturla lögmaðr.

47. Noregsmenn áttu þessa tíma, er liðnir vóru frá framför ágætra herra Magnúss konúngs ok Jóns erkibiskups, mörgu erfiði at mæta, þvíat ‚sá drepr opt fæti, er augnanna missir', þvíat hinn úngi konúngr var eigi svá mikillar nytsemdar, sem mannfólksins þörf beiddi, þótt hann veri mikilhugaðr ok góðrar náttúru; leituðu þeir, sem skyldir vóru honum at fylgja til allrar sæmdar, ok at forða hans sál öllum syndsamligum hlutum, svá sem líkamanum við öllum meinsamligum hlutum: at snúa honum til þess at samþykkja sinni röngu ágirni, ok allra mest upp á lærða menn. Sá maðr er Jón hèt, ok var Brynjólfsson, var settr yfir staðinn í Niðarósi, ok lagðist í þá sæng með eiginkonu sinni, [er] erkibiskupar einir höfðu í hvílt; hann tók ok undir sik eignir ok prófentur kórsbræðra ok ætlaði þeim expens. Ummörk kennimanna vóru firir ekki haldin nær um allt land. En þar sem hinn enn himneski [meistari sá[1] marg-

1) [ getg.; lest v̄ Legg[2] so, *S* (afbakað).

faldan sjúknað andanna með sínu hyski: lagði hann á þá þýngð, til betranar, síns signaða ráðníngar sprota; var þat hit fyrsta tilfelli, at yfir kom sótt ok manndauði, sultr ok búfellir, sem forðum var í Róma at liðnum hinum frjálsasta forstjóra guðs hjarðar, *Gregorio* hinum mikla. Á þessum tíma andaðist Margrèt[1] drottníng, sú er áðr var, sakir venzla við marga göfga menn, ván mikillar styrktar Noregs ríki. Þá andaðist ok Erlíngr Álfsson ok margir aðrir ágætir menn. Sá atburðr[2] varð ok, at Jón erkibiskup, dauðr ok í jörð grafinn í Skörum í Vestra-Gautlandi, [var fluttr heim til Niðaróss ok þar jarðaðr[3]; neytti hann þess þjónustu ok líkflutníngs aptr til stóls síns, sèm áðr gerðist formaðr at flæma hann frá stóli lifanda. Þat gerðist ok, at sjálfr konúngrinn Eirekr fèll af baki bráðum hesti, svá at fætrnir vóru fastir í stigreipum, en höfuðit mætti viðum ok grjóti, alla stund meðan reiðskjótrinn rann undan þeim sem eptir sóttu; ok þeir, sem áðr höfðu hans ómátuliga geymt, sýttu hann sem dauðan, þar til er faðir allra miskunnsemda leit mildiliga á sitt sakat smíði, ok bætti honum firir árnan hins ágæta Ólafs konúngs, þess er þeir höfðu ákallat er yfir honum sátu, ok þó með þeim hætti, at þetta mein varð aldri með öllu albætt. Sá hlutr fèll enn á landit í makligu hamíngjuleysi, at þeir sem hirðmenn höfðu útlaga gerva mistu langan tíma hirðisins, sumskostar firir tilfelli, en sumskostar firir vandrækt ok sjálfvilja: þvíat Narfi Björgvinar biskup, er fyrst var til erkibiskups kosinn, sýndist eigi maðr til at setjast í svá háleitt sæti; gerði prófan hans mála langa dvöl á kosníngunum, sem síðarr segist. Nokkoru síðarr hendi einn af herbergissveinum svá mikill hlutr ok mikilligt slys, at [hann] leypti snápliga á sjálfan konúnginn, svá at í sundr gekk annarr hans fótleggr; þó festi skjótliga fótinn; var hann þó jafnan skemmri ok eigi rèttr, sakir athugaleysis þeirra sem bundu, ok verr höfðu honum þjónat en vert var. Þó varð hann vel styrkr til ástigs, at hann veri eigi rèttr álits. Sá er óhappit hendi hljóp skjótt í kirkju, en konúngrinn, svá sem ósúrt epli hins sæta viðar, sýndi engan beiskleik af sèr nè reiði, heldr gaf upp hinum seka hans óheppni.

---

1) *U*, ísl. Ann.; Marioth, *S*. 2) *U*; mótburðr, *S*.
3) [ b. v. eptir ísl. Ann.

48. Nú er frá Lopti at segja biskupsfrænda, at hann stóð undir heitum ok illyrðum, ok bannat var honum at koma á konúngsgarðinn. Um haustið gaf hann Hallkeli Ögmundarsyni v° vaðmála, var [hann] þá búinn ór landi at fara til keisara. Hallkell bað þá Bjarna or Gizka gera ráð firir Lopti, en þat varð ekki. Um sumarit kom Hallkell heim ok tók Lopt til sín. At jólum bauð Erlendr Ámundason á konúngs garð Lopti, ok hinn viij. dag bað Hallkell firir honum konúnginn, ok vanst ekki at. Um sumarit eptir fór Loptr í bæjarmanna skipi til Landsenda með konúngi ok aptr um haustið, fór hann þá til Hallkels um vetrinn, þá er hann kom af Hálogalandi, ok var með honum þat sem eptir var vetrarins. Um várit fór Loptr með öðrum Íslendíngum austr í Vík. Næsta drottinsdag eptir Bótólfsmessu báðu konúnginn firir honum herra Loðinn ok herra Þorvarðr, ok tók konúngrinn hann í sætt í Túnsbergi, ok var hann þann vetr með konúnginum vel haldinn. Í föstuinngang gerði konúngr hann eiðsvara sinn, ok gaf honum orlof um sumarit at fara til Íslands; fór hann þá til Þrándheims, ok var þar til þess er hann fór til Íslands.

Þenna vetr, sem Rafn kom áðr um haustið, kom mikit hallæri firir norðan land, sem var í Noregi, því at hinn hæsti höfutsmiðr sá vára menn hluttakara með Noregsmönnum í syndinni, vildi hann ok, at þeir veri hluttakarar at skriptinni. Þetta toræri kom ok vetri síðarr suðr um land, á þá leið sem [orðsviðr maðr[1] segir: at ‚nálægr veggr hitnar þá er hinn næsti brennr'; sám vèr þá sakir várra synda sanna guðs reiði yfir oss koma. Margir hlutir urðu á einum tíma þessi misseri, þeir sem eigi má alla senn segja. Eptir fyrrsagt þíng var nokkor dvöl á um fjandskap þann, sem verit hafði milli [herra] Árna biskups ok [herra] Ásgríms, svá at firir góðra manna flutníng sátu þeir at orlofi biskups at einni veizlu, varð Ásgrímr því feginn, þar sem honum var eigi ókunnigt, hvílíks[2] vert var. Þá bjó í Haukadal Klængr Teitsson, ok Ormr son hans bjó í Túngu, hann var hinn mesti vin Ásgríms, ok eggjaði hann æ í mót biskupi, en sefaði hvergi.

49. Þetta sumar heimti Hafr-Björn fyrrsögð þíngfararkaup af Ásgrími, en hann vildi eigi lúka; biskup varð þess víss at

1) [ *S*; orðskviðr, *U*. 2) hvílíkt, *S*.

áliðnu sumri, ok þótti rofit sáttmál þeirra Rafns; en þegar fundi þeirra Ásgríms bar saman, spurði biskup, hvárt hann hefði aptr greitt þíngfararkaupin; Ásgrímr kveðst eigi greitt hafa. Biskup mælti þá: „hví viltu svá gera"? — Hann segir, at konúngsbrèf býðr honum nú öðruvís en fyrr, ok konúngr vill hvárgi missa af biskups heimamönnum nè af öðrum mönnum, at hafa fulla skatta af öllum þeim mönnum, sem hans faðir tók af. Biskup segir at móti: „eigi veiztu þat, Ásgrímr, nè neinn annarra, at Magnús konúngr hafi þat samþykt, at Skálaholtsstaðr hafi í neinu minna rètt en Hólastaðr", ok hann skili frekara brèfin en honum er boðit, ef hann tekr nokkot fram um þat, sem hann veit Magnús konúng samþykt hafa. Ásgrímr segir: at Magnús konúngr kallaði Árna biskup draga undir sik hærra vald en hinir[1] fyrri biskupar höfðu, um dóma eðr frelsi heimamanna í Skálaholti, ok at hann skildi offrekt þat sem þeir áttu at tala [um] konúngs boðskap. Biskup segir, at sannliga[2] hafi Magnús konúngr í sumum smáhlutum á sik talit firir rangan afflutníng sinna manna, en gefit þó at hváru önga[3] þykt, „þann tíma er vit fundumst, ok ek mætta honum sýna sannar skynsemdir, at ek hafða sannara en þèr handgengnir menn í várum skiptum, þessum ok öðrum; ok því síðr gaf hann mèr á þessu þykt, at hann veitti mèr margar sæmdir jafnan, er vit fundumst, ok hann mundi hit bezta ráð hafa firir slíkum hlutum gert, ef líf hefði unnizt. En þótt hann eðr annarr konúngr hefði boðit at minka rètt stólsins í Skálaholti, áttir þú þat hvergi at gera, ok ek ætta eigi at þola, þó at gert veri, heldr at hegna eptir guðs lögum ok skipan Jóns erkibiskups". Ásgrímr segir, at hann vildi af sèr ok sínu efni veita herra biskupi tillæti, en af efni sjálfs konúngsins mun hann ekki gera utan ráð lögunauta sinna. Biskup segir þá, at hann mundi forboða hann, utan hann hèldi þat sem hann hefði heitið ok handfest í Brautarholti ok á alþíngi. Nú því at Ásgrímr vildi eigi at borði ganga, lèt herra biskup sira Torfa prest forboða hann; stóð hann í því um stund, því at hann vildi eigi aptr láta greinda penínga. Margar vóru aðrar sakir milli biskups ok Ásgríms, þær sem stóðu af fornum greinum klerka ok leikmanna, sem áðr er ritað, ok [í] flestum öllum málum sinnaði Ormr í Túngu

1) hans, *S.* 2) *U*; seinliga, *S.* 3) ongan, *S.*

Ásgrími, ok því var hann ok forboðaðr af biskups tilskipan; vóx nú at nýju þrályndi Ásgríms móti biskupi; varð þat ok allt opit ok öndvert með þeim, er fyrr var til samníngs lagit.

50. At liðnum jólum þenna vetr fór herra Ásgrímr í sýslu sína, ok tók gistíng í Gröf í Hrunamannahrepp, þar tók hann sótt svá ákafa, at hann mátti varla stýra sèr; fór hon með svá miklum æsíngi, at stundum greip hann til vápna, ok vildi engu hlífa, en stundum gat hann legit kyrr at kalla. En til þess, at hann sýndi sik eigi þetta gera sakir nokkors illvilja, heldr af þrengíng óþolanligrar sóttar, segir hann jafnan áðr þetta kom at honum, at burt skildi taka allt þat, sem ván var á at hann mundi nokkorum mein með gera; æpti hann þá stórliga hátt, ok varð at geyma hans meðan þesshåttar æsíngr stóð á. Þess á milli talaði hann með skynsemi, ok er menn sá, at þessi sótt þrengdi hann mjök, var sóttr sira Oddr Svartsson prófastr, frændi Árna biskups; ok þegar er honum kómu þessi sendiboð, brá hann við skjótt, ok reið í Gröf. En er Ásgrímr vissi kvámu hans, heilsaði hann honum, ok bað menn fírir guðs nafn ríða sem skjótast til Árna biskups, at leita um sættir með þeim, kvaðst þat allt, sem hann mátti, til vilja vinna at samníngr yrði. Þar var við staddr Ormr or Túngu, ok latti Ásgrím at sættast við biskup, en Ásgrímr varð því svá reiðr, at hann rak hann með hörðum orðum or því húsi, er hann lá í, ok vildi ekki tal við hann eiga. Eyjólfr, son Ásgríms, var þar ok lagði gott til. Sira Oddr dvaldi ekki, ok reið í Skálaholt, finnr biskup ok segir honum, at Ásgrímr vill gjarna sættast við hann, ok greindi honum hvílíkt var sóttarfar hans. Biskup mælti þá: „far þú aptr sem skjótast, ok leys hann, ef hann vill þat til vinna, sem hann er skyldr, ok gjarna vilda ek þat vita at hann yrði leystr, ef þat mætti með skilum fram fara". Sira Oddr dvaldi ekki, ok reið aptr í Gröf ok hitti Ásgrím; hann segir þá, hversu biskup tók hans málum, ok at biskup vill gjarna taka sætt af Ásgrími, ef hann leggr öll þeirra mál á guðs vald ok til hans umdæmis. Ásgrímr mælti þá: „sæll em ek þess, ok þat vil ek gjarna gera". Sira Oddr tók þá ok þetta skilorð með handfesti; kom þar at því, sem mælt er, at ‚sigrsæll er góðr vili'; lætr hann ok eigi fyrr verða skilit við herra Ásgrím, en hann leysti hann, ok heyrði slíka játníng, sem hann fèkk gert. Eptir þat oleaði hann Ásgrím

ok husladi; ok eigi leið langt frá því, áðr Ásgrímr andaðist, *in festo Brigidæ virginis*. Um morgininn var búin líkferð Ásgríms, ok var hann fluttr ofan til Skálaholts. Ormr fór með líkinu, ok er biskup vissi þat, sendi hann mann til hans, ok firirbauð honum at koma heim á staðinn; hvarf hann aptr í Túngu, þá er hann var áðr kominn í Auðsholtsmýri. Ok er líkit kom í Skálaholt, gekk biskup glaðliga á móti því, ok söng sjálfr yfir. Þau Eyjólfr ok Guðný gáfu til staðarins vij^c, hríng ok belti, ok fíngrgull, þat er stóð ij ortugar, ok hest. Litlu síðarr tók biskup til sín Þorstein, son Ásgríms, ok lèt kenna honum, til þess er hann gaf honum prestsvígslu.

51. Um várit eptir páska fór Ormr Klængsson norðr til Rafns, ok beiddist sýslu þeirrar sem Ásgrímr hafði haft, en Rafn skipaði hana Eyjólfi, syni Ásgríms, til þess er annat ráð veri firir henni sèt af Noregi. Mart þóttist Rafn þat spurt hafa frá biskupi, er honum mislíkaði; því ritaði hann með Ormi til biskups, at hann skildi svá geyma sín, at hann veri lítt utan kirkju; fluttu þeir feðgar þetta brèf til staðarins, Klængr ok Ormr. Ok er biskup sá þat, vóx at eins sundrþykkja með þeim. Lá biskup um stundar sakir í Þorlákskirkju.

Þenna vetr ritaði Árni biskup í öll prófastsdæmi síns biskupsríkis viðvaranarbrèf til þeirra manna, sem kirkjur höfðu tekit, at þeir tæki eigi líkama várs herra á páskadegi, ok þar með settar sannar skynsemdir: sakir þess at biskup sá þá standa í dauðligri synd, mátti hann eigi, utan þúnga sekt við almáttigan guð, með þögn hylja þvílíkan glæp sinna undirmanna. Hann sýndi þeim ok jafnfram, at svá takandi jóku þeir stórliga mjök sína sekt, ok áttu sjálfir sik frá at halda viljanliga, þótt hann legði eigi bann firir at þeir tæki. Hann sýndi ok í þriðja stað, at hann afsakaði sik við guð firir þessa viðvaran, ok þvíat þeir áttu sjálfir sik at ábyrgjast, ef þeir tæki, slíkir sem þeir vóru. Þeir vóru ok margir, er eigi dirfðust Krists líkama at taka. Við þetta allt saman báru vándir menn nýjan róg milli biskups ok Rafns, þeir er tendruðu hjörtu mannanna til minníngar forns fjandskapar.

52. Í fardögum fór Ormr í Túngu bygðum í Haukadal, þvíat Klængr, faðir hans, unni honum bezt at búa á landinu, þá er hann fór til Viðeyjar. Klængr hafði gjörva þar upp kirkju ok húsat bæinn; hafði biskup, áðr hann gerði þetta, ritað hon-

um at gera linara máldaga á kirkju, ef bætrnar kæmi fram, þvíat Klængr vildi ella ekki at gera. Urðu þeir biskup eigi sáttir á hve mikit linat var; stóð í milli einkanliga um djákn, ok fleira annat. Biskup hafði skipat sira Oddi prófasti[1], syni Svarts Loptssonar, kirkjuhlut í Haukadal, ok vildu þeir feðgar þat með engu móti þola; ok á þeirri nótt, er Klængr ætlaði burt, ætlaði hann til kirkjufè, ok lèt reka þat í rètt, ok er þat var talt, mælti hann: „þetta fè greiði ek hinum sæla Martino biskupi, er kirkjudrottinn er hèr í Haukadal". Í því bili hlupu iiij menn í rèttina, Ormr Klængsson ok Þorvaldr bróðir hans, ok Snorri Jónsson; þeir mörkuðu kennum Orms þetta fè, vj kýr ok lx ásauðar. Sira Oddr var þá nýkominn; sá hann hvat þeir gerðu, ok bannaði Ormi Klængssyni þá þegar allt þetta fè ok alla eign kirkjunnar þar í Haukadal. Klængr mælti þá: „eigi mundu hinir fyrri frændr várir þolat hafa, at þeir menn, sem af Síðu austan vóru komnir, tæki þat, sem þeir gáfu guði, ok [er] eigi sæmiligt at þola þeim slíkan yfirgang"; ok var við sjálft, at þeir mundu standa at prestinum. Ok er hann sá þat, þar er hann sat á geilagarðinum, brá hann höndunum frá sèr, ok bað þá at gera at slíkt sem vildu; kvaðst eigi mundu flýja. Þeir spottuðu hann at móti, ok þótti hann sýna æðru í orðum sínum, ok tók Ormr fè ok land, en prestr sagði biskupi til svá búins. Hann kvaðst þola verða þetta at sinni, „en þar skaltu vera þessi misseri, ok sjá hvat í gerist". Presti þótti þat mjök móti skapi, ok varð[2] svá at vera. Ketilbjörn klerkr var þá sendr í Haukadal, en Ormr bannaði honum þar mat ok aðra hluti; kvað föður sinn sèr segja, at ekki ætti hann at fæða. Þessi [sami] Ketilbjörn gekk at mat þótt bóndi bannaði honum, ok stóð svá um hríð. Illa var presti veitt af liði Orms. Um várit eptir vildi Ormr taka kirkjutíundir, ok svá biskupstíundir, þær sem biskupar höfðu þangat veitt til kirkjunnar. Herra biskup vildi at prestr hefði þær, ok greiddu bændr honum í vild. Ormr sótti Rafn Oddsson at þessu máli, ok kærði firir honum þat er biskup lèt hann missa þessa fjár, ok þar með inngöngu heilagrar kirkju, ok þjónustu á páskum; þótti honum þetta allt stórliga illa, þvíat hann var maðr söngvinn ok siðlátr í kirkju, ok fylgði vel tíðum, en Rafn lagði þat til, at hann sækti

1) *U;* presti, *S.* 2) þó, b. v. *S, U.*

bændr með landslaga sókn til tíunda, „en vit biskup munum klakast[1] við um kirkjubann ok þjónustumissu þína"; ok er bændr vissu þetta, sóttu þeir biskup at málum, ok þótti þúngt tvennum at inna hit sama. Hann bað þá leggja þetta í kirkju, ok láta Orm taka ef hann vildi. Þeir gerðu sem hann bauð þeim, ok líkaði Ormi þat stórilla; náði hann þó þessu fè af sumum. Húsfreyja Orms, Steinunn Jónsdóttir, systir Þórðar í Túngu, eggjaði hann jafnan, en svafði sjaldan. Klængi bónda var ok þat vitni borit, at hann játaði djáknsvistinni firir biskupi, en duldi um stund firir Ormi. Þetta sumar reið Ormr til þíngs, ok með slíkum efnum sem mótstöðumenn biskups aðrir tók hann þjónustu. Þar kom um síðir, at Ormr vildi hafa djákn tekit, ef biskup vildi firir þat nokkut lina honum, en þat fèkst eigi meðan hann vildi eigi allt mál undir biskup játa. Mikil skapraun var biskupi allar þessar stundir um Orm, þvíat margir kendu kulda af þeirra missætti, sakir þess at Ormr var maðr frændmargr ok frændstórr, ok dró marga í með sèr; lèt herra biskup þá alla mæta óblíðu, er Ormi sinnuðu; Ormr var ok erfiðr biskupi ok hans vinum, slíkt sem vanst til.

53. Margir vóru enn aðrir þeir hlutir, sem óvinir friðarins virðu til þess, at herra biskup ryfi fyrrgreind skjalsbrèf þeirra Rafns. Biskup taldi á Rafn um þat, er hann lèt eigi koma fram handsöl ok borganir firir eignir kirkna þeirra, sem teknar höfðu verit, ok margar aðrar greinir; svá ok um Vestfjarðamál. Biskup taldi ok á Rafn um þat, er Hítdælir höfðu eigi aptr greitt sira Jóni Holt þá penninga, sem þeir tóku firir honum eptir ráði Rafns, ok sira Jón hafði gefit honum. Rafn taldi at móti um þat, er staðamenn mistu þjónustu, ok vildu til þess þröngva Árna biskupi, at hann samþykti þat fullkomliga, er hann hafði áðr játað at þola at eins. Rafn taldi ok á Árna biskup, er hann hafði eigi látið sira Jón greiða Hítardalsstað [þat], sem Snorra ok Ketilssonum þótti staðinn skorta. Rafn taldi ok á Þorvald prest, er hann hafði prófastsdæmi á Vestfjörðum, svá ok um Holts stað í Önundarfirði. Rafn taldi ok á, at kirkjur þær, sem hann hafði taka látið bæði í Vatnsfirði[2] ok í Holti, svá ok á Breiðabólstað, þar sem hann borgaði [firir bróður sinn, mistu fjár[3] firir sira Þorvaldi, er fyrr var nefndr.

1) *U*; klagast, *S*. 2) Vestfirði, *S*.
3) [ leiðr.; mistu fjár firir bróður sinn (sbr. kap. 63), *S*.

Rafni líkaði ok illa, er biskup hafði undir sik tekit Haukadalskirkju, ok fóru nú ógnarmál frá Rafni til biskups, jafnan þegar ferðir urðu þeirra á milli.

Þenna tíma gerðust ok þeir titlar firir norðan land, er heldr hvestu skynsama menn móti kirkjunni. Herra Jörundr biskup at Hólum greiddi penninga Sigurði í Hlíð firir Möðruvallastað, ok tók til sín staðinn; fór ok svá í fleirum stöðum. Sýndist leikmönnum, sem í þessu marki fyndist þeir hlutir með Hólabiskupi, at honum þótti leikdómrinn meira áhald hafa á kirkjunum en lærdómrinn; var firir þetta mjök leitað á hann af klerkum, en leikmenn lofuðu hann firir rèttlæti. Á einum degi var herra Árni biskup hjá þessum ræðum, er til Hólabiskups var talat, þvíat vinir Árna [biskups] virðu þetta illa firir Jörundi biskupi, sem hann eggjaði menn á bróður sinn, Árna biskup. Hann tók þá til máls ok segir: „eigi lízt mèr sem bróðir minn hafi *simoniam* framit í þessum skiptum, þvíat ek skal vera þess vel vitandi, at í þvílíkum púnkt, sem nú stendr yfir, er lofat, at láta við hit minna, en halda hinu meira, láta útleysa fè þat, er bæði má aflast ok kaupast, en halda jörðu ok fastaeign, er jafnan stendr, á þá lund, sem þá er víkíngr leggr hönd eðr fót eðr einhvern lim saklauss manns á höggstokk, ok kveðst hann munu af höggva, utan honum sè greitt svá mikit fè, sem hann kveðr á; er þat mín trúa, at Jörundr biskup muni eigi síðr, þegar færi gefst á, kunna þetta fè aptr at heimta, sem nú greiðir hann, heldr en nú kann hann fram at láta, svá sem hinn, er liminn leysti, má rèttiliga sína penninga krefja af víkínginum, ef hann fær hans vald." Þá spurðu nokkorir þeir sem hjá vóru: „hví vili þèr eigi gera, sem hann gerir, er yðr lízt hann vel gera?" — Biskup mælti þá: „eigi mun ek at heldr lasta hann, þótt ek vili eigi þetta gera." Þat bar ok til einn tíma, at Rafni Oddssyni vóru þessi orð int, hversu Árni biskup virði tiltekju Hólabiskups; hann mælti: „eigi er Árna biskup[i] at líkja slíkt eptir Jörundi biskupi, þvíat svá mikit skilr lunderni þeirra, at Árni biskup gengr sem björn á hvat sem firir verðr, en Jörundr biskup er slægr sem refr, ok ferr á þá leið fram, sem sá er í þveru veðri beitir löngum, eðr hinn, er bratta brekku sneiðir, ok snýst til ymsa handa, at hann komist uppá hana með sem minstu erfiði; en þó koma þeir báðir í einum stað niðr at lyktum". Gerði ok herra Jörundr biskup af kirkj-

unnar auð, þeim sem hann varðveitti, á þeim sama stað, sem hann hafði í fyrstu fè í móti tekit, klaustr, reglumönnum til viðrlífis ok[1] fátækum mönnum. En Árni biskup vann sína óvini ok kirkjunnar með röksemdum en eigi með margmenni, ok sigraði þeirra vígvèlar þó at seint veri til, eigi með fègjöfum á flótta rekandi, heldr með einherða ástsemd almáttigs guðs ok hans fulltíngi yfirkomandi; hlífði hann hvárki óvinum kirkjunnar, *meðan þeir hèldu sik í þrái við guð ok við hann, en líknaði* hvervetna þeim er til hans miskunnar krupu með algerri yfirbót.

54. Til hins næsta lögþíngis bauð herra Rafn öllum handgengnum mönnum, þvíat þá vóru margar greinir fyrrsagðar, þær sem or þurfti at höggva millum biskups ok leikmanna. Herra Loptr hafði þá undir einn sik tekit allan Oddastað; var Sighvatr, bróðir hans, kominn búi sínu til Keldna, ok var þat ráðit, at einnsaman Loptr tók XL^c^ af frændum sínum, til þess at ábyrgjast einn, ef Oddastaðr kæmi aptr undir kennimenn. Jöfnuðu þeir nú sem fyrrum handsal á fènu til inngjalds, en áðr höfðu þeir jafnat þau til útgjalds; líkaði Árna biskupi þetta *stórilla, ok kallaði þat rètt lög, at jafnmikit fè, sem hverr gaf* til handsala, þessarrar kirkju ok allra annarra, þat sem hann kallaði gefit til ófrelsis kirkjunni, legði[2] hverr sem einn af sínu til þeirrar kirkju, framum aðra hennar eign. Vóru þessi fyrrgreind umkaup Oddakirkju mest kend herra Rafni ok Erlendi lögmanni, er herra Árna biskupi þóttu gerast oddvitar ok upphafsmenn til alls ágangs á kirkjur ok kennimenn. Staðamenn eggjuðu jafnan [herra] Rafn í móti biskupi; var þat ráðs tekit, at menn vóru sendir í Skálaholt til biskups, at beiða hann þíngreiðar. Nú þvíat þess var engi kostr af honum, reið [herra] Rafn Oddsson ok flestir allir handgengnir menn [í Skálaholt[3]. Þá tókst tal með þeim *Rafni ok biskupi í norðrstúku*, þvíat biskup vildi hvergi annarstaðar við þá mæla. Um síðir, þá er þessi þræta hafði gengit langan hluta dags, sýndist hvár[um]tveggjum málamannligra at auka eigi ný vandræði á hin fornu, ok láta standa atgerðalaust til þess er af Noregi frèttist; ok var þat þá samit, at sá skilmáli skal haldast, sem [hit] fyrra sumar var [gerr] undir beggja þeirra innsiglum. Á þat ofan jáði biskup, firir góðvilja sakir við konúnginn ok hertogann, [en] til friðar landsfólkinu, um

1) *en, S.* 2) *getg.; lagði, S.* 3) [ *b. v. U.*

þat fram sem áðr er ritað: at ef staðir ok kirkjueignir koma aptr í biskups forræði ok skipan, skal slíkt aptr gjalda lærðum mönnum ok kirkjum af leikmönnum firir hverja xij mánaða ábúð ok inntekju kirkjueignanna, sem herra Eirekr konúngr ok sá erkibiskup, er til Niðaróss veri vígðr, leggja ráð á. En ef staðir nást eigi aptr, þá skulu leikmenn ok ekki heimta á lærða menn með Rafns samþykki firir ábúð ok aftekju staðanna, utan ákvæði konúngs ok erkibiskups. At fyrra skilorði játaði ok herra biskup, at hann mundi þola þeim mönnum, er staði höfðu tekit eptir því sem Rafn kallaði konúngsbrèf ávísa: at þeir tæki þjónustu, sem áðr höfðu eigi rækt[1] at taka sakir ummæla biskups, ef eigi stæði áðr sakir á þeim. Var þeim þá ok gefin þjónusta síðan, [er] þeir kómu á þíngvöll, ok vóru þeir þá enn kallaðir sáttir.

þetta sumar kómu þær einar frèttir af Noregi, er lítinn lètta gerðu mönnum á Íslandi; var skip staðarins upp sett ok litlu síðarr[2] varnat tíunda, ok með skömmu máli at segja, var ekki þat þegit, sem hèðan var beðit, en í engu hægt kirkjunni nè lærðum mönnum; en leikmenn fögnuðu, meðan þeir vissu sèr enga ván aptrdrepu. þá frèttust þau tíðendi af Róma, at páfi var vígðr Honorius *quartus*, ok hafði hann senda til Noregs biskupana Andrès ok þorfinn með brèfum til konúngs ok drottníngar. En þorfinnr komst eigi lengra en í Flandr, ok andaðist þar. þetta ár var ok stríð millum Pètrs af Aragon ok Philippum Frakkakonúngs; þar fèll Petrus en Philippus fèkk skot í annan armlegg; af því sama sári fèkk hann bana. Engi var erkibiskup vorðinn. Í Noregi hafði andazt Ólafr prestr Magnússon, en hèr á Íslandi [andaðist Björn[3] Sæmundarson. Árna biskupi brá mjök í brún við þessar frèttir, er óvinir kirkjunnar fögnuðu framkvæmd síns vilja. Biskup heimti nú af nýju vörzlur firir eignir kirkju[nnar], ok fèkk eigi; hafði Rafn hin sömu mótmæli við þorvald prest í Vestfjörðum ok um Hítardals mál ok um Selárdal. þá fundust þeir í Stafaholti, ok skipaðist lítt til greiða með þeim.

þetta haust gefr Árni biskup Bjarna presti frænda sínum Garðastað, þann sem Ólafr prestr var frá fallinn, en þorvaldi presti Holtsstað í Önundarfirði, ok skipar af nýju þar með prófastsdæmi, ok eirir Rafni þat stórilla. þenna vetr hefir

---

1) *U*; órækt, *S*. 2) gefit, b. v. *S*, *U*. 3) leiðr.; [ Auðbjörn, *S*.

biskup hendr á staðarmálum í Görðum, ok með sínu kostgæfi fær hann svá gert, at Sturla Sæmundarson kemr til hans á föstu, ok sver sèr af hendi staðinn í Görðum; hann sór ok, at taka alldri síðan af kirkjufjám nè hennar eign utan með biskups ráði. Setr nú biskup sira Bjarna þar niðr um várit í fardögum.

55. Nú þvíat tvennum ferr sögunum fram, ritar fyrst Rafn til Árna biskups, at honum þikkir rofit sáttmál í Skálaholtskirkju, ok [um] skipan prófastsdæmis í Vestfjörðum, ok standa í hans brèfi þessar klausur: „vitið þat til viss, at meðan ek hefir sýslu af Noregs konúngs hendi í Vestfjörðum, skal Þorvaldr eigi hafa prófastsdæmi, ok eigi hefir hann staðinn í Holti, nema hann verði ríkari en ek". Ok enn eru nokkorar málsgreinir. Í því sama brèfi standa enn þessi orð: „ok vili þèr ok eigi halda várn samníng, vitið þat víst, at vèr skulum halda ok flytja konúngs boðskap með öllum þeim styrk, sem vèr megum, svá at hans vili gengr fram, ef ek em heill, hvat sem þèr segit kennimenn". Herra biskupi brá ekki við slíkt. Rafn stefndi þat sumar mörgum prestum til þíngs undir leikmanna dóm, ok líkaði biskupi þat stórilla.

Um sumarit reið herra Rafn ok lögmennirnir, svá ok handgengnir menn, til þíngs, en [herra] Árni biskup sat heima í Skálaholti. Þá tóku þeir sem á þínginu vóru at tala um þat hit mikla missætti, sem var milli konúngs ok lærðra manna. Staðamenn ok múgamenn eggjuðu Rafn áfram, en hann tók þat ráð, at senda til biskups herra Jón lögmann, ok með honum Eyjólf Ásgrímsson ok Þorlák bónda Narfason; riðu þeir í Skálaholt at leita um sættir; en þvíat mörgum þeim, er hvárumtveggjum vildu vel, þótti mikit við liggja, at eigi yxi vandræðin, var þat leyniliga ritað til biskups, at hann byði öll mál óskorut undir dóm Eireks konúngs ok þess erkibiskups, er til Niðaróss kæmi, til þess at á þá leið mætti standa til þess er skip gengi. Þeir kómu í Skálaholt firir *commemorationem beati Pauli*, ok sýndu herra biskupi brèf Rafns; í því vóru margar sakargiptir af honum ok af hirðinni á hendr biskupi; kölluðu þeir hann hafa rofit sættir við sik ok við staðamenn, ok þvíat sumir af þeim höfðu eigi tekit líkama várs herra á páskum; fengust þeir Jón ok hans förunautar lengi við biskup þessa nótt, ok gátu þeir ekki samit; þótti herra biskupi Jón nú fara í þessum málum hvergi betr en fyrr; ok er þeir ætla burt at

ríða, [buðu þeir biskupi[1] þann kost, firir þat sem á var frýð, at sinn taki hverr innanlands til gerðar um afbrygði skildaga, þvílík sem á hvára prófaðist, ok hinn þriðja oddamann, ef þyrfti. Hann neitaði því með öllu; þeir buðu gerð konúngs ok erkibiskups, en biskup neitaði því eigi, enda játaði hann eigi. Jón lögmaðr skildi þat til, at biskup skildi nefna presta til at gefa þeim þjónustu, er mist höfðu, ok gefa upp Haukadalskirkju, en Árni biskup firirtók hvárttveggja. Fóru þeir við þat aptr á þíng, ok segja Rafni, at þeir höfðu lítið sýslat í sinni ferð, ok leið sú nótt. Um morgininn, sem var mánadagrinn, reið með ráði ok tilskipan [herra] Rafns Erlendr sterki heim í Skálaholt; vóru þessir menn í för með honum: Þorsteinn Eyvendilsson[2], norrænn maðr ok mjök stór í skapi, Jón korpr, Máni Ásgrímsson; ok er þeir kómu á staðinn, spurðu þeir hvar biskup veri; þeim var sagt at biskup var í Þorlákskirkju. Þeir gengu í kirkju ok beiddu, at biskup gengi til tals við þá, en hann vildi hvárki tala við þá, nè sjá þá. Ok er Erlendr sá, at hann mundi lítið sýslrækr af biskupi þann dag, var[ð] hann reiðr mjök, ok eptir þat nefndi hann sèr vátta, förunauta sína, ok stefndi Árna biskupi þann sama dag til þíngs, at svara sökum firir sik, þeim sem á hann mundu kærðar verða, firir herra Rafni ok öðrum leikmönnum. Hann stefndi ok til sama þíngs á þenna sama dag sira Bjarna, en herra biskup lèt sem hann heyrði eigi, ok engan þeirra förunauta vildi hann sjá þann [sama] dag. Þeir Erlendr riðu þegar á þíng upp. Eptir þat kvað Rafn upp [í lögrèttu[3] opinberliga, at þeir mundu taka allt vinnufólk af staðnum, ok leikmenn mundu verða settir á staðinn, ok at biskups boðorðum mundi eigi hlýtt ver[ð]a, ok at hann mundi eigi ná at fara yfir landit eptir venju, ok útlaga mundu gervir þeir sem biskup setti á kirkjueignir móti konúngsbrèfi. Eptir þetta spurði Rafn, ef nokkorir þeir vinir biskups vildi þá ríða til hans, ok freista ef hann vildi firir þeirra orð þat nokkot til ráðs taka, sem eigi færi í svá mikla ófæru með mönnum sem á horfðist; nefndi hann til þess, Þorstein bónda, son Skóga-Skeggja[4], ok Magnús Pètrsson, mág biskups. Þorsteinn kvaðst ríða vilja, ef fleiri vildi biskups vinir ríða, ok mætti því heldr til góðs koma. Magnús játaði ferðinni, ok Helgi mims ok Ormr

1) [ getg.; bauð biskup, *S*, *U*. 2) Örvendilsson, *U*.
3) [ b. v. *U*. 4) Skaga skeggja, *S*.

Grímsson, ok riðu xij saman. Þriðjadaginn kómu þeir í Skálaholt harðla snemma, ok fundu biskup, því þat var þá auðvelt. Þeir báru fram firir biskup brèf lögrèttumanna; stóðu þessi orð þar í: at allir þíngmenn vildi hafa ok halda í alla staði brèf þat, er Eirekr konúngr sendi með Rafni um staðamál, ok allt þat, er samit var í Brautarholti ok í stúkunni í Skálaholti, en biðja, at biskup lèti aptr ganga þat sem þeim þótti á gengit: var þat fyrst um Garðastað, er þeim þótti rangtekinn, áðr en prófat veri af konúngi ok erkibiskupi hverir stöðum skildi ráða. Þar eptir var beðit, at biskup kæmi í Garða til viðtals, at gera þat ráð þar firir, sem þeim sýndist bezt, er þar byggi næstir. Þar næst stóð sú klausa: at þíngmenn mundi taka til sinna ráða með jáyrði allrar alþýðu, um þenna stað ok alla aðra, ok at þeir höfðu nú útlaga gert alla leikmenn, þá sem á staði settust móti konúngsbrèfi. Þar eptir var ritaðr bænastaðr allrar alþýðu til biskups, at hann tæki þat til ráðs um þetta ok allt annat, sem bezt gegndi. Þessir menn, sem sendir vóru, segja, at Rafn heitaðist við lærða menn ok staðarins heimamenn, ef þeim semði eigi; þeir sögðu ok biskupi, at Rafn þóttist í ofraun færðr, at sitja í millum biskupa ok þeirra, sem allt vildu láta þat fram hafa, sem í Noregi var gert við kennimenn ok þá er þeim þjónuðu; lètu þó þat fylgja, at hann kvaðst aldri, meðan hann veri heilvita, leggja hendr á biskup þótt hann lèti gífrliga, þvíat hann vissi, at þeir höfðu engir þrifizt upp frá því.

56. Þessir góðir menn, sem brèfit báru, báðu með fögrum orðum herra biskup vægja, eptir því sem honum sýndist framast þolanligt, firir bæn fólksins. Hann ritaði þá eitt brèf aptr til lögþíngis, ok stóðu þessi orð þar í: „Til þess at virðuligir herrar, Eirekr konúngr ok Hákon hertogi, ok frú Íngibjörg skili, at ek vil gjarna til þess vægja, at þeirra sæmd veri sem mest heil ok haldin, geri ek þat tillæti at sinni, at um þau mál, sem Rafn frýr á, at ek hafa eigi haldit þann samníng, sem vèr dæmdum í fyrra sumar, þótt mèr sýnist, at hann megi eigi mik at sönnu átelja: þá legg ek undir dóm Eireks konúngs ok þess erkibiskups, sem guð gefr til Niðarósskirkju, slík sem þau prófast, at því tilskildu, at þeir dæmi heilagri kirkju ok mèr sæmd firir þat, er Erlendr digri stefndi mèr ok prestum mínum til leikmanna dóms móti guðs lögum, ok firir þat annat, er til afbrigða hefir gert verit af leikmönnum í móti þeim samn-

íngi, sem gerðist með oss í Skálaholti. En um þjónustutöku [þeirra], sem kirkjur[1] hafa tekit sem konúngsbrèf sýnist á vísa, þoli ek slíkt sem fyrra sumar". Ok er þessir menn kómu á þíng, gekk herra Rafn á stefnu, ok var þá lesit brèfit. Gerði herra Rafn því svá, at akta eigi firir almenníngi, at færri mætti til hlutast, ok er þetta var skoðat, mælti hann: „heldr vil ek þetta af gera en vandræði fari í", ok kvað Rafn þat upp, at hann mundi svá búit standa láta til þess er skip gengi, ok eigi yki menn ný vandræði á þau sem áðr stóðu, „en enga sætt kalla ek þetta". Hann þakkaði mönnum sinn góðvilja, er til biskups hefði riðit, með fögrum orðum, þvíat hann skildi, at herra biskup hafði meirr slæfazt[2] látið firir blíðri bæn þeirra en firir hótun eðr harðmælum. Herra Rafn ritaði þegar brèf með Magnúsi Pètrssyni til biskups; vissu þeir þat einir hvat á var; reið hann þegar um nóttina í Skálaholt.

57. Þetta sumar kom út Guðmundr prestr, son Halls or Skriðu, með þeim tíðindum, at Svíar heituðust at ráða[3] á Noreg ok brenna Víkina, en Eirekr konúngr hafði stefnt af Íslandi XL manna or hverjum fjórðúngi, ok var öllum handgengnum mönnum þegar samsumars stefnt. Þá frèttist andlát Alexandri Skotakonúngs, ok þat, at Eirekr Danakonúngr var myrðr; svá ok, at Andrès biskup hafði Jörund kórsbróður af Hamri kosit þar til biskups, en Dólgfinn til Orkneyja. Þá vóru ok komnir í Noreg sendimenn Tartara konúngs á fund Eireks konúngs. Þá hafði [herra] Eirekr konúngr gefit herra Álfi Erlíngssyni jarls nafn til at hann verði Noregs ríki. — Sira Guðmundr reið til móts við herra Rafn, svá sem treystandi á aðalakkeri leikmanna, ok lèt uppi firir honum þau brèf, sem konúngr hafði sent honum; var þat þar í, at Noregsmenn þoldu eigi, at Íslendíngar hefði náðir ok kyrrsetu, en þeir höfðu jafnan leiðangr, ok þar firir hafði konúngr, at ráði Álfs, sendan sira Guðmund til Íslands; var ok Rafn einkanliga skyldaðr at fylgja þessu erindi. Hann tók þessu fáliga, ok kvaðst ætla, at þetta veri þarfleysu upphlaup, ok vildi lítinn hlut í eiga, lèzt vera stirðr ok ekki herfærr. Eirekr konúngr hafði ok ritað til Árna biskupi, ok standa í því þessi orð: „þèr hafit heyrt, at vèr höfum til vár kallat fólk af Íslandi með miklum skunda, biðjum

1) kirkjunni, *S.* 2) *U*; slatst, *S.* 3) ríða, *S.*

vèr, at þèr látið heimila vöru yðar nefndarmönnum til búnaðar, en þèr takit aðra jafnmikla þegar út greiðist; reynum vèr ok nokkorn góðvilja af yðrum tillögum, þá skal yðr at auðvellri yðar bænastaðr til vár". Jafnskjótt sem Árni biskup sá þetta brèf, ok sira Guðmundr kom með þat í Skálaholt, sinnaði hann konúngs erindi sem mest fèkk hann, með öllum greiðskap ok sönnum skynsemdum, eigi firir þat, at enginn letti hann þessa ífangs, at lètta þeim meinum, sem kirkjunni þröngði í mörgu; sú var ok önnur sök, hví hann var þessa lattr, at þetta hafði aldri fyrr orðit, at konúngr beiddist útboðs af Íslandi; hin þriðja var sú, at menn hugðu þetta ráð diktað, eigi firir liðs þörf, heldr firir fèpynd. Ok er biskup fann þat, talaði hann opinberliga, hvar sem þetta mál var upp haft, ok svaraði fyrst hinni fyrstu grein, en þar eptir hinum síðurum, ok mælti svá: „þótt minn herra Eirekr konúngr hefði mik kallat til u[m]ráða eðr meðalgöngu í þessa ferð, ætta ek eigi at neita; sýnist mèr konúngr eiga þegnum sínum at ráða, eðr hversu mætti þèr hann fulltíngs krefja, ef yðr kynni nauðsyn á landvörn vera, ef þèr vilit nú eigi stoða annarra nauðsyn; ok svá sem jarðligr konúngr veitir mönnum stundligan mála firir stundligt starf, svá þiggjum vèr af himneskum konúngi gjöf hins eilífa lífs; því má enginn sá trúr vera jarðligum konúngi, sem ótrúr er himneskum konúngi, at guðs ást er fylling laganna. En þar sem þèr trúit þetta fèpynd vera, hví má sá eigi, ef nauðsyn fullkomin kallar at, skynsamliga[1] krefja fèpenníngs, er manninn má rèttiliga leiða í hættu lífsins, ok þar á ofan á maðrinn bera[2] sameiginligt starf, vás ok vökur yfir sínum höfðíngja, til varðhalds honum, [en] sèr ok sínu hyski til friðar ok fullra náða; ok makliga þarfnast sá öllum þessum velgerníngum af öðrum, er þvílíks varnar öðrum, ok heitir drottinssviki ok níðíngr ok bleyðimaðr. Konúngr á í góðum friði vanan skatt eðr leiðangr, en í nauðsyn því meira, sem nauðsyn er meiri, þar til er öll hans eign ok hans þegna er þeim sameiginlig". Firir þessa biskups röksemd, eðr enn heldr guðligar röksemdir[3], gengu menn vel upp firir sunnan land, þar sem biskup var nær, en Rafn ok hans vinir stóðu í mót svá framarliga, at þá er Rafn skildi til skips

1) getg.; skynsamligra, *S.*
2) getg.; firir, *S*, *U*.
3) *U*; guðlegrar röksemdar, *S.*

ríða, brást hann sjúkr, er hann var í Mælifellsdal, ok hvarf aptr, en Jón korpr fór[1]... at kalla, ok lá [Rafn] þó jafnan þá er þíng vóru firir sunnan land um þetta mál, svá sem finnandi sèr eitthvað til erindis. Sumir sögðu honum[2] þat til þessa ganga ósannliga, at hann vildi konúngi ótrúr vera; sumir sögðu, at honum ok mörgum öðrum þótti förin ónauðsynlig; sumir hugðu, at honum þætti biskupar mjök einir við mælast, ok vinir hans staðamenn vóru formannslausir, ef hann sigldi; fèkk hann af sira Guðmundi firir þetta digrt ámæli, en herra biskup fagrt sannmæli ok ván fullkominnar leiðrèttu kirkjunnar mála, sem síðarr bar raunir á. Sigldi sira Guðmundr þat sumar, ok lofaði einorð ok örleik Árna biskups til konúngsins um þetta mál, ok skildu þeir með blíðu. Þeir tóku Noreg um haustið, þó var þá áðr sætt efnut millum ríkjanna, ok varð engi bardagi í bráð.

58. Þegar skip var í brottu snýr Árni biskup í sýslu sína til Vestfjarða; ekki hafði batnat með þeim firir þat sem nú hafði til borit, ok hvárir höfðu öðrum í þessum málum móti staðit, sem mörgum öðrum. Sá hlutr hvesti ok heldr hjarta Árna biskups, til þess at refsa kirkjunnar vanrètti, at svá sagðist af Noregi, at kórsbræðr af Niðarósi hefði, síðan er ónýttr var kosníngr Narfa biskups, kosit með góðu samþykki sín í milli til erkibiskups þann mann, sem Eindriði hèt; hann hafði verit kórsbróðir í Þrándheimi, ok stokkit or Noregi eptir upphaf sundrþykkis milli Jóns erkibiskups ok konúngs ráðs, ok verit síðan út í Bononia. Þessum kosníngi stóð allt ráðit í móti, ok þótti líklegt hann mundi fara þat far sem hans formaðr, Jón erkibiskup. Nú með því þessi maðr var eigi óvitandi þessarrar öfundar ok margra illra hluta, þeirra sem í Noregi gerðust, firirtók hann at samþykkja vilja kórsbræðra í þenna tíma, er sira Sighvatr landi sýndi honum brèf ok innsigli þau, sem þenna kosníng váttuðu. Þessi Sighvatr fór þaðan í Rómam, ok bar firir Honorium páfa þessi vandkvæði Noregsmanna; er þat sögn manna, at hann hafi þá kosit til erkibiskups Jörund biskup af Hamri, þann sem firir litlu vígði til biskups herra Andrès Oslóarbiskup. Kom þá engi önnur sögn til Íslands, en menn hugðu Eindriða með erkibiskups tign koma til Niðaróss.

Ekki er fyrr getið um farlengd Árna biskups en hann

1) hèr mun vanta eitthvað. 2) *U;* þeim, *S.*

kom á Eyri í Arnarfjörð til Eireks Marðarsonar; hann hafði tekit Selárdalskirkju ok eignir hennar móti vilja Árna biskups; hann tók Holtskirkju í Önundarfirði, ónýtandi skipan Árna biskups, ok vitni þeirra, er með eiðum sönnuðu, at þessi kirkja var á dögum Hákonar konúngs ok Sigurðar erkibiskups undir valdi Skálaholts biskups, ok svá sögðu þeim þeirra firirmenn, at hon var á dögum hins heilaga Þorláks biskups undir hans skipan. Þessi Eirekr hafði ok tekit hval þann, sem Eyrarkirkja átti, ok vildi kirkjunni þar enga sæmd firir gera, sanna[n]di, at biskup ætti engan dóm nè umvandan á þvílíkum hlutum. Sú var ok hans sök, at þau brèf Rafns Oddssonar bar hann um Vestfjörðu, sem opinberliga skylduðu menn til at brjóta niðr biskupligt vald ok kirkjunnar rètt, ok skyldaði fólkit til at halda þau í alla staði. Enn vóru fleiri sakir þeirra í millum; ok er þeir biskup ok Eirekr tóku at tala sín mál, beiddi biskup hann ganga or sínum óhæfum ok sættast við guð ok heilaga kirkju, en Eirekr varnaði þeim allrar lögligrar sættar. Lýsti biskup því, at hann mundi bannsetja hann á síðari Mariumessu í Holti, at firirfarandi lögligum áminníngum; ok þat kom fram.

Þenna tíma bjó sá maðr undir Gnúpi, sem tekit hafði kirkju á þeim sama bæ, ok þar með hennar eign, er Klemet hèt, eptir því sem fyrr er sagt; honum hafði ok biskup gert áminníngar til betranar, ok fengit ekki at unnit, ok því bannsetti hann þenna mann á sama degi ok nefndan Eirek, með hríngdum klukkum ok steyptum kertum. Þessi Klemet hafði ok rekit í burt prest þann, er biskup skipaði þá sömu kirkju, ok hèlt kaupi hans; hann rauf ok dóma Árna biskups, þá er hann festi undir hans sjálfræði. Margir vóru aðrir menn í missætti við biskup, sem fyrr greinir. Þá hafði hann á þessu sumri gervar áminníngar Þorgrími Einarssyni ok Einari Vatnsfirðíngi; var sú hin fyrsta sök Einars af mörgum, at hann tók Vatnsfjarðarkirkju, rjúfandi dóm Jóns erkibiskups, ok brjótandi brèf ok sjálfs síns handsöl ok sætt við Árna biskup, en önnur, at hann vildi eigi bæta eðr undanfærast eptir lögum legorðssök við þá konu, sem Guðríðr hèt, er hann var áðr illmæltr af, hafði hann fyrri legit með móðursystur hennar, ok var þó sjálfr eiginkvæntr; sú hin þriðja, at hann gekk í kirkju í forboði biskups; hin fjórða, at hann rak í burtu lærða menn af kirkjunni, ok hèlt prestkaupi, ok gerði þeim enn fleiri rangindi; hin

fimta, at hann tok *corpus Christi* forboðaðr af biskupi, svá at hann skildi eigi tíðum hlýða. þorgrímr hafði þessar sakir: þá fyrstu, at hann tók af þorláki, sem Árni biskup hafði skipat, Staðarkirkju í Steingrímsfirði með öllu hennar gózi; en sú önnur, at hann tók hval þann, ok fènýtti sèr, sem kom á reka staðarins. Ok er biskup kom til staðarins í Vatnsfirði, bannsetti hann þessa sömu menn, Einar ok þorgrím, með sama hætti sem hina fyrri, þvíat þeir vörnuðu allrar lögligrar sættar.

59. Nú er þar til máls at taka, at þann dag, sem biskup reið af Eyri, sendir Eirekr Marðarson mann til Rafns í Glaumbæ, at segja hvar þá var komit; ok er sendimaðrinn kom norðr, lèt Rafn hann aptr ríða í móts við Eirek, ok biðja [at] hann komi sem skjótast í móts við sik í Steingrímsfjörð, at óvörum Árna biskupi, ok taka þar þorvald prest Helgason, sakir forns fjandskapar, ok skulda þeirra er hann hafði eigi lokit Rafni, ok þeir bræðr, þá fimm tigu marka, sem hann lánaði þeim fyrr í Noregi; hugðu þeir, at biskup mundi sljófast, ef hann sæi at þorvaldi mundi skemdir veittar; ok er þessarar ráðagerðar var viss einn biskups vin leyniligr, þótt hann vefðist í staðamálum, en sá var Thomas Snartarson[1], sendi hann til biskups mann með leyndarbrèfi, því er á stóð öll þessi Rafns meðferð ok tilætlan; sá kom til hans í innanverðum Ísafirði, þar sem Langadalr heitir, ok hinn sama dag sendi biskup þorvald prest vestr í Fjörðu heim í Holt, en hann reið sjálfr til Steingrímsfjarðar, ok er hann kom til Kollafjarðar, kom Rafn í móti honum með marga menn, ok var hinn reiðasti, þvíat hann misti þorvalds; töluðust þeir biskup mart við ok samdi þeim ekki, þvíat hvárrtveggi var hinn þverasti, ok hvárgi vildi til láta við annan. þetta var á ymbrudögum, ok vígði biskup klerka ok söng messu; vildi hann at Rafn veri hvergi í nánd því starfi, ok líkaði honum stórilla, ok gerði þó sem biskup vildi. Drottinsdaginn eptir reið Árni biskup suðr til Saurbæjar, ok þann dag reið þangat Rafn Oddsson, ok með honum hinir bannsettu [menn]: Eirekr, Einarr ok þorgrímr. Biskup var þá nótt at Hváli; kom [herra] Rafn mánadaginn á móts við hann ok fjöldi manna; töluðust þeir við í kirkju, ok var fátt manna hjá þeim. þá kom þar, at þeir sættust með þessum eiðstaf: „Til þess leggr þú hönd á helga bók, ok

1) leiðr.; Svartsson, S.

því skýtr þú til guðs, at þú skalt halda þá dóma í alla staði, sem dæmist á hendr þèr af herra Eireki konúngi ok erkibiskupi, þeim sem skipaðr verðr til Niðaróss, þat sem til þeirra dóms heyrir um staða mál eðr kirkna. Halda skaltu mína dóma um þat, sem Skálaholts biskup á dóm á því máli eptir guðs lögum, ok míns lögligs eptirkomanda, ok enga kirkjueign skaltu hèðan af halda utan samþykki biskups; halda skaltu ok þær skriptir, sem ek skipa þèr. Guð sè þèr hollr, ef þú heldr þenna eið, gramr, ef þú rýfr." Eptir þetta skilja þeir biskup ok Rafn með engri blíðu; fór biskup til Ásgarðs, ok svá heim á leið, en Rafn heim til Glaumbæjar.

60. Árni biskup sat heima þann vetr í Skálaholti, en Rafn í Glaumbæ; vesnaði at eins með þeim biskupi; þótti honum laus öll sín ummæli, þau sem hann hèt at þola staðamönnum, sakir þess at hann trúði erkibiskup vorðinn í Niðarósi. Rafn harðnaði ok í þrái sínu við biskup, ok leitaði með mörgum brögðum at fylla girnd sína um staðamál. Ormr Klængsson bjó í Haukadal, sem áðr er sagt, ok veitti þær meðalgöngur milli nefndra manna, at ekki vóru sannvænar; tjáði hann [herra] Rafni harðindi þau, sem biskup lagði á hann um fyrrnefndar sakir, forboð ok missi heilagrar þjónustu, ef biskup rèði. Rafn sinnaði honum í orði. Þetta vár ætlaði Ormr at heimta tíundir þær, sem biskup bannaði honum, af þeim bændum, sem at fornu höfðu til Haukadalskirkju greitt, bæði kirkjunnar hlut ok biskups hlut, með ráði Rafns, at eigi næði þeir at leggja þær í kirkju eptir ráði biskups. [1]Mánadaginn í gagndögum lèt hann söðla hest sinn, ok ætlar at ríða til Þórðar [í] Múla, þess erendis, sem nú var greint; ok er hann ætlar á bak at stíga, fèll á hann svá áköf sótt, at hann mátti eigi annat en leggjast þegar í rekkju, þvíat hann fèkk varla stýrt sèr, ok lá hann í þessu fári ner viku. Sira Oddr var þar prestr, sem fyr er sagt. Ormr beiddi hann þá at ríða í Skálaholt, at biðja herra biskup lausnar ok sætta; en Steinunn húsfreyja hljóp upp ok mælti: „margir menn verða sjúkir, ok leggja eigi allt sitt mál undír hann, ok vilja þó eigi þar firir láta eignir sínar." Við þessa hennar afeggjan dvaldist för prests nokkora daga, ok einn morgin kallar Ormr á húsfreyju sína Steinunni, ok mælti:

1) hèr byrjar síðasta skinnblaðið í 122. b.

„nú skaltú eigi lengr ráða at dvelist sætt okk[u]r biskups, þvíat ek hefir nú tekit þá ráðníng, sem mèr er maklig; en þó at þú fáir eigi slíka ráðníng, segir mèr svá hugr um, at þú munir eigi at heldr missa mikillar ráðníngar, þótt sú sè annan veg lagit." Eptir þat mælti hann til sama prests: „ger þú nú firir guðs nafn ok dvel eigi, ok seg biskupi, at ek vil allt til sætta vinna við guð ok heilaga kirkju, þat sem hann leggr á mik." Hann fór þegar í Skálaholt, ok segir biskupi þat sem Ormr bauð honum, ok beiddi hann ráða. Biskup mælti: „skunda þú heim, ok leys hann, ef hann vill þat til vinna, sem lög heilagrar kirkju bjóða; leys hann ok þó at eins, at hann sè allr, ef þat vitnast, at hann hafi með slíkum vilja fram farit, sem hann hafði firir þèr; skal hann þó eigi grafa í Haukadal, at þeirri kirkju sem hann tók með ráni. En ef hann lifir þá er þú kemr heim, ok fær lögliga sætt, feri hann til vár." Oddr prestr fór þá heim sem skjótast, ok kom svá í Haukadal, at Ormr lifði, ok varð því feginn. Hann spurði hversu biskup hafði tekit orðsendíng hans. Prestr bar þá fram bók at honum, ok las firir honum þann eiðstaf, sem biskup hafði honum skipat, ok at hann skildi honum láta verða greitt í hendr allt kirkjufè. Ormr játaði því skjótliga, ok rètti hendr í móti þessi bók; ok eptir eiðinn leysti prestr hann ok fèkk hann fulla sætt; hann lèt greiða Oddi allt kirkjufè; var hann oleaðr ok husladr. Hinn síðasta dag er hann lifði spurði hann húsfreyju, hvárt af hendi veri goldit allt kirkjufè, ok var þat snemma *in octava ascensionis*, en hon kvað ógreiddar brúnir ij. — „Hvata þú, kerlíng, ok greið þær!" segir hann; ok er hon hafði lokit af hendi brúnirnar, sálaðist hann iij. *kal. Junii;* var hann ferðr í Skálaholt; söng sira Símon prestr yfir honum. Steinunn sór þá ok afhendis Haukadalskirkju, ok galt fè þat er hon átti; reisti þá sira Oddr búnat á kirkjunnar lut[1], þvíat Ormr hafði eigi átt allt land, þvíat [eigi] var allt firir lokit; var þá sumt eign Þorgerðar Þorláksdóttur, þvíat Klængr gekk þenna tíma í Viðeyjarklaustr; áttu þær Steinunn þá báðar eignarhlutinn. Steinunn nam eigi þar yndi síðan Ormr var allr, fór hon til Gygjarhváls en setti Þorvald Klængsson firir búit í Haukadal. Eptir þat seldi hon landit Rafni Oddssyni til ónáða sira Oddi; var þar jafnan nokkorr

1) en, b. v. 122.

órói þeirra millum meðan Rafn lifði. Eptir dauða hans fèkk biskup landit svá af þorgerði sem af Steinunni, þat sem Rafn hafði eigi firir lokit; hann tók ok af Hallóttu hennar part, þann sem Rafn hafði áttan. Um síðir seldi hann Haukadal Lopti Helgasyni frenda sínum.

61. þetta vár ok hvert annat lèt biskup, á sömu leið sem áðr er greint, segja þeim, er kirkjur höfðu tekit at ráði Rafns, at þeim var full nauðsyn at halda sik frá líkama Krists, ok at þeir jyki sèr stórliga byrði, ef þeir tæki. Hann lèt krefja allra kirkna ok eigna þeirra hvert ár, meðan þessi deila stóð. Á þessu vári reið herra Rafn heiman or Glaumbæ til Borgarfjarðar ok þaðan á Álptanes með miklum flokki, ok setti fyrrnefndan Sturlu Sæmundarson á Garðastað, ok fèkk honum í hönd alla kirkjunnar eign, en stökti á brottu sira Bjarna. Hann tók ok fè þessa sama Bjarna, þau sem fram vóru um kirkjueign, ok kastaði á þat konúngs eign, ok lèt merkja búit með marki sóknarmanns. En þvíat herra biskup varð varr, at Rafn mundi þetta gera, lèt hann prest flýja fund hans, at eigi fengi hann nè einn vansa af sínum óvinum. Settist þá á staðinn Sturla, rjúfandi sín særi, þau er hann sór Árna biskupi, sem áðr er greint.

Á þessu sama vári stóð fyrrnefndr Árni biskup frammi fáliðr vígmaðr í fylkíng síns signaða herra, ok þó at hann sýndi ástar eld almáttigs guðs tendraðan í sínu hjarta með orðum ok eptirdæmum verkanna, sem framast fèkk hann við komizt, ok þar með iðuligri ástundan ok óbrigðum vilja; ok svá langt gekk þá fram um rèttindin kappsemd leikmanna, [at] á þessu þíngi, er á þessu sumri var, lèt hinn sami Rafn í lögrèttu höndum upp taka, ok gera með lófataki útlaga alla þá menn, sem herra biskup skipar á staði ok kirkjueignir, þær sem hann kallaði leikmenn eiga, með allsherjar dómi, ok lèt lýsa yfir þeim nefniliga á hèraðsþíngum. Rafn lýsti ok því, at þeir veri ok allir saklausir, sem biskup hafði bannsetta firir kirkjurán, ok samneytti þeim sjálfr, ok þeir aðrir sem hans vilja gerðu. En virðuligr herra Árni biskup, sem Helias, óttaðist eigi liðsfjölda sinna óvina [ok] kallaði alla þá í banni, sem á þessu þíngi höfðu verit, ok lèt leysa hvern er til handa gekk, ok svá hvern þann, er Rafn samneytti, ef hann kom því til vegar. Rafn lèt ok brèf rita ok styrkja með sínu innsigli, þat er Svein-

björn Súðvíkíngr bar um Vestfjörðu, ok lèt lesa í hverri kirkjusókn. En þat var annat, at hverr sá maðr, sem sira þorvald hèldi firir formann, eðr veitti honum nokkora hlýðni, eðr honum festi nokkut mál, skildi heita landráðamaðr, ok hafa firirgert fè ok friði, ok þeir menn, sem þenna þorvald verði eðr styrkti, skildi rèttlaus[ir][1] vera firir konúngsmönnum; skildu ok þeir, sem lènin höfðu, missa þeirra, ef þeir flytti eigi þessi brèf. Hann skyldaði ok til sóknarmenn at taka Holtsstað í Önundarfirði, móti eiðum prestanna: Steinþórs, Árna, Finns, Árna, Snorra, Jóns, er þann stað sóru jafnan frá dögum hins sæla þorláks biskups hafa undir Skála[holts] biskupi verit, til þess er Rafn Oddsson tók hann á dögum Árna biskups. Lèt Rafn ok þat fylgja, at þenna stað skildi þeir taka hvárt sem þeir fengi með góðu eðr illu. þó var þat mart talat af Rafni, at meirr var í fyrstu gert til þess at hræða fólkit, heldr en með alvöru; urðu ok margir tregir til slíkra atgerða, þvíat þeir vissu vísa reiði biskups ok stórmæli, þar sem hans vili ok skipan var at engu höfð. Suma tálmaði nokkorr gneisti guðs ástar eðr mótimöglan eiginnar samvizku, sem raunir bar á, at hverr þeirra gekk til valds í lífsháska, ok sór skjótt eptir því sem biskup bauð þeim, til þess at deyja undir játníng kirkjunnar mála ok trú, sem Árni biskup hèlt ok hafði, hversu margar varnir sinna mála sem hann bar áðr digrbarkliga fram, þá er hann [vænti sèr[2] lengra lífs tilkosníngar, sem áðr er greint um herra Ásgrím ok Orm í Haukadal; varð ok sjálfum [herra Rafni[3] meira gjald at þrái ok metnaði, þvíat [hann] óttaðist sæmdar lát ok virðíngar ef hann hèldi eigi teknum hætti, heldr en hyggjuþrot. Margar vóru þá miklar greinir, þær sem eigi eru ritaðar sakir leti eðr fáfræði.

þetta sumar kom brèf frá Jörundi biskupi til Árna biskups, í hverju er hann váttaði utanför sína, en beiddi Árna biskup vígja þá menn, sem prófastar hans kynni at senda til hans, svá ok *krisma* ok *oleum* ef send vóru, svá ok at hreinsa hinar stærri kirkjur, er saurgaðar veri, ok aðra þá hluti, sem til biskupligs embættis heyra, svá ok at ráða um vandamál, ef til fèll[i]. — þetta sumar kom sú frètt af Noregi, at páfi Honorius var allr ok svá herra Andrès biskup af Oslo, ok var andlátsdagr hans næsta

---

1) rèttlauss, 122. 2) [ getg.; ler (fer?), 122. 3) b. v. eptir getg.

firir *inventio crucis.* Sigurðr áboti af Halsnu var ok allr. Íngibjörg drottníng hafði ok andazt næsta dag ....[1] *annunciationem beate virginis.* Herra Hallkell var svikinn af herra Álfi; svá var [ok] allr herra Eirekr Dufgalsson. Þat spurðist ok, at sira Sighvatr mundi sækja *pallium* ok flytja í Noreg, sem fyrr segir; þótti biskupi nú mikil ván rèttíngar kirkjumálanna; frèttist ok gott frá konúnginum, at hann rèði meira en fyrrum, ok þótti þat allt til línkindar við fólkit, er hann lagði til. Á þessum vetri brann bær í Túnsbergi.

62. Þetta sumar kom af Noregi Loptr Helgason, frendi Árna biskups, ok hafði herra Eirekr konúngr gert hann sinn eiðsvara, sem fyrr segir; var biskup honum stórliga feginn; mátti hann þá af honum heimta sannar sögur or Noregi. Fór hann skjótt í Skálaholt, ok var þar þann vetr vel haldinn. Á þessu sumri sigldi herra Jörundr Hólabiskup, ok varð vel reiðfari, ok kom í Þrándheim, ok var þann vetr þar. Ekki fann hann Eirek konúng í þeirri ferð; virðu menn þat firir honum sem vinir vóru til. Allt þetta sumar heitaðist herra Rafn við sira Þorvald, ok lýsti útlegð hans, ok bræðra hans Magnúss ok Jóns. Miklu vóru þeir fleiri menn, er hann kallaði útlaga firir ymsar sakagiptir. — Allan þenna vetr fóru þau orð frá herra Rafni, at honum þótti Árni biskup gera ódæmi á konúngsþegnum, í því er hann bannsetti mótgangsmenn kristninnar, svá Sveinbjörn Súðvíkíng ok aðra firirgangandi menn í Vestfirðínga fjórðúngi. Hann kallaði biskup rjúfa öll þeirra sáttmál, ok því leitaði hann þat kall með verki at fylla, sem áðr var út sent af munninum; hann heitaðist at halda biskupstíundum, ok láta biskup eigi ná yfir land at fara, utan hann lèti staðamenn hafa þat í friði, sem hvárir þóttust vald eiga yfir at hafa. Hèr at móti þagði eigi Árni biskup með öllu; ok þótt Rafn vildi sem annarr Achab gera at kálgarði víngarð hins rèttláta Naboth, lèt Árni biskup sem annarr Helias fljúga yfir sína óvini eld ógnarmála af heilögum ritníngum, takandi dæmi af fornu ok nýju lögmáli, hvílíkan enda lífsins höfðu niðrbrotsmenn rèttrar trúar ok saurganarmenn heilagra mustara, Antiochus Epiphanes ok aðrir hans makar, Herodes ok Pilatus, Gaius Cesar ok Theodoricus Veronensis[2], er alþýða kallar Þýðrek af Bern;

1) fallið úr orð („fyrir" eðr „eptir") í 122. 2) leiðr.; valonir, 122.

sagði þessa ok, [er] part vildu eiga í þeirra illgerðum, mundu með þeim kenna af guði part í rèttligum hegníngum, ok einkanliga firir þat, er þeir sneru öllum sínum lygðum ok rangindum[1] uppá sinn formann, þann sem þeir leituðu at spilla með sínum lygðum, en þeir áttu með rèttri reglu leiða á alla sömu sæmd ok höfðíngliga hófsemd, ok framarr því at forða hans sálu við öllum skaðsamligum hlutum, heldr [en] líkamanum við hættligum hlutum, sem hon er honum dýrri í öllum hlutum. þetta sannaði hann með prèdikan í heilagri kirkju; þetta ávítaði hann með brèfum ok sendipistlum í öllu sínu biskupsdæmi, ok þetta sama bar hann fram í hversdagsligu samtali. Við þat vaknaði hann ok sofnaði, at æ var hans hugr á lögmáli síns sæta lávarðar, endrbætíng ok leiðrèttíng kristninnar. En því bannfærði hann Rafn eigi ok hans hinn næsta sporgöngumann at svá frekum heitíngum, at hann hugði, at því minnr mundi þeir hlífast við illvirkin, sem þeir kendi framarr á sèr harðmælin; dvaldi hann atgerðir fram um þíng, at hann mætti þeim at framkomnum verkum gefa makliga refsíng, at eigi mætti hans óvinir mæla, at firir hans bræði fengi heilög kristni skömm eðr skaða, ok gerði hann þetta þó eigi minnr firir bænar sakir ok tillögur herra [Runólfs] ábóta, síns kæra vinar, heldr en fýsi eðr ofdirfð eiginligs hugar.

63. Á þessu vári sannaði herra Rafn fornan orðskvið, at ‚fram koma ljóð, þau löngu vóru súngin', þvíat hann reið heiman or Glaumbæ skyndiliga til Vestfjarða, ok ætlar á óvart at koma at fyrrnefndum þorvaldi presti, ok grípa hann sem Jón bróður hans. þorvaldi kom njósn af þessi Rafns firirætlan; kómust þeir bræðrnir í kirkjur, þorvaldr í Holt, en Jón heima at sín. þorvaldr kom ok sínum föngum í kirkju með sèr áðr Rafn kom þar. þeir vóru um stundar sakir umsetnir, en um síðir gekk þorvaldr á vald herra Rafni ok [hèt] öll sín mál undir hann at leggja, ok þó at haldinni hlýðni við guð ok heilaga kirkju ok biskup sinn. Jón lagði ok allt sitt mál á vald Rafns. Prest þann, er þiðrekr hèt, meðallagi eir[in]n[2], gripu þeir ok hræddu heldr harðliga, þann sem þorvaldi vildi njósn bera um þeirra ferðir. Fór þorvaldr nokkut skeið með Rafni, ok þótti mönnum nokkot breytt orðlagi hans til biskups. þessi tíðindi

1) hèr þrýtr 122 b. (ok rang. . . .). 2) *U*; eirn, *S*.

kómu brátt til eyrna biskupi, ok eigi með öðru móti, en þorvaldr hefði, at nauðsynjalausu ok firir hræðslu sakir, gengit á vald Rafni, ok lagt allt sitt mál greinarlaust ok svá staðinn í Holti undir hann. Varð hann stórliga reiðr öllum þeim, er í þessum málum áttu hlut; var bæði, at þorvaldr hafði illa gert, enda trúði biskup honum aldri síðan. Nær hvítasunnu kom hann í Skálaholt, ok vildi sem fyrrum halda sèr fram við biskup, en hann tók honum ok öllu hans máli þúngliga. Sá hlutr hafði enn til borit, at herra biskupi var mikil skapraun, at þorvaldr hafði sukkat kirknafjám í Holti ok Vatnsfirði, ok svá gengit í borgan firir Aðalbrand bróður sinn um fè þat, sem hann hafði eytt firir Breiðabólstaðarkirkju á Reykjanesi, meðan hann bjó þar, en þorvaldr vildi eigi lúka þó heimt veri, ok [var] eigi liðugr at lúka skyldi[r], meðan hann fèkk lítið eðr ekki af sakeyri, sakir ónáða þeirra, sem honum vóru gervar, ok honum var hvergi fritt; hafði biskup þolat honum þetta sakir nauðsynja þeirra, sem nú vóru taldar, eðr vináttu; en nú, er hann vissi at Rafn mundi af honum hafa vilja sína penninga, vildi hann eigi at kirkjurnar misti firir hann. Sá maðr, sem Njáll hèt, átti penninga at þorvaldi, þá sem hann hèt með systur sinni Íngibjörgu, ok hafði eigi fengit; sótti hann ok biskup at sínu máli; hann berr[1] nú allar þessar skuldir kirknanna ok Njáls á þorvald, ok þótt hann verðist um stundarsakir, lagði hann um síðir undir biskup, hvat hann vildi af hans fè skipta honum til handa. Nokkoru síðarr nefnir biskup dóm á þessu máli, ok skiptir til handa Njáli náhvalstönn, á fimtu öln hárri, ok þar með öðru fè; ok er þorvaldr vissi þat, þótti honum afarilla, ok kvað hálfu gjarna[r] vilja gefa biskupi en gjalda Njáli slíka gersemi. Biskup segir at móti, at hann vildi at Njáli þiggja tönnina, en eigi at þorvaldi; gekk biskup því fast at þessu máli, at Njáll átti skylt at lúka Hólastað í Hrepp austr, ok varð þetta fè þar til at fara. Tönn þessa hafði þorvaldr fengit af einum bónda í Vestfjörðum[2] með klókskap; honum líkar nú illa, ok biðr sèr orlofs til siglíngar, en biskup játar því eigi; ferr þorvaldr í burt í óblíðu. Nokkoru síðarr sló hann því upp, at hann hefði Eireki konúngi gefit tönnina. Litlu síðarr sendir biskup brèf herra Rafni Oddssyni, í hverju hann ásakar hann

1) getg.; bærir, *S.* 2) *U*; Austfjörðum, *S.*

um nýsögð tiltæki, ok segir honum, at hann er enn at nýju fallinn í [hit] meira bann, ok hann mun eptir þíng sýngja hann í bann á Þorláksmessu ok svá Erlend sterka, ef hann vill eigi sættast.

64. Nær fardögum býst herra biskup í sýslu sína til Austfjarða, ok ríðr þangat með skyndíngu, en ætlar heim at Þorláksmessu, þvíat þá frètti hann, at nokkot skip mundi komit af Noregi, með slíkum tíðindum sem orðin veri; vildi hann [á] þeim tíma spara atgerðir við óvini kirkjunnar, ok tempra þat eptir tilgerðum. En meðan hann var í þessi för kómu Rafni orð ok brèf biskups, ok eirði honum eigi vel; lèt hann nú stórum gífrliga, ok dró með sèr alla sína vini ok Erlend, at enda þat sem hann hafði hörðu heitið; þótti honum vænt um, at hann hafði veiddan þann [hinn] vildasta af yfirklerkum biskups, ok dregit mjök til sinnar þykkju, ok vitnaðist, at svá mundi fara fleiri; harðnaði hann *ok í sinni þrjózku*, en *sinnaði Þorvaldi í öllu* því sem til greinar var með þeim biskupi, ok einkanliga um tönnina; færði hann ok þat biskupi til mótgangs við konúnginn, at hann hefði kallazt dæma af fyrrnefndum Þorvaldi [fè hans[1]. Hann segir ok, þá hann vissi at biskup hafði heitazt við at bannfæra hann: „eigi kvíði ek við því, þótt biskup blóti mèr eðr banni, ok launi mèr slíku þat ek hefi hèr til mjök vanfylgt konúngs boðskapnum; skal ek nú hèðan af eigi hlífast við þat, sem nú er engu í at þyrma."

Litlu firir þíng kom skip af hafi í Borgarfjörð, ok var þar á konúngs sendiboði sá sem Ólafr hèt, ok var kallaðr Ragneiðarson, en hann var af konúnginum sendr, ok með honum Sighvatr Hálfdanarson, ok skildu þeir reka á Íslandi konúngs erendi; var ok þessi maðr auðigr at penníngum. Við þetta varð Rafn Oddsson stórum glaðr, ok þóttist nú hafa fengit fulltíngsmann sinna framferða; ríðr hann skjótt til móts við herra Ólaf [ok Sighvat[2], ok segir þeim hvar nú var málum komit á landinu, ok beid[di] sèr fulltíngs; hann segir ok sína ætlan ok framferð; fylgja margir þegar mjök við þá herra Ólaf ok herra Sighvat með flutníngi Rafns, at nauðsyn sè at láta eigi kennimenn koma firir konúngsrètti. Ólafr fór vel í þessum málum, einkanliga firir því, at konúngr heyrði fagran vitnisburð sira Guðmundar til biskups en erfiðan til Rafns. Riðu við þetta til þíngs.

1) [ þ. v. *U.* 2) [ þ. v. *U.*

65. Þessar fréttir kómu skjótliga í Skálaholt; þótti vinum biskups nú mundu slá í óefni, ef fornir óvinir kirkjunnar fengi sèr nýja fulltíngsmenn sinna ranginda, ok hugðu nú mundu fullkomliga yfir holfa, ef eigi kæmi sjálfr biskup til annsvara firir sik ok heilaga kirkju. Rafn hafði ok ætlað at halda biskups tíundum, áðr herra Ólafr kom því á þat vár, at þær greiddist. Þá vóru sendir menn til Austfjarða, Loptr biskupsfrændi ok Hallr af Skúmstöðum, eptir herra biskupi, at hann kæmi til alþíngis. Hann reið austan sem skjótast at spurðum þessum hlutum; fór Loptr jafnan fyrr at fá honum skjót, hleypti á vij dögum, ok kom heim í Skálaholt næsta dag firir Pètrsmessu, ok reið á þíng *in commemoratione Pauli;* fundust þeir skjótt biskup ok Ólafr, ok tók hann biskupi með mikilli blíðu. Hann bar fram brèf virðuligs herra Eireks konúngs, er honum var fagrliga þakkat sín fylgð ok framflutníngr, sem hann hafði styrkt þat konúngs erendi, sem sira Guðmundr fór með, en beðit, at hann skildi taka herra Ólaf[i], konúngsins stallara, ok herra Sighvati hæverskliga, ok leggja á með þeim heil ráð í öllum konúngs erendum; en um staðamál veik brèfit svá til, at konúngi þótti tilfelliligast, at bæði lærðir menn ok ólærðir hèldi þat skilorð, sem til Noregs kom undir hvárutveggja innsiglum, en þat sem á greindi veri skotið undir dóm konúngs ok erkibiskups; sagðist ok konúngrinn kenna sik skyldugan með erkibiskups ráði at fylgja kirkjunni til síns rèttar sem öðrum. Enn [var þar[1] vikit nokkorum orðum til, at Árni biskup mintist konúngsins ok móður hans framfarinnar í bænum sínum. Herra Árna biskupi lèttist mikit um hjartarætrnar, er hann sá slík orð rituð til [sín] af sjálfu sæti rèttindanna, at því sem vera átti, ok herði hug sinn til þess at fylgja rètti kirkjunnar, sem hann kendi [hinn] himneska rèttara með sinni signuðu hendi hafa snortið hjarta hins stundliga Noregs rèttara. Engi tíðindi kunnu þeir framarr af Noregi at segja herra Ólafr ok hans skiparar, en fyrra sumarit spurðust, þvíat þeir höfðu á Hjaltlandi verit um vetrinn, ok kómu síðla hausts. Herra Runólfr af Þykkvabæ reið með biskupi til þíngs. Eptir þat áttu þeir Rafn stefnur at fyrrsögðum málum; var biskup hinn snarpasti, en Rafn hinn þverasti. Biskup beiddi, at leikmenn lèti

1) [ *U*; þat var, *S*.

lausar kirkjur þær, sem gefnar höfðu verit, en Rafn neitaði því, ok bað biskup leysa hina bannsettu. Biskup neitaði því, meðan þeir vóru slíkir, sem þá vóru þeir. Herra Ólafr bar þá fram konúngs boðskap, þann sem þat ráð lagði á með mönnum, at öll þau mál Rafns ok biskups veri fest í dóm virðuligs herra Eireks konúngs ok erkibiskups, en staði hèldi þeir sem áðr höfðu, til þess er orskurðr fèlli á, en biskup leysti hina bannsettu. Biskup hóf þá sitt mál ok segir: „með því at boðskapr virðuligs herra [Eireks konúngs] sýnist þetta ráð á leggja, sem nú er efnat, þá er auðsýnt, at ek vil eigi annat samþykkja, en vörzlur sè fengnar, þeir sem óhættir sè, at borga firir öll kirknafè ok sjálfar kirkjurnar, þær sem teknar er[u], ok haldist þessi borgan meðan af þeim stendr dvölin, svá at kirkjan fær eigi sín rèttindi, þvíat engin ván er, at ek leysa með öðrum kosti þá sem ek hefi bannfært, nema kirkjan *megi eiga* [*uppreist*] *af þessi biðstund, ok missa eigi sinna* rèttinda." Rafn mælti þá: „borgunarmenn munut þèr hljóta at fá firir yðr, ef yðr dæmist at bæta oss leikmönnum ok konúngdóminum." Herra Ólafr mælti þá: „þat munu menn mæla í Noregi, at tæk sè borgan mín til móts við nokkora íslenzka menn, firir eigna sakir. En til þess at yðart ósætti mætti fá gagnsamligan enda, vil ek borga firir Árna biskup mínum penníngum, þann tíma, sem þèr látið til yðrar vörzlur við þetta, sem herra biskup beiðir." Rafn segir þá, kvaðst hans borgan allgóð þikkja: „en þá viljum vèr at haldist öll sáttmál, sem með oss var gert í Brautarholti, ok á þíngi, ok í Skálaholti." Eptir þat borgaði herra Ólafr með handtaki firir Árna biskup, en herra Þórðr á Möðruvöllum firir herra Rafn, ok með honum[1] herra Jón lögmaðr; lèzt þá hvárr þeirra tíunda V^c^ hundraða. At lyktum þessum borgunum var brèf ritað með hvárratveggja innsiglum, ok var þat svá mælt: „Í nafni föður ok sonar ok heilags anda. Eptir brèf[i] virðuligs herra Eireks konúngs, því[2] sem hann sendi til Íslands með herra Ólafi ok herra Sighvati, þá stöddu með sèr á alþíngi þann samníng, sem gerr var á alþíngi eðr í Skálaholti, herra Rafn ok herra Árni biskup, ok herra Runólfr ábóti í Veri, herra Ólafr Ragneiðarson, Sighvatr Hálfdanarson, lögmennirnir báðir, herra Þórðr, Nikulaus, Grímr prestr, ok margir aðrir góðir menn, lærðir ok ólærðir. Svá festist ok

1) þeim, *S.* 2) *U*; þat, *S.*

með handtaki í dóm virðuligs herra Eireks konúngs ok andligs föður, erkibiskups af Niðarósi, um öll þau mál ok afbrot, sem síðan hafa í gerzt milli lærðra manna ok leikmanna, nema þat, sem þeir skilja at Skálaholts biskup á yfir at dæma; ok vóru þessir vörzlumenn: herra Ólafr Ragneiðarson firir Árna biskup, ef nokkot veri konúnginum eðr erkibiskupi þægt í hans meðferðum, en herra Jón lögmaðr ok herra Þórðr firir herra Rafn, þar sem hans gerðir skortir, firir slíkt allt, sem á hann dæmdist firir sín afbrot síðan konúngs brèf kom til Íslands um staðamál. Svá gengu ok skilríkir menn í vörzlur firir staðafè, at eigi eyddist, þar til er dómr fèlli á". — Eptir þat leysti biskup or banni alla þá menn, ok forboðum, sem firir þessi mál hafði hann þeim yfirlýst, eptir því sem hann hafði vald til, at firirfaranda þessum eiðstaf: „Til þess leggr þú hönd á helga bók, ok því skýtr þú til guðs, at þú skalt standa á dómi virðuligs herra Eireks konúngs ok erkibiskups, um þat allt, sem þú hefir brotið við guð ok heilaga kirkju ok Skálaholts biskup, ok þeir þikkjast eiga yfir at dæma, en Skálaholts biskup[s] um þat, sem þeim þikkir hann eiga at dæma. Svá sè þèr guð hollr sem þú satt segir, gramr ef þú lýgr[1]!". — Ekki gekk Rafn til lausnar, ok sumir þeir, sem eigi kölluðust sekir nè forboðaðir firi þat, er biskup sagði þá af verkunum sjálfum fallna í bann eðr forboð, þegar eigi var einkanliga lýst stórmælum yfir þeim af kennimönnum.

66. Á þessu sama þíngi lýsti herra biskup utanferð sinni, ok sagði öllum sínum sökudólgum með brèfum afheyris, ok með sjálfs síns[2] erendi þar á þínginu áheyris, at þeir mundu hans dómi hlíta[3] verða um sín mál þann tíma er hann kæmi til Íslands, ef þeir bæri eigi sjálfir þau fram firir konúngi ok erkibiskupi, eðr þeirra lögligir umboðsmenn. At lyktuðum öllum þeim hlutum bauð herra Ólafr herra Árna biskupi í boð sitt, ok herra Runólfi ábóta af Veri. Herra Ólafr vildi ok at herra Rafn veri at þessu boði, en biskup neitti því þverliga, ok kvað þá eigi báða at einni veizlu vera mundu. Herra Ólafr gaf biskupi sæmiligar gjafir at þessi veizlu, ok svá ábóta. Eptir þíngit bauð herra Árni biskup Ólafi heim í Skálaholt, [ef Rafn

---

1) guð sè þèr hollr, b. v. *S*. 2) hèr þrýtr *S*; en hèðan i frá er farið eptir *U*, og borið saman við Nr. 8 í 4to. i bókhlöðu konúngs i Stokkhólmi. 3) 8; hlýða, *U*.

færi eigi með honum[1], at þiggja af sèr veizlu; þat þektist hann eptir biskups vilja, ok þá at þessu heimboði af biskupi gullhríng, þann er stóð hálfa mörk. Eptir þat reið herra Ólafr at reka konúngs erendi. — Á þessu sumri leituðu konúngsmenn á um dóm þann, er handgengnir menn höfðu dæmdan á þá menn, er firir sökum höfðu orðit af herra Loðni, ok kölluðu þá eigi frjálsa af utanferðinni, utan þá þegar kæmi fè fram þat sem dæmt var; en herra biskup segir: „frjálsir skulu þeir af vera, ek skal lúka þetta hálft xviij^da[2] hundrað, sem þèr kallit, þó at fararefni sè minni." En með því at biskupi fór svá röskliga, var þat samit, at þetta fè laukst eptir um várit. Herra biskup lýsti ok því, at hann mundi herra Runólf ábóta af Veri setja firir staðinn ok kennimenn sína meðan hann veri í Noregi, ok lèt þat fylgja, at hann sá engan mann í sínu biskupsdæmi jafnvel fallinn til þessa starfs, sakir vizku ok einarðar ok mannkosta; en hann samþyktist þessi biskups beiðslu.

67. Nokkoru síðarr spurðust þau tíðendi, at herra Jörundr Hólabiskup ok herra Þorvarðr váru við land komnir; hafði Hólabiskup verit þenna vetr í Þrándheimi með herra Jörundi, er áðr var biskup at Hamri, en nú var kosinn af páfanum, sem fyrr segir, til erkibiskups tignar; en þá var sira Sighvatr eigi kominn af Róma með *pallium*, þat sem sendast skildi erkibiskupsefni; seinkaði þat hans aptrkvámu, at þá er hann kom út var Honorius páfi allr, ok fèkk hann eigi sín erendi fyrr en vígðr var Nicolaus páfi, sá er hinn fjórði[3] var með því nafni, ok var vígðr á þessu vári, sem þá stóð yfir. Litlu síðarr kom í Skálaholt sira Jón Ormsson með brèfi herra Jörundar erkibiskupsefnis, ok standa þessi orð þar í til almennings á Íslandi: „Oss er kunnigt um dóm þann, er virðuligr herra Jón erkibiskup dæmdi í Björgvin um staðamál, ok at Árni biskup var skyldaðr til at taka undir sik allar kirkjueignir, hverr sem þær áðr hefði, eptir nokkorum fornum óvanda eðr skildögum, móti biskups vild ok vilja, ok hèlzt þessi boðskapr til þess er herra Rafn Oddsson bar til Íslands opit brèf virðuligs herra Eireks konúngs, firir hvert efni ólærðir menn tóku undir sik, ok ónýttu svá dóm ok boðskap ágæts herra Jóns erkibiskups; en þann dóm ok boðskap staðfestum vèr með váru brèfi. En þeir, sem

1) b. v. 8. 2) xiiij, 8. 3) 8; v. (fimti), *U.*

á hafa sezt kirkjueignir eptir brèfi ok leikmanna styrk móti heilagri kirkju ok lærðra manna skipan, þá bæti auðmjúkliga við kirkjuna eptir dómi herra biskups. Vili nokkorir ok enn herða hjörtu sín móti guði ok várum boðskap, ok halda kirkjueignir móti hennar frelsi, þá megu þeir rèttiliga bannsetjast af biskupi. *Datum Nidarosiæ proximo die ante festum sancti Vitalis anno Domini* MCCLXXXVIII." Enn kómu fleiri brèf erkibiskupsefnis þetta sumar, þau er Árna biskupi buðu aptr at heimta af leikmönnum allar kirkjur ok eignir þeirra, með hverjum hætti sem þeir hefði at komizt, hvárt sem þeir hefði fengit at erfðum eðr með kaupi ok kvennagiptíngum, eðr með öðrum rángligum háttum. „Segir svá páfalig makt, at þeir snúi á heilagrar kirkju náðir, ok taki lausn af hennar formönnum; en þeir er þat gera eigi, eru fallnir af sjálfu verkinu í bann, ok dregit undan biskupi sínum alla hlýðni fólksins sem villumenn." Svá váttar ok í þeim brèfum, at virðuligr herra Eirekr með guðs miskunn Noregs konúngr vill því síðr verja þetta mál, at hann vill jafnan betra ok bæta, ef nokkot finst misfarit af sinni hendi; ok svá, at þeir vanvirði hann mikilliga, er honum kenna sín illvirki, ok leitast við at drepa hann í sinni synd. Erkibiskupsefni bauð ok svá, at sá kristinnrèttr veri hafðr á Íslandi, sem herra Jón erkibiskup ok herra Árni biskup skipuðu. At fengnum þeim frèttum eggjuðu margir Árna biskup, at halda eigi um siglíng sína þau sammæli[1], er ger vóru á alþíngi, ok leita fyrst at rètta kirkju sína ok staði; en þar kom skjótliga sendimaðr herra Ólafs Ragneiðarsonar; hann ritaði brèf til biskups, ok í því fýsti hann, at biskup brygði eigi þann góðvilja ok sammæli[2], sem hann hafði gert firir konúngsmönnum, at fara í Noreg, ok láta konúng ok erkibiskup or höggva sagðar greinir, ok hætta eigi á, hvárt konúngr virðir þat til áleitni við sik, er hans tillaga er í engu höfð. Í þessu brèfi stóð ok sú klausa, er herra Ólafr eggjar Árna biskup at sigla til Björgvinar, ok bindast í fullum trúnaði við Eirek konúng ok Hákon hertoga, svá sem hann gerði við Magnús konúng föður þeirra, ok þá mundu öll þeirra mál bezta enda hafa. Herra Ólafr beiddi ok herra Árna biskup, at hann ákveddi hvar þeir skildi finnast til viðrtals um þá hluti, sem eigi vóru enn skilaðir þeirra í millum. Herra

1-2) S; sannmæli, *U*.

biskup sá, at þetta var heilræði, ok sá, at nú mun svá verða, at firir litla biðstund fengi heilög kirkja langar náðir, en firir skjótræði mætti gerast langt sundrþykki. Því ritaði hann á móti, ok þakkaði fyrrnefndum herra Ólafi heilræði ok fögr orð, kvaðst þetta at hans skapi gera vilja, en lèt eigi nauðsyn til standa at þeir fyndist, fyrr en norðr[1] við skip áðr þeir skildi.

68. Nú er frá Þorvaldi presti at segja: hann bjó sik til siglíngar í Hvítá orlofslaust, þvíat hann rauf öll sín heit við biskup. Þá sendi hann fyrrnefndan sira Jón Ormsson til Þorvalds, at heimta sèr til handa fyrrnefnda tönn, en hann vildi eigi hana rakna láta; fóru þeir þá báðir upp í hèrað, ok deildu um þá sömu tönn firir herra Ólafi ok herra Rafni, ok vanst þat, at hon fór norðr til Gása, ok skildi þeir biskup ok herra Rafn með sèr hafa. Fór sira Jón heim í Skálaholt, ok sagði biskupi hvar þá var komit, en hann ritaði brèf til kaupmanna í Hvítá, ok firirbýðr þeim at flytja Þorvald um Íslandshaf fyrr en kirkjurnar höfðu af honum fè sitt, ok gáfu þeir engan gaum at biskups orðum; fór Þorvaldr í skip at úloknum sínum skuldum. Herra Árni biskup reið af Skálaholts stað *in octava Laurentii*, ok kom föstukveld í Lönguhlíð; var þar firir herra Ólafr ok herra Rafn. Geirr bauð biskupi þar at vera, en hann gekk til kirkju ok firirtók þar at vera, nema herra Rafn færi á annan bæ. Herra Ólafr bað þá, at biskup skildi samneyta honum, en þat fèkst með engum kosti. Ok er þeir Rafn riðu or garði, mælti hann með miklum reiðisvip: „nú hefir ek þrimsinnum flýit firir þèr, Árni biskup, en þat læt ek um mælt, at sá þrífist aldri, er í fjórða sinn flýr firir þèr." Þeir riðu til annars bæjar. Þessu næst áttu þeir enn at deila um tönnina, hverir með skildi fara til Noregs; lètu hvárirtveggju þat uppi, at Eireki konúngi skildi gefa: lagði Ólafr þat til, at Árni biskup skildi við tönninni taka ok færa konúngi, ok skildi hann ráða af hverjum hann þægi; lèt biskup sækja tönnina, ok hafði með sèr. Þetta sumar sigldu kaupmenn í Hvítá, ok Þorvaldr með þeim; ok er þeir höfðu litla hríð siglt í allhagstæðum byr, gekk Þorvaldr til siglu, ok mælti firir skipi eptir sið, ok skorti eigi mikit túngubragð. Ok er því var lokit mælti hann: „nú er því líkast, at skipit skríði undir mèr á eina leið, hvárt sem Árni biskup gefr mèr

1) 8; niðr, *U*.

orlof eðr eigi." Á þeim sama degi gekk um veðrit, ok styrmði at þeim; þá rak upp í Hvalseyjum, ok braut skipit, en týndust miklir penníngar. Allir hèldust þar menn. Fór Þorvaldr prestr þat haust til Vestfjarða, ok var í Holti um vetrinn, ok gekk eigi í kirkju, ok lá honum þat illa.

69. Þetta sumar bjoggust þeir til siglíngar hvárirtveggju firir norðan land, sem fyrr var getið, herra Árni biskup, herra Ólafr ok herra Rafn; var biskup með herra Þórði á Möðruvöllum ok bíða byrjar, ok eptir þat á Möðruvöllum í Hörgárdal, ok var þar með Jörundi Hólabiskupi, til þess at þeir lètu út hvárirtveggju *in festo sancti Ægidii;* var þó herra Árni biskup á öðru skipi, en herra Ólafr ok herra Rafn á öðru skipi. Margir stórbændr fylgðu herra Rafni til skips, þó eigi sè hèr nefndir, svá ok Sturla son hans, er hann setti eptir at gæta ríkja sinna með vinum sínum ok venzlamönnum. Tóku þeir herra biskup Kråkuváðir úti firir Þrándheimsmynni næsta dag eptir Krossmessu. Síðan sigldu þeir til Niðaróss, ok var herra biskup þar um vetrinn ok hafði herbergi í Maríuspítala[1]; vóru þessir menn þá með honum: sira Árni systurson hans, [er var[2] kapalín hans, ok sira [Jón Ormsson ok sira[3] Ormr Dagsson.

Þessu næst kom sira Sighvatr af[4] Róma með *pallium*, ok lögðu þeir þat á herra Jörund erkibiskup: Árni Stafangrsbiskup ok Eyvindr[5] Oslóarbiskup, *in dominica xx.*, ok í þessi messu vígði Jörundr erkibiskup, er áðr hafði verit biskup í Hamri, Þórð biskup til Grænlands, ok með honum Árni Skálaholtsbiskup ok Þorsteinn biskup af Hamri; þetta var hinn næsti drottinsdagr eptir *festum beati Dionysii*, en erkibiskup kom heim áðr næsta drottinsdag firir Michaelismessu. Bráðliga tókst tal með þeim herra erkibiskupi ok Árna biskupi, ok þegar þeir gerðust málkunnir tók hann honum blíðliga, en taldi þó á hann um þat, at hann hefði verit mikils til slær, er hann hefði eigi bannsettan Rafn ok aðra kirkjuránsmenn í sínu biskupsdæmi; segir vera mikla skömm at þola slíkt, þar sem enginn þorði á móti Hólabiskupi, ok hann rèð þar mest frjálsliga öllum kirkjum, at því er honum var flutt; en Árni biskup segir, at eigi gekk þessi flutníngr á firir alþýðu á Íslandi. Erkibiskup vildi eigi öðru trúa at úprófuðu

1) 8; hospitali, *U.* 2) [ sbr. kap. 75; sá var, 8.
3) [ b. v. 8. 4) 8; or, *U.* 5) 8; Árni, *U.*

um þetta, en sögn Hólabiskups; þó var hann margr við Árna biskup ok fréttinn af Íslandi.

70. Þetta sama haust fór herra Rafn til Björgvinar ok fann Eirek konúng, tók hann honum vel; átti hann tal við konúnginn um staðamál, ok dró fram sín mál eptir megni; sira Jón Holt var ok þar, ok áttust þeir opt við harðar deilur. Herra Ólafr Ragneiðarson fylgði honum mjök, ok lèt þó vel í orði til Árna biskups, en illa til Jóns, ok kendi honum mikil völd um sundrþykki þeirra. — Þetta haust var herra Gauti[1] í Tólgu lagðr knífi til bana, þat vann herra Hallvarðr af Hörðu ok vildi hafa lagit annan mann. Nokkoru síðarr tók Ísakr son Gauta Hallvarð or Svithonskirkju ok lèt hálshöggva; firir þat varð hann útlægr. Þenna vetr andaðist herra Loðinn leppr ok Grímr ábóti af Jónskirkju. Þenna vetr stefndi herra Jörundr erkibiskup Rafni Oddssyni á sinn fund af opinberum sökum, ok einkanliga firir þat hann var samþykkjandi brautrekstrs herra Jóns erkibiskups, ok bað hann koma til sættar ok yfirbótar. Árni biskup gerði honum ok stefnu til sín, at taka umbót firir þau sín afbrot, er honum heyrðu til, ok fór[2] Rafn hváriga stefnuna, ok leið svá til föstu. Nokkoru síðarr ritaði herra erkibiskup ok Árni biskup til Narfa biskups, hvárr um sínar sakir, þær sem á Rafni stóðu, ok með ráði erkibiskups boðaði hinn sami Narfi Björgvinar biskup nýnefndan herra Rafn bannsettan um fyrrsögð sakferli, ok í því banni stóð Rafn langa stund; vildu menn þaðan af eigi samneyta honum, utan nokkorir íslenzkir menn. Hann keypti þá at enskum klerk, þeim er Vilhjálmr hèt, með XIV<sup>c</sup> vaðmála, at halda máli hans til laga, ok lèt þessi klerkr sem hann appelleraði til páfa þessum sömu málum ok undan erkibiskupi, ok varð hans appelleran ónýt; kom ok eigi varan fram. Nær miðföstu reið erkibiskup suðr um Dofrafjall, at gjöra *visitationem* í öll sín biskupsríki, ok er hann kom aptr til Niðaróss, bannsetti hann krossmessudag þann mann, er Jón hèt ok var Brynjólfsson, firir brottrekstr herra Jóns erkibiskups. Eigi miklu síðarr fór Árni biskup til Björgvinar ok kom þar at uppstigníngardegi; hafði Eirekr konúngr þetta vár látið útbjóða leiðangr, var þat orð á, at hann ætlaði til Skotlands, en sumir hugðu[3] hann fara mundu til Danmerkr; vóru þá skipin

1) Gautr, *U.* 2) 8; fèkk, *U.* 3) 8; segja, *U.*

lögð út í Flóruvága; fór Árni biskup at biðja hann at gefa sèr orlof til Íslands, en hann veitti honum þat blíðliga; fór hann þá aptr til Múnklífis. Ok er herra Rafn Oddsson varð þessa varr, herðir hann at Auðunni hestakorni, at hann fái þat af konúnginum, at hann kallaði aptr orlofit Árna biskups firir þat er þeir vóru ósáttir, ok mál þessi vóru [eigi] tölut til enda. Auðunn fèkk þetta af konúnginum; hann kemr nú skjótt til biskups, ok segir honum, at engi er kostr annarr, en sækja til Víkr austr eptir konúnginum, ok skal hann eigi til Íslands fara fyrr en þeir hafi lyktað sín mál. Biskupi líkar nú illa, er aptr var tekit orlofit; tekr hann þat til ráðs, at hann sendir til herra Runólfs ábóta sira Jón Ormsson ok sira Orm Dagsson með þeim boðskap, er þau brèf sýna, er þeir fluttu með sèr til Íslands; tók herra ábóti þeim vel. Herra ábóti segir þeim ok þat, er þar hafði áðr gerzt um vetrinn, at sira Þorvaldr hefði siglt í ólofi, ok hafði með sèr alla penninga sína, en goldit eigi kirkjunum þat sem Árni biskup kvað á, en verit í Holti um vetrinn, ok hafði við hönd sèr manns konu, þá er Valgerðr hèt, ok var Gunnarsdóttir, ok fengit þar af mikla ófrægð, ok prófaðist á hann, at hann hefði fleirum kirkjum rangt gert en fyrr er greint, en sukkat í sumum stöðum Róma-skatti í Vestfjörðum, svá at ekki hefði firir komit; ok hann kvaðst ritað hafa til Noregs framferðir hans, svá at þar mætti rètt af honum gera; hann segir ok, at slíka viðvörun hefði hann gert staðamönnum ok öðrum óvinum kirkjunnar, sem herra biskup var vanr móti páskum.

71. Þar eptir lètu þeir verða sèð á boðskap erkibiskups, ok var fyrst eptir kveðju sendíng [innt orð[1] Árna biskups, þau er hann segir erkibiskupi allan tilgang á staðamálum á Íslandi, ok hversu nú var hverju máli komit; þar var talat í þeim brèfum, er sira Jón færði ábóta, hve langt þeir veri frá rèttindum viltir, er kirkjur hèldu utan skipan[2] biskupanna, ok at skömm veri í, at þola hegníngarlaust slíkar óhæfur. Eptir þat var tjáð, at hann bauð at allar kirkjur ok eignir þeirra veri aptr heimtar undir Skálaholts biskup. Þar eptir var ritað, at erkibiskup kallar Árna biskup lögligan dómanda allra afbrota í sínu biskupsríki, ok allir hans undirmenn skyldu á hans dómi standa um

1) [ 8; játorð, *U.* 2) 8; orlofs, *U.*

fyrrsagðar sakir. Eptir þat stóð sú klausa: at erkibiskup kvaðst hafa spurt Eirek konúng, hvárt Rafn hafði eptir hans brèfum ok boðskap tekit kirkjurnar, sem þeir fluttu, en hann segir svá, at þeir snúa brèfum hans eptir sínum vilja. Þar eptir var vitni borit, at þat *privilegium* gaf sjálfr guð forstjórum kirkjunnar, at þeir, en engir leikmenn, eigu lög at segja [ok svá[1] dóma dæma yfir andligum hlutum. En í biskups brèfi stóð sú klausa, at herra Árni biskup bauð Runólfi ábóta at stefna utan þat sumar herra Erlendi sterka, at taka lausn af herra Jörundi erkibiskupi af því banni, sem hann fèll í, þá er herra Jón erkibiskup var af Noregi rekinn. Herra ábóti gerði þetta. Erlendr brá ok skjótt við, ok fór til skips í Eyjafirði ok sigldi þar, ok kom til Þrándheims ok fèkk lausn, sem sagt man verða.

Nokkoru síðarr reið herra ábóti heiman af Skálaholti, ok hitti herra Jörund biskup í Hornafirði *in festo Mathei evangeliste*; hóf hann með því sína för, at hann skoðaði um kirkjufè, hvar þorrit hefði, fór hann stundum eptir máldögum en stundum eptir sögnum presta. Allar ógefnar kirkjur kallaði hann í erkibiskups valdi, ok bauð prestum at láta skrá nöfn sín til erkibiskups, ok nafn þeirrar kirkju, sem þeir beiddust, ok hèt þeim þar til [sínum flutníngi[2]. Biskup reið við tíunda mann. Í Gunnarsholt[i] hóf ábóti sín erendi, þvíat þar var prestum samanstefnt, ok lèt lesa brèf Jörundar[3] erkibiskups ok Árna biskups, ok beiddi Hálfdanarsonu til sækja, en þeir vildu með engu móti at borði ganga. Þar vóru lesin upp þau erkibiskupsbrèf, er Hólabiskup skylduðu til þessarrar ferðar, ok váttuðu, at hann mætti gera þetta jafnframliga sem sjálfr erkibiskup, þótt hann hefði til komit. Herra Sighvatr veitti liðsinni Runólfi ábóta jafnan er kirkna mál vóru kærð.

72. Laugardaginn eptir Michaelismessu reið[4] herra [Jörundr] biskup í Skálaholt; hann aktaði eptir um eignir staðarins, ok lèt ásannast, at minni veri þurðr á en honum hefði flutt verit, ok hann kvaðst hugat hafa; vóru þá tíundir nær CC hundraða ok XL^c, en landleigur nær C hundraða. Reið hann hinn fimta dag í Arnarbæli, ok var þar fögr veizla. Þar bjó herra Þorvarðr [Þórarinsson]. Þar sættist Sturla Sæmundarson, ok áttu þeir herra biskup ok Þorvarðr góðan hlut at. Herra Snorri

---

1) [ 8; nè, *U.* 2) [ 8; sínu fulltíngi, *U.* 3) Jóns, *U.* 4) hann, b. v. *U.*

hinn digri[1] gekk til sættar í Hvammi í Dölum ok sór eiða. Á Staðarhóli sættist ok Þorgrímr á Stað ok Thomas Snartarson, með svörnum eiðum sem hinir; tók herra [Jörundr] biskup þar til vitni af herra ábóta um þat sem Skálaholts biskupi heyrði til. Í Hjarðarholti í Dölum lètu þeir sverja eiða, at Björn Dufgusson, sá er þann stað hafði haldit móti ráði Árna biskups, hefði á efstum stundum beiðzt sættar, ok viljat þat til vinna, sem biskup vildi, ok andaðist í því, ok var grafinn í kirkjugarði í forboði, sakir ofríkis herra Rafns. Eptir þat var hann upp grafinn, ok leysti herra ábóti hann, en herra biskup hreinsaði garðinn, firir þá sök at þessi bein höfðu þar grafin verit. En ábóti spurði þá at skilnaði, hvers honum þætti mest áfátt í sýslu Árna biskups; en hann segir, at erkibiskupi mundi hann eigi heldr firir annat eiga sökum at svara, en þar sem þorrit hefði kirkjueignir. — Þaðan sneri herra Jörundr biskup til Hrútafjarðar; flaug þat frá orðum hans, at fár mundu kirkjur verða rètt gefnar í sýslu Árna biskups firir tíma sakir. Herra ábóti sneri þá til Reykjaholts, ok kom til móts við hann Staðar-Brandr, ok sór eið; eptir þat var hann leystr. Allir þessir sátu á kirkjueignum þann vetr, ok gengu af um várit. Or Reykjaholti sneri ábóti heim í Skálaholt, ok var þar um vetrinn.

73. Nú er at segja frá Árna biskupi, þá er hann hafði senda fyrrnefnda presta Jón ok Orm til Íslands með þann erkibiskups boðskap, sem hann ætlaði sèr fram at bera: at fengnu loforði gekk hann á eina tvítugsessu; sigldu þá suðr með landi, ok fundu eigi konúng fyrr en í Ekreyjum firir Jóns messu *baptiste*. Á þessi stundu hafði erkibiskup leystan Rafn Oddsson í Túnsbergi, at firirfaranda lögligum eiði. Í Ekreyjum kærði sira Jón Holt, at hjáveranda herra Jörundi erkibiskupi, á herra Rafn Oddsson, at hann hefði farit með flokk manna at taka kirkju [hans. — En hann segir svá: „eigi tók ek, frændi, kirkju[2] þína, en vel þótti mèr þat, þótt hon veri tekin, ok ek kann þar svá mikit af at segja, at engi kirkja hefir tekin verit á Íslandi, nema ek vilda". Þá mælti erkibiskup: „heyrit þèr nú, at hann játar sik nú foríngja hafa verit firir því, er kirkjurnar vóru teknar", ok lèt skrá þessa hans viðgöngu þegar í stað. Margir lofuðu hversu vel hann gekk við. Árni biskup

1) líklega sami og herra Snorri Íngimundarson. 2) [ b. v. 8; v. í *U.*

bað sèr orlofs, ok þvíat hann fèkk eigi gekk hann í skip konúngs, ok fylgði honum til Danmerkr.

74. *In octava apostolorum Petri et Pauli* sigldi konúngrinn öllum hernum í Eyrarsund, ok sömu nátt eptir sigldi Kolbeinn [kettuhryggr . . .[1] ok druknuðu þar firir[2] sextán tigir manna. Um morgininn eptir lèt konúngrinn brenna Helsíngjaeyri[3], ok sigldi síðan í Refshaladjúp, ok lá þar nær fimm vikur um akkeri. Ólafsmessu aptan tók erkibiskup ok aðrir biskupar at fara heim með skip sín. Árni biskup fèkk sèr þá bát lítinn, ok prestr hans með honum, fyrrnefndr Árni frændi hans, [er síðan varð biskup[4], ok ætlaði til erkibiskups. Konúngrinn hafði áðr sent Guthorm Gyðuson ok nokkora menn með honum, at taka Árna biskupi orlof af erkibiskupi, at hann færi með honum um sumarit; ok í því er biskup kom í bátinn, ok prestr tók at róa, hleyptu þeir Guthormr skútunni uppá bátinn, svá at drjúgum hválfdi, ok gripu þá báða ok drógu í skútuna, ok segja þau erkibiskups orð, at biskup mundi verða með konúngi at fara, er hann fèkk eigi orlofit; líkaði Árna biskupi þat stórilla. Þetta sumar lèt konúngrinn víða taka strandhögg. Síðan þat fór í vildi Árni biskup einkis matar neyta, hvárki brauðs nè smjörs, nema þat er heiman kom af Noregi. Eptir Ólafsmessu ritaði Eirekr Danakonúngr til Noregs konúngs ok hertogans ok svá Árna biskups, ok kærði sik, er þeir bræðr hèldu greifa Jacob, ok þá fleiri, er hann kallar föðurbana sína, en herjuðu á land hans; bað hann herra Árna biskup at leggja þat ráð á með Eireki konúngi, at hann gæfi upp greifann ok lèti af hernaðinum. Eptir þat sendi Eirekr Noregs konúngr herra Árna biskup ok Bjarna or Gizka ok fleiri herramenn upp í Kaupmannahöfn til viðrtals, ok skildu þeir svá, at engri sætt varð á komit með þeim. Nær Laurentiusmessu sigldi konúngr öllum herinum suðr um Mön í Greníngjasund; þar gekk upp Noregs herr ok brendi eyna Falstr. Eptir þat lá Eirekr konúngr um Nýjahús, fèkk hann þar mikinn mannskaða, ok margt lið varð sárt. Herra Rafn Oddsson tók í vanda, þá daga sem hann gekk upp, at taka blezan af Árna biskupi. Þat bar svá til einn dag, at hann gáði þess eigi; ok er Rafn[i]

1) 8; rottuhryggr, *U*; hèr mun vanta eitthvað. 2) 8; af, *U*.

3) getg. (sbr. Esroms annála, en þeir setja ranglega þessa herferð ár 1287); Ív'z ey', 8; Lusseyri, hin; Hlèseyu, *U*. 4) [ sl. 8.

kom í hug venjubragð sitt þá er hann var á leið kominn, mælti hann við förunauta sína: „legizt hefir mèr nokkut í minni venju, ek gáða eigi at taka blezan af biskupi". Þrænzkir menn fóru þá með honum, ok segja: „enn megi þèr snúa aptr, svá at þèr missit eigi blezanar". Rafn svarar þá: „gerist ferð sem má, eigi man ek aptr snúa at sinni". Þann dag sátu þeir nær húsinu; ok er minst varði, kom maðr kallandi: „herra Rafn", segir hann, „kom til konúngs ok bitt sár manna!". Hann stóð upp skjótliga. Þeir sem í húsinu vóru heyrðu herramann nefndan, ok sá þann mann er upp stóð í auðkendum búnaði; skutu þeir at honum sem í drífu sæi; kom ein ör í handlegginn í músina, önnur í bakit, þriðja í fíngrinn minsta; greru þau tvau sár skjótt, sem hann fèkk fyrri, en blástr hljóp í fíngrinn ok batnaði eigi þat sumar. Maríumessudag leysti konúngr or Greníngjasundi ok allr herrinn, ok sigldu undir Fjón um kveldit. Um morgininn eptir tók konúngrinn tal við hertogann bróður sinn, ok Árna biskup ok ráð sitt, ok var konúngr mjök sèr einn á þykkju, þvíat hann vildi stríða á Eirek Danakonúng ok freista hversu færi, en flestir vóru á móti, ok vildu fara heim til Noregs; ok var þat ráðs tekit, at herrinn sigldi norðr um daginn undir Sámsey. Um morgininn eptir sigldi mart lið án orlofs allt til Noregs. Konúngr leysti ok þá mikinn þorra flotans, ok sigldi heim á leið til Túnsbergs með hinum beztu byrjum, ok kom þar firir Bartholomeusmessu. Í þessi ferð þoldi Árni biskup mikla neyð í vistafangi, ok fèkk mikinn skyrbjúg í munninn, svá at hann hafði jaxla færri heim en heiman; þó[1] batnaði honum þann tíma er hann kom til Noregs. At síðari Maríumessu bauð hertoginn konúngi bróður sínum ok Árna biskupi inn til Oslóar, ok veitti hann þar á fyrrgreindri hátíð fagra veizlu. Eptir þat sneri konúngrinn ok með honum Árni biskup aptr til Túnsbergs; þar spurðu þeir tíðindi af Íslandi, kom þaðan Gnúpr prestr, ok tók Árni biskup hann til sín. Gekk þá herra Rafn optliga til Árna biskups, ok töluðu um tíðindi af Íslandi. Hönd hans, sú sem skotið hafði í fíngrinn komit, tók þá at skjálfa ok visnaði.

75. Nær vetrnóttum rèð Eirekr konúngr at fara pílagrímsferð til hins heilaga Ólafs konúngs í Niðarósi; Árni biskup skildi þá ok fara með honum. Hann beiddist þá ok til, at

1) þá, *U.*

herra Rafn færi þá ok norðr með þeim, at þá veri töluð staðamál firir konúngi ok erkibiskupi, ok annat þat sem var þeirra í milli. Herra Rafn kærði krankleik sinn, ok mest síðan um þat litla sár, er hann hafði á fíngrinum minsta, því þá tók bæði at visna höndin ok handleggrinn upp frá. Árna biskupi þótti þetta seinkan ok undandráttr hans at koma til dóms um sögð kirkjumál; gerðist þat þó af, at Rafn fór hvergi, en konúngr ok biskup fóru til Oslóar ok bjoggust þaðan. Hófu [þeir] þá konúngr [ok] hertogi ok Árni biskup ferð sína Simonsmessudag, ok gaf Eyvindr biskup Árna biskupi góðan gangvara, þeim sem hann reið norðr. Þá er þeir kómu á Ríng[i]sakr, var þar firir Jón Brynjólfsson, sá er bannsettr hafði verit krossmessudag af erkibiskupi, sem fyrr var greint; hafði Jón þar firir búit veizlu. Hertogi var úti í litilli stofu með sína menn. Þenna aptan, þá er Eirekr konúngr hafði tekit handlaugar, ok Árni biskup sat til annarrar handar konúngi, en Jón hinn bannsetti var ætlað til annarrar handar sitja mundi, sem þeir höfðu setið litla hríð, talaði Árni biskup til konúngsins: ek bið yðr herra, at þèr látið eigi Jón hèr inni matast hjá yðr, ella man ek út ganga ok matast annarstaðar". Konúngr roðnaði mjök við þessi orð, ok bað Jón fara brott frá borðinu ok matast annarstaðar. Máttu þá allir sjá, at þessi biskup hafði eigi hèra hjarta, þar sem hann þorði slíkt at borði sjálfs konúngs, eptir dæmi síns vígsluföður, er eigi vildi inni vera at brúðkaups veizlu Eireks konúngs, nema Hallkell Ögmundarson, er hann hafði banni yfir lýst, æti annarstaðar. Jón gekk ok þegar út, sem honum var boðit, ok undruðust þetta margir konúngsmenn. Þaðan riðu þeir norðr á leið til Þrándheims, ok kómu til Niðaróss Marteinsmessudag; var herra erkibiskup þar firir, ok gerði *processionem* móti þeim. Slíka stund sem þeir bræðr vóru í Niðarósi var Árni biskup á konúngs kosti, ok hafði stofu til svefns í konúngsgarði, ok vóru þar hjá honum Jón Holt ok sira Guðmundr Hallsson. Þenna tíma varð sira Jón víss af sira Guðmundi, at erkibiskup hafði gefit honum Oddastað áðr hann fór or Víkinni; sira Jón sagði þetta þegar Árna biskupi. Eptir þat spurði hann sira Guðmund, hvárt þat veri satt, en hann gekk við at svá veri. Biskup gerði sik mjök þúngan við þetta. En einn dag gengu þeir báðir til erkibiskups í svefnstofu hans, var þar hjá sira Árni kapalín hans, [er síðarr varð

biskup[1]. Árni biskup spurði erkibiskup, hvárt hann hefði gefit Oddastað áðr hann fór or Víkinni, þann sem áðr hafði hann gefit Grími presti Hólmsteinssyni, en fyrrum sótt af leikmönnum. Erkibiskup segir þetta satt vera, en lèzt eigi vita, at þessi staðr var áðr gefinn, ok segir, at gjöfin var laus firir þessa skynsemi; mislíkaði erkibiskupi við sira Guðmund um þenna flutníng, þó lèt hann Árna biskup gefa honum Breiðabólstað, ok taka af sèr vitni[2] til þess, er vera átti eptir nýjum lögum.

76. Nú er þar til máls at taka næst gerðum Árna biskups, er Runólfr ábóti í Veri skildi við Jörund Hólabiskup ok sat heima í Skálaholti þann vetr; hann gerði herra Lopti þrjár áminníngar, ok bannaði honum at Nikolausmessu inngang heilagrar kirkju, en at jólum frá því at heyra tíðir. [*In dominica*[3] *Lætare* áttu þeir fund, ok bauð Loptr eigi framarr en gánga af stað, en hinn settist á, sem biskup hafði skipat. Ólafr Arnórsson hafði heitið at ganga at fardögum af stað, ok rauf heitið at fardögum. Ketilssynir stóðu ok þar í því [sama forboði[4]; gerði herra ábóti þessum hvárumtveggjum lögligar áminníngar; lètu Hítdælir staðinn af hendi eptir fardaga, ok tóku lausn *in nativitate Johannis baptiste*. Þann sama dag boðaði herra ábóti Ólaf Arnórsson bannsettan firir nýsagða sök; stóð hann í því um stund.

77. Á því hausti, sem Rafn var eptir krankr í Túnsbergi, fór Erlendr sterki at stefnu Árna biskups norðr til Þrándheims, á fund Jörundar erkibiskups, ok var þá af honum leystr, fyrst af því banni, sem hann í fèll við burtrekstr virðuligs herra Jóns erkibiskups, ok af því, sem hèr feldi hann á sik á Íslandi, segjandi lög um kirkna varðveizlur, at firirfaranda þeim eiði, at standa á kirkjunnar dómi um öll þessi mál. Þar nær var ok þat, er fyrrnefndr herra Árni hèlt einn dag stefnu við Erlend ok Grím prestsson, er[5] hafði umboð herra Rafns um staðamál; var á þessi stefnu Eirekr konúngr, Hákon hertogi, Jörundr erkibiskup. En þvíat herra erkibiskupi var ókunnara um staðamál á Íslandi en herra Árna biskupi, ok herra Erlendr var fyrr leystr en hann kæmi til Niðaróss, bar hann þær sakir á Erlend, er hann segi þat lög, at herra Rafn gaf undir leikmanna vald nefndar kirkjur á Íslandi í Skálaholts biskupsdæmi,

1) [ sleppir 8. 2) 8; vitiun, *U*.
3) [ 8; ok til dominicam, *U*. 4) [ v. i *U*, 8. 5) ok, *U*, 8.

ok svá um þat, er hann setti sik fremstan með herra Rafni at brjóta niðr kirkjunnar lög, ok þeir tæki undir sik dóm um forræði á kirkjutíundum[1], ok dæmdu þær undan biskupligu valdi; ok þat, er þeir gerðu kaup í nokkorum stöðum um kirkjur; svá ok um þat, er Erlendr sagðist lögmaðr skipaðr svá yfir kristnum rètti sem landslögum, ok þar með fleiri aðrar sakir. En þvíat Erlendr ok hans kompánar fengu eigi afsakat sik um nýsagðar sakir, ok kölluðust eigi at sinni öllum gögnum mega fram koma, en væntu fulltíngs af herra Rafni, ef honum batnaði, sýndist öllum, þeim er við vóru staddir, leikmanna framferð því óheyrni[2], sem hon var fleirum skynsömum mönnum kunnari. Stefndi ok herra Jörundr erkibiskup herra Erlendi eptirkomanda sumar á sinn fund firir hina fyrri Maríumessu, at halda sinn eið, ok at standa á hans dómi firir brottrekstr Jóns erkibiskups ok öll sín afbrot.

78. Á þessu sama hausti, er herra Eirekr konúngr hafði hafit pílagrímsferð af Osló Simonsmessudag, ok riðit til hins heilaga Ólafs konúngs í Þrándheim, lá herra Rafn sjúkr í Túnsbergi, ok mátti eigi fylgja sínum herra sakir síns fíngrsárs, sem fyrr greinir; leið svá fram til Allraheilagramessu, at minkaði megn hans, ok um síðir lagðist hann í rekkju. Ok þá er herra Rafn var mjök hættr, kómu til hans skynsamir menn, biðjandi, at hann gerði sitt testament, ok reiknaði við sik um þau kirknamál, er hann hafði í staðit út[i] á Íslandi; en hann segir á þessa leið: „eigi veit ek ógerr en þit, hve þessi mál vita við, en lengi er kostr um þau at tala"; hafa menn þat firir satt, at hann vænti sèr lengri lífdaga en raun bar á. Eptir Marteinsmessu mínkaði mál hans ok greiníngarvit, ok gengu þá at honum vinir hans, svá mælandi: „þvíat vèr vitum þik eigi í þessum heimi munu sjá þinn herra Eirek konúng, vildum vèr gjarna þat flytja honum, svá sem víst til framkvæmdar, er þú beiðir hann á síðustu dögum at gera þinn vilja um þá hluti, er þèr þikkja mestu varða". Hann nam orð þeirra, ok leit til þeirra með társtokknum augum, svá sem sýnandi alvöru hjartans, ok hrutu þá þessi orð af hans munni: „Sturla, Sturla". Virðu menn svá, at hann mundi biðja helzt firir Sturlu syni sínum, ok Sturlu, syni sira Jóns Pètrssonar ok Hallkötlu, er þar var hjá. En þvíat sú beiðsla þótti skynsamlig, þá var hon

1) kirkjum ok tíundum, 8. 2) = óheyrnari?; óhreinni, 8.

sögð Eireki konúngi; gerði hann síðan [þessa menn[1] skutilsveina sína ok herra. Eptir þessi orð framsögð lifði herra Rafn litla hríð, ok mælti eigi utan sèr til sáluhjálpar, ok þó svá sem með [einum saman undandrætti[2], ok sálaðist á Ceciliumessudag; var útferð hans ger eptir landsvana sem um ríka menn; kómu þessi tíðindi miklu síðarr vetrar til Niðaróss, ok veitti Árni biskup honum fagrliga bæn móti mörgum meingerðum, *eigi ólíkt þeim heilaga Ambrosio, er firir þeim mönnum* bað eptir dauðann, sem hans mótstöðumenn vóru í lífinu. Andreasmessudag fóru þeir brott af Þrándheimi bræðr, Eirekr konúngr ok Hákon hertogi, með sínu föruneyti, ok suðr til Björgvinar. Herra Jörundr erkibiskup bauð þá Árna biskupi blíðliga á sinn kost; er hann þann vetr með honum, ok fram á sumarit, til þess er honum kómu penníngar.

79. Þetta sumar sendi Árni biskup Gnúp prest Hallason til Íslands, með þeim brèfum, er vóru um skriptir staðamanna, ok dómaháttum þeim, er hann hafði *componerat* við ráð Jörundar erkibiskups, [sira Sighvats landa[3] ok Óblauðs meistara; kom þat skip, sem hann var á, í Eyjafjörð, ok flutti hann brèfin í Skálaholt til virðuligs herra Runólfs ábóta. Hann leit á þenna boðskap; stóð þar í andlát herra Rafns, ok þau tíðendi, sem í Noregi gerzt höfðu, svá ok, sem áðr var sagt, skriptir staðamanna, ok dómar yfir málum þeirra, sem til handa höfðu gengit ok sættar. Þau vóru ok sum brèf, sem váttuðu bann þat, er þeir sjálfir feldu á sik, sem eigi vildu ganga til lögligra sætta firir *percunctatorium diem* þann sem í brèfinu váttaði; ok næsta dag firir Ólafsmessu hina fyrri kómu þessi brèf í Skálaholt. Litlu síðarr hóf Runólfr ábóti ferð sína vestr til Fjarða; var skip komit firir sunnan, ok á því Erlendr lögmaðr Ólafsson; hafði hann eigi beðit stefnuboðs herra Jörundar erkibiskups. Fundust þeir herra ábóti í Stafaholti, ok gerðu með sèr nokkora samnínga. Þaðan fór herra ábóti vestr í Fjörðu, ok kom Eirekr Marðarson til hans á Reykjanes, ok Þorgrímr á Stað, ok gerðu slíkar skriptir sem virðuligr herra Árni biskup hafði ritað. Flestir allir staðamenn, þeir er herra ábóti fann í þessi ferð, gengu undir skriptir þær. Ábóti fór aptr um Helgafell ok utan um Mýrar, ok svá til Ferjubakka; tókst þá enn tal með þeim herra Erlendi, ok

1) [ nokkra þessara manna, *U.*

2) [ 8; einum undirdrætti, *U.* 3) [ 8; Sigurðar lunda, *U.*

horfði allt þverliga af beggja hendi, svá at þeir skildu ósáttir. Stóð Erlendr þann vetr í forboði, því at hann synjaði skriptir at taka, ok enn var fleira til missættis. Ólafr Arnórsson hafði þetta sumar fregnat andlát herra Rafns; varð hann þar firir skelfdr, ok gekk af stað Laurentiusmessu, ok kom til móts við ábóta at Maríumessu í Skálaholt, ok var leystr at firirfaranda eiði. Veitti guðlig mildi þessum forstjóra kristninnar[1].... með fulltíngi Árna biskups, sem utanlands diktaði slíkar röksemdir. Herra ábóti lèt ok eigi dvína atgönguna, [svá] at allr múgr leikmanna varð sinn munn firir honum at byrgja[2].

Á þessu sumri fór Þorvaldr í skip at nýju í ólofi Runólfs ábóta; hafði hann næsta vetr þá atferð, sem áðr var frá sagt, en svá fór siglíng hans, at þeir lètu skip við Færeyjar en tóku allir land. Í þessi ferð hendi hann hörmuligt tilfelli, at þar áðr var hann sakir frænda ok framkvæmda ok mikilla menta öruggr ásóknarmaðr óvina guðs kristni, meðan hann hèlt trúnað við sinn herra, var hann gripinn af óhreinum anda svá harðliga, at til heilagrar Magnúskirkju leiddu hann X menn firir nauðsyn, ok inn í kirkju, ok er hann kom at dyrunum, varð sá hlutr, er ótrúligr mætti þikkja, ef eigi vitað veri, um þann grun, sem heilagr Magnús, drottinn sömu kirkju, píndist firir ekki, ok varð eigi til eingis Christi píslarváttr. Nú er þeir kómu með þenna mann í kirkjuna, varð hann svá ólmr í æði, at hann fèll sem dauðr niðr í höndum þeim, ok þau bein, sem áðr vóru sterk um eðli fram, urðu nú blaut ok breisklig móti allri náttúru; lofaði hann þá lifanda guð júngfrú María, ok Magnús kirkjudrottinn. Þeir vóru, sem svá töluðu hègómliga um þetta, ok sögðu orðit af sterkri drykkju, ok þat[3] hefði valdit æði hans. En til prófunar at [illa er satt[4], vitjaði þetta mein hans eptir þat hann kom í Noreg á fund herra Eireks konúngs; vóru ok þeir menn, er þat sönnuðu, at þá er hann tók at ásaka sinn herra firir Eireki konúngi, sótti hann hin sama meinsemd; geymdu hans þá fyrst íslenzkir menn ok síðan norrænir; var þá gerr bakstr nokkorr sèrligr ok bundinn við höfuð honum, en þat dugði eigi; andaðist hann í þessi hörmúng. — Þenna vetr annan var Árni biskup öruggr í Noregi at því sinni[5] . . . .

1) hèr mun eitthvað vanta; „þyl" b. sum við. 2) hèr þrýtr 8.
3) *hin*; Þórr, *U.* 4) [ illt er sett, *hin.* 5) hèr þrýtr sagan í miðju kafi.

# SAGA

# LAURENTIUS HÓLABISKUPS

[EPTIR SIRA EINAR HAFLIÐASON].

---

# LAURENTIUS SAGA HÓLABISKUPS[1].

Þá er almenniligri kristni guðs stýrði postuligr faðir Urbanus, hinn fjórði með því nafni, páfi í Rómaborg, en herra Hákon erkibiskup Niðaróss kirkju ok Jörundr biskup Þorsteinsson Hólakirkju valdi í Norðlendíngafjórðúngi á Íslandi, en meðr veraldligri stjórn ríkti í Noregi virðuligr herra, herra Magnús konúngr Hákonarson: gjörðist þessi frásögn í upphafi, sem vèr munum guði fulltíngjanda upp byrja, góðum mönnum til gleði ok skemtunar ok svo eigi síðr til fróðleiks ok nytsemdar, af herra Laurentio góðrar minníngar biskupi á Hólum. [Var ek[2] áminntr af honum sjálfum í minni halda hverja hluti hann sjálfr fram sagði, hverju fram hafði farit um hans æfi áðr hann varð biskup á Hólum. En síðan var þeim kunnigt, [sem] dagliga vóru[3] í hans þjónustu ok herbergi nátt ok dag meðan hann var biskup á Íslandi, þar til hann andaðist; eru hèr ok margir hlutir samansettir af ýmissum atburðum, sem fram hafa farit á ymsum löndum, eptir því sem annálar til vísa, hverir mestan fróðleik sýna, svo ok eru margir hlutir inn settir af biskupum ok öðrum veraldar höfðíngjum, sem samtíða hafa verit þessi frásögn; ok þó at þat verði nokkut ónytsamligt starf, saman at setja þvílíka hluti, sem birtast ok auðsýnast má í þessu máli, er

1) Prentað eptir skinnbókinni AM. 406 a. 4to., og er sú merkt *A*; skinnbókin AM. 180 c. folio, merkt *B*, er höfð til samanburðar og til að fylla 4 blöð, þau er vantar í *A*. Frá þessum tveim skinnbókum eru öll pappírshandrit komin. Í 406 a. eru enn fremr tvö skinnblöð, hèr merkt *C*. Til samanburðar er og hafðr annáll sira Einars Hafliðasonar, merktr *Ann.* (AM. 420. 4to). Frá kap. 22 og út er *B* ólík *A* að orðfæri, og er því prentuð í Viðbæti.

2) [ því at sá sem þessa sögu hefir saman sett var (var ek, *B*), *A*, *B*.

3) var, *B*; hèr kann að hafa staðið: „síðan var *mèr* kunnigt, s. d. var".

þó verra at heyra ok gaman henda at sögum heiðinna manna. Nú gefi guð þeim velferð til lífs ok sálu, sem með góðgirnd ok þolinmæði til hlýða, en þeir taki verðuga ombun, sem með öfund ok umlestri af færa ok vanvirða.

2. Faðir Laurentius biskups hèt Kálfr, hann var systurson sæmiligs kennimanns, sira Þórarins, er kaggi var kallaðr, hverr hèlt staðinn á Völlum í Svarfaðardal. Sira Þórarinn kaggi var klerkr góðr ok hinn mesti nytsemdamaðr til letrs ok bókagjörða, sem enn mega auðsýnast margar bækr, sem hann hefir skrifat Hólakirkju ok svo Vallastað. Gaf sira Þórarinn fátækum frændum sínum mikit góz, ok setti mörg kristfè í mörgum jörðum um Svarfaðardal ok svo annars staðar, þó at sum af þeim sè nú ekki ræktuð[1] ok með gleymsku vanræktuð. Móðir Laurentius hèt Þorgríma Einarsdóttir; taldi hún ætt sína ok svo Laurentius sína til prests sem Illugi hèt, [en öðru[2] nafni Ilarius, sem segir í sögu Jóns Hólabiskups at einn varð til at gefa upp sína eignarjörð, landit at Hólum í Hjaltadal, at hinn heilagi Jón biskup skyldi þar biskupsstól setja, sem síðan hefir haldizt; fór sá sami Ilarius síðan í Vestrhóp til Breiðabólstaðar, ok hvílir hans líkami þar, en öndin með guði í eilífum fagnaði. Bar þat ok svo til síðan, þá er Laurentius var mest fyrirlagðr af sínum óvinum ok sviptr öllu sínu gózi, at hans kærasti vinr, sira Hafliði, veitti þessi góðu konu Þorgrímu allt til dauðadags, ok hennar líkami hvílir ok í sögðum stað á Breiðabólstað, ok Laurentius gaf þangat til kirkjunnar firir hennar sál messuklæði þau sæmiligustu sem þar eru. Marga merkiliga drauma dreymdi þessa Þorgrímu, þá er hún gekk með Laurentium; munum vèr einn setja af þessum: Hana dreym[d]i at hún þóttist vera komin til Hólastaðar einnhvern hátíðisdag, er mikil sókn var til staðarins; þóttist hún varla inn komast í kirkjudyrnar fyrir mannaþröng. Þá þótti henni einn merkiligr maðr ganga úr kirkjunni ok taka í hönd henni, ok leiddi hana innar fyrir háaltarit, ok þessi maðr seldi henni í hönd hina hægri nokkut hart í einum línklút, svo mælandi til hennar: „þetta skaltu eiga, Þorgríma, ok geyma vandliga". Þá hvarf þessi maðr frá henni, en hún þóttist þenna grip sýna sira Þórarni á Völlum, frænda sínum,

1) *B*; sumar — — ræktaðar, *A*. 2) [ *B*; öllu, *A*.

ok leysti klútinn, ok var þar *í stórt biskups innsigli með þeim* inngreftri sem biskups líkneskja er á, ok þóttist hún geyma síðan, ok þótti vænt um.

3. Þá er þau Kálfr ok Þorgríma bjuggu í Efra-Ási í Hjaltadal, var Þorgrímu langt yfir liðit þat er tími var henni barn at fæða; bauð sira Þórarinn Þorgrímu mágkonu sinni norðr heim á Völlu til sín. Tók henni at þýngja, svo at hún gat varla borit sik, ok fyrir Laurentiusmessu tók hún sótt; lá hún á gólfi ok gat eigi fædt; var heitið fyrir henni mörgu, ok skipaðist henni eigi viðr. Á Laurentius messudag fyrir messu gekk sira Þórarinn inn til hennar, ok söng yfir henni, ok með guðs vilja fæddi hún sveinbarn; sá engi maðr meðr þessu barni lífsmark. Þá hèt sira Þórarinn, at þessi piltr skyldi Laurentius heita, ok ef hinn heilagi Laurentius gæfi þessum pilti líf, skyldi hann æfinliga vatnfasta fyrir Laurentiusmessu, ef hann hefði aldr til ok heilsu. Ok eptir þetta heit staðfest ok uppsagt af sira Þórarni, sást lífsmark þegar með piltinum; var þá sveinninn skírðr með Laurentius nafni. Fylldi hann þat heit er hann var megandi maðr, svo síðan hann var biskup á Hólum hèlt hann hátíðliga[1] Laurentiusmessu, sjálfr fyrirsýngjandi í messu, haldandi veizludag, ok gjörandi margar ölmusur á þann sama dag.

Þat gjörðist þá tíðinda í öðrum löndum á þeim misserum sem Laurentius var fæddr, at þá andaðist Hákon erkibiskup í Niðarósi ok júnkære Ólafr. Karl konúngr at Púli var krossaðr til Jórsala ok Hlöðver Frakkakonúngr bróðir hans. Þá birtist Marie Magdalena ok lögð í skrín *ad sanctum Maximinum.* — Á öðru ári aldrs Laurentii var vígðr herra Jón til erkibiskups til Niðaróss. Sigraðr Konráðr af Karli konúngi [út við Arams[2], hann flýði til Benevent ok þar hálshöggvinn. Þá andaðist Gizurr jarl ok Sigvarðr biskup í Skálholti ok Gauti biskup af Færeyjum. — Á þriðja [ári] aldrs Laurentii játuðu Íslendíngar þegngildi Magnúsi konúngi. Vígðr Árni biskup til Skálholts ok Erlendr til Færeyja. — Á fjórða ári aldrs Laurentii tóku Íslendíngar viðr lögum Magnús konúngs. Hlöðver konúngr skattgildi Karl konúng. Þessir konúngar týndust af eitri, því er í brunna var kastað: Sultan af Tunis, Theobaldus konúngr af Navare. Jakob fór til Jórsala. Andaðist Margrèt drottníng

1) festifliga, *B.* 2) [ b. v. *Ann.*

ok Pètr biskup af Björgvin. — Á v. ári aldrs Laurentii: kórónaðr Philippus Frakkakonúngr. Kómu norræn lög í land. — Á vj. ári [aldrs] Laurentii: var páfalaust um fjögr ár firirfarandi. Var Clemens páfi næst eptir Urbanum. — Á vij. ári aldrs Laurentii varð Gregorius páfi hinn sètti með því nafni. Magnús konúngr ok Valdimar Svíakonúngr fundust. Jörundr biskup fór utan, en þeir Árni biskup, Rafn ok Þorvarðr kómu út; vóru þá kærur um staðamál. Andaðist Heinrekr Englakonúngr. — Á átta ári aldrs Laurentii hafði Gregorius páfi þíng í Leons ok bætti trú Grikkja; þá andaðist Jacobus erkibiskup af Lund í Danmörk. Játvarðr Englakonúngr kórónaðr. Jón erkibiskup kom í land; kom einn hlutr af þyrniskórónu drottins vors Jesu Christi, er Magnúsi konúngi var sent af Philippus konúngi af Franz. — Á níunda ári aldrs Laurentii kom Eirekr son Birgis hertoga af Danmörk með liði, ok stríddi við Valdemar [bræðr sinn[1] með styrk Magnús hertoga bræðr þeirra, ok flýði Valdimar konúngr í Noreg. Þá kom svo mikit hagl úr skýjum Lafranzvökudag sumum stöðum í þrændalögum, at haglsteinar stærstu stóðu xv aura[2]. — Á x. ári aldrs Laurentii andaðist Gregorius páfi ok Innocentius páfi [ok] Adrianus páfi; hann var eigi prestr, ok hèt Octobonus, hann var mestháttar af *cardinalibus*. Var Johannes páfi XX*us* *primus*. Gaf Magnús konúngr í Túnsbergi jarlsnafn Magnúsi, syni Magnús jarls af Orkneyjum.

Nú þó at vèr hafim getið þeirra hluta, sem vèr uppbyrjuðum, var Laurentius ýmist með Þórarni presti frænda sínum á Völlum, eðr með feðr sínum ok móður, þar sem þau áttu búnað, ok var honum þá kennt; birtist skjótt, at hann var fúss til at nema gott.

4. Sá atburðr gjörðist einn tíma á Völlum, at kennslupiltar gjörðu sukk í kirkjunni þar á Völlum; varð svo, at nokkut þat sem Laurentius kastaði kom á líkneski vorrar frú, ok brotnaði af laufit af ríkisvendi þeim er hún hèlt á. Ok svo sem sira Þórarinn kom til kirkju um kveldit, sögðu piltarnir honum, hvat Laurentius hafði hent; varð hann mjök styggr með, heitandi honum húðláti ok barsmíð hinn næsta dag eptir. Svo sem Laurentius vissi at þetta mundi fram koma sem honum var heitið, leitaði hann þangat fulltíngs sem nóg var til, kastar sèr niðr á gólfit fyrir

1) [ *Ann.*; ok bróður hans, *A.* 2) í þrændalögum, b. v. *A.*

líkneski vorrar frú með tárum, ok biðr sèr hjálpar ok fyrirlátníngar af henni, ok einkanliga, at hugr frænda hans mýkist nokkut til hans. Um morgininn eptir kallar þórarinn prestr Laurentius frænda sinn, spyrjandi, hvort hann hefði nokkuru heitið, at hann skyldi eigi vera barðr. Hann sagðist heitið hafa á Maríu drottníngu. „þat grunar mik," sagði sira þórarinn, „því at mèr var svo vitrað í nátt, at vor frú vildi, at ek berði þik ekki hèr fyrir, en ek skyldi láta bæta þat sem þú hefir brotið." Mátti á slíku marka, at hans ákall ok bænir mundi guði síðar meir þægiligar ok hans sætu móður, er svo var á barns aldri.

Eptir fráfall ok andlát sira þórarins fèkk Kálfi svo mikils, at hann gat varla borit sik, ok sálaðist nokkru síðar; vóru eptir litlir peníngar ok óhægir, höfðu þau þorgríma þó búit lengi á löndum staðarins á Hólum. Bauð herra Jörundr biskup piltinum Laurentius heim til sín á Hólastað, ok setti hann til bóknáms; sagðist hann þat hyggja, at þessi piltr Laurentius mundi fá mikit hugvit til bóknæmis ok fræði. Fór svo vetr frá vetri, at Laurentius þróaðist til bókvits ok klerkdóms, at hann var fremstr af öllum skólaklerkum hans jafnöldrum. Var sira Óblauðr Hallvarðsson þá skólameistari; lagði hann svo góðan þokka til þessa únga manns Laurentius, at hann lèt [hann] jafnan vera í skóla ok spyrja aðra klerka, þá er hann var í samsæti ok drykkju hjá herra Jörundi biskupi; var sira Óblauðr áðrnefndr náskyldr herra biskupi, ok hafði hann áðr verit utan ok harðla kærr erkibiskupi í Niðarósi, en herra Jörundr biskup elskaði mjök sira Óblauð frænda sinn. Optsinnis þá er aðrir klerkar vóru at leikum ok öðru gáleysi, þá var Laurentius at námi sínu ok studera í bókum eða kenna öðrum. Á þessu lèk öðrum klerkum mikil öfund, segjandi, at þar færi biskupsefni, ok höfðu mjök í kallzi ok dáruskap viðr hann; en hann fylgdi æ því framar at sínu námi[1]. Vígslur hans fóru fram eptir setníngu ok skipan, ok því fljótara sem hann var betr kunnandi en aðrir. Ok svo sem hann var vígðr [*infra sacrum officium*[2] var hann skipaðr heim at Hólum ok var hann þar djákni. Svo sem Laurentius hafði ij vetr ok xx, var hann vígðr til prests af herra Jörundi biskupi; hèlt hann þá skóla. Svo gjörðist hann þá

---

1) hèr vanta fjögur blöð í 406. 2) [ leiðr.; inn fra sacroff, *B*.

framr í klerkdómi at dikta ok versa, at hann gjörði svo skjótt vers, sem maðr talaði skjótast latínu.

5. Víkjum vær enn aptr til þeirra hluta, sem fram fóru hèr á landi ok annars staðar: — Á xj. ári aldrs Laurentii: Andlát Johannis páfa. Magnús konúngr gaf lendum mönnum barónanöfn. Gjörðist Hrafn riddari. Gjörðu þeir Magnús konúngr ok Jón erkibiskup æfinliga skipan millum kirkjunnar ok krúnunnar, ok staðfestu með sínum brèfum ok innsiglum. — Á xij. ári aldrs Laurentii: krafði Magnús konúngr leiðangr til Elfar. Sættust þeir Árni biskup ok Jörundr biskup. Bein [Odds Þórarinssonar[1] vóru flutt til kirkju í Skálholti. — Á næsta ári þar eptir faranda fóru biskupar Jörundr ok Ár[n]i utan. [Hrafn kom út ok Loðinn af Bakka með lögsögn[2]. [Andlát] Vermundar ábóta á Þíngeyrum. — Á því eptirfaranda ári: [Andlát] Nicholai páfa; þá andaðist ok Magnús konúngr Hákonarson. Eirekr konúngr kórónaðr. Útkoma Jörundar biskups ok Árna biskups, Loðins lepps ok Jóns lögmanns með nýja lögbók. Vígðr Bjarni ábóti til Þíngeyra. — Á næsta ári var vígðr Martinus páfi. Utanför Loðins lepps, Eirekr Noregskonúngr fèkk Margrètu drottníngar, dóttur Alexandri Skotakonúngs. — Þá enn á næsta ári brunnu bæir í Niðarósi. Andaðist herra Jón erkibiskup austr í Skörum. Á sama ári varð hann landflótta af Noregi. — Þá enn á næsta ári eptirfaranda kom út herra Hrafn ok herra Erlendr lögmaðr, ok hófu tilkall til erfðastaða á Íslandi. Þá fór mikil sótt yfir Ísland. — Þá enn á því ári næsta hófst ófriðr á milli Hrafns ok Árna biskups ok þeirra manna sem á staði settust. Fjárfellir, ok dóu margir menn af sulti á Íslandi, ok auðn margra bæja. — Þá enn á næsta ári var gefit jarls nafn herra Álfi ok Auðunni hestakorn. — Þá enn á næsta ári sendi Eirekr konúngr sira Guðmund Hallsson til Íslands, at krefja menn í leiðangr. Sá sami Guðmundr fór út með klæði þat, sem Eirekr konúngr gaf hinum heilaga Jóni biskupi á Hólum. Kom þat svo til, at Eirekr konúngr fór til konúngastefnu ok byrjaði honum eigi; var á marga helga menn heitið, ok gaf eigi at heldr. Þá kom sira Guðmundr til konúngsins: „heitið, minn herra," [segir hann], „á hinn heilaga Jón Hólabiskup, hann er mjök skjótr í áheitum, ok gefit honum pellsklæði yðr hinu beztu." — „Svo

1) [ Oz Þorgrímssonar, *B.* 2) [ v. í *Ann.*

skal vera, sira," sagði konúngrinn, „ok sýni hann þat, at hann sè nú eigi seinlátr, sem Íslendíngar eru vanir." Þá fèll í logn; bað sira Guðmundr þegar upp draga seglit; þá kom þegar blásandi byr ok hagstæðr; kom konúngrinn fram á fjórum dægrum í þá höfn sem hann kaus, ok heiðraði jafnan síðan hinn heilaga Jón Hólabiskup. En af klæðinu vóru gjörvar á Hólum dalmatikur. — Þá enn á eptirfaranda ári kom Jörundr erkibiskupsefni til Niðaróss. Drepinn Hallkell krækidanz. Varð Álfr landflótti ok útlægr. Þá andaðist ok Íngibjörg drottníng.

6. Þá á því ári eptirfaranda kom Jörundr biskup út, ok herra Þorvarðr; var þá Laurentius vígðr til prests, sem fyrr gátum vær, ok hafði hann þá tvo vetr ok xx. Var hann þar prestr um iij ár ok var skólameistari. En þá er hann var hálfþrítogr, gaf herra Jörundr biskup Lafranzi *beneficium* norðr á Hálsi í [F]njóskadal; var hann þar eitt ár; gaf hann þá upp staðinn, þvíat honum vildi lítt til fjár í búnaðinum; var honum þá enn skipat aptr til Hóla. — Á öðru ári prestdóms sira Lafranz gjörðist þat til tíðinda, at Eirekr konúngr sendi Hrólf til Íslands, at leita Nýjalands. Jörundr Hólabiskup fór um sýslu Árna biskups at heimta aptr staði, at ráði Jörundar erkibiskups. — Á næsta ári eptirfaranda fór Jörundr biskup utan, ok var ij vetr í Noregi; var þá sira Halldór Grímsson *officialis* yfir Hóla biskupsdæmi, en sira Hafliði Steinsson ráðsmaðr á Hólum; var sira Hafliði hinn mesti forsjámaðr til veraldar ráða; hafði sira Hafliði áðr verit burt til Noregis, ok var kapelluprestr Eireks konúngs ok drottníngarinnar um nokkur ár. Lögðu[1] þeir Laurentius ok sira Hafliði vináttu ok hinn mesta kompánaskap sín á meðal, sem Laurentius vottaði optsinnis síðan, at hann hefði honum verit traustastr maðr í vináttu. — Á þriðja ári prestdóms Laurentii krafði Hrólfr um Ísland menn til Nýjalands-ferðar. Þá hófst missætti millum Jörundar erkibiskups ok kórsbræðra í Niðarósi. — Á næsta ári eptirfaranda: útkvoma herra Jörundar biskups ok Árna biskups, herra Þórðar, Kristifori ok margra annarra með konúngsbrèfum. Hóf[u]st þá at nýju staðamál. Settist Sigurðr úr Hlíð á Möðruvöllu í Hörgárdal, ok þóttist eiga at halda jörðina at erfðum. Þetta mislíkaði herra Jörundi biskupi, ok gjörði honum margar áminníngar, ok gekk hann eigi af

1) sögðu, *A*.

jörðunni því heldr en áðr. Kom þá svo, at hann var búinn at bannsetja hann. [Hann] bauð þá sira Laurentio at fara norðr til Möðruvalla með bannsetníngar brèf, hvert hann skyldi upp lesa fyrir Sigurði, ef hann vildi eigi af ganga staðnum; hafði Laurentius þessa ferð svo mæðiliga, at hann gekk norðr um Hèðinsskarð ok einn maðr með honum; kom hann til Möðruvalla ok talaði við Sigurð bónda, birtandi honum: ef hann vildi eigi hlýðnast ok ganga til sætta, mundi hann mæta þýngra áfelli. Tók Sigurðr þúngliga orðum Laurentii, segjandi sik ekki hirða hvat hann segði. Næsta dag þann, sem hátíð bar á, las sira Laurentius brèf biskups eptir guðspjall í messu, svo hátt ok skýrt, at Sigurðr ok allir, þeir er í kirkjunni vóru, heyrðu. Vóru þau brèf svo látandi, at Jörundr biskup lýsti banni yfir Sigurði, boðandi hann af samneyti kristinna manna. Fèkk Laurentius af Sigurði ok hans mönnum mörg atyrði ok hótanarorð, svo viðr því var búit, at honum mundi varla óhætt at ganga út af kirkjunni. Eptir þat brá Sigurðr bóndi þegar við, ok fór vestr til Hóla með fjölmenni. Talaði Sigurðr hart í fystu, at biskupi mundi eigi hlýða at þýngja svo konúngsins þegnum, eptirspyrjandi, hvort biskupinn meðkenndist, at hann hefði svo boðit Lafranzi presti fram fara. En biskupinn sagði hann öðruvís gjört hafa en hann hafði boðit honum. Kom svo, at þeir biskup ok Sigurðr sættust; lagði biskup Sigurði peninga, en kirkjan ok biskupinn skyldu hafa síðan frjálsan staðinn. Kom þá sira Laurentius aptr, ok var Sigurðr í burt riðinn af Hólum, ok fèkk Laurentius af þessi ferð mæðu ok erfiði: meinyrði ok óvináttu af Sigurði, en litla blíðu af biskupi. Var þetta undirrót til sundrþykkis millum Jörundar biskups ok Laurentii, því at Laurentius þóttist fá hit mesta aptrkast af því sendiboði, sem hann þóttist dyggliga gjöra, ok fyrir þat fýstist hann at fara burt af Íslandi, þvíat hann þóttist litla blíðu hafa af herra Jörundi biskupi; vóru ok mjök frændr biskups til áleitni við Laurentium.

7. Á næsta sumri eptir fardaga kom út herra Pètr af Eiði á Knerrinum; var honum skipat af konúnginum allr Norðlendíngafjórðúngr til sýslu; bauð herra Jörundr biskup honum til Hóla, ok sat hann þar um vetrinn; kom sira Laurentius sèr í kærleika ok vináttu viðr herra Pètr; rèð hann sèr ok far með honum at sumrinu; talaði hann ok spurði margra hluta hann með skemtan. Einn tíma spurði Laurentius herra Pètr: hversu þeir

menn' væri í vexti eðr yfirbragði, sem illr væri sjór. „Ýmisliga er þat," sagði Pètr, „segir ek þèr þar ekki meira af at sinni." Um sumarit eptir reið sira Laurentius suðr í Skálholt; er þat merkjanda, at herra Árni biskup Þorláksson, sem þar var þá stjórnandi, tók Laurentium svo merkiliga, at hann skipaði honum sèr hit næsta. Undruðust þat margir menn, at hann skipaði fátækum presti sess fyrir framandi mönnum; en biskupinn sagði þar koma mundu, at hann mundi eigi hinn síðasta sess hafa; sagði ok þat eigi rangt, at setja þá framarr, sem meira fagnat kunna. Kallaði herra biskup Laurentium síðan í sitt studium, ok setti fram fyrir hann lectara ok þar á kirkju-lögbækr; bað hann þar skemta sèr viðr. *Laurentius talaði þá til biskupsins*: „Minn góði herra, guð omboni yðr fyrir yðvart lítilæti, sem þèr sýnit á mèr fátækum ok ókunnum." Biskupinn svaraði: „Ef þú hefir eigi áðr fullnumit kirkjunnar lög, skaltú nú þat iðna hèðan af; muntu ok margar þrautir þola verða, áðr þínir dagar eru endaðir." Sagði svo Laurentius, at hann þóttist á tveim mönnum hafa sèð heilags manns yfirbragð einkanligt: á Árna biskupi Þorlákssyni ok Bjarna ábóta á Þíngeyrum. Skildust þeir Árni biskup ok Laurentius með vináttu. Fór Laurentius þat sama sumar utan á Gáseyri meðr herra Petro áðrnefndum, at fengnu áðr orlofi af Jörundi biskupi. Svo sem þeir kvómu í sjó, hafði Laurentius mikla pínu af sjósótt. Þá kom herra Pètr til hans ok mælti með kallzi: „Þú, prestr, spurðir mik í vetr á Hólum, hversu þeir menn væri í skapan, sem illr væri sjórinn; nú mun ek úr leysa þinni spurníngu: sá er gráleitr ok þunnleitr sem þú ert, sira Lafranz." Hafði Laurentius nú tvífalda pínu, af gabbi herra Pètrs ok í sjóverkinum. Byrjaði þeim vel, ok tóku Noreg með heilu ok höldnu. — Þat gjörðist til tíðinda á þeim misserum, at landskjálfti mikill varð á Íslandi fyrir sunnan fyrir Gregoriusmessu, svo at hús fèllu niðr í nokkurum stöðum. Ófriðr [í Róma[1] ok drepnir menn í Pètrskirkju.

8. Nú er þar til at taka, at herra Pètr ok sira Laurentius kvómu til Noregs; sat þá Eirekr konúngr í B[j]örgvin. Tók konúngrinn herra Pètr með mesta blíðskap, þvíat hann var kærr vin konúngsins. Vakti herra Pètr bónorð viðr skylda fræn[d]konu konúngsins; var hún austr í Vík; beid[d]ist hann, at

1) getg.; nama, *B.*

konúngrinn skrifaði henni til. Bað hann herra Pètr láta skrifa ok dikta brèfit, en sagðist mundu gefa fyrir innsiglit. Þá kallaði herra Pètr Laurentium til sín, ok bað hann dikta ok skrifa þetta brèf á latínu, sem hann kunni bezt. Sira Lafranz mæltist undan, sagðist ekki færr til þessa: „en þó at ek sè lítt til færr at gjöra þetta, þá em ek þó", sagði hann, „skyldugr at gjöra hvat þèr vilit". Næsta dag eptir sýndi hann herra Pètri brèfit, skrifat ok diktat. Gekk herra Pètr þá til konúngsins með brèfit ok sýndi honum. Konúngrinn lofaði mjök letr ok diktan brèfsins, eptir spyrjandi, hverr gjört hefði. Hann svarar honum, at íslenzkr prestr einn hafði gjört, hvern hann flutti af Íslandi. Konúngrinn bað hann segja honum prestinum, at hann veri í boði hans um daginn; gjörði ok Laurentius svo; var honum skipat at sitja fyrir öðrum boðsmönnum; [át konúngrinn ok drakk til hans um daginn[1]. Annan dag eptir kom konúngsins smásveinn til sira Laurentii, ok sagði honum at konúngrinn kallaði hann. Hann gekk til konúngsins í hans málstofu ok gaf honum góðan dag. Konúngrinn tók honum blíðliga, ok spurði hvort hann veri sá prestr, sem herra Pètri hafði diktað brèfið. Hann segir svo vera mundu. Konúngrinn sagði honum til reiðu at vera í sinni þjónustu. Sira Laurentius þakkaði konúnginum sitt boð, en segist hafa lofat sinni pílagrímsferð til sancte Ólafs í Niðarós. — „Kom til vor", segir konúngrinn, „sem þú ferr aptr, en ver í boði voru um jól ok allar hátíðir, ok þá tíma sem þèr líkar". Var hann ok um vetrinn í höllinni með konúnginum, en stundum uppá kost herra Pètrs. Vóru þá með konúngi Eireki margir mikilsháttar menn af ýmisum löndum, þeir sem margs vóru kunnandi, millum hverra var einn maðr, Þrándr fisiler at nafni, ok kunni mart klókt at leika, meir með náttúrligri list en með nokkurs kyns galdr; var hann flæmskr at kyni. Viðr þenna mann lagði sira Laurentius kærleika; sagði hann honum marga hluti, þvíat hann fór mjök eptir at nema fróðleik meðan hann var úngr, en fór þó aldri með galdr eðr forneskju. Í jólum lèk Þrándr fisiler herbrest; hann verðr svo skjallr, at fáir einir menn standast at heyra hann; með konum leysist burðr, þeim sem með barni eru ok heyra hann, en karlmenn falla úr sætum á gólf niðr,

1) [ drakk konúngrinn til hans eitt stórt vinker, 404 (á spázíu).

eðr verða ýmislig viðbrögð. Segir Þrándr Laurentio, at hann skyldi stínga fíngrum í eyru sèr þá er brestrinn yrði. Stóðust margir eigi í höllinni, sem hann gjörði brestinn. Sýndi Þrándr Laurentio hvat til þurfti at hafa at gjöra brestinn, en þat eru iiij hlutir: eldr, brennisteinn, bókfell ok strý. En menn gjöra til þess herbrest opt í stríði, at þeir sem ekki[1] vita vonir í, flýja víðsvegar.

9. Um vorit eptir fór Laurentius norðr til Þrándheims; sat Jörundr erkibiskup þar; var missætti mikit millum kórsbræðra ok hans. Jörundr erkibiskup var mikill höfðíngi, klerkr góðr, vinfastr ok stórgjöfull við sína menn; manna sæmiligastr at sjá til hans. Var þá kominn fyrir litlu klerkr einn mikill, Jón flæmíngi; hafði hann lengi til París staðit ok í Orliens at *studium*, var hann svo mikill juristi, at enginn var þá í Noregi hans *líki*; hafði ok erkibiskupinn þar við at styðjast sem hann var, þvíat allir mestháttar kórsbræðr vóru honum mótstaðligir. Appelleruðu þeir iðuliga til páfans, ok fengu brèf mörg af páfagarði erkibiskupi til þúnga; vildi ok erkibiskupinn gjarna fá klerka hvar sem hann kunni. Mátti því Jón flæmíngi miðr gagna erkibiskupi í deilum þeirra kórsbræðra, at hann kunni ekki norrænu at tala, ok skildi alþýðan ekki mál hans, því at hann talaði allt á latínu, fransisku eðr flæmsku. Í þenna tíma kom sira Laurentius til Þrándheims; beiddist hann orlofs at tala með Jörund erkibiskup; ok at því fengnu, sýndi hann honum orlofsbrèf af Jörundi biskupi á Hólum, hvert [er] birti, at hann gaf sira Laurentio orlof til erkibiskups, um svo langan tíma, sem honum líkaði hann hjá sèr at hafa; varð erkibiskupinn mjök glaðr við þetta, svo talandi: „mikla þökk kunnum vèr Jörundi biskupi fyrir þat, er hann sendi þik til vor; skaltú vera guði velkominn með oss; en kom til vor á morgin ok sýn oss letr þitt ok ef þú kannt nokkut at dikta". Næsta dag eptir kom sira Laurentius til erkibiskups, haldandi á einni rollu. Erkibiskupinn leit á ok lofaði letrið ok mælti: „les fyrir oss þat er þú hefir diktað". Hann las þar af vers, er hann hafði gjört til frú Hallberu abbadísar at Stað. „Er hún góð kona?" sagði erkibiskupinn, „er þú hefir svo lofat hana". — „Þat halda menn satt á Íslandi", sagði Laurentius. „Legg af hèðan af

1) Hèr vantar 1 blað í *B*, og er tekið eptir AM. 404. 4to (afskript af *B*).

versagjörð", sagði erkibiskupinn, „ok studera heldr í kirkjunnar lögum, eðr veiztu eigi *quod*: „*versificatura, nihil est nisi falsa figura*". — „Vita munu þèr ok, [sagði Laurentius], *quod*: „*versificatura nihil est nisi maxima cura*". Þá lèt erkibiskupinn kalla Jón flæmíngja, ok mælti til hans: „þenna mann, sira Laurentium, felum vèr þèr á hendi, bjóðandi, at þú leggir alla stund á at kenna honum kirkjunnar lög; skulum vèr þèr þat góðu launa. Eðr hvar fyrir berr þú rauð klæði?" sagði hann til sira Laurentius, „þar sem þau eru klerkum fyrirboðin at bera". — „Því", sagði hann, „at ek hefi engin önnur til". Þá mælti hann við einn sinn svein hljótt; gekk sá burt, ok kom inn litlu síðar með brún klæði sæmilig, er erkibiskupinn hafði sjálfr borit. Hann mælti þá til Laurentii: „ber þessi klæði hátíðisdaga en tak í hjá ráðsmanni vorum á garðinum peninga til at kaupa yðr með blátt klæði, at bera dagliga, en gefit þessi rauðu klæði yðrum sveini; sitið til borðs á ráðsmanns stóli, hjá Jóni flæmíngja".

10. Þat er nú at segja, at sira Laurentius er kominn til Jörundar erkibiskups, ok gekk dagliga til *studium* at læra kirkjunnar lög, þess í milli at erkibiskupinn sendi hann at gjöra sín boð í deilum þeirra kórsbræðra, sem þá stóð[u] yfir; varð Laurentius skjótt hinn kærasti erkibiskupinum, því at honum virðist hann vitr ok ráðugr, en einarðr ok snjallr í framburðinum. Um vetrinn eptirfaranda í langaföstu, *in dominica Lætare Jerusalem*, lèt erkibiskupinn kalla Laurentium í kapellu sína um messu. „Meðr því", sagði hann, „at nú er merkiligr sunnudagr, viljum vèr gefa yðr Ólafs kirkju hèr í býnum, þvíat hún er nú laus". Laurentius þakkaði honum fyrir alla velgjörð sèr veitta. Má af slíku marka, hvílíkan kærleika erkibiskupinn hafði til hans, er hann minntist sjálfr á at veita honum kirkjuna óbeðit, en margir vildu þiggja hana.

Á þessum árum, sem nú hefir verit frá sagt, var vígðr Adrianus *heremita* til páfa *Sancti spiritus* dag, ok kallaðr Celestinus; þar vóru hjáverandi X líkþráir menn, ok fengu allir fulla heilsu með guðs miskunn. Celestinus var eigi allt til Jónsvöku ok resigneraði *papatui*[1], aptr farandi í sína einsetu. Þá var kosinn ok vígðr einn af *cardinalibus*, Benedictus, ok kallaðr Bonifacius. Eirekr Danakonúngr ok hertogi Christoforus tóku

---

1) b. v. *Ann.*

erkibiskup af Lund, ok köstuðu í myrkvastofu. [Danmörk í banni[1]. Jörundr biskup á Hólum setti kanúkaklaustr á Möðruvöllum í Hörgárdal. Þá andaðist Ljótr ábóti á Múnka-Þverá. Þá var hvalrekstr hinn mikli fyrir norðan land á Íslandi. Þenna tíma setti ok Jörundr biskup systraklaustr at Stað í Reynisnesi. — Ári síðar skipaði Jörundr biskup Teit prior á Möðruvöllu. Fór bólnasótt mikil um Ísland. Sóru xij bændr kirkjueignir í Skálholts biskupsdæmi.

11. Nú er þar til at taka, at Laurentius var með Jörundi erkibiskupi í Niðarósi, ok studeraði jafnan í kirkjunnar lögum, er meistari Jóhannes flæmíngi las honum; vóru þeir ok miklir vinir sín í millum. Laurentio þótti mikil skemtan, at hann brauzt við at tala norrænu, en komst þó lítt at. Einn tíma mælti Jón flæmíngi við Laurentium: „ek vildi, at þú flyttir við minn herra, at hann veitti mèr Maríukirkju hèr í býnum, því at hún er nú *vacans*". Laurentius svarar: „hversu má þat vera, þar sem þèr kunnit ekki norrænu at tala". — „Kann ek, sem mèr þarfar", sagði Jón, „ok þat sem mèr liggr á at tala". — „Skipum nú þá", sagði Laurentius, „sem kominn sè föstuinngangr; þá verðr at tala fyrir sóknarfólki yðru, hversu þat skal halda langaföstuna". — „Á þenna máta", sagði Jón flæmíngi: „nú er komin lentin, hvern mann kristin komi til kirkju, gjöri sína skrip[t]in, kasti burt konu sinni, maki enginn sukk — *nonne sufficit domine?*". Þá hló Laurentius ok mælti: „ekki skilr fólkit hvat *lentin* er". Sagði hann erkibiskupi, ok gjörðu þeir at mikit gaman, en fengu Jóni nokkurn afdeilíng sinnar beiðslu, þvíat hann var mjök bráðlyndr, ef eigi var svo gjört sem hann vildi.

12. Einn tíma kómu mörg Íslandsför til Þrándheims, ok vóru á margir íslenzkir menn; vildi sira Laurentius þeim öllum nokkut til góða gjöra. Þar kom millum annarra sá maðr, er Klængr steypir hèt, ok frændi Laurentii, ok honum heimuligr. En sem Jón flæmíngi sá þat, vildi hann gjöra honum nokkut athvarf, ok talaði einn tíma við Laurentium á latínu, ok mælti: „kennit mèr at heilsa á þenna yðar kompán uppá norrænu". Laurentio þótti mikit gaman at Jóni, ok sagði: „heilsaðu honum svo: fagnaðarlaus, kompán!". — „Ek undirstend", sagði Jón, „at þetta mun vera fögr heilsan, því *gaudium* er fögnuðr, en *laus* er lof"; gengr síðan at Klængi steypi, klapp-

1) [ b. v. á spázíu í 404 með annari hendi.

andi honum á hans herðar, ok mælti: „fagnaðarlaus kompán!". Hinn hvesti augun í móti, ok þótti heilsanin eigi vera svo fögr sem hinn ætlaði. Nú mælti Jón flæmíngi við Laurentium: „ek forstend nú, at þú hefir dárat mik, því at þessi maðr varð reiðr við mik". Jón flæmíngi hafði sèr lagskonu, svo ljóta ok leiðinliga, at varla fannst ferligri ásjóna, en sú sem hún bar. Sira Laurentius sagði meistara Jóni einn tíma, hvar fyrir hann vildi hafa svo forljóta konu í bland við sik. Jón svarar: „ek er bráðlyndr maðr, ok þyldi ek eigi vel, ef nokkurr ginnti mína þjónustukonu frá mèr, ok því tók ek þessa, at ek veit hennar girnist enginn".

13. Þat er nú sagt, at missætti Jörundar erkibiskups ok kórsbræðra gekk svo í vöxt, at þat snerist upp í fullt hatr; vóru þessir fremstir í mótgangi við hann: Sighvatr landi ok sira Eilífr, er síðan varð erkibiskup í Niðarósi, ok sira Auðunn rauðr, er síðan varð biskup at Hólum á Íslandi. Appelleruðu þeir til Bonifacium páfa; kom svo, at Jörundr erkibiskup var stefndr til páfans; fór ok Jörundr erkibiskup ok kom út í Paris; tók hann þar sótt, ok fór eigi lengra; gjörði hann þaðan[1] sendiboð til páfans, fèkk hann þá aptr sinn heiðr. Var hann þá í burtu eitt ár, kom hann þá aptr til Niðaróss. Þenna tíma var Laurentius í Niðarósi, ok hafði Ólafskirkju, sem vèr fyrri gátum; varð hann feginn er erkibiskupinn kom heim aptr; skipaði erkibiskupinn sira Laurentio þá at geyma offrs þess, er gafst hinum heilaga Ólafi konúngi, ok at vera *pœnitentiarius*; lagði erkibiskupinn þá enn meiri metorð á hann en áðr, því honum þótti hann hafa róskliga framgengit í hans erendum ok kirkjunnar á meðan hann var burtu.

Á því ári sálaðist Árni biskup Þorláksson, ok [var] jarðaðr at Múnklífi í Björgvin. Á næsta ári eptirfaranda andaðist konúngr Eirekr Magnússon *sexto idus Julii.* Gefit Hákoni bróður hans konúngs nafn, ok kórónaðr í Þrándheimi af Jörundi erkibiskupi með konúngsvígslu; kómu þar þá allir hinir fremstu menn í Noregi, ok víða annarsstaðar af löndum; mátti þar sjá hinn mesta múg sem verða kunni á Norðrlöndum; var á engu at ganga utan af Eyrum ok fram til Kristskirkju utan á dúnklæðum, pelli ok baldikinn[2]. Veitti Hákon konúngr

1) þangat, 404. 2) baldurskinni, 404; hèr byrjar aptr *A.*

ágæta veizlu ok gaf mörg *privilegia* ok rèttarbætr heilagri kirkju; þá gjörði[1] Hákon konúngr þá erkibiskupinn ok kórsbræðr sátta, þó at þat hèldist stuttan tíma, þvíat þegar Hákon konúngr var í burt úr býnum, hófst upp hin sama deila ok þræta sem áðr þeirra á meðal; stóð þat þá enn um eitt ár; fór erkibiskupinn þá fram í móti þeim fyrst með áminníngum, ok vildu [þeir] eigi hlýðnast. Bundust þá [í með þeim[2] allr bæjarlýðr, skólinn allr ok ábótinn or Hólmi. Kom þá svo, at enginn lærðra manna þorði eða vildi framberа nokkurn erkibiskupsins boðskap, þann sem kórsbræðrum var í móti.

14. Einn dag lèt erkibiskupinn kalla Laurentium til sín, svo segjandi: „hèr er brèf, er Jón [flæmíngi] hefir gjört eptir voru boði, þetta brèf skalt þú upp lesa yfir kór í Kristskirkju[3] á morgin, þvíat þá er mikill hátíðisdagr". Laurentius svarar: „dýrt er drottins orð; skal ek þat gjöra ok fram bera sem þèr vilit, meðan ek er í yðarri þjónustu; en veit ek, at svo lítt sem kórsbræðrum líkar til mín áðr, mun þat þó áaukast". Um morgininn eptir svo sem í hámessu, sem kórsbræðr vóru í kór, ok þá varði minnst, gekk sira Laurentius upp á kór eptir boði erkibiskups ok las brèf: „*Rumor pestiferus*"; var í brèfinu því sá skilníngr haldandi, at fyrir margar sakir ok stórar, er hann ánefndi, boðaði hann bannsetta kórsbræðr: Eilíf, Auðun rauð, Sighvat landa; skyldi ok niðr falla messuembætti, ef þeir gengi eigi frá. Las Laurentius svo hátt ok snjallt, at þeir heyrðu gjörla. Þá svaraði Sighvatr landi[4], svo segjandi: „eigi þarftú, Íslendíngr, svo hátt at æpa, því vèr heyrum hvat þú segir". Gengu þeir allir heim í sín herbergi. Frá þeim degi mátti sira Laurentius aldri út ganga svo at honum væri óhætt fyrir kórsbræðrum.

Á þessu ári gjörðist þat til tíðinda á Íslandi, at eldr kom upp úr Heklufelli, með svo miklu afli, at fjallit rifnaði, svo at sjá mun mega meðan Ísland er bygt. Í þeim eldi lèku laus björg stór, sem kol á afli, svo at í þeirra samkomu urðu brestir svo stórir, at heyrði norðr um land ok víða annarsstaðar. Þaðan sló vikr svo mikil [á bæinn[5] í Næfraholti, at brann þak af húsum. Vindr var af landsuðri, [sá er[6]

1) hèr byrjar aptr *B*. 2) *B*; [ ok með, *A*. 3) *B*; kirkjunni, *A*.
4) *B*; enn til, *A*. 5) [ b. v. *Ann*. 6) [ *Ann*.; svo at, *A*.

bar norðr yfir landit sand[1] svo þykkvan[2] á meðal Vatnsskarðs ok Óxarfjarðarheiðar, með svo miklu myrkri, at engi maðr vissi hvort var nótt eða dagr, úti eða inni, meðan niðr rigndi sandinum á jörðina, ok huldi svo alla jörðina af sandinum. Annan dag eptir fauk svo sandrinn, at menn fátu trautt leiða[r] sinna[r] í sumum stöðum. þessa tvo daga þorðu menn eigi á sjó at róa fyrir myrkri fyrir norðan land. þetta gjörðist iijo[3] *idus* Julii. Á þeim tíma kom upp eldr í Sikiley, ok brenndi ij biskupsdæmi. *Item* sèttu nátt jóla varð landskjálfti svo mikill fyrir sunnan land, at jörðin skalf víða. [Fèll bær í Skarði hinu eystra; þar í kirkjunni var mikill málmpottr festr viðr brúnásinn kirkjunnar, honum barði svo viðr ráfit kirkjunnar[4] af skjálftanum, at pottinn braut; kistur tvær stóðu í andyrinu í Næfrholti, þeim barði saman svo af landskjálftanum, at [báðar] brotnuðu í smán mola; ok votta svo allir annálar, at þá [var liðit[5] frá híngatburð vors herra Jesú Christi í heiminn ok þar til x hundruð ok iij hundruð ára.

15. Nú er þar til at taka at fyr var frá horfit, at sira Laurentio voru margar umsátir veittar. Einn tíma bar svo til, at skólaklerkar hlupu at honum úti, ok vildu fanga hann; ok síðan hann sá þat, tók hann til fóta, ok hljóp upp til Kristskirkju, gat hann tekit í hurðarhrínginn kirkjunnar. þá hlupu þeir eptir honum; var þá allt senn, at þeir rifu af honum kyrtilinn, ok ætluðu at grípa hann í burt af kirkjunni, [ok] sveinar erkibiskups kómu at hjálpa honum, þvíat hann kallaði til bjargar sèr. Einn tíma bar ok svo til, at ein mikilsháttar hústrú í býnum í Ólafs kirkju sókn [andaðist]; vóru súngnar sálutíðir, sem siðvani var til; vóru þar blys með kertum; söng sira Laurentius sálutíðirnar með sínum kompánum. þar kvómu skólaklerkar margir saman, ok gripu vaxblysin með kertunum; hafði hann eigi afl til at verja, því þeir vóru yfirsterkari. Sendi erkibiskupinn honum sveina sína um morgininn eptir, svo hann gat súngit messuna ok niðr sett líkamann. Svo [margar meingjörðir, athlátr ok[6] mótgang þoldi sira Laurentius síðan hann las brèfit yfir kórsbræðrum áðrnefnt, af skólaklerkum ok öllum þeirra kompánum, [at] langt er at tína ok telja. Nú er þat at segja, at

1) b. v. *Ann.* 2) at, b. v. *A*, *B*, *Ann.* 3) *Ann.*, *B*; mánud., *A*.
4) [ *B*; svo at kirkjunnar rauf, *A*. 5) [ liðit var, *A*.
6) [ *B*; margir menn gjörðu athlátri, *A*.

Jörundr erkibiskup var í mikilli blíðu herra Hákonar konúngs; skrifaði erkibiskupinn til hans, birtandi honum, hvílík þýngsl [ok óróa[1] kórsbræðr gjörði honum, biðjandi, at hann sjálfr mundi til koma, ok typta þá með konúngligu valdi. Gjörði ok svo herra Hákon konúngr, at hann kom til þrándheims með miklu fjölmenni lærðra ok leik[r]a, ok setti þíng, bjóðandi erkibiskupinum ok kórsbræðrum, þeim sem í mótgangi vóru við hann, ok öllum framandi mönnum í býnum, þar koma. Var þíngit sett í sumarhallinni. Var með Hákoni konúngi mikilsháttar meistari, er Áki hèt, ok hafði verit í útlöndum at *studium*, snjallr ok framr [klerkr]; var hann til fenginn af konúngsins álfu at tala; var settr fyrir hann stóll[2]; stóð hann framm[i] fyrir hásæti konúngsins; var svo skipat, at konúngrinn ok erkibiskup sátu báðir saman, en út af konúnginum riddarar ok mestháttar menn ríkisins, en út af erkibiskupinum lýðbiskupar ok ábótar, ok kórsbræðr út af þeim; prestar ok alþýðisfólk sátu á gólfi; var þar þá sira Lafranz meðal annarra kompána erkibiskups. Gjörði herra Áki *signum* til at fólkit skyldi til hlýða, kallandi með hárri röddu. Tók hann fyrst at tala snjalla latínu, segjandi, hversu höfðíngjum hæfði fram fara, bæði í andligum ok veraldligum völdum; gekk sú hans tala lengi; þá sneri hann tölunni, framberandi með skýrum ok snjöllum norrænu orðum, þat efni haldandi, hversu undirmönnum hæfði at halda hlýðni við sína formenn, eigi at eins við góða eðr rèttláta, heldr jafnvel við þá, sem flekkóttir eru í sínum framferðum, sem Páll postuli segir, birtandi, hversu þúngr glæpr var at hafa samblástr í móti sínum formönnum, jafnandi þat við skúrgoða villu. Tók þá at harðna tala hans, segjandi ljósliga, hversu mikla óhæfu þeir kórsbræðr höfðu í ratað, at veita mótgang sínum herra erkibiskupinum, segjandi ljósliga, at þeir vóru pínandi líkamliga, ok at *brachium seculare* átti at þeim at ganga með konúngs sverði ok valdi; [ok svo[3] talaði þessi maðr [snjallt ok[4] hart, at mörgum skaut skelk í bríngu af þeim kórsbræðrum ok þeirra fylgjorum.

16. Eptir tölu herra Áka stóð Hákon konúngr upp, ok talaði [bæði með latínu ok norrænu[5], ok svo kom at síðustu, at hann

1) [ b. v. *B.* 2) einn lectari, *B.* 3) [ svo ok, *A.*
4) [ b. v. *B.* 5) [ fyrst latínu ok síðan norrænu, *B.*

sagði tvo kosti fyrir höndum, annattveggja: at kórsbræðr þeir, sem áðr vóru í bann lýstir af erkibiskupi, skyldu annattveggja vera útlagir af [Noregi ok öllu[1] hans ríki, ok allir þeirra fylgjarar, eðr falla fram í stað fyrir erkibiskupinn, ok leggja öll sín mál á hans vald, með konúngsins ok frömustu manna ráði, ok út ná þó at sinni með öngu móti af því sama herbergi ókvantaðir, nema þeir gjörði svo þegar í stað eptir konúngs boði. Nú svo sem kórsbræðr sá, hvílíkr[2] voði var fyrir dyrum, stóðu þeir þegar upp, fram fallandi fyrir erkibiskupinn, leggjandi öll sín mál á hans vald. Næsta dag eptir var upp sagt sáttmáli milli erkibiskups ok kórsbræðra; játuðu þá hvorir öðrum ok þeirra mönnum friði ok náðum. Hèlzt þessi sátt um tvö ár alldyggliga; var sira Laurentius nú í friði ok náðum, vel haldinn með Jörundi erkibiskupi, ok var *pœnitentiarius* ok [settr til] at geyma offr hins heilaga Ólafs.

Viljum vèr þat eigi láta um líða at birta ok frá segja, hvat gjörðist í öðrum löndum tíðenda á þessum árum. Svo er sagt at einn ríkr höfðíngi strídda á sjálfa *Roma*; síðan gjörði hann sætt viðr Bonifacium páfa, svo at hann fèkk systurdóttur páfans; en herra páfinn vann þat til friðar heilagri kristni, at hann veitti sjálfr brullaup þeirra, ok lofaði at eta kjöt á pálmsunnudag, en hann fyrirbauð, at nokkur maðr skyldi slíkt gjöra at hans dæmum. Á því ári andaðist Bárðr kanceler. Á því ári kom út herra Álfr or Króki; honum vóru skipaðir tveir fjórðúngar á Íslandi, Norðlendíngafjórðúngr ok Austfirðíngafjórðúngr. Þá kom út til Íslands Loðinn lögmaðr með konúngsbrèf. Ári öðru eptirfaranda var hengdr Auðunn hestakorn ok brennd Margrèt, er kallaðist vera dóttir Eireks konúngs, [ok bóndi hennar[3]. Comete var sèn af kaupmönnum í hafi um Mikelsmessuskeið; sýndist þeim hún [meiri ok[4] dökkvari en aðrar stjörnur, ok var á kleppr niðr, ok fór hún hvern aptan, er þeir sá hana, öfugt, frá landnorðri til norðrs. Var fyrir sunnan land ok sèn cometa [hálfan mánuð[5] nær vetrnáttum. Cometa var ok sèn í Björgvin móti langaföstu, en í Róm fyrir páska. Herra Jörundr biskup á Hólum lèt hefja söng at nýju kirkjunni á Möðruvöllum í Hörgárdal, er hann hafði gjöra látið. [6]Krók-

1) [ b. v. *B.* 2) þvílíkr, *A.* 3) [ b. v. *B.* 4) [ *Ann.*; vera, *A.*
5) [ *B*, *Ann.*; hálfum mánuði, *A.* 6) þá, b. v. *A.*

Álfr kom til Noregis ok sagði Hákoni konúngi margar nýjúngar af Íslandi. Á því ári eptirfaranda, sem nú var greint, andaðist Bonifacius páfi; vígðr Benedictus páfi, þá var ok vígðr Árni biskup Helgason til Skálholts. Þuríðr Árnadóttir af Borgundi kenndi sira Laurentio pilt, er Árni hèt; átti sú sama kona síðar[1] pilt með sira Salomone, er Bárðr hèt. — Á því ári næsta eptirfaranda andaðist Benedictus páfi, en vígðr Clemens páfi.

17. Þá kom út til Íslands Álfr or Króki, hann hafði mörg konúngsbrèf ok margar nýjúngar; fór hann meðr því[2] yfir landit; hann kallaði marga góða bændr útlaga. Gjörðu menn at honum för á Hegraness þíngi, ok svo á Oddeyrar þíngi. Varð hann svo hræddr á Hegraness þíngi, at hann vissi varla hvar hann átti at hafa sik; börðu strákar ok lausamenn á skjöldu, ok með ópi ok háreysti; varð hans hjálp þat, at þeir drápu hann ekki, at herra Þórðr af Möðruvöllum ok aðrir herrar lètu bera skjöldu upp fyrir hann. Maðr er nefndr Bergr rindill, hann var bóndi, ok mikill angrgapi; var hann ok fremstr af öllum leysíngum at sækja at Álfi á Hegraness þíngi. Ok svo sem herra Jörundr biskup tók skyldugistíng at Hofi á Höfðaströnd, svo sem herra Jörundr biskup var yfir borði um kveldit, kom í stofuna inn gangandi áðrnefndr Bergr rindill, ok fleygði sèr niðr fyrir fætr biskupi, svo segjandi: „allt á guðs valdi ok yðru, herra biskup!". Jörundr biskup spurði: „hvat stendr þik, Bergr"! sagði biskup. „Ek hefi ratað í hörmuligan glæp", sagði Bergr; „ek drap í dag á Hegraness þíngi Krók-Álf". Biskup spurði þá: „hversu vannt þú at Álfi?" — „Ek, herra, lagði Álf í gegnum með spjóti; býð ek mik nú til þeirrar skriptar, sem þèr vilit á mik leggja". — „Stattú upp, Bergr", sagði biskup, „því at missýnzt hefir þèr, Bergr", sagði biskup, „þvíat eigi hefir þú drepit Krók-Álf, ok lifir hann enn; ok far upp undir borð ok tak til matar, eigi mun ek forðast at samneyta þèr, þvíat engi manndrápari ertú". — „Mun þèr þat kunnigra, en mèr, biskup? því at þó hafa enn aukizt vandræðin; drap [ek] enn annan mann", sagði Bergr. „Þegi þú", sagði biskup, „ok ljúg engri heimsku á þik, þvíat þat vita menn áðr at þú ert engi ofrhugi, ok eigi reyndr í orrostum eða bardögum, heldr hyggjum vèr þik hverj-

1) b. v. *B*. 2) þíng, *B*.

um manni blauðara, ef karlmennsku þarf at þreyta". Nú sem þeir biskup ok Bergr áttu þetta at tala, kómu menn í stofuna, þeir sem á þínginu höfðu verit um daginn, ok sögðu at Álfr lifði, ok var í ferð herra Þórðar, ok ætlaði norðr yfir heiði. En þegar sem Bergr sá, at menn kómu inn í stofuna, tók hann til fóta, ok hljóp til kirkju, ok innar í kórinn ok undir tjald, ok leyndist þar, allt þar til er biskup kom til kirkju; gat hann þá svo talat kjark í Berg, at hann gekk með öðrum mönnum. Þótti hann jafnan [síðan] heimskari maðr en áðr; en þat prófaðist allt sannindi, sem Jörundr biskup hafði sagt, þvíat þat var sannliga talat til Jörundar biskups, at hann var hverjum manni vitrari ok glöggvari[1] um alla hluti, sem þá vóru á Íslandi, meðan hans dagar vóru uppi. Fór Krók-Álfr norðr í Dynhaga, ok var þar um vetrinn fram yfir jól; tók hann þá sótt, ok andaðist or þeirri, ok liggr á Möðruvöllum í Hörgárdal. Var þat flutt Hákoni konúngi, at Íslendíngar hefði drepit Álf; urðu þar margir eiðum fyrir at standa.

18. En nú er þár til at taka er frá var horfit, at sira Laurentius var í Þrándheimi í Niðarósi með Jörundi erkibiskupi vel haldinn, sem fyr var sagt; var þó mörgum mikil öfund á, svo framt sem hann var tekinn af erkibiskupi. Einn dag var þat, at erkibiskupinn hafði *capitulum* með kórsbræðrum ok öðrum framandi klerkum, sem þá hjá honum vóru; tjáðu [þeir] fyrir honum, at honum byrjaði at senda *visitatorem* út til Íslands; fluttu þeir fyrir erkibiskupinum, at þar væri bezt til fallinn sira Lafranz, því hann var góðr klerkr [ok] barnalinn á Íslandi. Erkibiskup var þessum flutníngi samþykkr, kallandi sira Laurentium til sín, birtandi honum, at hann vildi senda hann til Íslands í *visitationem* með erkibiskups valdi, bað hann koma til sín næsta dag eptir ok svo gjörði hann. Talaði erkibiskupinn þat sama til Laurentii, at hann vildi senda hann til Íslands, en sira Laurentius svaraði svo orðum erkibiskups: „vel viti þèr, minn herra, at ek gjöri gjarnan yðarn vilja; en ek kenni mik vanfæran til þessa sakir allra hluta, en einkanliga mest þat, sem ek hefi engan vana[2] til at prèdika guðs erindi fyrir fólkinu; ok ef þèr vilit, at ek ráðimst til þessa embættis, sendit með mèr *prædicatorem* nokkurn, þann sem teli[3] fyrir fólkinu; hefir ek ok talat

---

1) glöggsærri, *B.* 2) *B*; von, *A.* 3) *B*; talaði, *A.*

með bróður Björn af prèdikara lifnaði; vill hann fara með mèr, ef þèr vilit, þó svo, at hann vill jafnfram mèr hafa *vices*, ok vera svo *in negotio* sem ek." þá talaði herra Jörundr erkibiskup: „eigi sèr þú þetta svo glöggt, sira Lafranz, sem hæfði sjálfum þèr til nytsemdar, en þú veizt vel, at vor herra segir svo, *quod*[1]: ‚*omne regnum in se divisum desolabitur*'; verðr þat ok optsinnis, at tvískipt ríki eyðist skjótliga, ok verðr sjaldan samþykkiligt sín á meðal; mun þèr ok svo gefast í þessi grein, at þessa muntú mest iðrast, at þú tekr prèdikara bróður þèr til samlags, því jafnan verða þeir eigi traustir í málaferlum, eðr í öðrum fèlagsskap." Lögðu þá til kórsbræðr, meir fyrir gráleika sakir við Lafranz en heillar tillögu, at þat skyldi hann aldri láta, at hafa bróður Björn með sèr. Stöðvast þá sú ráðagjörð, at þeir bróðir Björn ok sira Lafranz vóru skipaðir *visitatores* út til Íslands með jöfnu valdi báðir; hafði erkibiskupinn þó miklu meira kærleika með heimugleik á sira Lafranz en til bróður Bjarnar; tóku þeir báðir hinu sterkustu brèf í sín erindi til valda. Auðsýndi erkibiskup hvern kærleika hann hafði til sira Lafranz, at hann gaf honum með sínu opnu innsigli þrjá[r] *membranas*; en[2] þau brèf eru svo felld, at innsigla skal, en skrifa ekki á; skal sá, sem út er gefit, þá slíkt á skrifa sem honum líkar, ok sverja eið áðr, at hann skal ekki þat skrifa á, sem til skaða sè þeim sem út gefr eðr hans kirkju, ok þenna eið sór sira Laurentius, ok var innsiglat svo tveir trúnaðarmenn erkibiskups vóru hjá. Skrifaði ok erkibiskupinn út til biskupanna, Jörundar biskups ok Árna, kærlig brèf, at þeir væri fyrnefndum *visitatoribus* góðviljugir ok til styrktar í sínu valdi; vóru þeir síðan ráðnir í skip, þat sem til Íslands gekk; tóku *visitatores* orlof af erkibiskupinum með mikilli blíðu.

19. Nú er frá því at segja, at *visitatores* lètu í haf ok urðu vel reiðfara, ok kómu út á Eyrum sunnanlands, riðu upp í Skálholt; tók herra Árni biskup við þeim harðla sæmiliga, bjóðandi þeim sitja svo lengi þeim vel líkaði; þekktust þeir þat gjarnan. Ok svo sem kom hinn næsta dag fyrir þorláksmessu um sumarit, talaði Laurentius svo til bróður Bjarnar: „nú er sókn mikil í Skálholt um allt Ísland, ok

---

1) í guðspjallinu, *B*; que, *A*. 2) *B*; at, *A*.

skaltú, bróðir Björn, fyrir hugsa þik um *sermon* á morgin, einkanliga af dýrð hins heilaga Þorláks biskups, þvíat þat er nú viðrkvæmiligast." Þá svaraði bróðir Björn: „undarligir menn eru þèr Íslendíngar, þvíat þèr kallit þá marga heilaga menn, sem hèr hafa vaxit upp hjá yðr, ok í öðrum löndum vita [menn] engi skyn á, því er mikil dirfð yðar Íslendínga, at þèr haldit þenna mann helgan, sem erkibiskupsstóllinn í Niðarósi heldr enga minníng af; skal ek heldr í kveld, sem þeir klerkarnir ætla at fara til aptansöngs, fara upp á kór, ok fyrirbjóða biskupinum ok öllum klerkum at sýngja af þessum manni Þorláki, fyr en þat er lögtekit af vorum herra erkibiskupinum, ok öllum biskupum í *provincia Nidarosiensis ecclesie*, ok svo vil ek at þú gjörir, þvíat þú ert í valdi jöfnu ok ek." — „Hætt þú, hættú," sagði Laurentius, „ok lát eigi ofar koma þessa fólsku, þvíat þat vita allir hèr á þessu landi ok svo víða annarsstaðar, at hinn heilagi Þorlákr biskup er sannheilagr maðr, ok hann gjörði margar ágætar jartegnir ok gjörir, ok hann mun hefna þèr, ef þú bætir eigi við guð ok þennan blezaða biskup." Skildu þeir svo tali, at [sinn veginn[1] þótti hvorjum. Kallaði bróðir Björn til sín steikara sinn, ok bað hann matgjöra sèr kjöt fyrir Þorláksmessu um daginn í Skálholti. Þótti þetta mjök undarligt; var hríngt til helgihalds um kveldit; ok svo sem komit var at aptansöngs tíma, kom maðr skyndiliga til Laurentii, segjandi, at bróðir Björn bað hann koma skjótliga til sín. Hann gekk í þá stofu, sem hann var í; sá hann bróður Björn liggja í sæng sinni, stynjandi með sjúkligu andvarpi. Talaði þá bróðir Björn til Laurentii: „hvat skal ek at gjöra, kompán, at ek em orðinn fyrir svo þúngu áfelli, at svo stíngr mik í hjartað, at mèr þykir líkara, ef svo [lætr] um tíma, at ek mun skjótt deyja." — „Eigi er þat undarligt," sagði Laurentius, „þó at þèr beri þetta til, því þú talaðir mjök óvitrliga í morgin, misgrunandi heilagleik þessa ágæta guðs vinar hins heilaga Þorláks biskups, er skín mörgum ágætum jartegnum, ok svo [sem] menn vita at hann er miskunsamr við þá sem til hans kalla, svo er hann ok mjök hefnisamr þeim sem í móti honum brjóta; at því gafst einum dára í Englandi, at hann þóttist gjöra til háðúngar ok spotts viðr hinn heilaga Þorlák biskup, [takandi eitt mörbjúga,

1) [ sinn sinn, *A*; sinn siginn, *B*.

framberandi fyrir líkneski þorláks biskups[1], þessum orðum talandi: ‚viltú, mörlandi? [2]þú ert utan af Íslandi;' fèkk sá dári svo skjóta hefnd, at sú höndin sem[3] upp hèlt mörbjúganu, varð honum stirð sem trè; varð hann þar at standa sem hann var kominn, með upprèttri hendi, þar til sem góðir menn báðu fyrir honum ok hann iðraðist síns glæps, varð hann lauss." — „Gjarnan vil ek iðrast," sagði bróðir Björn, „játandi því, [at] trúa satt vera allt þat sem af hans dýrð ok heilagleik er sagt hèðan af, ef hann vill minn krankleika bæta ok af mèr taka; þat veiti[4] guð fyrir hans árnaðarorð; skal ek ok prèdika á morgin fyrir góðu fólki af hans lofligu lífi ok jartegnum." Ok þegar sem hann hafði þessu játað, hvarf í burt af honum hans krankleiki, svo hann stóð upp alheill, prèdikaði um morgininn fagrliga fyrir fólkinu af þorláki biskupi, segjandi ljósliga ok rös[k]liga, hversu honum hafði til borit. Fèkk hinn heilagi þorlákr biskup enn af þessum atburð frægð, lof ok dýrð, sem verðugt er, í öllum hlutum.

Eptir þorláksmessu hófu *visitatores* sína *visitationem*, fyrst um Sunnlendínga fjórðúng ok Vestfirðínga fjórðúng. Skoðaði sira Laurentius mjök at embættisgjörð þeirra presta, sem lítt vóru lærðir ok kunnandi, sem margir prófuðust lítt lærðir, í miðil hverra var einn prestr, er Eilífr hèt, í Gufudal í Vestfirðínga fjórðúngi. Hann prófuðu *visitatores* á messusöng ok les, ok prófaðist svo til, at hann kunni nærri lítið í sèrhverjum þessara hluta. Þá sagði Laurentius: „prófum hann á cantikanum *Audite*[5]", ok svo gjörðu þeir; kunni hann víst eigi at lesa *Audite*. „Ekki má ek," sagði Eilífr prestr, „gjöra við því, at þèr prófit mik á því sem vandast fái þèr." — „Auðsýnt er þat," sagði Laurentius, „at sjaldan hefir þú [lesit *feriales liturgias*[6]." Tóku *visitatores* messusöng af Eilífi presti, ok allt prestligt embætti, þar til honum [væri kennt, eðr hann[7] næmi svo, at hann væri embættisfærr. Vóru þat ok nokkorir prestar fleiri, at þeir af tóku messusöng fyrir kunnáttuleysi. Visiteruðu þeir Skálholts biskupsdæmi um sumarit, ok kómu til allra klaustra ok stærri kirkna; var þeim ekki mótreist[8] veitt í Skálholts

1) [ b. v. *B*. 2) þviat, b. v. *A*. 3) *B*; hann, *A*. 4) veitti, *A*, *B*. 5) þ. e. *Audite cæli*, sjá 5. Mosb. 32. 6) [ getg.; súngit fe° litt⁵i, *A*; lesit fialiter, *B*. 7) [ *B*; var kennt áðr, *A*. 8) mótris, *B*.

biskupsdæmi, því at herra Árni biskup var maðr lítilátr ok hægr viðsæmíngar. [Kom á[1] því sumri út herra Bárðr með konúngsins brèfum ok rèttarbótum.

20. Nú er at segja frá því, at svo sem *visitatores* höfðu farit yfir Skálholts biskupsdæmi riðu þeir til Hóla, ok hittu herra Jörund biskup; tók hann við þeim altiliga[2], þó allt með meiri blíðu við bróður Birni; fann Laurentius þat skjótt. Bauð herra Jörundr biskup bróður Birni þar at sitja um vetrinn, en af boðum varð ekki við Laurentium. Þekktist bróðir Björn boð biskups, ok sat á Hólum um vetrinn. Sira Laurentius fór norðr yfir heiði, ok skildust þeir Jörundr biskup ekki með mikilli blíðu; höfðu frændmenn herra biskups allt í skaupi[3] við hann ok athlátri, brígslandi honum um sína fyrri daga, er Jörundr biskup tók hann fátækan ok lèt kenna honum, en nú þykkist hann hafa vald yfir honum ok mega af setja hann sínu biskupligu valdi með erkibiskups boðskap. Báru margir öfundarmenn fullt róg meðal þeirra. Fór Laurentius til Eyjafjarðar; bauð herra Þórðr honum at sitja hjá sèr um vetrinn, [ok þat þekktist hann, ok sat hjá honum um vetrinn[4] með einn svein. Herra Þórir[5] ábóti var þá á Múnka-Þverá.

21. Sá atburðr hafði gjörzt um vorit fyrirfaranda, at Solveig Loptsdóttir, kona Þorvalds Geirssonar, er þá bjó í Löngu-hlíð í Hörgárdal, fór til tíða til Bægisár á skírdagskveld, ok ein kona með henni; gengu þær báðar; bar svo til, at þær báðar gengu ofan í Hörgá ok drukknuðu þær; fannst síðan lík Solveigar húsfreyju, ok flutti síðan Þorvaldr Geirsson lík húsfreyju sinnar Solveigar til Múnka-Þverár, ok gaf þangat mikit offr með líkamanum; átti hún þó leg at Bægisá, bjó þar þá sá prestr sem Hildibrandr hèt, Grímsson. Fátt hafði verit miðil þeirra sira Hildibrands ok Þorvalds, svo it sama vóru ok fáleikar meðal þeirra hjónanna Þorvalds ok Solveigar; var prestr jafnan henni til hugganar með heilum tillögum. Var þat mikit góz, sem Þorvaldr lagði til Múnka-Þverár í sálugjöf eptir hana, en til Bægisár lagði hann ekki meira en xij álnir í legkaup. Kærði Hildibrandr prestr þá um vorit fyrir Jöründi biskupi, ok gjörði ekki at. Síðan fór sira Hildibrandr til sira Laurentii á Möðru-

1) [ leiðr. eptir *B*; enn á, *A*. 2) álitlega, *B*.
3) *B*; skuppi, *A*. 4) [ b. v. *B*. 5) getg.; Þórðr, *A*, *B*.

völlu í Eyjafjörð, ok kærði fyrir honum, [at hann] þóttist eiga offr ok yfirsöng[1], en líkama hennar eiga at hafa leg í kirkjugarði at Bægisá, [með því at eigi var *testamentum* hennar sjálfrar vitanda, at hún hefði kjörit sèr annarsstaðar leg, en at sóknarkirkju sinni á Bægisá[2]. Laurentius gjörði brèf með áminníngum til Þorvalds, at [hann] skipi aptr líkamanum til Bægisár, ellegar gjöri sáttmál með prest, [ok skipti svo viðr kirkjuna sem skynsamligt sè, af sálugjöf, en líkaminn hafi frjálsan gröpt á Múnka-Þverá með orlofi sira Hildibrands[3]. Þorvaldr varð fár við þetta brèf, ok sagðist aldri hirða hvat hann segði, vildi hafa yfirsögn Jörundar biskups. Síðan fór Hildibrandr til Múnka-Þverár, ok krafði líkamans, bjóðandi honum aptr til þess legstaðar, sem hann átti at hafa; síðan krafði hann *visitatores* sèr rètt af gjöra sögðu máli. Sira Laurentius áminnti þá ábóta ok bræðr, [at] gefa liðugan líkama[nn] eðr gjöra sáttmál á viðr prest. Ábóti ok bræðr svöruðu fárliga[4] ok buðu til Jörundar biskups, ok sögðust aldri sinna hvat hann segði. Síðan gjörði Laurentius brèf heima á Möðruvöllum ok fór til Múnka-Þverár, fór upp á kór einn helgan dag, leggjandi á úrskurð með opnu brèfi, at líkamr Solveigar Loptsdóttur átti leg at Bægisá, fyrirbjóðandi messuembætti at flytja þar í kirkjunni meðan líkami hennar hvílir þar í kirkjugarði. Ábóti ok bræðr báðu Laurentium gefa sèr *copiam* af úrskurðinum. Laurentius bað þá halda úrskurðinn, ok sagðist þá vilja gefa þeim *copiam*, elligar eigi; skildu þeir þá at sinni með því. Síðan skrifaði ábóti vestr til Jörundar biskups ok bróður Bjarnar; lètu þeir enn sýngja í kirkju sem áðr. Herra Jörundr biskup ok bróðir Björn skrifuðu norðr með sira Snjólfi, mest þess erindis, at þeir vildu fá láta úrskurðarbrèf Laurentii honum til ásak[a]nar, ef hann hefði skjótliga úrskurðat ok eigi laga geymt; hafði þat ok verit norðan sagt, at hefði verit lesit, ok var þat eigi sannindi. Sira Snjólfr kom til Múnka-Þverá[r] með áðrnefndum boðskap; var þá ok sent til sira Laurentii ok herra Þórðar; kómu þeir, las Snjólfr upp brèf [bróður] Bjarnar *visitatoris*, at hann gaf orlof til at sýngja í kirkju, þar til er þeir Jörundr biskup tæki á prófi á málum eptir páska. Slíkt hit sama skrif-

1) en yfirsöng ok offr þóttist hann eiga, b. v. *A*.
2) [ v. í *B*. 3) [ v. í *B*. 4) forliga, *B*.

aði Jörundr biskup. Krafði Snjólfr Laurentium at láta lesa úrskurðarbrèf sitt; ok eptir þat las Laurentius brèfit, ok sem komit var at enda brèfit, greip ábóti til brèfsins í kirkjunni ok margir menn með honum; rifu þeir í sundr brèfit, ok frá innsiglit; vóru þeir síðan dregnir ok hrundnir út af kirkjunni ok kirkjugarðinum, en engi meiri handa-tiltæki urðu þar mönnum til skaða. Var Laurentius þá svo afli borinn, at tvísýnt var, at hann mundi ei skaða af fengit, ef herra Þórðr hefði eigi honum hjálp ok styrk veittan. Var þetta upphaf til sundrþykkis með Laurentio ok Jörundi biskupi; var Snjólfr mest þá at sinni, sem optar, í mótgangi við Laurentium. Var nú kyrt fram yfir páska.

22. Eptir Jóns dag Hóla biskups riðu þeir herra Jörundr ok bróðir Björn norðr til Möðruvalla í Hörgárdal; kölluðu þeir Hildibrand prest á Bægisá til sín ok svo Þóri ábóta á Múnka-Þverá; gjörði biskup sáttmál í milli þeirra; skyldi líkami Solveigar hafa frjálsliga leg at Múnka-Þverá, en prestr var leiddr af með nokkuru litlu, þvíat þá var endir máls, at Jörundr biskup rèð [einn] öllu, við hvat mann[a] sem eiga var í Hóla biskupsdæmi, því til þrautar var þat, at allir vildu svo sitja ok standa ok alla lund vera láta sem hann vildi, þvíat hann hafði vitsmuni um alla fram til veraldar vits, en sparði eigi peninga. [At þessu sáttmáli[1] var ekki kvaddr síra Laurentius, reið hann þó til móts við þá til Möðruvalla; gjörðist þá greinir ok sundrþykki meðal þeirra bróður Bjarnar; fannst þat á, at bróðir Björn vildi allt vera láta eptir því sem Jörundr biskup vildi. Laurentius beiddi hann ok svo krafði, at þeir skyldu rækta erkibiskupsins boðskap, ok visitera kirkju frá kirkju [ok] skoða eptir málaferlum. Bróðir Björn sagðist ekki vilja rekast um óbygðir í Hóla biskupsdæmi, ok sagðist vilja fara suðr til skips, ok svo aptr til Noregs. „Þat er minn vili", sagði Laurentius, „at vit ræktim sem bezt erendi míns herra erkibiskupsins, ok visitera um allt Hóla biskupsdæmi, ok ráðum okkr síðan í skip, þat sem nú er hèr á Gáseyri, ok förum þ[ar] á til Noregs aptr í sumar". „Far sem þèr líkar!", sagði bróðir Björn, „ekki heptir þú mik af minni fyriræltlan"; ok var sú ráðagjörð þeirra Jörundar biskups reyndar, at hann skyldi fara í skip fyrir sunnan, ok koma fyrr

1) [ *B*; Af þessu samtali, *A*.

en Laurentius til Noregs, ok ófrægja framferðir Laurentii. „þá muntu vilja samþykkja, at ek einn taki upp beggja okkart starf", sagði Laurentius. — „Far með sem þèr líkar!" [sagði bróðir Björn]. Fór bróðir Björn heim aptr til Hóla með herra Jörundi, ok skildu þeir Laurentius þar; þóttist hann nú kominn í þúngt efni: ógjör öll erendi í Norðlendínga fjórðúngi; ráðgaðist hann um við vini sína, hverju nú væri fram faranda, kenndi hann alla þessa ráðagjörð Jörundi biskupi, þvíat hann vissi, at þat var hans vili at *visitatores* væri í burt sem skjótast. Ráðlögðu þeir honum fyrir norðan heiðar[1], at taka at sèr öll völd, ok visitera *sub negotio visitationis*, ok fara fram í móti Jörundi biskupi, ef hann vildi eigi hlýða boðskap erkibiskups. Skrifaði hann þá til síns kæra vinar sira Hafliða Steinssonar, eptir frèttandi, hvat hann ráðlegði honum. Skrifaði hann svo aptr til hans, at hann skyldi aptr fara í því skipi sem bróðir Björn, ok hitta svo erkibiskup ok kórsbræðr jafnfram honum[2], en bað [hann] þess mest varast, at gjöra nokkut á móti Jörundi biskupi, eðr fara því nokkru fram í móti hans vilja, segjandi, at þó at hann væri góðr klerkr, var hans þat eigi at sigra herra Jörund biskup, sakir þeirrar hamíngju ok höfðíngsskapar, sem honum fylgði, ok mætti hann sèr mestan óbata gjöra, at stríða nokkut á móti honum. Ok sem þessi boðskapr kom aptr til Laurentii, talaði hann svo: „veit ek at sira Hafliði, kompán minn, vill mèr vel, en ekki má hann þat heyra, sakir þeirrar vináttu ok elsku sem hann hefir við Jörund biskup, at nokkur maðr tali eðr gjöri í móti honum; [en ek skyldumst til[3] at gjöra boðskap míns herra erkibiskups". Tók hann þann upp sem honum varð þýngri, at vera eptir í Norðlendínga fjórðúngi, en bróðir Björn fór til Skálholts fyrst, ok síðan í skip; var hann þá gæddr af Jörundi biskupi góðum gjöfum. Skrifaði hann utan með honum til erkibiskups ok kórsbræðra.

þenna vetr, sem þá var umliðinn, bar þat til tíðinda fyrir sunnan land á Íslandi, at landskjálfti varð svo mikill, at ofan fèllu þar fyrir xviij bæir. En í Noregi gjörðist þat til nýjúnga, at herra Jörundr erkibiskup tók mikinn krankleika, á þann hátt, at hann tók fótarmein í fyrstu; síðan sló upp í búkinn. Tóku kórsbræðr til sín öll völd ok stjórn, svo í ver-

---

1) b. v. *B*. 2) *B*; öðrum, *A*. 3) [ *B*; ok verði ek, *A*.

aldligum hlutum sem andligum, svo at eigi var meir hjá honum en ij sveinar ok steikari hans; vóru nú ok út skýfðir allir þeir, sem áðr höfðu verit í vinskap hans, eða með honum staðit í málaferlum.

23. Nú er þar til at taka, sem fyr var frá horfit, at bróðir Björn var í burtu úr Hóla biskupsdæmi, en Laurentius var eptir. Var hann eggjaðr af nokkrum, at hann skyldi byrja upp *negotium visitationis*, ok svo gjörði hann; vildi engi sinna hvat hann sagði; skutu allir, þeir sem töluðu til, sínum málum til herra Jörundar [biskups], ok kom hann engri yfirferð [við]. Síðan reið hann heim til Hóla, ok krafði biskup at bjóða upp fyrir sèr gistíng á stöðum; biskup sagði[st þess eigi skyldr, sakir þess[1], at sá annarr, sem svo hár væri í valdi sem hann, var í burt úr [biskups-] dæminu. Laurentius sagði: þó at hann vildi vanrækja at visitera eðr rækta erkibiskups erindi, eðr[2] hann væri ördauðr, at hann skyldi líka vel fram fylgja erendum [sem hans var skylda til[3]. Samdi þeim biskupi ok Laurentio hèr eigi um. Síðan fór Laurentius upp á kór einn hátíðisdag, sem þá var nálægr, ok talaði af mörgum ósiðum, sem fram fór þar heima á staðnum, mest af hórdómi ok frændsemis spellum; heyrði þat til mest frændkonum biskups, Böðvarsdætrum, er menn vissu eigi, at þær hefði opinberar skriptir, föstur eða útistöður, ok svo víða annarsstaðar í Hóla biskupsdæmi, ok margt færi vanrækiliga fram; var þá þegar gjört óhljóð. Svo[4] endi hann sína tölu, [öllum heyrundum[5], at menn skyldu af lètta sínum vondum framferðum ok til batnaðar snúa. Gáfu frændkonur biskups engan gaum at áminníngum ok hans hjálpsamligum kenníngum, heldr þegar sem hann kom út af kirkjunni, eptir messuna, var honum bríxlat ok mörg háðúngarorð veitt af frændum biskups. Vóru þá margar greinir milli Jörundar biskups ok Laurentii, svo at um síðir snerist upp í fullt hatr. Sá Laurentius, at hann kom engri hirtíng áfram við fólkit, síðan biskup var honum svo mótdrægr; tók Laurentius far i Gáseyrarskipinu. Jörundr biskup sendi ok utan prest sinn einn, er Guðmundr hèt[6] Halldórsson, við miklu gózi ok presentum til erkibiskups ok kórsbræðra, ok brèfum þeim sem Laurentio vóru í móti. Gjörðist biskup

1) [ b. v. *B*. 2) áðr, *A*. 3) [ b. v. *B*.
4) hjá, *A*. 5) [ b. v. *B*. 6) heitir, *B*.

Jörundr mjök ellimóðr; var hann löngum heima; þótti honum fyrir í at hrekjast ok visitera. Hafði Laurentius nóterat upp mörg málaferli, sem mjök höfðu vanræk[i]liga fram farit ok [hann] varð víss, ok hjúskaparmál einkanliga. At síðustu, sem kaupmenn [vóru] seglbúnir, kom Laurentius til Hóla; töluðust þeir biskup þá við; las Laurentius þá upp þá alla hluti, sem hann hafði saman lesit af vanrækt ok ólögligum framferðum biskups; „vil ek ok ekki leynast fyrir yðr, herra biskup, at þessa hluti alla mun ek upp lesa fyrir erkibiskupi". Linaðist Jörundr biskup þá, svo segjandi: býð ek þèr þat, sira Laurentius, at vit leggim niðr okkur málaferli, ok skrifi sáttgjarnliga hvorr með öðrum: vèr fram með þèr til erkibiskups, en þú sker í sundr þetta brèf, sem þú hefir nú upp lesit oss til saka, ok sver þann eið, at þú skalt oss hollr ok trúr". — „Veit ek", sagði Laurentius, „at svo mikill er ríkdómr yðarr, yfirvald ok höfðíngsskapr, at þèr getið mik sigrat ok undirlagt, [en] eigi heldr ek þá eið þann, sem ek sór fyrir mínum herra erkibiskupinum, at ek skyldi honum sannindi segja af framferðum biskupanna ok málaferlum". Ok þegar sem hann hafði varla úti þessa sína tölu, spratt Jörundr biskup upp, ok náði Laurentius eigi við hann at tala, ok skildu þeir. Fór Laurentius norðr á Gáseyri, ok svo í skip; lètu kaupmenn í haf nærri Bartholomeusmessu; byrjaði þeim ekki mjök, ok vóru lengi í hafi; tóku norðr við Naumudali í fyrstu, en þó byrjaði þeim þá suðr, ok inn til Þrándheims um haustið nærri Michaelsmessu. En þat er at segja frá Birni, at hann kom til Þrándheims nærri Maríumessu síðari, kom hann með brèf ok boðskap Jörundar biskups, ok bar hann eigi af heilu söguna Lafranzi, segjandi hann hafa þau mörg brèf erkibiskups upp lesit á Íslandi, at hann kvazt eigi vita, hversu hann hafði at komizt; hlýddu kórsbræðr fullvel á þenna hans framburð; var þá þegar sú ráðagjörð gjör, at þegar sem hann kæmi fram þangat skyldi gripit hans allt góz, brèf ok skilríki, en reka hann í myrkvastofu. Hrópaði Björn hann sem hann orkaði; var þó[1] því mest trúat, sem Jörundr biskup hafði skrifat fram, til erkibiskups ok kórsbræðra.

24. Nú er at segja frá því, at Laurentius lèt flytja sik frá kaupskipinu inn til bæjarins, ok vissi ekki hvat títt var, [en þeir höfðu lagt við Hólm, ok vissu sèr eingis ótta

1) *B*; þá, *A*.

vonir[1]. Af þessu höfðu kórsbræðr þegar njósn, ok sendu sveina sína ofan á bryggjurnar með nokkura klerka; ok þegar sem Laurentius ætlaði at stíga af bátnum, ok hann stè upp á bryggjurnar, gripu klerkarnir hann, svo segjandi: „þú Lafranz, skalt fara með oss, þèr er fyrir búit herbergi þat, sem vèr skulum fylgja þèr til". Hlupu þá þegar at fjöldi vopnaðra manna; leiddu þeir hann í meðal sín í fyrstu, ok þegar hann skynjaði at hann var fangi, vildi hann viðr brjótast; gjörðu þeir ýmist at þeir drógu hann eðr báru, þó með engri vægð, þar til sem þeir kómu at myrkvastofu, sem svívirðiligast var, ok köllut var Gulskitni[2], þar var honum hrundit ok steypt niðr, var þar bæði fúlt ok kalt, ok svo myrkt, at eigi sá handa sinna skil; síðan var járnhurð læst, þeirri sem fyrir myrkvastofu var; hèlt Laurentio við óviti sem hann kom niðr á steinmúrinn; ok sem hann vitkaðist signdi hann sik, ok bað guð hjálpa sèr. Reistist hann þá upp; fann hann, at þar máttu eigi vera meir en þrír menn senn. Ekki var þar ok lífs kvikindi. Svo skjótt [var] farit at þessu, sem nú var frá sagt, at hvorki kom þessi maðr Laurentius fyrir sik orð[i] nè eiði sèr til afsak[a]nar eðr hjálpar síns máls; ok svo sem þetta var at gjört, gengu þeir til kórsbræðra, ok sögðu þeim hvar komit var; síðan sendu sömu menn út til kaupskipsins, [upp at taka[3] þat góz sem Laurentius hafði átt í skipinu; vóru kaupmenn svo haldinorðir, at þeir vildu engan hlut segja þeim, ok tóku í fyrstu til vopna, ok vildu verja, at þeir tæki þar enga rannsókn uppi. Þá tóku þeir svein hans, er hann hafði haft, ok vildu nauðga honum til at hann segði; vildi hann þat með engu móti. Vísir urðu þeir þó af einum þrænzkum kaupmannssveini hvar kistur hans vóru. Var þegar gripit ok fært í burt á biskupsgarð allt þat góz, sem hann átti, minna ok meira[4], undir vald kórsbræðra ok Niðarósskirkju: kistur brotnar upp; öll brèf ok skilríki hans vóru gripin frá honum, ok lesin fyrir kórsbræðrum. Sögðu þeir at hann hefði nokkur þau brèf, at þeir vissu eigi hvaðan þau vóru at komin, ok erkibiskup hafði ekki honum út gefit, ok þat var þó með engu móti prófat. Höfðu kórsbræðr capitula um daginn eptir sem Laurentio var inn kastað í myrkvastofu;

1) [ b. v. *B*. 2) gullkittiñ, *A* (hèr og bls. 820); gullkittni, *B*.
3) [ b. v. *B*. 4) var gripit, b. v. *A*.

kom þá engi maðr til þeirra, ok vissu menn ekki hvat þeir tracteruðu. En þat [er at segja[1] frá Laurentio, at hann var í sömu myrkvastofu ij nætr, ok bar til hans sá sem geymdi myrkvastofuna, kveld ok morgin, brauð ok lítið fleski ok súrt mungát; neytti hann þess nær ekki. Hlupu ok saman sveinar erkibiskups, sem verit höfðu, ok margir kunníngjar hans í býnum, sem verit höfðu, þá er hann var í sínum heiðri, segjandi ljósliga kórsbræðrum, at þetta vóru syrgiligir hlutir sem þeir gjörðu, at grípa manninn ok í myrkvastofu svelta, fyr en prófat væri hvat hann hefði gjört, ok eptir prófan gengi mál hans. Þeir sögðu, at þat var auðprófat, at hann hefði farit með falsbrèf [til Íslands, ok komizt at innsigli erkibiskups, ok skrifat undir brèf[2] með þeim skilníngi, sem hann vildi sjálfr sett hafa. Þá töluðu menn, hví hann skyldi eigi ná at hitta erkibiskupinn. Þeir sögðu[3] at hann væri honum svo reiðr, fyrir flutníng bróður Bjarnar ok brèf Jörundar biskups á Hólum, at hann vildi með engu móti sjá hann. Vóru þat ósannindi þeirra, því öll brèf ok boðskap tóku kórsbræðr til sín; þeir skipuðu ok öllum málum, ok stjórnuðu öllum hlutum, svo[4] veraldligum sem andligum, en erkibiskupinn lá í sínum harmkvælum, ok vóru öll ráð af honum tekin. Eilífr, sem síðan [var] kosinn til erkibiskups, var *officialis*, en sira Auðunn rauðr var einn hverr gildastr ok ríkastr ok mest metinn af öllum kórsbræðrum. Sighvatr landi var dauðr. Vóru þeir Eilífr ok Auðunn þúngastir Laurentio, þvíat hann hafði áðr lesit bannsetníngarbrèf á kór yfir þeim, því engi treystist annarr til. Sira Salamon var þá nýtekinn kórsbróðir, ok fyrir litlu kominn frá *studium*; lagði hann aldri í móti Laurentio, ok svo enn tveir aðrir, en þá vóru allir aðrir honum til mótdrægis.

25. Nú er þar til at taka, at svo sem hann hafði verit ij nætr sveltr í myrkvastofunni lètu kórsbræðr kalla hann; sátu þeir allir í bekkinn, sem vani var, en hann var settr niðr á gólf, ok fjöturr á fótum, ok var hann mjök lágt[al]aðr, því mjök hafði liðit at honum í myrkvastofunni, ok áðr hafrekinn maðr, ok því var von, at hann væri ekki mjök hátalaðr, en þó heilsaði hann upp á þá. Þá þögðu þeir við honum. Þá töluðu

---

1) [ *B*; var sagt var, *A*. 2) [ b. v. *B*. 3) honum, b. v. *A*. 4) í, b. v. *A*.

þeir: „allt æptir þú hærra, sira Lafranz, þá þú last bannsetníngar[brèf] yfir oss." — „Kunnit mik ei þess, þó at ek gjörða boðskap míns herra," sagði hann. — „Nú skal auðsýna ok opinbera", [sögðu þeir[1], „sakir þær sem [þèr eru[2] gefnar". Var þá lesit brèf þat er þeir höfðu gjört, at honum vóru gefnar tvær sakir: önnur, at hann hefði falsat brèf erkibiskups, en sú fyrri, at hann hefði sukkat gózi ok offri hins heilaga Ólafs, þá er hann hafði með at taka offrinu, ok var til skipaðr af erkibiskupinum; var honum aldri þessi sök fyr gefin, áðr hann fór til Íslands. Þá vóru lesin brèf þau, sem Jörundr biskup af Hólum hafði skrifat honum til þúnga. Var Laurentius þá eptir spurðr, hvort hann vildi meðganga þessum hlutum óþrúgaðr, ok þá skyldi þeir sinna máli hans. [Hann segir þá[3]: „í valdi yðru er nú, hversu þèr vilit skipa með mik, eðr hvort ek skal lífinu halda eðr ei, en ekki segi ek þat upp á mik, sem ekki hefi ek gjört." Þá hlupu upp nokkurir af kórsbræðrum, svo segjandi: „of lítt er hann enn prísaðr til þess; mun hann allt fleira segja, ef hann ferr aptr í Gulskitni." Þá vóru honum boðnir ij kostir: at gjöra þar í Noregi slíka skript, sem *officialis* setti honum, eða fara aptr til Íslands undir vald Jörundar biskups, ok[4] vera í haldi þar til hann færi í skip. „Þat mun ek taka, sem flestir munu sízt ætla," sagði Laurentius, „þat kýs ek," sagði hann, „at þèr sendit mik út til Íslands undir vald Jörundar biskups." Lýsti *officialis* því, at hvert þat plagg, sem hann hafði með farit, skyldi heilög Niðarósskirkja eiga[5]; var honum fengit þat herbergi, sem á var gluggr, ok hann mátti lesa við tíðir sínar, ok fengit til kostar brauð lítið ok annann rètt, ok þar með drekka mungát lítið; hafði hann fjötur á fótum um nætr; þrútnuðu upp á honum fætrnir, en skyrbjúgr hljóp í búkinn; kómu Íslendíngar jafnan til gluggsins ok töluðu við hann; báru margir menn til hans kost ok drukk, svo at hann hindraði ekki[6] þarfyrir. Þetta var sagt kórsbræðrum, ok lètu þeir járngadda utan við gluggann, svo at engi skyldi mega tala við hann. Kom sú kona til hans, er Þuríðr hèt, Árnadóttir, ok hann átti með pilt einn er Árni hèt, optsinnis til gluggsins, ok færði honum nokkut til kostar eða hjálpar, þat sem hún mátti.

---

1) [ b. v. eptir *B*. 2) [ leiðr. samkv. *B*; honum vóru, *A*.
3) [ b. v. *B*. 4) *B*; eða, *A*. 5) ok átt hefði, b. v. *A*. 6) b. v. *B*.

26. Nú svo sem hann var í þessum þrautum litu margir miskunnar augum til hans, ok sýndu honum nokkra huggan í orðum eða gjörðum. Var sama grimd þeirra kórsbræðra til hans, ok mátti þat ekki heyra, at honum væri til afsak[a]nar sinna mála. Einn tíma var svo komit, at hann hafði fengit leyfi til at koma í herberg[i] erkibiskups, sem hann lá í sjúkleika sínum, þó at óvitandum kórsbræðrum í fyrstu. Svo sem Laurentius var kominn inn í herbergit ok fjöturr á fótum, varð víst um af speorum ok njósnarmönnum kórsbræðra; var hann þá dreginn út, ok farit með ekki þyrmliga; spurði[1] erkibiskupinn, hvat harki var í herberginu; honum var sagt, at Lafranz væri kominn inn í stofuna, ok vildi hafa talat við hann, ok var í fjötrum, ok þá var honum kippt út nauðigum. Erkibiskupinn segir þá með þúngu andvarpi: „guð virði við hann, undir hvílíkum[2] þúnga hann á at standa af sínum mótstöðumönnum, ok þolir hann þetta fyrir þá dygð ok þjónustu, sem hann veitti oss; en hvat mun honum stoða at hitta oss, þar sem hvorumtveggjum okkrum eykst harmr at sjá annann; hann sèr hörmúng ok kran[k]leika á mèr, en ek sè eymd á honum.“ Þá svaraði einn þjónustumaðr erkibiskup[s]: „þat þykkir honum þúngast,“ sagði hann, „at svo er sagt honum, at þetta sè yðar skipan, at hann er svo harðliga tekinn, ok þetta sè gjört eptir yðrum boðskap.“ Þá talaði erkibiskupinn: „hví[3] munu menn slíkt tala? þat er aldri mitt boð; vita muntu þat, at svo [sem] vèr tókum þenna krankleika tóku kórsbræðr af oss öll völd, svo í andligum sem veraldligum hlutum, ok því síðr skipum vèr nokkrum hlutum eða stjórnum, at vèr ráðum eigi hvat vèr etum eðr drekkum dagliga; eru þeir þeim öllum grimmari, sem stóðu með oss, þá er vèr höfðum at standa í málaferlum við þá. Er þat nú auðsýnt, at guð bannar eigi at svo standi um tíma; en lát segja Lafranzi, at hann beri sik sem kar[l]mannligast, því at ef hann heldr lífinu, er vonligt, at guð auðsýni hvorir rèttara hafa staðit.“ Var þetta sagt Laurentio, ok var honum mikil huggan at orðum erkibiskups. Lètu kórsbræðr hafa nú ríkari var[ðh]öld en áðr á Laurentio, svo at hann mætti hvergi hrærast eðr brott komast[4].

---

1) Jörundr, b. v. *A.* 2) þvílíkum *A.* 3) því, *A.*
4) komist, *A.*

27. Allt góz Laurentii var gripit, sem vèr sögðum, upp á erkibiskups garði, en [bókum þeim[1] sem hann átti varð undan skotið; var þat gjört með klókleika á þann hátt, at ýmsir prestar eignuðu sèr af Íslandi[2], sem þá vóru í þrándheimi um vetrinn. Var Laurentius í þessu haldi um allan vetrinn, ok var þat miskunn guðs at hann hèlt lífinu, en móti náttúrligu eðli at hann tapaði eigi heilsunni. Um vorit, fjórum nóttum fyrir *festum Tiburtii et Valeriani*, sálaðist Jörundr erkibiskup; var þá kosinn til erkibiskups Eilífr, er vèr fyr gátum; var hann góðsiðugr maðr.

þat varð til tíðinda á Íslandi, sem mikil hörmúng var í, at brann kirkja í Skálholti næstu nótt fyrir Pálsmessu, svo skjótt sem menn eta mat sinn drykkjarlaust; var þá hvorki eptir aska nè kol, þvíat or lopti ofan kom eldr sá. þá andaðist Höskuldr ábóti frá þíngeyrum ok margir prestar á Íslandi: síra Gamli á Höskuldstöðum, ágætr prèdikari, ok valdi or presta ok leikmenn, [bændr góða[3]; var þat kallat manndauðavor. þá var ok veginn herra Kolbeinn Bjarnarson af Karlamagnúsi ok þorsteini. Í Noregi var drepinn Ögmundr únginndanz. Ófriðr í Noregi af hernaði Eireks Svíahertoga. Utanför herra Árna biskups af Skálholti eptir kirkjubrunann.

28. Nú er frá því at segja, at kórsbræðr lètu síra Lafranz fara á kaupskip fjötraðan, ok skrifuðu út með honum til Jörundar biskups; var hann sviptr öllu sínu gózi, utan þat sem hann vildi gjarnast hafa; vóru þat bækr hans, er á vóru lög heilagrar kirkju; varð þeim undan skotið. Lètu þeir í haf ok urðu vel reiðfara; tóku með höldnu ok heilu á Gáseyri. Brutu kaupmenn af Laurentio fjötur, þegar þeir kómu í haf, sögðu þat eigi venjuligt, at flytja menn í prísund eða fangelsi um stór höf. Skjótliga var skilat boðskap kórsbræðra [til Jörundar biskups[4], í hverjum þeir sendu síra Lafranz undir hans umdæmi, ok hversu þeir þóttust hafa tekit próf á hans málum, eptir því sagt var. Kom Laurentius heim til Hóla; [ok sem hann gekk inn í þat herbergi, sem biskup var í, fèll hann á knè, en[5] biskup stóð upp í móti honum, ok bað hann sitja hjá sèr, ok svo sat hann undir matborði; var biskup hinn [blíðasti við

1) [ bækr þær, *A*. 2) sem þá vóru af Íslandi, b. v. *A*.
3) [ b. v. *Ann*. 4) [ b. v. *B*.
5) [ *B*; ok hitti þar Jörund biskup, biðjandi hann fyrirlátningar, en, *A*.

hann[1], ok bað sira Lafranz at hvíla sik þar þrjár nætr, ok svo gjörði hann. At þeim liðnum lèt biskup kalla Laurentium í skrúðhús með kennimönnum; lèt hann þá upp lesa boðskap erkibiskupsefnis ok svo kórsbræðra. Sira Laurentius spurði þá biskupinn, hverir vegir skyldu á hans máli. „Ekki treystist ek at gefa þèr aptr messusöng fyrir þeirra framferði kórsbræðra, en ek segi þèr, at þú skalt at frjálsu fara fyrir mèr um Ísland, hvert þèr líkar, svo í Skálholts biskupsdæmi, ef þèr líkar þar niðr at koma, eðr í klaustrum; máttu ok sýna mikla nytsemd af þèr í læríngu ok kennslu, þar sem þú kannt fram at koma." — „Enginn hlutr þiki mèr svo þúngr sem sá," sagði Laurentius, „at ek skal eigi hafa messuembætti." — „Ekki fær þú þat," sagði biskup, ok stökk upp ok gekk í burt af herberginu. Eptirfarandi nátt var Laurentius á Hólum, þá dreymdi hann merkiligan draum, at hann þóttist standa upp yfir lestrakór; hann þóttist halda á einni oblátu, svo hátt upp sem þá er prestr heldr upp í messu; á þessari *oblacione* var merkt *Alpha* ok *O*. Einn prestr var þar kominn norðan um heiði, gamall, ok þó vel ok sæmiliga kunnandi, þeir lásu um morgininn eptir tíðir báðir saman. Laurentius sagði honum draum sinn. [Prestrinn mælti]: „þar sem þú vart kominn yfir kórinn hèr at Hólum, þar muntu vera settr ok yfirskipaðr þann kennimanna kór, sem hèr á Hólum er, en þar sem þú hèlt *oblacionem*, þar hafðir þú hit æðsta vald ok embætti í höndum, ok var merkt á *Alpha* ok *O*, þat þýðist upphaf ok endir: svo sem þú hafðir hèr skóla ok namt hèr í fyrstu æfi þinnar, svo mun hèr ok verða endir þinna lífdaga, í hinu hæsta valdi settr ok skipaðr". — „Hætt[ú], hættú, prestrinn minn", sagði Laurentius, „þvíat svo em ek fyrirlagðr ok niðrstiginn nú, at þat munu mínir mótstöðumenn ætla, at aldri skyli ek heiðrsmaðr verða, enda mun nokkurr annarr eiga þenna draum". Síðan fór Laurentius vestr yfir Vatnsskarð, ok var þá Guðmundr vígðr til ábóta at Þíngeyrum í stað Höskuldar móðurbróður síns; kom Laurentius þar, ok bauð at kenna þar bræðrum eða klerkum; en Guðmundr ábóti treystist þá eigi at taka við honum, þvíat svo var hermt af orðum Jörundar biskups, at hann vildi ekki at Laurentius væri norðanlands í Hóla biskupsdæmi. Þaðan fór hann til vinar síns,

1) [ *B*; kátasti, *A*.

sira Hafliða Steinssonar á Breiðabólstað í Vestrhópi; gekk sira Hafliði út í móti sira Laurentio ok tók við honum báðum höndum, ok lèt tjalda stofu sína, ok setti hann et næsta sèr, ok veitti honum svo sæmiliga sem einum biskupi. Þá töluðu heimamenn sira Hafliða, hví[1] hann gjörði sèr svo mikit at um þenna mann Lafranz, í svo mikilli óblíðu sem hann var við Jörund biskup. Þá svaraði sira Hafliði hátt, svo at allir heyrðu: „þat munu muna synir mínir ok margir aðrir, at þessi króknefrinn, sem nú sitr hèr hjá mèr, Lafranz, þann sem allir fyrirlíta nú, hann mun verða biskup á Hólum". Var sira Hafliði í mörgum hlutum forspár. Þaðan fór sira Laurentius suðr um land. Bauð Þorlákr ábóti honum austr í Ver, at kenna þar; þekktist hann þat, ok var þar um xij mánuðu, hèlt þar skóla ok kenndi mörgum klerkum ok bræðrum. [Þar kenndi hann einum fátækum klerk, er Þorlákr ábóti veitti, er Runólfr hèt; gaf sira Hafliði honum skólanafn, at hann skyldi heita amma, ok svo var hann kallaðr síðan; varð hann framr síðan ok góðr klerkr[2].

29. Þat gjörðist þá til tíðinda á þeim misserum, at þá kom Árni biskup Helgason með miklu valdi, er Hákon konúngr hafði gefit honum, ok þar með kirkjuvið, at upp skyldi reisast þar með kirkjan í Skálholti. Þá kom ok út páfa boðskapr um Jórsala gjöf. Víg Karlamagnús ok Þorsteins. [Víg Orms[3]. Bólnasótt mikil um allt Ísland ok dóu margir úngir menn. — Annat ár eptir gjörðist þat til tíðinda, at kennimanna fundr var *apud Viennam in Gallia*. Var Laurentius þá í Veri í Þykkvabæ annat árit, ok kenndi þar; kom þá enn sú vissa norðan frá Hólum, at kórsbræðrum mislíkaði at Laurentius væri vel tekinn, en honum stæði þat at vera í skriptum. Þá treystist Þorlákr ábóti eigi at halda hann. Bauð Hallr Sigurðsson honum þá til Dals [undir Eyjafjöll[4]; höfðu þeir Sigurð[r] seltjörn, faðir hans, ok Laurentius forðum í Eyjafirði verit góðir vinir. Fór Laurentius þá til Halls í Dal; var hann þar um vetrinn, ok um vorit vildi hann fara þaðan í burt, því at siðir þeirra Laurentii ok [Halls] vóru eigi líkir. Var Laurentio þá mjök áhugamikit, hvar hann mundi niðr koma. Ok einn morgin um vorit, sem Laurentius lá í sæng sinni, hann var þá mart hugsandi, mest um þat, hvar hann mundi niðr koma eða til hjálpar verða. Þá þótti honum

---

1) því, *A*. 2) [ v. í *B*. 3) [ b. v. *Ann*. 4) [ b. v. *B*.

renna á sik lèttr höfgi; honum þótti maðr ganga í herbergit þar sem hann lá, hann var í kennimanns búnaði, gekk hann þar framan at sænginni, sem hann lá í, svo til hans talandi: „satt er þat, at þú ert í miklum þrautum ok nauðum, en ek legg þat ráð til með þèr, sem til betrunar mun snúast um þitt efni, ef þú heldr því: les dagliga heilags anda tíðir, ok gleym því eigi, ok mun heilags anda miskunn hugga þik, ok leysa þína kvöl ok þraut". Ok þegar sem þessi maðr hafði þetta talat, hvarf hann burt frá honum. Ekki varð Laurentio fyrir at spyrja hann nokkurs, eða hverr hann var, þvíat þetta bar skjótliga fyrir hann, ok svo skjótliga vaknaði hann; gjörði hann guði þakkir fyrir vitrunina, [en byrjaði upp tíðahaldit[1], hèlt hann síðan þessum tíðum til dauðadags. Fám nóttum síðar en þetta gjörðist *kom brèf af Norðlendínga fjórðúngi til Laurentii*, frá Þóri ábóta af Múnka-Þverá, at hann bauð sira Lafranz norðr til sín, at kenna þar bræðrum ok klerkum um xij mánaði fyrst, ok hèr hafði hann [til] orlof Jörundar biskups; fèkk hann sèr síðan færleika norðr; kom hann til Múnka-Þverá[r], sem vèr gátum, ok tók Þórir ábóti ok bræðr líkuliga við honum, kenndi hann þar bræðrum ok klerkum.

30. *Þat gjörðist til tíðinda um sumarit, at herra Kristiforus* kom út[2], ok herra Ívarr hólmr. Andlát Evfemie drottníngar. Kómu sendiboðar herra páfans til Noregs. Á þeim misserum andaðist herra Þórðr ok herra Loptr. Á næsta vetri eptir andaðist virðuligr herra Jörundr biskup á Hólum, á Brigittar messu, þá hafði hann biskup verit vj vetr ok fjöretigir. Reist[i] hann upp ij klaustr, á Möðruvöllum ok Stað í Reyninesi; lèt hann upp smíða kirkjuna á Hólum, ok prýddi hana at klukkum ok skrúða, ok auðgaði staðinn at löndum ok eignum, gulli ok brenndu silfri, ok öðrum góðum gripum, svo sýnast mun meðan Ísland er byggt. Þat er eigi gleymanda, hversu til bar, er Laurentius frètti framferð ok andlát herra Jörundar biskups; hann var staddr *í múnkastofu á Þverá*; var þá *hríngt öllum klukkum* til sálutíða. Sem sendiboði kom frá Hólum með tíðindi, [3]stóð Laurentius upp sem aðrir skjótliga, ok með þeirri skyndíngu sinnar uppstöðu fèkk hann þann krankleika, sem aldri skildist við hann til dauðadags, en þat var smáþarmamein;

1) [ b. v. *B.* 2) andaðist herra Christophorus, *Ann.* 3) svo, b. v. *A.*

vottaði hann þetta sjálfr fyrir sínum trúnaðarmanni einum. Herra Jörundr biskup skipaði [áðr en hann andaðist[1] sira þorsteini Illugasyni, er skarðsteinn var kallaðr, *officiolatum* Hóla kirkju, en sira Koðran [Hranason] af Grenjaðarstöðum kallaðist vera *coadjutor* Jörundar biskups, skipaðr af Eilifi erkibiskupi; en meðr því at sira Koðran hafði meira gengi, ok flestir vildu svo tala ok gjöra sem hann vildi, þá tók hann öll völd í andligum hlutum í Hóla biskupsdæmi. Var Laurentius á Múnka-þverá um vetrinn; tóku þar margir mikinn þrifnað af hans læríngu. Um vorit eptir kom sira Koðran til Múnka-þverár; var honum þar fagnat sem einum biskupi. Næsta dag eptir kallaði sira Koðran marga menn lærða at sèr, [ok] tjáði fyrir þeim þau brèf, sem erkibiskupinn hafði honum út gefit, at hann skyldi vera *coadjutor* herra Jörundar, er hann var sagðr ellimóðr ok ófærr, en þat hafði sagt [verit] annarsvegar en var, því[2] Jörundr biskup mátti vel halda öllum sínum völdum fyrir færleiks sakir ok [h]rumleika, þó at hann væri gamall at ára tölu. Ok eptir upplesin brèfin, þau sem sira Koðran lèt upp lesa, skaut hann á langri tölu, eptirspyrjandi, hvat mönnum sýndist um, hvorr þeirra ætti *officialis* at vera, sira þorsteinn, sem Jörundr biskup hafði skipat, eðr hann; þóttist hann vera voldugri, sakir brèfanna þeirra sem erkibiskupinn hafði gefit honum. Hlupu þegar allir upp með einu orðferli, at hans vald væri meira, sakir þess at hann hefði af erkibiskupi, en sira þorsteinn af Jörundi biskupi. þar var inni sira Lafranz ok sat yztr af prestum. þá talaði sira Koðran: „hvat sýnist þèr, Lafranz? þú kannt vel kirkjunnar lög, seg hvat þèr sýnist lög, hvorr okkar sira þorsteins á at vera *officialis* Hóla kirkju, svo til komnu." Sira Laurentius svaraði: „hví spyri þèr, sira Koðran, slíkra hluta? farit heldr heim til Hóla ok látið kirkjunnar lagabækr segja yðr, því at þær ákveða þetta ljósliga; en kunnigt er mèr þetta mál, at þèr, sira Koðran, vórut skipaðir af erkibiskupi at vera *coadjutor* herra Jörundar biskups honum lifanda, er hann var ellimóðr; en svo sem hann fór fram af heiminum var ent hans vald í þessum heimi; svo ok eigi síðr var úti ok dautt yðvart vald [at] biskupinum dauð[um]. En meðr því at hann var heillar samvizku, er hann skipaði sira þorsteini *officiolatum*[3] ok vald í andligum hlutum yfir Hóla

---

1) [ b. v. *B.* 2) getg.; en, *A.* 3) *officialem*, *A.*

biskupsdæmi, því er þat minn skilníngr, at sú skipan á at standa, sem hann gjörði á síðustum dögum sínum." Viðr þessi orð Laurentii varð sira Koðran svo reiðr ok æfr, at hann talaði opinberliga þessi orð: „verð úti, vondr falsari! skaltu hèr ok engin lög um segja." — „Þat má ek gjöra," sagði Laurentius, „at ganga út frá yðr, en svo mun ganga meðal dýrra klerka, sem ek segir um þetta mál." Var ok svo síðan orskurðat af erkibiskupinum, sem hann frètti at sira Þorsteinn hafði átt at hafa officialisdæmi, en eigi sira Koðran. Mátti sira Laurentius aldri koma í augsýn sira Koðrani, meðan hann var at Mú[n]ka-Þverá, bauð hann ok Þóri ábóta, at hann skyldi láta hann fara þaðan í burt; fór þá sira Laurentius vestr til Þíngeyra; tók herra Guðmundr ábóti feginsamliga við honum; setti hann þar skóla; kenndi hann þar Guðmundi ábóta ok mörgum öðrum. Djákni var þar sá einn, er Egill hèt, Eyjólfs son gullsmiðs ok Þorgerðar Egilsdóttur; á þenna mann lagði Laurentius alla ástundan, at kenna latínu; kunni hann sèr vel í nyt at færa; varð hann framr til lærdóms ok *versificator* sæmiligr. Marga aðra lærði Laurentius, af hverjum vóru þessir fremstir: Þórðr son Guðmundar lögmanns; fátækr piltr, er Ólaf[r] hèt Hjaltason, honum kenndi hann svo, at [hann] varð góðr klerkr, ok var síðan skólameistari á Hólum. Sira Hafliði á Breiðabólstað kom ok undir hann syni sínum, er Einarr hèt, var hann þá x vetra; fór hann þaðan til Hóla, sem Auðunn biskup kom út, ok var allan tíma meðr hans dóttursonum á Hólum, meðan hann var þar biskup, þvíat þeir sira Hafliði ok herra Auðunn biskup vóru kærastir vinir.

31. Nú er frá því at segja, at á því sumri eptirfaranda, sem herra Jörundr biskup sálaðist, fór utan sira Þorsteinn Illugason, ok Snjólfr[1] Sumarliðason, ok kómu með tíðindum um fráfall Jörundar biskups; var þá kosinn til Hólabiskups Auðunn rauðr, sá er mesthåttar var af kórsbræðrum; var hann lengi fèhirðir Hákonar konúngs ok konúnginum kærastr af öllum kórsbræðrum. Töluðu þat margir, at því kusu þeir Auðun til biskups á Hólum á Íslandi, at þeir þóttust engan framgang fá af konúnginum meðan Auðunn var nálægr, þvíat hann var fremst heyrðr af konúnginum. Var hann vígðr til

1) Snæúlfr, *Ann.* (ávallt).

biskups á Katrínarmessu; hafði hann lengi áðr haldit kirkjuna norðr á Hálogalandi, er á þrándarnesi heitir; var hann forráðsmaðr, ríkr at auðæfum; átti Klemet bóndi dóttur hans, er Ólöf hèt, hafði hún átt áðr bónda er þorsteinn hèt; vóru synir hans ok Ólöfar: Eysteinn rauðr ok þorbergr rauðr, en Vígleikr hèt sonr Klemets bónda ok Ólöfar.

Á því ári braut Uxann, kaupskipit, á Eyri[1]. þá varð hark meðr Austmönnum ok Gizuri galla, svo at þeir lömdu hann. Var þá harðr vetr, er Jörundr biskup sálaðist, var sá vetr kallaðr hrossafellisvetr. Á næsta ári, sem Auðunn biskup var vígðr, andaðist Clemens páfi; þá var svikinn keisarinn á páskadaginn, með þeim hætti, at þá er hann hafði tekit *corpus domini*, þá var borit eitr í kalikinn er hann drakk af, ok þar af fèkk hann bana. þá kómu þeir sira þorsteinn ok sira Snjólfr út um sumarit með páfa boðskap, at gjalda tíund af öllum kirkna eignum; þeir vóru ok skipaðir *officiales* af herra Auðunni biskupi um allt Hóla biskupsdæmi, en herra Auðunn biskup var í Noregi um vetrinn.

32. Á næsta ári eptir um sumarit kom Auðunn biskup út til Íslands, kom hann út á Seleyri; reið hann norðr Sand til Hóla; vóru þar allir mestháttar prestar fyrir; var á staðnum ómetnaðarsamliga við honum tekit; var hann mjök stirðr af reið, þvíat hann var maðr gamall; höfðu þeir sira Koðran ok sira Snjólfr allt í skaupi við hann; lèt hann sèr fátt um finnast. Lèt hann flytja sunnan af Eyri timbrstokka, hvar af hann lèt smíða timbrstofuna á Hólum. Um haustið visiteraði Auðunn biskup um vestrsveitir, ok vígði kirkju at þingeyrum; var Laurentius þar þá; gaf Auðunn öngan gaum at honum í þat sinni, enda gafst Laurentius ekki fyrir honum. Vóru margir hlutir talaðir fyrir Auðunni biskupi, þeir sem ónauðsynligir vóru, en honum var ókunnigr landskapr. Ok sem hann kom heim úr *visitatione*, rak hann burt Skúla, er var ráðsmaðr, ok tók af honum allt sitt góz. Mikit missætti ok sundrlyndi gjörðist um vetrinn meðal sira Koðrans ok sira Snjólfs af annari álfu, en herra Auðunnar biskups af annari; hèldu þeir eitt báðir í móti honum; appelleruðu þeir til erkibiskups í fyrstu. Tók herra Auðunn biskup Grenja[ðar]stað af sira Koðrani; gekk Snjólfr til handa biskupi síðan, ok þá Grenja[ðar]stað.

---

1) þann. *A* (= Seleyri?).

þegar er herra biskup kom heim or *visitatione*, leitaði hann eptir, hvar bein góða Guðmundar biskups mundi vera, þvíat þat hafði svo verit vanrækt áðr, at menn vissu eigi áðr hvar þat mundi vera; var í fyrstu grafit í kórnum innar, ok fannst þar eigi, en fundust þar önnur bein í einni kistu, allt samt [sem Jörundr] biskup hafði látið um búa, þá er hann lèt gjöra nýja kirkjuna. Þá var sent eptir Kolla smið Helgasyni; vildi hann ekki fara lengi, því at meðal þeirra herra biskups var heldr fátt; þó fór hann um síðir, meir áminntr fyrir skuld Guðmundar biskups, en [at] boði Auðunnar biskups. Sagði Kolli þá, at þeim stoðaði ekki at leita í kórnum; bauð hann þá brjóta upp gólfit í framkirkjunni. Miðaði hann svo glöggt á, at þar sem hann sagði fannst kista, ok henni lauk hann upp; fannst þar í biskups bein, ok at öllu svo um búit, sem Jörundr biskup hafði sagt honum. Sýndist þar fótleggrinn brotinn, ok þar um vafit einum hreinum klút; vóru hnútarnir mjök stórir á leggnum, sem von var, eptir því sem segir í Guðmundarsögu, at brotnaði fótr hans fyrir Ströndum, þá er hann var klerkr með Íngimundi frænda sínum. Var þá kallaðr til Auðunn biskup, ok varð hann af þessu mjök feginn; lèt hann þá gjöra at nýja kistu, ok þar í leggja bein hins blezaða Guðmundar biskups. Síðan lèt herra Auðunn biskup búa um fagrliga með grind, ok færa innar í kirkjunni fyrir framan stóra kross. Gjörðist þá þegar tilsókn til staðarins ok mikil áheit um allt Ísland, ok urðu margar ágætar jarteignir. Var þat mikil gipta Auðunnar biskups, at hann lèt fyrstr Hólabiskup taka úr jörðu bein hins blezaða Guðmundar biskups; ok af hans forgöngu hefir síðan eflzt hans vegsemd ok virðíng, fyrir þá Hólabiskupa sem síðan hafa verit, allt til þessa dags. Gjörðist þá þegar um daga Auðunnar biskups mikil sókn at Guðmundardegi; söng hann sjálfr sálutíðir ok sálumessu, ok heiðraði hann í öllum [hlutum] sem hann kunni fremst. Tók herra Auðunn þetta af góðfýsi þeirri, sem guð blès honum í brjóst, ok svo enn nokkut af áeggjan Hákonar konúngs, sem hann skildist með hann, en áðr en Auðunn biskup kom til var [hans] engi minníng gjör, utan sálumessa var sögð firir honum, sem fyrir öðrum Hólabiskupum, en engi sókn, þvíat menn vissu eigi, hvar hans bein ok leg var.

Áðr en Auðunn biskup kom til var ekki haldinn upptöku-

dagr hins heilaga Jóns Hólabiskups; súngnar tíðir at eins, en ekki haldit heilagt. Fyrir þessu gekk herra Auðunn biskup, svo at um allt Hóla biskupsdæmi var boðit lögheilagt at halda, ok sýngja innan kirkju *dupp liciter*. Mátti af slíkum hlutum merkja, at Auðunn bískup var mikil[s]háttar höfðíngi. Hann hafði út með sèr grjótsmiðu, ok suðr frá staðnum í Raftahlíð fann hann rautt berg, þat lèt hann upp brjóta ok heim færa, ok telgja; lèt hann gjöra [stein]ofn í timbrstofuna, sem gjört er í Noregi, ok bera út reykinn þó at hann sæti sjálfr inni. Hann lèt ok gjöra háaltarit með grjót, ok þar holt innan, ok fyrir járnhurð, svo at þar má í geyma dýrgripi staðarins, svo at ekki sakaði fyrir eldi ok öðrum hlutum, ok allar þær gráður, sem þar sýnast í kirkjunni, ok pílára í kórnum, ok penta húfuna, ok færa innar húfuna á háaltarit; vóru þar áðr kistur ok annarr harki. Hann fèkk ok til góðan skrúða með hökli sæmiligum, er *Skarmande* var kallaðr. Biskupsherbergin öll lèt hann upp smíða, sem fásèn eru á slíku fátæka landi. Varð staðnum kostnaðarsamt við þetta uppsmíði. Yfir allt fram bar, hversu mikla gestrisni hann hafði, þvíat þó at hans mótstöðumenn deildi við hann, ok var sagt af þjónustumönnum, at tími var at ganga til borðs, talaði hann svo til sinna óvina: „gangit til borðs, ok til þess sem guð gefr; verit ekki reiðir matnum, þó at þèr sèt mèr reiðir". Sigraði hann svo optsinnis sína mótgangsmenn, svo at eptir þá gleði ok fagnað, sem hann þeim gjörði, lögðu þeir síðan allt á hans vald. Allt sitt embætti gjörði hann sæmiliga. Rödd hafði hann svo fagra, háfa ok skæra, at öllum þótti yndi í at heyra á hans söng. Bænahaldsmaðr var hann mikill, því at hann söng þriðjúng af vorrar frú psaltara, er hinn helgi Anselmus erkibiskup hefir diktað; hann vatnfastaði fyrir allar postulamessur ok Maríumessur allar, ok fyrir margar biskupamessur: fylgði hann tíðum öllum um langaföstu ok jólaföstu, en eigi dagliga, nema stærstu hátíðir.

33. Á Gregoriusmessu kómu saman á Hólum mesthátlar prestar í Hóla biskupsdæmi; lèt biskupinn niðr falla messu, er komit var fram at guðspjalli, þvíat biskupinn reiknaði Koðran í banni: var sú sök hans reiknuð, at hann hafði bræðr á Möðruvöllum látið hafa vald í veraldar ráðum; reiknaði [hann], at þat væri mikit góz at þeir höfðu eydt, síðan Jörundr biskup

andaðist, ok vildi at hann lyki þat aptr Hólastað. Þat annat, at hann hefði tekit at sèr *officialis*-embætti; þriðju sök reiknaði hann hans samblástr í móti sèr. Vóru allir prestar þá í samblástri ok mótgangi í móti honum, utan sira Hafliði af Breiðabólstað; gaf biskupinn honum góðar gjafir, en þeir Koðran skildu ósáttir. Var herra Auðunni biskupi lítt ombönaðr sá góðvili, sem hann sýndi mestháttar prestum, þvíat hann dispenseraði með sonum þeirra, þvíat hann hafði vald til þess af páfanum. Dispenseraði hann með þessum: Einari Hafliðasyni, Páli Þorsteinssyni, Þorsteini Hallssyni, Þormóði Þorkelssyni. Urðu þessir framandi menn til klerkdóms ok framkvæmdar í Hóla biskupsdæmi. Með Jóni Koðranssyni dispenseraði hann, ok varð [hann] framr maðr ok mikilsháttar prestr, sakir vitsmuna ok auðæfa.

Á því ári varð páfi Johannes *vicesimus secundus*. Árni biskup fór til Grænlands. Þá andaðist Íngjaldr biskup af Hamri. — Á öðru ári frá því sem herra Auðunn biskup kom til Íslands gjörðist mörg tíðindi: þá brann kirkja ok klaustrið allt á Möðruvöllum í Hörgárdal, með öllum klokkum ok kirkjuskrúða. Þá brann ok klaustrið í Niðarhólmi. Herra Auðunn biskup tók ok af ábótadæmi af Þóri ábóta á Mú[n]ka-Þverá. Þá gjörðist ok missætti í milli Auðunnar biskups ok Guðmundar ábóta at Þíngeyrum; [kom þat svo til í fyrstu, at Eyjólfr bóndi í Forsæludal sagði Auðunni biskupi, at kristfè þat, sem Karl hinn auðgi hafði gefit, sextigi hundraða, ok á Breiðabólstað í Vestrhópi skyldi vera, sem hann hafði sett meðr þeim ómaga sem á skyldi vera kristfènu, en Þorsteinn Hjálmsson hafði í burtu með sèr, þá er hann fór af Breiðabólstað til Þíngeyra, ok þessi sextigi hundraða kómu aldri síðan aptr til Breiðabólstaðar. Skyldaði herra Auðunn biskup sira Hafliða at heimta út fyrir kirkjuna á Breiðabólstað [þetta fè]. Sira Hafliði var tregr til þessa, þvíat hann var prófentumaðr á Þíngeyrum ok unni mikit staðnum, þó gjörði hann boðskap biskups; ok at teknum vottum ok prófi, orskurðar Auðunn biskup, at aptr skal leggjast þat fè, sem Karl hinn auðgi hafði gefit í fyrstu[1]. Í annarri grein setr Guðmundr ábóti ok bræðr kæru á Hólastað um biskupstíundir, at hinn helgi Jón, fyrsti Hólabiskup, hefði gefit Þíngeyra klaustri bisk-

1) [ v. i *B*.

upstíundir fyrir vestan Vatnsdalsá árliga til styrktar þá er hann funderaði klaustrið. Af þessum greinum appelleraði Guðmundr ábóti til erkibiskups; diktaði þessa *appellacionem* sira Lafranz, ok stóð með ábóta í öllu því sem hann orkaði. — Þenna sama vetr *in capite jejunii* varð Lafranz ok Árni son hans *professus* til múnks; hafði Árni komit fyrir tveim vetrum til föður síns, ok lèt hann kenna honum. Í föstunni var Laurentius vígðr til múnks, ok Árni son hans, af Guðmundi ábóta. Þá gekk ok til bræðralags Bergr Sokkason; hafði Laurentius áðr kennt honum at Múnka-Þverá, ok þá setti hann sik til náms af Laurentio; varð hann hinn fremsti klerkr, söngari harðla sæmiligr, ok mælskumaðr mikill, svo at hann setti saman margar sögubækr heilagra manna í norrænu máli með mikilli snild. Unnust þeir bróðir Bergr ok Laurentius með hjartaligri elsku, þvíat alla þá sem Laurentius sá at gott vildu nema, ok til góða vildu hafa sína ment, elskaði hann. Bróðir Laurentius hèlt vel reglu hins heilaga Benedicti, undir hverja hann hafði sik gefit, svo at þar var mörgum eptirlíkjanda. Eigi var hann úti reikandi, þvíat hann gekk aldri út af sínu klaustri, utan hann væri boðinn af sínum formanni ok [fyrir] stórar nauðsynjar. Þagnar tíma hèlt hann vandliga, þá talaði hann ekki, svo sem um nætr, þá er *summum silentium* var, hvorki latínu nè norrænu, en lengstum latínu þess í meðal, sem í kirkju ok *conventu*. Lítilátr ok hlýðinn var hann sínum formanni; aldri vildi hann sitja annarsstaðar en í *conventu;* þó at ábóti byði honum, baðst hann undan, ok beiddi, at aðrir bræðr skyldi sitja. Hans iðn var ekki annat en lesa, kenna ok studera í bókum. Á Árna lagði hann alla ástundan, at kenna honum latínu ok letr: varð hann hinn framasti klerkr, ok skrifari harðla sæmiligr ok *versificator*. Sannliga mátti þat segja, at fagrligt var þat klaustr, sem svo var skipat af slíkum mú[n]kum, sem þá var at Þíngeyrum.

34. Egill djákni Eyjúlfsson var vígðr til prest[s] af Auðunni biskupi á þessu ári, sem nú var frá sagt, ok var hann þá í fyrstu skipaðr skólameistari á Hólum; þótti Laurentio þat allmikit, at þeir skildu, þvíat viðr hann hafði hann lag[i]t ástsamligan kærleik. Um sumarit fór utan Guðmundr ábóti á Þingeyrum; var hann utan tvö ár; gjörði erkibiskupinn ekki at málum þeirra Auðunnar biskups, þvíat erkibiskupinn vildi

ekki at gjöra fyr en hann kæmi til annsvara. Visiteraði herra Auðunn um haustið um vestrsveitir, ok sem hann reið frá Breiðabólstað til þíngeyra, byrgðu bræðr klaustrið fyrir Auðunni biskupi; önga processio gjörðu þeir í mót honum. Matr var hans mönnum til reiðu, ok svo honum sjálfum, en ekki öl. Lèt sira Hafliði bera fram sitt öl, ok þat drakk Auðunn biskup ok hans menn. Bróðir Björn þorsteinsson var *prior* fyrir klaustrinu ok staðnum; var mart bænda komit ofan úr Vatnsdal, til þess at verja klaustrið fyrir biskupi, ef hann vildi nokkut á sækja; gjörði hann sik ekki líkligan til þess ok engi hans manna.

Á öðru ári eptirkomanda varð þat til tíðenda: þá andaðist Hákon konúngr Magnússon, Noregs konúngr. þat bar ok til tíðenda í Svíaríki, at Birgir konúngr svelti inni í einum múr tvo bræðr sína, Eirek langa hertoga ok Valdimar; átti hertogi Eirík[r] Íngibjörgu dóttur Hákonar konúngs, er síðan var kölluð hertuginna. Á því sama ári andaðist sira Hafliði Steinsson á Breiðabólstað[1], er var mikilsháttar maðr; [var hann nokkura tíma kapelluprestr Eireks konúngs, en síðan lengi ráðsmaðr at Hólum ok at þíngeyrum[2]. þá andaðist sira Koðran Ranason í Noregi. Sira Egill fèkk orlof af herra Auðunni biskupi, ok hafði ætlað at fara til Noregis í skipi því, sem var á Seleyri; í því skipi skyldi ok farit hafa sira Grímr Ófeigsson, með erendum herra Auðunnar biskups, varð þat skip aptrreka. Var sira Egill þá enn at Hólum, ok tók biskup hann í fullan kærleika við sik. Kom þá brèf út um sumarit, at utan var boðit biskupum báðum af Íslandi, ok lögmönnum báðum, herra Katli[3] þorkelssyni ok vj handgengnum, ok vj bændum frömustum. Herra Grímr þorsteinsson tók lögsögn[4], ok Erlendr bóndi frá Upsum or Svarfaðardal hafði lögsögn[5] yfir Norðlendíngafjórðúngi. þá braut kirkju í Skálholti um vetrinn fyrir þorláksmessu. Var kosinn til konúngs Magnús Eireksson, dótturson Hákonar konúngs, yfir Noreg, Svíaríki ok Gotland. Var herra Erlendr Viðkunnsson dróttseti um allt Noregis konúngs ríki, með

1) Reisti hann upp allan staðinn, kirkjuna ok heimabæinn, ok auðgaði miklu gózi; liggr hann fyrir Mariualtera i framkirkju á Breiðabólstað, b. v. *Ann.* — Í sögunni gæti verið hlaupið yfir frá *á Breiðabólstað* til *á Breiðabólstað*.

2) [ b. v. *B* (sbr. bls. 795). 3) Ketel, *A*. 4-5) lögsókn, *A*.

ráði herra Eilífs erkibiskups ok allra voldugustu[1] herra í Noregi. Var Magnús konúngr þrèvetr at áratölu. Um sumarit eptir bjóst herra Auðunn biskup til utanferðar af Gáseyri, ok varð aptrreka, ok tóku land í Húsavík; var þá sira Egill enn með honum. Sat hann heima at Hólum um vetrinn.

35. Um haustið gekk sira Egill í meðal, at þeir herra Auðunn biskup ok bróðir Laurentius skyldu sættast; leiddi sira Egill fyrir augum biskupinum, at honum var mikill styrkr at slíkum manni, sem Laurentius var. Sendi Auðunn biskup sira Egil vestr til Þíngeyra, ok reið bróðir Laurentius til Hóla með honum, ok hittust þeir, ok tók herra biskup heiðarliga við honum, játandi honum sinni vináttu, en bróðir Laurentius þar í mót sinni hlýðni; skyldi bróðir Laurentius kenna dóttursyni herra biskups, er Eysteinn hèt. Fór hann með bróður Laurentio, ok kenndi hann honum; varð hann síðan framr maðr, ok hafði lengi Maríukirkju í Þrándheimi, ok var kallaðr Eysteinn rauðr. Ókyrt var þá enn um vetrinn ok vorit í Hóla biskupsdæmi, þvíat eptir fortölum vondra manna var þat talat fyrir Auðunni biskupi, at lúkast skyldi skiptitiund af hundraði, ok þaðan af meira. Tóku lausamenn sik saman um Skagafjörð, ok höfðu flokk uppi, viljandi eigi undir ganga þetta; sátu þeir fyrir biskupi í Höfðahólum, ok var við voða búit, at þeir vildu hafa tekit biskupinn, ok lagt hendr á, utan[2] Rafn Jónsson or Glaumbæ ok margir prestar játaði því, at eptir því skyldi tíunda sem at fornu væri sett ok skipat, at þ[ur]ſfamenn einir skyldu taka þat sem minna væri en af fimm hundruðum.

Var um vetrinn mjök hart með mönnum, vóru víða hafísar ok veðrátta mjök hörð. Gekk herra Auðunn biskup fyrir um vorit, at heitið væri á páskadaginn á hinn blezaða Jón Hólabiskup, at hverr skattbóndi um Skagafjörð skyldi gefa klippíng, Hrauna á meðal, til þess at kaupa með líkneski, ok láta gjöra hinum heilaga Jóni Hólabiskupi, en Rafn bóndi Jónsson skyldi fyrir ganga at gjört yrði. Varð svo skipan á um veðráttuna, at þegar á páskadaginn fyrir hámessu datt norðanveðrit í logn, sem skrínit var út borit, en eptir hámessu var komit á sunnan, en um kveldit at aptansöng var kominn á þeyr, ok sá hèlzt allt til þess at [í burtu] var allr jökull ok snjór, ok var góðr gróði um vorit, en

1) volldughasta, *A.* 2) áðr, *B.*

hafís rak í frá. Missætti var ok í meðal Auðunnar biskups ok sira Snjólfs; tók hann af honum Grenja[ðar]stað; var sú sök, at hann vildi eigi taka klerk er biskupinn skipaði þangat; lèt biskupinn sverja, at sjö kennimanna skyld veri á Grenja[ðar]stað. Miklu fleiri sakir hafði biskupinn at tala til Snjólfs; kom svo at síðustu, at biskup setti Snjólf í et hæsta forboð, afsetjandi hann samneyti kristinna manna. Gaf Snjólfr ekki gaum at því, ok fór til Noregis.

Árni biskup af Skálholti hafði siglt um sumarit áðr til Noregis, ok sálaðist hann um vetrinn í Noregi. Var Ormr þorsteinsson *electus* til biskups í Skálholt. Um vorit, er nú var frá sagt, kom Skákin viðr Austfjörðu; braut skip þat í ísum; var þar á þórir ábóti ok Bergr Jónsson; fèkk fólk þat, sem þar var á, land með miklu vosi. Fór Bergr áðrnefndr með mörgum brèfum til Auðunnar biskups. Lèt hann þegar bregða viðr, ok sendi Berg suðr á Eyrar, at taka sèr þar far; gjörðist þat ok svo. Um sumarit á þíngi tóku leikmenn sik saman af Norðlendinga fjórðúngi, at þeir vildu undir engar nýjúngar ganga af Auðunni biskupi. Reið herra Grímr ok margir mikilsháttar leikmenn til Hóla eptir þíngit, ok töluðu við Auðun biskup; skildu þeir svo, at biskupinn linaðist ekki við þeirra orð, ok gengu þeir til handa við hann, sem hann hafði fyrir sökum áðr.

36. Um sumarit bjóst Auðunn biskup brott af Hólum með sínu föruneyti, fór sira Egill með honum. Sira þorstein Illugason skipaði hann *officialem*. Á því skipi var ok Ormr *electus* af Skálholti. Lètu þeir í haf, ok byrjaði þeim vel, ok tóku Norig. Fór herra Auðunn biskup norðr til þrán[d]heims, ok hitti hann þar Eilíf erkibiskup, ok tók hann blíðliga við honum; sat hann þar um vetrinn. — Nú er frá því at segja, at þat sama sumar, sem nú var frá sagt, kom herra Ketill þorláksson til Íslands með konúngsbrèfum. Var þá svarit landit Magnúsi konúngi. þá kom ok út herra Guðmundr ábóti af þíngeyrum, ok sira Jón Koðransson; var [hann] at Hólum um vetrinn, ok hèlt þar skóla.

Herra Auðunn biskup sat í þrándheimi ok hafði mikla jólaveizlu; endist hún allt langt yfir jól út. Erkibiskupinn var ok nokkura daga í boði hans, en jafnan kórsbræðr. Á öndverðum jólum tók herra Auðunn fótarmein; kom í fyrstu í fótinn um knèit, ok lagði verkina upp í búkinn. Læknar vóru

kallaðir, ok alls í leitað, ok þýngdi æ viðr. Svo mikil var hans hreysti, at hann sat upp hjá kompánum sínum, gleðjandi þá, svo sem hann hefði ekki mein; ok svo sem hann sá hvat honum mundi líða, kallaði hann erkibiskup ok alla fremstu menn, bjóðandi þeim enn í sína veizlu; ok eptir Maríuminni talaði hann[1] fagrliga, ok þakkaði guði ok hans sætu móður Marie firir alla þá auðlegð ok farsæld, sem guð hafði veitt honum þessa heims óverðugum, biðjandi alla menn þar nálega fyrirlátníngar, ok biðja [fyrir] sèr til guðs, segjandi ljósliga, at hann mundi innan fárra daga fram fara af heiminum. Gaf hann fyrst erkibiskupinum, kórsbræðrum ok öllum frömustum leikmönnum, þar í veizlunni saman komnum, hinar sæmiligustu gjafir; bað hann ok þess, [at] innan þriggja nátta skyldu þeir halda þá sömu samkundu ok veizlu, hvat sem liði um hans æfi. Síðan tóku menn af honum orlof, ok gekk hann burt [með] stuðníngi manna; lagðist hann þá í rekkju, ok gjörði alla skipan sína, kjósandi leg at Maríukirkju þar í býnum, meðr því at hann mátti eigi liggja at þeirri Maríukirkju, sem hann var biskup at, á Hólum á Íslandi. Ok sem hann var oleaðr, kom erkibiskupinn til hans, hann eptirspyrjandi, hverr bezt væri til fallinn á Íslandi at verða biskup á Hólum eptir hans dag. Þá svaraði Auðunn biskup: „margir sæmiligir kennimenn eru í Hóla biskupsdæmi, en því viljum vèr fyrir guði svara, at oss þykir enginn betr til fallinn biskup at vera en bróðir Lafranz at Þíngeyrum; megum vèr þetta sanna fyrir marga grein: fyrst þat, at hann hefir gefit sik guði, ok þjónat undir heilagri reglu hins heilaga Benedicti vel ok góðfúsliga, sem oss var sannliga sagt er vèr vórum á Íslandi. Í annarri grein, at hann [er] hinn mesti klerkr ok vel kunnandi til kirkjunnar laga; hann er ok einarðr ok roskinn til allra ráða, þar til sem málaferli heyrir, ok at hann muni láta eigi undan draga heilagrar kirkju valdi þann rètt, sem hún á at hafa, þvíat þess þurfa Norðlendíngar á Íslandi, at hafa þann biskup yfir sèr, sem bæði er vel lærðr, ok stjórnsamr at hirta marga þrjóska ok óhlýðna, sem þar eru." — „Kunnigt var þèr þat," sagði erkibiskup, „hversu mótstaðligr hann var okkr báðum, þá er hann var með Jörundi erkibiskupi, er hann las yfir okkr bannsetníngar brèf." Herra

1) þá, b. v. A.

Auðunn svaraði: „meira eigi þèr at meta nauðsyn heilagrar kirkju, at slíkir menn velist til stjórnar biskupligs valds, heldr en nokkura *meingjörð viðr okkr veitta*; er þat ok makligast ok rèttast fyrir guði, at ef vèr höfum í nokkrum greinum offara orðit við hann, at bæta þat með þessu; er Lafranz eigi kunnandi þess, þó at hann gjörði boðskap síns herra." Talaði herra Auðunn svo góðfúsliga um þetta efni, at hann felldi tár við, en allir lofuðu hans tal, þeir sem við vóru. Ok svo sem Auðunn biskup hafði fengit alla guðsþjónustu, andaðist [hann] *Agnetis secundo* með mikilli frægð ok góðum orðstír[1]; er leg hans í Maríukirkju í Þrándheimi. Var gjör útferð hans með hinni mestu vegsemd ok heiðri. Þá veizlu, sem hann hafði áðr haft ok haldit, æxluðu erfíngjar hans, ok buðu til mönnum at nýju, ok sneru upp í erfiveizlu. Hefir þat verit almæli manna, at eigi hafi verit af norrænum biskupum slíkr höfðíngi á Íslandi til allrar mikilmennsku, sem var Auðunn biskup.

37. Nú er frá því at segja, at eptir lítinn tíma þaðan liðinn kallaði erkibiskup saman *capitulum*, ok tracteraði með þeim um biskupskosníng til Hóla kirkju; var Eilífr erkibiskup á engu öðru, en kjósa bróður Lafranz til biskups á Hólum, eptir því sem Auðunn biskup hafði ávísat. Staddist þat með guðs vilja, at Eilífr erkibiskup kaus ok valdi bróður Lafranz til biskups á Hóla með samþykki allra kórsbræðra. Var þessum kosníngi lýst á kór, at áðr súngnum *Te deum* ok hríngdum klukkum, í Kristskirkju í Niðarósi.

Þat gjörðist til tíðenda áðr, at Ormr Þorsteinsson *electus* til Skálholts sálaðist áðr en hann var vígðr til biskups. Þá var kosinn Ormr Steinsson til biskups í Skálholti, ok vildi hann eigi vera, ok gjörði hann *votum peregrinationis ad limina apostolorum Petri et Pauli*, ok andaðist hann litlu síðar. Eptir þat var kosinn Skútu-Grímr; var hann áðr ábóti í Hólmi í Niðarósi. Var hann vígðr til biskups í Skálholti, ok var hann þrjá mánuðu biskup, [ok spennti upp þrjú hundrat hundraða, er Skálholts kirkja átti[2], andaðist hann út í Höfnum, er kaupmenn lágu til byrjar. Eptir þat var kosinn ok vígðr Jón biskup Halldórsson til Skálholts; var hann af prèdikara lifnaði ok mikils-

1) orðstið, *A.* 2) [ b. v. *B.*

háttar klerkr ok ágætr prèdikari, hafði hann lengi staðit útlendis at *studium* í Bononia ok Paris í Frankaríki.

Þá er þessir hlutir gjörðust í Noregi, vóru menn þessa óvitugir á Íslandi, hvat fram hafði farit í Noregi. At þíngi kom aptrreka skip á Eyrum; var þar á af merkiligum mönnum frú Málfríðr. Frèttist þá í fyrstu, at kosnir vóru biskupar til Íslands, Jón biskup til Skálholts, en bróðir Lafranz til Hóla; vissu menn ekki hverr þessi Lafranz mundi vera, þvíat menn trúðu eigi í fyrstu, at bróðir Lafranz frá Þíngeyrum mundi kosinn.

Er frá því at segja, at svo bar til [þetta sumar litlu eptir þíng[1] at Guðmundr ábóti frá Þíngeyrum var boðinn af frú Guðrúnu Þorsteinsdóttur, er þá bjó á Holtastöðum í Langadal, til vinaveizlu, ok Guðmundi ábóta fylgðu tveir bræðr, bróðir Björn ok Lafranz; ok svo sem hann ok þeir riðu heim, ok vóru komnir yfir Blöndu, kom í móti þeim sá maðr, er Þorvarðr hèt, ok var kallaðr biskup; sagði hann þeim skipkomuna ok lát Auðunnar biskups. Guðmundr ábóti spurði, hvat sagt var, hverr kosinn mundi til Hóla. Þorvarðr sagði, at hann var sagðr Lafranz. Höfðu þeir ekki spurt áðr skipkomuna ok tíðindin. Ok svo sem hann var burt frá þeim, talaði prior Björn til Lafranz: „muntú ekki kosinn til biskups, bróðir Lafranz?" [Hann] svaraði: „gjör mèr engan dáruskap; þat þikki mèr líkara, at svo fremi hafi þeir kórsbræðr í Noregi mik undir brotið af stèttum, sem mörgum er kunnigt, at enga væntíng hefi ek til þess, at þeir muni mèr völd skipa." Ok svo sem þeir kómu heim til Þíngeyra, innan tveggja daga þaðan lið[in]na, kom brèf til bróður Lafranz frá frú Málfríði, at hún var hjá í Kristskirkju í Noregi, at hann var kosinn til biskups á Hólum, ok þessu var lýst á kór. Mátti hann nú eigi við dyljast hvat samþykkt var. Viðr þessa hluti var honum mjök áhyggjusamt, þakkandi guði ok hans sætu móður Marie fyrir alla hluti við sik skipaða ok veitta. Hèlt hann sæti sínu í kór ok klaustri. Um sumarit á Ólafs[1] [messu] síðari kom síra Egill Eyjólfsson til Þíngeyra með boðskap erkibiskups; hafði hann fyrir fám dögum komit til landsins á því skipi sem kom við Gáseyri; var boðskaprinn svo felldr, at þat vóru tvö brèf með hangandi innsiglum; var sá skilníngr í þeim: annat, at erkibiskupinn gaf

1) [ b. v. *B*. 2) *B*; Mariu, *A*.

honum upp allar sakir, þær sem hann hafði gjört í mót Niðarósskirkju, erkibiskupinum ok kórsbræðrum, setjandi þar í grein, sem heilagrar[1] kirkju lög votta, at klaustra innganga er svo sem önnur skírn, ok hvat sem hann hefir áðr gjört í móti guðs lögum, gefst honum upp, svo sem hann gengr undir heilaga reglu. Annat brèf var svo látandi, at erkibiskupinn, með ráði ok skipan allra kórsbræðra, kaus bróður Lafranz til biskups á Hólum, með öllum þeim stètt ok heiðr, sem biskupligri tign ok vegsemd til heyrir, confirmerandi hans vald, at hann mætti sem skjótast öðlast biskupsvígslu.

38. At þessum boðskap settum ok yfirlesnum þakkaði hann guði þessa gjöf ok vald sèr veitta, ok allir þeir sem nálægir vóru. Má þat ok hverr sem einn sannliga hugsa, at þennan mann Laurentium kaus framar guðlig mildi með heilags anda tilvísan, en metnaðr, ríkdómr eðr fèmúta, þvíat þeir sömu, sem áðr vóru hans mestu mótstöðumenn, kusu hann til þessarar stèttar, svo at heilagr andi blès þeim þat í brjóst, án nokkurs forgöngu, vina eða frænda. Eptir þessa hluti svo fellda skrifaði herra *electus* til herra Ketils, sem þá var hirðstjóri á Íslandi, ok kom hann til Þíngeyra, ok norðr til sira Þorsteins *officialis*. Riðu þeir allir samt ok herra *electus* til Hóla; var þar fyrir búin veizla. Á Laurentiusmessu dag var lýst yfir kór boðskap h[erra] erkibiskups um kosníng Laurentii, ok lýsti herra Ketill Þorláksson. Var þá súnginn *Te deum* með hríngdum klukkum, ok leiddi herra Ketill ok sira Þorsteinn *officialis* herra *electum* til sætis. Skildu þeir herra *electus* ok herra Ketill með hinni mestu blíðu. Lèt herra *electus* líta yfir góz kirkjunnar á Hólum, ok var mjök snauðligt tilkomu fyrir allra handa sakir. Þá hafði guð sýnt þat um vorit áðr, at honum líkaði vel tilkoma Laurentii. Rak upp reyði á land staðarins á Hólum, er í Brimnesi heitir, var sú reyðr bæði góð ok mikil, svo at á var framarliga á fjórða hundraði vætta, svo at menn mundu eigi nokkut rekald betra hafa á land komit þá nýliga. Tók herra *electus* Skúla prest Íngason aptr til ráðsmanns á Hólum, sem lengi hafði haft um daga Jörundar biskups, ok þótti góðr forsjámaðr; vandi sira Hafliði hann við í fyrstu, þá er hann var ráðsmaðr. Sölva skipaði hann bryta, ok Guðrúnu Skeggjadóttur, húsfreyju[2] hans, ráðskonu; vóru þau hinu[3] rosknustu forgangsmenn

1) heilagre, *A.* 2) heyspreyiu, *A.* 3) hina, *A.*

bæði. Vóru þessir menn svo lengi sem hann var biskup. Fyrir öllum útbúum staðarins lèt hann skipa ráðna menn ok roskna; lýsti hann því fyrir öllum mönnum, at hann vildi allan setníng láta hafa sem Jörundr biskup lèt hafa; sagðist herra *electus* eigi vilja til hlutast dagligra ráða, utan kjallara sínum ok fatabúri, ok stjórn kennimanna, ok því offri sem gæfist í vaðmálum, þat lèt hann gefa fátækum mönnum. Maríumessu hina fyrri prèdikaði hann, ok veitti sæmiliga þeim d[u]gandi mönnum, sem til staðarins vóru komnir; þótti þá þegar gleðjast kirkjan ok staðrinn í tilkomu slíks formanns. Eptir Maríumessu reið hann norðr til Möðruvalla; vóru þar þá öngvir bræðr; lèt Auðunn biskup skipa þeim á presta vistir: var bróðir Þorgeirr í Lögmannshlíð svo sem píngaprestr, en bróðir Þórðr á Víðivöllum í Skagafirði, en bróðir Þorbjörn ok bróðir Brandr fóru heim til Hóla ok önduðust þar. Tók Hólastaðr, frá því klaustrið brann, alla ávöxtu af staðnum ok öllu því gózi sem þar lá undir; vóru þar tveir prestar með ráðsmanni, ok tveir djáknar. Mátti í slíku sjá, at herra Laurentius átti mikinn vanda, er hann kom til, þvíat hann [sá] gjörla, at þat var í móti guðs lögum, at reglubræðr væri úti í veröldu sem aðrir veraldar prestar, en þó vildi herra *electus* þar ekki at gjöra, fyr en hann hitti erkibiskup. Þaðan fór hann til Mú[n]ka-Þverár, ok var þar formannslaust, þvíat Þórir ábóti var af settr ábótadæminu, sem vèr gátum, ok var hann í Noregi. Skipaði herra *electus* Berg Sokkason frá Þíngeyrum formann yfir Þverár-klaustri, svo *in temporalibus* sem *in spiritualibus*. Samdi bróðir Bergr þar þá þegar ágæta siðu. Þaðan fór herra *electus* norðr til Grenja[ðar]staða; hèlt þá staðinn sira Jón Koðransson, er honum var skipaðr af sira Þorsteini *officiali*. Skipaði *electus* ok honum þar allt, [þar til] sem hann kæmi aptr af Noregi. Reið herra *electus* þá heim til Hóla, ok var heima um vetrinn. Skipaði hann Ólaf Hjaltason[1], er þá var djákn, skólameistara[2] heima á staðnum, ok fèkk þar klerka til, þá sem til skóla gengu dagliga. Þegar tók hann þá eptir at reikna framferði manna í biskupsdæminu, svo lærðra sem leikra, áminnandi þá dagliga at aflètta sínu röngu framferði, en öngar framferðir stærri hafði hann þá, fyr en hann væri biskup.

---

1) *B*; Ólafi Hjaltasyni, *A*. 2) *B*; skólameistare, *A*.

Kirkjan í Hvammi í Vatnsdal átti tvo hluti í heimalandi, en Finnbjörn bóndi Sigurðarson átti þriðjúnginn. Kirkjan þótti *electo* lítt haldin, þvíat Finnbjörn bóndi fór með hvorutveggja, kirkjuhlutann ok þat sem hann átti. Vandaði herra *electus* um, ok vildi skipa kirkjuhlutann presti nokkurum, en hann færi með sinn hluta. Þetta vildi Finnbjörn eigi. Þar kom, at herra *electus* setti honum áminníngar til laust [at] láta, ok sagðist mundu fram fara í móti honum, [ef] hann lèt[i] eigi; at öðrum kosti bauð hann at kaupa at honum sinn hluta fyrir fullt verð. Kom þar um síðir, með góðra manna tillögum, at Finnbjörn bóndi seldi sinn hluta í jörðinni fyrir LX hundraða, vildi herra *electus* svo frjálsa jörðina kirkjunni til handa. Skipaði hann syni hans Egli Grímstúngur, ok fóru þeir þangat búnaði sínum, en frú Guðrúnu ok frú Þuríði lèði hann Hvamm, þar til hann kemr aptr af Noregi. Visiteraði herra *electus* snemma um vorit um vestrsveitir, ok var á Breiðabólstað í Vestrhópi hjá sira Þorsteini skarðsteini á Jóns messu Hólabiskups. Var þá svo harðr vetr ok vorit, at fjárfellir varð. Kom þá enn bati at Jóns messu Hólabiskups.

39. Herra Guðmundr ábóti á Þíngeyrum ok bræðr töluðu viðr herra *electum* um biskups tíundir. Herra *electus* svaraði, at hann [er] enn eigi fullgjörr í skipan á at gjöra, fyr en hann væri vígðr biskup; bauð þeim at taka *arbitros*, þeir af sinni álfu, en hann af kirkjunnar álfu at Hólum. Staddist þetta meðr þeim. Tók hann Hóla kirkju vegna sira Jón Koðransson, en ábóti ok bræðr tóku Lang-Orm, var hann prófastr um Vestfjörðu, ok átti Holts stað í Önundarfirði. Skyldu þat hvorirtveggju halda, sem þessir gjörði um, þar til erkibiskupinn gjörði um. Vóru þeir í þessari gjörð sem *electus* var at Þíngeyrum. Var þat þeirra gjörð, at Þíngeyrastaðr ok klaustrið skyldi halda Hjaltabakka, sem Jörundr biskup hafði lagt áðr til Þíngeyra, en Auðunn biskup hafði tekit af þeim, ok gaf sira Jóngeiri presti, ok þar bjó hann nokkura vetr. Þótti ábóta ok bræðrum þetta of lítið fyrir tíundirnar, ok þó skyldi þetta standa, þar til erkibiskupinn gjörði vegu á; skildu þeir með þessu.

Um sumarit var tekit far *electo* með Klement bónda Atlasyni í Krafsinum, ok þeim mönnum, sem hann hafði með sèr. Fóru þessir menn með honum: sira Egill Eyjólfsson,

sira Stephan [, Aðalbrandr djákn Magnússon, Eirekr rauðr[1], ok skipsveinar. Sat [herra] *electus* á Möðruvöllum um sumarit, þar til hann fór í skip. Áðr en þeir lètu út, nokkrum dögum áðr, kómu þrjú skip á Gáseyri, eigi lengr á meðal en matmáls stund, öll af Noregi; var þar Hallkell bóndi á Únglandsbollanum; Sigvaldi á öðru, er Elftrin hèt; it þriðja skipit hèt Glóðin, ok var þar á sira Snjólfr. Lágu tvö skip áðr fyrir í höfninni á Gáseyri; var þar gott til varníngs norðanlands. Hittust þeir sira Snjólfr ok *electus*; vildi hann öngva lotníng gjöra honum; töluðust þeir við nokkra stund, þó heldr stirt; at síðustu spurði *electus*: „viltú minnast til mín at skilnaði?" — Snjólfr svaraði: „ekki, Lafranz, vil ek kyssa þik, þvíat þat má vera, ef stundir líða, at þat kallir þú Júdas-koss". Skildu þeir með öngri blíðu.

40. Nú er frá því at segja, at Klemens bóndi ok herra *electus* lètu út af Gáseyri; var þat *in festo Bertini*[2] *abbatis;* byrjaði þeim vel norðr fyrir Langanes ok svo austr fyrir í haf; höfðu þeir byri stóra ok hvöss veðr. Vóru þeir stuttan tíma úti, ok tóku Hálogaland norðr við Brunney; var þar skergarðr sem þeir kómu; kenndu þeir sik þó, hvar þeir vóru komnir; skutu þeir báti, ok bar bússuna skjótara en þeir ætluðu upp á sker; rifnaði skipit neðan, ok var skjótt undan kjölrinn, ok sè niðr allr farmrinn. Fór herra *electus* í bát ok konur allar, ok allt þat ófræknara var fólkit, en sumir fóru með viðum til lands; sira Egill fór á siglutrènu til lands. Komst allt fólk til lands, utan ein kona sálaðist þar, sú er þórdís hèt, ok var köllut blómakinn. Fjárhlutr allr týndist þar at mestum hlutum í fyrstu, en þó varð borgit miklu af, þvíat þeir krökuðu upp spýtíngana ok pakkana, ok svo lýsisföt, en skreið var þá engin flutt. Komst herra *electus* fyrst á land, ok þó með miklu vosi, sem líkligt var. Stuttan tíma var hann þar, áðr en honum var fenginn ok leigðr byrðíngr einn suðr til þrándheims; var þar í skipi með honum sira Egill, ok bróðir Árni son hans, ok nokkrir þjónustumenn hans með djákna Aðalbrandi; en sira Stephani skipaði hann at vera eptir við skipbrot, ok láta upp kraka þat sem fengist af gózi; var hann þar um vetrinn ok nokkrir sveinar staðarins á Hólum með honum. Kom herra *electus* með sínum fylgjorum til þránd-

1) [ *B*; Aðalbrandsson Eirekr Brandr, *A*. 2) *B* (= 5. Sept.); Martini, *A*.

heims, ok var herra Eilífr erkibiskup þar í býnum. Gekk herra *electus* upp á biskups garð, ok at feng[n]u orlofi gekk hann inn, fallandi fram fyrir erkibiskupinn, biðjandi hann fyrirlátníngar fyrir þá hluti, sem hann hafði honum á móti gjört. Stóð erkibiskupinn þegar sjálfr upp, reisandi Laurentium upp, ok bað hann at vera velkominn, „allt er þat uppgefit áðr", sagði erkibiskup, „sem tjást má í brèfi því, sem ek senda yðr, svo et sama biðjum vèr, at ef í nokkurum hlutum höfum vèr vorðit offara með yðr, fyriláti þèr þat oss". Laurentius sagði þat skylt vera. Bað erkibiskupinn hann segja sèr, hversu honum hefði gengit til síðan hann fór af Íslandi. Herra *electus* sagði honum allt hversu farit hafði, svo um skipbrot sem um aðra hluti, ok at hann var þar svo kominn kostarlauss ok hans menn. Erkibiskupinn harmaði þat, en bauð honum upp á sinn kost, ok at hafa borð með sjálfum sèr ok sveinar hans, á erkibiskupsins garð. Herra *electus* þekktist þat gjarna; þótti bezt at eiga viðr hann þar um. Var sira Árni þá ráðsmaðr á erkibiskups garði, var hann kallaðr vaði; var hann systurson Eilífs erkibiskups; varð hann síðan erkibiskup eptir herra Pál erkibiskup; varð hann hinn kærasti vin *electi*. Gjörðist svo sem vèr sögðum, at herra *electus* sat yfir borð hjá erkibiskupinum um vetrinn. Sira Egill sat á ráðsmann[s]stól, en aðrir eptir tilheyriligum sessum. Stefan Hauksson kaus *electus* at bera ker sitt ok þjóna sèr, þvíat hann var íslenzkr; var hann hinn mesti meistari á margar listir, gullsmíð, gröft ok uppkast; lèt herra *electus* hann búa Jóns bolla Hólabiskups, hvern hann hafði til Róms; var sá bolli óræktr áðr á Hólum, en Laurentius lèt búa hann, ok diktaði sjálfr þau vers, sem þar eru grafin á. Margir hlutir vóru þeir, er herra *electus* hafði noterat upp áðr, um vandamál þau, sem Hóla biskupsdæmi höfðu til borit, eptirspyrjandi, hvat erkibiskupinum sýndist þar lög um vera, þvíat hann vildi í öllum hlutum laganna geyma. Sat herra Laurentius þar um vetrinn hjá erkibiskupinum, ok gjörði hann í öllum hlutum ástsamliga við hann ok hans menn. — Um haustið, þat sumar sem herra Laurentius sigldi, kom til Íslands herra Jón biskup *Halldórsson* til Skálholts; gjörði hann vígslur af báðum biskupsdæmum; var þá vígðr sira Páll Þorsteinsson ok sira Ólafr [Hjaltason] til presta af Hóla biskupsdæmi, ok margir aðrir.

41. Nú er frá því at segja, at herra Eilífr erkibiskup kallar at sèr biskupa: herra Auðfinn Björgvinar biskup ok herra Vilhjálm biskup af Orkneyjum; kómu þeir til þrándheims *in festo Johannis baptiste*. Vígði herra Eilífr erkibiskup Laurentium til biskups með öllum þeim heiðr ok sæmd, sem heilug kirkja heldr ok geymir í slíkum hlutum, með lögligum siðvana, fyrrnefndum biskupum atstöndundum. Nokkru áðr kom sira Stefan um vorit norðan af Hálogalandi á byrðíngi suðr til þrándheims með góz Hólastaðar. þat bar til skjótt eptir, sem Laurentius var vígðr til biskups, kærði bróðir Íngimundr Skútuson upp á Hólastað ok Laurentium biskup, fyrir þat upp var gengit kostr á Möðruvöllum, ok burt reknir allir bræðr, en Hólastaðr ok biskupinn hefði tekit undir sik allan ávöxt af Möðruvallastað. Var Íngimundr þá bróðir á Elgisetri undir reglu heilags Augustini. þessi ákæru svaraði svo Laurentius: „þat er góðum mönnum kunnigt, at klaustr á Möðruvöllum var upp gengit sem ek var *electus*, með því at Auðunn biskup gaf bræðrum þær sakir, at fyrir óskynsamliga meðferð ljóss þess, er þeir höfðu drukknir með farit um nóttina, sem þeir kómu af Gáseyri, mundi hafa lagt upp í þá refla, sem í kórnum vóru, en sumt niðr í skrúða-kistu, þá sem þeir luku upp, þvíat þar[1] þótti mest upprás eldsins. Kvaðst[2] Auðunn biskup ei skyldr at láta smíða þeim upp klaustr, [er af[3] þeirra vangeymslu hefði til komit þessi skaði". Erkibiskup svaraði: „viti þèr vel, at þat eru lög kirkjunnar, at klaustr þat, sem í fyrstu var funderat, skal um aldr ok æfi standa, ef engi forföll meina; hafi ok lagzt undir staðinn á Hólum landskyldir ok innrentur staðarins ok klaustrsins, hverr mun þá eiga upp at halda eða láta gjöra klaustrið, utan Hóla biskup; en þeir bræðr, sem sannprófaðir hafa orðit at því, sem þèr sögðut, sè reknir í harðasta klaustr; munum vèr ok skipa *judices delegatos* út á Íslandi, at láta dæma vorra vegna um sagt mál". Herra Laurentius sagði sèr þat vel líka; gjörðist þá ok ekki meira at því máli þá at sinni.

42. Herra Guðmundr ábóti hafði þá ok skrifat utan til erkibiskups um tíundamál; las bróðir Árni allan *processum* ok próf þíngeyra klaustrs fyrir erkibiskupi ok kórsbræðrum. Erkibiskup sagðist ok vilja heyra andsvör Laurentii biskups, „því at oss

---

1) *B*; þat, *A*. 2) kuezt, *A*. 3) leiðr.; ea, *A*.

var sagt, at þá er þèr vórut þar í klaustri sýndist yðr þat lög, at þíngeyra staðr ætti biskups tíundir, eptir því sem hinn úngi bróðir, son yðvarr, hefir sagt oss". — [Laurentius svaraði]: „sannspurt hafi þèr, minn herra, at svo sem ek var í klaustri at þíngeyrum, sinnta ek því, sem ek mátti framast, at klaustrið mundi eiga tíundir eptir gjöf hins heilaga Johannis, fyrsta Hóla biskups, er funderaði klaustr at þíngeyrum, en þó at hann væri *góðr maðr*, *mátti* hann ekki lengr gefa en um *sína* daga, ok gjöra ekki *præjudicium* eptirkomundum biskupum á Hólum". Bróðir Árni son hans svaraði: „þat hafi þèr sagt, þá þèr vórut á þíngeyrum, at haldast ætti, síðan tveir næstu biskupar honum samþykktu ok hèldu g[j]öfina óbrigðuliga. Nú hèldu því heldr ij biskupar eptir hann, at svo er reiknandi til, at um daga vij biskupa næstu eptir hann lágu tíundir [undir þíngeyra klaustr], allt framan til [at] Jörundr biskup tók undan á dögum Vermundar ábóta". — „Haf þökk fyrir, úngi bróðir", sagði erkibiskupinn, „þú fylgir klaustri þínu. Biðjum vèr yðr, herra Laurentius, ok svo it sama bjóðum vèr, at þèr skipit vel viðr klaustrit, ok látið oss eiga þat at frètta". [Laurentius biskup mælti[1]: „vili þèr þat *pactum* confirmera, sem vèr Guðmundr ábóti ok bræðr gjörum vor í meðal". Erkibiskupinn sagðist þat gjarna vilja. Gjörðist þar ekki meira at.

43. Þat gjörðist þá ok til tíðinda, at sira Egill þá Grenja[ðar]stað af erkibiskupi, þvíat honum þótti hann í sínu valdi vera, ok undan genginn fyrir vanrækt Auðunnar biskups. Ombunaði herra Laurentius biskup erkibiskupinum fyrir kost sinn ok sinna manna, svo honum vel líkaði; ok svo sem herra Laurentius var búinn, tók hann blítt orlof af erkibiskupinum; gaf hann herra Laurentio sæmiligar gjafir, ok skildu með sönnum kærleika ok vináttu; fór herra Laurentius suðr til Björgvinar, ok var honum tekit far í skipi Bassa bónda. Lètu þeir í haf ok urðu vel reiðfara, ok tóku land á Eyrum *in festo Bertini*, dagstætt sem hann lèt út af Gáseyri. Vóru honum sýslaðir hestar, ok reið herra Laurentius biskup norðr til Hóla, ok urðu allir menn á staðnum honum fegnir; söng hann fyrstu messu á allra heilagra messu.

44. Nú er frá því at segja, at þegar sem Laurentius settist

---

1) [ b. v. *B.*

heima á Hólum formeraði hann ágæta siðu, fyrst þat sem hann sjálfan snerti, ok svo öllum öðrum útaf; [ok því viljum vèr segja greiniliga hans siðu ok háttu, því þar er mörgum góðum manni eptirlíkjanda, þeir sem með góðu framferði vilja vera, bæði til andligra hluta ok veraldligra. Höfum vèr þat eina um hans háttu ok siðferði hèr samsett, at vèr viljum fyrir guði svara, þvíat svo var þessi maðr stöðugr ok staðfastr í sínu framferði, at svo háttaði hann sèr í sínu siðferði allan tíma, sem þú mundir sjá hann tvö dægr, nótt ok dag, ef þú hefðir verit hjá honum[1]. Svo var hann stöðugr ok góðfúss í guðligu embætti, at hann fylgði hverri tíð, óttusöng ok aptansöng, messum ok dagtíðum, ok engi hlutr bar ok svo nauðsynligr til, at hann lèt þat allt um líða fyrir aðstöðu heilagra tíða svo um vetr sem um sumar, nætr sem daga. Klerka þá sem sýngja áttu eða lesa, djákna ok klerka, lèt hann svo typta, at þeir skyldu þat rèttliga gjöra. Skólameistara skipaði hann sira Ólaf Hjaltason, at kenna *grammaticam*. Tók hann marga klerka til kennslu, ríkra manna sonu, ok jafnvel marga fátæka, ok lèt kenna þeim, þar til þeir vóru vel færir. Lèt hann jafnan, meðan hann var biskup, skóla halda merkiligan, kenndi ok mörgum bróðir Árni; gengu til skóla jafnan fimtán eðr fleiri. Skyldu þeir, sem lesa áttu, hafa yfir um kveldit áðr fyrir skólameistara, ok taka hirtíng af honum, ef þeir læsi eigi rètt eðr sýngi. Sira Valþjóf skipaði hann *rectorem chori*, skyldi hann skipa hvat hverr skyldi sýngja; lèt hann ok saman kalla presta ok djákna ok alla klerka fyrir stærstu hátíðir, jól ok páska, Maríumessur; prèdikaði hann þá, ok gjörði *sermonem*, hversu þeim byrjaði fram at fara á hverri hátíð, áminnandi þá at gjöra játníng sína, einkanliga ef þeir hefði nokkrar syndir með sèr ójátaðar. Öll *summum festum* söng hann sjálfr fyrir, ok söng messu ok prèdikaði sjálfr, bæði klerkliga ok góðfúsliga, svo at þar fyrir kómust margir við til iðranar ok yfirbótar. Stóð sira Valþjófr jafnan hjá honum ok var hans *capellanus*. Sama messudjákn lèt hann jafnan þjóna sèr í hámessu, þat var Einarr djákni Hafliðason, hvern hann elskaði framast af öllum sínum klerkum, ok hèlt hann fyrir sinn sannan trúnaðarmann. Messuembætti sjálft framflutti hann með sannri góðfýsi ok tára

1) [ v. í *B*.

útbellíngu, ok svo viðrkomandist, at meir mátti heyrast grátr ok hixti en orðagrein í lágasöngunum, at þeim sem hjá honum stóðu. Öll *signa* gjörði [hann] merkiliga ok hófsamliga, svo at hvorki mátti þykja of seint nè of fljótt, heldr með sönnum hætti. Eptir messuna, sem [hann] kom í skrúðhúsit, ásakaði hann stundum djákna ok klerka fyrir þat, sem honum þótti órækliga fara í lestri eðr söng eðr öðrum hlutum. [þat mátti hann ekki sjá, [at] djáknar hefði rúma stakka undir messuklæðum ok dalmatikum, segjandi þeim, at þar fyrir rifnaði messuklæðin ok skrúðinn. Svo et sama skyldi engi prestr eðr djákni dirfast at hafa kápur undir sloppum, svo at þar utan yfir hefði þeir kantarakápur, segjandi þá rífa af sèr skrúðann, er ofan var togaðr um þá[1]. Hvorki vildi hann láta tripla[2] eða tvísýngja, kallandi þat leikaraskap, heldr sýngja slèttan söng, eptir því sem tónat væri á kórbókum. Hinn sama setníng vildi hann hafa láta á hríngíngum sem verit hafði um daga Jörundar biskups: fara út um vetrum nærri miðri nótt; vildi at góðr svefn væri eptir sönginn kennimönnum, þeim sem útferðir hefði. Hvern tíma sem hann söng messu skyldi inn taka v fátæka menn, ok gefa þeim nógan mat í eitt mál.

45. þessir vóru dagligir siðir herra Laurentii biskups. Sem hríngdi til óttusöngs las hann Maríutíðir meðan hann klæddist; svo et sama lásu klerkar Maríutíðir úti í kór, meðan hríngdi. Sem samhríngdi kom biskupinn út, ok var í sæti sínu um allan óttusöng, sýngjandi með öðrum klerkum. Eptir sönginn gekk hann inn til herbergja sinna, ok þegar sem hann kom í herbergin gekk hann inn í studium sitt, ok byrgði sjálfr at sèr; skyldi þar enginn inn koma utan hann einn saman; var hann þar nærri óttusöngs stund einn saman, var þar ok myrkt, [ok kom svo jafnan til annara manna[3] at hans kinnr vóru votar af tárum. Síðan gekk hann upp í svefnstofu sína, ok í sæng farandi var honum fengit ljós í skonsi, las hann lengi psaltara; var þat lítil stund [at] á hann rann svefnhöfgi, þar til hríngdi til *prima*. Las hann inni meðan hann klæddist ok þvóst. Sem hríngdi til formessu gekk hann til kirkju, ok var í sæti sínu meðan hún var súngin, gefandi blezun eptir messuna; gekk biskup þá út af kirkjunni, ok um kirkju. Hvern dag,

1) [ v. i *B*. 2) *A*; trifla, *B*. 3) [ *B*; innkomandi svo, *A*.

þann sem komast mátti, sat hann í *consistorio* sínu, málum at skipa ok önnur nauðsynlig erindi at gjöra, þeirra manna sem til vóru komnir, eðr þat sem staðnum til bar. Gjörðist þetta þar til er hringdi til *terciam*. Fór biskupinn þá þegar út, verandi at tíðum fram yfir messu ok *nonam;* eptir þat til borðs. Presta sína alla lèt hann sitja yfir sitt borð, gleðjandi þá, ok alla þá sem til kunnu at koma, með sæmiligum kosti ok máldrykkju, [annathvort mjöð eðr mungát; drakk biskup jafnan eitt hvert ker til presta sinna sèrliga, svo sem hann var bloðlátinn[1], eitt ker um kríng til hvers, er[2] góðir gestir kómu til garðs; öll *dupplicia* var sæmiliga drukkit, en allar hátíðir ómælt, svo sem hverr vildi framast. Til hins sama var þá at ætla á Hólastað, hvort sem skip var nokkut á Íslandi eðr eigi. Viðr alla gesti sína lèt hann gjöra sæmiliga; sátu þeir allir uppi í hans stofu sem framari vóru; skyldu þeir sem sátu hjá honum sjálfum drekka sem þá lysti, ok engi meira en hverjum bezt líkaði; var at þeim öngu[3] meira sótt, sem ágjarnari vóru til drykkjarins, svo at þat var þeirra skuld, sem illa fóru af. Jólaveizlu lèt hann jafnan sæmiliga halda prestum ok öllum klerkum, próventumönnum, bryta ok ráðskonu, ok öllum heimamönnum, svo at allir höfðu nógan fögnuð. Um páska var veitt hófsamliga, ok svo um hátíðisdaga á langaföstu. Svo mikla forsjó hafði herra Laurentius, at afla inn drykkjarföng at hvar sem fá kunni þau á Íslandi[4]. Parta hafði [hann] jafnan í Íslandsförum[5] tveimr eðr þremr; vóru lestrekar hans Grafar-Leifr ok Eirekr rauðr; átti Hólastaðr optast nokkut í þeim skipum, sem kómu til Íslands. Skipaði hann þá geymslumenn á kjallara sínum, sem hans trúnaðarmenn vóru: Ketill Hallsson um tvö ár fyrstu, sem hann kom til Íslands, en síðan Einarr djákni, hverr hafði æ síðan meðan hann var biskup. Eptir máltíðina dagliga reikaði hann fyrst; fór hann þá í sitt studium ok studeraði hann í bókum; skrifaði hann upp á vaxspjald, noterandi þat, sem hann vildi hafa sèrliga or bókum, ok þar eptir skrifaði Einarr djákni upp í kvaterne eðr bók, svo at biskupinum var tiltæk, nær hann vildi á líta ok þat frammi hafa. Enginn maðr skyldi koma upp í hans herbergi, nema

1) þann. *A.* 2) eð, *A.* 3) getg.; öllum, *A.*
4) [ ok lengstum stærstu hátíðir lèt hann settar verða friðar veizlur, *B.*
5) hèr v. 2 blöð í *B* (-förum tv. e. þr., o. s. frv.).

orlofs bæði; var þar skipaðr til lokusveinn, at geyma herbergjanna dagliga, ok svo á nætr. Jafnan sem rökkva tók á vetrinn sagði Einarr djákni biskupinum heilagra manna sögur á norrænu, eðr stundum las latínusögur, þar til sem hríngt var til aptansöngs; gekk biskupinn þegar út til kirkju um fyrstu hríngín[g], lesandi svo sálutíðir með klerkum. Eptir kveldsöng gekk biskupinn heim til herbergja sinna, ok þá eptir til borðs. Jafnan lèt hann einn hvern klerk lesa *lectionem* fyrir borði sínu; gjörði þat iðugligast Óblauðr djákni Þorsteinsson. Eptir máltíðina um kveldit reikaði biskupinn um baðferðir um gólf, ok síðan fór hann í sæng sína; hafði hann þann svefn mestan, sem hann hafði framan til söngs. Aldri kom herra Laurentius inn í staðinn, nema þá stundum sem honum var sagt at danzleikr var hafðr á kveldum, þá lèt hann bera fyrir sèr skriðljós inn í stóru stofu, fyrirbjóðandi hverjum sem einum at hafa danzleik þar á staðnum. Mikit vandlæti hafði herra Laurentius um framferðir lærðra manna, hárskurð ok klæðaskurð, ok þeir hefði öngar sundrgjörðir þar í hans biskupsdæmi; svo ok um lifnað þeirra, þar mest, sem honum þótti úr hófi ganga, svo ok þá menn, sem með meinum vóru saman, hvort sem var í hórdómum eðr frændsemis spellum.

46. Þat er eigi gleymanda, heldr góðum mönnum birtanda, hversu margar ok fagrar ölmosur hann lèt gjöra af staðarins gózi á Hólum sem hann var biskup. Allt prófastsdæmi[1], þat sem fèll í sakeyri ok öðrum sektum, gaf hann fátækum, þeim sem mest vóru þurfandi, einkanliga þeim sem áðr höfðu í búi verit, líkþrám, blindum, eðr þeim sem mestan krankdóm höfðu. Þar til skipaði hann presta at láta reka prófastsdæmi, hafði þat fyrst sira Páll Þorsteinsson, en síðan sira Björn Ófeigsson, skipaði biskupinn þeim slíkt af, sem honum líkaði, fyrir armæðu sína, ok þetta hèlzt um hans daga. Var þetta mörgum þurfundum mikil hjálp, en allir lètu úti með góðum [hug]. xij ölmosumenn skipaði hann at vera skyldi heima á Hólum ok útbúum staðarins; vóru þessir bæði fæddir ok klæddir. Á langaföstu vóru innteknir fimm fátækir, ok vóru þeir fram yfir páskaviku. Á Mikaelsmessu á haustið skyldi ráðsmaðr stika niðr XX[c] vöru [í vaðmálum, þetta skyldi gefa

1) í Skagafirði, b. v. *Ann.*

fátækum mönnum í vald[1] um vetrinn ok fram yfir hvítadaga. [Skyldi gestamaðr þetta út gefa, ok skipta með fátækum[2] mönnum, þeim sem honum þótti mest þurftugir, eðr biskupinn vísaði til hans, fyrir stærstu hátíðir, ok var þar til valdr dyggr maðr, góðfúss ok skynsamr, var þat Þorsteinn Þorleifsson. Allt þat góz, sem gefit var [í vaðmálum[3] árliga til staðarins, lèt hann bera heim í herbergi sín, ok lèt hann allt gefa fátækum mönnum[4]. — Þat er ok merkjanda, at hann hafði þann klæðabúnað, sem múnkar hafa, kufl með skrúð yztan, [því at[5] hann sagði þat reglu, þó at biskupar væri af svartmúnkalifnaði, þá ætti þeir at halda þann *habitum*, sem þeir vóru af reglulifnað[i]num kosnir. *Stami[n]am*[6] með ull hafði hann næst sèr. Skóla setti hann á staðnum, ok lèt kenna latínu; hèlt þann skóla sira Ólafr Hjaltason; gaf hann honum Valla stað í Svarfaðardal, segjandi, at þann stað skyldi æ sá hafa ok halda, sem skólameistari væri á Hólum. Kenndi sira Valþjófr söngnám.

47. Þann vetr sem Laurentius biskup var fyrstan á Hólum, var tíðindalaust víðast á Íslandi. Bróðir Bergr Sokkason var kosinn af herra Laurentio ábóti at Múnka-Þverá, var hann vígðr einu ári síðar af honum heima á Hólum, var hann formentr maðr, umfram flesta menn þá á Íslandi, [um] klerkdóm, letr, söng ok málsnild; samansetti hann margar heilagra manna sögur í norrænu, sem birtast mun ok auðsýnast meðan þetta land er bygt. Hèr yfir fram hafði sá góði mann ágætt siðferði með klaustrligum lifnaði, vóru þeir Bergr ábóti ok Laurentius biskup í kærligri vináttu, þvíat Laurentius biskup var lærifaðir hans. Um vetrinn fyrir langaföstu sendi herra Laurentius bróður Árna, son sinn, suðr í Skálholt til herra Jóns biskups, biðjandi hann at hann vígði hann öllum vígslum ok til prests. Kom bróðir Árni norðr eptir hvítadaga, þá vígðr prestr. Sýndist herra Laurentio biskupi þat fegra, at faðir legði eigi vígsluhendr yfir son sinn holdligan; stóð ok bróðir Árni aldreigi hjá föður sínum, nema þá hann fermdi börn. Var bróðir Árni hinn bezti klerkr ok *versificator*, ok

---

1) [ leiðr.; þetta sk. g. f. m. í v. í vaðmálum, *A.*
2) [ skyldi þ. ú. o. sk. m. f. m. gestamaðr, *A.*
3) [ í klippíngum, vöru ok hafnarvoðum, *Ann.*
4) ok mundi þat verða hit minnsta x° árliga, b. v. *Ann.*
5) [ leiðr.; þat, *A.* 6) stamiū, *A.*

kenndi mörgum klerkum; fór hann hvern tíma í *visitacionem* með herra Laurentio föður sínum, ok svaf í einu herbergi ok hann; hafði hann ok innsigli biskupsins ok brèfagjörðir, ok Einarr djákni.

48. Þann sama vetr, sem Laurentius biskup kom út um haustið, var kyrt á Íslandi ok engi merkilig tíðindi gjörðust; stýrðu þá biskupar fyrnefndir, herra Jón Skálholti, en herra Laurentius Hólastað; var þat mál manna, at á Íslandi mundi varla verit hafa meiri latínuklerkar en þeir vóru; var ok harðla kært þann tíma í meðal þeirra. Á öðru ári biskupsdóms Laurentii bauð hann með ráði allra lærðra manna í Hóla biskupsdæmi, at *festum corporis Christi* skyldi sýngja hátíðliga sem *summum festum*, þvíat þat var nýliga flutt út af herra Jóni biskupi; var sú hátíð lögtekin á alþíngi um sumarit. Um haustið eptir gjörði Laurentius biskup vígslur heima á Hólum; var þat sem annat merkiligt um stjórn hans, at hann prófaði sjálfr klerkana, ok hann sjálfr talaði fyrir þeim, hversu þeim hæfði fram fara með þeirri vígslu, sem þeir tóku, rannsakandi smásmugliga þeirra lifnað ok kunnáttu, áðr hann vildi þá fram vígja; fór hann mest at því, hversu þeir súngu ok lásu í heilagri kirkju. Þá sagði hann ....[1] taka heilagar vígslur, sem börn áttu í vonum, ok vildu eigi til segja; ok sem þat varð opinbert, setti hann á þá stórar skriptir, ok lèt þá langan tíma missa síns embættis.

Á eptirfaranda ári, sem herra Laurentius kom út, kom ekki skip til Íslands. Um vorit epir riðu þeir Guðmundr ábóti ok Benedikt bóndi Kolbeinsson til Hóla. Eptirleitaði Guðmundr ábóti hversu hann vildi skipa um tíundir, sem langan tíma höfðu hrærð verit í meðal Þíngeyra ok Hóla kirkju; talaði herra Laurentius biskup svo til Guðmundar ábóta[2]: „tveir eru kostir, sá at kæra fyrir mínum herra erkibiskupinum eptir tíundunum, en sá er annarr, at leggja öll þessi mál undir vort vald ok umdæmi", ok með ráði góðra manna kaus ábóti, at biskup skyldi einn skapa ok skera þat sem hann vill vera láta, ok hann vildi fyrir guði svara, at Þíngeyra klaustr væri skaðlaust af. Sagði biskup þá upp, at hann lagði Hvamm í Vatnsdal klaustrinu á Þíngeyrum til æfinligrar eignar. „Vitum [vèr] vel", sagði Laurentius biskup, „at svo mikit [vald] ok *dominium* hefir hverr sem einn Hólabiskup yfir Þíngeyra klaustri, at aldrei fá ábótar af Þíngeyrum kært af Hólabiskupum biskupstíundir fyrir

1) mað og ólæsilegt (fimtina, 404). 2) Guðmundr ábóte, A.

vestan Vazdalsá; en sakir þess, at vorir eptirkomendr sýni ekki vald á klaustrinu at þíngeyrum, því viljum vèr með þessari gjöf ok tillagi alla deilu ok ákæru niðr setja meðan vor er til kostr; skulum vèr ok skrifa til erkibiskups, at hann styrki þetta vort sáttmál". Var þetta *pactum* gjört með handlögum ok brèfum. Gaf herra Laurentius þá ok próventu Kálfs bróður síns til þíngeyra, vóru þat fjörutigir hundraða; hafði herra Laurentius biskup af þessari gjöf heiðr ok sæmd, en klaustrið á þíngeyrum æfinligt gagn ok hlunnindi sem Hvammr er.

49. Í þann tíma bjó þorsteinn Kolbeinsson, bróðir Benedikts, á Holtastöðum í Langadal; var frú Guðrún þorsteinsdóttir móðir hans ok þeirra bræðra. þorsteinn var þá ókvæntr, fylgði hann þá óheimulu ráði, takandi sèr til lags Guðrúnu Illugadóttur; vóru þeir þorsteinn ok þórðr Loptsson, er kallaðr var[1], fermenníngar at frændsemi, var þetta samlag þeirra opinbert með barngetnaði; fóru þau svo opinberliga með sínu ráði, at hann lagði hana í sæng hjá sèr sem sína eiginkonu. Herra Laurentius áminnti í fyrstu blíðliga, at hann skyldi við hana skilja, en hann var baldinn í sinni þrjózku, ok skipaðist ekki við biskupsins áminníngar. Svo kom, at biskup Laurentius fór fram meðr lagaprófi í móti þorsteini, látandi sverja frændsemi á meðal fyrnefndra manna, þorsteins ok þórðar; hann var sá er Guðrún átti áðr. Síðan gjörði biskup þorsteini þrjár áminníngar, stefnandi honum til Hóla ok síðustu *peremptorie;* ef hann kæmi eigi í sagðan stað, skyldi hann bannsetja þau Maríumessu fyrri heima á Hólum meðr steyptum kertum ok hríngdum klokkum; ok meðr því at þau kómu eigi í stefnuna ok þrjózkuðust, haldandi sik sem áðr, fór þat fram, at Laurentius biskup bannsetti þau á Maríumessu á kór á Hólum, meðr því formi, sem lög heilagrar [kirkju] bjóða framast viðr þrjózka frammi hafa. Auðsýndist í þessu einorð biskups ok rèttlæti: þau frú Guðrún ok Benedikt vóru hinir mestu vinir hans, ok svo Hallbera abbadís á Stað, er var systir frú Guðrúnar; hafði ok þorsteinn mikit eptirgengi, þvíat hann var þá forríkr maðr at auðæfum. Nú er at segja frá því, hversu þorstein[i] brá við þessar framferði[r] ok bannsetníngu, sem fram fór á Hólum at Maríumessu. Svo sem hann var kominn undir

1) hèr kynni að vanta orð (viðrnefni þórðar?).

borð á Holtastöðum, leit hann niðr í gaupnir sèr, ok sem hann leit upp, talaði hann: „vita þykkjumst ek nú, Guðrún", sagði hann, „at biskup á Hólum hefir harða yfirsöngva yfir okkr í dag, vil ek ekki aðra menn vefja í vandræðum með mèr, ok skulu þèr allir", sagði hann, talandi til fólksins, „eta[1] hèr inni, en ek mun rýma". Gekk hann þá undan borði, etandi einn saman, ok svo svaf hann. Í burt hafði biskupinn skipat áðr prestunum báðum; hafði hann þó gjört þeim ónáðuligt. Skjótliga eptir þessa framferð riðu þau frú Guðrún ok Benedikt til Holtastaða, ok eggjuðu hann at ganga til sættar við heilaga kirkju ok biskup; kómu þau til móts við biskupinn á Völlum í Svarfaðardal, ok var Þorsteinn leystr af biskupi af banni, en Guðrún degi síðar í Árskógi. Sóru þau bæði skilnað sín á milli, ok svo gjörðist með guðs vilja, at þau skildu. Lagði biskupinn alla ástundan [á], at hirta sitt undirfólk af vondum framferðum, en eigi bannsetti hann opinberliga fleiri menn í Hóla biskupsdæmi.

50. Einkanliga er þat merkjanda ok frá því segjanda, at herra Laurentius talaði þat jafnan á prestastefnu, at þat væri osetligt, at prestar þeir, sem ófærir kynni verða, sakir elli eðr annarra sótta, væri reknir út á húsgang, eðr lítil hjálp þeim veitt af kirkjunni ok hennar gózi; þar [fyrir] setti hann ok skipaði prestaspítal at Kvíabekk í Ólafsfirði, ok keypti landit hálft at Arnoddi presti, en hálft átti kirkjan. Lagði hann þar til í jörðum ok kvikfjám ok bús búhlutum yfrit góz; skipaði hann ok, at hverr prestr í biskupsdæminu skyldi tilleggja um næstu þrjú ár, hálf[a] mörk hverr; varð þetta stórgóz. Lambseldi bað hann ok um allan Ólafsfjörð, ok víða um Fljót, svo at brott var alit til fimtigc, ok játuðu æfinliga biskupinum upp í jarðir sínar. Svo ok eigi síðr skipaði herra Laurentius vanhaga-fè því, sem fèll í stærrum málum, til prestaspítalans, sem var af Benedikt Kolbeinssyni ok Þorsteini bróður hans, ok öðrum ríkismönnum, sem brotligir urðu í þúngum skriptum. Vildi hann því skipa prestaspítal at Kvíabekk í Ólafsfirði, at honum þótti þar gott til blautfi[s]ks ok búðarverðar, ok þótti þat vel henta gömlum mönnum til fæðu. Úngan prest skipaði hann þar til ráðsmanns, er verit hafði áðr lærisveinn hans at Múnkaþverá þá er hann var þar; sagðist hann þat hyggja, at hann

1) etið, *A.*

mundi verða roskinn maðr til fjárhaga, en þat var Björn prestr Önundarson[1]; var hann þar ráðsmaðr meðan Laurentius biskup lifði, ok kómust þar undir nægtir alls kvikfjár ok kostar, svo at þar skorti ekki þá Laurentius biskup sálaðist. Vóru þar þá margir prestar. Sá sami Björn prestr var lengi ráðsmaðr á Möðruvöllum í Hörgárdal, ok var roskinn maðr til ráða, ok fulldist þau orð, sem Laurentius biskup spáði honum. Sira Snjólfr kom út fyrir sunnan land ok reið til Hóla; hafði hann fengit brèf af nokkrum kórsbræðrum, ok þeir báðu Laurentium biskup skipa vel með hann. Vildi hann enga lotníng gjöra Laurentio biskupi; anzaði biskupinn ekki hans erindum; fór hann þaðan at finna Jón biskup í Skálholt, ok bauðst at þjóna í hans biskupsdæmi; ráðlagði hann Snjólfi at fara norðr aptr til Laurentii biskups; „eigi þèr," sagði biskup Jón, „at auðmýkja yðr við hann, þvíat hann er skipaðr af guði yðarr yfirmaðr; munum vèr ok skrifa norðr með yðr til vors bróður, ef þèr vilit játa oss þessu." Kom Snjólfr norðr til Laurentii biskups, ok laut honum, fallandi á knè. Biskupinn spurði: „hví ertú nú svo ólíkr sjálfum þèr, Snjólfr, hjá því sem þú vart hèr næst?" „Þvíat," sagði hann, „at nú er jár[n]teinninn burt or hálsinum á mèr; lagði ok herra Jón biskup þat til með mèr, at ek skyldi vægja fyrir yðr." Biskup stóð þá upp, ok setti hann niðr hjá sèr; var hann i boði hans þann dag; samdist svo með þeim, at hann gaf honum Háls stað í Fnjóskadal, þvíat þá var eigi annat *beneficium* laust. Mátti hann sannliga tala til sira Snjólfs, at engi prestr hèlt sik svo sæmiliga at mat ok klæðum sem sira Snjólfr, ok tíundaði hann þó aldri meir en xl hundruð; kom jafnan hart í meðal þeirra, þó svo, at hann leitaði á biskupinn meðr o[f]metnaðarsamligum orðum. Bar þat til einn tíma at Múnka-Þverá, sem biskup var þar kominn í *visitacionem;* kom sira Snjólfr sem biskup var yfir borðum, ok var honum skipat framan at bríkinni. Spratt þá þegar upp brixli ok meinyrði við biskup, sem Snjólfr gjörðist drukkinn. Hafði Laurentius biskup mikit þolinmæði, svo at hann svaraði engu orði, látandi eptir Maríuminni upp borðin. Fèkkst sira Snjólfr nógu mjök um náttina [við] at drekka; bólgnaði hann þá svo upp, at búit var við voða, var hann þá gyrðr með líndúki; þótti þeim sem hjá vóru staddir syrgiligt uppá

1) þR|oňüндar (Hrómundar?), *A*.

[at] sjá hans harmkvæli; bað hann þá herra Laurentium biskup at koma til sín; hvat hann gjörði. Bað hann sira Snjólfr þá fyrirlátníngar fyrir þau orð, sem hann hafði talat um kveldit; en hann sagðist þat feginn vilja; las biskupinn þá yfir honum. Batnaði honum þá með guðs vilja litlu síðar. Meinyrti aldri síðan sira Snjólfr Laurentium biskup meðan hann lifði. Sira Jón Koðransson hèlt herra Laurentius í góðri blíðu; gaf hann honum staðar-hluta at Hrafnagili, ok þar með prófastsdæmi um Eyjafjörð ok Dali til Var[ð]gjár; var hann hinn sæmiligasti klerkr. Lèt hann upp smíða kirkjuna at Hrafnagili með dýrum kost, sem lengi mátti auðsýnast, ef henni væri haldit.

51. Allir mesthátttar menn á Íslandi þann tíma, sem herra Laurentius var, áttu góða vináttu við hann, svo leikir sem lærðir. Tóku þeir vörulán af staðnum, á þann máta, at biskupinn vildi at þeir legði í pant gull eðr brennt silfr, en ef eigi kæmi vara fram, skyldi staðrinn eignast þat, sem niðr var lagt; komst biskupinn svo með eign at mörgum dýrgripum, at þeir gátu eigi leyst pantinn. Herra Eireki Sveinbjarnarsyni bygðu þeir biskup ok Skúli Flugumýri um fjögr ár, þvíat hann hafði þá sýslu í Norðlendíngafjórðúngi hit vestra. Leigði hann fyrir xij^c^ árliga, lúkandi sumt í húsabótum, en þat meira, sem biskupinum ok staðnum þarfnaðist. Við ríka menn vandaði biskup um tíundargjörð, var þat einkanliga við Gizur bónda galla í Víðidalstúngu; nefndi biskup til þrjá presta ok þrjá leikmenn, at virða fè Gizur[ar] sem hann var á biskupsgistíngu. Var Gizurr harðr á móti í fyrstu; ok þá er hann sá, at forboð var fyrir höndum, ef [biskup] rèð eigi, þvíat biskup vildi, at Gizurr nefndi til aðra þrjá menn at virða: gjörðist ok þat, ok [virðu þeir[1] gózit lx^c^ meira en Gizurr hafði áðr gjört tíund af. Var þat ekki margra, at vanda um við Gizur. Herra Laurentius gjörði engan mannamun at hirta, ok umvandaði þá hluti, sem hann sá móti guðs lögum, hvort sem þat gjörðu ríkir menn eðr fátækir. Var þat ok merkjanda, at þá er Benedikt bóndi eðr Rafn bóndi urðu opinberir í hórdómsspellum eðr aðrir mikilsháttar menn, skyldu þeir koma at skírdegi til Hóla, ok vera leiddir til á bjarnfeld, sem aðrir skriptamenn, svo at öskudegi stundum þeir sem stærra fèllu. Bauð hann þeim at sitja um páskana hjá sèr í veizlu ok fagnaði. Skipaði hann

1) [ getg.; var þeim, *A.*

því svo, at honum þótti þeim kinnroði í vera, at taka slíka hneykíng opinberliga fyrir sín brot, ok þeir skyldu við varast, at falla eigi aptr í annan tíma, þvíat gjarnara vildu þeir út lúka nokkra penínga, en lægja sik svo sem aðrir lítilsháttar menn.

52. Á þriðja ári biskupsdóms herra Laurentii kom bróðir Íngimundr Skútuson af Noregi með brèfum herra Eilífs erkibiskups, þat sem til heyrði um Möðruvalla mál; var sá boðskapr svo látandi, at þeir herra [Jón][1] biskup af Skálholti, ok herra Þorlákr ábóti af Veri, vóru skipaðir *judices delegati* af erkibiskupi[num pró]fi at taka, ok með dómi úrskurð eðr sama niðr at setja, svo at sáttmál gjörðist um sagt mál, ok svo hvorritveggi álfunni firir stefna[2], þat er at skilja Laurentio [biskupi H]ólastaðar vegna, ok bræðrum sag[ð]s klaustrs til ákæru. Ok svo sem þessi boðskapr kom fyrsögðum dómundum, kölluðu þeir fyrir hvoratveggja álfuna, Laurentium biskup ok bræðr sagðs klaustrs, [setja]ndi þeim stefnudag á Möðruvöllum næsta dag eptir Ólafsmessu fyrri. Ok þeim öllum [sam]t þar komundum, byrjuðu bræðr ákæru á Laurentium biskup, bróðir Íngimundr, bróðir Þorgeirr ok bróðir Þórðr, sem þá lifðu af þeim lifnaði. Í fyrstu þeir kröfðu klaustrs síns, sem þeir vóru til vígðir; þar næst, at Hóla biskupar, Auðunn ok Laurentius biskup, höfðu tekit allar innrentur klaustrsins undir Hólastað síðan klaustrið brann, en þeir vóru skipaðir á vistir sem aðrir veraldarmenn; ok af þessum hlutum fyrnefndum kröfðu þeir dómendr gjöra sèr rètt af. Til þessara hluta svaraði Laurentius biskup: „þat er öllum mönnum kunnigt, at klaustrið hèr á Möðruvöllum hefir orðit áðr fyrir eldsbruna en vèr vórum kosnir til biskups; svo et sama vóru bræðr skipaðir á prestsvistir; var ok þetta mál talat ok kært af bróður Íngimundi fyrir erkibiskupinum í Noregi þá er [vèr] vórum í Noregi næst; eigum vèr eigi fyrir vora persónu at svara, sem vèr höfum eigi gjört. Er þat upphaf vorra svara, at vèr viljum í öllum hlutum svara ok hlýðni veita erkibiskupinum, ok hans boð standi. Er þat vort boð, at láta gjöra hèr upp klaustrið á Möðruvöllum með þeim framasta kosti, er vèr til fáum, sem skjótast megum [vèr], svo sè svo margir bræðr inn teknir, sem þá herra Jörundr biskup sálaðist, ok fá þeim skipat í kost ok klæði, sem þeir höfðu um daga Jörundar

1) [ ], gat á bókfellinu. 2) leiðr.; stefnuna, A.

biskups; viljum vèr skipa prior yfir lifnaðinn, en vera sjálfr þeirra ábóti, ok skipa ráðsmann yfir staðinn ok hans fè[1]. Í stærrum ráðum gjörist allt með ráði priors ok bræðra. þetta klaustr sè í öllum hlutum, andligum ok veraldligum, eptir því sem Jörundr biskup góðrar minníngar funderaði þat." At þessum orðum Laurentii biskups varð góðr rómr. Talaði þá fyrst Jón biskup: „Nú hafi þèr, bræðr, heyrt boð herra biskups; megi þèr nú sjálfir kjósa, hvort þèr vilit heldr framfylgja kæru uppbyrjaðri, eðr vili þèr gjöra sáttmál, sem hann hefir boðit." þeir bræðrnir sögðust þat upp taka, sem hann ráðlegði þeim. [Jón biskup svarar]: „vèr viljum hèr til kalla með oss fleiri dugandi menn." Gekk herra Laurentius biskup þá í burt ok hans fylgjarar. Vóru þar til kallaðir áðr af honum allir fremstu kennimenn í Hóla biskupsdæmi, ok svo eigi síðr leikmenn. Eptir tíma liðinn var Laurentius biskup inn kallaðr með sínum fylgjorum; talaði herra Jón biskup þá vegna bræðra: „Meðr því at þèr, herra biskup, hafit boðit bræðrum, í alla staði án nokkurri tilskyldan eðr þrúgan laganna, því vilja þeir kjósa, at þèr látið gjöra upp klaustrit, sem skjótast megi þèr, með sæmiligan kost, sem þèr hafit framast föng á, at tilfengnum skrúða ok klokkum, ok öllum þeim hlutum, sem heilagrar kirkju embætti ok þjónustu þarfast: prior ok ráðsmaðr sè settir firir klaustrit, kost ok klæði hafi þeir sæmiliga, ok allan hátt sè klaustrit ok bræðrnir í þann stètt, sem var um daga Jörundar biskups, ok hann funderaði í fyrstu, ok hèr viljum vit, *judices delegati*, tilskipaðir af herra erkibiskupinum samþykkja, t[rygg]ja[2] ok styrkja með okkrum innsiglum". Fór þetta sáttmál fram, öllum þessum fyrnefndum samþykkjundum með [kær]leik ok vinskap, án nokkuri þrúgan eðr tillokkan. Gjörðist þetta *pactum* með handlögum herra J[óns biskups, ve]randi styrkt síðan með brèfum ok innsigli [af] hvorutveggju álfunni. Var á Möðruvöllum gjör hin sæmiligasta veizla biskupunum báðum, þorláki ábóta, ok öllum prestum ok leikmönnum tilkomundum. þaðan ríða þeir á burt allir samt, biskuparnir ok allir fyrnefndir, þvíat herra Laurentius bauð þeim öllum heim til Hóla, Jóni biskupi, þorláki ábóta ok öllum þeim þeirra fylgjorum, til veizlu; var þat at Ólafsmessu fyrri. Gaf Laurentius biskup Jóni bisk-

1) getg.; so, *A*. 2) gat á bókfellinu.

upi hinar sæmiligustu gjafir ok svo þorláki ábóta. Skildu þeir þá svo at sinni með mestri blíðu. Riðu þeir þaðan til Glaumbæjar, ok gaf Rafn bóndi biskup Jóni miklar gjafir. Reið hann þá til þíngeyra; vóru þeir [Guðmundr ábóti[1] miklir vinir, var hann þar ok gæddr sæmiligustu gjöfum; var hann á Breiðabólstað *in festo Laurentii*, söng hann þar messu ok prèdikaði, ok gaf sira þorsteinn honum sæmiligar gjafir. Reið hann svo it vestra í biskupsdæmi sitt, ok varð þessi norðrreið Jóns biskups hin vinsælasta.

53. Nú er frá því at segja, at Laurentius biskup lætr saman safna trèsmiðum, ok lætr gjöra upp klaustrit á Möðruvöllum, fáandi þar til skrúða ok klokkur. Postula klokkur vóru norðr fluttar fra Hólum [ok] enn söngmeyjar fimm[2]; var innan lítils tíma þetta gjört með svo góðum kostum, sem enn má auðsýnast í dag; fór svo fram allt í kyrleika ok náðum um sumarit ok allt fram í langaföstu [inu eptirfarandi[3]. Reið bróðir Íngimundr á föstu suðr í Skálholt, vissu menn eigi erindi í fyrstu. Var bróðir þorgeirr skipaðr prior á Möðruvöllum, en þorkell Grímsson ráðsmaðr. Nærri *passionem domini* kom sendimaðr frá Jóni biskupi með eina *inclusam*[4]; var þat brèf stutt ok fáort; næst *salutacione* stóð svo: at „bróðir Íngimundr af Möðruvöllum kom svo at oss óvörum, at vèr vissum eigi heldr en himin mundi bresta; flutti hann, at þèr, herra Laurentius biskup, hefði[t] eigi haldit þat sáttmál, sem vèr sömdum á Möðruvöllum í sumar; því sjám vèr eigi oss annat standa, en ríða norðr at sumri, ok leggja endiligan úrskurð á sagt mál." Við þetta brèf varð Laurentius biskup bæði styggr ok reiðr, segjandi fyrir sínum trúnaðarmanni, at hann kvezt annars vænta af Jóni biskupi þá er þeir skildu næst á Hólum, [en at hann] mundi svo skjótt um venda sinni vináttu viðr hann, ok trúa því, at öllu óprófuðu, [sem óvinir hans fluttu, at hann ryfi þá sættargjörð, sem þeir bræðr gjörðu sín á meðal; sagðist hana vilja í öllum greinum halda. þat annat, at firir þat sama sáttmál, sem þeir bræðrnir gjörðu sín á meðal, var ent ok úti þeirra vald, Jóns biskups ok þorláks ábóta, yfir at dæma sögðum málum, ok sýndi þar til kirkjunnar lög. Kallaði

1) [ b. v. e. getg. 2) getg.; fire, *A*.
3) getg.; [ v eptirfaranda, *A*. 4) hèr byrjar aptr *B*.

hann at sèr presta sína fremstu, sýnandi þeim kirkjunnar lög hèr til[1]. Um vorit eptir páska, á Jóns dag Hólabiskups, sendi hann sira Pál Þorsteinsson í Skálholt með brèfum; hafði hann saman sett stórt brèf, í hvert hann setti *allegationes juris*, at þeir Þorlákr ábóti hefði ekki vald síðar meir yfir at dæma sögðu máli, fyrir þat sáttmál, sem þeir bræðr höfðu gjört sín á meðal. Brèf fyrirsagt Laurentii biskups fèkk sira Páll herra Jóni biskupi, ok svo sem hann hafði þat yfirlesit, varð biskup mjök styggr, segjandi, at fyrir þetta brèf mundi hann einnig fram fara sem áðr. [Jón biskup spurði þá sira Pál[2], hvort hann skyldi nokkut aptr skrifa [þat] sem hann hafði áðr fyrstr skrifat, at hann mundi norðr ríða enn um sumarit, yfir at dæma Möðruvalla-málum, en sira Páll sagðist ekki hirða at fara með þeim brèfum. Biskupinn sagðist ekki mundu skrifa annat. Fór sira Páll aptr til Hóla, ok sagði Laurentio biskupi [svo] gjört. Leið nú fram yfir hvítadaga.

54. Á *trinitatis* messudag kómu tveir djáknar af Skálholti ok maðr með þeim til Hóla; var þat Þórðr djákni, sonr Guðmundar lögmanns, hverjum Laurentius hafði kennt, ok tekit hann úngt barn á Þíngeyrum, ok lagði alla ástundan at kenna honum, svo at hann var framasti latínuklerkr ok góðr *versificator*; stóð honum illa at fara með nokkurn þann boðskap, sem honum var í móti, sem Laurentius biskup sagði honum. Annarr djákni hèt Gregorius. Þessir djáknar kómu í skrúðhús, sem biskupinn var af skrýddr; kvaddi Þórðr biskupinn, segjandi honum, at hann hafði brèf ok boðskap biskups Jóns at lesa fyrir honum. Biskupinn svaraði, at hann mundi þann einn boðskap hafa, sem honum ok heilagri kirkju mundi engi bati í vera, „þarftú, Þórðr, ekki þik til at bera at lesa nokkur stefnubrèf fyrir mèr hèr á staðnum, þvíat ek vil þau engin heyra". Ok svo sem Þórðr ætlaði upp at lesa brèfit, stökk biskup upp ok burt af skrúðhúsinu, ok allir klerkar með honum. Ok sem Þórðr sá þetta, talaði hann: „ekki gjörir mèr þetta, [sè ek nú at[3] biskup vill ekki heyra boðskap Jóns biskups". Laurentius [biskup] sagðist ekki vilja lífga vald þeirra Jóns biskups ok Þorláks [með því], at heyra nokkurt stefnubrèf þeirra.

---

1) [ v. i *B*. 2) [ leiðr.; Sira P. sp. þ. J. b., *A*.
3) *B*; síðan, *A*.

Gekk biskupinn þá til borðs ok bauð djáknum til borðs með sèr; sátu þeir sunnudaginn vel plagaðir í mat ok drukk. Um morgininn eptir fóru þeir til borðs eptir formessu, ok sögðust ætla at ríða síðan skyndiliga, ok tóku hesta sína ok lögðu á, ok svo sem hámessa söngst[1] ok eptir *offertorium* í messunni var þórðr djákni kominn fyrir Maríu altari, ok byrjaði upp brèfit; sat Laurentius biskup í sæti sínu. Ok sem Laurentius biskup heyrði þórð uppbyrja brèfit, sagði biskupinn: „fyrirbýð ek þèr, þórðr, at lesa nokkut brèf, ok at gjöra rugl eðr háreysti í heilögu messuembætti". Í því bili hljóp sira Valþjófr or sæti sínu, ok greip báðum höndum um brèfit, ætlandi at hnykkja af honum; ok sem biskup sá þat, kallaði hann: „tak ekki af honum brèfit, en færit þá út með brèfit af kirkjunni, svo at þeir gjöri ekki rugl í heilagri messu". Hlupu þá klerkarnir at alla vega, ok stökuðu þeim út af kirkjunni með olbogum, ok læstu síðan aptr kirkjudyrum. Tók þá þórðr at lesa brèf út fyrir kyrkjudyrum í stöplinum. Síðan negldi hann brèfit með járnöglum í kirkjuhurðina; hlupu þeir síðan út á hesta sína, er þeir höfðu bundit fyrir ofan garð. Síðan lèttu þeir eigi sinni ferð fyr en þeir kómu í Skálholt, ok sögðu Jóni biskupi hvat gjörzt hafði í þeirra ferð, ok báru ekki á vægð söguna, at þeir hefði reknir verit nauðigir út af kirkjunni, leynandi því öllu, at biskupinn hafði þá vel tekit. Lèt biskup Jón sèr fátt um finnast, en prestar ok lærðir menn sáu brèfit fest á kirkjuhurðina á Hólum ok [tóku] ok lásu. Var þetta latínubrèf, heiðarliga diktað, sem auðsýnast mátti fráberligr klerkdómr Jóns biskups. Var þat efni í sögðu brèfi, at herra Jón ok þorlákr, dómarar skipaðir af Eilífi erkibiskupi, stefndu Laurentio biskupi á Möðruvöllu í Hörgárdal fyrir ákæru bræðra, at heyra þann dóm sem þeir sögðu á millum Hólakirkju ok Möðruvallaklaustrs; var stefnudagr nærri *translatione sancti Benedicti*.

55. Nú er frá því at segja, at þeir herra Jón ok þorlákr ábóti búa ferð sína norðr um land, var í þeirri ferð ok herra Ketill ok margir mikilsháttar menn, bæði lærðir ok leikir, ok kómu til Möðruvalla fyrir sagðan stefnudag, berandi með sèr kost ok drukk; þó hafði herra Laurentius svo ráð fyrir gjört, at þar væri fyrir búizt sæmiliga. Kallaði Laurentius biskup at sèr

---

1) getg.; söngr, *A*; um hámessu, *B*.

fremstu presta: sira þorstein skarðstein, sira Egil, sira Jón, sira Eirík bolla; hafði hann ætlað at visitera um norðrsveitir, en sat í Laufási þá er at leið stefnudeginum. Trakteraði hann þá, ok hafði ráðgjörð við presta sína, hvat ráðligast væri; kom þat ásamt með þeim, at hann skyldi koma til Möðruvalla í stefnudaginn, *þætti eigi ólíkligt*, at þeir dómar mundu fram fara einshverir með orskurð, at skaða kirkjunnar á Hólum, ef eigi væri þar svaramaðr hennar, en þætti eigi ólíkligt, at þeir kallaði hann óhlýðinn erkibiskupi, ok setti forboð eða stefnu til erkibiskups. Hann sýndi þeim lög kirkjunnar, at þeir áttu ekki vald yfir at dæma, síðan sáttmál kom á meðal þeirra bræðra, en sagði sik í öngu þat rofit hafa. þar kom, at hann lèt presta sína ráða, ok fór Laurentius biskup ok prestarnir á skipum yfir til Möðruvalla; fundust þeir biskuparnir úti í kirkjunni; vildi herra Laurentius víkja til at minnast við biskup Jón, en hann veik sèr undan, svo talandi: „hvort er þat satt, at þèr hafit boðit at leggja hendr á djákna mína í Hólakirkju, ok reka út?" — „Eigi kennist ek þat, at ek hafi boðit at leggja hendr á þá, en [ek kennist þat, at ek[1] fyrirbauð at gjöra nokkut rugl í heilagri kirkju, ok þat var mèr ok viljugt at heyra ekki brèf[it]". „Svo er mèr flutt", sagði Jón biskup, „at tveir menn muni hafa þat gjört, at leggja hendr á þá, er þat prestr yðar Valþjófr, ok skrifari yðar, er Sigurðr sniðill[2] heitir, reikna ek þá í banni, ok þeim vil ek ekki samneyta, fyr en þeir eru *leystir*, *en meðr því*, at þèr kennist eigi at þèr hafit þat boðit, mun ek eigi þat fram fara mót yðr". Lögðu þá margir góðir menn til, at hvorutveggju vægði við aðra. Vildi Jón biskup[3] borða ok sitja hjá sínum mönnum um kveldit, en Laurentius biskup ok hans menn sátu í annarri stofu. Um morguninn eptir kómu biskupar báðir í biskups-stofu, ok allir fremstu menn vóru þangat kallaðir; höfðu sunnanmennirnir mikla byrði af kirkjunnar lagabókum, hverjar þangat vóru bornar; byrjaði Jón biskup sitt mál með latínu, segjandi þeim sem skildu, hvat fram hafði farit í Möðruvalla-málum, þar bjóðandi herra Laurentio til annsvara. Herra Laurentius talaði á norrænu: „vita menn þat,

1) leiðr.; [ hann kendist þat, at hann, *A*.
2) b. v. *B*. 3) láta, b. v. *A*.

herra Jón, at yðr er svo mjúkt latínu at tala sem móður-túngu yðra, en þó skilr þat ekki alþýða, ok því tölum svo ljóst, at allir megi skilja, ok er þat mín tala ljósliga, at ek vil standa ok halda þá sáttargjörð, sem gjör var í fyrra sumar; prófist þat í nokkru, at ek hafi afbrugðit eðr mínir ráðsmenn, þá vil ek gjarnan um bæta". At þessu hans máli varð góðr rómr. [Jón biskup svaraði]: „þat brèf sem gjört var í fyrra sumar köllum vèr klókskapar-brèf yðart, ok þat þykir oss [ekki] svo mega standa, þvíat regla hins heilaga Augustini ákveðr, at ábóti eðr prior, sá sem settr er yfirboði klaustrsins[1], skal hafa vald bæði í veraldligum hlutum ok andligum, ok því viljum vèr, sem dóm[ar]ar erum settir ok skipaðir yfir þessu máli, á því standa, sem reglan býðr, at bræðr hèr á Möðruvöllum hafi vald yfir veraldligum hlutum sem innanklaustrs yfir andligum, ok svo gengr víðast um klaustr í heiminum, þvíat þat byrjar eigi, at bræðr sè ölmusumenn veraldarmanna, þeir [er] þjóna guði nátt ok dag. Munu vit með guðs vilja þat átækjast, dóm á [at] leggja með orskurði, ef bræðrnir skulu eigi ná at hafa þá rentu ok viðværi, sem reglan býðr, en formennirnir eru því skipaðir, at þeir skulu stjórna mega of[2] því gózi, sem staðirnir eiga. En ef prior er hèr skipaðr á Möðruvöllum yfir reglubræðr, ok skal hann engu ráða yfir veraldar-gózi, en bræðr krefði af honum þarfligra hluta til kostar ok klæða, vísar hann bræðrunum til biskups á Hólum, sem ábóti þeirra er, en biskup vísar til ráðsmanns síns, ok er stór dagleið í milli biskupsstólsins á Hólum ok klaustrs á Möðruvöllum; bíða þá eigi bræðrnir langa þörf; hins annars, at priorinn heimtir fram vandlæti reglunnar; eru sumir bræðr hlýðnari en aðrir óhlýðnari, því stendr priornum, at hygga hlýðna bræðr með einshverju eptirlæti tilheyriligu þeim sjálfum til hygganar, ok geyma betr sinnar reglu; nú hefir hann ekki til, en ráðsmaðr biskups á Hólum ræðr öllu gózi, ok vill eigi til láta, hvat sem prior skipar: verða eigi hlýðnir bræðr þá hugganarlausir, ok kann henda, at þeir hlaupi í samlag óhlýðinna bræðra. Skulu vit, sem dóm[ar]ar erum settir af erkibiskupinum, aldri samþykkja, at prior ok bræðr hafa eigi öll völd yfir veraldligum hlutum, hversu sem Jörundr biskup hefi[r set]t, ok

1) skal hafa valld bæði j veralligum hlutum. sem jnnan klaustursins, b. v. *A* (tvítekið). 2) af, *A*.

þó at hann hafi fagrliga gjört ok skipat í grundvallan klaustrsins, má vel standa um [at] bæta, ef nokkut hefir áfátt orðit í hans gjörð". Talaði herra Jón biskup með sinni snild svo fagrliga, at þat leizt mörgum lö[g], er við vóru, at prior [ok] bræðr hefði öll völd í veraldligum hlutum.

56. Laurentius biskup sagðist standa vilja á því sáttmáli, sem hann ok bræðrnir höfðu gjört hit fyrra sumarit; ok svo sem þeir biskuparnir töluðust lengr[1] við, var[ð] herra Jón biskup æ því harðari. Beiddist Laurentius biskup orlofs af stefnunni, at hafa ráðagjörð við presta sína; ok því fengnu af Jóni biskupi, spurði herra Laurentius prestana ok aðra sína trúnaðarmenn, hvat nú væri ráðligast upp at taka í sögðu máli, en allir viku aptr til hans sjálfs, lögðu þó sumir nokkut misjafnt til, ok fann hann þat sjálfr, af hverjum hug til var lagt. Þá talaði Laurentius biskup: „sè ek[2] hversu þetta mál mun til fara: ef Jón biskup ok Þorlákr ábóti fara með orskurði fram, dæmandi öll völd bræðrum yfir veraldligum hlutum á Möðruvöllum, lízt oss óvísara at erkibiskupinn taki þann orskurð aptr, en þó at vèr gjörim *pro bono pacis*, at bræðrnir hafi veraldligt ráð yfir gózi; þykir oss líkara, at erkibiskupinn taki aptr þá gjörð, sem vèr gjörum, ef honum þykir eigi skynsamlig, ok væri þá nokkur von, at hann vildi at hit fyrra sáttmál hèldist, [sem vèr gjörðum í fyrra sumar". Ok þat staðfestist í hans ráðagjörðum, at tálma með þessum hætti orskurðinn[3]. Sendir hann fram til þeirra tvo presta sína; kómu þeir aptr með því sendiboði, at þeir mundi at þeim kosti ganga. Gekk Laurentius biskup í stofu; vóru þá kallaðir bræðr; spurði Jón biskup Laurentium, at hverri sætt hann vill ganga við bræðr. — „Þat mun ek upp taka, sem margir munu virða mèr til lítilmennsku, at játa því, at bræðr á Möðruvöllum hafi völd yfir veraldarráðum, heldr en vèr deilim, ef erkibiskupinn vill þessa gjörð stöðuga halda". Bræðrnir játuðu at halda sáttmál; var þetta staðfest með handlögum, at herra prior skyldi skipast með bræðrum; skyldi [hann] hafa öll völd yfir staðnum ok öllu gózi, föstu ok lausu, svo utan klaustrs sem innan; var Þorgeirr skipaðr prior; lèt biskup Laurentius af[h]enda honum allt góz í föstu ok lausu, en reiknat var í burtu frá Hólastaðar góz, ok at þessu

---

1) *B*; lengi, *A*. 2) ok, *A*. 3) [ b. v. *B*.

gjörvu reið herra Jón ok þorlákr ábóti, [herra Ketill ok allir sunnanmenn[1], suðr á fjall; fèll sá orðrómr á af alþýðu, at Laurentius biskup hefði allt látið undir mælast fyrir þeim sunnanmönnum; skildu biskupar blíðliga, sem þeim stóð opinberliga, en þó ekki með slíkum kærleik ok vináttu sem fyrra sumarit. Visiteraði Laurentius biskup um norðrsveitir til Maríumessu, vóru þá tvö skip á Gáseyri ok ætluðu til Noregis um sumarit.

57. Nú er frá því at segja, at Laurentius biskup kallaði til sín sira Egil af Grenja[ðar]stað, ok meðal annarra hluta talaði hann svo til hans einsliga: „þat er svo fellt sem allir vita, hverir vegir á fèllu Möðruvalla-mál í sumar, at ek varð at vægja fyrir því ofvaldi sem at mèr gekk, þó at ek þættist á rèttu máli standa; uni ek illa við, ef svo skal standa þetta mál, at bræðr á Möðruvöllum skulu stjórna gózi öllu; munu [þeir] eyða upp með heimsku ok óvizku því gózi, sem herra Jörundr biskup hefir gefit í burt af Hólastaðar gózi, ok undir vald óvitra manna, en sú sættargjörð, sem gjör var it fyrra sumar, er ónýt gjör ok fyrir ekki haldandi. Nú [með því[2], sira Egill lærisveinn minn, [at ek[3] treysti [þèr] bezt ok framast til, at þú fullgjörir minn vilja, því hefi ek þèr fyrirhugat ferð fram til Noregis í sumar með brèfum mínum til erkibiskups, um þat erindi, sem til heyrir Möðruvalla-málum." Sira Egill svaraði: „kennist ek þat, at ek hefi af yðr margt gott numit, ok ek væri skyldastr til allra manna at gjöra yðvarn vilja; en þó kennir ek mik sjálfr, at ek hefi hvorki klerkdóm, vizku eðr málsnild, til þess at fara fram með þessum erindum, einkanliga mest fyrir þat, at svo mikils háttar menn hafa áðr at verit ok yfir set[ið] sögðu máli, hins annars, at þèr hafit nú sjálfir samþykkt ok styrkt með yðru innsigli, at bræðr skulu hafa sjálfir veraldarráð; skil ek, at þat veitir torsótt aptr at taka þá gjörð." „Vissir þú þat," sagði Laurentius biskup, „at þat gjörða ek *pro bono pacis*, at ek samþykkti síðari gjörð, því at ek sá, at óbæriligan skaða mundi Hólastað af leiða, ef þeir Jón biskup ok þorlákr hefði orskurðat bræðrunum fjárhaldit, ok þó mikit góz [á] ofan." At síðustu bað Laurentius biskup ok bauð honum at fara, talaði hann: „dýrt er drottins orð, skal ek svo gjöra sem þèr vilit."

---

1) [ b. v. *B*. 2) [ *B*; meigit þier, *A*. 3) [ *B*; hverjum, *A*.

Við þessi orð varð biskup harla feginn. Var þá tekit þegar sira Egli far á Gáseyri ok sveini hans. Sendi herra Laurentius biskup erkibiskupinum sæmiligar presentur, skrifandi með honum alla[n] *processum*, sendandi honum hvorutveggju sættargjörð. Skrifaði hann eina *s[ch]edula*, hvat hann hafði samansett af kirkjunnar lögum, ok síðan fyrri sættargjörð var gjör, vóru *judices delegati* endaðir sínu valdi, ok áttu ekki með gjöra sögðu máli. Ok sem skip var búit, tók sira Egill orlof af Laurentio; gaf þeim skjótt byr, ok lètu í haf, ok urðu vel reiðfara, tóku Noreg ekki langt frá Þrándheimi. Fór sira Egill sem skjótast á fund erkibiskups, ok afhendi honum brèf, boðskap ok presentur herra Laurentii biskups; tók herra erkibiskupinn því öllu vel, bjóðandi honum at vera á hans garði ok kosti um vetrinn með einum sveini. Þá sira Egill þat ok sat á ráðsmannsstól um vetrinn í bezta yfirlæti.

58. Í annan stað er frá því at segja, at herra Jón frèttir at Laurentius biskup lèt sira Egil sigla, ok þótti þat líkligt, at hann mundi fara með Möðruvalla-málum, sendi hann prest þann, sem hann hèlt fremstan í sínu biskupsdæmi, var þat sira Arngrímr Brandsson, er átti Oddastað. Skrifaði biskup Jón ok ábóti Þorlákr um Möðruvelli, reiknandi hvert sáttmál Laurentii biskups ok bræðra hafði gjörzt síðast, beiðandi erkibiskupinn, at hann mundi þá gjörð styrkja ok confirmera. Fór sira Arngrímr í skip, ok varð vel reiðfara, ok kómu við Noreg; fór hann sem skjótast mátti hann á fund erkibiskups, ok af[h]enti honum brèf herra Jóns biskups ok Þorláks ábóta, tók erkibiskupinn því vel, bjóðandi sira Arngrími upp á sinn garð með einum sveini, hafa þar sinn kost um vetrinn; skipaði erkibiskupinn sira Arngrími at sitja á ráðsmannsstól; skipaði ráðsmaðr þeim sendiboðum eitt lopt at sofa í; var svo kært með þeim, sem þeir væri kjötligir bræðr. Þat var mi[s]skipt með þeim athöfn um vetrinn: sira Egill kom sèr sem optast í kærleika við [erki]biskupinn, flytjandi sín mál ok *allegaciones*, þær sem Laurentius biskup hafði áðr látið notera upp fyrir honum; undirstóð herra erkibiskupinn skjótt, at sira Egill var hinn bezti klerkr ok jurista; var sira Egill jafnan í studio hjá erkibiskupi, ok flutti um Möðruvalla-mál, sýnandi erkibiskupinum þat sáttmál, sem þeir gjörðu, biskup Laurentius af annarri álfu, [en] bræðr af Möðruvöllum af annarri, svo ok eigi síðr, hversu vel þat sáttmál var haldit: látið smíða þeim

klaustr, ok kirkju uppreisa, ok fengit til klukkur ok skrúða ok sæmiligt viðværi; sýndi sira Egill þetta allt erkibiskupinum undir brèfum ok innsiglum sæmiligra presta ok svo eigi síðr leikmanna; kom svo innan lítils tíma, at erkibiskupinn trúði þetta allt satt vera sem hann flutti. En sira Arngrímr hafði aðra daga, því hann gekk dagliga til eins organsmeistara, er var í Þrándheimi, ok lèt hann svo kenna sèr at gjöra *organum*, en aldri flutti hann fyrir erkibiskupi um Möðruvalla-mál. Vóru sendiboðar í enu sæmiligasta haldi af erkibiskupinum um vetrinn.

59. Nú er frá því at segja, hvat fram fór á Íslandi síðan þeir fóru til Noregs. Svo sem bræðr á Möðruvöllum tóku stjórn yfir gózi, fór fram með lítilli forsjón; fèkkst í með prior Þorgeiri Uppsala-Hrólfr, ok margir bændr um Hörgárdal ok Eyjafjörð, ok varð kostnaðarsamt, því at setur vóru miklar á Möðruvöllum af þeim ok þeirra fylgjorum; þóttust bræðr eigi fá af Laurentio biskupi þat góz, sem þeim þótti sem Möðruvöllum hefði fylgt at fornu. Biskup sagði, at þeir hefði inóg at geyma, ok eigi færi þeir stefnligar með því gózi, sem hann hafði þeim látið í hendr fá; mislíkaði biskupi þat mjök, at leikmenn fengust í með þeim. Um vetrinn eptir jól reið prior Þorgeirr heiman af Möðruvöllum, ok ætlaði suðr í Skálholt; gisti hann á Reykjum í Skagafirði, bjó þar þá sira Þorleifr, er þá var mestr hörpuslagari á Íslandi; bar þat til um nóttina, sem hann var þar, at öll þau brèf, sem hann hafði meðferðar, vóru þau tekin burt fram, hver geymd höfðu verit í einu húsi ok söðlar þeirra. Höfðu margir bændr af Eyjafirði ok Hörgárdal skrifat með prior suðr til herra Jóns biskups í Skálholt; var þetta kennt sira Birni Ófeigssyni, er þá hafði prófastdæmi um Skagafjörð, at hann hefði sent drengi þá, sem fóru með honum, at komast at brèfunum, ok hefði hann fært biskupi; varð þetta ekki sannprófat hvat kvittað var. Fór prior Þorgeirr suðr í Skálholt, ok hitti herra Jón biskup heima; tók hann meðr honum með sannri blíðu; dvaldist hann þar nokkra[r] nætr. At síðustu, áðr prior Þorgeirr tók orlof, lèt herra Jón biskup fram bera kalek gylltan harðla sæmiliga[n], þar með hökla tvo, svo segjandi: „þessa gripi viljum vèr gefa til kirkjunnar á Möðruvöllum ok klaustrs hins heilaga Augusti[ni], til æfinligrar eignar, en oss til syndalausnar ok sálubótar; viljum vèr því svo gjöra,

at enginn megi þat með sönnu segja, at vèr hafim í nokkru sneytt klaustrið, ok eigi fèmútu til tekit at sinna bræðrum í málaferlum við Laurentium biskup, heldr at vèr sæim eigi annat sannara fyrir guði, [en] at bræðr hefði öll völd yfir gózi, svo utan klaustrs sem innan, hverjum sem þat er í móti." Skildi prior ok biskup með mestri blíðu. Mega þær gjörðir auðsýnast á Möðruvöllum innan kirkju, sem herra Jón biskup gaf þangat. Kom prior heim af suðrferð; mislíkaði herra Laurentio biskupi, at hann hafði farit í annat biskupsdæmi, ok beðit hann ekki orlofs áðr. Uppsala-Hrólfr ok hans fylgjarar, bændr af Eyjafirði ok Hörgárdal, styggðust í móti Laurentio biskupi, at brèf þau, sem þeir höfðu sent með prior þorgeiri til Jóns biskups, höfðu verit burt tekin, ok kenndu þat ráðum biskups; en með sannindi mátti þat eigi segja, þvíat hann vissi eigi fyrir suðfrerð priors, fyr en sira Björn sagði honum.

60. Um vorit eptir páska kallaði Laurentius biskup vini sína til sín, presta ok leikmenn; birti hann fyrir þeim, at hann vildi ríða norðr til Möðruvalla, ok sjá hversu bræðrum hefðist í höndum meðferð á Möðruvöllum, þvíat þat var þangat flutt, at bæði væri skortr á Möðruvöllum matar ok heyja. Reið Laurentius biskup norðr Heljardalsheiði; kom hann þann dag til Möðruvalla, sem hann hafði fyrir sagt með brèfi sínu; vóru þar fyrir eigi færri en fjöretigir manns, Uppsala-Hrólfr ok bændr af Hörgárdal ok Eyjafirði. Engin processia var gjör í móti biskupi, en bændr fyrsagðir stóðu þar með vopnum. Biskup ok hans menn gengu fyrst til kirkju; varð ekki af kveðjum bræðra við biskup. Sat biskup at máltíð í miklustofu; var svo skipat, at bændr sátu á annan pall, en biskup ok hans menn á annan; var bændum gefinn af bræðrum allr fríðari kostr en biskupi ok hans mönnum. Sat biskupinn þar eina nátt; talaði hann ekki við bræðr, ok eigi þeir við hann. Reið Laurentius biskup þaðan til Múnka-þverár, ok var þar tvær nætr; var þar hin sæmiligasta veizla, er Bergr ábóti veitti honum. Var þat orð, þá er hann reið af Möðruvöllum, at hann mundi ríða vestr aptr Öxnadalsheiði, ok koma ekki á Möðruvöllu. Sneri biskup eigi svo stafnhafinu. Af Múnka-þverá reið hann aptr til Möðruvalla; höfðu bræðr látið burt fjölmennit; var Benedikt Kolbeinsson með biskupi ok sveinar hans. Var

um kveldit gefinn biskupi matr ok hans mönnum. Um morgininn eptir gekk Laurentius á capitula ok bræðr, ok krafði prior at sýna sèr kost ok hey ok fènað. Prior ok bræðr sögðust mundu hvorki sýna honum kost nè hey eðr nokkurn annan hlut. Biskup krafði lykla ok fèkk eigi. Biskup sagðist eigi vilja því svara fyrir guði, at þeir eyði upp góz staðarins, en staðrinn á Hólum væri í ábyrgð um at bæta þeim aptr, ef auðn kæmi í gózit. Lèt hann þá lærða menn taka lykla burt af þeim nauðgum. Lèt biskup þá álíta gózit, ok sýndist hvorttveggja óbyrgt um mat ok hey. Skipaði biskup ráðsmann at stýra gózinu; svo ok skipaði hann ok prior, Steindór bróður Bergs ábóta. Prior Þorgeir hafði hann með sèr nauðigan; tók nú undir sitt vald öll klaustrsins ráð, áðr hann fór heim vestr til Hóla. Töluðu nú margir, at Laurentius biskup þótti snarpt til ráða, at hann tæki undir sitt vald veraldarráð af bræðrum, fyr en nokkut frèttist af erkibiskupinum, hversu hann vildi vera láta, eðr hvort hann sinnaði meir þeim erindum, sem sira Egill fór með, eðr sira Arngrími, vegna Jóns biskups. Laurentius biskup sagðist með fullu vita, at erkibiskupinn mundi vilja þat sáttmál haldast láta, sem gjört var it fyrra sumarit; sagðist hann þat vita af draumum sínum, ok svo eigi síðr af hugboði sínu. Svo er mælt, at ‚spá er spaks geta', ok varð hèr svo at því. Töluðu þá margir, at hann þótti mikit voga, svo sem óvíst var hversu erkibiskupinn mundi dæma þetta mál.

61. Nú er frá því at segja hvat fram fór í Noregi, at sendiboðar biskupa vóru á erkibiskups garði um vetrinn eptir. Flutti sira Egill alla tíma þá sem hann mátti erindi biskups síns, herra Laurentii biskups, fyrir erkibiskupi, en sira Arngrímr gaf meira gaum at nema organslist, en sinnti ekki at flytja við erkibiskup um Möðruvalla-mál, hversu þau gengi til. Um vorit eptir páska kom sira Egill fyrir erkibiskupinn, segjandi at liði tími; sagðist eiga langa ferð fyrir höndum, fyrst suðr til Björgvinar ok þaðan til Íslands; því at þá var ekki Íslandsfar í Þrándheimi. Erkibiskup veikst vel undir, ok sagði, at hann skyldi fá þau erindi sem hann mundi æskja; lèt kalla til sín einn af kórsbræðrum, þann sem bezt kunni latínubrèf at gjöra, ok sagði honum efni, hvert vera skyldi: „skal sira Egill vera hjá þèr, ok segja þèr alla undirstöðu málsins." Gjörði hann

meistarinn boð erkibiskups, ok var sira Egill hjá honum. Annan dag eptir sýndi kórsbróðirinn erkibiskupinum brèfit, var þat latínubrèf, heiðarliga diktað. Ok eptir svo gjört þakkaði erkibiskupinn þeim fyrir diktan brèfsins. Hèt sá Hákon Úlfsson[1], sem var *notarius* erkibiskupsins ok hafði innsigli hans. Erkibiskupinn talaði til hans: „þetta brèf skaltú innsigla, ok af[h]enda sira Egli, sendiboða Laurentii biskups; skaltú þetta leynt láta, þar til hann er í burt af vorum fundi, þvíat vèr viljum engar ónáðir, beiðslur eða fylgi heyra eða hafa láta í þesshàttar málum; opinberar þú þetta, ok verðim vèr þess vísir, skaltú missa vora vináttu, ok missa þinnar þjónustu, þeirrar sem þú heldr af oss." Hákon Úlfsson innsiglaði brèfit; var hann svo ótrúlyndr sínum herra, at hann sýndi þat opna brèfit, áðr en hann fèkk þat sira Egli, einum kórsbróður þar á garðinum. Spurði sá sami kanúkr erkibiskup, hvort þat var satt, at hann hefði endiligan veg á gjört Möðruvalla-málum af Íslandi. Erkibiskupinn spurði, hverr honum hefði þat sagt; hann vildi í fyrstu leyna; varð hann síðan at segja erkibiskupinum, at Hákon Úlfsson hafði sýnt honum brèfit. Einn dag kallaði erkibiskupinn saman kanúka sína í málstofu sinni, tjáði hann sjálfr fyrir þeim öll Möðruvalla-mál, hvat fram hafði farit um sættargjörð þá, sem Lafranz biskup ok bræðr af Möðruvöllum höfðu gjört et fyrra sumarit, eptir því formi sem Jörundr biskup, góðrar minníngar, hafði gjört ok í fyrstu funderat, birtandi fyrir kanúkum þá, at sú skipan skyldi standa óbrigðiliga, „ok hana viljum vèr styrkja ok confirmera með erkibiskupsins valdi, en ekki halda hvert sáttmál sem þar hefir verit annat á gjört." Lèt erkibiskupinn nú lesa þat brèf, sem hann hafði þar út gefit um. Samþykktu þá allir kórsbræðr með erkibiskupinum þessa gjörð. Eptir svo gjört tók sira Egill blítt orlof af Eilífi erkibiskupi; gaf erkibiskup honum at skilnaði eina silfrskál sæmiliga, ok kirkjulaga bók, er *Tancredus*[2] heitir. Fór sira Egill af erkibiskups fundi með mestu sæmd, en sira Arngrímr hafði sik ekki frammi, þvíat hann sá, at erkibiskupinn vildi ekki annat, en þau málferli gengi svo til, sem nú var sagt. En fyrir ótrúleika þann, sem Hákon Úlfsson hafði gjört, lèt erkibiskupinn kasta honum í myrkvastofu, en síðan hèlt hann Hákon áðrnefndan í engum trúleika við sik.

1) vulpes, *B.* 2) Tancedrus, *A.*

62. Sira Egill fór suðr til Björgvinar, ok kom sèr í Íslandsfar; urðu þeir vel reiðfara, ok tóku Eyrar með höldnu ok heilu fyrir Laurentiusmessu; kom sira Egill heim til Hóla tveim nóttum eptir Lafranzmessu; varð Laurentius biskup feginn hans komu; ok sem sira Egill sýndi honum brèf ok boðskap erkibiskups, ok hversu nú höfðu til gengit Möðruvallamál, þakkaði hann guði fyrir ok svo sira Egli, hversu trúliga ok rös[k]liga hann hafði ræktað síns herra erindi, ok þat skrifaði erkibiskup, hversu trúliga hann hafði gjört hans erindi. Eptir þat lèt Laurentius biskup snúa latínubrèfinu í norrænu, svo at alþýða mætti skilja ok undirstanda. Fèkk Laurentius biskup mikla frægð af, hversu þessi málaferli enduðust. Síðan var [brèfit] lesit upp á kór í *predicatione*, ok svo fyrir bræðrum á Möðruvöllum, ok víða annarsstaðar opinberat; urðu nú öfundarmenn Laurentii biskups mjök hljóðir. Er þat í sannleik sú umtala, at hvorirtveggju biskupanna hafi mikit til síns máls, hvorr fyrir sik: herra Jón biskup vildi at lögin hèldist, þvíat þat mun lög ok regla hins heilaga Augustini, at bræðr hafi völd, svo utan klaustrs yfir veraldligu valdi, sem innan klaustrs yfir siðum ok reglu, ok þat er ósæiligt, at þeir sè haldnir sem ölmosumenn veralda[r]manna, sem herra Jón biskup vottaði sjálfr á Möðruvöllum, ok fyr segir í sögunni; en Laurentius biskup vildi standa á því efni, sem Jörundr biskup funderaði í fyrstu klaustrið; en því skulu þeir sem heyra þessa frásögn hvorigan[1] fyrsagðra biskupa lasta eða lýta í þessu efni, þvíat hvorrtveggi þeirra munu þykjast fylgt hafa rèttu máli; var ok Jóni biskupi þat engi mínkan, hversu erkibiskupinn vildi endiligan veg á gjöra þessu máli. Varð aldri með þeim biskupum Jóni ok Laurentio svo mikil blíða sem áðr. Lèt herra Jón biskup sèr fátt um finnast, hvílíkan veg erkibiskupinn hafði á gjört Möðruvalla-málum. Tók Laurentius biskup nú algjörliga undir sik öll völd á Möðruvöllum, skipandi þeim ráðsmann, ok hèlt bræðrna at öllu sem Jörundr Hólabiskup hafði boðit ok skipat þá er hann funderaði klaustrið; en þá bændr, sem í höfðu fengizt með bræðrum, kallaði biskup í forboði, sem var Uppsala-Hrólfr; var þat grundvöllr til þeirra mála, sem fram fór[u] millum biskups ok Hrólfs; var biskupi sagt, at Hrólfr

1) *B*; baðra, *A*.

hafði gjört launsátt við Klæng prest Hjaltason um konu sína Arnbjörgu; varð þat eigi ljósliga prófat, en þó sagðist þat, at fengust vitni þar til, at Klængr hafði Hrólfi penínga fengit; kom þat svo til um síðir, at biskup bar Hrólf mörgum sökum, ok setti hann af kirkju; stóð ok Hrólfr í þeim forboðum þar til Laurentius biskup andaðist. Vildi Laurentius biskup fram fylgja lögum heilagrar kirkju við hvern sem um var at eiga; var hann ok mjök nákvæmr í skriptum, sem prófast mátti af einum atburð er gjörðist á hans dögum, at einn klerkr, subdjákn at vígslu, sá er ættaðr var í Hnjóskadal, fór til Austfjarða; kom hann í Fljótsdalshèrað, komandi á Valþjófsstaði, ok á Maríumessu í föstu, sem hann var kominn þar, fylldist hann upp svo mikillar illsku með óheyriligri ofdirfð, at hann sagði sik vera messudjákn, ok bauðst til at lesa *evangelium* í messunni; var honum fengin stola, ok sem hann byrjaði at lesa guðspjall, þá sloknuðu öll ljósin í kirkjunni, ok svo sem við var leitað optsinnis af þeim sem við vóru, var þat líkast, sem blásit væri á; gekk fram lestrinn djákna, en ljós urðu ekki kveikt: þótti mönnum þeim sem við vóru þetta nokkut undarligt, en þó höfðu menn enga grunsemd af í fyrstu. Til bar hann ok sik í öðrum stað í kirkju at lesa guðspjall, ok bar eins við ok á Valþjófsstöðum, sloknu[ðu] ljós öll, ok urðu ekki kveikt; var nú grunr á grafinn, at hann mundi subdjákn vera at vígslu, en eigi messudjákn; var þetta sagt [Jóni] biskupi; bauð hann þá prófasti sínum at láta hann fara, þóat nauðgan, vestr til Hóla; var svo gjört; kenndist hann, at [hann] hafði lesit tvo tíma guðspjall opinberliga í messu. Sýndist herra Laurentio biskupi, at Jón[i] biskupi heyrði til málit, þvíat hann hafði brotið í hans biskupsdæmi. Sendi hann djákna suðr til biskups Jóns, ok ij menn með honum, at hann skyldi hvergi í burt hlaupa; skrifaði biskup Jón sunnan með honum til Laurentii biskups, fáandi honum vald til með opnu brèfi, at leysa hann ok setja honum viðrkvæmiliga skript. Setti biskupinn honum þá skript meðal annarra hluta, at sex messudjáknar skyldi setja honum nöktum sitt vandarhögg hverr, [svo hart at blóðvaka yrði af[1], þvíat biskupinn kallaði, at hann hefði með óheyriligri dirfð inngengit í djáknanna embætti, ok því væri verðugt at djáknar

1) [ þ. v. *B*.

slægi hann, hverra embætti hann tók at sèr án heilögum vígslum. Síðan leysti hann klerkinn, segjandi honum, at aldri mátti hann lögliga fram vígjast síðan, utan páfinn dispenseraði með hann; varð ok svo, at þessi djákni var kallaðr ferða-Árni.

Á þessum misserum, er þessir hlutir gjörðust, urðu hörmulig tíðindi: at Kristskirkja í Niðarósi brann, allt trèvirkit, en múrinn hrapaði þó víða, klokkurnar fyrirfórust ok margar aðrar gersimar. Skrifaði erkibiskupinn þenna atburð til biskupanna á Íslandi; var þá beðit fyrir kirkjuna um allt land, ok gafst stórfè.

63. Í þann tíma tók Laurentius biskup at sèr gullsmið, er Eyjólfr hèt, var hann vel hagr maðr; lèt Laurentius biskup hann smíða kirkjunni á Hólum texta tvo harðla sæmiliga, sem enn mega sýnast á Hólum; þar með sæmiligan kalek; lèt biskup reiða honum fyrir smíðina mikla leigu, ok sýnu meiri en vert þótti. Keypti biskupinn við gullsmið, at hann skyldi koma aptr um haustið, at Michaelsmessu, ok smíða þar um vetrinn [Laurentii-]skrín. Um vorit, nærri Bótólfsvöku, kom skip af Noregi á Gáseyri; var fyrir því skipi Bergr Jónsson; var hann lestreki erkibiskups; gekk skipit af Þrándheimi; kom Bergr áðrnefndr til Hóla, ok færði Laurentio biskupi mítru harla sæmiliga, er herra Eilífr erkibiskup sendi honum, ok þar með tvo buðka með *balsamum*; er þessi mítra nú bezt at Hólum. Mátti í slíku marka, hvern kærleika erkibiskup hafði til hans. Ombunaði hann þar í móti þrjátigi pakka vaðmáls; bauð biskup Bergi at sitja á Hólum um vetrinn, ok þat þekktist hann. Um haustið visiteraði Laurentius biskup um vestrsveitir; var hann á Kúlu at brúðlaupi Jóns ok Ín[gi]gerðar, vóru þar velflestir ríkismenn á Íslandi; prèdikaði herra Laurentius biskup þar, ok fannst mörgum skýrum mönnum um, at bæði væri talat kærliga ok þó góðfúsliga. Lagði þá þegar á at Michaelsmessu frer ok snjófa; sagði Laurentius biskup, at þat var hans ætlan at mikill mundi verða vetrinn; kom hann heim til Hóla *in festo reliquiarum*.

Þat gjörðist þá til tíðinda, at frú Hallbera abbadís á Stað andaðist; vóru þá gjör boð herra Laurentio biskupi; sendi hann þeim þau orð, at hann mundi koma til systranna eptir jól, nærri geisladegi, ok svo gjörðist. Var þá kosin systir Guðný Helgadóttir til abbadísar, en hún vígðist ekki fyrri en af Egli biskupi, næstum eptirkomanda Laurentii biskup[s].

64. Vetr þenna var mjök hörð veðrátta, ok varð heylítið á búum staðarins, en margt kvikfè; skrifaði Laurentius biskup heim til Hóla til Skúla ráðsmanns, at hann skyldi vel niðr drepa, þvíat hann sagðist hyggja at Michilsmessu, at mikill mundi verða vetrinn. Skúli skipaðist ekki við orð biskups, ok lèt eigi fleira drepa en at vana. Kom at brundtíð um vetrinn, ok vóru jarðbönn; minnti biskupinn Skúla á, at hann skyldi af láta fèit, þvíat nú var sagt, at örbjarga var fènaðr staðarins. Skúli gaf sèr lítið af hvat biskup sagði, ok var færra niðr drepit en var vant.

Eptir jól tók bróðir Árni mikinn krankleika, ok lá hann í langan tíma um vetrinn; hafði herra Laurentius biskup optsinnis mikla skapraun af hans afskapligum framferðum, sem mjök vóru í móti klaustrligum lifnaði. Bar þat til um vetrinn *in translatione Johannis episcopi*, at hann æstu ofverkir, ok þegar sem Laurentius biskup bèt fyrir honum bróður Árna, þá batnaði honum. Í föstunni einn tíma kom Laurentius biskup til bróður Árna; talaði hann þá fyrir honum mjök hart, áminnandi hann at iðrast hversu hann hafði fram farit, svo talandi til hans: „ef þú vilt því heita guði ok mèr, at þú skalt fara þegar eptir í klaustrið þitt at Þíngeyrum, sem þú missir mín viðr, þá mun ek þora at óverðugu biðja fyrir þèr til guðs, at þèr batni sóttar þessarar, þvíat í klaustrinu á Þíngeyrum máttu gjöra mikinn þrifnað, kenna ok skrifa; berztú þat fyrir at brjóta þetta vort boð, ok fara til Noregis, er þú missir vor viðr, þá óþrífst þitt ráð, þvíat vèr vitum, at þú leggst í ofdrykkju ok annan ófögnut, ok nýtr þá heilög kirkja ekki þinnar mentar". Lètti biskup eigi fyr við, en hann komst við ok táraðist beis[k]liga, játandi því at hann skyldi til Þíngeyra aptr fara, ok staðfestast, þegar hann misti biskupsins viðr; hver hans fyrirheit urðu miðr en hæfði; fór svo um hans æfi, sem faðir hans sagði fyrir.

Veðrátta tók at harðna, ok hèlt svo sömu harðindum fram; kom svo, at sauðfènaðr staðarins datt niðr unnvörpum í megrð, ok hefði svo betr verit ráðit sem Laurentius biskup vildi, at af hefði verit látið ok niðr drepit þá er hold var á, heldr en enginn hefði notið; var hann maðr svo forspár, at margt gekk eptir því sem hann sagði.

65. Um nóttina fyrir *annunciationem beate Marie virginis*, sem Laurentius biskup hafði ætlað at fara til óttusöngs, sem hríngdi, kenndi hann sèr þýngdar ok krankleika, segjandi sínum

heimugliga [vin], [Einari djákna Hafliðasyni[1], at hann mundi eigi út fara til söngs, ok bað hann út fara ok sýngja, þvíat nokkrir klerkar vóru krankir. Þessi sjúkleiki, sem herra Laurentius biskup tók þá at sinni, vóx með honum dag frá degi, svo at hann neytti nær einkis matar, ok því dró [af] mættinum; þó gekk hann hvern dag til hámessu með stuðníng Einars djákna. Var Maríumessa þá mánudaginn í síðustu viku föstu. Aldri lèt hann þurföstu sína, þó at hann væri krankr. Páskadaginn var hann at tíðum, sitjandi í sæti sínu; lèt hann segja sèr messu í skrúðhúsi, ok tók þá *corpus domini*. Um daginn sat hann eigi inni hjá prestum, en[2] við kveldit þýngdi honum; ok sem aðrir menn vóru farnir til svefns, reikaði hann um timbrstofu, ok lagði sik upp í pallinn; sendi hann Einar djákna út, at sjá hvar stjarna var komin, ok sem djákninn kom aptr, talaði biskupinn til hans: „dreymdi mik draum, kompan", sagði hann, „ek þóttist liggja í pallinum, ok hèlt ek upp hendinni hægri, ok þóttist ek halda í hendinni heilags[3] manns bein, ok var þat langt bein, ok hugsaði ek, at þat bein skyldi ek láta geyma í Laurentius-skríni"; hafði biskupinn látið Eyjólf gullsmið gjöra skrínit um vetrinn, hvert má auðsýnast at Hólum yfir háaltari. Einarr djákni svaraði: „þetta er allgóðr draumr ok góðmannligr". Biskup svaraði: „harðindi hafði ek þar í hendi, þvíat bein er hart, ok mun merkja sótt mína". Annan dag í páskum gekk hann í studium sitt mjök krankr, settist hann í sæti sitt, bjóðandi Einari djákna fram draga eina stóra kistu, fáandi honum lykil upp at lúka; hafði biskupinn sjálfr haft lykil at þessari kistu, en djákni at öllum öðrum í fatabúri, hverjum hann bauð upp bera or kistunni ok breiða um gólfit; taldi djákninn þar fimmtigir penínga ok tvær silfrrósir, hverjar vógu xvij merkr ok xx, silfrspænir þrír ok xx, fimm sylgjur ok þrjú nisti, brotasilfr ok enskir peníngar nokkrir. Vógst þetta vj merkr ok tuttugu, ok tvo aura. Þar var ok kalekr, silfrbelti, lindar þrír, tannspjöld; þar með tók hann upp or einum buðki x fíngrgull; hafði hann látið kalla Skúla ráðsmann. Talaði biskup þá til hans ok djákna: „hèr megit þit sjá þá hluti, sem ek hefi saman dregit ok aflat staðnum hèr á Hólum síðan ek varð biskup; eru hèr komnar biskupstíundir mínar. Sumt

1) [ þ. v. *B*. 2) *B*; þvíat, *A*. 3) Hèr þrýtr *B*.

af þessu hefi ek keypt, en góðir vinir mínir gefit mèr sumt, ok því hefi ek saman safnat, at ek ætlaða at þetta skyldi staðnum bezt henta". Þá svaraði Skúli: „þarfari þætti mèr staðnum matr ok kvikfè". — „Mæl þú eigi þat Skúli", sagði djákni, „ekki má staðnum vera sæmiligra ok þarfara [en] gull ok brent silfr, þvíat mikinn fögnut má biskupinn láta smíða kirkjunni til prýði [með] þessu brendu silfri ok gulli, ef hann vill láta gjöra skrín eða tabula fyrir háaltarit". Þá tók biskupinn til orða: „þess var rètt von vizku ykkrar sem nú mátti heyrast í ykkrum orðum; hefir þú nú, Skúli, vel fyrir sèð kvikfjám staðarins, at þau [haf]a nú niðr dottið í hor, ok nýtir engi; en þetta, sem nú má hèr sjá, dettr eigi niðr nema því sè sukkat af mönnum". Bað biskupinn þá niðr leggja sem áðr var. Lèt herra Laurentius senda mann vestr til Breiðabólstaðar til sira Þorsteins með brèfi, at hann skyldi koma norðr sem skjótast. Annat brèf var sent til Grenja[ðar]staða[r] sira Egli, at hann kæmi til Hóla sem skjótast mætti hann. Kom sira Þorsteinn drottinsdag í páskaviku; varð biskup allfeginn honum. Mánudaginn birti biskupinn sira Þorsteini, at hann vildi gjöra *testamentum* sitt ok alla skipan sína, þvíat hann sagðist þat fyrir sjá, at hann mundi fram stíga or þessari sótt. Sagði hann þá fyrir sjálfr hvílíka[1] skipan hann gjörði. Var sira Egill þá stund eigi kominn. Sira Þorstein Illugason skipaði hann *officialem* ok *vicarium in spiritualibus*, þar til annarr biskup kæmi til vörzlu. Klerkar [þeir er[2] vóru heima á staðnum [skyl]du hafa þar borð, þar til annarr biskup kæmi til; vóru ok nokkrir í öðrum stöðum; vóru þat átta eðr níu fátækir klerkar, er hann hafði tekit af fátækt ok húsgangi ok látið kenna saltara ok söng ok Latínu, svo at þeir urðu síðan prestar mjök svo allir. Til Þíngeyra staðar ok Múnka-Þverár gaf hann, sèrhvoru klaustri x^c^, ok svo gaf hann bræðrum á Möðruvöllum x^c^ sèr til hugganar. Ölmusumenn skyldu ok vera allir á staðnum ok at útbúum staðarins, þar til annarr biskup kæmi. Sira Þorsteini gaf hann xx stikur klæðis, [x hundruð vöru[3] ok fíngrgull sæmiligt; öllum kórprestum kyrtil sæmiligan hverjum. Skúla ráðsmanni gaf hann xv stikur klæðis með blátt. Til Einars djákna talaði hann svo: „annarr verðr nú skilnaðr okkar, en ek hafði ætlat at

1) þvilíka, *A.* 2) getg.; [ þessir, *A.* 3) b. v. *Ann.*

vígja þik til prests ok gefa þèr eitthvert sæmiligt *beneficium*, sem þú ert verðugr at hafa. Viljum vèr nú gefa þèr til hugganar, ok fyrir þjónustu þína dyggva ok holla við oss, [alklæðnað með skrúð, tabert kyrtla tvo með hettu; þar til skaltú stika þèr or fatabúri þrítigir álnir lèrepts; þar til skaltú eiga svæfil þann sem þú velr þèr, ok par skó[1]; værir þú betra makligr fyrir þína dyggva þjónustu viðr oss; bjóðum vèr yðr, sira Þorsteinn vinr, at þèr sendit hann suðr í Skálholt, ok vígist hann af Jóni biskupi, en síðan sè hann hèr heima kórprestr, þar til biskup kæmi; er hann ok svo af mínum lærisveinum, at ekki hefir mèr í móti gjört, meðan hann hefir verit í minni þjónustu". Öllum mönnum á staðnum gaf hann nokkra minníng: djáknum sex álnir lèrepts hverjum; Sölva bryta fimm hundrut[2]; Guðrún[u] ráðskonu viij stikur klæðis rautt ok psaltara; Þóri Ísleifssyni gestamanni hundrað; Sigurði steikara ílag norðr í Myrká. Bróður Árna syni sínum skipaði [hann] aptr í klaustr sitt at Þíngeyrum, skrifandi með honum til Guðmundar ábóta, hvat hann skipaði klaustrinu af því gózi, sem hann hafði; var þat nærri xv°, ok umfram klæði hans ok bækr. Var þetta allt gjört á mánudaginn. Á þriðjudaginn gjörði hann játníng sína fyrir sira Þorsteini. Síðan vóru ok kallaðir allir kennimenn, ok þeir heimamenn á staðnum, sem við vildu vera; veitti sira Þorsteinn honum oliunar embætti, ok áðr hann var smurðr talaði biskup enn, birtandi sakir þeirra manna, sem hann hafði sett í forboð, sem var Uppsala-Hrólfr ok hans kompánar, segjandi, at þeir skyldi svo standa þar til annarr biskup kæmi til, nema þeir sveri á dóm heilagrar kirkju, þá skyldi *officialis* leysa þá. Eptir þá hluti sem biskup talaði var hann smurðr; ok sem guðs líkami var borinn at honum, gjörði hann langan ok fa[gran] sermon, svo at margir þeir sem við vóru táruðust, en hann sjálfr mest. At endaðri oliun á þriðjudaginn, sem nú var frá sagt, mínkaði æ máttinn, en þó svo, at hann las sínar tíðir; lèt hann jafnan í sóttinni lesa fyrir sèr *Exposiciones* sæls Gregori páfa, ok Augustini bæn; var hann svo tárfeldr maðr í sóttinni, einkanliga þá er slíkir hlutir vóru lesnir fyrir honum, at

---

1) [ (Einari djakn gaf hann) gangara sêmiligan [þe at skilia (*afbakað úr:* þab[s]t kyrtla?). klēðe tuidreghin. þriatighe alna. lerefta. skinnhosur ok skua er bezst voru i fata bure, *Ann.* 2) ccc hundr., *Ann.*

aldri þornaði tárin á hans kinnum. — Föstudaginn í þeirri viku kom sira Egill til Hóla, ok svo sem þeir biskup fundust, reis biskup upp í móti honum í sænginni, ok faðmandi hann með fagnaði; töluðust þeir þá marga hluti við, sem eigi var öðrum mönnum kunnikt; birti biskup fyrir honum hverja skipan hann hefði á gjört; sýndist sira Egli þat á allar greinir skynsamligt. Laugardaginn bað biskupinn Einar djákna inn bera í timbrstofu, þvíat biskup lá þar, refla sæmiliga ok drykkjarstúta tvo búna. Talaði biskupinn þá til sira Egils: „refla þessa viljum vèr gefa þèr sira Egill, er þú mátt vel prýða stofuna þína með, ok þar með drykkjarstúta þessa. Vèr viljum ok gefa þèr gull vort, hvert vèr höfum látið gjöra ok borit, ok er í heilagr dómr af beini heilags Jóns Hólabiskups". Þá dró hann þat sama gull af hendi sèr, ok fèkk honum, ok svo sem hann sira Egill hafði ætlað at geyma gullit, þá greip biskup af honum gullit, svo segjandi: „ekki skaltú gullit fá fyrri en ek er dauðr, þvíat þá mant þú mik heldr"; gjörðist þetta ok svo; sagði biskupinn þá sira Egli, at hann vildi senda hann til Noregis þat sumar til erkibiskups, með þeim tíðendum sem gjörðist um framferð hans, sem hann sagðist vita at skjótt mundi verða. Vóru þá gjörð brèf þau, sem fram skyldu fara til erkibiskups; birti herra Laurentius fyrir þeim, at betr mundi henta kirkjunni, lærðum ok leikum í Hóla biskupsdæmi, at hafa íslenzkan biskup en norrænan, sakir þess at þeim er kunnigri landskapr. Til allra hluta skipaði biskup sem heill maðr um sína útferð, en allir menn máttu sjá hvat leið megin hans. Um[1] . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . .

1) Hèr þrýtr *A*, og vantar niðrlag sögunnar, um þrjá síðustu lífsdaga Laurentius, því hann andaðist Magnúsmessu eyjajarls (16. Apr.) en hana bar árið 1331 uppá þriðjudag.

Hinn síðasta dag síns lífs bað hann sira Egil ok Einar djákn lesa heilags anda tíðir sèr áheyranda; ok eptir þær lesnar talaði hann svá: „þit erut báðir mínir lêrisveinar, ok því biðr ek, at þit haldit þessum tíðum síðan dagliga". Eptir þat las bróðir Árni messu, ok gjörði biskupinn alla sína skyldu í messunni, ok *facta benediccione post missam super astantes*, gaf hann upp sinn anda til guðs, sem ek vildi venta. Váttaði ok sira Þorsteinn Illuga[son] því, at hann hefði hjá öngum þeim manni verit, at svá merkiliga hefði af heimi farit, sem herra Laurencius biskup, b. v. *Ann.*

# VIÐBÆTIR[1].

.....[22]. Eptir Jóns dag Hólabiskups riðu þeir Jörundr biskup ok bróðir Björn norðr til Möðruvalla í Hörgárdal; kölluðu þeir Hildibrand prest til sín, ok svo Þórð ábóta; gjörði biskup sáttmál millum þeirra; skildi líkami Solveigar hafa leg at Múnka-Þverá, en prestr var leiddr af með nokkru litlu, þvíat þat var til þrautar, at Jörundr biskup rèð einn öllu, við hvat manna sem skipta var, í Hóla biskupsdæmi, ok allir vildu svo sitja ok standa sem honum var ljúfast. At þessu sáttmáli var Laurentius ekki kvaddr, reið hann til móts við þá til Möðruvalla, urðu þá þegar margar greinir með þeim bróður Birni; fannst þat, at bróðir Björn vildi allt svo vera láta sem Jörundr biskup vildi. Laurentius beiddi hann, at þeir skildu rækta erkibiskups erindi, ok visitera Hóla biskupsdæmi, ok skoða eptir málaferlum, en bróðir Björn kveðst ekki vildu rekast um óbygðir, ok sagðist vildu fara til Noregs, en Laurentius sagðist fyrst vildu visitera, ok síðan í skip þat, sem var á Gáseyri. „Far sem þèr líkar", segir bróðir Björn, „ekki heftir þú mína reisu". Var þat ráðagjörð þeirra Jörundar biskups, at hann skildi fyrri koma til Noregs ok affrægja framferðum Laurentii; fór hann heim til Hóla með biskupi, ok skildu þeir Laurentius þar; þóttist hann nú kominn í vant efni, ógjör öll erindi í Norðlendínga fjórðúngi; ráðgaðist hann nú um við vini sína, hvat tiltækiligast væri; kendi hann þessa ráðagjörð Jörundi biskupi, þvíat hann vissi at þat var hans vili, at *visitatores* væri í burtu sem skjótast; ráðlögðu honum vinir hans fyrir norðan heiðar, at taka at sèr öll völd, ok visitera *sub negocio visitacionis*, ok fara fram móti Jörundi biskupi, ef hann vildi eigi hlýða boðskap erkibiskups. Skrifaði hann þá til sira Hafliða Steinssonar, vinar síns, en hann ráðlagði honum at hann skildi fara til Noregs samskipa bróður Birni, ok finna erkibiskup ok kórsbræðr jafnfram honum, en bað hann at varast sem mest at gjöra nokkut móti Jörundi biskupi, segjandi, at þó hann veri góðr klerkr, at honum mundi eigi lagit verða at sigra

---

1) Síðari hluti Laurentius sögu eptir *B* (AM. 180 b; sjá bls. 789, athgr. 1); þar sem stendr (!) eðr [(!), merkir að eitt eðr fleiri orð eru bjöguð, en framan í sögunni má sjá hvað rètt lesið er.

hamíngju Jörundar biskups. „Veit ek", sagði sira Laurentius, „at sira Hafliði, vinr minn, má þat ekki heyra, sakir vináttu þeirra Jörundar biskups, at nokkut sè honum í móti gjört; en ek skildunst til at gjöra boðskap míns herra erkibiskups". Var hann eptir í Norðlendínga fjórðúngi, en bróðir Björn þá af Jörundi biskupi góðar gjafir; skrifaði hann með honum til erkibiskups ok kórsbræðra í Þrándheimi.

Þenna vetr varð þat til tíðinda á Íslandi, at landskjálfti kom svo mikill fyrir sunnan land, at þar fyrir fèllu niðr átján bæir, xij. (!) í Noregi, at Jörundr erkibiskup tók sjúkdóm mikinn á þann hátt, at kom verkr í fótinn ok lagði upp í búkinn, tóku kórsbræðr þá af honum öll völd ok stjórn, svo [yfir] andligum sem veraldligum hlutum, svo at eigi var meir honum til þjónustu, en honum þjónuðu ij sveinar, ok steikari hans; vóru nú út skýfðir allir þeir, sem í hans verðskap höfðu verit, eðr með honum staðit í málaferlum. — [23]. Nú er þar til at taka, sem fyrr var frá horfit, at bróðir Björn var í burtu úr Hóla biskupsdæmi, en Laurentius var eptir; var hann eggjaðr af nokkrum, at skildi byrja upp *negocium visitacionis*, ok svo gjörði hann; vildi engi sinna hvat hann sagði; skutu allir sínum málum til Jörundar biskups, náði hann öngri yfirreið; síðan reið hann heim til Hóla, ok krafði biskup at boða upp gistíngar fyrir sèr, en biskup sagðist þess eigi skildr, sakir þess, at sá annar var í burtu farinn, er jafnhár var honum í öllu valdi. Laurentius sagði, at þó at hann veri úrdauðr, eða vildi vanrækja síns herra boðskap, skildi hann einn veg gjöra þat sem hans var skylda til. Samdi þeim ekki þar um; ok einn hátíðisdag þá nálegan fór Laurentius upp á kór, ok talaði hart af mörgum ósiðum, sem þar fóru fram heima á staðnum, mest af hórdómum ok frændsemis spellum, heyrði þat mjök til frændum biskups nokkrum, er menn vissu eigi at þeir hefði nokkrar opinberar skriftir, ok þó fleirum öðrum í Hóla biskupsdæmi; var þá þegar gjört mikit óhljóð at; endaði hann svo sína tölu öllum heyrundum, at hann bað menn af lètta sínum brotum, ok til betranar snúast. Gáfu frændr biskups engan gaum at hans góðum áminníngum, heldr vóru honum þegar eptir messuna af þeim mörg háðúngar orð veitt með brigzlum; urðu þá þegar margar greinir í með þeim biskupi, svo at um síðir snerist út í fullt hatr. Sá Laurentius, at hann

kom öngri hirtíng fram við fólkit, er biskupinn var honum svo mótdrægr; tók hann sèr þá far í skipi á Gáseyri.

Á sama sumri sendi Jörundr biskup utan einn prest, er Guðmundr Halldórsson heitir, með miklum peningum til erkibiskups ok kórsbræðra, ok mörgum brèfum til ásakanar Laurentio. Gjörðist Jörundr biskup þá mjök [með öllu móðr(!), sat löngum heima, ok visiteraði ekki; hafði Laurentius mörg málaferli [nú til at upp(!), sem vandrækiliga höfðu fram farit í Hóla biskupsdæmi, ok hjúskaparáml. Ok sem kaupmenn vóru seglbúnir, fór Laurentius til Hóla, ok töluðust þeir biskup við. Las Laurentius þá upp fyrir honum alla þá hluti, er hann hafði saman sett, af vandrækt ok ólögligum framferðum biskups, „vil ek ekki", segir hann, „leynast fyrir yðr, herra, at þessa hluti alla mun ek kunngjöra erkibiskupinum". Þá mælti Jörundr biskup: „bið ek þik, sira Laurentius, at vit leggjum niðr öll okkur málafelli, ok skrifum sáttgjarnliga hvorir með öðrum, vær fram með þèr til erkibiskups, en þú sker í sundr þetta brèf, sem þú hefir nú upp lesit oss til saka, ok sver þann eið, at þú skalt oss vera hollr ok trúr". — „Veit ek", sagði Laurentius, „at svo mikill er ríkdómr yðvarr, yfirvald ok höfðíngskap[r], at þèr getið mik sigrat ok undirlagt, en eigi heldr ek þá eið þann, sem ek sór fyrir mínum herra erkibiskupinum, at ek skildi honum sannyndi segja af framferðum biskupanna ok málaferlum". Ok þegar sem hann hafði varla úti þessa sína tölu, spratt upp herra Jörundr biskup, ok náði Laurentius ekki viðr hann at tala, ok svo skildu þeir, fór Laurentius norðr á Gáseyri ok svo í skip; lètu kaupmenn í haf nánd Bartholomeusmessu, byrjaði ekki mjök vel, ok vóru lengi í hafi, tóku norðr við Naumudal fyrst, en kvómu suðr í Þrándheim um haustit móti Michaelsmessu. En frá bróður Birni er þat at segja, at hann kom til Þrándheims at vorrar frú messu enu síðari; hafði hann boðskap Jörundar Hólabiskups, ok bar ei með frægð sögu Laurentio, segjandi, at hann hefði mörg þau brèf erkibiskups upplesit á Íslandi, er hann kvezt eigi vita hversu hann hefði at komizt. Kórsbræðr hlýddu ok fullgjarna á þenna flutníng, var sú þegar þeirra ráðagjörð, at nær sem Laurentius kæmi þar, skildi hann grípast ok allt hans góz, brèf ok skilríki, en kasta honum inn. Var þó þeim flutníngi mest trúat, sem Jörundr biskup hafði fram skrifat.

[24]. Nú er at segja frá Laurentio, at hann lèt flytja sik inn til bæjarins frá kaupskipinu, en þeir höfðu lagt við Hólm ok vissu sèr eingis ótta vonir, en kórsbræðr höfðu þegar njósnir um hans ferðir, ok sendi(!) sveina sína ok klerka niðr á bryggjur; ok þegar sem Laurentius steig upp á bryggjuna, var hann fangaðr; vildi hann brjótast við í fyrstu, en þá hljóp at þegar fjöldi vopnaðra manna, ok gjörðu ýmist at draga eðr berja(!) í milli sín, þó með öngri vægð, þar til sem þeir kómu at þeirri myrkvastofu, sem svívirðiligust var í býnum, ok þeir kölluðu Gullkittni, þar var honum í steypt; þar var bæði kalt ok illa þefat, ok svo myrkt, at ei sá handa sinna skil; síðan var hún læst með járnhurð. Hèlt honum fyrst við óvit, sem hann kom niðr á steinmúrinn; ok sem hann tók vitið, signdi hann sik ok bað guð hjálpa sèr; reistist hann þá upp, ok fann, at þar máttu ei fleiri inni vera en þrír, vóru þar ok ekki honum til hæginda inni. Svo var skjótt farit at þessu öllu, at hvorki kom Laurentius firir sik orði nè eiði til afsakanar sínu máli; ok sem sveinar kórsbræðra hafa svo við hann skilit, sögðu þeir húsbændum hvar komit var, en þeir senda þegar til Íslandsfarsins, upp at taka allt þat, sem Laurentius hefir þar innanborðs átt, en kaupmenn vildu til eingis svara, ok tóku til vopna, ok vildu verja alla ransókn; en hinir tóku þá svein Laurentii, ok vildu neyða hann til sagna, en hann sagði þeim öngan hlut. Vísir urðu þeir þó um góz Laurentii af nokkurum þrenzkum mönnum, er vóru í skipinu, var þat þegar fært upp í biskupsgarð undir vald kórsbræðra, minna ok meira, kistur hans upp brotnar, brèf ok skilríki tekin ok yfirlesin; sögðu þeir hann hafa nokkur erkibiskups brèf, sem hann hefði honum aldri út gefit, en þat varð þó ekki sannprófat. Höfðu kórsbræðr *capitulum* einir saman um daginn eptir sem Laurentius var inn kastaðr, ok vissu menn ekki hvat þeir trakteruðu.

Nú er at segja frá Laurentio, at hann var [í] myrkvastofu tvær nætr, ok kom engi maðr til hans, utan sá sem honum færði kveld ok morgin lítið brauð ok flesk, ok þar með súrt mungát; neytti hann þess nær ekki. Hlupu nú saman sveinar erkibiskups, ok þeir sem verit höfðu kunningjar hans fyrr þar í býnum, segjandi ljósliga, at þetta væri syrgiligr hlutr, at grípa manninn ok inn kasta ok svelta, ok prófa hans brot ei áðr, ok þar eptir dæma hans mál. Þeir segja þat auðprófat,

at hann hefði farit með falsbrèf til Íslands, ok komizt at innsigli erkibiskups, ok skrifat undir brèf með þeim skilníngi sem hann vildi. Þá svöruðu menn, hvar fyrir hann skildi eí ná at hitta erkibiskup. Þeir segja, at hann veri honum svo reiðr fyrir flutníng bróður Bjarnar ok brèf Jörundar biskups, at hann vildi ei sjá hann, en þat vóru engin sannindi, þvíat öll brèf ok boðskap tóku þeir til sín, ok öllum minnum málum skipuðu þeir, ok stjórnuðu öllum hlutum, svo andligum sem veraldligum, en erkibiskup lá í krankdómi sínum einkis hlutar ráðandi. Eilífr var *officialis*, er síðan var erkibiskup, en Auðunn rauðr var annarr fremstr ok mest metinn af öllum höfðíngjum; Sighvatr landi var dauðr. Vóru [þeir] Eilífr ok Auðunn Laurentio þýngstir, fyrir þá sök, er hann hafði lesit yfir þeim bannsetníngar brèf, sem fyrr segir. Sira Salamon var nýorðinn kanúnkr, ok fyrir litlu kominn frá *studio*, hann lagði heldr í sinni við Laurentium, ok ij aðrir, en þá vóru allir aðrir honum mótstaðligir.

[25]. Þar er nú til at taka sem dagþíng kanúnka var; út lètu þeir kalla Laurentium í þat herbergi, sem þeir .ij.(!) vóru; sátu þeir allir [á pellum, sem möguligt var(!), en Laurentius var settr niðr á gólfit, ok fjötr á fótum honum, var maðrinn mjök lágtalaðr, þvíat liðit hafði at honum ómegin í myrkvastofunni, en áðr hafrekinn. Hann heilsaði þeim, en þeir vildu ei taka kveðju hans. Þá mælti einn þeirra: „alt hrópaðir þú hærra, Laurencius, er þú last bannsbrèf yfir oss". — „Eigi megi þèr at rèttu kunna mig þess", segir hann, „þó at ek gerði boðskap míns herra". — „Nú skal opinbera", sögðu þeir, „hvílíkar sakir vær gefum þèr". Var þá lesit brèf þat, er þeir höfðu gert, ok vóru honum þar gefnar í ij sakir, önnur sú, at hann hefði falsat brèf erkibiskups, en önnur sú, at hann hefði sukkat ofre hins heilaga Ólafs konúngs þá hann var þess meðtökumaðr; var honum sjá sök aldri gefin áðr hann fór til Íslands. Þá vóru lesin brèf þau, sem Jörundr biskup hafði fram skrifat honum til þúnga; báðu þeir hann at kennast þessar sakir óþyndr, ok hètu þá at sinna hans máli. Hann segir þá: „í yðru valdi er nú, at pína mik sem yðr líkar, en ekki sanna ek þat upp á mik, sem ek er ei valdr". Þeir hlupu þá upp allir, ok mæltu: „oflítt er hann enn prísaðr, hann mun fleira segja, ef hann ferr enn aptr í stofuna". Þeir buðu honum at

lyktum tvo kosti: annat, at gera þar slíka skript í Noregi, sem *officialis* setti honum, eðr fara út aptr til Íslands undir vald Jörundar biskups, ok vera í haldi þar til. Hann kvaðst þann kjósa mundu, sem þeir mundu síðr ætla, at fara út, ok [vera] undir valdi Jörundar biskups. *Officialis* lýsti þá, at hvert þat plagg, sem hann hefði með farit, skyldi Niðaróss kirkja eignast; var honum þá fengit þat herbergi, sem á var gluggr, sá er hann mátti lesa við tíðir sínar, ok fengit til kostar brauð nógt ok einnhvern rètt annan, ok þar með drekka mungát lètt; hafði hann fjötur á fótum um nætr; þrútnuðu upp á honum fætrnir, en skyrbjúgr hljóp í búkinn. Kómu Íslendíngar jafnan til gluggsins, ok töluðu viðr hann; báru margir menn til hans kost ok drykk, svo at hann hindraði ekki þar fyrir. Þetta var sagt kórsbræðrum, ok lètu þeir setja járngadda utan viðr glugginn, svo at enginn skildi mega tala viðr hann. Kom sú kona, er Þuríðr hèt Árnadóttir, er hann átti með pilt einn, er Árni hèt, optsinnis til gluggsins, ok færði honum nokkut til kostar eðr hjálpar, þat sem hún mátti.

[26]. Nú svo sem hann var í þessum þrautum, litu margir myskunnar augum til hans, ok sýndu honum nokkura huggun í orðum eðr gjörðum; var sama grimd þeirra kórsbræðra til hans, ok máttu þeir ekki heyra, at honum væri til afsakanar sinna mála. Einn tíma varð svo komit, at hann hafði fengit leyfi til at koma í þat herbergi, sem erkibiskup lá í sínum sjúkdómi, þó at óvitundum kórsbræ[ðrum] í fyrstu. Ok sem hann var inn kominn, ok fjötrinn á fótum, urðu kórsbræðr varir við; var hann þá þegar dreginn á dyr, ok farit með ekki vægiliga. Spurði þá erkibiskupinn, hvat hark væri í herberginu. Honum var sagt, at sira Lafranz var þangat kominn, ok vildi gjarna hafa talat við hann, ok var í fjötri, ok hann var þegar út dreginn nauðigr. Erkibiskupinn andvarpaði þá mæðiliga, ok mælti: guð virði við hann, undir hvílíkum þúnga hann á at búa af sínum mótstöðumönnum, ok þolir hann þetta allt fyrir þá dygð ok þjónustu, sem hann veitti mèr, en hvat mun tjá oss at finna hann, utan hvorumtveggja okkrum eykst harmr í: ek sè eymd ok vesöld á honum, en hann sèr hörmúng ok krankleika á mèr". Þá mælti einn hans þjónustumaðr: „þat þikkir honum þýngst, at honum er þat sagt, at þetta sè yðvarr boðskapr, at hann sè svo harðliga haldinn". Þá mælti erkibiskupinn: „hvar fyrir munu

menn slíkt tala, þar sem þeir kórsbræðr tóku öll völd af oss, þegar sem vær fèllum í þenna krankdóm, svo því síðr ráðum vèr nokkrum hinum stærrum framferðum, at vèr ráðum ei hvat vèr etum dagliga eðr drekkum; eru þeir ok þeim öllum grimmastir, er með mèr [vóru] í vorum málaferlum, er þat nú ok auðsýnt, at guð bannar ei at svo standi um tíma; en segit svo Laurentio, at hann beri sik karlmannliga, því at vonligt er, ef hann heldr lífinu, at guð sýni, hvorir á rèttara hafa staðit". Var þetta sagt Lafranzi, ok var honum mikil huggan at orðum erkibiskups; lètu kórsbræðr hafa þaðan frá miklu meiri varðhöld á Laurentio en áðr, svo at hann skildi hvergi mega brott komast. [27]. Góz hans allt var upp tekit, utan bókum hans varð undan komit með þeim klókskap, at ýmissir íslenzkir prestar eignuðu sèr þær. Var Laurentius í þessu haldi um allan vetrinn; var þat opinberr guðs vili, at hann misti ei lífit, en móti náttúru at hann hèlt heilsunni. Um vorit, fjórum nóttum eptir *festum Tiburcii*, andaðist herra Jörundr erkibiskup; var þá kosinn til erkibiskups Eilífr fyrrnefndr; var hann mikill höfðíngi ok góðsiðugr maðr.

Þat var til tíðinda á Íslandi þenna tíma, at brann kirkja í Skálholti, næsta dag fyrir Pálsmessu, svo skjótt sem er ein máltiðarstund drykklaust; var þá hvorki eptir kol nè aska; kom úr lopti sá eldr. Þá andaðist Höskuldr ábóti á Þíngeyrum, ok margir prestar ok bændr góðir á Íslandi; þat var kallat manndauðavor. Þá var ok veginn herra Kolbeinn Bjarnarson, af Karlamagnúsi ok Þorsteini. Í Noregi var sleginn í hel Ögmundr úngidanz. Ófriðr af hernaði Eireks Svíakonúngs. Utanför Árna biskups af Skálholti eptir kirkjubrunann. [28]. Nú er þat at segja, [at] kórsbræðr í Þrándheimi lètu sira Laurentium um vorit fara fjötraðan í skip ok skrifuðu með honum út til Jörundar biskups; lètu kaupmenn í haf, ok brutu fjötur af Laurentio; byrjaði þeim vel, tóku land á Gáseyri í Eyjafirði. Skjótliga var skilat boðskap kórsbræðra til Jörundar biskups, hverr at birti, at þeir sendu sira Laurentium undir hans umdæmi. Kom Lafranz þá heim til Hóla; ok sem hann gekk [inn] í þat herbergi, sem biskup var í, fèll hann á knè, en biskup stóð upp í móti honum, ok setti hann hit næsta sèr; var biskupinn [hinn] blíðasti við hann, ok bað hann hvíla sik þar um næstu iij nætr, en at þeim liðnum kallaði biskup Laurentium í skrúðhús

með kennimönnum; lèt hann þá lesa upp brèf erkibiskupsefnis ok kórsbræðra. Laurentius spurði þá biskupinn, hverr vegr vera skildi á hans máli. Biskupinn segir: „ekki treystum vèr at gefa þèr messusöng, sakir framferða kórsbræðra, en þú skalt at frjálsu vera fyrir mèr hvar á Íslandi sem þú vilt, svo í Skálholts biskupsdæmi sem hèr; máttu ok mikla nytsemd gera í læríng þinni". Laurentius mælti: „eingi hlutr þikkir mèr þúngari, en at hafa ekki messu-embættið". — „Ekki fær þú þat", sagði biskup, ok gengr síðan burt af herberginu. Eptirfarandi nótt dreymdi Lafranz, at hann þóttist standa yfir lestrkórinn þar á Hólum, ok halda á einni oblátu, svo hátt upp sem í messu, ok merk[t] á *alpha* ok *o*. Einum presti gömlum ok vel kunnanda, komnum um heiði, segir hann þenna draum, er þeir lásu um morgin; en prestrinn mælti: „þar sem þú þóttist kominn yfir kór hèr at Hólum, þar muntu um síðir vera skipaðr yfir þann kennimannakór, sem hèr á at vera; en þar sem þú hèlzt á oblátu, þar hefir þú hit æzta vald í höndum, ok var merkt á *alpha* ok *o*, þat þýðist endir ok upphaf; svo sem þú hafðir hèr skóla í fyrstu, svo muntu hèr enda æfi þína í æzta valdi ok heiðr skipaðr". — „þegi þú, prestr minn", sagði Laurentius, „því at svo sem ek er nú fyrir lagðr, munu mínir óvinir ætla at ek skulu aldri heiðrsmaðr verða, ok mun nokkur eiga annar en ek þenna draum". Frá Hólum fór Laurentius til þíngeyra, ok bauð Guðmundi, er þar var þá nýorðinn ábóti, at kenna þar klerkum ok bræðrum, en ábóti treysti ei við honum at taka fyrir Jörundi biskupi. þaðan fór hann á Breiðabólstað í Vestrhóp, til vinar síns sira Hafliða Steinssonar; tók hann við honum sem einum biskupi í öllum viðbúningi. Heimamenn sira Hafliða undruðu, er hann gerði sèr mikit um við þenna mann, þar sem hann var í óblíðu Jörundar biskups. þá mælti sira Hafliði: „þat munu nokkurir muna, at svo sem sira Laurentius er nú fyrirlitinn af öllum, at hann mun verða biskup at Hólum". Sira Laurentius fór þaðan austr í þykkvabæ í Ver; bauð þorlákr, ábóti þess klaustrs, honum at vera þar ok læra klerka, ok þat þekktist hann, ok kendi þar klerkum ok bræðrum um tólf mánaði, ok urðu margir góðir klerkar þar af þeim.

[29]. þat varð til tíðinda á þessum misserum, at Árni biskup Helgason kom út með kirkjuvið til Skálholts, ok hafði

mikit vald af kóng Hákoni, þá kom ok upp páfaboðskapr um Jórsalagjöf. Veginn Karlamagnús um haustið ok þorsteinn kumpán hans. Bólnasótt um allt Ísland, ok dó fjöldi fólks. Á öðru ári eptirfarandi var kennimanna fundr í Gallia, var Laurentius þá enn í þykkabæ ok kendi þar klerkum; kom þá sú vissa norðan, ok af Noregi, at kórsbræðrum mislíkaði, at Lafranz veri nokkut vel haldinn, þar sem hann ætti at vera í skriftum; vildi þorlákr ábóti þá ekki halda hann þar lengr. þá bau[ð] honum heim Hallr, son Sigurðar Seltjarnar, til Dals undir Eyjafjöll; var hann þar um vetrinn; en um vorit vildi hann gjarna í burtu, því at ekki vóru líkir siðir þeirra Halls; var honum þá jafnan áhugasamt, hvar hann mundi niðr koma at vistafari. Einn morgin, sem Laurentius lá í sæng sinni, mart hugsandi um sína hagi, hvat honum mundi til hjálpar verða, rann á hann lèttr höfgi; honum þótti maðr ganga inn í herbergit, þat sem hann lá í, ok framan at sænginni, í kennimannsbúníngi, svo talandi til Laurentii: „satt er þat, at þú ert í miklum þrautum ok nauðum. Eitt ráð vil ek leggja til með þèr, þat sem til betranar mun snúast þinn hagr: les þú dagliga tíðir af helgum anda, ok mun heilags anda miskun hugga þína hrygð ok leysa þína kvöl, en geym þú at gleyma þessu aldri". Eptir svo talat hvarf hann frá sýn Laurentii. Ekki varð honum fyrir at spyrja þenna mann nokkurs, ok ei hverr hann var, svo bar þetta skjótt at; ok sem hann vaknaði, þakkaði hann guði birtíngina, en byrjaði upp tíðahaldit, ok hèlt því dagliga til dauðastundar. Fám nóttum síðar kom Laurentio brèf frá þóri ábóta at Múnka-þverá, at hann bauð Laurentio norðr til sín, at kenna þar bræðrum ok klerkum um tólf mánaði fyrst, ok hèr hafði hann til orlof Jörundar biskups; fór hann nú norðr til Múnka-þverár, ok var þar vel við honum tekit, kendi hann þar bræðrum ok klerkum.

[30]. þat gjörðist til tíðinda um sumarit, at herra Christoforus kom út ok herra Ívarr hólmr. Andlát Evfemie drottníngar. Kómu sendiboðar páfans til Noregs. Á þessum misserum andaðist herra þórðr ok herra Loptr. Á næsta vetri eptir andaðist virðuligr herra Jörundr biskup á Hólum á Brigitarmessu. þá hafði hann biskup verit fjöritigi ára ok vj ár; reisti hann upp tvö klaustr, á Möðruvöllum ok at Stað í Reynissnesi; lèt hann upp smíða kirkju heima at Hólum, ok prýddi hana með

klukkum ok skrúða, ok auðgaði staðinn at löndum ok eignum, gulli ok brendu silfri, ok öðrum góðum gripum, svo at sýnast mun meðan Ísland er byggt. Þat er ei gleymanda hversu til bar sem Laurentius frètti fráfall Jörundar biskups: hann var staddr í múnkastofu at Þverá; var þá hríngt öllum klukkum til sálutíða. Sem tíðindin spurðust, stóð Laurentius upp sem aðrir skjótliga, ok með þeirri skyndíngu sinnar uppstöðu fèkk hann þann krankleika, sem aldri skildist við hann meðan hann lifði, en þat var smáþarma mein; vottaði hann þetta sjálfr fyrir einum sínum trúnaðarmanni. Jörundr biskup hafði skipat, áðr en hann andaðist, sira Þorsteini Illugasyni, er skarðsteinn var kallaðr, *officialatum*, en sira Koðran Ranason kallaðist vera *coadjutor* Jörundar biskups, skipaðr af Eilífi erkibiskupi; ok sakir þess, at hann hafði gengi mikit, tók Koðran at sèr völd öll í Hóla biskupsdæmi. Þenna vetr var Laurentius at Múnka-Þverá; um vorit kom sira Koðran þar, ok lèt lesa þar, sem annarsstaðar, þau brèf, sem honum hafði erkibiskupinn út gefit. Síðan spurði hann menn eptir, hvorr þeirra sira Þorsteins þeim sýndist *officialis* vera eiga; mæltu þegar allir sem eins munni, at hann væri því æðri í völdum, sem erkibiskup hafði í skipat hann, en sira Þorstein lýðbiskup. Laurentius sat yztr af öllum prestum. Þá mælti Koðran: „hvat lízt þèr Laurentius um, þú kannt vel kirkjunnar lög, hvorr okkar sira Þorsteins eigi at vera *officialis* svo sem nú er til komit?" — Laurentius mælti: „hví spyri þèr, sira Koðran, þvílíkra hluta? en látið heldr segja yðr kirkjunnar lagabækr heima at Hólum, þær ákveða þetta ljósliga; en kunnigt er þetta mál, at þèr vórut skipaðir *coadjutor* Jörundar biskups af erkibiskupi, at honum lifanda er hann var ellimóðr, en dautt sýnist mèr yð[vart vald, þegar] Jörundr biskup var dauðr. En með því at hann skipaði völd sira Þorsteini heill at samvizku á síðustum dögum sínum yfir allt Hóla biskupsdæmi, þá er þat minn skilníngr, at sú skipan eigi at haldast þar til sem annarr biskup kemr til." Viðr þessi hans orð varð sira Koðran mjök reiðr, ok mælti svo til Laurentii: „verð úti, vondr falsari, engi lög skaltu hèr um segja." Laurentius svarar: „út má ek ganga, en sjá vegr mun hèr um verða millum dýrra klerka, sem nú hefir ek sagt." Aldri mátti hann koma í augsýn sira Koðrani meðan hann var at Múnka-Þverá, ok fyrirbauð hann Þóri ábóta at halda hann þar lengr.

Sira Laurentius fór þaðan vestr til þíngeyra, tók Guðmundr áboti við honum feginsamliga; setti hann þar skóla, ok kenndi Latínu Guðmundi ábóta ok mörgum öðrum klerkum. Egill Eyjólfsson hèt einn djákn, er Laurentius elskaði fremst, ok lagði allan hug á at kenna honum Latínu; varð hann ok hinn framasti klerkr ok mikill *versificator;* hann lærði ok þórð, son Guðmundar lögmanns, ok Einar, son sira Hafliða Steinssonar, ok fátækum klerk kenndi hann, þeim er hèt Ólafr Hjaltason, ok var góðr klerkr, ok hèlt lengi skóla á Hólum.

[31]. Nú er frá því at segja, at á eptirfaranda sumri, frá því er Jörundr biskup andaðist, fór utan sira þorsteinn skarðsteinn ok sira Snjólfr Sumarliðarson, sögðu þeir til Noregs lát Jörundar biskups; var þá vígðr til biskups á Hólum Auðunn rauðr; var hann mestháttar af kórsbræðrum, ok var lengi fèhirðir kóng Hákonar í þrándheimi, ok honum hinn kærasti; hèlt hann langan tíma kirkjuna norðr á þrándarnesi, ok var forríkr maðr. Ólöf hèt dóttir hans, er átti Clemet bóndi, en fyrr átti hana sá maðr er þorsteinn hèt, ok vóru þeirra synir Eysteinn rauðr ok þorbergr rauðr; en Vígleikr hèt son þeirra Clemets ok Ólofar. Á þessu ári braut Uxann á Gáseyri. þá urðu missáttir kaupmenn við Gizur bónda galla, ok unnu á honum; þá var harðr vetr ok kallaðr [hrossa vetrs fellir(!). Á þeim vetri, sem Auðunn var vígðr til biskups á Katerínarmessu, andaðist Clemens páfi í Róm. þá var ok svikinn keisarinn á páskadaginn með þeim hætti, at þá er hann hafði bergt *corpus domini* var borit eitr í kaleikinn, er hann drakk af, ok þar fèkk hann bana af. Vann sira þorsteinn skarðsteinn mál öll við Koðran, sem Laurentius gat til, ok fóru þeir Snjólfr til Íslands eptir um sumarit með boðskap páfans at gjalda tíund af öllum kirknaeignum. þeir vóru ok skipaðir *officiales* af Auðunni biskupi um allt Hóla biskupsdæmi, en hann var eptir í Noregi um vetrinn; [32]. en um sumarit eptir fór hann til Íslands, ok kom út á Seleyri ok reið norðr Sand til Hóla; vóru þá fyrir allir mestháttar prestar, ok tóku ómetnaðarsamliga við biskupi; var hann mjök stirðr ok þýngdr af reið; höfðu þeir sira Koðran ok Snjólfr allt í fleymíngi við hann, fannst honum fátt um þeirra viðtökur. Hann lèt flytja sunnan af Seleyri timbrstokka, er hann lèt gera af timbrstofuna at Hólum. Um haustið visiteraði hann um vestrsveitir, ok vígði kirkju at þíng-

eyrum; var Laurentius þar þá; gaf Auðunn biskup engan gaum at honum í þat sinn; gafst ok Laurentius ekki fyrir honum. Vóru þá þegar margir hlutir talaðir fyrir Auðunni biskupi, sem engi þörf var í, en honum ókunnigr landskapr; ok sem biskup kom heim úr *visitatione*, rak hann burt sira Skúla ráðsmann, ok tók af honum allt hans góz. Mikit missætti gjörðist um vetrinn milli Auðunnar biskups ok sira Koðrans ok Sneólfs; hèldu þeir eitt báðir í móti biskupi. Tók hann Grenjaðarstað af sira Koðrani, en Sneólfr gekk þegar til sættar við biskup, ok þá Grenjaðarstað. Auðunn biskup hafði lítinn tíma heima setið, áðr hann leitaði hvar vera mundi leg hins góða Guðmundar biskups, þvíat þat var áðr svo vandrækt, at menn vissu ei hvar þat var í kórnum; var fyrst til grafit, ok fundust þar ekki hans bein. Þá var sent eptir Kolla smið Helgasyni, ok fór [hann], meir áminntr fyrir skuld Guðmundar biskups en at bæn Auðunnar biskups, þvíat með þeim var heldr fátt. En er Kollr kom til Hóla, bauð hann upp brjóta gólfit í framkirkjunni, miðaði [hann] svo glöggt á, at þar sem hann segir var undir niðri kista, ok í biskups bein, ok at öllu svo um búit, sem Jörundr biskup hafði honum frá sagt; tèðist fótleggrinn brotinn en knútarnir stórir sem von var, ok þar um hreinn línklutr. Segir þat í Guðmundar sögu, at brotnaði fótr hans fyrir Ströndum, er hann var klerkr með Íngimundi presti frænda sínum. Var þá til kallaðr Auðunn biskup, ok varð hann þessu mjök feginn; lèt hann þá gera at beinunum nýja kistu, ok búa um fagrliga með grind, ok setja innarliga í kirkjunni, frammi fyrir stóra krossi. Gerðist þá þegar sókn mikil til staðarins, ok áheit mikil um allt Ísland, ok urðu margar ok ágætar jarteignir; var þat mikil gipta Auðunnar biskups, at hann lèt fyrst[r] taka úr jörðu bein hins góða Guðmundar biskups; ok af þessi hans grundvallan hefir síðan eflzt ok aukizt heiðr ok virðíng þess blezaða biskups, allt til þessa dags; gjörðist þá þegar um hans daga þangat mikil sókn at Guðmundardegi; söng hann sjálfr fyrir sálutíðir ok sálumessu, ok heiðraði þenna guðs vin í öllum hlutum. Tók Auðunn biskup þetta af þeirri góðfýsi, sem heilagr andi blès í brjóst, ok þó enn nokkut af áeggjan kóng Hákonar, en áðr var hans engi minníng gjör framar en annara biskupa, því menn vissu ei hvar leg hans var.

Þá er Auðunn biskup kom til Hóla, var ekki hald-

inn upptökudagr hins heilaga Jóns Hóla biskups, súngnar tíðir at eins, en ekki heilagt; fyrir því gekk Auðunn biskup; at þá skildi halda heilagt um Hóla biskupsdæmi, ok sýngja innan kirkju *duppliciter*. Mátti af slíku marka, at Auðunn biskup var mikilsháttar höfðíngi. Hann hafði með sèr steinsmiðu, ok suðr frá staðnum, í fjalli því er Raptahlíð heitir, fann hann rautt grjótberg; þat lèt hann heim færa, ok gera af háaltarit, holt innan ok járnhurð fyrir, svo geyma mátti í dýrgripi staðarins, öruggt fyrir eldsgandi(!), ok allar þær gráður, er þar eru kríngum, ok færa innar háaltarit í húfuna, ok penta hana innan. Hann lèt ok gera upp(!) steinofn í timbrstofuna, ok smíða upp biskupsherbergin, sem fásèn vóru hèr á landi önnur; hann fèkk þangat skrúða sæmiligan með hökli Skinanda(!) er kallaðr er; varð staðnum kostnaðarsamt við þetta uppsmíði; hann var ok mjök gestrisinn, þvíat þótt hann hefði heima á staðnum stefnur við sína óvini, ok veri honum sagðr tími til máltíðar, þá mælti hann til sinna mótstöðumanna: „göngum til borðs, ok kunnum ekki matinn þess þó yðr mislíki við mik". Sigraði hann með því marga, at eptir þá gleði sem hann veitti þeim lögðu þeir öll sín mál á hans vald. Allt sitt embætti flutti hann sæmiliga fram; rödd hans var svo há ok[1] fögr, at mikil lyst var at heyra hans söng; bænahaldsmaðr var hann mikill; hann las þriðjúng Davíðs psaltara hvern dag, ok þriðjúng vorrar frú psaltara; hann vatnfastaði fyrir allar postulamessur, ok Maríumessur ok margar biskupamessur; fylgði hann tíðum öllum um langaföstu ok jólaföstu, ok hinar stærstu hátíðir.

[33]. Gregoriusmessu kómu saman at Hólum allir mestháttar prestar í Hóla biskupsdæmi; lèt biskupinn niðr falla messuna, er komit var at *evangelium*[2], þvíat hann reiknaði sira Koðran í banni, fyrir þá sök, at hann hefði látið bræðr á Möðruvöllum hafa veraldarráð, ok höfðu eytt miklu gózi, ok vildi biskupinn at Koðran bætti þat upp; önnur sú, at hann hefði tekit at sèr *offici[a]latum*; þriðja, at hann hefði gert samblástr móti honum. Vóru flestir hinir meiri prestar í mótgangi við biskup, utan sira Hafliði Steinsson; gaf biskup honum góðar gjafir, en þeir Koðran skildu ósáttir. Auðunn biskup dispenseraði með þessum prestasonum, þvíat hann hafði þar vald til af páfanum: Einari

---

1) hèr byrjar *C*. 2) ivn̄liū.

Hafliðasyni, þorsteini Hallssyni, Jóni Koðranssyni, Páli þorsteinssyni, þormóði þorkelssyni; urðu þessir allir framir menn til klerkdóms í Hóla biskupsdæmi frá því.

Á því ári varð Jóhannes páfi *vicesimus secundus*. Árni biskup fór til Grænlands. þá andaðist Íngjaldr biskup í Hamri. Á öðru ári er Auðunn biskup kom til Íslands urðu mörg tíðindi: þá brann kirkja ok klaustr á Möðruvöllum í Hörgárdal með klukkum öllum ok skrúða. þá brann ok klaustr í Niðarhólmi. Auðunn biskup tók ábótadæmi af þóri ábóta at Múnka-þverá. þá gjörðist ok missætti meðal [Auðunnar biskups ok] Guðmundar ábóta at þíngeyrum, fyrir þá skuld, at ábóti byrjaði kæru á Hólastað um biskups tíunda mál, þvíat hann kallaði, at hinn heilagi Jón, hinn fysti biskup á Hólum, hefði gefit þíngeyra klaustri árliga til uppheldis allar biskupstíundir fyrir vestan Vazdalsá í fystu, er hann funderaði klaustrið. þessar greinir appelleraði Guðmundr ábóti til erkibiskups, diktaði þá *appellacionem* sira Laurentius, ok stóð með ábóta í öllu því er hann orkaði. þenna sama vetr *in capite ieronimi* (!), varð Lafranz ok Árni son hans *professus* til múnks; hafði Árni fyrir ij árum komit af Norigi. Í föstunni var Laurentius vígðr til múnks ok Árni, son hans, af Guðmundi ábóta. þá gekk ok þar inn Bergr Sokkason; hafði Laurentius kennt honum áðr fyrr at Múnkaþverá; varð hann hinn framasti klerkr ok mælskumaðr allmikill, svo hann setti saman margar sögur heilagra manna í norrænu með mikilli snild; hann var söngvari góðr ok prèdikari heiðarligr; unnust þeir mikit, bróðir Bergr ok bróðir Laurentius. Bróðir Laurentius hèlt með svo mikilli góðfýsi reglu hins heilaga Benedicti, at hann gekk aldri út af sínu klaustri, utan ábóti byði honum fyrir einhverja nauðsyn. þagnartíma hèlt hann ok svo ríkt, at hann talaði ekki um nætr þá er *summum silencium* var, en lengstum Latínu þess í milli; hlýðinn var hann sínum formanni í öllu; hvergi vildi hann sitja utan í *conventu*, þótt ábóti byði honum hjá sèr at sitja; eingi var hans iðn önnur en lesa, kenna Latínu, ok studera í bókum. Árni son hans varð dýrr klerkr ok skrifari mikill. Fagrliga var þá þíngeyraklaustr skipat af lærdómi.

### Vígðr Eigill.

[34]. Á þessu ári var vígðr til prests Egill djákn Eyjólfsson

af Auðunni biskupi, ok var hann þá fyrst skólameistari heima at Hólum, þótti Laurentio þat allmikit er þeir skildu, þvíat þeir höfðu lagit saman allmikinn kærleika. Um sumarit eptir fór utan Guðmundr ábóti, ok var utan tvo vetr; gjörði erkibiskupinn ekki at málum þeirra Auðunnar biskups, þvíat hann vildi at Auðunn biskup væri til annsvara. Um haustið visiteraði Auðunn biskup um vestrsveitir; ok sem hann kom til þíngeyra, byrgðu bræðr fyrir honum klaustrið, ok önga *processionem* gjörðu þeir í móti honum; matr var til reiðu látinn hans mönnum, en öl var ekki; var bróðir Björn prior yfir klaustrinu, höfðu bræðr þar fyrir fjölda bónda, at verja biskupi klaustrið, ef hann vildi láta ásækja, en hann gjörði sik til þess ekki líkligan at nokkuru.

Sættust biskup ok [Laurentius].

Á öðru ári eptirfaranda varð þat til tíðinda, at þá andaðist kóng Hákon. Magnús, son Byrgiss hertuga í Svíaríki, svelti inn í einum múr bræðr sína tvo, Eirek langa hertuga ok Valdimar. Átti hertugi Eirek frú Íngibjörgu drottníngu. þá andaðist ok sira Hafliði á Breiðabólstað, mikilsháttar maðr; var hann um nokkura tíma kapelluprestr Eireks konúngs, en síðan lengi ráðsmaðr at Hólum ok at þíngeyrum. þá andaðist í Noregi sira Koðran Ranason, hinn merkiligasti prestr. Sira Egill varð aptrreka ok Grímr prestr Ófeigsson, er fóru með erindi Auðunnar biskups; var sira Egill þann vetr enn at Hólum ok í miklum kærleikum; þá kómu út um sumarit brèf, at utan var boðit biskupum báðum á Íslandi ok lögmönnum báðum, herra Katli þorlákssyni ok handgengnum mönnum vj ok bændum frömustum vj. Herra Grímr þorsteinsson tók lögsögn, ok Erlendr bóndi frá Upsum úr Svarfaðardal hafði lögsögn yfir Norðlendínga fjórðúngi. þá brann kirkja í Skálholti um [vetrinn] fyrir þorláksmessu. Var kosinn til konúngs Magnús Eireksson, dótturson Hákonar konúngs, yfir allan Noreg, Svíaríki ok Gotland. Var herra Erlíngr Viðkunnarson skipaðr dróttseti um allt Noregskonúngs ríki með ráði herra Eilífs erkibiskups ok alls fólks; var kóng Magnús þá þrèvetr at áratölu. Um sumarit eptir ætlaði Auðunn biskup til Noregs, ok varð aptrreka í Húsavík; var enn sira Egill með honum; sat biskup heima at Hólum um vetrinn. [35]. Um haustið gekk sira Egill meðal, at þeir Auðunn biskup ok bróðir Laurentius sættust; segir

Egill biskupinum, at honum var mikill styrkr at Laurentio ef þeir hèldi eitt. Sendi Auðunn biskup sira Egil ve[s]tr til þíngeyra, ok reið bróðir Laurentius með honum til Hóla, ok tók biskup sæmiliga við honum, ok játaði honum sinni vináttu, en Laurentius honum í móti sinni hlýðni; fór Eysteinn rauðr, dótturson biskups, með honum til þíngeyra, ok lærði Laurentius hann, ok varð [hann] framr maðr, ok hèlt lengi Maríukirkju í þrándheimi. þá varð enn ókyrt um vetrinn í Hóla biskupsdæmi, var biskup eggjaðr til at heimta skiptitíund af hundraði, ok þaðan af meira; höfðu einhleypíngar safnað fyrir biskupi í Höfðahólum, ok var búit við at þeir mundi leggja hendr á biskup, áðr Hrafn úr Glaumbæ gekk á milli ok aðrir góðir menn, ok játuðu fyrir biskupi(!) at hann skyldi öngva nýjúng á þeim gera um tíundargjaldit. Var mikit hallæri um vetrinn ok veðr ofsa hörð, ok lágu við hafísar. Auðunn biskup gekk fyrir um vorit, at heitið var á páskadaginn á hinn heilaga Johannes Hólabiskup, at hverr skattmaðr um Skagafjörð skildi gefa klippíng til líkneskisgerðar honum, en Hrafn Jónsson játaði fyrir at ganga. Varð svo skjót skipan á um veðráttu, at þegar páskadaginn, sem Jónsskrín skyldi út bera í *processione*, fèll norðanveðrit ok kuldinn í logn, en eptir hámessuna var kominn á þeyr ok sá tók af allan snjó ok jökul, en hafísa rak í frá, ok varð svo vöxtr góðr um vorit. þá varð ok missætti milli Auðunnar biskups ok sira Snjólfs, tók hann af honum Grenjaðarstað, fyrir þá sök, at hann vildi ei taka einn mann, er biskup skipaði þangat; lèt biskupinn sverja, at vij kennimanna skyld var á Grenjaðarstöðum; urðu ok enn fleiri greinir í millum þeirra; kom svo um síðir at biskup forboðað[i] Snjólfi(!) ok afsetti hann öllu samneyti kristinna manna; gaf Snjólfr engan gaum at því, ok fór til Noregs.

þetta sumar fór ok utan Árni biskup Helga[son] af Skálholti, ok andaðist í Björgvin um vetrinn. Varð Ormr þorsteinsson *electus* til biskups í Skálholt. Um vorit braut Skankann í ísum fyrir Austfjörðum; var þar á þórir ábóti ok Bergr Jónsson; fengu menn þeir, sem á skipinu vóru, með miklu vosi land; fór Bergr þegar á fund Auðunnar biskups með mörgum brèfum; sendi biskup Berg frá sèr suðr aptr á Eyrar ok taka sèr far. Um sumarit á þíngi tóku sik saman leikmenn af Norðlendínga fjórðúngi, at þeir vildu undir öngvar nýjúngar

Auðunnar biskups ganga; reið herra Grímr, ok margir mikilsháttar menn, til Hóla ok töluðu við biskup, ok linaðist hann ekki við orð þeirra, en þeir gengu til handa við hann, sem hánn hafði áðr fyrir sóknum. [36]. Um sumarit eptir fór Auðunn biskup til Noregs, ok með honum sira Egill í einu skipi, ok Ormr *electus*. [Var] sira þorsteinn skarðsteinn hans *officialis*. þeir tóku Noreg, ok fór Auðunn biskup norðr til þrándheims, ok fann þar Eilíf erkibiskup, ok fagnaði hann honum vel; sat hann þar um vetrinn. þat sama sumar kom herra Ketill þorláksson til Íslands með konúngs brèfum; var konúngi Magnúsi þá svarit landit. þá kom ok Guðmundr ábóti frá þíngeyrum, ok sira Jón Koðransson; hèlt hann skóla at Hólum um vetrinn.

Herra Auðunn biskup sat í þrándheimi um vetrinn ok hèlt mikla jólaveizlu, ok endist hún langt út yfir jólin; var erkibiskupinn marga daga í boði hans. Snemma á jólum tók Auðunn biskup krankdóm, kom í fyrstu í fótinn, um knèð, ok lagði verkinn upp í búkinn, kómu læknar til, ok var margs í leitað ok þýngdi æ við. Svo var mikil hans hreysti, at hann sat upp ok gladdi menn, sem honum væri ekki til meins; ok sem honum þýngdi alvarliga, talaði hann einn dag veizlunnar eptir Maríuminni við erkibiskupinn ok aðra sína vini, þakkaði fyrst guði, ok hans sætu móður, ok fyrir alla velgjörnínga sèr veitta, biðjandi alla nálæga menn at biðja fyrir sèr til guðs, ok ei síðr þá alla fyrirlátníngar, segjandi ljósliga, at hann mundi innan fárra daga fram fara af heiminum; gaf hann öllum fremstum mönnum þar veröndum sæmiligar gjafir, biðjandi þá at halda veizluna um þá(!) daga, hvat sem þá liði um hans efni. Siðan tóku menn orlof af honum, ok gekk hann burt með stuðníngi manna; lagðist hann þá í rekkju ok gerði alla skipan fyrir sèr, kjósandi sèr leg at Maríukirkju þar í býnum, með því at hann náði ei at liggja at Hólum á Íslandi, at þeirri Maríukirkju, sem hann var biskup at. Sem hann var oliaðr kom erkibiskupinn til hans, eptir spyrjandi, hverr honum þætti bezt fallinn til biskups á Íslandi at Hólum eptir hans dag. Auðunn biskup svarar þá: „margir eru sæmiligir kennimenn á Íslandi, en því viljum vèr svara guði, at þar er engi betr til biskups fallinn á Íslandi en Lafranz Kálfsson, bróðir at þíngeyrum; megum vèr þetta fyrir margar greinir sanna: fyrst þat, at hann

hefir þjónat undir heilagri reglu vel ok góðfúsliga; hann er hinn mesti klerkr til kirkjunnar laga, roskinn ok einarðr til allra mála, svo at hann mun eigi láta undan draga heilagrar kirkju valdi þann rètt, sem hún á at hafa, þvíat þess þurfa Norðlendíngar á Íslandi, at hafa þann biskup yfir sèr, at bæði sè stjórnsamr ok vel kunnandi at hirta þar óhlýðna ok þrjózka". Erkibiskupinn mælti: kunnigt var yðr þat, at hann var okkr mótstaðligr, er hann var með Jörundi erkibiskupi, þá er hann las bannsetníngarbrèf yfir okkr". Auðunn biskup svaraði: „meira eigi þèr at virða nauðsyn heilagrar kirkju en nokkra meingjörð okkr veitta; er þat ok makligast, at ef vèr höfum í nokkurum greinum offara orðit við hann, at vèr bætim nú með þessum heiðri yfir við hann; er Lafranz ok eigi þess kunnandi, þótt hann gjörði boðskap síns herra". Talaði Auðunn biskup þetta með svo miklum áhuga, at hann felldi tár við, en allir er nær vóru lofuðu hans orð. Ok sem Auðunn biskup hafði fengit alla guðsþjónustu, andaðist hann *Agnethis secundo* með mikilli frægð ok góðum orðstír; var hans útferð gjör með hinni mestu vegsemd. Var þeirri veizlu, sem hann hafði haldit, snúit upp í erfisveizlu af hans frændum ok vinum. Er þat almæli manna, at eigi hefði verit slíkr höfðíngi hèr á Íslandi sem Auðunn biskup var.

## Laurentius kjörinn.

[37]. Þat er nú at segja, at litlum tíma eptir fráfall Auðunnar biskups kallaði erkibiskup saman *capitulum*, trakterandi með þeim um biskups kosníng til Hólakirkju; var Eilífr erkibiskup á öngu öðru, en kjósa bróður Lafranz til biskups á Hóla, eptir ávísan Auðunnar biskups; staddist þat ok, með guðs vilja, at hann var til biskups kjörinn af Eilífi erkibiskupi á Hóla með samþykki allra kanúnka, ok var þessum kosníngi lýst á kór, at áðr súngnum tíðum ok hríngdum klukkum í Niðarósi at Kristskirkju. Þetta tíðinda gjörðist áðr, en Ormr Þorsteinsson, *electus* til Skálholts, andaðist áðr hann var vígðr til biskups. Þá var kosinn Ormr Steinsson til biskups í Skálholt; vildi hann eigi vera, ok gjörði *votum peregrinationis ad summa(!) apostolorum Petri et Pauli*, ok andaðist hann litlu síðarr. Eptir þat var kosinn Skurð-Grímr; var hann áðr ábóti í Hólmi í Niðarósi, var hann vígðr til biskups í Skálholti; var

hann iij mánaði biskup, ok spenti upp þrjú hundruð hundraða, er Skálholts kirkja átti, ok andaðist út í Höfnum, er kaupmenn lágu til hafs. Eptir þat var kosinn ok vígðr til Skálholts-biskups heiðarligr maðr Jón Halldórsson, var hann af prèdikara lifnaði, dýrr klerkr ok sæmiligr prèdikari; hafði hann lengi staðit at *studium* í París ok í Bononia. — Á alþíngi um sumarit þetta sama kom aptrreka skip af Noregi á Eyrar, var þar á frú Málmfríðr af Möðruvöllum; frèttu menn þá biskupa kosníng til Íslands, ok þóttust menn eigi vita, hverr Lafranz sá var, er til Hóla var kosinn[1].

Kónu brèf til electus.

Þat barst at þetta sumar litlu eptir þíng, at Guðmundr ábóti at Þíngeyrum var boðinn til Holtastaða í Langadal af frú Guðrúnu Þorsteinsdóttur, er þá bjó þar; þar riðu með honum ij klaustrbræðr, prior Björn ok Lafranz Kálfsson; ok svo sem þeir vóru heim í veg, ok komnir yfir á þá, er Blanda heitir, kom í móti þeim maðr, sá er Þorvarðr hèt, ok kallaðr biskup; hann sagði þeim skipakomuna ok lát Auðunnar biskups, ok at biskupar vóru kosnir til landsins, Jón Halldórsson til Skálholts en bróðir Lafranz til Hóla; ok svo sem hann var riðinn burt frá þeim, mælti bróðir Björn: „muntú eigi kosinn til biskups, bróðir Lafranz"? — Hann svaraði: „gjör mèr öngvan dáraskap, þat þykir mèr líkligt, at svo fremi hafi kanúnkar í Niðarósi mik niðrlagt, sem mörgum er kunnigt, at öngva væntíng hefir ek til þess, at þeir muni mik til nokkurs heiðrs upp hefja". Innan tveggja daga, síðan þeir kómu heim til Þíngeyra, kom brèf frá Málmfríði til bróður Lafranz, hvert er birti, at hún var hjá í Kristskirkju í Niðarósi, at hann var kosinn til biskups á Hóla; mátti hann nú eigi við dyljast, hver sannindi vóru hèr um. Varð honum þó mjök áhugasamt við þessi tíðindi; þakkaði guði ok hans sætu móður alla hluti sèr veitta; vildi hann ekki annat en at halda sæti sínu í kór ok klaustri sem áðr. Ólafsmessu síðari kom sira Egill Eyjólfsson til Þíngeyra, en fám dögum áðr á Gáseyri af Noregi; hafði hann ij brèf til bróður Lafranz frá Eilífi erkibiskupi með hangandi innsiglum; var sá skilníngr í öðru, at hann gaf honum upp allar þær sakir, sem hann hefði heilagri Niðarósskirkju í móti gert,

1) hèr þrýtr *C*.

erkibiskupinum eðr kórsbræðrum, setjandi þar í þá grein, sem kirkjunnar lög votta, at klaustra innganga er svo sem önnur skírn, ok at hvat hann hefir áðr gert í móti guðs lögum gefst honum upp, svo sem hann gengr undir heilaga reglu. Annat brèf var svo látanda, at erkibiskupinn með ráði ok skipan allra kórsbræðra, kaus bróður Lafranz Kálfsson til biskups á Hólum, með öllum þeim stètt ok heiðr, sem biskupligri tign ok vegsemd til heyrði, confirmerandi hans vald, at hann mætti sem skjótast öðlast með biskupsvígslu áðrgreint vald. [38]. At þessum boðskap settum ok yfirlesnum, þakkaði hann guði þessa gjöf sèr veitta ok vald, ok allir þeir sem nálægir vóru; má þat ok hverr sem einn fyrirstanda, at þenna mann Lafranz skipaði framar til heiðrs ok virðingar guðlig mildi, en ríkdómr eðr fèmúta, þvíat þeir sömu, sem áðr vóru hans mótstöðumenn, skipuðu hann nú í þetta vald, þvíat hinn helgi andi blès því í brjóst án manna fulltíngi.

Electus reið til Hól[a].

Þessu næst skrifaði herra *electus* til herra Ketils, er þá var hirðstjóri á Íslandi, at hann kæmi til Þíngeyra, ok sira Þorsteinn skarðsteinn; riðu þeir með honum til Hóla, var þar fyrirbúin veizla. Á Laurentiusmessu var lýst boðskapinum á kór um biskupskosnínginn, lýsti honum herra Ketill, ok hann leiddi *electum* til sætis, ok sira Þorsteinn, at súngnum tíðum ok hríngdum klukkum; lèt herra *electus* líta á góz staðarins, ok var mjök snauðligt tilkvomu, þó hafði rekit reyði svo mikla um vorit í Brimnesi á land staðarins, at á var nærri fjögr hundrat vætta spik. Tók hann aptr til ráðsmanns Skúla prest Íngason, sem verit hafði um daga Jörundar biskups. Til allra ráða, bæði heima ok at útbúum, skipaði hann roskna menn, ok lýsti, at hann vildi allan þann setníng ok skipan hafa, sem Jörundr biskup hafði; sagðist hann ekki vilja til hlutast dagligra ráða, utan kjallara ok fatabúrs ok stjórn kennimanna; en þat offr, sem ga[f]st í vaðmálum, þat gaf hann fátækum mönnum út allt. Maríumessu hina fyrri prèdikaði hann ok gjörði sæmiliga veizlu, ok þótti þá þegar staðrinn gleðjast í tilkvomu slíks höfðíngja. Eptir Maríumessu reið *electus* til Möðruvalla, ok vóru þar þá öngvir bræðr, hafði Auðunn biskup skipat þeim burt á prestavistir, var bróðir Þorgeirr í Lögmannshlíð, en bróðir Þórðr á

Víðivöllum fyrir þíngapresta, en bróðir Þorbjörn ok Brandr fóru heim til Hóla, ok önduðust þar báðir; tók Hólastaðr undir sik alla ávöxtu af gózi klaustrsins, vóru þar ij prestar með ráðsmanni ok ij djáknar, vildi herra *electus* þar önga skipan á gjöra fyrr en hann hitti erkibiskup. Þaðan fór hann til Múnka-Þverár, ok var þar formannslaust, þvíat Þórir ábóti var þá í Noregi; skipaði *electus* bróður Berg Sokkason yfir Þverárklaustr *priorem*. Þaðan reið hann norðr til Grenjaðarstaða, hèlt þá sira Jón Koðransson staðinn af sira Þorsteini *officiali*. Þaðan reið hann heim til Hóla, ok var heima um vetrinn; skipaði hann Ólaf djákn Hjaltason skólameistara heima á staðnum, ok fèkk klerka til. Þegar tók hann til at reikna um framferði manna í biskupsdæminu, svo lærðra sem leikmanna, áminnandi þá fagrliga af lètta sínum röngum siðum, en öngar hinar stærri framferðir hafði hann þá um sinn.

Electus visiteraði vest[rsveitir].

Þat er sagt, at kirkjan í Hvammi í Vatnsdal átti ij hluti í heimalandinu, en Finnbjörn bóndi Sigurðarson átti þriðjúnginn; þótti *electo* kirkjan lítt vera haldin af Finnbirni, þvíat hann fór með alla jörðina; vildi *electus* skipa presti nokkrum kirkjuhlutann, en Finnbjörn vildi ei sleppa; síðan setti *electus* honum áminníngar til laust at láta, ok sagðist mundu fram fara móti honum ef hann hèldi, en bauð at kaupa at honum hans hlut, ok þat varð með góðra manna tillögum, at Finnbjörn seldi honum fyrir sextige hundrut þriðjúnginn, en hann veitti Egli syni hans staðinn í Grímstúngum, ok fóru þeir þangat búnaði, en frú Guðrúnu ok frú Þuríði lèði hann Hvamm, þar til hann kæmi af Noregi; visiteraði hann vestrsveitir um vorit, ok var þá mjök hörð veðrátta ok fjárfellir; var *electus* á Breiðabólstað í Vestrhópi hjá Þorsteini skarðsteini. At Jónsmessu Hólabiskups kom enn góðr bati á veðráttu. [39]. Guðmundr ábóti á Þíngeyrum talaði við hann um biskupstíunda málit, en *electus* sagðist þar ei mundu fulla skipan á gjöra fyrr en hann væri vígðr biskup, ok bauð at þeir tæki þar menn til af sinni hálfu, en hann af kirkjunnar hálfu at Hólum, ok staddist þetta með þeim; tók hann Hólakirkju vegna til gjörðar sira Jón Koðransson, en ábóti ok bræðr tóku lanz-Orm (!), var hann prófastr í Vestfjörðum, ok hèlt staðinn í Holti í Önundarfirði; skyldi þeirra gjörð standa þar

til sem erkibiskupinn gjörði nokkra skipan á; kvómu þeir til þíngeyra þá er *electus* var þar, ok var þat þeirra gjörð, at klaustrið at þíngeyrum skildi halda Hjaltabakka, sem Jörundr biskup hafði lagt til klaustrsins, en Auðunn biskup hafði tekit af þeim ok veitt Jóngeiri presti; skildu þeir með þessu, ok þótti bræðrum tillagit lítið.

Um vorit var tekit *electo* far með Klemett bónda Atlasyni í Krafsinum, ok þeim mönnum, sem fara skildu með honum, en þat var Egill ok sira Stefan, Aðalbrandr djákn Magnússon ok Eirekr rauðr ok skipssveinar; sat *electus* á Möðruvöllum um sumarit, þar til hann fór í skip. Fám dögum áðr þeir lètu út kvómu þrjú skip á Gáseyri, öll af Noregi, ok á einn dag, ok eigi lengra í millum en máltíðarstund, var þar Hallkell bóndi á Voglundsbollanum, Sigvaldi á Ólptinni; þriðja skip var Glóðin, ok var þar sira Snjólfr Sumarliðason, vildi hann öngva lotníng gjöra *electo*, töluðust þeir fátt ok stirt við, ok at skilnaði þeirra spurði *electus*: „viltu nokkut minnast við mik?" — Hann svaraði: öngvan Júðaskoss vil ek kyssa þik", ok svo skildu þeir með öngri blíðu. [40]. Lètu þeir *electus* í haf *in festo Bertine*(!) *abbatis*; höfðu þeir fyrst góðan byr austr í haf fyrir Langanes; höfðu þeir suðrræna vinda ok storma mikla, ok bar þá skjótt úr hafinu, ok tóku Hálogaland norðr við Brunney; sigldu þeir upp á sker, svo at þegar gekk undan kjölrinn, ok hljóp farmrinn allr niðr í gegnum skipit; fór herra *electus* í skip, ok konur, ok hit ófærra fólkit, en sumir fóru með viðum til lands. Sira Egill fór með siglutrènu til lands; komst fólk allt til lands, utan kona ein, er þórdís blómakinn hèt; varð borgit miklum hluta vaðmála, ok svo lýsispott(!), en skreið var þá engi flutt. Fèkk *electus* þar mikit vos. Var hann stuttan tíma, áðr honum var leigðr byrðíngr suðr til þrándheims, fylgdu honum Egill ok Aðalbrandr djákn ok bróðir Árni, son hans, ok skipsveinar nokkurir; en sira Stephan lèt hann eptir vera við skipbrotið ok sumir sveinar, at geyma at gózinu, ok vóru þeir þar um vetrinn; var herra Eilífr erkibiskup í þrándheimi er *electus* kom þar; gekk hann þegar á erkibiskupsgarð, ok at fengnu orlofi gekk hann inn fyrir erkibiskupinn, fallandi fram fyrir hann, biðjandi hann fyrirlátníngar fyrir þá hluti, sem hann hafði í móti honum gjört. Erkibiskupinn stóð upp í móti honum þegar, reisandi hann upp, ok bað hann vera velkominn. „Allt er yðr þat upp gefit,

sem tjást mundi í brèfum, sem vèr sendum yðr; svo hit sama biðjum vær yðr fyrirlátníngar, ef vèr höfum í nokkrum hlutum orðit við yðr offara." Laurentius sagði þat skylt vera; bað hann hann segja sèr, hversu honum hefði reisan gengit; hann segir honum allt sem farit hafði, sagði ok, at hann væri þar kominn peníngalaus; erkibiskupinn harmaði þat, en bauð honum upp á sinn kost ok sveinum hans um vetrinn; herra *electus* þá þat gjarna; var sira Árni vaði þá ráðsmaðr á erkibiskupsgarði, var hann systurson Eilífs erkibiskups; varð hann erkibiskup næstr herra Páli; var hann kærr vin *electi*. Sat Laurentius yfir borð hit næsta erkibiskupi um vetrinn; sira Egill sat á ráðsmanns stól ok aðrir hans menn í tilheyriligum sessum; kjöri Laurentius Stephan Hauksson at þjóna sèr við borð, þvíat hann var íslenzkr ok var hinn mesti meistari á margar listir, gullsmiðs gröptr(!) ok uppköst; lèt Laurentius hann búa Jónsbolla Hólabiskups, hvern er hann hafði til Róms, ok diktað[i] þau vers, sem grafin eru á honum. Marga hluti hafði herra *electus* noterat upp um vandamál þau, er til höfðu komit í Hóla biskupsdæmi, eptir spyrjandi, hvat erkibiskupinum litist hèr um sèr hvert lög um (!), þvíat hann vildi laganna geyma. Sat Laurentius þar um vetrinn vel haldinn, ok hans menn. Um haustið eptir, sem Laurentius siglt hafði um sumarit, kom út Jón biskup Halldórsson ok herra(!) til Skálholts; gjörði hann víg[s]lur af báðum biskupsdæmum; var þá vígðr Páll Þorsteinsson ok Ólafr Hjaltason til presta ok marga aðra [vígði hann] í Hóla biskupsdæmi.

[41]. Nú er frá því at segja, at Eilífr erkibiskup kallar at sèr biskupa, Auðfinn af Björgvin ok Viljálm biskup af Orkneyjum. *In festo Johannis baptiste* vígði hann Laurentium til biskups með öllum þeim heiðr ok sæmd, sem heilög kirkja heldr ok geymir í slíkum hutum, at viðstöndundum fyrrnefndum biskupum. Áðr um vorit, litlu áðr, kom sira Stephan norðan af Hálogalandi með góz Laurentii.

Þegar sem hann var vígðr biskup kær[ð]i bróðir Íngimundr Skúkuson(!) upp á Hólastað, at upp var gengit klaustr at Möðruvöllum í Hörgárdal, burt reknir bræðr allir en biskupinn tekit undir Hólastað alla ávöxtu klaustrsins. Var Íngimundr þá orðinn bróðir at Helgisetri í Niðarósi. Laurentius biskup svaraði svo þessari ákæru, at klaustrið var upp gengit áðr hann varð

*electus*, ok Auðunn biskup hafði þá sök gefit þeim bræðrunum, at þeir mundi hafa óskynsamliga farit með ljós eina nótt, sem þeir kvómu drukknir neðan af Gáseyri, ok ljósit hefði fyrst lagit í refla kirkjunnar, en sumt komit niðr í skrúðakistu, þvíat þar hafði verit mest upprás eldsins, ok mundi af því hafa brunnit klaustrið, ok þóttist hann því eigi skyldr at láta smíða þeim annat klaustr, at þetta hefði af þeirra vangeymslu upp gengit. Þá mælti erkibiskupinn: „viti þèr, at þat eru lög heilagrar kirkju, at þat klaustr, sem í fystu verðr funderat, á at standa um aldr ok æfi síðan, ef engi forföll nema; hafi ok klaustrsins innrentur lagizt til Hóla, þá mun ok Hólabiskup eiga at láta gjöra upp klaustrit; en ef bræðr verða sannprófaðir at sinni vangeymslu, þá sè þeir reknir í harðara klaustr; munu vèr skipa *judices delegatos* út á Íslandi, at dæma um þetta mál vorra vegna." Laurentius segir sèr þat vel líka; gjörðist þar ok ekki meira at í þat sinn.

[42]. Guðmundr ábóti at Þíngeyrum hafði utan skrifat til erkibiskups ok kanúnka um tíundarmálin; las bróðir Árni allan *processum* ok próf Þíngeyraklaustrs fyrir þeim. Erkibiskupinn svarar: „heyra viljum vèr svör Lafranz biskups hèr um, þvíat oss var sagt," segir hann, „at þá er þèr vórut múnkr í því klaustri, at yðr sýndist þat lög, at Þíngeyraklaustr ætti biskupstíundirnar, at því sem hann úngi bróðir, son yðar, hefir sagt oss." Laurentius svaraði: „sannspurt hafi þèr þat, minn herra, at ek sinnta Þíngeyraklaustri sem ek mátti fremst hèr um, eptir gjöf hins heilaga Jóns biskups; en þó at hann væri dýrðligr maðr, þá mátti hann ei lengr gefa en um sína daga, ok gjöra ekki *prejudicium* öðrum biskupum at Hólum eptirkomöndum." Þá segir bróðir Árni úngi son hans: „þat hafi þèr sagt, at haldast ætti gjöfin frá því er tveir biskupar næstu honum samþykktu, en nú hafa því heldr samþykkt ij, at gjöfin hèlzt um daga sjau biskupa, allt þar til sem Jörundr biskup tók undan um daga Vermundar ábóta." Erkibiskupinn þakkaði honum fyrir sín orð, ok mælti: „látið mik þat eiga til at frètta, herra Laurentius, at þèr skiptið vel við klaustrið, ok þat bjóðum vèr yðr." Laurentius biskup mælti: „vili þèr confirmera þat *pactum*, sem vèr Guðmundr ábóti ok bræðr Þíngeyraklaustrs gjörum vor í meðal?" — Erkibiskupinn segist þat gjarna vilja, ok ekki varð þar framar vegr á gjörr. [43]. Þat gjörðist þá til tíðinda, at erkibiskupinn veitti síra Egli Grenjaðarstað, er hann kallaði undir

sik fallit hafa af vanrækt Auðunnar biskups. Laurentius biskup ömbunaði erkibiskupinum [sínar veitíngar] svo honum vel líkaði. Ok sem hann var skipbúinn, tók hann blítt orlof af [erkibiskupinum ok kórsbræðrum(!)], ok þá af honum sæmiligar gjafir; fór herra Laurentius suðr til Björgvinar, ok þaðan til Íslands í skipi Bassa bónda; urðu þeir vel reiðfara, ok tóku land á Eyrum *in festo Bertine*(!), dagstætt sem hann lèt út af Gáseyri hit fyrra sumarit; vóru honum skjótt sýslaðir hestar, ok reið hann norðr um land ok heim til Hóla; urðu honum allir menn fegnir; söng hann fyrstu biskupsmessu á Hólum á allraheilagra messu. [44]. Skjótliga, sem hann var heim kominn, formeraði hann fagrliga siðu, fyrst þat, sem honum sjálfum bar til, ok síðan öllum hans undirgefnum. Svo var hann stöðugr um kirkjuvist, at hann fylgdi öllum tíðum, svo um nætur sem daga, vetr sem sumar, ok engi hlutr bar ok svo nauðsynligr til, at hann lèti þat eigi allt um líða fyrir atstöðu heilagra tíða. Klerka ok djákna, þá sem lesa áttu eðr sýngja í heilagri kirkju, lèt hann þá svo typta, at þeir gjörði sem fagrligast ok bezt. Skólameistara skipaði hann sira Ólaf Hjaltason at kenna *grammaticam*, ok tók hann marga klerka til kennslu, góðra manna sonu, ok svo fátæka klerka, ok lèt menta þá vel; lèt hann jafnan merkiligan skóla halda meðan hann var biskup, kendi bróðir Árni ok mörgum. Jafnan skyldu þeir, sem lesa áttu hátíðardaga, skyldu æ sjá(!) fyrir um kveldit fyrir skólameistara, ok taka hirtíng fyrir þat sem áfátt er. Sira Valþjóf skipaði hann *rectorem cori;* lèt hann ok saman kalla presta, djákna ok klerka fyrir allar stærstu hátíðir, gjörði hann þá *sermonem* fyrir þeim, hversu þeim byrjaði sèr at haga á þeirri hátíð. Öll *summa festa* söng hann fyrir sjálfr ok svo messu, ok prèdikaði svo klerkliga ok góðfúsliga, at þeir sem við stóðu kómust við, ok margir snerust til betranar frá sínum misverkum fyrir hans áminníngar. Sira Valþjófr var hans kapalin. Hinn sami messudjákni þjónaði honum, er hèt Einarr Hafliðason, hvern hann elskaði fremst af sínum þjónustumönnum.

Messuembætti flutti herra Laurentius með svo mikilli viðrkomníngu hjartans ok tára úthellíng, at löngum var meir at heyra til hans grátr ok hixti en orðagrein í lágasöngunum. Öll *signa* gjörði hann merkiliga ok hófsamliga, at hvorki mátti sýnast of seint nè of skjótt. Eptir messuna, svo sem hann

kom í skrúðhús, ávítandi löngum klerka um þat, sem honum þótti vanrækiliga orðit í lestri, söng eðr öðrum hlutum. Hvorki vildi hann láta tripla nè tvísýngja, kallandi þat leikaraskap, vildi hann láta sýngja slèttan söng, sem nóterað var á kórbókum. Þann setníng vildi hann hafa láta á hríngíngum, sem var um daga Jörundar biskups: fara út um nætr á vetrinn nær miðri nótt. Hvern tíma sem hann söng messu skildi taka inn fimm ölmusumenn ok gefa þeim nógan mat í eina máltíð. [45]. Þessir vóru dagligir siðir Laurentii biskups: hann klæddist jafnan um óttusöngs hríngíngar, ok las meðan vorrar frú tíðir, ok svo skyldu þá ok lesa aðrir klerkar í kór; kom hann út jafnan sem samhríngdi, ok söng óttusöng með öðrum klerkum; en sem hann var út súnginn, gekk hann í sitt studium, ok skyldi þá engi inn koma til hans; var hann þar nærri óttusöng[s] stund, ok kom svo jafnan til annarra manna, at hans andlit var vott af tárum. Síðan fór hann í sæng sína, ok hafði þá ljós í skonsi ok las þá enn lengi psaltara; var þat lítil stund er rann á hann lèttr svefnhöfgi, þartil er hríngdi *prim*(!); las hann inni meðan hann klæddist ok þjózt (!) ok hlýddi síðan formessu, gefandi *benedictionem* eptir messuna, ok gekk eptir þat um kirkju hvern dag sem komast mátti; síðan sat hann í *consistorio* sínu, at skipa málum þeim, sem til kunnu at falla, eðr nauðsynja erindi manna at gjöra, þeirra sem til kvómu staðarins. [Þetta] gjörðist þar til sem hríngdi til *tertiam;* fór biskupinn þá út, verandi úti fram yfir *nonam*, gekk síðan til borðs. Presta sína lèt hann sitja upp yfir sitt borð ok merkiliga gesti, ok plagaði þá alla vel með góðan kost ok öl; ok lengstum stærstu hátíðir lèt [hann] settar verða fríðar veizlur, einkanli[ga . . . . . Parta ha]fði hann í mörgum Íslands . . .

. . . . . . . . . . . . . . *[hèr vanta 2 blöð]*

. . . . [53] . . . . færði Laurentio biskupi eitt brèf; var þat stutt ok fá orð haldandi. Næst *salutacione* stóð svo, at „bróðir Íngimundr á Möðruvöllum kom til mjök at oss óvörum, flytjandi, at þèr hèldit ei þat sáttmál, sem vèr allir saman gjörðum í sumar millum yðar ok klaustrsins ok bræðranna, ok því sýnist oss, sem vèr munum verða norðr at koma í sumar, ok leggja endiligan úrskurð á sögð mál". Við þetta brèf varð Laurentius biskup mjök styggr, segjandist ei vænta, at Jón biskup mundi leggja trúnað á þenna flutníng at öllu ópróf-

uðu. Litlu síðarr sendi hann suðr í Skálholt sira Pál þorsteinsson með stórt bréf til Jóns biskups, í hvert hann hafði saman sett *allegaciones juris*, at hann ok þorlákr ábóti höfðu ekki vald til síðar meir yfir at dæma sagt mál, fyrir þat sáttmál, sem þeir höfðu þar áðr um gjört. Ok sem Jón biskup hafði þetta brèf yfir lesit, varð hann mjök reiðr, ok segist einn veg mundu málit dæma sem áðr. Var sira Páll þar nokkurar nætr, ok vildi Jón biskup ekki skrifa til Laurentii biskups, en sagðist fyrir víst norðr mundu koma. Fór Páll norðr, ok segir Laurentio biskupi til svo búins. [54]. Uppá *trinitatis* dag kómu til Hóla ij djáknar, ok einn fylgdarmaðr með þeim, sunnan af Skálholti, var annarr djákninn þórðr, son Guðmundar lögmanns, hafði Laurentius biskup lært hann áðr at þíngeyrum, svo at hann var góðr klerkr; annarr djákni hèt Gregorius. þeir kómu í skrúðhús, sem biskupinn [var] afskrýddr, er hann hafði súngit hámessu; heilsaði þórðr biskupinum, ok segist hafa brèf Jóns biskups at lesa fyrir honum, en biskup segir þat eitt brèf vera mundu, at honum ok Hólakirkju mundi engi bati í um sinn; „viljum vèr ekki, þórðr", segir hann, „at þú lesir nokkurt stefnubrèf fyrir oss hèr á staðnum". Ok sem þórðr ætlaði at byrja upp brèfit, gekk biskup þegar burt af skrúðhúsinu ok allir klerkar með honum. þórðr mælti: „þá sè ek, at þèr vílit nú ekki hlýða boðskap Jóns biskups". „Satt er þat", segir biskup, „at vèr viljum í engu lífga vald þeirra þorláks ábóta í þessum málum". Gekk biskupinn til borðs, ok bauð með sèr djáknunum, ok þat þek[t]ust þeir; sátu þeir þar um daginn ok vóru vel haldnir. Um morgininn eptir formessu fóru þeir til borðs, ok lètu söðla hesta sína, ok um hámessu eptir *offertorium* var þórðr djákni kominn fyrir Maríu-altari, ok byrjaði upp stefnubrèfit. Sat biskup í sæti sínu ok mælti: „fyrirbýð ek þèr, þórðr, at lesa nokkurt brèf, svo ok at gjöra nokkurt rugl í heilagri messu". Við þessi orð hljóp sira Valþjófr úr sæti sínu, ok greip í brèfit með þórði, ok ætlaði þegar at hnykkja af honum, en biskup bað hann eigi þat gjöra, en færit þá þórð út af kirkjunni, at þeir gjöri ekki háreysti í messunni". Hlutu(!) þá at klerkarnir, ok hrundu þeim út úr kirkjunni, ok læstu aptr síðan; tók þórðr þá at lesa brèfit úti í stöplinum, ok negldi þat síðan framan á kirkjuhurðina, fóru síðan til hesta sinna, ok riðu i Skálholt suðr, ok segja Jóni biskupi hvar

komit var, ok báru eigi af vægð söguna; lèt Jón biskup sèr fátt til finnast. En prestar at Hólum sáu brèfit á kirkjuhurðinni, var þat latínubrèf, heiðarliga diktað, þat efni haldanda, at Jón biskup ok Þorlákr ábóti, dómarar skipaðir af Eilífi erkibiskupi, stefna Laurentio biskupi til Möðruvalla um áðrgreind mál, var stefnudagrinn nærri *translacio sancti Benedicte(!)*.

[55]. Nú er frá því at segja, at um sumarit fór Jón biskup ok Þorlákr ábóti, herra Ketill ok margir mikilsháttar menn, norðr um land, berandi með sèr kost ok öl; kómu þeir til Möðruvalla fyrir stefnudaginn; hafði Laurentius biskup þó látið áðr þar sæmiliga fyrir búast; er þat frá honum at segja, at hann kallaði til sín alla hinu fremstu presta síns biskupsdæmis: [Þorsteinn skarðsteinn, Egill(!), Jón Koðransson ok Eirek bolla, ok ætlaði hann at visitera um norðrsveitir, ok sat í Laufási sem at leið stefnudeginum; hafði hann þá ráðagjörð með prestum sínum, hvort hann skyldi koma í stefnudaginn eðr ei, en þat var flestra manna ráð at hann kæmi, þótti ei vita mega, nema þeir dóm[ar]arnir gjörði nokkurn endaligan veg á málunum Hólakirkju til skaða, ef engi væri svaramaðr af hennar hálfu, eðr kallað[i] hann sýna óhlýðni erkibiskupinum; gjörði hann ok svo, fóru þeir yfir fjörð til Möðruvalla; fundust þeir biskuparnir í kirkjugarðinum, ok vildi Laurentius biskup minnast við Jón biskup, en hann veik sèr undan, svo talandi: „er þat satt, at þèr hafit boðit at láta leggja öfliga hönd á djákna mína í Hólakirkju ok reka þá út"? — „kennumst ek þat", segir Laurentius biskup, „at ek fyrirbauð Þórði Guðmundarsyni at gjöra nokkurt rugl í heilagri messu, ok þat var mèr ok viljugt at heyra ekki stefnubrèf af honum lesit þá um sinn". Jón biskup mælti: „svo er mèr flutt, at tveir menn hafi fremst lagit hendr á þá, prestr yðar Valþjófr ok steikari, er Sigurðr sindill(!) heitir, reikna ek þá báða í banni vera, ok þeim viljum vèr ei samneytna(!) fyr en þeir eru leystir; en með því at þèr vilit ei kennast, at þèr hafit þeim þetta boðit, þá mun ek ei fram í móti yðr fara". Þá lögðu til vinir þeirra, at hvorirtveg[gj]u vægði til við aðra; vildi Jón biskup hafa stofuna sèrliga ok hans menn at sitja yfir máltíð í um kveldit, en Laurentius biskup var í annarri stofu með sínum mönnum. Um morgininn eptir koma biskupar báðir í eina stofu, ok allir hinir vildari menn, höfðu Sunnanmenn mikla byrði af kirkjulaga bókum, ok vóru þær

þangat inn bornar; byrjaði Jón biskup sitt mál í fyrstu með Latínu, ok sagði hvat fram hafði áðr farit í Möðruvalla-málum, bjóðandi Laurentio biskupi til ansvara. Laurentius biskup segir á norrænu, ok mælti: „vita menn þat, herra Jón, at þèr talit svo mjúkt Latínu sem yðar móðurtúngu, en þó skilr þat ekki almúgi, ok því tölum svo ljóst at allir megi undirstanda þeir sem hjá eru. Er þat fyrst mín tala, at ek vil halda alla þá sættargjörð, sem vær urðum ásáttir í fyrra sumar; prófist þat ok, at ek hafi í nokkurum atvikum hana rofit, vil ek gjarna um bæta". Jón biskup mælti, at á því vildu þeir ábóti standa, sem regla heilags Augustini býðr, at bræðr hafi ráð fyrir gózi klaustrsins sem innanklaustrs, „því at þat byrjar eigi, at þeir sè ölmosumenn veraldarmanna, sem þjóna guði nátt ok dag; munu vit þar úrskurð á setja, þvíat ef prior sá, sem hèr er, má öngvan mun gjöra í nokkurri huggan hlýðnum bræðrum, heldr en hinum, sem óhlýðnir eru, frændum þeirra til bata eðr í öðrum greinum, ok vísar priorinn þeim til biskups á Hólum, en biskup til ráðsmanns á Möðruvöllum, verðr þá ei biðstundin löng en umbótin óvís? sýnist oss þá hættuvænt, at hinir siðugu bræðr hafi sik út til hinna, sem ósiðugir eru, ef skulu lík laun taka af formanninum; ok þó at Jörundr biskup hafi fagrliga funderat klaustrið, þá stendr þó vel um at bæta þat sem áfátt er". Talaði Jón biskup svo fagrliga hèr um með sinni snild, at þat leizt flestum lög, þeim sem við vóru; [56]. var Jón biskup því harðari sem þeir biskuparnir töluðust lengr við. Beiddist Laurentius biskup þá orlofs út af stefnunni, at hafa ráð um við sína menn, hversu hann skyldi fram fara, ok at því fengnu gekk Laurentius biskup út, ok í annan stað; frètti hann þá at presta sína ok aðra vini, hvat þá væri tiltækiligast upp at taka, en allir viku til sjálfs hans atkvæða. Hann mælti þá: „sè ek hversu at þetta ferr, ef þessir dómarar úrskurða bræðrum hèr öll veraldlig völd ok ráð yfir gózi staðarins, þikkir óvísara at erkibiskupinn ónýti þann úrskurð, en þó at vèr gjörum *pro bono pacis* at þola, at bræðrnir hafi ráð yfir gózi klaustrsins, þá þikir mèr verða mega, at erkibiskupinn taki aptr þá gjörð, ef honum sýnist hún óskynsamlig vera, ok væri þá nokkur von á, at hann vildi at þessi sáttmáli hèldist, sem vèr gjörðum í fyrra sumar"; ok þat staðfestist í hans ráðagjörðum, at tálma með þessum hætti úrskurðinn. Sendi hann nú mann til Jóns biskups á stefnuna, at vita hvort þeir vildi

þenna veg á gjöra, kómu þau svör aptr, at þeir mundi at þessum kosti ganga. Gekk Laurentius biskup nú aptr á stefnuna; vóru þá kallaðir bræðr; spurði þá Jón biskup, at hverri sætt at hann vildi ganga við þá; hann sagðist þann mundu upp taka, sem margir mundu honum virða til lítilmennsku, at játa því, at bræðr hèr á Möðruvöllum hafi ráð yfir veraldligum hlutum, heldr en vèr deilum, ef erkibiskupinn vill þetta samþykkja. Bræðr játa þessu; var þessi gjörð samþykkt með handaböndum ok brèfum; var þorgeiri prior afhent af Laurentio biskupi allt góz staðarins, laust ok fast; ok at þessu gjörvu riðu þeir Jón biskup ok þorlákr ábóti, herra Ketill ok allir Sunnanmenn, suðr um land; skildu biskuparnir með lítilli blíðu; var sá orðrómr á, at Laurentius biskup hefði nú mjök farit höllum fæti fyrir Sunnanmönnum; visiteraði hann um norðrsveitir út til vorrar frú messu; vóru ij skip á Gáseyri búin til hafs.

[57]. At Maríumessu var Laurentius biskup á Grenjaðarstöðum hjá sínum kærum vin sira Egli, ok um morgininn snemma kallaði biskupinn sira Egil til sín, svo til hans talandi: „þat er yðr kunnigt, sem mörgum öðrum, hverr vegr á er fallinn um Möðruvalla-mál, at ek varð at vægja fyrir ofvaldi því sem at gekk, en yðr satt at segja, þá uni ek alilla við, ef svo skal standa, at bræðr á Möðruvöllum skulu með glutri ok heimsku uppeyða því gózi, sem Jörundr biskup gaf burt af Hólakirkju guði til heiðrs, en vort fyrra sáttmál ónýtt ok fyrir ekki haldit. Nú með því, sira Egill, at ek treysti þèr bezt af öllum mínum mönnum, þá hefir ek hugat þèr sendiför til Noregs í sumar með brèfum mínum til erkibiskups, ef hann vildi nokkra leiðrètting gjöra á Möðruvalla-málum." Sira Egill segir: „kennist ek þat, at ek er allra manna skyldastr til, minn herra, at gjöra y[ð]varn vilja í öllum hlutum, en mjök vanfæran kenni ek mik til at fara með þessum erindum, þar sem svo dýrir herrar ok klerkar miklir hafa yfir setið þessum málum ok veg á gjört, ok þèr sjálfir styrkt ok samþykkt með yðru innsigli." Biskup mælti: „vissir þú, at ek gjörði *pro bono pacis* at ek samþykkti hina síðarri gjörð, þvíat ek sá, at óbæriligan skaða fèkk Hólakirkja, ef þeir dómararnir hefði endiligan úrskurð á lagit, at bræðr hèldi gózit, ok þar með af Hólakirkju mikla peninga; en nú býð ek þèr, undir hlýðni þá sem þú ert mèr skyldugr at veita, þvíat þú ert minn lærison, at fara." þá mælti sira Egill: „dýrt er

drottins orð, ok skal ek at vísu fara, minn herra, hvert sem yðr ljúft er." Við þessi hans orð varð biskupinn harla glaðr; var honum þá þegar tekit far, ok sveini hans, á Gáseyri; sendi Laurentius biskup erkibiskupinum góðar gjafir, skrifandi honum allan *processum* ok hvoratveggja sættargjörðina, ok eina *scedulam*, í hverja hann hafði skrifat kirkjunnar lög, at *judices delegati* vóru endaðir sínu valdi eptir hina fyrri sættargjörð. Lètu þeir sira Egill í haf, ok tóku Noreg skamt suðr af Þrándheimi; fór hann þegar á fund erkibiskups ok afhendi honum allan boðskap Laurentii biskups; bauð erkibiskupinn honum at vera á sinn kost um vetrinn, ok sveini hans, þá hann þat gjarna, ok sat hann þar um vetrinn í góðu yfirlæti.

[58]. Nú er frá því at segja, at Jón biskup frèttir at Laurentius biskup hefir sent til Noregs, ok grunar, at hann muni nokkut hræra vilja um Möðruvalla-mál, ok tekr þat ráðs, at hann sendir einn sinn fremsta prest, sira Arngrím Brandsson, til Noregs, ok skrifar til erkibiskups ok Þorlákr ábóti, at hann mundi styrkja þeirra siðari sættargjörð um Möðruvalla-mál. Kom hann á fund erkibiskups um haustið með sagðan boðskap ok sæmiligar gjafir, tók erkibiskupinn því öllu vel, ok bauð honum til sín um vetrinn, ok þat þá hann; sátu þeir sira Egill á ráðsmannsstól, ok vóru um einn disk allir um vetrinn, ok svófu í einu lopti; var svo kært með þeim, sem þeir væri sambornir bræðr; þó hafði sína iðn hvorr þeirra um vetrinn: sira Egill kom sèr sem optast í tal við erkibiskupinn, talandi við hann um Möðruvalla-mál, sýnandi honum þær *allegaciones*, sem Laurentius biskup hafði saman sett, segjandi honum, hversu vel hann hafði hit fyrra sáttmálit haldit, í uppsmíði klaustrsins ok kirkjunnar ok í öllum tilföngum; var þetta allt sýnt með brèfum ok innsiglum hinna beztu manna af Hóla biskupsdæmi. Undirstóð erkibiskupinn skjótt, at sira Egill var hinn dýrasti klerkr, ok trúði vel öllum hans flutníngi. En sira Arngrímr hafði þá iðn dagliga, at hann lærði organssmíð at einum meistara um vetrinn, en aldri ónáðaði hann erkibiskupinn um neinn flutníng á Möðru-valla-málum.

[59]. Nú er frá því at segja, hvat fram fór á Íslandi um vetrinn eptir, er sendiboðar biskupanna vóru burt farnir: bræðr á Möðru-völlum tóku stjórn yfir gózi klaustrsins öll[u], ok fór þat með öngri forsjó fram; hlutaðist til með þeim Uppsala-Hrólfr ok

bændr margir af Eyjafirði; vóru setur miklar ok kostnaðr á staðnum; mislíkaði Laurentio biskupi mjök þessi breytni bræðranna; en þeir kölluðu hann ei öll góz staðarins sèr afhent hafa, en honum þótti þeir nógu mikit varðveita, ei betr en þeir sjá fyrir. Um vetrinn eptir jól reið prior þorgeirr af Möðruvöllum suðr í Skálholt, hann gisti at Reykjum í Skagafirði, þar bjó þá heiðarligr maðr sira þorleifr, er þá var mestr hörpuslagi á Íslandi. Um náttina, sem priorinn var þar, hurfu burt frá honum öll þau brèf, sem hann ætlaði at færa Jóni biskupi, ok bræðr á Möðruvöllum með bóndum af Eyjafirði höfðu skrifat til hans til ásakanar við Laurentium biskup, kendi prior þat sira Birni Ófeigssyni, sem þá hafði prófastsdæmi um Skagafjörð, at hann hefði sent til drengi sína at taka burtu brèfin, ok fært öll saman Laurentio biskupi; kom prior brèfalaust suðr í Skálholt, með þann einn flutníng, sem til eingis efnis kom; tók Jón biskup vel við honum; dvaldist hann þar nokkurar nætr; en við þat sjálft sem hann tók burtfarar orlof, lèt biskup fram bera gilldan kaleik ok hökla tvo, sæmiliga gripi hvorttveggja, svo mælandi: „þessa gripi viljum vèr gefa kirkjunni á Möðruvöllum ok klaustri hins heilaga Augustini til æfinligrar eignar, en mèr til syndalausnar". Mega þessir gripir auðsýnast at sögðu klaustri, Jóni biskupi til heiðrs ok sæmdar. Kom prior af suðrferðinni; mislíkaði Laurentio biskupi, er hann hafði farit orlofslaust í annat biskupsdæmi, kendu bændr umráðum biskups, er burtu vóru tekin brèf þau, sem þeir höfðu skrifat til Jóns biskups með prior þorgeiri, en þat var þó ei satt.

[60]. Um vorit eptir páska reið Laurentius biskup norðr til Möðruvalla, þvíat honum var sagt at þar væri upp eytt bæði kosti ok heyi; en er hann kom þar, var þar fyrir fjöldi bænda. Engi processia var gjör í móti biskupi, en Uppsala-Hrólfr ok hans kumpánar stóðu þar fyrir með vopnum; varð ekki af kveðju bræðra við biskup, gekk hann til kirkju ok þaðan til miklu stofu til máltíðar, sátu bræðr á annan bekk, ok höfðu öllu fríðara kost ok öl en biskup ok hans menn; var biskup þar eina nótt, ok töluðust þeir bræðrnir ekki við; reið biskup þaðan til Múnka-þverár, ok þá þar sæmiliga veizlu af vin sínum Bergi ábóta; gjörði hann þat orð á fyrir alþýðu, at hann mundi ríða vestr aptr Öxnadalsheiði ok koma ekki til Möðruvalla, en hann reið innan tveggja nátta aptr þangat, ok var honum þar

59ᵛ

með öngum blíðsköpum fagnat, en bændr vóru nú burt allir; gekk biskup á kapitula, ok beiddi prior reiknings á öllu gózi staðarins, ok segist ei vildu því fyrir guði svara, at þeir eyddu því lengr upp; en ábóti ok bræðr neituðu þverliga honum nokkut góz sýna eðr reikning gjöra; lèt biskup þá lærða menn taka í burt lykla af þeim nauðgum ok líta á kost ok hey, ok sýndist þeim um hvorttveggja óbyrgt; skipaði hann nú [ráðinn fyrir klaustrið, en bróður Steinþór Sokkason(!), en prior Þorgeir hafði hann með sèr nauðgan. Tók Laurentius biskup enn um sinn undir sitt vald ok Hólakirkju stjórn á öllu gózi klaustrsins á Möðruvöllum, ok reið svo heim til Hóla; töluðu þat margir, at hann þætti nú snart til ráða ok mikit voga, fyrr en hann vissi hvern veg erkibiskupinn hefði gjört á Möðruvalla-mál; en biskup mælti þat fyrir nokkrum sínum vinum, at hann þættist víst vita, at erkibiskupinn mundi þann veg hafa á gjört málunum, sem honum væri viljugastr, sagði sik svo dreymt hafa, ok hann mundi hina fyrri sáttargjörð styrkt hafa.

[61]. Nú er at segja frá sendiboðum biskupanna, þeim sem í Noregi vóru, at um vorit eptir páska gekk sira Egill fyrir erkibiskup ok segir at tímanum liði, ok vildi fá endalykt sinna erinda. Erkibiskupinn segir, at svo skildi vera, at hann skildi verða búinn án dvöl með erindi Laurentii biskups, svo gjör sem hann beiðzt hafði; lèt hann einn þann kórsbróður, sem bezt kunni Latínu at dikta brèfit, en sira Egill skyldi segja honum efni ok undirstöðu málanna. Annan dag eptir sýndu þeir honum brèfit, var þat latínubrèf, heiðarliga diktað; fèkk hann þat at innsigla sínum *notario*, sem hèt Hákon *vulpis*, ok bað hann leynt halda, ok fá innsiglat sira Egli: „viljum vèr hèr um ekki fylgð nè beiðslur hafa af nokkrum manni; segir hèr af [þú] neinum manni, skaltu missa þeirra sæmda, sem vèr höfum þèr hugat;" en hann gjörði þat ei trúligar en svo, at hann sýndi þat þegar einum kórsbróður á garðinum; spurði sá þegar erkibiskupinn, hvort hann hefði endiligan veg á gjört Möðruvalla-málum. Erkibiskupinn spyrr, hverr honum sagði þat, en hann var lengi [tregr] fyrir, ok varð þó at segja um síðir; lèt erkibiskupinn setja Hákon í stokk, ok hafði hann síðan aldri í kærleikum. Hann kallaði nú saman kanúnka alla, ok tjáði þeim alla framferð á Möðruvalla-málum, ok svo þat brèf, sem hann hafði þar um útgefit, at hann styrkti allt hit fyrra sáttmál

í millum Laurentii biskups ok bræðranna, en ónýtti ok vildi fyrir ekki halda hina síðari gjörð, ok þetta samþykktu með honum allir kórsbræðr. Tók sira Egill blítt orlof af erkibiskupi, ok þá af honum stóra silfrskál ok kirkjulaga bók, er Tancredus heitir; fór hann með hinum mesta heiðr af fundi Eilífs erkibiskups, ok svo suðr til Björgvinar, en sira Arngrímr náði öngu viðfalli um erindi Jóns biskups, ok fór svo til Íslands. [62]. Sira Egill kom út á Eyrum um sumarit, ok kom heim til Hóla at Lafranzvöku; varð Laurentius biskup honum harðla feginn, ok sem hann afhendi biskupi brèf erkibiskups, ok segir honum hversu til hafði gengit, þakkaði hann guði fyrir, ok svo honum fyrir trúligan sinn flutníng, hvat erkibiskupinn hafði honum skrifat, hversu dyggiliga sira Egill hafði ræktað hans erindi; ok lèt hann snúa latínubrèfinu út í norrænu, at alþýðan mætti skilja; var þat brèf lesit yfir kór at Hólum, ok á Möðruvöllum fyrir bræðrum, ok víða annarsstaðar, ok fèkk Laurentius biskup hinn mesta heiðr af, hvílíkr endir varð á Möðruvalla-málum; urðu nú öfundarmenn hans mjök niðrsettir; en biskupar báðir, Jón ok Laurentius, munu báðir þótzt hafa rèttu at fylgja í þessum málum, þvíat Jón biskup var hinn framasti höfðíngi, ok vildi fylgja reglulögum hins heilaga Augustini, hver at bjóða, at bræðr sjálfir skyldi hafa völd yfir gózi klaustrs síns, ok því skal hvorngan þeirra biskupanna lasta nè meinka (!) fyrir þessi málalok; varð þó með þeim aldri slíkr kærleikr sem áðr; fannst ok herra Jóni biskupi fátt um, hvern veg erkibiskupinn hafði gjört á Möðruvalla-málum. Tók nú Laurentius biskup algjörliga undir sitt vald klaustrið á Möðruvöllum, ok hèlt bræðr at öllu, sem Jörundr biskup skipaði, þá hann funderaði klaustrið, en brædr (!) þá, sem staðit höfðu með bræðrum í móti biskupi, hafði [hann] fyrir sökum, ok einkanliga Uppsala-Hrólf, ok þar kom um síðir, at biskup forboðaði, ok í því stóð hann þar til Laurentius biskup andaðist.

Sá atburðr gjörðist á dögum hans, at subdjákni einn í Hnjóskadal hljóp úr Hóla biskupsdæmi ok til Austfjarða, ok kom á Valþjófsstaði, ok sagðist vera messudjákn at vígslu, ok Maríumessu hina fyrri bauðst hann at lesa *evangelium;* var honum fengin *stola*; ok svo sem hann ætlaði upp at byrja, sloknuðu ljós öll í kirkjunni, ok urðu aldrei kveikt meðan hann las, hverir sem til fóru, ok var æ sem hvass vindr kæmi at þeim; undruðu

þeir þetta mjök, sem við vóru. Því líkt varð í öðrum stað, er hann bar sik til at lesa *evangelium*, at ljós öll sloknuðu; renndu menn nú grunum í, hvat valda mundi; varð nú víst, at hann var ei meir vígðr, en subdjákn; var sagt til þessa Jóni biskupi, ok bauð hann prófasti sínum í Austfjörðum at senda djáknann, þóat nauðgan, norðr til Hóla, ok svo var gjört. Kenndist hann þá, at hann hafði ij tíma lesit *evangelium* opinberliga í messu; sýndist Laurentio biskupi Jón biskup eiga honum skript at setja, er hann braut í hans biskupsdæmi, ok sendi hann suðr í Skálholt, ok tvo menn með honum, at hann hlypist ei burt; skrifaði Jón biskup með honum til Laurentii biskups, at hann fèkk honum vald til at setja djáknanum skrift ok leysa hann; setti hann honum þá skript með annarri, at sex messudjáknar skyldu setja honum á bert bak sitt vandarhögg hverr, svo hart, at blóðvaka yrði af, kallaði hann hafa ófyrirsynju stolizt í þeirra embætti, ok því væri makligt, at þeir gæfi honum þessa plágu. Síðan var hann leystr; segir biskup hann aldri mega þaðan af fram vígjast, utan nema(!) páfans dispenseran. Hèt þessi djákni Árni ok kallaðr síðan ferða-djákni.

Á þessum misserum, sem nú var frá sagt, urðu hryggilig tíðindi, at brann allt trèvirkit af Kristskirkju í Þrándheimi, ok múrinn hrapaði þó víða; klukkurnar fórust, ok margir aðrir góðir gripir. Eilífr erkibiskup skrifaði þenna syrgiliga atburð til biskupanna á Íslandi, var þá beðit um allt landit fyrir Niðaróss-kirkju, ok gafst stórfè. [63]. Á þessu [ári] tók Laurentius biskup til Hóla gullsmið einn, vel hagan, er Eyjólfr hèt, lèt biskup hann smíða kirkjunni texta tvo ok kaleik ok skrín, heiðarliga gripi, ok lukti honum þar fyrir leigu mikla; mega þessir gripir lengi auðsýnast. Um Bótólfsvöku um sumarit kom skip á Gás-eyri af Þrándheimi, þar var í Bergr Jónsson, lestreki Eilífs erkibiskups, kom hann til Hóla, ok færði Laurentio biskupi mítru ok ij buðka með *balsamum*, er erkibiskupinn sendi honum; er sú mítra bezt at Hóla(!). Má af slíku marka, hvílíkan kærleik erkibiskupinn hafði til hans. Bauð hann Bergi þar at sitja um vetrinn, ok þat þá hann; sendi Laurentius biskup með honum erkibiskupinum þrjátigi pakka vöru. Um haustið visiteraði biskup um vestrsveitir, ok var á Kúlu at brúðlaupi Jóns ok Ín[gi]gerðar; vóru þar margir merkiligir menn af öllu landinu; prèdikaði hann þar, ok fannst mörgum vitrum

manni mikit um hans tölu. Þá gjörði þegar hríð ok snjóföll um Michaelsmessu; sagði Laurentius biskup fyrir, at þá mundi verða mikill vetr ok harðr. Kom hann heim til Hóla *in festo reliquiarum*.

Þá gjörðist þat til tíðinda, at andaðist frú Hallbera abbadís at Stað; vóru þá gjör boð Laurentio biskupi. Var þá systir Guðný Helgadóttir kosin til abbadísar at Stað, en vígð ei fyrr en af Egli biskupi, eptirkomandi(!) Laurentii biskups. [64]. Vetr þessi varð mjök harðr, bað biskup Skúla ráðsmann, at leggja af margan fènað, þvíat lítt var heyjat með staðnum; gjörði þó Skúli ekki at orðum biskups hèr um. Kom brundtíð um vetrinn, ok minnti biskup enn á um aflögin, ok var ekki at gjört. Hèlzt hörð veðrátta allt til vors, ok í langaföstu datt niðr fènaðr staðarins unnvörpum af megrð ok sult. Gekk þat jafnan eptir sem Laurentius biskup sagði fyrir. [65]. Um vetrinn eptir jól tók bróðir Árni krankdóm mikinn, ok lá í þeim lengi um vetrinn; hafði biskupinn, faðir hans, marga skapraun af hans framferði, því sem mjök var í móti klaustramanna siðum; hafði [hann] svo harða verki, at hann hèlt varla vitinu; hèt faðir hans fyrir honum, ok batnaði honum með guðs vilja. Einn tíma, sem honum lètti heldr, talaði biskup fyrir honum hart, áminnandi hann at iðrast sinna vondra ferða, ok bað hann því heita guði, ok fara í klaustr sitt at Þíngeyrum þegar hann misti hans við, ok sagðist þá mundu biðja fyrir honum til guðs, at honum batnaði, „þvíat í klaustrinu máttu mikinn þrifnað fremja", segir hann, „í læríng þinni; en ef þú ferr til Noregs, ok leggst í ofdrykkju, dugir þèr aldri dagr, ok nýtr þá heilög kirkja ekki þinnar mentanar". En bróðir játtaði því gjarna, sem faðir hans lagði til, ok komst mjök við, en miðr en skyldi efndi hann sín heit, ok gekk hans hagr sem faðir hans gat til. [66]. Náttina fyrir *annunciacionem beate Marie virginis*, sem Laurentius biskup hafði út ætlað til óttusöngs, sem hríngdi, kenndi hann sèr krankdóms, segjandi Einari djákna Hafliðasyni, sem honum þjónaði, at hann mundi ekki út fara, ok bað hann sýngja í kór um náttina, þvíat sjúkir vóru nokkurir af klerkum. Sjúkleiki þessi, sem biskupinn tók, fór vaxandi dag frá degi, svo at hann neytti nær eingis matar, ok dró mjök mætti hans, en þó gekk hann út til messu dagliga með stuðníngu Einars djákna. Var Maríumessa þá á mánudaginn í efstu viku. Þurfastaði

biskupinn alla langaföstuna með sínum krankleika. Á páskadaginn sat biskup í sæti sínu um tíðir, ok lèt segja sèr messu í skrúðhúsi, ok gefa sèr þar *corpus domini*. Sat hann við borð hjá prestum sínum um daginn, en honum þýngdi við kveldit, ok sem allir menn fóru til svefns, reikaði biskup inni um timbrstofu, ok lagðist niðr í pallinn meðan hann sendi Einar djákna út, at vita hvar stjarna væri komin. En er hann kom inn aptr, mælti biskup: „dreymt hefir mik meðan þú vart úti: ek þóttist liggja hèr í pallinum, ok halda upp í hinni hægri hendi heilags manns beini . . . . . . .

---

# REGISTR YFIR MANNANÖFN.

# REGISTR YFIR STAÐA OG LANDA NÖFN.

# LEIÐRETTÍNGAR OG PRENTVILLUR.

---

Bls. $12^{18}$: Surts Ásbjarnarsonar *l.* Surts Þorsteinssonar Ásbjarnarsonar (sbr. Landn.). — $16^{7}$: Tjörfi *l.* noren = norrænn berserkr. — 21 athgr. 1: „Jokurssunar" kynni að vera ritvilla fyrir „Jóþurssunar". — $31^{6}$: Þórðr Egilsson, *l.* Þórðr Gilsson (sbr. Landn. Viðb. 1843, bls. 329). — $32^{1}$: Þórðr ok Páll, *l.* Snorri ok Páll (sbr. Sturlúngu og Rafnssögu). — $32^{3}$: Ornýjar *l.* Örnu (Arna var enn konunafn á 18. öld, sbr. Þórarna). — $59^{21}$: en ek hefi, kynni vera rèttara að lesa: er ek hefi. — $60^{3}$. þar *l.* þat. — $77^{22}$: skarbendingr *l.* skarmendingr (sbr. Laur. s. kap. 32). — 79 athgr. 1: 1196 *l.* 1197. — 98 athgr. 1: „þannig *B*" *l.* „þannig leiðr.". — 101 athgr. 1: 1. Juli *l.* 2. Juli. — $105^{32}$: hann græddi andarsár, *l.* hann harmaði ógrædd andarsár (svo hefir *C*). — $108^{9}$: brast *l.* brást (sbr. bls. $394^{5}$). — $108^{11}$: „úvandlátr", betra er „uvandblætr" (sbr. bls. 394). — $123^{4}$: Þorvarðr *l.* Þorvaldr. — $135^{15}$: „hvergi", en kynni að vera rèttara „hvárgi" (= alstaðar); l. 18 „nokkut vín" þar hefir Nr. 384: „mikit vín". — 143 athgr. 3: torogætir svá *l.* torogætir 'ro. — $167^{18}$: Hámunda *l.* Hamundi. — 169 athgr. 1: fyr *l.* síðar. — $241^{2}$: prèdkiandi *l.* prèdikandi. — $282^{16}$: Halldórr *l.* Hallbjörn (sbr. athgr. 2 og Sturl.). — $365^{24}$: bisknp *l.* biskup. — $427^{26}$: rê[n]íngjasveit *l.* rêíngjasveit (sbr. bls. $517^{33}$). — $452^{9}$: „við vóru staddir af sjálfrar hennar orðum"; rèttara mun: „við v. st. ok af sjálfrar hennar orðum". — 546 athgr. 5: „bls. 501 athgr. 1" *l.* „bls. 515 athgr. 2". — 570 athgr. í 3. visu: særar sundhyrs, *l.* særir sundhyrs. — $584^{10}$: Þorkell Íngjaldsson *l.* Þorkell Ketilsson Íngjaldssonar (sbr. bls. 550 og Sturlúngu). — $593^{19}$ ölbærð *l.* ölværð (sbr. Jómsvík.s. í Fornm.ss. XI. bls. 27 og 52). — $690^{32}$: *primarius*, *l.* *poenitentiarius*. — $702^{23}$: Sigurðr [á] Seltjörn, *l.* Sigurðr seltjörn. — $833^{28}$: Katli Þorkelssyni *l.* Katli Þorlákssyni. — $878^{3}$: Þórð ábóta *l.* Þórð (!) ábóta (á að vera: „Þóri ábóta").

---